# NORÐRI,

## HÁLFSMÁNAÐAR-RIT

HANDA

## ÍSLENDINGUM,

### 1856.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður

**Sveinn Skúlason.**





**AKUREYRI.**

Prentaður í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins, af H. Helgasyni.

1856.

# YFIRLIT EFNISINS.

# NORÐRI.

## 1856.

**4. ár. Janúar. 1—2.**

**Af** því jeg ætlaði að skrifa prentsmiðjunefudinni á Akureyri til með póstskipsferðinni frá Englandi næstliðinn vetur og senda henni upphaf til Norðra, eptir að hann kom í mína eigu, og stutt ávarp til Íslendinga, hefur hún látið dragast prentun blaðsins, er koma átti út í janúarmánuði, þangað til jeg hjeldi þetta loforð mitt. En sökum þess, að jeg var sjúkur fram undir mánuð um það leyti, gat jeg ekki haldið þetta, og verð því að biðja áskrifendur Norðra að áfella mig ekki fyrir þessa brigðmælgi. **S. Skúlason.**

---

Elskuðu landar!

Aldregi hefur hugur minn verið jafnglaður og ljettur, og nú, er jeg kem aptur til yðar, ástkæru landsmenn, eptir næstum 7 ára burtuveru, til þess að taka þátt í meðlæti yðar og mótlæti, gleði yðar og hryggð. Þegar jeg var ungur, var jeg — eins og jeg er enn — fjelítill norðlenzkur bóndason, sem langaði til að nema eitthvað þarft og einkum að vera til mennta settur, eins og það er nú kallað. Þegar að góðir menn og að nokkru leyti eigin vinna — jeg var kaupamaður á sumrum —, hafði styrkt mig til skólaveru, langaði mig ákaft til að sigla — því jeg var ekki lagaður til prestsskapar —, bæði til að kynna mjer háttu útlendra þjóða og til að nema hitt og þetta, er þar gefst betri kostur á en hjer í landinu sjálfu. Jeg ætlaði nú fyrst að verða embættismaður, eins og aðrir góðir menn; en þó að margir yrðu til að veita mjer mikinn styrk, sem guð þakki þeim, þá sannaðist þó á mjer það sem kveðið er: „seðlana mjer sýgur frá sjerhvert lítilræði“, svo að jeg varð að verja ærnum tíma frá námi mínu til að afla mjer fjár, til sómasamlegs viðurværis; en slíkt veldur því opt, að embættislesturinn fer út um þúfur, einkum fyrir þeim, sem eru eins skapi farnir og jeg, að þá langar til að hnýsast í margt, sem ekki snertir embættislesturinn, þó fróðlegt kunni að þykja að öðru leyti, og sem maðurinn þarf að vita, ef það á að vera meira enn nafnið tómt, að hann er kallaður menntaður maður. Þetta virðist mjer nóg um sjálfan mig að sinni, og ætla því að hverfa til að tala um annað:

1. **Tímaritin**: Því lengra sem hver þjóð er komin í heiminum í menntum og kunnáttu, þess meira gildi hefur almenningsálitið, og enginn hlutur í háttum þjóðanna sýnir betur, hve langt þær eru komnar á veg. Þetta almenningsálit er ekki sama og almannarómur eða alþýðuhjal, það er hugsun þjóðarinnar hrein og skír, eins og velbræddur málmur, skær og soralaus. Hver þjóð er að sínu leyti eins og hver einstakur maður. Hún hefur sjerstaka eiginlegleika, venjur, lífernisháttu og mörg önnur einkenni; þar við bætist, að ástand þjóðanna er ýmislegt, bæði stjórnarfyrirkomulagið hjá þeim sjálfum og samband þeirra við aðrar þjóðir. Þegar þjóðin lítur nú á eigið ásigkomulag sitt, þá verður að vera, að álit hvers einstaks manns um þjóðarmálefnin verði mismunandi, að sínum augum líti hver á silfrið, og þá fæst ekki hið sann-nefnda almenningsálit. Tímaritin eiga að ráða bætur á þessu; þau eiga að taka hinar ýmsu skoðanir manna, þær helzt, sem skynsamastar eru, vinsa úr þeim, kasta því ónýta, og sýna hvað ónýtt það er, en halda hinu; þau eiga að draga saman kjarnann úr hugsun og skoðun beztu mannanna, jafna mismuninn, og mynda á hverjum einstökum tíma hið sanna almenningsálit; þau eiga að vera hreinsunareldur almenningsálitsins.

Blöðin eru ýmisleg, eins og þau tíðkast, eptir því hvaða mark og mið þau setja sjer. Fyrst eru meinleysisblöðin, sem lofa allt, sem þau hafa að umtalsefni, en sneiða hjá öllu, er þau ekki geta fallizt á, og láta það liggja í þagnargildi. Þá eru skammablöðin, er taka satt og logið um alla og einstaka, og það hvað helzt, er annaðhvort væri

betur ósagt, þó satt kunni að vera, eða sem betur væri sagt á annan hátt. Hin þriðja tegund liggur þar á milli, og sá flokkurinn er stærstur að tölunni; það eru þau blöð, er fylgja fram ýmislegri skoðun einstakra manna eða einstakra flokka, er vilja koma fram einhverri vissri skoðun bæði á stjórnarmálefnum og öðrum almenningsmálum, og eru þau að því skapi betri, sem þau nálgast meir hinu sanna almenningsáliti, það er að skilja: því betri eru þess konar blöð, því skynsamari sem skoðun þess flokks er, sem þau fylgja.

Það er hægt að sjá, að engin af þessum blaðategundum getur náð hinum rjetta tilgangi, sem blöðin eiga að hafa, að ekkert af þeim getur verið leiðtogi almenningsálitsins, er bendi því á hina rjettustu og farsælustu stefnu. Tveir fyrstu flokkarnir spilla heldur enn bæta, og hinn þriðji flokkurinn getur sjaldan verið annað en hlutdrægur, þar eð hann lítur mest á hag einstakra manna eða einstakra flokka í þjóðfjelaginu, og það jafnvel þó hagur þeirra komi í bága við það, sem bezt er fyrir land og lýð.

Menn geta nú nokkurn veginn ráðið af þessu, hvernig mjer virðist að tímaritin eigi að vera. Þau eiga að hafa að umtalsefni öll aðalatriði, er hreifa sjer hjá þjóðinni, þau eiga að vera hjarta þjóðarandans, miðpunkturinn, þar sem allar hugsanir þjóðarinnar streyma að, eins og æðarnar í líkamanum streyma að hjartanu, og veita síðan nýjum straumi, lífgandi og nærandi, um limu þjóðlíkamans, er auki honum nýtt fjör og krapta. Auk þessa eiga tímaritin að ver skuggsjá tímans, þau eiga að leitast við í stuttu máli að fræða þjóðina, ekki einungis um ástand hennar sjálfrar, heldur einnig um allt hið helzta, er við ber í öðrum löndum, og einkum velja það í fari annara þjóða, er henni getur orðið sem lærdómsríkast.

2. **Blaðstjórarnir:** Það, sem talið er hjer að framan um það, hvernig tímaritin eigi að vera, sýnir og að nokkru leyti, hvað menn eiga og mega heimta af ritstjórunum. Þeir þurfa að gjöra sjer glögga grein fyrir því, hvað þjóðinni er þarfast og hentast, og benda þannig almenningsálitinu á nýja og rjetta stefnu, skýra þjóðmálefnin, en standa þar fastir á móti, er þeim virðist, að eitthvað það komi í ljós, er hnekki framförum þjóðarinnar. Þeir eiga um fram allt að elska sannleikann, og bera honum hiklaust vitni, hver sem í hlut á, án þess að fara í nokkurt manngreinarálit. Það leiðir beinlínis af tilgangi blaðanna, að blaðstjórinn verður að hlutast til um öll þau málefni, er þjóðina varða miklu, og vera umvöndunarsamur bæði við þjóðina sjálfa og við þá, er hafa stjórn málefna hennar á hendi; en einkum verður hann að vera vandlætingasamur við sjálfan sig, svo að hann neyti ekki stöðu sinnar til að sveigja almenningsálitið að þeim skoðunum, er ekki eru rjettar, og þar er ábyrgðarhluti hans mikill; því eins og hershöfðinginn er skyldur að kynna sjer vel alla afstöðu á orustuvellinum, svo öll niðurskipun hans verði rjett, og honum megi ekkert á óvart koma, er geti dregið sigurinn úr höndum hans, og eins og hann á að hafa ábyrgð á því, að hann missi einskis af liði sínu fyrir handvömm; eins á blaðamaðurinn að hafa ábyrgð á því, að lesendur hans megi taka það trúanlegt og fara eptir því, er hann segir og ritar, og að það leiði þá ekki í villu og svima, eða gefi þeim rangar eða óljósar hugmyndir um þau málefni; er hann hefur að umtalsefni.

3. **Þjóðin eða lesendurnir:** Til þess, að menn geti heimtað það, sem nú hefur verið talið, af tímaritunum, hefur þjóðin einnig ýmissra skyldna að gæta við blöðin og forstöðumenn þeirra. Það er eins um tímaritin eins og hvað annað, er miðar til að vekja áhuga manna á andlegum eða líkamlegum efnum, að hið fyrsta, sem útheimtist til þess, að kenningin verði að gagni, er að menn daufheyrist ekki við henni. Mennirnir eða þjóðin verður að hafa áhuga á öllu, er lýtur að aðalmálefnum hennar. Það er ekki gagn að því að rita góða bók, ef enginn verður til að lesa hana; söfnuðurinn er ekki að bættari, þó að presturinn haldi góða ræðu, ef tilheyrendurnir annaðhvort dotta á meðan hann er í stólnum, eða veita ræðunni enga eptirtekt; það er ekki gagn að einstakir menn eyði kröptum sínum og vinnu til að fylgja fram rjettindinum þjóðarinnar, ef að þjóðin sjálf skellir við því skollaeyrunum, og vill ekki vakna til að fylgja þessum oddvitum, eða geldur þeim vanþökk fyrir; það er ekki gagn að því fyrir Íslendinga að eiga alþingi, sem einlægt er að knýja á náðardyr stjórnarinnar um að auka rjettindi landsmanna, er hefur þátt í löggjöfinni, svo að nú er ekki þröngvað inn hjer í landið útlendum lögum, ef að þjóðin telur eptir alþingisskostnaðinn, eða missir traust á alþingi af því, að það getur ekki komið öllu til leiðar. Eins og þjóðin verður að styrkja allt það, er nú var talið, með áhuga sínum, ef að það á að bera nokkurn ávöxt, eins verður hún að styrkja tímaritin, og þau geta

annars ekki verið til. Hið fyrsta, er hún verður að gjöra, er að kaupa tímaritið, því annars getur hún ekki haft gagn af því, sem í því stendur, og það er ekki nóg að fáir kaupi það, t. a. m. einn eða tveir í hverri sýslu, og láti það svo ganga á húsgang bæja á milli eins og hreppakerlingu, því hvorki getur þá blaðstjórinn haft neinn afla til að gjöra blaðið gott og nýtilegt, því til þess þarf töluverðan kostnað, og svo lesa margir, þegar svo gengur, blaðið svo fljótt, að það, sem gott er í blaðinu, verður þá eins og vindur, sem um eyrun þýtur, og efnið nær engum rótum hjá lesendunum. Hið annað atriði sem tímaritum er áríðandi, er það, að sem flestir styrki þau með góðum ritgjörðum, og með því að skrifa ritstjórunum það sem ber til titla og tíðinda og markvert mætti þykja, því hvað góður sem ritstjórinn er, getur hann þó ekki ritað um öll þau málefni, sem áríðandi eru, og um mörg þau málefni, er hann þó kynni að geta skrifað um, sannast máltækið, að betur sjá augu en auga.

4. **Jeg og Norðri:** það, sem jeg hefi nú sagt hjer að framan, bendir til, hvernig blöðin eða tímaritin eigi að vera, en hætt er nú við, að öðru máli verði að gegna með okkur Norðra, en að það náist allt sem skyldi. Norðri er enn of lítill og hefur of fáa kaupendur — og jeg hefi heyrt sagt, að þeir hafi fækkað tölavert nú í seinni tíð — til þess, að hann hafi krapta til að vera sjer úti um nógar og góðar ritgjörðir eður geti náð fyrstu og vissustu frjettum, er hvorttveggja er svo áríðandi, og líka stendur hann ekki vel að vígi, því hjer nyrðra eru allar ferðir fáar og óvissar, svo að öllu þyrfti að haga öðruvísi en verið hefur, ef að útsending blaðsins ætti að vera í lagi. En þó að mörg og mikil vandkvæði sjeu nú á þessu, þá eru þau þó enn meiri frá minni hálfu. Eptir langa burtuveru kem jeg nú aptur til ættjarðar minnar, og þó að jeg hafi varið miklu af tíma mínum erlendis til að kynna mjer fornsögu hennar, þá er jeg þó að miklu leyti ókunnugur hugsun þjóðar minnar nú, og jeg gjöri mjer í hugarlund, að landar mínir hafi í mörgu tekið framförum, sem jeg nú ekki þekki, og, ef til vill, er margur ósiður kominn upp eða hefur farið í vöxt, er var minni á mínum ungdómsárum. Auk þessa þekki jeg ekki nógu vel, hvað gjörzt hefur hjer í seinni tíð og er þaraðauki viðvæningur að rita, svo að mjer fellur það erfitt, og líka ókunnugur að minnsta kosti hjer um sveitir, svo að mjer er torvelt að ná í það, sem frjettnæmt kynni að þykja, nema að góðir menn styrki mig til þess með brjefum og orðsendingum. Jeg er líka ungur að reynslu, þó jeg sje það ekki að árum, og jeg veit því bæði, að jeg þarf umburðarlyndis við, og að orð mín geta ekki haft þau áhrif, sem þau hafa, þegar sá maður ritar, sem hefur átt hlutteknúngu í hugsunum og störfum þjóðarinnar, sem hefur lifað lífi hennar með henni. þessa ókosti hef jeg og lesendur mínir við að stríða, og jeg og þeir þurfum að vera vel samtaka, ef að góður vilji okkar á að geta unnið sigur á þessum mótspyrnum.

það er því bæn mín og áskorun til allra menntaðra manna, er vilja styrkja prentsmiðjuna hjer nyrðra og blað það, er jeg á að halda út, að þeir styrki fyrirtæki vort með ritgjörðum og frjettabrjefum úr öllum landsfjórðungum, og einkum skora jeg á yður, skólabræður mínir og aðrir vinir og vandamenn, að þjer styðjið mál mitt og prentsmiðjunnar, og sjeuð flutningsmenn þess við þá, er ekki þekkja neitt til mín, og að þjer berið mjer eins söguna eins og þjer hafið reynt mig til. þjer hafið sjeð, landar góðir, hvernig jeg álít að tímaritin eigi að vera, og jeg skal gjöra hvað í mínu valdi stendur til þess að Norðri verði nýtilegur, þó að mjer kunni að takast það ólimlega fyrst um sinn.

---

## Helztu tilraunir við refaveiðar.

Hver sem veiða vill melrakka á vetrardag, má ekki byrja það fyr en um miðjan vetur, en þegar byrjað er, þarf að halda því stöðugt áfram og láta enga nótt hjá líða, að ekki sje egnt, verði því við komið, enda þó dýrin taki ekki agnið hið fyrsta sinn, og sjeu laus við, en sjáist för þeirra þar í grennd, má ekki hætta við svo búið, á meðan dýrin dragast að agninu, því misheppnist að vinna þau, leggjast þau á fje manna, þar sem egnt hefur verið fyrir þau. þegar byrjað er að egna, er bezt að draga grútarpoka eða hrosslim frá skothúsinu til fjalls upp, og kasta smáum hrossakjötsbitum á slóðina. Bezt er að byrja útgjöfina fjærri þeim stað, sem dýrin eiga að vinnast á og færa hana smám saman nær. Betra er að bera út á tveim eða þrem stöðum með nokkru millibili; því fælist dýrið vegna boga eður einhvers annars einn staðinn, er það óhrætt við hinn. Agnbitarnir sjeu smáir, ekki stærri en hálf

sauðarvala. Þegar skotmaðurinn fer til skothúss-ins til að vinna dýrin, skulu tveir ganga samsíða með eitthvað ofan yfir sjer, svo það líti út eins og einn sje, og svo annar strax til baka með fat yfir sjer. Bezt er fyrir þá, sem búa á dalajörð-um að bera út fyri dýr, eður frá bæjum þeim, sem eru nokkuð af alfara vegi; því varast verð-ur umgang hunda, sem mögulegt er. — Varast verður að drepa það dýr, sem fyrst tekur agnið, meðan ekki taka fleiri; því sje svo gjört, er lík-legast að taki ekki framar, og úti sje með veið-ina; því hin styggri dýr tælast um síðir til að grípa agnið, þegar þau sjá, að eitt tekur hiklaust. — Ef einhver vill veiða gren-dýr, er bezt að skot-maðurinn sje með í leitinni, því opt ganga dýrin næst þá fyrst að koma. Þegar greni er fundið, er bezt að ganga hljótt að þeim grenismunna, sem dýrin hafa mestan umgang haft um, og láta til sín heyra líkt sem dýr sje, við það vill opt svo til, að yrðlingar flana út í grenismunnann móti manni, svo framt að ferða færir sjeu; má þá grípa einn eður fleiri, og með þeim má opt tæla dýrin í nánd við grenið; en heyrist ekki til yrðlinganna, er annaðhvort að þeir hafa ekki vit á að gegna, eður grenlægjan liggur inni, skal maður þá fyrir fram ganga lítið frá greninu og nema þar staðar, því liggi maður fast við grenið, þorir dýrið ekki út, heldur liggur inni má ske svo dægrum skiptir, þar til það loks neyðist til að skjótast út rjett við hlið manna, er þá líklegast að búið sje með vinning á því í það skipti. — Vilji svo til, þá gren er fundið, að annað dýrið sje styggara, skal maður reyna fyr til að ná því; því sje gæfa dýrið fyr drepið, verður erfiðara að vinna hitt; því á með-an stygga dýrið sjer hitt rölta í nánd við grenið, mun það tæplega hverfa í burtu úr augsýn. Opt vill svo til, þá styggt dýr kemur nálægt greni, og verður mannvart, að það hleypur hamslaust í burt aptur, má þá gjöra tilraun og veita því eptirför góðan kipp frá greninu, og eitthvert sinn, þá dýrið lítur til baka, sem þeim er gjarnt til, skal maður snúa aptur sömu leið, þar til maður hverfur úr aug-sýn dýrsins fyri hól eða hæð; þá skal maður fara krók til annarar hverrar hliðar og leggjast þar í leyni, því refurinn er forvitinn, einkanlega ung dýr, og þegar það sjer mann ekki lengur, snýr það apt-ur við og langar mjög til að vita, hvað orðið hafi af manni, og koma þess vegna einmitt sömu leið til baka, og með þessu móti má opt veiða þau; en vinn-ist ekki á dýrinu með þessu móti, er að leita þess í þá átt, er það hjelt síðast, því þar mun það leggjast niður á yztu hæðum, er sjá má af heim að greni þess; en gæta má að því, að ganga vel fyri, svo að maður sje viss um að dýrið sje heldur fyrir neðan sig en ofan. Líka hafa nokkrar tóur þá aðferð að þær hlaupa hringinn í kring um gren sitt, en þó ekki í skotfæri, og er þá að komast í veg fyrir þær, án þess þær viti af, og á svið það, sem þær hafa hlaupið áður um, og liggja þar í leyni. — Gott er, hafi yrðlingur náðst, að binda um annan apturfót hans nokkuð frá gren-inu, við það brýzt hann um og dýrið tælist nær honum.

Nú er að vinna þau dýr, sem hvorki vinn-ast við skothús eður á greni, því tíðum ber svo við, að upp kemur á ýmsum stöðum skaðlegur dýrbítur. Allt of margir skeyta lítið eður ekkert um það, utan þá bezt gjörir að etja á þær hundum, sem opt er ekki annað en stundarfriður, sem menn svo kalla. — Þessi dýr má einnig vinna, og ber stór nauðsyn til þess, því eitt bitdýr, lifi það svo árum skiptir, getur gjört ómetanlegt tjón; þann-ig hefi jeg unnið mörg dýr, sem ekki hafa látið sjer nægja minna en eina kind með dægri og má ske rífa fleiri. — Optar kemur þetta fyrir til dala en til sveita. — Það er venja að melrakkar bíta sauðfje einkum roskið meira á láglendi og um svo kölluð grundarhöfuð heldur enn til fjalla upp, og þar sem bíturinn byrjast, eður um svið það, mun tóa halda upp teknum hætti, sje henni ekki bægt frá því. Þegar slíkt kemur fyrir, er þörf á að ráða sem fljótast bót á því, og má þann veg takast að leita dýranna kvöld og morgna, eður að nóttu til, sje hún björt, en um hæstan dag er það til ónýtis, því þá hafa þær sig til fjalla upp eður dala, en þá að kvöldinu líður gefa þær sig í ljós og slá sjer ofan í byggðina. — Þegar vinna á þessi dýr, skal skotmaðurinn ganga eptir fjallshlíð þeirri beint upp undan þar sem dýrsins er helzt von, nema svo staðar undir steini eða skúta, þar sem líklegast þykir og bezt er til sýnis yfir það svið, sem maður ímyndar sjer að dýrið muni helzt fara. — Sje dalur nálægt er gott að vera við mynni hans og búast um eins og áður er sagt. Ekki skal maður seinna kominn á áður greint svið en um miðaptansbil; því að því tímabili liðnu, er vissara fyrir þann, er gefur sig við slíku, að láta sig ekki syfja. Skeð getur að dýrið sjá-ist ekki á fyrsta eður öðru dægri, en við það má maður ekki upp gefast, nema maður sje viss um

að dýrið sje frá horfið. — Nú gjöri jeg ráð fyrir að heppnast muni fyrirætlunin og dýrið muni sjást, þá er að fara gætilega og vera ekki of veiðibráður, heldur fara hægt þar eptir, sem dýrið fer undan; því sjaldan fara þau mjög hart þá óhrædd eru, heldur fara sífellda króka með nasi ofan í jörðina. Við þessar þeirra viðtafir getur skotmaðurinn, ef laglega er að farið, komizt í skotfæri við dýrið, en varast verður nasir þeirra og eyru, en ekki svo mikið sjón. — Með þessum hætti gætu skyttur komið í veg fyrir tjón það, er opt orsakast af dýrbíti.

Opt hefi jeg gengið í þær vændir um dali og afrjettir og tekið þau dýr, er jeg hefi sjeð, og eitt skipti hefi jeg á sama vori, fyrir og um sumarmál, unnið 15 dýr á hlaupum með áður sögðum hætti. — Hjer um get jeg ekki meira sagt eður upplýst, er öðrum mætti til gagns koma þessu efni viðvíkjandi, en með þessari hjer greindu aðferð hefi jeg unnið hátt á 8. hundrað dýra, og óska jeg að einhver eður nokkrir vildu eður gætu haft líka viðleitni sjer og öðrum til hagsmuna.

**Bjarni Gunnlaugsson.**

---

# SKÝRSLA

## frá jarðabótafjelaginu í Bólstaðarhlíðar- og Svínavatns-hreppum í Húnavatnssýslu árið 1855.

| Tala. | Nöfn og heimili fjelagsmanna. | Sjálfseigendur. | Leiguliðar. | Jarðabóta vinna. Sljettuð tún, ▱ faðmar. | 2. eða 3. plæging og sáð í búðfrum. | Túngarðar, faðmar. | Túngarðar, faðmar. | Flæðigarðar, faðmar, | Vatnsveitinga-skurðir, faðm. | Lofað dagsverk. | Unnin dagsverk. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. | Jón Pálmason, Sólheimum | 1 | „ | 150 | „ | „ | 30 | „ | „ | 6 | 20 |
| 2. | Jón Árnason, Tindum | 1 | „ | „ | „ | „ | „ | „ | „ | „ | „ |
| 3. | Sigurður Guðmundsson, Kárastöðum | „ | 1 | „ | „ | „ | „ | 42 | „ | 6 | 6 |
| 4. | Erlendur hreppst. Pálmason, Tungunesi | 1 | „ | 300 | 600 | „ | 30 | 60 | 160 | 10 | 50 |
| 5. | Jón Halldórsson, Höllustöðum | 1 | „ | „ | „ | „ | „ | „ | 200 | 6 | 8 |
| 6. | Guðmundur, Sgr. Arnljótsson, Guðlaugsstöð. | 1 | „ | „ | 1000 | „ | „ | „ | „ | 6 | 8 |
| 7. | Björn Hannesarson, Rútsstöðum | 1 | „ | 200 | „ | „ | „ | „ | 150 | 6 | 20 |
| 8. | Sveinn þorleifsson, Snæringsstöðum | „ | 1 | „ | „ | „ | „ | „ | 600 | 6 | 10 |
| 9. | Gísli Ólafsson, Ásum | 1 | „ | „ | „ | „ | „ | „ | „ | „ | „ |
| 10. | Hjálmar Loptsson, Æsustöðum | 1 | „ | „ | „ | 20 | „ | 100 | „ | 6 | 18 |
| 11. | Halldór Gíslason, Ytra-Tungukoti | „ | 1 | „ | „ | „ | „ | 50 | „ | 6 | 6 |
| 12. | Klement Klementsson, Bólstaðarhlíð | 1 | „ | „ | „ | „ | 30 | 20 | „ | 6 | 12 |
| 13. | Guðmundur Gíslason, Bollastöðum | 1 | „ | „ | „ | „ | „ | „ | 100 | 6 | 10 |
| 14. | Jóhannes Guðmundsson, Gunnsteinsstöðum | „ | 1 | „ | 500 | „ | „ | „ | 60 | 6 | 8 |
| 15. | Sjera þorlákur Steffánsson, Auðúlfsstöðum | 1 | „ | 50 | „ | „ | 18 | „ | „ | 6 | 10 |
| 16. | Sgr. Jónas Einarsson, Gili | 1 | „ | 300 | „ | „ | „ | „ | „ | 8 | 16 |
| | Samtals | 12 | 4 | 1000 | 2100 | 20 | 108 | 272 | 1270 | 90 | 202 |

Athugagreinir:

1. þeir 2 fjelagsmenn, sem ekki hafa í þetta sinn unnið að jarðabótum, gátu það ekki gildra orsaka vegna, en eru ekki að síður, samkvæmt fjelagslögunum, taldir fjelagsmenn, þar eð þeir framvegis ætla að vera í fjelaginu.
3. Engir af fjelagsmönnum hafa enn látið sá grasfræi í þá jörð, sem þeir ljetu plægja 1853. Bezti ávöxtur af hafragrasi var eins og í fyrra: 13 hestar af ⅔ úr dagsláttu. — Vatusveitingaskurðirnir, sem flestir eru til að þurrka upp mýrar, eru mjög mismunandi að dýpt og breidd, og þess vegna misjöfn dagsverka talan í tilliti til þeirra, í samanburði við faðmatalið.

**Forstöðumenn fjelagsins.**

þannig er þá sunnu- og helgidaga málefni vort komið, landar góðir! Tilskipunin er lögleidd hjá oss, og fyrsta tilraun Norðlendinga og hinna 10 alþingismanna á síðasta alþingi, að fá af náð, að drottinsdagur mætti allur helgur heita, samkvæmt boði löggjafans, fjell, sem menn segja, fyrir ofurefli þeirrar hjartans löngunar hinna 11 þingmanna, að glata ekki áliti sínu og virðingu hjá stjórnarherrum Dana, og landsmönnum segja þeir.

Pílatus óttaðist að týna heiðri sínum hjá keisaranum, og dæmdi því gegn eigin sannfæringu og þvoði svo hendur sínar á eptir. Nú hefði hann ekki þurft að standa einn við þvottakerið; þeir 11 þingmenn gáfu atkvæði sín gegn þeim lærdómi, eptir mínum skilningi á honum, er þeir meðkenna og hafa svarð hylli. Og kennimannahöfðingi vor er í broddi fylkingar. Ó! hvað mundi postulinn Páll sagt hafa, ef hann hefði verið risinn úr gröf sinni og verið alþingismaður, og sjeð ypparsta prest guðs kristni á Íslandi í þeim óvinaflokki sannarlegs kristinndóms, er metur meir heiður af mönnum en guði? Jeg get ímyndað mjer, að hann sagt hefði á þessa leið: Hver hefur villt svo hörmulega sjónir fyrir þjer, hverjum kunnug eru í frá barndómi þessi frelsarans orð Math. 5, 17.: „Hver, sem brýtur eitt af þeim boðum lögmálsins, sem minnst sýnist um varða, og hvetur aðra til þess, hann mun minnstur kallast í himnaríki", að þú þó styður með alefli að því, að yfirtroðsla 3. boðorðs lögmálsins verði lögleidd? Og jeg get ímyndað mjer, að margur sannkristinn hafi í þögulu brjósti hugsað þannig, en ekki haft djörfung til að bera það spursmál upp fyrir kennimannahöfðingjann, hvernig hann skilji þá lærdóma Nýatestamentisins, sem höndla um helgi sunnudagsins, og sem jeg hygg að sjeu hinir helztu, Math. 5, 17—20. 12, 1—8. Markús 2, 25—28. En vissulega mun það þó leyfilegt að óska þess, að hann auglýsi skilning sinn á þessum lærdómi trúarinnar svo menn sannfærist um það, að hann sem rjetttrúaður styðji að því að rýra 3. boðorð Drottins; og jeg leyfði mjer og að óska þessa, strax þá jeg heyrði og las úrslit sunnu- og helgidagamálsins á alþingi 1853, og ljet honum þá í ljósi minn einfalda skilning á ofan nefndum stöðum N. T. En þar jeg allt hingað til alls ekkert svar hjer upp á fengið hefi, þá stend jeg enn í þeirri, má ske röngu meiningu, að 3. boðorð lögmálsins sje jafnheilagt hinum níu, og að atgjörðir alþingis í þessu máli sjeu ókristilegar, og ekki sízt hinna 11 þingmanna á síðasta alþingi, sem þrátt fyrir vilja þjóðarinnar og hinna 10 þingmanna hrópuðu: burt, burt með seinni hluta sunnudagsins, limlestið sabbatsdag drottins, en gef oss allan bænadag Danakonungs. En þar nú þessir há-upplýstu menn, og einkum ypparsti prestur vor er svona öruggur og staðfastur í sinni meiningu um mál þetta, þá ef jeg farinn að óttast, að jeg kunni má ske að misskilja N. T. lærdóma þessu viðvíkjandi, og þar jeg ekki fengið hefi þaðan upplýsingu á þessu, er jeg vænti hennar, þá kom mjer nú til hugar að leita annarstaðar fyrir mjer, og það er höfuðtilgangur lína þessara, að skora á þá, hvort heldur þeir eru utanlands eður innan, sem eru þess um komnir að sannfæra mig með röksemdum af ritningunni um, að það sje kristilegri trú samkvæmt, að lögleiða yfirtroðslu 3. boðorðsins í lögmáli drottins, og að skilningur minn á ofan nefndum stöðum N. T. sje rangur, og um leið óska jeg að vita, hvort það sje og einnig samhljóða krists lærdómi, að leyfa hórdóm og lögleiða frillulífi, hvað jeg síðar vil sanna að við gangist og fleirum orðum um fara.

En skilningur minn á Math. 5, 17—20., saman bornum við Math. 12, 1—8. og Markús 2, 25—28., hljóðaði og hljóðar enn þannig: „Ætlið ekki", segir höfundur trúar vorrar, „að jeg sje kominn til að af taka lögmálið og spámennina; til þess er jeg ekki kominn, heldur til þess að uppfylla eður fullkomna það". Hjer er ekkert lögmálsins boðorð undan skilið, og eins og frelsarinn í eptirfylgjandi ræðu, takandi til dæmis nokkur af boðorðunum, sýnir hvernig hann fullkomni þau til nefndu boðorð lögmálsins, eins, eða í sama anda á fullkomnun 3. boðorðsins að skiljast; og skil jeg því Math. 12, 1—8. og Markús 2, 25—28. þannig, að ef frelsarinn hefði tekið til dæmis 3. boðorðið, þá mundi hann hafa sagt á þessa leið: „þjer hafið heyrt að boðið er að halda heilagan hvíldardaginn drottins guðs yðar, og það ber yður að gjöra, því fyr mun himin og jörð forganga en lögmálið af takist; en þjer eigið að gjöra það í anda og sannleika, ekki með útvortis hræsni, nje með því að binda yður svo fast við bókstafinn og setningar farísea[h]nna, að þjer brjótið með því æðra boðorð lögmálsins, sem er mannelska; því hverjum manni er leyfilegt að gjöra það, sem gott er á hvíldardegi, Math. 12, 12., það er: að frelsa líf sitt og annara úr lífsháska, bæði manna og skepna; það er: að leita hungraður matar, eins og Davíð konungur gjörði forðum, og lærisveinar mínir nú, því lífið er meir en fæðan, og maðurinn á ekki að fórna lífinu vegna helgihaldsins, því hvíldardagurinn er orðinn til mannsins vegna, það er: hann er til settur af guði til þess hann sje lærdóms-uppfræðingar- og bænadagur sálarinnar og hvíldardagur líkamans; en maðurinn er engan veginn vegna hvíldardagsins, það er. hann á ekki að bindast svo af hvíldardagsins uppáboðnu helgi, að hann fyrir hana vanræki að uppfylla það, sem hann einmitt á þessum lærdómsdögum sálarinnar nema á, sem að er rjettvísi, góðfýsi og trú; og væri það því að vanhelga hvíldardaginn, að uppfylla ekki þær skyldur, sem útheimta fljótra aðgjörða, svo sem að bjarga lífi í lífsháska, hvort sem hann að ber af hungri, sjúkdómi, voðatilfelli eða öðru". Framvegis segir frelsarinn: „Jeg, sem er herra bæði þessa boðorðs og allra annara boðorða lögmálsins, hefi kennt lærisveinum mínum að skilja hinn rjetta anda boðorðanna, og fyrir því eru þeir síknir

saka, þótt þeir husgraðir leiti sjer matar á hvíldardegi“; og þannig hefur Davíð konungur skilið boðorðið, því ella hefði hann ekki gjört það, sem hann gjörði á hvíldardegi

En þjer sumir farísear og skriptlærðir! sem bindið mönnum þungar byrðir, og fyrirbjóðið að gjöra kjærleikans helgasta verk á hvíldardegi, hvernig sem á stendur, leyfið þó prestum yðar að vanhelga hvíldardaginn með vinnu í musterinu, og þannig verðið þjer sjálfum yður ósamhljóða af því þjer bindið yður við bókstafinn, sem deyðir, en sleppið andanum, sem lífgar; boðorðið eigið þjer vissulega að halda, og þjer gjörið það í anda og sannleika, ef þjer brúkið hvíldardaginn til uppfræðingar og svölunar sálunni með guðlegum hugleiðingum, og forsómið ekki uppfyllingu helgrar skyldu nær hún að ber á hvíldardegi, svo sem að auðsýna í verki góðfýsi og mannelsku.

Þannig eiga öll boðorðin andlega að skiljast, því allt lögmálið er heilagt og gott, og hver, sem hvetur aðra til að brjóta eitt af boðorðunum eptir þessum skilningi á þeim, mun minnstur kallast í himnaríki.

Eptir trúarhöfundarins ávísun, fæ jeg ekki skilið þessa til nefndu staði N. T. öðruvísi, en vera kann jeg misskilji þá, og hvort svo er, langar mig að fræðast um, því eitt af tvennu verður að vera, annaðhvort jeg misskilji þá, en hinir, sem ekki álíta 3. boðorðið jafnheilagt hinum boðorðunum, skilji þá rjettilega, ellegar að jeg skilji þá rjett, en hinir sjeu á þeim villunnar vegi, er jeg ekki vil lýsa fremur fyr en jeg hefi fengið upplýsandi svar í þessu máli, og ætla jeg að bíða þess í hæfilegan tíma. En skyldi þessi áskorun mín verða hrópandans rödd í eyðimörku, þá verð jeg að taka þögn þeirra, er mál þetta nánast snertir, annaðhvort svo sem þeir ekki treysti sjer að hrekja mína meiningu með röksemdum af ritningunni, eður þeir ætli sjer að traðka þessu heilaga málefni með fyrirlitningar þögn; en fari svo, mót von minni, þá lýsi jeg því hjer með yfir, að jeg muni engum þeirra manna hlífa, sem á síðasta alþingi studdu að því, að sunnudagshelgin náði ekki lengd sinni, heldur opinberlega lýsa, hvílík að verk þeirra sjeu, og hrópa þá svo hátt, að ekki verði lengur svefnvært á koddanum, því mjer er full alvara að reyna til þess, að fá þessari nýu helgidagatilskipun svo um breytt, að hún nái ekki að eyðileggja opinbera guðsdýrkun á Íslandi, hvað nógsamlega er sannað, hún í nærverandi búningi óumflýanlega gjöri með tímanum, að minnsta kosti alstaðar þar, sem kirkjuvegur er svo langur og örðugur, að sú afskammtaða helgi verður úti áður heim er komið, þó hún má ske verði ekki að tjóni kirkju og guðrækni Reykjavíkinga, og yfir höfuð suðurnesinga, hvar víðast hvar er örstutt til kirkjunnar, og hvar almúgi laðast svo ágætlega til guðrækni af skínandi eptirdæmi svo margra há- og lág- yfirvalda, er þar eru saman komin, og lýsa munu í þessu sem öðru góðu og guðlegu sem ljós í myrkri, samkvæmt skyldu þeirra; en svo fögru ljósi höfum vjer ekki að fagna sveitabúar, og höfum því meiri þörf á, að allt í helgidagalöggjöf vorri, fremur hvetji til en tálmi kirkjurækni, og yfir höfuð, að hún beri ekki með sjer ókristilegan óguðræknisanda; og á því vona jeg að leiðrjetting fáist á næsta alþingi 1857, ef sannkristilegur andi fær að ráða þar fleiri atkvæðum manna en síðast.

Hvað nú hið síðara málefni áhrærir, er jeg hjet um að tala, þá kann má ske mörgum að sýnast það óviðkomand, höfuðtilgangi lína þessara, sem er að fá rjettan skilning á kristinndómsins lærdómi um sabbatshelgina, og fá lagfæringu á helgidaga-tilskipuninni; en það er ekki örðugt að sýna, að þetta er í nánu sambandi hvort við annað. Sunnudaga-tilskipunin er einasta yngri ávöxtur af sömu eitruðu vantrúarrót, er fóstur hins sama anda, er auðsjáanlega stefnir í sömu átt, nl. hægt og hægt að smeygja inn í kristnina skynsemistrúnni (Rationalismen), hverrar játendum kristur er, sumum heimska en sumum hneixli; hvers ljósasti vottur er á meðal vor, að lögleidd er yfirtroðsla hans boðorða; álít jeg því á rjettum stað að hreifa þessu málefni ásamt með sabbatsmálinu, og freista hvort nokkur vill svara mjer upp á ósk mína; hver ósk þó sýnast mætti að því leyti óþörf, sem þeir staðir í Nýatestamentinu, er jeg hefi fyrir mjer, eru svo augljósir, að vart geta verið misskilningi undirorpnir, nema af vantrúarinnar einkasonum; eða, og það er nú það, sem jeg vil fræðast um: Eru það ekki augljós orð, sem frelsarinn segir hjá Math. 4, 32., 19, 9, Lúk 16, 18., Rómv. 7, 3.? Eða er það nokkrum ókunnugt, að hverjum sem vill, háum og lágum, er náðarsamlega leyft, eptir að vera skilinn við konu sína fyrir alls engar sakir, að inn-ganga nýtt hjónaband með konu, sem þannig er frá manninum skilin, svo bæði verða hórsek, eptir mínum skilningi? Annaðhvort er það, að mikil hula má hvíla yfir rjettum skilningi þessara krists orða, ellegar guðs heilögu orð eru hjer með beinlínis fóttroðin, hvað mjer og einnig sýnist ekki síður gjört sje með tilskipuninni 24. janúar 1838, § 12., því jeg fæ ekki skilið postulans orð 1. Kor. 6, 9., Eph. 5, 5 Gal. 5, 19—21., öðruvísi en þau hljóða, að frillulífismenn skuli ekki guðsríki erfa, og þó lögleiðir ofan nefnd tilskipun frillulífi, einasta þó með sömu frillu. Hvílíkur ábyrgðarhluti það sje, að tæla menn með slíkum lögum og leyfi. til að yfirtroða kristinndómsins heilögu boð, læt jeg þá dæma um, sem enn bera í brjósti sjer lotningu fyrir krists og hans postula kenningu; en öllum má vera ljóst hvað þessi laganna ókristilegi andi af sjer leiðir, sem er smátt og smátt að niður brjóta siðalærdóm kristilegrar trúar, og koma mönnum til að meta krists boð að vettugi; því sú ályktun liggur beint við: að ef eitt af krists boðum má af mönnum af takast, þá má eins fara með þau öll. Jeg furða mig stórlega á því, að allir kennimenn og ypp-urstu prestar, og sjer í lagi að æðsti kennimannahöfðingi Danaríkis, Sjálands byskup nú á tíma, sá almennt meðkenndi rjetttrúaði Martensen, skuli umtalslaust og án allra mótmæla þola að slík ókristileg lög gildi í guðs kristni, því þó jeg að vísu viti, að kirkjan, með öllum sínum æðri og lægri þjónum, er undir ótilhlýðilegri yfirdrottnun hinnar veraldlegu valdsstjettar, sem meir leidd af mýrarljósi skynseminnar en kristilegum anda, álítur allt það frekjutrúareðli eður presta-firrur, sem ekki er samhljóða hennar skoðun á andlegum málefnum, þá ber þó krists þjónum, enda í fjötrum að vinna með öllum kröptum að því, að slíkt eiturblandað súrdeig lögvitringanna nái ekki að spilla guðs akri; og jeg vildi óska, að einhver yrði til þess, að skora fyrst á Sjálands byskup og svo aðra, sem settir eru til að gæta krists sauða, að gæta vandlega skyldu sinnar í þessu, og er ósk þessi engan veginn óviðkomandi því máli, sem mjer er kærast, sem er andleg velliðan þjóðar minnar, því einmitt æðsti kennimannahöfðinginn er næstur uppsprettunni,

hvaðan lögin fljóta, og sem vjer sem einn limur á þjóðlíkamanum verðum að drekka af; en sýnast mætti Sjálands byskupi næst og honum hægast að gæta þess, að þaðan komi ekki saurugir lækir, er spillandi fljóta út í yztu limi líkamans. Vjer höfum að vísu fengið ráðgefandi alþingi, er gæti hrundið því ókristilega í frumvörpum stjórnarinnar; en þar reynslan hefur nú sýnt og sannað, að hjer gefast þeir skriptlærðu og farísæar, sem heldur vilja samþykkja að ske skuli beiðni stjórnarherranna, enn fylgja sannkristilegum anda; þá sje jeg þau úrræðin næst fyrir hendi, að skorað væri á æðsta prest Danaríkis. að hann ífæri sig guðs alvepni, og gangi í broddi fylkingar þeirra kennimanna, sem enn eru ekki farnir að hrjóta á vantrúarinnar kodda, út á stríðsflötinn, og berjist með hinu beitta sverði guðsorða fyrir því heilaga málefni, krists sanna lærdómi og frelsi krists kirkju frá of hörðum fjötrum hinnar veraldlegu valdstjórnar; svo vantrúarinnar straumur, sem vaxa sýnist á vorum dögum, nái ekki að eyðileggja kristniña og gjöra hana að herfangi þess komanda afgrunnsdýrs.

Jeg geng að því vísu, að margvíslegir verði dómar manna um mál þetta; sumir má ske kalla þetta ofdirfsku, heimsku, eða frekjutrú, sumir má ske kenni í brjósti um vesalings prestinn, að hann skuli vera að þessu; sumum kann og að mislíka þetta stórlega; en hvað sem hver dæmir og segir hjer um, þá vona jeg sjerhver sjái, að jeg hefi ekki talað til að þóknast mönnum; og það er ósk mín, að sjerhver gæti þess, sín, en ekki mín vegna, að dæma varlega um heilagt málefni trúaðs hjarta, sem fyrir minnstu er hvað mennirnir um það dæma; eins og jeg líka vil biðja þá, sem þetta kann að mislíka, að reiðast ekki, því reiði mannsins verkar ekki guðs rjettlæti, og finni þeir sig snerta af orði sannleikans, að láta sjer heiður þykja að sjá að sjer og lofa ljósi trúarinnar að lýsa sjer inn á veg friðarins. Læt jeg nú hjer um út talað að sinni, bíðandi upplýsandi svars, óskanda af hjarta, að þetta mál mitt verði einhverjum til góðs, en engum til ásteytingar, biðjandi drottinn að blessa föðurland mitt, og varðveita það frá fílgresi vantrúar og óguðrækninnar, sem óumflýanlega af sjer fæðir syndina, lands og lýða töpun.

Varðveiti valdsmenn alla
vor guð í sinni stjett,
svo varist í vonzku' að falla
vel stundi lög og rjett;
hinir í hlýðni standi

hver svo sem skyldugt er,
hrein trú og helgur vandi
haldist í voru landi,
amen, þess óskum vjer.

10. v. í 26. sálmi H. P.

Ólafur prestur E. Johnsen.

---

# Mannalát.

**Guðrún Illugadóttir** *kona sáttamanns* Jónasar Einarssonar *á Gili í Svartárdal innan Húnavatnssýslu dó 14. nóvember f. á. 56 ára gömul.*

*Hún hafði lifað í hjónabandi og búskap með bónda sínum 33 ár, og átt með honum 4 börn, sem öll lifa, og eru mannvænleg. Allir sem þekktu Guðrúnu sálugu, eru íst á einu máli um það, að hún í stöðu sinni væri mesta merkiskona, því það lýsti sjer ætíð hjá henni, að hún var guðhrædd, skyldurækin og ráðvönd; hreinskilin við alla, og ráðholl vinum sínum; skemmtin, glaðlind, og greind í viðræðum, trygg í vináttu og eðallunduð, gjafmild við fátæka, örlát við þurfandi og hjálpfús við alla bágstadda, einstaklega góðgjörðasöm og gestrisin við hina mörgu vegfarendur, sem heimsóttu hana, því bær hennar liggur, sem alkunnugt er, í mestu þjóðbraut.*

*Hjer að auki var hún mesta ráðdeildarkona í allri búsumsýslun, og kunni vel og forsjálega að fara með efni sín.*

*Hún var trúföst og elskuleg ektakona manni sínum, ástrík og viðkvæm móðir börnum sínum, stjórnsöm, siðavönd, framkvæmdarsöm, góð og nákvæm húsmóðir, elskuð og virt af öllum.*

*Hennar mega því sakna, ekki einasta nátengdir og skyldmenni, heldur einnig allir, sem hana þekktu og nutu hennar eðallyndis bæði í orði og verki. Minning hennar mun því verða geymd með verðskulduðum heiðri og virðingu í hjörtum allra þeirra manna, sem hana þekktu, og unna kristilegri dyggð og eðallyndi. Þessi sannyrði bið jeg Norðra að flytja lesendum sínum.* **X.**

*„Hinn 17. janúar 1856 sáladist, maddama Oddný Jónsdóttir að Hesti í Borgarfirði eptir þunga legu í nokkur ár. Hún fæddist í fardögum 1784, giptist 21. júní 1820 Jóhanni presti Tómássyni að Hestþingum. Þau eignuðust saman átta börn og eru 7 enn á lífi.“*

# Auglýsingar.

Af því að prentunarkostnaðurinn á Norðra er fullt eins mikill eins og á Þjóðólfi, en prentsmiðjan hefur ekki efni á að slaka neitt til með hann, virðist mjer jeg ekki geta selt árganginn fyrir þetta ár minna enn fjögur mörk, og bið jeg því áskrifendur blaðsins að borga mjer hann 4 skildingum meira en hann hefur kostað undan farin ár. Hvern einstakan, er kaupir blaðið, munar ekki um það, en mjer verður það þó að dálitlum notum. Prentsmiðjunefndin hefur, þegar jeg tók við blaðinu, sett mjer þann kost, að jeg skuli greiða allan prentunarkostnað fyrir árslok, og verð jeg því að biðja hina háttvirtu útsölumenn blaðsins og aðra kaupendur þess að greiða andvirðið svo tímanlega, að jeg geti verið búinn að fá það innan ársloka. **S. Skúlason.**

Það er alstaðar siður, þegar stuttar auglýsingar, er einungis snerta hag einstakra manna, og sem alþýðu því ekki varðar að neinu, eru teknar upp í blöð, að blaðstjórar taka borgun fyrir slíkt, svo að sem minnst rúm sje tekið úr blaðinu frá öðrum ritgjörðum, sem eru almennara efnis, og þess vegna þarfari fyrir allan þorra lesenda. Jeg lýsi því þess vegna yfir, að jeg tek 4 skildinga fyrir hverja línu af þess konar auglýsingum, sem sett er með smáu letri, en 5 skildinga, ef það er sett með stóru letri, og vil jeg vekja athygli manna á því að orða allt þess konar með sem fæstum orðum sem unnt er, eða að leyfa mjer að laga það á þá leið. Borgun fyrir þess konar auglýsingar, sem komnar eru í Norðra frá nýári 1856, bið jeg hlutaðeigendur að greiða mjer ásamt andvirðinu fyrir blaðið.

S. Skúlason.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

1856.

4. ár. 8. Febrúar. 3.

Vjer gátum þess í seinasta blaði Norðra 3. ár, að von væri á ritgjörðum frá herra kand. Sveini Skúlasyni, með póstskipinu þá er það kæmi frá Lívorpól, og er helzt á orði, að það muni verða inngángur til 1. bl. 4. ár og frjettabrjef; en þareð þetta ekki getur komið fyr til vor enn þá Benjamín aukapóstur kemur að sunnan aptur, sem líklegast verður ekki fyr enn í næsta mánuði, og þá svo seint, að blaðið ekki verði prentað áður póstar fara hjeðan suður og austur, þá höfum vjer ráðið af í millibili þessu, að koma út fyrra bl. febrúarm. þ. á., sem birtist yður þá þannig:

---

Verðlag það, sem „Þjóðólfur" getur um í f. á. 6. nóv. á kornvöru í sumar sem leið, „þar nyrðra" sem vjer álítum sje, t. a. m. á Akureyri og Húsavík, er ekki rjett hermt. Lausakaupmaður Römer seldi rúg sinn á **9** rd. og grjón (bánkab.) **12** (baunir og mjöl á 9½ rd.) en ekki á 8 rd. 80 sk. nje grjón á 11½ rd. sem „Þjóðólfur" segir.

Kaupmennirnir á Akureyri og Húsavík seldu kornvöru í sumar var og í haust: kornið á 9 rd. 32 sk., síðan 10 rd. og grjón 11½—12 rd. (baunir og mjöl 9½—10 rd.), en það lítið nú er til af rúg, sem eptir var óselt á Akureyri, eptir nýkomnum frjettum erlendis frá, hækkaði til 12 og grjón til 14 rd. Kaffi 28 sk., sikur 32.

Frá Norður- og Austurlandi eru næstl. haust fluttar til Kaupmannahafnar hjer um bil 3000 tunnur af kjöti — hver á 14 Lpd. — sem borgað var með 1 rd. 8 sk. að meðaltali hvert Lpd. Af þessu má sjá, að menn ekki hafa fundið sjer skilt, að hlýða aðvörun herra prófasts H. Stephensen á Ytrahólmi frá 8. ágústm. 1855, sem heldur ekki var von til, því auglýsing hans á fjárhag og verzlunaraðferðinni hjer Norðan- og Austanlands er ekki með öllu á reiðanleg eða sönn, þar sem hann segir: „að verzlunarmenn vorir eru farnir, á hinum seinni árum, að fýkjast í og stunda að draga úr höndum oss, og það jafnvel með óviðfeldinni verzlunaraðferð og fyrir enn meira glíngur og óþarfa enn nokkra aðra vöru vora, en það er sláturfje vort." Hvert nú aðferð þessi á sjer stað sunnan- og vestanlands vitum vjer ekki, en hjer norðan- og austanlands bjóða menn sláturfje sitt kaupmönnum. án þess þessir sýni nokkra fýkn eptir þessari vöru framar enn annari, eða dragi fjeð úr höndum landsmanna, og enn síður að vara þessi sje borguð með óþarfa glíngri, því vjer höfum það áreiðanlegt fyrir oss, og skulum því ábyrgjast sannindi þess, að af 3000 rd. andvirði, sem hver kaupmaður fær í sláturfje til verzlunar sinnar, eru 2000 rd. og stundum meira borgað með peníngum. Því fer betur, að hvorki eru bændur vorir hjer svo aumir eða óhyggnir og kaupmenn vorir lángt frá svo eigingjarnir, að þeir fari þannig með landsmenn vora og kaupanauta sína, sem þeim er líka sjálfum bezt, þá þeir lifa af þeim og með þeim, og væri því skilt að efla gagn bændanna af fremsta megni.

Þar á móti virðist oss sem aðferð kaupmanna á suðurlandi, ef sönn væri, að selt hefðu korn sitt á 14 rd., en grjón 16 rd. ekki sem viðurkvæmilegust, á meðan matvaran þó var seld á Norður- og Austurlandi með áður um getnu verði, og ofan í kaupið látið matarskortinn verða landsmönnum svo tilfinnanlegann, að þar þess vegna vofi yfir ærin bjargarskortur meðal fátækra manna, gefist þar ekki því nægri blessun úr sjónum; og skyldi það líka vera rjett hermt, að Jagt sú, er stórkaupmaður P. C. Knutzon sendi seinast til Reykjavíkur, hefði verið mest megnis, eða jafnvel að öllu fermd öðru enn matvöru, þá bætir slíkur farmur lítið úr skortinum, en virðist votta ofmikið kæruleysi Reiðarans og annara, sem þvílíka aðferð hafa fram á við landsmenn; heldur ekki virðist það samkvæmt kaupmannslegri hag-

sýni og forsjálni, miklu heldur ættu kaupmenn að breyta nú sem bezt við skiptavini sína og hæna þá sem mest að sjer, því þá þyrftu þeir sízt að óttast, að verzlunin gengi undan þeim og í hendur útlendra kaupmanna. Aðferð kaupmanna á Norður- og Austurlandi og líka á Ísafirði, hvaðan vjer höfum fengið ritað, að 1. október næstl. væru þar nægar vörubyrgðir, sýnast í ár einmitt að hafa fylgt þessari grundvallarreglu.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

Helztu orsakir til dýrtíðar þeirrar, sem nú er í öðrum löndum á matvöru og fleiru, er kornbrestur í mið- og suðurhluta Norðurálfunnar, og bann á öllum flutníngum á korni frá Rússlandi. Annars hafði uppskera orðið góð í Ameríku, og þaðan höfðu Bretar og Frakkar ætlað að byrgja sig. Á Norðurströndum Affríku, sjerílagi í Algeir, hafði orðid ríkugleg uppskera, hvaðan Frakkar ætluðu og að byrgja sig og líka Sambandsmenn á Krím með korn og brauð, því í sumar hafði kornvöxtur brugðist mjög á Krím. Preussar, Belgíumenn, Hollendíngar, Bretar og Norðmenn höfðu bæði sótt korn og pantað frá Danmörku, svo ekki var að undra, þótt korn væri þar orðið í ærnu verði. Það studdaði og að dýrtíðinni á kornvörunnui yfir höfuð, að allar byrgðir hennar frá í fyrra voru nær því uppgengnar, svo þegar var farið að bjóða geip í það, áður enn það enda komst til Markaðanna. Svo varð óttinn mikill fyrir dýrtíðinni á Frakklandi, að Napóleon keisari bauð fjárverði ríkisins, að hafa á reiðum höndum 10 milliòna fránka lán, fátækum mönnum til hjálpar að kaupa sjer matbjörg fyrir. Þar var líka 1 pund mjöls orðið allt að 12 sk. Hið næstum dæmalausa verð á lýsinu, sem verið hefur í ár, kemur af óáran í vexti olíuviðarkálsins (Rapssædet), einnig af því, hvað lítill varð afli næstl. vor; hvala- og selaveiðamanna við Grænland og Spítsbergen, svo mörgum brást gjörsamlega, því þótt 2 skip frá Túnsbergi í Noregi öfluðu hvert um sig 10,000 sela, og 26 skip frá Peterhead á Skotlandi 100.000 sela (10 selar reiknast að fylli lýsistunnuna), þá hefur það lítið hrokkið til að fullnægja allri þeirri þörf, sem olía og lýsi er brúkað til, og þótt venju framar kæmi mikið lýsi hjeðan frá Norðurlandi.

Af stríðinu á Krím, er það helzt að segja, að alla jafna síðan vjer sögðum seinast frá, höfðu Sambandsmenn og Rússar, verið að bæta og fjölga virki sín, draga að sjer lið, vistir og herbúnað, millum þess þeir voru að eiga saman smærri og stærri atlögur, þar til 16. dag ágústm. að þeir áttu mikla orrustu, á hæðunum við hið svonefnda Tschernajafljót, ekki lángt frá Sebastópól. Og höfðu Rússar þá tekið sig upp um nóttina laungu fyrir dag: kafþoka var og níðamyrkur. Vissu þá ekki Bandamenn af fyrri en rjett í því, að her Rússa var kominn að herbúðum þeirra, sem þó áttu að sækja yfir fljótið og kvísl eina úr því, er þeir skutu yfir flekabrúm, þar það ekki var stætt. Þaðan áttu þeir að sækja upp eptir brekkunum, þángað sem her Bandamauna hafði búist fyrir. Urðu þá Sardiníumenn og Tyrkir fyrstir til varnar, á meðan megin herinn, sem allur hafði verið í fasta svefni og daginn áður gjört sjer glatt á afmælisdag Napelons sál. keisara, var að klæðast og hertýjast, sló þá fylkíngum saman og varð brátt hin harðasta orrusta, sóttu þá Rússar með skothríð mikilli svo hart neðan að, að þeir sem fremstir voru, urðu að fara undan mannþraunginni á baki, þó þeir þá stráfjelli fyrir atlögu Bandamanna, er þá tóku til að skjóta og svo fallbyssum sínum með glóandi kúlum á fylkíngar Rússa, svo að heilar raðir af þeim fjellu í senn sem götur væru ruddar gegnum þær. Sáu þá Rússar sitt óvænna, og urðu að hverfa undan ofan brekkuna og aptur norður yfir fljótið og kvíslina, í hverja þá fjell ógrynni af þeim, svo stífladist upp. Fyrir liði Bandamanna rjeði yfir hershöfðíngi Pelissier, en Rússum fursti Gortschakoff, og næst honum hershöfðíngi Read, sem fjell í bardaga þessum; fundust á honum skjöl, er rituð höfðu verið af Gortschakoff um allann undirbúníng og tilhögun á bardaganum, og þótti það allt mjög vel hugsað og ráðið af honum, ef herstjórnin í orrustunni hefði verið eptir því, sem Gortschakoff sagði að Read hefði verið skuld í, en hafði einmitt sjálfum honum verið að kenna. Áður enn bardaginn hófst og farið var af stað, hafði liði Rússa, sjerílagi fótgaunguliðinu, verið veitt ótæpt brennuvín, eins og venja þeirra er á orrustudögunum, er þeir höfðu í leðurflöskum á sjer; af þessu flaut, að sumir þeirra gættu minna, enn þurfti framgaungu sinnar. Svo var fljótt undið af Rússum að bardaga þessum, að sá hluti liðsins, sem komið hafði fótgángandi þá um nótt-

ina fyrst til Sebastópóls, fjekk ekki tíma til að varpa af sjer ferðaútbúnaði sínum, enn síður taka hvíld, heldur vægðarlaust af stað, eins og þeir er fyrir voru. Áður af stað var farið, las fursti Gortschakoff brjef eitt til hersins frá föður þeirra Alexander Rússakeisara, í hverju hann lofaði mjög hreysti Rússa, og lýsti því trausti sínu yfir, að þeir mundu verða jafn sigursælir nú, sem í fyrra á hæðunum við Balaklava, er Bandamenn báru lægri hluta. — Það verður ekki gjörla sagt hve margir fjellu eða særðust eða voru herteknir af Rússum, þó eptir því næst þótti verða komist, voru það 5—8000 og af Sambandsmönnum 3—4000.

Þá er Rússar og Sambandsmenn höfðu lokið við að koma hinum föllnu í jörðina og flytja þá særðu á spítalana, hófu þeir að nýju ófrið sinn, Rússar að búast til varnar í borginni, og Bandamenn að þoka umsátrunum æ nær henni, í milli þess hvorutveggju kostuðu kapps um, að tálma vinnunni og ónýta það er byggt var og drepa þá er að vinnunni voru, t. a. m. var það 1 vígi með að eins 2 fallbyssum, sem á meðan á bygging þess stóð, kostaði nær því 800 Sambandsmenn lífið, sem Rússar fengu smátt og smátt skotið til dauðs.

Því meir Bandamenn komust nær borginni, sannfærðust þeir um, hve ramgirt hún væri, því víða þar, sem helzt var von atlögu Bandamanna, voru varnarveggirnir margfaldir, og öll upphugsanleg tilhögun til að gjöra atsóknina sem torsóktasta, ekki sízt þar sem Malakoff turninn eða vígið snerti, sem var hið öruggasta; auk varnarveggjanna var og hár skíðgarður af stórtrjám, sem flutt höfðu verið þángað lángar leiðir ofan úr landi. Þegar nú Sambandsmenn þóttust vera búnir að búa um sig, til þess að geta dag af degi skotið á borgina, byrjuðu þeir skothríð (Bombardementet) fyrstu dagana í septemberm., og skutu þá allajafna glóandi holknöttum, svo nú tók hún víða að brenna, en Rússar vörðust með hinni mestu hreysti, og var sem lítið eða ekkert ynnist á þeim. Eigi að síður hjeldu Bandamenn áfram, og um miðmunda 8. sept. rjeðust þeir tvívegis innyfir varnarveggina, en urðu að hverfa frá. til þess í 3. atlögunni að þeim tókst áhlaupið, og enn var ekki sýnilegt að Rússar mundu gefast upp, þar til um sólarlag, þá beiddist Gortschakoff að skothríðinni væri linað um stund, meðan hann væri að koma frá sjer hinum föllnu og særðu, er ekki gátu bjargað sjer, sem þegar var leyft af Pelissier, og þá vissu Bandamenn fyrst, að nú var sigurinn þeim í höndum. En um nóttina flúðu Rússar allir, er komist gátu úr þessum hluta borgarinnar, er stendur sunnan við fjörðinn, norður yfir mynni hans á flekum, er þeir tengsluðu saman, og Gortschakoff hafði til vonar og vara látið gjöra, ef svo færi, sem nú var orðið, og settust að í nyrðri hluta borgarinnar, sem er miklu minni enn hinn var og með fáum varnarvirkjum. Fjörður þessi kvað vera frá 7—1000 faðma á breidd. Áður Rússar skyldu við híbýli sín, brenndu þeir þau upp eða kveiktu í, að því leyti ekki skeð var, ónýttu það er þeir máttu, sökktu skipum sínum, er þar voru í höfninni og ýmsum hergögnum. Borgin líktist nú víðast hvar ösku- og steinahrúgu, sem Sambandsmenn ekki voguðu að flytja inn í, þó hús stæði þar hjer og hvar á stángli, og því síður sem Rússar höfðu víða grafið gaung og grafir, er þeir fyllt höfðu eldsneyti og púðri, og híngað og þángað var að sprengjast í lopt upp, sem af jarðeldi, þá minnst varði. En samt sem áður, þegar þeir fóru að kanna, fundust þar þó ýms hús, sem lítt skemd voru og sjerílagi spítalar og hermannabúðir. Auk þessa gátu þeir miklu bjargað og þar á meðal 50,000 kúlum, 400,000 pundum af púðri og 50,000 pundum af eir. Einnig slætt tölu vert upp af því sökkt hafði verið af skipum og fl. Mannfallið varð ógurlegt af hvorutveggjum. Af Sambandsmönnum hafði fallið eptir sögn 4000 og særst 7—8000 og miklu fleira af Rússum, sumir segja alls af báðum allt að 25,000. Sagt var að eptir bardaga þenna hefði her Bandamanna þá verið 50,000, en Rússa 60,000. Nú kvað Rússum vera um að gjöra, að verja Sambandsmönnum, að komast til Simferópól, höfuðborg á Krím, og þaðan til Perekóp, sem er sú eina leið Rússar geta dregið að sjer það, er þeir þarfnast, sjerílagi frá Nikólajew, enda safna þeir á leið þessa megin afla liðs síns, og standa þar betur að til orrustu enn Bandamenn, sem sagt er að vilji umfram allt komast á hólm við Rússa á auðum velli. Rússar búast nú og mjög fyrir norðan við fjörðinn þar í borginni.

Þegar sigur Bandamanna frjettist til Fránkaríkis, varð þar hinn mesti fagnaður og dýrð, lýðurinn hrópaði gleðióp, lifi keisarinn! Sebastopól er hertekin, floti Rússa (108 skipa) í Svartahafinu er afmáður. 13. sept. ljet Napóleon keisari syngja Te Deum í höfuðkyrkjunni í París, sem helguð er jómfrú Maríu, og þá er keisarinn kom að kyrkjudyrunum með alla sveit sína, stóð þar erkibiskupinn í skrúða sínum, og mælti: Sire! (allranáðugasti herra) jeg er kominn til þess híngað, að taka á móti hátign yðar við þrepskjöld þessa hins helga musteris, sem eins og í dag nötrar af frjettinni um heiður þann skeður er Frakkaveldi, í því vjer sendum vorar hátíðlegustu og innilegustu þakklætis- og lofgjörðarbænir til hins alvalda guðs á himnum uppi fyrir hinn fræga sigur vopn vor eru krýnd með, o. s. frv. En þegar frjettin kom til Lundúnaborgar á Englandi, og frá kl. 5—11 e. m. hafði borizt gegnum 63,000 exempl. af einu frjettablaði um borgina, var öllum klukkum hríngt, fallbyssurnar þrumuðu eldíngum sínum, borgin var ljómuð ljósum, sem hún stæði í loga, veifa eða flagg á hverju stór siglutrje og mörgum húsum; þar komu og til sýnis í hvítum blæjum, kórónur Frakka og Breta ásamt með stöfunum! N. E. og V. A.; og umhverfis Lárberjarkrans og nafnið Se-

bastópól, eins og í hvítum og rauðum og bláum loga. Svo var mikil eptirsókn að lesa blöðin um frjett þessa, að lögreglumenn höfðu fullt í fángi með, að mannþraungin ekki træði blaðaseljendurna undir. Pelissier hershöfðíngi, er af Napóleon gjörður að Marskálki.

Keisari Napóleon var annars búinn að ráða það af, áður frjettist um sigur þenna, að hætta skyldi að sækja Sebastópól með skotum og eldi, heldur umsitja hana þángað til búar hennar yrðu fyrir húngurssakir að gefast upp, því ekki væri að vita, hve margra þúsund manna lífi enn þyrfti að verja til þess, að fá Sebastópólsborg unna. Ráð þetta hafði hershöfðíngi Canróbert gefið, sem Napóleon var nú búinn að kalla heim til Parísar, þá hann afsalaði sjer herstjórninni til Pelissiers. En ályktun þessi var að eins komin á leiðina, þá frjettist um sigurinn. — Brúat, Aðmíráll Bandamanna í Asófskahafinu, skýrir frá því 19. sept., að borgina Asow og fleiri hafi hann unnið, og þar hafi einlægt verið að brenna frá 6. — 11. s. m.: 78 fiskiver, 68 forðabúr, samt 98, sumir segja 127 skip hafi hann þar á ýmsum stöðum eyðilagt. — Jafnframt og hann fagnar yfir hertöku Sebastópóls, talar hann um, að hefðu Sambandsmenn þegar í fyrra, eptir bardagann við Alma unnið Rússa á Krím, náð borginni Sebastópól með öllum herbúnaði, vistum og skipastól þeirra, þá mundi að vísu vald þeirra þar verið minna, en eigi að síður hið sama annarstaðar, þar á móti hafi þeir nú, nær því í heilt ár, varið til varnar á Krím ógrynni fjár og grúa af liði, er allt sje orðið sem að engu, enn þó útarmað fjársjóðu og þegna ríkisins, þar sem stríðið kosti Rússa á hverjum mánuði 20 milliónir rúbla, þar á mót segir greifi og æðsti ráðgjafi þeirra Nesselrode, að Rússland hafi enn ráð á nægum varnarmeðölum, liði, herbúnaði og peníngum; þar blómgist iðnaður og verzlun, þetta hið volduga ríki hafi því ekkert að hræðast, og enn sjeu á Krím fullar 160,000 hermanna. Rússland sje kornhlaða margra landa Norðurálfunnar, og þegar það loki henni, olli það þeim hinu mesta hallæri og dýrtíð, eins og líka nú sje uppi. Það sje nú líka búið að banna alla kornflutnínga frá Ismail, sem stendur við Dónau, sem leyfðir voru í sumar sjerílagi Austurríkissipum til Bospórus og víðar.

Þá er nú að víkja sögunni til Sambandsmanna í Eystrasalti, að þeim hefur þar yfir höfuð lítið áunnizt, annað enn stemma stigu fyrir skipaferðum Rússa og tjónið er þeir gjörðu í sumar 9.— 11. ágúst. á Sveaborgar kastala, sem þeir skutu á að samtöldu í 45 kl. stundir 21,000 fallbyssuskotum, sem allur er af Granat; þeir urðu þá líka að hætta við svo búið vegna þess, að hinar svokölluðu Mörsere eða skammbyssur, sem skotið er með glóandi holknettum, ónýttust; og gramdist þetta þeim ekki sízt, sem vildu byrgja sig vel að heiman með þessi skotfæri. Og svo kvað ramt að óánægju sumra, að blöðin gjörðu gis að herförinni, þannig, að Sambandsmenn hefðu sent flota, sem kostað hefði ríkin 20 milliónir pund sterl., en unnið 1 dagsverk og ollað Rússum að eins $1^1/_2$ milliónu tjóns. Þar brunnu meðal annars í kastalanum helztu byggíngar, svo sem 2 púðurhús, 1 hús fullt með hampi, 2 hlöður fullar með korn og mjöl, 1 hús með tjöru, lifjabúð hersins og 17 önnur hús, húsakynni landstjórnarans, 18 skip, auk þess sem vígin spilltust og ónýttust. I kastalanum fjellu 2000 manna og í borginni miklu fleiri, spítalarnir rúmuðu ekki hina særðu. — Allt fyrir þetta þykir mjög ósýnt um hvað vinnst á Rússum, sem nú hafa mikinn viðbúnað í Nikólajew og efna þar upp á herskipaflota í Svartahafinu sjerílagi, einkum fallbyssu báta af járni, 40 álna lánga, 10 álna breiða og $3^1/_4$ al. á dýpt: sem Rússar segjast vona að muni geta velgt Sambándsmönnum. Austurríkismenn og Prússar þykja heldur enn þá ekki tryggir, ef til vill, og slá̈ist þeir í lið með Rússum, er útgjört um, að þeir verði bugaðir sem dregur. Annars sendi Napóleon keisari í haust Canróbert hershöfðíngja sinn til Stokkhólms á fund Svía konúngs, sem tók við Canróbert með hinni mestu blíðu og viðhöfn, sem hann konúngur væri. Og er það haft fyrir satt, að Sambandsmenn skori á Óskar konúng að skerast í lið með þeim gegn Rússum, eins og líka að hann muni ekki synja þess Bandamönnum, því síður, sem Svíar hafa Rússum frá fornu grátt að gjalda, og ekki sízt fyrir það, þegar þeir 1809 höfðu undan þeim Finnland. að því leyti er þeir ekki voru áður búnir að herja undir sig. Fari nú svo, að Svíar lendi í stríðinu, þykjast menn sjá það fyrir, að Danmörk fái og að koma í leikinn, og þá ekki að vita, hvað verða muni úr slíku smáríki, og því heldur, sem þar er enn margt á óvissu, t. a. m. stjórnarhættirnir, sem miklu eru nú einvaldari orðnir síðan hið nýja 50 ríkismannaráð var skipað og stjórnarskránni frá 5. júní 1849 breytt gegn vilja margra af þjóðinni, eða þeirra helzt sem unna þjóðfrelsi. Það vofir og yfir að Danmörk missi af Eyrarsundstollinum, sem lengi hefur árlega numið á 3 milliónum dala, því Sambandsríki Vesturheims hafa neytað að greiða fyrir skip sín toll þenna, er þeir eptir samníngi frá 1826, hafa greitt allt að þessu, og hver samníngur nú er á enda í aprílm. 1856; og jafnvel haft orð á, ef Danir sýndu mótspyrnu, að taka sem skaðabætur, eina eða fleiri af eyjum þeirra í Vesturheimi. Ameríkumenn vilja og hafa afnuminn hinn svonefnda Stadertoll á Hamborgarelfu. (Framhaldið síðar).

# Auglýsingar.

Þareð hinar vanalegu skýrslur til undirbúníngs verðlagskránna fyrir Norður- og Austur-amtið enn þá vanta frá tveimur prófastsdæmum, verður því hjeðanaf ekki komið við að setja verðlagsskrárnar fyr enn miðsvetrar póstur er farin suður.

Skrifstofu Norður- og Austur-amtsins 26. d. janúarm. 1856.

Havstein.

Herra Verzlunarfulltrúi L. Schou, sem var hjer á Seiðisfirði næstliðin 2. ár, og fór nú í sumar til Húsavíkur, ávann sjer, meðan hann var hjer, hylli, virðíngu og velvild allra sem kynntust við hann, því hann reyndist góðgjarn og hjálpsamur trúr og vandaður í loforðum sínum og breytni, ráðhollur og viðmótsgóður og hinn geðstilltasti.

Mjer finnst því vert, að austfirðíngar, sem náðu að þekkja hann, þakki honum, hversu vel hann var þeim og óski honum hamíngu og vellíðunar.

Austfirðíngur.

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

1856.

4. ár. | 28. Febrúar. | 4.

## YFIRLIT

### yfir tekjur og gjöld jafnaðarsjóðs Norður- og Austur-amtsins á árinu 1855.

| | | Ríkismynt. | | Ríkismynt. | |
|---|---|---|---|---|---|
| | Tekjur: | rd. | sk. | rd. | sk. |
| 1. | Afgángsleyfar frá fyrra ári | .. | .. | 676 | 41 |
| 2. | Fyrirfram borgað | .. | .. | 19 | „ |
| 3. | Jafnað niður á sýslurnar: | | | | |
| | a., á Húnavatnssýslu | .. | .. | 313 | 26 |
| | b., - Skagafjaðarsýslu | .. | .. | 240 | 58 |
| | c., - Eyjafjarðarsýslu | .. | .. | 224 | 58 |
| | d., - Þíngeyjarsýslu | .. | .. | 251 | 22 |
| | e., - Norðurmúlasýslu | .. | .. | 274 | 58 |
| | f., - Suðurmúlasýslu | .. | .. | 227 | 58 |
| | | | | 2227 | 33 |
| | Gjöld: | | | | |
| I. | Til dóms- og lögreglustjórnar-málefna | 132 | 57 | | |
| II. | Kostnaður viðvíkjandi alþíngi | 417 | 46 | | |
| III. | Fyrir bólusetníngu | 316 | 12 | | |
| IV. | Til yfirsetukvenna málefna | 45 | 18 | | |
| V. | Fyrir að setja verðlagsskrár í amtinu | 14 | „ | | |
| VI. | Til sáttamála | 8 | 32 | | |
| VII. | Fyrirfram borgað úr sjóðnum | 320 | 72 | 1254 | 45 |
| | Afgángleyfar | .. | .. | 972 | 84 |

Skrifstofu Norður- og Austur-amtsins, 21. dag janúarmánaðar 1856.

**Havstein.**

---

Vjer gátum þess á síðustu blaðsíðu í Norðra fyrir árið 1854, að andast hefði merkismaðurinn Páll Jónsson á Hálsi hinn 6. dag desembermánaðar 1854, og þykir oss nú aptur hlýða að minnast meira á svo góðfrægan mann og ætt hans í fáum orðum, þó það, því miður, hafi allt of lengi dregist, en betra er þó seint enn aldrei.

„Á miðri öldinni næstliðnu, og fram undir aldamótin bjuggu foreldrar Páls í Reykjahlíð við Mývatn. Jón faðir hans var sonur Einars bónda þess Jónssonar, er árið 1722 flutti búferlum nauðugur af Reykjahlíð fyrir valdi Jóns prests Sæmundssonar, er þángað flutti sig aptur, en flúði þó burt þaðan sumarið 1724, er Lángileirhnjúkurinn — en ekki Krabla, einsog Espólín segir — gaus eldinum mikla, sem nýja hraunið allt milli Reykjahlíðar og Grímsstaða myndaðist af; því undir því hrauni lenti ei að eins allur bærinn í Reykjahlíð, og allmikill hluti túns — engis, varphólma — og veiðistöðu hennar, heldur einnig kyrkjujörðin Gröf og

bastópól, eins og í hvítum og rauðum og bláum loga. Svo var mikil eptirsókn að lesa blöðin um frjett þessa, að lögreglumenn höfðu fullt í fángi með, að mannþraungin ekki træði blaðaseljendurna undir. Pelissier herahöfðíngi, er af Napóleon gjörður að Marskálki.

Keisari Napóleon var annars búinn að ráða það af, áður frjettist um sigur þenna, að hætta skyldi að sækja Sebastópól með skotum og eldi, heldur umsitja hana þángað til búar hennar yrðu fyrir húngurssakir að gefast upp, því ekki væri að vita, hve margra þúsund manna lífi enn þyrfti að verja til þess, að fá Sebastópólsborg unna. Ráð þetta hafði herahöfðíngi Canróbert gefið, sem Napóleon var nú búinn að kalla heim til Parísar, þá hann afsalaði sjer herstjórninni til Pelissiers. En ályktun þessi var að eins komin á leiðina, þá frjettist um sigurinn. — Brúat, Aðmírál Bandamanna í Asófskahafinu, skýrir frá því 19. sept., að borgina Asow og fleiri hafi hann unnið, og þar hafi einlægt verið að brenna frá 6. — 11. s. m.: 78 fiskiver, 68 forðabúr, samt 98, sumir segja 127 skip hafi hann þar á ýmsum stöðum eyðilagt. — Jafnframt og hann fagnar yfir hertöku Sebastópóls, talar hann um, að hefðu Sambandsmenn þegar í fyrra, eptir bardagann við Alma unnið Rússa á Krím, náð borginni Sebastópól með öllum herbúnaði, vistum og skipastól þeirra, þá mundi að vísu vald þeirra þar verið minna, en eigi að síður hið sama annarstaðar, þar á móti hafi þeir nú, nær því í heilt ár, varið til varnar á Krím ógrynni fjár og grúa af liði, er allt sje orðið sem að engu, enn þó útarmað fjársjóðu og þegna ríkisins, þar sem stríðið kosti Rússa á hverjum mánuði 20 milliónir rúbla, þar á mót segir greifi og æðsti ráðgjafi þeirra Nesselrode, að Rússland hafi enn ráð á nægum varnarmeðölum, liði, herbúnaði og peníngum; þar blómgist iðnaður og verzlun, þetta hið volduga ríki hafi því ekkert að hræðast, og enn sjeu á Krím fullar 160,000 hermanna. Rússland sje kornhlaða margra landa Norðurálfunnar, og þegar það loki henni, olli það þeim hinu mesta hallæri og dýrtíð, eins og líka nú sje uppi. Það sje nú líka búið að banna alla kornflutnínga frá Ismail, sem stendur við Dónau, sem leyfðir voru í sumar sjerílagi Austurríkisskipum til Bospórus og víðar.

Þá er nú að víkja sögunni til Sambandsmanna í Eystrasalti, að þeim hefur þar yfir höfuð lítið áunnizt, annað enn stemma stigu fyrir skipaferðum Rússa og tjónið er þeir gjörðu í sumar 9. — 11. ágúst. á Sveaborgar kastala, sem þeir skutu á að samtöldu í 45 kl. stundir 21,000 fallbyssuskotum, sem allur er af Granat; þeir urðu þá líka að hætta við svo búið vegna þess, að hinar svoköllluðu Mörsere eða skammbyssur, sem skotið er með glóandi holknettum, ónýttust; og gramdist þetta þeim ekki sízt, sem vildu byrgja sig vel að heiman með þessi skotfæri. Og svo kvað ramt að óánægju sumra, að blöðin gjörðu gis að herförinni, þannig, að Sambandsmenn hefðu sent flota, sem kostað hefði ríkin 20 milliónir pund sterl., en unnið 1 dagsverk og ollað Rússum að eins $1^1/_2$ milliónu tjóns. Þar brunnu meðal annars í kastalanum helztu byggíngar, svo sem 2 púðurhús, 1 hús fullt með hampi, 2 hlöður fullar með korn og mjöl, 1 hús með tjöru, lifjabúð hersins og 17 önnur hús, húsakynni landstjórnarans, 18 skip, auk þess sem vígin spilltust og ónýttust. Í kastalanum fjellu 2000 manna og í borginni miklu fleiri, spítalarnir rúmuðu ekki hina særðu. — Allt fyrir þetta þykir mjög ósýnt um hvað vinnst á Rússum, sem nú hafa mikinn viðbúnað í Nikólajew og efna þar upp á herskipaflota í Svartahafinu sjerílagi, einkum fallbyssu báta af járni, 40 álna lánga, 10 álna breiða og $3^1/_4$ al. á dýpt: sem Rússar segjast vona að muni geta velgt Sambándsmönnum. Austurríkismenn og Prússar þykja heldur enn þá ekki tryggir, ef til vill, og sláist þeir í lið með Rússum, er útgjört um, að þeir verði bugaðir sem dregur. Annars sendi Napóleon keisari í haust Canróbert hershöfðíngja sinn til Stokkhólma á fund Svía konúngs, sem tók við Canróbert með hinni mestu blíðu og viðhöfn, sem hann konúngur væri. Og er það haft fyrir satt, að Sambandsmenn skori á Óskar konúng að skerast í lið með þeim gegn Rússum, eins og líka að hann muni ekki synja þess Bandamönnum, því síður, sem Svíar hafa Rússum frá fornu grátt að gjalda, og ekki sízt fyrir það, þegar þeir 1809 höfðu undan þeim Finnland. að því leyti er þeir ekki voru áður búnir að herja undir sig. Fari nú svo, að Svíar lendi í stríðinu, þykjast menn sjá það fyrir, að Danmörk fái og að koma í leikinn, og þá ekki að vita, hvað verða muni úr slíku smáríki, og því heldur, sem þar er enn margt á óvissu, t. a. m. stjórnarhættirnir, sem miklu eru nú einvaldari orðnir síðan hið nýja 50 ríkismannaráð var skipað og stjórnarskránni frá 5. júní 1849 breytt gegn vilja margra af þjóðinni, eða þeirra helzt sem unna þjóðfrelsi. Það vofir og yfir að Danmörk missi af Eyrarsundstollinum, sem lengi hefur árlega numið á 3 millíón dala, því Sambandsríki Vesturheims hafa neytað að greiða fyrir skip sín toll þenna, er þeir eptir samníngi frá 1826, hafa greitt allt að þessu, og hver samníngur nú er á enda í aprílm. 1856; og jafnvel haft orð á, ef Danir syndu mótspyrnu, að taka sem skaðabætur, eina eða fleiri af eyjum þeirra í Vesturheimi. Ameríkumenn vilja og hafa afnuminn hinn svonefnda Stadertoll á Hamborgarelfu. (Framhaldið síðar).

# Auglýsingar.

Þareð hinar vanalegu skýrslur til undirbúníngs verðlagskránna fyrir Norður- og Austur-amtið enn þá vanta frá tveimur prófastsdæmum, verður því hjeðanaf ekki komið við að setja verðlagsskrárnar fyr enn miðsvetrar póstur er farin suður.

Skrifstofu Norður- og Austur-amtsins 26. d. janúarm. 1856.

Havstein.

Herra Verzlunarfulltrúi L. Schou, sem var hjer á Seiðisfirði næstliðin 2. ár, og fór nú í sumar til Húsavíkur, ávann sjer, meðan hann var hjer, hylli, virðíngu og velvild allra sem kynntust við hann, því hann reyndist góðgjarn og hjálpsamur trúr og vandaður í loforðum sínum og breytni, ráðhollur og viðmótsgóður og hinn geðstilltasti.

Mjer finnst því vert, að austfirðíngar, sem náðu að þekkja hann, þakki honum, hversu vel hann var þeim og óski honum hamíngu og vellíðunar.

Austfirðíngur.

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. 28. Febrúar. 4.

# YFIRLIT

## yfir tekjur og gjöld jafnaðarsjóðs Norður- og Austur-amtsins á árinu 1855.

| | | Ríkismynt. | | Ríkismynt. | |
|---|---|---|---|---|---|
| | Tekjur: | rd. | sk. | rd. | sk. |
| 1. | Afgángsleyfar frá fyrra ári | .. | .. | 676 | 41 |
| 2. | Fyrirfram borgað | .. | .. | 19 | „ |
| 3. | Jafnað niður á sýslurnar: | | | | |
| | a., á Húnavatnssýslu | .. | .. | 313 | 26 |
| | b., - Skagafjaðarsýslu | .. | .. | 240 | 58 |
| | c., - Eyjafjarðarsýslu | .. | .. | 224 | 58 |
| | d., - þíngeyjarsýslu | .. | .. | 251 | 22 |
| | e., - Norðurmúlasýslu | .. | .. | 274 | 58 |
| | f., - Suðurmúlasýslu | .. | .. | 227 | 58 |
| | | | | 2227 | 33 |
| | Gjöld: | | | | |
| I. | Til dóms- og lögreglustjórnar-málefna | 132 | 57 | | |
| II. | Kostnaður viðvíkjandi alþíngi | 417 | 46 | | |
| III. | Fyrir bólusetníngu | 316 | 12 | | |
| IV. | Til yfirsetukvenna málefna | 45 | 18 | | |
| V. | Fyrir að setja verðlagsskrár í amtinu | 14 | „ | | |
| VI. | Til sáttamála | 8 | 32 | | |
| VII. | Fyrirfram borgað úr sjóðnum | 320 | 72 | 1254 | 45 |
| | Afgángleyfar | .. | .. | 972 | 84 |

Skrifstofu Norður- og Austur-amtsins, 21. dag janúarmánaðar 1856.

**Havstein.**

---

Vjer gátum þess á síðustu blaðsíðu í Norðra fyrir árið 1854, að andast hefði merkismaðurinn Páll Jónsson á Hálsi hinn 6. dag desembermánaðar 1854, og þykir oss nú aptur hlýða að minnast meira á svo góðfrægan mann og ætt hans í fáum orðum, þó það, því miður, hafi allt of lengi dregist, en betra er þó seint enn aldrei.

„Á miðri öldinni næstliðnu, og fram undir aldamótin bjuggu foreldrar Páls í Reykjahlíð við Mývatn. Jón faðir hans var sonur Einars bónda þess Jónssonar, er árið 1722 flutti búferlum nauðugur af Reykjahlíð fyrir valdi Jóns prests Sæmundssonar, er þángað flutti sig aptur, en flúði þó burt þaðan sumarið 1724, er Lángileirhnjúkurinn — en ekki Krabla, einsog Espólín segir — gaus eldinum mikla, sem nýja hraunið allt milli Reykjahlíðar og Grímsstaða myndaðist af; því undir því hrauni lenti ei að eins allur bærinn í Reykjahlíð, og allmikill hluti túns — engis, varphólma — og veiðistöðu hennar, heldur einnig kyrkjujörðin Gröf og

lögbýlið Fagranes með túnum og öllu engi þeirra. Þá er svo var komið þar presturinn hvorki áræði nje gæfu til að byggja Reykjahlíð upp að nýju, og flutti þá Einar bóndi sig þángað ári síðar, byggði bæinn allan upp með ærnu erfiði af sínum efnum, og bjó þar síðan þángað til sonur hans Jón tók við búi og giptist þar. Kona hans hjet Björg og var dóttir Jóns prests Halldórssonar á Völlum í Svarfaðardal, Þorbergssonar sýslumanns, Hrólfssonar á Seilu, og voru þau alsystkyn hennar, af móðurinni: a, sjera Halldór dómkyrkjuprestur á Hólum. b, Ólöf kona Hallgríms prófasts Eldjárnssonar. c, Halldóra kona Bjarnar á Moldhaugum, og d, Helga. En hálfbræður Bjargar af föðurnum — því Jón prestur Halldórsson var tvígiptur — voru þeir Jón prestur í Glæsibæ, Þórður prestur á Völlum, faðir amtmanns Páls Melsteds, og fl. Móðir Bjargar í Reykjahlíð hjet Helga (seinni kona Jóns prests) og var dóttir Rafns bónda í Arnarnesi og konu hans Ólafar, dóttur Jóns prests í Stærriárskógi, Guðmundssonar lögrjettumanns, Arasonar í Flatatúngu, og Guðrúnar konu hans Bjarnardóttur (Magnússonar) á Laxamýri, sem var sonur Þuríðar dóttur Sigurðar prests á Grenjaðarstað, Jónssonar biskups Arasonar.

Hjónin Jón og Björg í Reykjahlíð voru bæði í miklum metum alla æfi, því þau voru greind og siðlát, atorkusöm og gestrisin. Var Jón líka opt kvaddur af sýslumönnum til ymsra ráða og framkvæmda og hann var einn af þeim sex bændum, er skipaðir voru austan skjálfandafljóts, til að skera fjenað þeirra manna niður, er ei vildu gjöra það sjálfir, að því er þá var að orði kveðið, fyrir fjársýkina árið 1778 eða 1779, sem þá kom að vestan; og til margra torreka var hann kvaddur. Börn áttu þau Jón og Björg til samans 16, dóu af þeim 2 piltar úngir, og 1 um tvítugsaldur, er allir hjetu Jónar. Hin öll, sem voru 7 bræður og 6 systur, komust yfir sjötugs aldur, og voru þessi: 1, Rafn, eldstur bræðranna, bjó á Helluvaði. 2, Halldór, lengi hreppstjóri í Vognm. 3, Einar bóndi á Ferjubakka. 4, Páll, hreppstjóri á Grímsstöðum. 5, Einar yngri, bjó á Auðnum. 6, Halldór yngri, mun enn lifa í Skagafirði. 7, Sveinbjörn, bjó í Stakkahlíð. 8, Þóra eldst allra þeirra systkyna, giptist Þorsteini bónda á Geiteyjarströnd. 9, Helga kona Jóns prests Þorvarðarsonar á Breiðabólstað. 10, Sigríður giptist Jóni bónda á Sveinsströnd. 11. Ólöf yngri, kona Þorsteins bónda á Litlulaugum. 12, Helga kona Sigmundar bónda á Grænavatni, og 13, Guðrún kona Einars bónda frá Dagverðareyri, og mun hún enn á lífi.

Páll mun hafa fæðst 5. dag ágústmánaðar 1764; hann ólst upp, einsog öll systkyn hans, hjá foreldrum sínum, sem furðanlega vel tókst að fleyta fram svo mörgum börnum á þeim harðinda árum. Þá er hann hafði fimm um tvítugt, fór hann frá þeim að Grímstöðum vorið 1789, og giptist þar strax fyrri konu sinni Íngileifu Sæmundsdóttur, sem hann átti 5(?) börn með: Bjarna, Steinvöru, Sesilju og Björgu, en hún andaðist frá þeim úngum. Hálfu öðru ári síðar giptist hann í öðru sinni, með nýju lagaleyfi Halldóru, dóttur þeirra Þorsteins og Þóru systur sinnar á Geiteyjarströnd, og er hún enn á lífi. Með henni varð honum auðið þriggja barna, og andaðist hið fyrsta á öðru ári, en hin eru þau Þorsteinn prestur á Hálsi, og Þóra kona Jóns bónda Sigurðssonar á Búastöðum. Á Grímstöðum bjó Páll í samfeld 40 ár, en flutti sig þaðan að Vogum árið 1829. Þar bjó hann síðan í 11 ár; hafði hann þá sex um sjötugt og fór þaðan um vorið 1840 með konu sinni til sonar síns, er þá bjó á Vöglum, og dvaldi hjá honum, allt af á faraldsfæti, fram á næstliðið haust; var hann þá orðin, nær hálfu ári yfir nírætt. Hann hafði alla æfi verið hraustmenni bæði að heilsu og afli, en þó vart meðalmaður á vöxt, og orðlagður iðjumaður og þrekmaður, jafnvel eptir þá miklu raun sem honum mætti, árið 1832, er hann kviðslitnaði. Bæði á járn og trje hafði hann verið vel hagur, og mun það mega fullyrða, að frá því er hann tók við búi á Grímsstöðum, og fram undir það hann flutti frá Grímsstöðum mun hann hafa gjört flestar líkkistur þær, er á þurfti að halda þar í sveit; eins var hann þar og all opt við bátasmíði; hann var áhugamaður í framkvæmdum, og var annar þeirra þar í sveit, er fyrstir urðu til að smíða sjer „dönsku vefstólana“, er svo voru þá kallaðir.

Ekki voru gáfur hans fljótar, en hugmyndasamar og heppnar, og opt skáldlegar, og þó lítið bæri á, var hann laglega hagmæltur, og unni mikið fögrum skáldmælum, kunni og frá mörgu að segja, því minni hans var lengi gott. Í dagfari var hann maður vandaður, og orðfár, hreinskilinn og trúfastur; geðmikill, en kunni vel með að fara; trúmaður mikill, og alvörugefinn í allri guðsdýrkun. — Þessir og aðrir kostir hans áttu jafnan hlut að máli í allri hreppstjórn hans, um

36 ár, í Mývatnssveit, sem lengi mun minnast hans að góðu".

# Frjettir.

## Innlendar.

Níels póstur Sigurðsson kom til Akureyrar 30. dag f. m. Hafði hann farið frá Eskjufirði 14. s. m. og þá um nóttina legið úti hjerna megin Eskjufjarðarheiðar. Hjer og hvar á leiðinni að austan, hafði hann verið hríðtepptur og víða fengið illa færð og hörð veður. Hann sagði að tíðarfarið eystra og nyrðra, hefði verið líkt og hjer, síðan að spilltist eptir nýárið, og sumstaðar hagskart vegna áfreða. — Fjárpestin hefur verið þar skæð, sem víða annarstaðar. Hundapestin kvað vera komin suður yfir Lónsheiði. Sóttarferli gekk þá seinast spurðist, á Berufjarðarströnd, en þó enginn látist. Í Húnavatnssýslu, er kvillasamt af tak- og blóð-sótt, og í Skagafirði eru sögð veikindi á nokkrum bæjum. Næstliðna nýársnótt brann búrhús með því þar var inni, á Hjartastöðum í Eyðaþínghá, og litlu seinna eldhús á Kúskerpi í Skagafirði. — Í næstliðnum janúarmánuði rak hjer hafís hroða inn á fjörð allt að Oddeyri, náðust þá 19 hnýsur í vök undan Dálkstöðum á Svalbarðsströnd. Það er mál manna, að þá hafi og komið talsvert af fiski, en sem vegna íssins ekki varð sætt. Norðanpósturinn byrjaði hjeðan ferð sína suður til Reykjavíkur 8. þ. m., en 3 dögum síðar eða 11. þ. m. kom Benjamín aukapóstur að sunnan híngað, og hafði farið úr Reykjavík 27. dag janúarm. Talsverður snjór hafði verið kominn syðra og á leiðinni norður híngað, en þó víða gott til haga. Kvillasamt hafði verið syðra og fólk legið. Engir nafnkenndir dáið. Fremur fiskilítið. Hrúta- og Miðfjörður fullir með hafís og nokkur ís á Húnaflóa. Ekki er sagt að hafís sjáist nú hjer norðan fyrir, en þar á mót utan Vopnaf. og austar með landi. — Nokkrir höfðu róið til fiskjar öndverðlega í þessum mánuði hjer út á firðinum og aflað vel, en nú er það sagt minna.

Mestallan þenna mánuð hafa verið kyrviðri og frost, mest 20 gr. á Reaumur, en síðan þýðviðri.

## Útlendar.

(Framhald). Sambandsmenn skipuðu, að um miðjan september skyldu enn fara til Krím 100,000 hermanna og 10,000 hestar. Bretar hafa og meðal annars sent þángað gufuskip eitt, nefnt Wybe, með maskínu þá eða vjel, er sýður sjó og hreinsar, svo að hann verður brúkaður til neyzluvatnts, og getur vjel þessi þannig búið til dags daglega 40,000 Gallons, sem er hjer um bil 2667 tunnur af tæru og góðu neyzluvatni, sem og jafnóðum komið því frá sjer yfir í önnur skip, er nærri liggja eða á land, í gegnum pípur, sem til þess eru hafðar þegar á þarf að halda.

Það var og fastráðið, að Ómer Jarl færi til Litlu-Asíu með 60,000 manna til liðs við trúarbræður sína þar, sjer í lagi í borgunum Kars og Erzerum í Armeníu, sem Rússar hafa herjað á og sezt um, en Tyrkir nú seinast nokkuð bugað og rekið af sjer. Bretar hafa og sent herskip eitt með 120 fallbissum til Neapel, til þess að ótta óeyrðunum þar. Á Frakklandi í sumar 26. og 27. dag ágústm. varð upphlaup mikið í einu hjeraði gegn stjórninni, og urðu 800 manna uppvísir að samsærinu, sem mest reis af dýrtíðinni og bjargarskortinum. Það var og í sumar 9. sept að maður 22. ára, Bellemare að nafni, skaut af tvíhleyptri bissu á vagn, í hverjum hann hugði Napóleon keisara, en voru þá nokkrar meiri háttar konur, sem engar meiddust. Maður þessi varð þegar handtekinn og reyndist hann ekki með öllum mjalla. Hann kvaðst hafa gengið með áform þetta í 4 ár. Honum var gefið líf og settur á vitfirrínga spítalann. Þá varð og um sömu mundir uppvíst, að nokkrir hörðu tekið sig saman um, að ráða Napóleon keisara af dögum með vítisvjel, og urðu sumir þeirra fríkenndir, sem í fyrstu voru þó grunaðir.

Þá er að segja frá því, að Victoría drottníng ásamt manni sínum, prinz Albert og 2 börnum þeirra og ýmsum stórherrum frá Englandi og víðar að, ferðaðist í sumar til Fránkaríkis; og fór þá keisari Napóleon til móts við hana með mikið og frítt föruneyti, og kom allur mógur þessi til Parísarborgar 18. dag ágústm. Var höll sú er hann fyrst nam staðar í, meðal annars prýdd 150 ljósahjálmum, og þar er stórmenni þessi fóru í gegnum götur borgarinnar, kostaði það 300 fránka fyrir hvern glugga, sem að götunum snjeri, að fá að horfa út um hann. Ljet þá Napóleon efna til hinnar mestu veizlu og dýrðar í borginni, sem mönnum upphugsast gat — er frjettablöð Frakka segjast ekki nógsamlega geta útmálað — og samboðið þótti hinum konúnglegu gestum, sem þóttu þar því fásjenari frá Englandi, er slíkt ekki hafði borið við í seinustu 425 vetur. Um þessar mundir voru og 750,000 manna aðkomandi í Parísarborg, bæði annarstaðar að úr ríkinu og úr öðrum löndum. Og taldist svo til, að hver þessara eytt hefði um daginn 20 fraunkum og alls á 10 dögum 150 milliónum fránka. Hefur þá mörgum vínsala og gestgjafa fjenast skildíngur. Þá daga, sem drottníng Victoría dvaldi í París, voru 2 af þeim sunnudagar, hjelt hún þá, eins og allir landar hennar, kyrru fyrir, til þess ekki að brjóta helgi dagsins, nje laga ríkis síns. Aðra daga var hún ýmist að stórveizlum eða að skoða sig um, og þótti henni margt merkilegt og fásjeð í borg þessari. Von var líka til Parísar í októberm. á Ottó konúngi frá Sardiníu, en hann beiddist fyrirfram, að engin viðhöfn væri höfð við komu sína, því hann væri annars hugar út af nýskeðum missir nánustu skildmenna sinna. Það væri einúngis nauðsynja mál ríkis síns, er knúðu sig til ferðar þessarar. — Alexander Rússa keisari ætlaði og ásamt bræðrum sínum stórfurstunum, að ferðast um sömu mundir, en það var ekki til Parísar, heldur til Nikólajew og þaðan til Krím og Sebastópól. Frakkar og Persar hafa samið sín á millum vináttu

og verzlunarsamnínga, og þykir það miklu varða fyrir Frakka, af því að Rússar liggja alljafnt á höptunum við Persa, að fá þá í lið með sjer mót Schamyl og Serkjum í Litlu-Asíu. Napóleon keisari leitaði f. á. enn láns hjá þegnum sínum stríðinu til framhalds, og safnaðist honum með því móti, 3,652 millíónir 591,985 fránkar, í staðinn fyrir 750 mill., sem beiðst var. — Danir hafa afnumið ójafnaðartollinn við Preussa, en þess heyrist ekki getið um Svía nje Norðmenn. — Biflíufjelagið á Englandi er nú að láta prenta í Hollandi 20,000 exempl. af Biflíunni á túngumáli Japana, sem menn hyggja að komast í nákvæmari kunnugleik við og verzlunarviðskipti enn áður, síðan Ameríkumenn fóru þángað í hitt eð fyrra og þar á eptir Bretar og Rússar. Áður voru það Kínverjar einir og Niðurlandabúar, sem fengu að verzla þar, og einúngis á einni höfn Ragasaki, og þó ekki með öðru móti, enn að þar væri stránglega gætt alls þess, er slíkir aðkomumenn hefðust að, rjett eins og þeir væri ófrjálsir eða bandíngjar. Ríki Japana er 12,000 □ mílur á stærð með á að gotska 40 millíónum innbúa. Þar er gull og silfur, gnægð eyrs, postulínsjörð, the, viðarull, hrísgrjón, silki m. fl. Japansmönnum er talið það til kosta, að þeir sjeu þrekmiklir, hyggnir, vandaðir, og bezt menntaðir af öllum Austurheimsbúum, iðjumenn miklir og fróðleiksgjarnir.

Í hinum miklu hitum og þerrum, er voru víða erlendis næstl. sumar, hafði meðal annars í Svíaríki kviknað eldur í nokkrum skógum þar, og lesið sig eptir þeim, svo við sjálft lá, að byggð þar, engi og akrar væri í veði, ef ekki grúi manna hefði komið til hjálpar, en þó helzt rigníng mikil. Í Schweitz hafa þeir sjaldgæfu tilburðir orðið, að linditrjen í Basel og Zürich visnuðu upp. Í Waadt dóu flugurnar í flokkum saman. Á sjó þar skammt frá, sáu menn grúa vængaðra maura eða kóngulóa. Þar heyrðust líka eins og þrumur niður í jörðu, og sumstaðar varð þá og vart við jarðskjálfta, en þó er sú nýlundan mest, að konur nokkrar, er staddar voru á auðu svæði í skógi einum, 200 skrefa breiðum og nokkurra mílna laungum, nálægt Neuschatel, sáu að í einu vetfángi var skógurinn allur sem í loga og jafnframt allar eikur og trje í honum brotið og bælt niður að jörðu. Haldið er að þetta verið hafi rafurmagnaður lopteldur. Tjón þetta var metið til 900,000 fránka.

Póstskipið hafði komið til Hafnarfjarðar að kvöldi hins 24. d. janúarm. þ. á. eptir 3 vikna ferð frá Líverpól, af hverjum tíma það hafði verið 13 daga hjer undir landi. Með því frjettist, að allt til jóla hafði verið harður vetur í Danmörku og þegar í miðjum nóvemberm. komið 10 gr. frost á Reaumur, og fyrir jólin Eyrarsund þakið lagísum út fyrir „Treikroner". Nær því ómuna dýrtíð kvað enn vera víða hvar erlendis. Þurkaður rúgur var þá í Kaupmannah. að meðaltali 10—11 rd. tunnan, og í Hamborg varð tunnan af honum 13 rd. Bánkab. hafði í Kaupmannah. verið á 14 rd., hveiti 14—16 rd., nýtt kjöt ℔ á 24 sk., saltkjöt í tunnum á 25 rd., faðmur af brenni 20 rd. og svarðartunnan 40 sk. Islenzkar vörur höfðu verið í líku verði og seinast að framan er getið, t. a. m. lýsi á milli 40 og 50 rd.

Frá því er áður sagt, að Canróbert hershöfðíngi hefði farið til Stokkhólms o. s. fr. Í ferð þessari kom hann við í Kaupmannah. og ekki þótti neitt sjerlegt kveða að viðtökum hans þar. Þó hafði konúngur vor sæmt hann fílsorðunni. Enga vissu þykjast menn enn hafa um eyrindislok Canróberts, til Svíþjóðar og Danmerkur, þó orð ljeki helzt á, að Svíar heitið hafi að ljá Bandamönnum 60,000 enn Danir 30,000 hermanna, sem herja skuli á Finnland. Önnur saga segir, að Danir muni komast hjá öllum afskiptum við stríðið. En hvað svo um þetta er, þá er sem öll Norðurálfan sje að hertýgjast, eins og hún, þá vorar, búist við að leggja til bardaga. Austurríkismenn eru allt af eð leita um sættir millum Sambandsmanna og Rússa og fara því fram, að Rússar sleppi einveldi sínu yfir siglíngum og verzlun í Svartahafi og Dónárósum; sleppi hinni svokölluðu vernd þeirra, er þeir haft hafa yfir Furstadæmunum, Moldá og Wallakíinu, sem þá lengi hefur lángað til að varpa eign sinni á; sleppi afskiptum við trúarbræður sína í löndum Tyrkja. — Napóleon var ekki fjærri að gánga að kostum þessum. Um Rússa vita menn ógjörla. Mál manna er, að Austurríkis keisari hafi lýst því yfir við Alexander, að vildi hann ekki taka þessum eða líkum friðarkostum, þá mundi hann, til að gjöra enda á þrætunni, skerast í lið með Bandamönnum. — Því hefur verið orðfleygt, að Napóleon fari að skorta fje stríðinu til framhalds, sem er því ólíklegra, er honum bauðst miklu meira lán hjá þegnum sínum, enn hann beiddist í fyrstu. Bretar er sagt að muni hafa nóg „Sterlíngs" gullið, enda sje Palmerston Lávarður hinn stæltasti, að vilja ekki hætta styrjöldinni fyrri enn búið sje að beygja, sem þurfi, hálsinn á Rússum.

Fátt er nú tíðinda á Krím annað enn að Bandamenn og Rússar búast sem bezt fyrir hver í sínum hluta borgarinnar, Rússar að norðan, en Bandamenn að sunnan, og heilsast þeir á millum yfir fjörðinn með fallbyssum sínum. Þá er Bandamenn unnu suðurborgina 8. sept í haust, náðu þeir þar afarmiklu herfángi, af fallbyssum, kúlum, púðurflugum, púðri, járni, eir, kopar, steinkolum, köðlum, timbri, siglutrjám, verksmiðjum, hartnær 500 tunnum af saltkjöti, 12,000 pokum með brauði og 19,000 pokum með mjöl og hveiti og mörgu fleira.

Sambandsmenn unnu í haust 17. októbes kastalann Kinbúrn, gáfust þá þar upp 2,500 Rússar og daginn eptir rjeðust Bandamenn líka á kastalann Ostaschakoff, er þeir sprengdu í lopt upp og mikið af varnarliðinu. Síðan er sagt að Bandamenn eigi auðsóttara að setjast um borgirnar Cherson, Nikolajew og Ódessu, um hverja, nefnil. Ódessu þeir þegar höfðu lagt herskipaflota sínum og brennt þar upp forðabúr og ýmislegt fleira, til hins mesta tjóns fyrir Rússa.

Ríkisþíng Dana hafði meðal annars rætt í vetur, að vegna dýrtíðarinnar yrði ekki komist hjá því, að auka laun embættismanna, sem föst laun hefði um ¼ part eða 25%, og mundi slík launa viðbót meðan hún stæði yfir, nema alls á ári 140,000 rd. sem ríkissjóðurinn yrði að greiða.

Fyrrverandi stjórnarherra Steemann, sem kominn var yfir nírætt og lengi hafði verið æðstur ráðgjafa í Danmörku bæði á dögum Friðriks sjötta og Kristjáns áttunda, hefur dáið í vetur. Hann var sagður einhver hinn stjórnsamasti, regluog atorkumaður í embættum sínum. (Framhaldið síðar).

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. | 15. Marz. | 5.

## Traustataksdómur.

Þannig hafa almennt verið nefnd úrslit hins sunnlenzka landsyfirrjettar í sakamáli Gísla nokkurs Jónssonar, sem hjer um árið tók af austanpóstinum, þá hann var staddur á Akureyri, brjef til Jóhannesar bónda Þorkellssonar á Dýrfinnastöðum í Skagafirði ásamt með 16 spesíum, er brjefinu fylgdu í innsigluðum umbúðum, og undirgekkst hann að koma hvorutveggju til skila; en svo leysti hann þetta óráðvandlega af hendi, að hann hjelt hjá sjer brjefinu, smokkaði umbúðunum utan af peníngunum, án þess þó að brjóta innsiglið, er fyrir þeim var, og brúkaði þá svo í sjálfs síns þarfir; fór hann síðan austur í Múlasýslur, en gat um ekkert við Jóhannes. Laungu seinna fannst brjefið og umbúðirnar í rúmi Gísla þar, sem hann átti heima fyrir austan, og var þá opinber ransókn hafin gegn honum og hann dæmdur fyrir Norðurmúlasýslu aukarjetti 27. Júní 1854, til 20 vandarhagga refsíngar og málskostnaðar útláta fyrir tiltæki sitt.

Þessum dómi skaut Gísli til yfirrjettarins og fjell þá hinn svo nefndi **traustataksdómur** í þessu máli, þar sem landsyfirrjetturinn dæmdi rjett að vera: **að Gísli Jónsson ætti í sök þessari af ákærum sækjanda sýkn að vera, en þó greiða allan löglegan kostnað af málssókninni bæði fyrir undir og yfirdómi.**

Amtmaðurinn fyrir norðan og austan áfrýaði þessum dómi fyrir Hæstarjett, er 29. október f. á. lagði nýjan dóm á málið, og dæmdi Gísla Jónsson til **20 vandarhagga refsíngar, auk málskostnaðar útláta.**

Þannig fjekk hinn sunnlenzki traustataksdómur þau afdrif, sem við var að búast, og sem allir vinir ráðvendninnar máttu eptir æskja.

---

Öllu heldur af tilviljun enn tilhlutun annara, kom mjer fyrir sjónir Dómsakt landsyfirrjettarins, í máli því, sem höfðað var gegn fyrrum aðstoðar presti M. Thorlacius.

Í þessu máli hafði jeg verið kallaður til sem vitni í hjeraði og aflagði þar eið upp á vitnisburð minn; og þóttist jeg bæði hafa fullkomna greind til að vita um hvað jeg vitnaði og hrekkjalaust áform að láta það vera sannleikan. Engu að síður hefur verjandi málsins við landsyfirrjettinn, Organisti Pjetur Gudjohnsen, látið sjer sæma í varnarskjali sínu, að eigna mjer, að jeg bæði hafi verið svo hálfsofandi, og þar að auki — að skilja er — svo vínringlaður, undir því viðtali, sem presturinn átti við mig, og um hvað jeg vitnaði, að jeg hafi valla getað veitt orðum hans og meiníngum þeirra rjetta eptirtekt, og þar að auki hefur hann fullthermt „að jeg væri alþekktur slaðrari þar (hjer) í sveit". Það hefði verið sök sjer og í eðli sínu, þó Organistinn hefði — prestinum til málbóta — viljað ógilda vitnisburð minn, fyrir það hann var einstakur, en hitt varði mig sízt, að hann vildi ógilda hann fyrir óráðvendní mína, og þykir mjer það mjög ílla skarta á honum, og það í opinberum rjettarskjölum, að tilleggja sjer ókunnugum og fjarlægum manni skammir og lesti, svona að raunarlausu.

Jeg finn mig því knúðan til, hjer fyrir allra landsmanna augum og eyrum, að skora á Organista Íslands, herra Pjetur Gudjohnsen, að færa sönnur á þessi meiðandi ummæli um mig, „**að jeg sje alþekktur slaðrari hjer í sveit**", og gjöri hann það ekki nje geti, lýsi jeg hann **lygara** að þessum ummælum, og ætla hann samkvæmt NL. 6. 21. 6. eiga sjálfan með rjettu skilið þetta sama nafn.

Í ástæðum fyrir dómi sínum, í þessu sama máli, hefur landsyfirrjetturinn þókst finna það í rjettargjörðum málsins, að jeg hafi átt óljetta stúlku, en um það töluðu rjettargjörðirnar eins lít-

ið, eins og þetta er tilefnislaust sagt, og freystast því til að hugsa, að landsyfirrjetturinn sjálfur sje eða hafi verið barnsfaðir stúlkunnar.

Jeg vil því í mestu vinsemd ráðleggja Organistanum, að hann hjer eptir, þegar hann ræðir um rjettindi manna í málum, ónýti vitni að eins, með skynsamlegum ástæðum, en ekki lognum lastyrðum, og hinn heiðraða landsyfirrjett, að lesa málefnin svo vel ofan í kjölinn, að hann skilji af þeim rjett samanhengi hlutanna, því það er hreinskilin og hrekkjalaus málsvörn og rjettur yfirlestur og athugun málskríngumstæðanna, sem framleitt getur rjettvísa dóma.

Akureyri 10. dag marzm. 1856.

Indriði Þorsteinsson
gullsmiður.

---

Það er af dagblöðum vorum víðast hjer um land kunnugt orðið, hvílíkt það tjón var, sem jeg leið við þann voðalega og stórkostlega eldsbruna, er skeði í fyrra 8. ágústm., en hitt er enn þá fáum kunnugt, hversu ósegjanlega margir orðið hafa til að rjetta mjer, með bróðurlegustu ástsemi hjálparhönd, og margur með mesta höfðíngsskap, og tel jeg fyrst og fremst til þess, mína elskuðu sóknarmenn; af hverjum einn, nl. sá er „Þjóðólfur“ umgetur í 6. árg. bls. 274, að hafa gefið mjer sjóvetlínga með 30 spesíum, þá finnst mjer skilt að geta þess, að hinn sami gaf mjer töluvert í ýmsum fjármunum fyrir utan þær 30 spesíur, hverjar hann gaf mjer í bláum spari-vetlíngum; og viss er jeg um að frá honum og börnum hans, þar á heimili, hafa í fyrra sumar komið töluvert yfir 100 rd. á þetta mitt, þá allsþurfandi heimili. Ekki get jeg þess eina manns fyrir það, þótt hann hafi verið stórtækastur í hjálpsemi við mig, þar hann líka er einna kraptmestur af mínum sóknarmönnum; því nokkrir hafa gjört það að sínu leyti eins; heldur get jeg hans vegna þess, að mjer þótti það sem stendur í Þjóðólfi þessu viðvíkjandi, ekki rjett eða lögulega í rit fært, sem víst hefur orsakast af ókunnugleika þess, sem í fjarska ritaði þær línur. Þar næst tel jeg fjölda embættisbræðra minna hjer, sem og fleiri höfðíngja hjer í sýslu, hverra fyrst, sem þó duldi nafn sitt, hvers nafn allir Skagfirðíngar þó þekkja og munu lengi með virðíngu minnast, gaf mjer 100 rd. Líka hafa margir göfuglyndir bændamenn hjer í sýslu skotið fje saman mjer til aðstoðar, og mun eigi lítið hafa stutt mannkærlegsfull tilhlutan, okkar elskaða og virta sýslumanns. — Einnig hafa nokkrir höfðíngjar í Húnavatnssýslu, sumir af bændastjett, bæði skildir mjer og vandalausir, bæði sjálfir aðstoðað mig sem og líka gengist fyrir samskotum mjer til aðstoðar. Í Gullbríngu, Rángárvalla og Múlasýslum, hafa líka margir höfðíngsmenn, bæði skyldir og vandalausir, stórum aðstoðað mig. Líka hefur einn ógleymanlegur fornvinur minn og frændi í Árnessýslu sýnt mjer hinn mesta höfðíngskap. En það má þó markverðast þykja, að nokkrir göfuglyndir menn austur í Lóni í Skaptafellssýslu, hafa gjört samtök, að skjóta saman fje mjer til aðstoðar, hverra enginn hefur svo mikið sem litið mig augum. Ekki get jeg komið hjer við, að nefna nöfn allra þeirra mannvina, sem þannig hafa með bróðurlegri alúð aðstoðað mig, jafnvel þó jeg viti þau flest eða öll. Þeir munu og flestir láta sjer það á litlu standa, því jeg hefi á öllu mátt sjá, að velgjörðir þeirra, hafa ekki verið gjörðar til að sýnast fyrir mönnum, heldur til að taka ástúðlega hlutdeild í mínum þá verandi sár-örðugu kríngumstæðum; hitt veit jeg og er þeim öllum meiri gleði, sem jeg hjer með læt þeim öllum í ljósi, er mjer hafa minna eða meira rjett hjálparhönd, að þeir hafa reist þann á fætur, sem annars lá flatur, og gat ekki reist sig.

Öllum þeim, sem mjer hafa þannig rjett hjálparhönd, læt jeg hjer með í ljósi innilegasta hjartans þakklæti mitt, og óska þeim öllum umbunar frá Guði, og hans margfaldrar blessunar.

Hjaltastöðum 5. dag nóvemberm. 1855.

Ó. Thorvaldsen.

Þakklætis ávarp þetta meðtók jeg 21. janúar 1856.

Ritst.

---

### Ekki eru allar sóttir Guði að kenna.

Ekki einasta af margfaldri reynslu og eptirtekt undanfarinna fyrri ára, heldur og svo af alltíðum alvarlegum sjúkdóms tilfellum hinna síðari áranna, hefi jeg fullkomlega sjeð vott þess, að margur skæður, jafnvel dauðlegur sjúkdómur fjær og nær, hefur átt rót sína einasta í skjóllitlum og ónógum klæðnaði til að vernda oss gegn kulda þeim, sem eðlilegt er vjer mætum eptir afstöðu þess lands, sem vjer byggjum; það eru ekki einasta þeir algengu og vaxandi gigtarsjúkdómar, sem stundum mjög bráðlega olla hættulegra tilfella, en stundum með laungum tíma og undanfarandi eymd magnast þannig og fara með heilsuna að ólæknandi verða, heldur eru það ýmsir aðrir, t. a. m. tíðateppa — hver þó tíðum hefur fleiri orsakir, einkum þar sem votengis heyskapur er að miklu eða öllu leyti — til hverra kuldi og skjóllaus klæðnaður er helzta, opt ein-

asta orsökin. það er þess vegna mjög áríðandi að útríma, kuldanum, eða með öðrum orðum viðhalda hitanum á líkamanum og þeirri ómerkjanlegu útdömpun, að jeg ei tali um þegar svita slær út, að honum ekki, sem menn svo nefna slái inn aptur, í sögðu tilliti fáum vjer yfirhöfuð að tala ekki annað hollara enn ullarföt, við hvör þær um of tíðkanlegu, einkum ljereptsskyrtur ekki koma í jöfnuð, því eins og það er óyggjandi, að skjóllaus klæðnaður ollir margra sjúkdóma, eins er það víst, að nægilega hlýr búníngur, sem ljereptsskyrtur ekki geta veitt, mun hvað bezt vernda gegn hinum sömu, og að fullu uppbæta það, sem ullarskirtur kynnu að verða dýrari, ef nokkuð er, þegar rjett er metið.

Ó. Thorarensen.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

eru engar aðrar enn öndvegistíðin sama og áður er getið. Nú er sagt íslaust hjer norðan fyrir landi. — Hjer og hvar er kvillasamt, og á nokkrum bæjum í Eyjafjarðarsýslu fólk legið í hinni svo nefndu taugaveiki. Enginn hefur nafnkenndur látist. — Fjárpestin er enn sumstaðar á flakki. Á hundapestinni hefur lengi ekkert borið hjer nyrðra. — þá seinast var róið til hákarls frá Fljótum, Dölum, Siglufirði og Siglunesi aflaðist 10—34 kúta lifrar í hlut, og það á grynnstu miðum.— Fiskiafli er nú kominn aptur fyrir Hrísey 30—40 í hlut á dag. Fyrir skemmstu voru ekki nema 13 selar fengnir í nætur á Grjótnesi á Sljettu, og 10 í Saltvík á Tjörnesi — Á þorranum höfðu 2 bjarndýr tekið land á Sljettu, og urðu þar bæði unnin, en þó náðist ekki nema annað, því hitt lagði frá landi, en komst skammt og sökk.

## Útlendar.

Af stjórnarháttum í Danmörku, er það helzta að frjetta, að alríkislögin voru óbreitt samþykkt 27. sept: Nú hefur ríkisráðið lagt fram frumvarp um, að „hin innlendu mál nýlendanna" það er Grænland og Vestindíaeyjar, væru skilin frá Danmerkurmálum og lögð undir alríkið. Hafði spunnist úr þessu laung umræða, sem ekki var lokið fyrir jólin. Í ástæðunum við frumvarpið nefnir ráðgjafinn Grænland nýlendu og það sje eiginlega ríkiseign, en Færeyjar prófastsdæmi úr Sjálandi, en Ísland segir hann hefur alla jafna haft einskonar sjerstaklega eða hjeraðslega stjórn. — Í haust hafði háskólakennari Larsen, komið með boðsrit um stöðu Íslands híngað til í ríkinu, og vill sanna að það sje partur úr Danmerkur hjeraði; það sje undir vængjum grundvallarlaganna, sem á Íslandi sjeu orðin jafnframt gildandi og þau urðu það í Danmörku. Archivsekriteri, alþíngismaður vor J. Sigurðsson hefur nú svarað ritinu, og er sagt að það rit, ásamt hinu, sje mjög fróðlegt í þeirri grein. Dönsku blöðin voru og tekin til að ræða þetta mál, og einhver í blaðinu „Fædrelandet" hafði svarað J. Sigurðssyni.

Bókmenntafjelagið hafði næstl. ár fengið 64 nýja fjelagsmenn næstum alla hjer á landi, og gefur það nú út Húngurvöku, Kristnisögu og líklega sögu þorláks biskups, hjer um bil 10 arkir af fornbrjefum, og svo skýrslur og stjórnartíðindi, svo að nú verður bráðum næsta nauðsynlegt að vera í fjelaginu.

það er sagt að dýrtíðin hafi gengið svo hart að fátæku fólki í Kaupmannah. í vetur, að margir þegar höfðu flosnað upp og farið á vergáng, ef ekki hinir veglyndu, auðugu og efnugu staðarbúar hefði tekið sig saman um, að koma í veg fyrir vandræði þessi, með því á einum 9 dögum, að safna gjöfum, er numdu 10,000 rd. til að kaupa á hverjum degi mat handa þeim, sem bágstaddastir voru. Maturinn var búinn til í gufuvjel nokkurri, er matreitt gat á hverjum degi 4000 máltíðir af heitum og kraptgóðum mat, og var hver máltíð af honum seld ekki nema fyrir 8 sk.

Ekkert frjettist enn með vissu hver verða eigi læknir Norðlendínga, þó helzt sje sögn um Cand. Chirurg. & Medicinæ J. Finsen.

Skip höfðu öll verið komin heim til Hafnar fyrir jól, sem von var frá Íslandi, nema Skonnortuskipið „Hygea" frá Seiðisfirði hjer um bil 50 lesta stór, og var hún talin frá. Einnig hafði vantað skip frá Reykjavík, eignað kaupmanni Sveinbirni Jakobssyni. þá póstskipið var komið til Reykjav. eins og áður er getið, var enn von þángað tveggja skipa frá Höfn, og eins eða tveggja frá Englandi. það er nú eins og á Akureyri, hvar kaupskip, því síður stærri bollar — síðan 3 herskip voru send til Oddeyrar að flytja utan Jón biskup Arason og sonu hans — ekki sjást á höfn frá því í október til þess í maí og júnímán., og þegar ísa ár eru, ekki fyrri enn í júlí og ágústm. jafnvel september, og optast ekki nema 1, 2 eða 3 í senn, og aldrei fleiri í einu enn 6—8.

Eptir seinustu frjettum frá Litluasíu er sagt, að borgin Kars hafi gefist upp fyrir Rússum. Líka frjettist, að Ómer Jarl hefði verið lángt komin áleiðis þángað með þessa 60,000 drengi sína er honum fylgdu, og halda menn, að hann muni fljótt með þeim skakka leikinn.

---

# Mannalát.

26. dag nóvembermánaðar 1855, drukknaði þorfinnur bóndi Jónsson á Hóli í Siglufirði þar á firðinum af lítilli byttu, út á hverja hann áður hafði varað alla að fara, sem bezti formaður og aflamaður. Stinníngsvindur á sunnan var um nóttina, og er ágetzkan manna, að þorfinnur heitinn hafi ætlað á byttunni, sem stóð á Siglufjarðareyri, yfir í Staðarhól, eða út á Siglunes. Sóknarprestur hans sjera Jón á Hvanneyri hefur í brjefi til vor, komist þannig að orði um fráfall þorfinns heitins: „Hann hætti búskap í vor var, en ei að síður var hrepp þessum í flestu, já, öllu falli mikil eptirsjón í þeim manni og yfir höfuð öllum, sem til hans þekktu, því maður sá var að framtakssemi, dugnaði og þreki í stöðu sinni fyrirmynd annara bæði til sjós og lands, og eptir sem hann vóx að aldri, vóx hann eins að ráðdeild og greind, sem ásamt útlátum hans kom mörgum að miklu gagni; hann var fastur bæði í hugsun og háttsemi, og æ þótti sómi að honum í hverju samkvæmi sem var, því verður sæti hans autt, að minnsta kosti fyrst um sinn. Svona mundi jeg hafa lýst manninum hefði til þess komið, og jeg ætla það ekki talað frekar, enn sannleikurinn las mjer það fyrir." þorfinnur var orðinn nær fimmtugu að aldri og hafði verið í hjónabandi 24 ár, og varð honum með konu sinni auðið 15 barna, af hverjum nú 7 lifa með móður sinni.

Síðla í næstl. janúarm. hafði aldraður bóndi að nafni Jón Magnússon frá Ísólfsstöðum á Tjörnesi orðið þar úti, og fanust

fyrir skemmstu kominn lángt afvega til heiðar. Hann hafði verið drykkfeldur, og í þetta sinn kenndur, og þá hann var svo ásigkominn, hætt afleysis og svefns. — Nokkru síðar varð og maður úti í hríðarbil á Axarfjarðar heiði, og hjet sá Einar og átti heima á Sjóarlandi í þystilsfirði.

Í Norðra 1855, bls. 88, er þess getið, að Guðlaugur Jónsson frá Túngu í Fljótum hafi fyrirfarið sjer þar í Miklavatni, en það hefur síðan verið haft fyrir satt, að hann í sinnisstorlan sinni muni óvörum hafa fallið í vatnið. — 27. dag janúarm. þ. á. dó Árni Markússon á Kaupángi í Eyjafirði 93 ára, sem hafði verið giptur og búandi yfir 50 ár, og nokkur ár hreppstjóri; ráðvandur, skynsamur og stilltur kjarkmaður, og hraustur til heilsu og burða. Um sömu mundir dó Guðrún Jónsdóttir, ekkja á Jórunnarstöðum í Eyjafirði skorti hana 2 ár upp á tírætt. Hún hafði lengi verið gipt og búið; auðið varð henni og með manni sínum nokkurra barna; í dagfari vönduð og jafnlynd, atorkusöm og þrautgóð; hafði sjón og heyrn til dauðadags og var nær því á hverjum degi á faraldsfæti. — Í næstl. mánuði er dáinn Björn Illhugason á Hofsstöðum í Skagafirði. Hann var kominn á 7. ár yfir nírætt, einhver meðal ríkustu manna á Norðurlandi, gáfumaður og þrekmikill til sálar og líkams, og ljet ekki fyrir brjósti brenna þótt honum gengi í mót skapi. Heldur þótti hann harðbýll og hrikalegur við þá, er honum fannst standa sjer öndverðir, og líka þá, er honum þótti seint gengið að verki eða framkvæmdum, en þó reyndar raungóður og viðkvæmur, Hversdaglega ræðinn og skemtinn, einkum við þá er greindir voru, eða hann þóttist geta fræðst af. Vinfastur og ráðhollur þeim er þess leituðu, og forspár. Eljunarmaður var hann mikill og auðsæll; sjaldnast mun hann hafa þótt ör af fje. Hann var tvígiptur, og 1 barn átti hann í fyrra hjónabandi sínu. Hann bjó lengstann hluta æfi sinnar, og seinustu árin var hann blindur. — Um sama leyti andaðist Mad. Gunnhildur Bjarnadóttir, seinni kona sjera Sigurðar Sigurðssonar á Auðkúlu, að sögn komin yfir fertugt. — Einnig er látinn sjera Guðmundur Lassen á Stóranúpi, sem Daði hinn fróði Níelsson, segir fæðst hafa 1784, útskrifast úr Bessastaðaskóla 1808, vígst 14. júní 1812, sem aðstoðarprestur til sjera Sigurðar Íngimundarsonar, að Arnarbæli í Ölvesi, fengið Kaldaðarnes 1818, en Kross í Landeyjum 22. febrúar 1828, en síðast Stóranúp 9. desember 1846, og komið þángað vorið 1847.

---

# Auglýsingar.

Eptir fráfærunar í sumar sem leið, hvarf af austurfjöllum trippi, sem jeg átti, 4 vetra gamalt, góðgengt, órakað, ómarkað, litförublesótt að lit, með dökka mön eptir hrigginum, hálfhríngeygð á öðru auga, og á sömu hlið með hvítan hófinn og hófhvarfið, á aptur fæti, en hina hófana 3 dökka. Mætti það ske að trippið kæmi einhverstaðar fyrir, bið jeg það væri hirt og vaktað fyrir sanngjarna borgun og mjer svo auglýst.

Kálfaströnd við Mývatn 28. dag nóvemberm. 1855.

Guðmundur Tómásson.

Úr Markaskrá Húnavatnssýslu í Bólstaðahlíðar hreppi, hefur gleymst mark Hannesar Jónathanssonar á Bergstaðaseli: Sneitt aptan hægra, fjöður framan, vaglskorið aptan vinstra, og biðjast eigendur þeirrar Markaskráar, að taka það til athugunar.

---

Árið 1855, um Pálmasunnudagsleytið, fannst í húsi bókbindara G. Laxdals á Akureyri, blá yfirhöfn nýleg, með 1 kraga og hornknöppum. Einnig fannst fyrir næstl. nýár úti fyrir sama húsi, brauðmót, merkt: GSD, og kefli m. fl. þeir sem sanna sig að vera eigendur tjeðra hluta, vitji þeirra hjá Laxdal. — Í haust fannst stundaklukkulóð millum Espihóls og Grundar í Eyjafirði.

---

Til höfunda Fjárræktarkversins.

Í fjárræktarkverinu segir, að gjöra sem allra bezt við fjeð og gefa því vel. Nú þar sem jeg þekki til, er fje miklu smærra og gagnminna enn þegar því var harðlega beitt og hafði litla heygjöf. það væri gott að fá upplýsíngu með þetta.

Einfeldníngur.

# ☞ Prentsmiðjufundur.

Á Bótólfsmessu, þriðjudaginn 17 d. júním. næstk., er áformað að almennur fundur verði haldinn að Akureyri, sem byrja á um hádegi, og skorum vjer, fyrir hönd prentsmiðjunefndarinnar, á búa; Norður- og Austur-umdæmisins, að þeir fjölmenni til fundar þessa, og sjer í lagi að hver sýsla umdæmisins sendi þángað 1 mann er hún hefur kjörið, til þess, að ræða þar meðal annars, nauðsynjamál prentsmiðju sinnar, og ef til vill, fleiri almenn málefni.

# Uppboðsauglýsing.

þriðjudaginn 6. dag maímánaðar næstkomandi verður við opinbert uppboð á Akureyri selt ýmislegt lausafje tilheyrandi dánarbúi læknirs sál. E. Johnsens, t. a. m. bókbindara verkfæri, bókbindaraskinn og pappír, málarahella, stólar, borð, rokkar, 8 daga úr, smíðatól, brúsar, krukkur, flöskur, vín - og brennuvíns-glös, kútar, kvartil, tunnur, kassar, borðviður, sögubækur, skemtibækur og bækur í ýmsum vísindum, allar vel umvandaðar. Áreiðanlegum og kunnugum kaupendum, veitist frestur með borgun fyrir það þeir kaupa þar, til Mikalismessu.

Uppboðið á að byrja kl. 9 fyrir miðdegi.

Skrifstofu Eyjafjarðarsýslu 6. dag marzmánaðar 1856.

E. Briem.

(Aðsent).

Ekki hefi jeg sjeð þjóðólf seinasta með greininni um amtmanninn, og vil ei sjá nokkra illfúsa ádeilu um hann, því jeg þekki hann glöggt, að hann er í eðli sínu einhver ágætasti maður og mikill maður í rjettri þýðíngu orðsins, þó hann hafi skap mikið og amist við sjálfræði í höndum þeirra manna, sem ekki kunna með að fara.

---

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. | 31. Marz. | 6.

# VERÐLAGS-SKRÁR

## sem gilda í Norður- og Austur-umdæminu frá miðju maímánaðar 1856 til jafnlengdar 1857.

| | Í Húnav.- og Skagaf.-sýslum. | | | | | Í Eyjaf.- og þíngeyjar-sýslum. | | | | | Í báðum Múlasýslum. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. |
| | rd. | sk. | rd | sk. | sk. | rd. | sk. | rd. | sk. | sk. | rd | sk. | rd. | sk. | sk. |
| *A.* Fríður peníngur: | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 1 kýr í fardögum, 3-8 vetra . . . . | 31 | 33 | 31 | 33 | 25 | 29 | 74 | 29 | 74 | 24 | 27 | 20 | 27 | 20 | 22 |
| - — 6 ær - — 2-6 — hver á | 3 | 82 | 23 | 12 | 18½ | 4 | 24 | 25 | 48 | 20½ | 4 | 60 | 27 | 72 | 22 |
| - — 6 sauðir á hausti, 3-5 — — - | 5 | 94 | 35 | 84 | 28½ | 6 | 12½ | 36 | 75 | 29½ | 6 | 57 | 39 | 54 | 31½ |
| - — 8 — - — tvævetrir — - | 4 | 27 | 34 | 24 | 27½ | 4 | 56 | 36 | 64 | 29½ | 5 | 3 | 40 | 24 | 32 |
| - — 12 — - — veturgamlir— - | 2 | 95 | 35 | 84 | 28½ | 3 | 31 | 39 | 84 | 32 | 3 | 55 | 42 | 84 | 34½ |
| - — 8 ær - — geldar . . — - | 3 | 79½ | 30 | 60 | 24½ | 4 | 45 | 35 | 72 | 28½ | 4 | 70½ | 37 | 84 | 30½ |
| - — 10 — - — mylkar . — - | 2 | 34 | 23 | 52 | 19 | 2 | 46½ | 24 | 81 | 20 | 3 | 31 | 33 | 22 | 26½ |
| - — 1 áburðarhestur í fard., 5-12 vetra | 17 | 93½ | 17 | 93½ | 14½ | 21 | 88 | 21 | 88 | 17½ | 21 | 61½ | 21 | 61½ | 17½ |
| 90 álnir, 1 hryssa, jafngömul . . . . . . | 13 | 44 | 17 | 90½ | 14½ | 17 | 91½ | 23 | 90 | 19 | 17 | 89 | 23 | 86½ | 19 |
| *B.* Ull, smjör og tólg: | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 120 ℔ af hvítri ullu . . . . . ℔ á | „ | 27 | 33 | 72 | 27 | „ | 28 | 35 | „ | 28 | „ | 28 | 35 | „ | 28 |
| - — 120 - - mislitri — . . . . . . . - - | „ | 23 | 28 | 72 | 23 | „ | 24 | 30 | „ | 24 | „ | 24 | 30 | „ | 24 |
| - — 120 - - súru smjöri . . . . . . - - | „ | 21 | 26 | 24 | 21 | „ | 19 | 23 | 72 | 19 | „ | 23 | 28 | 72 | 23 |
| - — 120 - - tólg, vel bræddri . . - - | „ | 23 | 28 | 72 | 23 | „ | 22 | 27 | 48 | 22 | „ | 22 | 27 | 48 | 22 |
| *C.* Tóvara af ullu: | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 30 ℔ hespugarns, 3-6 hesp. í ℔, haldi hver 11 skreppur, en hv. skr. 44 þr., ℔ á | „ | „ | „ | „ | „ | „ | 60 | 18 | 72 | 15 | „ | „ | „ | „ | „ |
| - — 60 pör eingirnis-sokka . . parið - | „ | 21½ | 13 | 42 | 11 | „ | 25 | 15 | 60 | 12½ | „ | 19 | 11 | 84 | 9½ |
| - — 30 — tvinnabands gjaldsokka — - | „ | 28 | 8 | 72 | 7 | „ | 30 | 9 | 36 | 7½ | „ | 25 | 7 | 78 | 6 |
| - — 120 — tvíþumlaðra sjóvetlínga — - | „ | 8 | 10 | „ | 8 | „ | 9 | 11 | 24 | 9 | „ | 8½ | 10 | 60 | 8½ |
| - — 20 eingirnis-peisur . . . . . hver á | „ | 57½ | 11 | 94 | 9½ | „ | 76 | 15 | 80 | 12½ | „ | 88 | 18 | 32 | 14½ |
| - — 15 tvinnaband gjaldpeisur . — - | „ | 79 | 12 | 33 | 10 | „ | 92 | 14 | 36 | 11½ | 1 | 46 | 22 | 18 | 18 |
| - — 120 áln. vaðmáls, álnar br. 1 al. - | „ | 38 | 47 | 48 | 38 | „ | 34 | 42 | 48 | 34 | „ | 43 | 53 | 72 | 43 |
| - — 120 — einskeptu, 4-5 kv. á br. - - | „ | 27 | 33 | 72 | 27 | „ | 25½ | 31 | 84 | 25½ | „ | 37 | 46 | 24 | 37 |
| *D.* Fiski: | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 6 vættir af saltfiski . . . . vætt. á | 4 | 12 | 24 | 72 | 20 | 4 | 32 | 26 | „ | 21 | 4 | 31 | 25 | 90 | 21 |
| - — 6 — - hörðum fiski . — - | 3 | 83½ | 23 | 21 | 18½ | 3 | 66 | 22 | 12 | 17½ | 4 | 39 | 26 | 42 | 21 |
| - — 6 — - smáfiski . . . . — - | 3 | 71 | 22 | 42 | 18 | 3 | 55 | 21 | 42 | 17 | 4 | 29½ | 25 | 81 | 20½ |
| - — 6 — - ísu . . . . . . . — - | 3 | 54 | 21 | 36 | 17 | 3 | 32 | 20 | „ | 16 | 3 | 72 | 22 | 48 | 18 |
| - — 6 — - hákarli hertum — - | 3 | 23 | 19 | 42 | 15½ | 2 | 73 | 16 | 54 | 13 | 2 | 86 | 17 | 36 | 14 |
| *E.* Lýsi: | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 1 tunna hvallýsis . . . . 8 pottar á | 1 | 32 | 20 | „ | 16 | 1 | 75 | 26 | 69 | 21½ | 1 | 41 | 21 | 39 | 17 |
| - — 1 — hákarlslýsis . . 8 — - | 1 | 73 | 26 | 39 | 21 | 1 | 66½ | 25 | 37½ | 20½ | 1 | 61 | 24 | 51 | 19½ |
| - — 1 — sellýsis . . . . . 8 — - | 1 | 70 | 25 | 90 | 21 | 1 | 60 | 24 | 36 | 19½ | 1 | 49½ | 22 | 70½ | 18 |
| - — 1 — þorskalýsis . . 8 — - | 1 | 42 | 21 | 54 | 17 | 1 | 42 | 21 | 54 | 17 | 1 | 37 | 20 | 75 | 16½ |
| *F.* Skinnavara: | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 4 fjórð. naut-skinns . . . . fjórð. á | 4 | 87½ | 19 | 62 | 15½ | 4 | 28 | 17 | 16 | 13½ | 4 | 32 | 17 | 32 | 14 |
| - — 6 — kýr-skinns . . . . . — - | 3 | 67 | 22 | 18 | 18 | 3 | 33 | 20 | 6 | 16 | 3 | 64 | 22 | „ | 17½ |
| - — 6 — hross-skinns . . . . — - | 3 | 11 | 18 | 66 | 15 | 2 | 61 | 15 | 78 | 12½ | 2 | 42 | 14 | 60 | 11½ |
| - — 8 — sauð-skinns, af tvævetrum sauðum og eldri . . . — - | 2 | 34 | 18 | 80 | 15 | 1 | 70½ | 13 | 84 | 11 | 1 | 54 | 12 | 48 | 10 |
| - — 12 fjórð. sauð-skinns, af ám og veturgömlum sauðum . . — - | 1 | 60 | 19 | 48 | 15½ | 1 | 31 | 15 | 84 | 12½ | 1 | 26 | 15 | 24 | 12 |
| - — 6 fjórð. sel-skinns . . . . . — - | 3 | 35 | 20 | 18 | 16 | 3 | 5 | 18 | 30 | 14½ | 3 | 16 | 19 | „ | 15 |
| - — 240 lamb-skinn (vorl.), einlit hvert - | „ | 6 | 15 | „ | 12 | „ | 6½ | 16 | 24 | 13 | „ | 7 | 17 | 48 | 14 |

| | Í Húnav.- og Skagaf.-sýslum. | | | | | Í Eyjaf.- og Þíngeyjar-sýslum. | | | | | Í báðum Múlasýslum. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. |
| *G.* Ýmislegt: | rd. | sk. | rd. | sk. | sk. | rd. | sk. | rd. | sk. | sk. | rd. | sk. | rd. | sk. | sk. |
| 1 st. 6 ℔ af æðardúni, vel hreins. ℔ á | 3 | 37 | 20 | 30 | 16 | 3 | 44 | 20 | 72 | 16½ | 3 | 47½ | 20 | 93 | 17 |
| - — 40 - - — óhreinsuðum - - | „ | „ | „ | „ | „ | „ | 32½ | 13 | 52 | 11 | „ | „ | „ | „ | „ |
| - — 120- - fuglafiðri . . . . fjórð. - | 2 | 92 | 35 | 48 | 28½ | 2 | 93½ | 35 | 66 | 28½ | 3 | 44 | 41 | 48 | 33 |
| - — 480- - fjallagrösum . . . — - | „ | „ | „ | „ | „ | „ | 47 | 23 | 48 | 19 | „ | „ | „ | „ | „ |
| 5 álnir 1 dagsverk um heyannir . . . . | „ | 81 | „ | „ | 16 | „ | 79½ | „ | „ | 16 | 1 | „ | „ | „ | 19 |
| - — 1 lambsfóður . . . . . . . . . . | 1 | 34 | „ | „ | 26 | 1 | 37 | „ | „ | 26½ | 1 | 20 | „ | „ | 23 |
| **MEÐALVERÐ** á hverju hundraði og hverri alin í nefndum landaurum verður: | | | | | | | | | | | | | | | |
| eptir A, eða í fríðu . . . . . . . . . . . . . . . | | | 27 | 80½ | 22½ | . . . | . . . | 30 | 54 | 24½ | . . . | . . . | 32 | 67 | 26 |
| — B, — - ullu, smjöri og tólg . . . . . | | | 29 | 36 | 23½ | . . . | . . . | 29 | 6 | 23 | . . . | . . . | 30 | 30 | 24 |
| — C, — - tóvöru af ullu . . . . . . . . . | | | 19 | 65½ | 16 | . . . | . . . | 19 | 91 | 16 | . . . | . . . | 24 | 39 | 19½ |
| — D, — - fiski . . . . . . . . . . . . . . | | | 22 | 23½ | 18 | . . . | . . . | 21 | 21½ | 17 | . . . | . . . | 23 | 59½ | 19 |
| — E, — - lýsi . . . . . . . . . . . . . . | | | 23 | 46 | 19 | . . . | . . . | 24 | 49 | 19½ | . . . | . . . | 22 | 35 | 18 |
| — F, — - skinnavöru . . . . . . . . . . | | | 19 | 14½ | 15½ | . . . | . . . | 16 | 73½ | 13½ | . . . | . . . | 16 | 85 | 13½ |
| En meðalverð allra landaura samantalin . . . . . | | | 141 | 74 | 114½ | . . . | . . . | 142 | 7 | 113½ | . . . | . . . | 150 | 27½ | 120 |
| og skipt með 6 sýna: MEÐALVERÐ ALLRA MEÐALVERÐA | | | 23 | 60½ | 19. . . . | . . . | . . . | 23 | 65 | 19. . . . | . . . | . . . | 25 | 4½ | 20 |

# REIKNÍNGUR

## yfir tekjur og útgjöld prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins árið 1855.

| Tekjur. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Eptirstöðvar frá fyrra ári . . . . . . . | .... | .. | 43 | 43 |
| 2. Gjafir: | | | | |
| a, frá skóara S. Norðmann . . . . . . | 4 | „ | | |
| b, — sjera Ó. Þorvaldssyni á Hjaltast. | 4 | „ | | |
| c, samkvæmt sáttasamníngi . . . . . . | „ | 40 | 8 | 40 |
| 3. Fyrir það, sem gefið er út á kostnað prentsmiðjunnar: | | | | |
| a, fyrir Norðra árin 1853 og 1854 . . | 285 | 10 | | |
| b, — — árið 1855 . . . . . . . . | 305 | 24 | | |
| c, — Barnalærdómsbókina. . . . . . | 121 | „ | | |
| d, — Smásögurnar. . . . . . . . . . | 13 | 23 | | |
| e, — nokkrar Markaskrár fyrir Þíngeyjar- og Húnav.-sýslur, 18rd. 16ß, þar af inn komiun . . . . . . . . . | 1 | „ | 725 | 57 |
| 4. Fyrir pappír og prentun fyrir aðra: | | | | |
| a, á Felsenborgarsögum Laxdals, skuld frá f. á. 204 rd. 55 ß, og á þessu ári 65rd. 75ß, samtals . . . . . . . | 270 | 34 | | |
| b, á kvittunarseðl. Þ. Johnsens sýslum. | 1 | 64 | | |
| c, - Boðsbrjefi sjera Jóns í Húsavík . | 3 | 62 | | |
| d, - Sveinsbrjefum Laxdals . . . . . . | 2 | 16 | | |
| e, - Sveinsbrjefi Jónasar Gottskálkss. . | „ | 64 | | |
| f, - Rímum E. Ólafss. á Kaupángi, m. fl. | 49 | 60 | | |
| g, - Markskrá Þíngeyjars., 76rd. 91ß, þar af borgað . . . . . . . . . . . | 75 | 30 | | |
| h, á Markaskrá Húnavatnssýslu . . . . | 56 | 44 | | |
| i, - Spáspilum sjera Sveinbjarnar . . | 21 | 48 | | |
| k, - Leiðarvísi A. Sæmundsens 110rd., þar af borgað . . . . . . . . . . . | 66 | 29 | | |
| l, á Útleggíngar-tilraun sjera H. Espól. | 310 | 50 | | |
| m, - Eptirm. eptir Johnsen lækni (E. Th.) | 7 | 12 | | |
| n, - — — Sama (Schulesen) . . | 2 | 10 | | |
| o, - — — Tómas á Steinsstöð. | 6 | 34 | | |
| Flyt | 873 | 77 | 777 | 44 |

| Útgjöld. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Fyrir letur með flutníngskaupi. . . . | .... | .. | 22 | 13 |
| 2. — 13½ balla af pappír með umbúð. | .... | .. | 708 | „ |
| 3. — eldivið . . . . . . . . . . . . . . | .... | .. | 20 | „ |
| 4. Til ljósa . . . . . . . . . . . . . . . | .... | .. | 10 | 83 |
| 5. Ýmislegt keypt í þarfir prentsm. . . | .... | .. | 25 | 69 |
| 6. Gjört við ýms áhöld smiðjunnar, m. fl. | .... | .. | 8 | 72 |
| 7. Hlutteknúng smiðjunnar í sendif. suður | .... | .. | 9 | 48 |
| 8. Ýms útgjöld . . . . . . . . . . . . . | .... | .. | 91 | 31 |
| 9. Fyrir leiðrjettíng prófarka, m. fl.: | | | | |
| a, til Sæmundsens . . . . . . . . . . | 3 | 35 | | |
| b, - Jóhannesar Halldórssonar . . . | 2 | 88 | | |
| c, - Stefáns Baldvinssonar og Geirs Vigfússonar (einnig þar með talin hreinskript markaskráar-handrits). | 11 | 32 | | |
| d, til Gunnarsens . . . . . . . . . . . | 10 | 72 | | |
| e, - Íngimundar prentara . . . . . . | 20 | „ | 48 | 35 |
| 10. Árleiga eptir prentsmiðjuhúsið . . . | .... | .. | 53 | „ |
| 11. Laun H. prentara Helgasonar . . . . | .... | .. | 300 | „ |
| 12. — Í. — Íngimundarsonar . | .... | .. | 200 | „ |
| 13. — drengsins Baldvins Magn. Stefánssonar, 40rd., þar af borgað . . . | .... | .. | 20 | „ |
| 14. Eptir af launum fyrir ritstjórn og útsendíngu á Norðra 1854 . . . . . . | .... | .. | 33 | 24 |
| 15. Uppí laun fyrir ritstjórn og útsendíngu Norðra 1855. . . . . . . . . . . . . . | .... | .. | 138 | 85 |
| 16. Leiga: | | | | |
| a, af þeim 175rd., sem getið er um í fyrra árs reikníngi . . . . . . . . | 7 | „ | | |
| b, af þeim 100rd., sem til eru færðir tekjumegin (sjá nr. 6. b,) í sama reikníngi . . . . . . . . . . . | 3 | 48 | 10 | 48 |
| 17. Borgað af bráðabyrgðarlánum frá f. á.: | | | | |
| a, til Jóns alþíngismanns á Ytrahóli . | 100 | „ | | |
| Flyt | 100 | „ | 1700 | 28 |

| Tekjur. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| Fluttir | 873 | 77 | 777 | 44 |
| p, á Stundatali sjera Jóns Thorlacíusar | 99 | „ | | |
| q, - Ræðum sjera Sveinbjarnar 48rd. | | „ | | |
| 12ß, þar af borgað . . . . . . . . . | 28 | „ | | |
| r, á Tímatali Gunnarsens, skuld frá f. á. | 19 | 6 | | |
| s, - Grafskript D. Níelss. — — -- | 1 | 48 | | |
| t, - Fjárbæklíng þíngeyínga . . . . . . | 79 | 8 | | |
| u, frá amtm. Havstein fyrir prentun | | | | |
| ýmsra opinberra skýrsla í Norðra 1855 | 16 | „ | 1116 | 43 |
| 5. Bráðabyrgðarlán tekin þetta ár: | | | | |
| a, hjá sjera E. Sivertsen á þaunglabakka | 110 | „ | | |
| b, — verzlun Örum & Wulff á Akureyri | 100 | 61 | 210 | 61 |
| 6. Fyrir leiðrjettíng prófarka . . . . . . . . | .... | .. | „ | 48 |
| 7. Frá Helga prentara fyrir 3daga vinnu sjer | .... | .. | 3 | „ |
| 8. — Íngim. — — 6 — — — | .... | .. | 4 | „ |
| Alls | .... | .. | 2112 | 4 |

| Útgjöld. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| Fluttir | 100 | „ | 1700 | 28 |
| b, til Jóhannesar bónda á Gullbrekku | 19 | 54 | | |
| c, - Erlendar bókbind. á Kaupángi | 20 | 51 | | |
| d, - sýslumanns E. Briems . . . . . | 69 | 85 | | |
| e, - þíngeyínga með prentun fjárr. | 79 | 8 | 289 | 6 |
| 18. Eptirstöðvar: | | | | |
| a, hjá stúd. B. Gunnarsen, eptir af | | | | |
| skuld frá fyrra ári . . . . . . . . . | 8 | 6 | | |
| b, fyrirfram borgað til Helga prentara | 56 | 92 | | |
| c, — — - Íngim. — | 41 | 64 | | |
| d, í peníngum . . . . . . . . . . . . . | 16 | „ | 122 | 66 |
| Alls | .... | .. | 2112 | 4 |

**Athugasemd:**

*Þeir, sem vilja kynna sjer reikníngin betur, geta fengið að sjá skilríki fyrir honum hjá undirskrifuðum.*

Prentsmiðjunefndarinnar vegna:

**Jón Thorlacius.**

# YFIRLIT

## yfir efnahag prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins við árslokin 1855.

| Eigur. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Áhöld: | | | | |
| a, samkvæmt fyrra árs yfirliti | 1285 | 83 | | |
| b, letur keypt 1855 fyrir . . . | 22 | 13 | | |
| c, nótur og saungteikn, m. fl. | 9 | 72 | 1317 | 72 |
| 2. Pappír, m. fl., auk umbúða . . | .... | .. | 799 | 21 |
| 3. Skuldir hjá öðrum fyrir pappír og prentun: | | | | |
| a, umboðsm. A. Sæmundsen fyrir leiðarvísirinn 110rd. „ ß | | | | |
| þar af er borgað 66 - 29 - | 43 | 67 | | |
| b, þíngeyíngum fyrir markaskrá . . . . . . . . 76rd. 91ß | | | | |
| þar af er borgað 75 - 30 - | 1 | 61 | | |
| c, sjera Sveinbirni fyrir ræður hans . . . . . 48rd. 12ß | | | | |
| þar af er borgað 28 - „ - | 20 | 12 | | |
| d, bókb. G. Laxdal fyrir 3 arkir af bænakverinu . . . . | 32 | 25 | 97 | 69 |
| 4. Eptir af andvirði óborgaðra og óseldra bóka: | | | | |
| a, Norðra 1853 og 54 367rd. 46ß | | | | |
| síðan er borgað 285 - 10 - | 82 | 36 | | |
| b, Norðra 1855 . . 625rd. „ ß | | | | |
| þar af er borgað 305 - 24 - | 319 | 72 | | |
| c, Lærdómsbókinni, eptirst. 1854 . . . . . . 287rd. 44ß | | | | |
| síðan er borgað 121 - „ - | 166 | 44 | | |
| d, Smásögunum, eptirstöðvar 1854 . . . . . 232rd. 76ß | | | | |
| síðan er borgað 13 - 23 - | 219 | 53 | | |
| Flyt | 788 | 13 | 2214 | 66 |

| Fjárstofn og skuldir. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Gjafir til stofnunar prentsmiðjunnar: | | | | |
| a, samkvæmt fyrra árs yfirliti . . . . . . . . . . . | 1400 | 14 | | |
| b, greiddar árið 1855 . . . . | 8 | 40 | 1408 | 54 |
| 2. Samlagshluti kaupmanns Á. Ásgeirssonar . . . . . . . . . . | .... | .. | 100 | „ |
| 3. Skuldir: | | | | |
| a, lán án leigu, samkvæmt fyrra árs yfirliti . . . . . . . | 410 | „ | | |
| b, lán á leigu, samkvæmt fyrra árs yfirliti . . . . . . . . | 175 | „ | | |
| c, bráðabyrgðarlán: | | | | |
| 1., tekin 1854: | | | | |
| a, hjá sjera E. Thorlacius . . . 200rd. „ ß | | | | |
| b, hjá sýslum. E. Briem . 57 - 24 - | | | | |
| c, hjá þíngeyíngum (sjá f. á. reikníng tekjumegin nr. 7) 20 - 88 - | 278 | 16 | | |
| 2., tekin 1855: | | | | |
| a, hjá sjera E. Sivertsen á þaunglabakka (á leigu) . 110rd. „ ß | | | | |
| Flyt 110rd. „ ß | 863 | 16 | 1508 | 54 |

| Eigur. | rd. | ß | rd. | ß | Fjárstofn og skuldir. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Fluttir | 788 | 13 | 2214 | 66 | Fluttir 110rd. „ ß | 863 | 16 | 1508 | 54 |
| e, Markaskrár, er prentsmiðjan á ....... 14rd. 56ß | | | | | b, hjá verzlun Ör. & Wulff 100 - 61 - | 210 | 61 | 1052 | 85 |
| innheptíng á þeim 3 - 56 - | | | | | | | | | |
| samtals ...... 18 - 16 - | | | | | | | | | |
| þar af er borgað 1 - „ - | 17 | 16 | 805 | 29 | | | | | |
| 5. Eptirstöðvar, eptir reikníngi fyrir árið 1855 .......... | .... | .. | 122 | 66 | 4. Ávinníngur ............ | .... | .. | 560 | 33 |
| Alls | .... | .. | 3142 | 65 | Alls | .... | .. | 3142 | 65 |

Prentsmiðjunefndarinnar vegna:

**Jón Thorlacius.**

# Frjettir.

## Innlendar.

Hinn 21. þ. m. kom Vigfús póstur Gíslason að sunnan aptur til Akureyrar; hafði hann lagt af stað úr Reykjavík 8. þ. m. — Að sunnan og vestan frjettist sama árgæzkan á landi, sem hjer hefur verið frá í febrúarm. allt fram á þenna dag. Fiskiafli var kominn syðra í allar veiðistöður þar, og svo mikill á Akranesi fyrst í þ. m., að 2 hndr. hlutir urðu þar um vikuna. Sæmilega hafði fiskast undir Jökli og eins við Ísafjarðardjúp. Venju fremur hafði aflast hákarl í vetur syðra og sumstaðar vestra, og á Steingrímsfirði talsvert upp um ís. Fjárpestin hafði verið vægri syðra enn hjer norðanlands, og er sumstaðar haft fyrir satt, að **Glaubersaltið** sem landlæknir Dr. J. Hjaltalín hefur ráðlagt að gefa fjenu, muni hafa varnað henni; og teljum vjer það hina nytsömustu uppgötvun, ef slíkum morðengli, sem fjárpestin er, yrði stökkt úr landi. Það er og haft fyrir satt, að **Homöopatherne** hjer nyrðra, hafi ekki að eins tekist með meðölum sínum að lækna kindur, sem pestin var búin að meintaka, heldur og fleiri sjúkleika skepna, að vjer nú ekki nefnum hvað lækninga aðferð þeirra við menn, er að margra reynd og sögn furðanlega affarasæl, og eins, ef ekki í sumum tilfellum affarasælli enn Allopathanna; það væri því að óprófuðu þess heldur ísjárverðara, fyrir þá er vildu amast við Homöopathien, að fara því fram.

Fiskiafli er nú kominn hjer út í svonefndum Hríseyarálum, og mikill fiskur, væri beita góð.

Þeir sem rjeru til hákarls frá Siglunesi og þar nálægum veiðistöðum um næstl. Pálmasunnudagshelgi fengu frá 10—20 kúta lifrar í hlut. — Selafli er sagður sárlítill á Tjörnnesi og líka á Sljettu.

## Útlendar.

Í seinustu blöðum, sem komið hafa frá Kaupmannah. og Liverpól, voru helzt horfur á því, að stríðinu mundi slota, og friður komast á millum Sambandsmanna og Rússa. Korn hafði þá strax lækkað í verði allt að 8½ rd. Íslenzkar vörur voru þá samt enn í háu verði, saltkjöt pundið 12ß, og pundið af fiskinum nær því annað eins. Lýsistunnan allt að 50 rd. — Kornskipið, sem nokkrir Reykjavíkur kaupmanna áttu von í vetur frá Höfn, hafði lagt fram hjá Helsíngjaeyri 21. janúar næstl., en þó ekki komið til Reykjavíkur þá póstur fór að sunnan, og undraði menn að vonum, útivist skips þessa.

# Mannalát.

Stuttu eptir næstl. veturnætur hafði prófastur sjera Sigurður Jónsson á Rafnseyri látizt, faðir þeirra Arkivsekritera, alþíngism. Jóns og skólakennara Jens. Hann var kominn á 79. ár, hafði verið prestur síðan 1802, prófastur í 12 ár, gáfumaður vel lærður, ágætur kennimaður, bezti úngmenna fræðari, kenndi mörgum piltum undir skóla, forstands, atorku og starfsmaður mikill, góður búhöldur, glaðsinna og gestrisinn, siðferðisgóður og almennt vel þokkaður og virtur; smiður var hann sagður og bezti formaður til sjáfar, og yfir höfuð meðal merkustu presta á Íslandi. Kona hans var Þórdís Jónsdóttir Ásgeirssonar prófasts að Holti í Önundarfirði, ágæta vel gáfuð og merkiskona. Þetta hefur oss ritað Daði fróði Níelsson.

20. d. febrúarm. þ. á. ljezt háyfirdómari, konferenzráð Ridd. af Dbr. Þórður Sveinbjörnsson, eptir 2 dægra legu, var það svonefnd garnaflækja, er leiddi hann til bana. Hann var kominn á 70. ár, hafði fæðst 4. sept. 1786, útskrifast úr skóla 1802, siglt til Hafnar 1817, tók embættispróf í lögvísi með fyrstu einkunn 1820, varð sýslum. í Árnesþíngi 16. maí 1822, æðri yfirdómari í Landsyfirrjettinum 12. apríl 1834, háyfirdómari 15. sept. 1836, konferenzráð 8. júlí 1848, giptist tvisvar, eignaðist í fyrra hjónabandi 2 en síðara 8 börn, af hverjum 6 lifa.

Slisfarir: 10. þ. m. fórust 2 menn af byttu vestanvert við Tjörnnes í Þíngeyjarsýslu, og er hald manna, að þeir muni hafa kollsiglt sig. Um sömu mundir hvolfdi bát með 4 mönnum í lendíngu á Ísafirði, og fórust þeir allir. Annar bátur var þar á leið í fiskiróður með 6 mönnum, og sigldu þeir sig um, 4 komust á kjöl og varð bjargað, en 2 drukknuðu. Rjett áður enn pósturinn fór að sunnan höfðu 2 menn drukknað af báti suður á Vatnsleysuströnd. 5. nóvember f. á. hafði báti hvolft á siglíngu nálægt Flatey á Breiðafirði, og fórst þar 1 maður en 3 varð bjargað. 24. s. m. var Einar bóndi Jónsson á Ögri við Ísafjarðardjúp á sjóleið inn til Vatnsfjarðar, ásamt fleirum, á skipi, og fjell útbirðis, en skipverjar aðrir náðu til hans svo fljótt, að ekki vöknaði nema önnur hlið hans, samt var hann örendur þá hann kom upp í skipið. Einar þessi hafði verið búsýslumaður mikill og ríkur, en drykkfeldur, og í þetta skipti drukkinn.

☞ Til **minnisvarða** yfir læknir sál. **E. Johnsen,** er inn komið, frá sýslum. S. Schulesen 10 rd., Factor L. Schou 5 rd., Assistent P. Th. Johnsen 5 rd., kammeráði J. Johnsen — fyrrum á Melum — 20 rd., prófasti H. Thorlacius 4 rd., presti M. Thorlacius 2 rd., madme Wilhelmine Lever 4 rd., timburmeistara Ó. Briem 2 rd., **alls 53 rd.**

Leiðrjettíngar: Á bls. 93, í 3. árg. Norðra, 1. d. l. 9 a. o verði í annað sinn, les: verði ekki í annað sinn. Í 4. árg. Norðra bls. 10 1. d. l. 11 a. o. innlendar les: útlendar. Bls. 20 1. d. l. 6 a. o. Guðlaugur, les: Halldór.

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

**1856.**

**4. ár. 16. April. 7.**

## Athugasemd um Sumarauka.

Í rjettu bæði' og raungu skal, ræða', en hvörgi þegja, um allrahanda vizku val, Vótum á að segja.
(Njóla vers 277).

**Af** svo nefndri Íslendíngabók, sem skráð er af Ara presti enum fróða þorgilssyni, sjest berlega, hvernig sumarauki er í fyrstu til orðinn, það hljóðar þannig: „þat vas ok þá, es ener spökustu menn á landi hèr, höfðu talit í tveim misserum fjóra daga ens fjórða hundraðs, þat verða vikur 2 ens sètta tegar, en mánuðr 12 þrítög náttar ok dagar 4 umb fram, þá merkðu þeir at Sólargángi at Sumarit munaði aptr til vârsins; en þat kunni engi segja þeim, at degi einum vas fleira enn heilum vikum gegndi í tveim misserum, ok þat olli. En maðr hèt þorsteinn Surtr, hann vas breiðfirðskr, sonur Hallsteins þórólfssonar Mostrarskeggja, landnámamanns, ok Óskar þorsteinsdóttur ens rauða; hann draimdi þat, at hann hygðisk vesa at Lögbergi, þá es þar var fjölmennt, ok vaka, en hann hugði alla menn aðra sofa; en síðan hugðisk hann sofna, en hann hugði þá alla aðra vakna. þann draum rèð Ósyfr Helgason, móðurfaðir Gellis þorkellssonar svâ, at allir menn myndi þagna við meðan hann mælti at Lögbergi, en síðar, es hann þagnaði at, þá myndi allir þat róma, es hann hafði mælt; en þeir vóru báðir spakir menn mjök. En síðan, es menn kvomu til þings, þá leitaði hann þess ráðs at lögbergi, at et sjöunda hvert sumar skyldi auka viku, ok freista hve þá hlýddi. En svâ sem Ósyfur rèð drauminn, þá vöknuðu allir menn við þat vel, ok vas þat þá þegar í lög leidt, at ráði þorkels mána ok annara spakra manna."

það er ekki ónáttúrlegt þó að þeim, sem vel eru að sjer í Fíngrarímslistinni, finnist regla þessi nokkuð óviðfeldin og óeðlileg; það er engin furða, þar sem reglan var á þeirri tíð uppfundin, er þekkíng á öllu þesshàttar var í mesta barndómi. Jafnvel þó áður nefndur sumarauki hafi lengi verið tíðkaður hjer á landi, og sìðvenja sú haldin nauðsynleg og ómissandi: þá munu það vera nokkurskonar missýníngar, sem náttúrlega eru sprottnar af óeðlilegri skoðun og tilhögun á tímatalinu í fornöldinni. Reglan sem fylgt hefur verið í greindu efni, virðist — þegar allt er vel skoðað — að líkjast því, eins og að brúkað væri eitthvert óþægilegt brot í reikningi, þar sem ekkert brot þyrfti að vera, ellegar gjörður væri mikill krókur á alfaraveg, þar sem sá vegur gæti þó verið þráðbeinn. þessu næst ber að minnast á það, sem stendur aptan til í þeim íslenzku almanökum, sem farið var að prenta í Kaupmannahöfn 1837. þar stendur meðal annars: með tilliti til ársins 12 þrítugnættu mánaða, sem ákvarðast eptir sólarinnar hlaupi gegnum hvert himinteikn í sólmerkja hríngnum; þá sje þessum sólmerkjum sleppt úr þeim nýustu dönsku almanökum; það er líka rjett gjört af Dönum, því sólmerki þessi eru tímareikníngnum til lítillrar nytsemdar.

Sú gamla fornaldaregla, að hafa alla mánuði ársins 30 nætta, fylgir engu rjettu mánaðatali; ekki er það fjögra vikna mánuður, því í honum eru 28 dagar; ekki túnglsmánuður, því það nær engri átt, að hver og einn túnglsmánaður sje 30 nátta. Túnglsins gángur fylgir lögum þeim, sem honum voru í öndverðu sett; ekki fylgir reglan heldur almanaks mánuðum, því að í þeim er misjafnt dagatal; almanaksmánuðir allir samanlagðir hafa á almennum árum 5 daga, og á hlaupárum 6 daga, fram yfir 3tugnættu mánuðina, þar sem skýrskotað er til Rímbeglu, að eptir henni eigi veturinn að byrja á laugardag, þá virðist það — þegar þessi gamla óeðlilega setníng tímatalsins er skoðuð frá rótum — að vera á litlu byggt. Jón biskup Árnason, sem samið hefur Fíngrarímið, hefur sett vetrarkomuna á föstudag og byggt það á þeirri ástæðu, að þegar hlaupár er, sem

er fjórða hvert ár, þá verða jafn margir dagar í báðum missirunum, en á almennum árum einum degi fleira í sumrinu, heldur enn í vetrinum, og það fer betur enn hitt. Rímbegla er gamalt smíði, og nokkurskonar nauma smíði; þegar við berum Fíngrarímið saman við Rímbeglu, þá sjest það, að Fíngrarímið ber af henni eins og gull af eiri, það er rjettkallað meistara stykki.

Það, sem áður er sagt um sumaraukann, það er ekki sagt í þeirri meiníngu, að niðra þeim merkismönnum, sem uppfundu hann, og gjörðu það að lagareglu; hitt verðum við að játa, að þeir lifðu á þeirri tíð, er þekkíng á öllu þess kyns var bæði hjer á landi og í flestum löndum Norðurálfunnar í barnæsku; þess vegna er ofmikið að ætlast til þess, að þeir myndi finna það, sem bezt átti við og rjettast var í þessu efni. Hjer þarf ekki lángt að fara til þess að sýna, svo allir geti skilið, hvað óeðlileg þessi gamla setníng er, um sumars og vetrarkomu, og þar af sprottinn sumarauka. Ímyndum oss, að einhver kæmi sá, sem segði: við skulum brúka sömu reglu við Jóladaginn eins og brúkað er við sumars og vetrarkomu, og mánaðanna Þorra, Góu og Einmánaðar; við skulum láta Jóladaginn ætíð bera sama vikudags nafn, nefnil. fimtudags nafn, eins og sumardaginn fyrsta, eður sunnudags nafn, eins og fyrsti dagur Góu hefur; væri þessari reglu fylgt, þá færi Jóladagurinn að brúka sama krabbagánginn, eins og 30 nátta mánuðirnir. Það virðist ekki að vera á rjettum grundvelli byggt, að allir fyrstu dagarnir, í öllum 30 nátta mánuðunum, skuli ætíð ár eptir ár eiga sama vikudags nafn; þessi regla er frábrugðin þeim rjetta gángi tímatalsins, og getur aldrei átt vel við; það gjörir hinn eini dagur á öllum almennum árum, og á hlaupárum þeir 2 dagar, sem eru fram yfir þær 52 vikur í árinu.

Það eru forlög heims þessa, sem vær lifum í, að allir hlutir i honum eru breytíngum undirorpnir; það virðist að vera í eðli sínu, og tilhlýðilegt, að fastsetja sumars og vetrarkomu á vissan dag mánaðar, eins og er með Jóladaginn, og alla aðra messu- og merkis-daga ársins, sem ætíð eru sama dag mánaðar. Eptir gömlu reglunni kemur sumarið í fyrsta lagi 19. apríl, en í síðastalagi þann 25. s. m. Tökum nú meðalveginn og látum sumarið ætíð koma 22. apríl; Þorri, Góa og Einmánuður geta haldið sínu forna dagatali, og þessir mánuðir koma þá, hver fyrir sig, ætíð sama dag mánaðar. Eptir þessari setníng kemur Þorri ætíð 22. janúar, Góa eins 21. febr. Einmánuður 23. marz. Sumar eins og áður er sagt 22. apríl. Fardagar þegar 6 vikur eru af sumri 3. júní, miðt sumar 22. júlí, vetur 22. október. Af þessu flýtur: að á öllum árum, hvort það eru almenn ár, eður hlaupár, verða ætíð jafnmargir dagar frá fyrsta vetrardegi til Jóladags; eins á öllum almennum árum, jafnmargir dagar frá Nýársdegi til sumars, og til Fardagakomu; hjer getur engin undantekníng haft stað, utan það, sem eðlilegt er, að á hlaupárum verður einum degi fleira í Góunni, eður 31 dagur; en reglan sjálf haggast ekkert fyrir það, heldur stendur allt í sömu skorðum við þá ákvörðuðu mánaðardaga.

Með tilliti til Fardaga eður búskapar ársins, þá aflagar þessi regla á engan hátt þær lagaskipanir, eður búskapatreglur, sem fylgt hefur verið, heldur lagar hún þær, og gjörir gáng þeirra eðlilegan, þar sem Fardagar koma ætíð, eptir þessari niðurraðan, þann 3. júní. Eptir gömlu reglunni koma Fardagar í fyrsta lagi 31. maí, en í síðastalagi 6. júní; hjer er nú tekinn meðalvegurinn, það er sá 3. júní. Væri þessari nýju reglu fylgt, þá aftækist undir eins sá hvumleiði krókur á alfaraveginum, svo hann getur orðið þráðbeinn; sumaraukinn hvirfi með öllum sínum anmörkum; hann má líka missast, því þó hann hafi lengi staðið, þá hefur hann þó ætíð verið ónauðsynlegur.

Þeirri háleitu sannleiks rannsókn er það að þakka, að margar gamlar villur eru reknar í útlegð, og fá aldrei landsvist aptur; það virðist að eiga vel við og vera tignarlegt, þegar fyrsta sumardaginn ber upp á sunnudag. Það verður ætíð, eptir þessari reglu, þegar sunnudags bókstafur er G, nema 25 ár sólaraldar, sem er hlaupár, og sunnudagsbókstafir G. F., þá kemur sumarið á mánadag. Á þessari öld, sem yfir stendur, verða tvisvar sumarpáskar: 1859 og 1886, en þrígáng ber það til, að seinni páskadaginn ber upp á 22. apríl, það verður 1867, 1878 og 1889. Sá 22. október er og verður ætíð á sunnudag, þegar sunnudagsbókstafur er A, utan 13 ár sólaraldar, sem er hlaupár, og sunnudagsbókstafir A. G., þá er sá 22. október á mánadag.

**B. Þorsteinsson** járnsmiður.

---

## Þínghöfðafundur vorið 1855.

(Meðtekinn 30. janúarm. 1856. Ritst.)

1. Miðvikudaginn næstan fyrir Urbanusmessu 1855 var haldinn fundur hjá Þínghöfða í Hró-

arstúngu. Fundinn sóttu hjer um 60 manns og voru margir af þeim valdir til fundarins heima í sveitum. þegar fundur var settur, skýrði varaforseti (því forseti var ekki við vegna veikinda) liðna ársins, frá búbóta tilraunum sem gjörðar höfðu verið árið, sem leið, í ymsum hreppum í sýslunni. Víða höfðu þessar tilraunir verið litlar, vegna fjárskaða áfellisins mikla í fyrra vor og vegna ymsra vor- og haust-anna, sem ávalt hvíla á búendum, meðan húsabyggíngar eru í því horfi sem enn er, og vinnandi menn allt of fáir, eptir hinu mikla verkefni, sem er fyrir hendi á hverri jörð. Enda tálmar nýjum búnaðarbótum allvíða gömul vanafesta.— Jarðeplarœktin hafði verið reynd í flestum sveitunum, en ávöxturinn orðið minni víða hvar enn fyrra árið. Hins vegar hafði verið reynt miklu víðar. Almennust var kartöfluræktin í Fljótsdal, Fellum og Hjaltastaða þínghá. Hvergi höfðu verið hlaðnir túngarðar til muna, nema í Vopnafirði einum 475 faðmar. — Víða höfðu verið hlaðnir stíflugarðar til vatnsveitínga, allra helzt í Fljótsdal og Fellum og Hjaltastaða þínghá. Dálítið hafði verið sljett af túnþýfi í 4 hreppum hjer um 830 □ f. Í Fljótsdal hafði verið plægt mikið og í Vopnafirði 5,470 □ faðmar. Skurðir voru grafnir til vatnsveitínga hjá mörgum, mest í Fljótsdal og Fellum. Svörður var tekinn upp til mikilla gagnsmuna, einkum í Borgarfirði og Loðmundarfirði nærri á hverjum bæ. Færikvíar voru notaðar í sumum hreppum og alstaðar af nokkrum búendum. Forir og náðhús höfðu fjölgað. Beitarhús frá bæjum eru mjög víða í sumum sveitunum og fjölga árlega. Vatnskvörnum er líka fjölgað. Heyskoðun og gripaásetníng hafði verið gjörð í flestum sveitum.

2. Næst þessu var rætt um það, hver ráð mundi vera líklegust, til þess að stöðug framkvæmd gæti orðið á jarðabótum árlega í hverri sveit, því þegar illa voraði eða haustaði yrði lítið aðhafst, en það væri mjög títt í harðinda sveitunum. Virtist mönnum helztu ráð til framkvæmda, að reyna að fá 2 eða 3 menn í sveit, sem ynni að jarðabótum allt sumarið fyrir borgun. Skyldi hverr sveit annast sína jarðabótamenn. þá var talað um hvað bezt og óvaltast mundi vera til að efla velgengni búenda, af því er menn þekktu hjer og virtist öllum það vera töðu- og gras-rækt. Til að auka hana, töldu allir áburðinn, vatnsveitíngar og girðíngar; áburðinn þyrfti að auka, með svarðtekju, forum og náðhúsum, tróðan hesta á sumrí og innilegu ásauðar; þá væri líka harla mikið komið undir því, hvernig með áburðinn væri farið. Álitu reyndir menn bezt að hafa hann á sumrum í grunnum tóptum niðrí jörðu, svo lögurinn rynni ekki burtu og áburðurinn væri blautur á haustin, að honum yrði klínt sem bezt á þúfur og út um sljettur. Haugstæðin sögðu menn yrði lagheld með tímanum víðast hvar, einkum ef smiðjumólag væri á botni og í veggjum. það var líka talið gott ráð að geyma hrossatað inní húsum allt sumarið, því það gæti þá ekki brunnið eða maðkað, ekki rignt eða gufað. Einn búandi talda það, eptir reynslu sinni, beztu meðferð á sauðataði til áburðar, að hreifa því ekki í húsunum, fyrr enn á hausti, stínga það þá út eins og eldtað, kljúfa í þunnar flögur og breiða um túnið, en berja snemma á vorum, eða eptir skúri.

3. þá var talað um fjársýkina, sem er nú kominn um flest allar sveitir, og gjörir svo mikinn skaða. Var stúngið uppá því, að velja menn í hverri sveit, sem kunnugir væri sýkinni, til að skrifa Jóni „doctor" Hjaltalín lýsíngu hennar — en hún er hjer marg breytileg— segja honum, hvað menn hefði reynt og virzt betra enn ekki og biðja hann svo reyna að finna meðöl eða ráð við henni.

4. Var rætt um búnaðarskóla, en ekki fundu menn ráð, að svo komnu máli, til að koma honum upp.

5. því næst barst í umræðu, hverr árángur hefði orðið, af tilraunum, sem gjörðar voru í fyrra, að koma á verzlunarsamtökum og vöruvöndun. Höfðu sumstaðar komist á nokkur samtök —einkum í Fljótsdal— en víða tálmuðu skuldir. Kaupmenn höfðu reynt að ónýta samtökin þar sem nokkur gjerð var í þeim. þó höfðu sumir haft hagnað af þeim og fáeinir fengið 1 eða 2 sk. meira, enn almennt varð, fyrir hvert pund af vandaðri vöru. Sumir kaupmenn höfðu líka játað sjálfir, að þeir hefði fengið með mesta móti vandaða vöru.— Flestir álitu smá samtök hagkvæmari enn stærri, því smákaupmenn gæti ei fullnægt stórum fjelögum; þó skyldi nokkurs konar samtök vera milli smáfjelaganna. Svo var minnst á að ráðlegt væri, að menn sjeu valdir í sveitum, til að vera í ráði með búendum, hvað margt fje og hvaða fje þeir ljeti í kaupstað, ef enskir kæmi til fjárkaupa.

6. þá var talað um vegabætur og voru menn kosnir í nefnd, að rita bænarskrá með uppástúngu til alþíngis, um breytíngu á vegabótalögunum. En í sumar skyldi kaupa menn, fyrir frjáls tillög, til að bæta veginn á Fjarðarheiði til Seyðisfjarðar. Var einn maður á fundi sem bauðst til vegabóta. Svo voru kosnir 2 hreppstjórar til umsjónar verkinu og hreppstjóranum úr Eyðaþínghá afhent vegabótafje, úr Fljótsdal 30 rd., Fellum 11 rd. 65 sk. og sjálfur geymdi hann frá fyrra ári 8 rd. 84 sk.

7. Komu fram nýjar uppástúngur 1., um það að leggja niður offur til presta, því þau yrði engan vegin til þess, sem til var ætlað, að bæta brauðin fátækustu, var seinast ályktað að rita um það efni í dagblöð. 2. Um betri stjórn á Kristfjárjörðum, enn gengst við hjer um sveitir, og urðu sömu málalok og um 1. uppástúngu. 3. Um tálmun á giptíngum fjelausra manna, óreglumanna og ónytjúnga. Varð margrætt um það efni með og móti og virtist ei ljett til ráða, svo eðlilegt frelsi manna væri ekki skert um skör fram. þótti mörgum líklegt, að vitnisburðir vandaðra húsbænda

mundi bæta mikið um. Svo var ráðgast að rita um þetta efni í blöðin.

8. Var talað um að semja þakklætis ávarp, til þeirra manna í Danmörku, sem mæltu mest og bezt fram með verzlunarfrelsi Íslendínga á þíngi Dana í fyrra vetur. Þótti hlýða bezt að biðja fundarmenn á Þíngvelli að semja þetta ávarp í nafni landsmanna og eptir bón þeirra. Og voru valdir 3 menn til að rita bónarbrjef á Þíngvöll um þetta efni.

9. Þá var hreift nýmæli um það að nauðsyn væri að bæri að bæta nautakyn búenda, því það hefði verið vanrækt meira enn um sauðfjenaðinn og væri til mikils halla bjargræði manna. Menn töldu víst að koma mætti upp góðum mjólkurkúm, út af þeim beztu sem nú eru hjer, ef menn væri vandir að kynstofnunum og bætti kálfaeldið. Var þeim, sem helzt vilja efla búsæld í sveitunum falið á hendur að reyna að koma á endurbótum í þessu efni.

10. Kom til umtals og varð margrætt, hvernig líklegast mundi að ráða bót á vanspilun og meinlegu sjálfræði úngra manna, sem helzt til víða brennur við í sveitum og gjörir svo marga af uppvaxandi kynslóðinni ólíklega til ráðdeildar og manndáða, velmegunnar og loflegra siða. Niðurstaða þessa umtals varð sú, að biðja forstöðumenn sveitanna, ef áfátt væri í þessari grein í þeirra sveit, að reyna að ráða bót á því og einkum með því, að hvetja húsbændur og feður úngra manna til, að vera í ráðum með þjónum sínum og börnum, um ráðlag þeirra; reyna líka að fá únga menn, þá sem þar væri efnilegastir, greindastir, og siðbeztir að gjöra samtök sín á milli, til að leiða sína líka og jafníngja til ráðdeildar og siðprýði.

11. Var enn rætt um, hvert menn fyndi nokkur ráð, sem væri álitleg til að minka kaup á óþarfa vörum, svo sem: kaffi, vínföngum og tóbaki. Margt var talað um þetta efni, en bar að sama brunni og fyrr, að menn hjeldu flestir mundi veiða helzt til of tregir í stríðinu við sjálfa sig og venjuna og þá væri ekki vorkun að setja sjer fyrir að auka ekki óþarfa kaupin framar enn orðið er; væri ofmikið orðið um þó ekki yrði meira. Svo var forseta fundarins falið á hendur að senda mönnum upphvatníngu um þetta efni og telja til að menn vörnuðust að kaupa óhófs vöru nokkru sinni á árinu optar, enn í kauptíð sumar og haust.

12. Af því tjaldbúð þínghöfðafundar er enn óborguð að miklu leyti þeim sem ljeðu fyrst fje til hennar, var stúngið upp á, að forseti fundarins gjörði áætlun, eptir efnahag sveitanna, um það, hvað hverri sveit, sem fundinn sækti, bæri að leggja til að rjettum jöfnuði, svo tjaldið yrði almenníngs eign. Skyldi svo forseti auglýsa þessa áætlun. Nokkrar sveitir eru þegar búnar að gefa fje til tjaldsins.

13. Þá var síðast rædd og samþykkt uppástúnga þess efnis að sveitamenn kysi menn á vorfundi, svo marga, sem þeim litist og farið gæti. Var framkvæmdamönnum vorfundarins falið á hendur að gángast fyrir þessu.

Þessi skýrsla um þínghöfðafund í vor eð var, komst lángtum seinna frá mjer, enn jeg vildi, því mig hafa vantað og vanta enn skýrslur um jarðabætur í einni sveit, þar sem lang mest er gjört. Því get jeg ekki heldur tekið fram, svo sem neitt, með tölum, í fyrstu grein skýrslunnar, um jarðabætur.

Skrifað í októbermánuði 1855.

S. G.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

10. þ. m. kom austanpósturinn híngað, og sama dag sendimaður sunnan úr Borgarfirði, og er allstaðar að, að frjetta sömu veðurblíðuna og hjer hefur verið. Farið er að slá í jörð og víða byrjuð vinna á túnum, að húsabyggíngum, jarð- og garð-yrkju.

## Útlendar.

Þá áðurnefndur sendimaður fór að sunnan, höfðu 2 kaupskip verið komin í Reykjavík, 1 á Búðum. 2 skip eru komin á Skagaströnd og 1 á Hofsós. Með þeim frjettist, að dýrtíðin sje hin sama erlendis og áður. Um stríðið fer tvennum sögum, önnur að friðar sje von, og gángist Napóleon keisari mjög fyrir því; hin að Ameríkumenn ætli að skerast í lið með Rússum.

---

**Mannalát.** 2 menn urðu úti í vetur á Þorranum í góðu veðri millum bæa, annar frá Fagradal í Breiðdal, hinn frá Árnanesi í Hornafirði, og er meiníng manna að þeir báðir hafi orðið bráðkvaddir.

---

# Auglýsingar.

Nýlega hefur verið prentuð hjer í prentsmiðjunni, svo nefnd **Sumargjöf** handa **Foreldrum,** eður lítill **leiðarvísir** til að venja börn, eptir Ársritinu **Gestur Vestfirðingur** 1. ár, bls. 75 — 80, sem mannvinur og merkismaður nokkur, hver beðið hefur að dylja nafn sitt, hefur kostað til prentunar, og mælst til að vjer sinna vegna, vildum útbýta gefins meðal foreldra, að svo miklu upplagið, sem er 1500 expl. hrökkur, til þess að sem flestum gefist færi á, að lesa og hugleiða þær sönnu kristilegu lífsreglur, sem tjeður **Leiðarvísir** inniheldur, og að hinn heiðraði höfundur hans, hvettist því fremur til að semja og gefa út fleiri þesskonar, allt of sjaldgæfu ritgjörðir um barna-uppheldið, hvað hann svo rjettilega taki fram að sje aðal undirstaða til heilla og velgengnis hvors eins sjerílagi, og heilla þjóða að gjörvöllu.

Vjer óskum því alúðlegast, að þjer hinir háttvirtu og heiðruðu landar! sem hafið haft á hendi útsölu blaðsins „Norðra", vilduð gjöra svo vel, að útbýta þeim expl. af **Sumargjöfinni** yður verða send, meðal foreldra þeirra, þjer hver um sig, álítið bezt vera komna að henni, og ekki eiga neínt Ársrit Gest Vestfirðíng.

---

Til minnisvarða yfir læknir sál. **E. Johnsen,** hafa ennfremur gefið: sýslum. L. Thorarensen 50 rd., apothek. O. Thorarensen 20 rd., sem samanlagt með áður innkomnum 53 rd., er alls **123 rd.**

---

☞ Það voru 3 rd. sem timburmeistari Ó. Briem gaf til minnisvarðans, en ekki 2 rd., eins og síðast hafði misritast í 6. blaði Norðra.

---

Leiðrjettíng: Á bls. 24. 1. d. 5 l. a. n. 50 rd. les **40 rd.**

---

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. | 30. April. | 8.

Í 6. bl. þ. á. höfum vjer fengið að sjá reikninga prentsmiðjunnar fyrir árið 1855, en þvímiður enga skýrslu yfir hvað prentað hefur verið í henni að arkatali s. á. nje hvað prentun hverrar arkar fyrir sig, auk pappírsins, hefur kostað, og höldum vjer þó slíka skýrslu eins nauðsynlega og sjálfa reikníngana, og sem prentsmiðjunefndin ætti að láta fylgja þeim árlega, því þesskonar skýrsla sýnir hvað unnið hefur verið, og að hvað miklu leyti vinnan svarar til þess, til hennar er kostað, eða launaupphæðar prentaranna; hún sýnir hvernig prentsmiðjan stendur sig og hvernig henni er stjórnað í vinnulegu, eins og reikníngarnir eiga að gjöra það í reikníngslegu tilliti, og þetta er að vorri hyggju í svo nánu sambandi, að það má ekki slítast í sundur, því þess heldur sjá menn á hverju prentsmiðjan græðir, eða hvað það er helzt, sem firrir hana fje. Það ætti og að gjörast sjerstakleg grein fyrir tilkostnaði og arði á því sem prentsmiðjan sjálf gefur út af bókum eða blöðum, t. a. m. Norðra, sem hún næstl. ár, auk alls tilkostnaðar til hans, hefur unnið fulla 200 rd.

Oss virðist, sem tjeð skýrsla mætti vera þannig löguð, jafnframt því vjer tökum til dæmis, það sem prentað hefur verið hjer í prentsmiðjunni nefnt ár 1855, og er, að svo miklu oss er kunnugt, að arkatölu og prentunarkostnaði, þetta:

| | Arkatal. | rd. |
|---|---|---|
| Fjárrit Þíngeyínga | $2\frac{1}{4}$ | 30 |
| Af Felsinborgarsögunum | 4 | 32 |
| Markaskrá Þíngeyjarsýslu | $3\frac{1}{2}$ | 49 |
| — — Húnavatnssýslu | $3\frac{1}{6}$ | 38 |
| Rímur af Fedor og Efemíu í litlu broti | $4\frac{1}{2}$ | 27 |
| Ritgjörð umboðsm. herra A. Sæmundsens, um saung | $5\frac{1}{2}$ | 68 |
| Spáspil sjera Sveinbjarnaar | $2\frac{1}{2}$ | 10 |
| Tilraun Espólíns yfir þýðíngu á Opinberunum Jóhannis | 16 | 192 |
| flyt | $41\frac{5}{12}$ | 444 |

| | Arkatal. | rd. |
|---|---|---|
| flutt | $41\frac{5}{12}$ | 444 |
| Stundatal sjera J. Thorlacii | $4\frac{1}{2}$ | 54 |
| Grafskriptir, kvittunarbl., boðs- og sveina-brjef, allt hjer um | 3 | 20 |
| Af Norðra 1855 | $11\frac{1}{2}$ | 161 |
| Samtals | $60\frac{5}{12}$ | 679 |

en þess er að gæta, að af tjeðum 679 rd. dregst þriðjúngurinn eða 226 rd. 32 sk., sem eru lagðir til, og ekki má minna vera, auk vinnulauna fyrir sjálfa prentunina, t. a. m. að þá vinnalaunin eru 8 rd. á örkina, er bætt við 4 rd., svo það verða 12 rd., upp í kostnað er þarf fyrir húsaleigu, eldivið, ljós, svertu, í valsa m. fl., slit á letri, áhöldum, og fyrir ýmsar aðgjörðir, verða þá eptir 452 rd. 64 sk., og er það upphæð þess, er prentararnir með starfa sínum hafa unnið prentsmiðjunni inn hið liðna ár, en launaupphæð þeirra alls 550 rd.? Jafni menn nú í annan stað áðurnefndum 226 rd. 32 sk. saman við önnur útgjöld prentsmiðjunnar árið sem leið, hrökkva þeir vart þeim til lúkníngar. Hvað hefur þá prentsmiðjan að styðjast við fyrir árleg útgjöld sín þegar hún er búin að missa af blaðinu, enn síður að hún geti kvittað neitt af skuldum sínum? að vjer ekki nefnum hvað henni er óvíst fje fyrir sumt hvað hún á í óseldum bókum t. a. m. Smásögunum. Og ef ofan á allt þetta yrði slengt öllum kostnaði er leiðir af málastappi því hún er komin inn í. Þessi hagur prentsmiðjunnar, er nokkuð ólíkur því, þegar í vetur kom upp, um það leyti verið var að semja reikninga hennar, að hún hefði unnið á vinnu prentaranna einúngis þetta ár 150 rd., og og yfirhöfuð að öðru samanlögðu 550 rd.

Ekki að eins stjórnarnefnd prentsmiðjunnar, heldur og aðrir hlutaðeigendur hennar, þyrftu að láta sjer annt um, að koma högum hennar, verkaumsjón og stjórn í annað horf enn er núna, eigi hún ekki að verða öðrum að byrði, eða vonum bráðara að líða undir lok.

Af því vjer vitum til þess, að einhverjir munu þeir, sem ætli sjer að láta í ljósi athugasemdir sínar við sjálfa prentsmiðju-reiknínganna, leiðum vjer það hjá oss, að minnsta kosti þángað til vjer heyrum eða sjáum, hvað þeim segist vel.

Að lyktum viljum vjer geta þess, að í landsprentsmiðjunni hafa verið prentaðar næstl. ár 209$\frac{5}{8}$ arkar, sjá Þjóðólf 8. ár 14. bls., en frá því hvað margir unnið hafa þar að prentstörfum greint tímabil, getum vjer því miður ekki með vissu sagt, sem væri til samanburðar við það, hjer hefur unnist í prentsmiðjunni. Mundi nú ekki bezt að leigja hana með áhöldum einum eða fleirum mönnum, mót 100rd. leigu um árið og veði í fasteign?

---

## Sagan um Sigurð Bjarnason

í 14. blaði Norðra 1855.

Það fer næsta vel og er þarflegt, að halda á lopti, í dagblöðum og umræðum, sómaverkum manna og hitt er ekki heldur ónýtt, að minnast hins, sem ferst ódrengilega eða illa, öðrum til varúðar. En þá ríður á að segja satt, svo engin verði fyrir lognum óhróðri. Í sögunni um Sigurð Bjarnason (14. bl. Norðra 1855) er ekki allt satt — það veit jeg með fullri vissu. — Það er líklega rjett hermt þó íllt sje um þá, sem fóru með honum yfir Smjörvatnsheiði. Mjer er það ókunnugt. En það er mishermt, að hann hafi farið litlu betri frá Höfða, enn hann kom. Hann kom þángað með 3 sár á fíngrum ekki stór, en ill. Þegar hann fór (10. ekki 8. febr. eptir 7 vikna dvöl) voru 2 sárin að mestu gróin og hið 3. orðið mjög lítið. Þá þurfti læknir að fara heiman og vera lengi í burtu. Því var Sigurði ráðlagt að halda heimleiðis og brúka meðöl sín þar. Læknir ráðlagði honum að fara stuttar dagleiðir og útá Hellisheiði, því þar er skamt milli byggða, og fá fylgðir. Um það leyti voru logn og staðviðri, en mikil frost. Þegar Sigurður kom úr Vopnafirði var tíð lángtum veðra meiri og harðari. Það er óskiljanlegt, hafi Sigurður aumínginn verið svo veikur sem sagan segir, að hann skyldi ráðast í að fara Smjörvatnsheiði, slíkan heljar fjallveg, en fylgja ei heldur ráði læknis, að fara krókinn og stuttu heiðina.

Jeg hefi minnzt hjer á það, sem jeg veit glöggt að er of hermt í sögunni um S. Bjarnason af því það er skilt öðru sem jeg hefi heyrt um sinn í orðum einstöku manna um lækni okkar austfirðínga Gísla Hjálmarsson, að þeir ámæli honum, þó hann geti ekki fullnægt óskum eg vilja allra sem leita hans og leggja honum stundum í vanþökk aðgjörðir hans og segja skakkt frá. En jeg tel þetta verr gjört enn margt annað misjafnt. — Það er fyrst, að engin lifandi maður, og sízt í svo ókljúfandi ætlunarverkum sem hann, getur gjört eins og öllum líkar. Svo er og hitt að fáir eru færir til, að dæma rjett um aðgjörðir lækna. Þó eitthvað væri hæft í, að læknir okkar væri ekki nú eins eptir vilja manna og áður, er honum meira vorkunarmál enn flestum öðrum, Allir sem hafa þekkt hann, síðan hann varð hjer læknir, verða að játa, að hann stundaði köllun sína með svo miklum áhuga og dugnaði, að slíkt munu vera fádæmi hjer á landi um lækni, enda var aðsókn til hans fjarskaleg, og hann sýndi í allri hjálp sinni og aðferð mannelskulega hluttekníngu í böli annara og vildi breiða sig út yfir og bæta sem mest úr eymd allra, er hann náði til, og honum vannst furðu mikið. Nú er hann kominn lángt á leið að slíta út fjöri og kröptum sínum — þó hvorttveggja væri mikið — í þessum störfum, að leitast við að bjarga lífi og heilsu manna. Það er því ekki furða þó hann tæki að letjast. Hann kom okkur á meira og betra enn við gátum vænt með sanni; því bregður okkur við, að hann getur ekki verið allt af eins. Og þegar svo er farið að hnigna fjöri, kröptum og heilsu þeirra, sem hafa lagt sig alla fram að hjálpa og hugga aðra, þá er sárt fyrir þá að meðtaka vanþakklæti í heimgjald. Lofstír þeirra kemur jafnan upp, þegar þeir eru liðnir, það er satt. En — ekki veit jeg, hvort þeim getur þá hugnast hann og okkur er enginn sómi að geyma hann þángað til. Minna má ekki vera enn þeir njóti sannmælis meðan þeir eru. Það er ekki okkur að þakka þó slíkir menn geti ávalt haft hjá sjer þessa huggun: „hverr sem vinnur landi og lýð, treysta má að öll hans iðja, allt hið góða muni styðja, þess fyrir hönd, er hóf hann stríð."

Austfirðíngur.

---

Það er orðið að venju, að blöðin haldi uppi heiðri eg virðíngu ýmsra merkis- og dugnaðarmanna hjer í landi, og er þetta því betur gjört, sem hitt er lakara, að viðurkenna ekki, eður láta ekki með einu orði ásannast, hvílíkt gagn og sóma framm úr skarandi greindar- og dugnaðar-menn vinna bæði landi og lýð; því eins og það er sannmæli: að verður er verkamaðurinn launanna, svo

er það líka rjett: að þeir verðugu sjái vott um þakklætis tilfinníngu landa sinna, ekki sízt þeirra, sem þeir hafa hjálpað og aðstoðað í mörgum neyðar tilfellum. En þetta gleymist þó mjög opt, svo sumra helztu mannanna, þó leikmenn sjeu, sjezt hvergi getið. Hjer í sýslu hefur lengi búið, og býr enn, einn mjög merkilegur maður; það er bóndinn **Benidikt Einarsson** í **Hnausakoti.** Blöðin hafa enn nú ekki getið hans að neinu, þar sem þó fyrir laungu er þjóðkunnugt orðið, hvað vel honum hefur heppnast með sínar lækninga tilraunir, auk þess, sem hann með mörgu öðru hefur áunnið sjer heiður og virðíngu.

Strax á ýngri árum sínum, lagði hann sig eptir þekkíng á sjúkdómum, og að ráða bót á þeim; brúkaði hann þá mest meðöl af innlendum grösum; varð hann fljótt heppinn í þessu, eg leituðu því margir til hans, sem von var, þegar, eins og þá stóð, var mjög fátt um lækna, og alls enginn hjer í sýslu; en á seinni tímum, hefur hann meðfram brúkað útlend meðöl, og með sjerlegri heppni læknað fjölda margra sjúklínga; hefur honum einna bezt tekist að lækna þá sjúkdóma, sem flestum lœknum hafa orðið þúngir viðureignar, en það er hin svo kallaða Taugaveiki (Hypocondrie og Hysterie) og Ormasýki; hafa mjög margir þess háttar sjúklíngar sókt til hans, bæði hjer innan sýslu, og úr öðrum fjarlægari sveitum, og flestir ef ekki allir þegið af honum fullkomna heilsubót.

þess er líka getandi, að lækninga tilraunir hans hafa kostað mjög lítið, og flestir mátt borga honum eptir þeirra eigin vilja og lundarlagi; hefur þar af eðlilega leitt, að þetta hefur töluvert hnekkt búsumhyggju og búsæld hans, og hann þaraðauki hefur búið á fremur ljelegri jörðu, og verið inntektalaus bóndi; en góðsemi, viðkvæmt hugarfar og laungun til að hjálpa öðrum hefur jafnan setið í fyrirrúmi fyrir hans eigin hagsmunum. — Hjeraðauki er hann þjóðhagasmiður á járn, trje og kopar, og bezta skytta, eg hefur með því unnið sinni sveit hið mesta gagn. — Ábýlisjörð sína hefur hann mikið bætt, eptir því sem kostur er á; að gjört verði, og byggt upp allan bæinn að nýju, sterklega og vandlega. Enn fremur er hann sjerlega gestrisinn, og góðsamur við þá, sem bágt eiga; ráðhollur og ráðdrjúgur, tryggur og vinfastur; nærgætinn og vel fróður í mörgu eptir því sem af leikmönnum er að vænta. — Af því sem jeg nú hefi sagt um hann, og sem jeg veit fyrir víst að allt er á gyldum rökum byggt, vona jeg að allir sjái, að hann hefur áunnið sjer heiður og virðíngu, og, á skilið þakklæti landa sinna og sveitúnga, ekki sízt fyrir sínar heppilegu lækníngar, því svo er líf og heilsa dýrmætt, að vel er verðugt, að minnast hjálparinnar, með þakklátsemi.

Jeg vildi einnig óska þess, að yfirvöldin okkar Húnvetnínga, vildu sem fyrst hlutast til um það, og mæla með því, að vor allramildasti kónúngur veitti þessum dugnaðar- og gagns-manni verðskuldað heiðursmerki, honum til virðíngar, en öðrum til upphvatníngar í gagnlegum fyrirtækjum og heiðursverðum dugnaði.

Ritað í janúarmánuði 1856.

Húnvetníngur.

---

þó að löggjöfin á umliðnu ári með tilskipun af 28. marz, hafi meðal annars bannað alla verzlan á sunnu- og helgidögum, þángað til eptir miðaptan, hefur samt reynzlan sýnt hjer, að fólk engu að síður hefur — ef ekki freistað okkar til að gæta miður þessa lagaboðs enn skylt er. — þá samt sem áður komið híngað til að bíða eptir miðaptans verzluninni á helgikvöldum, víst optast nær að nauðsynjalausu; en þareð við undirskrifaðir, eptir vikuverk okkar við verzlunarstörf, helzt viljum hafa allann sunnu- eða helgidaginn fríann, okkur til hvíldar og endurnæríngar, höfum við komið okkur saman um: að hafna allri helgidaga-verzlun frá morgni til kvölds árið um kríng, að undanteknum þeim tíma, sem haustverzlan varir, að reikna frá fyrsta slátur tökudegi til skip sliglíngar; því á þessum eina tíma getum við álitið að það kynni vilja svo til, að kaupanautum okkar gæti orðið meinlegt að missa af þessum litla kvöldtíma.

Til styrkíngar þessu áformi okkar, höfum við undirgengist að gjalda 10 ríkisdala sekt í hvert skipti. sem það sannast á nokkurn okkar, að hann hafi brotið þessa okkar samþykkt, án brýnustu nauðsynja, og skulu sektir þessar gjaldast beinlínis inní Seyðisfjarðar fátækrasjóð.

Til þess að öllum kaupendum vorum geti orðið kunnug þessi samþykkt okkar, sláum við henni upp í verzlunarbúðum okkar, og ásetjum oss enn fremur að láta prenta hana í blaðinu Norðra, við tækifæri.

Seyðisfjarðarverzlunarstöðum 19. d, marzm. 1856.

C. Grönvold. Gustav Iversen. J. Arnesen.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

21. þ. m. frjettist híngað að sunnan og vestan, aðþar væri sama árgæzkan sem hjer nyrðra og eystra, enda munu þess fádæmi síðan er land þetta byggðist, að jafngóðviðrasamur vetur hafi komið sem hinn næstl. að undanskildum kaflanum. frá nýári til miðs febr. sem var býsna harður og hretið í næstl. viku sem sumst. varð stórkostl.—Skepnuhöld eru alstaðar góð í tilliti til heybyrgðanna, en aptur ekki óvíða, helzt vestra, kvartað yfir

vanþrifum og veiki í fje, helzt lömbum, og 1 bóndi fyrir sunnan, er sagt að hafi misst 80 af 90 lömbum hann setti á í haust. Á suðurlandi höfðu hlutir af fiski verið orðnir í meðallagi. Undir Jökli 5 hundr. hlutir á páskum, og við Ísafjarðardjúp fiskhlutir 100 rd. virði. 1 þilskip hafði farið þar í hákallalegu fyrir páskana, verið skamma stund úti og aflað 70 tunnur lifrar. — Frá Gjögri við Reykjarf. var líka róið til hákalls um sömu mundir og aflaðist þá 14—28 tunnur lifrar á skip. — Allt að þessu í vor, hefur hjer verið gæftalítið, og ekki nema einstakir aflað vel hákarlinn, en þó enginn í einum róðri eins og Jónas Jónsson frá Látrum, sem hefur verstöðu sína í Grímsey, og aflaði 60 kúta lifrar, sem vjer höldum þar dæmalaust. — Nú er hjer vegna selslángurs fiskilaust orðið. Á Lánganesi og Sljettu er mælt að um 200 hafi síðan bættst þar við selaflann.

Nokkrir hafa farið hjeðan að norðan úr Bárðardal yfir Sprengisand, úr Eyjafirði Eyfirðíngaveg, og úr Skagafirði Kjalveg suður í Arnes - Rángárvalla - sýslur til hundakaupa nærtl. marz og aprílm., og er án efa sjaldgæft um þann tíma yfir slík firnindi og jökla, sem eru 4—5 þíngmannaleiðir byggða á millum, auk þess sem stór vatnsföll eru á leiðinni. Þess er getið, að allir sem fóru ferð þessa, ljúki upp sama munni um, hve mannúðlegar og gestristnar viðtökur þeir hafi fengið, hvar sem þeir komu syðra, og flesta ef ekki alla hundana gefins.

## Útlendar.

Þá síðast frjettist híngað að sunnan, voru 3 skip komin í Reykjavík og kornskipið fjelagsmanna þar með, sem sumir voru búnir að telja frá. Rúgur hafði þá verið þar 14, en grjón 16rd., kaffi og sikur 28 sk. 28. þ. m. kom híngað briggskipið William, sem stórkaupm. J. Gudmann á, hafði það verið meir enn mánuð á leiðinni að heiman. Einnig er talið skip komið á Sigluf., 2 fiskiskútur á Vopnaf. og 1 með vörur á Seiðisf. William hafði lent í töluverðum ís austan land og aptur norðan Sljettu. Hann hafði mætt 2 bretskum skipum, sem voru á heimleið, hlaðin seli. — Frá útlöndum er að frjetta góða tíð, einkum síðan á jólum. Í Kaupmannah. var korn á 10—11 rd., en hjer er það nú selt fyrir 12 rd. samt mjöl og baunir, grjón 14 rd., sikur og kaffi 28 sk., brenniv. 24 sk.; sömu prísar eru sagðir á Grafarós og Skagastr. Sambandsmenn og Rússar höfðu samið um að vopnahlje skildi verða frá 1. jan. til 31. marz næstl. og á meðan reyna til að semja um friðinn, og skilmálum um hann þá lokið. Allt laut að því, að hann mundi komast á og enda talið sem víst. — Til vonar og vara höfðu Sambandsmenn hinn mesta viðbúnað stríðinu til áframhalds. 300 herskip áttu að sendast til Eystrasalts og 100 inní Svartahafið. — Mælt er að Sambandsmenn vilji eyðileggja öll varnarvirki Rússa við Svartahaf, eins og þeir hafa gjört í suðurhluta Sebastópóls í vetur. Rússar eru enn sagðir í norðurhluta borgarinnar. Þá borgin Kars í Litluasíu gafst upp í haust fyrir Múrawieff Rússa hershöfðíngja, var svo þrengt að innbúum hennar, að margir dóu af húngri og mæðurnar þirptust með dauðvona börn sín fyrir fætur hershöfðíngja borgarinnar Williams, og kröfðust að hann dræpi þau niður hrönnum saman; sumir frusu í hel. En þegar borgarmenn höfðu gefist upp, breytti Múrawieff mikið mannkærlega við þá. — Williams beið eptir því, að Ómer jarl kæmi þá og þá, en það brást, því hann fjekk öðrum á hendur herstjórnina yfir her þeim fara átti til Litluasíu, en snjeri sjálfur heim aptur. — Ríkisþíng Dana hafði verið sett 1. marz. — 28. febrúar fjell dómur í máli gl. ráðgjafanna Örsteds, Hansens o. fl. og voru þeir af ríkisdóminum dæmdir sýknir, og urðu þó 8 dómendurnir af 16 á því, að þá bæri að dæma seka, en svo er ákveðið í ríkisrjettarlögunum, að þá jafn mörg atkvæði eru í ríkisdóminum um sýkn eða sekt, skuli hinn ákærði frífinnast. Broch hjet sá er sótti málið, en verjendurnir Sallcath og Liebe. Það er haft eptir „Fædrelandet", að ráðgjafarnir sjeu frífundnir enn hæztirjettur dæmdur. — Ekki er enn útkljáð millum Dana og Ameríkumanna út af Eyrarsundstollinum. Hinir síðarnefndu beiddust að því væri frestað til 14. júní næstk, því þá yrðu þeir búnir að velja ríkisstjóra sinn Pierce, er á nú eptir lögum þeirra að fara frá. — Til ófriðar horfði millum Breta og Ameríkumanna, en menn halda að þeir muni koma sjer saman án þess að fara í stríð. — Keisarainna Napóleons III. ól í vetur sveinbarn, sem heitir Napóleon, Eugene, Louis, Jean, Jósef; guðfeðginin voru hinn heilagi faðir Páfinn og drottníng Óskars Svíakonúngs. Skírnarvatnið var sótt suður í ána Jórdan. — Fjelag það sem gengist hefur fyrir að leggja frjettafleygir yfir Miðjarðarhafið, hefur nú í ráði að leggja annan frá Norðurálfu til Melbourne á Nýja-Hollandi, og er vegalengdin sögð 500 þíngmannaleiðir. — 1. jan. sæmdi konúngur vor herra Rektor Bjarna Johnsen í Rv. og prófast Ásm. Johnsen í Odda riddarakrossi, og hreppstjórana Tómas Bjarnason á Fallandastöðum og Sigurð á Fitjum dannebrogsmanns krossinum.

---

Í gær höfum vjer fengið ritað frá Rv. að algjörður friður væri kominn á, og í dag 3 Maí sannspurt hið sama frá Seiðisfirði með nýkomnu skipi þar einnig að ísl: og útl: vörur væru lækkaðar í verði t. a. m. kaffi og sikur til 24sk. eða meir o. s. frv. Á Skagastr: korn 10 rd. kaffi og sikur 24sk.

---

Auðkúla er veitt biskupsskrifaranum kand. J. Þórðarsyni.

## Mannslát.

Herra studiosus juris M. Stephensen, sonur herra prófasts alþíngism. Hannesar Stephensens á Ytrahólmi, hafði dáið í vetur af meinsemd í hjartanu, hafði hann verið mikið efnilegur og vænn maður og harmdauði þeim er þekktu hann. Biskup vor H. G. Thordersen hafði meðal margra íslendínga og annara staðið yfir greptrun hans og flutt 2 ræður, voru þá líka súngin nokkur vers úr sálminum: „Allt eins og blómstrið eina," og hafði Dönum þótt það fagur siður, því það er ekki venja þeirra að sýngja yfir greptrun manna.

## Auglýsing.

Til minnisvarða yfir læknir sál. E. Johnsen hafa enn fremur gefið herra amtmaður Havstein 10 rd., sjera Ólafur á Höfða 6 rd.; sýslumaður Briem 5 rd., kaupmaður Havstein hjer í bænum 5 rd. sem samanlagt við áður innkomna 123 rd., er alls 149 rd.

---

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. 16. Maí. 9.

Jafnvel þó að jeg geti ekki annað enn samsinnt það, sem **„gamall sveitaprestur"** skrifar í 8. árg. þjóðólfs (sjá janúarí- og febrúarímán,) um brauðaveitíngar; þar sem höfundurinn fæst einkum um það, hversu lengi að sumir prestar á útkjálkum sjeu látnir sitja að vesældar brauðum yfir 20 ár o. s. frv., þá samt virðist mjer þetta, þegar rjett er að gætt vera í eðli sínu.

Hvernig ætti t. d. stiptsyfirvöldin að kunna sjer sæmri siðu með brauðaveitíngarnar enn stjórnin með stjórn sína á Íslandi síðan 1848? það er hvortveggja, að við höfum ekki — jeg veit ekki hvað lengi — átt annann eins konúng og Kristján 8., hefði hann setið lengur að völdum, enda er og haft eptir honum: „der gaaer vist mange Ting underlig til i Island", og þó hefur síðan hans fráfall, kastað tólfunum, með aðgjörðir stjórnarinnar. Jeg þarf varla að minna á þær sjerstaklega, því eins og þjóðfundurinn er öllum í minni, svo er og hitt annað, hvað helzt, sem til er tekið af aðgjörðum hennar. En eigum við ekki að vorkenna þetta? Við erum þó vanir að vorkenna hinum blinda þó hann fálmi í myrkri og sem náttúrlega flytur þar af, grípi helzt í það, sem næst er, og höndin nær til. Enn sje sá blindi eða glámskygni nógu fjörugur, þá getur skeð hann stökkvi heldur hátt upp eða niður í einu. Til nokkurs sannindamerkis um, að þetta komi ekki fram einasta í geistlegri stjett, má geta þess, að t. d. fyrir 20 árum síðan fjekk enginn sýslumaður, svo vjer vitum, hærri eptirlaun enn 40 rd. r. s. Nú er þar á mót getið um þá sýslumenn, sem muni hafa 800 rd., án þess þeir hafi skarað fram úr öðrum, svo menn viti; þetta er nú sama sem að standa í neðstu tröppu í stiga og stökkva allt í einu upp í þá 16. Er það ekki dáfallegur stökkur, piltar góðir!

Hvor skyldi þá undra sig yfir því, þó blessuð stiptsyfirvöldin, sem eru að fálma þetta blindandi, geti helzt hitt á, að ná í þá, sem nærstir þeim standa, og sem þar á ofan ekki hafa slitið af sjer státslegu silkiklæðin, heldur enn sjálfum líkamanum á landbúskapar erfiði, því betur gengur að ná í fíkkurnar þeirra og styðja þá? það gengur þá til líkt eins og í skollaleiknum, sem kallaður er, að skollinn finnur þá sízt, sem halda sig lángt frá honum. Hvað varðar um sanna verðugleika hjá þeim, sem eru svo lángt frá sólinni að ekki sjest til þeirra, enda er ólíkt hvað náðardyrnar eru víðari enn port rjettvísinnar um að gánga? En hvenær skyldi bætast úr þessu bræður góðir? Aldrei meðan landslýðurinn ekki má njóta þess sanngjarna rjettar, sem víða er tíðkaður í öðrum löndum, nefnil. að söfnuðurnir kjósi sjer sjálfir presta, og þá hugsun vildi jeg með línum þessum hafa vakið til að gefa yður umtals og umhugsunarefni. En á meðan við ekki fáum því ákomið, finnst mjer náttúrlegast, að vjer biðjum fyrir stiptsyfirvöldunum svona látandi: Faðir fyrirgef þeim; þeir vita ekki hvað þeir gjöra.

5. 8.

---

Nú er XI. útg. af Sálmabókinni farin að berast út um landið, og geta þeir landar mínir farið að dæma um, hvort sú útgáfa á skilið greinina sem stendur um hana í 8. árg. þjóðólfs. Jeg hefi sýnt hana nokkrum mönnum, og hafa þeir ekki orðið samdóma þessari grein ábyrgðarm. Jeg veit nú ekki af hvaða ástæðum að ábyrgðarmaðurinn hefur sett þessa grein, hvort það er af því, að honum er illa við mig eður aðra stjórnendur prentsmiðjunnar; af því hann hefur verið undir sama lögmáli, hvað prentun áhrærir og aðrir; eða af því, að jeg hefi ekkert gefið honum, m. fl.

Ef tilefnið til þessarar greinar ábm. er þetta: að honum sje eitthvað í kala við mig, þá vil jeg biðja hann, að láta það koma fram á mjer; enn

ekki bókum frá prentsmiðjunni, einkanlega þegar það er eins ástæðulaust og nú var með þessa útgáfu.

Reykjavík 14. dag marzm. 1856.

**E. Þ.**

---

Af því jeg er einn af kaupendum Þjóðólfs, þá vil jeg eptirleiðis biðja ábyrgðarmann hans, að bæta pappírinn í blaðinu.

Jeg hefi komið í prentsmiðjuna í Reykjavík og fengið að skoða ýmislegt, hvar á meðal pappír; þar af fræddist jeg um það, að prentsmiðjan átti þá ekki lakari pappír til, enn þann sem Þjóðólfur er prentaður á, sem bæði er móleitur og linur. Það getur nú verið að ábyrgðarm. finnist þetta óþarfi og kostnaðarauki fyrir sig, fyrst hann sjálfur á í hlut, þótt hann hafi fundið að því hjá öðrum, því þessi pappír er án efa mikið ódýrari enn góður pappír; en jeg álít að hann geti unnið það upp á hrossa auglýsíngunum og öðru ljettmeti, sem er í Þjóðólfi.

Búsettur við Faxaflóa.

Sunnlendíngur.

---

Hversvegna sker bókbindari E. Jónsson í Reykjavik svona mikið utanaf nýjum bókum þegar hann bindur þær inn í fyrsta sinni? t. a. m. á Sálmabókinni XI. útg., þar munar sumstaðar rúmum fjórða parti frá því, sem á þeim er óinnbundnum.

Reykjavíkíngur.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

Það er borið til baka, að skip hafi komið á Siglufirði fyren 5. þ. m. og líka tunnan af korninu á Skagaströnd og Grafarós sje á 10 rd., og eins að kaffi og sikur sje þar á 24 sk. pundið, heldur eins og hjerna; korn, mjöl og baunir á 12 rd. og grjón á 14 rd.; kaffi og sikur á 28 sk. pundið.

Í dag (9. maí) eru öll hákarlaskip sögð komin heim fyrir hátíðina, og tjáist að sumir hafi aflað vel í seinustu legunni 20—52 kúta í hlut, aptur nokkrir minna, og fáeinir sárlítið — Hafís tjáist töluverður djúpt norðan fyrir landinu, og sum skipin höfðu ekki frið fyrir honum í legunni, og 2 eða 3 urðu að höggva á stjórafæri sín, og skilja þau eptir með akkerum í botninum.

## Útlendar.

5. þ. m. hafnaði sig hjer „Húkkortan Keflavík“ 68 lesta stór, sem þeir stórkaupmenn Örum & Wulff eiga; hafði hún farið frá Kaupmannah. 6. f. m. Með henni frjettist, að friðarskilmálarnir millum Sambandsmanna og Rússa hefði verið lyktaðir og undirskrifaðir á sunnudaginn hinn 30, dag marzm. næstl. kl. 1 e. m. af þeim 14 fulltrúum, sem stórþjóðir Norðurálfunnar, Frakkar, Bretar, Rússar, Preussar, Austurríkismenn, Tyrkjar og Sardiníumenn kjöru, hver 2 fyrir sína hönd, til að miðla málum og ákoma sáttum, og hverjir hjeldu friðarfund þenna í Parísarborg og tjeðann dag var ljómuð og prýdd eins og mest á stórhátíðum. Te Deum var súngið í kyrkjunum, öllum klukkum þeirra hríngt. Fallbyssurnar sendu frá sjer boðskap sinn sem reiðarþrumur og eldíngar. Öll hús, sem heyrðu hinu opinbera til, voru skreytt flöggum, sigur- og friðar-merkjum. Engu minna var um dýrðir í Lundúnaborg, einnig í Pjetursborg, Berlín, Víen, Constantínópel og Caglíarí. Friðarfregn þessi fór með rafsegulþráðunum, sem snæljós borg úr borg, land úr landi, og var henni að vonum hvervetna fagnað eins og hinum miklu fagnaðartíðindum, er forðum daga flutt voru af englinum til hjarðsveinanna í Betlehemshögum, og þá er Jerúsalems búar hrópuðu dýrð í upphæðum, friður á jörðu og mönnum góður vilji.

Jafnframt og lögreglustjórinn í Parísarborg boðaði fagnaðarboðskap þenna, tjáði hann meðal annars, að friðarsamníngur þessi lyktaði styrjöld þá, sem verið hefði, og greiddi úr öllum meiníngamun og misklíðum út af stjórnarháttum og rjettindum hlutaðeigandi þjóða, stofnaði frið og rósemd Norðurálfunnar á áreiðanlegum og stöðugum grundvelli. Friðarsamníngurinn átti fyrst að verða þjóðkunnur, er hinir miklu stjórnendur hefðu staðfest hann með undirskript sinni, og var gjört ráð fyrir, að þetta mundi verða búið innan mánaðar. Frjettablöðin lofa mjög hversu fulltrúunum tekist hafi, að miðla málum og koma á sáttum, og eins og allir sem hlut áttu að, bæru sigurinn úr býtum. — Fulltrúarnir rituðu nöfn sín undir friðarsamnínginn með arnarfjöður, sem búin var gulli og gimsteinum, og blekbyttan, sem skrifað var upp úr, kostaði 11000 fránka. Keisarainna Napóleons Eugenie, beiddist að fjöðrin eða penni

þessi væri látin sjer eptir, hvern hún vildi eiga, sem annan menjagrip í minníngu þess, að með honum svo mikilvægt skjal, sem friðarsamníngurinn væri, hefði verið undirritað og vissulega kæmi til leiðar hinum sælustu afdrifum meðal alinna og óborinna. — Af öllum fulltrúunum, sem voru á tjeðum friðarfundi, þótti lángt mest kveða að öðrum þeim frá Rússlandi, sem heitir Orloff og er greifi, enda hafði hann í einu hljóði verið kosinn til farar þessarar, bæði vegna dánumennsku sinnar, sem vitsmuna og álits. Rússar hafa þegar byrjað á miklum breytíngum til bóta í ríki sínu, einkum Nikólajew og borgunum við Svartahafið, bæði andlegum og veraldlegum. — það er í ráði, að Alexander Rússakeisari verði krýndur seinast í ágústm. í sumar. — Orð leikur á því, að enn eigi að verða samkoma, hvar stórþjóðir Norðurálfunnar vilja ígegnum fulltrúa sína, ráðgast um ýms áríðandi atriði, áhrærandi ríki Vesturheims og hinar vestlægu nýlendur. — þess er fyr getið, að til ófriðar hafi horft millum Breta og Sambandsríkja Vesturheims, og var það einúngis út af því, að Bretar leituðu sjer liðs, meðan á stríðinu stóð, hjá þeim, sem fríviljugir vildu gefa sig til þess; þetta þótti Ameríkumönnum brjóta þjóðrjett sinn. — Mikið er látið af veikindunum á Krím, einkum í liði Frakka, svo þeir deyja þar hrönnum saman, og er því verið að flytja sjúklíngana þaðan til Miklagarðs og Fránkaríkis. — 38,000 hermanna ætla nú Frakkar að senda til Afríku, sem ætlaðir eru þar til herferðar inn í Kabylíu. þeir eira ekki til lengdar að halda kyrru fyrir, heldur enn vant er. 50,000 hermanna eiga fyrst um sinn að vera á Krím. — Frá hjeruðunum kríng Góðrarvonarhöfða flytst nú fádæmi af ull, því búar þar hafa til nokkurra ára lagt mikla stund á fjárrækt. Fjenaður er þar feitur og vel ullaður. — Í Australíu eða á Nýjahollandi, hafði verið bezta uppskera árið sem leið, og dýrtíðin á sumum nauðsynjum að fara þar minnkandi. Gullið er þar allt af nóg að finna, þó allir sjeu ekki jafnheppnir með það, heldur enn með annan afla, og verði út undan. Gulltekjan er og mikil í Californíu, og lag af gulli hefur nýlega verið fundið í Brasilíu yfir heil hjeruð. Norður-Ameríkumenn hafa á síðasta þjóðþíngi sínu ályktað, að verja 3 millíónum Dollars til herútbúnaðar, hvað sem upp á kunni að koma. þar er enn líka í Ameríku, rætt mikið um sölu Blökkumanna, og eru margir henni, því miður meðmæltir, þareð velmegun og ríkidæmi jarðeigenda þykir þar mikið undir henni komið, og líka þeirra, sem kaupa og selja þessa aumíngja, sem fluttir eru sem vara á skipum frá Afríku til Vesturálfu, og þegar þángað kemur, seldir á uppboðsþíngum og reknir sem fjenaður hjá oss í kaupstaði, og sæta margir hverjir hinni verstu meðferð og pintíngum, verri enn óbótamenn, og sem engan rjett hefði til meðaumkunar eða mannlegra rjettinda. — Ríkisskrifarinn, sem nú er í Norðurameríku og ný skeð hefur verið valinn til þessa embættis, er mjög mótfallinn mansali þessu og kvað segja að hann skuli gjöra sitt hið bezta til, að fá það úr lögum numið.

Frá Danmörku er nú fátt að frjetta. Korn var þar í innkaupi frá 29. marz til 5. apríl $9\frac{1}{2}$ — 10 rd., baunir eins, en hveiti að sínu leyti með betra verði, og ekki þótti líkur til, þótt friðurinn væri kominn á, að kornvara mundi falla töluvert í verði fyrri enn þá kæmi framm á sumar og með fram sæist hverjar horfur mundi verða með kornvöxtinn og flutnínga frá Rússlandi. Preussískar hafnir, svo sem Königsberg, Stettín og Danzig, er optast að undanförnu hafa haft mestar byrgðir af korni, heldur ekki nú sem bezt staddar. Kornið sem fekkst í fyrra hefur líka reynst yfir höfuð með ljettara móti. — Kandíssikurs pundið var $17\frac{1}{2}$ $17\frac{3}{4}$sk., kaffi 22—26sk. tollað. — Á Hollandi var von á að þar yrði selt mikið af kaffi við uppboð, og eptir því hjeldu menn að mundi verða verðið á kaffinu annarstaðar, einkum meðan ekki bættist við byrgðirnar að nýju frá Brasilíu. — Ekkert tala seinustu blöðin um verð á íslenzkum vörum. Mælt er að kaupmenn hefðu þá enn átt eitthvað óselt, t. a. m. lýsi. Frá Rússlandi var mikills von af tólg, en hún þykir síður enn sú frá Islandi. Haldið er að hvala- og sela-veiðar við Grænland og Spítsbergen muni lukkast í ár. það er og mikið komið undir með lýsisprísinn, hvernig olíukálið sprettur í sumar.

Frá Japan frjettist, að 21. dag febrúarm. þ. á. hefði höfuðborg ríkis þessa Jeddó, eyðilagst að miklu af jarðskjálfta, fórust þar 30,000 manna, 54 musteri og 100,000 hús Jörðin hafði rifnað svo í sundur og umhverfst, að heilar þúsundir húsa með íbúum þeirra hvurfu niður sem í afgrunn, er á annari stundinni luktist saman. Á 30 stöðum í borginni laust eldi í húsin, sem líka stuðlaði að eyðileggíng hennar. Keisarinn ásamt fjölskyldu sinni fjekk með naumindum komið sjer undan. Annars er sagt að borgarmenn, margir hverjir, hafi verið í fyrstu kærulitlir um að bjarga sjer, þótt þeir hefðu af ýmsum fyrirboða náttúrunnar og sem þeir af reynslunni þekktu, verið nógsamlega varaðir við jarðskjálfta þessum.

---

# Mannalát.

18 dag f. m. andaðist húsfreyja Kristín Sigurðardóttir á Hóli á Uppsaströnd 55 ára gömul, eptir lángvinna heilsuveiki og þúnga sjúkdóms legu. Hún var eingipt og eignaðist með manni sínum, sem hún var í hjónabandi með yfir 30 ár, 6 börn, af hverjum ásamt honum lifa 5 synir þeirra. — Kona þessi var ráðvendnis- atorku- og sóma kona

og prýði stjettar sinnar. — 2. þ. m. andaðist Jóhann Casper Kröyer á Helgastöðum í Reykjadal á 90 ári, fæddur í Kaupmh. og alin þar upp á föður leysíngja húsinu til þess hann var fermdur og fór þá híngað út til Íslands, sem búðar drengur að Húsav: hafði verið giptur um 40 ár Rakelu Halldórsdóttur, bóndadóttur frá Skógum í Reykjahverfi, dugnaðar og merkis konu, þau áttu 8 börn saman, 7 pilta og 1 stúlku, af þeim lifa nú 6, sjera Jörin á Helgastöðum, Haldór sudiósus juris á Eyjadalsá. Páll hreppstjóri og bóndi á Höfn í Sigluf. Pjetur bóndi á Bæ á Höfðaströnd, Jóhann áður bóndi nú á Helgast. og Andres bóndi á Hábamri í Eyjaf. Kröyer sál hafði verið 8 ár Factor á Sigluf. og síðan sem bóndi og hreppst. nálægt 30 árum í Höfn í Siglufirði; maður ráðvandur, guðrækinn og siðprúður. — 26. dag janúarm. þ. a. sálaðist húsmóðir Sigríður Björnsdóttir á Reykjarhóli í Fljótum 50 ára gömul, gipt, hafði átt 3 börn sem lifa Var hún í móður ætt komin af svonefndri Stórubrekkuætt, sem orðin er fjölmenn og nafnkunn. það mátti með sanni segja um konu þessa, að hún væri hvers manns hugljúfi, góðgjörðasöm og gestrisin og yfir höfuð merkis kona.

Fyrir Sumarmálin hafði stúlkubarn á 3. ári, hjet Guðrún Árnadóttir, drukknað í bæarlæk á Mói í Fljótum. Hafði það ætlað að hitta föður sinn, sem var við hlöðu bigging út á túni. — 26. dag aprílm: næstl; hafði piltbarn á 5. ári Björn að nafni, sonur prestsins sjera Hjörleifs á Skinnastöðum í Axarfirði, drukknað þar í millnulæk. Var það ásamt fleiri börnum að leika sjer, lækurinn er sagður holbekktur og straummikill. Haldið er það hafi ætlað að stökkva yfir hann. — 5. þ. m. var hákarlaskip eitt frá Haganesi í Fljótum meðal annara á uppsiglíng úr legu. Landnorðan veður var með snjókomu, svo varla sá út fyrir keipana. Vissu þá skipverjar ekki fyrri til enn komnir voru uppundir svonefndann Svarthöfða fram af Siglunesi, og enda ofgrunnt. Stórsjór var og albrima. Formaðurinn hlaut að bera um, en í því sló veðriðsigluásnum á hann svo fleygðist lángt á sjó út og varð ómögulega bjargað, drukknaði því þegar. Hann hjet þorfinnur, á únga aldri, frískleika- og ágæta sjómaður. Atti konu og börn.

---

## Embætta veitíngar.

31. dag Marzm. næstl. hefur konúngur fallist á uppástúngu amtmanns Hávsteins, að læknis dæminu hjer í Norðurumdæminu sje skipt í tvent þannig: að Húnavatns- og Skagafjarðarsýsla sjeu læknisdæmi sjer, og aptur að Eyjafjarðar- og þíngeyjar sýslur sjeu hið annað. Í vestri hlutann er læknir J. Skaptason skikkaður, sem reglulegur læknir, en í hinn nirðri áður settur Garnísons og hospítals læknir, cand: chirurg. & medicin: J. C. Finsen, sem nú er í Kaupmh. og kemur híngað út í sumar. Sama dag er Justitarii emb. í hinum kgl. ísl. landsyfirr. veitt fyrsta assessor í sama rjetti, Justitsráði Th. Jónassen og aptur embætti það sem hann hafði, veitt öðrum assessor í tjeðum rjetti, Jóni Pjeturssyni, svo nú er hans embætti, sem var, laust. — Cand. júris Árna Thorsteinssen veitt Snæfellsnes sýsla frá 6 Júni næstk: Dr. philos. Grímur Thomsen, sem var Cancellisti undir ráðherra utanríkis málanna, er nú orðinn fullmegtugur í Handels- og Consulat Departementinu (umboðsmaður í verzlunar og ræðismanns stjórnardeildinni).

---

# Auglýsingar.



það er alkunnugt, að, Markaskrá Húnavatns sýslu var samkvæmt uppástúngu í 19. blaði Norðra 1854, prentuð á Akureyri næstliðið ár. það er einnig mörgum kunnugt, að jeg tókst á hendur að koma mörkum Húnvetnínga, fyrir austan Blöndu, í rjetta röð, og búa þau undir prentun; og voru mjer jáfnskjótt og jeg tók við mörkunum, eptir ráðstöfun sýslumanns okkar Kammerráðs A, Arnesens afhentir 8sk. með hverju marki, sumpart sem borgun til prensmiðjunnar fyrir prentunina, sumpart sem endurgjald fyrir starf mitt og umönnun á flutníngi þeirra norður og norðan, og til borgunar fyrir innheptíngu Bókanna. En fyrir því að markeigendur hlutu að borga miklu meira fyrir prentun marka sinna enn Norðri á kvað, og jeg líka hefi orðið var við óánægu hjá einstökum mönnum útaf gjaldi þessu, og þarámeðal einn maður sem hefir, ei sagst geta „liðið að einstakir menn hefði almenníng þannig fyrir fjeþúfu," þá þykir mjer bæði skyldt og rjett að gjöra grein fyrir gjaldi þessu, að því leiti til mín nær; og verður það á þessa leið:

Mjer afhent með 346 mörkum 28rd. 80sk. Jeg hefi útborgað:

| | |
|---|---|
| 1. Til Prentsmiðjunnar ....... | 18rd. 2sk. |
| 2. Fyrir flutníng Markabókanna að norðan | 2 — 32 - |
| 3. Til bókbindara Gríms Laxdals fyrir innheptíng á 145 Exempl: sem til mín hafa komið (4 sk. hvert) ....... | 6 — 4 - |
| Samtals | 26rd. 38 sk. |

Munar þá um 2rd. 42sk. sem er bæði endurgjald fyrir skriptir á mörkunum, og allt umstáng mitt, og líka sjóður sá sem jeg hafði úr „fjeþúfu" þeirri sem jeg komst í.

Gunnsteinsstöðum dag 25. apríl 1856.

J. Guðmundarson.




Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureiri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. | 31. Maí. | 10.

Það er farið mjög að tíðkast, að lýsa því opinberlega á prenti í blöðunum, þegar einhverjum, — eptir sínum hugsunarhætti — mislíkar háttalag einstakra manna eða sveita. — Með þessari aðferð mun eiga að laga það, sem áfátt þykir vera; en það fer opt fjærri því, svo ritgjörðir þessar spilla því einmitt, sem þær áttu að laga, og mun það koma til af tveimur orsökum: annaðhvort er offljótt farið að finna að, áður enn menn eru sannfærðir um hinar rjettu máls ástæður, eða stílsmátinn á þessum aðfinnslu-ritum er fremur hrokafullur enn sannfærandi, svo þau koma til leiðar meiri óvild og óþægð, enn lagfæríngu. — Nú nýlega hefur birst greinarkorn í þjóðólfs 8. ári, bls. 49. frá nokkrum sunnlendíngum, um kaupafólk, kaupgjald þess m. fl. og er þar kvartað yfir illum viðurgjörníngi Húnvetnínga við kaupafólk að sunnan, og ekki spáð góðum afleiðíngum af því fyrir Húnvetnínga, ef þeir ekki bæta ráð sitt í þessu tilliti framvegis. — Okkur getur ei annað enn geðjast illa að þessari grein, því við bæði höldum það órjett og orsakalaust af sunnlendíngum, að álasa Húnvetníngum yfir höfuð fyrir viðurgjörníng á kaupafólki sínu, og svo eru öll líkindi til, að hún fremur spilli enn bæti fyrir því eptirleiðis. Það er sjáanlegt að sá eða þeir, sem hafa samið greinina, hafa gjört það, sem í þeirra valdi stóð, til að spilla fyrir kaupafólki að sunnan; en ekki getum við fundið í ritgjörðinni neinar sannfærandi ástæður fyrir því, að oflítið hafi kaupafólki goldið verið hjer um sveitir í fyrra sumar; það er einúngis talað um, hvað goldið hafi verið, en ekki hvað mikið var unnið; en þó munu allir álíta sanngjarnt, að kaupgjaldið fari eptir vinnunni. — Við vitum ekki hvað sunnlendíngar kalla meðalmann — hvort það er sá, sem getur látið upp meðal smjörbagga? — Því nokkrir fara í kaupavinnu, sem ekki geta það, en norðlendíngar kalla það meðalmann til sláttar sem slær 3 rjett mælda eyrisvelli á túni um viku, forsvaranlega vel, og á hann þá 40 fiska í kaup um vikuna, og svo eptir því meira eða minna, sem hann slær meira eða minna; þetta munu Húnvetníngar fúslega og refjalaust gjalda. — Þó minna smjör hafi verið flutt suður úr Húnavatnssýslu næstliðið haust enn að undanförnu, þá munu þó flestir bæir þar hafa verið feitmetislausir eptir, — eins og vant er að vera, þegar kaupafólk er gengið um garð — og er ekki hægt að taka eða láta það, sem ekki er til, því málnyta manna var venju framar gagnslítil eptir harðindin sem á undan gengu. — Enn fremur er athuganda: að sumarið, sem leið, gengu hjer um sláttinn almenn veikindi, svo „tólfunum kastaði" hvað kaupafólk — eins og aðrir — gekk dauft og linlega að vinnu, þó það skriði á fótum; við þetta koma sunnlendíngar ekki, heldur er að ráða, að þeir eins fyrir það hafi ætlast til, að fá ríflegasta kaup, og finnst okkur það heldur ósanngjarnt.

Því er miður, að Húnvetníngar hafa ekki að undanförnu gefið nógar gætur að, hvað mikið hver af kaupamönnum þeirra hefur unnið, og þess vegna hefur kaupgjaldið, ef til vill, ekki ætíð samsvarað vinnunni, eins og við hefði átt, og þó dyggustu og duglegustu mennirnir hafi átt það, sem þeim hefur verið goldið, þá eru hinir miklu fleiri, sem hefur verið of goldið, einkum í Svínadalnum; þess vegna hefur kaupafólk, eins og sunnlendínga greinin segir, „þyrpst þángað" því þángað gengur sem gefið er; og þó Húnvetníngar hafi einatt goldið þeim 2 fjórðúnga á viku, sem ekki hafa unnið nema fyrir einum, auk fæðis; þá mega sunnlendíngar ekki ætla það æfinlega skyldu okkar, að gefa þeim svo og svo mikið smjör fyrir ekkert, eða fram yfir það, er þeir vinna fyrir.

Þó kaupgjaldið sje látið vera í fiskatali — sem við ætlum rjett og eiga betur við enn dalatal — þá segir verðlagsskráin frá því, hvað það

sje mikið í peníngum í hvort skipti, og eptir hvors árs meðal-alin ætlum við rjett goldið kaup og skuldir, sem eru í fiskatali og samníngar eru ekki fyrir á annan veg; það er líka mjög eðlilegt og sanngjarnt, að kaupafólk frá sjáfarsíðunni fái smjör og þá hluti, sem það helzt þarfnast í kaup sitt, að svo miklu leiti sem gjaldendur geta, og með því verði, sem þá er á þeim. En — hvörnig varið er daglaunum í öðrum löndum, má sunnlendíngum vera kunnugra enn okkur, þó við höldum, að margir daglaunamenn erlendis gjörðu sig ánægða með að fá hjer um bil 4 mörk í kaup um daginn og gott fæði, rúm og þjónustu, og víst mundu daglaunamennirnir norðlenzku þakka fyrir, að fá þessi kjör hjá sunnlendíngum; en það verður ekki fyrr, enn þessir fara að láta þá „uppskera, eins og þeir hafa sáð," og mun þess verða lángt að bíða.

Það er hálfskrítið, þegar sunnlendíngar eru að reikna ferðakostnað kaupamanna norður, það er líkast því, ef norðlendíngar færi að tilreikna sunnlendíngum lestaferðakostnað sinn suður og slengdu honum á ísufjórðúngana, sem þeir kaupa að sunnlendíngum, legðu þeim síðan út til lasts, hvað dýrt þeir hefðu selt sjer fiskinn; en í þennan ferðakostnað ætlast þeir samt ekki til, að þeir geti fengið nema 3. dala kaup um vikuna. sem þeir þyrftu að brúka til ferðanna, eða væri annarstaðar enn fyrir norðan, og mun fæðið líka vera hjer meðreiknað; þeir hafa þá líklega snöggvast munað eptir daglaununum hjá sjer sunnanlands; samt þykir þeim ólíðandi, að láta Húnvetnínga sjálfráða með, að gjalda ekki nema 4 ríkisdali í meðal vikukaup, fyrir utan fæði og alla aðra aðhlynníngu, sem vissulega er meira enn 2. dala virði, og sezt þá af þessu og þvílíku, hvar sunnlendíngagreinin er ástæðulaus og ójafnaðarfull. Við álítum að vísu ekki rjett, að binda meðalvikukaup einmitt við 4 ríkisdali, þar eð þeir jafngylda ei ætíð 40 fiskum, þvi eptir því, sem lifandi peníngur og aðrir landaurar hækka í verði, eptir því fjölgar skildíngatal í meðal fiskvirði og meðal-alin, sem við höldum hinn rjetta mælikvarða að borga fiskatalsskuldir eptir, þar sem samníngar eru ekki öðruvísi um borgunina, eins og áður er ávikið.

Það hefði verið mikið fróðlegt og má ske þarflegt, ef sunnlendíngagreinin hefði fært okkur áætlun um: hvað margar ær þyrfti að hafa í búi til þess, að kosta kaupamann að öllu leiti sumarlángt af arði þeirra? og svo: hvað mikil fjárfækkunin mundi verða, ef kaupafólkið kæmi ekki? en ef svo færi — sem við ætlum — að fjenaðurinn þyrfti ekki fyrir það að fækka öllu meir enn svaraði því sem þyrfti til að kosta kaupafólkið: þá yrði Húnvetníngar litlu verr staddir eptir enn áður, en niðurstaðan yrði sú, að allar slæmu afleiðíngarnar lendtu á Gullbríngusýslubúum, í því að svipta þá einhverjum þarfasta og notabezta atvinnuvegi, er þeir hafa haft híngað til. Og, þó höfundar greinarinnar vildu ~~hamla því, að kaupafólk~~ færi norður: verður það ofætlun fyrir þá, því bæði munu flestir sjá, hver vitleysa og óráð það væri og líka mun margt af kaupafólkinu vera fúst til, að finna Húnvetnínga sína einusinni enn, og treysta því fullvel, að það fái hjá þeim betri og sjer þarfari atvinnu, heldur enn hjá löndum og sveitúngum sínum syðra við þeirra „heimahnauk," og þeir sem þakklátlega viðurkenna það, sem vel er við þá gjört, eru okkur líka velkomnir; en hinir, sem með ósanngirni og sjálfbyrgíngsskap vilja fá og heimta meira kaup enn þeir eiga með rjettu, meiga gjarnan vera, fyrir okkur, hverra manna, sem þeir vilja.

**Nokkrir Húnvetníngar.**

---

## Ráð við dýrtíð.

(Eptir þýzku blaði).

Ef einhver findi upp á því, að selja eitthvert læknisráð við dýrtíð, húngri og fátækt fyrir 10 rd., mundi óefað margur fátæklíngurinn reita sig innað skyrtunni til að kaupa það. Þó mundi þetta bráðum reynast svik ein og prettir. En ráð mitt er hollt og einlægt, og jeg ætlast ekki til svo mikils sem þakklætis fyrir það, þó hverjum mundi reynast það svo ómetanlegt, að það hefði ekki að eins mátt kosta 10 rd. heldur 10 tunnur gulls. Ráðið er þetta: þú skalt ekki drekka brennivín, nje aðra áfenga drykki, eða það sem gjörir þig fyrst ölværan og síðan vitstola.

Það er sem jeg sjái nú margan hleypa brúnum, ygla sig og snúa hæðilega að mjer bakinu. En reiðist mjer ekki. Jeg vil ykkur vel. Jeg fyrir mitt leyti, hefi ekkert gagn af því, hvort þið drekkið eða ekki, en það er einúngis sjálfra yðar vegna og vegna ektamaka yðar og barna, að jeg segi ykkur þetta ráð. Staldrið þið við og hlustið á mig; eða er það svo óbærilegt að heyra sannleikann af munni góðs vinar? Það er víst, að volæði býr á meðal þeirra, sem hafa ofurselt sig ofdrykkjunni, þeir hinir sömu hafa ekki af miklu að láta. Matbjörgin er af skornum skamti, skuld-

irnar og örbyrgðin vex með degi hverjum. Skuldaheimtumennimir koma úr öllum áttum og hver vill hafa sitt. Ætli þ'ð eigið ekki bágt með að standa í skilum við alla þessa? Enginn getur þó allt af búist við láni og umlýðingu. Þið gleymið allri búsýslu yðar, fáið óbeit á allri vinnu, verðið fullir af leiðindum, eyrið ekki heima, farið strax á morgnana á bæi eða í kaupstaðinn til þess að sóa tímanum þar allan daginn og kaupa á pelann eða snýkja út í staupinu, komið svo aptur heim á kvöldin, eða á nóttunni, hálfsvínkaðir eða út úr, og gott ef þið eruð þá ekki uppi með illindi og hávaða við konu aumíngjana og krakkana, eða finnið allt að öllu; heilir og hálfir dagarnir gánga í að sofa úr sjer vímuna, lítið sem ekkert er unnið, í staðinn fyrir það sem þið gátuð unnið mikið. Það sem fer aflaga eða í handaskolum fyrir ykkur, kennið þið konunni eða krökkunum; hún má bera alla birðina, sem flýtur af umönnun heimilsins og stríðinu við svo og svo mörg börn, sem hún hvorki fær hjá yður næga fæðu eða klæði handa, og hefur opt tæpast eins marga bita í eigu sinni, sem börnin eru mörg, og hvort á hún þá að sækja glaðvært geð? — Þið stýngið höndunum í vasana og segið: tíðin er vond; en konurnar barma sjer og berja á brjóst. Það eruð þið sjálfir sem eruð vondir frá rótum, en ekki tíðin! Gjörið þið hvort þið viljið, að þykkjast við mig eða ekki, en farið að ráðum mínum. Hættið að drekka áfengu drykkina, þá mun allt í einu skipta um til batnaðar! Við skulum nú hyggja að: ef þú drekkur dag hvern 2 staup, hvert á 2 sk., þá verður það 7 rd. 3 mörk um árið; drekkirðu pelann, þá eru það 15 rd., drekkirðu mörkina upp á hvern dag, þá verður það 1½ tunna af brennivíni eða 45 rd., en sje það potturinn, þá verða það 3 tunnur og sem kosta 60—90 rd. um árið, auk alls vinnutjóns, og það sem forsómun skyldna þinna við konu og börn og aðra í fjelaginu leiðir illt eptir sig. — En hefðir þú nú þar á móti varið öllu því, sem þú hefur keypt brennivín eða áfenga drykki fyrir til nauðsynja þinna, hversu mikið mundir þú ekki hafa getað bætt bú þitt og gjört konu þína og börn ánægðari og sælli, auk hagsmunanna, sem stöðug umsjón og vinna í heimili þínu hefði áunnið þjer, prýðt og aukið álit þitt og gengi meðal granna þinna og allra, sem til þín þekkja. — Þegar þú ert drykkjumaður, getur þú naumast unnið nokkurt verk, svo að öðrum líki. Skiptavinir þínir segja skilið við þig, hver vill eiga viðskipti við drykkjurútinn og óskilamanninn? Þú eyðileggur bæði sál og líkama, því öllum skyldum þeim, sem Guðs tíulaga boðorð krefjast af þjer, drekkir þú í vínstaupinu. Hús þitt, sem átti að vera musteri Guðs, er orðið að ræníngjabæli, og loksins þegar kona þín og börn og þú sjálfur deyja út af, í fyrirlitníng og volæði, og hinn rjettláti Guð spyr þig að: Hver er morðínginn? Þá máttu andvarpa og svara: jeg er það; jeg er morðínginn! nokkur staup eða sopar hvern dag, voru orsökin til þessa alls! Vitjaðu spítala hinna vitskertu, og farðu í díblissur óbótamannanna, eða til aftökustaðanna, og þá muntu fá að vita það, að drykkjuskapurinn var sem optast orsök til þess, að afdrif þeirra urðu þannig. Þú kannt að segja: jeg er hófsamur! en varaðu þig vinur! Hinn mesti drykkjumaður hefur drukkið lítið fyrst, en smátt og smátt aukið við sig, til þess hann hefur sökkt sjer í flóði ofdrykkjunnar, og hinn vondi búin, ef til vill, að glata sálu hans.

Það getur verið, að þjer sumir hverjir, sem drykkjumenn eruð, eða sóið miklu til kaupa fyrir áfenga drykki, sjeuð svo efnugir eða ríkir, eða hafið nóg til launa að lifa við, að ekki þurfið að gánga í bága við nauðsynjar, yðar og innan dyra, en ekki úti á strætum eða mannamótum neytið vínsins; þá er misbrúkunin hin sama, sem þjer ekki getið mælt bót, hvorki fyrir Guði nje góðum mönnum, að hafa þannig varið því af efnum yðar eyðið til þessa; að jeg ekki tali um, þegar þjer eruð yfirvöld og eigið að vera góð fyrirmindan annara, sjer í lagi þeirra hafið yfir að segja[1]. Væri yður ekki nær og sannara, að verja andvirðinu er eyðið fyrir áfengu drykkina og vínið, til þess að stofna með því eitthvert gott fyrirtæki, eða aðstoða einhvern aumíngann, sem varla á til næsta máls, enn síður fötin utan á sig, til að skýla með nekt sinni. Slíkt aflaði yður meðvitundar um, að hafa gott gjört, og umbunar á efsta degi; en hitt þar á móti bakar yður eptir á ónota, heilsuspillis, leiðinda og órósemi, og má ske örvæntíngar á banasænginni. Eða hvílík blindni og ósómi, er það ekki fyrir höfðíngjana, að fara rjett sem í kappdrykkjur, og sá þykja mestur maðurinn, sem mestu getur þá sóað og svallað, og seinast dottið í valinn.

Eða þjer, sem eruð á únga aldri, og ekki hafið ofurselt heilsu yðar og farsæld á vald ofdrykkjunnar, þá varist umfram allt, að svívirða æsku yðar eða æfi með henni framvegis, heldur látið yður í tíma annara víti að varnaði verða.

Hins vegar er brennivínið sjálft, eitthvert hið mesta átumein, sem menn nokkurntíma hafa þekkt. Ætli að góður Guð hafi látið jarðeplin og hið gullvæga korn vaxa til þess, að menn skyldu búa til úr því brennivín og drekka með því úr sjer vitið og heilsuna? Nei! heldur til þess, að þið, konur yðar og börn, gætuð saðst af gróða jarðarinnar og lofað Guð fyrir. En brennivínið stelur saðníngunni úr pottinum, brauðinu úr munn-

[1]) Hvað höfðíngjarnir hafast að, hinir ætla sjer leyfist það. Yfirmönnunum er því vant, undirsátarnir hnísa grant. (Sjá Hallgríms sálma, 22, v. 10). Ritst.

inum og þakklætinu úr hjartanu, þið trúið því ekki, og þó er því þannig varið: þegar þú drekkur dálítið staup af brennivíni þá hefur þú í einum teyg gleypt allt að hálfu brauðpundi; því í þetta litla staup fer einmitt eins mikið af korni, og bakarinn þarf til að baka úr, hálft pund af brauði. Hálfa brauðpundið hefði getað satt þig, en brennivínið svengir þig, spillir heilsu þinni og eytrar sálu þína, og hver sem drekkur dag hvern 16 staup, eins og margur gjörir, svelgir í sig 7 pund af brauði, eða þeirra virði í öðrum mat, og þetta er eins mikið og þú fátæklíngurinn, með öðrum mat getur haft þjer til viðurværis í eina viku, eða sem mundi nægja þjer og mikilli fjölskyldu einn dag, að jeg ekki nefni, að sá sem drekkur pottinn; eða þótt það ekki sje nema mörkin eða pelinn á dag, á ekki að eins bágt með að vinna nokkuð að ráði, heldur neyðist til að hleypa sjer í skuldir, og steypir sjer og sínum í svívirðingu og ógæfu með sínu óguðlega athæfi, og kennir sonum sínum og dætrum, eða fósturbörnum, slíkt hið sama.

það er annars engin furða þótt kornið og jarðeplin verði dýrkeypt, og meir enn helfíng þjóðanna skorti nægilegt viðurværi, þá menn vita, að í mörgum löndum, er varið svo og svo miklu korni og jarðeplum til brennivínsgjörðarinnar. Í eina einustu tunnu af brennivíni, þurfa að minnsta kosti 430 pund af korni eða 900 pund af jarðeplum og 65 pund af korni, eða í hverjar 100 tunnur af brennivíni, 210 tunnur af rúg. Öllu þessu eyðir brennivínið og áfengu drykkirnir, sem hverfur síðan í kok drykkjurútsins, enn ekki í pottinn eða á borðið hjá hinum húngraða. það er þess vegna að jeg segi að brennivínið sje rjettur hvomur, og hvar hann ræður fyrir, þar getur jörðin ekki veitt næga uppskeru, og guðsblessan, sem hvílir yfir ökrum og úthaga, er sóað og eytt.

Fari nú svo, sem ætíð er við að búast, að eins bág ár komi yfir oss, eins og vjer stundum höfum mátt reyna; að uppskeru brestur verði og hallæri, gróði jarðarinnar sýkist, einnig skepnurnar sem á henni nærast, stríðsins hörmúngar og eyðileggíng nái til vor og yfir oss, og okurmennirnir og maurapúkarnir hafi sjer að leikfángi, að okra út við oss lífsbjörgina, þegar þeir vita, að hana er hvergi annarstaðar að fá, nema hjá sjer, og þeim nú gefst hezt færi á, að seðja ágirnd sína og auraelsku, er verður því soltnari og gráðugri, sem meira fjenast.

það ætti því hver, sem unnir velferð sinni og meðbræðra sinna, að hlusta til ráðs míns, neytið ekki framar hinna áfengu drykkja, gjörið það af kærleika til sjálfra yðar, gjörið það af kærleika til vandamanna yðar, til ektamaka yðar og barna, gjörið það af elsku til Guðs, sem ekki vill að þjer standið iðjulausir á torginu, sem aðrar landeyður, vínrínglaðir, sem vitinu firrtir, með hávaða og illindum, ofstopa og barsmíði, í þjónustu hins vonda, nje fyrirfarist í djúpi glötunarinnar, heldur að þjer náið augnamiði tilveru yðar, og verðið sælir. — Vinnið yður fyrir nægilegri matbjörg, en ekki fyrir drykk þeim, sem gjörir yður vitstola og glatar yður. Ef ykkur er annt um að varðveita heilsuna, vitið og lífið, þá látið engann telja ykkur trú um, að þið sparið mat með því, að drekka brennivínið eða annað, sem gjörir yður svínkaða, eins og sumir halda, enn síður, að það veki og styrki hugsun yðar og framkvæmd, því það einmitt með tímanum dregur úr yður alla dáð og dug, og gjörir yður óhæfilega til alls góðs.

Kaupið heldur klæði og fæði fyrir þenna vitstola drykk. Ráð mín afla yður og heimilum yðar blessunar, blessunar í hjarta yðar, og samvizkufriðar.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

18. þ. m. kom norðanpósturinn Grímur Magnússon að sunnan híngað á Akureyri, og hafði hann verið áleiðis og til baka, í ferð þessari 26 daga, og af þeim beðið 3 daga í Rv. — Að sunnan, er að frjetta aflalítið í sumum veiðistöðum, t. a. m. á Álptanesi, Vatnsleysuströnd, en þó hlutir lægstir í Keflavík og Njarðvíkum, eða ekki nema 40—70 fiska hlutir yfir alla vertíðina. Aptur hafði aflinn verið betri í Vogum og Útgarði, en þó bestur í Höfnum og á Akranesi. — Kvörtun er um að fjárhöld ekki svari nú til árgæskunnar sem var í vetur; vegna sóttar í fjenu, helzt í gemlíngum, og að ormar hafi fundist í yðrum þess og enda lúngnapípunum. — Hundapestin hafði alla jafna verið að færast syðra austur á bóginn. — Veðuráttufarið hefur allann þenna mánuð, verið hjer nyrðra úrkomu lítið og kalt, og opt frost á nóttunni, svo gróður, að tiltölu við hvað hann byrjaði snemma, tekið litlum framförum. — Hákarlsaflinn hefur enn í vor verið mjög misfenginn. Ógæftirnar og hafísinn, sem enn er hjer norðan land, hafa töluvert hamlað aflabrögðunum. — Nýskeð er fiskur kominn aptur hjer út í firðinum.

## Útlendar.

19. þ. m. kom Briggskipið Freyja, skipstjóri Koldbye á Húsavík, og hafði honum byrjað vel frá Helsíngjaeyri. — Með skipi þessu kom kand. Sveinn Skúlason, sem ráðið hefur nú að setjast hjer að, og taka að sjer ritstjórn Norðra, og byrjar hann með því, að gefa út janúarm. þ. á., síðan júním., o. s. frv. Hann hefur komið því til leiðar, að Íngim. prentari, sem kominn var úr prentsm. er nú fenginn aptur í hana, mót 250 rd. launum um árið.

Af verzluninni, er ekkert merkilegt að frjetta, því dýrtíðin á korninu tjáist að kalla enn hin sama og seinast er getið. Mælt er að Norðmaður einn hafi komið í vor á Eskjuf. fermdur að mestu jarðeplum og kölum. — þess er getið í seinasta blaði, að ekki væri útkljáð um Eyrarsundstollinn. Nú er tjáð, að hlutaðeigandi þjóðir, nema Ameríkumenn, sem ekki voru búnir að átta sig á málinu, muni vilja nema hann af, en greiða Danmörku í skaðabætur 34 mill. dala.

---

Til minnisvarða yfir læknir sál. E. Johnsen, hafa enn gefið, herra Justitiarius Th. Jónassen 10 rd., sjera J. Kröger á Helgastöðum 2 rd. og sjera J. Yngvaldsson á Húsavík 2 rd., sem samanlagt við áður komna 149 rd., er alls 163 rd.

---

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureiri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

1856.

4. ár. | 20. Júní. | 11.

## Svar
### upp á fyrstu greinina í 8. bl. Norðra.

Í næstl. aprílm. blaði Norðra er greinarkorn, sem virðist öll að lúta að því, að leiða almenningi fyrir sjónir, hve báglega er komið efnahag prentsmiðjunnar á Akureyri, verkaumsjón hennar og annari stjórn, og að það sje Norðri einn, er haldi í henni lífinu, og þetta allt þykist höfundur greinarinnar geta leitt út af reikningum prentsmiðjunnar fyrir árið 1855. Þótt vjer nú játum því fúslega, að allt þetta kunni að vera að mörgu leyti miður en skyldi, getum vjer samt ekki leitt hjá oss, að taka hið helzta af því fáorðlega fram, er oss finnst, að fært sje þar frá rjettu lagi, og sem hljóti því að miða til þess að rýra álit þessarar fátæku stofnunar í augum almennings, fram yfir það, er hún á skilið.

Hvað þá fyrst áhrærir vinnuskýrslu höfundarins fyrir næstl. reikningsár, þá er hún öll að meiru eður minna leytinu reikningslega röng, og verður því ekkert á henni byggt; þannig er, t. a. m., alveg sleppt út úr henni Kvöldsöngsræðum sjera Sveinbjarnar og 3 örkum af Bænakveri bókb. Laxdals. Þetta er líka allt í eðli sínu, þar eð höfundurinn ekki gat fengið af sjer að fá að sjá skilríki fyrir reikningunum hjá forseta prentsmiðjunefndarinnar, eins og honum þó stóð til boða. Þaraðauki er það margt, er vinnuna snertir, sem ekki er til greint, og ekki gat til greinzt sjerstaklega í reikningi prentsmiðjunnar, en sem höfundurinn átti að taka fram og færa til reiknings, fyrst hann fór á annað borð að myndast við að greina hið verknaðarlega frá hinu reikningslega, t. a. m., að taka móti sverði, bera hann inn, leggja í ofn, bera út ösku og inn vatn, sópa húsið, flytja pappír og brenni suður í prentsmiðjuna, kljúfa brennið, telja og bleyta pappír og hengja hann upp, taka hann aptur ofan og stafla honum og afhenda loks hlutaðeigendum, senda með prófarkir út um bæinn og sækja þær ástundum aptur, sjóða svartkefli (Valsa), og fleira þess háttar; til alls þessa gengur talsverður tími (þannig er, t. a. m. einungis reiknað fyrir að undir búa og sjóða efni í keflið 1 rd.; en þeir munu soðnir hjerumbil 12 á ári), og er borgun fyri allt þetta, eður flest af því, fólgin í þeim þriðjungi, sem bætt er við vinnulaunin fyri sjálfa prentunina. Einnig átti það að takast til greina, þegar vinnan var talin, að drengurinn ekki kom til prentsmiðjunnar fyr en með byrjun aprílm., þá öllu óvanur; að Ingimundur prentari las nokkuð af prófórkum Norðra, m. fl., í vinnutímum prentsmiðjunnar; að prentararnir voru meira eður minna lasnir í kvefveikinni í fyrra sumar, og að þeir fengu 9 daga lausn frá prentstörfum gegn 7 rd. endurgjaldi; að vjer ekki fáum oss til orða allt það verkatjón, er Norðri hefur verið ollandi, ekki einungis vegna þeirra mörgu og margbrotnu reikninga, sem koma fyrir í honum, heldur og vegna þess, að svo opt hefur verið tekið upp aptur það, sem búið hefur verið að setja, og þrásinnis beðið eptir handriti. Allt þetta verkatjón, sem ekki hefur verið fært til reiknings, af því sem prentsmiðjan átti blaðið sjálf, getum vjer ómögulega metið minna í samanburði við aðra prentun, enn 1 heilan dag fyri hvern mánuð, eða 12 daga vinnumissir um árið.

Hvað þessu næst áhrærir sjálfan Norðra, þá er það að vísu satt, að aldrei hefur komið jafnmikið inn af andvirði hans, sem þetta næstl. ár, en samt getum vjer ekki fallizt á það, sem höfundurinn segir, að prentsmiðjan hafi, „auk alls tilkostnaðar til hans, unnið þetta árið á honum **fulla 200 rd.**" Reikningurinn verður hjerumbil svona lagaður:

Inn komið af andvirði Norðra árið 1855, að með töldum 16 rd. frá amtmanni Havstein, 606 rd. 34 sk.

En hjer frá dregst aptur:

| | | rd. | sk. |
|---|---|---|---|
| a., | prentunarkostnaðurinn . . . . | 161 | „ |
| b., | pappírinn . . . . . . . . . | 85 | 6 |
| c., | til prófarka, hjerumbil . . . . | „ | 64 |
| d., | prófarkalestur . . . . . . . . | 16 | 48 |
| e., | fyrir tímatöf við alla reikningana, upptekt á stíl og bið eptir handriti, og fl. | 40 | „ |
| f., | til ritstjórans . . . . . . . . | 172 | 13 |
| g., | frá ofanskrifuðum 606 rd. 34 sk. dragast enn fremur þeir 25 rd. er vísað var til hjá Helga prentara, en sem hann vildi síðar meir ekki taka gilda upp í laun sín . . . . . . . . | 25 | „ |
| h., | 4% renta eptir andvirði Norðra, sem goldizt hefur fyrir árin 1853 og 1854 (af því sem borgunarfresturinn fyrir hvers árs Norðra er ekki nema til næsta nýárs) . . . . . . . . . | 12 | 87 |
| | Samanlagt | 513 | 26 |
| | Ávinningur | 93 | 8. |

Einnig er þess að geta, að enn mun liggja nokkuð óselt af Norðra hjá ýmsum útsölumönnum hans, er á sínum tíma mun meir eður minna rýra þann hagnað, er höfundurinn gjörir svo mikið úr; þannig vitum vjer til þess, að enn liggja óseld hjá einum einasta manni 8 expl. af næstl. árs Norðra.

þótt en sje mikið óselt af smásögunum, og þótt prentsmiðjan á Akureyri sje komin í málastapp út af prentun barnalærdómsbókarinnar, heyrir þetta hvorugt til stjórn þeirri, sem nú er á prentsmiðjunni, og ætti því alls ekki að blandast þar saman við.

þegar vjer skoðum nú aptur á hinn bóginn reikninga prentsmiðjunnar fyrir næstl. ár — sem enn eru að öllu leyti óhraktir —, og berum þá saman við fyrra árs reikningana, hefur prentsmiðjan unnið næstl. ár, auk alls venjulegs tilkostnaðar, rúma 200 rd., eður þó heldur fulla 270 rd., því með útgjöldum eru þar taldir hjerumbil 70 rd., er greiddir hafa verið næstl. ár upp í málskostnað barnalærdómsbókarinnar[1]. Mundi því ekki ísjárvert að fallast að svo komnu á þá uppástungu höfundarins, að leigja prentsmiðjuna, með öllum áhöldum hennar, fyrir 100 rd. leigu um árið?

Enn er það eitt, sem eptir er að minnast á í opt nefndri grein höfundarins, þar sem hann þykist hafa heyrt það í vetur, um það leyti verið var að semja reikninga prentsmiðjunnar, að hún hefði unnið á vinnu prentaranna einungis þetta ár 150 rd., og yfir höfuð að öðru saman lögðu 550 rd.“ Um þetta atriði gat engum verið á þeim tíma fullkunnugt, nema prentsmiðjunefndinni einni, eins og það virðist líka sveigt að henni; en það er svo langt frá því, að prentsmiðjunefndin hafi nokkurn tíma látið sjer slíkt um munn fara, að henni hafði aldrei dottið í hug að fara að reyna til að greina hið vinnulega frá hinu reikningslega, sem vjer álítum ógjörlegt, og föllumst því að öllu leyti á það, sem höfundurinn segir á einum stað, að hið „vinnulega og reikningslega sje í svo nánu sambandi, að það megi ekki slítast í sundur.“ það er því höfundarins eins að ábyrgjast þessi ósannindi; en allir sjá, hve gott það var, að geta hnýtt þessu atriði aptan við vinnuskýrsluna, svo endirinn gæti þess betur svarað upphafinu.

**Prentsmiðjunefndin.**

---

## Útlendar frjettir.

þess er getið í 9. blaði Norðra í ár, að friður var gjörður milli Rússlands, Tyrkja og Vesturríkjanna 30. marz næstliðinn, og að friðarskilmálarnir mundu auglýstir, þegar stjórnendur þessara ríkja væru búnir að staðfesta sáttmálann. Friðarsáttmáli þessi er nú auglýstur og skal nú getið helztu atriða hans. Stjórnendur ríkja þeirra, er í ófriði þessum hafa átt, semja grið og fullan frið sín á milli um aldur og æfi fyrir sig og erfingja sína, lönd sín og þegna. Löndum þeim, er hverir fyrir sig hafa unnið herskildi, skal aptur skilað, nema Rússar láta Tyrki fá landskika nokkurn, að norðanverðu við landamæri furstadæmanna, til þess að landamærin verði þar beinni og greinilegri, líka skal nefnd sett til að ákveða landamæri í Austurálfu. Öllum þjóðum skal heimilt að sigla á kaupskipum og verzla á Duná og allar skorður, sem þar hafa verið lagðar á verzlun manna, skulu burt numdar. Engir herskipaflotar mega vera í Svartasjó, nema Tyrkir og Rússar mega halda þar nokkur smá gufuskip, jafnmörg hvorir, og skal stærð þeirra og tala ákveðin, og skulu því soldán og Rússakeisari skuldbinda sig til, að hafa þar engin forðabúr til útbúnaðar á sjóliði. Furstadæmin skulu halda frelsi því, er þau hafa lengi haft, og skal soldán gjöra skipun á

[1]) þó er samt enn ótalið slit á stíl og áhöldum, sem ekki getur fært til reiknings, fyr en jafnótt og hvað fyrir sig verður ónýtt; en árlega getur þetta ekki numið svo miklu, þar sem brúkunin er svo lítil.

um stjórnarfyrirkomulag í löndum þessum, og taka fulltrúa landanna með til ráðaneytis. Soldán og ríki hans skal fá hlutdeild í þjóðarjetti Norðurálfu, og atkvæði, þegar um þau málefni er að ræða, er varða allan þenna hlut heims. Hin ríkin skuldbinda sig til að sjá svo um, að Tyrkjaveldi verði engum háð og að soldán haldi öllum löndum sínum, og ef misklíð kemur á milli Tyrkjaríkis og einhverra þessara ríkja, skulu hin ríkin fyrst reyna til að koma sáttum á, áður en ófriður hefst.

Þetta eru nú helztu atriðin í friðarsáttmálanum, en mörg önnur atriði komu einnig til umræðu á sáttafundinum í Parísarborg, sem eru mikils varðandi fyrir Norðurálfu, og skal þeirra síðar getið.

Þó það kunni nú að virðast svo í snöggu áliti, að lítið hafi á unnizt með stríði þessu, er verið hefur svo stórkostlegt og kostað öll ríkin, sem hafa átt í því, ógrynni fjár, og drepið niður nokkur hundruð þúsund manna, unga og hrausta, sem ómetanleg eptirsjón er að, þá er þó í rauninni ekki alllítið sem unnizt hefur. Rússaveldi hafði hjerumbil 150 ár aukizt og eflzt á marga vegu síðan um daga Pjeturs mikla, og aldrei liðið neinn hnekkir. Eptir ófarir Napóleons 1. í Rússlandi 1812, var það álitið því nær ósigrandi, og á friðarfundinum í Vínarborg rjeði því Rússakeisari mestu, og eptir þann tíma hefur Rússland haft ofurvald mikið á meginlandi Norðurálfunnar og borið ægishjálm yfir öllum öðrum ríkjum. Stjórn Rússaveldis er, eins og allir vita, harðstjórn, er líkist meir stjórnarfyrirkomulagi Austurálfu en nokkurri þeirri einvaldsstjórn, sem verið hefur í Norðurálfu, hversu ótakmörkuð, sem hún hefur verið. Þetta ofurveldi Rússa í seinni tíð hefur því mest af öllu staðið á móti því, að frelsishreifingarnar í Norðurálfunni, sem urðu 1830 og 1848 og optar, fengju nokkurn framgang, og þeir hafa ætíð gengið bezt fram að kúga frelsi þjóðanna, og styðja einvaldana til að halda völdum sínum, þegar þeir hafa verið farnir að hallast úr söðli. Það virtist því, þegar Rússar byrjuðu ágang sinn af engu tilefni við Tyrki nú á undan þessari seinustu styrjöld, að spásögn Napóleons gamla ætlaði að rætast, er hann sagði, að um miðja þessa öld mundu annaðhvort Rússar verða orðnir algjörlega ofan á í Norðurálfunni eða frelsishreifingar þjóðstjórnarinnar. Bróðursonur Napóleons 1., keisarinn, sem nú er í Frakklandi, fann það og þegar, að sjer og öðrum konungum á meginlandinu mundi veita örðugt að etja kappi við Rússa, ef þeir næðu að leggja undir sig Tyrkjalönd, og gekk því í samband við Englendinga, er ætíð hafa fundið hve nauðsynlegt það er, að jafnvægi hjeldist milli ríkjanna í Norðurálfu, ef að frelsi og menntun eiga að geta haldizt, og rjettindi hinna einstöku þjóða ekki verða algjörlega fyrir borð borin. Frakkar og Englendingar sögðu þess vegna undir eins, er þeir hófu stríðið, að tilgangur sinn væri sá, að vernda Tyrkjasoldán og ríki hans, og að þeir ætluðu alls ekki í því að leita neinna eigin hagsmuna, og hafa þeir haldið það dyggilega, og það hvað bezt á því, að setja Rússum ekki harðari skilmála en svo, að þeir gátu gengið að þeim, og sloppið svo nokkurn veginn skammarlaust úr stríði þessu, er einungis hafði hlotizt af ójöfnuði þeirra.

Árangurinn af stríði þessu er því sá, að þetta mikla ofurvald Russa er undir lok liðið, og sterkar skorður reistar við ágangi þeirra framvegis. Þegar þeir missa flota sinn á Svartasjó og mega ekki hafa þar sjóarútbúnað, vofa þeir ekki lengur yfir Tyrkjalöndum, því langir vegir eru á landi og seinfarið með lið. Nú hafa þeir einnig misst verndarvald það, er þeir höfðu áður yfir furstadæmunum við Duná, sem einlægt hefur gefið þeim færi á að sletta sjer fram í stjórn landa þessara, og draga þau undan hlýðni við soldán, og öll ríkin sem hafa tekið þátt í friðarsamningnum hafa lofað að styrkja soldán til þess að ríki hans verði engi ágangur veittur. Rússar hafa einnig orðið að hætta við að víggirða Bómarsund á Álandseyjum í Eystrasalti, er þeir höfðu til að ógna Svíum með, og Svíar og Norðmenn hafa bundið það fastmælum við Frakka að láta Rússum ekki eptir neina höfn vestur við haf, er þeim hefur lengi leikið hugur á. En mest af öllu er þó varið í það, sem stríð þetta hefur sýnt, og það er, að þó að Rússar sjeu bardagamenn miklir, vantar þá þó mikið í herkunnáttu við vesturlöndin, eins og von er, svo að líklegt er, að langt líði áður þeir færast annað eins í fang aptur. En þó að nú mikið sje unnið með friði þessum, þá hefur þó borið töluvert á því, að Englendingar sjeu ekki ánægðir með málalokin, og þykir þeim mörgum, að öll þörf hefði verið á, að minnka veldi Rússa meira en gjört er í sáttmála þessum; enda þykjast þeir lítið hafa reynt sig enn í stríðinu, en höfðu nú nægan afla liðs og fjár, en Napóleon hefur að líkindum ekki þótzt fær um að halda stríðinu til þrautar, þegar hið mesta var unnið, því fjárhagur hans og Frakka er engan veginn í góðu lagi.

Eitt hið merkasta, er gjörðist á friðarfundinum var það, að sendiherrarnir komu sjer saman um að gjöra þann viðbæti við friðarskilmálann, er ákveður miklu skýrar en áður hefur gjört verið um rjettindi þjóða á sjó á ófriðartímum. Það hafði um aldur og æfi verið ágreiningur milli þeirra þjóða, sem áttu í stríði saman og þeirra er hvorugum vildu fylgja um rjettindi hinna síðar nefndu til verzlunar og vöruflutninga, og hafa það einkum verið Englendingar, sem opt hafa beitt miklum ójöfnuði í þessu efni, þegar þeir hafa átt í ófriði. Atriði þau, er sendiherrarnir komu sjer saman um í þessu máli voru: 1. allur víkingskapur skal af tekinn, 2. ekki skal gjöra upptækt fje fjandmanna, nema hernaðargögn sjeu, ef að það er í skipi undir merkisblæju þeirra ríkja, er með hvorugum eru, 3. ekki skal tekið að herfangi fje þeirra ríkja, sem hvorugum fylgja,

þó það sje undir merkisblæju fjandmannanna, nema hergögn sjeu. 4. Ekki skulu sjóumsátur veita neinn rjett til fjárupptekta, nema þegar þau eru svo vel haldin, að engi skip komist að hinum umsetna stað. þessar ákvarðanir rýmka mjög um öll verzlunarviðskipti annara þjóða á ófriðartímum, og hefur því flestum þjóðum í Norðurálfu geðjast mjög vel að þessu, og gengið glaðir undir þessa sáttmála.

þó að nú friður væri á kominn, þótti vesturríkjunum þó ekki nógu trútt bundið um hnútana, og gjörðu því Frakkland og England sjerstakan sáttmála við Tyrkjaveldi 15. apríl, og Austurríki gekk undir eins undir þann sáttmála; og skuldbinda öll þessi ríki sig til í sameiningu og hvert fyrir sig að ábyrgjast soldáni öll lönd sín samkvæmt friðarsáttmálanum 30. marz, og verja oddi og egg Tyrkjalönd, ef nokkuð er út af brugðið. Margrætt hefur verið um þenna sjerstaka samhing, og ætla margir, að vesturríkin hafi fullt eins mikið haft í hyggju að vernda Tyrkjalönd með samningi þessum fyrir Austurríkismönnum sem Rússum.

Sardiníumenn komu fram á fundinum í Parísarborg með langa rollu um ástand Ítalíu og báðu fundarmenn að greiða úr vandkvæðum þeim, sem eru á stjórn þar í landi, einkum í páfalöndum og Neapelsríki. Á Ítalíu hefur nú í nokkur ár verið útlent setulið einkum í páfalöndum, og hafa Frakkar haft lið í Rómaborg, en Austurríkismenn norðan til í þeim, því páfastjórnin er svo afllaus, að hún getur ekki haldið friði í landinu með stjórnarfyrirkomulagi því, sem nú er, og svo ófrjálslynd, að hún ekki vill slaka neitt til og gefa þjóðinni meira frelsi. Stjórnin í Neapelsríki hefur lengi verið illa ræmd fyrir alls konar harðýðgi og ofsóknir gegn frjálslyndum mönnum, og það svo til ófriðar hefur horft við England, er hefur viljað milda úr tiltektum stjórnarinnar. Sardinía hefur þar á móti hina frjálsustu og beztu stjórn, og allt fer þar ágætlega fram, og er því mikill óróí annarstaðar í Ítalíu, því þjóðina langar mjög til að fá endurbót á þessu, og verða hins sama frelsis aðnjótandi sem Sardiníumenn, en stjórnin í löndunum heldur þjóðinni í ánauð með tilstyrk hins útlenda setuliðs. — þó að fundarmenn, þrátt fyrir tillögur sendiherra Englendinga, vildu nú ekki taka þessar bænir Sardiníumanna til greina, hafa þó Frakkar og Englendingar lýst því yfir, að öll þörf sje á að bæta úr þessu ástandi Ítalíu, og treysta því Sardiníumenn því, að Vesturríkin muni draga taum sinn svo að Austurríki nái ekki að þröngva kosti þeirra á Ítalíu. (Framhald síðar).

---

þegar jeg sá aðra prófórk á viðaukablaði Norðra í vor, þá fór jeg samstundis til meðnefndarmanna minna, sem hjer voru á Akureyri og til ritstjóra Norðra, og sýndi þeim ofan á, að mjer þótti óráð að láta prenta annað eins, að nokkra leyti ósatt og þýðingalaust stagl, eins og mjer fannst það innihalda, jafnvel þó jeg játi, að mjer væri skylt, eins og öllum amtsbúum amtmanns Havsteins, hefði hann þurft þess með, að forsvara hann fyrir illgirnisáaustri þjóðólfs, því að áliti mínu er amtmaður Havstein hið rjettvísasta og bezta yfirvald, eins og hann líka er ljúfur og lítillátur við alla æðri og lægri; og ekkert sannar þjóðólfur í mínu hjarta með því, þó hann hreyki sjer upp af því, að Ólsen eigi að fá hálf umboðslaunin heima í blaðinu. Án þess jeg neitt halli á Ólsen, hefur reynslan sýnt, að það, sem rjett er og satt, verður ekki ætíð ofan á í viðskiptum manna, eins og líka öllum getur yfir sjest, þó þeir af öllu megni vilji vanda gjörðir sínar. þetta bið jeg Norðra að auglýsa.

Grímur Laxdal.

# Auglýsingar.

Gráskjótt hryssa, fremur lítil vexti, með mark: stúfrifað eða stýft vinstra, var þann 6. þ. m. seld við uppboð á Eyvindarstöðum. Hver, sem þekkir hryssu þessa sína eign, má vitja hennar fyrir 16. júlí næstkomandi til Magnúsar bónda Magnússonar á Eiríksstöðum, sem varð hæstbjóðandi, móti sanngjarnri borgun fyrir haga og hirðingu næstliðinn vetur, og vanaleg uppboðs-sölulaun.

Gunnsteinsstöðum 20. dag maím. 1856.

Jóhannes Guðmundsson.

Helgidagaræður eptir próf. dr. og lector theol. P. Pjetursson, riddara af dbr., kosta hjá öllum þeim, sem þær verða sendar til útsölu, 13 mörk óinnbundnar, en í gylltu alskinni 18 mörk.

Reykjavík í maím. 1856.

E. Jónsson.

Fyrir tilhlutun hreppstjóra Jóns Jóakimssonar á þverá hafa okkur verið greiddir 13rd. frá Helgastaðahrepp, til endurgjalds upp í fararevrir Jónanna til Kaupmannahafnar sumarið 1851; fyrir hvað við hjer með þakklátlega kvitterum.

Jón Jónsson frá Munkaþverá. Jón Jónsson frá Grænavatni.

Frá deild hins íslenzka bókmenntafjelags í Kaupmh. hefi jeg undirskrifaður fengið beiðni um að takast á hendur umboð fjelagsins hjer í Eyjafirði, en þar eð það er fyrir hendi, að jeg fari hjeðan til branðs þess, sem mjer er veitt syðra, get jeg ekki tekizt starfa þenna á hendur, og hefi jeg því fengið cand. philos. Svein Skúlason á Akureyri til þess, að annast um þetta fyrir mína hönd, þangað til bókmenntafjelagið getur útvegað sjer annan umboðsmann, og bið jeg því alla, er bækur eiga að fá frá bókmf. að leita bókanna hjá honum og greiða honum andvirði þeirra.

Staddur á Akureyri 18. júní 1856.

G. E. Johnsen.

Jeg undirskrifaður auglýsi, að jeg er kominn aptur frá Kmhöfn, og hefi í hyggju að setjast hjer að á Akureyri til að vinna að handiðn minni, skósmíði. Jeg býð því öllum, sem við þurfa, allt er skósmíði til heyrir; en biðja verð jeg þá, er fá vildu skó úr ýmislegum vefnaði, silki eða öðru þess konar, að láta mig vita það sem fyrst, svo að jeg geti pantað það utanlands frá. Allt það, er jeg er beðinn um, skal jeg leysa af hendi svo fljótt og vel, sem unnt er, og selja það með hinu sanngjarnasta verði, er nú tíðkast. Einn laglegan dreng gæti jeg tekið til kennslu með þeim kostum, sem um semdi við hlutaðeiganda.

Akureyri 18. júní 1856.

S. J. Norðmann.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. 30. Júní. 12.

Þjóðólfur 10. maí hefur greinarkorn að færa lesendum sínum, þess efnis, að herra stúdent í stjórnvísindum, Arnljótur Ólafsson, færist undan því, að hann hafi sent ábyrgðarmanni Þjóðólfs, eða skrifað Ólsen á Þingeyrum þann kafla úr brjefi stjórnarinnar til amtmanns Havsteins, er stendur í Þjóðólfi 29. febrúar 1856, og ábyrgðarmaður Þjóðólfs leggur fullan drengskap sinn við, að hvorki herra Arnljótur Ólafsson, nje heldur umboðsmaður herra R. M. Ólsen hafi sent sjer kafla þenna úr stjórnarbrjefinu.

Af því nú herra stjórnfræðisstúdentinn A. Ólafsson játaði því í áheyrn minni og annars manns í vor í Kaupmannahöfn, að hann hefði komizt í brjefið og skrifað herra Ólsen úr því orðrjett, að svo miklu leyti sem hann gat munað það, þykir mjer afsökun þessi kynleg, þó mjer á hinn bóginn þætti gott, að hún væri sönn. Vera má, að annarhvor, A. Ólafsson eða R. M. Ólsen hafi skrifað þetta eða áþekkt þriðja manni, og þessi blessaður þriðji maður hafi svo fengið það eða látið fá það ábyrgðarmanni Þjóðólfs í hendur, svo að undanfærslan gilti þá, að þessir menn hefðu ekki skrifað ábyrgðarmanni Þjóðólfs þenna kafla úr brjefinu, en ekki hvort þeir væru þess valdir, að brjefið komst í hans hendur, og væri þá undanfærslan svipuð undanfærslu Glúms um víg Þorvaldar Króks.

---

### Bókafregn.

1. „Om Islands hidtilværende statsretlige Stilling“ eptir J. E. Larsen, etatsráð og háskólakennara, Kaupmannahöfn 1855.[1]
2. Om Islands statsretlige Forhold. Nogle Bemærkninger i Anledning af Etatsraad Professor J. E. Larsens Skrift „om Islands hidtilværende statsretlige Stilling, eptir Jón Sigurðsson, Kmhöfn 1855.[2]

Það eru fáir rithöfundar og því nær engir, er fengizt hafa við að tala um, hvaða rjettindi Ísland hefur í Danaríki, og það er hvorttveggja, að vjer Íslendingar höfum ekki haft neitt magn til að fá fullan rjett vorn í viðskiptum vorum við Dani, enda hafa þeir einatt verið oss harðdrægir og skamtað oss rjettindin úr hnefa. Síðan landið gekk undir konungsvald hafa hinir útlendu drottnar vorir, fyrst Noregs- og síðan Danakonungar, sífellt leitast við að auka rjett sinn á landinu, og draga fram sinn hlut eptir megni, eins og konungar nú alstaðar hafa gjört; og er það reyndar eðlilegt, því völd og virðing fylgjast mjög að, og konungur vill sem mest fjarlægjast kotungnum, eins og kotungurinn á hinn bóginn helzt vill vera laus við alla yfirdrottnun, ef hann gæti það, og er hvað drjúgastur að skapa hörð lög og dóma, þegar svo hefur farið í sögunni, að hann hefur orðið ofan á. Þess vegna er líka ætíð harðstjórn eða ríkt konungsvald í þeim löndum, þar sem þjóðin vaknar ekki sjálf til að hugsa um hagi sína, og halda fram rjettindum sínum móti konungsvaldinu. Það er nú hvorttveggja, að Íslendingar hafa ekki staðið vel fast á því að halda rjetti sínum, enda virðist svo sem konungar vorir hafi gleymt rjettindum þeirra, en þó einkum „dönsku bræðurnir vorir“, því þeir vilja nú vera oss í konungs stað. Hin fyrri bók, sem hjer er nefnd að ofan, ber þess ljósan vott. Háskólakennari J. E. Larsen hefur tekið sjer fyrir hendur að sýna og sanna hver rjettindi vjer höfum haft Íslendingar og hver þau nú sjeu, og byggir hann rannsókn sína einkum á því að reyna til að hrekja álit nefndarinnar í stjórnarmálinu á þjóðfundinum 1851, og verður það því ofan á, að rjettindi Ís-

---

[1]) Gefið út á kostnað dómsmálastjórnarinnar 1856.

[2]) Jeg veit ekki betur en rit þetta komi á íslenzku annaðhvort sjerstakt, eða í Nýjum Fjelagsritum.

lendinga sjeu lítil sem engin, og að vjer sjeum þegnar Danakonungs á sama hátt og Danir, og sjeum undir grundvallarlögunum dönsku eins og Danir, og að breytingin á þeim, og alríkisstjórnarskipunin sje eins handa oss og Dönum, og að land vort og þjóð sje sameinað hinum danska þjóðlíkama (incorporeret), og leiðir þá af þessu, að vjer eigum að vilja vera Danir, og taka fagnaðarhendi móti rjettindum þeim, sem „dönsku bræðurnir" rjetta oss, og firrtast ekki, þó að þeir, ef til vill, ástundum skeri oss rustasneið.

J. E. Larsen segir, að þó það nú yrði sannað, að Íslendingar hefðu gjört frjálst samband við Noreg í fyrstunni, þá hafi seinna verið gjörðar breytingar, er hafi numið burt þessi rjettindi, og að þetta löglega ástand (að rjettindin voru numin burtu?), sem hafi myndast þannig smámsaman í sögunni eptir þörfum og nauðsyn tímanna (?), sje hinn almenni rjettur Íslands framvegis, en ekki það, er nú megi leiða út úr því, er elzti sáttmálinn inniheldur.

Eptir að háskólakennarinn þykist nú hafa sýnt, hvernig hið upprunalega samband hafi nú breytzt, og hvernig yfirráð konunganna hafi vaxið, án þess að hann láti þess nokkursstaðar við getið, hverjar skuldbindingar konungarnir gjörðu af sinni hendi, segir hann: „Ísland hefur ekki einungis staðið undir sama konungs valdi og Danmörk og Noregur, heldur einnig undir sömu stjórnarráðum og sama hæstarjetti, og þetta er engan veginn til orðið á þann hátt, að slengt sje saman hinu umboðslega valdi í löndunum, heldur var það bein afleiðing af hinni nýju stjórnarskipun (þegar einvaldið komst á 1660), og ekki annað en það, sem þegar að miklu leyti var komið á. Hvað löggjöfina snertir, er það aðalatriðið, að Ísland lá öldungis undir hið sama löggjafarvald og hinir hlutar ríkisins, en hitt atriðið, að Ísland hjelt að nokkru leyti hinum eldri lögum sínum, og fjekk seinna ýmisleg sjerstök lög, hefur litla þýðingu viðvíkjandi stöðu Íslands í ríkinu". Höfundurinn leggur að síðustu þann dóm á málið, að samkvæmt konungalögunum gömlu, og samkvæmt því, er til hafi verið ætlazt (!), þegar grundvallarlögin voru samin, nái lög þau einnig til Íslands, þó þeim hafi enn ekki verið beitt hjer, og leiðir aptur af því, að allsherjarlögin nái einnig til Íslands, án þess landsmenn fái að hafa nokkuð atkvæði um það efni.

Þegar þetta rit var komið á gang, þótti Íslendingum ytra súrt í brotið að sitja undir þessu, en þó höfðu fáir, vit og kunnáttu til að svara því eins og þurfti.

Jón Sigurðsson alþingismaður varð til að leggja út í þann voða, sem það að mörgu leyti mátti virðast, að svara þessum lærðasta lögfræðingi Dana, og hann hefur gjört það þannig, að hann á miklar þakkir skilið fyrir það af öllum Íslendingum. — Jón Sigurðsson skiptir máli þessu í 3. greinir og spyr: 1. Komst Ísland fyrst í samband við Noreg sem frjálst sambandsland, eða var það lagt undir það ríki? — 2. Hefur Ísland nokkurn tíma afsalað sjer sjálfstjórn sinni og viðurkennt að það væri lagt undir Noreg, og 3. Hefur samband Íslands við Danmörku gjört nokkra breytingu, er slíkt gæti leitt af. Eptir að Jón Sigurðsson hefur nú sýnt og sannað, hvernig hið upphaflega samband var öldungis frjáls samningur af beggja hálfu, bæði eptir gamla sáttmála, og eptir því, er einlægt var viðurkennt af Noregskonunga hálfu; hvernig Íslendingar gáfu sig undir stjórn konungs sjálfs, en aldrei undir vald norsku þjóðarinnar, og hvernig þeir beinlínis áskildu sjer þau rjettindi, er hlutu að geta veitt landinu fullt frelsi í eigin stjórn sinni, ef þau voru ekki fótum troðin, og að sambandið var þannig eingöngu bundið við konung sjálfan, en ekki við ráðgjafa hans eða neinn annan, sýnir hann, um leið og hann rekur orð fyrir orð allar ástæður þær, er háskólakennarinn ætlaði að byggja vizku sína á, hvernig þessu einlægt að miklu leyti hefur verið fylgt, og hvernig hver konungur einlægt skuldbindur sig, um leið og Íslendingar sverja honum hollustueið, til að láta þá njóta allra rjettinda sinna, og það eins eptir að Ísland var ásamt Noregi komið undir veldi Danakonunga. Það einasta, er hann sýnir ljóslega að valdið hefur, að nokkur breyting varð á, er það, að stjórnin tók að hafa minni afskipti af landinu og hafa það eins og að olbogabarni, eptir að hún var komin til Danmerkur, enda var við því að búast, að þegar landið fjarlægðist aðalaðsetri stjórnarinnar, að kunnugleiki hennar á högum landsins mundi minnka, og líka leiddi það af því, að stjórnin hafði við svo mörgu að snúast, eptir að Kalmarsambandið var komið á, svo að hún gat ekki eins skeytt um hin fjærliggjandi lönd, og að aðgjörðir hennar urðu harðdrægari og landsmönnum óhollari. Manndauðar, eldgos og önnur harðæri komu líka yfir Ísland, og gjörðu landsbúa sljófari til að fylgja fram rjetti sínum.

þegar Jón Sigurðsson hefur þannig sannað, að Ísland hafi aldrei misst neitt af rjettindum þeim, er það hafði eptir hinum upphaflega samningi, og að það sje í rauninni ofurvald, ef að stjórnin vilji láta Íslendinga gjalda þess, að þeir eru aflaminni, tekur hann fyrir hvert einstakt atriði, er snertir tilraunir stjórnarinnar nú á seinustu tímum til að gjöra skipun á um fyrirkomulag Íslands í ríkinu, og sýnir hvílíka ósamkvæmni stjórnin hefur við haft í þessu efni. Eptir að konungur hafði auglýst, að hann ætlaði að gefa þegnum sínum frjálsa stjórn og sleppa einveldi sínu, var svo að sjá, bæði á konungsbrjefinu 23. september 1848, og á umræðunum á hinu almenna ríkisþingi Dana, þegar grundvallarlögin voru samin, sem stjórnin ætlaði að láta Ísland fá fullan rjett sinn, og staðfestist þetta enn fremur af kosningarlögunum 28. september 1849 um kosningarnar til þjóðfundarins, er í öllum aðalatriðum voru jafnfrjálsleg og kosningarlögin fyrir ríkisþingið, er samdi grundvallarlögin. Það var því ekki kyn þó þjóðfundinum brigði í brún, er hann sá frumvarp stjórnarinnar um fyrirkomulag Íslands í ríkinu, er lagt var fyrir hann, og þó að meiri hluti nefndarinnar stæði á móti frumvarpi þessu, er veitti alþingi einungis viðlíka mikið vald og amtsráðin í Danmörku hafa, og að öðru leyti skamtaði landsmönnum rjettindin mjög úr hnefa. Jón Sigurðsson sýnir einnig, hve nauðsynlegt það hefði verið, að konungsfulltrúi hefði lofað að ræða málið til lykta í stað þess að rjúka í að slíta þinginu í miðju kafi, og hversu loforð konungs í auglýsingunni góðu 12. maí 1852, um að ekki skuli neitt fastráðið um stöðu Íslands í ríkinu fyr en það mál hafi verið borið undir álit alþingis, sje öldungis ónógt, þar eð alþingi geti ekki rætt það mál, og konungur geti ekki bundið enda á loforð sitt í brjefinu 23. sept. 1848, nema með því að skipa nýjan þjóðfund eptir kosningarlögunum 28. sept. 1849, og stjórnin og þjóðin hafi þar komið sjer saman og ráðið málinu til lykta.

Meira en þetta leyfir ekki rúmið mjer að tala um þessa ágætu ritgjörð, er svo skírt og stillilega talar máli þjóðrjettinda vorra, og hvet jeg að endingu, hvern þann, er vita vill, hver rjettindi lands vors eru, til að afla sjer hennar, þegar hún kemur hingað á íslenzku.

---

(Aðsent).

Á alþingi 1855 skrifaði forseti þingsins H. Stephensen eptir beiðni þess ávarp til landsmanna þess efnis: „að þeir sæu sjer ráð fyrir að forðast matarskort, bæði með því að stofna forðabúr í sveitum, og aptur hins vegar með því að láta minna fje til kaupmanna til sölu út úr landinu. — Þessi aðvörun virðist þó hafa haft lítinn árangur árið sem leið, að minnsta kosti hjer í norðurkaupstöðunum, því næstliðið haust var fjártakan engu minni heldur jafnvel meiri (sjá Norðra 1856, 3. bl.; er segir, að farið hafi út af landinu hjerumbil 3000 tunnur af söltuðu kjöti). Þetta sýnir hve landsmenn gæta lítið að hinum verulega hag sínum og hve óframsýnir þeir eru með að byrgja sig með matföngum, er þeir láta þessa beztu og hollustu matbjörg sína út úr landinu, og það jafnvel fyrir óþarfa, en líða sjálfir skort á viðurværi, er fram á veturinn líður, og það svo, að sumir, sem látið hafa fje í kaupstaðinn, hafa orðið að fara til kaupmannanna og kaupa aptur kjöt af þeim; þó verðum vjer að vísu að geta þess, að vjer vitum ekki til, að kaupmenn hafi notað sjer þessa neyð landsmanna til að selja þeim kjötið dýrara, en þeir höfðu keypt það, þó landsmenn hefðu í alla staði átt það skilið til hegningar fyrir skammsýni sína. — Þó að kjöt hafi nú undan farin ár verið í háu verði, sem ekki er víst að verði í haust, hafa aptur á mót útlendu vörurnar hækkað viðlíka, auk þess að allt lendir þó á bændunum að síðustu í útgjöldunum, því að sama hófi hækkar verðlagsskráin, og lendir því allt í sama stað, eða verður jafnvel verra, auk þess hve örðugt þá veitir kaupstaðabúum og sjóarbændum að geta fengið til muna kjöt og aðra matbjörg frá sveitabændum. Þetta er einnig að kenna vana þeim, er sjóarbændur eru búnir að taka upp á, að þeir selja harðfisk sinn kaupmönnum, og sveitabændur kaupa hann aptur af þeim, og borga hann með sláturfje á haustin eða öðrum vörum, og lendir þannig það sláturfje hjá kaupmönnum, er sjóarbændum er svo ómissandi, og sveitamenn verða þannig bundnari við að kaupa það í kaupstaðnum, er þeir ættu miklu fremur að fá hjá sjóarbóndanum. Það er því ný áskorun vor til sveitabænda, að þeir láti minna af fje sínu í kaupstaðinn næstkomandi haust en að undanförnu, en leggi bæði meira í bú sitt og hafi meira að miðla sjóarbændum og kaupstaðabúum úr búi sínu, og að þeir fái aptur hjá sjóarbóndanum þau þarfindi, er hann getur í tje látið. Það væri eðlilegra að sveita- og sjóar-bændur hefðu sameigin-

sje mikið í peníngum í hvort skipti, og eptir hvors árs meðal-alin ætlum við sjett goldið kaup og skuldir, sem eru í fiskatali og samníngar eru ekki fyrir á annan veg; það er líka mjög eðlilegt og sanngjarnt, að kaupafólk frá sjáfarsíðunni fái smjör og þá hluti, sem það helzt þarfnast í kaup sitt, að svo miklu leiti sem gjaldendur geta, og með því verði, sem þá er á þeim. En — hvörnig varið er daglaunum í öðrum löndum, má sunnlendíngum vera kunnugra enn okkur, þó við höldum, að margir daglaunamenn erlendis gjörðu sig ánægða með að fá hjer um bil 4 mörk í kaup um daginn og gott fæði, rúm og þjónustu, og víst mundu daglaunamennirnir norðlenzku þakka fyrir, að fá þessi kjör hjá sunnlendíngum; en það verður ekki fyrr, enn þessir fara að láta þá „uppskera, eins og þeir hafa sáð," og mun þess verða lángt að bíða.

það er hálfskrítið, þegar sunnlendíngar eru að reikna ferðakostnað kaupamanna norður, það er líkast því, ef norðlendíngar færi að tilreikna sunnlendíngum lestaferðakostnað sinn suður og slengdu honum á ísufjórðúngana, sem þeir kaupa að sunnlendíngum, legðu þeim síðan út til lasts, hvað dýrt þeir hefðu selt sjer fiskinn; en í þennan ferðakostnað ætlast þeir samt ekki til, að þeir geti fengið nema 3. dala kaup um vikuna. sem þeir þyrftu að brúka til ferðanna, eða væri annarstaðar enn fyrir norðan, og mun fæðið líka vera hjer meðreiknað; þeir hafa þá líklega snöggvast munað eptir daglaununum hjá sjer sunnanlands; samt þykir þeim ólíðandi, að láta Húnvetnínga sjálfráða með, að gjalda ekki nema 4 ríkisdali í meðal vikukaup, fyrir utan fæði og alla aðra aðhlynníngu, sem vissulega er meira enn 2. dala virði, og sezt þá af þessu og þvílíku, hvar sunnlendíngagreinin er ástæðulaus og ójafnaðarfull. Við álítum að vísu ekki rjett, að binda meðalvikukaup einmitt við 4 ríkisdali, þar eð þeir jafngylda ei ætíð 40 fiskum, því eptir því, sem lifandi peníngur og aðrir landaurar hækka í verði, eptir því fjölgar skildíngatal í meðal fiskvirði og meðal-alin, sem við höldum hinn rjetta mælikvarða að borga fiskatalsskuldir eptir, þar sem samníngar eru ekki öðruvísi um borgunina, eins og áður er ávikið.

það hefði verið mikið fróðlegt og má ske þarflegt, ef sunnlendíngagreinin hefði fært okkur áætlun um: hvað margar ær þyrfti að hafa í búi til þess, að kosta kaupamann að öllu leiti sumarlángt af arði þeirra? og svo: hvað mikil fjárfækkunin mundi verða, ef kaupafólkið kæmi ekki? en ef svo færi — sem við ætlum — að fjenaðurinn þyrfti ekki fyrir það að fækka öllu meir enn svaraði því sem þyrfti til að kosta kaupafólkið: þá yrði Húnvetníngar litlu verr staddir eptir enn áður, en niðurstaðan yrði sú, að allar slæmu afleiðíngarnar lendtu á Gullbríngusýslubúum, í því að svipta þá einhverjum þarfasta og notabezta atvinnuvegi, er þeir hafa haft híngað til. Og, þó höfundar greinarinnar vildu hamla því, að kaupafólk færi norður: verður það ofætlun fyrir þá; því bæði munu flestir sjá, hver vitleysa og óráð það væri og líka mun margt af kaupafólkinu vera fúst til, að finna Húnvetnínga sína einusinni enn, og treysta því fullvel, að það fái hjá þeim betri og sjer þarfari atvinnu, heldur enn hjá löndum og sveitúngum sínum syðra við þeirra „heimahnauk," og þeir sem þakklátlega viðurkenna það, sem vel er við þá gjört, eru okkur líka velkomnir; en hinir, sem með ósanngirni og sjálfbyrgíngsskap vilja fá og heimta meira kaup enn þeir eiga með rjettu, meiga gjarnan vera, fyrir okkur, hverra manna, sem þeir vilja.

**Nokkrir Húnvetníngar.**

## Ráð við dýrtíð.

(Eptir þýzku blaði).

Ef einhver fyndi upp á því, að selja eitthvert læknisráð við dýrtíð, húngri og fátækt fyrir 10 rd., mundi óefað margur fátæklíngurinn reita sig innað skyrtunni til að kaupa það. þó mundi þetta bráðum reynast svik ein og prettir. En ráð mitt er hollt og einlægt, og jeg ætlast ekki til svo mikils sem þakklætis fyrir það, þó hverjum mundi reynast það svo óyggjandi, að það hefði ekki að eins mátt kosta 10 rd. heldur 10 tunnur gulls. Ráðið er þetta: þú skalt ekki drekka brennivín, nje aðra áfenga drykki, eða það sem gjörir þig fyrst ölværan og síðan vitstola.

það er sem jeg sjái nú margan hleypa brúnum, ygla sig og snúa hæðilega að mjer bakinu. En reiðist mjer ekki. Jeg vil ykkur vel. Jeg fyrir mitt leyti, hefi ekkert gagn af því, hvort þið drekkið eða ekki, en það er einúngis sjálfra yðar vegna og vegna ektamaka yðar og barna, að jeg segi ykkur þetta ráð. Staldrið þið við og hlustið á mig; eða er það svo óbærilegt að heyra sannleikann af munni góðs vinar? það er víst, að volæði býr á meðal þeirra, sem hafa ofurselt sig ofdrykkjunni, þeir hinir sömu hafa ekki af miklu að láta. Matbjörgin er af skornum skamti, skuld-

irnar og örbyrgðin vex með degi hverjum. Skuldaheimtumennirnir koma úr öllum áttum og hver vill hafa sitt. Ætli þið eigið ekki bágt með að standa í skilum við alla þessa? Enginn getur þó allt af búist við láni og umlíðíngu. Þið gleymið allri búsýslu yðar, fáið óbeit á allri vinnu, verðið fullir af leiðindum, eyrið ekki heima, farið strax á morgnana á bæi eða í kaupstaðinn til þess að sóa tímanum þar allan daginn og kaupa á pelann eða snýkja út í staupinu, komið svo aptur heim á kvöldin, eða á nóttunni, hálfsvínkaðir eða út úr, og gott ef þið eruð þá ekki uppi með illindi og hávaða við konu aumíngjana og krakkana, eða finnið allt að öllu; heilir og hálfir dagarnir gánga í að sofa úr sjer vímuna, lítið sem ekkert er unnið, í staðinn fyrir það sem þið gátuð unnið mikið. Það sem fer aflaga eða í handaskolum fyrir ykkur, kennið þið konunni eða krökkunum; hún má bera alla birðina, sem flýtur af umönnun heimilsins og stríðinu við svo og svo mörg börn, sem hún hvorki fær hjá yður næga fæðu eða klæði handa, og hefur opt tæpast eins marga bita í eigu sinni, sem börnin eru mörg, og hvort á hún þá að sækja glaðvært geð? — Þið stíngið höndunum í vasana og segið: tíðin er vond; en konurnar barma sjer og berja á brjóst. *Það eruð þið sjálfir sem eruð vondir frá rótum, en ekki tíðin!* Gjörið þið hvort þið viljið, að þykkjast við mig eða ekki, en farið að ráðum mínum. *Hættið að drekka áfengu drykkina*, þá mun allt í einu skipta um til batnaðar! Við skulum nú hyggja að: ef þú drekkur dag hvern 2 staup, hvert á 2 sk., þá verður það 7 rd. 3 mörk um árið; drekkirðu pelann, þá eru það 15 rd., drekkirðu mörkina upp á hvern dag, þá verður það 1½ tunna af brennivíni eða 45 rd., en sje það potturinn, þá verða það 3 tunnur og sem kosta 60—90 rd. um árið, auk alls vinnutjóns, og það sem forsómun skyldna þinna við konu og börn og aðra í fjelaginu leiðir illt eptir sig. — En hefðir þú nú þar á móti varið öllu því, sem þú hefur keypt brennivín eða áfenga drykki fyrir til nauðsynja þinna, hversu mikið mundir þú ekki hafa getað bætt bú þitt og gjört konu þína og börn ánægðari og sælli, auk hagsmunanna, sem stöðug umsjón og vinna í heimili þínu hefði áunnið þjer, prýtt og aukið álit þitt og gengi meðal granna þinna og allra, sem til þín þekkja. — Þegar þú ert drykkjumaður, getur þú naumast unnið nokkurt verk, svo að öðrum líki. Skiptavinir þínir segja skilið við þig, hver vill eiga viðskipti við drykkjurútinn og óskilamanninn? Þú eyðileggur bæði sál og líkama, því öllum skyldum þeim, sem Guðs tíulaga boðorð krefjast af þjer, drekkir þú í vínstaupinu. Hús þitt, sem átti að vera musteri Guðs, er orðið að ræníngjabæli, og loksins þegar kona þín og börn og þú sjálfur deyja út af, í fyrirlitníng og volæði, og hinn rjettláti Guð spyr þig að: Hver er morðínginn? þá máttu andvarpa og svara: jeg er það; jeg er morðínginn! nokkur staup eða soppar hvern dag, voru orsökin til þessa alls! Vitjaðu spítala hinna vitskertu, og farðu í díblissur óbótamannanna, eða til aftökustaðanna, og þá muntu fá að vita það, að drykkjuskapurinn var sem optast orsök til þess, að afdrif þeirra urðu þannig. Þú kannt að segja: jeg er *hófsamur!* en varaðu þig vinur! Hinn mesti drykkjumaður hefur drukkið lítið fyrst, en smátt og smátt aukið við sig, til þess hann hefur sökkt sjer í flóði ofdrykkjunnar, og hinn vondi búinn, ef til vill, að glata sálu hans.

Það getur verið, að þjer sumir hverjir, sem drykkjumenn eruð, eða sóið miklu til kaupa fyrir áfenga drykki, sjeuð svo efnugir eða ríkir, eða hafið nóg til launa að lifa við, að ekki þurfið að gánga í bága við nauðsynjar, yðar og innan dyra, en ekki úti á strætum eða mannamótum neytið vínsins; þá er misbrúkunin hin sama, sem þjer ekki getið mælt bót, hvorki fyrir Guði nje góðum mönnum, að hafa þannig varið því af efnum yðar eyðið til þessa; að jeg ekki tali um, þegar þjer eruð yfirvöld og eigið að vera góð fyrirmindan annara, sjer í lagi þeirra hafið yfir að segja[1]. Væri yður ekki nær og sannara, að verja andvirðinu er eyðið fyrir áfengu drykkina og vínið, til þess að stofna með því eitthvert gott fyrirtæki, eða aðstoða einhvern aumíngann, sem varla á til næsta máls, enn síður fötin utan á sig, til að skýla með nekt sinni. Slíkt aflaði yður meðvitundar um, að hafa gott gjört, og umbunar á efsta degi; en hitt þar á móti bakar yður eptir á ónota, heilsuspillis, leiðinda og órósemi, og má ske örvæntíngar á banasænginni. Eða hvílík blindni og ósómi, er það ekki fyrir höfðíngjana, að fara rjett sem í kappdrykkjur, og sá þykja mestur maðurinn, sem mestu getur þá sóað og svallað, og seinast dottið í valinn.

Eða þjer, sem eruð á únga aldri, og ekki hafið ofurselt heilsu yðar og farsæld á vald ofdrykkjunnar, þá varist umfram allt, að svívirða æsku yðar eða æfi með henni framvegis, heldur látið yður í tíma annara víti að varnaði verða.

Hins vegar er brennivínið sjálft, eitthvert hið mesta átumein, sem menn nokkurntíma hafa þekkt. Ætli að góður Guð hafi látið jarðeplin og hið gullvæga korn vaxa til þess, að menn skyldu búa til úr því brennivín og drekka með því úr sjer vitið og heilsuna? Nei! heldur til þess, að þið, konur yðar og börn, gætuð saðst af gróða jarðarinnar og lofað Guð fyrir. En brennivínið stelur saðníngunni úr pottinum, brauðinu úr munn-

[1]) Hvað höfðíngjarnir hafast að, hinir ætla sjer leyfist það. Yfirmönnunum er því vant, undirsátarnir hnísa grant. (Sjá Hallgríms sálma, 22, v. 10). Ritst.

inum og þakklætinu úr hjartanu, þið trúið því ekki, og þó er því þannig varið: þegar þú drekkur dálítið staup af brennivíni þá hefur þú í einum teyg gleypt allt að hálfu brauðpundi; því í þetta litla staup fer einmitt eins mikið af korni, og bakarinn þarf til að baka úr hálft pund af brauði. Hálfa brauðpundið hefði getað satt þig, en brennivínið svengir þig, spillir heilsu þinni og eyðir sálu þína, og hver sem drekkur dag hvern 16 staup, eins og margur gjörir, svelgir í sig 7 pund af brauði, eða þeirra virði í öðrum mat, og þetta er eins mikið og þú fátæklíngurinn, með öðrum mat getur haft þjer til viðurværis í eina viku, eða sem mundi nægja þjer og mikilli fjölskyldu einn dag, að jeg ekki nefni, að sá sem drekkur pottinn; eða þótt það ekki sje nema mörkin eða pelinn á dag, á ekki að eins bágt með að vinna nokkuð að ráði, heldur neyðist til að hleypa sjer í skuldir, og steypir sjer og sínum í svívirðingu og ógæfu með sínu óguðlega athæfi, og kennir sonum sínum og dætrum, eða fósturbörnum, slíkt hið sama.

Það er annars engin furða þótt kornið og jarðeplin verði dýrkeypt, og meir enn helfíng þjóðanna skorti nægilegt viðurværi, þá menn vita, að í mörgum löndum, er varið svo og svo miklu korni og jarðeplum til brennivínsgjörðarinnar. Í eina einustu tunnu af brennivíni, þurfa að minnsta kosti 430 pund af korni eða 900 pund af jarðeplum og 65 pund af korni, eða í hverjar 100 tunnur af brennivíni, 210 tunnur af rúg. Öllu þessu eyðir brennivínið og áfengu drykkirnir, sem hverfur síðan í kok drykkjurútsins, enn ekki í pottinn eða á borðið hjá hinum húngraða. Það er þess vegna að jeg segi að brennivínið sje rjettur hvomur, og hvar hann ræður fyrir, þar getur jörðin ekki veitt næga uppskeru, og guðsblessan, sem hvílir yfir ökrum og úthaga, er sóað og eytt.

Fari nú svo, sem ætíð er við að búast, að eins bág ár komi yfir oss, eins og vjer stundum höfum mátt reyna; að uppskeru brestur verði og hallæri, gróði jarðarinnar sýkist, einnig skepnurnar sem á henni nærast, stríðsins hörmúngar og eyðilegging nái til vor og yfir oss, og okurmennirnir og maurapúkarnir hafi sjer að leikfángi, að okra út við oss lífsbjörgina, þegar þeir vita, að hana er hvergi annarstaðar að fá, nema hjá sjer, og þeim nú gefst hezt færi á, að seðja ágirnd sína og auraelsku, er verður því soltnari og gráðugri, sem meira fjenast.

Það ætti því hver, sem annir velferð sinni og meðbræðra sinna, að hlusta til ráðs míns, neytið ekki framar hinna áfengu drykkja, gjörið það af kærleika til sjálfra yðar, gjörið það af kærleika til vandamanna yðar, til ektamaka yðar og barna, gjörið það af elsku til Guðs, sem ekki vill að þjer standið iðjulausir á torginu, sem aðrar landeyður, vínfínglaðir, sem vitinu firitir, með hávaða og illindum, ofstopa og barsmíði, í þjónustu hins vonda, nje fyrirfarist í djúpi glötunarinnar, heldur að þjer náið augnamiði tilveru yðar, og verðið sælir. — Vinnið yður fyrir nægilegri matbjörg, en ekki fyrir drykk þeim, sem gjörir yður vitstola og glatar yður. Ef ykkur er annt um að varðveita heilsuna, vitið og lífið, þá látið engann telja ykkur trú um, að þið sparið mat með því, að drekka brennivínið eða annað, sem gjörir yður svínkaða, eins og sumir halda, enn síður, að það veki og styrki hugsun yðar og framkvæmd, því það einmitt með tímanum dregur úr yður alla dáð og dug, og gjörir yður óhæfilega til alls góðs.

Kaupið heldur klæði og fæði fyrir þenna vitstola drykk. Ráð mín efla yður og heimilum yðar blessunar, blessunar í hjarta yðar, og samvizkufriðar.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

18. þ. m. kom norðanpósturinn Grímur Magnússon að sunnan híngað á Akureyri, og hafði hann verið áleiðis og til baka, í ferð þessari 26 daga, og af þeim beðið 3 daga í Rv. — Að sunnan, er að frjetta aflalítið í sumum veiðistöðum], t. a. m. á Álptanesi, Vatnsleysuströnd, en þó hlutir lægstir í Keflavík og Njarðvíkum, eða ekki nema 40—70 fiska hlutir yfir alla vertíðina. Aptur hafði aflinn verið betri í Vogum og Útgarði, en þó bestur í Höfnum og á Akranesi. — Kvörtun er um að fjárhöld ekki svari nú til árgæskunnar sem var í vetur; vegna sóttar í fjenu, helzt í gemlíngum, og að ormar hafi fundist í yðrum þess og enda lúngnapípunum. — Hundapestin hafði alla jafna verið að færast syðra austur á bóginn. — Veðuráttufarið hefur allann þenna mánuð, verið hjer nyrðra úrkomu lítið og kalt, og opt frost á nóttunni, svo gróður, að tiltölu við hvað hann byrjaði snemma, tekið litlum framförum. — Hákarlsaflinn hefur enn í vor verið mjög misfenginn. Ógæftirnar og hafísinn, sem enn er hjer norðan land, hafa töluvert hamlað aflabrögðunum. — Nýskeð er fiskur kominn aptur hjer út í firðinum.

## Útlendar.

19. þ. m. kom Briggskipið Freyja, skipstjóri Koldbye á Húsavík, og hafði honum byrjað vel frá Helsíngjaeyri. — Með skipi þessu kom kand. Sveinn Skúlason, sem ráðið hefur nú að setjast hjer að, og taka að sjer ritstjórn Norðra, og byrjar hann með því, að gefa út janúarm. þ. á., síðan júním., o. s. frv. Hann hefur komið því til leiðar, að Íngim. prentari, sem kominn var úr prentsm. er nú fenginn aptur í hana, mót 250 rd. launum um árið.

Af verzluninni, er ekkert merkilegt að frjetta, því dýrtíðin á korninu tjáist að kalla enn hin sama og seinast er getið. Mælt er að Norðmaður einn hafi komið í vor á Eskjuf. fermdur að mestu jarðeplum og köðlum. — Þess er getið í seinasta blaði, að ekki væri útkljáð um Eyrarsundstollinn. Nú er tjáð, að hlutaðeigandi þjóðir, nema Ameríkumenn, sem ekki voru búnir að átta sig á málinu, muni vilja nema hann af, en greiða Danmörku í skaðabætur 34 mill. dala.

---

Til minnisvarða yfir læknir sál. E. Johnsen, hafa enn gefið; herra Justitiarius Th. Jónassen 10 rd., sjera J. Kröger á Helgastöðum 2 rd. og sjera J. Yngvaldsson á Húsavík 2 rd., sem samanlagt við áður komna 149 rd., er alls 163 rd.

---

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. | 20. Júní. | 11.

### Svar
### uppá fyrstu greinina í 8. bl. Norðra.

Í næstl. aprílm. blaði Norðra er greinarkorn, sem virðist öll að lúta að því, að leiða almenningi fyrir sjónir, hve báglega er komið efnahag prentsmiðjunnar á Akureyri, verkaumsjón hennar og annari stjórn, og að það sje Norðri einn, er haldi í henni lífinu, og þetta allt þykist höfundur greinarinnar geta leitt út af reikningum prentsmiðjunnar fyrir árið 1855. Þótt vjer nú játum því fúslega, að allt þetta kunni að vera að mörgu leyti miður en skyldi, getum vjer samt ekki leitt hjá oss, að taka hið helzta af því fáorðlega fram, er oss finnst, að fært sje þar frá rjettu lagi, og sem hljóti því að miða til þess að rýra álit þessarar fátæku stofnunar í augum almennings, fram yfir það, er hún á skilið.

Hvað þá fyrst áhrærir vinnuskýrslu höfundarins fyrir næstl. reikningsár, þá er hún öll að meiru eður minna leytinu reikningslega röng, og verður því ekkert á henni byggt; þannig er, t. a. m., alveg sleppt út úr henni Kvöldsöngsræðum sjera Sveinbjarnar og 3 örkum af Bænakveri bókb. Laxdals. Þetta er líka allt í eðli sínu, þar eð höfundurinn ekki gat fengið af sjer að fá að sjá skilríki fyrir reikningunum hjá forseta prentsmiðjunefndarinnar, eins og honum þó stóð til boða. Þarađauki er það margt, er vinnuna snertir, sem ekki er til greint, og ekki gat til greinzt sjerstaklega í reikningi prentsmiðjunnar, en sem höfundurinn átti að taka fram og færa til reiknings, fyrst hann fór á annað borð að myndast við að greina hið verknaðarlega frá hinu reikningslega, t. a. m., að taka móti sverði, bera hann inn, leggja í ofn, bera út ösku og inn vatn, sópa húsið, flytja pappír og brenni suður í prentsmiðjuna, kljúfa brennið, telja og bleyta pappír og hengja hann upp, taka hann aptur ofan og stafla honum og afhenda loks hlutaðeigendum, senda með prófarkir út um bæinn og sækja þær ástundum aptur, sjóða svartkefli (Valsa), og fleira þess háttar; til alls þessa gengur talsverður tími (þannig er, t. a. m. einungis reiknað fyrir að undir búa og sjóða efni í keflið 1 rd.; en þeir munu soðnir hjerumbil 12 á ári), og er borgun fyri allt þetta, eður flest af því, fólgin í þeim þriðjungi, sem bætt er við vinnulaunin fyri sjálfa prentunina. Einnig átti það að takast til greina, þegar vinnan var talin, að drengurinn ekki kom til prentsmiðjunnar fyr en með byrjun aprílm., þá öllu óvanur; að Ingimundur prentari las nokkuð af prófgörkum Norðra, m. fl., í vinnutímum prentsmiðjunnar; að prentararnir voru meira eður minna lasnir í kvefveikinni í fyrra sumar, og að þeir fengu 9 daga lausn frá prentstörfum gegn 7 rd. endurgjaldi; að vjer ekki fáum oss til orða allt það verkatjón, er Norðri hefur verið ollandi, ekki einungis vegna þeirra mörgu og margbrotnu reikninga, sem koma fyrir í honum, heldur og vegna þess, að svo opt hefur verið tekið upp aptur það, sem búið hefur verið að setja, og þrásinnis beðið eptir handriti. Allt þetta verkatjón, sem ekki hefur verið fært til reiknings, af því sem prentsmiðjan átti blaðið sjálf, getum vjer ómögulega metið minna í samanburði við aðra prentun, enn 1 heilan dag fyri hvern mánuð, eða 12 daga vinnumissir um árið.

Hvað þessu næst áhrærir sjálfan Norðra, þá er það að vísu satt, að aldrei hefur komið jafnmikið inn af andvirði hans, sem þetta næstl. ár, en samt getum vjer ekki fallizt á það, sem höfundurinn segir, að prentsmiðjan hafi, „auk alls tilkostnaðar til hans, unnið þetta árið á honum **fulla 200 rd.**“ Reikningurinn verður hjerumbil svona lagaður:

Inn komið af andvirði Norðra árið 1855, að með töldum 16 rd. frá amtmanni Havstein, 606 rd. 34 sk.

En hjer frá dregst aptur:

| | | rd. | sk. |
|---|---|---|---|
| a., | prentunarkostnaðurinn . . . . | 161 | » |
| b., | pappírinn . . . . . . . . . | 85 | 6 |
| c., | til prófarka, hjerumbil . . . . | » | 64 |
| d., | prófarkalestur . . . . . . . . | 16 | 48 |
| e., | fyrir tímatöf við alla reikningana, upptekt á stíl og bið eptir handriti, og fl. | 40 | » |
| f., | til ritstjórans . . . . . . . | 172 | 13 |
| g., | frá ofanskrifuðum 606 rd. 34 sk. dragast enn fremur þeir 25 rd. er vísað var til hjá Helga prentara, en sem hann vildi síðar meir ekki taka gilda upp í laun sín . . . . . . . . | 25 | » |
| h., | 4% renta eptir andvirði Norðra, sem goldizt hefur fyrir árin 1853 og 1854 (af því sem borgunarfresturinn fyrir hvers árs Norðra er ekki nema til næsta nýárs) . . . . . . . . . | 12 | 87 |
| | Samanlagt | 513 | 26 |
| | Ávinningur | 93 | 8. |

Einnig er þess að geta, að enn mun liggja nokkuð óselt af Norðra hjá ýmsum útsölumönnum hans, er á sínum tíma mun meir eður minna rýra þann hagnað, er höfundurinn gjörir svo mikið úr; þannig vitum vjer til þess, að enn liggja óseld hjá einum einasta manni 8 expl. af næstl. árs Norðra.

Þótt en sje mikið óselt af smásögunum, og þótt prentsmiðjan á Akureyri sje komin í málastapp út af prentun barnalærdómsbókarinnar, heyrir þetta hvorugt til stjórn þeirri, sem nú er á prentsmiðjunni, og ætti því alls ekki að blandast þar saman við.

Þegar vjer skoðum nú aptur á hinn bóginn reikninga prentsmiðjunnar fyrir næstl. ár — sem enn eru að öllu leyti óhraktir —, og berum þá saman við fyrra árs reikningana, hefur prentsmiðjan unnið næstl. ár, auk alls venjulegs tilkostnaðar, rúma 200 rd., eður þó heldur fulla 270 rd., því með útgjöldum eru þar taldir hjerumbil 70 rd., er greiddir hafa verið næstl. ár upp í málskostnað barnalærdómsbókarinnar[1]. Mundi því ekki ísjárvert að fallast að svo komnu á þá uppástungu höfundarins, að leigja prentsmiðjuna, með öllum áhöldum hennar, fyrir 100 rd. leigu um árið?

Enn er það eitt, sem eptir er að minnast á í opt nefndri grein höfundarins, þar sem hann þykist hafa heyrt það í vetur, um það leyti verið var að semja reikninga prentsmiðjunnar, að hún hefði unnið á vinnu prentaranna einungis þetta ár 150 rd., og yfir höfuð að öðru saman lögðu 550 rd." Um þetta atriði gat engum verið á þeim tíma fullkunnugt, nema prentsmiðjunefndinni einni, eins og það virðist líka sveigt að henni; en það er svo langt frá því, að prentsmiðjunefndin hafi nokkurn tíma látið sjer slíkt um munn fara, að henni hafði aldrei dottið í hug að fara að reyna til að greina hið vinnulega frá hinu reikningslega, sem vjer álítum ógjörlegt, og föllumst því að öllu leyti á það, sem höfundurinn segir á einum stað, að hið „vinnulega og reikningslega sje í svo nánu sambandi, að það megi ekki slítast í sundur.“ Það er því höfundarins eins að ábyrgjast þessi ósannindi; en allir sjá, hve gott það var, að geta hnýtt þessu atriði aptan við vinnuskýrsluna, svo endirinn gæti þess betur svarað upphafinu.

**Prentsmiðjunefndin.**

---

## Útlendar frjettir.

Þess er getið í 9. blaði Norðra í ár, að friður var gjörður milli Rússlands, Tyrkja og Vesturríkjanna 30. marz næstliðinn, og að friðarskilmálarnir mundu auglýstir, þegar stjórnendur þessara ríkja væru búnir að staðfesta sáttmálann. Friðarsáttmáli þessi er nú auglýstur og skal nú getið helztu atriða hans. Stjórnendur ríkja þeirra, er í ófriði þessum hafa átt, semja grið og fullan frið sín á milli um aldur og æfi fyrir sig og erfingja sína, lönd sín og þegna. Löndum þeim, er hverir fyrir sig hafa unnið herskildi, skal aptur skilað, nema Rússar láta Tyrki fá landskika nokkurn, að norðanverðu við landamæri furstadæmanna, til þess að landamærin verði þar beinni og greinilegri, líka skal nefnd sett til að ákveða landamæri í Austurálfu. Öllum þjóðum skal heimilt að sigla á kaupskipum og verzla á Duná og allar skorður, sem þar hafa verið lagðar á verzlun manna, skulu burt numdar. Engir herskipaflotar mega vera í Svartasjó, nema Tyrkir og Rússar mega halda þar nokkur smá gufuskip, jafnmörg hvorir, og skal stærð þeirra og tala ákveðin, og skulu því soldán og Rússakeisari skuldbinda sig til, að hafa þar engin forðabúr til útbúnaðar á sjóliði. Furstadæmin skulu halda frelsi því, er þau hafa lengi haft, og skal soldán gjöra skipun á

[1]) Þó er samt enn ótalið slit á stíl og áhöldum, sem ekki getur færzt til reiknings, fyr en jafnótt og hvað fyrir sig verður ónýtt; en árlega getur þetta ekki numið svo miklu, þar sem brúkunin er svo lítil.

um stjórnarfyrirkomulag í löndum þessum, og taka fulltrúa landanna með til ráðaneytis. Soldán og ríki hans skal fá hlutdeild í þjóðarjetti Norðurálfu, og atkvæði, þegar um þau málefni er að ræða, er varða allan þenna hlut heims. Hin ríkin skuldbinda sig til að sjá svo um, að Tyrkjaveldi verði engum háð og að soldán haldi öllum löndum sínum, og ef misklíð kemur á milli Tyrkjaríkis og einhverra þessara ríkja, skulu hin ríkin fyrst reyna til að koma sáttum á, áður en ófriður hefst.

Þetta eru nú helztu atriðin í friðarsáttmálanum, en mörg önnur atriði komu einnig til umræðu á sáttafundinum í Parísarborg, sem eru mikils varðandi fyrir Norðurálfu, og skal þeirra síðar getið.

Þó það kunni nú að virðast svo í snöggu áliti, að lítið hafi á unnizt með stríði þessu, er verið hefur svo stórkostlegt og kostað öll ríkin, sem hafa átt í því, ógrynni fjár, og drepið niður nokkur hundruð þúsund manna, unga og hrausta, sem ómetanleg eptirsjón er að, þá er þó í rauninni ekki alllítið sem unnizt hefur. Rússaveldi hafði hjerumbil 150 ár aukizt og eflzt á marga vegu síðan um daga Pjeturs mikla, og aldrei liðið neinn hnekkir. Eptir ófarir Napóleons 1. í Rússlandi 1812, var það álitið því nær ósigrandi, og á friðarfundinum í Vínarborg rjeði því Rússakeisari mestu, og eptir þann tíma hefur Rússland haft ofurvald mikið á meginlandi Norðurálfunnar og borið ægishjálm yfir öllum öðrum ríkjum. Stjórn Rússaveldis er, eins og allir vita, harðstjórn, er líkist meir stjórnarfyrirkomulagi Austurálfu en nokkurri þeirri einvaldsstjórn, sem verið hefur í Norðurálfu, hversu ótakmörkuð, sem hún hefur verið. Þetta ofurveldi Rússa í seinni tíð hefur því mest af öllu staðið á móti því, að frelsishreifingarnar í Norðurálfunni, sem urðu 1830 og 1848 og optar, fengju nokkurn framgang, og þeir hafa ætíð gengið bezt fram að kúga frelsi þjóðanna, og styðja einvaldana til að halda völdum sínum, þegar þeir hafa verið farnir að hallast úr söðli. Það virtist því, þegar Rússar byrjuðu ágang sinn af engu tilefni við Tyrki nú á undan þessari seinustu styrjöld, að spásögn Napóleons gamla ætlaði að rætast, er hann sagði, að um miðja þessa öld mundu annaðhvort Rússar verða orðnir algjörlega ofan á í Norðurálfunni eða frelsishreifingar þjóðstjórnarinnar. Bróðursonur Napóleons 1., keisarinn, sem nú er í Frakklandi, fann það og þegar, að sjer og öðrum konungum á meginlandinu mundi veita örðugt að etja kappi við Rússa, ef þeir næðu að leggja undir sig Tyrkjalönd, og gekk því í samband við Englendinga, er ætíð hafa fundið hve nauðsynlegt það er, að jafnvægi hjeldist milli ríkjanna í Norðurálfu, ef að frelsi og menntun eiga að geta haldizt, og rjettindi hinna einstöku þjóða ekki verða algjörlega fyrir borð borin. Frakkar og Englendingar sögðu þess vegna undir eins, er þeir hófu stríðið, að tilgangur sinn væri sá, að vernda Tyrkjasoldán og ríki hans, og að þeir ætluðu alls ekki í því að leita neinna eigin hagsmuna, og hafa þeir haldið það dyggilega, og það hvað bezt á því, að setja Rússum ekki harðari skilmála en svo, að þeir gátu gengið að þeim, og sloppið svo nokkurn veginn skammarlaust úr stríði þessu, er einungis hafði hlotizt af ójöfnuði þeirra.

Árangurinn af stríði þessu er því sá, að þetta mikla ofurvald Rússa er undir lok liðið, og sterkar skorður reistar við ágangi þeirra framvegis. Þegar þeir missa flota sinn á Svartasjó og mega ekki hafa þar sjóarútbúnað, vofa þeir ekki lengur yfir Tyrkjalöndum, því langir vegir eru á landi og seinfarið með lið. Nú hafa þeir einnig misst verndarvald það, er þeir höfðu áður yfir furstadæmunum við Duná, sem einlægt hefur gefið þeim færi á að sletta sjer fram í stjórn landa þessara, og draga þau undan hlýðni við soldán, og öll ríkin sem hafa tekið þátt í friðarsamningnum hafa lofað að styrkja soldán til þess að ríki hans verði engi ágangur veittur. Rússar hafa einnig orðið að hætta við að víggirða Bómarsund á Álandseyjum í Eystrasalti, er þeir höfðu til að ógna Svíum með, og Svíar og Norðmenn hafa bundið það fastmælum við Frakka að láta Rússum ekki eptir neina höfn vestur við haf, er þeim hefur lengi leikið hugur á. En mest af öllu er þó varið í það, sem stríð þetta hefur sýnt, og það er, að þó að Rússar sjeu bardagamenn miklir, vantar þá þó mikið í herkunnáttu við vesturlöndin, eins og von er, svo að líklegt er, að langt líði áður þeir færast annað eins í fang aptur. En þó að nú mikið sje unnið með friði þessum, þá hefur þó borið töluvert á því, að Englendingar sjeu ekki ánægðir með málalokin, og þykir þeim mörgum, að öll þörf hefði verið á, að minnka veldi Rússa meira en gjört er í sáttmála þessum; enda þykjast þeir lítið hafa reynt sig enn í stríðinu, en höfðu nú nægan afla liðs og fjár, en Napóleon hefur að líkindum ekki þótzt fær um að halda stríðinu til þrautar, þegar hið mesta var unnið, því fjárhagur hans og Frakka er engan veginn í góðu lagi.

Eitt hið merkasta, er gjörðist á friðarfundinum var það, að sendiherrarnir komu sjer saman um að gjöra þann viðbæti við friðarskilmálann, er ákveður miklu skýrar en áður hefur gjört verið um rjettindi þjóða á sjó á ófriðartímum. Það hafði um aldur og æfi verið ágreiningur milli þeirra þjóða, sem áttu í stríði saman og þeirra er hvorugum vildu fylgja um rjettindi hinna síðar nefndu til verzlunar og vöruflutninga, og hafa það einkum verið Englendingar, sem opt hafa beitt miklum ójöfnuði í þessu efni, þegar þeir hafa átt í ófriði. Atriði þau, er sendiherrarnir komu sjer saman um í þessu máli voru: 1. allur víkingskapur skal af tekinn, 2. ekki skal gjöra upptækt fje fjandmanna, nema hernaðargögn sjeu, ef að það er í skipi undir merkisblæju þeirra ríkja, er með hvorugum eru, 3. ekki skal tekið að herfangi fje þeirra ríkja, sem hvorugum fylgja,

þó það sje undir merkisblæju fjandmannanna, nema hergögn sjeu. 4. Ekki skulu sjóumsátur veita neinn rjett til fjárupptekta, nema þegar þau eru svo vel haldin, að engi skip komist að hinum umsetna stað. þessar ákvarðanir rýmka mjög um öll verzlunarviðskipti annara þjóða á ófriðartímum, og hefur því flestum þjóðum í Norðurálfu geðjast mjög vel að þessu, og gengið glaðir undir þessa sáttmála.

þó að nú friður væri á kominn, þótti vesturríkjunum þó ekki nógu trútt bundið um hnútana, og gjörðu því Frakkland og England sjerstakan sáttmála við Tyrkjaveldi 15. apríl, og Austurríki gekk undir eins undir þann sáttmála; og skuldbinda öll þessi ríki sig til í sameiningu og hvert fyrir sig að ábyrgjast soldáni öll lönd sín samkvæmt friðarsáttmálanum 30. marz, og verja oddi og egg Tyrkjalönd, ef nokkuð er út af brugðið. Margrætt hefur verið um þenna sjerstaka samhlug, og ætla margir, að vesturríkin hafi fullt eins mikið haft í hyggju að vernda Tyrkjalönd með samningi þessum fyrir Austurríkismönnum sem Rússum.

Sardíníumenn komu fram á fundinum í Parísarborg með langa rollu um ástand Ítalíu og báðu fundarmenn að greiða úr vandkvæðum þeim, sem eru á stjórn þar í landi, einkum í páfalöndum og Neapelsríki. Á Ítalíu hefur nú í nokkur ár verið útlent setulið einkum í páfalöndum, og hafa Frakkar haft lið í Rómaborg, en Austurríkismenn norðan til í þeim, því páfastjórnin er svo afllaus, að hún getur ekki haldið friði í landinu með stjórnarfyrirkomulagi því, sem nú er, og svo ófrjálslynd, að hún ekki vill slaka neitt til og gefa þjóðinni meira frelsi. Stjórnin í Neapelsríki hefur lengi verið illa ræmd fyrir alls konar harðýðgi og ofsóknir gegn frjálslyndum mönnum, og það svo til ófriðar hefur horft við England, er hefur viljað milda úr tiltektum stjórnarinnar. Sardinía hefur þar á móti hina frjálsustu og beztu stjórn, og allt fer þar ágætlega fram, og er því mikill órói annarstaðar í Ítalíu, því þjóðina langar mjög til að fá endurbót á þessu, og verða hins sama frelsis aðnjótandi sem Sardiníumenn, en stjórnin í löndunum heldur þjóðinni í ánauð með tilstyrk hins útlenda setuliðs. — þó að fundarmenn, þrátt fyrir tillögur sendiherra Englendinga, vildu nú ekki taka þessar bænir Sardiníumanna til greina, hafa þó Frakkar og Englendingar lýst því yfir, að öll þörf sje á að bæta úr þessu ástandi Ítalíu, og treysta því Sardiníumenn því, að Vesturríkin muni draga taum sinn svo að Austurríki nái ekki að þröngva kosti þeirra á Ítalíu. (Framhald síðar).

---

þegar jeg sá aðra prófórk á viðaukablaði Norðra í vor, þá fór jeg samstundis til meðnefndarmanna minna, sem hjer voru á Akureyri og til ritstjóra Norðra, og sýndi þeim ofan á, að mjer þótti óráð að láta prenta annað eins, að nokkru leyti ósatt og þýðingarlaust stagl, eins og mjer fannst það innihalda, jafnvel þó jeg játi, að mjer væri skylt, eins og öllum amtsbúum amtmanns Havsteins, hefði hann þurft þess með, að forsvara hann fyrir illgirnisáaustri þjóðólfs, því að áliti mínu er amtmaður Havstein hið rjettvísasta og bezta yfirvald, eins og hann líka er ljúfur og lítillátur við alla æðri og lægri; og ekkert sannar þjóðólfur í mínu hjarta með því, þó hann hreyki sjer upp af því, að Ólsen eigi að fá hálf umboðslaunin heima í blaðinu. Án þess jeg neitt halli á Ólsen, hefur reynslan sýnt, að það, sem rjett er og satt, verður ekki ætíð ofan á í viðskiptum manna, eins og líka öllum getur yfir sjest, þó þeir af öllu megni vilji vanda gjörðir sínar. þetta bið jeg Norðra að auglýsa. Grímur Laxdal.

# Auglýsingar.

Gráskjótt hryssa, fremur lítil vexti, með mark: stúfrifað eða stýft vinstra, var þann 6. þ. m. seld við uppboð á Eyvindarstöðum. Hver, sem þekkir hryssu þessa sína eign, má vitja hennar fyrir 16. júlí næstkomandi til Magnúsar bónda Magnússonar á Eiríkstöðum, sem varð hæstbjóðandi, móti sanngjarnri borgun fyrir haga og hirðingu næstliðinn vetur, og vanaleg uppboðs-sölulaun.

Gunnsteinsstöðum 20. dag maím. 1856.

Jóhannes Guðmundsson.

Helgidagaræður eptir próf. dr. og lector theol. P. Pjetursson, riddara af dbr., kosta hjá öllum þeim, sem þær verða sendar til útsölu, 13 mörk óinnbundnar, en í gylltu alskinni 18 mörk.

Reykjavík í maím. 1856.

E. Jónsson.

Fyrir tilhlutun hreppstjóra Jóns Jóakimssonar á þverá hafa okkur verið greiddir 13rd. frá Helgastaðahrepp, til endurgjalds upp í farareyrir Jónanna til Kaupmannahafnar sumarið 1851; fyrir hvað við hjer með þakklátlega kvitterum.

Jón Jónsson frá Munkaþverá. Jón Jónsson frá Grænavatni.

Frá deild hins íslenzka bókmenntafjelags í Kaupmh. hefi jeg undirskrifaður fengið beiðni um að takast á hendur umboð fjelagsins hjer í Eyjafirði, en þar eð það er fyrir hendi, að jeg fari hjeðan til brauðs þess, sem mjer er veitt syðra, get jeg ekki tekizt starfa þenna á hendur, og hefi jeg því fengið cand. philos. Svein Skúlason á Akureyri til þess, að annast um þetta fyrir mína hönd, þangað til bókmenntafjelagið getur útvegað sjer annan umboðsmann, og bið jeg því alla, er bækur eiga að fá frá bókmf. að leita bókanna hjá honum og greiða honum andvirði þeirra.

Staddur á Akureyri 18. júní 1856.

G. E. Johnsen.

Jeg undirskrifaður auglýsi, að jeg er kominn aptur frá Kmhöfn, og hefi í hyggju að setjast hjer að á Akureyri til að vinna að handiðn minni, skósmíði. Jeg býð því öllum, sem við þurfa, allt er skósmíði til heyrir; en biðja verð jeg þá, er fá vildu skó úr ýmislegum vefnaði, silki eða öðru þess konar, að láta mig vita það sem fyrst, svo að jeg geti pantað það utanlands frá. Allt það, er jeg er beðinn um, skal jeg leysa af hendi svo fljótt og vel, sem unnt er, og selja það með hinu sanngjarnasta verði, er nú tíðkast. Einn laglegan dreng gæti jeg tekið til kennslu með þeim kostum, sem um semdi við hlutaðeiganda.

Akureyri 18. júní 1856.

S. J. Norðmann.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

1856.

4. ár. | 30. Júní. | 12.

Þjóðólfur 10. maí hefur greinarkorn að færa lesendum sínum, þess efnis, að herra stúdent í stjórnvísindum, Arnljótur Ólafsson, færist undan því, að hann hafi sent ábyrgðarmanni Þjóðólfs, eða skrifað Ólsen á Þingeyrum þann kafla úr brjefi stjórnarinnar til amtmanns Havsteins, er stendur í Þjóðólfi 29. febrúar 1856, og ábyrgðarmaður Þjóðólfs leggur fullan drengskap sinn við, að hvorki herra Arnljótur Ólafsson, nje heldur umboðsmaður herra R. M. Ólsen hafi sent sjer kafla þenna úr stjórnarbrjefinu.

Af því nú herra stjórnfræðisstúdentinn A. Ólafsson játaði því í áheyrn minni og annars manns í vor í Kaupmannahöfn, að hann hefði komizt í brjefið og skrifað herra Ólsen úr því orðrjett, að svo miklu leyti sem hann gat munað það, þykir mjer afsökun þessi kynleg, þó mjer á hinn bóginn þætti gott, að hún væri sönn. Vera má, að annarhvor, A. Ólafsson eða R. M. Ólsen hafi skrifað þetta eða áþekkt þriðja manni, og þessi blessaður þriðji maður hafi svo fengið það eða látið fá það ábyrgðarmanni Þjóðólfs í hendur, svo að undanfærslan gilti þá, að þessir menn hefðu ekki skrifað ábyrgðarmanni Þjóðólfs þenna kafla úr brjefinu, en ekki hvort þeir væru þess valdir, að brjefið komst í hans hendur, og væri þá undanfærslan svipuð undanfærslu Glúms um víg Þorvaldar Króks.

---

## Bókafregn.

1. „Om Islands hidtilværende statsretlige Stilling“ eptir J. E. Larsen, etatsráð og háskólakennara, Kaupmannahöfn 1855.[1]
2. Om Islands statsretlige Forhold. Nogle Bemærkninger i Anledning af Etatsraad Professor J. E. Larsens Skrift „om Islands hidtilværende statsretlige Stilling, eptir Jón Sigurðsson, Kmhöfn 1855.[2]

Það eru fáir rithöfundar og því nær engir, er fengizt hafa við að tala um, hvaða rjettindi Ísland hefur í Danaríki, og það er hvorttveggja, að vjer Íslendingar höfum ekki haft neitt magn til að fá fullan rjett vorn í viðskiptum vorum við Dani, enda hafa þeir einatt verið oss harðdrægir og skamtað oss rjettindin úr hnefa. Síðan landið gekk undir konungsvald hafa hinir útlendu drottnar vorir, fyrst Noregs- og síðan Danakonungar, sífellt leitast við að auka rjett sinn á landinu, og draga fram sinn hlut eptir megni, eins og konungar nú alstaðar hafa gjört; og er það reyndar eðlilegt, því völd og virðing fylgjast mjög að, og konungur vill sem mest fjarlægjast kotungnum, eins og kotungurinn á hinn bóginn helzt vill vera laus við alla yfirdrottnun, ef hann gæti það, og er hvað drjúgastur að skapa hörð lög og dóma, þegar svo hefur farið í sögunni, að hann hefur orðið ofan á. Þess vegna er líka ætíð harðstjórn eða ríkt konungsvald í þeim löndum, þar sem þjóðin vaknar ekki sjálf til að hugsa um hagi sína, og halda fram rjettindum sínum móti konungsvaldinu. Það er nú hvorttveggja, að Íslendingar hafa ekki staðið vel fast á því að halda rjetti sínum, enda virðist svo sem konungar vorir hafi gleymt rjettindum þeirra, en þó einkum „dönsku bræðurnir vorir“, því þeir vilja nú vera oss í konungs stað. Hin fyrri bók, sem hjer er nefnd að ofan, ber þess ljósan vott. Háskólakennari J. E. Larsen hefur tekið sjer fyrir hendur að sýna og sanna hver rjettindi vjer höfum haft Íslendingar og hver þau nú sjeu, og byggir hann rannsókn sína einkum á því að reyna til að hrekja álit nefndarinnar í stjórnarmálinu á þjóðfundinum 1851, og verður það því ofan á, að rjettindi Ís-

---

[1]) Gefið út á kostnað dómsmálastjórnarinnar 1856.

[2]) Jeg veit ekki betur en rit þetta komi á íslenzku annaðhvort sjerstakt, eða í Nýjum Fjelagsritum.

lendinga sjeu lítil sem engin, og að vjer sjeum þegnar Danakonungs á sama hátt og Danir, og sjeum undir grundvallarlögunum dönsku eins og Danir, og að breytingin á þeim, og alríkisstjórnarskipunin sje eins handa oss og Dönum, og að land vort og þjóð sje sameinað hinum danska þjóðlíkama (incorporeret), og leiðir þá af þessu, að vjer eigum að vilja vera Danir, og taka fagnaðarhendi móti rjettindum þeim, sem „dönsku bræðurnir“ rjetta oss, og firrtast ekki, þó að þeir, ef til vill, ástundum skeri oss rustasneið.

J. E. Larsen segir, að þó það nú yrði sannað, að Íslendingar hefðu gjört frjálst samband við Noreg í fyrstunni, þá hafi seinna verið gjörðar breytingar, er hafi numið burt þessi rjettindi, og að þetta löglega ástand (að rjettindin voru numin burtu?), sem hafi myndast þannig smámsaman í sögunni eptir þörfum og nauðsyn tímanna(?), sje hinn almenni rjettur Íslands framvegis, en ekki það, er nú megi leiða út úr því, er elzti sáttmálinn inniheldur.

Eptir að háskólakennarinn þykist nú hafa sýnt, hvernig hið upprunalega samband hafi nú breytzt, og hvernig yfirráð konunganna hafi vaxið, án þess að hann láti þess nokkursstaðar við getið, hverjar skuldbindingar konungarnir gjörðu af sinni hendi, segir hann: „Ísland hefur ekki einungis staðið undir sama konungs valdi og Danmörk og Noregur, heldur einnig undir sömu stjórnarráðum og sama hæstarjetti, og þetta er enganveginn til orðið á þann hátt, að slengt sje saman hinu umboðslega valdi í löndunum, heldur var það bein afleiðing af hinni nýju stjórnarskipun (þegar einvaldið komst á 1660), og ekki annað en það, sem þegar að miklu leyti var komið á. Hvað löggjöfina snertir, er það aðalatriðið, að Ísland lá öldungis undir hið sama löggjafarvald og hinir hlutar ríkisins, en hitt atriðið, að Ísland hjelt að nokkru leyti hinum eldri lögum sínum, og fjekk seinna ýmisleg sjerstök lög, hefur litla þýðingu viðvíkjandi stöðu Íslands í ríkinu“. Höfundurinn leggur að síðustu þann dóm á málið, að samkvæmt konungalögunum gömlu, og samkvæmt því, er til hafi verið ætlazt (!), þegar grundvallarlögin voru samin, nái lög þau einnig til Íslands, þó þeim hafi enn ekki verið beitt hjer, og leiðir aptur af því, að allsherjarlögin nái einnig til Íslands, án þess landsmenn fái að hafa nokkuð atkvæði um það efni.

Þegar þetta rit var komið á gang, þótti Íslendingum ytra súrt í brotið að sitja undir þessu, en þó höfðu fáir vit og kunnáttu til að svara því eins og þurfti.

Jón Sigurðsson alþingismaður varð til að leggja út í þann voða, sem það að mörgu leyti mátti virðast, að svara þessum lærðasta lögfræðingi Dana, og hann hefur gjört það þannig, að hann á miklar þakkir skilið fyrir það af öllum Íslendingum. — Jón Sigurðsson skiptir máli þessu í 3. greinir og spyr: 1. Komst Ísland fyrst í samband við Noreg sem frjálst sambandsland, eða var það lagt undir það ríki? — 2. Hefur Ísland nokkurn tíma afsalað sjer sjálfstjórn sinni og viðurkennt að það væri lagt undir Noreg, og 3. Hefur samband Íslands við Danmörku gjört nokkra breytingu, er slíkt gæti leitt af. Eptir að Jón Sigurðsson hefur nú sýnt og sannað, hvernig hið upphaflega samband var öldungis frjáls samningur af beggja hálfu, bæði eptir gamla sáttmála, og eptir því, er einlægt var viðurkennt af Noregskonunga hálfu; hvernig Íslendingar gáfu sig undir stjórn konungs sjálfs, en aldrei undir vald norsku þjóðarinnar, og hvernig þeir beinlínis áskildu sjer þau rjettindi, er hlutu að geta veitt landinu fullt frelsi í eigin stjórn sinni, ef þau voru ekki fótum troðin, og að sambandið var þannig eingöngu bundið við konung sjálfan, en ekki við ráðgjafa hans eða neinn annan, sýnir hann, um leið og hann rekur orð fyrir orð allar ástæður þær, er háskólakennarinn ætlaði að byggja vizku sína á, hvernig þessu einlægt að miklu leyti hefur verið fylgt, og hvernig hver konungur einlægt skuldbindur sig, um leið og Íslendingar sverja honum hollustueið, til að láta þá njóta allra rjettinda sinna, og það eins eptir að Ísland var ásamt Noregi komið undir veldi Danakonunga. Það einasta, er hann sýnir ljóslega að valdið hefur, að nokkur breyting varð á, er það, að stjórnin tók að hafa minni afskipti af landinu og hafa það eins og að olbogabarni, eptir að hún var komin til Danmerkur, enda var við því að búast, að þegar landið fjarlægðist aðalaðsetri stjórnarinnar, að kunnugleiki hennar á högum landsins mundi minnka, og líka leiddi það af því, að stjórnin hafði við svo mörgu að snúast, eptir að Kalmarsambandið var komið á, svo að hún gat ekki eins skeytt um hin fjærliggjandi lönd, og að aðgjörðir hennar urðu harðdrægari og landsmönnum óhollari. Manndauðar, eldgos og önnur harðæri komu líka yfir Ísland, og gjörðu landsbúa sljófari til að fylgja fram rjetti sínum.

þegar Jón Sigurðsson hefur þannig sannað, að Ísland hafi aldrei misst neitt af rjettindum þeim, er það hafði eptir hinum upphaflega samningi, og að það sje í rauninni ofurvald, ef að stjórnin vilji láta Íslendinga gjalda þess, að þeir eru aflaminni, tekur hann fyrir hvert einstakt atriði, er snertir tilraunir stjórnarinnar nú á seinustu tímum til að gjöra skipun á um fyrirkomulag Íslands í ríkinu, og sýnir hvílíka ósamkvæmni stjórnin hefur við haft í þessu efni. Eptir að konungur hafði auglýst, að hann ætlaði að gefa þegnum sínum frjálsa stjórn og sleppa einveldi sínu, var svo að sjá, bæði á konungsbrjefinu 23. september 1848, og á umræðunum á hinu almenna ríkisþingi Dana, þegar grundvallarlögin voru samin, sem stjórnin ætlaði að láta Ísland fá fullan rjett sinn, og staðfestist þetta enn fremur af kosningarlögunum 28. september 1849 um kosningarnar til þjóðfundarins, er í öllum aðalatriðum voru jafnfrjálsleg og kosningarlögin fyrir ríkisþingið, er samdi grundvallarlögin. Það var því ekki kyn þó þjóðfundinum brigði í brún, er hann sá frumvarp stjórnarinnar um fyrirkomulag Íslands í ríkinu, er lagt var fyrir hann, og þó að meiri hluti nefndarinnar stæði á móti frumvarpi þessu, er veitti alþingi einungis viðlíka mikið vald og amtsráðin í Danmörku hafa, og að öðru leyti skamtaði landsmönnum rjettindin mjög úr hnefa. Jón Sigurðsson sýnir einnig, hve nauðsynlegt það hefði verið, að konungsfulltrúi hefði lofað að ræða málið til lykta í stað þess að rjúka í að slíta þinginu í miðju kafi, og hversu loforð konungs í auglýsingunni góðu 12. maí 1852, um að ekki skuli neitt fastráðið um stöðu Íslands í ríkinu fyr en það mál hafi verið borið undir álit alþingis, sje öldungis ónógt, þar eð alþingi geti ekki rætt það mál, og konungur geti ekki bundið enda á loforð sitt í brjefinu 23. sept. 1848, nema með því að skipa nýjan þjóðfund eptir kosningarlögunum 28. sept. 1849, og stjórnin og þjóðin hafi þar komið sjer saman og ráðið málinu til lykta.

Meira en þetta leyfir ekki rúmið mjer að tala um þessa ágætu ritgjörð, er svo skírt og stillilega talar máli þjóðrjettinda vorra, og hvet jeg að endingu, hvern þann, er vita vill, hver rjettindi lands vors eru, til að afla sjer hennar, þegar hún kemur hingað á íslenzku.

---

(Aðsent).

Á alþingi 1855 skrifaði forseti þingsins H. Stephensen eptir beiðni þess ávarp til landsmanna þess efnis: „að þeir sæu sjer ráð fyrir að forðast matarskort, bæði með því að stofna forðabúr í sveitum, og aptur hins vegar með því að láta minna fje til kaupmanna til sölu út úr landinu. — Þessi aðvörun virðist þó hafa haft lítinn árangur árið sem leið, að minnsta kosti hjer í norðurkaupstöðunum, því næstliðið haust var fjártakan engu minni heldur jafnvel meiri (sjá Norðra 1856, 3. bl., er segir, að farið hafi út af landinu hjerumbil 3000 tunnur af söltuðu kjöti). Þetta sýnir hve landsmenn gæta lítið að hinum verulega hag sínum og hve óframsýnir þeir eru með að byrgja sig með matföngum, er þeir láta þessa beztu og hollustu matbjörg sína út úr landinu, og það jafnvel fyrir óþarfa, en líða sjálfir skort á viðurværi, er fram á veturinn líður, og það svo, að sumir, sem látið hafa fje í kaupstaðinn, hafa orðið að fara til kaupmannanna og kaupa aptur kjöt af þeim; þó verðum vjer að vísu að geta þess, að vjer vitum ekki til, að kaupmenn hafi notað sjer þessa neyð landsmanna til að selja þeim kjötið dýrara, en þeir höfðu keypt það, þó landsmenn hefðu í alla staði átt það skilið til hegningar fyrir skammsýni sína. — Þó að kjöt hafi nú undan farin ár verið í háu verði, sem ekki er víst að verði í haust, hafa aptur á mót útlendu vörurnar hækkað viðlíka, auk þess að allt lendir þó á bændunum að síðustu í útgjöldunum, því að sama hófi hækkar verðlagsskráin, og lendir því allt í sama stað, eða verður jafnvel verra, auk þess hve örðugt þá veitir kaupstaðabúum og sjóarbændum að geta fengið til muna kjöt og aðra matbjörg frá sveitabændum. Þetta er einnig að kenna vana þeim, er sjóarbændur eru búnir að taka upp á, að þeir selja harðfisk sinn kaupmönnum, og sveitabændur kaupa hann aptur af þeim, og borga hann með sláturfje á haustin eða öðrum vörum, og lendir þannig það sláturfje hjá kaupmönnum, er sjóarbændum er svo ómissandi, og sveitamenn verða þannig bundnari við að kaupa það í kaupstaðnum, er þeir ættu miklu fremur að fá hjá sjóarbóndanum. Það er því ný áskorun vor til sveitabænda, að þeir láti minna af fje sínu í kaupstaðinn næstkomandi haust en að undanförnu, en leggi bæði meira í bú sitt og hafi meira að miðla sjóarbændum og kaupstaðabúum úr búi sínu, og að þeir fái aptur hjá sjóarbóndanum þau þarfindi, er hann getur í tje látið. Það væri eðlilegra að sveita- og sjóar-bændur hefðu sameigin-

lendinga sjeu lítil sem engin, og að vjer sjeum þegnar Danakonungs á sama hátt og Danir, og sjeum undir grundvallarlögunum dönsku eins og Danir, og að breytingin á þeim, og alríkisstjórnarskipunin sje eins handa oss og Dönum, og að land vort og þjóð sje sameinað hinum danska þjóðlíkama (incorporeret), og leiðir þá af þessu, að vjer eigum að vilja vera Danir, og taka fagnaðarhendi móti rjettindum þeim, sem „dönsku bræðurnir“ rjetta oss, og firrtast ekki, þó að þeir, ef til vill, ástundum skeri oss rustasneið.

J. E. Larsen segir, að þó það nú yrði sannað, að Íslendingar hefðu gjört frjálst samband við Noreg í fyrstunni, þá hafi seinna verið gjörðar breytingar, er hafi numið burt þessi rjettindi, og að þetta löglega ástand (að rjettindin voru numin burtu?), sem hafi myndast þannig smámsaman í sögunni eptir þörfum og nauðsyn tímanna(?), sje hinn almenni rjettur Íslands framvegis, en ekki það, er nú megi leiða út úr því, er elzti sáttmálinn inniheldur.

Eptir að háskólakennarinn þykist nú hafa sýnt, hvernig hið upprunalega samband hafi nú breytzt, og hvernig yfirráð konunganna hafi vaxið, án þess að hann láti þess nokkursstaðar við getið, hverjar skuldbindingar konungarnir gjörðu af sinni hendi, segir hann: „Ísland hefur ekki einungis staðið undir sama konungs valdi og Danmörk og Noregur, heldur einnig undir sömu stjórnarráðum og sama hæstarjetti, og þetta er engan veginn til orðið á þann hátt, að slengt sje saman hinu umboðslega valdi í löndunum, heldur var það bein afleiðing af hinni nýju stjórnarskipun (þegar einvaldið komst á 1660), og ekki annað en það, sem þegar að miklu leyti var komið á. Hvað löggjöfina snertir, er það aðalatriðið, að Ísland lá öldungis undir hið sama löggjafarvald og hinir hlutar ríkisins, en hitt atriðið, að Ísland hjelt að nokkru leyti hinum eldri lögum sínum, og fjekk seinna ýmisleg sjerstök lög, hefur litla þýðingu viðvíkjandi stöðu Íslands í ríkinu“. Höfundurinn leggur að síðustu þann dóm á málið, að samkvæmt konungalögunum gömlu, og samkvæmt því, er til hafi verið ætlazt (!), þegar grundvallarlögin voru samin, nái lög þau einnig til Íslands, þó þeim hafi enn ekki verið beitt hjer, og leiðir aptur af því, að allsherjarlögin nái einnig til Íslands, án þess landsmenn fái að hafa nokkuð atkvæði um það efni.

Þegar þetta rit var komið á gang, þótti Íslendingum ytra súrt í brotið að sitja undir þessu, en þó höfðu fáir, vit og kunnáttu til að svara því eins og þurfti.

Jón Sigurðsson alþingismaður varð til að leggja út í þann voða, sem það að mörgu leyti mátti virðast, að svara þessum lærðasta lögfræðingi Dana, og hann hefur gjört það þannig, að hann á miklar þakkir skilið fyrir það af öllum Íslendingum. — Jón Sigurðsson skiptir máli þessu í 3. greinir og spyr: 1. Komst Ísland fyrst í samband við Noreg sem frjálst sambandsland, eða var það lagt undir það ríki? — 2. Hefur Ísland nokkurn tíma afsalað sjer sjálfstjórn sinni og viðurkennt að það væri lagt undir Noreg, og 3. Hefur samband Íslands við Danmörku gjört nokkra breytingu, er slíkt gæti leitt af. Eptir að Jón Sigurðsson hefur nú sýnt og sannað, hvernig hið upphaflega samband var öldungis frjáls samningur af beggja hálfu, bæði eptir gamla sáttmála, og eptir því, er einlægt var viðurkennt af Noregskonunga hálfu; hvernig Íslendingar gáfu sig undir stjórn konungs sjálfs, en aldrei undir vald norsku þjóðarinnar, og hvernig þeir beinlínis áskildu sjer þau rjettindi, er hlutu að geta veitt landinu fullt frelsi í eigin stjórn sinni, ef þau voru ekki fótum troðin, og að sambandið var þannig eingöngu bundið við konung sjálfan, en ekki við ráðgjafa hans eða neinn annan, sýnir hann, um leið og hann rekur orð fyrir orð allar ástæður þær, er háskólakennarinn ætlaði að byggja vizku sína á, hvernig þessu einlægt að miklu leyti hefur verið fylgt, og hvernig hver konungur einlægt skuldbindur sig, um leið og Íslendingar sverja honum hollustueið, til að láta þá njóta allra rjettinda sinna, og það eins eptir að Ísland var ásamt Noregi komið undir veldi Danakonunga. Það einasta, er hann sýnir ljóslega að valdið hefur, að nokkur breyting varð á, er það, að stjórnin tók að hafa minni afskipti af landinu og hafa það eins og að olbogabarni, eptir að hún var komin til Danmerkur, enda var við því að búast, að þegar landið fjarlægðist aðalaðsetri stjórnarinnar, að kunnugleiki hennar á högum landsins mundi minnka, og líka leiddi það af því, að stjórnin hafði við svo mörgu að sinnast, eptir að Kalmarsambandið var komið á, svo að hún gat ekki eins skeytt um hin fjærliggjandi lönd, og að aðgjörðir hennar urðu harðdrægari og landsmönnum óhollari. Manndauðar, eldgos og önnur harðæri komu líka yfir Ísland, og gjörðu landsbúa sljófari til að fylgja fram rjetti sínum.

Þegar Jón Sigurðsson hefur þannig sannað, að Ísland hafi aldrei misst neitt af rjettindum þeim, er það hafði eptir hinum upphaflega samningi, og að það sje í rauninni ofurvald, ef að stjórnin vilji láta Íslendinga gjalda þess, að þeir eru aflaminni, tekur hann fyrir hvert einstakt atriði, er snertir tilraunir stjórnarinnar nú á seinustu tímum til að gjöra skipun á um fyrirkomulag Íslands í ríkinu, og sýnir hvílíka ósamkvæmni stjórnin hefur við haft í þessu efni. Eptir að konungur hafði auglýst, að hann ætlaði að gefa þegnum sínum frjálsa stjórn og sleppa einveldi sínu, var svo að sjá, bæði á konungsbrjefinu 23. september 1848, og á umræðunum á hinu almenna ríkisþingi Dana, þegar grundvallarlögin voru samin, sem stjórnin ætlaði að láta Ísland fá fullan rjett sinn, og staðfestist þetta enn fremur af kosningarlögunum 28. september 1849 um kosningarnar til þjóðfundarins, er í öllum aðalatriðum voru jafnfrjálsleg og kosningarlögin fyrir ríkisþingið, er samdi grundvallarlögin. Það var því ekki kyn þó þjóðfundinum brigði í brún, er hann sá frumvarp stjórnarinnar um fyrirkomulag Íslands í ríkinu, er lagt var fyrir hann, og þó að meiri hluti nefndarinnar stæði á móti frumvarpi þessu, er veitti alþingi einungis viðlíka mikið vald og amtsráðin í Danmörku hafa, og að öðru leyti skamtaði landsmönnum rjettindin mjög úr hnefa. Jón Sigurðsson sýnir einnig, hve nauðsynlegt það hefði verið, að konungsfulltrúi hefði lofað að ræða málið til lykta í stað þess að rjúka í að slíta þinginu í miðju kafi, og hversu loforð konungs í auglýsingunni góðu 12. maí 1852, um að ekki skuli neitt fastráðið um stöðu Íslands í ríkinu fyr en það mál hafi verið borið undir álit alþingis, sje öldungis ónógt, þar eð alþingi geti ekki rætt það mál, og konungur geti ekki bundið enda á loforð sitt í brjefinu 23. sept. 1848, nema með því að skipa nýjan þjóðfund eptir kosningarlögunum 28. sept. 1849, og stjórnin og þjóðin hafi þar komið sjer saman og ráðið málinu til lykta.

Meira en þetta leyfir ekki rúmið mjer að tala um þessa ágætu ritgjörð, er svo skírt og stillilega talar máli þjóðrjettinda vorra, og hvet jeg að endingu, hvern þann, er vita vill, hver rjettindi lands vors eru, til að afla sjer hennar, þegar hún kemur hingað á íslenzku.

---

(Aðsent).

Á alþingi 1855 skrifaði forseti þingsins H. Stephensen eptir beiðni þess ávarp til landsmanna þess efnis: „að þeir sæu sjer ráð fyrir að forðast matarskort, bæði með því að stofna forðabúr í sveitum, og aptur hins vegar með því að láta minna fje til kaupmanna til sölu út úr landinu. — Þessi aðvörun virðist þó hafa haft lítinn árangur árið sem leið, að minnsta kosti hjer í norðurkaupstöðunum, því næstliðið haust var fjártakan engu minni heldur jafnvel meiri (sjá Norðra 1856, 3. bl.; er segir, að farið hafi út af landinu hjerumbil 3000 tunnur af söltuðu kjöti). Þetta sýnir hve landsmenn gæta lítið að hinum verulega hag sínum og hve óframsýnir þeir eru með að byrgja sig með matföngum, er þeir láta þessa beztu og hollustu matbjörg sína út úr landinu, og það jafnvel fyrir óþarfa, en líða sjálfir skort á viðurværi, er fram á veturinn líður, og það svo, að sumir, sem látið hafa fje í kaupstaðinn, hafa orðið að fara til kaupmannanna og kaupa aptur kjöt af þeim; þó verðum vjer að vísu að geta þess, að vjer vitum ekki til, að kaupmenn hafi notað sjer þessa neyð landsmanna til að selja þeim kjötið dýrara, en þeir höfðu keypt það, þó landsmenn hefðu í alla staði átt það skilið til hegningar fyrir skammsýni sína. — Þó að kjöt hafi nú undan farin ár verið í háu verði, sem ekki er víst að verði í haust, hafa aptur á mót útlendu vörurnar hækkað viðlíka, auk þess að allt lendir þó á bændunum að síðustu í útgjöldunum, því að sama hófi hækkar verðlagsskráin, og lendir því allt í sama stað, eða verður jafnvel verra, auk þess hve örðugt þá veitir kaupstaðabúum og sjóarbændum að geta fengið til muna kjöt og aðra matbjörg frá sveitabændum. Þetta er einnig að kenna vana þeim, er sjóarbændur eru búnir að taka upp á, að þeir selja harðfisk sinn kaupmönnum, og sveitabændur kaupa hann aptur af þeim, og borga hann með sláturfje á haustin eða öðrum vörum, og lendir þannig það sláturfje hjá kaupmönnum, er sjóarbændum er svo ómissandi, og sveitamenn verða þannig bundnari við að kaupa það í kaupstaðnum, er þeir ættu miklu fremur að fá hjá sjóarbóndanum. Það er því ný áskorun vor til sveitabænda, að þeir láti minna af fje sínu í kaupstaðinn næstkomandi haust en að undanförnu, en leggi bæði meira í bú sitt og hafi meira að miðla sjóarbændum og kaupstaðabúum úr búi sínu, og að þeir fái aptur hjá sjóarbóndanum þau þarfindi, er hann getur í tje látið. Það væri eðlilegra að sveita- og sjóar-bændur hefðu sameigin-

leg fjelög með sjer og miðluðu hver öðrum á víxl, því er þeir gætu án verið, og þá gæti viðurværi þeirra, hverra fyrir sig, orðið notalegra en ella, og eptir reikninginum í Norðra sjá allir heilvita menn, hve miklu meiri matbjörg yrði í landinu, ef landsmenn ljetu ekki þannig af hendi þessa beztu vöru sína.

Þó að vjer vildum nú láta það ásannast með þessum fáu orðum að „ekki veldur sá er varir þó ver fari", þá óskum vjer fremur en vjer vonum, að grein þessi hafi meiri árangur en ávarpið frá hinum þjóðlega og ágæta forseta alþingis 1855.

---

Árið 1856, 17. júní var almennur prentsmiðjufundur haldinn á Akureyri. Komu þar á fund allir forstöðumenn prentsmiðjunnar, nema umboðsmaður Jón Jónsson á Ytrahóli, sem nú er fluttur vestur í Húnavatnssýslu, og presturinn sjera Daníel Halldórsson á Glæsibæ, en alls voru á fundinum milli 20 og 30 manna, Eyfirðingar og Þingeyingar. Forseti var presturinn sjera Jón Thorlacius.

Var þá:

1. tekinn til umræðu **efnahagur** prentsmiðjunnar, og gjörði forseti nefndarinnar fundarmönnum grein fyrir honum munnlega og vísaði til reiknings í Norðra 31. marz þ. á.

2. gjörður **brjeflegur samningur** við cand. philos. Svein Skúlason um kjör hans við prentsmiðjuna, hjerumbil samhljóða því, er áður var um samið.

3. rætt um endurgjald á málskostnaði í prentsmiðjumálinu, og um lúkningu á hinum leigulausu lánum, er prentsmiðjan fjekk, þegar hún var stofnuð, sem eiga að greiðast að ári; og var það, samkvæmt 3. grein prentsmiðjulaganna (smbr. Norðra 3. ár, 78. bls.), álitið bezt henta að biðja amtmann Havstein að sjá svo um, að kostnaði þessum yrði jafnað niður með því, að leggja 1 skilding á hvert lausafjárhundrað í amtinu, og þótti einnig hlýða að skora enn á amtsbúa, að þeir hver eptir sínum efnum og góðvild styrki prentsmiðjuna með fjárframlögum.

4. Kom fundarmönnum saman um, að fá **ábyrgð á prentsmiðjunni fyrir eldsvoða** hjá brunabótafjelaginu í Kaupmannahöfn, til þess að prentsmiðjan yrði óhultara veð fyrir lánum, sem taka kynni að þurfa.

5. Kosin ný prensmiðjunefnd, og fengu þessir menn flest atkvæði:

1. presturinn sjera Jón Thorlacius í Saurbæ.
2. cand. philos. Sveinn Skúlason á Akureyri.
3. presturinn sjera Sveinbjörn Hallgrímsson á Akureyri.
4. járnsmiður Benedikt Þorsteinsson á Akureyri.
5. presturinn sjera Daníel Halldórsson á Glæsibæ.
6. hjeraðslæknir Jón Finsen á Akureyri.
7. bókbindari Grímur Laxdal á Akureyri.

Þar eð fleiri málefni voru ekki borin fram á fundi til umræðu var að svo gjörðu fundi slitið.

**Jón Thorlacius.**

---

### Sá hlaut eigi skell er skyldi.

Það er alkunnugt, hvernig tilraunir konungsættarinnar af Stúarts kyni á Englandi að ná ótakmörkuðu valdi og svipta þjóðina frelsi sínu mistókust svo, að þær urðu lyktir á, að Englendingar hófu ófrið gegn Karli konungi hinum fyrsta, hertóku hann og dæmdu hann til dauða og var hann afhöfðaður 1649. Meðal þeirra sem voru fremstir í flokki með að fá konung dæmdan var Krómvell, er síðan varð mestu ráðandi á Englandi, og var hinn vitrasti maður, og hinn harðfengasti. Krómvell sá það af vizku sinni, að ættmenn Stúarts mundu komast til valda á Englandi eptir sinn dag, og ætlaði sem fór, að Karl konungur annar mundi lítt þyrma þeim, er höfðu átt þátt í líflátí föður hans. Þetta gekk og eptir. Karl konungur tók ríki á Englandi eptir lát Krómvels, og máttu þeir allir sæta dauða eða öðrum þungum refsingum, er verið höfðu í andskotaflokki föður hans. Konungur skipaði að grafa upp líkama Kromvels og hengja hann dauðan. Krómvell hafði verið greptraður virðuglega, en nú var brotin upp kista sú, er hann var grafinn í, og líkaminn dreginn úr kistunni og hengdur á gálga. En jafnskjótt og líkaminn var upp festur gekk höfuðið af, og búkurinn og höfuðið fjell til jarðar, og kenndu menn þá, að þetta var líkami Karls konungs fyrsta, og hengdi konungur þannig föður sinn dauðan. Þetta var svo undir komið, að Krómvell hafði tekið eið af trúnaðarmanni sínum einum á banasæng sinni að grafa upp aptur líkama sinn á laun, og jarða hann á ökrunum hjá Nesbæ (þar hafði hann unnið frægan sigur yfir Karli konungi hinum fyrsta), en leggja lík konungs aptur í kistu sína. Kom því hefndin fram á líkama konungs, en lík Krómvels varð aldrei fundið, því akrarnir voru síðan margplægðir og engi merki sáust, hvar hann var grafinn.

---

☞ Frá Akureyrar prentverki kom í fyrra sumar að sönnu bæklingur, sem er nefndur: „Leiðarvísir til að spila á langspil og til að læra sálmalög eptir nótum, og nótur með bókstöfum til allra sálmalaga, sem eru í messusöngsbók vorri, og paraðauki til nokkurra fleiri sálmalaga, handa unglingum og viðvaningum."

Bókin er ekki ætluð til þess, að folk sem hnigið er á efra aldur, taki að laga söngmáta sinn eptir henni; heldur er hún samin og gefin út í þeim tilgangi, að hinir yngri gjöri það bæði í kirkjum og heimahúsum. Bókin kostar í mat: 40sk., og er hjá undirskrifuðum til kaups bæði í kápu fyrir 44sk., í pappbandi fyrir 48sk. og í velsku bandi fyrir 60sk.

Akureyri, 24. dag júním. 1856.

A. Sæmundsen.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

NORÐRI.

1856.

4. ár. Júlí. 13.—14.

## Brjef til Kaupmannahafnar.

I.

Við töluðum svo um, þegar við skildum í Höfn, að jeg skyldi skrifa þjer til og segja þjer, hvernig mjer litist á lífið, þegar heim kæmi; en af því jeg hefi svo miklar annir, vildi jeg helzt svara þjer í Norðra, enda þykir mjer ekki ólíklegt, að lesendum mínum hjer á landi þyki fýsilegt að heyra, hvernig jeg ber þeim söguna, og jeg ætla jafnframt, að það geti orðið að gagni að drepa á hitt og þetta í háttum þjóðar vorrar, og bera þá og þjóðlíf vort saman við annara þjóða háttsemi, því beztu von hefði jeg, að Íslendingar mundu laga það, sem áfátt er í háttum þeirra, ef að þeir þekktu, hvaða áhrif hið gagnstæða hefur í öðrum löndum.

Þú veizt, hversu mikið mig langaði til Íslands aptur seinustu árin, og hvað mjer veitti örðugt að skiljast ógrátandi við þá, er fóru heim á vorin, þegar jeg fylgdi þeim til skips, og að þessi heimfýsi mín fór einlægt vaxandi, því meir sem vera mín lengdist í Höfn. — Jeg vil ekki lasta Danmörku eða Kaupmannahöfn. Jeg hefi fyrstu og seinustu árin átt þar margan glaðan dag í góðvinaflokki, og jeg hefi aldrei reynt meira drenglyndi og sannarlegt bræðralag en af landsmönnum mínum velflestum eldri og yngri erlendis, og hvergi kemur, ef til vill, hið bezta og fegursta í lunderni Íslendinga, eins vel fram eins og í samheldi þeirra utanlands, þó að þetta samheldi vort á seinni árum hafi reyndar ekki borið eins gleðiríkan ávöxt og á ungdómsárum Fjölnismanna. En þessi samvera við Íslendinga var líka næstum eini unaður minn í Höfn auk bókanna. Það er satt, að Danmörk er fagurt land og frjófsamt, og þar er gott til matar — þó oss þætti nú reyndar matbjörgin gjörast dýr seinustu árin, þegar hálf rjúpa kostaði 40 skildinga —, og það er líka satt, að Danir eru velflestir meinhægir (godmodige), og sumir þeirra góðir drengir, sem jeg sakna, og einstakir þeirra hafa góðan þokka til vor og vilja oss vel; en þó þessu sje þannig varið, þá er hitt þó jafnsatt, að landið vantar flest það, er Íslendingar kjósa, og sem þeir þurfa að hafa fyrir augum sjer, ef að þeir eiga að geta laðast að landinu og unað þar vel lífi sínu. Náttúran er þar í landi smáfríð en sviplítil, en á Íslandi stórhreinleg og svipmikil, og sami munur ætla jeg sje að rjettu lagi milli skapferlis þjóðanna, sem í löndunum búa, þó að vjer Íslendingar höfum reyndar lært það margt af viðskiptum vorum við Dani, sem þeim er miður gefið, en látið margt ónumið, er gott væri af þeim að nema.

Þú manst eptir, hvernig veðri var háttað, þegar jeg fór á skip, suddi og þoka og ónota kuldi, og kveið jeg ekki alllítið fyrir ferðinni, þó að heimfýsin reyndar yfirgnæfði, og gjörði mjer hægri skilnaðinn við yður vini mína, en hann annars hefði orðið mjer. Vjer lágum í Eyrarsundi 5 daga í logni og blíðviðri, en sigldum síðan á 11 dögum þaðan til Husavíkur, og töfðumst þó á þriðja dag fyrir austurlandinu í landnyrðingi og íshroða. Jeg fór að hugsa um þegar jeg sá ísinn og sá að skipstjóri varð hræddur, hvílíka hugprýði þeir menn mega hafa til að bera, er sigla í norðurhöfum, þar sem ísjakarnir eru háir sem fjallahnjúkar, svo að hinir minnstu þeirra geta á einu augabragði brotið hið sterkasta skip í spón. Þó að ísinn væri ekki þjettur, var hann þó mjög geigvænlegur álengdar, og stóð af honum helkuldi svo mjer gjörðist kalt. Ísinn er án efa hinn versti gestur, er kemur til Íslands, því þó að hann flytji landinu einatt margan auð, þá kyrkir hann þó ætíð meir eða minna grasvöxtinn og spillir allri jarðarrækt, sem er svo ung hjá oss, að hún má ekki mistakast stórum, ef að Íslendingar eiga ekki að firrtast, leggja árar í bát og hætta gjörsamlega við hana.

Hafusögumenn komu til skips út við fjarðarmynni; og voru þeir kátir, glaðlegir og einarðlegir; frjettu margs, og sögðu tíðindi, ágætt vetrarfar og gripahöld og hitt og þetta annað; en meira hugsuðu þeir um það að spyrja tíðinda og segja þau en að vísa skipinu leið til hafnar, það gjörðu þeir einungis, þegar þeir voru að spurðir, enda sagði skipstjórinn, að hann tæki hafusögumenn meir til að firra sig vítum, en af því, að þeir gjörðu nokkuð gagn, enda ætla jeg það satt vera.

Vjer gengum á land og var veður hið fegursta; kvöldroðinn gyllti vesturfjöllin og nam við hafsbrún, en græn grös voru nýlifnuð að gægjast upp úr jörðunni og líta til veðurs; þá kvað jeg þessar stökur:

Að stíga fæti á fósturláð
feður áður kætti;
það mjer vekja dug og dáð
og deyfðinni hrinda ætti.

Glóir í heiði sumarsól
sveipuð aptanbjarma;
hlæja við mjer heimaból,
hlíðar njóta varma.

Burt eru liðin ský og skúr
og skartið vetrar hvíta;
vakna grös af dauðadúr
og dagsins unað líta.

Ó, að bjartur yrði mjer
æfi minnar hagur,
eins og fróni fögnuð ber
fríður sumardagur.

Það má í fyrsta áliti virðast hvimleitt að koma að landi á ókunnugum stað á Íslandi, hestlaus, hnakklaus og allslaus, því þess konar var ekki að fá, þó peningar væru í boði, og af þeim hafði jeg lítið; og jeg veit ekki hvað lengi jeg hefði mátt bíða þar á Húsavík, hefðu ekki kaupmenn þar og aðrir góðir menn beint fyrir ferð minni á allan hátt, sem jeg gat bezt óskað. Eins góðar viðtökur átti jeg og hefi átt alstaðar þar sem jeg hefi komið, og aldrei verður ofsögum sagt af gestrisni Íslendinga og hjálpsemi við ferðamenn. En þó að gestrisnin kæmi mjer vel, þarf jeg þó að finna að hinu og þessu, sem gjört er í gestrisnisskyni hjer á landi

Þú veizt, að árgæðska hefur verið ekki alllítil þau 7 ár, sem jeg hefi verið erlendis, og að jeg bjóst við að hagur landsmanna hefði farið stórum batnandi síðan jeg var hjer seinast. Þetta hefur líka gengizt eptir. Fólkið hefur, eins og þú veizt, fjölgað töluvert og fjenaður ekki alllítið, en þó velmegun þjóðarinnar ætti að fara vaxandi að sama skapi og vinnuaflinn og gripafjöldinn vex, þá er það þó ekki. Óhófið, sem var reyndar mikið, áður en jeg sigldi, er nú orðið helmingi meira, og í þetta gengur allt það eða því nær allt, sem leggja ætti í að bæta landið og atvinnuvegi þess. Brennuvínið er nú orðið svo almennt, að menn koma varla svo á bæ, að ekki sje til í staupinu, og það undir eins á borð borið, og þykir, ef til vill, ósómi að þiggja það ekki; og svo verða menn að þiggja kaffi, þó að það kosti langferðamanninn einnar klukkustundar bið, og það honum í mikinn óhag. Þannig getur maður ferðast heilan og hálfan daginn, og drukkið 6 eða fleiri bolla af kaffi og hálfu fleiri brennuvínsstaup, og allt þetta á fastandi maga, því ef maður er nestislaus, og getur ekki borðað svo mikið á morgnana, að það hrökkvi til kvölds, þá er það sjaldgæft, að annað sje boðið en brennuvín og kaffi, og kaffi og brennuvín. Þú sjerð nú afleiðingarnar af þessum landsvana; langferðamenn fá minnst af þeim góðgjörðum, er þeir þarfnast, en bændurna kostar þó gestanauðin jafnmikið eða meira, svo hvorum tveggja verður þetta óhollara. Auk þessa leiðir af þessu hið argasta bæjasnatt. Vinnufólkið og kaupafólkið ríður á sumrum á aðrar kirkjur, fer af stað á laugardagskvöldið að aflíðandi nattmálum eða fyr og kemur heim aptur um miðnætti á sunnudagskvöldið, og eru karlmennirnir þá einatt linir í sóknum við mánudagsvinnuna, þegar þeir eru búnir að drekka kaffi og brennuvín liðlangan sunnudaginn. Þó maður sje ekki nema af næsta bæ og sje einskis þurfi, þá er þó sjálfsagt að bjóða honum volgan vatnssopa, og það er einmitt aðalerindið hans á bæinn. Bændur og aðrir húsbændur eru búnir að venja fólk sitt svo á þessa kaffidrykkju, að því þykir engin sú vist góð, þar sem það fær ekki kaffi hvern dag, að minnsta kosti um sláttinn, og neyðast þannig, ef til vill, fátækir bændur til að hafa sömu siðina og hinir ríkari, þó efni þeirra leyfi það ekki, og vinnufólkið venst svo á þenna óþarfa, að það getur ekki án hans verið, þegar það fer sjálft að byrja búskapinn Af þessu leiðir það einnig, að kaffið, er annars gæti verið sælgæti, væri það sjaldan drukkið, verður eins og hver annar húsgangsdrykkur, sem kostar bóndann mikið, en sem hjúunum þykir þó lítið til koma, þó þau sökum vanans vilji

hafa það eins og annan skylduskatt. Þessa ósiði og marga aðra leiðir af hinni takmarkalausu gestrisni hjer á landi, en þó er hún svo fagur vani, þegar hún er rjett við höfð, að jeg veit ekki, hvort jeg vildi missa hana, þó þessir ókostir fylgi henni; enda er bágt að koma hjer á gestgjafahúsum, þar sem ferðamenn ætíð gætu átt vísan greiða fyrir borgun. Mjer þykir verst að hún gjörir opt sveitabóndanum slík þyngsli, að það dregur úr gróða hans, ef hann er efnaður, og kemur honum á vonarvöl, ef hann er fátækur.

Þú baðst mig að segja þjer, hvernig mjer litist á kjör mín hjer nyrðra og hag prentsmiðjunnar; en jeg get enn lítið sagt þjer af því hvoru tveggja. Þegar jeg kom hingað og tók við blaðstjórninni, var komið í mesta ólestur fyrir Norðra mínum. Kaupendur höfðu fækkað frá því í fyrra um 2 til 3 hundruð, og útsendingin á blaðinu var í engu lagi, eins og hún er ekki enn og getur ekki verið, á meðan að póstferðir eru hjer svo að kalla engar, og allt verður að senda með óvissum ferðum, svo að blaðaböggIarnir liggja tímum saman hjer og þar á leiðinni og komast mjög seint til skila og sumir aldrei. Á þessu verður ekki ráðin bót, fyr en jeg annaðhvort get stækkað blaðið svo, og fengið svo marga nýja áskrifendur, að jeg get sjálfur sent með blaðið út um landið á hverjum mánuði, einn mann austur í Múlasýslur, annan vestur að minnsta kosti til Hrútafjarðar og hinn þriðja suður í Borgarfjörð; ellegar stjórnin eða Íslendingar sjálfir bæta póstgöngurnar svo, að ein póstferð sje um allt land á hverjum mánuði, að minnsta kosti að sumrinu til, og um það mál ætla jeg að ræða seinna betur. Þó að nú tala áskrifenda hafi þannig fækkað stórum, þá vona jeg þó að þeir fjölgi aptur, ef að mjer semur við þá, og þeir firrtast ekki við mig, þó að jeg sje berorður á milli. Jeg hefi síðan jeg kom, fengið nær því hundrað aptur til að kaupa Norðra, svo þú sjer, að jeg get þó verið vongóður um, að þetta muni lagast. Jeg held líka, að Íslendingum sje þó farið að skiljast það, að þeir geti ekki verið án blaðanna, og er það mikið Þjóðólfi að þakka; og hvernig sem mjer gengur, þá er það sannfæring mín, að Norðurlandi sje ekkert eins nauðsynlegt eins og blað og prentsmiðja. — Af prentsmiðjunni hjerna er það að segja, að hún stendur eins og von er enn á veikum fótum; og hvergi lýsir sjer eins berlega þolleysi vort Norlendinga eins og í því, hve áhugi alþýðu er farinn að sljófgast að hjálpa henni fram. Hún á enn líf sitt að þakka örlyndi og hjálpsemi einstakra manna, en svo er að sjá, að allur þorri alþýðu vilji ekki taka þátt í viðhaldi hennar, sem yrði þó svo auðvelt, ef margir vildu að því styðja. Þessu veldur nú bæði deyfð alþýðu, og það að prentsmiðjan hjer hefur ekki getað fengið góðar og útgengilegar bækur til að prenta nema örfáar, en flest sem prentað hefur verið, hefur að bezta kosti verið ljettmeti, og sumt óþarft og illa valið rusl, eins og „Smásögurnar“ og „Felsenborgarsögurnar“ t. a. m. Mig furðar á því, hvað Norðlendingar eru daufir að rita, því hjer nyrðra eru þó svo margir menntaðir menn, er ekkert vantar nema áræðið. Prentsmiðjunni er því mjög áríðandi, að fá eitthvað gott til prentunar, og að sem minnst sje hjer prentað af því sem ónauðsynlegt er, þó það sje auðvitað, að enginn getur með sanngirni heimtað, að hún taki ekki hið lakara, þegar ekki er betra á boðstólum, því það gjörir engin prentsmiðja; það verður að vera þess skaði, sem gefur út bókina, ef hún gengur ekki út, og hans skömm, ef hún er óþörf og ónýt.

Hjer liggur svo að kalla allt í dái með umræður á stjórnarmálefnum vorum, og við blaðamennirnir erum að geyma vetrinum, sem í hönd fer að tala um alþingismálin, til þess að orð vor og tillögur verði ekki gleymt, þegar til þarf að taka. Þjer ytra ættuð að skrifa mjer dálítið um meðferð alþingis á lagaskólamálinu, fyrst að málinu var fyrst hreift ytra, og lögfræðingarnir íslenzku ytra geta líka bezt borið um, hve holl og þörf lagakennslan við háskólann er oss Íslendingum. — Það, sem mjer mest virðist hindra, að þarflegar stofnanir komist á, er skortur á fje því, sem þarf til að koma slíku á fót; því auðsjeð er, að stjórnin er á seinni tíð orðin mjög föst fyrir að leggja fje til Íslands þarfa, og ber hún við verzlunarfrelsinu, sem þó er alls engin ástæða í sjálfu sjer, og viðlíka góð, og ef landsdrottinn segði við leiguliða sinn: „Af því jeg er nú hættur að slá upp á þig bæði á túni og engjum, þá máttu ekki búast við, að jeg á nokkurn hátt styrki þig til að bæta jörð þína“. — Því þó Danastjórn hafi ljett á oss hinni ófrjálsu verzlun, sem hún hafði lagt á oss um margar aldir, þá á hún oss þó enn ógoldinn margan annan órjett, er vjer höfum liðið um langan aldur. Og þó að sjálf ólögin sjeu numin í burtu, þá eigum vjer fulla heimting á, að hún hjálpi oss til að rjetta við aptur eptir þann

Hafnsögumenn komu til skips út við fjarðarmynni; og voru þeir kátir, glaðlegir og einarðlegir; frjettu margs, og sögðu tíðindi, ágætt vetrarfar og gripahöld og hitt og þetta annað; en meira hugsuðu þeir um það að spyrja tíðinda og segja þau en að vísa skipinu leið til hafnar, það gjörðu þeir einungis, þegar þeir voru að spurðir, enda sagði skipstjórinn, að hann tæki hafnsögumenn meir til að firra sig vítum, en af því, að þeir gjörðu nokkuð gagn, enda ætla jeg það satt vera.

Vjer gengum á land og var veður hið fegursta; kvöldroðinn gyllti vesturfjöllin og nam við hafsbrún, en græn grös voru nýlifnuð að gægjast upp úr jörðunni og líta til veðurs; þá kvað jeg þessar stökur:

Að stíga fæti á fósturláð
feður áður kætti;
það mjer vekja dug og dáð
og deyfðinni hrinda ætti.

Glóir í heiði sumarsól
sveipuð aptanbjarma;
hlæja við mjer heimaból,
hlíðar njóta varma.

Burt eru liðin ský og skúr
og skartið vetrar hvíta;
vakna grös af dauðadúr
og dagsins unað líta.

Ó, að bjartur yrði mjer
æfi minnar hagur,
eins og fróni fögnuð ber
fríður sumardagur.

það má í fyrsta áliti virðast hvimleitt að koma að landi á ókunnugum stað á Íslandi, hestlaus, hnakklaus og allslaus, því þess konar var ekki að fá, þó peningar væru í boði, og af þeim hafði jeg lítið; og jeg veit ekki hvað lengi jeg hefði mátt bíða þar á Húsavík, hefðu ekki kaupmenn þar og aðrir góðir menn beint fyrir ferð minni á allan hátt, sem jeg gat bezt óskað. Eins góðar viðtökur átti jeg og hefi átt alstaðar þar sem jeg hefi komið, og aldrei verður ofsögum sagt af gestrisni Íslendinga og hjálpsemi við ferðamenn. En þó að gestrisnin kæmi mjer vel, þarf jeg þó að finna að hinu og þessu, sem gjört er í gestrisnisskyni hjer á landi

þú veizt, að árgæðska hefur verið ekki alllítil þau 7 ár, sem jeg hefi verið erlendis, og að jeg bjóst við að hagur landsmanna hefði farið stórum batnandi síðan jeg var hjer seinast. þetta hefur líka gengizt eptir. Fólkið hefur, eins og þú veizt, fjölgað töluvert og fjenaður ekki alllítið, en þó velmegun þjóðarinnar ætti að fara vaxandi að sama skapi og vinnuaflinn og gripafjöldinn vex, þá er það þó ekki. Óhófið, sem var reyndar mikið, áður en jeg sigldi, er nú orðið helmingi meira, og í þetta gengur allt það eða því nær allt, sem leggja ætti í að bæta landið og atvinnuvegi þess. Brennuvínið er nú orðið svo almennt, að menn koma varla svo á bæ, að ekki sje til í staupinu, og það undir eins á borð borið, og þykir, ef til vill, ósómi að þiggja það ekki; og svo verða menn að þiggja kaffi, þó að það kosti langferðamanninn einnar klukkustundar bið, og það honum í mikinn óhag. þannig getur maður ferðast heilan og hálfan daginn, og drukkið 6 eða fleiri bolla af kaffi og hálfu fleiri brennuvínsstaup, og allt þetta á fastandi maga, því ef maður er nestislaus, og getur ekki borðað svo mikið á morgnana, að það hrökkvi til kvölds, þá er það sjaldgæft, að annað sje boðið en brennuvín og kaffi, og kaffi og brennuvín. þú sjerð nú afleiðingarnar af þessum landsvana; langferðamenn fá minnst af þeim góðgjörðum, er þeir þarfnast, en bændurna kostar þó gestanauðin jafnmikið eða meira, svo hvorum tveggja verður þetta óhollara. Auk þessa leiðir af þessu hið argasta bæjasnatt. Vinnufólkið og kaupafólkið ríður á sumrum á aðrar kirkjur, fer af stað á laugardagskvöldið að aflíðandi nattmálum eða fyr og kemur heim aptur um miðnætti á sunnudagskvöldið, og eru karlmennirnir þá einatt linir í sóknum við mánudagsvinnuna, þegar þeir eru búnir að drekka kaffi og brennuvín liðlangan sunnudaginn. þó maður sje ekki nema af næsta bæ og sje einskis þurfi, þá er þó sjálfsagt að bjóða honum volgan vatnssopa, og það er einmitt aðalerindið hans á bæinn. Bændur og aðrir húsbændur eru búnir að venja fólk sitt svo á þessa kaffidrykkju, að því þykir engin sú vist góð, þar sem það fær ekki kaffi hvern dag, að minnsta kosti um sláttinn, og neyðast þannig, ef til vill, fátækir bændur til að hafa sömu siðina og hinir ríkari, þó efni þeirra leyfi það ekki, og vinnufólkið venst svo á þenna óþarfa, að það getur ekki án hans verið, þegar það fer sjálft að byrja búskapinn Af þessu leiðir það einnig, að kaffið, er annars gæti verið sælgæti, væri það sjaldan drukkið, verður eins og hver annar húsgangsdrykkur, sem kostar bóndann mikið, en sem hjúunum þykir þó lítið til koma, þó þau sökum vanans vilji

hafa það eins og annan skylduskatt. Þessa ósiði og marga aðra leiðir af hinni takmarkalausu gestrisni hjer á landi, en þó er hún svo fagur vani, þegar hún er rjett við hörð, að jeg veit ekki, hvort jeg vildi missa hana, þó þessir ókostir fylgi henni; enda er bágt að koma hjer á gestgjafahúsum, þar sem ferðamenn ætíð gætu átt vísan greiða fyrir borgun. Mjer þykir verst að hún gjörir opt sveitabóndanum slík þyngsli, að það dregur úr gróða hans, ef hann er efnaður, og kemur honum á vonarvöl, ef hann er fátækur.

Þú baðst mig að segja þjer, hvernig mjer litist á kjör mín hjer nyrðra og hag prentsmiðjunnar; en jeg get enn lítið sagt þjer af því hvoru tveggja. Þegar jeg kom hingað og tók við blaðstjórninni, var komið í mesta ólestur fyrir Norðra mínum. Kaupendur höfðu fækkað frá því í fyrra um 2 til 3 hundruð, og útsendingin á blaðinu var í engu lagi, eins og hún er ekki enn og getur ekki verið, á meðan að póstferðir eru hjer svo að kalla engar, og allt verður að senda með óvissum ferðum, svo að blaðaböggiarnir liggja tímum saman hjer og þar á leiðinni og komast mjög seint til skila og sumir aldrei. Á þessu verður ekki ráðin bót, fyr en jeg annaðhvort get stækkað blaðið svo, og fengið svo marga nýja áskrifendur, að jeg get sjálfur sent með blaðið út um landið á hverjum mánuði, einn mann austur í Múlasýslur, annan vestur að minnsta kosti til Hrútafjarðar og hinn þriðja suður í Borgarfjörð; ellegar stjórnin eða Íslendingar sjálfir bæta póstgöngurnar svo, að ein póstferð sje um allt land á hverjum mánuði, að minnsta kosti að sumrinu til, og um það mál ætla jeg að ræða seinna betur. Þó að nú tala áskrifenda hafi þannig fækkað stórum, þá vona jeg þó að þeir fjölgi aptur, ef að mjer semur við þá, og þeir firrtast ekki við mig, þó að jeg sje berorður á milli. Jeg hefi síðan jeg kom, fengið nær því hundrað aptur til að kaupa Norðra, svo þú sjer, að jeg get þó verið vongóður um, að þetta muni lagast. Jeg held líka, að Íslendingum sje þó farið að skiljast það, að þeir geti ekki verið án blaðanna, og er það mikið Þjóðólfi að þakka; og hvernig sem mjer gengur, þá er það sannfæring mín, að Norðurlandi sje ekkert eins nauðsynlegt eins og blað og prentsmiðja. — Af prentsmiðjunni hjerna er það að segja, að hún stendur eins og von er enn á veikum fótum; og hvergi lýsir sjer eins berlega þolleysi vort Norlendinga eins og í því, hve áhugi alþýðu er farinn að sljófgast að hjálpa henni fram. Hún á enn líf sitt að þakka örlyndi og hjálpsemi einstakra manna, en svo er að sjá, að allur þorri alþýðu vilji ekki taka þátt í viðhaldi hennar, sem yrði þó svo auðvelt, ef margir vildu að því styðja. Þessu veldur nú bæði deyfð alþýðu, og það að prentsmiðjan hjer hefur ekki getað fengið góðar og útgengilegar bækur til að prenta nema örfáar, en flest sem prentað hefur verið, hefur að bezta kosti verið ljettmeti, og sumt óþarft og illa valið rusl, eins og „Smásögurnar“ og „Felsenborgarsögurnar“ t. a. m. Mig furðar á því, hvað Norðlendingar eru daufir að rita, því hjer nyrðra eru þó svo margir menntaðir menn, er ekkert vantar nema áræðið. Prentsmiðjunni er því mjög áríðandi, að fá eitthvað gott til prentunar, og að sem minnst sje hjer prentað af því sem ónauðsynlegt er, þó það sje auðvitað, að enginn getur með sanngirni heimtað, að hún taki ekki hið lakara, þegar ekki er betra á boðstólum, því það gjörir engin prentsmiðja; það verður að vera þess skaði, sem gefur út bókina, ef hún gengur ekki út, og hans skömm, ef hún er óþörf og ónýt.

Hjer liggur svo að kalla allt í dái með umræður á stjórnarmálefnum vorum, og við blaðamennirnir erum að geyma vetrinum, sem í hönd fer að tala um alþingismálin, til þess að orð vor og tillögur verði ekki gleymt, þegar til þarf að taka. Þjer ytra ættuð að skrifa mjer dálítið um meðferð alþingis á lagaskólamálinu, fyrst að málinu var fyrst hreift ytra, og lögfræðingarnir íslenzku ytra geta líka bezt borið um, hve holl og þörf lagakennslan við háskólann er oss Íslendingum. — Það, sem mjer mest virðist hindra, að þarflegar stofnanir komist á, er skortur á fje því, sem þarf til að koma slíku á fót; því auðsjeð er, að stjórnin er á seinni tíð orðin mjög föst fyrir að leggja fje til Íslands þarfa, og ber hún við verzlunarfrelsinu, sem þó er alls engin ástæða í sjálfu sjer, og viðlíka góð, og ef landsdrottinn segði við leiguliða sinn: „Af því jeg er nú hættur að slá upp á þig bæði á túni og engjum, þá máttu ekki búast við, að jeg á nokkurn hátt styrki þig til að bæta jörð þína“. — Því þó Danastjórn hafi ljett á oss hinni ófrjálsu verzlun, sem hún hafði lagt á oss um margar aldir, þá á hún oss þó enn ógoldinn margan annan órjett, er vjer höfum liðið um langan aldur. Og þó að sjálf ólögin sjeu numin í burtu, þá eigum vjer fulla heimting á, að hún hjálpi oss til að rjetta við aptur eptir þann

hnekkir, er slíkt hefur ollað oss. — En það er auðvitað, að það gagnar ekki fyrir oss Íslendinga að bíða þess, að stjórnin leggi oss á brjóst sjer, eins og góð móðir barn sitt, því þess getur orðið langt að bíða. Vjer verðum sjálfir að tíma að leggja fje vort og krapta í sölurnar, ef eitthvað þarflegt á að stofna; og jeg sje ekki betur en vjer getum það, og höfum nógan fjárafla til þess. Því þegar Íslendingar geta varið peningum sínum svo hundrað þúsundum dala skiptir á hverju ári, til að kaupa hinn argasta óþarfa, ættu þeir að geta varið nokkru til þess að koma þess konar nytsömum stofnunum á fót, og þeir ættu ekki að vonast eptir því, að stjórnin annist allar þess konar þarfir þeirra, því það getur, orðið of löng bið.

Þú baðst mig að skrifa þjer, hvernig búskaparhættir eru nú orðnir hjá oss, og hvernig hjer gengur með jarðyrkjuna; en því miður er jeg enn ekki orðinn þessu nógu kunnugur. Þó er mjer óhætt að fullyrða, að búskapur hefur töluvert batnað og jarðarræktinni farið fram. Hjer á Akureyri eru jarðeplagarðarnir einlægt að fjölga og vex optast allvel í þeim, og hafa kaupstaðarbúar hjer af því mikil not. Á einstöku jörðum sjer maður miklar jarðarbætur; hjer í sýslu mest sem jeg hefi sjeð hjá umboðsmanni Þorsteini Daníelssyni á Skipalóni og dannebrogsm Birni Þorlákssyni á Fornhaga. Í Húnavatnssýslu sá jeg mesta jarðabót á Klömbrum í Vesturhópi hjá fyr verandi hreppstjóra Snorra Jónssyni. Hann hefur gjört 600 faðma langan hringlagðan sniddugarð um allt tún sitt, ágætlega hlaðinn, háan og breiðan, og veitir þar að auki vatni yfir mest allt túnið, svo hann fær nú yfir 300 hesta af því, en áður fengust að eins rúmir 80, og þykir mjer furða, að yfirvald Húnvetninga skuli ekki reyna til að útvega slíkum manni eittbvert virðingarmerki fyrir þenna starfa sinn. Víða er hjer farið að plægja, og þó að það sje enn í bernsku, má þó víða sjá þess merki, og það muni flýta mjög fyrir að stækka tún manna. Hið versta er, að menn eru lítt búnir að læra að drýgja áburðinn og auka hann, og víða er sauðatað enn haft til eldiviðar þar sem móskurður þó gæti fengizt. — Bæjabygging hefur og tekið þó nokkrum framförum, og miklu víðar eru nú stofur komnar en voru, þegar jeg sigldi; en þó hefi jeg engan bæ sjeð afbragðsfallega byggðan, nema hjá Jósep hjeraðslækni í Húnavatnssýslu, í Hnausum. Sá bær er nú eflaust reisuglegastur hjer á landi, og hið viðunanlegasta hýbýli. Þó eru því miður flestir bændabæir enn illa húsaðir, og vantar bæði gott skipulag á þeim og einkum og sjer í lagi þrifnaðinn, sem mest á ríður. Jeg hefi komið inn í bæi, þar sem loptið hefur verið svo illt, að jeg hefi varla þolað það, og þó hefur verið ómögulegt að ljúka upp glugga. Hið versta er, að fólk vill ekki láta sjer skiljast, að slíkt valdi óheilindum, og þykir því öfgar og óþarfa vandfýsni, ef að er fundið.

Þú sjerð að það kennir margra grasa í brjefi þessu, þó stutt sje drepið á hvert atriði, og vil jeg því ekki þreyta þig eða lesendur mína lengur í þetta skipti, en bið þig að heilsa kunningjunum, og lesendur mína að virða vel.

---

## Bókafregn.

Kvæði I, Benidikt Gröndal, Rvík 1856.

Herra cand. philos. Benidikt Gröndal hefur nú á seinni tímum verið hið einasta skáld á Íslandi, sem nokkuð til muna hefur látið til sín heyra; og mjer er óhætt að fullyrða, að ekkert af íslenskum skáldum hafi afkastað jafnmiklu og hann á jafnstuttum tíma. Mjer finnst því vert að geta hins fyrsta heptis af kvæðasafni því, er hann nú er byrjaður að gefa út, til þess að leiðbeina alþýðu í dómum sínum um það. Jeg tala hjer ekkert um hin fyrri skáldskaparrit Gröndals, heldur einungis um þessi seinustu kvæði. Það er hvorttveggja að Gröndal hefur ort mikið, enda má líka sjá á öllu, sem hann kveður, að honum er mjög tiltækur kveðskapur. Málið liggur laust fyrir honum, svo að jeg ætla, að hvorki Jónasi Hallgrímssyni eða Sveinbirni Egilssyni, er þó hafa haft málið bezt í sínu valdi af öllum seinni tíma skáldum, hafi verið ljettara um mál í bundinni ræðu. Auk þessa sjest það á hverri stöku eptir Gröndal, að náttúran blásir við honum og sýnir honum hinar fegurstu myndir sínar — hann er náttúrufróður maður eins og Jónas var —, svo að hann er víðast hvar fagurmæltur, þar sem náttúrulýsingar koma fyrir. Þessa kosti Gröndals hefi jeg aldrei sjeð koma eins vel í ljós og í þessum seinustu kvæðum hans. Hugmyndaafl hefur hann ætíð nóg, og það svo, að hann ræður opt ekki við flug hugarins, en hleypur hugmynd frá hugmynd óstöðugur eins og bífluga á fífilhöfðum, er skilur stundum eptir mikinn sætleik, er hún hefði átt að sjúga. Eins og hann nú flýgur milli hugmyndanna, eins

flýgur hann stundum út úr málinu og bragarhættinum, og er það síður fyrirgefandi þeim manni, er jafnhægt á með að halda hvorutveggja þessu í fögrum skorðum, og sýnir það, að skáldið er fljótfarið um of.

Hið fyrsta af kvæðum þessum „Nýársheilsan“ hefur mest til ágætis síns liðugleik og fagurt orðaval, en hugsun óljós og á reiki, og 2 seinustu vísuorð 9. erindis mjer óskiljanleg. „Stúlka“ 2. kvæðið, ágætt að öllu leyti, en óreglulegur bragarháttur. 3. kvæðið vel orðað, en lítið efni. 4. blandað málum. 5. „Mikil eru verkin drottins:“ Fyrra erindið eitthvert hið fegursta, sem kveðið er á íslenzku, hvert orð öðru ágætara,; hið seinna er mjög óviðfelldið. 6. Um langa kvæðið er bezt, að sem fæst sje talað. Það er ort í gamni og alvöru, og var „ekki vert að láta burt“ eins og faðir Gröndals sagði. Efnið blandað, vit og vitleysa, sumstaðar vel ort eptir bragarhættinum og sumstaðar stórlýti, og kvæðið í stuttu máli ekkert umtalsefni. Jeg skil ekki í að Gröndal, sem hefur svo mart til að láta prenta, sem fallegra er, skuli láta annað eins koma fyrir alþýðu sjónir. 7. „Hrafninn hans Nóa“ er í alla staði vel ort, ný hugsun og vel heimfærð. Það fer illa, að skáldið setur ljóðstafi þannig:

Nói sat einn í sinni örk
ekkert var þurrt um víða mörk,

því þess konar fer illa í kveðandi. 9. Æskan er langbezta kvæðið, og eitt hið fegursta, er jeg hefi sjeð um það efni, þess konar kvæði ætti að verða alþýðlegt. Hugmyndum vel haldið, orðfærið fagurt og hátignarlegt, mjer er mikið yndi að því kvæði. 10. Eins konar vísa er enn falleg. Þar er lýst þrjótinum, sem einlægt ber bæxlunum, og hirðir ekkert um náttúruna, fegurð skáldskaparins, ástina og guðs heilögu orð, en rær í síféllu, og segir, að ekkert af þessu verði látið í askana. 11. Vorvísan er enn vel ort.

Jeg læt mjer þetta lynda um þessi nýjustu kvæði Gröndals, og óska þess af hjarta, að hann láti koma áframhald, allt eins vel eða betur vandað en þetta; og engin kvæði þar í, sem gjörð eru til að vera tíræð eða tólfálna.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

Það er ekki svo hægt fyrir mig að skrifa greinlegar innlendar frjettir, því mjer hafa enn ekki borizt nein frjettabrjef, hvorki hjeðan úr sýslu nje frá hinum fjarlægari stöðum, hvort sem því nú veldur, að lítið hefur við borið, er frjettum þykir skipta, eða menn eru ekki enn farnir að skrifa mjer sökum ókunnugleika míns. Hið helzta er jeg man er þetta: Veðráttan það sem af er sumrinu hefur alstaðar, sem jeg hefi til spurt hjer á norður. landi, verið fremur köld, og hefur það eflaust að nokkru leyti valdið, að ís hefur einlægt legið hjer í norðurhöfunum ekki langt undan landi. Grasvöxtur er því ekki meir en í meðallagi á túnum, og úthagi með snöggasta móti, einkum í Húnavatns- og Skagafjarðarsýslum, svo að ekki lítur vel út með heyskapinn, en það bætir úr, að bæði voru víðast hvar miklar heyfyrningar, og svo getur úthagi enn batnað mikið, ef vel viðrar. Fiskiaflinn hefur verið í bezta lagi víða hjer nyrðra, þó að jeg hafi ekki heyrt enn um hlutahæð. Einkum hefur hákarlsaflinn reynst á fleztum skipum ágæta vel, einkum á þiljuskipum, og ætti það að vera hvöt fyrir efnamenn hjer um svæði að verja efnum sínum til þess að koma upp slíkum skipum. Verzlun hjer fyrir norðan á Eyjafirði og austurkaupstöðunum hefur verið allgoð í samanburði við undan farin ár, en þó lakari en víðast hvar annarstaðar, sem vjer höfum haft spurn af, og kemur það eflaust bæði til af því, að kaupmenn þeir, er hjer eiga verzlun, hafa keypt kornvörur sínar í fyrra lagi, og þær því orðið þeim dýrari, og líka af því, að þeir eru því ver og miður svo að kalla einir um hituna, og geta svo skapað vöruverðið eptir eiginn hugþótta, en landsmenn á hinn bóginn neyddir til að verzla við þá, því örðugt er að sækja lengra burt til annara kaupstaða; enda veldur samtakaleysi manna miklu um, því hver er út af fyrir sig; svo að þeir verða harðast út undan, sem minnstar hafa vörurnar og eru skuldum bundnir, en verzlunarfjelögin geta þó bætt svo um, að minnsta kosti, að eitt gangi yfir alla. Jeg vil ekki í þetta skipti tala meira um verzlun hjer, fyr en jeg hefi fengið áreiðanlegri skýrslur um það, hvernig hún hefur gengið annarstaðar.

Læknirinn vor nýji, Jón Constant Finsen kom hingað til Akureyrar með konu sína snemma í fyrra mánuði, er hann nú seztur hjer að, og býr í húsi læknisins sáluga. Vjer höfum geymt að minnast á komu hans, þangað til vjer heiðum fengið nokkura frjett af því, hvernig lækningar hans þættu takast. Hann hefur þegar sýnt með því

að skera krabbamein úr vör á manni og græða svo aptur, að lýtalaust er, að hann mun vera afbragðsmaður í höndunum. Innvortis sjúkdómar þeir, er hann hefur fengizt við, hafa velflestir verið þess konar langvinnir sjúkdómar, er aðrir hafa verið frá gengnir, og er þá sjaldan von á snöggum bata, en þó hafa allir hermt mjer, að lækningaaðferð hans hafi þar einnig gefið góða raun. Allir ljúka upp einum munni, eins og líka má, um ljúfmennsku hans og nærfærni, og það er hvorttveggja, að hann er nýr af nálinni, enda hefur hann varla verið heima nóttu lengur síðan hann kom hingað.

Frjetzt hefur hingað norður bæði með þjóðólfi og öðrum, er norður hafa komið, að mikið hafi verið um dýrðir í Reykjavík seinast í júní og fyrst í þessum mánuði. Fyrst kom þangað enskur lávarður, frændi hins æðsta ráðgjafa Palmerstons á Englandi, Doufferin að nafni, auðugur maður og hinn höfðinglyndasti; fór hann austur að Geysir og þaðan suður aptur, og var í ráði að hann sigldi vestur fyrir land og hingað norður á fund vorn Norðlendinga, en seinna hefur spurzt, að hann væri sigldur til Englands, og var oss þannig sýnd en ekki gefin gæs. 30. júní kom þar næst til Reykjavíkur Jerome Napoleon, bróðursonur Loðvíks Frakkakeisara, sonur Jerome Napoleons, er áður fyr var konungur á Vestur-Pfalz, bróður Napoleons mikla. Napoleon skoðaði sig fyrst um í Reykjavík, og sýndi af sjer hið mesta örlyndi, og ganga um það miklar sögur í munnmælum, til að mynda, að hann hafi borgað 2 glös af öli, er hann hafi drukkið á gildaskálanum með 30 dölum (!), og annað þvíumlíkt. Síðan fór hann til Geysis og sigldi síðan vestur fyrir land og ætlaði til Grænlands, en sumir segja að hann hafi lent í hafvillum og ísi, og var sent hingað norður til þess að vita, hvort hann væri ekki rekinn hjer neinstaðar að landi, og átti svo að senda hjeðan til Vestfjarða til fyrirspurnar, en á leiðinni frjettist, að hann væri kominn aptur heilu og höldnu til Reykjavíkur.

Hingað er og kominn við land enskur eðalmaður Risk, er Bretastjórn hefur sent hingað til að grennslast eptir um gripdeildir þær, er enskir fiskimenn hafa haft hjer við land einkum í Múlasýslu, og sem hin danska stjórn hefur kvartað yfir. Þess er líka öll þörf, að ráðin sje bót á þessu, því nú hefur fyrir skemmstu frjetzt úr Grímsey, að 5 ensk fiskiskip hafi komið þar við land, og gengu 20 menn á land, og skutu fugl og rændu eggjum og dúni úr æðarvarpi, er þar var komið á. og eyddu þannig varpinu að mestu leyti; og má slíkur skaði metast næstum óbætanlegur, því varpið var í vexti, og þess konar getur, ef til vill, spillt svo fyrir, að fuglinn fælist þaðan algjörlega. Og ættu eyjabúar að meta allan þann skaða, þegar þeir beiðast bótanna, og yfirvöldin og stjórnin að gjöra allt sitt til, að bót ráðist á slíku, og að þeir menn sæti stórsektum, er slíkt að hafast, og leiða svo útlendum mönnum að gjöra oss slíkan óskunda.

## Útlendar.

Jeg átti eptir að segja dálítið frá Danmörku seinast, er jeg skrifaði útlendar frjettir, og bæti jeg því hjer við: Samningur var í gjörð 10. maí næstliðinn milli fulltrúa frá Rússlandi, Svíaríki og Noregi og Danmörku um að nema burt sundtollinn sem lokinn er í Eyrarsundi, Beltissundi og Meðalfararsundi, af skipum þeim, er sigla inn í eða út úr Eystrasalti. Skyldi Danakonungur fá 35 milliónir dala til endurgjalds, og skyldu öll þau ríki, sem hefðu verzlun í Eystrasalti, og sendu þangað skip, greiða endurgjald þetta að rjettum jöfnuði eptir því, er hvert ríki hefði þar mikla verzlun. Skyldi Rússland eptir þeim reikningi gjalda $\frac{27}{100}$ eða hátt á 10. millíón, Svíaríki og Noregur $\frac{6}{100}$ eða rúmlega 2 millíónir, Preussar $\frac{12}{100}$ eða nærjelt hálfa fimmtu millíón, og England, er mesta verzlun hefur þar, eins og víða annarstaðar, skyldi gjalda yfir 10 millíónir, og hin ríkin í Norðurálfu minna eptir tiltölu. Danir skyldu sjálfir semja við hvert ríki um þetta endurgjald, og samningur þessi ekki vera skuldbindandi fyrir Rússa og Svía, nema hin ríkin gengju að því, að greiða endurgjaldið á þenna hátt og eptir þessari tiltölu. Af því nú að Englendingum þótti of mikið koma á sinn hlut, svo að samningur gat ekki gengið saman milli þeirra og Dana, þá varð þessu ekki ráðið til lykta, og stendur enn þar við.

Hermálastjórinn danski, Lüttichau ofursti lagði niður völd sín, og kaus konungur í hans stað Lundby „major", en lítil áhrif er ætlað, að þessi skipti hafi á aðgjörðir ráðgjafanna eða vinsældir þeirra.

Ekki hefur enn neitt frjétzt um að kornvara lækki í verði utanlands, og í maímánuði, þar sem útlend blöð, sem til mín eru komin, hætta, var verðið á kornvöru heldur að hækka.

---

### Reyniviðarrótin.

Kveðið í Möðrufellshrauni.

(Þessar vísur eru gjörðar um hið sama efni og hið fallega kvæði í 7. ári Nýrra fjelagsrita; en þar eð þær eru byggðar á annari sögusögn, en þar er fylgt, og mjer virðast stökurnar vel ortar, læt jeg þær koma hjer fyrir almennings augu).

Reyniviðar runnur græni
rósin fagra blíð og trú,
innra hrærður augum mæni
á þann stað hvar fyrri þú
stóðst á grundu föstum fótum
fagurlima prýði há,
nægum ástar nærður hótum
náttúrunnar hendi frá.

Gróðursettur guðs af mætti
gullni runnur fyr á tíð
undra verðum varst með hætti,
vær sem fáum skynjað síð.
Hjer um þannig hnígur saga
hermd af mörgum sannleiksvin
eitt sinn lifðu liðna daga
lýða á meðal tvö systkyn.

Hvort vann öðru elsku veita
innst af grunni hjarta ranns,
hvort nam annars lukku leita,
ljúfrar dóttur skaparans;
unz grimmleg freisting geðið slóst um
grátlegt dyggðin þoldi skarð;
saklaus ást í beggja brjóstum
af breiskleikanum sigruð varð.

Dunaði' í eyrum hefndar hljómur
hörmum snortið titrar geð,
skelfilegur dauða dómur
dapur fylgja' á eptir rjeð.
Hvergi meir var hæli að finna,
hingað bæði flúðu því,
og báðu að mætti lífstund linna
lífgjafarans hendi í.

Hjer er sagt þau hafi falizt
hulin nokkurt tíma skeið,
misverknaðar minning kvalizt
megnum trega og sárri neyð;
unz lagði við sitt líknar eyra
lífs og náðar uppsprettan,
þeirra bænar hróp nam heyra,
og hjeðan bæði frelsa vann.

Heli seldra hjartarótum
hrísla spretta náði frá
upp úr dimmum gljúfra gjótum
greinamikil fögur há.

Björgin huldust blöðum grænum
blómi sjerhvert líkast var,
undan vinda blíðum blænum
bognuðu viðar greinirnar.

Nú er burtu horfið hjeðan
háleitasta sveitarblóm.
Hver hefir unnið skaða skeðan?
Skapaði hver svo harðan dóm?
Björgin æpa ber og nakin
buldur rauna og harma kvein;
því burt hafa tímans hriðjur hrakinn
helgra menja bautastein.

**F. D.**

---

### Kossinn.

Saklausan koss jeg kyssti víf,
og koss sem tælir ei,
sem veitir manni margfalt líf,
þá mær ei segir nei,
:,: og þegar þýðust mey :,:
geldur hann aptur unaðsblíðum vörum.

Koss, sem að yfir bjarta brá
skjótt blossa læsir sinn,
og feimna óðum færir á
flugroða meyjar kinn,
:,: og blíðum andar inn :,:
varma hins mjúka vífs að hjartarótum.

Koss, sem mig heimi hrífur úr,
og heims mjer gleymsku ljær,
og þó á dimmur skelli skúr
og skrugga færist nær,
:,: og logi lönd og sær :,:
mjer verða rótt á vörum meyjar lætur.

---

## Mannalát.

Að sunnan hefur frjetzt, að maddama Rannveig Sigurðardóttir, kona aðstoðarprests Stefáns Thorarensens á Hraungerði, sje nýlega önduð á bezta aldri. Því betur sem hver og einn þekkti hana, því meira harmdauða er hún öllum, því hún hafði til að bera alla þá kosti, er kvennmann mega prýða. Gáfurnar voru ágætar, lundernið blítt og ástúðlegt, og geðið stillt og kjarkmikið. Hún var einhver hin hagasta kona á voru landi á allar hannyrðir, kunni afbragðsvel söng og hljóðfæraslátt, og skildi og talaði útlendar tungur.

En þú hin skæra sumarsól,
sem að þó önnur blómin vekur,

hví hið blíðasta burt þú tekur,
sem hverjum vorra unað ól?
þú varst af öfund orðin myrk
og óttaðist skinið hennar bjarta.
Veiztu þá ei að víf mun skarta
þjer fegri' á himni helg og styrk?

---

Slysfarir: Í vor drukknaði í Lagarfljóti Sigurður bóndi Hallsson frá Sleðbrjót; og í hinu sama fljóti drukknaði nýlega vinnumaður Guðmundur Þórarinsson frá Hallfreðarstöðum. Hjer í sýslu drukknaði og fyrir skömmu vinnumaður úr Eyjafirði í Eyjafjarðará.

---

## Veitt brauð:

26. maí næstliðinn var Arnarbæli í Árnessýslu veitt prófasti hjer í Eyjafjarðarsýslu G. E. Johnsen, og nú hefur spurzt, að Möðruvallaklausturbrauð sje aptur veitt sjera Þórði Þórðarsyni á Lundi í Lundareykjadal.

---

Þann 28. júním. næstl. kom umboðsmaður Herra Þ. Daníelson á Skipalóni við Eyafjörð hingað út í Grímsey til þess skoða og yfir líta hana og klausturjarðirnar á henni. Dvaldi hann hjer til þess að klukkan var hjerumbil 5. um daginn eptir; en þó að dvöl þessi hlyti vegna kringumstæðanna að vera í styttra lagi við það sem máske hefði þurft, notaði umboðsmaðurinn hana samt með svo einstaklegri ástundun, að fátt mun það hafa verið, sem snerti atvinnuvegi og annað í þessu byggðarlagi, er hann ekki nákvæmlega hafi gefið gaum að.

Álit hans á eyju þessari og háttalagi innbúa hennar virtist oss sjerdeilis viðfelldið og sanngjarnt, enda ljet hann sjer fljótt skiljast, að atvinnuvegirnir hjer væru mörgum þeim örðugleikum undir orpnir, sem ekki væri við að stríða annarstaðar á landinu; eins og hann líka vildi af alefli stuðla til þess, að á slíku, yrði hið fljótasta ráðin svo góð bót, sem mögulegt væri. Oss var og er hingaðkoma þessa merkismanns því kærari, sem vjer höfum sterka von um, að hólmi vor hljóti eitthvað gott af hans alþekkta framúrskarandi dugnaði og velvild, í því að auka annara heill og hagsæld, sem svo víða annarstaðar hefir komið og kemur að svo góðum notum.

Auk þess sem han leysti skylduverk sitt af hendi með hinni mestu alúð, umbyggju og ljúfmennsku, vottaði hann einnig örlyndi sitt við fátæka menn hjer með góðgjörðum og gjöfum. Vjer þökkum honum því allir samhuga með ást og virðingu hingaðkomuna og allt ágæti er hann ljet oss í ljósi; og játum hann allir oss hinn velkomnasta gest frv., ef vjer mættum öðlast þá ánægju, að hann heimsækti oss optar.

Grímseyingar.

---

Móðir nokkur kenndi syni sínum eitt kvöld marga nytsama lærdóma, og meðal annars sagði hún, að hann skyldi aldrei fresta því til næsta dags, er hann gæti lokið við þann daginn, sem yfir stæði.

„Móðir góð“! sagði drengurinn, „við skulum þá í kvöld ljúka við það sem eptir var af kökunni“.

---



---


Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. Ágúst. 15.—16.


# Frjettir.

## Útlendar.

(Úr brjefi frá Kaupmannahöfn). Hjeðan eru fá tíðindi þau er nokkru skipti. Veðrátta hefur verið góð, þó fremur óstöðug; eptir því sem enn verður sjeð, lítur þó út fyrir góðan kornvöxt. Rúgur, er var hjerna í sumar fallinn niður í 8 rd., hefur nú stigið aptur upp í 10 rd.

Ríkisþinginu (Rigsraadet) var slitið 2. þ. m. Það yrði oflangt að ætla að skýra þjer frá öllu því, sem þar gjörðist, enda hefur þú og í þeim blöðum er jeg seinast sendi þjer frjett allt það er nokkru varðar. Fulltrúar hertogadæmanna þóttu nokkuð þungir á árinni; eru þeir óánægðir með alríkislögin að því leyti sem þau eru orðin til án þess hertogadæmin hafi átt kost á að segja álit sitt um þau, þar sem þau þó á hinn bóginn hafa verið lögð fyrir ríkisdaginn danska. Eins og þjer er kunnugt, er það leyft að mæla hvort sem maður vill á þjóðversku eður dönsku á ríkisþinginu. Einu sinni bar það til, að Andræ, fjárhagsráðgjafinn, mælti á dönsku um eitthvað það, er snerti hertogadæmin; þá var það að Scheel-Plessen, einhver hinn einarðasti og duglegasti þingmaður úr hertogadæmunum lýsti óánægju sinni yfir þessu og sagði þau orð, er Dönum sviðu svo mjög: að danska ekki heyrði til „die europæische Bildung“ (þ. e. menntunar norðurálfu), og Andræ gæti því ekki vonazt eptir, að allir þingmenn skildu það er hann færi með. Scheel-Plessen hefur seinna verið vikið frá embætti sínu, en hann var staðarhöfðingi í Altóna.

Snemma í þessum mánuði var almennur stúdentafundur að Uppsölum. Þess konar fundir hafa áður átt sjer stað, og að eins átt að sýna vináttu og gestrisni þjóðanna hverrar við aðra og hafa vísindalegt augnamið; en nú sýnast sumir menn að vilja fara að gefa þeim aðra stefnu, sem verið getur að hjá sumum hverjum einnig hafi legið undir niðri áður. Kandidat Ploug, sem var einn af oddvitum Dana í ferðinni, hjelt langa ræðu í Uppsölum, og lýsti því yfir með berum orðum, hversu það væri æskilegt að öll 3 skandínavisku löndin (þ. e. Danm. Noreg. og Svíþjóð) yrðu sameinuð undir eina stjórn, og eina konungsætt; benti hann á, hvernig ástatt væri hjer í Danmörku, er hin gamla konungs ætt væri þegar á enda; spáði hann því, að alríkið hjer ætti eigi langan aldur í vændum. Þessari ræðu var tekið vel í Svíþjóð, og hjer af mótstöðumönnum alríkisins; en óvildarmenn Plougs sögðu að hann hefði boðið Svía konungi Danmörku, og líktu honum við landráðamanninn Corfits Ulfeldt. En þetta lá þó ekki beinlínis í orðum hans. Það sýnist að vera mótsögn í því, að menn, sem ota svo mjög fram dönsku þjóðerni, þegar við aðra er að skipta, skuli vera svona bljúgir, þegar um það er að gjöra að koma fram hinum skandínavisku draumum sínum; því það mættu þeir eiga víst, að Danmörk yrði ekki höfuðlandið í því sambandi, það mundu Svíar eigi kæra sig um, og eigi vilja sambandið, nema því að eins, að þeir yrðu aðalþjóðin, og er þá hætt við, að þeim yrði ekki svo mjög annt um að halda óskabarni hinna dönsku þjóðernismanna, Sljesvík. Á heimleiðinni komu norsku stúdentarnir hjer við og voru hjer dag um kyrrt, var þeim vel tekið, og bauð konungur þeim til veizlu út á slot sitt „Eremitagen“, er mælt, að sú veizla hafi verið mjög höfðingleg og ekkert til sparað. Í þeirri veizlu hjelt Ploug einnig ræðu, og þótti hún einnig fremur en ekki skandínavisk. Norðmenn eru víst eigi mjög hrifnir af þessu skandínaviska sambandi; þeir hugsa að eins um að halda frelsi sínu og þjóðerni, og taka framförum í því, sem þeim enn er ábótavant, og kæra sig lítt um þessar glæsilegu skandínavisku hugsjónir Dana.

Hjer hafa nýlega orðið þau ráðgjafaskipti, að „major“ Lundbye er orðinn herstjórnarráðgjafi í stað-

hví hið blíðasta burt þú tekur,
sem hverjum vorra unað ól?
þú varst af öfund orðin myrk
og óttaðist skinið hennar bjarta.
Veiztu þá ei að víf mun skarta
þjer fegri' á himni helg og styrk?

---

Slysfarir: Í vor drukknaði í Lagarfljóti Sigurður bóndi Hallsson frá Sleðbrjót; og í hinu sama fljóti drukknaði nýlega vinnumaður Guðmundur Þórarinsson frá Hallfreðarstöðum. Hjer í sýslu drukknaði og fyrir skömmu vinnumaður úr Eyjafirði í Fyjafjarðará.

---

## Veitt brauð:

26. maí næstliðinn var Arnarbæli í Árnessýslu veitt prófasti hjer í Eyjafjarðarsýslu G. E. Johnsen, og nú hefur spurzt, að Möðruvallaklausturbrauð sje aptur veitt sjera Þórði Þórðarsyni á Lundi í Lundareykjadal.

---

Þann 28. júním. næstl. kom umboðsmaður Herra Þ. Daníelson á Skipalóni við Eyafjörð hingað út í Grímsey til þess skoða og yfir líta hana og klausturjarðirnar á henni. Dvaldi hann hjer til þess að klukkan var hjerumbil 5. um daginn eptir; en þó að dvöl þessi hlyti vegna kringumstæðanna að vera í styttra lagi við það sem máske hefði þurft, notaði umboðsmaðurinn hana samt með svo einstaklegri ástundun, að fátt mun það hafa verið, sem snerti atvinnuvegi og annað í þessu byggðarlagi, er hann ekki nákvæmlega hafi gefið gaum að.

Álit hans á eyju þessari og háttalagi innbúa hennar virtist oss sjerdeilis viðfelldið og sanngjarnt, enda ljet hann sjer fljótt skiljast, að atvinnuvegirnir hjer væru mörgum þeim örðugleikum undir orpnir, sem ekki væri við að stríða annarstaðar á landinu; eins og hann líka vildi af alefli stuðla til þess, að á slíku, yrði hið fljótasta ráðin svo góð bót, sem mögulegt væri. Oss var og er hingaðkoma þessa merkismanns því kærari, sem vjer höfum sterka von um, að hólmi vor hljóti eitthvað gott af hans alþekkta framúrskarandi dugnaði og velvild, í því að auka annara heill og hagsæld, sem svo víða annarstaðar hefir komið og kemur að svo góðum notum.

Auk þess sem han leysti skylduverk sitt af hendi með hinni mestu alúð, umbyggju og ljúfmennsku, vottaði hann einnig örlyndi sitt við fátæka menn hjer með góðgjörðum og gjöfum. Vjer þökkum honum því allir samhuga með ást og virðingu hingaðkomuna og allt ágæti er hann ljet oss í ljósi; og játum hann allir oss hinn velkomnasta gest frv., ef vjer mættum öðlast þá ánægju, að hann heimsækti oss optar.

Grímseyingar.

---

Móðir nokkur kenndi syni sínum eitt kvöld marga nytsama lærdóma, og meðal annars sagði hún, að hann skyldi aldrei fresta því til næsta dags, er hann gæti lokið við þann daginn, sem yfir stæði.

„Móðir góð"! sagði drengurinn, „við skulum þá í kvöld ljúka við það sem eptir var af kökunni".

---

## Auglýsingar.

Þeir, sem eignast kunna Bænakverið, útgefið af bókb. G. Laxdal 1856, eru beðnir að leiðrjetta, eða lesa þannig í málið hinar helztu prentvillur í bænunum, sem mjer undirskrifuðum eru eignaðar:

Bls. 140, línu 26. hóvær, les: hógvær. Bls. 154, l. 12. sjálfam l. sjálfum. Bls. 156, l. 6. Golhatha l. Golgatha. Bls. 157, l. 27. uýr l. nýr. Bls. 162, l. 23. til tímanlegrar blessunar l. til tímanlegrar og eilífrar blessunar. Bls. 163, l. 10. upphvatningu, l. upphafningu. Bls. 164, l. 19. andi himnaför, l. andleg himnaför; sömu bls. l. 26 krisilega, l. kristilega. Bls 168, l. 5 þinni túngu l. þeirri túngu. Bls. 169, l. 27. Guð faðir, l. Guð vor faðir.

Hjeraðauki eru víða röng lestrarmerki, og röng stafsetning, sem útheimtir góðfúsan lesara.

E. Thorlacíus.

---

„Þess er getið sem gjört er".

Þar eð hundafárið gekk hjer í Svínavatnshreppi í Húnavatnssýslu, eins og annarstaðar, seinastliðinn vetur, svo að flestir hundar fórust, og til vandræða horfði með peningsgeymsluna, rjeðum vjer hreppsbúar af, að senda 3 menn til að útvega nokkra hunda í Ísafjarðarsýslu, hvað þeim heppnaðist svo, með tilhjálp Vestfirðinga sjálfra, að þeir fengu milli 20—30 hunda gefins í Önundarfirði, og hafa Vestfirðingar með því bætt mikið úr þessum vandræðum vorum Sendimönnum vorum var alstaðar sýndur bezti fararbeini, mannúðleiki og stök gestrisni; fyrir allt þetta veglyndi votta jeg Vestfirðingum vegna hreppsmanna minna, alúðarfyllsta þakklæti.

Tunguuesi í júnímánuði 1856.

Vinsamlegast

E. Pálmason.

---

Að íveruhús mitt úr timbri á Akureyri ásamt 2 úthýsum einnig úr timbri, og stórum jarðeplagarði með trjegrindum utan um verður til kaups fyrir það verð, er um semur, frá fardögum næsta ár, kunngjörist öllum, er kynnu vilja kaupa hjer hús; og vil jeg biðja þá, er hefðu hug á að kaupa það, að semja við mig um verðið fyrir nýjár næstkomandi,

Akureyri 4. júlí 1856.

Indriði Þorsteinsson.

---

Kvæði eptir B. Gröndal 1. hepti, þar í meðal annars 12 álna langt og tírætt kvæði. Fæst innb. hjá undirrituðum fyrir 26 sk.

Akureyri 22. júlí 1856.

J. J. Borgfirðingur

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

1856.

4. ár. Ágúst. 15.—16.

## Frjettir.

### Útlendar.

(Úr brjefi frá Kaupmannahöfn). Hjeðan eru fá tíðindi þau er nokkru skipti. Veðrátta hefur verið góð, þó fremur óstöðug; eptir því sem enn verður sjeð, lítur þó út fyrir góðan kornvöxt. Rúgur, er var hjerna í sumar fallinn niður í 8 rd., hefur nú stigið aptur upp í 10 rd.

Ríkisþinginu (Rigsraadet) var slitið 2. þ. m. það yrði oflangt að ætla að skýra þjer frá öllu því, sem þar gjörðist, enda hefur þú og í þeim blöðum er jeg seinast sendi þjer frjett allt það er nokkru varðar. Fulltrúar hertogadæmanna þóttu nokkuð þungir á árinni; eru þeir óánægðir með alríkislögin að því leyti sem þau eru orðin til án þess hertogadæmin hafi átt kost á að segja álit sitt um þau, þar sem þau þó á hinn bóginn hafa verið lögð fyrir ríkisdaginn danska. Eins og þjer er kunnugt, er það leyft að mæla hvort sem maður vill á þjóðversku eður dönsku á ríkisþinginu. Einu sinni bar það til, að Andræ, fjárhagsráðgjafinn, mælti á dönsku um eitthvað það, er snerti hertogadæmin; þá var það að Scheel-Plessen, einhver hinn einarðasti og duglegasti þingmaður úr hertogadæmunum lýsti óánægju sinni yfir þessu og sagði þau orð, er Dönum sviðu svo mjög: að danska ekki heyrði til „die europæische Bildung" (þ. e. menntunar norðurálfu), og Andræ gæti því ekki vonazt eptir, að allir þingmenn skildu það er hann færi með. Scheel-Plessen hefur seinna verið vikið frá embætti sínu, en hann var staðarhöfðingi í Altóna.

Snemma í þessum mánuði var almennur stúdentafundur að Uppsölum. Þess konar fundir hafa áður átt sjer stað, og að eins átt að sýna vináttu og gestrisni þjóðanna hverrar við aðra og hafa vísindalegt augnamið; en nú sýnast sumir menn að vilja fara að gefa þeim aðra stefnu, sem verið getur að hjá sumum hverjum einnig hafi legið undir niðri áður. Kandidat Ploug, sem var einn af oddvitum Dana í ferðinni, hjelt langa ræðu í Uppsölum, og lýsti því yfir með berum orðum, hversu það væri æskilegt að öll 3 skandínavisku löndin (þ. e. Danm. Noreg. og Svíþjóð) yrðu sameinuð undir eina stjórn, og eina konungsætt; benti hann á, hvernig ástatt væri hjer í Danmörku, er hin gamla konungs ætt væri þegar á enda; spáði hann því, að alríkið hjer ætti eigi langan aldur í vændum. Þessari ræðu var tekið vel í Svíþjóð, og hjer af mótstöðumönnum alríkisins; en óvildarmenn Plougs sögðu að hann hefði boðið Svía konungi Danmörku, og líktu honum við landráðamanninn Corfits Ulfeldt. En þetta lá þó ekki beinlínis í orðum hans. Það sýnist að vera mótsögn í því, að menn, sem ota svo mjög fram dönsku þjóðerni, þegar við aðra er að skipta, skuli vera svona bljúgir, þegar um það er að gjöra að koma fram hinum skandínavisku draumum sínum; því það mættu þeir eiga víst, að Danmörk yrði ekki höfuðlandið í því sambandi, það mundu Svíar eigi kæra sig um, og eigi vilja sambandið, nema því að eins, að þeir yrðu aðalþjóðin, og er þá hætt við, að þeim yrði ekki svo mjög annt um að halda óskabarni hinna dönsku þjóðernismanna, Sljesvík. Á heimleiðinni komu norsku stúdentarnir hjer við og voru hjer dag um kyrrt, var þeim vel tekið, og bauð konungur þeim til veizlu út á slot sitt „Eremitagen", er mælt, að sú veizla hafi verið mjög höfðingleg og ekkert til sparað. Í þeirri veizlu hjelt Ploug einnig ræðu, og þótti hún einnig fremur en ekki skandínavisk. Norðmenn eru víst eigi mjög hrifnir af þessu skandínaviska sambandi; þeir hugsa að eins um að halda frelsi sínu og þjóðerni, og taka framförum í því, sem þeim enn er ábótavant, og kæra sig lítt um þessar glæsilegu skandínavisku hugsjónir Dana.

Hjer hafa nýlega orðið þau ráðgjafaskipti, að „major" Lundbye er orðinn herstjórnarráðgjafi í stað-

inn fyrir Lüttichau, amtmaður Wolfhagen frá Flensborg er orðinn ráðgjafi fyrir Sljesvík í staðinn fyrir Hall, sem var ráðgjafi til bráðabyrgða eptir Raaslöff; vænta Sljesvíkingar sjer mikils af þessum hinum nýja ráðgjafa sínum, því hann var kunnur að því að hlynna að öllum framförum þeirra meðan hann var amtmaður. Unsgaard, sem var stiptamtmaður á Fjóni, er orðinn innanríkisráðgjafi fyrir konungsríkið Danmörku, en það embætti hafði Bang áður til bráðabyrgða. Justitiarius í hæztarjetti Lowtzow og 2 assessorar í þeim rjetti, Nielsen og Stellwagen, hafa fengið lausn frá embættum sínum; er fullyrt, að konferensráð, próf. juris J. E. Larsen eigi að verða justitiarius.

Óvíst er, hvernig fer milli Dana og Vesturheimsmanna um sundtollinn; þó lítur nú svo út sem allt muni jafna sig, það er mælt að Vesturheimsmenn sjeu ekki fráleitir því að láta samninginn standa enn árlangt óumbreyttan.

Töluverður ágreiningur hefur verið milli Vesturheimsmanna og Englendinga, og hefur ástundum verið spáð, að það mundi eigi geta jafnast á friðsamlegan hátt. Sendiherra Englendinga í Washington Crampton að nafni hefur komið sjer illa við Vesturheimsmenn, mest út úr liðssafnaði Englendinga, sem Vesturheimsmönnum þótti vera moti lögum sínum; þeir heimtuðu því að Englendingar kölluðu hann heim, og er þeir færðust undan því, hafa þeir sjálfir vísað honum burt, og fengið honum leiðarbrjef. Það er annað efni til ágreinings milli Vesturheimsmanna og Englendinga, að Vesturheimsmenn hafa brotið mót samningi við Englendinga, er nefndur er eptir Bulwer og Clyton; eptir samningi þessum átti miðamerika að vera laus við öll afskipti beggja þjóðanna (neutral). Nú hefur ræningjaforingi einn frá Washington, að nafni Walkers með flokki umhleypinga notað sjer af óeyrðum og varnarleysi í ríkinu Nicaragua, og náð þar völdum; og skaut hann sjer undir vernd Vesturheimsmanna, þegar hann sá að hann mundi eigi geta staðizt mót Englendingum, sem eigi vildu samþykkja tiltektir hans. Vesturheimsmenn þar á móti fjellust á allar gjörðir Walkers, og tóku við sendiboða frá honum, og viðurkenna með því stjórn hans, og er það álitið sem byrjun til þess að taka Nicaragua inn í samband Vesturheimsmanna. Englendingar vilja með engu móti stríð, og má vera, að allt geti enn jafnazt.

---

## Innlendar.

Sumartíðin hefur það sem af er slætti verið hin ágætasta um allt norður og austurland. Tún hafa verið sprottin í góðu meðallagi í Húnavatnssýslu, en í minna meðallagi í öllum hinum sýslunum, og vatnsveitingar á tún hafa víða brugðist sökum þess að vatnið fjekkst ekki nóg vegna vorkulda og þurrka, þannig skorti 100 hesta töðu eptir meðalári á Arnheiðarstaðatún í Fljótsdal, er sjaldan er vant að bregðast; en aptur á mót hefur nýting á töðum manna verið hin bezta. Engjar eru alstaðar sársnöggvar, og það eins í hinum mestu heyskaparsveitum, t. a. m. Eyða og Hjaltastaðaþinghám í Múlasýslum og hjer í Eyjafirði. Beztur hefur úthagi verið á Jökuldal eystra og í Bárðardal, þar sem vjer höfum sjeð. Ekki höfum vjer enn fengið neinar skýrslur um hvernig jarðyrkjutilraunir hafa gefizt hjer á norðurlandi, en allmiklar eru þær nú orðnar víða hvar í samanburði við það sem áður hefur verið, og víða höfum vjer sjeð hafragras mikið og fagurt, og eru þeir blettir fagrastir hjer nyrðra og eystra í þessu grasleysisári; þó ætlum vjer, að þeir verði óvíða fullvaxnir, en hafragrasið er þó hið ágætasta fóður, og þó það launi, ef til vill, ekki enn alla fyrirhöfn og kostnað, sem fyrir því er haft, þá er þar þó mjór mikils vísir, og vjer erum þess fulltrúa, að ekkert efli svo fljótt og vel grasvöxtinn eins og að plægja og sá; því þó að hinar útlendu korntegundir geti, ef til vill, ekki orðið fullþroska hjá oss, þá getur þó ekki hjá því farið, að það flýti mjög fyrir því að rækta jörðina til grasvaxtar.

Um verzlun höfum vjer ekki enn fengið glöggar skýrslur. Af Skagaströnd er mjer skrifað almennt vöruverð á kauptíðinni, hvít ull 34, svört 28, mislit 26, tólg 20, rúgur (baunir og mjöl?) 11 rd., bankabygg 13 rd., kaffi og sikur 24 sk. Úr Stykkishólmi hefur frjetzt að hvít ull hafi verið 36 sk. og tólg 22.

Á austurlandi hefur rúgur, baunir og mjöl verið 11 rd. nema nokkru dýrara á Berufirði, kaffi og sikur 25 og 26 sk. nema fjelögin í Fljótsdal og Breiðdal hafa fengið betri kosti. Fljótsdalsfjelagið hefur til að mynda (eptir sögn eins fjelagsmanns) fengið 8 rd. af hundraði í uppbót á öllum íslenzkum vörum, og 5—10 af hundraði afslátt á útlendum vörum, og hefur þannig eptir sögn unnið rúma 400 dali á fjelagskap sínum. Fyrir lýsi hafa þeir eystra að eins fengið 25 rd.

Á Berufirði viðgengst sá ósiður að landsmenn selja fastakaupmanninum lifrina óbrædda fyrir hálfvirði (12½ rd.), af því þeir hafa ekki áhöld til að bræða hana sjálfir, og missa þannig mestallan ábatann, sem þeir geta haft af þessari arðsömu veiði, því þó meira sje í boði hjá lausakaupmönnum, geta landsmenn þó ekki selt þessa vöru sína fyrir hið bezta verð því þá vantar áhöldin til að verka hana, og ílátin til að geyma hana í, og er vonandi að þeir líti svo vel á eiginn hagnað sinn, að þeir kosti kapps um að ráða bót á þessu. Hjer á Eyjafirði hefur hið sama brunnið við. Kaupmenn borga hjer lýsistúnnuna með 26 (27?) dölum, en á Siglufirði og öðrum vesturkaupstöðum með 28 dölum, en Íslendingar hjer hafa þó ekki getað fært sjer þetta vöruverð í nyt, því þeir hafa orðið að fá tunnur hjer í kaupstaðnum með þeim kostum að binda sig við borð að selja þar lýsið, er þeir annars hefðu getað flutt á skipum sínum til þeirra verzlunarstaða, þar sem það var betur borgað. Jeg vona, að Þorsteinn Daníelsson á Skipalóni, umboðsmaður, og aðrir dugandi menn, sem stunda hákarlaveiðar sjái svo fyrir, að þeir geti ráðið bót þessu, með því að fá tunnusmið utanlands frá, er geti smíðað fyrir þá alla í sameiningu, og panta tunnuefnið hjá Norðmönnum sem hjer eru nú, sem mælt er að selji þess konar tunnuefni tilbúin með miklu betra verði en danskir kaupmenn geta selt þau, og efli þannig sinn hag og annara. Landar vorir ættu sem fyrst að læra það, að þeim er einkar áríðandi að beita allri atorku sinni og framsýni til að rjetta þann halla, er óþæg verzlun gjörir og verður einlægt að gjöra, á meðan þeir geta ekki sjálfir átt þátt í henni, og á meðan hjer koma ekki svo margir útlendir, að keppni meðal verzlunarmanna komi þessu í rjett horf. Þeir verða að hugsa um það, að á meðan svona stendur, verðleggja útlendir kaupmenn bæði vorar vörur og sínar, og að vjer hljótum því með fjelögum og öðru samkomulagi að reyna til að koma verðinu í það horf, að hið eðlilega vöruverð fáist, það er að skilja, að vörurnar verða að því skapi borgaðar, sem verð þeirra og eptirsóknin eptir þeim er í öðrum löndum.

Úr Húnavatnssýslu hefur mjer verið skrifað, að gnægð sje þar af kaupafólki að sunnan, og hafi þó nokkuð farið suður aptur, sem hvergi hafi getað fengið vinnu, og að nú fái sumt hana ekki lengur, og ætli að fara að rölta suður aptur, og valdi þessu að miklu leyti grasleysið, og sumpart líka kaupafólksgreinin í Þjóðólfi.

---

(Eptir Þjóðólfi), **Embættispróf** Íslendinga við háskólann í Kaupmannahöfn árið 1856.

Í lögvísi.

Hermannius Elías. Johnsen (sonur Jóns heitins Johnsens verzlunarstjóra á Skutulsfirði) með 2. aðaleinkunn.

Hannes Finsen (sonur Ólafs sál. yfirdómara Finsens í Reykjavík); með 2. aðaleinkunn.

Tveir landar gengu frá prófi í þessari vísindagrein; en í hinum öðrum vísindagreinum, guðfræði og læknisfræði, hefur enginn Íslendingur gengið undir próf.

**Útskrifaðir** frá hinum lærða skóla í Reykjavík sumarið 1856.

1. Magnús Stephensen (sonur sjera Pjeturs Stephensens á Ólafsvöllum), með 1. aðaleink. (88 tr.)
2. Eiríkur Magnússon (prests Bergssonar á Kirkjubæ í Hróarstúngu), með 1. aðaleink. (81.)
3. Ólafur Johnsen (sonur Hannesar kaupm. Steingrímssonar Johnsens í Reykjavík), með 2. aðaleink. (78 tr.; skorti eina tr. á 1. aðaleink.)
4. Guðjón Hálfdánarson (prófasts Einarssonar á Eyri við Skutulsfjörð); með 2. aðaleink. (70 tr.)
5. Hjörleifur Einarsson (prests Hjörleifssonar á Vallanesi), með 2. aðaleink. (70. tr.)
6. Þorsteinn Þórarinsoon (fyr prófasts Erlendssonar á Hofi í Álptafirði); með 2. aðaleink. (59 tr.)
7. Stefán Stephensen (sonur sjera Stefáns sál. Stephensens á Reynivöllum í Kjós); með 2. aðaleink, (56 tr.)
8. Ísleifur Einarsson (hattara Hákonarsonar í Reykjavík); með 2. aðaleink. (54 tr.)
9. Ólafur Pjetur Finsen (sonur yfirdómara Ólafs sál. Finsens í Reykjavík); með 3. aðaleink. 34 tr.)

---

**Svör stjórnarinnar um vöruskort.**

Í tíðindum um stjórnarmálefni Íslands, sem hið íslenzka bókmenntafjelag gefur út, eru tvö brjef 29. janúar og 16. ágúst 1855, sem eru svar upp á umkvartanir, sem íslenzkir embættismenn hafa ritað stjórninni fyrir hönd landsmanna um skort á nauðsynjavörum í kaupstöðunum, og hefur einkum borið á þessu á suðurlandi, enda er það alkunnugt, að suðurkaupstaðirnir hafa opt verið

lakast byrgðir af nauðsynjavörum. — Vjer höfðum nú búizt við, að þegar slíkt ber að hendi, og á meðan að frjálsa verzlunin er ekki búin að sýna hjer ávöxtu sína á þann hátt, að nóg sigling sje til landsins, og því flytjist svo mikið af nauðsynjavörum sem landsmenn þarfnast, að stjórnin mundi taka slíkum áskorunum vel, og álíta það skyldu sína að byrgja landið að nauðsynjavörum, svo að ekki gjörist hallæri fyrir þær sakir, því slíkt getur að borið, þó að vel láti í ári, ef matvörur eru fluttar úr landinu, en ekki nægilegar til landsins aptur; og einkum ætluðum vjer að stjórnin mundi gjöra það sökum þess, að hún gekkst fyrir að senda kornskip til suðurlandsins 1853 (ef oss minnir rjett), án þess vjer vitum til, að hún hafi liðið neinn sjerlegan baga af því, eða varið til þess neinu stórkostlegu fje; og einkum sökum þess, að stiptamtmaður hafði tekið það fram, að kaupmenn hefðu ekki byrgt sig eins og þeir voru vanir að nauðsynjavörum, af því þeir hefðu búizt við mörgum lausakaupmönnum bæði dönskum og frá öðrum þjóðum. En þetta hefur þó ekki gengið eptir. Í hinu fyrra brjefi segir stjórnin: „að nú þegar lögin 15. apríl 1854 um siglingar og verzlun á Íslandi hafi leyft útlendum þjóðum að sigla á allar hafnir á landinu, fljóti af því, að hvorki geti stjórnin eða hinir dönsku kaupmenn haft neina sjerlega skyldu til að annast um vörubyrgðir í landinu framvegis, og biður því stjórnin stiptamtmanninn (eða amtmennina) að láta menn í sínu umdæmi vita, að þeir verði sjálfir að hafa fyrirhyggju fyrir því að byrgja sig með alls konar nauðsynjavörur, og þeir megi ekki vænta neinnar sjerlegrar hjálpar frá stjórninni í því efni“; og um leið og hún skírskotar til þessa brjefs segir hún í hinu síðara, „að hún einkum ekki nú, þegar öllum þjóðum sje leyfð sigling til Íslands, geti tekið sjer á herðar ábyrgð þá, að verja nokkru fje til að byrgja Ísland að nauðsynjavörum, heldur verði landsmenn að annast það sjálfir fyrir milligöngu kaupmanna, og hafi stjórnin því ekki getað gjört annað að verkum, en að sjá um, að efnið í brjefi stiptamtmannsins yrði heyrum kunnugt, til þess að vekja athygli kaupmanna á þessu máli“.

Þegar vjer gætum að, hversu ung verzlunarlögin eru, og hve ólíklegt er, að breytingin, sem þau að líkindum gjöra, komi snögglega, þar eð útlendar þjóðir munu þurfa að átta sig vel á markaði hjer, áður en þær taka að sigla hingað svo um muni, virðist oss margt athugavert í brjefum þessum. Oss furðar fyrst á því, að hinir dönsku kaupmenn, sem þó gátu nokkurn veginn vitað, hve mikil sigling mundi koma til landsins, skuli hafa minnkað nokkuð töluvert aðflutninga sína á matvöru af ótta fyrir mikilli aðsókn, enda mun það varla með öllu rjett hermt, og aðflutningarnir víðast hvar hafa verið eins miklir og áður, hvað sem kann að hafa verið fyrir sunnan.

Þó að oss í öðru lagi virðist það rjett og eðlilegt, að hinir dönsku kaupmenn hafi nú ekki lengur neina sjerlega skyldu til að annast um vörubyrgðir í landinu, eða fæða oss Íslendinga, eins og sumir kalla það, þá getum vjer ekki í því efni fallizt á að binda þá og dönsku stjórnina á eitt band, þó að stjórnin gjöri það í brjefi sínu, því oss virðast skyldur hennar og kaupmanna við landið all-ólíkar. Oss virðast skyldur stjórnarinnar enn hinar sömu í þessu efni og þær voru, áður en verzlunarlögin 15. apríl 1854 voru gefin, og hún geti ekki kastað skyldum þessum af herðum sjer, þó að hinir dönsku sambegnar vorir hafi ekki lengur lögboðinn hagnað á verzluninni við oss, og fleiri sjeu komnir eða megi koma til að verzla hjer við land. Í öðru eins landi og Íslandi, sem liggur svo fjærri öðrum löndum, og þar sem verzlunarviðskiptin eru svo óviss að þau geta ekki verið nema nokkurn hlut ársins, álítum vjer það sjálfsagða skyldu hverrar stjórnar, þegar brýn nauðsyn ber til, og líf og björgun þegnanna í landinu er komin undir því, að hlaupa undir bagga með að bæta úr slíkum vankostum; en á hinn bóginn virðist oss sanngjarnt, að þeir hlutir landsins, sem slíks við þurfa endurgjaldi henni kostnað þann, sem af því leiðir, annaðhvort að nokkru eða öllu leyti. Oss virðist því sjálfsagt, að embættismenn vorir láti þessi brjef ekki fæla sig frá því, þegar þörf gjörist, að knýja á náðardyr stjórnarinnar í þessu efni, og vjer vonum þess af rjettlætistilfinningu hennar, að hún veiti þess konar áskorunum bænheyrslu.

---

(Aðsent)

## Það er ekki allt gull sem glóir!

Í þjóðólfi 31. maí sendir landlæknirinn „homöopöthunum“ hjer fyrir norðan kveðju sína, og sannast þar: „Kemur hver svo til dyra, sem hann er klæddur.“ Hefði það ekki verið landlæknirinn, sem mælt er að komizt hafi svo auðvelt að nafnbótinni í Kíl um árið, sem búinn er að vinna Danmörku svo ómetanlegt gagn um allar ókomnar aldir með

100,000 dala lífsins vatni, og kominn er nú þaðan með svo mikilli vegsemd; sem enginn af oss veit, hversu víða búinn er að fara um eins og doktor í læknis- og eðlisfræðinni, og enn síður hve margar stútfullar flöskur nú á í vitum sínum af heilsusamlegasta hvera og laugavatni o. s. frv., þá hefði einhver hlaupið svo hraparlega á sig að segja um greinina í Þjóðólfi um „homöopathana“: Meðan „Ali jarl“ hefur ekki náð „eyrunum“ er allt „gott og blessað.“ — Þegar við lesum nafnið undir greininni, ógnar jafnvel oss ómenntuðu bændunum hjerna fyrir norðan, að stjórnin skyldi senda oss Íslendingum landlæknir, sem ekki væri meiri fyrir sjer en þessi, sem auðsjáanlega ber svo lítið skyn á „homöopathíuna“ — er hann veit þó það um að eldri sje en 60 ára —, að hann dæmir meðöl hennar „kraptalaus og einskis nýt“, þar sem bæði sjón og reynzla vor hjer í Eyjafjarðar, Þingeyjar og Múlasýslum, sem ekki erum svo sælir að njóta hinnar víðfrægu lækningaheppni og hjálparfýsi hans, sannar hið gagnstæða ofan í hann, og að hann komi til dyra í málefni þessu, annaðhvort sem hrekkvís, eða fávís, eða hvorttveggja. Hann veit ekki svo mikið, að því er sýnist, landlæknirinn sjálfur, og biður uppfræðingar um það berhöfðaður — er það ekki grátlegt? — hvort „hömöopathían“ sje kennd við nokkra háskóla í Norðurálfunni? Vjer bændurnir verðum þá að benda honum á háskólana í Vínarborg og Prag, og um leið á það, að stjórnin í Austurríki hefur þannig viðurkennt og ákveðið „homöopathíunni“ jöfn rjettindi á borð við „allopathíuna“; og er þetta því eptirtektaverðara, sem Vínarborg hefur verið kölluð eitt hið helzti heimili læknafræðinnar og enda líka Prag. Vjer getum sagt honum meira. Vjer getum nefnt honum á nafn marga doktora í „homöopathíu“ við konunglegar, furstalegar og hertogalegar lækningastofnanir í ýmsum löndum. Vjer getum frætt hann um að meira en 2000 læknar, lærðir doktorar, iðka „homöopathíuna“ opinberlega og hafa meztu aðsókn; að margar stærstu borgir í Norðurálfunni eiga sjer lækna í „homöopathíunni„ Vínarborg t. d. 40, en Parísarborg 50. Vjer getum sagt honum að í Þjóðverjalandi koma út 6 tímarit í „homöopathíu“, 5 í Frakklandi, 2 í Englandi, 1 í Ítalíu, 3 á Spáni, 2 í Norðurameriku og 1 í Brasilíu. Svona var þetta 1848, og hefur þó mjög farið fram síðan bæði í Englandi og Norðurameriku. Það má heyra að landlæknirinn hefur „þefað“ af níðritum „allopatha“ um homöopathíuna, og tínt úr þeim ósannan þvætting í grein sína, og borið þetta á borð fyrir elskulega landa sína eins og inntökuskamt til lærdóms, huggunar og viðvörunar („Hjaltalín kæri sig kollóttan“). Hann reynir að telja þeim trú um það með þess konar sögum, hvernig „allopathar“ í París og víðar hafi áfellt „homöopathíuna“; en hann laumar undan hinum opinberu ummælum hins nafnfræga dr. S t e e n s um A n d r a l þann, sem landlæknirinn vitnar til „að tilraunir hans með homöopathíuna hafi verið svo a u ð v i r ð i l e g a r og m a r k l a u s a r, að hver viðvaningur í „homöopathíu“ mætti skammast sín fyrir þær.

Hann veit ekki svo mikið, að margir frægustu læknar hafa snúið sjer, samvizkunnar vegna, gjörsamlega frá „allopathíunni“ og að „homöopathíunni“; og ekki hvað þeir vitna, hverju þeir koma upp um „allopathíuna“. Hann veit ekki, veslingur, að homöopathían er allt af að breiða út sigurveldi sitt meir og meir hjá öllum siðuðum þjóðum gegn allri fyrirstöðu og áfellisdómi „allopathanna“, og ekki það, að árið 1854 hófust 3 stórfjelög lækna í homöopathíu, eitt í München í Bæaralandi, annað í M a d r i d á Spáni og hið þriðja í „Philadelphíu„ í Norðurameriku. Hann veit ekki, að hversu vel sem honum hefur gengið að fá doktorsnafnbótina í Kíl, er honum alls ekki innanhandar að læra homöopathíuna“ á nokkrum mánuðum, og enn veit hann ekki svo mikið, þótt hann hafi heyrt. „að innan um meðöl hennar fyndust verstu eiturtegundir“, að þær eru svo þynntar (það er að skilja: sál þeirra leyst svo vel frá eitureðli þeirra) að homöopatharnir hafa að minnsta kosti trillíón til decillíón sinnum minna af einu grani þeirra í meðölum sínum en „allopatharnir“; og þó hann komi með alla sína efnafræði, sem hann kallar grundvöll allrar meðalafræði, mun hann trautt maður til að sanna, af hverju efni 2 eða 3 meðöl „homöopathíunnar“ sjeu til búin, auk heldur fleiri. Og enn fer hann með þau ósannindi að homöopatharnir láti ófróða efnafræðinga búa meðölin upp í hendurnar á sjer, en væri það ekki saklaust, ef þau eru „kraptalaus og einskis nýt“? Samt getum vjer sannað hitt að þau homöopatha meðöl, sem hingað koma til norðurlands, eru til búin og fengin hjá þeim doktorum í læknisfræði á Þjóðverjalandi, sem dr. Hjaltalín er — að ætlun vorri — eins og barn á móti bæði í efnaog læknisfræði.

Þó kastar tólfunum með digurmæli herra landlæknisins, er hann dembir fram þeirri óttalegu spurningu: „Hvort eigi væri bezt að reyna, hvað fljótir okkar íslenzku „homöopathar“ yrðu að lækna holdsveikina og lifrarbólguna“? Heyrið þjer nú Nesjamenn og Þingvallasveitarbúar! Þjer þurfið nú ekki annað enn fara með þessi veikindi yðar til landlæknisins! „Þetta er nu allt saman gott og fróðlegt!“ Og þú Þjóðólfur sæll, gleymdu ekki að segja frá hinum „hreinu sem aptur snúa!“. Ellegar ætli honum gangi ekki betur að lækna lifrarbólguna sjálfum en „allopöthunum“ hans kóleru, sem vjer höfum sjeð opinberar skýrslur um á þá leið, að þegar 40 til 60 hafa dáið af 100 kólerusjúklingum undir hendi frægustu „allopatha“ hafa að eins 5 til 10 dáið af 100 kólerusjúkum hjá „homöopöthunum“? Alþýða, hvernig lízt þjer á það? En hvað um þetta, erum vjer hræddir um, að hann og „allopatharnir standi á baki „homöopathanna“ í því að lækna barnaveikina, ellegar Þjóðólfur hefur farið með ósannindi, er hann sagði okkur í vetur að 3 blessuð börnin hefðu dáið úr barnaveikinni þarna rjett undir handarjaðrinum á landlækninum. „Þetta er nú allt gott og fróðlegt“? Ætli það verði ekki bezt að sjá, hversu fljótur hann, vor íslenzki „allopath“, verði að lækna barnaveikina, þegar hún fer að ganga næst, sem ekki mun vera langt eptir að bíða. Enn er það eitt af ósannindum hans, að homöopatharnir hafi engu áorkað við hundafárinu í vetur, því þeim tókst þó að bjarga mörgum rakka. En hvað tókst honum að bjarga þeim mörgum? Og leyfilegt mun vera að spyrja, hvort sú saga sje sönn, að hann hafi komið í smiðju í vetur til Teits dýralæknis, af því hann hafi ekkert ráð vitað sjálfur við hundafárinu og spurt hann ráða, en Teitur hafi svarað, að það mundi vera bezt að gefa þeim „g l a u b e r s a l t“ og „J o d“; og hafi hinn þá sagt: Æ, vertu nú ekki að d.. þeim arna, elskan mín! Það er ólíklegt að sagan sje sönn, því hann „s k a u z t“ þó einu sinni út úr einhverjum dýralækningaskóla „eins og Mínerva úr höfði Júppíters“

og reit undir eins merkilega dýralækningabók, sem við hann er kennd síðan.

Vjer viljum nú ráðleggja honum að hreifa ekki meir hatri sínu eða fávísi um homöopathíuna, eða reyna framar til að hrinda henni úr landi með drjúgyrðum einum staðlausum, heldur þá með drjúgari lækningum, því hún er þegar búin að ná þeim rótum, sem meira afl þarf en hans til að slíta; og meiri læknir en hann, sem vjer áræðum að nefna læknir Gísla Hjálmarsson, hefur betur reynt meðöl hennar en hann og Andral, og notar þau með heppni að minnsta kosti með fram

En lifrarveiki af hatri gegn homöophátíunni er banvæn sýki, sem hvorki „glaubersalt“ nje „jod“ dugir við, og úr henni hefur þegar margur „allopathinn“ sálast á 60 ára tímanum næstliðna, sem kallar nú eins og af gröf sinni viðlíka og Gamalíel mælti forðum: Sje „homöopathían“ af mönnum mun hún falla af sjálfu sjer, en sje hún af drottni, fáið þjer eigi veitt henni mótstöðu, og svo viturlega mælti landlæknirinn sálugi um hana.

Fáeinir bændur fyrir norðan.

---

Auk þess, að landlæknirinn reyndi með ritgjörð sinni í Þjóðólfi, sem bændurnir hafa svarað hjer að framan, að veikja álit alþýðu á meðlæknum (Homöopather) og læknisaðferð þeirra, neytti hann einnig embættisvalds síns til að rita amtmanni vorum 2 brjef þess efnis, að amtmaður skærist í leikinn með sjer, bannaði allar meðlækningar, en gjörði meðölin upptæk; slíkt hið sama mun hann einnig hafa skrifað sýslumönnum hjer í sýslum.

Amtmaðurinn hafði nú fulla ástæðu til þess að vera ekki of fljótráður í því að gegna þessari áskorun landlæknisins, því stjórnin hafði í brjefi til hans 29. maí í fyrra [1] verið honum samdóma í því, að þó að menn, sem ekki hefðu rjett til að gegna læknastörfum, fengist við þessa læknisaðferð, mundu þeir þó ekki verða sakfelldir framar en aðrir skottulæknar, þó að mál væri höfðað móti þeim, nema sannað yrði, að þeir hefðu borið sig stórlega rangt að; og þótti því stjórninni ekki ástæða til að gjöra neitt í því efni. Amtmaður Havstein bar þess vegna umkvartanir landlæknisins undir stjórnina og beiddist úrskurðar hennar um hvað hann skyldi að gjöra. Svar stjórnarinnar var hjerumbil svo hljóðandi: „að þar eð ekkert víst tilfelli sje nefnt á nafn, þar sem illt hafi leitt af meðlækningunum, eður þær reynzt lífi og heilbrigði neins manns hættulegar, þyki stjórninni ekki hafa verið nægilegt tilefni til að hefja málsókn gegn hlutaðeigandi meðlæknum, eins og ekki sje heldur ástæða til að gjöra meðöl þau upptæk, er þeir hafa undir höndum, nema rannsókn á þeim sje áður gjörð. En þar eð menn þessir hefðu ekki lært læknisfræði og hefðu enga heimild til lækninga, væri að vísu tilefni til að hafa gát á lækningum þeirra, að svo miklu leyti sem orðið gæti, og að láta rannsaka læknisdóma þeirra, og kvaðst stjórnin því hafa skrifað dr. Hjaltalín, að ferðast til norðurlands, ef hann fengi því við komið, til þess að gjöra sjálfur þessa rannsókn, eða í annan stað láta hlutaðeigandi hjeraðslækni gjöra hana“.

Fyrir mitt leyti virðist mjer öll þessi keppni dr. Hjaltalíns að eyða meðlækningum eða öðrum aukalækningum hjer á landi óþörf og ótímabær. Á meðan að læknaskipun er svo háttað hjá oss, að læknar eru svo fáir, og hafa svo stóra sýslu til yfirferðar, að þeir geta ekki, hversu duglegir menn sem þeir eru, gegnt þörfum allra, ekki einu sinni á þeim tímum, þegar engin sóttarferli ganga, verða þeir að hlífast við að ofsækja þá menn, er þó opt hafa hjálpað og hjálpa svo mörgum manni. Dr. Hjaltalín ætti heldur að leggja kapp á að ýta undir læknaskipunarmálið, sem nú er búið árangurslaust að liggja í grautargerð hjá stjórnarráðunum alla stund síðan dr. Schleisner ferðaðist hjer. Það er fyrst að vonast eptir því, að meðlækningar og aðrar aukalækningar minnki til muna, þegar læknar eru orðnir svo margir, að flestir ná til þeirra á stuttum tíma, því von er, að menn leiti hjálparinnar þar sem hún fyrst færst, þegar líf og heilsa er í veði.

Sv. Sk.

---

## Um uppeldi barna

(að mestu tekið eptir ensku).

Sú raun hefur ætíð orðið í töflum þeim, sem gjörðar eru á hverju ári um það, hve margir fæðast og deyja, að það er ætíð meira enn helmingur allra sem deyja börn 10 ára og yngri, og í „Skýrslum um landhag“ þ. á. segir: að 1853 hafi dáið á Íslandi 556 börn á fyrsta ári eða 46, af hverjum hundrað börnum, sem fæðast, og 1854 hafi dáið 629 börn á sama aldri eða 41,9 af hverju hundraði, og skortir þannig ekki mikið á, að helmingur allra barna sem fæðast hafi dáið undir eins á fyrsta ári. Þessi mikli barnadauði hlýtur vafalaust að koma af einhverri rangri meðferð á börnunum og þekkingar skorti á því, hvernig hentast er að fara með börnin. Auk barnadauðans leiðir af þessum þekkingarskorti, að þeir, sem lifa, hafa, sökum þessarar röngu meðferðar, fengið ýmislega heilsubresti og veikleika, sem ólæknandi eru; lunderni þeirra spillist og þeir venjast á

[1]) Sbr. Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands, gefin út af hinu ísl. bókmf. II. hepti 1856.

ýmsa ósiðu undir eins á æskuskeiði. Þó að frá upphafi geti verið meðfæddur munur á skaplyndi barnanna, þá er það þó sannað, að margir brestir og lestir mannanna eru sprottnir af óskynsamlegri uppeldisaðferð. Þar eð það liggur í augum uppi, að vanþekking er undirrót þessa óttalega manntjóns, ætlum vjer að bera hjer fram nokkrar stuttar og skiljanlegar reglur handa mæðrum og barnfóstrum um rjetta meðferð á börnum, sem þær eigi að ala upp.

## 1. Um heilbrigði líkamans og fæði.

Hið fyrsta, sem um er að hugsa til að vernda líf barnsins, er að gefa því krapta til að vaxa og þroskast, og að láta líffærin hjá því geta unnið verk sitt tálmunarlaust. Ýmisleg áhrif á móðurina um meðgöngutímann geta reyndar gjört barnið óhraust og jafnvel spillt skapferli þess, og ætti því móðirin, sem væntir sjér afkvæmis, allan þenna hættulega tíma að varast sem mest alla sorg og áhyggjusemi, ekki þreyta sig um of á vinnu, og sneiða hjá hvers konar óhófi; ekki skal hún heldur leita sjer neins bílífis meira en hún er vön. Hið einasta sem á ríður er að hún hafi einfalda og nærandi fæðu, mátulega hreifingu utanhúss og innan og geti verið með glöðu skapi. Það eru til margar gamlár og fremur óljósar reglur um það, hvernig fyrst skuli fæða barnið og koma því á brjóst. Bezta reglan er að leggja barnið undir eins á brjóst og það vill sjúga, og móðirin er fær um það. Það er samkvæmt lögum náttúrunnar, að móðirin ali sitt eigið afkvæmi, og það styrkir ástarsamband það, sem vera á milli móður og barns. Undir eins skal venja barnið á að sjúga og nærast á vissum tímum, þó að stundum geti staðið svo á, að út af því verði að bregða. Fyrsta mánuðinn skal gefa því að sjúga einu sinni á hverjum tveim stundum, og seinna þriðju og fjórðu hverja stund. Verma skal brjóstið með volgu vatni, ef mjólkin vill ekki renna, en forðast skal að núa það með áfengum drykkjum. Ef mjólkin er of mikil, skal konan drekka lítið og taka inn hreinsandi meðöl. Fötin um brjóst og bringu hennar skulu vera laus og liðug.

Kona, sem hefur barn á brjósti, skal hafa nærandi mat en ekki þungan. Kona sem er feitlagin þarf minni fæðu en sú, sem hefur grennra vaxtarlag. Brjóstamjólkin verður optast mest og hollust, þegar móðirin hefur einfaldan mat og þynnandi drykk, t. a. m. tevatn, brauð bleytt í vatni og hafrasaup. Engan áfengan drykk eða neinn annan örfandi drykk ákyldi móðirin bragða nema að læknisráði.

Sökum þess að meltingarverkfæri barnsins eru löguð fyrir mjólk, skal því ekki nein önnur fæða gefin, nema ef móðurmjólkina er ekki að fá. Ef brýn nauðsyn ber til að ala barnið upp á spónamat, skal fæða það á þunnu seyði af velsoðnu stórmöluðu mjöli, og bæta það með dálitlu sikri. Ef barnið er látið sjúga úr flösku, skal halda henni vel hreinni. Hvað lítið sem fæðan súrnar spillir það heilsu barnsins.

Venja má barnið af brjósti þegar það er 6 til 9 mánaða gamalt, og fer það eptir heilsu móðurinnar og barnsins og hver tími árs er; ef barnið fer snemma að taka tennur, getur það einnig flýtt fyrir, að barnið sje af vanið. Ekki skal venja barn af brjósti í köldu veðri.

Á hvaða aldri og hvaða tíma sem tekið er að venja barnið af brjósti skal það gjört smámsaman. Fyrst skal gefa því mjólkseyði það er áður var nefnt, þar næst mjúkan graut úr smámuldu gamalbökuðu brauði eða tvíbökum og vatni með dálitlu sikri. Þess ber að gæta, að sikrið súrnar í maganum, og verður því að hafa lítið eitt af því.

Fyrsta breytingin á viðurværinu kemur stundum óreglu á meltinguna. Skal þá gjöra tilraunina í tvo eða þrjá daga. Og ef ekki kemst lag á meltinguna, má reyna seyði af kálfskjöti eða hænsna-ungum, eða soð af öðru kjöti, en taka flotið fyrst ofan af, og blanda saman við seyðið meirsoðnum hrísgrjónum. Það, sem mest liggur á, er að byrja smátt og smátt, og gefa barninu lítið eitt af hinni þykkari fæðu einu sinni í sólarhring, og fyrir miðdegisbil, svo sjá megi hvaða áhrif hún gjörir, og það spilli ekki næturværð barnsins. Fæða barnsins ætti ætíð að vera hjerumbil eins volg og mjólkin, þegar hún kemur úr brjóstinu.

Þegar barnið er matað, er það alltítt, að barnfóstran lætur hvern spón upp í sig til að vita hvað heitur maturinn sje, og er þetta bæði ljotur vani og óþarfur. Þegar búið er að næra barnið, skal reisa það á fætur, því þá á það hægra með að losast við vind þann, er venjulega kemur í magann meðan etið er. Ef barninu er gjarnt til að fá uppþembu, má gæta þess vandlega, því þegar vindurinn nær að safnast fyrir, veldur það andarteppu, og ef hún kemur að í svefni, getur hún valdið dauða barnsins, og hún er jafnvel hættuleg, þó barnið sje vakandi, því, ef hún kemur að, getur barnið ekki hljóðað, og ekki dregið andann á meðan.

Ofmikil og óhentug fæða er aðaltilefni til veikinda barnanna. Fyrstu vikurnar af lífinu kenna börnin einungis líkamlegra meinsemda. Þau kvíða engu, þeim bregðst ekkert, þau eru laus við von og ótta, en því miður eru allar sorgir þeirra, kvein og reiði kennt sulti, og þeim er gefin næring sem meðal við öllum meinsemdum þeirra. Þessu er haldið áfram, þangað til barnið er komið á þann aldur, að það getur skilið og trúað því, að það að eta og drekka sje hin mesta sæla og hin mestu gæði. Það er auðvitað, að það er hægust aðferðin til að stilla hljóð barnsins að fylla munninn, einkum á meðan að skilningarvitin eru ekki orðin svo fullkomin, að barnið hafi yndi af að taka eptir, og að þá er ekki um margt að velja; þó má breyta til með barnið, losa fötin um það, og láta fætur og lærin öldungis laus, verma fæturna, leggja barnið þvers um kuje fóstrunnar og hreifa þau til beggja hliða hægt og hægt, leggja barnið að brjóstinu og ganga um gólf með það, og eru þetta allt ráð, er hæglega má grípa til og sem opt hafa hinn eptiræskta árangur.

Sumar mæður og barnfóstrur reyna til að spara sjer þá fyrirhöfn, að hugga börnin eða svæfa þau, með því að gefa þeim sætindi, og er það mjög skaðsamlegt og öldungis ógjörandi, og vörum vjer foreldra og fóstrur við slíkum hættulegum óvana. Þegar börnunum er gefið slíkt, skemmir það hinn veika maga þeirra, og þó að það svæfi og friði þau um stundarsakir, veikir það mjög heilsu barnsins, og getur jafnvel á stuttum tíma valdið dauða þess.

Nokkra mánuði eptir fæðinguna, nærist barnið og sefur til skiptis, ef að það er heilbrigt, og dagurinn líður hjerumbil fyrir því eins og nú skal sagt: Setjum svo að það vakni einni stundu eptir miðjan morgun, þá er það lagt á brjóst; þegar búið er að þvo það og klæða sýgur það aptur, og sefur þá lengi til hádegis, þá fær það sjer

aptur hressingu, og ef heitt er í veðri, er það borið út. Svo sefur það venjulega eptir að það hefur verið undir berum himni, og opt er nón komið fyr en það aptur biður um brjóstið. Eptir þetta, og þangað til það er afklætt ætti ekki að svæfa barnið, en halda því þó ekki vakandi, ef það er mjög syfjað. það er gott að venja barnið á að sofa alla nóttina. Um miðaptan er farið að búa um barnið, og þegar það er afklætt og þvegið, þreytist það venjulega, svo að líklegt er það sofni, þegar það er búið að sjúga, og sofi þá nokkrar stundir. það er gott að venja barnið á að sjúga rjett áður en móðirin háttar, og það gjörir það jafnvel þó það sje sofandi. Ef að það vaknar, skal lofa því að rjetta úr sjer, strjúka fætur þess, læri og lendar til að liðka það og hressa, og búa það undir annan langan dúr. Milli þessa tíma og þangað til eptir miðjan morgun mun það vakna aptur einu sinni eða tvisvar og biðja næringar.

## Um svefninn.

það er mjög æskilegt, til þess að móðirin hafi meira næði, að barnið sofni án þess þurfi að vagga því eða sussa yfir því, og að það sofi í rúmi en ekki í vöggu. það ætti að venja barnið á þetta að svo miklu leyti sem verður. Til þess að það sofni og fari þegjandi í rúmið ríður einkum á að því sje heitt. Gæt þess vegna, áður en barnið er lagt út af, að andlit þess, hendur og fætur sjeu notalega heitar, að ekki sje holt neinstaðar undir því, og að allir limirnir liggi ókrepptir, og höfuð og herðar rísi dálítið hærra upp á koddanu, er skal hallast aflíðandi ofan að sænginni. Ullarrekkjuvoðir eru betri en úr líni. Svo skal breiða ofan á, að barnið geti vel andað, en andlitinu sje þó haldið heitu. Betra er að taka barnið ekki upp undir eins og það vaknar (einkum ef það hefur ekki sofið lengi), eða ef að það hljóðar, þegar búið er að leggja það út af; reyna skal fyrst að breyta um legu þess og hnyssa að því, og ef það bregðst, verður að taka það upp og hugga það í faðminum. það kann líka að þurfa að breyta um föt eða sængurklæði, og í stuttu máli þarf í þessu efni að halda á þolinmæði, eiru og hugviti til að finna það, er barninu hagar, án þess að koma því á neinar óvenjur, (Framhaldið síðar).

---

Jeg hefi orðið þess var úr mörgum áttum, að mönnum hefur ekki fallið sú ályktun, er gjörð var á almennum prentsmiðjufundi 17 júní þ. á. (sbr. Norðra numer 12), að biðja amtmann Havstein að sjá svo um, að málskostnaðinum í prentsmiðjumálinu, og því er þarf til lúkningar á hinum leigulausu lánum, er prentsmiðjan fjekk, þegar hún var stofnuð, verði jafnað niður með því að leggja 1 skilding á hvert lausafjárhundrað í amtinu. þó að mjer nú ekki geti sýnzt nein önnur aðferð betri og ljettbærari fyrir amtsbúa, ef að þeir á annað borð vilja hlynna nokkuð að þessari ungu stofnun sinni, þá vil jeg þó heldur skora á þá, er vilja prentsmiðjunni vel, að þeir gangist fyrir að útvega prentsmiðjunni fjestyrk með frjálsum fjegjöfum, svo að ekki þurfi að halda á þessari niðurjöfnun. Ef að Norðlendingar eiga að geta gjört sjer nokkra von um að koma að nýju á fót stofnunum þeim, sem þeir eru búnir að missa, þá mega þeir ekki sýna það óstöðuglyndi, að þeir styðji ekki prentsmiðjuna, því hún getur þó bezt hjálpað þeim mönnum, sem vilja berjast fyrir slíku. Sv. Sk.

---

# Auglýsingar.

Frá næsta nýári hefi jeg í hyggju að stækka blaðið Norðra svo að hann verði 18 arkir að stærð, og kosti einn ríkisdal. það sem einkum hvetur mig til þessa, auk þess að margir hafa mælzt til þess, er það, að þegar blaðið er svo lítið eins og það nú er, ekki nema 12 arkir, er ekki rúm fyrir meira í blaðinu en allranauðsynlegustu frjettir og örstuttar ritgjörðir, en mörg þau málefni fyrir hendi í vetur og að vori, er ekki verður skrifað svo allskammt um t. a. m. alþíngismálin, póstgöngumálefnið o. fl. Líka hefði jeg viljað segja álit mitt um bækur, sem út eru gefnar, en þess konar tekur ofmikið rúm í svo litlu blaði. þegar blaðið er þannig stækkað, get jeg líka á milli boðið lesendum mínum góðar og gagnlegar skemmtisögur, eins og flest blöð gjöra. Af því að jeg er vongóður um að kaupendur blaðsins fjölgi, einkum frá byrjun næsta árs, vildi jeg biðja hina háttvirtu útsölumenn blaðsins, að láta mig nákvæmlega vita fyrir árslokin til hverra manna þau blöð ganga, sem jeg sendi þeim, hvað kaupendur heita, hvar og í hverri sveit þeir búa, og hvort útsölumenn geti annaðhvort nú þegar, eða frá nýári næstkomanda selt fleiri exx., svo að jeg geti hagað mjer eptir því með stærð upplagsins. En fremur vil jeg biðja útsölumennina að láta mig vita, hvort öll blöðin koma til skila, og hver blöðin vanta, ef nokkuð vantar, og skal jeg þá reyna til að ráða bót á því, að svo miklu leyti sem jeg get.

Að endingu ítreka jeg þá bæn mína, að kaupendur greiði andvirði blaðsins svo tímanlega, að jeg geti fengið það innan ársloka, samkvæmt því er jeg beiddist í auglýsingunni í janúarblaðinu.

Sv. Sk.

Nú er þegar búið að prenta hjer í prentsmiðjunni nýja **Lestrarbók** danska á 10 örkum; og fæst hún til kaups í næsta mánuði fyrir 64 skildinga materían.

Akureyri 25. ágústm. 1856.

Svb. Hallgrímson.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. September. 17.—18.

Með skipinu Herthu, sem kom hingað frá Kaupmannahöfn kvöld hins 9. þessa mánaðar, barst oss í hendur frumvarp, er nokkrir hinna helztu og lærðustu samþegna vorra í Danmörku hafa samið um að stofna kirkjuþing, og hljóðar þannig:

1. gr. Kirkjuþing skal stofna fyrir þjóðkirkjuna

2. gr. Á kirkjuþinginu skulu vera: Hinir 7 byskupar úr byskupsdæmunum í konungsríkinu, og byskupinn á Íslandi, 2 af háskólakennurunum í guðfræði og 1 háskólakennari í lögfræði — og skal konungur eða (háskólakennararnir) kjósa þá —, 18 þingmenn, er klerkar kjósa og 26, er sóknirnar kjósa. Þingmenn skulu kosnir til 6 ára, þó skal helmingur þeirra í fyrsta skipti ganga úr þinginu eptir 3 ár, og skal þá kosið á ný. Síðan skal helmingur ganga úr þinginu 3. hvert ár.

Aths. Ef að konungi sýnist, að fulltrúar úr öðrum þeim hlutum ríkisins, er liggja undir hina andlegu stjórn konungsríkisins, eigi að hafa setu á kirkjuþinginu, má setja ákvarðanir þær, er til þess þurfa, í lagaboðið.

3. gr. Enga breytingu má gjöra í hinum almennu ákvörðunum um ástand og málefni kirkunnar, nema hún sje áður borin undir álit kirkjuþingsins, hvort sem ákvarðanir þessar snerta stjórn kirkjunnar eða lög hennar.

4. gr. Allir prestvígðir menn, sem embætti hafa á hendi, hafa rjett til að taka þátt í kosningu kirkjuþingsmanna þeirra, er andlegrar stjettar menn skulu kjósa. Hver maður, sem kominn er til lögaldurs og hefur óspjallað mannorð, játar þjóðtrúna og ekki er í kjörflokki klerka, hefur rjett til að kjósa þá þingmenn, er sóknarmenn skulu kjósa. Í hverjum flokki eru allir kjörgengir, þegar þeir eru þrítugir að aldri.

5. gr. Kosningu til kirkjuþingisins skal þannig niður skipt, að kjósa skulu

| | | Andlegrar stjettar menn. | Sóknarmenn. |
|---|---|---|---|
| Sjálands | byskupsdæmi | 5 | 7 |
| Fjóns | — | 2 | 8 |
| Lálands og Falsturs | — | 1 | 2 |
| Álaborgar | — | 2 | 3 |
| Árúss | — | 3 | 4 |
| Vebjarga | — | 2 | 3 |
| Rípa | — | 3 | 4 |

Þegar kjósa skal, skal klerkum og sóknarmönnunum skipt í kjördæmi þannig, að ekkert kjördæmi kjósi meira en einn þingmann. Kjörmenn skulu valdir til að kjósa þingmenn fyrir hönd sóknanna, og skulu þeir kosnir eptir sóknum, að aflokinni guðsþjónustugjörð.

6. gr. Kirkjuþingið skal haldið annaðhvort ár og skal standa í tvo mánuði; en þegar stjórninni þykir þess við þurfa, getur hún bæði kvatt til þings þess á milli, og lengt þingtímann.

7. gr. Kirkjuþingið er haldið í Kaupmannahöfn, og er venjulega haldið fyrir opnum dyrum. Þeir þingmenn, sem ekki eiga heima í Kmhöfn fá ferðakostnað og 3 dala endurgjald um daginn, er greiða skal úr fjárhirzlu konungsríkisins.

8. gr. Konungi er áskilið að gjöra hinar nákvæmari ákvarðanir til að koma á lögum þessum fyrstu 6 árin.

Það er varla fyrirhafnarvert að tala mikið um kosti og lesti á frumvarpi þessu, nema að því leyti, sem ætlazt er til, að það nái einnig til Íslands; en af því að ætlazt er til, að skipulag á þingi þessu verði svo einkennilegt og svo frábrugðið allri tilhögun, sem vant er að hafa á þingum, þar sem frjálslegt stjórnarfyrirkomulag er, verðum vjer að fara um það fáum orðum.

Eins og sjest á uppástungunni hjer að framan, er svo til ætlazt, að andlegrar stjettarmenn kjósi 18 á þingið, og má óhætt gjöra ráð fyrir, að allir þeir verði kosnir af andlegu stjettinni; auk þessa skulu 8 byskupar vera sjálfkjörnir í þingið, og konungur eða háskólinn skal enn fremur kjósa tvo guðfræðiskennendur á háskólanum, svo að andlegrar stjettar menn verða þannig 28. Sóknarmenn skulu einungis kjósa 26 menn á þingið, og einn háskólakennara í lögum skal einnig kjósa; og geta þá orðið 27 leikmenn á þinginu, og er þingina þannig svo hagað að klerkar geta ætíð ráðið atkvæðafjölda, ef þeir eru samtaka; og þegar gætt er að því, að kosningar sóknarmanna eru tvöfaldar, og að sóknarmenn eiga að velja kjósendur við kirkju eptir guðsþjónustugjörð, þá gefur að skilja að prestarnir geta einnig haft mikil áhrif á þessar kosningar, og stuðlað að því, að þeir verði kjósendur, sem eru klerkum velviljaðir, og sem þá aptur kjósa einhvern prestinn í kirkjuþingið, svo að prestastjettin verður þá enn fjölmennari; og þegar það stendur í frumvarpinu 3. gr., að enga breytingu megi gjöra á hinum al-

mennu ákvörðunum um ástand og málefni kirkjunnar, nema hún sje áður borin undir álit kirkjuþingsins, hvort sem ákvarðanir þessar snerti stjórn kirkjunnar eða lög hennar, liggur það í augum uppi, að prestastjettin getur ráðið öllu ein um þess konar málefni, eins og í hinum katólsku löndum, og náð hinu mesta ofurvaldi í andlegum efnum. En þessi tilhögun er öldungis gagnstæð frjálslegu fyrirkomulagi, þar eð prestarnir eru til sóknarmannanna vegna, en sóknarmennirnir ekki prestanna vegna. Sóknarmennirnir ættu því að hafa öllu gildara atkvæði um öll málefni, er kirkju og kennidóm snertir, en slíkt getur engan veginn orðið eptir því sem frumvarp hinna 12 dönsku postula fer fram á; enda má sjá á öllu frumvarpinu, að hinir 8 guðfræðingar af þeim 12, er frumvarpið hafa samið, hafa haft hina 4 í vasa sínum.

þessir ókostir, á kosningum til kirkjuþingsins, sem nú voru taldir, snerta nú reyndar ekki oss Íslendinga, því þó að hinir hálærðu 12 dönsku postular hafi þannig ætlazt til, að leikmenn danskir gætu þó átt setu á þinginu, hafa þeir þó ekki álitið þess, þörf fyrir oss, eða ekki álitið neinn hjer á landi hæfan að sitja í þessari samkundu nema sjálfan byskup vorn; þó að nú sumum kunni að virðast það nokkuð ósamhljóða, að öll hin byskupsdæmin skuli hafa byskup, klerka og leikmenn á þinginu, nema Íslands byskupsdæmi, er verður að láta sjer nægja með byskupinn einn. þessir spekingar vita, að byskup vor muni flytja mál kennidómsins, ekki síður en Staða-Árni — þeir hafa víst lesið Árna byskups sögu —, og þeir vita að þessu þingi muni jafnkunnugt og jafnannt um hag landsmanna vorra í andlegum efnum, eins og stjórninni og ríkisþinginu er það um hin veraldlegu málefni vor. Ætli, t. a. m. að þetta þing ætti ekki hægt með að leiðbeina byskupi vorum í því, hvernig ætti að sameina brauðin hjer á landi? Skyldi þetta þing ekki fúslega hjálpa oss um eitthvað af hinum dönsku kirkjulögum, sem gefin yrðu, ef að byskupinn hjeldi að vjer þyrftum þeirra? Sjáið og skiljið Íslendingar! Ætlið þjer ekki, að þessir hálærðu dönsku postular og prestar — og þar á meðal sjálfur skriptafaðir konungsins, hann Tryde gamli —, þessi hálærði lögfræðiskennari, J. E. Larsen, sem sjálfur hefur sagt á prenti, að hann unni Íslandi og innbúum þess, þessir margbókuðu þingmenn úr landsþinginu og þjóðþinginu, viti hvað yður bezt hentar? þessir menn ætla að taka yður og öll yðar kirkjumálefni undir vængi sína. þjer þurfið ekkert að hafa fyrir að stjórna þess konar málefnum, nema að ljá þeim byskupinn til skrafs og ráðagjörðar. Og þeir vita hvað yður kemur þetta vel, og hversu feginsamlega þjer munið taka þessu. þeir taka þetta upp hjá sjálfum sjer af stakri umönnun fyrir yður. þeir vilja ekki einu sinni ónáða yður með að bjóða yður það. Og því skyldi þess líka þurfa? Ó, þú harðsnúna kynslóð, ef þú ekki viknar við slíkt veglyndi! Skjótið nú saman ungir og gamlir, ríkir og fátækir, til heiðursgjafar handa þessum miklu, lærðu og veglyndu mönnum! — Eða ef að þjer eruð svo harðsvíraðir, að þjer þekkið ekki teikn tímanna, og þjer viljið enn einræningsskapinn (Separatismen), þá skrifið þjer á móti þessu ágæta frumvarpi. Látizt þjer, sem eruð börn, vera komnir til lögaldurs og komið fram fyrir stjórnina með mótbárur svona hljóðandi: Af því að vjer Íslendingar álítum, að rjettindi vor banni bæði konungi og samþegnum vorum að ákveða neitt um lög hjer á landi að oss fornspurðum, og að öll þess konar frumvörp verði fyrst að leggja annaðhvort undir alþingi vort, eða annað þing hjer í landinu sjálfu; af því að vjer álítum, að frumvarp þetta sje illt og ófrjálslegt í sjálfu sjer, og jafnháskasamlegt fyrir allt andlegt frelsi og hið katólska ofurvald var hjer á miðöldunum, af því að vjer álítum að Ísland geti aldrei haft gagn af að eiga þau þing saman við Dani, þar sem ræða á um sjerstakleg mál ríkishlutanna, og ætlum að þetta danska þing geti í engu bætt kirkjumálefni vor, þar eð enginn þeirra, sem setu eiga á því, nema byskupinn yfir Íslandi, geta haft neina verulega þekkingu á því, hvernig þeim málum hagar til hjá oss.

Hvílíkur einræningsskapur væri nú að tala svona!

þegar vjer Íslendingar nú athugum frumvarp þetta með alvörugefni, þá virðist oss það bein skylda vor við land vort og eptirkomendur vora að mæla opinberlega á móti allri hluttekning í því; og ætlum vjer ráð að skrifa hinni íslenzku stjórnardeild til núna með haustskipum, og biðja hana að tjá dómsmálastjóranum, hve ófúsir vjer sjeum til að eiga nokkurn þátt í þessu þingi; og viljum vjer hvetja alla málsmetandi menn hjer í nálægum sveitum til að íhuga þetta mál, og vera fljótir til aðgjörða; og einkum skora jeg á alþingismanninn hjer í sýslu, að hann taki sjer fram um þetta.

því verður reyndar ekki neitað, að kirkju-

stjórn vor Íslendinga þurfi mikillar endurbótar við; og þó að vjer ekki í þetta skipti höfum tækifæri til að gefa neinar bendingar um það efni, vildum vjer þó geta það seinna; en vjer vildum einungis vekja athuga landsmanna vorra á því að þeir þurfa að vera árvakrir, og láta Dani ekki komast lengur upp á að skipa oss að sitja og standa eptir vild þeirra, án þess vjer með öllu kappi mótmælum slíkum tiltektum, og reynum hvað vjer getum að ná rjetti vorum, þeim rjetti að hafa fullt atkvæði í málefnum þeim, er sjálfa oss snerta, eins og frjáls sambandsþjóð í hverju ríki á að hafa.

---

**Stuttur leiðarvísir fyrir alþýðu til þess að skrifa íslenzku rjett og greinilega, eptir M. Jónsson, stud. theol., Rvík. 1856.**

Það hefur lengi tíðkast meðal Íslendinga, lærðra og leikra, er eitthvað skrifa eða semja, að sinn fylgir hverri rjettritun, og hafa lærðu mennirnir þá búið sjer til ýmislegar reglur, er að nokkru leyti hafa verið sjálfum sjer samkvæmar, en hinir ólærðu hafa flestir skrifað öldungis reglulaust, sum orðin, eins og þeir hafa sjeð þau rituð í bókum, og sum eptir framburði í þeim, er hver hefur haft. Magnús stúdent Jónsson hefur nú gjörzt tilraun að bæta úr þessu skipuleysi með því að láta prenta stafsetningarreglur, og hefur hann viljað fara eptir rithætti Konráðs, háskólakennara, Gíslasonar, er án efa mun vera rjettastur, og sjálfum sjer samkvæmastur. Þetta ritsmíði ætlum vjer að höfundinum hafi tekizt dável; og þó að því, eins og flestum frumsmíðum, kunni að vera ábótavant, ætlum vjer, að það geti verið hverjum ólærðum manni, sem les það með eptirtekt, til mikilla nota. Höfundurinn „eptirlætur (?) þetta fyrsta rit sitt dómum og áliti manna“. og þykir oss því hlýða að fara hjer um það fáum orðum. Vjer höfum reyndar ekki haft tíma til að lesa bækling þenna vel niður í kjölinn, en þó ætlum vjer oss óhætt að fullyrða, að í honum sjeu stafsetningarreglur vorar best útskýrðar. Þó viljum vjer drepa á fátt, er oss þykir ábótavant, eða sem vjer ekki ætlum rjett vera: Á 14. bls. segir, að rita eigi drottin í þolanda af drottinn eins og af Óðin, en slíkt höfum vjer aldrei sjeð, hvorki í prentuðum bókum nje fornum handritum, og ætlum, að það sje einungis nafnið Óðinn, er svo hneigist. Væru mörg nafnorð, sem svo enduðu, mundu þau hneigjast eins og lýsingarorðin sem endast með -inn í karlkyni, t. a. m. gj. loðinn. og þolandi eins; greinirinn h i n n, gj. og þolandi eins, og eins fornafnið h a n n Að minnsta kosti hefði höfundurinn þurft að færa ástæður fyrir þessari breytingu frá því sem allir aðrir rita, svo að menn sannfærðust um, að hún væri rjett. Rangt virðist mjer höfundurinn hafa, er hann segir 10. bls. að ekki megi rita h n ý t a h n ö t t u r, heldur eigi að rita þau orð með k í byrjun orðs. Þar sem framburðurinn er orðinn eins fastur um allt land eins og í þessum orðum, og þegar menn vita að k fyrir framan n í skyldum málum, t. a. m. ensku og svensku er mjög lint eða hverfur í framburði, virðist oss að minnsta kosti fullt eins rjett að rita h n ý t a, h n ö t t u r, h n j e, h n í f u r, og þannig ritar Konráð í orðabók sinni. Óheppilegt er það að höfundurinn verður stundum að vísa til samburðar við dönsku, því þó það sje góð vísbending í sjálfu sjer, er það þó óhentugt, þegar bókin er ætluð alþýðu, því alþýða skilur ekki dönsku. Bezt er gengið frá kaflanum um aðgreiningarmerkin; aptur eru skammstafanirnar óþarflega margar, og ofmikið tekið þar af útlendum skammstöfunum, sem aldrei ættu að koma fyrir í íslenzku, og gjöra það varla, t. a. m. s., l. sive, pr. pl. l. præter plura.

Að endingu óskum vjer, að sem flestir ungir menn vildu kaupa þetta kver, því gömlu vísuna. „Að lesa og skrifa list er góð“, o. s. frv., er svo að skilja, að enginn verður álitinn „mesti höfðingi“ fyrir að kunna vel að búa til stafina, heldur einkum fyrir það að skrifa rjett og skipulega.

---

# Frjettir.

## Útlendar.

Af hinum útlendu blöðum, er vjer höfum fengið fram í miðjan ágústmánuð, höfum vjer lítið frjett, er stórtíðindum gegni. Hið helzta er bylting sú, er orðið hefur á Spáni, sem hjer skal stuttlega lýst. Þeir hafa nú hið næstliðna ár ráðið mestu með Ísabellu drottningu á Spáni E s p a r t e r o, er opt hefur ráðið mestu þar í landi, hinn frjálslyndasti maður og vinsælasti, og hershöfðinginn O'D o n n e l, írskur að kyni. Í sumar varð þeim það að deilu, að O'D o n n e l vildi hrinda einum ráðgjafanum, E s c o s u r a að nafni, burt úr ráðinu, en E s p a r t e r o vildi það ekki, og áttu þeir margar stefnur að málum þessum, og samdi

ekki. Kom svo að lyktum, að ráðið fór allt á fund drottningar til ráðagjörðar. Urðu þær málalyktir, að drottning hjelt með O'Donnel og vildi að Escosura færi úr völdum. Lagði þá Espartero og allir hinir ráðgjafarnir niður völd sín; en drottning fól O'Donnel á hendur að fá nýja ráðgjafa. þetta var að morgni hins 14. júlímánaðar. O'Donnel vissi nú, að stjórn hans mundi ekki verða vinsæl, en á hinn bóginn, að herinn mundi fylgja sjer. Brá hann því undir eins við og safnaði saman 16000 hermanna. Síðan kaus hann ráðgjafa með sjer, og gjörðist sjálfur æðsti ráðgjafi og hermálastjóri. þegar það frjettist í Madridarborg, hverjir hinir nýju ráðgjafar væru, kvöddu 40 þingmenn úr ríkisþinginu, sem búið var að skjóta á frest nokkru áður, til fundar — en það eru lög á Spáni, að 20 þingmenn geta kvatt til aukafundar, þegar þinginu hefur verið skotið á frest, og 50 þingmenn geta gjört gildar ákvarðanir —, og komu 91 fulltrúar á fundinn, og ákvörðuðu þar með 90 atkvæðum gegn einu, að kveðja þjóðfulltrúana þegar til þings, lýsa vantrausti fulltrúanna á hinum nýju ráðgjöfum og biðja drottningu að láta þá fara úr völdum, og kjósa aðra, er hefðu traust þjóðarinnar, og stungu fulltrúarnir upp á því, að Espartero yrði æðsti ráðgjafi. Ekki vita menn, hvort Espartero hefur verið í vitorði um þessar ákvarðanir. Nú kusu fulltrúarnir nefnd, er skyldi flytja drottningu þessar bænir þeirra, og fylgdi nefndinni flokkur af þjóðliði. þegar nefndin kom til hallar drottningar, ráku hermenn O'Donnels hana aptur og skutu á hana. þá byrjaði upphlaup um alla borgina. þegar þetta bar við var Espartero staddur í þjóðþingissalnum og hjerumbil 30 aðrir þingmenn. Escosura, og margir aðrir, báðu hann að halda þau heit sín, að taka sjer sverð í hönd, ef frelsi þjóðarinnar væri hætta búin; og hann tók því svo vel, að menn væntu, að hann mundi fara á orustustaðinn, og hvetja þjóðliðið. þetta brást nú, hvort sem það hefur komið af því, að hann hefur þótzt of aflalítill eða af öðrum ástæðum. Valdès, hershöfðingi fyrir þjóðliðinu, talaði þá fyrir liðinu, að fyrst að sá maður, sem einkum væri skyldur að vera í broddi fylkingar þeirra, kæmi ekki, væri hverjum frjálst að fara heimleiðis og sneiða hjá allri hættu. Lögðu þá margir niður vopn sín og herklæði. En þeir sem gripu til vopna börðust með mikilli hreysti dag og nótt, þangað til um morguninn 16. júlí; þá tókst loksins hershöfðingjum O'Donnels að sefa upphlaupið með öllu í höfuðborginni, og var þá fjöldi fallinn af hvorumtveggja. Víða urðu upphlaup á Spáni móti þessum ráðabreytingum, en að síðustu tókst stjórninni þó að vinna aptur án mikils manntjóns allar borgir, er gjört höfðu uppreist. Espartero hefur öldungis dregið sig í hlje, og ekki veitt hinni nýju stjórn neina mótstöðu.

þó að O'Donnel hafi þannig náð hinum æðstu völdum á Spáni, og það varla að öllu leyti á löglegan hátt, og þó að hann haldi landinu undir hervaldi nú sem stendur, þá er mjög vansjeð hve langgæð stjórn hans verður. Hann hefur reyndar látið enn í veðri vaka, að hann mundi halda hinni frjálslegu stjórnarskipun, er áður var, en fáir vilja trúa því, og verða til að fylla flokk hans, svo hætt er við, að þjóðþingið verði honum erfitt viðureignar, þegar þing er næst hafið. Menn ætla, að hann hafi enga fasta skoðun á stjórnarmálefnum, og eru því hræddir að fylgja honum. Hann hefur líka og herlið hans sýnt hina mestu grimmd á meðan á uppreistinni stóð, og eykur það lítt vinsældir hans.

Annarstaðar í norðurálfunni hefur allt gengið með friði og spekt, en þó ber enn mikið á afleiðingum hinnar miklu styrjaldar, er gengið hefur; einkum ber á þeim í verzlunarviðskiptum þjóðanna. þó að út líti fyrir ágæta uppskeru á flestum korntegundum í Danmörku og víða annarstaðar, halda þó kornvörur sjer enn í hinu sama háa verði, er verið hefur, og leit ekki svo út, að þær mundu lækka í verði til neinna muna.

Frá áreiðanlegum manni í Kaupmannahöfn hefur oss borist verðlag á íslenzkum vörum erlendis núna þegar „Hertha“ fór aptur hingað til landsins. Hann segir svo: Hvít ull norðlenzk ætluðu menn í vor, að mundi verða 120 rd. Skp., nú er hún 125 og 130, jafnvel þó góð Vestmannaeyja ull sje nýlega seld á 118 rd. Mislit ull er 106–9 rd. Tólgur ætluðu menn í vor að mundi verða 22 sk. pd., nú er hann 25 og 26, og ætla menn, að hann hækki enn í verði, því kaupmenn vilja ekki selja á 25. Sokkar 44 sk., og verða, ef til vill, 46 sk.; góðir hálfsokkar 28 til 30 sk.; vettlingar 20 sk.; peisur góðar 9 — 10 til 12 mörk. Lýsi orðið á 44 rd. Saltfiskur 22—24 rd. Kjöt mun verða frá 26—28 rd. tunnan.

Um verð á útlendum varningi skrifar hinn sami: Austursjóarrúgur fæst nú fyrir 9½ rd., dansk-

ur 10 og 10½, grjón. 14 hjer í staðnum. í stórkaupum. Í smákaupum er brennuvín 28 sk., kaffi og sikur 26—28 sk. — Þetta grjónaverð getur gjört oss skiljanlegt, það sem oss annars kynni að virðast kátlegt, að kaupmenn ekki hafa sent neitt eða sárlítið af þessari korntegund með þessu seinasta skipi.

Á eyjunni Sangir í Austur-Indlands hafi, nálægt eyjunni Celebes, gaus upp hinn mesti jarðeldur í vor. Landnorðan til á eyjunni liggur fjallið Awu 4,300 fóta á hæð, og gnæfa upp úr því margir eldfjállatindar. Vesturhliðin á fjalli þessu er hægt aflíðandi niður að bænum Kandhar, er liggur á háum höfða. Á norðurhlið Awu eru frjófsamar hæðir, og eru þar auðug sáðlönd. Aldrei hafði jarðeldur fyr gosið upp á Sangir, og að eins orðið vart við lítilfjörlega jarðskjálfta; og Spanverji nokkur, er fyrir fáum árum fór upp á Awu, kvað eldfjallið fyrir löngu útbrunnið. 2. marz þ. á., mitt á milli miðaptans og nattmála, byrjaði allt í einu, og án þess vart yrði við nokkur merki til þess áður, óttalegt eldgos. Hraunelfurnar byltust niður að sjó, og lækir og uppsprettur urðu sjóðandi, brutust yfir landið, og eyddu öllu því, er hraunið skildi eptir. Hafið hrökk fyrst undan eldelfunni, en kom skjótt aptur með stórsjóum og braust móti fjallinu og hraunelfunum. Síðan hóf sig í lopt upp kolsvartur reykjar- og öskumökkur og gjörði á hið svartasta náttmyrkur og. fjarskalega grjóthríð, er stóð til miðnættis. Í öðru sinni gaus fjallið 3. marz og 3. skipti 17. marz. Þessi ógurlegu eldgos hafa orðið að bana hátt á þriðja þúsundi manna.

## Innlendar.

Ekki höfum vjer enn mikið að segja af innlendum frjettum. Það er hvorttveggja að land vort er strjálbyggt og lítið gjörist, sem tíðindum skiptir, enda fáum vjer blaðamennirnir opt seint að vita það, og frjetturnar fljúga ekki út um landið; þó að þær sjeu komnar í blöðin, því stundum líða heil og hálf ár, áður en blöðin eru komin til síns samastaðar.

Veðráttan hefur verið hin bezta og hagstæðasta um allan sláttinn þangað til mitt í þessum mánuði. Rjett við byrjun gangnanna gjörði hið mesta áfelli, svo að það snjóaði niður að sjó og hin mesta fannfergja kom á fjöllin, og það jafnvel svo, að geldfje var á sumum stöðum dregið úr snjó, og munu því heimtur víðast hvar ekki góðar, hvort sem seinna bætist úr því. Sökum þess að grasvöxtur var svo sárlítill, voru menn enn við heyskap þegar ófærðin byrjaði, og allmargir eiga því enn hey úti, og er hætt við að það nýtist lítt. Heilsufar manna hefur verið gott alstaðar, þar sem vjer höfum til spurt.

Nú er byrjuð haustverzlunin hjer í norðurog austur-umdæminu, og fjártakan, og hafa kaupmenn aldrei borgað fjeð eins vel og nú, enda mun það verða vel borgað erlendis. Kaupmenn gefa hjer á Akureyri 7 mörk fyrir lýsip. af kjöti af fullorðnum sauðum, 1 rd. 8sk. fyrir lýsip. af geldum ám, veturgömlu fje og dilkum. Fyrir gærur af fullorðnum sauðum 88 sk., tvævetrum 80 sk., af veturgömlu og dilkum 64, og fyrir pundið af mör gefa þeir 18 sk.

Vjer höfum nú reyndar heyrt bæði úr Múlasýslum og af Skagaströnd, að kaupmenn borgi þar betur, t. a. m. 8 mörk fyrir kjöt af fullorðnum sauðum, 20—22 sk. fyrir mör, og 1 rd. og þar yfir fyrir gærur, og þó það, ef til vill, sje ekki of mikil borgun eptir því, hvernig verðið er á hinni útlendu matvöru, og líklega verður næsta ár, svo að landsmenn hafa þó ekki hag af að selja fjeð úr búi sínu, er þó þessi sala, eins og hún er hjer, mjög erfið fyrir alla kaupstaðarbúa, og aðra þá, er kjöt þurfa að kaupa, svo að kalla má að hin mesta dýrtíð sje fyrir alla þá, er lifa af vinnu sinni eða peningum og ekki hafa landvörur að borga með.

Fiskiafli hefur hjer norðanlands verið með minnsta móti og mjög óstöðugur, svo að hann bætir lítið úr. Um hákarlsaflann hjer í kringum Eyjafjörð, sem hefur verið með bezta móti, vonum vjer að geta seinna gefið greinilega skýrslu.

---

## Stökur.

Þegar jeg lít þig ljúfa mær
lyppu úr körfu spinna,
altekið mig allan fær
yndi handa þinna.
Opt jeg sjálfur óska þá
ofurlitla stundu
í lár að vera lopi sá,
er leikur þjer í mundu.

---

Þegar áðan augað þitt
á mjer dvaldi Fríða,
áðar fannst mjer áfram mitt
æðablóðið líða.

þegar mjúkur munnur þinn
mjer rjeð játning gera,
allur fannst mjer andi minn
endurborinn vera.
Sjálfur hræddist orð mín eg
ei þeim stýrt að fengi;
að bannaðan ei brytust veg
barðist jeg við lengi.

---

### Dæmisaga.

það var einusinni fífill og bjó í brekku. Hann var ungur og fríður, og hugsaði sjer því hátt í heiminum. Nálægt honum bjó sóley. Henni þótti fífillinn fagur og hafði hug á honum, en hann leit ekki við henni og sýndi henni enga blíðu. Hún sat hrygg, og þótti súrt í brotið, að fífillinn skyldi ekki líta við sjer. Hún var að gráta alla nóttina, en á morgnana þurrkaði hún af sjer tárin, því hún duldi ást sína.

Nú leið og beið og fífillinn varð stór og ætlaði sjer einlægt hærra. En nú kom ofboð heitur morgun eptir nokkra kulda daga, og þegar fífillinn vaknaði, og reis upp, sá hann í eldheit augu morgunsólarinnar, og varð allt í einu ástfanginn. Hann starði á sólina, og ímyndaði sjer, að hún hefði ekki augun nema á sjer. Hann þekkti ekki sólina vesalingur! Og hann mændi til sólarinnar öllum dögum, en á næturnar var hann að gráta; og þegar morgungeislarnir þerrðu döggina af honum, hjelt hann að sólin væri að þurrka tárin af augum sjer og verma sig, og þá varð hann frá sjer numinn, og blóðið streymdi enn ákafar í æðum hans. En sólin sem hann elskaði svo heitt kom ekki nær. Framan af deginum var hún einlægt að verða blíðari og blíðari, en þegar á daginn leið, hjelt hann að hún væri að felast fyrir sjer, þegar hún gekk undir brekkubrúnina um miðaptansbilið. Hann sá hana skína á önnur grös, en líta ekki til sín. — Hann hugsaði sjer nú eitt ráð. Til þess að hún skyldi ekki vera að hlaupa frá sjer og stríða sjer, fór hann að verða góður við sóleyjuna. Hann hugsaði, að sólin mundi þá verða hrædd um sig, og koma til sín og vera hjá sjer. Hann þekkti ekki sólina vesalingur! Hann beygði sig ofan að sóleyjunni blíðlega, en hún lagði tárvota kinnina við vanga hans og roðnaði. Og daginn eptir kom sólin og fór aptur; og fífillinn hugsaði með sjer: „Sólin er einsog ung mey í dansleik, hún er fjörug og heit. Mjer fannst líka að það væri eins og við værum að dansa, þegar geislarnir ljeku um um hádegisbilið. En hún er hvikul eins og dansmey, og ekki við eina fjölina felld. Jeg er orðinn roskinn og mjer mál að fara að búa um mig í lífinu. þannig mælti hann og laut niður að sóleyjunni og kyssti hana, og þau grjetu bæði af gleði og vöknuðu brosandi um morguninn, því nú ætluðu þau aldrei að skilja

þannig lækkar hinn fullorðni maður hugarburði unglingsins. Æskumaðurinn ætlaði að finna og ná mynd þeirri, sem hugsjón hans smíðaði, hann ætlaði að sanngjöra draumsjónir sínar. En han reyndi að hugsjónin var ekki annað en hvikul dansmey.

---

# Mannalát.

10. d. júlímánaðar þ. á. andaðist hreppstjóri, stúdent, Halldór Sigurðsson á Úlfsstöðum í Loðmundarfirði, tæplega 55 ára að aldri. Hann var fæddur 24. ágúst 1801, giptist 10. júlí 1830 eptirlifandi konu sinni Hildi Eiríksdóttur. þau áttu saman 10. börn, og eru 7 þeirra á lífi, 5 synir og 2 dætur. Halldór sálugi var hreppstjóri í 12 ár, og þótti jafnan hinn bezti og hjálpsamasti bóndi.

24. ágústm. andaðist merkiskona, Kristín Gunnlaugsdóttir, kona þórarins snikkara Stefánssonar í Arnarnesi í Keldubverfi, fertug að aldri. Hún var hin ágætasta kona í sinni sveit, harmdauða eptirlifandi manni sínum og þremur börnum, og öllum er þekktu kvennprýði hennar.

11. d. ágústm. andaðist á bezta aldri ein af merkustu konum austanlands, Gunnþórun Ingibjörg Ragnheiður, kona Halldórs prófasts Jónssonar að Hofi í Vopnafirði í Norðurmúlasýslu, og dóttir Gunnlaugs sáluga Oddsens dómkirkjuprests. Hún var fædd 9. maí 1824, giptist sjera Halldóri 1842. þau hjón áttu 10 börn og lifa 8.

Svalur vindur um sumartíð
svala ber fregn af austurlandi,
deyðandi hefur dauða hríð
dregið um lopt og valdið grandi.
Fegurstu jurt úr jurtareit
járnkaldur banaljárinn sneiddi.
Húsfreyju bezta úr blíðri sveit
til betri vistar drottinn leiddi.
Harmatára þá hrynji fjöld

af hvörmum þess, er viðið þráir,
og ungbörn þau vanti skæran skjöld
er skýla móðurhönd ei náir,
Drottinn honum þó dýrstur bjó
í drottins orði huggun ríka.
Sá öðrum huggun færði og fró
finna mun hana sjálfur líka.
Móðurleysingjum heitið hann
hefur gefið hið ástarblíða,
þá móður burt taka mildur vann
í móðurstað er hans höndin þíða.
Hún skýlir vel, þó hörðust hríð
og harmafrost í lífi næði.
Hún skýlir vel og vermir blíð
veitir huggun og fróun bæði.

---

## Um uppeldi barna.

### Klæðnaður.

(Framhald) Gæta skal þess, að barninu sje hlýtt og notalegt, en ekki má það verða of heitt hvorki vegna klæðnaðar eða af því, að rúmið sje ofheitt.

Fötin eiga að vera ljett og hæg. Bezt er að skyrtan næst líkamanum sje úr smágjörfu ljerepti eða bómull, og þar utan yfir ljettur úllarvefnaður, og yzt kjóll úr ljerepti eða bómull.

Annað, sem á liggur með fatnað barnanna er, að fötin sjeu laus Loptið á að geta haft frjálst svigrúm að renna milli hörundsins og fatanna. Hvað lítið, sem kreppir að barninu, ollir það því óhægiada, og ef fötin eru þröng, geta þau valdið vanskapnaði fyr en menn gæta að. Nóg rúm verður að ætla barninu fyrir vextinum, því hann er stöðugur og mikill. Sökum þessa ætti að festa hvert fat með böndum, og varast mjög að reyra þau ekki fast.

Áður var höfð sú vitlausa og skaðsamlega venja að strengja mikið af fötum fast utanum börnin (reifa þau), og láta ein- eða tvífóðraða húfu á höfuð þeirra. Sumstaðar eru börn enn reifuð þannig, að rjett er úr þeim og vafin eins og lík, og borin þannig, og er það mjög háskalegt bæði fyrir vöxt barnins og styrkleika þess. Af ofmikilli umönnun fyrir barninu er það og alltítt, að börnin eru ofmikið klædd, og höfði þeirra og líkama þannig haldið of heitum.

Vjer tökum það fram aptur að láta fötin vera ljett og rúm, og að láta barnið vera berhöfðað, ef árstíminn er heitur að minnsta kosti innanhúss, sje komið allgott hár á höfuðið. Í mesta lagi skal láta barnið hafa ljetta línhúfu, og bæta þar við lausri skýlu yfir höfuðið þegar farið er með það út í kuldann, og vefja þá einnig utanhafnarklút utan um það.

Kjóllinn, sem barnið hefur, á ekki að vera lengri en svo að hann hylji fætur þess, þegar fóstran lætur það sitja á handlegg sjer. Skórnir ættu að vera úr ullarvefnaði. Stundum ber svo við, að þörf er á að vefja dúki eða bandi um mitti barnsins, en slíkt verður að gjöra með aðgæzlu. Sum börn þurfa þetta band marga mánuði; þegar hætt er við það, er haldið og vestið einkum haft til að halda föstum hinum fötunum.

### Hvernig þvo skal barnið og klæða það.

Til þess að barninu líði vel, og heilsa þess eflist, skal þvo það á hverjum mörgni og hverju kvöldi, allt saman vel og vandlega, en þó hægt og mjúkt. Ástæðurnar fyrir því eru þessar. Svitaholurnar færa burt ónýtt efni frá líkamanum. Þetta efni festist á húð barnsins og byrgir svitaholurnar, svo að þær geta ekki unnið ætlunarverk sitt, nema þessi óhreinindi sjeu þvegin burtu.

Þvo skal barninu í volgu vatni með sápu og smágjörfum ullardúki eða svampi. Kalt vatn má ekki hafa, því barnið getur orðið sárveikt af því og dáið, Áður hjeldu menn, að það mundi gjöra börnin hraust og hörð, að baða þau í köldu vatni, en reynslan hefur sýnt að slíkt er vitleysa. Þess skal og vel gætt, að ekki komi súgur af köldu lopti á þau. Það er ekki óhætt að afklæða barnið nema við eld fyrstu fjóra mánuðina.

Þegar fara á að þvo barnið og klæða það, skal allt sem á þarf að hald vera við hendina; það sýnir óreglusemi, ef barnfóstran þarf að standa upp til að sækja nokkurn hlut. Þegar allt er við hendina, skal fóstran setjast á lágan stól — hún skal hafa ullarforklæði — Svo afklæðir hún barnið, þvær höfuð þess með sápu, þerrar það og setur síðan línhúfu á höfuð þess. Síðan þvær hún andlit, háls og brjóst, hendur og handleggi (sápu þarf ekki ætíð) og þurrkar það síðan mjúkt en vel. Svo er barninu snúið við og nógu vatni ausið um bakið, lendar og fætur, skal halda barninu með vinstri hendi og láta fæturna hánga yfir hnjeð svo að vatnið geti streymt af þeim niður í þvottakerið. Kríkana. o, s. frv. þarf vandlega að þvo og þurrka. Síðan skal brjóta upp hornið á forklæðinu, svo barnið hafi þurrt að liggja á meðan það er þerrað. Hrukkurnar á hnakkanum, undir höndunum, í olbogabótum og hnjesbótum skal þvo og þurrka vandlega. Af því núningurinn á þessum stöðum eykur svitann, svo að hætt er við, að taki af skinnið, þarf að dreifa á það línsterkju dupti. Öll hrein klæði barnsins skal verma við eld áður en barnið er fært í þau. Þegar búið er að þvo barnið og þerra, skal strjúka líkamann með hendinni; það kemum blóðinu til að hlaupa aptur út undir húðina og hefur þægileg áhrif á barnið. Þenna þvott skal einlægt við hafa hvern morgun og kvöld, og verja skal barnið sem mest verður fyrir öllum óhreinindum á daginn. Ef barnið selur upp fæðunni, eða ef barnið slefar mikið, þegar það tekur tennur, þarf að þvo andlit þess og háls einu sinni eða tvisvar um dagtímann. Áður en barnið er klætt, skal lofa því að sprikla og teygja úr sjer í kjöltunni, og á því getur maður opt sjeð, hvort það er heilbrigðt. Þessa skyldi nákvæmlega gætt um allan barnsáldurinn.

Það er líklegt að barnið hljóði töluvert meðan verið er að þvo því og klæða það, Ef það hljóðar ekki mjög ákaft eða í sífellu, þá er það barninu hollt. Það æfir lungun, skerpir röddina og andardráttinn, og öðru vísi getur barnið það ekki. Þegar þau eldast og fá aðra krapta minnkar grátutinn. Lægni og viðkvæmni verður fóstran að hafa í þessu eins og öllu öðru; því ef hranalega er farið með barnið við þvottinn, þarf það ekki nema að sjá þvottakerið og heyra hljóðið í vatninu til þess að það verði angrað, og geta þá liðið svo ár, að barninu þyki ekki vænt um að láta þvo sjer, eins og því á að þykja.

Móðir eða barnfóstra sparar sjer mikið ómak með því að innræta barninu að vera þrifið og þokkalegt. Þegar menn gæta að því að dýrin kenna ungum sínum þrifnað, ætti ekki síður að kenna það hinum skynsömu skepnum. Það er óhætt að segja, að ekkert barn hefur verið óþrifið í háttum sínum, svo að það væri ekki fóstrunni að kenna.

### Loptið og hreifingin.

Börnin eiga, eins og fullorðið fólk, að geta andað að sjer góðu lopti. Ef þau draga að sjer illt lopt, verða þau fölleit, veikjast og deyja. Rúmið þarf að viðra vel og halda góðu lopti í svefnherberginu. Herbergisdyrnar skulu standa opnar á daginn, og glugginn líka nokkrar stundir, nema þegar veður er mjög kalt.

Ef að loptið er gott, verður barnið bæði heilsugott og rjótt í kinnum, þó að fæða þess sje lítil og fátækleg, og hreint lopt bætir því margt annað.

Ungt barn þarf að hvíla sig mikið. Þegar kraptar þess aukast, og það getur farið að taka eptir, er bezt að hreifa það, og kenna því að sitja uppi og taka eptir hlutunum í kringum sig. Þegar barnið er borið, ætti það fyrst að liggja á örmum fóstrunnar, síðan skal kenna því að sitja á handlegg hennar. Ekki skal hossa því, eða hreifa það neitt snögglega, fyr en það er orðið sex mánaða gamalt, og er farið að hafa gaman af hreifingunni.

Þegar það er farið að stálpast, svo að það má sleppa því af höndunum, má leggja það á dúk á gólfinu og lofa því að sprikla og velta sjer. Það er betra að lofa því þetta en að halda því einlægt á hnjánum eða í höndunum, og þykir barninu mjög vænt um það, ef eptirtektin er vöknuð hjá því, og það getur leikið sjer að einhverjum barnagullum. Þegar barnið er tekið upp, eða sett niður, skal taka um mitti þess, en aldrei skal láta það hanga á handleggjunum, ekki einu sinni sem snöggvast.

Bezta aðferðin til að kenna barninu að ganga er að láta það vera sjálfráða. Þegar það er búið að fá nóga krapta, fer það sjálft að standa á fæturna og heldur sjer í stóla eða hvað annað, sem fyrir hendi er.

Þegar veður er gott, skal jafnaðarlega bera það út undir bert lopt. Ekki skal leggja það niður á jörðina fyr en það er farið að geta hreift sig og gengið. Breiða verður undir það á grasinu og lofa því svo að velta sjer til og frá.

Margar konur verja nærri öllum tíma sínum til þess að vera að ganga með börnin í höndunum, og sumar bera fyrirhöfnina fyrir barninu í bætifláka fyrir allan sóðaskap í klæðnaði sínum og umgengni innanhúss. Mikið af þessum tíma getur barnfóstran sparað með því að venja barnið á að skemmta sjer á gólfinu, og hefur barnið líka gott af því.

### Sjúkdómar.

Ef barnið er heilbrigt af náttúru og hefur hentuga fæðu og góða meðferð, mun það sleppa við marga sjúkdóma. Ef því verður illt, kemur það líkast til af rangri meðferð. Algengast er, að krankleiki barna komi af óhentugri fæðu.

Ef að barnið er ekki mjög veikt, svo að leita þurfi læknis, er heitt bað opt gott til að bæta börnum krankleika. Vatnið skal heita svo, að það sje álíka heitt og blóðið í manninum. Mjög ung börn skulu ekki vera lengur í lauginni en 5 eða 6 mínútur. Fóstran skal halda höndum sínum undir höfði barnsins og lendum, svo að því sje sem hægast, og skal vatnið ná að fljóta yfir allt nema höfuð og andlit. Aldrei skal lauga börn, sem hafa útbrot, því kulda getur slegið að barninu á eptir, svo að sjúkleikanum slái inn. Miklu örðugra er að ala upp sveinbörn en stúlkubörn. Drengir hljóða stundum, svo að þeir fá eins konar flog, en stúlkubörn mjög sjaldan, þess vegna þarf enn meiri umhyggjusemi í meðferðinni á sveinbörnum. Heit laug er eitthvert hið vissasta og bezta meðal við slíkum flogum.

Bólusetja skal barnið, þegar það er 6 vikna eða tveggja mánaða gamalt.

Þegar börn eru að taka tennur, eru þau venjulega veik meir eða minna. Hið fyrsta merki til þess, að barnið ætli að fara að taka tennur, er að munnurinn verður venju fremur heitur, og geta menn orðið þess varir þegar barnið sýgur. Annað merki er að barnið slefar þá meira og bítur og nístir saman gómunum. Slefurennslið er barninu mjög hollt, það gjörir vægari hitann og viðkvæmnina í gómnum, sem vant er að fylgja tanntekningunni.

### Lýti og ófullkomlegleiki líkamans.

Það er miklu sjaldgæfara, að lýti á líkamanum sjeu meðfædd, en að þau komi í uppeldinu. Lýti þessi koma annaðhvort af sjúkleika, sem börnin erfa eptir foreldrana og sem aukast af rangri meðferð í uppeldinu, eða þau koma eingöngu af tilviljun, eða skeytingar og kunnáttuleysi þeirra, sem með barnið fara. Það er auðsætt að foreldrar eiga að láta sjer einkar annt um, að slík lýti komi ekki, og reyna af fremsta megni að bæta úr þeim, ef barnið hefur slíka bresti.

Þegar börnin eru afklædd á kvöldin, er það gott ráð að hvetja þau til að hlaupa innan um herbergið, beygja sig, fára á fjórar fætur, setjast og standa upp aptur. Móðirin getur þá tekið eptir hreifingu vöðvanna og liðamótanna, og orðið þannig undir eins vör, hvort barnið hefur meitt sig eða marið, hvort limirnir eru rjettir og liðugir, og af hverju lýtin koma, ef nokkur eru. Sjái menn hvað því veldur, er auðveldara að ráða bót á því. Stundum kann að þurfa læknishjálpar, og skyldi hana þá leitað tafarlaust.

(Framhl. síðar.).

# Auglýsingar.



**Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.**
Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. Októbep. 19.—20.

### Brjef í sveitina.

Qvid dem qvid non dem,
Renuis qvod tu, jubet alter[1].

Það var vel gjört af þjer Sölmundur minn, gömlum manni, að fara að skrifa mjer langt brjef og skorinort um Norðra; það eru ekki svo margir sem verða til þess. Þeir hafa reyndar sumir sagt mjer hitt og þetta undir fjögur augu um hann, en það hafa nú ekki verið nema fá orð í fullri meiningu. Þeir sem hafa verið mjer meðmæltir, hafa sagt, að það væri annar blær á honum. Jeg hefi skilið það svo, að þeir ættu við betri blær, því þess konar getur maður sjeð á því, hvernig það er sagt; að jeg stilfærði vel — hvað sem á nú að leggja í það —, að yfirlitið yfir útlendu frjettirnar væri greinilegt, og að þeim sýndist jeg rita hlutdrægnislaust, o. s. frv. Hinir hafa aptur beðið mig að hafa hann mergjaðan — en mjer hefur þá stundum orðið að segja þeim, að það þurfi að brjóta legginn til að ná mergnum, að skilja það sem skrifað er, til þess að geta fundið, hvað feitt er á stykkinu —, þeir hafa sagt að innlendu frjettirnar væru ofstuttar, og einkum vanti í mannalátin, og jeg ættfæri ekki nógu vel þá sem deyji — og það er nú von, að þeir segi þetta —, að jeg sje að kenna öðrum meðferð á börnum, og eigi þó engin börnin sjálfur, að jeg geti ekki um nein náttúru-undur og hafi oflitlar smásögur; jeg sje ágjarn og hafi fært Norðra upp um fjóra skildinga, og taki peninga af mönnum fyrir hrossalýsingar og þakklætisauglýsingar fyrir hunda, og annað þess konar. Þessar athugasemdir með og mót voru nú svo einstaklegar að jeg gat ekki vel tekið þær til greina. Þessu er nú allt öðru vísi varið með brjefið þitt, góða gamalmenni. Jeg sje það á því, að þú hefur lesið Norðra ofan í kjölinn, og skrifar mjer til í þeim tilgangi að jeg skuli geta lært af því að minnsta kosti, hvernig blaðið eigi ekki að vera. Jeg varð hugsjúkur, þegar jeg las brjefið þitt og sá að þú varst mjer ekki meðmæltur, því jeg sá á öllu, hve annt þjer var um mig og blaðið mitt, eins og góðum landa á að vera. Þú ert hræddur um, að jeg afli mjer óvinsælda; og það er nú hætt við, að þú hafir rjett í því, þegar gætt er að talshættinum „enginn gjörir svo öllum líki" o. s. frv. En jeg ætla þó að svara aðfinningum þínum, ef verða mætti, að þú og þeir, er líkt hugsa, kynnu þó að sannfærast um, að það, sem þú finnur að, sje þó ekki svo fjarstætt, og haldi áfram að kaupa Norðra.

Það fyrsta og helzta, sem þú finnur að, er jólabrjefið, og þar í líkar þjer verst það, sem jeg segi um kaffið og brennuvínið í sveitinni; þú segir, að jeg megi búast við, að konurnar styggist við það, því þessi greiði sje þó handhægastur, og það standi sjaldan svo á, að konan hafi spón eða bita á reiðum höndum. Þú segir, að þetta sje nú orðin landsvenja, og sje því ekki vert að hreifa við henni. Jeg veit nú að hið fyr talda er satt, en jeg hefi aldrei sagt að konan þyrfti að standa frammi fyrir hverjum, sem að garði kemur með góðgjörðir; hún á ekki að gjöra það, og umfarendur eiga ekki að vænta þess. Hin ástæðan þín að hreifa ekki við því sökum þess það sje orðin landsvenja er engu nýt. Þar sem þú segir, að fólk firrtist við þess konar aðfinningar, þá segi jeg þjer satt, að jeg get ekki farið eptir því, og enginn sannur blaðamaður. Kaupendur blaðanna verða að geta þolað sannleikann. Þú laumar því reyndar að mjer „að það væri kanske ekki óhollara að hrósa ykkur bændanefnunum innan um og saman við", og jeg sje, að þú gjörir það í góðu skyni. Það er heldur enginn fúsari til að viðurkenna kosti íslenzku bændastjettarinnar en jeg. Bændur vorir eru velflestir

[1]) Um hvað á jeg að skrifa, og hverju á jeg að sleppa? Það sem þú ekki vilt, þess beiðist annar.

skynsamir í tali, glaðlegir og gestrisnir og hjálpsamir hver við annan. Þeir eru flestir miklu námfúsari en bændur í öðrum löndum víðast hvar. En þó að þetta sje nú svo, þá hafa þeir samt suma ókosti, sem nú reyndar fylgja bændastjett alstaðar. Þeir eru margir smámunasamir, og vilja lítið leggja í sölurnar fyrir að afla sjer menntunar; hafa lítinn áhuga á alþjóðlegum málefnum, sem bezt sjest á því, hversu þeir hafa komið fram á alþingi, því þar hafa þeir opt barið niður áríðandi málefni, þegar það varð ofan á, að landsmenn sjálfir þyrftu að leggja á sig fjegjald til að koma nytsömum stofnunum á fót. Þeir eru seinir á sjer og þó þollitlir í öllum fjelagsskap, og ættu þeir þó manna bezt að geta sjeð „að margar hendur vinna ljett verk". Það skyldi engum þykja vænna um það en mjer, að þetta væri ekki satt um neina af bændum vorum, því vjer þurfum allir Íslendingar að vera sem beztir hver í sinni stjett til þess að oss geti munað nokkuð áleiðis.

Það gleður mig nú reyndar stórum, að þú ert ekki einn af þeim, sem halla á prestinn sinn og öfunda hann af kjörum hans, sem þó eru engan veginn öfundsverð; en þessi góði þokki þinn til prestanna hefur, að mjer finnst, leitt þig til að taka upp þykkjuna fyrir prestana þar sem þess ekki þurfti. Þú segir, að jeg hafi fært að prestastjettinni í greininni um kirkjuráðið í september, og jeg hafi þá grunaða um gæzku. Þetta finnst mjer nú ekki rjett hermt. Jeg ímynda mjer einungis, að prestarnir sjeu menn og mannlegum breiskleika undirorpnir. Jeg ímynda mjer, að hver ein stjett sem er, mundi draga sinn taum um of, ef hún mætti ráða lögum og lofum um sín eigin kjör. Eins og það er áríðandi í hverri frjálslegri stjórnarskipun, að jafnvægi sje milli stjórnaraflanna til þess að þjóðlíkaminn sje heill, og allir limir hans geti gegnt störfum sínum, eins er áríðandi, að jöfnuður sje milli valds og rjettinda hinna einstöku stjetta, og engri stjett sje gefið það vald, sem skerði rjettindi hinna stjettanna, og það er þetta sem danska frumvarpið um kirkjuráðið miðar til, og eru það því engin lastyrði um presta, þó jeg ætli, að þessi lög mundu verða þeim ofmikil freistni.

Það er hægt að sjá það á því, sem þú segir um verzlunina, að þú ert ríkur bóndi, sem er viss um að fá skildingnum meira fyrir pundið af vörunum sínum en allur almenningur. Þú segir, að það sje hollast fyrir mig að tala sem minnst um hana, að fæst orð hafi þar minnsta ábyrgð, það tjái ekki að deila við dómarann, og annað þessu líkt; en í þessu efni getum við ekki orðið ásáttir. Þú segir reyndar, að jeg skuli taka mjer í því efni Þjóðólf til fyrirmyndar, sem nærri því aldrei finni að kaupverði, en segi einungis, hvernig það sje. Mjer getur nú ekki fundizt betur en að blaðamaðurinn eigi í þessu efni að líta fremur á hag allrar alþýðu, heldur en kaupmanna; og hjer á landi er þó enn meiri þörf á að fá menn til þess með samtökum að sporna við því, sem er óhaganlegt landsbúum í verzluninni, en í útlöndum, því þar neyðir verzlunarkeppnin kaupmenn til að gjalda sanngjarnt verð fyrir vöruna og selja með svo góðum kjörum, sem þeim er unnt. Aldrei vantar það heldur í útlöndum, þegar kaupmenn nota sjer skort á einhverri vöru til að halda henni í ofháu verði, að blöðin sýni mönnum fram á hve ósanngjarnt verðið sje, og gefi einhver ráð til að ráða bót á því.

Þú sjerð nú, að jeg ekki fellst á aðfinningar þínar um Norðra, en þó ætla jeg að biðja þig framvegis að hafa vakandi auga á honum, og segja mjer til, þegar þjer finnst jeg vera farinn að segja eitthvað ósatt í áríðandi málefnum, en blessaður færðu sem beztar og gildastar ástæður fyrir aðfinningum þínum framvegis, því mjer fundust þær nokkuð ljettvægar í þetta skipti. Vertu nú sæll Sölmundur minn, og skrifaðu mjer sem fyrst aptur línu!

**Sv. Sk.**

---

## Brjef til landlæknis, dr. Hjaltalíns.

Hávelborni herra doktor!

Með þessu brjefi, er jeg set í Norðra, fylgir nú á prenti svar yðar til norðlenzku bændanna, og brjef það, er þjer skrifuðuð mjer um sama efni, og mæltust til að einnig yrði prentað. Þjer vitið að blað mitt er svo lítið, að mjer var ómögulegt að taka svo langa ritgjörð um svo sjerstaklegt efni inn í blaðið, enda var jeg ekki skyldur til þess. Þegar allir kaupendur Norðra fá svar yðar, þykist jeg hafa leyst hendur mínar.

Jeg sakna þess nú reyndar fyrir mitt leyti í svari yðar, sem mjer fannst helzt við þurfa, og það var, að þjer með vísindalegri röksemdafærslu hefðuð sýnt og sannað, að meðlækningar sjeu ónýtar, en þetta hafið þjer ekki gjört. Jeg hefi

enga ástæðu til að vera vilhallur í þessu máli, og jeg vildi einungis, að sannleikurinn yrði leiddur í ljós. Mjer virðist nú þetta svar yðar eins úr garði gjört og ritgjörð yðar í þjóðólfi og grein norðanbændanna. Ástæðurnar, sem færðar eru af beggja hálfu, eru ekki aðrar en þær, að þjer skírskotið til vitnisburða mótlækna og þess, er tímarit þeirra segja um meðlækningar, en norðanbændurnir tilfæra aptur á mót vitnisburði meðlækna og tímarita þeirra. Sjerhver maður, sem ekki er kunnugur sjálfu málefninu, verður nú að álíta þessa röksemdafærslu af beggja hálfu jafngilda, það er að segja: alþýða og allir, sem ekki bera skyn á læknisaðferð þessa hvora tveggja, verða jafnnærri eptir sem áður.

Í svari yðar virðist mjer, að þjer gjörið yður ofmikið far um að verja lærdómspróf yðar og doktorsnafnbót; slíks þurfti engan veginn. Rit yðar og lækningar voru þar nóg vörn. — þar sem að þjer í brjefinu til mín farið því fram, að meðlækningar sjeu eins mikil svik og ýmisleg hjátrúarlækning á miðöldunum, þá þarf slíkt sönnunar. Ekki virðist mjer heldur að mönnum — ekki einu sinni í yðar umdæmi — vilji skiljast það, sem þjer segið um lækningar meðlækna á barnaveikinni, því hingað koma þó ekki allfáir að sunnan, að leita hjálpar við henni hjá meðlæknum, og væri því öll þörf á, að þjer lýstuð enn nákvæmlega á prenti sjúkdómi þessum, af hverju hann kemur, hver ráð bezt eru við honum, og að hverju leyti meðöl meðlækna við honum sjeu háskasamleg. þetta ásamt heppilegum lækningum yðar á barnaveikinni, mundi eflaust ljúka upp augunum á alþýðu í þessu atriði. það sem þjer vitnið til orða dr. Schleisners um skaðsemi skottulækna, þá ætla jeg með vissu, að hann eigi þar ekki við meðlækna, því meðlækningar voru þá ekki farnar að tíðkast hjer til neinna muna. Hitt ætla jeg og nokkuð orðum aukið, að meðlæknar hjer gjöri sjer far um að níða mótlæknana, og ráði mönnum frá að brúka meðöl þeirra, því jeg hefi heyrt þá fúslega viðurkenna, að mótlæknar væru sjer fremri sem sáralæknar og í öðrum lækningum útvortis meinsemda.

þegar þjer farið því fram, að meðlækningar sjeu einlægt að útkulna og verða fyrirlitlegri, þá furðar oss, sem ekki þekkjum neitt til lækninga, á því, hve kappsamlega þjer reynið til að bæla þær niður; því vjer ímyndum oss, að sje það satt, þá muni þær heldur ekki eiga langan aldur hjá oss. Oss getur ekki skilizt að meðlækningar sjeu heilsu og lífi manna hættulegar, og hitt virðist miklu sennilegra, að meðöl þeirra sjeu kraptlaus; en sjeu þau kraptlaus, en þó ekki hættuleg, þá er bezt að lofa fólki að reka sig á kraptleysi þeirra; menn kaupa ekki lengi þau meðöl, sem það reynist um, að þau gjöri hvorki til nje frá.

það sem þjer talið um „lækningakrapt líkamans, er lækni fjölda sjúkdóma með tímanum, eins og af sjálfu sjer“; þá virðist mjer auðsætt, að þessi kraptur hjálpi yður og öðrum mótlæknum ekki síður en meðlæknunum, og verður þá engi sönnun dregin af því; ólíklegt virðist mjer að fjöldi manna hjer á landi hafi ímyndaða sjúkdóma; slíkt ætla jeg mjög ótítt hjá oss.

þessar fáu athugasemdir bið jeg yður að virða vel sökum fávizku minnar; og það er innileg bón mín, í mínu eigin, og — jeg er viss um — margra annara nafni, að þjer skrifið næst svo um meðlækningar, að þjer takið fyrir og rekið sjálfa lærdóma þeirra, og það svo alþýðlega, að mjer og mínum líkum geti skilizt það.

Að endingu lýsi jeg því yfir, bæði við yður og aðra, sem rita vilja með og mót í þessu málefni, að jeg tek ekki annað um það í Norðra en stuttar ritgjörðir, sem skýra sjálft málefnið með ástæðum, teknum af reglunum fyrir sjálfri læknisfræðinni hvorri tveggja, en ekki þeim ástæðum, sem einungis eru vitnisburðir útlendra manna, en ekki byggðar á eigin reynslu.

**Sv. Sk.**

---

## Um póstgöngur.

Eitt af hinum mest áríðandi málum, sem komu fyrir á hinu síðasta alþingi voru, var málið um fjölgun á póstgöngum hjer á landi, og ætlum vjer nú að fara fáum orðum um það mál, og meðferð alþingis á því.

það er orðið sannreynt á seinni tímum, að framför og menntun hverrar þjóðar er að miklu leyti komin undir því, hve hæglega hin andlegu og líkamlegu öfl þjóðarinnar geta náð saman; með öðrum orðum: eins nauðsynlegt og það er fyrir heilsu líkamans, að blóðið streymi reglulega í æðunum um hann, og að allir limirnir geti haft sína eðlilega hreifingu, eins nauðsynlegar eru samgöngur og samferðir fyrir þjóðlíkamann. Eins og verzlunin er nauðsynleg til þess, að mannkynið geti skipt þeim gæðum sem haganlegast með sjer,

er náttúran framleiðir, eins þurfa mennirnir að ná hver til annars til þess að geta miðlað hver öðrum andans ávöxtum. Þó fjærvistir skilji menn og þjóðir að samveru og samtali, þá geta þó brjef, blöð og bækur flutt hugsanir vorar og andlega iðju til annara og hið sama frá þeim til vor aptur. Eptir því sem samferðirnar eru minni, eptir því dregst hver maðurinn, hver þjóðin meir út úr hinni almennu framför heimsins.

Það er því ekkert, sem hinar menntuðu þjóðir nú á dögum kappkosta eins mikið og að hafa samgöngur innanlands og við útlendar þjóðir sem tíðastar og sem fljótastar. Öllu því sem hið sístarfandi hugvit mannsins hefur fundið, er fyrst og fremst beitt til að auka flýtinn. Gufuvagninn flýgur eptir járnbrautinni margar mílur á hverri klukkustundu og eptir rafsegulþráðunum þýtur frjettin land úr landi með flýti hugarins.

Það er nú hvorttveggja, að vjer Íslendingar höfum lítinn afla til að keppast á við aðrar þjóðir í framförum í þessu efni, enda eru viðburðirnir ærið litlir. Það er ekki að undra, þó útlenda menn furði á því, er þeir ferðast hjer á landi, að hvergi sjást mannaverk á vegum vorum. Það má svo að orði kveða, að hestarnir gjöri veginn hjer en mennirnir ekki, því óvíða er gatan annað en troðningur eptir hestana. — En um vegleysið þyrfti nú að tala sjer í lagi. — Þó að vegirnir sjeu nú eins og þeir eru, gætu þó samgöngurnar verið meiri og vissari en þær eru nú sem stendur. Stjórnin hefur nú reyndar verið farin að finna til þess, hversu póstferðum var hjer ábótavant, og hefur því leitað álits amtmanna um þetta mál fyrir nokkrum árum; en þó að amtmennirnir sjeu fyrir löngu búnir að senda stjórninni ýtarleg álitsskjöl um það — álitsskjal amtmannsins í Norður- og Austuramtinu er t. a. m. sent stjórninni 1852 —, þá liggur þó málið enn hjá stjórninni, án þess hún hafi borið það undir þau 2 alþingi, er síðan hafa verið haldin. Það var því ekki vanþörf á, að alþingi sendi konungi bænarskrá um þetta málefni, og vonandi er að stjórnin finni það skyldu sína að láta það nú ekki lengur liggja aðgjörðalaust, þó að hún ekki hafi orðið við þeirri bæn alþingis, að bæta póstgöngurnar til bráðabyrgða undir eins þetta yfirstandandi ár.

Oss virðist nú sem alþingi hafa ekki tekizt mjög hpurlega með þetta mál. Fyrst gekk allt með himnalagi. Sjálfur konungsfulltrúinn var því meðmæltur, og 5 manna nefnd var þegar kosin, og samdi hún langt og snjallt nefndarálit. Við hina fyrstu umræðu mótmælti enginn aðalmálefninu, og engin breytingaratriði komu fram. En í ályktunarumræðunni lá við sjálft, að öllu málinu væri hrundið. Hinn 3. konungkjörni þingmaður rjeði frá að senda nokkra bænarskrá, 5 bændurnir snjerust allt í einu móti því, og töluðu langt og breitt um óbærilegan kostnað, sem það mundi olla landinu; þó oss virðist, að nógur tími hefði verið að tala um kostnaðinn, þegar frumvarp var komið frá stjórninni. Þingmaður Strandasýslu hjelt að íslenzka stjórnardeildin mundi verða afarreið, ef póstagreiðslan væri lögð undir póststjórnina dönsku, en vjer ætlum, að hún mundi verða sárfegin; og við atkvæðagreiðsluna voru mörg merkisatriðin í nefndarálitinu felld.

Hið fyrsta atriði, er fellt var við atkvæðagreiðsluna var það, að aðalpóststjórn ríkisins skyldi framvegis taka að sjer öll póstmál á Íslandi. Vjer hefðum nú búizt við, að þingið mundi þakksamlega hafa fallizt á þessa uppástungu, því vjer álítum oss ekkert hagkvæmara eins og stendur, og vjer getum varla ímyndað oss annað en að þetta hefði fengizt. Það er einkar áríðandi fyrir stjórnina sjálfa að lag komist á þetta mál, og þó að vjer vitum til þess, að hinn fyrverandi fjárstjórnarráðgjafi Sponneck vildi ekki fallast á þá tilhögun, þar eð gjört var ráð fyrir að póststjórnin yrði að skjóta nokkru fje til að minnsta kosti fyrst um sinn, þá var þó allíklegt, að stjórnin hefði þó að lyktum fallizt á það, því póststjórnin sjálf var því ekki neitt fráhverf.

Þegar nú þessu atriði var hrundið hefðum vjer ekki búizt við, að hið annað atriði yrði einnig fellt, að stofna póststjóraembætti í Reykjavík, og þó varð þetta niðurstaðan. En það virðist þó auðsætt, þegar búið væri að fjölga póstgöngum, þó ekki yrði meira að gjört en farið er fram á í nefndarálitinu, og þegar afgreiðsla pósta til allra hluta landsins ætti að vera í Reykjavík, að það yrði ókljúfandi ábætir fyrir embættismenn, sem hafa eins mörg og margháttuð embættisstörf á hendi eins og stiptamtmaður og landfógeti, að gegna þar að auki þessum sjerstaklegu póststörfum, svo í lagi fari; en ekkert er þó eins áríðandi, ef að fullt gagn á að hafa af fjölgun póstanna, en að afgreiðsla þeirra í Reykjavík gangi fljótt og vel, og sá maður, sem slíkt annast, sje bæði fljótur og leikinn í störfum sínum; og ekki efumst vjer um, að slíkur póststjóri yrði settur í Reykjavík, ef póst-

mál vor yrðu lögð undir póststjórnina í Danmörku.

Hið 3. atriði er hrundið var við atkvæðagreiðsluna var, „að hæfilegt gjald væri lagt á brjef og sendingar sem fara með póstskipinu milli Íslands og Danmerkur“. Þar sem að hinar helstu mótbárur, er komu fram móti málefninu, voru þær, að fje mundi skorta til að koma málefni þessu í gott lag, þá gegnir það furðu, að atriði þetta skyldi falla, því óhætt ætlum vjer að fullyrða að gjaldast mundi að minnsta kosti 200 til 300 dala árlega til póstsjóðsins, ef þetta gjald væri lagt á, og vjer sjáum enga ástæðu til þess, að brjefskrifendur í Kaupmannahöfn og Reykjavík, sem mest nota póstskipsferðirnar, að minnsta kosti hvað sendingar snertir, hafi þetta hagræði fremur en aðrir, sem skrifast á í landinu sjálfu.

Þá var í 4. lagi fellt það atriði „að brjefburðarkaup yrði lækkað og látið vera jafnt, hvaðan sem er á landinu. Alstaðar, þar sem gott lag er komið á póstgöngur, er þessari reglu nú orðið fylgt, og reynslan hefur sýnt, að pósttekjurnar hafa aukizt við það en minnkað ekki; eins og oss líka virðist það ósanngjart, að þeir, sem brjef skrifa, þurfi að gjalda fjarlægðar sinnar frá aðalpóststjórn landsins.“

Oss virðist þannig, að þingið hafi með umræðum sínum og atkvæðagreiðslu fremur spillt áliti nefndarinnar en bætt það með að fella þessi fjögur atriði, og að mjög litlar og veikar ástæður hafi komið fram móti þeim af þingmanna hálfu. En það er vonandi að stjórnin taki þau aptur eða að minnsta kosti sum þeirra upp í frumvarp sitt, sem vonandi er að komi fyrir á næsta þingi að sumri.

(Framhaldið síðar).

---

# Frjettir.

## Innlendar.

Síðan í miðjum septembermánuði, er hretið gjörði um gangnadeytið, hefur allt hingað til (í lok októbermánaðar) haldizt hin blíðasta sumartíð, svo að vjer munum ekki annað eins veður hjer á Íslandi nokkurn tíma um sama leyti.

Þess er áður getið, að hákarlsaflinn hjer við Eyjafjörð hefði verið hinn bezti í sumar. Í einum hrepp, Grýtubakkahrepp austanfjarðar var haldið út 7 skipum til þessara veiða og fengu formenn skipanna:

Þeir bræður Guðmundur Jónasson á Steindyrum og Þorsteinn bróðir hans á Grýtubakka, er stýrðu hinu svonefnda Bræðraskipi fengu til hlutar . . . . . . . . . 592 kúta lifrar
Oddur Jónasson á Hvammi, er stýrði þiljuskipi . . . . . . . . 502 ——
Jón Loptsson í Grenivík . . . 361 ——
Jörundur Jónsson á Grímsnesi . 310 ——
Sigurður Jónsson á Látrum . . 232 ——
Jónas Jónsson á Látrum fjekk að sögn fram að slætti . . . . . . 160 ——
Magnús Eyjólfsson á Stærraárskógi 60 ——

Þegar nú gjört er ráð fyrir að 14 hlutir sjeu á skipi hverju eins og er hið algengasta, og hin áðurtalda hlutarhæð á hverju skipi er margfölduð með hlutatölunni 14, hafa komið á land í þessum hrepp 31,038 kútar lifrar.

Þegar nú gjört er að 40 kúta lifrar þurfi í lýsistunnuna, hafa af þessum 7 skipum fengizt 776 tunnur lýsis, og, ef að kaupmenn hafa gefið 27 rd. fyrir tunnuna, sem er næsta lítil borgun, eptir því sem annarstaðar hefur verið gefið, hafa þessi 7 skip fengið lýsi fyrir 20,952 rd., og er það fjarska mikið í einum hrepp.

Hákarlamenn þessir hafa þannig tapað 776 rd. á að selja lýsi sitt á Eyjafirði í staðinn fyrir á Siglufirði, og 1552 dölum meira hefðu þeir fengið fyrir það eptir verðlagi því sem á því var á Ísafirði, og ef verðið á því í Kaupm.h. hefur orðið 44 rd. fyrir tunnuna, geta þeir sjeð hvort ekki væri tilvinnandi fyrir þá að flytja sjálfir þessa vöru sína til útlanda.

Fjórða skipinu var hætt að halda úti seint í júnímánuði, en hinum 3. fyrstnefndu ekki fyr en seint í ágústmánuði.

Vjer vildum nú biðja þá, sem stunda hákarlaafla vestanfjarðar og annarstaðar hjer í sýslu að senda oss sem greinilegastar skýrslur um þetta efni, því það getur verið öðrum til upphvatningar, þegar menn sjá, hversu þetta hefur vel gengið, hjer við Eyjafjörð. Líka vildum vjer fá skýrslu um hið sama frá Ísafirði, og vjer skulum gjöra oss far um að fá rjett að vita, hvernig þessi vara vor selzt erlendis í vetur.

Þökk eiga bændur vorir skilið fyrir það, að þeir ljetu hjer sláturfje í kaupstað með minnsta móti í haust, en hitt virðist oss kátlegt, að sveitamenn vilja heldur selja kaupmönnum kjötið en bæjarbúum hjer, þó að þeir borgi það út í hönd, sama verð í peningum. Sumir hafa það orðtak, „að

þeir þurfi að hugsa um blessaðan kaupmanninn sinn“! Aptur má telja það kaupmönnum til lofs, að þeir eru hjálpsamir með að miðla bæjarbúum nokkru af kjötinu, án þess þeir hafi neinn hagnað af því.

---

### Við Langanes 22. ágúst 1854.

1. Mitt á bláum marar bylgjum staddur
mæni jeg ennú til þín, fóstra kær!
af forlaga kaldri skipun kvaddur
keppist þó að verða langtum fjær.
Hreint forgefins harma dylja reyni
þá hverfa lít frá tárum skyggðri sýn
þig, sem æ frá ungdóms blautu beini
barst og nærðir mig á skauti þín.

2. Þegar fagra fjallatinda þína
að fullu og öllu hylur bólginn sær,
glöggt eg finn að geðstillinning mína
gripið svo sem einhver leiðsla fær.
Spurning þessi vakir mjer á vörum,
von og ótti hvar um þrætast á:
Hvort mun samvist okkar fullt á förum?
og fyrsta og hinnsta skilnað hjer að sjá?

3. Hvurt mun jeg þar háir boðar freyða
hitta minn þann síðsta værðar stað,
eða dögum æfi minnar eyða
útlægur frá þjer, — jeg veit ei hvað —
Skal jeg eiga í skauti systra þinna
skila mínum síðstu leyfum hjer,
og svo djúpt í iðrum landa hinna
eptir bíða því, er síðar sker.

4. Nei, jeg vona, vil og bið jeg fái
að vitja þín, mitt kæra fósturland!
þótt jeg hinna sælukosti sjái
sinni mínu trauðla breytir grand.
þótt um tíma verði jeg fjærri vinum,
að vinsemd ekki — heldur bara' að sýn,
óska jeg þú, en ekki neitt af hinum,
allra síðast geymir beinin mín.

5. Bezta fóstra, mín og bræðra minna,
meðan tími lifir þinn og vor,
blessist fjöldinn fóstursona þinna,
farsæld auðgi sjerhvert þeirra spor!
Já, á meðan land og þjóðin lifir,
lifi tími heilla og farsældar!
Herrans blessun hvíli jafnan yfir
hverjum einum, sem að byggir þar!

6. Forlaganna stríður rennur straumur
með ströndum bröttum dimmrar hjervistar
og tíðum hvellur tilfellanna glaumur
tvístrar því, er áður saman var.
Mig í burtu bera vindar stríðir
á bylgjum ólgnum hverfur sjón inndæl.
Missi þínum mikið þó jeg kvíði,
jeg má ei bíða lengur, vertu sæl!

**J. M.**

---

## Mannalát.

29. ágúst næstliðinn andaðist einn hinn bezti og að maklegleikum vinsælasti höfðingi hjer á landi, Hannes Stephánsson Stephensen á Ytrahólmi, prófastur í Borgarfjarðarsýslu. Ættmenn hans margir hafa lengi verið prýði lands vors og miklir höfðingjar, en engan þeirra þekkjum vjer, sem var jafnvinsæll honum, og enginn hefur af þeirri ætt verið slíkur þjóðvinur sem hann. Hann var að allra rómi einhver hinn bezti og þjóðhollasti þingmaður, og gegndi forsetastörfum á alþingi, og fórst honum það allt ágætlega. Vjer vonum að Þjóðólfur, sem hægt á með að fá að vita þau atriði, er bæði snerta hið elskulega heimilislíf hans og hin opinberu störf, er hann tók þátt í, muni lýsa því betur en oss er unnt að sinni.

Hjer á Akureyri sálaðist fyrir skömmu Lárus timburmaður Jónsson, ungur maður og efnilegur.

(Aðsent)

### Um fráfall stúdents og alþingismanns Guttorms Vigfússonar á Arnheiðarstöðum, er andaðist hinn 14. september 1856,

Eptir allþunga banalegu nokkuð á þriðja misseri hvíldi guð hann nóttina milli hins 13. og 14. dags næstliðins septembermánaðar, 52. ára gamlan. Þenna síðastnefnda dag voru auk læknis G. Hjálmarssonar nokkrir fleiri helztu vinir hins framliðna, bæði innan- og utansveitar, nálægir á heimili hans; og flutti þá þegar fornvinur hans, prófastur sjera Stefán Árnason á Valþjófsstað til hans skilnaðarkveðju. Mánudaginn hinn 22. september var lík hans hafið út úr húsum þeim, þar sem guð hafði svo lengi og farsællega blessað hann, en líka látið hann kenna þar á raunum lífsins, einkum heilsubresti og ástvina missi, er hann — auk sinna sælu foreldra, hafði þar orðið að sjá á eptir, hálfvaxinni efnilegri dóttur og 2 ástríkum ektakvinnum, hverri eptir aðra — sjálfur áður fyrri legið fleiri stórlegur, varla úr rekkju risið eptir að seinni kona hans ljezt í fyrra sumar, er hán nokkru áð-

ur hafði alið honum son, 10. barn hans sem lifði hann. Húskveðjur fluttu prestarnir sjera Einar í Vallanesi og sjera Jón á Klifstað, og lýstu því í þeim gagnort og ástúðlega, hvílík eptirsjá þeim og öðrum nánum vinum og vandamönnum og kunningjum hins framliðna í honum væri, og hvílíka elsku og virðingu hann hefði af þeim öllum átt skilið fyrir þá uppbygginguu, gagn og gleði, er þeir svo títt hefðu uppskera mátt af hans hollum ráðum, vinsamlegum og skemmtilegum viðræðum og lofsverðum dyggðum og dugnaði. Næsta dag fór fram greptrunin að Valþjófsstað; og þótt mjög fáir væru tilkvaddir, voru við hana staddir víst stórthundrað manns. Flutti þá fyrstur í kirkjunni hjeraðsprófastur sjera Halldór Jónsson á Hofi aðallíkræðuna, er samfara andríkri málsnilld, bar með sjer hreinskilna sannleikselsku og viðkvæma hluttekning í missi syrgjandi ástmanna. Orð þau, er hann hann hafði valið sjer til heimfærslu við þetta tækifæri, standa í Davíðsálmi 116 v. 15. Eptir að prófasturinn hafði lokið ræðu sinni fyrir altarinu, gekk að líkkistunni sjera Hjálmar á Hallormsstað og las upp af blöðum það er hugur hans bauð; flutti svo presturinn sjera Einar Hjörleifsson aðra ræðu, og heimfærði í henni þau hin helgu orð: „að þeir færu hjeðan í friði, er hefðu fram gengið fyrir guðs augliti“.

Með þessum hætti var þá heiðruð útför þess manns, er sem alþingismaður var orðinn kunnugur um allt þetta land — mátti teljast með þess beztu og skylduræknustu húsfeðrum, og þess duglegustu og fyrirsjónarsömustu búmönnum —, og hverjum Múlaþing mun lengi eiga mikið að þakka sem forseta þeirra búbótafjelaga, er hann þar var frumkvöðull að; enda hafði hann af guði þegið loflegt atgjörvi sálar og líkama, var einarður í að bera fram vel meintar hugsanir sínar við hvern sem í hlut átti, og honum yfirhöfuð mjög tamt og lagið að láta í ljósi öðrum til uppbyggingar sitt trúrækna hugarþel.

---

## Um uppeldi barna.

(Framhald). Sum börn eru fædd með tunguband, það er að skilja, að tungan er of föst í neðri góminum, svo að barnið hefur ekki nóg afl til að sjúga. Ef ekki er gjört við því, getur það seinna hindrað málfærið. Frá þessu skal segja lækninum og á hann hægt með að losa tunguhandið.

Að börn stama eða eru blest, kemur optast af illum ávana, sem aðgætin barnfóstra á hægt með að venja af. Frá því barnið fer fyrst að tala skal venja það á að tala hægt og rjett.

Ef að sjón barnsins er veik, er því opt hætt við, að verða rangeygt. Þegar ljósið fellur opt á það öðru megin, eða ef að bandhnútur er um ennið nær öðru auganu, verður því hætt við að renna augunum rangt, og verður því að varast allt, er slíkir gallar geta leitt af. Það verður eins að kenna barninu að horfa eins og að tala. Það verður að halda því laglega móti birtunni, og þeim hlutum sem það er látið horfa á, og halda þeim mátulega langt frá barninu, svo að það verði að neyta jafnt beggja augnanna. Menn eru sjaldan rangeygðir af náttúrunni, heldur kemur þess konar næstum ætíð af skeytingarlausri meðferð.

### Um siðferðislegt uppeldi barna.

Vjer höfum sagt að hin fyrsta skylda móðurinnar væri, að annast um heilbrigði barnsins; hin næsta skylda hennar er að ala það svo upp, að það verði bliðlynt og ástúðlegt, að tilhneigingar þess og venjur verði góðar; þetta innibindst í hinu siðferðislega uppeldi. Það er mjög áríðandi að móðirin eða barnfóstran hafi gát á þeim reglum er til þessa eru nauðsynlegar.

Menn verða að gaumgæfa það nákvæmlega, að maðurinn hefur undir eins og fer að brydda á skynseminni, ýmsar tilhneigingar og eptirlanganir, sumar, er fóstran á að uppörfa og gjöra barninu að vana, og sumar, er þarf að bæla niður, barninu og þeim, sem ásamt því lifa í heiminum, til góðs. Hið síðartalda kemur optast fyr í ljós. Það kemur optast fyrst í ljós hjá barninu að berja þann, sem hjá því er, og taka af honum, það er óbilgjarnt, fíkið, grimmt og ákaft, og allt þetta kemur í ljós fyr en það fer að sýna hinar betri tilfinningar, nema, ef til vill, að það er gott við þá, sem það er vant að þiggja velgjörðir hjá. Hið fyrsta, sem að þarf að gæta í uppeldinu, er að eyða þess um vondu tilhneigingum og brjóta þær undir vald venjunnar, en aptur á mót að glæða og gjöra því að vana hið gagnstæða, blíðlyndi, rjettlæti og sjálfsafneitun. Foreldrar sem annt er um þetta atriði, ættu kostgæfilega að varast að fá ekki börn sín heimskum og óreglusömum hjúum til meðferðar, Einnar viku röng meðferð á barninu hjá þess konar hjúum, getur ónýtt alla kostgæfni móðurinnar, og barnið getur fengið þá skaplöstu, sem allt uppeldi seinni áranna getur ekki burt numið,

Mæður og barnfóstrur skulu gaumgæfa þau atriði, er nú skulu talin:

Barnið hljóðar venjulega til þess að fá það, sem það vill; því skal ekki komið á þennan illa vana, með því að láta ætíð undan því; ef það er gjört, verður barnið kenjótt og keipótt; og spillir það seinna meir siðferði barnsins.

Með þolgæði og stillingu, með blíðlegu viðmóti, augnaráði og orðum á að láta barnið smám saman komast að raun um, að það á ekki að fara eptir hverri hinni fyrstu tilhneiging sinni, og að það sje nauðsynlegt sjálfu því til góðs, að það geti stjórnað sjer, og þetta getur jafnvel barni skilizt.

Hvort sem skapbrestir barnsins eru að erfðum teknir eða komnir fyrir ávana, skal bera þá með umburðarlyndi og allra bragða leitað, nema hörku, til að venja þá af. Það er hin mesta villa, þegar foreldrarnir reyna til að stjórna

þeir þurfi að hugsa um blessaðan kaupmanninn sinn“! Aptur má telja það kaupmönnum til lofs, að þeir eru hjálpsamir með að miðla bæjarbúum nokkru af kjötinu, án þess þeir hafi neinn hagnað af því.

---

### Við Langanes 22. ágúst 1854.

1. Mitt á bláum marar bylgjum staddur
mæni jeg ennú til þín, fóstra kær!
af forlaga kaldri skipun kvaddur
keppist þó að verða langtum fjær.
Hreint forgefins harma dylja reyni
þá hverfa lít frá tárum skyggðri sýn
þig, sem æ frá ungdóms blautu beini
barst og nærðir mig á skauti þín.

2. Þegar fagra fjallatinda þína
að fullu og öllu hylur bólginn sær,
glöggt eg finn að geðstillinning mína
gripið svo sem einhver leiðsla fær.
Spurning þessi vakir mjer á vörum,
von og ótti hvar um þrætast á:
Hvort mun samvist okkar fullt á förum?
og fyrsta og hinnsta skilnað hjer að sjá?

3. Hvurt mun jeg þar háir boðar freyða
hitta minn þann síðsta værðar stað,
eða dögum æfi minnar eyða
útlægur frá þjer, — jeg veit ei hvað —
Skal jeg eiga í skauti systra þinna
skila mínum síðstu leyfum hjer,
og svo djúpt í iðrum landa hinna
eptir bíða því, er síðar sker.

4. Nei, jeg vona, vil og bið jeg fái
að vitja þín, mitt kæra fósturland!
þótt jeg hinna sælukosti sjái
sinni mínu trauðla breytir grand.
þótt um tíma verði jeg fjærri vinum,
að vinsemd ekki — heldur bara' að sýn,
óska jeg þú, en ekki neitt af hinum,
allra síðast geymir beinin mín.

5. Bezta fóstra, mín og bræðra minna,
meðan tími lifir þinn og vor,
blessist fjöldinn fóstursona þinna,
farsæld auðgi sjerhvert þeirra spor!
Já, á meðan land og þjóðin lifir,
lifi tími heilla og farsældar!
Herrans blessun hvíli jafnan yfir
hverjum einum, sem að byggir þar!

6. Forlaganna stríður rennur straumur
með ströndum bröttum dimmrar þjervistar
og tíðum hvellur tilfellanna glaumur
tvístrar því, er áður saman var.
Mig í burtu bera vindar stríðir
á bylgjum ólgnum hverfur sjón inndæl.
Missi þínum mikið þó jeg kvíði,
jeg má ei bíða lengur, vertu sæl!

**J. M.**

---

## Mannalát.

29. ágúst næstliðinn andaðist einn hinn bezti og að makleglcikum vinsælasti höfðingi hjer á landi, Hannes Stephánsson Stephensen á Ytrahólmi, prófafstur í Borgarfjarðarsýslu. Ættmenn hans margir hafa lengi verið prýði lands vors og miklir höfðingjar, en engan þeirra þekkjum vjer, sem var jafnvinsæll honum, og enginn hefur af þeirri ætt verið slíkur þjóðvinur sem hann. Hann var að allra rómi einhver hinn bezti og þjóðhollasti þingmaður, og gegndi forsetastörfum á alþingi, og fórst honum það allt ágætlega. Vjer vonum að Þjóðólfur, sem hægt á með að fá að vita þau atriði, er bæði snerta hið elskulega heimilislíf hans og hin opinberu störf, er hann tók þátt í, muni lýsa því betur en oss er unnt að sinni.

Hjer á Akureyri sálaðist fyrir skömmu Lárus timburmaður Jónsson, ungur maður og efnilegur.

(Aðsent)

### Um fráfall stúdents og alþingismanns Guttorms Vigfússonar á Arnheiðarstöðum, er andaðist hinn 14. september 1856,

Eptir allþunga banalegu nokkuð á þriðja misseri hvíldi guð hann nóttina milli hins 13. og 14. dags næstliðins septembermánaðar, 52. ára gamlan. Þenna síðastnefnda dag voru auk læknis G. Hjálmarssonar nokkrir fleiri helztu vinir hins framliðna, bæði innan- og utansveitar, nálægir á heimili hans; og flutti þá þegar fornvinur hans, prófastur sjera Stefán Árnason á Valþjófsstað til hans skilnaðarkveðju. Mánudaginn hinn 22. september var lík hans hafið út úr húsum þeim, þar sem guð hafði svo lengi og farsællega blessað hann, en líka látið hann kenna þar á raunum lífsins, einkum heilsubresti og ástvina missi, er hann — auk sinna sælu foreldra, hafði þar orðið að sjá á eptir, hálfvaxinni efnilegri dóttur og 2 ástríkum ektakvinnum, hverri eptir aðra — sjálfur áður fyrri legið fleiri stórlegur, varla úr rekkju risið eptir að seinni kona hans ljezt í fyrra sumar, er hún nokkru áð-

ur hafði alið honum son, 10. barn hans sem lifði hann. Húskveðjur fluttu prestarnir sjera Einar í Vallanesi og sjera Jón á Klifstað, og lýstu því í þeim gagnort og ástúðlega, hvílík eptirsjá þeim og öðrum nánum vinum og vandamönnum og kunningjum hins framliðna í honum væri, og hvílíka elsku og virðingu hann hefði af þeim öllum átt skilið fyrir þá uppbygginguna, gagn og gleði, er þeir svo títt hefðu uppskera mátt af hans hollum ráðum, vinsamlegum og skemmtilegum viðræðum og lofsverðum dyggðum og dugnaði. Næsta dag fór fram greptrunin að Valþjófsstað; og þótt mjög fáir væru tilkvaddir, voru við hana staddir víst stórthundrað manns. Flutti þá fyrstur í kirkjunni hjeraðsprófastur sjera Halldór Jónsson á Hofi aðallíkræðuna, er samfara andríkri málsnilld, bar með sjer hreinskilna sannleikselsku og viðkvæma hluttekning í missi syrgjandi ástmanna. Orð þau, er hann hann hafði valið sjer til heimfærslu við þetta tækifæri, standa í Davíðsálmi 116 v. 15. Eptir að prófasturinn hafði lokið ræðu sinni fyrir altarinu, gekk að líkkistunni sjera Hjálmar á Hallormsstað og las upp af blöðum það er hugur hans bauð; flutti svo presturinn sjera Einar Hjörleifsson aðra ræðu, og heimfærði í henni þau hin helgu orð: „að þeir færu hjeðan í friði, er hefðu fram gengið fyrir guðs augliti“.

Með þessum hætti var þá heiðruð útför þess manns, er sem alþingismaður var orðinn kunnugur um allt þetta land — mátti teljast með þess beztu og skylduræknustu húsfeðrum, og þess duglegustu og fyrirsjónarsömustu búmönnum —, og hverjum Múlaþing mun lengi eiga mikið að þakka sem forseta þeirra búbótafjelaga, er hann þar var frumkvöðull að; enda hafði hann af guði þegið loflegt atgjörvi sálar og líkama, var einarður í að bera fram vel meintar hugsanir sínar við hvern sem í hlut átti, og honum yfirhöfuð mjög tamt og lagið að láta í ljósi öðrum til uppbyggingar sitt trúrækna hugarþel.

---

## Um uppeldi barna.

(Framhald). Sum börn eru fædd með tunguhandi, það er að skilja, að tungan er of föst í neðri góminum, svo að barnið hefur ekki nóg afl til að sjúga. Ef ekki er gjört við því, getur það seinna hindrað málfærið. Frá þessu skal segja lækninum og á hann hægt með að losa tunguhandið.

Að börn stama eða eru blest, kemur optast af illum ávana, sem aðgætin barnfóstra á hægt með að venja af. Frá því barnið fer fyrst að tala skal venja það á að tala hægt og rjett.

Ef að sjón barnsins er veik, er því opt hætt við, að verða rangeygt. Þegar ljósið fellur opt á það öðru megin, eða ef að bandhnútur er um ennið nær öðru auganu, verður því hætt við að renna augunum rangt, og verður því að varast allt, er slíkir gallar geta leitt af. Það verður eins að kenna barninu að horfa eins og að tala. Það verður að halda því laglega móti birtunni, og þeim hlutum sem það er látið horfa á, og halda þeim mátulega langt frá barninu, svo að það verði að neyta jafnt beggja augnanna. Menn eru sjaldan rangeygðir af náttúrunni, heldur kemur þess konar næstum ætíð af skeytingarlausri meðferð.

### Um siðferðislegt uppeldi barna.

Vjer höfum sagt að hin fyrsta skylda móðurinnar væri, að annast um heilbrigði barnsins; hin næsta skylda hennar er að ala það svo upp, að það verði hlýðlynt og ástúðlegt, að tilhneigingar þess og venjur verði góðar; þetta innibindst í hinu siðferðislega uppeldi. Það er mjög áríðandi að móðirin eða barnfóstran hafi gát á þeim reglum er til þessa eru nauðsynlegar.

Menn verða að gaumgæfa það nákvæmlega, að maðurinn hefur undir eins og fer að brydda á skynseminni, ýmsar tilhneigingar og eptirlanganir, sumar, er fóstran á að uppörfa og gjöra barninu að vana, og sumar, er þarf að bæla niður, barninu og þeim, sem ásamt því lifa í heiminum, til góðs. Hið síðartalda kemur optast fyr í ljós. Það kemur optast fyrst í ljós hjá barninu að berja þann, sem hjá því er, og taka af honum, það er óbilgjarnt, fíkið, grimmt og ákaft, og allt þetta kemur í ljós fyr en það fer að sýna hinar betri tilfinningar, nema, ef til vill, að það er gott við þá, sem það er vant að þiggja velgjörðir hjá. Hið fyrsta, sem að þarf að gæta í uppeldinu, er að eyða þess um vondu tilhneigingum og brjóta þær undir vald venjunnar, en aptur á mót að glæða og gjöra því að vana hið gagnstæða, blíðlyndi, rjettlæti og sjálfsafneitun. Foreldrar sem annt er um þetta atriði, ættu kostgæfilega að varast að fá ekki börn sín heimskum og óreglusömum hjúum til meðferðar, Einnar viku röng meðferð á barninu hjá þess konar hjúum, getur ónýtt alla kostgæfni móðurinnar, og barnið getur fengið þá skaplöstu, sem allt uppeldi seinni áranna getur ekki burt numið,

Mæður og barnfóstrur skulu gaumgæfa þau atriði, er nú skulu talin:

Barnið hljóðar venjulega til þess að fá það, sem það vill; því skal ekki komið á þennan illa vana, með því að láta ætíð undan því; ef það er gjört, verður barnið kenjótt og keipótt; og spillir það seinna meir siðferði barnsins.

Með þolgæði og stillingu, með blíðlegu viðmóti, augnaráði og orðum á að láta barnið smám saman komast að raun um, að það á ekki að fara eptir hverri hinni fyrstu tilhneiging sinni, og að það sje nauðsynlegt sjálfu því til góðs, að það geti stjórnað sjer, og þetta getur jafnvel barni skilizt.

Hvort sem skapbrestir barnsins eru að erfðum teknir eða komnir fyrir ávana, skal bera þá með umburðarlyndi og allra bragða leitað, nema hörku, til að venja þá af. Það er hin mesta villa, þegar foreldrarnir reyna til að stjórna

börnunum með ótta, með hótunum um refsingu, höggum, hörðum ávítum eða reiðisvip. Barnið ætti aldrei að heyra hart orð og aldrei vera barið. Það á að stjórna því með ást en ekki með ótta, með góðu eptirdæmi og hægum áminningum, en ekki með hörðum orðum og fyrirskipunum. Sumir foreldrar segja, ef til vill, að þeir geti ekki stjórnað börnum sínum nema með því að hegna þeim; en þetta er sjálfum þeim að kenna, því fyrst gjöra þau börnin óþæg með því, að hnekkja ekki með blíðu óhlýðni barnsins, þegar hún fer fyrst að koma í ljós, og síðan refsa þau þeim fyrir, að búið er að gjöra þau óþæg.

Ástin á því að vera það, sem hvetur til og stýrir barnauppeldinu. Þegar ástin ræður hjá foreldrinu, mun hún einnig hafa áhrif á hugarfar barnsins, og brýtur hún niður alla sjálfselsku. Þó að lunderni manna sje ólíkt, þó að gáfurnar sjeu misjafnar, og hagur manna ýmislegur, þá er hin mikla skylda manna í lífinu hin sama — sú að efla heill og hagsæld meðbræðra vorra. Það eru fáir brestir, og, ef til vill, enginn, sem ekki hefur áhrif á velfarnað annara eins og sjálfra vor; hver sem bætir sjálfan sig, bætir því mannfjelagið, og hver og ein móðir, sem upp elur barn sitt vel, hjálpar áfram hinum almennu framförum til fullkomunnar.

(Framhaldið síðar).

---

# Auglýsingar.

Af því að jeg undirskrifaður ferðast nú með briggskipinu Herthu til Kaupmannahafnar og býst við að verða þar í vetur, kveð jeg hjermeð alla skiptavini mína og húsbónda míns, herra Gudmanns, og vona að sjá þá aptur að vori komanda, og vona jeg þeir allir haldi áfram að verzla við hins áðurnefnda herra kaupmanns verzlun hjer á staðnum.

Yðar velviljaður kunningi

**H. Johnson.**

Til minnisvarða yfir læknir sál. E. Johnsen hafa enn fremur gefið: sýslumaður herra Jóhannes Guðmundsson 5 rd. Læknir herra J. Skaptason 10 rd.. Sjera Kristján Þorsteinsson á Völlum 2 rd. Herra S...... 10 rd., sem samlagt við áðurkomna 163 rd., er alls 190 rd.

Undirsrifaður hefur nýlega látið prenta lítið rit, sem kostar 20 sk. í kápu með þessum titli: **Afmælisdagur í 12 stundum.** Athugagreinar á afmælisdegi manns. Það er kafli úr dönsku riti, sem heita mundi á voru máli Leiðtogi manns í lífinu (Veilederen paa Livets Bane). Líki mönnum þessi kafli ritsins, skulu þeir fá það sem eptir er af því í bækling, sem jeg er enn eigi búinn að skíra. Það sje sagt „Leiðtoganum“ til gildis, að Fogtmann byskup á Fjóni hefur ritað formála fyrir honum, og kveður hann svo að orði á einum stað „það eru kjör og kostir þessar bókar, að hún inniheldur skipulegt safn af fögrum og sönnum hugsunum, af góðum og heilsusamlegum lærdómum, sem geta verið til leiðarvísis og uppörfunar og huggunar fyrir hvern þann, sem svo er að sjer, að lesið getur góða bók“.

Akureyri fyrsta vetrardag 1856.

**Svb. Hallgrímsson.**

Með þessu blaði Norðra fylgir ókeypis til áskrifenda hans „Svar til Homöopathisku bændanna á Norðurlandi“ eptir dr. Hjaltalín.

Akureyri 30. október 1856.

**Sv. Sk.**

Hjer frá prentsmiðjunni er nýkomin út ritlingur, sem nefnist „Hjaltalín og Homöopatharnir“, ein örk í tólfblaðabroti, og fæst hún hjá undirskrifuðum til kaups innfest fyrir 8 skildinga.

Akureyri 30. október 1856.

**Sv. Sk.**

Í prentsmiðjunni á Akureyri fæst til kaups: **„Nýtt STÖFUNARKVER handa börnum“**, 3 arkir, fyrir **16** sk. í stífu bandi. Hver, sem kaupir **6** og stendur skil á andvirðinu, fær hið **7.** í kaupbætir.

Akureyri 31. október 1856.

**I. Ingimundarson.**

Jeg undirskrifaður gjöri það almenningi augljóst, að fjármark mitt er „Sneitt framan hægra, og biti aptan, en stýft vinstra og biti framan“, svo menn eigi glæpist á að trúa því, sem hin nýprentaða markaskrá fyrir Eyjafjarðarsýslu segir í því tilliti.

Hvanneyri 1. október 1856.

**Jón Sveinsson.**

---

Ríkur maður nokkur enskur hjet þeim manni 400 dala launum árlega alla æfi sína, er vildi lifa 10 ár í jarðhúsi og sjá enga lifandi skepnu, og láta hár sitt, skegg og neglur vaxa allan þenna tíma. Hann ljet nú búa til jarðhús og flytja allt þangað, er maður gat óskað sjer. Þar voru böð, hljóðfæri, bókasafn og beztu drykkir og kræsingar. Þetta var auglýst í enskum blöðum og margir komu, er kváðust fúsir til þessa. Sá sem kosinn var, er nú búinn að vera 8 ár í jarðhúsi þessu.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. | Nóvember. | 21.—22.

### Fjárkláðapestin.

Um fjárkláðapestina, sem nú gengur um mestan hluta Suðurlands og nokkurn hlut Vesturlands höfum vjer fengið þessar frjettir. Í vor eð var fór að brydda á fjárkláða í Miðdal í Mosfellssveit, og skipaði stiptamtmaður landlækni vorum að skoða hann. Skoðun þessi fór fram 6. maí, og voru þá, eptir því sem næst varð komizt, 20 kindur með kláða á þessum bæ. Landlæknirinn rjeði til að skilja þær undir eins frá, halda þeim út af fyri sig, og bera í þær kláðasmyrzli unz kláðinn væri horfinn. Daginn eptir skrifaði hann stiptamtmanni þess efnis, að þó hann gæti ekki álitið kláða þenna hættulegan, þá væri hann þó varúðarverður. Hann rjeði til að setja niður nefnd manna, er skyldi sjá um, að kláðinn væri með öllu horfinn áður en rekið væri á fjall. Stiptamtmaður breytti þessu á þann hátt, að hann skipaði hreppstjóranum í Mosfellssveit að hafa gætur á þessum fjárkláða og skýra síðan frá hvernig gengi. Snemma í júlímánuði skrifaði nefndur hreppstjóri landlækninum, að kláðinn væri horfinn, og ný ull komin á kindurnar. Þegar leið á sumarið reyndist þetta öðruvísi, því þá var bæði kláði kominn í búsmalann í Miðdal, og líka sást kláði á kindum, sem komu af afrjett. Um rjettirnar kom þetta allt betur í ljós, og skrifaði landlæknirinn þá aptur stiptamtmanni, að bráðasta nauðsyn væri að lækna þetta kláðafje sem fljótast, og rjeði enn til að setja niður nefnd til að annast um, að því yrði framgengt. En stiptamtið skipaði þá að skera niður allt kláðafje. Þetta eru nú aðgjörðir yfirvaldanna syðra. En fremur má geta þess, að landlæknirinn og Teitur Finnbogason dýralæknir hafa gefið út „Stuttan leiðarvísi til að lækna fjárkláða“.

Þegar einhver þau bágindi bera að höndum meðal siðaðra þjóða, er ógna öllum landsbúum eða miklum hluta þeirra með atvinnubresti, er það hin fyrsta skylda hverrar góðrar stjórnar að reyna til að koma í veg fyrir slíkt og ráða bót á því. Þannig hafa Englendingar, þegar verzlunarkeppnin eða önnur tilefni hafa ollað því, að einhverjar iðnaðarvörur þeirra hafa lækkað svo í verði, að þeir, er að þeim unnu, gátu ekki haft ofan af fyrir sjer með athöfn sinni, sent verzlunarflota sína um allan heim til að leita nýrra markaða fyrir vöruna, og koma henni þannig aptur í sitt náttúrlega verð; þannig hafa Frakkar, þegar uppskeran hefur brugðizt heima hjá þeim, numið burt öll bönd á kornaðflutningum, og uppörfað til þeirra á allar lundir, og frelsað landið þannig frá hungri og mannfalli. Þetta eiga stjórnirnar að gjöra, og þetta láta þær sjer einkar umhugað um.

Stjórn vor Íslendinga er nú því miður svo fjarlæg oss, að vjer náum ekki til hennar, þegar skjótra úrræða þarf við, og er þá ekki ætíð sjálf sem fljótust til úrræðanna. En þegar svona er nú ástatt, er því meiri nauðsyn á, að þeir, sem völdin hafa á hendi hjer í landi, grípi fljótt og vel í strenginn, og velji þau ráðin, sem hollust eru fyrir land og lýð.

Aðalatvinnuvegur allra Íslendinga sem í sveitum búa er fjárræktin, og mikill fjöldi af þeim, sem við sjó búa, hafa landbúnaðinn og fjárræktina sjer og sínum til uppeldis samhliða sjóarútveginum. Sauðfjenaðurinn er mesta og bezta eign Íslendinga. Af honum fæðast þeir, og af honum klæðast þeir. Það er því ekkert sem hnekkir framförum vorum í góðum búnaði og velmegun eins og fjárpestin, ekkert sem eins vafalaust leiðir af sjer örbyrgð og mannfelli eins og ef skeytingarleysi og sjerhlífni fá ollað því, að þessi drepandi óvættur útbreiðist á landi voru, og ekkert stjórnleysi og ráðleysi er eins hryggilegt og það að reyna ekki til að drepa hann í fæðingunni.

Fjárkláðapestin sem gekk hjer á landi frá því fyrir 1769 þangað til 1779 var búinn að ganga á 4. ár áður en kom út tilskipunin af 12. maí

1772, sem fyrirskipaði hið einasta meðal, sem að vorri hyggju dugir við slíkri næmri pest, og það var að drepa niður allt fjeð sem veikt var orðið, og þó varð þessi pest ekki upprætt fyr en 7 árum seinna, þegar búið var að drepa niður mesta fjölda fjár í miklum hlut landsins.

Vjer getum nú ekki sagt, að hve miklu leyti hægra kann að vera að lækna þessa pest en hina fyrri, en þó að fjenaðurinn yrði læknaður, þykir oss allólíklegt, að það fje verði nokkurn tíma aptur jafngott, eins og einnig virðist líklegt, að lömb þau, sem kæmu undan fje, er hefði haft slíka veiki, yrðu að öllu leyti lakari og óhraustari, svo að fjárbragðið, ef til vill, á öllu landinu spilltist.

Þó að vjer fúslega viðurkennum, að landlæknir vor hafi gjört það sem í hans valdi stóð með því að reyna til að kenna mönnum þá aðferð, er hann ætlar duga muni til að lækna pest þessa, og að hann hafi gjört það eptir beztu samvizku, þá vildum vjer óska, að hann hefði ekkert skrifað og ekkert ráðlagt í þessu efni, og að stiptamtmaður hefði borið betri umbyggju fyrir þessu máli en hann hefur gjört; því ekki verður því neitað að afleiðingarnar eru mjög sorglegar af ráðstöfunum þessum, og að það er þeim ráðstöfunum að kenna, að fje er nú orðið veikt meira og minna um allt Suðurland; því líkindi eru til að pestin hefði ekki náð að útbreiðast, ef drepið hefði verið undir eins í vor það fje sem veikt var orðið í Miðdal, og svo alstaðar þar sem á þessari drepsótt hefði borið, og skaðinn því minni sem fyr hefði verið byrjað að skera.

Það var nú varla von, að vjer Norðlendingar mundum sleppa við þessa pest, enda hefur spurzt, að hún sje nú komin í Hrútafjörð og Miðfjörð. Sýslumaðurinn í Húnavatnssýslu hefur nú reyndar gripið til skjótra ráða, og skipað að skera hið veika fje niður, og hefur hann síðan eptir skipun amtmanns sett nefndir í hverjum hrepp til að skoða fjeð iðuglega, og láta drepa allt sem sýkist, og Húnvetningar hafa tekið vel undir það, og er vonandi að þar verði höfð sú árvekni sem hægt er til að stöðva pestina, og vera má að þetta dugi ef veikin hefur ekki náð mikilli útbreiðslu.

Álit vort um þetta mál er það, að bezta ráðið og hið einasta, er dugi, sje að strádrepa niður allan fjenað þar sem hún byrjar; og þó að t. a. m. þyrfti að drepa allan fjenað í þremur hreppum þá er slíkt ekki áhorfsmál, ef maður getur með því frelsað heilar sýslur; og jeg efast ekki um að fjöldi manna hjer í norður og austursýslum mundi verða til að hjálpa þeim með kindur, sem fyrir því yrðu að þurfa að skera niður. Það er einkar áríðandi, að menn varist sem mest allar samgöngur milli fjár úr þeim sveitum, sem pestin er farin að ganga í, og þeim sem enn eru lausar við hana, og ættu nefndirnar, sem settar eru til að skoða fjeð, líka að hafa vakandi auga á því, að þessa væri gætt sem bezt auðið er.

Vjer vonum, að Norðlendingar láti sjer nú víti Sunnlendinga í þessu efni að varnaði verða, og að engi sjerhlífni komi mönnum til að vanrækja boð yfivaldanna um fjárskurðinn, og að gott og fast samheldi hafi þann árangur, að fjárpestin nái ekki að útbreiðast víða hjer hjá oss

---

## Um fiskiverkunarpláts á Dýrafirði.

Frakkar hafa nú seinustu árin gjört ýmsar tilraunir til að fá að eignast lóð á Dýrafirði, byggja þar hús og setja þar fólk til að verka saltfisk. Þeir halda út fjölda fiskiskipa hjer við land árlega, en neyðast til að salta hann jafnóðum niður, og geta ekki þurrkað hann fyr en þeir koma heim til Frakklands. Það má geta nærri, eptir allt sem Þjóðólfur er búinn að segja oss um dýrð þá og vegsemd, er Napóleon sýndi háum og lágum syðra, að sumir hafi tekið það svo, að hann hefði í hyggju að koma sjer í mjúkinn við landsmenn, svo að þeir yrðu fúsari til vináttu við Frakka, og stæðu ekki móti þessu fyrirtæki þeirra, og þetta er nú alllíklegt. En sumir hafa leitt meira af þessari ferð hans. Í brjefum, sem skrifuð eru úr Reykjavík, og standa í danska blaðinu Fædrelandet, eru settar fram allrahanda getgátur um ferð Napóleons, og látið í veðri vaka að Frakkar muni ekki einungis ætla að þurrka fisk sinn á Dýrafirði, heldur muni þeir og ætla að stofna þar herskipahöfn, og fá Ísland hjá dönsku stjórninni o. s. frv. — Þessi hlæilegu brjef hafa nú gefið tilefni til þess, að herra Þorleifur Guðmundsson Repp kallaði Íslendinga, sem í Kaupmannahöfn voru, til fundar til þess að semja bænarskrá, er senda átti hingað og safna undirskriptum undir, og leggja svo fyrir konung til að afstýra þessum háska.

Uppástunga herra Repps fór fram á, að biðja konung og dönsku stjórnina að banna öllum framandi þjóðum að stofna slík fiskiverkunarpláts, sem það er Frakkar hafa óskað að stofna á Dýrafirði;

að stjórnin bannaði öllum Íslendingum að selja jarðir sínar frönsku stjórninni eða hennar erindisrekum, og að hún afhendi þeim ekki Ísland, hvað sem í boði sje, Íslendingar ytra felldu nú uppástungu herra Repps á fundi, svo það er vonandi, að þessi hlæilega bænarskrá komist ekki lengra.

það var einhver hin óskanlegasta og eðlilegasta afleiðing frjálsu verzlunarinnar, að útlendar þjóðir, sem í svo mörg ár hafa sent hingað undir land fjölda skipa til fiskiveiða, notuðu sjer frjálsu verzlunina til að setjast hjer að, taka þátt í verzluninni hjer, og bæta úr þeim óhag, er þeir hafa haft af því að vera útilokaðir frá að mega þurrka afla sinn á landinu, og vjer þekkjum engi lög, er banni þeim að kaupa eignir af Íslendingum, ef þeir vilja selja, og að setja sig niður sem borgarar í landi voru, hvort sem þeir starfa að kaupskap eða fiskiveiðum. það er auðvitað, að vjer getum lært mikið af þessum útlendu þjóðum, í dugnaði og kunnáttu í ýmsum greinum, og teljum vjer það ekki með skaða vorum.

það einasta, er stjórnin virðist þurfa í þessu efni, er að leyfa Frökkum að sigla beinlínis til Dýrafjarðar, án þess að þeir þurfi að sigla á hina 6 staði, sem getur í verzlunarlögunum, og að hún gjöri það að skilyrði, hvort sem Frakkar setjast þar niður margir eða fáir, að þeir gangi undir landslög. Ef að margir Frakkar settust þar að, þyrfti reyndar að styrkja lögreglustjórnina, svo að ekki þyrfti að óttast, að þeir gjörðu nokkrar óspektir, því eptir því sem sagan í þjóðólfi um slaginn við Bjarna segir, virðist hætt við, að kotbændum þætti þeir ríkir í hjeraði. Kostnað allan, sem þyrfti til að halda lögreglu við, ættu þeir sjálfir að bera.

Vjer höfum minnst á þetta málefni, því að vjer vildum ekki að það sýndist, sem vjer Íslendar værum svo hræddir við hinar eðlilegu afleiðingar verzlunarfrelsisins, að vjer færum að biðja stjórnina að bægja útlendum þjóðum frá landinu, því henni mætti virðast þess konar bæn undarleg, þar sem allir Íslendingar í svo langan tíma hafa samhuga beiðst eptir verzlunarfrelsinu, og ef hún færi að taka þessa bæn vora til greina, væri það ekki nema til að bera að oss böndin aptur. Sú eina ástæða sem oss virðist móti því, að stjórnin verði við þessari beiðni Frakka, hefur enn ekki komið fram og hún er sú, hvort ekki sje hætt við, ef að Frakkar tækju mjög að auki fiskiveiðar sínar hjer við land, að þeir mundu draga til sín alla fiskverzlunina, þar eð enginn gæti keppt við þá, og taka svo sjálfir að flytja fiskinn til Spánar og spilla þar markaði fyrir oss.

---

(Aðsent).

það er gleðilegt að sjá og vita framfarir í dugnaði og kunnáttu í góðum og þarflegum fyrirtækjum á föðurlandi voru, og þegar þess konar fyrirtækjum er haldið áfram með staðfestu og hyggindum, er það ætíð áreiðanlegt, að þau geta átt sjer langan aldur, og orðið landinu til hins mesta gagns og sóma, þegar fram líða stundir. Aðalatvinnuvegir Íslendinga eru eins og allir vita fjárrækt og fiskiveiðar. Til þess að bæta fjárræktina er landsbúum einkum nauðsynlegt að kappkosta að auka grasvöxtinn, og gjöra allt til, að heyskapurinn verði sem mestur, og gangi sem greiðast. En til þess í annan stað að efla fiskiveiðarnar er landsmönnum einkum áríðandi, að efla og tryggja sem mest mega þeir skipaútbúnað sinn og önnur veiðarfæri, því eins og máltækið segir, að „svipull er sjóarafli", eins er jafnan hættara við, að sjómenn verði fyrir snögglegum sköðum; og það er tilgangur minn með línum þessum að vekja athygli manna á því, hvernig þeir menn, er stunda hákarlaveiðar hjer um Norðurland, sem hafa nú á seinustu árunum reynzt mjög arðsamar, gætu gjört þann atvinnuveg sinn svo óhultan, að þeir leggðu ekki árar í bát, þó einhver óhöpp bæru að höndum.

Hákarlaveiðunum hefur farið svo fram nú á fáum árum hjer í kringum Eyjafjörð, að það sýnir berlega hverju dugnaður og kunnátta fá orkað, þó ekki sje fjárafli mikill, þegar byrjað er. það er ekki langt að minnast síðan menn komust ekki lengra en 10 til 12 vikur undan landi eptir hákarlinum, og fengu jafnast eigi meira en 20 til 30 kúta í hlut, eða tæpa lýsistunna yfir vorið; því að ekki varð róið nema þegar bezt var veður, og það gjörðu ekki nema sárfáir menn í heilum veiðistöðum, en nú sýna blöðin, hvernig þetta hefur gengið þessi seinustu árin, og er vonandi, að því fari ekki hnignandi.

það sem mjer virðist mest áríðandi til þess að tryggja þenna atvinnuveg er það, að allir sem stunda hákarlaveiðar hjer um svæði í kringum Eyjafjörð og í Siglufirði og Fljótum, stofnuðu einn eða fleiri sjóði til þess að bæta þeim að nokkru leyti, er yrðu fyrir stórsköðum; því fyri mörgum er svo ástatt, að mesta og verulegasta eignin er í skip-

inu, og tapist skipið, er atvinna mannsins farin, þó að hann komist lifs af, og ef hans missir einnig við, vantar konu og börn, ef til vill, nauðsynlegt viðurværi. Stofnun slíkra sjóða er einnig því nauðsynlegri, að ekki er hægt að fá ábyrgð á skipum þessum í ábyrgðarsjóðum erlendis.

Um það, hvernig stofna skyldi slíka ábyrgðar- eða hjálparsjóði, hefur mjer hugsast, að það yrði bezt á þann hátt, að allir sem eiga skip eða part í skipi, vildu skuldbinda sig til að gjalda í þenna sjóð á hausti hverju 1 ríkisdal af hverri lýsistunnu, er þeir hefðu fengið það ár frá hausti til hausts, og hver hlutarmaður, sem á væri skipunum 48 sk. af lýsistunnu hverri, er í hlut kæmi; og eins skyldu skipseigendur, sem hefðu vinnumann sinn á skipi sínu, greiða 48 sk. fyrir hann, ef hann tæki hlut, og svo, hver annar, er gjörði mann út til þessara veiða. Þetta mundi skjótt verða allmikið fje, en gjaldendur stæðu þó allir jafnrjettir eptir sem áður; en því vil jeg láta skipseigendr greiða meira að tiltölu, að þeir eiga meira í hættu, ef óhöpp vilja til, og ættu því einnig að líkri tiltölu að fá meiri styrk úr sjóðnum, þegar við þyrftu.

Hvort sem þessir sjóðir yrðu nú stofnaðir einn eða fleiri ætti engan veginn að ákveða fyrir fram, hve stórir þeir skyldu vera, áður en farið væri að snerta þá, því menn yrðu án efa fúsari til að leggja sinn skerf til þeirra, þegar þeir vissu, að hjálp fengist undir eins úr þeim og brýn nauðsyn þætti til bera. Á hinn bóginn ætti að ákveða nákvæmlega í hverjum tilfellum, og að hverri tiltölu hjálpa skyldi úr þeim, svo menn ættu að vísu að ganga, hvenær hjálpin fengist, og ekki ætti að hjálpa, nema þegar skaðinn á skipi eða veiðarfærum væri svo mikill, að það virtist stórkostlegur hnekkir fyrir atvinnuveg hlutaðeiganda, ef hann ætti af eiginn ramleik að ráða bót á honum. Ætíð skyldi og hjálpa, þegar maður tapast af skipi, sem á eptir konu og börn, og er fátækur.

Stjórnendur þessa sjóðs hjer í Eyjafirði ættu að vera amtmaður og sýslumaður, og hinn þriðji einhver kaupmanna á Akureyri eða einhver annar dándismaður, helzt sá, sem ekki ætti sjálfur þátt í hákarlaveiðum.

Óskandi væri að þjer landar góðir, sem hlut eigið að máli, gæfuð gaum að þessu, og gjörðuð eitthvað í þessu efni fljótt og vel. Ísfirðingar eru fyri nokkrum árum búnir að stofna slíkan ábyrgðarsjóð innbyrðis, en jeg þekki því miður ekki nógu vel, hvernig þessari stofnun þeirra er til hagað, og get því ekki skýrt frá því. Hugsið eptir því, sem hlut eigið að máli, að maður veit ekki nær þörfin kann að bera að hendi, en „gott er að gjöra vel og hitta sjálfan sig fyrir“.

---

## Tvö einföld ráð.

við andarteppuveiki barna (Strubehoste), sem þeir gætu reynt, sem engin meðöl hafa, eða þegar þau, þó til sjeu, reynast ónóg.

1.

Heitir bakstrar tilbúnir úr hveitibrauði og mjólk leggist yfir framanverðan hálsinn eða hóstið, og skal jafnframt gefa barninu heita drykki, helzt af sykurvatni. Við þetta á hóstinn að breytast í hættulausan kvefhósta, og þannig að verða komið í veg fyrir hinn rjettkallaða andarteppuhósta. (Dr. Goelis í Wien).

2.

Heitt vatnsbað um framhandleggina, sem þangað leiðir blóðsóknina, en varnar henni að hálsinum. Barnið er látið halda handleggjunum upp að ölnbogum niðri í svo heitu vatni, sem það þolir, í 10 mínútur, og er það ítrekað einu sinni á hverri hálfri stundu meðan þurfa þykir (Dr. Grahl, Hamborg, Hufel. Journal, 10. b., bls. 126).

Þetta síðar nefnda ráð var að minni áeggjun einu sinni reynt við andarteppuhóstanum, þar sem engin meðöl voru við höndina, og batnaði fljótt af því, og eins kynni að vera um hið fyrnefnda, væri það við haft í tíma. En vel mun þurfa að búa að þeim böðuðu pörtum á eptir, að ekki komi að þeim kul, skal því halda á þeim svo notalegum og náttúrlegum hita, sem verður, nokkra daga eptir að batnað er.

Bikplástur, milli herða lagður, á að varna því, að barnið fái aptur veikina.

Grenjaðarstöðum, 28. október 1856.

M. Jónsson.

---

## Um póstgöngur.

(Framhald). Hin einstöku atriði um það, hvernig haga skyldi póstgöngunum voru nú betur af hendi leyst af hálfu alþingis. Þingið biður reyndar ekki nema um 6—8 póstgöngur um landið, en hið minnsta, er oss virðist menn geta komizt af með, er 8, og öll nauðsyn á, að þær væru 12. Ferðirnar ættu allar að byrja frá Reykjavík, og setjast í samband við póstskipskomurnar sem ná-

kvæmast. Frá Reykjavík ætti að senda brjefin til Norður- og Vesturlandsins að Hvammi í Norðurárdal, og ættu þau að mæta þar póstunum frá Norður- og Vesturlandinu, er þá snera við norður og vestur með brjef þau, er sunnan kæmu. Það getur virðst efunarmál, hvort ekki ætti að hafa sýslupósta, það er að skilja þannig, að engi póstur færi lengra en yfir eina sýslu, og svo tæki nýr við, en þó það væri unnið með því, að pósturinn og hestar hans yrðu óþreyttari, og hann gæti því haft hraðari yfirferð, þá er aptur á hinn bóginn hætt við, að af því leiddi töluverðar tafir á póststöðvunum, og að sá, sem við ætti að taka, væri ekki ætíð til búinn, o. s. frv., svo að oss virðist þó, að betra væri að hafa sama póstinn yfir lengra svið viðlíka og nú er. Það sem einkum virðist áríðandi er að póstferðirnar verði jafntíðar til allra sýslna í landinu, því að öðrum kosti hefur ekki öll alþýða gagn af póstferðunum, en þeim ætti að haga svo, að þær væru ekki eingöngu til að flytja embættisbrjef, heldur gætu gefið sem flestum kost á að nota þær til brjefaviðskipta. Til þessa er það nauðsynlegt, að þær nái sem jafnast til allra, og að brjefburðargjaldið sje hið sama frá öllum sýslum landsins, því það hvetur menn mjög til brjefaskriptanna.

Það eru gjörðar ýmsar uppástungur í 3. ári Norðra, 3. og 6. blaði þess árs, um það, hvernig greiða skuli kostnað þann, er leiði af að fjölga póstgöngunum, enda virðist eptir ræðunum á alþingi, að eitthvert ráð þurfi að finna til að bera þenna kostnað, að svo miklu leyti sem tekjurnar vaxa ekki að sama hófi, sem varla er við að búast sízt fyrst í stað. Af því sem hinn heiðraði höfundur þeirrar greinar telur upp, virðist oss árennilegast það ráðið að leggja toll á áfenga drykki, og því var miður, að slíkt var ekki gjört, þegar verzlunarlögin voru gefin; því af þeim tolli mætti hafa töluverðar tekjur, og ekki er ólíklegt, að hann mundi hnekkja nokkuð ofdrykkjunni, og væri hann þá til mikils góðs. Oss virðist og einnig gott fyrir landa vora, að lagður væri tollur á suman annan óþarfa, t. a. m. tóbak og jafnvel kaffi, en það er vonandi, að ekkert af þessum tollum þurfi á að leggja til að geta bætt póstgöngurnar, því stjórnin hlýtur að sjá, hversu ómissandi það er fyrir sjálfa hana að verja nokkru fje til þess að geta haft stöðug og viss afskipti af Íslandi, einkum nú síðan að frjálsa verzlunin byrjaði, og að hún dragi Ísland inn undir póststjórn sína, og komi á reglulegum gufuskipaferðum til Íslands að sumrinu til. Vjer fulltreystum því, að það líði ekki á löngu, áður en póststjórnin fengi allan kostnað sinn endurgoldinn, og þó að vjer ættum að leggja nokkuð í sölurnar til þess að fá þessu áríðandi máli komið í gott lag, væri þeim kostnaði, sem til þess gengi, vel varið.

Bændur vora og einkum þá, er á alþingi sitja, biðjum vjer að taka frændur sína í Noregi sjer til fyrirmyndar, þegar þeir eiga að ræða um þau mál, er miða til þess að bæta samgöngurnar, og að spara þar ekki fje sitt nje vinnu. Norðmenn hafa nú einlægt, síðan þeir fengu að miklu leyti að stjórna sjer sjálfir, á hverju ári varið ærnu fje til að bæta veguna hjá sjer, og bændurnir hafa stutt það mál fremstir í flokki. Í Noregi er margfalt örðugra að gjöra vegu, og lögun landsins er svo háttað, að allar samgöngur eru þar miklu örðugri en hjá oss, en þó hafa Norðmenn sigrast á öllum þessum örðugleikum, og hinar miklu framfarir sínar á seinni tíð eiga þeir mest að þakka því, að þeir með kappi byrjuðu á því að bæta veguna og auka samgöngurnar, því samgöngurnar lífga og glæða allt fjör hjá þjóðunum.

---

# Frjettir.

## Útlendar.

Með póstskipinu höfum vjer fengið brjef og útlend blöð, en alllítið frjettnæmt. Friður er alstaðar þar er til spurðist. Rússar eru stöðugt að leita allra undanbragða til að uppfylla ekki friðarskilmálana og finna sjer margt smátt til, en Englendingar og Frakkar halda svo vel saman að ólíklegt er, að Rússar reyni að halda þessu til þrautar.

Á Spáni er stjórn O' Donnels einlægt að hnigna, og varla er ætlandi, að hann geti haldið völdum í vetur. Hann stendur mjög einn síns liðs, því „framfaraflokkurinn“ (Progressister), sem hann skauzt úr, og rauf heit sín við í sumar var, vill ekki sættast við hann, en hinir nýju vinir hans hans hafa ekkert álit á sjer. Hann hefur því reynt til að sætta sig við klerka og konungsflokkinn, og ætla menn því, að hætt verði að selja kirkjueignirnar, og að Spánn komist aptur í sátt við páfa.

Úr Danmörku berast þær frjettir, að ráðgjafarnir voru á förum, og kom það mönnum mjög óvart, því eptir að ráðgjafarnir í fyrra voru dæmd-

ir sſknir saka af ríkisdóminum; og eptir að alríkislögin voru komin á, ætluðu menn að ráðgjafaskipti mundu verða miklu sjaldgæfari, enda þykja þeir, sem nú eru, einna bezt til kjörnir, þykja og frjálslyndir dansklundaðir menn, svo trautt er völ á betri af þeirra flokki. Engar tilgátur voru enn um það hverjir líklegastir þættu til að koma eptir þessa ráðgjafa, ef þeir færu. Ekki vita menn heldur mikið um, hvað veldur ágreiningi þeim, sem orðið hefur meðal ráðgjafanna, og sem kom fjárstjórnarráðgjafanum Andræ til að segja sig úr völdum. Sumir kenna þetta leyndarráði konungs Scheel, ráðgjafa í Holsetulandi og yfir utanríkismálefnunum. Hann er mjög handgenginn konungi, og þykir vera mega, að hann hafi orðið þeim meðráðgjöfum sínum drjúgur í ráðunum, svo að þeim hefur þótt betra að draga sig í hlje. Ráðstefnuforsetinn P. G. Bang bar fyri sig heilsulasleik, er hann sagði af sjer.

Uppskeran hafði orðið hin bezta, og korn var því fallið niður í 8. dali um það leyti að póstskipið fór.

Á ferð voru í Danmörku Karl undirkonungur í Noregi, elzti sonur og ríkiserfingi Oskars Svíakonungs. Hann var gjörður undirkonungur í vor, og hefur hann nú ferðast um allan Noreg í sumar, og aflað sjer hinna mestu vinsælda, svo að Norðmenn eru frá sjer numdir af fögnuði yfir honum. Hann fjekk hinar beztu viðtökur hjá konungi vorum eins og nærri má geta, og stúdentar færðu honum ávarp til þakklætis fyrir gestrisni hans í sumar, er þeir voru á Uppsalaferð sinni. Napóleon keisarafrændi, er hjer var í sumar, og minnst er á í Þjóðólfi, var einnig kominn til Kaupmannahafnar, og ætlaði þaðan 29. sept. Honum tók konungur vor einnig með hinum mestu virktum, en ekki vitum vjer hvort Napóleon hefur beðið konung um Ísland í þessari ferð.

## Innlendar.

Veðráttan hefur enn verið hin bezta til þessa tíma (26. nóv.), og það er ekki nema rúm vika síðan snjór kom á jörð. Af suðurlandi færði Þjóðólfur oss engar frjettir nema um fjárkláðann og barnaveikina, og segir dr. Hjaltalín að illa gefist meðöl meðlæknanna við henni þar sem þau hafi verið reynd, og slíkt hið sama skrifar hjeraðslæknir Skúli Thorarensen ábyrgðarmanni Þjóðólfs, hvernig sem nú á því stendur.

Að vestan er oss skrifað, að sumartíðin hafi verið hin bezta, grasvöxtur góður á túnum, en lakari á engjum, nýting hin besta. Hákarlsafli rjett góður á þiljuskipum, og höfðu sum fengið hátt á annað hundrað lifrartunnur. Fiskiafli góður í vor í fjörðunum, en lakari við Ísafjarðardjúp. Hvalur var róinn á land í Dýrafirði seinast í ágústm., og voru á honum 510 fjórðungar af spiki; höfðu Arnfirðingar skutlað hann, en hann smogið úr greipum þeim. Það er furða hvað litla viðburði Íslendingar hafa við að skutla hvali. Þeir koma þó opt inn á fjörðu, og eru góð og stór veiði, ef menn bæru sig vel eptir henni.

---

### Konunglegur dómur.

*Þegar „Don Pedro“ að viðurnefni hinn rjettdæmi, ríkti í „Portugal“ bar það við að klerkur nokkur voldugur reiddist svo orðum skóara eins, að hann ljet drepa hann. Sonur hins drepna bar mál þetta á hendur prestinum fyrir andlegrar stjettar dómi, sem lög stóðu til. Dómendur drógu nú taum klerksins, og dæmdu hann einungis til þeirrar refsingar að hann skyldi ekki mega flytja messu árlangt. Syninum þótti nú súrt í brotið og skaut máli sínu undir konung. Konungur kvað þegar dóminn mjög ranglátan, þar eð refsingin væri svo miklu minni en sakir hefðu verið til, en kvaðst þó ekki geta ónýtt dóminn, því hann hefði ekki vald til breyta dómum klerka, eins og tíðkast í katólskum löndum.*

*Fáum dögum síðar gekk prestur þessi ásamt öðrum klerkum í hátíðagöngu[1] um borgina, og lág leiðin fram hjá höll konungs, og gekk konungur með hirð sinni út á svalirnar. Sonur skóarans var og þar nærstaddur, og þá er presturinn nálgaðist hann, hljóp unglingurinn að honum og rak klerkinn í gegn fyr en nokkur gat bjargað honum. Alla undraði slíkt fólskuverk; og hann var þegar haldinn, og skipaði konungur undir eins að draga veganda bundinn fyrir sinn dóm, og spurði hann, hvernig hann hefði dirfzt að gjöra slíkt hryðjuverk.*

*„Hvernig dirfðist presturinn að láta myrða föður minn?“ svaraði ungmennið. „Jeg leitaðist við að ná rjetti mínum að lögum, og þegar jeg fjekk því ekki fram komið, áleit jeg skyldu mína að ná honum sjálfur.*

*Þeir sem dæmt höfðu prestinn, og aðrir vinir hans, fluttu það nú fyrir konungi, að vegandi hefði áður náð rjetti sínum, því presturinn hefði liðið þann dóm að mega ekki flytja neina messu í heilt ár.*

*Konungur hlustaði þegjandi á málssókn þeirra, sneri sjer síðan að vegandanum og spurði hann, hverja iðn hann hefði.*

*„Jeg er skóari“, svaraði drengurinn.*

*„Þá banna jeg þjer“, mælti konungur, „að starfa nokkuð að skósmíði í heilt ár; en forlagseyri*

---

[1]) Hátíðagöngu (Processio) kalla menn, þegar klerkar í katólskum löndum ganga um borgir með helga dóma, eða því um líkt.

*fyrir þig þenna tíma skal greiða af dánarfje prestsins. Þetta er minn dómur!"*

## Um uppeldi barna.

(Endir). Foreldrið og barnið eiga að hafa traust hvort til annars. En það getur ekki orðið, þegar foreldrið er eins og löggjafari og dómari, sem ekki hefur neina meðaumkun, sem ekki getur grátið og vonað með þeim er misgjört hefur. Þessi fáu orð: „það hryggir mig að þú ert reiður; reyndu að vera gott barn, og jeg skal hjálpa þjer; þurrkaðu af þjer tárin og segðu mjer hvað að þjer gengur", eru líklegri til að leiða barnið á rjetta götu, og sefa reiði þess heldur en harðar skipanir eða köld aðfinning. Ekkert er fegurra en að sjá hegðun barns, sem er alið upp í skjóli elskunnar. Þegar það kemur meðal ókunnugra er það ófeimið og óhrætt, það tekur vel á móti öllum, leitar gleðinnar og finnur hana í hverjum hlut, og með hverjum sem það er; hvað lítið, sem því er gjört til eptirlætis, tekur það því þakklátlega. Eins og aðrir hafa hryggst og glaðst með því, eins hefur það næma tilfinningu fyrir sorg og gleði annara. Allir leikir þess eru lausir við duttlunga og eigingirni, hugurinn er starfsamur og kjarkmikill, og ánægjan skín á andliti þess.

Sjáum hið gagnstæða, barnið, sem stjórnað er með ótta. Það þorir ekki að horfa á mann, og dregur sig í hlje, þegar á það er litið, það hjalar ekki af sjálfu sjer, eins og hitt barnið, því hjá því streyma hugsanir og tilfinningar af vörunum; það hefur ekki sannarlega ánægju af neinu, því það hefur einlægt einhvern ótta, að það muni gjöra eitthvað eða tala, sem það verði sneypt fyrir, eða ef það gleður sig yfir einhverju, þá er það þegjandi; hjarta þess er einstæðingur, og þetta leiðir barnið smátt og smátt til að hugsa einungis um sjálft sig. Hreinskilnin er kostur, sem börnunum er eiginlegur, hana á að glæða hjá þeim. Þau eru sjálfum sjer svo ónóg, að það er eðli þeirra að leita trausts og trúnaðar. Þau hafa enga ástæðu til að leyna neinu, nema þá sem úttinn kennir þeim.

Hin mesta og almennasta villa við barna-uppeldið er það að láta vel að þeim aðra stundina og sneypa, þau svo annað veifið. Það er alvenja, að börnin eru stundum kysst og kjössuð, og allt látið eptir þeim, og hina stundina brakyrt og lúbarin. Sumar mæður vefja barnið sitt í faðmi sínum aðra stundina, og svala reiði sinni á því rjett á eptir. Af óstillingu ber hún barnið fyrir hvað lítið sem því verður á, og aumkast síðan yfir það, og fer að klappa því og kyssa. Allt þetta er mjög rangt, og háskalegt fyrir lunderni barnsins. Foreldrar minnist þess, að dæmið gjörir mikið að verkum til að kenna barninu vonda og góða siði, og að það er áríðandi, að þeir sem takast á hendur barnauppeldi, þekki sjálfa sig og geti stjórnað sjer. Önnur villa er að hafa uppáhaldsbörn. Sumir halda svo mikið upp á eitt barnið af því það er elzt, eða heitir einhverju vissu nafni, að allt er látið eptir því, en hin börnin öll látin sitja á hakanum. Mörg óvild hefur sprottið af því að foreldrarnir hafa gjört sjer barnamun, og er slíkt foreldrunum æ til minnkunar. Öll börn sömu foreldra, hvort sem eitt er gáfaðra eða efnilegra en annað, hvort sem sveinbarn er eður meybarn, skyldi uppala með sömu umhyggju og blíðlæti.

Börnin eru af náttúrunni sannsögul. Náttúran lýgur ekki. Ekkert skyldi gjört, er kemur barninu til að draga dulur á sannleikann. Glæddu hjá því ást á sannleika og hreinskilni og að játa afbrot sín. Það er grátlegt að vita hvaða skelfilegar lygar barninu eru sagðar til að hræða það, svo að það sje spakt og hlýðið. Heimskt fólk hræðir börnin með grýlu, jólasveinum og öðru þessar konar til þess að fá börnin til að liggja kyrr í rúminu. Það er sannreynt, að börn hafa dáið, fengið flogaveiki eða orðið vitstola af slíkum hjegiljum. En þó það nú ekki gjöri svo mikið að verkum, þá hefur það aðrar vissar afleiðingar. Ef barnið verður þess vart, að logið er að því, hirðir það ekkert um hótanir, verður óþekkara og keipóttara heldur en nokkurn tíma áður, trúir engu, sem því er sagt, og þegar það sjer, að aðrir hafa enga virðingu fyrir sannleikanum, hættir það líka að meta hann nokkurs.

Það er einkar áríðandi að halda orð sín við barnið, ef því hefur verið lofað einhverju, og halda því fast fram að barnið hlýðnist því, sem fyrir það hefur verið lagt. Ef að móðirin kemur barninu upp á að óhlýðnast boðum sínum, er hún öldungis óhæf til að ala það vel upp. Hún skal bæla niður óhlýðnina hjá því með stillingu og festu.

Hjá sumum börnum kemur grimmlegt hugarfar snemma í ljós. Þau kvelja smákvikindi, rífa í sundur, brjóta og bramla allt sem þau geta. Þegar svo er, verður móðirin að glæða hina gagnstæðu tilfinningu. Hún verður að sjá um að barnið fái ekki tækifæri til að efla þenna skáplöst, og láta það sjá, að sjer mislíki við það. Ekkert er betra til að venja barnið af slíku, en að láta það hafa eitthvað að starfa, sem meinlaust er. Það á að sýna því, hvernig fara eigi með skepnurnar, og má hafa til þess barnagull, hesta, hunda eða ketti úr trje og því um líkt, og kenna barninu að gefa því að jeta, láta vel að því, og taka leikfangið frá því, ef barnið ætlar að taka til að fara illa með það. Aldrei ætti að láta barnið sjá, þegar mýs eru veiddar í gildru eða þegar drekkt er hvolpum og kettlingum, þau skilja ekki hvers vegna þetta er gjört, skilja ekki hvað skepnurnar líða, þegar þær deyja, en hafa einungis gaman af að sjá það, og venjast þannig á að horfa á kvalir og dauða eins og einhvern leik.

Móðirin kennir barninu opt ofsa og reiðigirni af fávizku einni. Ef að barnið rekur sig á stól eða borð, segir hún því að berja borðið. Þetta gjörir barnið hefnigjarnt, og þegar barnið er orðið fullvaxinn maður, þolir það engar mótgjörðir. Aldrei skal segja barninu að berja neinn hlut; ekki skal heldur segja því að sneypa eða hrakyrða neinn hlut, sem það meiðir sig á, miklu framar skal kenna því að fyrirgefa mótgjörðir, og líða með þolgæði, og sýna öllum gott og þægilegt viðmót.

Öll börn þurfa að skemmta sjer. Frá því fyrst þau geta farið að taka eptir hlutunum, sem í kringum þau eru, hafa þau gaman af leikföngum, myndum, og öllu, sem gleður auga þess eður eyra.

Að leika sjer að barnagullum er ekki einungis skemmtun fyrir barnið, heldur má kalla að það sje hinn rjetti starfi fyrir það. Annað eins og trjespítur til að byggja sjer hús úr, eða spald með stíl við, getur verið nóg skemmtun fyrir barnið langan tíma. Bækur með fugla og dýramyndum eru líka mjög hentar, því þær leiða barnið til að

ir sîknir saka af ríkisdóminum; og eptir að alríkislögin voru komin á, ætluðu menn að ráðgjafaskipti mundu verða miklu sjaldgæfari, enda þykja þeir, sem nú eru, einna bezt til kjörnir, þykja og frjálslyndir dansklundaðir menn, svo trautt er völ á betri af þeirra flokki. Engar tilgátur voru enn um það hverjir líklegastir þættu til að koma eptir þessa ráðgjafa, ef þeir færu. Ekki vita menn heldur mikið um, hvað veldur ágreiningi þeim, sem orðið hefur meðal ráðgjafanna, og sem kom fjárstjórnarráðgjafanum Andræ til að segja sig úr völdum. Sumir kenna þetta leyndarráði konungs Scheel, ráðgjafa í Holsetulandi og yfir utanríkismálefnunum. Hann er mjög handgenginn konungi, og þykir vera mega, að hann hafi orðið þeim meðráðgjöfum sínum drjúgur í ráðunum, svo að þeim hefur þótt betra að draga sig í hlje. Ráðstefnuforsetinn P. G. Bang bar fyri sig heilsulasleik, er hann sagði af sjer.

Uppskeran hafði orðið hin bezta, og korn var því fallið niður í 8. dali um það leyti að póstskipið fór.

Á ferð voru í Danmörku Karl undirkonungur í Noregi, elzti sonur og ríkiserfingi Oskars Svíakonungs. Hann var gjörður undirkonungur í vor, og hefur hann nú ferðast um allan Noreg í sumar, og aflað sjer hinna mestu vinsælda, svo að Norðmenn eru frá sjer numdir af fögnuði yfir honum. Hann fjekk hinar beztu viðtökur hjá konungi vorum eins og nærri má geta, og stúdentar færðu honum ávarp til þakklætis fyrir gestrisni hans í sumar, er þeir voru á Uppsalaferð sinni. Napóleon keisarafrændi, er hjer var í sumar, og minnst er á í Þjóðólfi, var einnig kominn til Kaupmannahafnar, og ætlaði þaðan 29. sept. Honum tók konungur vor einnig með hinum mestu virktum, en ekki vitum vjer hvort Napóleon hefur beðið konung um Ísland í þessari ferð.

## Innlendar.

Veðráttan hefur enn verið hin bezta til þessa tíma (26. nóv.), og það er ekki nema rúm vika síðan snjór kom á jörð. Af suðurlandi færði Þjóðólfur oss engar frjettir nema um fjárkláðann og barnaveikina, og segir dr. Hjaltalín að illa gefist meðöl meðlæknanna við henni þar sem þau hafi verið reynd, og slíkt hið sama skrifar hjeraðslæknir Skúli Thorarensen ábyrgðarmanni Þjóðólfs, hvernig sem nú á því stendur.

Að vestan er oss skrifað, að sumartíðin hafi verið hin bezta, grasvöxtur góður á túnum, en lakari á engjum, nýting hin bezta. Hákarlsafli rjett góður á þiljuskipum, og höfðu sum fengið hátt á annað hundrað lifrartunnur. Fiskiafli góður í vor í fjörðunum, en lakari við Ísafjarðardjúp. Hvalur var róinn á land í Dýrafirði seinast í ágústm., og voru á honum 510 fjórðungar af spiki; höfðu Arnfirðingar skutlað hann, en hann smogið úr greipum þeim. Það er furða hvað litla viðburði Íslendingar hafa við að skutla hvali. Þeir koma þó opt inn á fjörðu, og eru góð og stór veiði, ef menn bæru sig vel eptir henni.

---

### Konunglegur dómur.

*Þegar „Don Pedro“ að viðurnefni hinn rjettdæmi, ríkti í „Portugal“ bar það við að klerkur nokkur voldugur reiddist svo orðum skóara eins, að hann ljet drepa hann. Sonur hins drepna bar mál þetta á hendur prestinum fyrir andlegrar stjettar dómi, sem lög stóðu til. Dómendur drógu nú taum klerksins, og dæmdu hann einungis til þeirrar refsingar að hann skyldi ekki mega flytja messu árlangt. Syninum þótti nú súrt í brotið og skaut máli sínu undir konung. Konungur kvað þegar dóminn mjög ranglátan, þar eð refsingin væri svo miklu minni en sakir hefðu verið til, en kvaðst þó ekki geta ónýtt dóminn, því hann hefði ekki vald til breyta dómum klerka, eins og tíðkast í katólskum löndum.*

*Fáum dögum síðar gekk prestur þessi ásamt öðrum klerkum í hátíðagöngu*[1] *um borgina, og lág leiðin fram hjá höll konungs, og gekk konungur með hirð sinni út á svalirnar. Sonur skóarans var og þar nærstaddur, og þá er presturinn nálgaðist hann, hljóp unglingurinn að honum og rak klerkinn í gegn fyr en nokkur gat bjargað honum. Alla undraði slíkt fólskuverk; og hann var þegar haldinn, og skipaði konungur undir eins að draga veganda bundinn fyrir sinn dóm, og spurði hann, hvernig hann hefði dirfzt að gjöra slíkt hryðjuverk.*

*„Hvernig dirfðist presturinn að láta myrða föður minn?“ svaraði ungmennið. „Jeg leitaðist við að ná rjetti mínum að lögum, og þegar jeg fjekk því ekki fram komið, áleit jeg skyldu mína að ná honum sjálfur.*

*Þeir sem dæmt höfðu prestinn, og aðrir vinir hans, fluttu það nú fyrir konungi, að vegandi hefði áður náð rjetti sínum, því presturinn hefði liðið þann dóm að mega ekki flytja neina messu í heilt ár.*

*Konungur hlustaði þegjandi á málssókn þeirra, sneri sjer síðan að vegandanum og spurði hann, hverja iðn hann hefði.*

*„Jeg er skóari“, svaraði drengurinn.*

*„Þá banna jeg þjer“, mælti konungur, „að starfa nokkuð að skósmíði í heilt ár; en forlagseyri*

---

[1]) Hátíðagöngu (Processio) kalla menn, þegar klerkar í katólskum löndum ganga um borgir með helga dóma, eða því um líkt.

*fyri þig þenna tíma skal greiða af dánarfje prestsins. Þetta er minn dómur!“*

## Um uppeldi barna.

(Endir). Foreldrið og barnið eiga að hafa traust hvort til annars. En það getur ekki orðið, þegar foreldrið er eins og löggjafari og dómari, sem ekki hefur neina meðaumkun, sem ekki getur grátið og vonað með þeim er misgjört hefur. Þessi fáu orð: „það hryggir mig að þú ert reiður; reyndu að vera gott barn, og jeg skal hjálpa þjer; þurrkaðu af þjer tárin og segðu mjer hvað að þjer gengur“, eru líklegri til að leiða barnið á rjetta götu, og sefa reiði þess heldur en harðar skipanir eða köld aðfinning. Ekkert er fegurra en að sjá hegðun barns, sem er alið upp í skjóli elskunnar. Þegar það kemur meðal ókunnugra er það ófeimið og óhrætt, það tekur vel á móti öllum, leitar gleðinnar og finnur hana í hverjum hlut, og með hverjum sem það er; hvað lítið, sem því er gjört til eptirlætis, tekur það því þakklátlega. Eins og aðrir hafa hryggst og glaðst með því, eins hefur það næma tilfinningu fyrir sorg og gleði annara. Allir leikir þess eru lausir við duttlunga og eigingirni, hugurinn er starfsamur og kjarkmikill, og ánægjan skín á andliti þess.

Sjáum hið gagnstæða, barnið, sem stjórnað er með ótta. Það þorir ekki að horfa á mann, og dregur sig í hlje, þegar á það er litið, það hjalar ekki af sjálfu sjer, eins og hitt barnið, því hjá því streyma hugsanir og tilfinningar af vörunum; það hefur ekki sannarlega ánægju af neinu, því það hefur einlægt einhvern ótta, að það muni gjöra eitthvað eða tala, sem það verði sneypt fyrir, eða ef það gleður sig yfir einhverju, þá er það þegjandi; hjarta þess er einstæðingur, og þetta leiðir barnið smátt og smátt til að hugsa einungis um sjálft sig. Hreinskilnin er kostur, sem börnunum er eiginlegur, hana á að glæða hjá þeim. Þau eru sjálfum sjer svo ónóg, að það er eðli þeirra að leita trausts og trúnaðar. Þau hafa enga ástæðu til að leyna neinu, nema þá sem óttinn kennir þeim.

Hin mesta og almennasta villa við barna-uppeldið er það að láta vel að þeim aðra stundina og sneypa, þau svo annað veifið. Það er alvenja, að börnin eru stundum kysst og kjössuð, og allt látið eptir þeim, og hina stundina hrakyrt og lúbarin. Sumar mæður vefja barnið sitt í faðmi sínum aðra stundina, og svala reiði sinni á því rjett á eptir. Af óstillingu ber hún barnið fyrir hvað lítið sem því verður á, og aumkast síðan yfir það, og fer að klappa því og kyssa. Allt þetta er mjög rangt, og háskalegt fyrir lunderni barnsins. Foreldrar minnist þess, að dæmið gjörir mikið að verkum til að kenna barninu vonda og góða siði, og að það er áríðandi, að þeir sem takast á hendur barnauppeldi, þekki sjálfa sig og geti stjórnað sjer. Önnur villa er að hafa uppáhaldsbörn. Sumir halda svo mikið upp á eitt barnið af því það er elzt, eða heitir einhverju vissu nafni, að allt er látið eptir því, en hin börnin öll látin sitja á hakanum. Mörg óvild hefur sprottið af því að foreldrarnir hafa gjört sjer barnamun, og er slíkt foreldrunum æ til minnkunar. Öll börn sömu foreldra, hvort sem eitt er gáfaðra eða efnilegra en annað, hvort sem sveinbarn er eður meybarn, skyldi uppala með sömu umhyggju og blíðlæti.

Börnin eru af náttúrunni sannsögul. Náttúran lýgur ekki. Ekkert skyldi gjöra, er kemur barninu til að draga dulur á sannleikann. Glæddu hjá því ást á sannleika og hreinskilni og að játa afbrot sín. Það er grátlegt að vita hvaða skelfilegar lygar barninu eru sagðar til að hræða það, svo að það sje spakt og hlýðið. Heimskt fólk hræðir börnin með grýlu, jólasveinum og öðru þessar konar til þess að fá börnin til að liggja kyrr í rúminu. Það er sannreynt, að börn hafa dáið, fengið flogaveiki eða orðið vitstola af slíkum hjegiljum. En þó það nú ekki gjöri svo mikið að verkum, þá hefur það aðrar vissar afleiðingar. Ef barnið verður þess vart, að logið er að því, hirðir það ekkert um hótanir, verður óþekkara og keipóttara heldur en nokkurn tíma áður, trúir engu, sem því er sagt, og þegar það sjer, að aðrir hafa enga virðingu fyrir sannleikanum, hættir það líka að meta hann nokkurs.

Það er einkar áríðandi að halda orð sín við barnið, ef því hefur verið lofað einhverju, og halda því fast fram að barnið hlýðnist því, sem fyrir það hefur verið lagt. Ef að móðirin kemur barninu upp á að óhlýðnast boðum sínum, er hún öldungis óhæf til að ala það vel upp. Hún skal bæla niður óhlýðnina hjá því með stillingu og festu.

Hjá sumum börnum kemur grimmlegt hugarfar snemma í ljós. Þau kvelja smákvikindi, rífa í sundur, brjóta og bramla allt sem þau geta. Þegar svo er, verður móðirin að glæða hina gagnstæðu tilfinningu. Hún verður að sjá um að barnið fái ekki tækifæri til að efla þenna skaplöst, og láta það sjá, að sjer mislíki við það. Ekkert er betra til að venja barnið af slíku, en að láta það hafa eitthvað að starfa, sem meinlaust er. Það á að sýna því, hvernig fara eigi með skepnurnar, og má hafa til þess barnagull, hesta, hunda eða ketti úr trje og því um líkt, og kenna barninu að gefa því að jeta, láta vel að því, og taka leikfangið frá því, ef barnið ætlar að taka til að fara illa með það. Aldrei ætti að láta barnið sjá, þegar mýs eru veiddar í gildru eða þegar drekkt er hvolpum og kettlingum, þau skilja ekki hvers vegna þetta er gjört, skilja ekki hvað skepnurnar líða, þegar þær deyja, en hafa einungis gaman af að sjá það, og venjast þannig á að horfa á kvalir og dauða eins og einhvern leik.

Móðirin kennir barninu opt ofsa og reiðigirni af fávizku sinni. Ef að barnið rekur sig á stól eða borð, segir hún því að berja borðið. Þetta gjörir barnið hefnigjarnt, og þegar barnið er orðið fullvaxinn maður, þolir það engar mótgjörðir. Aldrei skal segja barninu að berja neinn hlut; ekki skal heldur segja því að sneypa eða hrakyrða neinn hlut, sem það meiðir sig á, miklu framar skal kenna því að fyrirgefa mótgjörðir, og líða með þolgæði, og sýna öllum gott og þægilegt viðmót.

Öll börn þurfa að skemmta sjer. Frá því fyrst þau geta farið að taka eptir hlutunum, sem í kringum þau eru, hafa þau gaman af leikföngum, myndum, og öllu, sem gleður auga þess eður eyra.

Að leika sjer að barnagullum er ekki einungis skemmtun fyrir barnið, heldur má kalla að það sje hinn rjetti starfi fyrir það. Annað eins og trjespítur til að byggja sjer hús úr, eða spald með stíl við, getur verið nóg skemmtun fyrir barnið langan tíma. Bækur með fugla og dýramyndum eru líka mjög hentar, því þær leiða barnið til að

spyrja, og gefa þannig foreldrinu færi á að fræða barnið um margt, sem því er gott að vita.

Það má líka hafa barnagullin til þess að kenna börnunum reglusemi, aðgætni og stillingu. Þegar maður venur barnið á að láta sjer lynda með eitt leikfáng hófi lengi, verður það seinna meir ánægðara með hlutskipti sitt, án þess að öfunda aðra, er fleira og meira hafa. Reglusemina má kenna því með að venja það á að láta leikföng sín hvert á sinn stað, þegar það er búið að leika sjer, og mun það einnig hafa áhrif á hið seinna líf þess.

Stúlkubörnum er vant að þykja mjög vænt um brúður, og kemur það af náttúru kvenna að þykja vænt um börn; auk þess sem brúðurnar skemmta þeim, geta þau lært nettleik af að klæða og afklæða brúðuna.

Þess er áður getið, hve nauðsynlegt það er að kenna börnunum snemma að vera þrifin. Þetta ættu menn að innræta þeim sem fyrst. Líka ætti að kenna þeim sem fyrst að matast eins og fullorðið fólk, og hegða sjer rjett, þegar til borðs er setið.

Til þess að leiða í ljós kosti og ókosti hins unga barns, þarf það að geta lifað og leikið með jafnöldrum sínum, hvert barn sem ekki á kost á þessu er mjög aumkunarvert. En hvergi er hin leiðandi hönd skynsamrar móður eins nauðsynleg eins og til þess að kenna barninu elskuverða umgengni við leiksystkyni þess. Meira eða minna af áhrifum þeim, sem barnið fær í umgengni við sína líka á bernskuárunum, fylgir því í öllu lífi þess.

---

Lesendur góðir! Jeg hefi nú endað þetta ágrip af enskri ritgjörð um barna-uppeldi, sem er ágæt að mínum dómi. Jeg vona að sumir kaupendur Norðra hafi haft þolgæði til að lesa hana, þó að hún sje nokkuð löng, og jeg er sannfærður um, að mörg ein móðir á landi voru getur haft gagn af henni, ef hún les hana með íhugun. Það er fátt, og ef til vill ekkert, sem er eins nauðsynlegt og að ala börnin upp hraust og heilbrigð á sál og líkama, og þó að jeg fúslega viðurkenni, að marga af löndum mínum vanti efnin en ekki viljann til að gjöra það vel, þá er hitt víst eins satt að marga vantar lag það og kunnáttu, sem til þess þarf, og margt loðir, ef til vill, enn eptir frá gömlum tímum, af venjum manna við barna-uppeldið, sem ekki er gott, og aldrei hefur verið það. Jeg endurtek þau orð ritgjörðarinnar, og brýni þau fyrir lesendum mínum, að það er **ástin en ekki óttinn, sem á að stýra barna-uppeldinu**, og ef þessi hin rjetta regla er undir eins við höfð, sem börnin fara að skynja nokkuð, þá er það sannfæring mín, að ekkert barn hafi þá meðfædda skaplöstu, er betur verði niðurþaggaðir með öðrum aga.

**Sv. Sk.**

---

## Spurningar.

Hefur nokkurn tíma verið skotið saman fje hjer á landi, og stofnaður sjóður til að styrkja það fyrirtæki að gefa út hin evangelisku smárit? Ef að þessi sjóður hefur verið stofnaður, til hvers er hann þá nú hafður, hverjar reglur eru fyrir brúkun þess fjár, og hverjir eru stjórnendur þessa sjóðs, og hve stór er hann?

**Sv. Sk.**

---

## Ræða grábróður nokkurs fyrir ræningjum.

Grábróðir nokkur var á ferð, og urðu á leið hans ræningjar, er settu byssu fyrir brjóst honum og heimtuðu fje hans af honum. Munkurinn spurði þá, hvort þeir vissu ekki, að grábræður hefðu bundið það heit, að snerta aldrei við peningum, og því síður flytja það með sjer, en fyrst að hann hefði nú ekki fje til að seðja ágirnd þeirra, þá bauð hann þeim að halda fyrir þeim ræðu, er gæti sefað hana, og þeir fjellust á það, því þeim þótti þetta nýstárlegt: Grábróðirinn hóf svo ræðu sína: „Mínir elskanlegir! þegar jeg athuga lífskjör yðar og frelsara vors, þá virðist mjer þau mjög lík. Hann var mjög fátækur, það eruð þjer einnig. Gyðingar hötuðu hann og ofsóktu; allir menn í þessu landi hata yður einnig og ofsækja yður. Hann var álitinn svikari; og yður halda menn þjófa og morðingja. Hann hafði engan stað, er hann gæti höfði sínu að hallað; þjer hafið heldur engan vissan samastað, svo að skógarnir eru yðar heimili, og úlfarnir yðar fjelagar. Loksins sveik einn af lærisveinum frelsarans hann, svo hann kom á vald óvina sinna; og sömu mun verða örlög yðar fyrir svik einhvers fjelaga yðar. Hann var dreginn fyrir Pílatus; þjer munuð líka verða fluttir fyrir dómara. Hann var dæmdur til að þola krossins dauða, og þjer munuð verða hengdir á gálga. Hann steig niður til helvítis; þangað munuð þjer einnig koma. En heyrið nú tvennan stóran mun milli yðar og hans. Hann var ranglega ákærður og ljet líf sitt saklaus fyrir syndir alls mannkyns; en þjer munuð verða ákærðir með órækum vitnum, og líða dauða fyrir yðar eigin syndir. Hann gekk sigrihrósandi úr helvíti; en þjer munuð brenna þar frá eilífð til eilífðar, amen".

Ekki segir sagan, hvernig ræningjunum hafi fallizt þessi ræða í geð.

---



---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason**.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. Desember. 23.—24.

### Um undirbúningsskóla á Norðurlandi.

Vjer þurfum ekki að eyða mörgum orðum til að segja skólasögu vora Íslendinga, því þetta efni er svo ágætlega útlistað í öðru ári Nýrra Fjelagsrita, að vjer höfum þar engu við að bæta, og vjer vonum, að flestir lesendur vorir hafi kynnt sjer þessa fróðlegu ritgjörð. Tilgangur vor með línum þessum er einungis að leiða athygli Norðlendinga og Austfirðinga að því, hversu vel þeim nú er borgið með endurbót þeirri, sem skólinn í Reykjavík hefur fengið, og hversu auðvelt þeim sje að fá hlutdeild í henni, og að nota sjer þenna eina skóla svo sem þörf þeirra krefur.

Vjer þurfum nú ekki að eyða mörgum orðum til að sýna og sanna hve, hart Norður og Austurland hefur orðið út undan við það að skólinn á Hólum var lagður niður. Afleiðingar þess hafa ekki komið glöggt í ljós fyr en nú síðan að skólinn var fluttur frá Bessastöðum til Reykjavíkur, og afleiðingarnar eru nú orðnar þær, að nú læra mjög fáir að norðan og austan, og að tala þeirra sem læra er einlægt að minnka, og það sýnist að svo muni fara smátt og smátt, að skólinn verði næstum einungis fyrir Reykjavík og næstu sveitirnar, því svo er orðið dýrt að lifa í Reykjavík, að það má telja óvinnandi verk að kosta þar pilt til lærdóms frá hinum fjærliggjandi stöðum á landinu. Þó að vjer nú fúslega viljum játa að skólinn hafi batnað síðan hin seinasta breyting var gjörð á honum að því leyti að fleira er kennt, og sumar vísindagreinir ef til vill vandlegar en áður, þá ætlum vjer, að margir sjeu oss samdóma í því, að flutningur skólans hafi verið oss Íslendingum hinn óhollasti, og eitthvað hið versta, er gjört hefur verið í seinni tíð, síðan að skólarnir í Skálholti og Hólum voru lagðir niður og allt dregið suður. Í hinum mikla endurbætta skóla í Reykjavík eru nú rúmir 30 lærisveinar, færri en nokkurn tíma voru á Bessastöðum seinustu árin, svo að til vandræða virðist horfa með tímanum að fá menn í hin fáu embætti hjer á landi.

Útlendir menn hafa allt til þessa borið það lof um oss Íslendinga víða út um heim, að alþýða vor væri skynsamari og menntaðri en í flestum öðrum löndum, og þetta hafa þeir gjört með rjettu. Þetta hefur nú komið til af því, að áður var svo auðvelt og kostnaðarlítið að leita sjer menntunar, að margir gjörðu það, og gátu gjört það einungis af vísindalöngun, og án þess að setja sjer embættisveginn fyrir mark og mið. Margir stúdentar hafa búið búi sínu sem bændur, og vakið með dæmi sínu og kenningu fróðleikslöngun hjá hinum bændunum og bændaefnunum, og prestarnir vörðu svo litlu til náms síns, að þeir ljetu sjer lynda hin tekjulitlu embætti sín, og voru sjálfir eins og bændurnir, þegar lærdómurinn var frá skilinn; og engri stjett er hið góða orð, sem alþýða vor hefur haft á sjer fyrir námfýsi og fróðleik, eins mikið að þakka eins og hinni fátæku prestastjett vorri, sem hefur lifað með alþýðunni í blíðu og stríðu, og haft við hin sömu kjör að búa.

Þessu er nú allt öðruvísi háttað. Hinn venjulegi skólatími er nú 7 ár, og það er óhætt að fullyrða, að sá maður, sem senda vill son sinn til menntunar syðra hjer úr Norðurlandi, verði að kosta til þess, þegar ferðakostnaður og bókakaup eru með talin, 200 dölum á ári, eða 1400 dölum frá því pilturinn kemur í skóla og þangað til hann tekur burtfarpróf, auk þess kostnaðar, sem hann hefur fyrir að láta kenna honum undir skóla, sem er ekki all-lítill, eptir því hvað skólameistarinn virðist heimta mikið af piltum sem koma í skóla, en það virðist nú reyndar nokkuð mikið í samanburði við það sem fyrir er skipað í skólareglugjörðinni. Þegar kostnaðurinn er nú svo mikill, er von að þeir, sem setja sonu sína til mennta, vilji láta þá ganga embættisveginn, og bætist þá við 5 til 6

hundruð dala kostnaður til að læra á prestaskólanum, eða annars margfalt meira, ef faðirinn vill kosta son sinn til siglingar. það kostar því 2000 ríkisdali að læra til prests auk heimaskólakennslu, og liggur það í augum uppi, að það eru ekki margir, sem hafa efni á að setja sonu sína til bóknáms, og að bændasonum velflestum er þannig sjálfbannað að læra, og að þessi kostnaður er allólíkur því er var á Bessastöðum, því þar lærðu margir, er ekki höfðu annað með sjer að leggja en sumarkaup sitt, enda hrökk það næstum til, þegar pilturinn var kominn á hálfa ölmusu.

því örðugra sem það er nú þannig orðið að afla sjer menntunar í hinum lærða skóla, því meiri nauðsyn er á því, að einhver skóli væri, þar sem unglingar gætu þó fengið nokkra menntun, bæði þeir undirbúning undir skólann syðra, er menn hjer nyrðra vildu láta læra, og aðrir þá menntun, sem hverjum gáfuðum manni er nauðsynleg til þess að geta orðið góður liðsmaður í þjóðfjelaginu, í hverri stjett sem hann er.

þetta hafa menn lengi fundið. Í bænarskrá þeirri um skólamálið, er kom til hins fyrsta alþingis 1845 frá Íslendingum í Kaupmannahöfn, var farið fram á að þeim yrði líka gefinn kostur á kennslu við skólann, sem ekki ætluðu að verða embættismenn, sjómannaefnum, kaupmannaefnum og iðnarmönnum, og hinn núverandi skólameistari hefur einnig borið það upp við kirkju og kennslustjórnina, að utanskólapiltar, sem ekki ætluðu að læra, mættu taka þátt í skólakennslunni í neðsta bekk, að frá skildum gömlu málunum, en stjórnin fjellst ekki á þetta, sökum þess að stiptsyfirvöldin lögðu á móti því[1].

Eins og þörfin er nú mest á því hjer á Norðurlandi að stofna þess konar skóla, eins liggur það líka Norðlendingum næst; og mjög margir eru það líka, sem hafa beðið oss að vekja máls á þessu; en eins og nytsemin, sem af þessum skóla mætti hafa er mikil, eins verða menn að búast við því, að þeir fái ekki slíkt á stofn sett án alls kostnaðar, en þó vonum vjer að geta sýnt fram á, að slíkur kostnaður yrði ekki svo mikill, sem sumir kynnu að leiða sjer í hug.

Hið fyrsta og fremsta, sem við þarf til að geta stofnað skóla þenna, er að fá góða og stóra jörð og hús, og það kostnaðarlaust. þann stað þykjumst vjer sjá gjörla, og eru það Möðruvellir með Friðriksgáfu. þetta verður stjórnin að gefa oss, eða ljá oss leigulaust meðan skólinn stendur, en byggja aptur amtmannshús inn á Akureyri — því þar ætti amtmaðurinn að búa — eða að greiða amtmanni húsaleigu eins og í Vesturumdæminu, og láta hann svo sjálfan sjá sjer fyrir húsnæði. Um þetta verðum vjer allir að biðja í einu hljóði svo að vjer fáum bænheyrslu. Og vjer vonum að amtmaður vor þykki ekki við oss þó að vjer viljum þannig byggja honum út. þegar þetta er fengið, verðum vjer að fá 3 kennara, 1 með 800, 2. með 500 og 3. með 300 ríkisdala launum árlega. Vjer verðum að fá duglegan mann fyrir skólahaldara, sem sjái lærisveinunum fyrir fæði og þjónustu um skólatímann, 8 mánuði fyrir 64 dala borgun, eins og var á Bessastöðum. Hann skal hafa Möðruvelli eptirgjaldslaust, nema kennararnir skulu hafa kýrvöll hver. Skólahaldarinn skal og annast um skólahúsið daglega og um eldivið til skólans, hið síðara fyrir borgun. Hinn efsti kennari, skólameistarinn, skal búa í skólanum, en hinir annarstaðar. Handa þeim þyrfti að byggja snotran bæ, meðan ekki væru föng til að kosta upp á timburhús.

Hinn mesti og næstum einasti kostnaður til að koma upp skóla þessum, ef jörðin og húsið fengist, er þá laun kennaranna 1600 rd., og svo viljum vjer gjöra önnur útgjöld 400 dali á ári; það er 2000 dala útgjöld á ári. þetta eru árleg útgjöld, og þyrfti því að vera fjárstofn til, sem svaraði þessu í leigu, og er það 50,000 dalir. þetta virðist nú, ef til vill, æði mikið fje, að skjóta því saman á stuttum tíma, en þó ætlum vjer að það mætti vel takast, ef nógur væri áhuginn; en það má hæglega haga svo til, að ekki þurfi svo stóran höfuðstól í fyrstu, þó vjer hefðum ætlað það bezt. Á meðan skólinn er svo fátækur, að hann getur ekki goldið kennurum sínum, mætti láta þá, sem í skólann ganga, gjalda kennslulaun, og það er ekki líklegt, að það bægði mjög mörgum frá skólanum. Ef 30 lærisveinar yrðu í skólanum, og hver þeirra skyldi greiða 30 dali í kennslulaun fyrir veturinn, yrðu það 900 rd. á ári, eða hjerumbil helmingur, og væri þá hægra að skjóta saman svo miklu fje, sem á skorti. Ein úrræði væru það og, að amtsbúar ljetu jafna nokkru niður á lausafjártíund í amtinu, og sízt vildum vjer ráða til að lærisveinar þyrftu að gjalda kennslulaun, því mikið er undir því komið, að ungum mönnum sje sem auðveldast að

[1]) Sb. Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands, 17—18. bls.

komast í skólann, svo að sem flestir sæki hann. Vjer getum nú ekki talað meira um kostnaðinn að sinni, en vjer ítrekum það, að menn verða að leggja mikið í sölurnar, þar sem til mikils er að vinna.

þegar mikið er til kostað er von að menn spyrji hvað sje í aðra hönd, hvað unglingar þeir, er settir verði í þenna skóla, eigi að læra, hvort þeir eigi einungis að búa sig undir skólann syðra? það væri nú varla við því að búast, að menn vildu leggja svona mikið í sölurnar til þess að geta einungis fengið kennslu handa hinum fáu piltum hjer úr Norðurlandi, sem ætla að læra og verða embættismenn. En þó að vjer höfum kallað skóla þenna undirbúningsskóla, þá var það þó ekki ætlun vor að þetta skyldi vera hið einasta ætlunarverk hans. það eru fleiri fróðleiksþurfa en embættismannaefnin, og það eru fleiri sem vilja nema en þeir. Vjer ætlumst einmitt til, að efnilegir bændasynir sæki skóla þenna í 2 ár eða lengur, þó að þeir ætli ekki að verða nema bændur. Vjer ætlumst til að í skólanum verði kennt: greinilegt ágrip af veraldarsögunni og landafræðinni, reikningur, danska og enska. þar að auki ætti að kenna vandlega vora eigin tungu, bókmenntasögu vora; hið helzta ágrip af sögu vorri ásamt lýsing landsins, og einkum ætti að gefa unglingunum greinilegt yfirlit yfir allan hag lands vors, yfir rjettindi og skyldur hverrar stjettar, o. s. fr. Auk þessa væri gott, að skólahaldarinn væri sigldur jarðyrkjumaður, er gæti kennt þeim, sem bændur ætluðu að verða, bæði hið bóklega og verklega, er búnað og jarðyrkju snerti. Eins mætti fá einhvern af hinum sigldu stýrimönnum til þess ásamt reikningskennara skólans, að kenna þeim hið helzta um stýrimennsku, er það vildu kynna sjer. Vjer getum varla annað ætlað, en að nógir yrðu til að sækja skóla þenna, ekki einungis af Norður og Austurlandi, heldur einnig að sunnan og vestan. Ekkert virðist oss ætti að ákveða um aldur þeirra, er þenna skóla sæktu, nema þeirra, er ætluðu seinna að ganga í hinn lærða skóla syðra. Vjer höfum hugsað oss, að embættismannaefni ættu að geta lært svo í þessum skóla, að þeir gætu tekið hinn fyrra hlut burtfararprófs, þegar þeir kæmu suður, og ættu svo ekki eptir nema 2 vetur í fjórða bekk.

Rúmið í blaði voru leyfir oss ekki að ræða þetta mál ítarlegar að þessu sinni, en vjer vonum að þetta sje nóg til að vekja athygli þeirra manna, sem með nokkrum áhuga vilja gagn Norðurlands, og vjer vonum að menn geti þó sjeð af því, sem hjer er sagt, að oss vantar ekki nema áræði og samheldi til að koma þessari stofnun á fót. Vjer viljum enn fremur geta þess, að þó að skóli þessi yrði fyrst stofnaður af litlum efnum, þá eru öll líkindi til þess, að hann auðgist skjótt, því líklegt er að efnamenn, sem enga líferfingja eiga, mundu finna það skyldu sína, að styrkja jafnþarflega stofnun með gjöfum og testamentisgjörðum, og að fjárstofn skólans ykist þannig bráðum, eins og líka hæglega mætti auka hann með því, að skjóta árlega fje saman, eða láta jafna niður á amtsbúa tiltekinni peningaupphæð árlega. Efni klaustra og skóla uxu óðum hjá oss á fyrri öldum, og er þó óhætt að fullyrða, að landið var þá aflaminna en það nú er, og því skyldum vjer þá úrættast svo, að slíku megi ekki enn koma á fót? En vjer verðum líka að leiða athuga manna að því, að þegar byrjað er með áhuga, verður að halda áfram með kappi og þreki, og ekki þreytast, þó einhverjar mótspyrnur sjeu. Minnumst þess ætíð, að margar hendur vinna ljett verk.

---

(Aðsent).

## Fjelagsritin nýju.

Mjer brá í brún, þegar jeg las skýrsluna í Fjelagsritunum nýju þ. á., á blaðinu, sem er næst hinu síðasta. Jeg hafði ímyndað mjer, að mikill fjöldi væri keyptur af þessum ritum, því jeg hafði heyrt skynsömustu menn segja, að þau væru hin ágætustu rit, sem kæmu út á þessum árum. Og mjer hafði allt af fundizt þau ómissandi fyrir okkur. þau eru og hafa verið helzta bókin, sem hefur frætt okkur um flest þau málefni, er landinu okkar hefur riðið á miklu, og eitthvað hefur verið gjört við, eða átt að gjöra við á þessum seinni árum. þau hafa bent okkur á og brýnt fyrir okkur svo margt, sem gæti orðið landi okkar og lýð til heilla. þau eru löguð til að stefna huga okkar og vilja að svo mörgu því, sem vel fer og skynsamlegt er, en menn höfðu ekki hugleitt áður. þau hafa skýrt okkur frá flestu því, sem stjórnin og þingin dönsku hafa rætt og ráðgjört opinberlega, um helztu mál okkar, svo það væri okkur ekki hulinn leyndardómur. þau hafa frætt okkur um fjárhag landsins og eignir þess. þau hafa alla vega leitast við að glæða hjá okk-

ur elsku til föðurlands okkar og virðingu og rækt við þjóðerni okkar og móðurmál. þau hafa reynt að koma inn hjá okkur þekkingu og smekk á því, sem fagurt er og lofsvert. Eitthvað mun mega finna í Fjelagsritunum nýju, sem nær til alls þessa. Jeg skal nefna til að mynda fernt, sem kemur við mikilvægum breytingum, sem gjörzt hafa hjer á seinni tíð eða eru nú í ráði: þegar verið var að breyta skólanum, færðu þau okkur skólasögguna, sem færstir þekktu; þegar þing átti að setja, komu þau með ritgjörðir um, hvernig það ætti að verða, og hvernig það mundi haga okkur bezt; þegar verið var að þrefa um verzlunina, fengum við í þeim verzlunarsögu Íslands, svo okkur gæti skilizt, hvað verzlunaránauð gjörir. Og núna, þegar stjórnvitringarnir eru að tala um stöðu Íslands í ríkinu, fáum við að sjá hjerna í 16. ári Fjelagsritanna sambandssögu Íslands við Danmörku. því þegar einn danski vitringurinn var búinn að prjedika okkur rjettlausa, og ætlaði að senda prjedikun sína hingað, til að leiða okkur í allan sinn sannleika, þá varð einn höfundur Fjelagsritanna til að sýna okkur, hversu rjett þessi kenning væri, svo við gætum þreifað á sannleika dönsku kenningarinnar. þó dönskum Íslendingum, t. a. m. eins og jeg hefi heyrt um einhverja sýslumennina okkar, sem fullsaðnir eru í stjórnvizkunni dönsku, þó þeim þyki danska kenningin rjett, kenningin um rjettleysi okkar til að vera sambandsþjóð Dana, þá finnst mjer hún verði að vera röng, og hvað sem á henni er byggt hljóti að snúast okkur til bölvunar, því þjóðerni okkar, landstaða og móðurmál stendur öndvert móti öllum heillum af danskri hjeraðsstjórn hjer hjá okkur.

Jeg er nú kominn út í aðra sálma, en jeg ætlaði mjer. Jeg hafði hugsað mesti fjöldi væri keyptur af Fjelagsritunum nýju, svo ágætum ritlingi, en nú sje jeg það eru ein 240., svo útgefendurnir verða að gefa okkur 80 ríkisdali og svo ¼ af þessum 240 til að kaupa hin fáu, og þar að auki alla fyrirhöfn sína að rita þau og senda. það liggur þó í augum uppi, að svo fátækir menn væru ekki að berjast við þetta, ef þeir væru ekki sannfærðir um, að ritin sjeu okkur gagnleg, og þeir vilja oss sannarlega vel.

þá er annað, sem jeg sje á skýrslunni, þvert móti von minni, að við Austfirðingar í Norðurmúlasýslu kaupum flest ritin, við sem allt af höfum sofið frá landnámatíð. Hjer gjörðust færstar sögur forðum, og færst var ritað hjer; og þá er nú ekki að tala um, hversu vært okkur hefur orðið undir vængjaskjóli einveldisins, stjórnarinnar og blessuðu kaupmannanna í Höfn, þegar enginn þurfti að heyra um neitt nema um eymdina, hver á sínu heimili. — En — Vestfirðingar kaupa færst. þar var þó lengi „líf í landi og ljóshæfur andi." Lengi merkir og miklir menn. Og jeg þekki svo marga á Vesturlandi, að jeg veit þeim kippir þó enn nokkuð í kyn forfeðra, þó það sjáist ekki í því arna, sem jeg er að tala um. Jeg vissi að maður, sem ritar mest og bezt í Fjelagsritunum, er kallaður Vestfirðingur, því vænti jeg þeir mundi flestir vilja eiga ritin hans, þó hann vinni og riti jafnt fyrir okkur alla. Nú þó Vestfirðingar sýni það ekki í þessu, að þeir hafi miklar mætur á honum, munu þeir samt geta þegið, eins og við hinir piltarnir, að hann sje grjótpáll okkar, ef við þurfum einhverstaðar að pjakka, og dugum ekki sjálfir — eins fyrir það, þó við gjörum ekkert til að halda honum við, svo hann sljófgist ekki. Jeg veit að sönnu þið hafið vestra annan pál, en hann verður aldrei ykkar páll, svo þekkjum við hann.

Jeg var að leita í skýrslunni, sem jeg er að staglast á, að ýmsum ágætismönnum, er jeg þekki á Vesturlandi og hugsaði mundu útbreiða Fjelagsritin, en fann alls 3., prestana á Kvennabrekku, Hvammi og Stað. Jeg læt nú vera þessi 7 ritin í Dalasýslunni og þó þau ættu að fara um Snæfellsnes og Mýrar, það er þó skaplegur geymur. En ritin hans sjera Olafs míns á Stað ekki nema 3. það er annaðhvort af tvennu, að engir vilja lesa Fjelagsritin nema hann fyrir norðan Gilsfjörð og Bitru, og því trúi jeg aldrei á alla þá, sem búa þar, svo margir framfara- og ágætismenn, sem jeg þekki og veit að eru á mínu máli um ritin, og þó líklega miklu fleiri, sem jeg kannast ekki við — ellegar þessi 3 rit eru þar á ferð sitt um hverja sýslu, eins og sýslutarfar, og er það ofsett á ekki fleiri hræ, um svo illa vegu, eins og eru á Glámu og víðar á Hornströndum.

þistilfirðingar og Sljettungar voru eitt sinn kallaður næsta lítill lýður; einhverjir vilja þó lesa þar 10 Fjelagsrit. Engan sje jeg kaupanda Fjelagsritanna í henni Reykjavík, og þar eru þó margir góðir Íslendingar, margir sem hafa sömu trú og jeg, að Fjelagsritin sjeu ágæt og þarfleg. En jeg get svo vel skilið því engin eru keypt þar. þeir frjetta þar allt svo fljótt, og vita allt svo glöggt, sem um er ritað í fjelagsritunum. þeir eru menn-

irnir, sem „hugsa og ályktaˮ skynsamlega um allt, og þurfa ekki fræðslu þessara bóka. Enda streymir þar daglega alls konar fræði út frá prentsmiðjunni, svo færstir fá yfir komizt meira.

Mig grunar að þeir, sem jeg legg það hjer eins og til lýta, að þeir kaupa ei Fjelagsritin, segi við okkur hjerna: þið munuð þá vera vaknaðir og vitrir orðnir þarna í Norðurmúla- og þingeyjarsýlunum, þið sem kaupið nærri helming allra þessara góðu bóka. Nei! nei! ekki er, því að hrósa! það þarf nú að ýta við okkur og fræða okkur lengur en fácin ár til þess að hrífi Við höfum verið framtakslitlir frá aldaöðli.

Hvað sem þessu líður, þá finnst mjer við Íslendingar eigum ekki að láta þá skömm liggja eptir okkur að Fjelagsritin verði að hætta, fyrir það við tímum ekki að kaupa þau svo mörg, að útgefendurnir fái þau vel borguð, og jeg vil skora á alla, sem láta sjer annt um þjóðlega framför okkar, alla sem þekkja þessi rit, og eru á líku máli og jeg um þau, að þeir kaupi þau, og stuðli til að þau útbreiðist sem bezt um allt landið okkar.

Austfirðingur í Norðurmúlasýslu.

---

(Aðsent).

## þinghöfðafundur vorið 1856.

Miðvikndaginn næstan eptir Úrbanusmessu var haldinn sýslufundur hjá þinghöfða í vor sem leið. þar voru milli 60 og 70 manns, sumir kosnir heima í sveitunum, en flestir ókosnir og úr næstu sveitum. Varafundarstjóri setti fundinn, og kvaddi menn til nýrra kosninga. þá var kosinn fundarstjóri og annar til vara, svo líka fundarskrifari.

1. Fundarstjóri byrjaði á því að skýra mönnum frá því, sem hann vissi, af brjefum og skýrslum úr sveitunum, um búnaðarbætur liðna árið, og hvað framkvæmt hafði verið af því, sem ráðgert var á þinghöfðafundi í fyrra. Jarðabótunum hafði þokað nokkuð áfram í sumum sveitunum, en lítið í sumum. þó játaði hann og aðrir, að almennt væri vaknaður áhugi hjá flestum, að gjöra eitthvað til bóta jörðunum, Mest hefir verið gjört í veðursælu sveitunum, Fljótsdal og Framfellum, enda hagar þar vel til með sumt, og þar eru margir búendur vel efnaðir, og ábatinn einna mestur þar af hverju sem eykst við töður og úthey manna. Mestar jarðabætur eru þar af vatnsveitingum, og var enn í ár aukið við þær. þar er og töluverð jarðeplarækt, en uppskera varð með mesta móti þetta ár alstaðar hjer. Sáð hafði verið í plægða reiti í Fljótsdal en vaxið lítið, nema þar, sem mest var borið á. Standur áburðareklan þar eins og annarstaðar jarðarræktinni mest fyrir þrifum, og er sumstaðar ekki kostur að bæta úr henni, nema fá svarðtekju í annari sveit. Á nokkrum stöðum hafði fundist svörður og verið tekinn upp þar, sem ekki var fyrr, og reynist nú að víðar má fá hann, en menn hafa hugsað

Einstöku menn höfðu nú í ár byrjað að girða tún sín, helzt í ytri sveitunum.

Skýrsla hafði komið til fundarstjóra, um framkvæmdir jarðabótafjelagsins í Vopnafirði um 6 ár og eru þær miklar og lofsverðar, mest girðingar, túnarækt og plæging, en vatnsveitingar minni og svarðtekja. Mun þessi skýrsla verða birt í öðru lagi,

Heybyrgðir höfðu verið skoðaðar í haust eð var í sumum sveitum og virtust þær sveitir allvel byrgar — Hvergi höfðu fengizt jarðabótamenn, sem gert var ráð fyrir í fyrra, vegna mannekla og hins, að svo fáir kunna að jarðabótum, svo vel fari.

Ekki hafði Jóni landlækni verið skrifað um fjársýkina, en nú komu skýrslur um hana á fundinn.

Verzlunarsamtök höfðu lítil orðið, nema í Fljótsdal og Framfellum og ekki auglýstur þaðan ábatinn, Skuldirnar, einræningsskapur manna og skortur á forgöngumönnum, þeim er margir bera traust til, veldur samtakaleysinu.

Menn höfðu verið keyptir til vegabóta á Vestdals og Fjarðarheiðum. þeir höfðu bætt víða dável mikið af verstu köflum veganna. Til þessa hafði verið varið 55 rd, 64 sk. af gjafafje til vegabóta. Höfðu Seiðfirðingar gefið af því 30 rd. 16 sk. Ekkert hafði enn orðið af því, sem ráðgert var í fyrra, að skrifa í blöðin, um offur til presta, um betri stjórn kristfjárjarða og um tálmun á giptingum ónytjunga.

þakklætisávarpið (sjá þinghöfðafund 1855, 8. grein) hafði verið ritað og sent á þingvöll í fyrra.

Fundarstjóri hafði sent um sveitirnar niðurjöfnunarreikning á verðinu fyrir tjaldið hjá þinghöfða, eins og honum var falið á hendur, og lýstu fundarmenn því, að sveitamenn hefðu tekið vel undir, að skjóta þessu saman, þar sem ekki var búið að því.

2. Var enn talað um jarðabætur, helzt að keppast við að fá sem víðast svörðinn til eldiviðar, auka áburðinn sem mest og fara vel með hann, girða túnin og auka við þau plægðum smáreitum, eptir því sem áburðurinn ykist til að rækta þá. Plógarnir eru nú farnir að fjölga og nokkrir kunna að beita þeim.

3, þrír menn voru valdir til að semja aðalskýrslu um fjársýkina. eptir lýsingum þeim, sem komu á fundinn úr nokkrum sveitum og senda landlækni hana.

4. þá var talað um, að halda fram vegabótum á Seiðisfjarðarheiðunum. En af því vandi er að fá menn, sem kunna vel að því verki, og gjöra það trúlega og forsjálega, var afráðið þetta sinn að fela hreppstjóranum í Seiðisfirði á hendur, að fá svo sem 2 menn, þá er hann vissi bezta, til að gjöra vandlega við einhvern vondan kafla. Lofaði hreppstjórinn að gjöra hvað hann gæti, til að fá þetta framkvæmt. Síðan voru honum afhentir 20 rd., sem enn voru óeyddir af gjafafjenu til vegabóta.

5. Um verzlun var enn rætt, og um fjelagskap til að auka og bæta vörurnar, sporna við óþarfa kaupum, og losa sig úr skuldum. þá var og lesið upp brjef alþingis forsetans í fyrra, um hjálparreglur til að verjast skorti og skuldum. En þær eru að mestu leyti hinar sömu og áður hafa verið ræddar á þinghöfðafundi. Flestum líka þær vel, en lítið kveður að hversu breytt er eptir þeim.

6. Út af þessu var stungið upp á, að stofna frjálsa sveitarsjóði, og fá á leigu með veði nokkuð af sveitarsjóð-

unum, sem nú eru, til að kaupa fyrir korn á sumrum, einkum þegar það er lágt í verði, en kjöt á haustum, og geyma í sveitunum, til að lána fátækum dugnaðarmönnum á veturna og vorin, þegar ekki fæst í kaupstöðum, eða svo þeir þyrfti ekki að sækja sjer björg þangað í illum færðum og þegar korn er hækkað í verði, eins og opt ber við.

7. Nú var talað um að stofna dálitla búnaðarsjóði í hverri sveit, til að kaupa fyrir verkfæri til jarðabóta og til að geta gefið mestu dugnaðarmönnum í jarðarækt og búnaðarbótum, einhver heiðursmerki, Var einn slíkur sjóður nýstofnaður í Fljótsdal.

8. Enn var talað um og hvatt til að senda kosna menn eptirleiðis á þinghöfðafund, og skyldu þeir vera viðbúnir að vera þar lengur en einn dag, ef þörf gjörðist.

9. Þá var borin fram sú uppástunga, að menn leggðu fje saman til að kaupa kynstofn frá Danmörku til að bæta kúakynið. En þeir sem spurt höfðu Dani vandlega um danskar kýr, sögðu þær mundu ei reynast betri þaðan, en þær, sem hjer væru beztar. Enda væri ósjeð hvað kýr gæti orðið hjer góðar, ef menn leggðu sig kappsamlega eptir að bæta okkar kyn, fá sjer kynbeztu kálfa, hvorttveggja kyn, til eldis, og láta ei blandast aptur við verra kyn. Þetta vissu menn reynzlan hafði sýnt hjá einstöku mönnum, sem lengi hafa átt góðar kýr af sama kyni. Fundarmenn lýstu því, að menn væru farnir að hugsa um þetta, og leitast við að bæta kúakyn sitt.

10. Menn voru kosnir til að safna tjaldverðinu því sem ógreitt er.

11. Þá talaði fundarstjóri um sveitastjórnarlögin, sem rædd voru á seinasta alþingi, og bað menn að kynna sjer þau og hugleiða. En flestum virtust þau svo óljós, margflókin og vandasöm, með einhverju útlendu sniði, að þeim kom saman um að kljá sjer ekkert við þau, því þau væru ekki sitt meðfæri.

12. Seinast var margt rætt um prentsmiðjuna á Akureyri, sem kölluð er eign Norður- og Austur-amtsins. Vildu flestir í fyrstu afsala sjer alla hlutdeild í henni, með því þeir gætu ekki átt svo sem neinn þátt í stjórn hennar; sögðu stjórnarmenn prentsmiðjunnar hefðu brotið lög hennar; gefið út á hennar kostnað auðvirðilegar skammir og ónytjú, tekið af öðrum til prentunar ónýtar bækur og illar, er spilltu hugarfari manna, og væru sumstaðar viðbjóður fyrir hvern heiðvirðan mann, og margt var fleira til tínt. Þá urðu nokkrir til að taka málstað prentsmiðjunefndarinnar, og sýndu mönnum fram á, að hún hefði orðið að taka það sem bauðst til prentunar, svo vinnumenn smiðjunnar stæðu ekki verklausir, en stofnunin sjálf of fátæk til að gefa út á sinn kostnað dýrar bækur, sem til hefðu verið, og aðrir treystust ei að leggja upp. Það væri líka minnkun að afsala sjer nú hlutdeild í prentsmiðjunni, þegar hagur hennar væri helzt í vanda; töldu bráðum mundi batna það sem út kæmi og prentsmiðjan rjetta við. Var þá afráðið að eigna sjer enn um sinn einhvern hluta hennar, en óska um leið að við mættum kjósa 2 menn brjeflega í stjórnarnefndina, og skyldu þeir leita atkvæðis hjá forseta þinghöfðafundar (meðan ekki væri sett nefnd hjer í sýslu til þess) um helztu fyrirtæki, þau er prentsmiðjuna snerta. Voru valdir 3 menn til að skýra prentsmiðjunefndinni á Akureyri frá þessu málefni fundarins og ályktun hans.

Skrifað í októbermánuði 1855.

S. G.

---

## Ræða um freistinguna.

Spánskur munkur nokkur var svo hrifinn af fegurð föðurlands síns, að þegar hann átti að leggja út af því, þegar djöfullinn freistaði Krists í eyðimörkinni, sagði hann við tilheyrendur sína: „Það var mikil heppni, mínir elskanlegir, að lausnari vor sá ekki Spán vegna Pyrænæa fjallanna, því annars hefði hann varla getað staðist freistingúna!“.

---

# Auglýsingar.

Í næstliðnum maímánuði fannst hjer á milli Háls og Sigríðarstaða skinnböggull með lömuðu forsigli, sem enginn hefur enn þá leitt sig eiganda að; og bið jeg því Norðra að lýsa því, að í bögglinum eru 8½ alin af þráðerdúk. Hver sem getur leitt sig eiganda að þessu, má leita þess hjá undirskrifuðum mót sanngjarnri þóknun.

Sigríðarstöðum 9. dag nóvemberm. 1856.

Benedikt Indriðason.

Á næstliðnu sumri og hausti höfum vjer skotið saman 20 ríkisdölum ríkismyntar, og sent þá herra Árkivsekretera Jóni Sigurðssyni í Kaupmannahöfn til lítilvægrar þakklætisviðurkenningar fyrir hans góðfúsa starfa, að rita og gefa út á sinn kostnað ritgjörðina „Om Islands statsretlige Forhold“ (um landsrjettindi Íslands), sem nú er snúið á íslenzka tungu í nýjum Fjelagsritum. Framanskrifuðum línum biðjum vjer herra útgefara Norðra, að ljá rúm í blaðinu.

Nokkrir búendur og búlausir í Vallnahrepp í Suðurmúlasýslu.

Jeg leyfi mjer að ítreka þá bón mína við hina heiðruðu umboðsmenn NORÐRA, sem ekki hafa enn sent mjer andvirði hans, að þeir vilji gjöra svo vel að senda mjer það með fyrstu ferðum, því jeg hefi skuldbundið mig til að greiða allan prentunarkostnað hans innan þessa mánaðar loka, en hefi enn ekki fengið borgaðan 4. part andvirðisins.

Akureyri 20. desember 1856.

Sveinn Skúlason.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI,

## HÁLFSMÁNAÐAR-RIT

HANDA

## ÍSLENDINGUM,

## 1857.

Eigandi og ábyrgðarmaður

**Sveinn Skúlason.**






**AKUREYRI.**

Prentaður í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins, hjá H. Helgasyni.

1857.

# YFIRLIT EFNISINS.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletrslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 16. Janúar. 1.—2.

Um leið og jeg læt Norðra minn byrja þetta nýja ár sitt, get jeg ekki látið hann fara svo frá mjer, að hann flytji ekki kveðju mína til landa minna til þess að óska þeim gleðilegs nýárs, og þakka þeim fyrir mig og hann þetta liðna ár. Þegar jeg lít yfir þetta ár, finnst mjer jeg hafa gilda ástæðu til að þakka þjóð minni fyrir viðtökur þær sem jeg hefi fengið síðan jeg kom heim til Íslands, og jeg treysti því, að jeg hafi þó hitt á að rita í Norðra svo, að hann sje við skap margra. Því þó að jeg hafi fengið nokkur mótmæli gegn hinu og þessu, þá hefi jeg þó þá von, að flestum hafi líkað blaðið allvel, að minnsta kosti ræð jeg það af því, að kaupendur hafa fjölgað töluvert, og margir skrifað mjer til um að fá blaðið frá þessu nýári, enda var þess öll þörf, því margir höfðu gengið undan merkjum Norðra um ársmótin 1856, svo að Norðri hefur víst þetta ár haft þriðjungi færri kaupendur en frændi hans syðra. Einkum og sjer í lagi tjái jeg útsölumönnum blaðsins kærustu þakkir mínar fyrir starf það og ómak, sem þeir hafa haft fyrir blaðinu, og sem svo margir þeirra hafa gjört án alls endurgjalds. Þeim mönnum sem hafa sent mjer góðar og skemmtilegar ritgjörðir í Norðra tjái jeg enn þakklæti mitt, og óska þess og vona, að fleiri verði til þess þetta ár, því betur sjá augu en auga, og ætíð er hættara við einhæfni þar sem ekki koma fleiri manna skoðanir í ljós. Norðri byrjar nú ferð sína þetta ár með góðri von um að honum verði víða lofað að vera þar sem hann hefur ekki fyr komið, og að margir, sem áður hafa verið vinir hans, hverfi til hans aptur, því hann býður hverjum manni sjálfdæmi, sem sakir þykjast eiga á hendur honum, og þótti það boð gott í fyrndinni.

Jeg ætla nú eins, og jeg hefi gjört ráð fyrir, að stækka Norðra, svo að hann verði 18 arkir að stærð, og kosti einn ríkisdal. Í hverri örk ætla jeg að hafa kafla úr einhverri skemmtisögu eins og tíðkast í flestum blöðum erlendis, og ætla jeg slíkt muni auka vinsældir blaðsins, ef jeg verð svo heppinn að velja sögurnar, að þær líki lesendum mínum.

Þá er nú eptir að minnast á útsendingu blaðsins, sem margir hafa kvartað yfir eins og von er. Jeg get ekki neitað því, að blaðið í hinar fjarlægari sýslur hefur opt orðið að liggja hjá mjer stundum yfir mánuð, áður en jeg hefi getað fengið ferð, sem mjer hefur þótt ráðlegt að senda með. En jeg sje engin ráð að svo komnu til að gjöra út menn til að bera blaðið, því kostnaðurinn yrði svo afarmikill. Jeg get því ekki heitið öðru en því, að gjöra allt sem í mínu valdi stendur til að koma blaðinu skilvíslega, og biðja alla góða menn að greiða veg þess sem fljótast og bezt, þegar það er á ferð.

**Sv. Sk.**

---

## Svar til B. Gröndals eptir sjálfan B. Gröndal, og sem vel á við um B. Gröndal.

Genus irritabile vatum.
Á íslenzku:
Hið uppstökka skáldakyn.

**„Svona var hann að dinta sjer í djöfulsins gríð, að dinta sjer með lætin og ólætin fríð [1]“,**

**„Dýrðarlega kveðurðu draumasönginn þinn, en dintaðu þjer ekki svona, bláfuglinn minn [2]“.**

Mig skal ekki furða á því, þegar menn lesa hið mælskuríka svar Gröndals (Þjóðólfur 9. ár, númer 4—5),

**þó allir stari stilli mærðar á,**
**og standi upp á tá á öðrum fæti [3].**

---

[1]) B. Gröndal: Kvæði og nokkrar greinir um skáldskap, Kmhöfn 1853, 34. bls. —. [2]) Sömu bók, 36. bls. [3]) Sbr. B. Gröndal: Drápa um Örvar-Odd, Reykjavík 1851, 85. bls.

(Aðsent).

## Um heyþurrk í votviðrum.

Þegar jeg hefi heyrt eða lesið, að hey hafi hrakizt til skemmda eða með öllu orðið ónýtt sökum votviðra, hefur mjer jafnan sárnað að hugsa til þess, hvílíkum hnekki þetta atvik væri ollandi í peningshaldi og búnaði manna; því opt hefur það verri eptirköst í góðum grasárum, en grasbréstur með góðri nýtingu. Það er auðsætt, að heyin verða bæði ódrjúg og óholl þegar þau hrekjast. Svo verða þau ódrjúg, að eigi er unnt að gefa kúm til fullrar nytjar, nje sauðfje til fullra holda, sízt með útigangi, og verða líka hrakin hey á stundum svo óholl skepnum — auk þess sem vanheilindi fylgja optast megurðinni —, að svo mikil lús og óþverri hefur komið á þær, að orðið hefur að sía kúamjólk, þó að þær hafi verið við og við baðaðar, og mjólkin orðið óholl einkum ungbörnum, nema eldborin, og þessu líkt hefur verið um aðrar skepnur.

Þess sárara hefur mjer orðið að hugsa til heyja skemmdanna, sem jeg hefi ekki getað dulizt þess, að þær sjeu að mörgu leyti mönnunum að kenna, og að þeim, sem til þess voru færir, hafi ofmjög gleymzt að reyna að ráða nokkra bót á þeim með því að rita um beztu meðferð á heyjum í votviðrum, því til þessa tíma hefur það svo að segja orðið út undan, og er gleymska þessi því undarlegri, sem menn þó hafa orðið, og verða í ára og alda raðir við og við að mæta þessari óblíðu náttúrunnar, votviðrunum. Jeg ætla því ekki óþarft, að vekja máls á efni þessu, með því að geta þess í fáum orðum, sem mjer hefur reynst affarabezt og jeg ætla hagkvæmast viðvíkjandi heyþurrki í óþerrum, til að verja hey skemmdum, og verka þau eins og bezt má verða.

Það sem einkum ollir heyjaskemmdum í votviðrum er það: að vatnið sem að ofan kemur rennur svo opt í gegnum heyið, og liggur svo lengi í því, að það dregur á burt með sjer lög grassins, sem er aðalnæringarefni skepnanna, er það áþekkt því, þá menn afvatna um of matvæli er í salti hafa legið. Sje heyið í föngum, fletjast þau ofan í jörðina blauta, og gengur þá vatnið bæði ofan og neðan í heyið, bíði það svona þess, að það fari að sortna, er það merki þess að rotnun eða fúi er í það kominn. Fái þá hey þetta þurrk, er það snarpt átaks og afar ljett í allri meðferð og að því skapi eins til fóðurs, því ekki er þá eptir nema hulstur stráanna, en mest allur eða allur frjósafi úr runninn. Fyr skemmist hey í votviðrum þá hægviðri og mollur ganga, en þá vindasamt er, einkum framan af slætti, og ber það til þess, að vindurinn þurrkar nokkuð úr því og ver það fúa; mest skemmist hey þegar það þornar nokkurn veginn og alvöknar svo aptur. Aðalvörn heysins fyrir skemmdum er í því fólgin, að ekkert eða sem minnst vatn nái að því að komast, eptir að það er slegið, og að það vatn sem í það kemur, náist sem fyrst úr því, verður því að haga svo verkum, að þessi tilgangur náist sem bezt, og ríður þá á að slá í votviðrum á þurrlendi hverja þá stund sem úr jörð þornar, og reyna til að ná þá vatninu úr því heyi jafnframt er á þurru liggur eptir því sem verð-

---

## Maurice og Genevieve,

eður

### Munaðarlausu tvíburarnir (frönsk saga).

Þegar ferðamaður fer leiðar sinnar suður eptir Frakklandi frá Parísarborg og stefnir á staðinn Orleans og hið fagra Loirefljót, liggur vegur hans um mikinn hluta af sljettlendi því, sem Beauce heitir. Sljettlendi þetta er stórt ummáls, og yfirborð þess mjög jafnt, og þar eð landið er ávaxtarsamt, er það allt ræktað, og standa þar mörg smáþorp, sem bændur búa í, og aðrir er þar taka þátt í sveitastörfum. Á Frakklandi er það sjaldgæft, að bændabæirnir standi hver út af fyrir sig í miðri landareigninni. Bændur og aðrir jarðyrkjumenn búa þar margir saman í þorpum, og er hinn bezti fjelagsskapur og gott samkomulag meðal innbúanna.

Þannig eru nú þorpin á sljettlendinu „Beauce“. Í hverju þorpi stendur kirkja, gamalt gráleitt hús með turni, sem sjá má langt að á sljettunni. Við hverja kirkju er prestur. Þessir prestar eru auðmjúkir og iðjusamir klerkar, sem vinna í drottins víngarði fyrir lítið endurgjald, þeir eru blíðir í viðmóti, og hinir beztu ráðanautar sóknarbörnum sínum, þegar einhverr vandi bera að höndum, og unna því allir þeim hugástum.

Fyrir fáum árum bjó fátækur maður nokkur í einum af þessum smábæjum, bærinn hjet Artenay, mesta friðsemdar og iðnaðarþorp, maðurinn hjet Jules Asselin. Jules var iðnaðarmaður, og hafði numið hjólsmíði, og smíðaði hjól í kerrur þær, er bændur höfðu til að flytja afla sinn til markaðarins í Orleans. Kerrur þessar eru lítt vandaðar að smíð, en eru sterkar, og geta borið mikið; kúm eða nautum er optast beitt fyrir þeim. Jules Asselin hafði næga atvinnu af að smíða hjól í kerrur þessar; hann var maður stilltur og iðjusamur, og unni mest heim-

ur, en slá votviðrisdagana á votlendinu, sje þess kostur fyrir vatni, og grípa hverja þá stund sem upprofar til að koma heyinu á þurrt, eða flytja það á þerrivöllinn svo allt sje til taks, þegar flæsustundina ber að, missist mörg þerristund, og margur heyhestur fer til skemmda sökum vangæzlu manna og óframsýni í þessu tilliti; það er opt til fyristöðu í þessu, að túnin eru þakin með heimflutt hey, en þegar svo á stendur, verða menn að flytja vota heyið á hvern þann sljettan og þurrlendan blett sem í nánd fæst, og mega menn ekki hlífa sjer við því, þó að svo kynni að virðast sem það væri nokkur tvíverknaður.

Það er almennur vani, hjer vestra, að raka hey það, sem nokkuð hefur þornað úr, upp úr flekkjum í föng eða smásæti, og segja menn að það blási betur svona en öðruvísi meðfarið, en ætíð er þessari aðferð samfara kvíði sá, að heyið í þeim rigni svo, að það gagnvökni á ný, enda bregzt þetta mjög sjaldan í votviðrum, svo nú verður að vinna sömu vinnuna upp aptur að sama heyinu, og það stundum upp aptur og aptur, en hitt heyið, hvort það er svo mikið eða lítið, er þó látið stundum bíða þar, sem það var slegið, í niðurrigndri ljá, föngum eða flekkjum, þangað til þetta kemst frá, sem er þá ásamt hinu að hrekjast. — Þegar hey er grasþurrt eða betur, enda þótt í því sjeu lýskrur og blautt skarn og ljámýs, setja menn það í lanir ýmist, langlanir eða krosslanir, en vatnið gengur í þær, ef nokkra vætu gjörir að mun, og þar hjá rjúka þær um koll, ef hvassveður gjörir, einkum langlanirnar[1], svo því verki er opt líka sóað, sem að þessu er unnið. — Þegar hey hefur náð að þorna betur, þó að ekki sje í garð eða hlöðu berandi, þá er það gömul og ný venja, þar sem ekki er venja að sæta einungis í smásæti, að setja heyið saman í galta, það er stórsæti tví- eða fleirsett, eru þeir ýmislega lagaðir, bæði ferhirndir og aflangir; er opt hafður á þeim hryggur, í stað þess að kollurinn á að vera hár og hvass, þegar vætu á að verja. — Það er auðsætt, reynslan er líka búin að kenna það, að öll þessi viðleitni, er ekki einhlít til að verja heyið í votviðrum, svo að vatnið dragi ekki burt úr því næringarefni fjenaðarins, og að það mun ekki vinnast með öðru móti betur en því, að heyið í sætingunni fái þá lögun, að þó vatnið lemji á því utan, að það geti hrunið ofan eptir því, án þess að það gangi í það, svo um það geti súgað að innan, og það geymist óskemmt, þó um líði að þerrir fáist. Til þess eru sívalir galtar bezt lagaðir, sjeu þeir vel settir, stalla og holulausir, jafnuppdregnir og háir, eins í lögun og sikurtoppur, og það er slæmri setningu að kenna, eða því að galtarnir hafa aflagast, sem opt ber við, ef í þá gengur vatn til muna, enn síður til skemmda, þó miklar og langar rigningar gangi, og á því enga samansetningu heyja í vætutíð að við hafa, nema þessa[2]. Allt hey, sem úr hefur þornað

[1]) Krosslanirnar eru miklum mun betri enn langlanirnar og verst hey vætu og foki í þeim vel settum, eins og illa settum göltum eða betur.

[2]) Jeg hefi heyrt, að aflangir galtar svo settir: tvær fangaraðir á þykktina, seilingar háir eða meir og lángir eptir heymegni þjett troðnir, kúpt mændir neðan frá jörð til beggja enda, með jafnuppdregnum hliða ávala upp úr, verjist undra

---

lllslífinu, og má þá geta nærri að hann kvongaðist, og bjó í litlu húsi í bænum út af fyrir sig.

Það var fallegt að sjá græna grasflötinn hjá Artenay á helgidagakvöldum sumar og haust. Eldra fólkið sat þá úti fyrir dyrum sínum í sólskininu, og skemmti sjer við að horfa á leikvöllinn þar sem allir unglingarnir stigu dans í smáhnöppum eptir hljómi fiðlunnar, sem einn af bæjarbúum kunni að leika á. Öllum ferðamönnum ber saman um, að gleði þessi fari þar fram mjög siðsamlega. Fólkið er glaðlegt í yfirbragði, og eyðir þannig hvers dags áhyggjum sínum með saklausum skemmtunum, söng og dansleik á tyllidögum.

Einn dag, þegar Jules ásamt grönnum sínum sat fyrir framan húsdyr sínar með konu sinni, og horfði á leik unglinganna, voru börn hans Maurice og Genevieve einnig að leiknum. Jules og þau hjón unnu börnum þessum yfir allt fram. Börn þessi voru tvíburar, og þó annað væri sveinbarn, en annað meybarn, voru þau þó mjög lík ásýndum, og eins var allt lundarlag þeirra mjög svipað.

„Mikið höfum við guði að þakka“, mælti Jules einu sinni við konu sína, sem hjet Lisette, „að hann hefur gefið okkur 2 börn svo góð, hraust og heilbrigð. Það er mikil blessun fyrir fátækan mann, þegar hann þarf ekki að sjá börn sín veslast upp, eða það sem verra er, að þau sjeu illa skapi farin“.

„Víst megum við vera þakklát“, svaraði konan. „Jeg hefi aldrei sjeð þeim verða misdægurt síðan þau voru kornung þó er jeg reyndar hrædd um, að Maurice verði ekki svo sterkur sem iðnaðarmaður þarf að vera, og sjálfsagt liggur það þó fyri honum. En bæði hann og systir hans eru álitin efnilegustu börnin í bænum, og herra presturinn sagði við mig hjerna um daginn, að það væri fallegt að sjá hve mjög þau elskuðu hvort annað. — En Jules minn, hvað

vatnið, hvað lítið sem vera kann, og allt það hey, sem slegið er á þurru í þurru veðri, á að setjast upp í þá á engjunum áður enn það vöknar, og mun þessi meðferð heyja hagkvæmari en hver önnur í votviðrum, enda fyrri bluta sláttarins. Við þetta er þó sá athugi, að bragðnýtt hey sígur meira í galta sett en það eldra, svo þeir verða, þegar um líður, oflágir og flatir til að verjast því, að vatnið gangi í þá, nema við sje gjört, með því móti, að gjöra 1 úr 2, eða þeir sjeu upp á annan hátt lagaðir; setjast mega þeir úr heimreiddum sátum, ef við liggur væta, en betur fer að saxa það hey í föng áður, því þá blása þeir betur[1]. Ekki eiga þeir að standa í skjóli við hús eða hæðir sje annars kostur, og ekki á flekkstæðunum sjálfum. heldur utan við þau, svo flekkstæðin verði notuð að fullu nær sem á liggur, annaðhvort til að þurrka eldra hey til innburðar eða vott hey af engjum. En með því að ekki má renna undir galtana, en opt ekki góð stæði til í nánd, þarf að búa þau til, annaðhvort með því móti, að bera mold í þau, svo ávali verði á, eða lágur hóll og tyrfa svo yfir, eða laga einhverja þúfuna til þess, og er það auðsætt, að þetta á að gjörast áður en á stæðunum þarf að halda, en ekki eiga þau að vera svo þjett, að skjól verði á hvern galtan af öðrum. Eptir því eiga galtarnir að vera smáir eða stórir, sem heyið er, sem í þá er borið; úr illa þurru heyi, og kostagóðu, eða töðu, verða þeir aða vera litlir svo sem 1 — 2 hestar, en því betri eru þeir ávallt, sem þeir eru hærri að tiltölu eptir heymegni, útheyisgaltar, einkum úr loðnu grasi mega vera stærri, t. a. m. 2—4 hestar; en við því verður að gjalda varhuga, að ef í göltunum hitnar, eða þeir aflagast með öðru móti, að gjöra strax við, svo ekki gangi vatnið í þá, Eptir því sem líður á heyvinnutímann, og í veðri kólnar, haldist þá rigningar við, eða komi votviðri á ný, er opt bezta ráðið, að setja allt nýslegið hey í galta, hvernig sem veður og slægja er, sje annars hraufað við heyinu til raksturs, en þegar menn vegna bágrar sumartíðar eður annara orsaka, verða að halda áfram heyskap svo lengi sem verður að haustinu, á aldrei að skilja við hey öðruvísi en í sívölum göltum, og með því móti verður sjeð við þeim skaða, sem opt kemur af því, að heyið verður undir fönn eða fast í klaka, af því það er skilið við það í föngum[1]. Opt mun svo standa á, að galtastæðin vanta, þar sem föngin eru sett í rakstrinum, bregða menn þá ljánum á einhverja þúfuna, sem hjá er, og snara henni í lautirnar undir galtana, og er það fljótunnið. Eins og sá ótti fylgir fanga og lanasetningum, og að nokkru leyti líka ferhirndu galta setningunni, að heyið í þeim vökni á ný og hrekist, eins þykir að sínu leyti þeim

vel í rigningum, og að hey verði vel í þeim, þó eigi sje nema grasþurrt, en jeg verð þó að álíta sívölu galtana betri, nema ef þeir kynnu að verða veðurnæmari í ofviðra byljum.

[1]) Opt fer líka vel á því, að bera smáa galta, sem nokkuð hafa staðið, saman í stóra, og láta þá svo standa; þarf þá heyið ekki annan þurrk, sje það eigi mjög megnismikið og borið saman grasþurrt, ef ekki rennur vatn í galtana.

[1]) Að skilja við hey í flekkjum að kvöldi dags á úthallanda slætti, eins og sumstaðar er títt, er sú fásinna, sem allir ættu að varast, því það kemur mjög sjaldan að notum, en hættan og skaðinn vofa alla jafan yfir.

---

kemur til að þú ert svo áhyggjulegur? Hvað gengur að þjer?

„Ekkert, Lisette; jeg var einungis að hugsa —“.

„Þú varst einungis að hugsa! Segðu mjer hugsanir þínar. Þú veizt að þú átt ekki að hafa nein leyndarmál fyrir mjer, litlu konunni þinni“.

„Þú segir það satt, góðin mín; en jeg varð áhyggjufullur, af því að mjer datt í hug, hvernig ganga mundi fyrir þessum barna-aumingjum, ef forsjóninni þóknaðist að taka okkur frá þeim“.

„Talaðu ekki svona, Jules; jeg verð svo hrygg í huga. Þú veizt að við erum bæði ung enn, og mjer sýnist líklegt, að við eigum mörg ár ólifuð. Við skulum vona þess, og gegna skyldu okkar sem bezt á meðan við lifum. Þú manst eptir, að presturinn sagði í ræðunni sinni á sunnudaginn, að það sje mikið varið í, að maðurinn þekki skyldu sína, en miklu meira sje það þó vert, að hann gegni skyldum sínum! Og enginn annast betur um konu sína og börn en þú gjörir. Þess vegna bið jeg þig að vera með glöðu bragði“.

„Jeg skal gjöra það. Mjer datt þetta snöggvast í hug. En nú fyrst mjer dettur það í hug, ætla jeg að vanda uppeldi barnanna sem jeg hefi bezt föng á. Jeg ætla að senda þau í skólann, undir eins og þau fá skynbragð á að læra, og sjálfur ætla jeg að kenna þeim heima það sem jeg get. Jeg ætla sjálfur að kenna Maurice að teikna og búa hann þannig undir handiðn sína“.

„Já það er óskaráð! Og jeg skal kenna Genevieve að sauma og spinna, og allt innan húss. Það verður gaman að sitja við eldinn og kenna þeim. Og þá syngjum við öll eitthvert snoturt kvæðiskorn, til að mynda:

Snemma á vori svífur svala,

eða eitthvað því um líkt“.

Jules Asselin og kona hans framkvæmdu þessa ætl-

vænt um, sem búnir eru að reyna þessa galta, að sem mest hey komist upp í þá, þó að lítill sje á því þurrkurinn og opt enginn, einungis að þeir haldi þeirri lögun sem á þeim á að vera og áður er á vikið. Það ríður á, þegar þessir galtar eru settir, að það gjöri handlægnir menn; en aðferðin er þessi: menn setja fangahring eins stóran og menn ætla að koma miklu heyi í galtann; verður þá að greiða í sundur ytri hlið fangganna, en þrísta hinni innri saman; sje heyið illa þurrt, er fangahringurinn ekki hafður stærri en svo, að eitt fang nægir í miðjuna, til að binda galtann saman með, þá á ætíð miðfangið að vera hæst, svo út af halli á allar síður; á þessu lagi að halda upp úr, og varðar mest að kollinum sje vel þríst saman á alla vegu, og hann sje mjór, en hæðin á þessum göltum karlmanns seiling; sje galtinn hafður stærri, verður að standa upp á einhverju, meðan kollurinn er lagaður, svo að hæðin fáist nóg við ummálið, þegar hey er svo þurrt að í garð er berandi, og því verður ekki í það sinn komið við, eður það þykir oflítið til uppburðar í hey, er ráðlegast að setja það í galta, og eru þeir þá látnir halda sömu lögun og strax var nefnd, en hafðir svo stórir, að upp í þá er farið og troðnir og lagaðir sem bezt, þarf þá að verja þá með voðum, eru þær víða til hjá efna og hirðumönnum hjer vestanlands [1]. Voðir þessar eru lagaðar eins og hettur með lykkjum neðan í, og er band dregið í þær, sem voðirnar eru bundnar með í veðrum um galtana. Meðan galtarnir eru að síga, þarf að líta eptir, að þeir hallist ekki, og þegar frá líður verður að taka losið, sem fellur niður með þeim, í burtu, svo að það rigni ekki og blásið geti með rótum galtanna.

(Framhaldið síðar).

[1]) Þessu veit eg trauðlega yrði komið við til hlítar í heyafla sveitum þar sem sætt er á sumum heimilum á stundum í einu þurrt hey í galta, svo að þeir skipta mörgum tugum.

## Brjef til Kaupmannahafnar[1].

### II.

Það er nú orðið svo langt síðan að jeg skrifaði þjer, og jeg á þjer svo mörg brjef að gjalda, að það er von þó að þú vonist eptir löngu brjefi frá mjer um ýmisleg efni; en það verður nú að bíða, þangað til að vora fer og hlýna, því nú get jeg varla skrifað fyrir kulda. Jeg ætla einungis að skrifa þjer núna lítið eitt um lagaskólabænarskrána, sem þú manst, að við höfðum einu sinni mikinn áhuga á; og ætla jeg að segja þjer álit mitt um meðferð alþingis á því máli, en jeg vonast eptir að fá að heyra hvað þjer ytra hugsið nú um það mál.

Það tókst vel og heppilega til, að herra prófessor Pjetri var send bænarskráin, því jeg ætla að enginn annar hefði fengizt, sem hefði fylgt málinu eins vel fram og hann gjörði, bróðir hans hjálpaði honum einnig vel, og jeg virði það mikils, að alþing skyldi ekki fella það mál, þrátt fyrir alla mótstöðu sumra lögfræðinganna, og þar á meðal konungsfulltrúa, sem allir urðu dauðhræddir um, að allri lögfræði mundi hnigna, og allt af

[1]) Sbr. Norðra 1856, nr. 13—14.

---

un sína, og lifðu glöðu og ánægðu lífi, þangað til tvíburarnir voru 9 vetra gömul. En hver getur sjeð fyrir fram raunir hins komanda dags? Einn morgun gekk Jules til vinnu sinnar eins og hann var vanur, en um kvöldið lá hann lík. Glaðværðin var skjótlega snúin í harm. Jules var kvaddur til að gjöra að vagnhjóli. Vagninn var hlaðinn og steyptist um koll, og varð það hans bani. Hann varð harmdauði öllum sveitungum sínum, og allir aumkuðu ekkjuna og veslings tvíburana.

En sjaldan er ein bara stök. Lisette, sem var mjög viðkvæm í eðli sínu, þoldi ekki þessa hastarlegu ógæfu. Hún dó af harmi innan þriggja daga, og bæði voru lögð til hvíldar í eina gröf.

Þessi annar missir tvíburanna vakti meðaumkvun allra í nágrenninu. Þau voru nú munaðarlaus á bernskuskeiði. Hjólsmíðameistarinn sem Jules hafði unnið hjá, kvaðst skyldi vera þeim í föðurstað, og tók þau á heimili sitt, og er slíkt almennt meðal alþýðu á Frakklandi.

Vjer getum nú farið stutt yfir 5 næstu árin. Á þeim lærði Maurice handiðn föður síns, og systir hans stundaði gagn fósturföður síns á allar lundir, er hún mátti. Þá misstu þau einnig þenna fósturföður, og sonur hans, sem tók við eptir hann, var ekki vel til munaðarleysingjanna. Drengurinn var rekinn til harðari vinnu en kraptar hans leyfðu, og systirin var látin ganga í allt hið versta, svo að þakklætistilfinningin við hinn dána fósturföður gat ekki lengi sætt þau við þrældóm þann, er sonur hans lagði þeim á herðar.

Tvíburarnir hefðu nú getað fengið nægilega atvinnu sitt í hverju lagi, en þau unnust svo mikið, að þau vildu heldur líða allan skort en skilja að samvistum. Að vinna vikum saman á bændajörðum langt í burtu, og skilja við Genevieve meðal ókunnugra manna, sýndist Maurice

göflum ganga, ef að vjer lærðum ekki lögin af háskólakennurunum dönsku, sem þeir nú bera slíka staklega lotningu fyrir, eins og þeir væru nærri því uppspretta allrar vizku. Jeg held þú brosir þegar þú lest, að þeir eiga að vera stálbakaðir í íslenzku allir lögfræðiskennendurnir ytra, þar sem þó enginn þeirra mun vera bænabókarfær í henni, ellegar þegar þeir á þinginu eru að gjöra hann Arnljót okkar að þúsundþjalasmið svona öldungis upp úr þurru. Vjer urðum þess nú varir, hversu **rjett, óvilhallt** og **ræki lega** hann Larsen ritaði í fyrra um stöðu Íslands í ríkinu, þar sjáum við hversu holl lagakennslan við háskólann er oss Íslendingum, ef vjer tækjum öll orð hans góð og gild, og Jón Sigurðsson hefði ekki gjört barn í söguna fyrir honum. Viðlíka mundi nú verða sjerstaka kennslan í íslenzkum lögum við háskólann, ef dönsku prófessorarnir ættu að fara að kenna það; og þó að konungsfulltrúinn hefði ekki mikinn gáning á þjóðernisandanum, sem mundi verða í íslenzka lagaskólanum, þá segi jeg fyrir mitt leyti, að jeg hefi ekki betri trú á þeim þjóðernisanda, sem slík kennsla við háskólann getur komið inn hjá lögfræðingunum, ef að þeir festa trúnað á hana. Jeg er öldungis sannfærður um, að í lagaskóla hjer á landi mætti, með helmingi minni kostnaði búa embættismannaefni helmingi betur undir embætti hjer á landi, á helmingi styttri tíma heldur en til þess þarf að lesa lög ytra. Þetta kann nú að þykja gífurlegt.

Það var ein aðalástæðan, er höfð var á móti stofnun lagaskólans, að embættin væru svo fá, að lögfræðingarnir yrðu of margir í þau, og mundu þeir svo verða lagasnápar, og siga alþýðunni upp á móti yfirvöldunum, eða að öðrum kosti mundu svo fáir fara í þenna skóla, að ekki væri kostandi upp á hann. Henni var nú hrundið allvel þessari ástæðu, en þó þótti mjer líka mega tilfæra það, að öll nauðsyn er á, að allir umboðsmenn hjer á landi vissu nokkuð í lögum, og víst mætti búast við því, þegar kostnaðurinn væri ekki meiri að læra lögin í þessum skóla en gjört er ráð fyrir, að menn mundu læra þar lög til að standa nær til að fá umboðin, þó að launin sjeu lítil fyrir störf þeirra, og ættu þeir þá hægra með að standa í sporum sýslumanna, þegar á þarf að halda.

Það var nú í þessu máli eins og svo mörgum öðrum, að mest var fyrirstaðan með kostnaðinn. Nefndin stakk upp á að láta alþing jafna kostnaðinum niður á landið, ef hann fengist ekki hjá stjórninni, en þá ruku sumir upp til handa og fóta, og hjeldu að stjórnin mundi verða bálreið, og halda að Íslendingar vildu draga völdin úr höndum sjer, og þetta væri sama og heimta að alþing fengi að ráða skattgjaldslögum. Þessi hræðsla í þinginu er hálfkímileg, þegar það er borið saman við það, sem nefndin í fólksþinginu danska, sem sett var til að skoða fjárhagslögin, fór fram á við dómsmálastjórann, að h e n n i þ æ k t i æskilegt, að a l þ i n g f e n g i v a l d t i l a ð á k v e ð a u m i n n g j ö l d o g ú t g j ö l d a f Í s l a n d i, og hann tók þessu vel. Það varð nú samt ofan á, sem mjer einnig virðist rjettast, að

---

gagnstætt skyldu sinni, enda gat hann ekki sjeð af henni, og ef að G e n o v i e v e tók að reyna að sama eins og móðir hennar hafði kennt henni, hjá einhverri saumakonu í bænum, þá hafði hún engan frið fyrir þeirri hugsun, hver mundi sjá um M a u r i c e, búa til mat hans, og þjóna honum, og olli þetta allt saman, að þau urðu að vera saman hvað sem í skærist.

Þannig börðust nú tvíburarnir fyrir lífi sínu, þangað til ríkur bóndi aumkvaðist yfir þau, og tók þau bæði í vist hjá sjer, því hann komst við af hinni staklegu elsku, er þau báru hvort til annars, og þau ljetu sjer lynda hverja helzt skilmála sem þeim voru boðnir, þegar þau fengu að vera saman á einu heimili.

Hjer leið þeim nú mjög vel í 2 ár. M a u r i c e hafði nóg að gjöra á þessu stórbúi að smíða og gjöra við akuryrkjuverkfærin, sem var handiðn hans, og stundum gekk hann líka að verki með öðrum mönnum, en systir hans hafði nóg að gjöra við heimastörf, og þroskaðist hún vel og var hin glaðlyndasta stúlka. Vinnan varð þeim ljettari, þegar þau gátu sjest einu sinni á dag, og þegar þau sátu á brekkubarði nálægt bænum á sumarkvöldin, voru þau svo sæl og ánægð, að þau óskuðu einskis meira, og hugsuðu aldrei um að tíminn og raunir mundu breyta þessari yndislegu stundu.

En vegur þeirra, sem unnast, er ekki ætíð sljettur. Það var uppskerutími í B e a u c e, hinn mesti annatími, þegar allir ungir og gamlir starfa af alefli. M a u r i c e var einlægt fyrstur manna á akurinn, og gekk seinastur frá verki. Þó að hann væri ekki sterkur, var hann þó hinn liprasti maður að verki. Eitt kvöld var hann að keppast við að setja toppknippi á háan kornstakk, og festa það, því stormur vofði yfir með regni, og eldingar voru farnar að ganga; þá laust allt í einu ein eldingin hann niður af stakkinum mállausan og tilfinningarlausan.

biðja stjórnina að leggja til fjeð til að stofna lagaskólann; og er vonandi, að hún verði við þeirri bæn alþingis, því hvergi hefur hún verið eins fús að rjetta oss hjálparhönd eins og til að kosta til lærða skólans og prestaskólans, og þörfin og gagnið af slíkum lagaskóla finnst mjer ómetanlegt, og jeg get ekki annað ætlað en að kennslan verði oss þannig svo miklu hollari, að það vinni það upp, sem lesið er meira við háskólann; og líka er það víst, eins og líka var hreift á þinginu, að margt sem lesið er utanlands kemur lögfræðingunum að litlum eða engum notum, þegar þeir verða embættismenn hjer á landi. Vel og rjett þykir mjer það hugsað, að koma skólanum svo fyrir, að einhverjir af landsyfirrjettardómendunum geti kennt sumt í skólanum. Ef að fjölgað yrði dómendum í honum, eins og öll þörf er á, og enda hvort sem er, er líklegt, að þeir geti varið nokkrum tíma til þess frá öðrum störfum sínum. Jeg hafði hugsað mjer, að þeir eður aðrir lögfræðingar syðra gætu haft svo mikinn þátt í kennslunni, að ekki þyrfti nema einn yfirkennara yfir skólanum.

Jeg vonast eptir að þjer ytra skrifið eitthvað um lagaskólamálið, annaðhvort í Fjelagsritunum eða annarstaðar, því slíkt mál má ekki niður falla, og jeg treysti forstöðumanni hinnar íslenzku stjórnardeildar til að styðja þetta mikilvæga málefni að því leyti sem hann getur.

Meira skrifa jeg þjer ekki að þessu sinni.

---

## Um fjárkláðann.

(Úr brjefi úr Húnavatnssýslu 29. næstliðinn). Það mun yður kunnugt, að amtmanni Havstein var skrifað um að hepta ferð fjárkláðans af sýslumanni okkar, og 2. þessa mánaðar skipaði kammerráð Arnesen öllum hreppstjórum hjer í sýslu að skoða nákvæmlega allt fje í sýslunni, og var það gjört fyrir jól. Af þeirri skoðun þóttust menn sjá, að ekki væri kláðasýkin komin hjer í sýslu, þó varð alstaðar vart við meiri og minni lúsakláða, og á einstöku stað hrúðurveru, og var það fje strax skorið. Það vita menn og nú með vissu, að fyrir samgöngu er ómögulegt að faraldrið sje komið hjer að sunnan. Næstum eins var þetta yfir alla sýsluna. En skyldi nú ekki kláði þessi geta verið byrjun til kláðasýki þeirrar sem Finsen nú í riti sínu segir að byrjast geti af kláðalús, en ekki er kláði þessi meiri en algengur lúsakláði opt hefur verið í fje, nema ef vera kynni á stöku stað, og margir góðir fjármenn segja að hann sje með mesta móti. Væri nú mjög æskilegt, ef Finsen vildi benda almenningi á góð ráð til að eyða lús í fje á meðan ekki er orðið að óttast næma sýki, sem alls ekki mun vera hjer í sýslu enn sem komið er. Og gæti hann þá skrifað grein um þetta í blað yðar."

Fyrir sunnan er kláðasýkin að útbreiðast meir og meir, og segir Þjóðólfur, að sumum takist að lækna hann.

---

# Mannalát.

Um jólin andaðist Níels Havstein faktor á Hofsós í Skagafirði. Alþingismaður sjera Guðmundur Einarsson á Kvennabrekku hefur enn misst 2 börn sín úr barnaveikinni, áður hefur hann misst 4 börn úr henni. Hann skrifar oss, að hann hafi nú haft við höndina barnameðöl meðlækna, og hafi bæði þau og önnur meðöl, er hann hafði fengið að sunnan frá dr. Hjaltalín, ekkert getað hjálpað. Hann á nú ekki á lífi nema 2 sonu.

(Aðsent). Hinn 19. september næstl. andaðist ekkjan Elín Jónsdóttir á Lundabrekku í Bárðardal, 62 ára gömul. Hún var þrígipt, og eignaðist 7 börn, hvar af 3 lifa: Jónas snikkari Hallgrímsson á Lundabrekku, Sigurður bóndi Hallgrímsson á Víðum og Sesselja Andrjesdóttir bóndakona á Lundabrekku. Elín sálaða var sóma- og dugnaðar kona, hreinlunduð, hjartagóð, trygg og guðhrædd, góð ektakvinna og umhyggjusamasta móðir, og því sannkölluð prýði stjettar sinnar.

Sigurbjörg Oddsdóttir, á 27. ári, kona á Arnarstöðum í Núpasveit, er sáluð 8. desember f. á.

---

Hinir verkmennirnir, sem einnig höfðu fengið aðkenning af eldingunni, söfnuðust kringum fjelaga sinn, og hjeldu í fyrstunni, að hann væri dauður. Þeir fundu þó skjótt lífsmark með honum, en þegar hann lauk upp augunum, starði hann í kringum sig, en gat ekki komið upp einu orði. Hann gat að eins gefið þeim bendingu, að höfuðið væri veikt, en þó sá ekkert á því, þar á móti sáust áhrif eldingarinnar á limum hans, því þegar þeir reyndu til að reisa hann upp, hnigu fæturnir öldungis aflausir undir honum, og hann leið aptur í öngvit.

(Framhaldið síðar).

þrem dögum áður, 5. s. m., fæddi hún meybarn; það hefur verið afleiðing barnsfararinnar að hún ljezt. Hún var gipt fyrir 1 ári, 4 mánuðum og 15 dögum. Kona þessi var góðkvendi, geðprýðis- og stillingarkona, og fyrirmynd ungra kvenna.

---

# Auglýsingar.

Frá byrjun þessa árs tek jeg engar auglýsingar inn í blaðið, nema borgunin fylgi, 4 skildingar fyrir línuna eða 46 stafi með smáletri en 5 skildinga fyrir línuna eða 40 stafi með stærra letrinu, því þess konar smávegis kemst jeg ekki til að krefja inn brjeflega, en annars gleyma menn að senda það.

Akureyri 14. janúar 1857.

Sveinn Skúlason.

---

9. desember varð fjárskaði í Presthólum í Núpasveit; þann dag var þar yfirtaks stórhríð og óviðráðanlegt veður, hröktust þá 35 fullorðnar kindur, sauðir og ær, frá sjáfarhúsi í Axarfjarðarflóa; síðar fundust þar af víðsvegar við flóann reknir nálægt 20 ræflar, fæstir óskaddaðir, því vargur hirti það sem að landi bar.

Strax og fjármissirinn frjettist, var einn af efnaminni bændum sveitarinnar presti sínum svo mannlundaður, að hann gaf honum 1 sauð.

Presthólum 16. desember 1856.

H. Þorsteinsson.

---

Nýupptekin fjármörk í Þingeyjarsýslu:

1. Sýlt hægra, Sýlt, biti aptan vinstra, Hallgrímur Þorkelsson á Arndísarstöðum í Ljósavatnshrepp.
2. Sýlt, gagnbitað hægra, Sneiðrifað fram. vinstra, Jónas Friðfinnsson á Sigurðarstöðum í Ljósavatnshrepp.
3. Hvatt hægra, Sýlt vinstra, Björn Erlendsson á Gautlöndum í Skútustaðahrepp.
4. Vaglskorið aptan hægra, Tvístýft aptan vinstra, Finnbogi Erlendsson á Gautlöndum í Skútustaðahrepp.

Þessi mörk eru hreppstjórar beðnir að teikna hjá sjer, sem fylgiskjal við markatöflurnar.

Arndísarstöðum 4. janúar 1857.

Bjarni Indriðason.

---

Hjer í Hrannsrjett kom í haust hvíthornótt lambgimbur með mínu marki: sýlt hægra, hálft af aptan vinstra; en stórt gat undir sýlingunni fram yfir, sem haldið var, að væri eptir skrúða, er grafið hefði úr; en þetta lamb varð fram yfir þau, sem jeg átti von á með þeim lit. Vil jeg því biðja Norðra að lýsa þessu marki, svo jeg fái að vita hver á svona sammerkt mjer, og sá geti vitjað andvirðis fyri lambið til mín.

Heiðarbót 24. nóvemb. 1855.

Jón Jónsson.

---

Fjármark mitt, sem gleymst hefur í markatöflum Eyjafjarðarsýslu er: Vaglskorið aptan hægra, hálfur stúfur aptan vinstra.

Möglum í Hrafnagilshrepp 31. desember 1856.

Friðfinnur Jósefsson.

---

Jeg undirskrifaður hefi í hyggju að kenna ungum mönnum sund að vori komanda, og býð jeg því hverjum, er nema vill þessa íþrótt, að taka þátt í kennslu minni. Borgun fyrir hvern er 2 rd.

Auðnum í Laxárdal 2. jan. 1857.

Arngrímur Gíslason.

---

## Prestaköll.

(Eptir Þjóðólfi).

Veitt: Miðdalaþingin; eptir bæn sjera Vigfúsar Reykdals (— sem hafði áður það brauð, en var veitt Gufudalskall, eins og fyr er getið —), er honum leyft að sitja þar kyrrum að kalli, 10. f. mán. — S. dag var Gufudalur veittur sjera Einari B. Sívertsen á Þönglabakka.

Garðar á Akranesi, 3. þ. mán, sjera Benedikt Kristjánssyni, aðstoðarpresti á Múla.

Auk hans sóktu þessir: sjera Daníel Jónsson á Kvíjabekk, sjera Jón Björnsson í Arnarbæli, sjera Stefán Thorarensen frá Hraungerði, og sjera Benedikt Þórðarson á Brjámslæk 21 árs prestur.

Óveitt: Þönglabakki (Þönglabakka og Flateyjarsóknir) í Þingeyjarsýslu; því kalli verður ekki slegið upp að sinni, eptir því sem í augl. biskupsins 10. nóvember f. á. skýrir frá; mun vera í ráði, að taka af það brauð, og leggja undir önnur (Þönglabakka undir Höfða, og Flatey undir Húsavík(?), ef það þækti tiltækilegt.

---

## Reikningsmaðurinn.

Góður reikningsmaður nokkur hafði lengi verið kvongaður, en hafði ekki orðið barna auðið. Einu sinni var sagt við konu hans, að maðurinn hennar væri afbragðs reikningsmaður. „Það getur vel verið“, sagði hún, „en margfalda kann hann ekki“.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

**5. ár. 24. Janúar. 3.—4.**

## Íslenzk mál á þingi Dana[1].

Meðal margra góðra og skemmtilegra ritgjörða í seinasta ári Nýrra Fjelagsrita er ofannefnd ritgjörð. Hún er að vísu stutt, en er þó mjög eptirtektaverð. það lýsir sjer ágæta vel á umræðum þingmanna í Danmörku, hversu hentugt það er að láta þingin þar segja og semja um lög og lof hjer í landi. Stjórnin hefur einlægt, síðan vjer Íslendingar áttum að fá hluttekning í grundvallarlögunum góðu, fylgt þeirri reglu, að láta ríkisþingið ræða lög vor sem eru almenns efnis, hvort sem það nú verður eptirleiðis, þegar alríkisstjórnarskipunin er nú algjörlega komin í kring; en svo er að sjá, sem þingið hafi helzt viljað vera laus við öll afskipti þessara mála. það kemur fram í umræðunum hinn hlælegasti ókunnugleiki á málefnunum, sem verið er um að ræða, og þingmenn finna það sjálfir, og hafa því komið fram með þá uppástungu, að ljetta á sjer, og fá alþingi meiri völd í hendur, þegar um fjárhag Íslands er að ræða, því þeir þykjast eins og von er eiga bágt með að sjá hver útgjöld eru nauðsynleg fyrir landið, og hafa því játað flestu sem stjórnin hefur stungið upp á, mótmælalaust. Svona hefur það nú gengið um langan tíma, að Íslendingar hafa ekkert atkvæði fengið að hafa um útgjöld landsins, og á meðan svo stendur er ekki von að tilfinningin um að vjer ættum að vera sjálfbjarga, lifni hjá þjóðinni. það er fyrst þegar maðurinn er orðinn fjár síns ráðandi, að hann rjettilega hugsar svo, að nú eigi hann að kappkosta að verja því svo, þó lítið kunni að vera, að hann verði ekki öðrum til þyngsla, og eins er það, að þjóðin verður fyrst að sjá, hvernig tekjum hennar er varið, og hafa atkvæði í því máli, áður en hún fær áhuga á því að annast sjálf allar þarfir sínar. Oss virðist að þingið danska eigi þakkir skilið af oss fyrir það, að það kom fram með þessa uppástungu, því óvíst er að vjer hefðum þorað að biðja um slíkt fyrst um sinn, að minnsta kosti er það ekki að sjá á lagaskólamálinu.

Önnur uppástunga kom nú um leið frá fjárhagslaganefndinni, sem oss var miklu ógeðfelldari, og það var, að hún vildi láta oss leggja menn á herflotann danska. Dómsmálastjórinn sýndi nú reyndar fram á, hve torvelt mundi að koma þessu til leiðar, en hins gat hann ekki, að ekkert getur verið landi voru óhollara en að draga unga menn úr landinu, því á engu er hjer hjá oss þvílíkur skortur sem á vinnandi mönnum. Atvinnuvegir vorir eru örðugir og mannfrekir, en fólksfæðin mikil.

[1] Sbr. Ný Fjelagsrit 1856, 172—191. bls.

---

## Sveitastjórnarmálið á alþingi 1855.

það er auðsjeð, að öll stjórnfræðisleg hugsun er ung hjá oss Íslendingum, eins og líka er von, þegar aðrir hafa nú stjórnað oss hartnær að öllu leyti í mörg hundruð ár, en nokkuð hefur þó lifnað við áhugi vor á alþjóðlegum málum síðan alþingi var stofnað, og ætti þessi áhugi að fara því meir í vöxt, sem hluttekning vor í stjórn vorri vex, og því meiri ávöxtu sem vjer sjáum af hinu frjálslegra fyrirkomulagi, sem komið hefur á allmörg þjóðmálefni vor með alþinginu. En vjer getum þó ekki gengið úr skugga um, að mikil bernskubrögð komu enn fram á þingi voru hinu síðasta, þó að það væri nú fimmta þingið, sem haldið hefur verið hjer hjá oss.

það er hvorttveggja að sveitastjórnarmálið er æði margbrotið, og það, ef til vill, mjög örðugt að finna undir eins hina rjettustu og beztu undirstöðu þessa máls, enda lýsir það sjer á öllum umræðunum, að fáir eða engir hafa haft ljósa hugmynd um hvað þeir vildu, og er það án efa þessu að kenna, að svo margir urðu til að mæla fram með því, sem svo hefði verið ódrengilegt, að biðja

stjórnina um að fresta málinu. Þó getum vjer ekki neitað því, að oss virðist minni hluti nefndarinnar hafi haft ljósasta hugmynd um hvað hann vildi, og þeirri stefnunni var fylgt fram með mestu kappi, enda varð hún ofan á, eins og við mátti búast, þar sem allur fjöldinn var á báðum áttum, og vissi ekki hvað úr skyldi ráða.

Það er enginn efi á því, að margt er gott og nýtilegt í frumvarpi stjórnarinnar í þessu máli, enda hafði hún bænarskrá alþingis 1853 við að styðjast; þó virðist oss, að þeir þingmenn hafi haft rjett fyrir sjer, sem sýndist það ofmjög af útlendum toga spunnið, sem ekki átti við hjer á landi eins og öllu nú til hagar hjá oss. Oss hefur ekki getað betur fundizt, en að þingið hafi gjört öldungis rjett í því að beiðast aptur að sýslunefndir yrðu settar, því allt virðist benda til þess, að þær sjeu nauðsynlegur milliliður milli hreppsnefndanna og æðra úrskurðarvalds; og það virðist mjög óhentugt að þurfa að fara til amtsráðsins með hvað eina smávegis, sem hreppsnefndum kann að bera á milli, enda má gjöra ráð fyrir, að sýslunefndir sjeu miklu betur færar að skera úr þess konar málum en amtsráðið getur verið.

Það var annar galli á amtsráðunum, sem líka var mikill verður, og það var hve flóknar kosningarnar til þeirra voru. Það hefði reyndar verið nokkur bót í máli hefði bætt verið úr því, eins og Vilhjálmur Finsen fór fram á, en amtsráðin voru hjer ekki hafandi, nema líka væru sýslunefndir; en þess konar stjórn hefði eins og þinginu fannst orðið of margbrotin og kostnaðarsöm.

Meiri hluti nefndarinnar var nú eins og allt þingið á því, að sýslunefndir væru ómissandi, og allir virtust ánægðir með nefndarálitið, þangað til kom til hins æðra úrskurðarvalds, þá gat engum komið saman, og enginn hafði þar neina ljósa sannfæring á málinu. Meiri hlutinn vildi búa til amtsráð, sem þó ekki voru nein amtsráð, því alþing átti að kjósa í það og byskup, og virðist oss það fjarstætt, og engu betra en að amtmaður gjöri einn um þau mál, þegar hann auglýsir reikningana og ástand opinberra sjóða. Líka bjó meiri hlutinn til nokkurs konar nefnd, þegar sýslur deildu sín á milli; þá skyldi einn fulltrúi frá hverri sýslu ásamt amtmanni skipa þeim málum, og var þetta nógsamlega rekið á þinginu, og leitt í ljós, að það yrði með þessu lagi ofan á að amtmaðurinn einn skæri úr málunum. Oss virðist því yfirstjórn þessara mála í áliti meiri hlutans mjög óhentug, því það er yfirbragð eitt, að þetta amtsráð, sem nefnt er af alþingi og byskupi, og þessi nefnd af einum manni frá hverri sýslu og amtmanni geti skorið betur úr málunum, eða svo að meiri trygging, eins og þingið kallar það, sje fyrir að úrslit málanna verði rjett heldur en þó amtmaður gjöri það einn. Það var enn eitt er felldi álit meira hlutans, og átti að fella það, og það var, að engin áætlun var gjörð, um kostnað til amtsráðsins og amtsnefndarinnar, og þó að framsögumaðurinn í málinu reyndi til að sýna fram á, að kostnaður þessi mundi ekki verða meiri en gjört var ráð fyrir eptir uppástungu minni hlutans, þá virðist oss að honum hafi ekki tekizt það vel, og oss virðist bágt að

---

## Maurice og Genevieve,

eður

### Munaðarlausu tvíburarnir (frönsk saga).

(Framhald). Það var í hryggum hug, að verkamennirnir gengu af akrinum með vagninum, sem bar hinn unga fjelaga þeirra nær dauða en lífi En orð fá eigi skýrt ástand systurinnar, þegar hún sá bróður sinn þannig í dauðans greipum, hvernig hún bældi niður óstöðvandi harm sinn, þegar hún var búinn að hjálpa til að leggja hann í rúmið, til þess að geta setið á rúmstokkinum og látið höfuð hans hvíla við brjóst sjer, og hafði ekki augun af tvíburabróður sínum, sem hún elskaði mest, allra manna til þess að sjá hið fyrsta lífsmark, er kæmi í ljós.

Loksins tók hún að sjá lífsmark með honum. Hann raknaði smám saman við, og augu hans hvörfluðu um herbergið og námu hvergi staðar, þangað til þau mættu augum Genevieve, þá sýndist hinn líðandi ungi maður brosa. „Hann þekkir mig!“ kallaði hún upp. „Forsjónin hefur gefið mjer líf hans, og hún mun einnig gefa mjer meðöl í hendur til að lækna hann. Við fæddumst undir eins, og jeg finn það með sjálfri mjer, að við munum lifa saman og deyja saman.“

Röddin, sem hann þekkti svo vel, fjekk mjög á Maurice; feginn hefði hann viljað tala við hana ástar- og huggunarorð, en tunga hans var magnlaus, og hann gat ekki bært hana. Hann gat ekki nema bent á ennið á sjer til að sýna, að sjúkdómurinn hefði þar aðsetur sitt. Bezti læknir þar í hjeraðinu, sem var yfir honum margar klukkustundir, sagði það álit sitt, að höfuðið og fæturnir væru magnlausir, en það væri góðs viti, að hann gæti bent til höfuðsins, og gætu menn því vonast, eptir að hann mundi fá bráðum aptur fullt vit og meðvitund.

Og þegar veslings pilturinn að viku liðinni gat með

haga uppástungum hans svo, að kostnaðurinn yrði, ekki grófur, eins og einn þingmaður komst að orði, og að minnsta kosti ofmikill í samanburði við gagn það, sem búast mátti við, að menn hefðu af þessum stofnunum; og það er eðlilegt, þó að þingmenn sjeu erfiðir fyrir að koma á fót þeim stofnunum, sem auðsjáanlega baka alþýðu mikil útgjöld. Aptur á mót virðist oss það á engu byggt sem einn bóndinn fór fram á, að menn vonuðust eptir, að þessi nýju sveitastjórnarlög mundu ljetta álögum á bændastjettinni, því þess geta menn ekki vonazt. það sem nýtt og gott skipulag á sveitastjórninni á að gjöra er það, að niðurjöfnunin á útgjöldunum til sveitarþarfanna verði rjettlátari og sanngjarnari, að betur verði sjeð fyrir öllum áríðandi endurbótum sem sveitin eða hreppurinn þarf með, og að beztu menn hreppsins þannig fái fulla hvöt til að skipa fyrir að gjöra það sem gjöra þarf, án þess að hafa tillit til þess hvort útgjöld sveitarinnar verða meiri eða minni en þau hafa verið þetta á vera ávöxturinn af hinum nýju sveitastjórnarlögum; og það, sem einkum á að hvetja menn til að breyta hinum núverandi, er það, að svo margir duglegustu mennirnir geta ekki haft nein veruleg áhrif á stjórn hreppsins á meðan að svona stendur.

Minna hluta nefndarinnar á alþingi kom nú vel saman við meiri hlutann á meðan um hreppsnefndir og sýslunefndir var að ræða; en þegar kom til hinna æðri úrskurðarvalda, þótti honum ekki vera nóg samkvæmni í stjórn sveitarmálefnanna, og vildi einnig hafa nefnd til að hafa hin síðustu úrslit málanna á hendi. þetta virðist líka í fljótu áliti allásjálegt, en þó getum vjer ekki annað en álitið það satt, eins og konungsfulltrúi sagði, að þetta skipulag sje mjög óhæfilegt og ísjárvert, því það fer fram á að draga undir alþing framkvæmdar og úrskurðarvald í mikils áríðandi málefnum, sem oss virðist aldrei ættu að liggja undir alþing, og sem alþing að vorri hyggju getur ekki haft eins ljósa þekkingu á eins og innanamtsstjórn hver sem hún væri. þó hefði nú verið tiltök, að alþing hefði haft þekkingu til að skera úr þeim málum, ef að taka hefði átt þessi mál fyrir á sjálfu þinginu og um sjálfan þingtímann, eins og umboðsmaður Jón Jónsson stakk upp á því þá voru þó nokkur líkindi til, að þingmennirnir úr þeim sýslum, sem málin voru úr, hefðu getað gefið nauðsynlegar skýrslur um málefnin. En engin líkindi voru til þess, að nefnd af þingmönnum í Reykjavík, sem þeir hefðu einkum verið kosnir í, sem þar áttu heima, hefði þekkt svo vel til, að þeir hefðu verið vel kjörnir til að skera úr málunum. Oss virðist það auðsætt, að þess konar nefnd hefði einlægt orðið að biðja um nýjar skýrslur, sökum ókunnugleika síns á málunum, og aldrei er við því að búast, að málin yrðu ætíð svo úr garði gjörð, að allt lægi opið fyrir ókunnugum mönnum. þar að auki getur oss ekki betur fundizt, en að það sje gild ástæða móti þessari tilhögun, að öll mál er til kynnu að falla, rjett eptir að nefndin hefði lokið störfum sínum, yrðu að bíða 2 ár, eins og líka var hreift á þinginu, og öll líkindi eru til, að sum mál yrðu ekki út-

---

veikri röddu komið upp orði, var „Genevieve“ og „systir mín“ fyrstu orðin sem hann mælti, og engi orð fá lýst gleði hennar, sem hafði fæðzt og upplizt með honum, þegar hún heyrði þau. þegar hún hugsaði um, að hann væri nú ekki lengur skepna, sem einungis gæti dregið andann, án þess að geta lýst nokkurri hugsun sinni eður tilfinningu, sýnduat henni það nóg laun fyrir sorglegar nætur, er hún hafði vakað yfir honum. Fyrst að hann var farinn að geta talað, hugsaði hún að magnleysið mundi smátt og smátt hverfa. Armleggirnir tóku líka smátt og smátt að styrkjast, og ekki leið á löngu aður en hann gat bætt við orðið „systir“ öðrum dýrmætum ástarorðum. „Systir góð“, „hjálp mín og huggun“, var hann vanur að segja, og bæta við þeirri kæru bæn, að hún skyldi aumkvast yfir sig.

„Ó, já, já!“ svaraði hún þá; „Guð mun aumkvast yfir okkur, og lofa mjer að gjöra þig heilbrigðan með umhyggju minni og aðhjúkrun“. En ef að, hún um leið og hún sagði þetta, kyssti ofurlítið fastar hið sjúka höfuð, er hallaðist að brjósti hennar, þá kveinaði hann upp, og fjekk nokkurs konar flog, er sýndu, að sjúkdómur hans var enn óbreyttur.

Læknirinn var nú aptur sóttur til hans, og kvaðst hann vera næstum vonlaus um, að hann fengi nokkurn tíma styrk aptur í fætur sína, og þannig leið veturinn í mestu sorg og armæðu fyrir tvíburunum. Genevieve vakti allar nætur við rúm bróður síns, og hverri stund, sem hún gat tekið frá vinnu sinni, varði hún til að annast um hann. þó að hann kvartaði ekki mjög um ástand sitt, gat hann þó ekki að sjer gjört að óska þess, að dauðinn vildi leysa sig undan að vera þannig öllum til þyngsla, og einkum systur sinni, því hann sá, hversu hún eyddi kröptum sínum, og hann fann hversu ógæfa sín hafði svipt hana allri gleði í lífinu.

„Óskar þú mjer þá dauða, þegar þú talar svona“, var

kljáð af nefndinni í fyrsta skipti, og yrði þá dráttur inn á málinu óþolandi, nema nefnd þessi væri látin einlægt standa, og yrði það gjört, hlyti kostnaðurinn að verða miklu meiri en minni hluti nefndarinnar stakk upp á. Það er ekki til neins að fylgja föstum hugsunarreglum og samkvæmni, þar sem um það er að gjöra, að semja þess konar stjórnarreglur, því þá er ætíð hætt við að stjórnin verði einungis á pappírnum, og skipunum hennar verði aldrei framgengt. Það verður að hyggja bezt að því, hvað við á, og hverju fram verður komið. Það er áríðandi að haga stjórninni svo, að þeir sem eiga að skera úr málunuum hafi sem glöggasta þekkingu á þeim, og sjeu sem hæfastir til þess. Það er enn að oss virðist ástæða móti því að draga þetta undir úrskurð alþingis eður alþingisnefndar, að þegar vjer Íslendingar hugsum, að alþingi muni með tímanum fá meiri þátt í löggjafarvaldi og stjórnarvaldi (politisk Myndighed), þá finnst oss ósamkvæmni í því að leggja úrskurð sveitastjórnarmálefna undir það, líkt og lagt er undir lögþingið í Færeyjum, því oss virðist, að vjer ættum ekki að æskja þess, að verkahringur alþingis yrði lagaður eptir því þingi.

Í næsta blaði viljum vjer stuttlega drepa á, hvernig oss virðist að hentast hefði verið að koma þessu máli í horfið til bráðabyrgða. (Framh. síðar).

---

(Aðsent).

## Um heyþurrk í votviðrum.

(Framhald). Ekki eru þessir galtar eptir því veðurnæmari en þeir ferhyrndu, sem þeir eru mjórri, og sje ekki því meira veður má verja þá fyrir foki með því, að reisa 2 eða 3 spítur upp við þá vindmegin, svo ljettar, að galtarnir hallist ekki, þrýstir vindurinn svo á þær, að heyið náir ekki að flettast upp. Sje meira veður enn svo, að þetta dugi, er bundið um þá reipi niður við jörðina, og svo öðru í kross upp um kollinn og niður í hitt, en annmarki sá fylgir böndum þessum að kollurinn aflagast, og vatn dregst niður með þeim, ef rigning fylgir veðrinu, á því að taka þennan umbúnað í burtu, þá veðrinu slotar, og laga kollana.

Þó að heyjahlöður sjeu heldur að fjölga, eru heyjatóptir eða garðstæði enn víða brúkuð, en það vantar mjög mikið á, að tóptirnar sjeu eins og þær ættu að vera. — Þær eru optast hlaðnar úr einu saman torfefni, og botninn í þeim er jörðin eins og hún kemur fyrir, hörð eða blaut. Þó nú ekki sje í botninum margra ára heybleyta, er auðsætt, hvernig þessi heyjastæði eru til reika í rigningum; er ófagurt til þess að vita, að þarna skuli vera kasað ofan í skrúðgrænu heyinu, sem strax dregur í sig bleytuna allt í kring; á þetta bætist rigningin í torfið, kemur þá hitaseyðingur í, og hleypir niður heyinu, svo það afvatnast ekki lengur og drepur, ef til vill, til botns að ofan; þarna verður nokkuð af heyinu að svartri bleytu, en sumt að rudda, og fer þannig til skemmda og ónýtis í nokkrum tóptum talsvert af heyi, stundum er af þessu sá voði búinn, að heyið brenni, sem optast bíður þangað til búið er að

---

hún von að segja grátandi, þegar hann var þannig að telja harmatölur sínar. „Heldurðu að jeg geti lifað lengi, ef að þú fer og skilur við mig. Mjer finnst jeg líka stundum vera að dauða komin, því mjer er stundum illt í höfðinu, og fæturnir geta varla borið mig, svo jeg er næstum því eins og þú“.

„Jeg trúi því vel“, sagði sjúklingurinn, „en það kemur allt af þreytu; þú hefur enga hvíld nótt eða dag“.

„Vertu óhræddur um það; Guð hefur gefið mjer krapta til að vinna, og sú von, að jeg fái aptur að sjá þig hressan við hina gömlu iðju þína, heldur mjer við heilsu. Láttu ekki hugfallast góði bróðir. Hefurðu ekki sjeð storminn og regnið leggja kornöxin flöt til jarðar, og þó hafa þau risið upp fagrari en áður eptir hæga golu á sólskinsdegi“.

Þessi huggunarorð hinnar viðkvæmu elskandi systur höfðu ná þann árangur að ljetta þunglyndi hans og gefa honum von um, að hann mundi aptur ná kröptum sínum. En til þess að gleyma ekki íþrótt sinni, og týna ekki niður hagleik sínum, skemmti hann sjer með að búa til ýmislega snillilega smíðisgripi á stóli sínum, þar sem hann var settur, þar á meðal gjörði hann lítinn fjögra hjóla vagn á fjöðrum, og var hann opt glaður að hugsa til þess, að einhver af fjelögum sínum gæti dregið sig í honum annaðhvort til kirkjunnar eða út á leikvöll bæjarmanna á helgidagskvöldi til þess að hann gæti horft á leik þeirra, þó að hann gæti ekki sjálfur tekið þátt í leiknum.

Systir hans, sem var í vitorði með um leyndarmál þetta, og hafði útvegað honum allt sem til vagnsmíðisins þurfti, hafði annað í hyggju, og það var, að enginn skyldi draga þenna vagn, þegar hann væri seztur í hann, nema hún sjálf. Og þegar hún var búin að búa sig út og reyna vagninn nokkrum sinnum, fann hún, að hún mundi vera fær um að fullnægja ósk bróður síns, er hann girntist mest af öllu, að hann skyldi geta verið við guðsþjónustugjörð

bera heyið að mestu eða öllu leyti upp. Mörgum verður líka það á, að taka ofstórt stykki af tóptinni fyrir undir lítið hey, svo það afvatnast naumast í fyrstu, og því síður þegar rigningin og bleytan ganga í það, en við þessu er hægast að sjá með því, að geyma heyið í göltum vel vörðum, þangað til að nóg hey er komið til góðs uppburðar. Þar sem grjót er fáanlegt ættu þessar heyjatóptir að minnsta kosti að vera hlaðnar úr einu saman grjóti að innan, og möl að berast í botninn, eða að steinleggjast; bezt væri þó að þær væru hlaðnar úr einu saman grjóti utan og innan, svo þjett hlöðnu, að ekki fennti í gegnum veggina, ættu þeir að hallast frá heyinu á alla vega; færi þá betur, að þurrt hnausalag væri efst. Sjeu tóptirnar svona búnar til, mega þær vera svo djúpar, að litla sem enga veggseta þurfi að hafa, svo torfið nái ofan á tóptarvegg að minnsta kosti á sígnu heyinu, en svo djúpar tóptir eru óhafandi úr torfi og grjóti, og því síður úr einu saman torfefni, grjót-tóptirnar yrðu einar hinar beztu heyjastæður og hentugar á veðrajörðum.

Hvað heyhlöðum viðvíkur, þá er að þeim hin mesta hægð og gagn sumar sem vetur, og lýsir það sjer ekki sízt í heyþurrkinum. Þegar í útihey þarf að bera, er það einatt í votviðrum, að menn geta ekki borið heyið upp sama daginn sem það þornar, og verður því að bíða þangað til, að þurr hægviðrisdagur kemur, og verjast nýrri vætu; en í hlöðurnar verður hverri heytuggunni snarað jafnótt og hún þornar, en opt hættir því heyi við að myggla, sem opt og lítið er í einu borið inn; er mygglan ætíð óþokkagestur og skemmd í heyjum, því hún spillir bæði gagnsmunum af skepnum og heilsufari þeirra og heyjamannsins með, og hefur sumum riðið það að fullu; hún fylgir optast vætutíð, því jafnaðarlega kemur hún í illa þurrt og hrakið hey, sem langvinnur hýruseyðingur liggur í, eða sem ekki hefur magn til að ryðja sig, er menn kalla. Auk mygglunnar kemur ofan á heyið í hlöðunum bleytuskán eða stakkur, þessu er ekki gott að verja, en minnka má stakkinn og stytta má hitann með því móti, að bera töluvert hærra í miðjuna en við veggina, svo ætíð sje þar hæðst, þó í heyinu hitni, því komi bolli ofan í miðjuna fer hitinn seint úr, þó stakkurinn sje tekinn, sem ætíð á að nemast burt og hirðast sjer í lagi, sje hann ekki ónýtur með öllu. Menn hafa og reynt að tyrfa hey í hlöðum, helzt töðu, með vel þurru torfi eða leppum, og sumir bera fornt hey ljett ofan á til að taka við stakkinum. Opt verður það að liði að ætla svo til, að í hröktu heyi orni svo mikið, að vatnssúrinn þorni í burt af hitanum, því þá verður mygglan minni, en nokkuð er það undir von, að ekki orni um of, eða verði hins vegar að uppþyrrkingi. Söltun heyja bætir bezt úr vondri mygglu, og eru söltuð hey bæði holl kvikfjenaði, og gefa sjálfsagt af kúm meiri arð.

Hin fyrsta söltun heyja hjer í landi er að líkindum sú, sem Ó. Stefensen stiptamtmaður reyndi á Innrahólmi; eru menn nú farnir að brúka hana við og við, ætla margir að það sje mátuleg söltun heyja að miðlungi, að 2 kútar salts gangi í kýr-

---

fyrsta í Hvítasunnu í kirkjunni hjá Artenay, sem lá nærri því mílu frá bænum. Það sem hin glaða systir var einkum í vandræðum með var það, hvernig hún ætti að koma bróður sínum, sem ekki þoldi neinn hristing í vagninum yfir hina ósljettu steinlögðu götu í gegnum bæinn sem var á kirkjuleiðinni; en svo hafði hitt vinnufólkið komizt við af þessum systurlega kærleika hennar, að allur vegurinn var í dögun á helgidagsmorguninn, þegar til kirkjunnar átti að fara, lagður með hálmi, svo þykkt, að hinn sjúki kenndi sjer einkis meins. Frá níundu stund um morguninn stóð allur þorri bæjarbúa beggja megin við kirkjuveginn til að sjá systurina, sem ekki vildi láta neinn taka þátt í því að aka bróður sínum til kirkjunnar, sem hún og gjörði svo laglega og hægt, að enginn hefði getað gjört það eins vel. En hún varð feimin og eins og utan við sig, þegar hinir góðu nágrannar litu til hennar blíðlega, og báðu systkynunum allra virkta.

En það sem einkum fjekk á hjarta hennar var hve hinn æruverði prestur tók henni vel í augsýn allra. Hann talaði um hana fyrir söknarfólki sínu eins og fyrirmynd í kristilegum kærleika og systurelsku, og bætti við með heitum orðum bæn yfir systkynunum, og sagði að endingu við hana blíðlega: „Vertu hughraust, dóttir, Drottni er starfi þinn geðfelldur, og hann mun vernda þig“.

Það var gott fyrir veslings stúlkuna, að þessi uppörfunarorð voru töluð til hennar, ekki af því að hún þyrfti að láta minna sig á skyldu sína heldur af því, að hún sá þá að aðrir álitu líka að hegðun hennar hefði verið lofsverð. Hin systurlega ást hennar styrktist því við orð prestsins, og hún tók það eins og laun fyrir áhyggjur sínar og næturvökur. En mest laun voru henni þó augu bróðursins sem stóðu full af tárum, og sem bað heitt að Hann sem hefði skotið henni í brjóst, að reynast sjer slík systir, vildi endurgjalda henni það.

fóður; svarar þessi söltun því, að mörk salts fari í heyhestinn, og eptir þessari tiltölu er saltað í hvert sinn, sem hey er borið inn og í hvert lag, sem um heystæðuna er borið[1]. það mælir mest fram með söltun heyja, að minna má þurrka það hey, sem saltað er, svo næringarvökvinn má halda sjer í heyinu að mestu eða öllu leyti, því hey, sem slegið er og rakað, og sett er strax upp í galta má taka inn, ef saltað er, eptir að þeir hafa staðið í 6—9 daga í blástri eða skemur, og verður það hey þá betra enn annað samkynja, og eins allt það hey, sem minnst er þurrkað en getur þó orðið vel. þetta hefur konferenzráð M, Stefensen fundið, er hann ræður til að láta orna í heyjum í þurrkinum og snara þeim svo í sundur í þerri, og segir að þau verði betri enn önnur hey, en að þetta sè óvarlegt í vætutíð hefi jeg áður sýnt.

Að gefa nákvæmar reglur um verkaniðurröðun í vætutíð yrði ofmargbrotið og ókljúfandi, því það kemur mest undir glöggsýni verkstjórans á veðri, forsjón á verkaskipun og verkhyggni hans, en hvað um það er vona jeg, að töf sú, sem að því þykir að setja saman heyið í áðurnefnda galta, eins og jeg hefi að framan sýnt að betur færi, eða væri með öllu ómissandi, hverfi smám saman, þá reynslan kemur með sannfæring sína á hagnaðinum, og þyki þá vel til vinnandi. En vorkun er, þó menn fari nokkuð tæplega fram í þessa óvanalegu aðferð, því það hefur mjer og orðið, og fer bezt að hin vanalega aðferð sje þessari samsíða við höfð til að sjá hver betri er í votviðrum.

[1]) Jeg heyri sagt, að sumir salti minna heyin, og láti jafnvel 1 kút dnga í kýrfóður, en það mun nægja, því að eins, að heyið sje safalítið. Hey með vatnssúr verður að salta mjög mikið svo þau hvorki brenni nje verði á hinn bóginn að uppþyrrkings heyi, sem er hið lakasta fóður, því við hvorutveggja er hætt.

Skáleyjum á Breiðafirði í skammdeginu 1854.

M. E.

---

(Aðsent).

Á næstliðnu hausti hafði jeg ásett mjer að reka nokkrar sauðkindur í kaupstað til slátrunar eins og aðrir góðir menn, því álitlega var borgað; en einmitt þá dagana sem jeg vildi reka af stað, flaug sá orðasveimur um hjerað þetta — rjett eins og þoka undan norðanbyl — að vigtarmenn sumir mundu taka ríflega yfirvigt bæði á kjöti og mör fyrir innþornun þess, en þó sem optast án samkomulags við eigendur og umráðamenn kindanna, og yrði þetta þá tilfinnanlegast þeim sem ekki þekktu lóðin. Einkanlega hljómaði þetta um einn spánýjan vigtarmann. Sjálfsagt — ef satt er — mun hann einn af þeim forsjálu ráðsmönnum, sem væntir að verða meðtekinn, nær eð hann þrýtur, í þær matsælu kjötbúðir. þessi flugufregn var nóg til að setja mig kyrran, og hætta við kindarekstirinn, þar sem jeg er maður óframfærinn, kem sjaldan í kaupstað, og þekki ekki hið minnsta á lóðin, ekki einu

---

Vorið leið nú, og ekki vildi Maurice batna til neinna muna. Maímánuður var kominn og nærri liðinn, og með honum hvarf sú von, að sjúklingnum mundi batna þegar veðurblíðan kæmi; og hann var nú öldungis örkula vonar um, að hann mundi nokkurn tíma fá aptur afl í fætur sína, og bjóst við að verða þannig kararmaður alla æfi sína.

þegar hin óþreytanlega systir hans hafði eitt kvöld dregið hann í kerru sinni undir álmviðareikurnar, er voru í kringum leikvöll bæjarins, heilsaði gamall hermaður Maurice. Hermaður þessi var nýlega kominn til bæjarins í kynnisleit. Hann spurði Maurice vandlega um sjúkdóm hans. Hermaðurinn sagði honum síðan þá sögu, að hann kvaðst hafa verið í bardaganum við Eylau, og hefði flís úr sprengikúlu lostið sig og sært í fæturna, og hefði hann misst allt afl úr þeim í 2 ár; líka hefði hann haft flog í höfðinu, sem nærri því hefðu gjört sig vitstola. Hann kvaðst hafa leitað margra ráða þangað til sjer hefði batnað af sjóböðum. „Jeg var borinn til sjóarstrandarinnar nær dauða en lífi", sagði hinn gamli hermaður", Flokkshöfðingi minn ljeði mjer burðarstól, og eptir hálfan mánuð tóku kraptar mínir og matarlyst að aukast, og eptir þrjá mánuði var jeg albata. Fyrst gat jeg einungis gengið við tvær hækjur, svo kastaði jeg annari, og þriðja september — það er dagur sem jeg gleymi aldrei — gekk jeg hálfa mílu með nokkrum kunningjum mínum öldungis staflaus, Og þrem vikum seinna steig jeg í vagn, og sneri heimleiðis eins hraustur og heilbrigður eins og jeg hafði nokkurn tíma verið"

„Og hvar í heiminum eru þessi ágætu böð?" sagði sjúklingurinn með miklum áhuga.

„Hjá borg sem Boulogne heitir sunnan til í ríki þessu hjerumbil 250 mílur hjeðan."

„250 mílur! Ef jeg þarf að fara svo langt til að fá aptur heilsu mína, þá er jeg nokkurnvegian viss um að verða veikur til dauðadags".

sinni 21 ℔ lóð frá þriggja lýsipundalóði, og hjelt jeg mjer því hollara að skera heima.

Jafnvel þó að þessi frjettaglaumur hafi máske verið helber ósannindi, þá samt ættum við að láta hann kenna okkur — eins og líka árlegur matvöruskortur í kaupstöðum — að keppast ekki svo mjög eptir að koma kjöti okkar út af landinu, en lofa heldur löndum vorum að sitja fyrir því, sem ósjaldan ganga með peningana í höndunum, sárbiðjandi um kjöt, og borga máske fullt svo ríflega sem kaupmenn vorir.

**Sveitarmaður.**

Af því að jeg veit, að það er áríðandi fyrir kaupmenn vora að hafa nákvæmt eptirlit á þjónum sínum, svo að þeir ekki með óráðvendni komi því óorði á verzlun þeirra, sem hún annars ekki á skilið, hefi jeg ekki viljað neita línum þessum inntöku í blaðið. **Ábm.**

---

## Um verzlun Norðmanna næstliðið sumar.

Vjer höfum minnst lítið eitt á verzlun hjer á norðurlandi hjá hinum föstu kaupmönnum í ár, en vjer höfum ekki getið neitt um Norðmenn, er komu hingað til verzlunar mest á austurkaupstöðum og hjer á Akureyri. Hinn helzti af þeim var kaupmaður Bruu frá Kristjaníu, og hann hafði stærst skip, og flestar vörutegundir. Það mun hafa gjört Norðmönnum allmikinn skaða að þeir komu svo seint einkum hingað norður, að menn höfðu lagt inn mestar vörur sínar. Hjer var lítið um trjávið á sumum verzlunarstöðunum, en þó gekk þeim æði tregt að selja. Kom það einkum af því, að viður sá, sem Bruu hafði hjer, þótti lítt nýtur og óhentugur, því borðviðurinn var allur með miklum vanköntum, enda hjeldu þeir honum einlægt í háu verði eptir viðargæðunum. Aðrar vörur, sem þeir höfðu, seldu þeir viðlíka og í landi, en matvara þeirra þótti betri en hjá föstukaupmönnnnum. Menn vildu hjer víst alstaðar á norður- og austurlandi hlynna að verzlun þeirra og hæna þá að sjer, og margir keyptu af þeim fyrir nokkur hundruð dali í þessu skyni. Það sem vjer einkum höfum heyrt fundið að verzlun þeirra var það, að þeir höfðu svo að kalla sitt verðlagið á hverjum verzlunarstaðnum, þar sem þeir komu, en landar vorir fundu það fljótt, og gjörðu því sitt til að þoka prísunum niður. Þannig varð það, að austfirðingar fengu verst verð hjá þeim, en Mývetningar og aðrir sem skiptu við þá á Húsavík, fengu miklu lægra verð á öllu, sem þeir keyptu, því þar komu þeir seinast. Annar galli á verzlun þeirra var sá, að þeir höfðu svo fáar vörutegundir, að engir gátu verzlað við þá eingöngu; en vjer vissum til, að þeir ætluðu sjer að bæta úr því þetta ár, og eins munu þeir sjá um að hafa viðinn betur vandaðan næst, því varla þurfa þeir að búast við, að menn kaupi opt af þeim annan eins við, þegar betri viður er í landi, þó hann sje nokkru dýrari.

Vjer óskum þess, að Norðmenn haldi áfram að verzla við oss, því viðarverzlun þeirra ætti að geta verið oss mjög hentug; en þeir verða að

---

„Reyndu að láta koma þjer þangað, góðurinn minn,„ sagði hinn gamli hermaður vingjarnlega, „og jeg skal ábyrgjast að þú verður alheill“.

„Að komast aptur á fætur, geta unnið að hinni gömlu handiðn minni, unnið fyrir mjer og, hjálpað systur minni! Nei nei! Slík sæla getur mjer ekki hlotnazt sagði unglingurinn, því honum ofbauð vegalengðin.

„Hvað þá, vinur minn, þú ætlar að sleppa voninni! Þú ert eins og þeir sem ekki trúa neinni lækningu fyrri en þeir sjá það með eigin augum. Þjer er óhætt að treysta á að sjóböðin lækna þig. Jeg hefi sjeð þau lækna marga aðra en mig. Jeg er enginn læknir, en þú ert ungur, og mjer þykir líklegast, að þjer geti batnað, því sjúkdómur þinn liggur í taugunum. Vertu kátur Maurice! Jeg var alveg læknaður um fimmtugsaldur, og því þarftu ekki að örvænta.

„En þjer gætið ekki að því, að jeg get ekki farið á neinum vagni, því jeg líð í öngvit, hvað lítið sem vagninn hristist. Nei það er guðs vilji að jeg verði krypplingur alla æfi mína, og jeg vil einungis biðja hann að stytta lífdaga mína til að ljetta raunum mínum og annara“.

Meðan á þessari viðræðu stóð hlustaði Genevieve nákvæmlega eptir, og hefðu þeir sem töluðu ekki haft hugann á öðru, hefðu þeir getað lesið í andliti hennar fastan ásetning Hún tók hinn gamla hermann á eintal til að fá hjá honum nákvæma lýsingu á þessum ágætu sjóböðum, um hvaða tíma árs ætti að brúka þau, hvað langur skemmsti vegur til þeirra væri, og hvar bezt og ódýrast væri að fara; og þegar hún hafði hugsað sig um allt þetta, leitaði hún undir eins að framkvæma ásetning sinn.

Hún leit yfir allar torfærur, og hafði nú fastráðið að draga sjálf bróður sinn í kerru sinni alla leið úr miðju Frakklandi til Boulogne. Þegar hún um kvöldið sat hjá Maurice og horfði á hann sjúka, gat hún ekki dulið tilfinningar sínar, heldur tók að gráta,

fóður; svarar þessi söltun því, að mörk salts fari í heyhestinn, og eptir þessari tiltölu er saltað í hvert sinn, sem hey er borið inn og í hvert lag, sem um heystæðuna er borið[1]. það mælir mest fram með söltun heyja, að minna má þurrka það hey, sem saltað er, svo næringarvökvinn má halda sjer í heyinu að mestu eða öllu leyti, því hey, sem slegið er og rakað, og sett er strax upp í galta má taka inn, ef saltað er, eptir að þeir hafa staðið í 6—9 daga í blástri eða skemur, og verður það hey þá betra enn annað samkynja, og eins allt það hey, sem minnst er þurrkað en getur þó orðið vel. þetta hefur konferenzráð M, Stefensen fundið, er hann ræður til að láta orna í heyjum í þurrkinum og snara þeim svo í sundur í þerri, og segir að þau verði betri enn önnur hey, en að þetta sè óvarlegt í vætutíð hefi jeg áður sýnt.

Að gefa nákvæmar reglur um verkaniðurröðun í vætutíð yrði ofmargbrotið og ókljúfandi, því það kemur mest undir glöggsýni verkstjórans á veðri, forsjón á verkaskipun og verkhyggni hans, en hvað um það er vona jeg, að töf sú, sem að því þykir að setja saman heyið í áðurnefnda galta, eins og jeg hefi að framan sýnt að betur færi, eða væri með öllu ómissandi, hverfi smám saman, þá reynslan kemur með sannfæring sína á hagnaðinum, og þyki þá vel til vinnandi. En vorkun er, þó menn fari nokkuð tæplega fram í þessa óvanalegu aðferð, því það hefur mjer og orðið, og fer bezt að hin vanalega aðferð sje þessari samsíða við höfð til að sjá hver betri er í votviðrum.

Skáleyjum á Breiðafirði í skammdeginu 1854.

M. E.

[1]) Jeg heyri sagt, að sumir salti minna heyin, og láti jafnvel 1 kút dnga í kýrfóður, en það mun nægja, því að eins, að heyið sje safalítið. Hey með vatnssúr verður að salta mjög mikið svo þau hvorki brenni nje verði á hinn bóginn að uppþyrrkings heyi, sem er hið lakasta fóður, því við hvorutveggja er hætt:

(Aðsent).

Á næstliðnu hausti hafði jeg ásett mjer að reka nokkrar sauðkindur í kaupstað til slátrunar eins og aðrir góðir menn, því álitlega var borgað; en einmitt þá dagana sem jeg vildi reka af stað, flaug sá orðasveimur um hjerað þetta — rjett eins og þoka undan norðanbyl — að vigtarmenn sumir mundu taka ríflega yfirvigt bæði á kjöti og mör fyrir innþornun þess, en þó sem optast án samkomulags við eigendur og umráðamenn kindanna, og yrði þetta þá tilfinnanlegast þeim sem ekki þekktu lóðin. Einkanlega hljómaði þetta um einn spánýjan vigtarmann. Sjálfsagt — ef satt er — mun hann einn af þeim forsjálu ráðsmönnum, sem væntir að verða meðtekinn, nær eð hann þrýtur, í þær matsælu kjötbúðir. þessi flugufregn var nóg til að setja mig kyrran, og hætta við kindareksturinn, þar sem jeg er maður óframfærinn, kem sjaldan í kaupstað, og þekki ekki hið minnsta á lóðin, ekki einu

---

Vorið leið nú, og ekki vildi Maurice batna til neinna muna. Maímánuður var kominn og nærri liðinn, og með honum hvarf sú von, að sjúklingnum mundi batna þegar veðurblíðan kæmi; og hann var nú öldungis örkula vonar um, að hann mundi nokkurn tíma fá aptur afl í fætur sína, og bjóst við að verða þannig kararmaður alla æfi sína.

þegar hin óþreytanlega systir hans hafði eitt kvöld dregið hann í kerru sinni undir álmviðareikurnar, er voru í kringum leikvöll bæjarins, heilsaði gamall hermaður Maurice. Hermaður þessi var nýlega kominn til bæjarins í kynnisleit. Hann spurði Maurice vandlega um sjúkdóm hans. Hermaðurinn sagði honum síðan þá sögu, að hann kvaðst hafa verið í bardaganum við Eylau, og hefði flís úr sprengikúlu lostið sig og sært í fæturna, og hefði hann misst allt afl úr þeim í 2 ár; líka hefði hann haft flog í höfðinu, sem nærri því hefðu gjört sig vitstola. Hann kvaðst hafa leitað margra ráða þangað til sjer hefði batnað af sjóböðum. „Jeg var borinn til sjóarstrandarinnar nær dauða en lífi“, sagði hinn gamli hermaður“, Flokkshöfðingi minn ljeði mjer burðarstól, og eptir hálfan mánuð tóku kraptar mínir og matarlyst að aukast, og eptir þrjá mánuði var jeg albata. Fyrst gat jeg einungis gengið við tvær hækjur, svo kastaði jeg annari, og þriðja september — það er dagur sem jeg gleymi aldrei — gekk jeg hálfa mílu með nokkrum kunningjum mínum öldungis staflaus, Og þrem vikum seinna steig jeg í vagn, og sneri heimleiðis eins hraustur og heilbrigður eins og jeg hafði nokkurn tíma verið“

„Og hvar í heiminum eru þessi ágætu böð?“ sagði sjúklingurinn með miklum áhuga.

„Hjá borg sem Boulogne heitir sunnan til í ríki þessu hjerumbil 250 mílur hjeðan.“

„250 mílur! Ef jeg þarf að fara svo langt til að fá aptur heilsu mína, þá er jeg nokkurnvegian viss um að verða veikur til dauðadags“.

sinni 21 ℔ lóð frá þriggja lýsipundalóði, og hjelt jeg mjer því hollara að skera heima.

Jafnvel þó að þessi frjettaglaumur hafi máske verið helber ósannindi, þá samt ættum við að láta hann kenna okkur — eins og líka árlegur matvöruskortur í kaupstöðum — að keppast ekki svo mjög eptir að koma kjöti okkar út af landinu, en lofa heldur löndum vorum að sitja fyrir því, sem ósjaldan ganga með peningana í höndunum, sárbiðjandi um kjöt, og borga máske fullt svo ríflega sem kaupmenn vorir.

**Sveitarmaður.**

Af því að jeg veit, að það er áríðandi fyrir kaupmenn vora að hafa nákvæmt eptirlit á þjónum sínum, svo að þeir ekki með óráðvendni komi því óorði á verzlun þeirra, sem hún annars ekki á skilið, hefi jeg ekki viljað neita línum þessum inntöku í blaðið. **Ábm.**

---

## Um verzlun Norðmanna næstliðið sumar.

Vjer höfum minnst lítið eitt á verzlun hjer á norðurlandi hjá hinum föstu kaupmönnum í ár, en vjer höfum ekki getið neitt um Norðmenn, er komu hingað til verzlunar mest á austurkaupstöðum og hjer á Akureyri. Hinn helzti af þeim var kaupmaður Bruu frá Kristjaníu, og hann hafði stærst skip, og flestar vörutegundir. Það mun hafa gjört Norðmönnum allmikinn skaða að þeir komu svo seint einkum hingað norður, að menn höfðu lagt inn mestar vörur sínar. Hjer var lítið um trjávið á sumum verzlunarstöðunum, en þó gekk þeim æði tregt að selja. Kom það einkum af því, að viður sá, sem Bruu hafði hjer, þótti lítt nýtur og óhentugur, því borðviðurinn var allur með miklum vanköntum, enda hjeldu þeir honum einlægt í háu verði eptir viðargæðunum. Aðrar vörur, sem þeir höfðu, seldu þeir viðlíka og í landi, en matvara þeirra þótti betri en hjá föstukaupmönnnnum. Menn vildu hjer víst alstaðar á norður- og austurlandi hlynna að verzlun þeirra og hæna þá að sjer, og margir keyptu af þeim fyrir nokkur hundruð dali í þessu skyni. Það sem vjer einkum höfum heyrt fundið að verzlun þeirra var það, að þeir höfðu svo að kalla sitt verðlagið á hverjum verzlunarstaðnum, þar sem þeir komu, en landar vorir fundu það fljótt, og gjörðu því sitt til að þoka prísunum niður. Þannig varð það, að austfirðingar fengu verst verð hjá þeim, en Mývetningar og aðrir sem skiptu við þá á Húsavík, fengu miklu lægra verð á öllu, sem þeir keyptu, því þar komu þeir seinast. Annar galli á verzlun þeirra var sá, að þeir höfðu svo fáar vörutegundir, að engir gátu verzlað við þá eingöngu; en vjer vissum til, að þeir ætluðu sjer að bæta úr því þetta ár, og eins munu þeir sjá um að hafa viðinn betur vandaðan næst, því varla þurfa þeir að búast við, að menn kaupi opt af þeim annan eins við, þegar betri viður er í landi, þó hann sje nokkru dýrari.

Vjer óskum þess, að Norðmenn haldi áfram að verzla við oss, því viðarverzlun þeirra ætti að geta verið oss mjög hentug; en þeir verða að

---

„Reyndu að láta koma þjer þangað, góðurinn minn„ sagði hinn gamli hermaður vingjarnlega, „og jeg skal ábyrgjast að þú verður alheill“.

„Að komast aptur á fætur, geta unnið að hinni gömlu handiðn minni, unnið fyrir mjer og, hjálpað systur minni! Nei nei! Slík sæla getur mjer ekki hlotnazt sagði unglingurinn, því honum ofbauð vegalengðin.

„Hvað þá, vinur minn, þú ætlar að sleppa voninni! Þú ert eins og þeir sem ekki trúa neinni lækningu fyrri en þeir sjá það með eigin augum. Þjer er óhætt að treysta á að sjóböðin lækna þig. Jeg hefi sjeð þau lækna marga aðra en mig. Jeg er enginn læknir, en þú ert ungur, og mjer þykir líklegast, að þjer geti batnað, því sjúkdómur þinn liggur í taugunum. Vertu kátur Maurice! Jeg var alveg læknaður um fimmtugsaldur, og því þarftu ekki að örvænta.

„En þjer gætið ekki að því, að jeg get ekki farið á neinum vagni, því jeg líð í öngvit, hvað lítið sem vagninn hristist. Nei það er guðs vilji að jeg verði krypplingur alla æfi mína, og jeg vil einungis biðja hann að stytta lífdaga mína til að ljetta raunum mínum og annara“.

Meðan á þessari viðræðu stóð hlustaði Genevieve nákvæmlega eptir, og hefðu þeir sem töluðu ekki haft hugann á öðru, hefðu þeir getað lesið í andliti hennar fastan ásetning Hún tók hinn gamla hermann á eintal til að fá hjá honum nákvæma lýsingu á þessum ágætu sjóböðum, um hvaða tíma árs ætti að brúka þau, hvað langur skemmsti vegur til þeirra væri, og hvar bezt og ódýrast væri að fara; og þegar hún hafði hugsað sig um allt þetta, leitaði hún undir eins að framkvæma ásetning sinn.

Hún leit yfir allar torfærur, og hafði nú fastráðið að draga sjálf bróður sinn í kerru sinni alla leið úr miðju Frakklandi til Boulogne. Þegar hún um kvöldið sat hjá Maurice og horfði á hann sjúka, gat hún ekki dulið tilfinningar sínar, heldur tók að gráta,

koma svo ár sinni fyrir borð, að þeir geti boðið oss sömu kosti og vjer fáum hjá öðrum.

---



**Hannes Stephánsson Stephensen.**

Lengi breiddist limi skrýddur
laufgrænn meiður um byggðar leiðir
Ísafoldar, og vel skýldi
öldnu landi og varði grandi.
Stepháns ættar stofninn þjetti
stóð svo lengi í frægð og gengi,
af honum kvistir komu traustir,
kvistir líkir stofni slíkum.

Ólafur, Stephán, Magnús megni
megindýru, landi stýra
síðstu öld, og sæmd margfaldri,
sjóla að háttum líkir knáttu.
Hjeldu völdum horskir höldar
af hilmi Jóta ráðum skjótir.
Báru skíran skjöld fyri aldir
skatar, ætíð reyndust hvatir.

En þó að hnígju firðar frægir
foldu að, og hyldust moldu;
arfar lifðu lofi reifðir
landsins búum jafnvel trúir.
Þó var fyrstur þeirra' og beztur
— þann vjer látinn allir grátum —
**Stefáns** niður **Hannes**, heiður
hans æ standi á voru landi.

Fyrstur gekk í flokki hraustum
fagurmæltur þjónn guðs laga,
þeim er aldar ósið vildi
eyða, og frelsi í byggðir leiða.
Vitur maður harðstjórn hata
harða vann, er frelsi bannar
alfrjófgandi ausa mundu
of jörð þessa sinni blessan.

Skarð er fyri skyldi orðið
skæður dauði olli nauðum,
og son tók bezta einn, er ástum
unni hrjáðu þessu láði.
Snjallur gekk í himna höllu,
hans þar bíður niðji fríður,
og dætur einnig alnar honum,
yndisstund er þeirra fundur.

Þú sem hjá oss situr og sýtir!
Sárin gróa,* það er fróun.
Myrkur grafar ei fær orkað
anda skilja á friðarlandi.
Eptir stundu eina fundum
ykkar hjer mun saman bera,
þar sem dvelur sífelld sæla,
sorgir deyja og harmur þegir.

**Sv. Sk.**

---

„Þú ert einhvernveginn öðruvísi en þú ert vön, systir mín!" sagði Maurice, og varð ábyggjufullur, „þjer býr eitthvað sjerlegt í skapi.

„Til hvers á jeg að leyna því lengur fyrir þjer, bróðir minn!" sagði hún, „jeg held jeg hafi nú fundið ráð til að lækna þig."

„Og hvernig ætlar þú að fara að því?"

„Með sjóböðum, og jeg ætla að aka þjer þangað sjálf, það eru 250 mílur hjeðan."

„Þú getur aldrei haft krapta til þess."

„Og því ekki það? Hvað getur maður ekki gjört fyrir tvíburabróður sinn annan eins og þú ert?"

„En hvaðan ætlarðu að fá fje til þessarar ferðar?"

„Jeg hefi í gömlum vettlingi 5 gullpeninga, sem jeg hefi dregið saman af kaupi mínu, og það verður nóg á leiðinni."

(Framhaldið síðar).

---

Þeir sem með gjöfum hafa styrkt prentsmiðjuna á Akureyri næstliðið ár eru eptirfylgjandi:

| | |
|---|---|
| Herra prófastur Benedikt Vigfússon á Hólum í Hjaltadal | 10 rd. |
| Umboðsm. Einar Stefánsson á Reinistað | 20 - |
| Prestur M. Sigurðsson á Gilsbakka | 3 - |
| — Geir Bachmann í Hjarðarholti | 4 - |

Þessum göfuglyndu herrum votta jeg í nafni meðnefndarmanna minna kærustu þakkir fyrir hönd prentsmiðjunnar.

Akureyri 21. janúar 1857.

**Sv. Sk.**

---



---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 5. Febrúar. 5.—6.

## Ekki er ráð nema í tíma sje tekið.

þess er getið í nóvember blaði Norðra þ. á., að fjárkláðapest sje farin að ganga um Suður- og Vesturland, og sje jafnvel komin norður yfir Holtavörðuheiði. þetta eru illar frjettir, og þá bæta ekki hinar um, sem fara munnmælum, að fjeð hrynji niður af þessum sjúkdómi.

Við Íslendingar höfum reynt áður kláðapest á sauðfje, og vitum sögu hennar, hvílíkt tjón og bágindi hún leiddi yfir landið þar, sem hún gekk og víðar. Hvort sem það er nú rjett hermt eða ekki, að fjeð stráfalli af þessum faraldri, þá sýnir reynslan strax, að hann er furðu eitraður, ef hann hefur slegið út um svo margar sveitir á einu sumri, og það er harla líklegt hann sje fullt eins banvænn og hinn fyrri, sem þessi kvað líkjast. Jeg man ekki til jeg hafi heyrt hinn fyrri 1769 hafi farið eins geyst yfir. því getur hafa valdið að minni hafi þá verið samgöngur fjárins en nú.

Hvort sem þessi faraldur er nú jafnbanvænn sauðfjenu og hinn fyrri, ellegar ekki, þá er engan veginn leggjandi upp að vera að káka við hann með lækningum, en lofa honum að breiðast út um allar áttir á meðan, nema nú þegar sje fundin örugg lækning við honum, sem byrjað yrði með strax í vetur báðu megin, þar sem hann er kominn lengst austur og norður, og um allt þar í milli jafnframt.

Hver sem lifir af sauðfjenaði, getur því nærri með sjálfum sjer, ef kláða faraldur þessi dræpi niður lífsbjargar skepnur hans, að hann og þeir, sem hann á að annast, eiga þá skammt til að deyja úr hungri, og hinn litli velmegunarvísir, sem nú er að spretta í landinu, deyr út ef fjeð fellur, og getur varla lifnað aptur á hálfri öld. Mjer virðist það, sem ritstjóri Norðra segir um þenna nýja meinvætt, sje alls kostar rjett og vel hugað, og ekkert ráð sje til að verja bjargræðisstofn sveitabúanna við farald þessum eins líklegt og það, sem hann segir, og reynslan sýndi áður, að eitt dugði, að drepa niður allt sauðfje báðu megin við hann, og svo hverja skepnu sem veikist innan takmarka hans.

þetta er ill nauðverja fyrir þá sem þurfa að taka til hennar, og það ekki betra, að þeir mundi verða að vera sauðlausir heilt ár, þangað til fullsjeð væri að faraldurinn væri hættur. En þeir sem yrði að verða fyrir þessu, ættu samt ekki að láta nein vandræði, sem því fylgja, aptra sjer að taka þetta hjálparráð, til að bjarga atvinnu meðbræðra sinna nú og seinna, og sjálfra sín eptirleiðis. þeir eiga að líta á það, að þeir geta með þessu eina ráði, að líkindum, varið margar þúsundir landa sinna hungurdauða. En við hinir sem þessir bjarga með neyðarúrræðunum að skera allt fjeð, eigum líka að sýna það með einhverju, að við könnumst þakklátlega við, að þeir hafa svipt sig aðalbjargræði sínu okkar vegna, fullt eins og fyrir sjálfa sig. Við getum sýnt þetta með fleiru en orðunum, við getum líka gjört mikið til að hjálpa þeim aptur, og bæta þeim að nokkru leyti skaðann. En svo þeir gæti vitað sem fyrst að okkur væri alvara, til þess þeir hlífðist því síður við að skera niður, ætti búendur um allt land, milli sveitanna, þar sem skorið væri fyrir faraldurinn, að taka sig saman um að selja með góðu verði og gefa kindur þeim, sem hafa orðið að lóga fje sínu vegna pestarinnar, einkum þeim, sem skorið hafa allt sitt, til að verja henni útbreiðslu. Og til þess það sæist, að sem flestir vildu gjöra þetta, virðist mjer vel fallið, að hreppstjóri eða kosnir menn í hverjum hrepp, kæmist eptir því hjá hreppsmönnum hvað þeir mundi vilja og geta látið burtu af skepnum til þeirra sem leituðu þangað fjárkaupa fyrir þá, sem urðu að skera vegna faraldursins; skyldi auglýsa í dagblöðum hvað mikið hjerumbil mundi fást í hverri

sveit, svo fjárkaupamenn vissi fyrir fram að nokkru leyti á hverju þeir ætti von, hvar sem þeir kæmi. En fjárkaupamenn ætti að vera útbúnir með skýrslu frá presti og hreppstjóra í hverjum hrepp, um efnahag búendanna, sem ætti að fá fjeð, svo þeim sem ljeti úti væri þetta ekki ókunnugt. Þó ekki fengist nema 40 til 80 kindur úr meðalhrepp, gæti það orðið mikil hjálp, þegar allt kæmi saman í sauðlausu hreppana. Ef mönnum að lízt þetta, sem jeg sting hjer upp á, gæti orðið þeim til upphvatningar og gagns, sem verða að skera fje sitt vegna kláðafaraldursins og okkur til sóma, er hjeldum fjenu fyrir þeirra hjálp. Þá ætti að byrja strax í vetur á því.

Víðast hvar á Austurlandi er faraldur í sauðfje helzt með tvennu móti bráðafár eða vinstrardrep og lungnabólga með ýmsum kvillum sem henni fylgja. Þessi ófögnuður gjörir nokkrum búendum stórkostlegt tjón, og mjög mörgum töluverðan baga. Fyrir þetta mundi verða bágt í einstöku sveit að láta burtu fjenað svo teljandi væri. En í flestum sveitum mundi fást margt fje, þegar svo mikil nauðsyn bæri til, og menn gætti þess, að þeir sem fjárins þurfa hafa frelsað með tjóni sínu lífsbjargarskepnur hinna frá kláðapestinni. Við mættum ekki telja, þegar svona stæði á, þó við missum svo sem tíundu hverja kind á ári úr faraldrinum hjerna, hjá hinu að verða að missa allar í einu.

Mjer hefur annars dottið í hug að takast mætti að halda eptir allt að helmingi fjárins, í þeim sveitum þar sem heilbrigt fje er skorið fyrir kláða faraldurinn, með því móti að skera strax niður nokkurn hluta fjárins, helming eða hvað sem þyrfti, en gefa hinu inni vetur og sumar og láta aldrei út, fyr en búið væri að eyða öllu kláðafje og sýkinni og hreinsa öll fjárhús. Húsin sem innigjafa fjeð væri í að sumrinu mætti rjúfa í mænirinn og gjöra vindaugu á veggi svo ekki yrði skaðlega heitt á skepnunum, en engan veginn mætti leyfa að láta út, svo það gæti ekki borið til að kind slippi og sækti drepsóttina. Það er líklegt að þetta gæti blessast. Þó væri jeg ragur að telja til þess, af því jeg kvíði fyrir einstöku menn mundi verða svo kærulausir að bregða úr af reglunni.

Svo skal jeg ekki fara um þetta efni fleiri orðum, en biðja menn að hugleiða þetta, sem jeg hefi sagt, og láta sjer vera annt um að finna og rækja öll beztu ráð, sem kostur er á, og miða til þess að verja menn atvinnu missi, eymd og hungri, styðja gagn þeirra og halda uppi sóma þeirra.

* * *

Jeg hefi heyrt að kláðafaraldurinn á sauðfjenu núna hafi komið upp af enskum lömbum, sem einhver hafi látið flytja hingað. Jeg get ekki þagað yfir því, sem mjer datt í hug, þegar jeg heyrði um ensku lömbin, að þau hefði átt að koma til að bæta fjárkynið okkar. Mjer datt í hug: miklir bjánar eru þeir menn, sem ætla sjer að bæta fjeð okkar með útlendu fje sunnan úr löndum, þegar við eigum eitthvert bezta fje í landinu okkar heima, og það áður en farið er að reyna með fullkominni ráðdeild að bæta það eins

---

## Maurice og Genevieve,

**eður**

**Munaðarlausu tvíburarnir (frönsk saga).**

Framhald). „En hvernig eigum við þá að komast heimleiðis?“

„Ef guð lofar verður þá svo komið heilsu þinni“ að þú getur gengið við hlið mjer, og það gjörir leiðina styttri; hann mun ala önn fyrir okkur. Manstu ekki orðin sem hann lagði góða prestinum okkar í munn: Verið hughraust, þið þókniztt drottni, og hann mun vernda ykkur“.

„Já, systir góð, jeg fel mig í hans og þínar hendur, framkvæmdu ráðstöfun hans, því vissulega er það köllun frá honum, fyrst þjer ofbýður ekki vegalengdin“.

„Ekki hót“.

„Eða óteljandi torfærur, sem verða á leið okkar“.

„Við komumst yfir þær“.

„Eða þreytan, því þessi áreynzla verður að ganga fram af þjer“.

„Vertu óhræddur, jeg á hægt með það, jeg er kraptgóð“.

„En þegar þú þarft að fara yfir fjöllin“.

„Þá verðum við einúngis að fara hægra.“

„Þau hepta ferð okkar svo að við verðum mánuð eða lengur á leiðinni“.

„Það verðum við að minnsta kosti, svo það er bezt að fara að búa sig til ferðar“.

„Og viltu endilega ráðast í þetta?“

„Því spyrðu svona!“

Hjörtu þeirra komust svo við, að þau gátu ekki sagt meira, en fjellust í faðma.

Það má nú sjá það af skapsmunum Genevieve, að hún mundi ekki láta af ásetningi sínum. Hún hafði sterka og þrekmikla lund, og hugsaði ekkert um sjálfa sig, þegar

og verða mætti, svo gott fje, að það gæti orðið nærri eins gott og bezta fje á Englandi innan fárra ára, ef hjer væri farið eins að ráði sínu og þar í þeim efnum. Það er þó ætíð sannur málsháttur: „Hollt er heima hvað“, og auðvitað að landið okkar loptið og veðráttan hjerna á bezt við það fjeð sem er hjer kynjað og alið upp.

Skrifað á þorláksmessu 1856.

Bóndi austfirðingur.

---

(Aðsent).

Í niðurlagi umræðu fundarins 1854, sem haldinn var eptir stiptsyfirvaldanna fyrirmælum í Suðurþingeyjasýslu viðvíkjandi brauðamatinu, bentu fundarmenn á, að ekki mundi ótiltækilegt að Lundarbrekka eður Halldórsstaðir í Eyjardalsárprestakalli væru prestssetur. Þess vegna leitaðist prestur sjera Jón Austmann við árið 1855 að fá aðra hverja þessa jörð til ábúðar og fyrir prestssetur og fylgdu honum í því nokkrir sóknarbændur hans. Voru þá gjörð ýmisleg boð Halldórsstaðaeigendum, en sem urðu í það skipti árangurslaus. Jörðin Halldórsstaðir er 16 hundruð að dýrleika, eiga í henni 12 hndr. bræðurnir Jón eldri og yngri Ingjaldssynir er búa á henni, en 4 hndr. Bergvin Einarsson á Sandvík, sem er fátækur barnamaður. Ljet hann á sjer heyra 1856 — að líkindum vegna fátæktar — að hann vildi selja þessi sín 4 hndr., fóru menn þá að bjóða í þau, og varð einn hæstbjóðandi, en af öfund, til þess að hann ekki hlyti boðið, varð annar hvatamaður til þess að prestur, sjera Jón, bæði Bergvin um hundruðin, kvaðst hann vilja gjöra það fyrir prest, ef hann gæti fengið alla Halldórsstaði, en annars ekki. Þess vegna gjörði prestur ásamt 4 sóknarbændum heimreið að Halldórsstöðum í Bárðardal í seinastl. marzmánuði, og fengu leyfi hjá áður nefndum bræðrum fyrir því, að makaskipti yrði á Halldórsstöðum og allri Eydalsártorfunni þó með þeim skilmála, að skriflegur samningur væri gjörður um þetta efni, og eru helztu atriði hans þetta: „að tólf hundruð úr Halldórsstöðum væru látin mæta allri Eyjadalsártorfunni með öllum þeim jarðarhúsum, er henni fylgja í gildu og góðu standi eptir síðustu löglegri úttekt, og að öll kúgildi Eyjadalsártorfunnar skyldu fylgja presti eptir inn á Halldórsstaði; sömuleiðis skyldi kirkjan vera rifin og af lögð með öllu, og Lundarbrekka gjörð að einni aðalkirkju í prestakallinu, en prestssetrið og hjáleigan Hvarf skyldi vera laust, þegar þeir flyttu frá Halldórsstöðum; en jafnframt lofuðu þeir bræður, að ef þessir allir skilmálar væru uppfylltir, þá skyldu þeir gefa 200 spesíur á milli, sem prestur og gjörðarmenn álitu að skyldu gilda fyrir þau 4 hundruð, sem Bergvin átti í Halldórsstöðum“; en færi svo, að ekkert yrði af makaskiptunum, þá skyldu þeir bræður kaupa part Bergvins fyrir þriðjungi meira verð, og ritaði prestur og gjörðarmenn hans hiklaust nöfn sín undir þetta. Að vísu er samningur þessi lengri, en getur hjer ekki komið fyrir alþýðu sjónir allur orðrjettur af því neitað hefur verið um afskript af

---

þegar svona mikið lá við, treysti guði og góðum tilgangi sínum, og flýtti sjer að búa allt undir ferð sína.

Genvíeve hafði ásett sjer að byrja hina örðugu ferð sína 3 júní, á fæðingardegi tvíburanna; á þeim degi höfðu þau ætíð gengið í kapellu hinnar helgu Genevieve, er lá hjerumbil mílu frá bænum. Snemma morguns þenna dag dró hin hugrakka Genevieve bróður sinn af stað. Sólin skein blítt yfir Beauce sljettu, en trjen beggja megin við veginn skýldu þeim við sólarhitanum. Hjer viljum vjer staldra við til að lýsa hinum sjerstaklega útbúningi hennar. Genevieve bjó allt til ferðarinnar sem hún hafði bezt vit á, og efni hennar leyfðu: Yfir fjögra hjóla vagninn, sem var lágur og lítt vandaður að smíð, var gjörður nokkurs konar himin, sem Maurice gat legið undir eins og í rúmi. Leðurband, sem söðlasmiðurinn í bænum hafði gefið þeim, var aktaumurinn, og mátti spenna það fyrir brjóst henni, þar sem vegurinn var svo vondur að meira þurfti á að taka, Hún fjekk sjer ljetta, rúma skó í staðinn fyrir trjeskóna sem tíðkuðust í bænum, og stóran stráhatt bar hún á höfði til að hlífa sjer fyrir brennandi geislum sumarsólarinnar. Maurice var klæddur í spariföt sín, en hún gekk í hversdags fötum sínum, en sparifötin hennar, sem hún ætlaði að fara í, þegar hún kæmi til Boulogne, voru bundnir saman undir höfðalaginu í vagninum.

Þannig hjeldu þau nú af stað til kapellunnar, og Genevieve gekk fyrst mjög hart, því hugurinn bar hana hálfa leið.

„Góða systir“, sagði Maurice. „gakktu ekki svona hart, þú verður uppgefinn áður en þú kemur að kapellunni, þú ofþreytir þig undir eins“.

„Það er satt“ Maurice, jeg gleymdi að jeg hef nokkuð langt að ganga. Jeg skal fara gætilegar framvegis; en segðu mjer til þegar þú vilt hvíla þig“.

Hún hjelt nú hægra áfram, og leit við og við um öxl sjer

honum, en jeg þori að fullyrða, að honum er í engu haggað hvað inntak hans snertir.

En af því mjer virðist, að það sem samningur þessi fer fram á vera að öllu leyti ótiltækilegt, þá vil jeg benda á það, er mjer finnst og jeg álít að vera sanngjarnast í þessu málefni.

Jeg vil í engan máta hafa á móti því álíti brauðamatsnefndarinnar, að Lundarbrekka væri hinn hæfilegasti beneficii staður í prestakallinu, heldur er það einmitt mitt álit, að svo fari bezt, bæði vegna þess, að hún með hjáleigunum er bezta jörðin í öllu prestakallinu, og hins líka að hún stendur austanvert við Skjálfandafljót, því þeim megin er fólkið flest, og prestur þyrfti því sjaldnar að fara yfir það. Þar á móti get jeg vart álitið Halldórsstaði hálfgildi við Lundarbrekku, og líka standa þeir að vestanverðu við Skjálfandafljót; og skyldi presturinn sitja þar, yrði hann á hverjum messudegi að sækja yfir það, sem ætíð hefur þótt versta tálmun á annexjuleið prestsins og opt hindrað messu; auk þess er ekki mikill munur á vegalengdinni frá Eyjadalsá og að Lundarbrekku, og þeirri leið, ef presturinn skyldi þurfa að fara þrisvar frá Halldórsstöðum fram á svo kallaðan Skollavaðsferjustað og út að Lundarbrekku, sem er tveim hlutum hættulegra og jafnvel kostnaðarmeira, enda hafa tveir af brauðamatsnefndarmönnum játað það fyrir mjer, að þeir engan veginn hafi ætlazt til, að makaskipti yrði höfð að jöfnu á Halldórsstöðum og allri Eyjadalsártorfunni, heldur að þeir fengjust fyrir ljensjörð eða þá í sanngjörnum skiptum á móti Eyjadalsártorfunni, líkt og jarðamatið til tekur; en mjer finnst öðru máli að gegna ef 12 hndr. í Halldórsstöðum eiga að gilda á móti allri Eyjadalsártorfunni, því milligjöfina getur enginn sanngjarn maður álitið meiri en fyrir húsamuninn, því Halldórsstaðir eru nokkuð lakara hýstir, einkum af þeim húsum, sem fylgja jörðunni, heldur en hjáleigan hver fyrir sig, sem liggur undir Eyjadalsá, Hvarf og Hlíðarendi. Auk þessa gæti svo farið, að fátækum presti mætti þykja það tillfinnanlegt, að missa 6 fjórðunga af smjöri og átta til tíu sauði, sem mættu vera í eptirgjald af hjáleigunum. Ekki finnst mjer heldur það vera tiltækilegt, að Eyjadalsár kirkja yrði tekinn af með öllu, því það hefur þótt full erfitt að sækja tvær kirkjur í Eyjadalsár prestakalli, og mundi það ekki síður verða, ætti hún ekki að verða nema ein; og einmitt það hefur sjálfur prestur og gjörðarmenn hans játað, að fjórir yztu bæirnir[1] í prestakallinu hlytu að sækja kirkju að Ljósavatni, og eru allar þær jarðir að mestu leyti eða öllu óhultar fyrir skemmdum af sandfoki; en ef þessar jarðir gengju undan prestakallinu, þá eru ei eptir nema þrjár í öllu prestakallinu, sem ei er hætta búin fyrir þess konar eyðilegging, og lítur ekki út fyrir annað en fremstu bæir prestakallsins fari með tímanum þess vegna algjörlega í eyði, og er þessu til sönnunnar, að á næstliðnu sumri 1856, var eitt túnið ekki ljáborið, og nokkur hluti túns á annari jörð því nær eyðilagt, fengust þar og held-

[1]) Bæir þessir eru: Eyjadalsá, Hvarf, Arndísarstaðir og Heiðarsel.

---

til vð vita hvort honam væri að nokkru óhægt, og kl. 7 komu þau að kapellunni, og Maurice kenndi sjer einskis meins, og þó að Genevieve væri bæði sveitt og þreytt, var hún þó glöð að vera komin þetta áleiðis. Hún dró nú kerruna í anddyrið á kapellunni, og hlýddi í auðmýkt á morgunræðu hins gráhærða prests: og sá Maurice að hún lá lengi á bæn, og að stór tár hrundu niður af kinnum henni. Þegar nú bænin hafði styrkt hana, hjelt hún áfram ferð sinni yfir norðurhluta sljettlendisins, og ferðin var þannig byrjuð.

Fegnir vildum vjer telja hvert smáatvik á ferð þessari, sem er að líkindum dæmalaus í sögu veraldarinnar, er tvíburarnir nú ferðuðust þannig úr miðju Frakklandi út á hin fjarlægustu endamörk þess, en vjer verðum að láta oss nægja að telja hin helztu atriði. Eptir hinum stóru aðalvegum á sljettlendinu gekk ferð þeirra vel áfram, þó að hún gengi ekki fljótt. Í hitanum um miðjan daginn hvíldu þau sig í einhverjum eikarskugganum nálægt bæ þar sem þau gátu keypt sjer nauðsynlegt viðurværi. Margan krók varð Genevieve að fara á sig til að sneiða hjá hinum steinlögðu strætum í bæjunum eða hjá fjölbyggðum borgum, sem hún var enn hræddari við, en hvergi þurfti hún þó að halda á því, að láta bróður sinn í hendur ókunnugum mönnum, nema einu sinni, þar varð hún að láta bera hann á börum gegnum einn bæinn, því á rann í gegnum hann, og var engi brú á henni nema í bænum sjálfum.

En eptir að suður eptir dró, komu fyrir þau meiri torfærur. Hjeraðið sem járnbrautin liggur nú um milli Parísarborgar og Orleans var þá mjög torsótt yfirferðar; vegur var þar engi góður, og hann lág yfir brött fjöll, svo að það var varla fært að fara með hesta undir burði, og var því ekki að furða, þó að Genevieve veitti það örðugt. Fætur hennar voru orðnir bólgnir af göngunni svo hún varð að taka af sjer skóna, og gánga berfætt. Hún

úr ekki fullir tuttugu hestar af útheyi í heimalandi. Einnig hefur Þóroddsstaða prestur talað það nýlega við mig, að hann væri ófáanlegur til þess að bæta þessum 4 bæjum við Ljósavatnssókn, sökum erfiðleika Þóroddsstaða prestakalls, og hvort eiga þá þessir bæir að sækja kirkju, ef að Eyjadalsárkirkja væri af lögð með öllu. Enn fremur hefur sjálfseignarbóndi og kirkjuhaldari Jón Sigurðsson á Lundarbrekku verið með öllu ófáanlegur til að samþykkja þessa breytingu á prestakallinu, og neitað því að messað skyldi optar verða sína tíð á Lundarbrekku en verið hefði, nefnil. þriðja hvern sunnudag, og er honum það ekki láandi, því hann verður fyrir meiri ágangi af messufólki en flestir aðrir kirkjuhaldarar, sem leiðir af vegalengd þess, því opt beiðist hjá honum gistingar af messufólki frá tuttugu til þrjátíu manns, og skyldu eins margir bætast við úr útsókninni, og það kæmi fyrir hvern messudag, mætti slíkt verða tilfinnanlegt fyrir hvern þann er sæti á jörðunni, er heldur ekki tiltækilegt fyrir fólk í Lundarbrekkusókn að sækja kirkju nema þriðja hvern messudag, þar nokkur hluti þess þarf að vera tvær og þrjár nætur frá heimilum sínum í hvort sinn og það sækir messu. — Þegar á þetta er litið, hugsaði jeg að einhverjum fleirum en mjer mundi þykja það kynlegt og ískyggilegt, að prestur skyldi fara að sækja um makaskiptin, og að Eyjadals kirkja yrði af tekin, meðan þetta er enn þá ófengið. — Eitt með öðru viðvíkjandi málefni þessu, er mjer þykir undarlegt er það: að presturinn sjera Jón Austmann óskaði þess næstliðið vor af einum sóknarbónda sínum, sem hann áleit þess um kominn, að bjóða sem mest í part Bergvins, svo hann hefði engan halla af skiptunum, af því hann áleit hann mætti einskis í missa fyrir sig og fjölskyldu sína sökum fátæktar, en sjálfur hann og gjörðarmenn hans áskildu þó, að hann gjörði sig ánægðan með 200 speciur sem bræðurnir ætluðu að gefa í milli, og má sjá af þessu, að prestur og gjörðarmenn hans hafa ekki álitið hundraðið í Halldórsstöðum nema 50 specía virði, en þegar nú bóndi sá, er prestur hafði mælst til við, að bjóða sem mest í hundrað Bergvins, frjetti, að skipta ætti að jöfnu Halldórsstöðum og Eyjadalsártorfunni, hugsaði hann, að Bergvin mundi fá fjórða part úr henni móts við sinn fjórða part úr Halldórsstöðum, og skrifaði því Bergvin til í næstliðnum októbermánuði, og bað hann að selja sjer fjórða part úr Eyjadalsártorfunni með öllum sömu skilmálum eptir tiltölu og Halldórsstaða bræður áskildu sjer í samningnum, og bauð nefndum Bergvin 880 dali, og eptir því verður torfan öll á 3,520 rd., og vantar þá til, að Eyjadalsártorfan kvitti Halldórsstaði 420 ríkisdali, sem að þó Bergvin mun ganga eptir og líka getur, þar eð hann skrifaði undir samninginn með þeim fyrirvara, „að hann sleppti sínum hundruðum úr Halldórsstöðum ef hann fengi það fyri þau, sem honum væri þóknanlegt, og hann væri ánægður með“, enda er það vonandi, að enginn vilji verða til þess, að rýra eður skaða rjettindi hans. — En nú vil jeg spyrja: hvaðan eiga þessir 480 dalir að koma verði makaskiptunum framgengt? Eða er ekki

---

varð nú einlægt að vera að standa við og taka hvíldir og komst því lítið áfram, En þó að hún væri þannig örmagna, byrjaði hún þó sýnilega ferð sína brosandi, þegar hún hafði hvílt sig, því hún sá hversu bróður sínum sveið það að sjá hana þreytta.

Eptir 12 daga þreytandi göngu, þegar hún hafði farið yfir 8 brött fjöll kom hún að bænum Rauðfjalli. Þar var gestgjafakona ekkja eptir skotliðsforingja einn, sem fallið hafði við Waterloo; hún reindist henni eins og önnur móðir. Hin góða kona grjet af meðaumkvunarsemi, þegar hún sá kvennmann, sem hafði tekizt slíkt erfiði á hendur af skyldurækt einni saman, og veitti tvíburunum hina beztu aðhjúkrun. Hún neyddi Genevieve til að dvelja hjá sjer nokkra daga, og þegar Maurice var óeyrinn að bíða, og langaði til að halda áfram ferðinni, sagði hún honum að hann skyldi vera hughraustur, því hún vildi enga borgun hafa fyrir greiða sinn. Leðurbandið var búið að særa Genevieve mikið á brjóstinu, og útvegaði gestgjafakonan henni annað betra og hægara. Að skilnaði faðmaði hún Genevíeve, sem þá var tekinn að hressast, og sagði hún skyldi vera trúarörugg, og að fyrirtæki hennar mundi heppnast, því vissulega hefði guð blásið henni því í brjóst.

Þessi vingjarnlega kveðja hressti nú upp hug systurinnar, og hún hjelt nú leiðar sinnar. Hún sneiddi hjá Parísarborg, og fór yfir Signu í báti, og kom seint um kvöld til St. Denis. En þar voru viðtökur hennar lakari. Ungir menn frá Parísarborg, sem höfðu farið að veiðum þyrptust kringum hana, og hjeldu hún væri flökkustúlka, og veiki bróður hennar væri uppgerð ein, og hrakyrtu hana því. Stúlkan, sem vissi sig saklausa, skalf af gremju, en gat engu svarað, en Maurice hristi sig magnlaus í vagninum og sagði: „Þjer níðingar! bezta sönnunin fyrir því, að jeg sje krypplingur er sú, að jeg haf ekki krapta til að gefa yður ráðningu þá sem þjer eigið skilið“. (Framh. síðar).

töluverð ósamkvæmni í þessari aðferð prests og gjörðarmanna? Ef að gjörðarmenn uppátækis þessa vilja hafa sjer það til afsökunar í máli þessu, að Halldórsstaðir sje hægri jörð en Eyjadalsá, þá skildu þeir gæta þess, að Eyjadalsár prestar hafa komizt vel af með 2 vinnumenn, og sumir með einn, en á Halldórsstöðum ganga þar á mót til vinnu 3 og 4 karlmenn, en hreppsbókin sýnir árangurinn og eru þeir þó taldir góðir búmenn. Enn fremur þyki mjer ísjárverðar undirskriptir bænda undir bænarskrána viðvíkjandi makaskiptunum, er stiptsyfirvöldunum var send, bæði vegna þess hve lengi það stóð yfir að fá þær, sem, var frá aprílmánuði til þess seint í ágústmánuði, og líka vegna hins, að sumir fengust aldrei til að skrifa undir hana; sömuleiðis vegna þeirra ummæla, er við mig voru höfð, þegar jeg neitaði að skrifa undir hana: „að einu mætti mig gilda, hvernig farið væri með brauðið, því aldrei yrði jeg prestur á Eyjadalsá“.

Sagt er að prófastur H. Björnsson muni hafa mælt framt með bænarskrá þessari, en hafi þó viðurkennt, að hann aldrei hafi sjeð samningsbrjef milli Halldórsstaða bræðra og prestsins og gjörðarmanna hans.

En hvað breytingu þessari á brauðinu yfirhöfuð viðvíkur, þá er það álit mitt, að hún aldrei geti orðið til verulegra bóta fyr en Lundarbrekka fengist fyrir prestssetur, og Eyjadalsá væri gjörð að annexíu.

Af því nú að einn af bændum í prestakallinu áleit aðferð þeirra manna, sem framfylgt hafa þessum breytingum mjög ísjárverða og ósanngiarna, þá hefur hann ritað byskupi tvö brjef og í þeim tekið fram ástæður sínar fyrir því, að hverju leyti honum virtist þetta óráð, og er helzta inntakið úr brjefunum þetta:

Í seinast liðnum martzm. gjörðu sóknarbændur í Lundarbrekku sókn heimreið að Halldórsstöðum í Bárðardal ásamt presti sínum J. Austmann og komu sjálfseignarbændunum þar til þess, að lofa því að hafa makaskipti á Halldórsstöðum fyrir prestssetrið Eyjadalsá með báðum þar með fylgjandi hjáleigum, Hvarfi og Hlíðarenda.

Jeg er hræddur um að þetta uppátæki hafi fremur stjórnast af kappi en forsjá, því þó Halldórsstaðir sjeu 16 hundruð en Eyjadalsá 12 hndr. að dýrleika, þá er það alþekkt, að sjálft hundraðatalið á jörðum í norðurlandi er lítið að marka, heldur öllu fremur, hvernig á þeim er búið. Á Halldórsstöðum hafa árlega framfærst 2 eða 3 kýr, hestar frá 4 til 7, og sauðfjenaður að því skapi, þar sem á Eyjadalsártorfunni framfærast árlega 6 kýr, hestar frá 12 til 14, og sauðfje fullum þriðjungi fleira en á Halldórstöðum.

þess vegna þótti mjer slíkt óráð fáheyrt, að ætla að hafa makaskipti og það að jöfnu á þremur lögheimilum fyrir eitt, sem þó er í sumu ekki eins gott og beneficii staðurinn út af fyrir sig, að fráteknum kotunum, sem honum fylgja, sem bæði eru til samans fullt eins mikils virði og staðurinn sjálfur, hvar af þá er auðsætt, að staðurinn getur ekki gilt nema á móti hálfum Halldórsstöðum, en af hálfu Halldórsstaða túni fæst hjer um bil 40 hestar af töðu; af Eyjadalsár túni þar á móti er mælt að fengist hafi nú í sumar með kvíabóls-töðu 140 hestar og af öllum túnum Eyjadalsártorfunnar rúmir 213 hestar, en af öllu Halldórsstaða túni rúmir 80 hestar, svo þegar búið er að heyja í Halldórstaða engi fyrir því, sem taða er meiri á Eyjadalsá, þá mun verða lítið eptir af því í sumum árum, og hvað fæst þá á móti því engi, sem er á Eyjadalsá, sem er svo mikið og víða, að jeg veit ekki til að það hafi unnizt upp á einu ári af öllum ábúendunum?

Líka ber þess að gæta að prestur vor hefur bætt staðinn ár hvert með prýðilegri byggingu og túnið með vatnsveitingum og skarnrækton; auk þessa hefur hann stundað jarðeplaræktun og yfir höfuð setið vel jörðina, en bygging á Halldórsstöðum er að mínu áliti lakari en á kotum þeim, sem fylgja Eyjadalsártorfunni.

Hefði hjáleigan Hvarf verið lögð í eyði, og tekin undir staðinn til allra nota, þá hefði engin jörð í prestakallinu orðið eins góð og Eyjadalsá, að undan tekinni Lundarbrekku og Stóruvöllum, og þó er hjáleigan Hlíðarendi til ofurs, sem víst mætti selja fyrir 400 til 600 dali, og er þetta samhljóða jarðamatinu.

Halldórsstaðir standa svo framarlega í prestakallinu að ekki eru nema tveir bæir fyrir framan þá til öræfa og land þeirra bæja gengur ár hvert af sjer vegna sandfoks, svo það eru líkur til, að fremstu bæir dalsins leggist í eyði þegar framlíða tímar, og skemmdir þessar og eyðilegging ná ekki einungis út að Halldórsstaða landi í öllu fjalllendinu heldur út fyrir það og aukast ár hvert. Þegar jeg því sá þær skemmdir sem vindar gjörðu á næstliðnu vori, hvarf jeg frá því með öllu að gefa fyrir Halldórsstaði eins mikið og jeg áður hafði ætlað, og þá ekki síður frá því, að álíta þá hæfilegan beneficiistað[1].

Mjer er spurn: hvernig ætli það land verði orðið að nokkrum öldum liðnum, þar eð nú er fjórði eða fimmti partur þess kominn í mela, sandflög og rústir, og það hreint ofan undir engi?

Hefðu bændur viljað vera presti sínum til vilja, þá áttu þeir að útvega honum Halldórsstaði til ábúðar hans hjerveru tíð, en láta brauðið halda sjer óskert og byggja staðinn líkt og sjera Jón Kristjánsson á Yztafelli; jeg skyldi hafa mælt fram með því og enda lagt til, eitthvað af minni fasteign.

Hreppsbókin sýnir það, að ábúendur Eyjadalsártorfunnar hafa tíundað hjerum bil 40 hundruð, en ábúendur Halldórsstaða frá 20 til 30 hundruð, sömuleiðis er afgjaldið af Halldórsstöðum hjerumbil 34 dalir, en af Eyjadalsártorfunni 62 dalir.

---

[1]) Menn eru nú enn betur en áður farnir að sjá hvílíkt óráð það sje í þessari sveit, að bjóða geip í þvílíkar jarðir sem liggja undir slíkum áföllum og skemmdum, og vilja því heldur gefa tvöfalt fyrir þær, sem ekki er hætta búin við þeim.

það er því mitt álit, að stór nauðsyn væri á, að mál þetta væri betur prófað, og jarðirnar skoðaðar og metnar af óvilhöllum mönnum, áður en ráðizt yrði í að hafa makaskipti á þeim. og álít jeg alþingismennina í Suður þingeyjarsýslu bezt kjörna til þess.

# Frjettir.

**Innlendar.** Maðurinn, sem senda átti hingað norður að sunnan, undir eins og póstskipið kæmi frá Englandi, er enn ókominn, og vanta oss því enn allar útlendar frjettir, en ef hann kemur, og hefur nokkuð merkilegt til frá sagna, munum vjer láta oss annt um, að lesendur vorir fái það sem fyrst.

Veðráttan hefur frá byrjun jólaföstu verið fremur hörð og frostamikil, þó hefur kuldinn orðið mestur hjer norðanlands 20—25° Reaumur, en minni á austurlandi. Jarðir hafa næstum því einlægt verið nokkrar, en opt ekki gefið að beita fjenaði út sökum illviðra. Sela - afli hefur verið nokkur hjer á Eyjafirði í vetur. Ekki höfum vjer spurt, að neinir hafi farið í hákarlalegu hjer nyrðra sökum gæftaleysis, nema Fljótamenn skutust út snemma í janúar, og fengu 12 kúta mest, en 4 minnst. þiljuskipin eru óðum að fjölga hjer nyrðra, og ekki allfá í byggingu í vetur.

Hafís liggur nú fyrir norðurlandi, einkum austur um frá Sljettu til austfjarða. Til austfjarða kom hann þriðja í jólum, og hefur hann aldrei komið þar svo snemma í manna minnum.

Um fjárkláðann höfum vjer ekki heyrt neitt nýtt síðan vjer gátum hans seinast. Hjer í Eyjafirði bar lítið eitt á lúsakláða, og skoðaði læknir vor hann, og virtist hann að öllu ómerkur, enda hefur ekki á borið, að hann hafi neitt breiðst út. Sama er að segja um Skagafjarðarsýslu, að því er vjer höfum frjett. Á bráðasóttinni í fjenaði hefur víða borið nokkuð hjer norðan og austanlands, en þó hefur hún verið með vægasta móti, nema í suðurfjörðum í Múlasýslu, þar hefur hún víða drepið fjölda fjár.

# Mannalát.

Með austanpóstinum barst oss sú frjett, að Benidikt prestur þórarinsson í Eydölum í Breiðdal sje andaður. Hann var sonur þórarins prests Jónssonar, er síðast var prestur að Múla í Reykjadal. Sjera Benidikt var fæddur 1794, útskrifaðist (úr heimaskóla hjá föður sínum) af byskupi Geir Vídalín verið 1817. Eptir það var hann í 4 ár skrifari hjá þórði sýslumanni Björnssyni á Garði í Aðaldal. Síðan var hann kallaður fyrir aðstoðarprest af frænda sínum prófasti Árna þorsteinssyni á Kirkjubæ, og tók prestsvígslu af byskupi 1821. Hann gegndi að mestu prestsverkum að Kirkjubæ þangað til honum, eptir andlát Árna prófasts var veitt Desjarmýri og Njarðvíkurbrauð. því næst Ás í Fellum 27. júní 1837, og seinast Eydalir í Suðurmúlasýslu 8. septembr 1851. Árið 1830 gekk hann að eiga fyrri konu sína Sigríði Einarsdóttur frá Hrafnsgerði, og eru 2 börn þeirra á lífi — Jón guðfræðis-iðkari á prestaskólanum og Björg kona verzlunarfulltrúa Schou á Húsavík. Árið 1846 kvongaðist sjera Benidikt í annað sinn þórunni Stephánsdóttur, prófasts á Valþjófsstað, og átti með henni 4 sonu, sem allir eru á barnsaldri. Hann andaðist á gamlaárskvöld 1856. Hann var löngum heilsulasinn síðari hlut æfi sinnar, einkum af brjóstveiki og blóðuppgangi. Sjera Benidikt var einn af merkustu prestum austanlands, hinn háttprúðasti og reglumesti maður í öllu heimilislífi sínu, hinn besti og ljúfasti húsfaðir og ættfaðir, hinn árvakrasti og iðjusamasti embættismaður í öllum greinum, ágætasti kennimaður, og sönn prýði stjettar sinnar, og hafði því að maklegleikum hina mestu virðingu og elsku af öllum er hann þekktu.

Í Breiðdal hefur líka andast merkisbóndi Högni Gunnlaugsson á Skriðu.

Enn fremur hefur andast merkiskonan Jarðþrúður Einarsdóttir á Egilsstöðum á Völlum í Fljótsdalshjeraði. Hún var 77 ára að aldri, hinn mesti kvennskörungur, gestrisin, og gjörði vel til allra, er hún megnaði.

---

## Læknismeðal við óþrifakláða á fje.

16 lóð af rullutóbaki, blöðuð niður eður nokkuð söxuð, soðin í 6 pottum af hlandi, til þess ei er orðið nema 4 pottar, lögurinn svo síaður frá, og kláðabletturinn svo þveginn úr honum. Einnig er vanalegt að greiða ullina sundur eptir endilöngu miðju baki, og hella þar í aptur og fram hjer um hálfpela, en halda ullinni að, svo ekki renni út af, heldur með skinninu ofan hliðarnar beggja megin.

þetta meðal brúkast almennt bæði í Svíaríki og á Englandi, og hefur reynzt vel hjer á landi þar sem það hefur verið við haft, einkum þegar góð gjöf hefur verið samfara, svo kindurnar hafa náð að bragðast.

Eptirfylgjandi leiðrjetting hefur oss verið send að austan:

Í 4 árg; No. 15 — 16, 58 blaðsíðu Norðra er talað um innlendar frjettir, og á meðal þeirra um þau kjör, sem Fljótsdalsfjelagið hafði á verzlun sinni í sumar. Þar eð nú enginn getur betur um þetta sagt heldur en jeg, sem verzlaði við fjelagið álít jeg það nauðsynlegt að fræða lesendur Norðra á því að varla er nokkurt orð rjett í því sem þar stendur, hvorki um sikur og kaffikaupin, 5 eða 10rd. afslattinn nje nærri neinu lagi um dalaupphæð á því sem fjelagið hafi í ágóða, og þar eð þetta á að vera skrifað „eptir sögu eins fjelagsmannsins", hlýtur þessi að hafa verið að segja Norðra sögur að gamni sinu.

Eskjufirði 13. janúar 1857.

H. H. Svendsen.

Mjer þykir nú alllíklegt, að það sem mjer var munnlega sagt í sumar um þenna hag, sem Fljótsdalsfjelagið hefði haft af fjelagsskap sínum, hafi verið orðum aukið, því sami maðurinn, sem þó sagði mjer þetta, skrifar mjer seinna að jeg gjöri of mikið úr þessu, þar sem jeg þó hafði hans eigin orð fyrir mjer, og svo hafa nokkrir af þessu fjelagi skrifað mjer viðlíka og herra faktor Svendsen, og beðið mig að setja það í blað **sitt** (?) Norðra; en eptirtektavert er það, að hvorki herra Svendsen nje þessir fjelagsmenn vilja gefa mjer skýrslu um, hve mikill ávinningur fjelagsmanna hefur að rjettu lagi verið. Það væri þó betra fyrir fjelagsmenn sjálfa að vita slíkt greinilega, svo að þeir hafi ekki forstöðumenn sína ranglega grunaða um að draga sjer nokkuð af ávinningnum. Þó að kaupmenn álíti það gott að halda þess konar samningum leyndum, get jeg ekki sjeð neina ástæðu fyrir verzlunarfjelögin að gjöra það, nema ef vera skyldi sú illa ástæða, að þeir væru þá hræddir um að aðrir fengju líka sömu kosti, en gætu ekki unnt þeim þess. **Sv. Sk.**

## Þakklæti.

(Aðsent) Betra er seint en aldrei. Af því jeg hefi allt af hugsað að einhver annar sveitungi eður nærlendismaður minn mundi halda því á lopt opinberlega sem maklegt var — öðrum til eptirbreytni — hefi jeg dregið mig í hlje að geta opinberlega þeirra heiðursmanna, sem veturinn 1854 áttu mestan þátt í, með krapti og góðvilja, að verða bjargvættir með því að gefa, hjálpa og lána fjölda nauðstaddra manna hjer um slóðir, sem af harðindum og bjargarskorti voru yfirbugaðir vegna fiskileysis, dýrra, lítillra og örðugra kornkaupa austur á Djúpavog um vetrartíma. Til þessa nefni jeg einkum prestinn sjera Þorstein Einarsson á Kálfafellsstað í suðursveit innan Austur-Skaptafellssýslu, bóndann Guðmund Hjörleifsson á Starmýri og hreppstjóra Björn Gíslason á Búlandsnesi, báða í Suðurmúlasýslu, sem allir gáfu, hjálpuðu og lánuðu meira og minna, auk þess að tveir þeir síðar nefndu fram yfir þetta veittu ferðamönnum opt hinn bezta fararbeina með aðhjúkrun manna og hesta á þeirra örðuga ferðalagi um hávetrar harðinda tíma, þar báðir eru í þjóðbraut, enda gjörðu það fleiri, jafnvel meir en efni leyfðu. Næst þessum minnist jeg með þakklæti þeirra þriggja sómamanna: hreppstjóra Stefáns Eiríkssonar á Arnanesi, bróður hans Guðmundar Eiríkssonar á Hoffelli, og bóndans Bjarna Gísla sonar á Vindborðsseli, sem allir með örlæti, hjálpsemi og mannúðlegri liðveizlu ljettu undir nauðstaddra meðbræðra sárbágu kjör í þeim almenna bjargarskorti um sömu mundir sem hinir fyrnefndu.

Fyrir slíkar mannúðar athafnir þakka jeg hjer með opinberlega í nafni sveitunga minna og nærlendismanna, áður nefndum heiðursmönnum.

Skrifað í Júlímánuði 1856.

St. Hornfirðingur.

## Auglýsingar.

Það gjörist hjer með heyrum kunnugt, að Sigurður Halldórsson hefur upp alizt hjá mjer síðan hann fæddist, nú nærhæfis 17½ ár. Fyrir faðerni hans sór sá sem móðir hans lýsti föður, fyrir aukarjetti á Djúpavog. Af því slíkt má ætíð krenkja huga og tilfinningar ærlegra manna, bæði yfir höfuð að tala, og líka í viðbúð og viðskiptum við aðra menn, að hljóta að brúka móðurnafn í stað föðurnafns, þá leyfi jeg mjer hjer með að lýsa því yfir, að jeg hefi valið honum nafnið **Jón** fyrir föðurnafn, eptir að auglýsing um það er skeð, svo hann í allri umgengni og viðskiptum á sínum tíma nefni sig **Sigurð Jónsson.** Þó þetta kunni að þykja kátlegt með fyrsta, þá rennur það burtu með tímanum í ósýnilega fjarlægð.

Búlandsnesi í desembermánuði 1856.

Björn Gíslason.

Jeg hefi af brjefum og orðsendingum úr Skagafjarðar og Húnavatnssýslum komizt að því, að flesta eður alla kaupendur Norðra þar vantar nóvemberblaðið f. á., og hafa sumir eins og von er hótað að ganga úr blaðinu fyrir það. Jeg hefi nú ekki svo mikinn afgang af upplaginu, að jeg geti bætt úr þessu; en jeg get nú sagt áskrifendum mínum hvernig þessu er varið. Jeg sendi þetta blað með söðlasmið Jóni Guðmundssyni á Neðstabæ í Vindhælishrepp í Húnavatnssýslu, og hefi jeg frjett að blaðið liggi enn hjer í Öxnadal, og skal jeg nú leggja drögur fyrir, að það komist með pósti, og vona jeg að kaupendur mínir sjái að þetta er ekki mjer að kenna.

Akureyri 4. febrúar 1857.

**Sv. Sk.**

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 28. Febrúar. 7.—8.

## Skuldaverzlun og skuldlaus.

Jeg hefi heyrt að einn kaupmaður hjer á austurlandi ætli að byrja eða sje þegar byrjaður á nýrri verzlunaraðferð, sem ekki hefur tíðkast hjer fyrri. Hann vill láta hönd skipta hönd, ákveða strax í hvert skipti verð á báðum vörunum, sinni og okkar, engum lána, og borga hverjum einum sitt.

það er vert að hugsa um, hvort þessi verzlunaraðferð muni vera betri enn sú sem tíðkast ellegar ekki, og virðist hún í nokkru betri, hvort hún muni þá vera það fyrir kaupmanninn ellegar okkur, eða hvoratveggja.

Jeg fyrir mitt leyti álít þessa nýju aðferð langt um betri, bæði fyrir landsmenn og kaupmenn, ef hún gæti komizt á. — það vil jeg reyna að sanna.

þessi verzlunarháttur, sem nú gengst við, og lengi hefur tíðkast, er að minni hyggju mjög affara-illur að mörgu leyti; enda get jeg ekki sjeð að nein verzlunarleg ráðdeild sje í honum, og hann mun óvíða gangast við í heiminum nema hjá okkur. Jeg veit ekki hvað er í sumum nýlendum, sem haldið er í verzlunaránauð. Líklega er hann illar menjar af verzlunarsúrdeiginu gamla, sem dróg svo lengi dáð og dug úr okkur, og færði í helju svo margar þúsundir manna.

það getur verið að mörgum af okkur þyki þetta verzlunarlag, sem nú er, ómissandi, og ekki geti öðruvísi verið, af því menn þekkja ekki annað betra, eru orðnir þessu vanir, og ólagið komið á. Menn eru orðnir þessu svo vanir að vera skuldum bundnir, þykir yfrið hagkvæmt að geta fengið á hverjum tíma ársins það sem þeir vilja hjá kaupmanninum fyrir eintómt loforð að borga það einhvern tíma þegar þeir geti, liggur líka stundum mikið á að fá lánið. En þegar komið er í þessa skuldabendu, sjá fæstir úrræði að komast úr henni, og standast skuldlausir. þá verða menn að láta sjer lynda að allt gangi svona á víxl: skuldborgun og skuld. því verður ekki neitað, að kaupmenn hjálpa opt þurfandi með lánum, og eru furðu þolinmóðir og umburðarlyndir þó tregt og seint gangi skuldagreiðslan, og færstum af þeim verður nú á dögum brugðið um það, að þeir oti fram óþarfa til að binda menn skuldum við sig.

það virðist þó vera auðsjáanlegt, hvað leiðir af þessu skuldavastri fyrir okkur. Við getum aldrei heitið frjálsir ráðendur eigna okkar, og erum að þessu leyti í sífelldu þrælsbandi, sem ervitt gengur að slíta; við látum stundum leiðast í óyndis úrræðum til pretta og óráðvendni, brigðum loforð við lánardrottinn, hlaupum frá þeim til annara, og látum skuldina standa, og svörum stundum illu, þegar þeir finna að. Við verðum opt að missa af góðum kaupum, vegna skuldabandsins. Við verðum að vera utan við öll verzlunar samtök, sem opt gæti orðið okkur til mikilla hagsmuna. Við verðum að smáreita lífsbjargar skepnurnar á haustin upp í skuldirnar, sem heldur okkur jafnan fastari í þeim, eða birlar aðrar þyngri, þó fjeð sýnist vel borgað. — Hjer að auki getum við skuldaþrjótarnir aldrei verið frjálsir í huganum; við verðum eins og á flótta, þó enginn sýnilegur elti. þetta ófrelsi og kvíði dregur mikið úr mörgum okkar dug og áræði til þarflegra fyrirtækja. Bágindin gjöra flesta niðurdrepna og úrræðalitla, og þetta hefur ávalt meinlegust áhrif á dugnað manna, gleði, rósemi og ánægju í lífinu. þetta finnst mjer vera satt, og eru þá skuldirnar ekki lítill meinvættur tímanlegri velferð okkar, ef þær svipta okkur nokkru eða miklu af því, sem er svo þarflegt og lofsvert í heiminum, manndáð og dugnaði, og svo líka nokkru af hinu, sem maðurinn er skapaður til að njóta, og allir sækjast eptir, gleði, rósemi og ánægju. Eins og það er satt, að hugur vex, þegar vel gengur, svo er hitt, að hann dignar þeg-

ar báglega gengur. Dragi þá skuldirnar úr okkur hug og áræði til framkvæmdar, þá verða þær undirrót til annara skulda, og hjálpa til að halda okkur sífellt í þessari ánauð og bágindum. Skuldum bundin örbyrgð varnar okkur jafnan að ná verðskulduðum heiðri, og sviptir okkur áliti. það ber líka við að lánardrottnar fyrirlíta okkur vegna skuldanna, og fara verr með okkur en við eigum skilið. þá er ekki skemmtilegt fyrir neinn, sem finnur til sóma síns, til þeirrar virðingar sem maður á bera fyrir sjálfum sjer til að verjast minnkun, það er ekki skemmtilegt að horfa á okkur stundum skuldaþrjótana, hvernig við berum okkur frammi fyrir lánardrottnunum útlendu og þjónum þeirra, hversu argir sem eru. Jeg ætla ekki að lýsa þessu, jeg hefi sjeð ofmikið. Ímyndið ykkur þá, sem þið hafið sjeð bera sig aumlegast og auðvirðilegast.

Jeg veit margir segja: til hvers er að vera að tala um þetta: við getum ekki verið skuldlausir, nema hætta þá búskapnum og setja krakkana á sveitina. Vilji kaupmennirnir ekki lána okkur, verðum við að fá lán hjá löndum okkar, en þeir eru opt miklu verri; sumir geta ekki lánað, sumir þora ekki að eiga hjá okkur, og margir heimta lánið, þegar okkur gegnir verst.

þetta er ekki hæfulaust. En það veit jeg, að opt er eitthvert ólag með í leik, þegar um kaupstaðarskuldirnar er að tala. Við erum margir í viðlíka skuld ár eptir ár, gjörir hvorki að minnka eða vaxa. Árs- varan okkar stenzt á við kaupin, en gengur svona allt á víxl; við borgum með vörunni skuld liðna missirisins, og kaupum aptur nýja skuld. Við þyrftum að finna ráð til að breyta þessu. Ætla það væri ekki reynandi að gjöra samning við lánardrottinn, að borga árlega ákveðinn part af skuldinni, og gjalda jafnvel leigu af því sem óborgað er, stritast svo við að borga þetta ákveðna skilvíslega, en verzla að öðru leyti svo að hönd skipti hönd, og setja sýn fyrir að safna ekki nýrri kaupstaðar skuld, Betra er að svelta nokkurn kafla af hverju ári. en selja frelsi sitt fyrir nokkrar magafyllar og munað. Opt er bágra að fá lánsfje hjá innlendum en kaupmönnum. Landsmenn okkar hafa optast minna í höndum, enda veldur stundum viljaleysi. Ef þeir vilja ekki lána okkur, er það annaðhvort af því þeir eru kærleikslausir nirflar, eða þeir þora ekki að lána okkur, því við erum í skuldum, ellegar ekki skilvísir. Svo er hjer á landi mesta ólag á viðskiptum manna, þeirra sem lána og taka lánsfje, eins og á allri annari peninga meðferð. Hjer er optar lánað leigulaust, og lánið ekki eindagað, enda misjafnlega haldinn eindagi, þó hann væri settur. þessu ólagi valda að miklu leyti kaupstaðar skuldirnar, sem eru hvorki eindagaðar, og ekki goldnir af vextir. það væri ómissandi að eindaga allt lánsfje og taka vöxtu af. Sá sem tæki lánsfje þannig, og gyldi allt á rjettum skildögum, mundi lengi fá lán.

það fylgir eitt kaupstaðarskuldunum að þeir, sem eru í þeim, fá stundum ekki nauðsynjar sínar á haustin í kaupstaðnum, því ekki er neitt fyrir að gefa, eða þeir þora ekki að biðja um svo

---

## Maurice og Genevieve,

eður

### Munaðarlausu tvíburarnir (frönsk saga).

(Endir). þessi orð gjörðu nú ekki annað en æsa upp ójöfnuð þessara gárunga, svo að Genevieve vildi ekki annað en fara þegar á stað þó hún væri þreytt, og báruat þau fyrir um nóttina undir auðu lopti. þar lagði hún sig niður við fætur bróður síns, og hallaði höfðinu að knjám honum, og fljettuðu þau höndum saman eins og greinunum var saman brugðið á eikinni sem þau sváfu undir, þannig fundu þau frið og væran svefn um milda sumarnótt

Í annað sinn komust þau einnig í háska á leiðinni., það var í þrumuveðri í Adamsskógi, og varð það þeim næstum óþolandi, því afleiðingarnar af hinu fyrra reiðarslagi komu yfir Maurice, svo að hann fjekk hvert ómegin að öðru. Á meðan á því stóð hjelt systirin höfði hans á brjósti sjer og höndum sínum fyrir augu hans til þess að hann sæi ekki eldingarnar, og hlífði honum við regninu sem bezt hún gat með því að breiða sig yfir hann, og gjörði heitar bænir til guðs, að hún hefði ekki komið bróður sínum svo langt áleiðis til þess að hann yrði aptur lostinn af hinu óttalega reiðarslagi í höndum sjer, eða ef að það væri vilji forsjónarinnar, að hún þá mætti látast með honum".

þetta sem hún nú óttaðist kom nú samt ekki fram. Stormim og þrumuveðrið lægði, og gjörði vegfarendunum engan skaða, nema þau urðu að vera um kyrrt nokkra daga, því Máurice fjekk köldusnert eptir óveðrið.

Eptir 22 daga ferð komu þau til Beuvais, þar sem leið þeirra var hálfnuð, og voru þá 3 gullpeningarnir búnir þrátt fyrir alla sparsemi Genevieve, svo að þau urðu nú að neita sjer um öll hægindi til þess að geta komizt alla leið án þess að þurfa að biðja matar sem förumenn,

mikið vegna skuldarinnar; verða svo að smá knýja á kaupmanninn á útmánuðum og vorum, þegar sulturinn kallar að, en þá er opt lausara fyrir (ef matur er til). En það er bæði, að þá er maturinn jafnan orðinn dýrri, enda verður þá mörgum að kaupa einhvern óþarfa með fram, og sumir kaupmenn fúsari að lána hann. Það rætist þá líka hjer, að skuld elur skuld.

Varla verður högum að því hugað, hversu verzlunarlagið sem nú er elur óhófið og ósómann, þessi fúsleikur að lána, til að koma út óþarfanum og binda menn við verzlunina, og þessi góðmennska kaupmanna og meinhægð í skuldakröfunum.

Þá er enn einn annmarki harla leiðinlegur á verzlunarlaginu hjá okkur: við látum vörurnar okkar til kaupmannsins, eins og þær eru til, jafnaðarlega áður en við getum fengið að vita grand, hvað hann muni gefa okkur fyrir þær. Hann veit ekki sjálfur, hvað hann muni *verða* að gefa, þó hann viti hvað hann *vill* gefa. Að sönnu höfum við optast eitthvað í aðra hönd af vörum kaupmannsins. Sömu álögin eru á því, hann veit ekki sjálfur hvað það muni kosta, því síður við. Í þessari villu vöðum við fram eptir öllu sumri, og höfum okkur til hugnunar loforðin um „beztu prísa“. Þegar við verðum að verzla svona, getur enginn vitað, hvar bezt muni vera að berast fyrir. Allt verður að eiga undir drengskap kaupmannsins, að hann endi loforð sín þessi vanalegu, að láta okkur fá sömu kjör og bezt verða það sumar, þar sem hann er, eða þá í næsta verzlunarstað. Kaupmenn enda jafnan þessi loforð, það er satt, af drenglyndi, hyggindum eða eigingirni. Samt sem áður er þessi verzlunarháttsemi greyleg að mörgu leyti og ískyggileg. Jeg trúi því varla að þvílíkt haldist uppi nokkurstaðar nema hjer.

Nú hefi jeg minnst á kaupstaðskuldir, kaupstaðarlán og óvissuna um verðið á vörunum, hversu þetta sje allt meinlegt fyrir okkur. Það mun varla vera eins fyrir kaupmennina, sem halda við þessari háttsemi. Verið getur þeir sjái sjer hag í því að binda okkur við verzlun sína með skuldum. Jeg held hagurinn geti þó ekki verið mikill, ef vel er gætt að, sízt þar sem fleiri verzla í sama stað en einn, og við getum hlaupið til síns í hvert sinn, eptir því sem við erum mennitnir til, og eptir því hvernig við látum leiðast af fögrum loforðum. Það er þó auðskilið, að hverjum kaupmanni verður að vera óhagur að því, að eiga fje sitt arðlaust út um allar áttir og sumt í óvissum skuldastöðum. Með því lagi getur hann ekki vitað fyrr en um seinan hvað hann hefur upp úr vöru sinni hvert ár. Reyndin verður að sýna honum, hvað hann heimtir saman. Kaupmaðurinn mun þurfa að ábatast nokkuð á vöru sinni árlega, til að standast kostnað sinn. Enginn arður fæst af því, sem lánað er út leigulaust og ekki borgast það ár. Það er kaupmanni ónýt eign, meðan hann heimtir það ekki. Því held jeg kaupmaður verði að selja alla vöru sína dálítilu dýrari, vegna skuldanna, til að ná sjer með einhverju móti. Sje þessi gáta rjett, skilst mjer svo,

---

og langt mætti rita um öll þau vandræði sem systirin hafði við að stríða það sem nú var eptir af leiðinni.

Þegar þau nálguðust Boulogne, var landið fjöllóttara, og Genevieve var yfir komin af þreytu, en það hughreysti hana, að henni var sagt einn daginn að nú mundi hún að kvöldi, þegar hún kæmi á næstu fjallsbrún, sjá hið eptirþreyða haf, og hinar hvítu strendur Englands í fjarska. Og þegar hún kom á fjallsbrúnina og þau sáu hið óendanlega haf fyrir augum sjer, sem þau höfðu aldrei litið fyrri, fá engin orð skýrt frá tilfinningum þeirra. Genevieve gat ekki beðið við, þó bróðir hennar segði henni að taka hvíld, heldur flýtti ferðinni niður af fjallinu og að borginni Boulogne sem blasti við þeim. Þegar hún kom til borgarinnar, spurði hún eptir veginum til baðanna, og var henni vísað á stig, sem lá fram með sjónum, og þar lá nú hafið fyrir fótum þeirra, og breiddist í hægum lognöldum eins og akrarnir á Beauce sljettu í hægum sunnanvindi

Í skugganum undir hellisskúta við ströndina mættu þau flokki göfugra kvenna frá ýmsum löndum, sem voru að bíða eptir flóði, þegar fara átti í böðin. Þær horfðu á Genevieve er hún kom og dró kerruna, og spurðu hana úr hvaða þorpi hún væri þar í nágrenninu; en Maurice tók í hönd systur sinnar, og sagði þeim með málsnilld þakklátseminnar hvaðan þau kæmu, og hvað hún hefði haft fyrir sjer, og urðu höfðingskonurnar svo hissa og undrandi, að þeim sýndist sveitastúlkan eins og engill kominn af himnum ofan, og fylgdu henni til baðanna og breiddu út lof hennar við alla sem þær mættu á leiðinni

Eignarmaður baðanna var hinn nýtasti og vænsti maður. Hann tók tvíburunum ágæta vel, og fjekk undir eins Maurice í hendur tveimur þjónum sínum, sem beztir og lægnastir voru við böðin.

Tvíburarnir höfðu nú góð herbergi og allt sem þau þurftu, því allir kepptust um að hjálpa þeim. Eptir 10 eða

að við borgum kaupmönnum árlega leigu af skuldunum, sem þeir eiga hjá okkur. þetta er sanngjarnlegt, og við skuldaþrjótarnir megum una því vel, einkum af því að hinir skuldlausu hjálpa okkur til að borga leiguna. En hvernig þeim fellur ráðdeildar og dugnaðarmönnunum skuldlausu að borga skuldaleigu fyrir okkur óspilunarmennina, letingjana og ráðleysingjana, það er annað mál.

þegar kaupmaðurinn lánar eins og vant er vöru sína allt vorið, þangað til sumarverzlun byrjar, getur farið svo, að hann bresti nauðsynja vöru, þegar hæst þarf að hófa. Fyrir þetta getur hann misst mikið af vörum okkar til annara, sem eru þá byrgari. Ef lausakaupmaður kemur, getur hann ekki keypt við hann fyrir vöruskorti; eða þó hann ætti kost á miklum vörum og góðum hjá verzlunar samlagsmönnum, er hann ekki fær um að taka móti þeim, þegar hann er búinn að lána burtu sína vöru. Og ofan á allt þetta fær hann sjaldan borgað, nema svo sem rúman helming af því, sem hann lánaði, fyrr en að haustnóttum, vantar þá líka stundum mikið til að allt heimtist, eða kaupmaðurinn verður að lána á ný. Og það mun hafa borið til að sumir, sem kaupmenn lána að vorlagi, koma aldrei það sumar eða það ár með borgunina.

Opt verða kaupmenn að hafa mikið fyrir að ná skuldum sínum, og sumar fá þeir aldrei.

Ekki veit jeg hvort kaupmanninum er eins meinlegt og leiðinlegt sem okkur að vita ekki um verð á sínum vörum og okkar, fyrr en komið er fram eptir öllu sumri. þó skilst mjer honum muni vera það verra enn okkur að mörgu leyti.

Allir þessir annmarkar, sem jeg hefi nefnt, og fylgja verzlunarlaginu því, sem nú tíðkast, held jeg mundi smáhverfa, ef hinn verzlunarhátturinn kæmist á, að selja og kaupa hvert sinn með ákveðnu verði og lána ekki, nema þá með ákveðnum vöxtum og eindaga.

því tel jeg þessu verzlunarlagi þetta til gildis:
A., fyrir okkur.

1., við losumst við kaupstaðar skuldirnar — það hlýtur að verða — og svo smám saman við það illa, sem þeim fylgir. Við verðum frjálsari, áræðnari í öllum atvinnuvegum og úrræða meiri, vitum hvað við eigum í hvert skipti, og engin bönd hamla okkur að verzla því hvar sem við viljum, eða hvernig sem við viljum. þó við þurfum að taka lán, látum við eindaga það, og gjöldum af leigu, það gjörir oss aldrei annað eins mein og kaupstaðarskuldirnar og bindur okkur ekki nærri eins og þær.

2., við leggjum niður töluvert af smá óþarfa kaupunum, og rápum að líkindum sjaldnar í kaupstaðinn, þegar ekkert fæst að láni, en silfur ekki alltjend heima.

3., við lærum að halda saman vöru okkar, og koma því svo fyrir, að geta verzlað með hana mest alla á sumarkauptíð, sem optast verður hollara, en eiga mikið undir haustinu; enda getum við stundum haft hag af því, að eiga vöruna alla í einu, til að fá betra kaup.

4., við fáum opt betra verð á útlendum vör-

---

12 böð fór Maurice að fá stingi og viðkvæma tilfinningu í fæturna, er áður voru eins og dofnir, og kvað læknirinn það gott merki. það má geta nærri hve glöð Genevieve varð undir eins og hún sá að nokkur bati fór að koma, og hversu glaður og þakklátur Maurice var, þegar hann smátt og smátt fór að geta hreift fæturna, og hvílíkur gleðidagur það var fyrir þau bæði, þegar hann loksins, eins og vinur hans gamli hermaðurinn, gat staðið og komizt lítið eitt áfram við tvær hækjur; og aldrei hefur móðirin verið glaðari að sjá hin fyrstu skjálfandi skref barns síns en Genevieve var, þegar hún gekk aptur á bak fáein skref til að ginna hann áfram, og kallaði til hans: „dálítinn spöl enn bróðir“! og tók hann sva í faðm sinn, þegar hann var orðinn þreyttur.

Boulogne er nafnkennd meðal borga þeirra í Frakklandi, er við sjó liggja, af hinum fallegu sandsljettum, er liggja fram með sjónum. það er skemmtiganga þeirra, sem við böðin eru, á degi hverjum. þangað fóru tvíburarnir líka á hverjum degi. Genevieve bar stól, og setti hann rjett við flæðarmálið, og leiddi svo bróður sinn þangað, og þar naut hann hvern dag hinnar hressandi hafgolu. Stundum fóru þau á lítinn blett, er lá upp í landinu í góðu skjóli þar sem hann gat fengið mjólk á bóndabæ, og haft gott af tilbreytingu loptlagsins.

Af því að sjóböðin voru nú stöðugt við höfð með hinni mestu umhyggjusemi, batnaði Maurice dag frá degi, Fyrst gat hann gengið fáein skref á hækjunum og svosmátt og smátt lengra og að síðustu hálfa míln. Hann gat þá gengið um borgina, og skemmt sjer með að horfa á sölubúðirnar, og studdi hann sig við arm systur sinnar, og hvíldi sig þar sem sæti varð fyrir. þau systkynin urðu þess opt vör á gangi sínum gegnum borgina, að borgarbúar þekktu þau, því saga þeirra hafði víða farið, og allir vissu hina stöku elsku er þau höfðu hvort til annars, og

um eða meira fyrir okkar, þegar kaupmaður neyðist ekki til að halda vörum dýrari vegna arðlausra skulda, er hann á úti hjá öðrum.

5., við getum gengið óhindraðir í verzlunarsamlög til að skipta við hvern, sem býður okkur haganlegustu kosti. Reynslan hefur sýnt að verzlunarsamlög hóflega fjölmenn eru til mikils gagns, ef við vöndum vörurnar sem bezt, og erum sanngjarnir í kröfunum.

6., við þurfum þá sjaldnar að láta lífsbjargar skepnur okkar í kaupstaðinn, nema þá fyrir silfur til að borga einhverjum landa okkar, er við stæðum í skuld við.

7., við fríumst við margan ama og óvirðing sem skuldirnar olla. Þá mundi sjaldnar en hingað til sjást svo gremjuverð sjón, að heiðvirður bóndi fátækur stæði með bligðunar- og lotningarsvip blautum beinum sjer til minnkunar frammi fyrir óvöldum búðarstrák, er ekki hefði sjer til ágætis nema sundurgerð og hroka, og aldrei hafði þekkt hvað dyggð er og drengskapur.

B. En fyrir kaupmanninn held jeg skuldlaus verzlun hafi þá þessa kosti:

1., hann hefur allt árið vöru sína hjá sjer, þá sem óseld er, en andvirði hinnar seldu í hendi, til að verzla því, og ná þeim hagnaði sem fyrst, er hann þarf að hafa af verzlun sinni.

2., ef lausakaupmann ber að, getur kaupmaðurinn keypt við hann til að missa ekki mjög vörur landsmanna, ef hann er ekki búinn að lána út vöru sína, þá getur hann líka tekið móti vörusamlagsmönnum, og gjört sjer og þeim gagn.

3., hann er laus við áhyggjur af skuldum út um allar sveitir, og þarf enga fyrirhöfn að hafa til að ná þeim saman, enda getur hann hvergi misst skuld, ef hann lánar ekki.

4., hann veit hvert skipti hvað dýrt hann verður að selja og kaupa, og þessi vissa held jeg honum sje mikilvæg.

Margt mundi mega fleira telja til gildis þessari nýju verzlunaraðferð, því get jeg ekki betur sjeð, en hún mundi verða okkur affaragóð, og óska, að allir kaupmenn á landinu vildi leggjast á eitt að koma henni á. Þó einn reyni það, vegur það lítið, enda mjög tvísýnt hann standist með því lagi árinu lengur mitt innan um hina. Þeir geta auk heldur notað þetta þarflega fyrirtæki hans til að fella hann.

Ekki kemur mjer það óvart, þó ýmsir gallar fylgi þessari verzlun, sem jeg er að hrósa. Jeg þekki hana ekki af reynslu, og vildi einhverr kunnugur lýsti henni fyrir mjer. Kaupmenn geta ef til vill, okrað með henni betur enn nú, allan veturinn og vorið, og jafnvel allt árið, þar sem einn er um sína hitu, eða fleiri koma sjer saman á einum stað. En við ættum að geta teflt þá niður af þeim leik, með því að skipta svo sem engu við þá, nema á sumrin, þegar helzt er kapp í verzluninni. Og þó einhver einstakur kaupmaður reyndi að okra eins um sumar tímann, af því enginn væri nálægur að keppa við hann, mætti hafa hann niður af því, ef við, sem yrðum fyrir þessu, tækjum í okkur þá mannrænu, að flýja hann og leita annars betra, þó það kostaði mikla

---

allir lofuðu Genevieve fyrir kærleiksverk það, er hún hafði gjört á bróður sínum; það voru því margir í borginni sem ávörpuðu þau með nafni, og margir bentu á þau, þegar þau gengu um stræti borgarinnar, og sögðu: „þarna ganga tvíburarnir frá Beauce“.

Þegar september var liðinn og baðatíminn var á enda, var Mauricee orðinn heill heilsu. Hann bað þá hinn ágæta eiganda baðanna að lána sjer lítið fje til heimferðar, og skyldu þau, hann og systir hans, borga það með fyrsta árs kaupi sínu. En þessa láns þurfti ekki með. Daginn áður en þau ætluðu á stað, kom nefnd frá öllum ungum stúlkum í Boulogne til Genevieve, og bauð henni til hátíðar er þær vildu halda í minningu um hina fögru systurlegu ást hennar. Hún hjelt að slíkt bæri við í draumi og ekki í vöku, því slík virðing veittist aldrei nema æðri stjettar mönnum, og gat ekki skilið það, að því meiri virðing átti hún skylda sem hún fáfróð og menntunarlaus ljet dyggðugt hugarfar kenna sjer þannig hina æðstu kosti.

Næsta dag komu sex höfðingjadætur í tveimur vögnum til að sækja tvíburana og fylgja þeim á veizlustaðinn. Þar var sett kóróna af hvítum rósum á höfuð hinni hispurslausu sveitastúlku frá Beauce, og í lok veizlunnar færði sú sem var fyrir hinum ungu stúlkum henni peningabuddu með 50 gullpeningum, og voru það frjáls samskot frá ungum meyjum í bænum, er þannig kváðust vilja sýna henni þakklæti sitt fyrir það hún hefði sett þeim slíkt fagurt fyrirdæmi í systurást, er aldrei mundi fyrnast.

Lesendurnir geta ímyndað sjer hvernig Genevieve, sem kom allt þetta á óvart, færðist undan og roðnaði, og hvernig hún var neydd til að taka móti gjöf þessari. Hún skundaði þegar veizlunni var lokið til að gjalda skuld sína við böðin, en eigandinn var svo göfuglyndur, að hann vildi enga borgun taka. Læknirinn ráðlagði þeim að ferðast

fyrirhöfn. Hann gæti ekki fundið að því ef hann ætti ekki hjá okkur og alls enga heimting á vörum okkar. — Við gætum líka stundum fengið lausakaupmenn til að keppa við hann. Að minnsta kosti þyrftum við ekki að láta það bera opt við, að hann kúgaði okkur.

Skrifað 3. í jólum 1856.

Bóndi Austfirðingur.

---

## Sveitastjórnarmálið á alþingi 1855.

(Framhl.). Vjer höfum í 3—4 nr. þessa blaðs farið nokkrum orðum um meðferð alþingis á sveitastjórnarmálinu, og höfum lofað að skýra frá áliti voru um hvernig oss virtist hefði verið rjettast að koma því máli fyrir til bráðabyrgða.

Oss virtist nú alþingi hafa tekið rjetta stefnu í máli þessu í öllu sem snertir fyrirkomulag á hreppanefndum og sýslunefndum, og það var einkum er oss þótti vanta, að hin æðri úrskurðarvöld voru eptir uppástungu alþingis annaðhvort óheppilega valin eða óhafandi að öðru leyti. Hið eðlilegasta fyrirkomulag hefði eflaust verið það, að halda hreppanefndunum og amtsráðunum eptir frumvarpi stjórnarinnar, og bæta við sýslunefndum, og þó að úrskurðarvöldin hefðu þá ekki fækkað eins og stjórnarfrumvarpið virðist að ætlast til, þá hefðu málin á þann hátt getað náð góðum og allfljótum úrslitum; en til þess að þetta hefði getað orðið, hefði þurft að koma allri þessari stjórn fyrir sem kostnaðarminnst, því það var einkum hinn mikli kostnaður sem fældi þingið frá að beiðast þessa. Oss getur nú reyndar við nákvæmari íhugun þessa máls ekki skilizt betur en að þessi kostnaður hefði þó ekki þurft að vera svo fjarskalegur, því engin þörf virðist oss, að hreppanefnda- og sýslunefnda-menn hefðu nein laun fyrir störf sín, því oss virðist, að hver maður, sem hefur það traust af sveitarbúum sínum eða sýslubúum, geti gegnt þeim störfum án þess að taka laun fyrir, og vjer getum varla ímyndað oss að það væri mikill kostnaður fyrir þá. Mestu örðugleikarnir eru án efa að koma amtsráðunum svo fyrir, að það yrði ekki ærið kostnaðarsamt, því bezt virðist oss að í amtsráði hverju væru menn úr öllum sýslum amtsins, og án þess að svo verði til hagað geta menn ekki vonast eptir að hafa fullt gagn af þeim; en með því móti þyrftu þeir menn sem í þeim sætu að hafa næstum því eins mikil laun og alþingismenn nú hafa; og yrði það ekki alllítið fje að bæta því við á amtsbúa.

Vjer ætlum því að bezt hefði verið að láta sjer nægja fyrst um sinn að koma hreppanefndum og sýslunefndum á hjer á landi, en láta hin æðri úrskurðarvöld halda sjer, þangað til búið er að ákveða um stöðu Íslands í ríkinu, sem líklega verður ekki langt að bíða. Vjer ætlum yfir höfuð að mest nauðsyn sje á, að gott lag komist á sveitastjórnina innan sveitar og innan sýslu, því þá geta menn fyrst átt von á að málin skíríst svo, að hið rjetta og sanna verði ofan á, því miklu er hættara við, að hlutdrægni komi fram í þessum málum hjá hverri sveitarstjórn og sýslustjórn en hjá hinum æðri úrskurðarvöldum, sem eru að öllu eða mestu leyti laus við málin og hafa því enga ástæðu til að vera vilhöll í úrskurði þeirra. Og þó að úrskurðarvöldin fækki reyndar ekki með þessu fyrirkomulagi, þá virðist oss öll líkindi til að málin verði svo úr garði gjörð frá sveita- og sýslu-nefndunum, að amtmaðurinn geti ráðið málum þessum til lykta enn betur en verið hefur, og það verði mjög fá mál sem skjóta þarf til úrskurðar stjórnarinnar, og verður þá ekki, eða þarf ekki að verða of löng dvöl á málunum.

Vjer álítum að ofmikill samdráttur stjórnarvaldanna á einn stað (Centralisation) sje alstaðar skaðlegur, og hjer á landi einkum, þar sem allar samgöngur eru svo litlar og ófullkomnar, og oss virðist það skylda vor Norðlendinga að andæfa á móti því, að öll völd sjeu dregin til Suðurlands og Reykjavíkur, því vjer getum ekki sjeð annað en breytingar þær, sem urðu í þá

---

heimleiðis í vagni í stað þess að ganga eins og þau höfðu ásett sjer, og það gjörðu þau. Eptir að þau höfðu komið við á Rauðfjalli og tjáð hinni góðu konu, sem hafði hjálpað þeim svo vel, þakklæti sitt, komu þau til Orleans um laugardagskvöld, og daginn eptir dró Maurice systur sína í kerrunni upp strætið sem lá til kirkjunnar á Artenay, en allt fólkið flykktist út til að fagna heimkomu tvíburauna, og fylgdi eptir kerrunni og stráði blómgrösum yfir Genevieve.

Hinn góði prestur, sem hafði fengið að heyra heimkomu þeirra, ljet bróðurinn leiða systur sína upp að altarinu, og byggði á þessu lifandi fyrirmyndardæmi upphvatning til kristilegs kærleika og systkynaástar, og lagði aptur blessun sína yfir stúlkuna og endaði með þeim orðum: „Sagði jeg það ekki satt, dóttir góð, að guði þóknaðist þú, og að hann mundi vernda þig“.

---

stefnu um hin næstu aldamót hafi gjört öllu Íslandi og Norðurlandi sjer í lagi margan óleik; og eins og vjer álítum, að það sje nauðsynlegt, að hver hluti hvers ríkis fái jafnrjetti við hina hluti þeirra, ef að stjórnarfyrirkomulagið á að geta heitið frjálslegt og gott, eins ætlum vjer nauðsynlegt, að hver hluti hins sama lands, og hvert hjerað, fái sem mestan þátt í stjórn sinni, eins og tíðkast á Englandi, og vjer höldum að ekkert efli eins kröptuglega framfarir allra og einstakra eins- og sú keppni í framförum, sem þetta optast hefur í för með sjer.

Vjer látum nú lenda við þessi fáu orð um mál þetta að sinni, en biðjum lesendur vora, og einkum alþingismenn að hugsa sig um áður en þeir leggja það til í þessu og hverju öðru máli sem er, að stjórn öll sje dregin til Suðurlands, og allt land verði þannig fótaskinn Reykjavíkur; þó hún sje góð í mörgu og margir ágætir menn sjeu þar, ætla jeg hún hafi þó ekki allt til ágætis sjer, og víst ættum vjer Norðlendingar að vita eins vel hvað okkur hagar sjálfum eins og Sunnlendingar.

---

(Aðsent).

**Eptir meybarn.**

Dauðans engill frá drottni flýgur,
dyr honum enginn varið fær;
en sverðið gegnum sálu smýgur,
er, svífur burtu vinur kær.
Og grátin augu, ástarrík
ekkert sjá nema stirðnað lík.

Makar, foreldrar, börn og bræður
barma sjer návist dauðans í.
En hann sem öllum hlutum ræður
í himni sínum veit af því;
þaðan telur vor höfuðhár
hann og allt eins vor sorgartár.

Kjörin á rjetta vog hann vegur
og veginn skamtar öllum bezt,
hans er oss vilji heilnæmlegur,
hvort sem það dylst oss eða sjest;
því skal leggja' á hans líknar-arm
lífið og dauðann, gleði og harm.

Börn sín þegar með böli hann særir,
og borin vel er reynsla sú,
með elsku sinni hann endurnærir,
og eflir þeirra von og trú.
Og er vinir þeim víkja frá,
vinur er hann þeim beztur þá.

Vandamenn því og vínir gráti
vægilega, þó drottins ráð
vegu til skilnaðs liggja láti,
lifandi er samt hans eilíf náð
bæði yfir þeim, sem hjeðan hvarf,
og hinum enn sem reynast þarf.

Þessu skulum vjer treysta og trúa,
og taka fúsir ráði hans,
sem bæði vill og veit að snúa
í velferð öllum raunum manns,
og gjörir það ef þreyjum vjer
þolgóðir, meðan stríðið er.

Þegar oss dauðans dimma hræðir
og deyðir vonar-blómin skær,
þá skulum biðja' um þolinmæði,
er þrautir allar sigrað fær.
Faðirinn blíði bæn þá mun
blessa með friði og hugsvölun.

Foreldrar þið sem mey'na misstuð
og minnist fornra harma' um leið,
en hingað til í hjarta kysstuð
höndina þá, er undan sveið,
komið nú, enn, þó krömd sje önd,
og kyssið þessa drottins hönd.

Sú kemur stund að sama höndin,
sem lagðist þungt á ykkur hjer,
samtengir aptur ásta-böndin
og aldrei framar sundur sker;
en sorgin snýst í sigurróp
samfagnaðar með vina hóp.

Ó, hvílíkrar í himnaríki
hafa megið þið gleði von,
að sjá þar öll í engla líki
elskuð börnin og mannsins son,
frelsarann, sem í faðm þau tók,
fyrrum skrifuð í lífsins bók.

---

# Frjettir.

## Útlendar.

(Úr brjefi frá Kaupmannahöfn). Þegar jeg skrifaði hjer seinast voru, ef mig minnir rjett, sumir af ráðgjöfum konungs vors búnir að biðja um lausn frá embættum sínum, og ætluðu þeir hinir aðrir einnig að fara að dæmi hinna, er með engu móti vildu vera við; gekk tregt að fá menn til að verða ráðgjafa, er hvorki vantaði viljann nje máttinn til þess; gekk svo hjer um bil í 3 vikur að kalla mátti að ríkið væri ráðgjafalaust. Loksins heppnaðist þó að bæta úr þessum vanda: 18. október endaði þetta ráðgjafaleysi á þann hátt, að Andræ sem hefur verið, og er enn, fjárhagsráðgjafi varð æðsti ráðgjafi í stað Bangs sem fjekk lausn;

fyrverandi háskólakennari etatsráð Krieger varð ráðgjafi fyrir innanríkismál konungsríkisins, í staðinn fyrir Unsgaard, sem nú varð ráðgjafi fyrir hin sameiginlegu málefni ríkisins (Minister for Monarchiets fælleds Anliggender), hafði Bang verið það áður. Hinir ráðgjafarnir sátu kyrrir í embættum sínum. Þessi breyting á stjórn landsins líkaði þjóðernismönnum einkar vel; Andræ og Hall hafa lengi verið óskabörn þeirra, og Krieger er kunnur að því að vera frjálslyndur og þjóðlegur maður; reyndar fengu þeir ekki allt sem þeir vildu, því Scheel fór eigi frá, en hann vildu þeir fyrir hvern mun hafa burt úr ráðaneyti konungs; gruna þeir hann um gæzku, og treysta eigi frjálslyndi hans. Þó ekki beri á öðru en sú stjórn sem nú er sje nokkurn veginn föst í sessi, þá mun þó ekki staða hennar vera svo þægileg. Óánægjan í hertogadæmunum fer ávalt vaxandi, og einkum út af því að alríkislögin voru lögleidd þar án þess að bera þau undir þing hertogadæmanna. Hafa nú bæði Prússar og Austurríkismenn tekið í strenginn með þeim, og skrifað stjórninni hjer brjef um þetta efni, og heimtað að umkvörtunum hertogadæmanna væri gaumur gefinn, fylgir þessu fullalvara, og er um leið stjórninni ráðið til að bæta úr meðan tími sje til. Þykir Prússum og Austurríkismönnum að Danir hafi brotið heit, er þeir hafi gjört um fullt jafnrjetti allra landshluta. Stjórnin hjer vill víst ekki láta undan fyrr en full nauðsyn ber til; því það gjörði líka glundroða í öllum stjórnarathöfnum, ef nú skyldi fara að kreifa við alríkislögunum aptur, eptir að búið er einu sinni að koma þeim á með miklum erfiðismunum. Nú er allt undir því komið hvort Prússar og Austurríkismenn vilja láta sjer segjast við svar Dana um kröfur þeirra. Mestu mótstöðumenn alríkisins (Föðurlands-flokkurinn) unir eigi svo illa deilum þessum; þykir þeim það með öðru sýna og sanna, að alríkið verði ekki og geti ekki orðið affara gott eður langgæft; þeir vildu fúslega láta af hendi Holstein og Lauenborg, ef aptur væri von til að ná sambandi við Svíþjóð og Noreg, en nauðsyn til slíks sambands yxi óneitanlega, ef Danmörk missti hin þýzku hertogadæmi, og ríkið þannig yrði svo miklu veikara en það nú er; því varla er ábætandi

16. nóv. nl. dó konferenzráð Larsen, sem Íslendingar þekkja af bæklingunum þeim í fyrra. Hann var nú seinast justitiarius í hæstarjetti. Hánn var í miklu áliti sem lögfræðingur, og hafði einnig á seinni tímum tekið töluverðan þátt í stjórnarmálum. Hæstirjettur hefur aldrei hingað til gefið neinar ástæður fyrir dómum sínum, en nú er það lögboðið, að þessi dómstóll eins og aðrir skuli láta ástæður fylgja hverjum dómi; höfðu menn einkum í þessu efni búizt við miklu af jafn skarpvitrum lögfræðingi sem Larsen var. Bang sem fyrrum var ráðgjafi er orðinn eptirmaður hans í hæstarjetti.

Milli Prússa og Svyssara horfir til ófriðar, sem rís út af óeyrðum í fylkinu Neufchatel, sem heyrir til svyssneska sambandsins, en er undir stjórn Prússakonungs. Voru 2 flokkar í landinu, frelsisvinir og konungsvinir; í óeyrðum milli flokka þessara bar hinn fyrr taldi hærri hluta, og var þá fjölda af konungsvinum varpað í fangelsi, heimtar Prússakonungur að þeir sjeu látnir lausir, en Svyssarar vilja eigi; taka öll svyssnesku bandafylkin þátt í þessu með Neufchatel, því þeim þykir Prússakonungur skipta sjer af málum, er honum komi eigi við, heldur heyri undir stjórnarþing bandafylkjanna; búast nú hvorirtveggja til hernaðar. Svyssarar eru hraustir menn, og hafa ávalt sýnt hina mestu hreysti, þegar þeir hafa átt frelsi sitt að verja; þeir geta ef til stríðs kemur búið út 214,000 manna. Hafa þeir kallað heim allt málalið sitt úr útlöndum, og er það eigi allfátt. Ferdinand kongur í Neapel, sem er einhver hinn mesti harðstjóri sem nú er uppi, hefur tölnvert svyssneskt lið á mála, sem hefur verið einkar aðstoð hans, er þegnar hans einkum á Sikiley hafa reynt til að ljetta af sjer því hinu þunga oki, sem á þeim liggur; mun honum eigi koma vel að missa nú hið bezta lið sitt".

Með póstskipinu frá Englandi, er færði oss þetta brjef, hefur einnig frjetzt, að kornvörur hafi lækkað töluvert í verði, svo að korntunnan hafi verið í 6 rd., og að íslenzku vörurnar hafi gengið vel einkum öll tóvara, lýsi hafði reyndat fallið eptir að seinni skipin komu til Hafnar, en þó þykir oss líklegt, að það haldi sjer hjer í verði næsta ár.

**Innl.** Um fjárkláðann tökum vjer nú að skrifa aptur í næsta blaði. Ekki ætlum vjer að árangurinn af sendingu amtmanns vors suður og vestur hafi orðið mikill, því stiptamtmaður svaraði, að búið væri að uppræta kláðann þar syðra, sem þó mun vera fjærri sannleikanum, og amtmaður Melsteð kvað kláðann efalaust læknanlegan, og vildi því ekki skera niður, og er því líklegt, að hann ætli kláðann í vesturumdæminu ekki pestnæman, sem oss er þó skrifað að vera muni. Amtmaður vor hefur nú stefnt hinum amtmönnunum til fundar við sig í vor, til að ræða um varnir fyrir útbreiðslu fjárkláðans að sumri komandi.

# Auglýsingar.

**Fjármark:** Hvatt hægra, Hvatrifað vinstra. Guðmundur Steffán Jónsson á Barði í Fljótum.

Þeir menn sem keyptu fjemuni við uppboðið í Brekku í Kaupangssveit þann 10 maí næstliðna, og enn hafa ekki borgað, óska jeg hjer með að borgi hið fyrsta til Ketils Sigurðssonar á Litlaeyrarlandi, sem jeg hefi beðið að veita því móttöku.

Svartárkoti 8. janúar. 1857.

Sigurður Oddsson.

Til minnisvarða yfir læknir sál. E. Johnsen hafa enn fremur gefið: læknir, herra J Finsen 5 rd.; kandidat, herra Sv. Skúlason 2 rd., sem saman lagt við áður komna 190 rd. gjörir alls 197 rd.

Í prentsmiðjunni á Akureyri fæst til kaups: „Tímatal", eða eins konar almanak, „sem nær yfir 56 ár, frá 1854 til 1910" fyrir 6 sk., en álímt 8 sk. Hver sem kaupir 6 fær hið 7. ókeypis.

Í tilliti til kosta þess, vísa jeg til ritgjörðar þeirrar í Þjóðólfi 1854, 6 ár, 165. og 166. bl., sem stjörnuspekingur, yfirkennari B. Gunnlögsen hefur ritað þar.

Akureyri 26. febrúar 1857.

I. Ingimundsson.

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletursl., en 5 sk. fyrir línu með stærra letri.

5. ár. | 16. Marz. | 9.—10.

(Aðsent).

## Um fjárkláðann.

Norðri og þjóðólfur hafa nú gjört að umtals- og álits-máli fjárkláðann á Suðurlandi, sem þar er að aukast og útbreiðast. það er vel gjört, að láta ekki blöðin þegja um slíkan yfirvofandi almennan háska. Á næstliðnu hausti frjettist hingað norður, að lækningatilraunir mundu nægja til að útrýma þessum faraldri, og hann að því leyti mundi ekki valda almennu tjóni, en síðan hafa þær frjettir reynzt ekki vel áreiðanlegar. það getur vel verið að þessi kláði — eins fyrir það, þó hann sje kominn af ensku lömbunum — sje læknandi, en þar af flýtur samt ekki, að hann verði þar með upprættur, svo hann breiðist ekki út um allt land, eða meiri hluta þess; því hvorki er víst, að lækningar gangi svo fljótt á öllu því sjúka fje, að heilbrigðu fje verði óhætt í samgöngum við hitt, bæði heima í hjeruðum og á afrjettum í sumar; og því síður er það víst, að allir búendur geti komið þessu til leiðar svo nægi, þó þeir undantekningarlaust hefðu þar til hinn bezta vilja, trúmennsku og ástundun; en mest er þó að óttast fyrir hirðuleysi og undanskotum fólks í þessu tilliti og jafnvel þekkingarskorti, þar sem þó allir mega vita, að hin minnsta yfirsjón, hylming eða undanskot í þessu veldur almennum skaða. það getur því vel skeð, þó blöðin og einstakir menn tali skorinort um þessa yfirvofandi hættu, að það verði sem vindur þjóti um eyru margra, enda mun flesta nú í vetur vanta þau meðöl, sem ráðin hafa verið við kláðanum, svo mestu líkur eru til, að allt þetta dragist í deyfð og ráðaleysi, þangað til sýkin flýgur sveit úr sveit, fyrir samgöngur fjárins á næstkomandi sumri, því sama hirðuleysið mun eiga sjer stað hjá allmörgum í því, að hindra samgöngurnar, enda getur það orðið mjög erfitt með mörgu móti. það er kunnugt, að amtmaður Havstein gjörði strax, sem hann átti kost á, þær fljótustu og beztu ráðstafanir til að varna fjársýkinni inn í Húnavatnssýslu, sem nú er fljótust hætta búin. Sýslumaður Arnesen hefur líka með alúð gjört allt það bezta í þessu tilliti, með að skipa nákvæmar almennar fjárskoðanir í öllum hreppum sýslunnar og niðurskurð á þeim kindum öllum, sem fyndust með ískyggilegum kláða, hefur þessu boði hans verið trúlega hlýtt, víst í flestum hreppum sýslunnar. Nefndin sem amtmaður niður setti hjer í sýslu hefur einnig eptir ýtrustu kröptum starfað í þessu málefni.

þannig eru nú tvær fjárskoðanir gjörðar og til ætlað, að tvær aðrar fram fari hjer eptir til vors. Að tilhlutun þessarar nefndar, ferðaðist hreppstjóri sgr Erlendur Pálmason á Tungunesi suður, til að kynna sjer upptök, framgang og ásigkomulag fjársýkinnar þar, hefur hann nú ágætlega leyst af hendi þetta erindi.

Með honum frjettist, að fjárkláðinn sje að aukast og útbreiðast, um allt Suðurland, og að hann sje kominn á nokkra bæi í Borgarfjarðarsýslu allt norður að Hvítá. En að hann sje kominn í Mýrasýslu, þykir enn ekki fullsannað, en þó máske grunsamt, ekki heldur í Húnavatnssýslu, því við rannsóknir í henni, hefur að sönnu orðið vart við lítinn kláðavott, sem álitinn er óþrifalúsa-kláði, en ekki sama eðlis og fjárkláðinn syðra; hefur helzt verið gjört orð á þessu á nokkrum bæjum í Miðfirði, hefur líka frjetzt, að við líkan kláða hafi orðið vart í Skagafjarðar- og Eyjarðar-sýslum. það þykir líka ómögulegt, að þessi kláði hjer norðanlands geti verið kominn af samgöngum við sunnan fjeð. það liggur nú í augum uppi, að fjárpestin, þrátt fyrir allar lækningatilraunir, er að útbreiðast um allt Suðurland, og mun hún halda því stryki áfram á næsta sumri, svo að líkindum verður flest fje orðið þar sjúkt að hausti, og ekki einasta það, heldur mun hún verða kom-

sje mikið í peníngum í hvort skipti, og eptir hvors árs meðal-alin ætlum við rjett goldið kaup og skuldir, sem eru í fiskatali og samníngar eru ekki fyrir á annan veg; það er líka mjög eðlilegt og sanngjarnt, að kaupafólk frá sjáfarsíðunni fái smjör og þá hluti, sem það helzt þarfnast í kaup sitt, að svo miklu leiti sem gjaldendur geta, og með því verði, sem þá er á þeim. En — hvörnig varið er daglaunum í öðrum löndum, má sunnlendíngum vera kunnugra enn okkur, þó við höldum, að margir daglaunamenn erlendis gjörðu sig ánægða með að fá hjer um bil 4 mörk í kaup um daginn og gott fæði, rúm og þjónustu, og víst mundu daglaunamennirnir norðlenzku þakka fyrir, að fá þossi kjör hjá sunnlendíngum; en það verður ekki fyrr, enn þessir fara að láta þá „uppskera, eins og þeir hafa sáð," og mun þess verða lángt að bíða.

Það er hálfskrítið, þegar sunnlendíngar eru að reikna ferðakostnað kaupamanna norður, það er líkast því, ef norðlendíngar færi að tilreikna sunnlendíngum lestaferðakostnað sinn suður og slengdu honum á ísufjórðúngana, sem þeir kaupa að sunnlendíngum, legðu þeim síðan út til lasts, hvað dýrt þeir hefðu selt sjer fiskinn; en í þennan ferðakostnað ætlast þeir samt ekki til, að þeir geti fengið nema 3. dala kaup um vikuna, sem þeir þyrftu að brúka til ferðanna, eða væri annarstaðar enn fyrir norðan, og mun fæðið líka vera hjer meðreiknað; þeir hafa þá líklega snöggvast munað eptir daglaununum hjá sjer sunnanlands; samt þykir þeim ólíðandi, að láta Húnvetnínga sjálfráða með, að gjalda ekki nema 4 ríkisdali í meðal vikukaup, fyrir utan fæði og alla aðra aðhlynníngu, sem vissulega er meira enn 2. dala virði, og sezt þá af þessu og þvílíku, hvar sunnlendíngagreinin er ástæðulaus og ójafnaðarfull. Við álítum að vísu ekki rjett, að binda meðalvikukaup einmitt við 4 ríkisdali, þar eð þeir jafngylda ei ætíð 40 fiskum, því eptir því, sem lifandi peníngur og aðrir landaurar hækka í verði, eptir því fjölgar skildíngatal í meðal fiskvirði og meðal-alin, sem við höldum hinn rjetta mælikvarða að borga fiskatalsskuldir eptir, þar sem samníngar eru ekki öðruvísi um borgunina, eins og áður er ávikið.

Það hefði verið mikið fróðlegt og má ske þarflegt, ef sunnlendíngagreinin hefði fært okkur áætlun um: hvað margar ær þyrfti að hafa í búi til þess, að kosta kaupamann að öllu leiti sumarlángt af arði þeirra? og svo: hvað mikil fjárfækkunin mundi verða, ef kaupafólkið kæmi ekki? en ef svo færi — sem við ætlum — að fjenaðurinn þyrfti ekki fyrir það að fækka öllu meir enn svaraði því sem þyrfti til að kosta kaupafólkið: þá yrði Húnvetníngar litlu verr staddir eptir enn áður, en niðurstaðan yrði sú, að allar slæmu afleiðíngarnar lendtu á Gullbríngusýslubúum, í því að svipta þá einhverjum þarfasta og notabezta atvinnuvegi, er þeir hafa haft híngað til. Og, þó höfundar greinarinnar vildu hamla því, að kaupafólk færi norður: verður það ofætlun fyrir þá, því bæði munu flestir sjá, hver vitleysa og óráð það væri og líka mun margt af kaupafólkinu vera fúst til, að finna Húnvetnínga sína einusinni enn, og treysta því fullvel, að það fái hjá þeim betri og sjer þarfari atvinnu, heldur enn hjá löndum og sveitúngum sínum syðra við þeirra „heimahnauk," og þeir sem þakklátlega viðurkenna það, sem vel er við þá gjört, eru okkur líka velkomnir; en hinir, sem með ósanngirni og sjálfbyrgíngsskap vilja fá og heimta meira kaup enn þeir eiga með rjettu, meiga gjarnan vera, fyrir okkur, hverra manna, sem þeir vilja.

**Nokkrir Húnvetníngar.**

---

## Ráð við dýrtíð.

(Eptir þýzku blaði).

Ef einhver fyndi upp á því, að selja eitthvert læknisráð við dýrtíð, húngri og fátækt fyrir 10 rd., mundi óefað margur fátæklíngurinn reita sig innað skyrtunni til að kaupa það. Þó mundi þetta bráðum reynast svik ein og prettir. En ráð mitt er hollt og einlægt, og jeg ætlast ekki til svo mikils sem þakklætis fyrir það, þó hverjum mundi reynast það svo óyggjandi, að það hefði ekki að eins mátt kosta 10 rd. heldur 10 tunnur gulls. Ráðið er þetta: þú skalt ekki drekka brennivín, nje aðra áfenga drykki, eða það sem gjörir þig fyrst ölværan og síðan vitstola.

Það er sem jeg sjái nú margan hleypa brúnum, ygla sig og snúa hæðilega að mjer bakinu. En reiðist mjer ekki. Jeg vil ykkur vel. Jeg fyrir mitt leyti, hefi ekkert gagn af því, hvort þið drekkið eða ekki, en það er einúngis sjálfra yðar vegna og vegna ektamaka yðar og barna, að jeg segi ykkur þetta ráð. Staldrið þið við og hlustið á mig; eða er það svo óbærilegt að heyra sannleikann af munni góðs vinar? Það er víst, að volæði býr á meðal þeirra, sem hafa ofurselt sig ofdrykkjunni, þeir hinir sömu hafa ekki af miklu að láta. Matbjörgin er af skornum skamti, skuld-

irnar og örbyrgðin vex með degi hverjum. Skuldaheimtumennirnir koma úr öllum áttum og hver vill hafa sitt. Ætli þið eigið ekki bágt með að standa í skilum við alla þessa? Enginn getur þó allt af búist við láni og umlýðíngu. Þið gleymið allri búsýslu yðar, fáið óbeit á allri vinnu, verðið fullir af leiðindum, eyrið ekki heima, farið strax á morgnana á bæi eða í kaupstaðinn til þess að sóa tímanum þar allan daginn og kaupa á pelann eða snýkja út í staupinu, komið svo aptur heim á kvöldin, eða á nóttunni, hálfsvínkaðir eða út úr, og gott ef þið eruð þá ekki uppi með illindi og hávaða við konu auminginna og krakkana, eða finnið allt að öllu; heilir og hálfir dagarnir gánga í að sofa úr sjer vímuna, lítið sem ekkert er unnið, í staðinn fyrir það sem þið gátuð unnið mikið. það sem fer aflaga eða í handaskolum fyrir ykkur, kennið þið konunni eða krökkunum; hún má bera alla birðina, sem flýtur af umönnun heimilsins og stríðinu við svo og svo mörg börn, sem hún hvorki fær hjá yður næga fæðu eða klæði handa, og hefur opt tæpast eins marga bita í eigu sinni, sem börnin eru mörg, og hvort á hún þá að sækja glaðvært geð? — Þið stýngið höndunum í vasana og segið: tíðin er vond; en konurnar barma sjer og berja á brjóst. það eruð þið sjálfir sem eruð vondir frá rótum, en ekki tíðin! Gjörið þið hvort þið viljið, að þykkjast við mig eða ekki, en farið að ráðum mínum. Hættið að drekka áfengu drykkina, þá mun allt í einu skipta um til batnaðar! Við skulum nú hyggja að: ef þú drekkur dag hvern 2 staup, hvert á 2 sk., þá verður það 7 rd. 3 mörk um árið; drekkirðu pelann, þá eru það 15 rd., drekkirðu mörkina upp á hvern dag, þá verður það 1½ tunna af brennivíni eða 45 rd., en sje það potturinn, þá verða það 3 tunnur og sem kosta 60—90 rd. um árið, auk alls vinnutjóns, og það sem forsómun skyldna þinna við konu og börn og aðra í fjelaginu leiðir íllt eptir sig. — En hefðir þú nú þar á móti varið öllu því, sem þú hefur keypt brennivín eða áfenga drykki fyrir til nauðsynja þinna, hversu mikið mundir þú ekki hafa getað bætt bú þitt og gjört konu þína og börn ánægðari og sælli, auk hagsmunanna, sem stöðug umsjón og vinna í heimili þínu hefði áunnið þjer, prýtt og aukið álit þitt og gengi meðal granna þinna og allra, sem til þín þekkja. — þegar þú ert drykkjumaður, getur þú naumast unnið nokkurt verk, svo að öðrum líki. Skiptavinir þínir segja skilið við þig, hver vill eiga viðskipti við drykkjurútinn og óskilamanninn? þú eyðileggur bæði sál og líkama, því öllum skyldum þeim, sem Guðs tíulaga boðorð krefjast af þjer, drekkir þú í vínstaupinu. Hús þitt, sem átti að vera musteri Guðs, er orðið að ræníngjabæli, og loksins þegar kona þín og börn og þú sjálfur deyja út af, í fyrirlitníng og volæði, og hinn rjettláti Guð spyr þig að: Hver er morðínginn? þá máttu andvarpa og svara: jeg er það; jeg er morðínginn! nokkur staup eða sopar hvern dag, voru orsökin til þessa alls! Vitjaðu spítala hinna vitskertu, og farðu í díblissur óbótamannanna, eða til aftökustaðanna, og þá muntu fá að vita það, að drykkjuskapurinn var sem optast orsök til þess, að afdrif þeirra urðu þannig. þú kannt að segja: jeg er hófsamur! en varaðu þig vinur! Hinn mesti drykkjumaður hefur drukkið lítið fyrst, en smátt og smátt aukið við sig, til þess hann hefur sökkt sjer í flóði ofdrykkjunnar, og hinn vondi búinn, ef til vill, að glata sálu hans.

það getur verið, að þjer sumir hverjir, sem drykkjumenn eruð, eða sóið miklu til kaupa fyrir áfenga drykki, sjeuð svo efnugir eða ríkir, eða hafið nóg til launa að lifa við, að ekki þurfið að gánga í bága við nauðsynjar, yðar og innan dyra, en ekki úti á strætum eða mannamótum neytið vínsins; þá er misbrúkunin hin sama, sem þjer ekki getið mælt bót, hvorki fyrir Guði nje góðum mönnum, að hafa þannig varið því af efnum yðar eyðið til þessa; að jeg ekki tali um, þegar þjer eruð yfirvöld og eigið að vera góð fyrirmindan annara, sjer í lagi þeirra hafið yfir að segja[1]. Væri yður ekki nær og sannara, að verja andvirðinu er eyðið fyrir áfengu drykkina og vínið, til þess að stofna með því eitthvert gott fyrirtæki, eða aðstoða einhvern aumíngann, sem varla á til næsta máls, enn síður fötin utan á sig, til að skýla með nekt sinni. Slíkt aflaði yður meðvitundar um, að hafa gott gjört, og umbunar á efsta degi; en hitt þar á móti bakar yður eptir á ónota, heilsuspillis, leiðinda og órósemi, og má ske örvæntíngar á banasænginni. Eða hvílík blindni og ósómi, er það ekki fyrir höfðíngjana, að fara rjett sem í kappdrykkjur, og sá þykja mestur maðurinn, sem mestu getur þá sóað og svallað, og seinast dottið í valinn.

Eða þjer, sem eruð á únga aldri, og ekki hafið ofurselt heilsu yðar og farsæld á vald ofdrykkjunnar, þá varist umfram allt, að svívirða æsku yðar eða æfi með henni framvegis, heldur látið yður í tíma annara víti að varnaði verða.

Hins vegar er brennivínið sjálft, eitthvert hið mesta átumein, sem menn nokkurntíma hafa þekkt. Ætli að góður Guð hafi látið jarðeplin og hið gullvæga korn vaxa til þess, að menn skyldu búa til úr því brennivín og drekka með því úr sjer vitið og heilsuna? Nei! heldur til þess, að þið, konur yðar og börn, gætuð saðst af gróða jarðarinnar og lofað Guð fyrir. En brennivínið stelur saðníngunni úr pottinum, brauðinu úr munn-

[1]) Hvað höfðíngjarnir hafast að, hinir ætla sjer leyfist það. Yfirmönnunum er því vant, undirsátarnir hnísa grant. (Sjá Hallgríms sálma, 22, v. 10). Ritst.

inum og þakklætinu úr hjartanu, þið trúið því ekki, og þó er því þannig varið: þegar þú drekkur dálítið staup af brennivíni þá hefur þú í einum teyg gleypt allt að hálfu brauðpundi; því í þetta litla staup fer einmitt eins mikið af korni, og bakarinn þarf til að baka úr hálft pund af brauði. Hálfa brauðpundið hefði getað satt þig, en brennivínið svengir þig, spillir heilsu þinni og eytrar sálu þína, og hver sem drekkur dag hvern 16 staup, eins og margur gjörir, svelgir í sig 7 pund af brauði, eða þeirra virði í öðrum mat, og þetta er eins mikið og þú fátæklíngurinn, með öðrum mat getur haft þjer til viðurværis í eina viku, eða sem mundi nægja þjer og mikilli fjölskyldu einn dag, að jeg ekki nefni, að sá sem drekkur pottinn; eða þótt það ekki sje nema mörkin eða pelinn á dag, á ekki að eins bágt með að vinna nokkuð að ráði, heldur neyðist til að hleypa sjer í skuldir, og steypir sjer og sínum í svívirðingu og ógæfu með sínu óguðlega athæfi, og kennir sonum sínum og dætrum, eða fósturbörnum, slíkt hið sama.

það er annars engin furða þótt kornið og jarðeplin verði dýrkeypt, og meir enn helfíng þjóðanna skorti nægilegt viðurværi, þá menn vita, að í mörgum löndum, er varið svo og svo miklu korni og jarðeplum til brennivínsgjörðarinnar. Í eina einustu tunnu af brennivíni, þurfa að minnsta kosti 430 pund af korni eða 900 pund af jarðeplum og 65 pund af korni, eða í hverjar 100 tunnur af brennivíni, 210 tunnur af rúg. Öllu þessu eyðir brennivínið og áfengu drykkirnir, sem hverfur síðan í kok drykkjurútsins, enn ekki í pottinn eða á borðið hjá hinum húngraða. það er þess vegna að jeg segi að brennivínið sje rjettur hvomur, og hvar hann ræður fyrir, þar getur jörðin ekki veitt næga uppskeru, og guðsblessan, sem hvílir yfir ökrum og úthaga, er sóað og eytt.

Fari nú svo, sem ætíð er við að búast, að eins bág ár komi yfir oss, eins og vjer stundum höfum mátt reyna; að uppskeru brestur verði og hallæri, gróði jarðarinnar sýkist, einnig skepnurnar sem á henni nærast, stríðsins hörmúngar og eyðilegging nái til vor og yfir oss, og okurmennirnir og maurapúkarnir hafi sjer að leikfángi, að okra út við oss lífsbjörgina, þegar þeir vita, að hana er hvergi annarstaðar að fá, nema hjá sjer, og þeim nú gefst bezt færi á, að seðja ágirnd sína og auraelsku, er verður því soltnari og gráðugri, sem meira fjenast.

það ætti því hver, sem unnir velferð sinni og meðbræðra sinna, að hlusta til ráðs míns, neytið ekki framar hinna áfengu drykkja, gjörið það af kærleika til sjálfra yðar, gjörið það af kærleika til vandamanna yðar, til ektamaka yðar og barna, gjörið það af elsku til Guðs, sem ekki vill að þjer standið iðjulausir á torginu, sem aðrar landeyður, vínfrínglaðir, sem vitinu firtir, með hávaða og illirðum, ofstopa og barsmíði, í þjónustu hins vonda, nje fyrirfarist í djúpi glötunarinnar, heldur að þjer náið augnamiði tilveru yðar, og verðið sælir. — Vinnið yður fyrir nægilegri matbjörg, en ekki fyrir drykk þeim, sem gjörir yður vitstola og glatar yður. Ef ykkur er annt um að varðveita heilsuna, vitið og lífið, þá látið engann telja ykkur trú um, að þið sparið mat með því, að drekka brennivínið eða annað, sem gjörir yður svínkaða, eins og sumir halda, enn síður, að það veki og styrki hugsun yðar og framkvæmd, því það einmitt með tímanum dregur úr yður alla dáð og dug, og gjörir yður óhæfilega til alls góðs.

Kaupið heldur klæði og fæði fyrir þenna vitstola drykk. Ráð mín afla yður og heimilum yðar blessunar, blessunar í hjarta yðar, og samvizkufriðar.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

18. þ. m. kom norðanpósturinn Grímur Magnússon að sunnan híngað á Akureyri, og hafði hann verið áleiðis og til baka, í ferð þessari 26 daga, og af þeim beðið 3 daga í Rv. — Að sunnan, er að frjetta aflalítið í sumum veiðistöðum, t. a. m. á Álptanesi, Vatnsleysuströnd, en þó hlutir lægstir í Keflavík og Njarðvíkum, eða ekki nema 40—70 fiska hlutir yfir alla vertíðina. Aptur hafði aflinn verið betri í Vogum og Útgarði, en þó bestur í Höfnum og á Akranesi. — Kvörtun er um að fjárhöld ekki svari nú til árgæskunnar sem var í vetur; vegna sóttar í fjenu, helzt í gemlíngum, og að ormar hafi fundist í yðrum þess og enda lúngnapípunum. — Hundapestin hafði alla jafna verið að færast syðra austur á bóginn. — Veðuráttufarið hefur allann þenna mánuð, verið hjer nyrðra úrkomu lítið og kalt, og opt frost á nóttunni, svo gróður, að tiltölu við hvað hann byrjaði snemma, tekið litlum framförum. — Hákarlsaflinn hefur enn í vor verið mjög misfenginn. Ógæftirnar og hafísinn, sem enn er hjer norðan land, hafa töluvert hamlað aflabrögðunum. — Nýskeð er fiskur kominn aptur hjer út í firðinum.

## Útlendar.

19. þ. m. kom Briggskipið Freyja, skipstjóri Koldbye á Húsavík, og hafði honum byrjað vel frá Helsíngjaeyri. — Með skipi þessu kom kand. S v e i n n S k ú l a s o n, sem ráðið hefur nú að setjast hjer að, og taka að sjer ritstjórn Norðra, og byrjar hann með því, að gefa út janúarm. þ. á., síðan júním., o. s. frv. Hann hefur komið því til leiðar, að Íngim. prentari, sem kominn var úr prentsm. er nú fenginn aptur í hana, mót 250 rd. launum um árið.

Af verzluninni, er ekkert merkilegt að frjetta, því dýrtíðin á korninu tjáist að kalla enn hin sama og seinast er getið. Mælt er að Norðmaður einn hafi komið í vor á Eskjuf. fermdur að mestu jarðeplum og köðlum. — þess er getið í seinasta blaði, að ekki væri útkljáð um Eyrarsundstollinn. Nú er tjáð, að hlutaðeigandi þjóðir, nema Ameríkumenn, sem ekki voru búnir að átta sig á málinu, muni vilja nema hann af, en greiða Danmörku í skaðabætur 34 mill. dala.

---

Til minnisvarða yfir læknir sál. E. J o h n s e n, hafa enn gefið; herra Justitiarius Th. Jónassen 10 rd., sjera J. Kröger á Helgastöðum 2 rd. og sjera J. Yngvaldsson á Húsavík 2 rd., sem samanlagt við áður komna 149 rd., er alls 168 rd.

---

Ritstjóri: *B. Jónsson.*

Prentað í prentsmiðjunni á Akureiri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

1856.

4. ár. 20. Júní. 11.

## Svar upp á fyrstu greinina í 8. bl. Norðra.

Í næstl. aprílm. blaði Norðra er greinarkorn, sem virðist öll að lúta að því, að leiða almenningi fyrir sjónir, hve báglega er komið efnahag prentsmiðjunnar á Akureyri, verkaumsjón hennar og annari stjórn, og að það sje Norðri einn, er haldi í henni lífinu, og þetta allt þykist höfundur greinarinnar geta leitt út af reikningum prentsmiðjunnar fyrir árið 1855. Þótt vjer nú játum því fúslega, að allt þetta kunni að vera að mörgu leyti miður en skyldi, getum vjer samt ekki leitt hjá oss, að taka hið helzta af því fáorðlega fram, er oss finnst, að fært sje þar frá rjettu lagi, og sem hljóti því að miða til þess að rýra álit þessarar fátæku stofnunar í augum almennings, fram yfir það, er hún á skilið.

Hvað þá fyrst áhrærir vinnuskýrslu höfundarins fyrir næstl. reikningsár, þá er hún öll að meiru eður minna leytinu reikningslega röng, og verður því ekkert á henni byggt; þannig er, t. a. m., alveg sleppt út úr henni Kvöldsöngsræðum sjera Sveinbjarnar og 3 örkum af Bænakveri bókb. Laxdals. Þetta er líka allt í eðli sínu, þar eð höfundurinn ekki gat fengið af sjer að fá að sjá skilríki fyrir reikningunum hjá forseta prentsmiðjunefndarinnar, eins og honum þó stóð til boða. Þaraðauki er það margt, er vinnuna snertir, sem ekki er til greint, og ekki gat til greinzt sjerstaklega í reikningi prentsmiðjunnar, en sem höfundurinn átti að taka fram og færa til reiknings, fyrst hann fór á annað borð að myndast við að greina hið verknaðarlega frá hinu reikningslega, t. a. m., að taka móti sverði, bera hann inn, leggja í ofn, bera út ösku og inn vatn, sópa húsið, flytja pappír og brenni suður í prentsmiðjuna, kljúfa brennið, telja og bleyta pappír og hengja hann upp, taka hann aptur ofan og stafla honum og afhenda loks hlutaðeigendum, senda með prófarkir út um bæinn og sækja þær ástundum aptur, sjóða svartkefli (Valsa), og fleira þess háttar; til alls þessa gengur talsverður tími (þannig er, t. a. m. einungis reiknað fyrir að undir búa og sjóða efni í keflið 1 rd.; en þeir munu soðnir hjerumbil 12 á ári), og er borgun fyri allt þetta, eður flest af því, fólgin í þeim þriðjungi, sem bætt er við vinnulaunin fyri sjálfa prentunina. Einnig átti það að takast til greina, þegar vinnan var talin, að drengurinn ekki kom til prentsmiðjunnar fyr en með byrjun aprílm., þá öllu óvanur; að Ingimundur prentari las nokkuð af prófförkum Norðra, m. fl., í vinnutímum prentsmiðjunnar; að prentararnir voru meira eður minna lasnir í kvefveikinni í fyrra sumar, og að þeir fengu 9 daga lausn frá prentstörfum gegn 7 rd. endurgjaldi; að vjer ekki fáum oss til orða allt það verkatjón, er Norðri hefur verið ollandi, ekki einungis vegna þeirra mörgu og margbrotnu reikninga, sem koma fyrir í honum, heldur og vegna þess, að svo opt hefur verið tekið upp aptur það, sem búið hefur verið að setja, og þrásinnis beðið eptir handriti. Allt þetta verkatjón, sem ekki hefur verið fært til reiknings, af því sem prentsmiðjan átti blaðið sjálf, getum vjer ómögulega metið minna í samanburði við aðra prentun, enn 1 heilan dag fyri hvern mánuð, eða 12 daga vinnumissir um árið.

Hvað þessu næst áhrærir sjálfan Norðra, þá er það að vísu satt, að aldrei hefur komið jafnmikið inn af andvirði hans, sem þetta næstl. ár, en samt getum vjer ekki fallizt á það, sem höfundurinn segir, að prentsmiðjan hafi, „auk alls tilkostnaðar til hans, unnið þetta árið á honum **fulla 200 rd.**“ Reikningurinn verður hjerumbil svona lagaður:

Inn komið af andvirði Norðra árið 1855, að með töldum 16 rd. frá amtmanni Havstein, 606 rd. 34 sk.

En hjer frá dregst aptur:

| | | rd. | sk. |
|---|---|---|---|
| a., | prentunarkostnaðurinn . . . . | 161 | „ |
| b., | pappírinn . . . . . . . . . | 85 | 6 |
| c., | til prófarka, hjerumbil . . . . | „ | 64 |
| d., | prófarkalestur . . . . . . . . | 16 | 48 |
| e., | fyrir tímatöf við alla reikningana, upptekt á stíl og bið eptir handriti, og fl. | 40 | „ |
| f., | til ritstjórans . . . . . . . . | 172 | 13 |
| g., | frá ofanskrifuðum 606 rd. 34 sk. dragast enn fremur þeir 25 rd. er vísað var til hjá Helga prentara, en sem hann vildi síðar meir ekki taka gilda upp í laun sín . . . . . . . | 25 | „ |
| h., | 4$\frac{0}{0}$ renta eptir andvirði Norðra, sem goldizt hefur fyrir árin 1853 og 1854 (af því sem borgunarfresturinn fyrir hvers árs Norðra er ekki nema til næsta nýárs) . . . . . . . . . | 12 | 87 |
| | Samanlagt | 513 | 26 |
| | Ávinningur | 93 | 8. |

Einnig er þess að geta, að enn mun liggja nokkuð óselt af Norðra hjá ýmsum útsölumönnum hans, er á sínum tíma mun meir eður minna rýra þann hagnað, er höfundurinn gjörir svo mikið úr; þannig vitum vjer til þess, að enn liggja óseld hjá einum einasta manni 8 expl. af næstl. árs Norðra.

þótt en sje mikið óselt af smásögunum, og þótt prentsmiðjan á Akureyri sje komin í málastapp út af prentun barnalærdómsbókarinnar, heyrir þetta hvorugt til stjórn þeirri, sem nú er á prentsmiðjunni, og ætti því alls ekki að blandast þar saman við.

þegar vjer skoðum nú aptur á hinn bóginn reikninga prentsmiðjunnar fyrir næstl. ár — sem enn eru að öllu leyti óhraktir —, og berum þá saman við fyrra árs reikningana, hefur prentsmiðjan unnið næstl. ár, auk alls venjulegs tilkostnaðar, rúma 200 rd., eður þó heldur fulla 270 rd., því með útgjöldum eru þar taldir hjerumbil 70 rd., er greiddir hafa verið næstl. ár upp í málskostnað barnalærdómsbókarinnar[1]. Mundi því ekki ísjárvert að fallast að svo komnu á þá uppástungu höfundarins, að leigja prentsmiðjuna, með öllum áhöldum hennar, fyrir 100 rd. leigu um árið?

Enn er það eitt, sem eptir er að minnast á í opt nefndri grein höfundarins, þar sem hann þykist hafa heyrt það í vetur, um það leyti verið var að semja reikninga prentsmiðjunnar, að hún hefði unnið á v i n n u prentaranna einungis þetta ár 150 rd., og yfir höfuð að öðru saman lögðu 550 rd.“ Um þetta atriði gat engum verið á þeim tíma fullkunnugt, nema prentsmiðjunefndinni einni, eins og það virðist líka sveigt að henni; en það er svo langt frá því, að prentsmiðjunefndin hafi nokkurn tíma látið sjer slíkt um munn fara, að henni hafði aldrei dottið í hug að fara að reyna til að greina hið v i n n u l e g a frá hinu r e i k n i n g s l e g a, sem vjer álítum ógjörlegt, og föllumst því að öllu leyti á það, sem höfundurinn segir á einum stað, að hið „vinnulega og reikningslega sje í svo nánu sambandi, að það megi ekki slítast í sundur.“ það er því höfundarins eins að ábyrgjast þessi ó s a n n i n d i; en allir sjá, hve gott það var, að geta hnýtt þessu atriði aptan við vinnuskýrsluna, svo endirinn gæti þess betur svarað upphafinu.

**Prentsmiðjunefndin.**

---

## Útlendar frjettir.

þess er getið í 9. blaði Norðra í ár, að friður var gjörður milli Rússlands, Tyrkja og Vesturríkjanna 30. marz næstliðinn, og að friðarskilmálarnir mundu auglýstir, þegar stjórnendur þessara ríkja væru búnir að staðfesta sáttmálann. Friðarsáttmáli þessi er nú auglýstur og skal nú getið helztu atriða hans. Stjórnendur ríkja þeirra, er í ófriði þessum hafa átt, semja grið og fullan frið sín á milli um aldur og æfi fyrir sig og erfingja sína, lönd sín og þegna. Löndum þeim, er hverir fyrir sig hafa unnið herskildi, skal aptur skilað, nema Rússar láta Tyrki fá landskika nokkurn, að norðanverðu við landamæri furstadæmanna, til þess að landamærin verði þar beinni og greinilegri, líka skal nefnd sett til að ákveða landamæri í Austurálfu. Öllum þjóðum skal heimilt að sigla á kaupskipum og verzla á Duná og allar skorður, sem þar hafa verið lagðar á verzlun manna, skulu burt numdar. Engir herskipaflotar mega vera í Svartasjó, nema Tyrkir og Rússar mega halda þar nokkur smá gufuskip, jafnmörg hvorir, og skal stærð þeirra og tala ákveðin, og skulu því soldán og Rússakeisari skuldbinda sig til, að hafa þar engin forðabúr til útbúnaðar á sjóliði. Furstadæmin skulu halda frelsi því, er þau hafa lengi haft, og skal soldán gjöra skipun á

[1]) þó er samt enn ótalið slit á stíl og áhöldum, sem ekki getur færzt til reiknings, fyr en jafnótt og hvað fyrir sig verður ónýtt; en árlega getur þetta ekki numið svo miklu, þar sem brúkunin er svo lítil.

um stjórnarfyrirkomulag í löndum þessum, og taka fulltrúa landanna með til ráðaneytis. Soldán og ríki hans skal fá hlutdeild í þjóðarjetti Norðurálfu, og atkvæði, þegar um þau málefni er að ræða, er varða allan þenna hlut heims. Hin ríkin skuldbinda sig til að sjá svo um, að Tyrkjaveldi verði engum háð og að soldán haldi öllum löndum sínum, og ef missklíð kemur á milli Tyrkjaríkis og einhverra þessara ríkja, skulu hin ríkin fyrst reyna til að koma sáttum á, áður en ófriður hefst.

Þetta eru nú helztu atriðin í friðarsáttmálanum, en mörg önnur atriði komu einnig til umræðu á sáttafundinum í Parísarborg, sem eru mikils varðandi fyrir Norðurálfu, og skal þeirra síðar getið.

Þó það kunni nú að virðast svo í snöggu áliti, að lítið hafi á unnizt með stríði þessu, er verið hefur svo stórkostlegt og kostað öll ríkin, sem hafa átt í því, ógrynni fjár, og drepið niður nokkur hundruð þúsund manna, unga og hrausta, sem ómetanleg eptirsjón er að, þá er þó í rauninni ekki allítið sem unnizt hefur. Rússaveldi hafði hjerumbil 150 ár aukizt og eflzt á marga vegu síðan um daga Pjeturs mikla, og aldrei liðið neinn hnekkir. Eptir ófarir Napóleons 1. í Rússlandi 1812, var það álitið því nær ósigrandi, og á friðarfundinum í Vínarborg rjeði því Rússakeisari mestu, og eptir þann tíma hefur Rússland haft ofurvald mikið á meginlandi Norðurálfunnar og borið ægishjálm yfir öllum öðrum ríkjum. Stjórn Rússaveldis er, eins og allir vita, harðstjórn, er líkist meir stjórnarfyrirkomulagi Austurálfu en nokkurri þeirri einvaldsstjórn, sem verið hefur í Norðurálfu, hversu ótakmörkuð, sem hún hefur verið. Þetta ofurveldi Rússa í seinni tíð hefur því mest af öllu staðið á móti því, að frelsishreifingarnar í Norðurálfunni, sem urðu 1830 og 1848 og optar, fengju nokkurn framgang, og þeir hafa ætíð gengið bezt fram að kúga frelsi þjóðanna, og styðja einvaldana til að halda völdum sínum, þegar þeir hafa verið farnir að hallast úr söðli. Það virtist því, þegar Rússar byrjuðu ágang sinn af engu tilefni við Tyrki nú á undan þessari seinustu styrjöld, að spásögn Napóleons gamla ætlaði að rætast, er hann sagði, að um miðja þessa öld mundu annaðhvort Rússar verða orðnir algjörlega ofan á í Norðurálfunni eða frelsishreifingar þjóðstjórnarinnar. Bróðursonur Napóleons 1., keisarinn, sem nú er í Frakklandi, fann það og þegar, að sjer og öðrum konungum á meginlandinu mundi veita örðugt að etja kappi við Rússa, ef þeir næðu að leggja undir sig Tyrkjalönd, og gekk því í samband við Englendinga, er ætíð hafa fundið hve nauðsynlegt það er, að jafnvægi hjeldist milli ríkjanna í Norðurálfu, ef að frelsi og menntun eiga að geta haldizt, og rjettindi hinna einstöku þjóða ekki verða algjörlega fyrir borð borin. Frakkar og Englendingar sögðu þess vegna undir eins, er þeir hófu stríðið, að tilgangur sinn væri sá, að vernda Tyrkjasoldán og ríki hans, og að þeir ætluðu alls ekki í því að leita neinna eigin hagsmuna, og hafa þeir haldið það dyggilega, og það hvað bezt á því, að setja Rússum ekki harðari skilmála en svo, að þeir gátu gengið að þeim, og sloppið svo nokkurn veginn skammarlaust úr stríði þessu, er einungis hafði hlotizt af ójöfnuði þeirra.

Árangurinn af stríði þessu er því sá, að þetta mikla ofurvald Russa er undir lok liðið, og sterkar skorður reistar við ágangi þeirra framvegis. Þegar þeir missa flota sinn á Svartasjó og mega ekki hafa þar sjóarútbúnað, vofa þeir ekki lengur yfir Tyrkjalöndum, því langir vegir eru á landi og seinfarið með lið. Nú hafa þeir einnig misst verndarvald það, er þeir höfðu áður yfir furstadæmunum við Duná, sem einlægt hefur gefið þeim færi á að sletta sjer fram í stjórn landa þessara, og draga þau undan hlýðni við soldán, og öll ríkin sem hafa tekið þátt í friðarsamningnum hafa lofað að styrkja soldán til þess að ríki hans verði engi ágangur veittur. Rússar hafa einnig orðið að hætta við að víggirða Bómarsund á Álandseyjum í Eystrasalti, er þeir höfðu til að ógna Svíum með, og Svíar og Norðmenn hafa bundið það fastmælum við Frakka að láta Rússum ekki eptir neina höfn vestur við haf, er þeim hefur lengi leikið hugur á. En mest af öllu er þó varið í það, sem stríð þetta hefur sýnt, og það er, að þó að Rússar sjeu bardagamenn miklir, vantar þá þó mikið í herkunnáttu við vesturlöndin, eins og von er, svo að líklegt er, að langt líði áður þeir færast annað eins í fang aptur. En þó að nú mikið sje unnið með friði þessum, þá hefur þó borið töluvert á því, að Englendingar sjeu ekki ánægðir með málalokin, og þykir þeim mörgum, að öll þörf hefði verið á, að minnka veldi Rússa meira en gjört er í sáttmála þessum; enda þykjast þeir lítið hafa reynt sig enn í stríðinu, en höfðu nú nægan afla liðs og fjár, en Napóleon hefur að líkindum ekki þótzt fær um að halda stríðinu til þrautar, þegar hið mesta var unnið, því fjárhagur hans og Frakka er engan veginn í góðu lagi.

Eitt hið merkasta, er gjörðist á friðarfundinum var það, að sendiherrarnir komu sjer saman um að gjöra þann viðbæti við friðarskilmálann, er ákveður miklu skýrar en áður hefur gjört verið um rjettindi þjóða á sjó á ófriðartímum. Það hafði um aldur og æfi verið ágreiningur milli þeirra þjóða, sem áttu í stríði saman og þeirra er hvorugum vildu fylgja um rjettindi hinna síðar nefndu til verzlunar og vöruflutninga, og hafa það einkum verið Englendingar, sem opt hafa beitt miklum ójöfnuði í þessu efni, þegar þeir hafa átt í ófriði. Atriði þau, er sendiherrarnir komu sjer saman um í þessu máli voru: 1. allur víkingskapur skal af tekinn, 2. ekki skal gjöra upptækt fje fjandmanna, nema hernaðargögn sjeu, ef að það er í skipi undir merkisblæju þeirra ríkja, er með hvorugum eru, 3. ekki skal tekið að herfangi fje þeirra ríkja, sem hvorugum fylgja,

þó það sje undir merkisblæju fjandmannanna, nema hergögn sjeu. 4. Ekki skulu sjóomsátur veita neinn rjett til fjárupptekta, nema þegar þau eru svo vel haldin, að engi skip komist að hinum umsetna stað. þessar ákvarðanir rýmka mjög um öll verzlunarviðskipti annara þjóða á ófriðartímum, og hefur því flestum þjóðum í Norðurálfu geðjast mjög vel að þessu, og gengið glaðir undir þessa sáttmála.

þó að nú friður væri á kominn, þótti vesturríkjunum þó ekki nógu trútt bundið um hnútana, og gjörðu því Frakkland og England sjerstakan sáttmála við Tyrkjaveldi 15. apríl, og Austurríki gekk undir eins undir þann sáttmála; og skuldbinda öll þessi ríki sig til í sameiningu og hvert fyrir sig að ábyrgjast soldáni öll lönd sín samkvæmt friðarsáttmálanum 30. marz, og verja oddi og egg Tyrkjalönd, ef nokkuð er út af brugðið. Margrætt hefur verið um þenna sjerstaka samhing, og ætla margir, að vesturríkin hafi fullt eins mikið haft í hyggju að vernda Tyrkjalönd með samningi þessum fyrir Austurríkismönnum sem Rússum.

Sardíníumenn komu fram á fundinum í Parísarborg með langa rollu um ástand Ítalíu og báðu fundarmenn að greiða úr vandkvæðum þeim, sem eru á stjórn þar í landi, einkum í páfalöndum og Neapelsríki. Á Ítalíu hefur nú í nokkur ár verið útlent setulið einkum í páfalöndum, og hafa Frakkar haft lið í Rómaborg, en Austurríkismenn norðan til í þeim, því páfastjórnin er svo aflaus, að hún getur ekki haldið friði í landinu með stjórnarfyrirkomulagi því, sem nú er, og svo ófrjálslynd, að hún ekki vill slaka neitt til og gefa þjóðinni meira frelsi. Stjórnin í Neapelsríki hefur lengi verið illa ræmd fyrir alls konar harðýðgi og ofsóknir gegn frjálslyndum mönnum, og það svo til ófriðar hefur horft við England, er hefur viljað milda úr tiltektum stjórnarinnar. Sardinía hefur þar á móti hina frjálsustu og beztu stjórn, og allt fer þar ágætlega fram, og er því mikill órói annarstaðar í Ítalíu, því þjóðina langar mjög til að fá endurbót á þessu, og verða hins sama frelsis aðnjótandi sem Sardiníumenn, en stjórnin í löndunum heldur þjóðinni í ánauð með tilstyrk hins útlenda setuliðs. — þó að fundarmenn, þrátt fyrir tillögur sendiherra Englendinga, vildu nú ekki taka þessar bænir Sardiníumanna til greina, hafa þó Frakkar og Englendingar lýst því yfir, að öll þörf sje á að bæta úr þessu ástandi Ítalíu, og treysta því Sardiníumenn því, að Vesturríkin muni draga taum sinn svo að Austurríki nái ekki að þröngva kosti þeirra á Ítalíu. (Framhald síðar).

---

þegar jeg sá aðra prófórk á viðaukablaði Norðra í vor, þá fór jeg samstundis til meðnefndarmanna minna, sem hjer voru á Akureyri og til ritstjóra Norðra, og sýndi þeim ofan á, að mjer þótti óráð að láta prenta annað eins, að nokkru leyti ósatt og þýðingalaust stagl, eins og mjer fannst það innihalda, jafnvel þó jeg játi, að mjer væri skylt, eins og öllum amtsbúum amtmanns Havsteins, hefði hann þurft þess með, að forsvara hann fyrir illgirnisáustri þjóðólfs, því að áliti mínu er amtmaður Havstein hið rjettvísasta og bezta yfirvald, eins og hann líka er ljúfur og lítillátur við alla æðri og lægri; og ekkert sannar þjóðólfur í mínu hjarta með því, þó hann hreyki sjer upp af því, að Ólsen eigi að fá hálf umboðslaunin heima í blaðinu. Án þess jeg neitt halli á Ólsen, hefur reynslan sýnt, að það, sem rjett er og satt, verður ekki ætíð ofan á í viðskiptum manna, eins og líka öllum getur yfir sjest, þó þeir af öllu megni vilji vanda gjörðir sínar. þetta bið jeg Norðra að auglýsa. Grímur Laxdal.

# Auglýsingar.

Gráskjótt hryssa, fremur lítil vexti, með mark: stúfrifað eða stýft vinstra, var þann 6. þ. m. seld við uppboð á Eyvindarstöðum. Hver, sem þekkir hryssu þessa sína eign, má vitja hennar fyrir 16. júlí næstkomandi til Magnúsar bónda Magnússonar á Eiríkesstöðum, sem varð hæstbjóðandi, móti sanngjarnri borgun fyrir haga og hirðingu næstliðinn vetur, og vanaleg uppboðs-sölulaun.

Gunnsteinsstöðum 20. dag maím. 1856.

Jóhannes Guðmundsson.

Helgidagaræður eptir próf. dr. og lector theol. P. Pjetursson, riddara af dbr., kosta hjá öllum þeim, sem þær verða sendar til útsölu, 13 mörk óinnbundnar, en í gylltu alskinni 18 mörk.

Reykjavík í maím. 1856.

E. Jónsson.

Fyrir tilhlutun hreppstjóra Jóns Jóakimssonar á þverá hafa okkur verið greiddir 13rd. frá Helgastaðahrepp, til endurgjalds upp í fararéyrir Jónanna til Kaupmannahafnar sumarið 1851; fyrir hvað við hjer með þakklátlega kvitterum.

| | |
|---|---|
| Jón Jónsson | Jón Jónsson |
| frá Munkaþverá. | frá Grænavatni. |

Frá deild hins íslenzka bókmenntafjelags í Kaupmh. hefi jeg undirskrifaður fengið beiðni um að takast á hendur umboð fjelagsins hjer í Eyjafirði, en þar eð það er fyrir hendi, að jeg fari hjeðan til brauðs þess, sem mjer er veitt syðra, get jeg ekki tekizt starfa þenna á hendur, og hefi jeg því fengið cand. philos. Svein Skúlason á Akureyri til þess, að annast um þetta fyrir mína hönd, þangað til bókmenntafjelagið getur útvegað sjer annan umboðsmann, og bið jeg því alla, er bækur eiga að fá frá bókmf. að leita bókanna hjá honum og greiða honum andvirði þeirra.

Staddur á Akureyri 18. júní 1856.

G. E. Johnsen.

Jeg undirskrifaður auglýsi, að jeg er kominn aptur frá Kmhöfn, og hefi í hyggju að setjast hjer að á Akureyri til að vinna að handiðn minni, skósmíði. Jeg býð því öllum, sem við þurfa, allt er skósmíði til heyrir; en biðja verð jeg þá, er fá vildu skó úr ýmislegum vefnaði, silki eða öðru þess konar, að láta mig vita það sem fyrst, svo að jeg geti pantað það utanlands frá. Allt það, er jeg er beðinn um, skal jeg leysa af hendi svo fljótt og vel, sem unnt er, og selja það með hinu sanngjarnasta verði, er nú tíðkast. Einn laglegan dreng gæti jeg tekið til kennslu með þeim kostum, sem um semdi við hlutaðeiganda.

Akureyri 18. júní 1856.

S. J. Norðmann.

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. 30. Júní. 12.

Þjóðólfur 10. maí hefur greinarkorn að færa lesendum sínum, þess efnis, að herra stúdent í stjórnvísindum, Arnljótur Ólafsson, færist undan því, að hann hafi sent ábyrgðarmanni Þjóðólfs, eða skrifað Ólsen á Þingeyrum þann kafla úr brjefi stjórnarinnar til amtmanns Havsteins, er stendur í Þjóðólfi 29. febrúar 1856, og ábyrgðarmaður Þjóðólfs leggur fullan drengskap sinn við, að hvorki herra Arnljótur Ólafsson, nje heldur umboðsmaður herra R. M. Ólsen hafi sent sjer kafla þenna úr stjórnarbrjefinu.

Af því nú herra stjórnfræðisstúdentinn A. Ólafsson játaði því í áheyrn minni og annars manns í vor í Kaupmannahöfn, að hann hefði komizt í brjefið og skrifað herra Ólsen úr því orðrjett, að svo miklu leyti, sem hann gat munað það, þykir mjer afsökun þessi kynleg, þó mjer á hinn bóginn þætti gott, að hún væri sönn. Vera má, að annarhvor, A. Ólafsson eða R. M. Ólsen hafi skrifað þetta eða áþekkt þriðja manni, og þessi blessaður þriðji maður hafi svo fengið það eða látið fá það ábyrgðarmanni Þjóðólfs í hendur, svo að undanfærslan gilti þá, að þessir menn hefðu ekki skrifað ábyrgðarmanni Þjóðólfs þenna kafla úr brjefinu, en ekki hvort þeir væru þess valdir, að brjefið komst í hans hendur, og væri þá undanfærslan svipuð undanfærslu Glúms um víg Þorvaldar Króks.

---

### Bókafregn.

1. „Om Islands hidtilværende statsretlige Stilling“ eptir J. E. Larsen, etatsráð og háskólakennara, Kaupmannahöfn 1855.[1]
2. Om Islands statsretlige Forhold. Nogle Bemærkninger i Anledning af Etatsraad Professor J. E. Larsens Skrift „om Islands hidtilværende statsretlige Stilling“, eptir Jón Sigurðsson, Kmhöfn 1855.[2]

Það eru fáir rithöfundar og því nær engir, er fengizt hafa við að tala um, hvaða rjettindi Ísland hefur í Danaríki, og það er hvorttveggja, að vjer Íslendingar höfum ekki haft neitt magn til að fá fullan rjett vorn í viðskiptum vorum við Dani, enda hafa þeir einatt verið oss harðdrægir og skamtað oss rjettindin úr hnefa. Síðan landið gekk undir konungsvald hafa hinir útlendu drottnar vorir, fyrst Noregs- og síðan Danakonungar, sífellt leitast við að auka rjett sinn á landinu, og draga fram sinn hlut eptir megni, eins og konungar nú alstaðar hafa gjört; og er það reyndar eðlilegt, því völd og virðing fylgjast mjög að, og konungur vill sem mest fjarlægjast kotungnum, eins og kotungurinn á hinn bóginn helzt vill vera laus við alla yfirdrottnun, ef hann gæti það, og er hvað drjúgastur að skapa hörð lög og dóma, þegar svo hefur farið í sögunni, að hann hefur orðið ofan á. Þess vegna er líka ætíð harðstjórn eða ríkt konungsvald í þeim löndum, þar sem þjóðin vaknar ekki sjálf til að hugsa um hagi sína, og halda fram rjettindum sínum móti konungsvaldinu. Það er nú hvorttveggja, að Íslendingar hafa ekki staðið vel fast á því að halda rjetti sínum, enda virðist svo sem konungar vorir hafi gleymt rjettindum þeirra, en þó einkum „dönsku bræðurnir vorir“, því þeir vilja nú vera oss í konungs stað. Hin fyrri bók, sem hjer er nefnd að ofan, ber þess ljósan vott. Háskólakennari J. E. Larsen hefur tekið sjer fyrir hendur að sýna og sanna hver rjettindi vjer höfum haft Íslendingar og hver þau nú sjeu, og byggir hann rannsókn sína einkum á því að reyna til að hrekja álit nefndarinnar í stjórnarmálinu á þjóðfundinum 1851, og verður það því ofan á, að rjettindi Ís-

---

[1]) Gefið út á kostnað dómsmálastjórnarinnar 1856.

[2]) Jeg veit ekki betur en rit þetta komi á íslenzku annaðhvort sjerstakt, eða í Nýjum Fjelagsritum.

lendinga sjeu lítil sem engin, og að vjer sjeum þegnar Danakonungs á sama hátt og Danir, og sjeum undir grundvallarlögunum dönsku eins og Danir, og að breytingin á þeim, og alríkisstjórnarskipunin sje eins handa oss og Dönum, og að land vort og þjóð sje sameinað hinum danska þjóðlíkama (incorporeret), og leiðir þá af þessu, að vjer eigum að vilja vera Danir, og taka fagnaðarhendi móti rjettindum þeim, sem „dönsku bræðurnir“ rjetta oss, og firrtast ekki, þó að þeir, ef til vill, ástundum skeri oss rustasneið.

J. E. Larsen segir, að þó það nú yrði sannað, að Íslendingar hefðu gjört frjálst samband við Noreg í fyrstunni, þá hafi seinna verið gjörðar breytingar, er hafi numið burt þessi rjettindi, og að þetta löglega ástand (að rjettindin voru numin burtu?), sem hafi myndast þannig smámsaman í sögunni eptir þörfum og nauðsyn tímanna(?), sje hinn almenni rjettur Íslands framvegis, en ekki það, er nú megi leiða út úr því, er elzti sáttmálinn inniheldur.

Eptir að háskólakennarinn þykist nú hafa sýnt, hvernig hið upprunalega samband hafi nú breytzt, og hvernig yfirráð konunganna hafi vaxið, án þess að hann láti þess nokkursstaðar við getið, hverjar skuldbindingar konungarnir gjörðu af sinni hendi, segir hann: „Ísland hefur ekki einungis staðið undir sama konungs valdi og Danmörk og Noregur, heldur einnig undir sömu stjórnarráðum og sama hæstarjetti, og þetta er engan veginn til orðið á þann hátt, að slengt sje saman hinu umboðslega valdi í löndunum, heldur var það bein afleiðing af hinni nýju stjórnarskipun (þegar einvaldið komst á 1660), og ekki annað en það, sem þegar að miklu leyti var komið á. Hvað löggjöfina snertir, er það aðalatriðið, að Ísland lá öldungis undir hið sama löggjafarvald og hinir hlutar ríkisins, en hitt atriðið, að Ísland hjelt að nokkru leyti hinum eldri lögum sínum, og fjekk seinna ýmisleg sjerstök lög, hefur litla þýðingu viðvíkjandi stöðu Íslands í ríkinu“. Höfundurinn leggur að síðustu þann dóm á málið, að samkvæmt konungalögunum gömlu, og samkvæmt því, er til hafi verið ætlazt (!), þegar grundvallarlögin voru samin, nái lög þau einnig til Íslands, þó þeim hafi enn ekki verið beitt hjer, og leiðir aptur af því, að allsherjarlögin nái einnig til Íslands, án þess landsmenn fái að hafa nokkuð atkvæði um það efni.

Þegar þetta rit var komið á gang, þótti Íslendingum ytra súrt í brotið að sitja undir þessu, en þó höfðu fáir, vit og kunnáttu til að svara því eins og þurfti.

Jón Sigurðsson alþingismaður varð til að leggja út í þann voða, sem það að mörgu leyti mátti virðast, að svara þessum lærðasta lögfræðingi Dana, og hann hefur gjört það þannig, að hann á miklar þakkir skilið fyrir það af öllum Íslendingum. — Jón Sigurðsson skiptir máli þessu í 3. greinir og spyr: 1. Komst Ísland fyrst í samband við Noreg sem frjálst sambandsland, eða var það lagt undir það ríki? — 2. Hefur Ísland nokkurn tíma afsalað sjer sjálfstjórn sinni og viðurkennt að það væri lagt undir Noreg, og 3. Hefur samband Íslands við Danmörku gjört nokkra breytingu, er slíkt gæti leitt af. Eptir að Jón Sigurðsson hefur nú sýnt og sannað, hvernig hið upphaflega samband var öldungis frjáls samningur af beggja hálfu, bæði eptir gamla sáttmála, og eptir því, er einlægt var viðurkennt af Noregskonunga hálfu; hvernig Íslendingar gáfu sig undir stjórn konungs sjálfs, en aldrei undir vald norsku þjóðarinnar, og hvernig þeir beinlínis áskildu sjer þau rjettindi, er hlutu að geta veitt landinu fullt frelsi í eigin stjórn sinni, ef þau voru ekki fótum troðin, og að sambandið var þannig eingöngu bundið við konung sjálfan, en ekki við ráðgjafa hans eða neinn annan, sýnir hann, um leið og hann rekur orð fyrir orð allar ástæður þær, er háskólakennarinn ætlaði að byggja vizku sína á, hvernig þessu einlægt að miklu leyti hefur verið fylgt, og hvernig hver konungur einlægt skuldbindur sig, um leið og Íslendingar sverja honum hollustueið, til að láta þá njóta allra rjettinda sinna, og það eins eptir að Ísland var ásamt Noregi komið undir veldi Danakonunga. Það einasta, er hann sýnir ljóslega að valdið hefur, að nokkur breyting varð á, er það, að stjórnin tók að hafa minni afskipti af landinu og hafa það eins og að olbogabarni, eptir að hún var komin til Danmerkur,enda var við því að búast, að þegar landið fjarlægðist aðalaðsetri stjórnarinnar, að kunnugleiki hennar á högum landsins mundi minnka, og líka leiddi það af því, að stjórnin hafði við svo mörgu að snúast, eptir að Kalmarsambandið var komið á, svo að hún gat ekki eins skeytt um hin fjærliggjandi lönd, og að aðgjörðir hennar urðu harðdrægari og landsmönnum óhollari. Manndauðar, eldgos og önnur harðæri komu líka yfir Ísland, og gjörðu landsbúa sljófari til að fylgja fram rjetti sínum.

þegar Jón Sigurðsson hefur þannig sannað, að Ísland hafi aldrei misst neitt af rjettindum þeim, er það hafði eptir hinum upphaflega samningi, og að það sje í rauninni ofurvald, ef að stjórnin vilji láta Íslendinga gjalda þess, að þeir eru afláminni, tekur hann fyrir hvert einstakt atriði, er snertir tilraunir stjórnarinnar nú á seinustu tímum til að gjöra skipun á um fyrirkomulag Íslands í ríkinu, og sýnir hvílíka ósamkvæmni stjórnin hefur við haft í þessu efni. Eptir að konungur hafði auglýst, að hann ætlaði að gefa þegnum sínum frjálsa stjórn og sleppa einveldi sínu, var svo að sjá, bæði á konungsbrjefinu 23. september 1848, og á umræðunum á hinu almenna ríkisþingi Dana, þegar grundvallarlögin voru samin, sem stjórnin ætlaði að láta Ísland fá fullan rjett sinn, og staðfestist þetta enn fremur af kosningarlögunum 28. september 1849 um kosningarnar til þjóðfundarins, er í öllum aðalatriðum voru jafnfrjálsleg og kosningarlögin fyrir ríkisþingið, er samdi grundvallarlögin. Það var því ekki kyn þó þjóðfundinum brigði í brún, er hann sá frumvarp stjórnarinnar um fyrirkomulag Íslands í ríkinu, er lagt var fyrir hann, og þó að meiri hluti nefndarinnar stæði á móti frumvarpi þessu, er veitti alþingi einungis viðlíka mikið vald og amtsráðin í Danmörku hafa, og að öðru leyti skamtaði landsmönnum rjettindin mjög úr hnefa. Jón Sigurðsson sýnir einnig, hve nauðsynlegt það hefði verið, að konungsfulltrúi hefði lofað að ræða málið til lykta í stað þess að rjúka í að slíta þinginu í miðju kafi, og hversu loforð konungs í auglýsingunni góðu 12. maí 1852, um að ekki skuli neitt fastráðið um stöðu Íslands í ríkinu fyr en það mál hafi verið borið undir álit alþingis, sje öldungis ónógt, þar eð alþingi geti ekki rætt það mál, og konungur geti ekki bundið enda á loforð sitt í brjefinu 23. sept. 1848, nema með því að skipa nýjan þjóðfund eptir kosningarlögunum 28. sept. 1849, og stjórnin og þjóðin hafi þar komið sjer saman og ráðið málinu til lykta.

Meira en þetta leyfir ekki rúmið mjer að tala um þessa ágætu ritgjörð, er svo skírt og stillilega talar máli þjóðrjettinda vorra, og hvet jeg að endingu, hvern þann, er vita vill, hver rjettindi lands vors eru, til að afla sjer hennar, þegar hún kemur hingað á íslenzku.

---

(Aðsent).

Á alþingi 1855 skrifaði forseti þingsins H. Stephensen eptir beiðni þess ávarp til landsmanna þess efnis: „að þeir sæu sjer ráð fyrir að forðast matarskort, bæði með því að stofna forðabúr í sveitum, og aptur hins vegar með því að láta minna fje til kaupmanna til sölu út úr landinu. — Þessi aðvörun virðist þó hafa haft lítinn árangur árið sem leið, að minnsta kosti hjer í norðurkaupstöðunum, því næstliðið haust var fjártakan engu minni heldur jafnvel meiri (sjá Norðra 1856, 3. bl., er segir, að farið hafi út af landinu hjerumbil 3000 tunnur af söltuðu kjöti). Þetta sýnir hve landsmenn gæta lítið að hinum verulega hag sínum og hve óframsýnir þeir eru með að byrgja sig með matföngum, er þeir láta þessa beztu og hollustu matbjörg sína út úr landinu, og það jafnvel fyrir óþarfa, en líða sjálfir skort á viðurværi, er fram á veturinn líður, og það svo, að sumir, sem látið hafa fje í kaupstaðinn, hafa orðið að fara til kaupmannanna og kaupa aptur kjöt af þeim; þó verðum vjer að vísu að geta þess, að vjer vitum ekki til, að kaupmenn hafi notað sjer þessa neyð landsmanna til að selja þeim kjötið dýrara, en þeir höfðu keypt það, þó landsmenn hefðu í alla staði átt það skilið til hegningar fyrir skammsýni sína. — Þó að kjöt hafi nú undan farin ár verið í háu verði, sem ekki er víst að verði í haust, hafa aptur á mót útlendu vörurnar hækkað viðlíka, auk þess að allt lendir þó á bændunum að síðustu í útgjöldunum, því að sama hófi hækkar verðlagsskráin, og lendir því allt í sama stað, eða verður jafnvel verra, auk þess hve örðugt þá veitir kaupstaðabúum og sjóarbændum að geta fengið til muna kjöt og aðra matbjörg frá sveitabændum. Þetta er einnig að kenna vana þeim, er sjóarbændur eru búnir að taka upp á, að þeir selja harðfisk sinn kaupmönnum, og sveitabændur kaupa hann aptur af þeim, og borga hann með sláturfje á haustin eða öðrum vörum, og lendir þannig það sláturfje hjá kaupmönnum, er sjóarbændum er svo ómissandi, og sveitamenn verða þannig bundnari við að kaupa það í kaupstaðnum, er þeir ættu miklu fremur að fá hjá sjóarbóndanum. Það er því ný áskorun vor til sveitabænda, að þeir láti minna af fje sínu í kaupstaðinn næstkomandi haust en að undanförnu, en leggi bæði meira í bú sitt og hafi meira að miðla sjóarbændum og kaupstaðabúum úr búi sínu, og að þeir fái aptur hjá sjóarbóndanum þau þarfindi, er hann getur í tje látið. Það væri eðlilegra að sveita- og sjóar-bændur hefðu sameigin-

leg fjelög með sjer og miðluðu hver öðrum á víxl, því er þeir gætu án verið, og þá gæti viðurværi þeirra, hverra fyrir sig, orðið notalegra en ella, og eptir reikninginum í Norðra sjá allir heilvita menn, hve miklu meiri matbjörg yrði í landinu, ef landsmenn ljetu ekki þannig af hendi þessa beztu vöru sína.

Þó að vjer vildum nú láta það ásannast með þessum fáu orðum að „ekki veldur sá er varir þó ver fari", þá óskum vjer fremur en vjer vonum, að grein þessi hafi meiri árangur en ávarpið frá hinum þjóðlega og ágæta forseta alþingis 1855.

---

Árið 1856, 17. júní var almennur prentsmiðjufundur haldinn á Akureyri. Komu þar á fund allir forstöðumenn prentsmiðjunnar, nema umboðsmaður Jón Jónsson á Ytrahóli, sem nú er fluttur vestur í Húnavatnssýslu, og presturinn sjera Daníel Halldórsson á Glæsibæ, en alls voru á fundinum milli 20 og 30 manna, Eyfirðingar og Þingeyingar. Forseti var presturinn sjera Jón Thorlacius.

Var þá:

1. tekinn til umræðu **efnahagur** prentsmiðjunnar, og gjörði forseti nefndarinnar fundarmönnum grein fyrir honum munnlega og vísaði til reiknings í Norðra 31. marz þ. á.

2. gjörður **brjeflegur samningur** við cand. philos. Svein Skúlason um kjör hans við prentsmiðjuna, hjerumbil samhljóða því, er áður var um samið.

3. rætt um endurgjald á málskostnaði í prentsmiðjumálinu, og um lúkningu á hinum leigulausu lánum, er prentsmiðjan fjekk, þegar hún var stofnuð, sem eiga að greiðast að ári; og var það, samkvæmt 3. grein prentsmiðjulaganna (smbr. Norðra 3. ár, 78. bls.), álitið bezt henta að biðja amtmann Havstein að sjá svo um, að kostnaði þessum yrði jafnað niður með því, að leggja 1 skilding á hvert lausafjárhundrað í amtinu, og þótti einnig hlýða að skora enn á amtsbúa, að þeir hver eptir sínum efnum og góðvild styrki prentsmiðjuna með fjárframlögum.

4. Kom fundarmönnum saman um, að fá **ábyrgð á prentsmiðjunni fyrir eldsvoða** hjá brunabótafjelaginu í Kaupmannahöfn, til þess að prentsmiðjan yrði óhultara veð fyrir lánum, sem taka kynni að þurfa.

5. Kosin ný prensmiðjunefnd, og fengu þessir menn flest atkvæði:

1. presturinn sjera Jón Thorlacius í Saurbæ.
2. cand. philos. Sveinn Skúlason á Akureyri.
3. presturinn sjera Sveinbjörn Hallgrímsson á Akureyri.
4. járnsmiður Benedikt Þorsteinsson á Akureyri.
5. presturinn sjera Daníel Halldórsson á Glæsibæ.
6. hjeraðslæknir Jón Finsen á Akureyri.
7. bókbindari Grímur Laxdal á Akureyri.

Þar eð fleiri málefni voru ekki borin fram á fundi til umræðu var að svo gjörðu fundi slitið.

**Jón Thorlacius.**

---

## Sá hlaut eigi skell er skyldi.

Það er alkunnugt, hvernig tilraunir konungsættarinnar af Stúarts kyni á Englandi að ná ótakmörkuðu valdi og svipta þjóðina frelsi sínu mistókust svo, að þær urðu lyktir á, að Englendingar hófu ófrið gegn Karli konungi hinum fyrsta, hertóku hann og dæmdu hann til dauða og var hann afhöfðaður 1649. Meðal þeirra sem voru fremstir í flokki með að fá konung dæmdan var Krómvell, er síðan varð mestu ráðandi á Englandi, og var hinn vitrasti maður og hinn harðfengasti. Krómvell sá það af vizku sinni, að ættmenn Stúarts mundu komast til valda á Englandi eptir sinn dag, og ætlaði sem fór, að Karl konungur annar mundi lítt þyrma þeim, er höfðu átt þátt í lífláti föður hans. Þetta gekk og eptir. Karl konungur tók ríki á Englandi eptir lát Krómvels, og máttu þeir allir sæta dauða eða öðrum þungum refsingum, er verið höfðu í andskotaflokki föður hans. Konungur skipaði að grafa upp líkama Kromvels og hengja hann dauðan. Krómvell hafði verið greptraður virðuglega, en nú var brotin upp kista sú, er hann var grafinn í, og líkaminn dreginn úr kistunni og hengður á gálga. En jafnskjótt og líkaminn var upp festur gekk höfuðið af, og búkurinn og höfuðið fjell til jarðar, og kenndu menn þá, að þetta var líkami Karls konungs fyrsta, og hengdi konungur þannig föður sinn dauðan. Þetta var svo undir komið, að Krómvell hafði tekið eið af trúnaðarmanni sínum einum á banasæng sinni að grafa upp aptur líkama sinn á laun, og jarða hann á ókrunnum hjá Nesbæ (þar hafði hann unnið frægan sigur yfir Karli konungi hinum fyrsta), en leggja lík konungs aptur í kistu sína. Kom því hefndin fram á líkama konungs, en lík Krómvels varð aldrei fundið, því akrarnir voru síðan margplægðir og engi merki sáust, hvar hann var grafinn.

---

☞ Frá Akureyrar prentverki kom í fyrra sumar að útbúnu bæklingur, sem er nefndur: „Leiðarvísir til að spila á langspil og til að læra sálmalög eptir nótum, og nótur með bókstöfum til allra sálmalaga, sem eru í messusöngsbók vorri, og þaraðauki til nokkurra fleiri sálmalaga, handa unglingum og viðvaningum."

Bókin er ekki ætluð til þess, að fólk sem hnigið er á efra aldur, taki að laga söngmáta sinn eptir henni; heldur er hún samin og gefin út í þeim tilgangi, að hinir yngri gjöri það bæði í kirkjum og heimahúsum. Bókin kostar í mat: 40sk., og er hjá undirskrifuðum til kaups bæði í kápu fyrir 44sk., í pappbandi fyrir 48sk. og í velsku bandi fyrir 60sk.

Akureyri. 24. dag júním. 1856.

A. Sæmundsen.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. Júlí. 13.—14.


## Brjef til Kaupmannahafnar.

I.

Við töluðum svo um, þegar við skildum í Höfn, að jeg skyldi skrifa þjer til og segja þjer, hvernig mjer litist á lífið, þegar heim kæmi; en af því jeg hefi svo miklar annir, vildi jeg helzt svara þjer í Norðra, enda þykir mjer ekki ólíklegt, að lesendum mínum hjer á landi þyki fýsilegt að heyra, hvernig jeg ber þeim söguna, og jeg ætla jafnframt, að það geti orðið að gagni að drepa á hitt og þetta í háttum þjóðar vorrar, og bera þá og þjóðlíf vort saman við annara þjóða háttsemi, því beztu von hefði jeg, að Íslendingar mundu laga það, sem áfátt er í háttum þeirra, ef að þeir þekktu, hvaða áhrif hið gagnstæða hefur í öðrum löndum.

Þú veizt, hversu mikið mig langaði til Íslands aptur seinustu árin, og hvað mjer veitti örðugt að skiljast ógrátandi við þá, er fóru heim á vorin, þegar jeg fylgdi þeim til skips, og að þessi heimfýsi mín fór einlægt vaxandi, því meir sem vera mín lengdist í Höfn. — Jeg vil ekki lasta Danmörku eða Kaupmannahöfn. Jeg hefi fyrstu og seinustu árin átt þar margan glaðan dag í góðvinaflokki, og jeg hefi aldrei reynt meira drenglyndi og sannarlegt bræðralag en af landsmönnum mínum velflestum eldri og yngri erlendis, og hvergi kemur, ef til vill, hið bezta og fegursta í lunderni Íslendinga, eins vel fram eins og í samheldi þeirra utanlands, þó að þetta samheldi vort á seinni árum hafi reyndar ekki borið eins gleðiríkan ávöxt og á ungdómsárum Fjölnismanna. En þessi samvera við Íslendinga var líka næstum eini unaður minn í Höfn auk bókanna. Það er satt, að Danmörk er fagurt land og frjófsamt, og þar er gott til matar — þó oss þætti nú reyndar matbjörgin gjörast dýr seinustu árin, þegar hálf rjúpa kostaði 40 skildinga —, og það er líka satt, að Danir eru velflestir meinhægir (g o ð m o d i g e), og sumir þeirra góðir drengir, sem jeg sakna, og einstakir þeirra hafa góðan þokka til vor og vilja oss vel; en þó þessu sje þannig varið, þá er hitt þó jafnsatt, að landið vantar flest það, er Íslendingar kjósa, og sem þeir þurfa að hafa fyrir augum sjer, ef að þeir eiga að geta laðast að landinu og unað þar vel lífi sínu. Náttúran er þar í landi smáfríð en sviplítil, en á Íslandi stórhreinleg og svipmikil, og sami munur ætla jeg sje að rjettu lagi milli skapferlis þjóðanna, sem í löndunum búa, þó að vjer Íslendingar höfum reyndar lært það margt af viðskiptum vorum við Dani, sem þeim er miður gefið, en látið margt ónumið, er gott væri af þeim að nema.

Þú manst eptir, hvernig veðri var háttað, þegar jeg fór á skip, suddi og þoka og ónota kuldi, og kveið jeg ekki alllítið fyrir ferðinni, þó að heimfýsin reyndar yfirgnæfði, og gjörði mjer hægri skilnaðinn við yður vini mína, en hann annars hefði orðið mjer. Vjer lágum í Eyrarsundi 5 daga í logni og blíðviðri, en sigldum síðan á 11 dögum þaðan til Husavíkur, og töfðumst þó á þriðja dag fyrir austurlandinu í landnyrðingi og ísbroða. Jeg fór að hugsa um þegar jeg sá ísinn og sá að skipstjóri varð hræddur, hvílíka hugprýði þeir menn mega hafa til að bera, er sigla í norðurhöfum, þar sem ísjakarnir eru háir sem fjallahnjúkar, svo að hinir minnstu þeirra geta á einu augabragði brotið hið sterkasta skip í spón. Þó að ísinn væri ekki þjettur, var hann þó mjög geigvænlegur álengdar, og stóð af honum helkuldi svo mjer gjörðist kalt. Ísinn er án efa hinn versti gestur, er kemur til Íslands, því þó að hann flytji landinu einatt margan auð, þá kyrkir hann þó ætíð meir eða minna grasvöxtinn og spillir allri jarðarrækt, sem er svo ung hjá oss, að hún má ekki mistakast stórum, ef að Íslendingar eiga ekki að firrtast, leggja árar í bát og hætta gjörsamlega við hana.

Hafnsögumenn komu til skips út við fjarðarmynni; og voru þeir kátir, glaðlegir og einarðlegir; frjettu margs, og sögðu tíðindi, ágætt vetrarfar og gripahöld og hitt og þetta annað; en meira hugsuðu þeir um það að spyrja tíðinda og segja þau en að vísa skipinu leið til hafnar, það gjörðu þeir einungis, þegar þeir voru að spurðir, enda sagði skipstjórinn, að hann tæki hafnsögumenn meir til að firra sig vítum, en af því, að þeir gjörðu nokkuð gagn, enda ætla jeg það satt vera.

Vjer gengum á land og var veður hið fegursta; kvöldroðinn gyllti vesturfjöllin og nam við hafsbrún, en græn grös voru nýlifnuð að gægjast upp úr jörðunni og líta til veðurs; þá kvað jeg þessar stökur:

Að stíga fæti á fósturláð
feður áður kætti;
það mjer vekja dug og dáð
og deyfðinni hrinda ætti.
Glóir í heiði sumarsól
sveipuð aptanbjarma;
hlæja við mjer heimaból,
hlíðar njóta varma.
Burt eru liðin ský og skúr
og skartið vetrar hvíta;
vakna grös af dauðadúr
og dagsins unað líta.
Ó, að bjartur yrði mjer
æfi minnar hagur,
eins og fróni fögnuð ber
fríður sumardagur.

Það má í fyrsta áliti virðast hvimleitt að koma að landi á ókunnugum stað á Íslandi, hestlaus, hnakklaus og allslaus, því þess konar var ekki að fá, þó peningar væru í boði, og af þeim hafði jeg lítið; og jeg veit ekki hvað lengi jeg hefði mátt bíða þar á Húsavík, hefðu ekki kaupmenn þar og aðrir góðir menn beint fyrir ferð minni á allan hátt, sem jeg gat bezt óskað. Eins góðar viðtökur átti jeg og hefi átt alstaðar þar sem jeg hefi komið, og aldrei verður ofsögum sagt af gestrisni Íslendinga og hjálpsemi við ferðamenn. En þó að gestrisnin kæmi mjer vel, þarf jeg þó að finna að hinu og þessu, sem gjört er í gestrisnisskyni hjer á landi

Þú veizt, að árgæðska hefur verið ekki alllítil þau 7 ár, sem jeg hefi verið erlendis, og að jeg bjóst við að hagur landsmanna hefði farið stórum batnandi síðan jeg var hjer seinast. Þetta hefur líka gengizt eptir. Fólkið hefur, eins og þú veizt, fjölgað töluvert og fjenaður ekki alllítið, en þó velmegun þjóðarinnar ætti að fara vaxandi að sama skapi og vinnuaflinn og gripafjöldinn vex, þá er það þó ekki. Óhófið, sem var reyndar mikið, áður en jeg sigldi, er nú orðið helmingi meira, og í þetta gengur allt það eða því nær allt, sem leggja ætti í að bæta landið og atvinnuvegi þess. Brennuvínið er nú orðið svo almennt, að menn koma varla svo á bæ, að ekki sje til í staupinu, og það undir eins á borð borið, og þykir, ef til vill, ósómi að þiggja það ekki; og svo verða menn að þiggja kaffi, þó að það kosti langferðamanninn einnar klukkustundar bið, og það honum í mikinn óhag. Þannig getur maður ferðast heilan og hálfan daginn, og drukkið 6 eða fleiri bolla af kaffi og hálfu fleiri brennuvínsstaup, og allt þetta á fastandi maga, því ef maður er nestislaus, og getur ekki borðað svo mikið á morgnana, að það hrökkvi til kvölds, þá er það sjaldgæft, að annað sje boðið en brennuvín og kaffi, og kaffi og brennuvín. Þú sjerð nú afleiðingarnar af þessum landsvana; langferðamenn fá minnst af þeim góðgjörðum, er þeir þarfnast, en bændurna kostar þó gestanauðin jafnmikið eða meira, svo hvorum tveggja verður þetta óhollara. Auk þessa leiðir af þessu hið argasta bæjasnatt. Vinnufólkið og kaupafólkið ríður á sumrum á aðrar kirkjur, fer af stað á laugardagskvöldið að aflíðandi nattmálum eða fyr og kemur heim aptur um miðnætti á sunnudagskvöldið, og eru karlmennirnir þá einatt linir í sóknum við mánudagsvinnuna, þegar þeir eru búnir að drekka kaffi og brennuvín liðlangan sunnudaginn. Þó maður sje ekki nema af næsta bæ og sje einskis þurfi, þá er þó sjálfsagt að bjóða honum volgan vatnssopa, og það er einmitt aðalerindið hans á bæinn. Bændur og aðrir húsbændur eru búnir að venja fólk sitt svo á þessa kaffidrykkju, að því þykir engin sú vist góð, þar sem það fær ekki kaffi hvern dag, að minnsta kosti um sláttinn, og neyðast þannig, ef til vill, fátækir bændur til að hafa sömu siðina og hinir ríkari, þó efni þeirra leyfi það ekki, og vinnufólkið venst svo á þenna óþarfa, að það getur ekki án hans verið, þegar það fer sjálft að byrja búskapinn Af þessu leiðir það einnig, að kaffið, er annars gæti verið sælgæti, væri það sjaldan drukkið, verður eins og hver annar húsgangsdrykkur, sem kostar bóndann mikið, en sem hjúunum þykir þó lítið til koma, þó þau sökum vanans vilji

hafa það eins og annan skylduskatt. Þessa ósiði og marga aðra leiðir af hinni takmarkalausu gestrisni hjer á landi, en þó er hún svo fagur vani, þegar hún er rjett við hőfð, að jeg veit ekki, hvort jeg vildi missa hana, þó þessir ókostir fylgi henni; enda er bágt að koma hjer á gestgjafahúsum, þar sem ferðamenn ætíð gætu átt vísan greiða fyrir borgun. Mjer þykir verst að hún gjörir opt sveitabóndanum slík þyngsli, að það dregur úr gróða hans, ef hann er efnaður, og kemur honum á vonarvöl, ef hann er fátækur.

Þú baðst mig að segja þjer, hvernig mjer litist á kjör mín hjer nyrðra og hag prentsmiðjunnar; en jeg get enn lítið sagt þjer af því hvoru tveggja. Þegar jeg kom hingað og tók við blaðstjórninni, var komið í mesta ólestur fyrir Norðra mínum. Kaupendur höfðu fækkað frá því í fyrra um 2 til 3 hundruð, og útsendingin á blaðinu var í engu lagi, eins og hún er ekki enn og getur ekki verið, á meðan að póstferðir eru hjer svo að kalla engar, og allt verður að senda með óvissum ferðum, svo að blaðabögglarnir liggja tímum saman hjer og þar á leiðinni og komast mjög seint til skila og sumir aldrei. Á þessu verður ekki ráðin bót, fyr en jeg annaðhvort get stækkað blaðið svo, og fengið svo marga nýja áskrifendur, að jeg get sjálfur sent með blaðið út um landið á hverjum mánuði, einn mann austur í Múlasýslur, annan vestur að minnsta kosti til Hrútafjarðar og hinn þriðja suður í Borgarfjörð; ellegar stjórnin eða Íslendingar sjálfir bæta póstgöngurnar svo, að ein póstferð sje um allt land á hverjum mánuði, að minnsta kosti að sumrinu til, og um það mál ætla jeg að ræða seinna betur. Þó að nú tala áskrifenda hafi þannig fækkað stórum, þá vona jeg þó að þeir fjölgi aptur, ef að mjer semur við þá, og þeir firrtast ekki við mig, þó að jeg sje berorður á milli. Jeg hefi síðan jeg kom, fengið nær því hundrað aptur til að kaupa Norðra, svo þú sjer, að jeg get þó verið vongóður um, að þetta muni lagast. Jeg held líka, að Íslendingum sje þó farið að skiljast það, að þeir geti ekki verið án blaðanna, og er það mikið Þjóðólfi að þakka; og hvernig sem mjer gengur, þá er það sannfæring mín, að Norðurlandi sje ekkert eins nauðsynlegt eins og blað og prentsmiðja. — Af prentsmiðjunni hjerna er það að segja, að hún stendur eins og von er enn á veikum fótum; og hvergi lýsir sjer eins berlega þolleysi vort Norlendinga eins og í því, hve áhugi alþýðu er farinn að sljófgast að hjálpa henni fram. Hún á enn líf sitt að þakka örlyndi og hjálpsemi einstakra manna, en svo er að sjá, að allur þorri alþýðu vilji ekki taka þátt í viðhaldi hennar, sem yrði þó svo auðvelt, ef margir vildu að því styðja. Þessu veldur nú bæði deyfð alþýðu, og það að prentsmiðjan hjer hefur ekki getað fengið góðar og útgengilegar bækur til að prenta nema örfáar, en flest sem prentað hefur verið, hefur að bezta kosti verið ljettmeti, og sumt óþarft og illa valið rusl, eins og „Smásögurnar“ og „Felsenborgarsögurnar“ t. a. m. Mig furðar á því, hvað Norðlendingar eru daufir að rita, því hjer nyrðra eru þó svo margir menntaðir menn, er ekkert vantar nema áræðið. Prentsmiðjunni er því mjög áríðandi, að fá eitthvað gott til prentunar, og að sem minnst sje hjer prentað af því sem ónauðsynlegt er, þó það sje auðvitað, að enginn getur með sanngirni heimtað, að hún taki ekki hið lakara, þegar ekki er betra á boðstólum, því það gjörir engin prentsmiðja; það verður að vera þess skaði, sem gefur út bókina, ef hún gengur ekki út, og hans skömm, ef hún er óþörf og ónýt.

Hjer liggur svo að kalla allt í dái með umræður á stjórnarmálefnum vorum, og við blaðamennirnir erum að geyma vetrinum, sem í hönd fer að tala um alþingismálin, til þess að orð vor og tillögur verði ekki gleymt, þegar til þarf að taka. Þjer ytra ættuð að skrifa mjer dálítið um meðferð alþingis á lagaskólamálinu, fyrst að málinu var fyrst hreift ytra, og lögfræðingarnir íslenzku ytra geta líka bezt borið um, hve holl og þörf lagakennslan við háskólann er oss Íslendingum. — Það, sem mjer mest virðist hindra, að þarflegar stofnanir komist á, er skortur á fje því, sem þarf til að koma slíku á fót; því auðsjeð er, að stjórnin er á seinni tíð orðin mjög föst fyrir að leggja fje til Íslands þarfa, og ber hún við verzlunarfrelsinu, sem þó er alls engin ástæða í sjálfu sjer, og viðlíka góð, og ef landsdrottinn segði við leiguliða sinn: „Af því jeg er nú hættur að slá upp á þig bæði á túni og engjum, þá máttu ekki búast við, að jeg á nokkurn hátt styrki þig til að bæta jörð þína“. — Því þó Danastjórn hafi ljett á oss hinni ófrjálsu verzlun, sem hún hafði lagt á oss um margar aldir, þá á hún oss þó enn ógoldinn margan annan órjett, er vjer höfum liðið um langan aldur. Og þó að sjálf ólögin sjeu numin í burtu, þá eigum vjer fulla heimting á, að hún hjálpi oss til að rjetta við aptur eptir þann

hnekkir, er slíkt hefur ollað oss. — En það er auðvitað, að það gagnar ekki fyrir oss Íslendinga að bíða þess, að stjórnin leggi oss á brjóst sjer, eins og góð móðir barn sitt, því þess getur orðið langt að bíða. Vjer verðum sjálfir að tíma að leggja fje vort og krapta í sölurnar, ef eitthvað þarflegt á að stofna; og jeg sje ekki betur en vjer getum það, og höfum nógan fjárafla til þess. Því þegar Íslendingar geta varið peningum sínum svo hundrað þúsundum dala skiptir á hverju ári, til að kaupa hinn argasta óþarfa, ættu þeir að geta varið nokkru til þess að koma þess konar nytsömum stofnunum á fót, og þeir ættu ekki að vonast eptir því, að stjórnin annist allar þess konar þarfir þeirra, því það getur, orðið of löng bið.

Þú baðst mig að skrifa þjer, hvernig búskaparhættir eru nú orðnir hjá oss, og hvernig hjer gengur með jarðyrkjuna; en því miður er jeg enn ekki orðinn þessu nógu kunnugur. Þó er mjer óhætt að fullyrða, að búskapur hefur töluvert batnað og jarðarræktinni farið fram. Hjer á Akureyri eru jarðeplagarðarnir einlægt að fjölga og vex optast allvel í þeim, og hafa kaupstaðarbúar hjer af því mikil not. Á einstöku jörðum sjer maður miklar jarðarbætur; hjer í sýslu mest sem jeg hefi sjeð hjá umboðsmanni Þorsteini Daníelssyni á Skipalóni og dannebrogsm Birni Þorlákssyni á Fornhaga. Í Húnavatnssýslu sá jeg mesta jarðabót á Klömbrum í Vesturhópi hjá fyr verandi hreppstjóra Snorra Jónssyni. Hann hefur gjört 600 faðma langan hringlagðan sniddugarð um allt tún sitt, ágætlega hlaðinn, háan og breiðan, og veitir þar að auki vatni yfir mest allt túnið, svo hann fær nú yfir 300 hesta af því, en áður fengust að eins rúmir 80, og þykir mjer furða, að yfirvald Húnvetninga skuli ekki reyna til að útvega slíkum manni eitthvert virðingarmerki fyrir þenna starfa sinn. Víða er hjer farið að plægja, og þó að það sje enn í bernsku, má þó víða sjá þess merki, og það muni flýta mjög fyrir að stækka tún manna. Hið versta er, að menn eru lítt búnir að læra að drýgja áburðinn og auka hann, og víða er sauðatað enn haft til eldiviðar þar sem mó-skurður þó gæti fengizt. — Bæjabygging hefur og tekið þó nokkrum framförum, og miklu víðar eru ná stofur komnar en voru, þegar jeg sigldi; en þó hefi jeg engan bæ sjeð afbragðsfallega byggðan, nema hjá Jósep hjeraðslækni í Húnavatnssýslu, í Hnausum. Sá bær er nú eflaust reisuglegastur hjer á landi, og hið viðunanlegasta hýbýli. Þó eru því miður flestir bændabæir enn illa húsaðir, og vantar bæði gott skipulag á þeim og einkum og sjer í lagi þrifnaðinn, sem mest á ríður. Jeg hefi komið inn í bæi, þar sem loptið hefur verið svo illt, að jeg hefi varla þolað það, og þó hefur verið ómögulegt að ljúka upp glugga. Hið versta er, að fólk vill ekki láta sjer skiljast, að slíkt valdi óheilindum, og þykir því öfgar og óþarfa vandfýsni, ef að er fundið.

Þú sjerð að það kennir margra grasa í brjefi þessu, þó stutt sje drepið á hvert atriði, og vil jeg því ekki þreyta þig eða lesendur mína lengur í þetta skipti, en bið þig að heilsa kunningjunum, og lesendur mína að virða vel.

---

## Bókafregn.

Kvæði I, Benidikt Gröndal, Rvík 1856.

Herra cand. philos. Benidikt Gröndal hefur nú á seinni tímum verið hið einasta skáld á Íslandi, sem nokkuð til muna hefur látið til sín heyra; og mjer er óhætt að fullyrða, að ekkert af íslenskum skáldum hafi afkastað jafnmiklu og hann á jafnstuttum tíma. Mjer finnst því vert að geta hins fyrsta heptis af kvæðasafni því, er hann nú er byrjaður að gefa út, til þess að leiðbeina alþýðu í dómum sínum um það. Jeg tala hjer ekkert um hin fyrri skáldskaparrit Gröndals, heldur einungis um þessi seinustu kvæði. Það er hvorttveggja að Gröndal hefur ort mikið, enda má líka sjá á öllu, sem hann kveður, að honum er mjög tiltækur kveðskapur. Málið liggur laust fyrir honum, svo að jeg ætla, að hvorki Jónasi Hallgrímssyni eða Sveinbirni Egilssyni, er þó hafa haft málið bezt í sínu valdi af öllum seinni tíma skáldum, hafi verið ljettara um mál í bundinni ræðu. Auk þessa sjest það á hverri stöku eptir Gröndal, að náttúran blásir við honum og sýnir honum hinar fegurstu myndir sínar — hann er náttúrufróður maður eins og Jónas var —, svo að hann er víðast hvar fagurmæltur, þar sem náttúrulýsingar koma fyrir. Þessa kosti Gröndals hefi jeg aldrei sjeð koma eins vel í ljós og í þessum seinustu kvæðum hans. Hugmyndaafl hefur hann ætíð nóg, og það svo, að hann ræður opt ekki við flug hugarins, en hleypur hugmynd frá hugmynd óstöðugur eins og býfluga á fífilhöfðum, er skilur stundum eptir mikinn sætleik, er hún hefði átt að sjúga. Eins og hann nú flýgur milli hugmyndanna, eins

flýgur hann stundum út úr málinu og bragarhættinum, og er það síður fyrirgefandi þeim manni, er jafnhægt á með að halda hvorutveggja þessu í fögrum skorðum, og sýnir það, að skáldið er fljótfarið um of.

Hið fyrsta af kvæðum þessum „Nýársheilsan“ hefur mest til ágætis síns liðugleik og fagurt orðaval, en hugsun óljós og á reiki, og 2 seinustu vísuorð 9. erindis mjer óskiljanleg. „Stúlka“ 2. kvæðið, ágætt að öllu leyti, en óreglulegur bragarháttur. 3. kvæðið vel orðað, en lítið efni. 4. blandað málum. 5. „Mikil eru verkin drottins:“ Fyrra erindið eitthvert hið fegursta, sem kveðið er á íslenzku, hvert orð öðru ágætara,; hið seinna er mjög óviðfelldið. 6. Um langa kvæðið er bezt, að sem fæst sje talað. það er ort í gamni og alvöru, og var „ekki vert að láta burt“ eins og faðir Gröndals sagði. Efnið blandað, vit og vitleysa, sumstaðar vel ort eptir bragarhættinum og sumstaðar stórlýti, og kvæðið í stuttu máli ekkert umtalsefni. Jeg skil ekki í að Gröndal, sem hefur svo mart til að láta prenta, sem fallegra er, skuli láta annað eins koma fyrir alþýðu sjónir. 7. „Hrafninn hans Nóa“ er í alla staði vel ort, ný hugsun og vel heimfærð. það fer illa, að skáldið setur ljóðstafi þannig:

Nói sat einn í sinni örk
ekkert var þurrt um víða mörk,

því þess konar fer illa í kveðandi. 9. Æskan er langbezta kvæðið, og eitt hið fegursta, er jeg hefi sjeð um það efni, þess konar kvæði ætti að verða alþýðlegt. Hugmyndum vel haldið, orðfærið fagurt og hátignarlegt, mjer er mikið yndi að því kvæði. 10. Eins konar vísa er enn falleg. þar er lýst þrjótinum, sem einlægt ber bæxlunum, og hirðir ekkert um náttúruna, fegurð skáldskaparins, ástina og guðs heilögu orð, en rær í sífellu, og segir, að ekkert af þessu verði látið í askana. 11. Vorvísan er enn vel ort.

Jeg læt mjer þetta lynda um þessi nýjustu kvæði Gröndals, og óska þess af hjarta, að hann láti koma áframhald, allt eins vel eða betur vandað en þetta; og engin kvæði þar í, sem gjörð eru til að vera tíræð eða tólfálna.

---

# Frjettir.

## Innlendar.

það er ekki svo hægt fyrir mig að skrifa greinlegar innlendar frjettir, því mjer hafa enn ekki borizt nein frjettabrjef, hvorki hjeðan úr sýslu nje frá hinum fjarlægari stöðum, hvort sem því nú veldur, að lítið hefur við borið, er frjettum þykir skipta, eða menn eru ekki enn farnir að skrifa mjer sökum ókunnugleika míns. Hið helzta er jeg man er þetta: Veðráttan það sem af er sumrinu hefur alstaðar, sem jeg hefi til spurt hjer á norðurlandi, verið fremur köld, og hefur það eflaust að nokkru leyti valdið, að ís hefur einlægt legið hjer í norðurhöfunum ekki langt undan landi. Grasvöxtur er því ekki meir en í meðallagi á túnum, og úthagi með snöggasta móti, einkum í Húnavatns- og Skagafjarðarsýslum, svo að ekki lítur vel út með heyskapinn, en það bætir úr, að bæði voru víðast hvar miklar heyfyrningar, og svo getur úthagi enn batnað mikið, ef vel viðrar. Fiskiaflinn hefur verið í bezta lagi víða hjer nyrðra, þó að jeg hafi ekki heyrt enn um hlutahæð. Einkum hefur hákarlsaflinn reynst á fleztum skipum ágæta vel, einkum á þiljuskipum, og ætti það að vera hvöt fyrir efnamenn hjer um svæði að verja efnum sínum til þess að koma upp slíkum skipum. Verzlun hjer fyrir norðan á Eyjafirði og austurkaupstöðunum hefur verið allgoð í samanburði við undan farin ár, en þó lakari en víðast hvar annarstaðar, sem vjer höfum haft spurn af, og kemur það eflaust bæði til af því, að kaupmenn þeir, er hjer eiga verzlun, hafa keypt kornvörur sínar í fyrra lagi, og þær því orðið þeim dýrari, og líka af því, að þeir eru því ver og miður svo að kalla einir um hituna, og geta svo skapað vöruverðið eptir eiginn hugþótta, en landsmenn á hinn bóginn neyddir til að verzla við þá, því örðugt er að sækja lengra burt til annara kaupstaða; enda veldur samtakaleysi manna miklu um, því hver er út af fyrir sig; svo að þeir verða harðast út undan, sem minnstar hafa vörurnar og eru skuldum bundnir, en verzlunarfjelögin geta þó bætt svo um, að minnsta kosti, að eitt gangi yfir alla. Jeg vil ekki í þetta skipti tala meira um verzlun hjer, fyr en jeg hefi fengið áreiðanlegri skýrslur um það, hvernig hún hefur gengið annarstaðar.

Læknirinn vor nýji, Jón Constant Finsen kom hingað til Akureyrar með konu sína snemma í fyrra mánuði, er hann nú seztur hjer að, og býr í húsi læknisins sáluga. Vjer höfum geymt að minnast á komu hans, þangað til vjer heiðum fengið nokkura frjett af því, hvernig lækningar hans þættu takast. Hann hefur þegar sýnt með því

að skera krabbamein úr vör á manni og græða svo aptur, að lýtalaust er, að hann mun vera afbragðsmaður í höndunum. Innvortis sjúkdómar þeir, er hann hefur fengizt við, hafa velflestir verið þess konar langvinnir sjúkdómar, er aðrir hafa verið frá gengnir, og er þá sjaldan von á snöggum bata, en þó hafa allir hermt mjer, að læknisaðferð hans hafi þar einnig gefið góða raun. Allir ljúka upp einum munni, eins og líka má, um ljúfmennsku hans og nærfærni, og það er hvorttveggja, að hann er nýr af nálinni, enda hefur hann varla verið heima nóttu lengur síðan hann kom hingað.

Frjetzt hefur hingað norður bæði með Þjóðólfi og öðrum, er norður hafa komið, að mikið hafi verið um dýrðir í Reykjavík seinast í júní og fyrst í þessum mánuði. Fyrst kom þangað enskur lávarður, frændi hins æðsta ráðgjafa Palmerstons á Englandi, Doufferin að nafni, auðugur maður og hinn höfðinglyndasti; fór hann austur að Geysir og þaðan suður aptur, og var í ráði að hann sigldi vestur fyrir land og hingað norður á fund vorn Norðlendinga, en seinna hefur spurzt, að hann væri sigldur til Englands, og var oss þannig sýnd en ekki gefin gæs. 30. júní kom þar næst til Reykjavíkur Jerome Napoleon, bróðursonur Loðvíks Frakkakeisara, sonur Jerome Napoleons, er áður fyr var konungur á Vestur-Pfalz, bróður Napoleons mikla. Napoleon skoðaði sig fyrst um í Reykjavík, og sýndi af sjer hið mesta örlyndi, og ganga um það miklar sögur í munnmælum, til að mynda, að hann hafi borgað 2 glös af öli, er hann hafi drukkið á gildaskálanum með 30 dölum (!), og annað þvíumlíkt. Síðan fór hann til Geysis og sigldi síðan vestur fyrir land og ætlaði til Grænlands, en sumir segja að hann hafi lent í hafvillum og ísi, og var sent hingað norður til þess að vita, hvort hann væri ekki rekinn hjer neinstaðar að landi, og átti svo að senda hjeðan til Vestfjarða til fyrirspurnar, en á leiðinni frjettist, að hann væri kominn aptur heilu og höldnu til Reykjavíkur.

Hingað er og kominn við land enskur eðalmaður Risk, er Bretastjórn hefur sent hingað til að grennslast eptir um gripdeildir þær, er enskir fiskimenn hafa haft hjer við land einkum í Múlasýslu, og sem hin danska stjórn hefur kvartað yfir. Þess er líka öll þörf, að ráðin sje bót á þessu, því nú hefur fyrir skemmstu frjetzt úr Grímsey, að 5 ensk fiskiskip hafi komið þar við land, og gengu 20 menn á land, og skutu fugl og rændu eggjum og dúni úr æðarvarpi, er þar var komið á, og eyddu þannig varpinu að mestu leyti; og má slíkur skaði metast næstum óbætanlegur, því varpið var í vexti, og þess konar getur, ef til vill, spillt svo fyrir, að fuglinn fælist þaðan algjörlega. Og ættu eyjabúar að meta allan þann skaða, þegar þeir beiðast bótanna, og yfirvöldin og stjórnin að gjöra allt sitt til, að bót ráðist á slíku, og að þeir menn sæti stórsektum, er slíkt að hafast, og leiða svo útlendum mönnum að gjöra oss slíkan óskunda.

## Útlendar.

Jeg átti eptir að segja dálítið frá Danmörku seinast, er jeg skrifaði útlendar frjettir, og bæti jeg því hjer við: Samningur var í gjörð 10. maí næstliðinn milli fulltrúa frá Rússlandi, Svíaríki og Noregi og Danmörku um að nema burt sundtollinn sem lokinn er í Eyrarsundi, Beltissundi og Meðalfararsundi, af skipum þeim, er sigla inn í eða út úr Eystrasalti. Skyldi Danakonungur fá 35 milliónir dala til endurgjalds, og skyldu öll þau ríki, sem hefðu verzlun í Eystrasalti, og sendu þangað skip, greiða endurgjald þetta að rjettum jöfnuði eptir því, er hvert ríki hefði þar mikla verzlun. Skyldi Rússland eptir þeim reikningi gjalda $\frac{27}{100}$ eða hátt á 10. millíón, Svíaríki og Noregur $\frac{6}{100}$ eða rúmlega 2 millíónir, Preussar $\frac{12}{100}$ eða nærjelt hálfa fimmtu millíón, og England, er mesta verzlun hefur þar, eins og víða annarstaðar, skyldi gjalda yfir 10 millíónir, og hin ríkin í Norðurálfu minna eptir tiltölu. Danir skyldu sjálfir semja við hvert ríki um þetta endurgjald, og samningur þessi ekki vera skuldbindandi fyrir Rússa og Svía, nema hin ríkin gengju að því, að greiða endurgjaldið á þenna hátt og eptir þessari tiltölu. Af því nú að Englendingum þótti of mikið koma á sinn hlut, svo að samningur gat ekki gengið saman milli þeirra og Dana, þá varð þessu ekki ráðið til lykta, og stendur enn þar við.

Hermálastjórinn danski, Lüttichau ofursti lagði niður völd sín, og kaus konungur í hans stað Lundby „major“, en lítil áhrif er ætlað, að þessi skipti hafi á aðgjörðir ráðgjafanna eða vinsældir þeirra.

Ekki hefur enn neitt frjétzt um að kornvara lækki í verði utanlands, og í maímánuði, þar sem útlend blöð, sem til mín eru komin, hætta, var verðið á kornvöru heldur að hækka.

---

## Reyniviðarrótin.

Kveðið í Möðrufellshrauni.

(Þessar vísur eru gjörðar um hið sama efni og hið fallega kvæði í 7. ári Nýrra fjelagsrita; en þar eð þær eru byggðar á annari sögusögn, en þar er fylgt, og mjer virðast stökurnar vel ortar, læt jeg þær koma hjer fyrir almennings augu).

Reyniviðar runnur græni
rósin fagra blíð og trú,
innra hrærður augum mæni
á þann stað hvar fyrri þú
stóðst á grundu föstum fótum
fagurlima prýði há,
nægum ástar nærður hótum
náttúrunnar hendi frá.

Gróðursettur guðs af mætti
gullni runnur fyr á tíð
undra verðum varst með hætti,
vær sem fáum skynjað síð.
Hjer um þannig hnígur saga
hermd af mörgum sannleiksvin
eitt sinn lifðu liðna daga
lýða á meðal tvö systkyn.

Hvort vann öðru elsku veita
innst af grunni hjarta ranns,
hvort nam annars lukku leita,
ljúfrar dóttur skaparans;
unz grimmleg freisting geðið slóst um
grátlegt dyggðin þoldi skarð;
saklaus ást í beggja brjóstum
af breiskleikanum sigruð varð.

Dunaði' í eyrum hefndar hljómur
hörmum snortið titrar geð,
skelfilegur dauða dómur
dapur fylgja' á eptir rjeð.
Hvergi meir var hæli að finna,
hingað bæði flúðu því,
og báðu að mætti lífstund linna
lífgjafarans hendi í.

Hjer er sagt þau hafi falizt
hulin nokkurt tíma skeið,
misverknaðar minning kvalizt
megnum trega og sárri neyð;
unz lagði við sitt líknar eyra
lífs og náðar uppsprettan,
þeirra bænar hróp nam heyra,
og hjeðan bæði frelsa vann.

Heli seldra hjartarótum
hrísla spretta náði frá
upp úr dimmum gljúfra gjótum
greinamikil fögur há.
Björgin huldust blöðum grænum
blómi sjerhvert líkast var,
undan vinda blíðum blænum
bognuðu viðar greinirnar.

Nú er burtu horfið hjeðan
háleitasta sveitarblóm.
Hver hefir unnið skaða skeðan?
Skapaði hver svo harðan dóm?
Björgin æpa ber og nakin
buldur rauna og harma kvein;
því burt hafa tímans hriðjur hrakinn
helgra menja bautastein.

**F. D.**

---

## Kossinn.

Saklausan koss jeg kyssti víf,
og koss sem tælir ei,
sem veitir manni margfalt líf,
þá mær ei segir nei,
:,: og þegar þýðust mey :,:
geldur hann aptur unaðsblíðum vörum.

Koss, sem að yfir bjarta brá
skjótt blossa læsir sinn,
og feimna óðum færir á
flugroða meyjar kinn,
:,: og blíðum andar inn :,:
varma hins mjúka vífs að hjartarótum.

Koss, sem mig heimi hrífur úr,
og heims mjer gleymsku ljær,
og þó á dimmur skelli skúr
og skrugga færist nær,
:,: og logi lönd og sær :,:
mjer verða rótt á vörum meyjar lætur.

---

# Mannalát.

Að sunnan hefur frjetzt, að maddama Rannveig Sigurðardóttir, kona aðstoðarprests Stefáns Thorarensens á Hraungerði, sje nýlega önduð á bezta aldri. Því betur sem hver og einn þekkti hana, því meira harmdauða er hún öllum, því hún hafði til að bera alla þá kosti, er kvennmann mega prýða. Gáfurnar voru ágætar, lundernið blítt og ástúðlegt, og geðið stillt og kjarkmikið. Hún var einhver hin hagasta kona á voru landi á allar hannyrðir, kunni afbragðsvel söng og hljóðfæraslátt, og skildi og talaði útlendar tungur.

En þú hin skæra sumarsól,
sem að þó önnur blómin vekur,

því hið blíðasta burt þú tekur,
sem hverjum vorra unað ól?
Þú varst af öfund orðin myrk
og óttaðist skinið hennar bjarta.
Veiztu þá ei að víf mun skarta
þjer fegri' á himni helg og styrk?

---

Slysfarir: Í vor drukknaði í Lagarfljóti Sigurður bóndi Hallsson frá Sleðbrjót; og í hinu sama fljóti drukknaði nýlega vinnumaður Guðmundur Þórarinsson frá Hallfreðarstöðum. Hjer í sýslu drukknaði og fyrir skömmu vinnumaður úr Eyjafirði í Eyjafjarðará.

---

## Veitt brauð:

26. maí næstliðinn var Arnarbæli í Árnessýslu veitt prófasti hjer í Eyjafjarðarsýslu G. E. Johnsen, og nú hefur spurzt, að Möðruvallaklausturbrauð sje aptur veitt sjera Þórði Þórðarsyni á Lundi í Lundareykjadal.

---

Þann 28. júním. næstl. kom umboðsmaður Herra Þ. Daníelson á Skipalóni við Eyafjörð hingað út í Grímsey til þess skoða og yfir líta hana og klausturjarðirnar á henni. Dvaldi hann hjer til þess að klukkan var hjerumbil 5. um daginn eptir; en þó að dvöl þessi hlyti vegna kringumstæðanna að vera í styttra lagi við það sem máske hefði þurft, notaði umboðsmaðurinn hana samt með svo einstaklegri ástundun, að fátt mun það hafa verið, sem snerti atvinnuvegi og annað í þessu byggðarlagi, er hann ekki nákvæmlega hafi gefið gaum að.

Álit hans á eyju þessari og háttalagi innbúa hennar virtist oss sjerdeilis viðfelldið og sanngjarnt, enda ljet hann sjer fljótt skiljast, að atvinnuvegirnir hjer væru mörgum þeim örðugleikum undir orpnir, sem ekki væri við að stríða annarstaðar á landinu; eins og hann líka vildi af alefli stuðla til þess, að á slíku, yrði hið fljótasta ráðin svo góð bót, sem mögulegt væri. Oss var og er hingaðkoma þessa merkismanns því kærari, sem vjer höfum sterka von um, að hólmi vor hljóti eitthvað gott af hans alþekkta framúrskarandi dugnaði og velvild, í því að auka annara heill og hagsæld, sem svo víða annarstaðar hefir komið og kemur að svo góðum notum.

Auk þess sem han leysti skylduverk sitt af hendi með hinni mestu alúð, umbyggju og ljúfmennsku, vottaði hann einnig, örlyndi sitt við fátæka menn hjer með góðgjörðum og gjöfum. Vjer þökkum honum því allir samhuga með ást og virðingu hingaðkomuna og allt ágæti er hann ljet oss í ljósi; og játum hann allir oss hinn velkomnasta gest frv., ef vjer mættum öðlast þá ánægju, að hann heimsækti oss optar.

Grímseyingar.

---

Móðir nokkur kenndi syni sínum eitt kvöld marga nytsama lærdóma, og meðal annars sagði hún, að hann skyldi aldrei fresta því til næsta dags, ér hann gæti lokið við þann daginn, sem yfir stæði.

„Móðir góð“! sagði drengurinn, „við skulum þá í kvöld ljúka við það sem eptir var af kökunni“.

---

# Auglýsingar.



---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. Ágúst. 15.—16.

## Frjettir.

### Útlendar.

(Úr brjefi frá Kaupmannahöfn). Hjeðan eru fá tíðindi þau er nokkru skipti. Veðrátta hefur verið góð, þó fremur óstöðug; eptir því sem enn verður sjeð, lítur þó út fyrir góðan kornvöxt. Rúgur, er var hjerna í sumar fallinn niður í 8 rd., hefur nú stigið aptur upp í 10 rd.

Ríkisþinginu (Rigsraadet) var slitið 2. þ. m. það yrði oflangt að ætla að skýra þjer frá öllu því, sem þar gjörðist, enda hefur þú og í þeim blöðum er jeg seinast sendi þjer frjett allt það er nokkru varðar. Fulltrúar hertogadæmanna þóttu nokkuð þungir á árinni; eru þeir óánægðir með alríkislögin að því leyti sem þau eru orðin til án þess hertogadæmin hafi átt kost á að segja álit sitt um þau, þar sem þau þó á hinn bóginn hafa verið lögð fyrir ríkisdaginn danska. Eins og þjer er kunnugt, er það leyft að mæla hvort sem maður vill á þjóðversku eður dönsku á ríkisþinginu. Einu sinni bar það til, að Andræ, fjárhagsráðgjafinn, mælti á dönsku um eitthvað það, er snerti hertogadæmin; þá var það að Scheel-Plessen, einhver hinn einarðasti og duglegasti þingmaður úr hertogadæmunum lýsti óánægju sinni yfir þessu og sagði þau orð, er Dönum sviðu svo mjög: að danska ekki heyrði til „die europæische Bildung“ (þ. e. menntunar norðurálfu), og Andræ gæti því ekki vonazt eptir, að allir þingmenn skildu það er hann færi með. Scheel-Plessen hefur seinna verið vikið frá embætti sínu, en hann var staðarhöfðingi í Altóna.

Snemma í þessum mánuði var almennur stúdentafundur að Uppsölum. þess konar fundir hafa áður átt sjer stað, og að eins átt að sýna vináttu og gestrisni þjóðanna hverrar við aðra og hafa vísindalegt augnamið; en nú sýnast sumir menn að vilja fara að gefa þeim aðra stefnu, sem verið getur að hjá sumum hverjum einnig hafi legið undir niðri áður. Kandidat Ploug, sem var einn af oddvitum Dana í ferðinni, hjelt langa ræðu í Uppsölum, og lýsti því yfir með berum orðum, hversu það væri æskilegt að öll 3 skandínavisku löndin (þ. e. Danm. Noreg. og Svíþjóð) yrðu sameinuð undir eina stjórn, og eina konungsætt; benti hann á, hvernig ástatt væri hjer í Danmörku, er hin gamla konungs ætt væri þegar á enda; spáði hann því, að alríkið hjer ætti eigi langan aldur í vændum. þessari ræðu var tekið vel í Svíþjóð, og hjer af mótstöðumönnum alríkisins; en óvildarmenn Plougs sögðu að hann hefði boðið Svía konungi Danmörku, og líktu honum við landráðamanninn Corfits Ulfeldt. En þetta lá þó ekki beinlínis í orðum hans. það sýnist að vera mótsögn í því, að menn, sem ota svo mjög fram dönsku þjóðerni, þegar við aðra er að skipta, skuli vera svona bljúgir, þegar um það er að gjöra að koma fram hinum skandínavisku draumum sínum; því það mættu þeir eiga víst, að Danmörk yrði ekki höfuðlandið í því sambandi, það mundu Svíar eigi kæra sig um, og eigi vilja sambandið, nema því að eins, að þeir yrðu aðalþjóðin, og er þá hætt við, að þeim yrði ekki svo mjög annt um að halda óskabarni hinna dönsku þjóðernismanna, Sljesvík. Á heimleiðinni komu norsku stúdentarnir hjer við og voru hjer dag um kyrrt, var þeim vel tekið, og bauð konungur þeim til veizlu út á slot sitt „Eremitagen“, er mælt, að sú veizla hafi verið mjög höfðingleg og ekkert til sparað. Í þeirri veizlu hjelt Ploug einnig ræðu, og þótti hún einnig fremur en ekki skandínavisk. Norðmenn eru víst eigi mjög hrifnir af þessu skandínaviska sambandi; þeir hugsa að eins um að halda frelsi sínu og þjóðerni, og taka framförum í því, sem þeim enn er ábótavant, og kæra sig lítt um þessar glæsilegu skandínavisku hugsjónir Dana.

Hjer hafa nýlega orðið þau ráðgjafaskipti, að „major“ Lundbye er orðinn herstjórnarráðgjafi í stað-

inn fyrir Lüttichau, amtmaður Wolfhagen frá Flensborg er orðinn ráðgjafi fyrir Sljesvík í staðinn fyrir Hall, sem var ráðgjafi til bráðabyrgða eptir Raaslöff; vænta Sljesvíkingar sjer mikils af þessum hinum nýja ráðgjafa sínum, því hann var kunnur að því að hlynna að öllum framförum þeirra meðan hann var amtmaður. Unsgaard, sem var stiptamtmaður á Fjóni, er orðinn innanríkisráðgjafi fyrir konungsríkið Danmörku, en það embætti hafði Bang áður til bráðabyrgða. Justitiarius í hæztarjetti Lowtzow og 2 assessorar í þeim rjetti, Nielsen og Stellwagen, hafa fengið lausn frá embættum sínum; er fullyrt, að konferensráð, próf. juris J. E. Larsen eigi að verða justitiarius.

Óvíst er, hvernig fer milli Dana og Vesturheimsmanna um sundtollinn; þó lítur nú svo út sem allt muni jafna sig, það er mælt að Vesturheimsmenn sjeu ekki fráleitir því að láta samninginn standa enn árlangt óumbreyttan.

Töluverður ágreiningur hefur verið milli Vesturheimsmanna og Englendinga, og hefur ástundum verið spáð, að það mundi eigi geta jafnast á friðsamlegan hátt. Sendiherra Englendinga í Washington Crampton að nafni hefur komið sjer illa við Vesturheimsmenn, mest út úr liðssafnaði Englendinga, sem Vesturheimsmönnum þótti vera moti lögum sínum; þeir heimtuðu því að Englendingar kölluðu hann heim, og er þeir færðust undan því, hafa þeir sjálfir vísað honum burt, og fengið honum leiðarbrjef. Það er annað efni til ágreinings milli Vesturheimsmanna og Englendinga, að Vesturheimsmenn hafa brotið mót samningi við Englendinga, er nefndur er eptir Bulwer og Clyton; eptir samningi þessum átti miðamerika að vera laus við öll afskipti beggja þjóðanna (neutral). Nú hefur ræningjaforingi einn frá Washington, að nafni Walkers með flokki umhleypinga notað sjer af óeyrðum og varnarleysi í ríkinu Nicaragua, og náð þar völdum; og skaut hann sjer undir vernd Vesturheimsmanna, þegar hann sá að hann mundi eigi geta staðizt mót Englendingum, sem eigi vildu samþykkja tiltektir hans. Vesturheimsmenn þar á móti fjellust á allar gjörðir Walkers, og tóku við sendiboða frá honum, og viðurkenna með því stjórn hans, og er það álitið sem byrjun til þess að taka Nicaragua inn í samband Vesturheimsmanna. Englendingar vilja með engu móti stríð, og má vera, að allt geti enn jafnazt.

---

## Innlendar.

Sumartíðin hefur það sem af er slætti verið hin ágætasta um allt norður og austurland. Tún hafa verið sprottin í góðu meðallagi í Húnavatnssýslu, en í minna meðallagi í öllum hinum sýslunum, og vatnsveitingar á tún hafa víða brugðist sökum þess að vatnið fjekkst ekki nóg vegna vorkulda og þurrka, þannig skorti 100 hesta töðu eptir meðalári á Arnheiðarstaðatún í Fljótsdal, er sjaldan er vant að bregðast; en aptur á mót hefur nýting á töðum manna verið hin bezta. Engjar eru alstaðar sársnöggvar, og það eins í hinum mestu heyskaparsveitum, t. a. m. Eyða og Hjaltastaðaþinghám í Múlasýslum og hjer í Eyjafirði. Beztur hefur úthagi verið á Jökuldal eystra og í Bárðardal, þar sem vjer höfum sjeð. Ekki höfum vjer enn fengið neinar skýrslur um hvernig jarðyrkjutilraunir hafa gefizt hjer á norðurlandi, en allmiklar eru þær nú orðnar víða hvar í samanburði við það sem áður hefur verið, og víða höfum vjer sjeð hafragras mikið og fagurt, og eru þeir blettir fagrastir hjer nyrðra og eystra í þessu grasleysisári; þó ætlum vjer, að þeir verði óvíða fullvaxnir, en hafragrasið er þó hið ágætasta fóður, og þó það launi, ef til vill, ekki enn alla fyrirhöfn og kostnað, sem fyrir því er haft, þá er þar þó mjór mikils vísir, og vjer erum þess fulltrúa, að ekkert efli svo fljótt og vel grasvöxtinn eins og að plægja og sá; því þó að hinar útlendu korntegundir geti, ef til vill, ekki orðið fullþroska hjá oss, þá getur þó ekki hjá því farið, að það flýti mjög fyrir því að rækta jörðina til grasvaxtar.

Um verzlun höfum vjer ekki enn fengið glöggar skýrslur. Af Skagaströnd er mjer skrifað almennt vöruverð á kauptíðinni, hvít ull 34, svört 28, mislit 26, tólg 20, rúgur (baunir og mjöl?) 11 rd., bankabygg 13 rd., kaffi og sikur 24 sk. Úr Stykkishólmi hefur frjetzt að hvít ull hafi verið 36 sk. og tólg 22.

Á austurlandi hefur rúgur, baunir og mjöl verið 11 rd. nema nokkru dýrara á Berufirði, kaffi og sikur 25 og 26 sk. nema fjelögin í Fljótsdal og Breiðdal hafa fengið betri kosti. Fljótsdalsfjelagið hefur til að mynda (eptir sögn eins fjelagsmanns) fengið 8 rd. af hundraði í uppbót á öllum íslenzkum vörum, og 5—10 af hundraði afslátt á útlendum vörum, og hefur þannig eptir sögn unnið rúma 400 dali á fjelagskap sínum. Fyrir lýsi hafa þeir eystra að eins fengið 25 rd.

Á Berufirði viðgengst sá ósiður að landsmenn selja fastakaupmanninum lifrina óbrædda fyrir hálfvirði (12½ rd.), af því þeir hafa ekki áhöld til að bræða hana sjálfir, og missa þannig mestallan ábatann, sem þeir geta haft af þessari arðsömu veiði, því þó meira sje í boði hjá lausakaupmönnum, geta landsmenn þó ekki selt þessa vöru sína fyrir hið bezta verð því þá vantar áhöldin til að verka hana, og ílátin til að geyma hana í, og er vonandi að þeir líti svo vel á eiginn hagnað sinn, að þeir kosti kapps um að ráða bót á þessu. Hjer á Eyjafirði hefur hið sama brunnið við. Kaupmenn borga hjer lýsistúnnuna með 26 (27?) dölum, en á Siglufirði og öðrum vesturkaupstöðum með 28 dölum, en Íslendingar hjer hafa þó ekki getað fært sjer þetta vöruverð í nyt, því þeir hafa orðið að fá tunnur hjer í kaupstaðnum með þeim kostum að binda sig við borð að selja þar lýsið, er þeir annars hefðu getað flutt á skipum sínum til þeirra verzlunarstaða, þar sem það var betur borgað. Jeg vona, að Þorsteinn Daníelsson á Skipalóni, umboðsmaður, og aðrir dugandi menn, sem stunda hákarlaveiðar sjái svo fyrir, að þeir geti ráðið bót þessu, með því að fá tunnusmið utanlands frá, er geti smíðað fyrir þá alla í sameiningu, og panta tunnuefnið hjá Norðmönnum sem hjer eru nú, sem mælt er að selji þess konar tunnuefni tilbúin með miklu betra verði en danskir kaupmenn geta selt þau, og efli þannig sinn hag og annara. Landar vorir ættu sem fyrst að læra það, að þeim er einkar áríðandi að beita allri atorku sinni og framsýni til að rjetta þann halla, er óþæg verzlun gjörir og verður einlægt að gjöra, á meðan þeir geta ekki sjálfir átt þátt í henni, og á meðan hjer koma ekki svo margir útlendir, að keppni meðal verzlunarmanna komi þessu í rjett horf. Þeir verða að hugsa um það, að á meðan svona stendur, verðleggja útlendir kaupmenn bæði vorar vörur og sínar, og að vjer hljótum því með fjelögum og öðru samkomulagi að reyna til að koma verðinu í það horf, að hið eðlilega vöruverð fáist, það er að skilja, að vörurnar verða að því skapi borgaðar, sem verð þeirra og eptirsóknin eptir þeim er í öðrum löndum.

Úr Húnavatnssýslu hefur mjer verið skrifað, að gnægð sje þar af kaupafólki að sunnan, og hafi þó nokkuð farið suður aptur, sem hvergi hafi getað fengið vinnu, og að nú fái sumt hana ekki lengur, og ætli að fara að rölta suður aptur, og valdi þessu að miklu leyti grasleysið, og sumpart líka kaupafólksgreinin í Þjóðólfi.

---

(Eptir Þjóðólfi), **Embættispróf** Íslendinga við háskólann í Kaupmannahöfn árið 1856.

Í lögvísi.

Hermanníus Elías. Johnsen (sonur Jóns heitins Johnsens verzlunarstjóra á Skutulsfirði) með 2. aðaleinkunn.

Hannes Finsen (sonur Ólafs sál. yfirdómara Finsens í Reykjavík); með 2. aðaleinkunn.

Tveir landar gengu frá prófi í þessari vísindagrein; en í hinum öðrum vísindagreinum, guðfræði og læknisfræði, hefur enginn Íslendingur gengið undir próf.

**Útskrifaðir** frá hinum lærða skóla í Reykjavík sumarið 1856.

1. Magnús Stephensen (sonur sjera Pjeturs Stephensens á Ólafsvöllum), með 1. aðaleink. (88 tr.)
2. Eiríkur Magnússon (prests Bergssonar á Kirkjubæ í Hróarstúngu), með 1. aðaleink. (81.)
3. Ólafur Johnsen (sonur Hannesar kaupm. Steingrímssonar Johnsens í Reykjavík), með 2. aðaleink. (78 tr.; skorti eina tr. á 1. aðaleink.)
4. Guðjón Hálfdánarson (prófasts Einarssonar á Eyri við Skutulsfjörð); með 2. aðaleink. (70 tr.)
5. Hjörleifur Einarsson (prests Hjörleifssonar á Vallanesi), með 2. aðaleink. (70. tr.)
6. Þorsteinn Þórarinsoon (fyr prófasts Erlendssonar á Hofi í Álptafirði); með 2. aðaleink. (59 tr.)
7. Stefán Stephensen (sonur sjera Stefáns sál. Stephensens á Reynivöllum í Kjós); með 2. aðaleink, (56 tr.)
8. Ísleifur Einarsson (hattara Hákonarsonar í Reykjavík); með 2. aðaleink. (54 tr.)
9. Ólafur Pjetur Finsen (sonur yfirdómara Ólafs sál. Finsens í Reykjavík); með 3. aðaleink. 34 tr.)

---

## Svör stjórnarinnar um vöruskort.

Í tíðindum um stjórnarmálefni Íslands, sem hið íslenzka bókmenntafjelag gefur út, eru tvö brjef 29. janúar og 16. ágúst 1855, sem eru svar upp á umkvartanir, sem íslenzkir embættismenn hafa ritað stjórninni fyrir hönd landsmanna um skort á nauðsynjavörum í kaupstöðunum, og hefur einkum borið á þessu á suðurlandi, enda er það alkunnugt, að suðurkaupstaðirnir hafa opt verið

lakast byrgðir af nauðsynjavörum. — Vjer höfðum nú búizt við, að þegar slíkt ber að hendi, og á meðan að frjálsa verzlunin er ekki búin að sýna hjer ávöxtu sína á þann hátt, að nóg sigling sje til landsins, og því flytjist svo mikið af nauðsynjavörum sem landsmenn þarfnast, að stjórnin mundi taka slíkum áskorunum vel, og álíta það skyldu sína að byrgja landið að nauðsynjavörum, svo að ekki gjörist hallæri fyrir þær sakir, því slíkt getur að borið, þó að vel láti í ári, ef matvörur eru fluttar úr landinu, en ekki nægilegar til landsins aptur; og einkum ætluðum vjer að stjórnin mundi gjöra það sökum þess, að hún gekkst fyrir að senda kornskip til suðurlandsins 1853 (ef oss minnir rjett), án þess vjer vitum til, að hún hafi liðið neinn sjerlegan baga af því, eða varið til þess neinu stórkostlegu fje; og einkum sökum þess, að stiptamtmaður hafði tekið það fram, að kaupmenn hefðu ekki byrgt sig eins og þeir voru vanir að nauðsynjavörum, af því þeir hefðu búizt við mörgum lausakaupmönnum bæði dönskum og frá öðrum þjóðum. En þetta hefur þó ekki gengið eptir. Í hinu fyrra brjefi segir stjórnin: „að nú þegar lögin 15. apríl 1854 um siglingar og verzlun á Íslandi hafi leyft útlendum þjóðum að sigla á allar hafnir á landinu, fljóti af því, að hvorki geti stjórnin eða hinir dönsku kaupmenn haft neina sjerlega skyldu til að annast um vörubyrgðir í landinu framvegis, og biður því stjórnin stiptamtmanninn (eða amtmennina) að láta menn í sínu umdæmi vita, að þeir verði sjálfir að hafa fyrirhyggju fyrir því að byrgja sig með alls konar nauðsynjavörur, og þeir megi ekki vænta neinnar sjerlegrar hjálpar frá stjórninni í því efni"; og um leið og hún skírskotar til þessa brjefs segir hún í hinu síðara, „að hún einkum ekki nú, þegar öllum þjóðum sje leyfð sigling til Íslands, geti tekið sjer á herðar ábyrgð þá, að verja nokkru fje til að byrgja Ísland að nauðsynjavörum, heldur verði landsmenn að annast það sjálfir fyrir milligöngu kaupmanna, og hafi stjórnin því ekki getað gjört annað að verkum, en að sjá um, að efnið í brjefi stiptamtmannsins yrði heyrum kunnugt, til þess að vekja athygli kaupmanna á þessu máli".

Þegar vjer gætum að, hversu ung verzlunarlögin eru, og hve ólíklegt er, að breytingin, sem þau að líkindum gjöra, komi snögglega, þar eð útlendar þjóðir munu þurfa að átta sig vel á markaði hjer, áður en þær taka að sigla hingað svo um muni, virðist oss margt athugavert í brjefum þessum. Oss furðar fyrst á því, að hinir dönsku kaupmenn, sem þó gátu nokkurn veginn vitað, hve mikil sigling mundi koma til landsins, skuli hafa minnkað nokkuð töluvert aðflutninga sína á matvöru af ótta fyrir mikilli aðsókn, enda mun það varla með öllu rjett hermt, og aðflutningarnir víðast hvar hafa verið eins miklir og áður, hvað sem kann að hafa verið fyrir sunnan.

Þó að oss í öðru lagi virðist það rjett og eðlilegt, að hinir dönsku kaupmenn hafi nú ekki lengur neina sjerlega skyldu til að annast um vörubyrgðir í landinu, eða fæða oss Íslendinga, eins og sumir kalla það, þá getum vjer ekki í því efni fallizt á að binda þá og dönsku stjórnina á eitt band, þó að stjórnin gjöri það í brjefi sínu, því oss virðast skyldur hennar og kaupmanna við landið all-ólíkar. Oss virðast skyldur stjórnarinnar enn hinar sömu í þessu efni og þær voru, áður en verzlunarlögin 15. apríl 1854 voru gefin, og hún geti ekki kastað skyldum þessum af herðum sjer, þó að hinir dönsku sambegnar vorir hafi ekki lengur lögboðinn hagnað á verzluninni við oss, og fleiri sjeu komnir eða megi koma til að verzla hjer við land. Í öðru eins landi og Íslandi, sem liggur svo fjærri öðrum löndum, og þar sem verzlunarviðskiptin eru svo óviss að þau geta ekki verið nema nokkurn hlut ársins, álítum vjer það sjálfsagða skyldu hverrar stjórnar, þegar brýn nauðsyn ber til, og líf og björgun þegnanna í landinu er komin undir því, að hlaupa undir bagga með að bæta úr slíkum vankostum; en á hinn bóginn virðist oss sanngjarnt, að þeir hlutir landsins, sem slíks við þurfa endurgjaldi henni kostnað þann, sem af því leiðir, annaðhvort að nokkru eða öllu leyti. Oss virðist því sjálfsagt, að embættismenn vorir láti þessi brjef ekki fæla sig frá því, þegar þörf gjörist, að knýja á náðardyr stjórnarinnar í þessu efni, og vjer vonum þess af rjettlætistilfinningu hennar, að hún veiti þess konar áskorunum bænheyrslu.

---

(Aðsent)

## Það er ekki allt gull sem glóir!

Í Þjóðólfi 31. maí sendir landlæknirinn „homöopöthunum" hjer fyrir norðan kveðju sína, og sannast þar: „Kemur hver svo til dyra, sem hann er klæddur." Hefði það ekki verið landlæknirinn, sem mælt er að komizt hafi svo auðvelt að nafnbótinni í Kíl um árið, sem búinn er að vinna Danmörku svo ómetanlegt gagn um allar ókomnar aldir með

100,000 dala lífsins vatni, og kominn er nú þaðan með svo mikilli vegsemd; sem enginn af oss veit, hversu víða búinn er að fara um eins og doktor í læknis- og eðlisfræðinni, og enn síður hve margar stútfullar flöskur nú á í vitum sínum af heilsusamlegasta hvera og laugavatni o. s. frv., þá hefði einhver klanpið svo hraparlega á sig að segja um greinina í Þjóðólfi um „homöopathana“: Meðan „Ali jarl“ hefur ekki náð „eyrunum“ er allt „gott og blessað.“ — Þegar við lesum nafnið undir greininni, ógnar jafnvel oss ómenntuðu bændunum hjerna fyrir norðan, að stjórnin skyldi senda oss Íslendingum landlæknir, sem ekki væri meiri fyrir sjer en þessi, sem auðsjáanlega ber svo lítið skyn á „homöopathíuna“ — er hann veit þó það um að eldri sje en 60 ára —, að hann dæmir meðöl hennar „kraptalaus og einskis nýt“, þar sem bæði sjón og reynzla vor hjer í Eyjafjarðar, Þingeyjar og Múlasýslum, sem ekki erum svo sælir að njóta hinnar víðfrægu lækningaheppni og hjálparfýsi hans, sannar hið gagnstæða ofan í hann, og að hann komi til dyra í málefni þessu, annaðhvort sem hrekkvís, eða fávís, eða hvorttveggja. Hann veit ekki svo mikið, að því er sýnist, landlæknirinn sjálfur, og biður uppfræðingar um það berhöfðaður — er það ekki grátlegt? — hvort „hömöopathían“ sje kennd við nokkra háskóla í Norðurálfunni? Vjer bændurnir verðum þá að benda honum á háskólana í Vínarborg og Prag, og um leið á það, að stjórnin í Austurríki hefur þannig viðurkennt og ákveðið „homöopathíunni“ jöfn rjettindi á borð við „allopathíuna“; og er þetta því eptirtektaverðara, sem Vínarborg hefur verið kölluð eitt hið helzti heimili læknafræðinnar og enda líka Prag. Vjer getum sagt honum meira. Vjer getum nefnt honum á nafn marga doktora í „homöopathíu“ við konunglegar, furstalegar og hertogalegar lækningastofnanir í ýmsum löndum. Vjer getum frætt hann um að meira en 2000 læknar, lærðir doktorar, iðka „homöopathíuna“ opinberlega og hafa meztu aðsókn; að margar stærstu borgir í Norðurálfunni eiga sjer lækna í „homöopathíunni„ Vínarborg t. d. 40, en Parísarborg 50, Vjer getum sagt honum að í Þjóðverjalandi koma út 6 tímarit í „homöopathíu“, 5 í Frakklandi, 2 í Englandi, 1 í Ítalíu, 3 á Spáni, 2 í Norðurameriku og 1 í Brasilíu. Svona var þetta 1848, og hefur þó mjög farið fram síðan bæði í Englandi og Norðurameriku. Það má heyra að landlæknirinn hefur „þefað“ af níðritum „allopatha“ um homöopathíuna, og tínt úr þeim ósannan þvætting í grein sína, og borið þetta á borð fyrir elskulega landa sína eins og inntökuskamt til lærdóms, huggunar og viðvörunar („Hjaltalín kærir sig kollóttan“). Hann reynir að telja þeim trú um það með þess konar sögum, hvernig „allopathar“ í París og víðar hafi áfellt „homöopathíuna“; en hann laumar undan hinum opinberu ummælum hins nafnfræga dr. Steens um Andral þann, sem landlæknirinn vitnar til „að tilraunir hans með homöopathíuna hafi verið svo auðvirðilegar og marklausar, að hver viðvaningur í „homöopathíu“ mætti skammast sín fyrir þær.

Hann veit ekki svo mikið, að margir frægustu læknar hafa snúið sjer, samvizkunnar vegna, gjörsamlega frá „allopathíunni“ og að „homöopathíunni“; og ekki hvað þeir vitna, hverju þeir koma upp um „allopathíuna“. Hann veit ekki, veslingur, að homöopathían er allt af að breiða út sigurveldi sitt meir og meir hjá öllum siðuðum þjóðum gegn allri fyrirstöðu og áfellisdómi „allopathanna“, og ekki það, að árið 1854 hófust 3 stórfjelög lækna í homöopathíu, eitt í München í Bæaralandi, annað í Madrid á Spáni og hið þriðja í „Philadelphíu„ í Norðurameriku. Hann veit ekki, að hversu vel sem honum hefur gengið að fá doktorsnafnbótina í Kh. er honum alls ekki innanhandar að læra homöopathíuna“ á nokkrum mánuðum, og enn veit hann ekki svo mikið, þótt hann hafi heyrt „að innan um meðöl hennar fyndust verstu eiturtegundir“, að þær eru svo þynntar (það er að skilja: sál þeirra leyst svo vel frá eitureðli þeirra) að homöopatharnir hafa að minnsta kosti trillíón til decillíón sinnum minna af einu grani þeirra í meðölum sínum en „allopatharnir“; og þó hann komi með alla sína efnafræði, sem hann kallar grundvöll allrar meðalafræði, mun hann trautt maður til að sanna, af hverju efni 2 eða 3 meðöl „homöopathíunnar“ sjeu til búin, auk heldur fleiri. Og enn fer hann með þau ósannindi að homöopatharnir láti ófróða efnafræðinga búa meðölin upp í hendurnar á sjer, en væri það ekki saklaust, ef þau eru „kraptalaus og einskis nýt“? Samt getum vjer sannað hitt að þau homöopatha meðöl, sem hingað koma til norðurlands, eru til búin og fengin hjá þeim doktorum í læknisfræði á Þjóðverjalandi, sem dr. Hjaltalín er — að ætlun vorri — eins og barn á móti bæði í efna- og læknisfræði.

Þó kastar tólfunum með digurmæli herra landlæknisins, er hann dembir fram þeirri óttalegu spurningu: „Hvort eigi væri bezt að reyna, hvað fljótir okkar íslenzku „homöopathar“ yrðu að lækna holdsveikina og lifrarbólguna“? Heyrið þjer nú Nesjamenn og Þingvallasveitarbúar! Þjer þurfið nú ekki annað enn fara með þessi veikindi yðar til landlæknisins! „Þetta er nu allt saman gott og fróðlegt!“ Og þú Þjóðólfur sæll, gleymdu ekki að segja frá hinum „hreinu sem aptur snúa!“. Ellegar ætli honum gangi ekki betur að lækna lifrarbólguna sjálfum en „allopöthunum“ hans kóleru, sem vjer höfum sjeð opinberar skýrslur um á þá leið, að þegar 40 til 60 hafa dáið af 100 kólerusjúklingum undir hendi frægustu „allopatha“ hafa að eins 5 til 10 dáið af 100 kólerusjúkum hjá „homöopöthunum“? Alþýða, hvernig lízt þjer á það? En hvað, um þetta, erum vjer hræddir um, að hann og „allopatharnir standi á baki „homöopathanna“ í því að lækna barnaveikina, ellegar Þjóðólfur hefur farið með ósannindi, er hann sagði okkur í vetur að 3 blessuð börnin hefðu dáið úr barnaveikinni þarna rjett undir handarjaðrinum á landlækninum. „Þetta er nú allt gott og fróðlegt“? Ætli það verði ekki bezt að sjá, hversu fljótur hann, vor íslenzki „allopath“, verði að lækna barnaveikina, þegar hún fer að ganga næst, sem ekki mun vera langt eptir að bíða. Enn er það eitt af ósannindum hans, að homöopatharnir hafi engu áorkað við hundafárinu í vetur, því þeim tókst þó að bjarga mörgum rakka. En hvað tókst honum að bjarga þeim mörgum? Og leyfilegt mun vera að spyrja, hvort sú saga sje sönn, að hann hafi komið í smiðju í vetur til Teits dýralæknis, af því hann hafi ekkert ráð vitað sjálfur við hundafárinu og spurt hann ráða, en Teitur hafi svarað, að það mundi vera bezt að gefa þeim „glaubersalt“ og „Jod“; og hafi hinn þá sagt: Æ, vertu nú ekki að d.. þeim arna, elskan mín! Það er ólíklegt að sagan sje sönn, því hann „skauzt“ þó einu sinni út úr einhverjum dýralækningaskóla „eins og Mínerva úr höfði Júppíters“

og reit undir eins merkilega dýralækningabók, sem við hann er kennd síðan.

Vjer viljum nú ráðleggja honum að hreifa ekki meir hatri sínu eða fávísi um homöopathíuna, eða reyna framar til að hrinda henni úr landi með drjúgyrðum einum staðlausum, heldur þá með drjúgari lækningum, því hún er þegar búin að ná þeim rótum, sem meira afl þarf en hans til að slíta; og meiri læknir en hann, sem vjer áræðum að nefna læknir Gísla Hjálmarsson, hefur betur reynt meðöl hennar en hann og Andral, og notar þau með heppni að minnsta kosti með fram

En lifrarveiki af hatri gegn homöophátíunni er banvæn sýki, sem hvorki „glaubersalt" nje „jod" dugir við, og úr henni hefur þegar margur „allopathinn" sálast á 60 ára tímanum næstliðna, sem kallar nú eins og af gröf sinni viðlíka og Gamalíel mælti forðum: Sje „homöopathían" af mönnum mun hún falla af sjálfu sjer, en sje hún af drottni, fáið þjer eigi veitt henni mótstöðu, og svo viturlega mælti landlæknirinn sálugi um hana.

Fáeinir bændur fyrir norðan.

---

Auk þess, að landlæknirinn reyndi með ritgjörð sinni í Þjóðólfi, sem bændurnir hafa svarað hjer að framan, að veikja álit alþýðu á meðlæknum (Homöopather) og lækningaaðferð þeirra, neytti hann einnig embættisvalds síns til að rita amtmanni vorum 2 brjef þess efnis, að amtmaður skærist í leikinn með sjer, bannaði allar meðlækningar, en gjörði meðölin upptæk; slíkt hið sama mun hann einnig hafa skrifað sýslumönnum hjer í sýslum.

Amtmaðurinn hafði nú fulla ástæðu til þess að vera ekki of fljótráður í því að gegna þessari áskorun landlæknisins, því stjórnin hafði í brjefi til hans 29. maí í fyrra [1] verið honum samdóma í því, að þó að menn, sem ekki hefðu rjett til að gegna læknastörfum, fengist við þessa lækningaaðferð, mundu þeir þó ekki verða sakfelldir framar en aðrir skottulæknar, þó að mál væri höfðað móti þeim, nema sannað yrði, að þeir hefðu borið sig stórlega rangt að; og þótti því stjórninni ekki ástæða til að gjöra neitt í því efni. Amtmaður Havstein bar þess vegna umkvartanir landlæknisins undir stjórnina og beiddist úrskurðar hennar um hvað hann skyldi að gjöra. Svar stjórnarinnar var hjerumbil svo hljóðandi: „að þar eð ekkert víst tilfelli sje nefnt á nafn, þar sem illt hafi leitt af meðlækningunum, eður þær reynzt lífi og heilbrigði neins manns hættulegar, þyki stjórninni ekki hafa verið nægilegt tilefni til að hefja málsókn gegn hlutaðeigandi meðlæknum, eins og ekki sje heldur ástæða til að gjöra meðöl þau upptæk, er þeir hafa undir höndum, nema rannsókn á þeim sje áður gjörð. En þar eð menn þessir hefðu ekki lært læknisfræði og hefðu enga heimild til lækninga, væri að vísu tilefni til að hafa gát á lækningum þeirra, að svo miklu leyti sem orðið gæti, og að láta rannsaka læknisdóma þeirra, og kvaðst stjórnin því hafa skrifað dr. Hjaltalín, að ferðast til norðurlands, ef hann fengi því við komið, til þess að gjöra sjálfur þessa rannsókn, eða í annan stað láta hlutaðeigandi hjeraðslækni gjöra hana".

Fyrir mitt leyti virðist mjer öll þessi keppni dr. Hjaltalíns að eyða meðlækningum eða öðrum aukalækningum hjer á landi óþörf og ótímabær. Á meðan að læknaskipun er svo háttað hjá oss, að læknar eru svo fáir, og hafa svo stóra sýslu til yfirferðar, að þeir geta ekki, hversu duglegir menn sem þeir eru, gegnt þörfum allra, ekki einu sinni á þeim tímum, þegar engin sóttarferli ganga, verða þeir að hlífast við að ofsækja þá menn, er þó opt hafa hjálpað og hjálpa svo mörgum manni. Dr. Hjaltalín ætti heldur að leggja kapp á að ýta undir læknaskipunarmálið, sem nú er búið árangurslaust að liggja í grautargerð hjá stjórnarráðunum alla stund síðan dr. Schleisner ferðaðist hjer. Það er fyrst að vonast eptir því, að meðlækningar og aðrar aukalækningar minnki til muna, þegar læknar eru orðnir svo margir, að flestir ná til þeirra á stuttum tíma, því von er, að menn leiti hjálparinnar þar sem hún fyrst færst, þegar líf og heilsa er í veði.

Sv. Sk.

---

## Um uppeldi barna

(að mestu tekið eptir ensku).

Sú raun hefur ætíð orðið í töflum þeim, sem gjörðar eru á hverju ári um það, hve margir fæðast og deyja, að það er ætíð meira enn helmingur allra sem deyja börn 10 ára og yngri, og í „Skýrslum um landhag" þ. á. segir: að 1853 hafi dáið á Íslandi 556 börn á fyrsta ári eða 46,„ af hverjum hundrað börnum, sem fæðast, og 1854 hafi dáið 629 börn á sama aldri eða 41,„ af hverju hundraði, og skortir þannig ekki mikið á, að helmingur allra barna sem fæðast hafi dáið undir eins á fyrsta ári. Þessi mikli barnadauði hlýtur vafalaust að koma af einhverri rangri meðferð á börnunum og þekkingar skorti á því, hvernig hentast er að fara með börnin. Auk barnadauðans leiðir af þessum þekkingarskorti, að þeir, sem lifa, hafa, sökum þessarar röngu meðferðar, fengið ýmislega heilsubresti og veikleika, sem ólæknandi eru; lunderni þeirra spillist og þeir venjast á

[1]) Sbr. Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands, gefin út af hinu ísl. bókmf. II. hepti 1856.

ýmsa ósiðu undir eins á æskuskeiði. Þó að frá upphafi geti verið meðfæddur munur á skaplyndi barnanna, þá er það þó sannað, að margir brestir og lestir mannanna eru sprottnir af óskynsamlegri uppeldisaðferð. Þar eð það liggur í augum uppi, að vanþekking er undirrót þessa óttalega manntjóns, ætlum vjer að bera hjer fram nokkrar stuttar og skiljanlegar reglur handa mæðrum og barnfóstrum um rjetta meðferð á börnum, sem þær eigi að ala upp.

## 1. Um heilbrigði líkamans og fæði.

Hið fyrsta, sem um er að hugsa til að vernda líf barnsins, er að gefa því krapta til að vaxa og þroskast, og að láta lífsöflin hjá því geta unnið verk sitt tálmunarlaust. Ýmisleg áhrif á móðurina um meðgöngutímann geta reyndar gjört barnið óhraust og jafnvel spillt skapferli þess, og ætti því móðirin, sem væntir sjer afkvæmis, allan þenna hættulega tíma að varast sem mest alla sorg og áhyggjusemi, ekki þreyta sig um of á vinnu, og sneiða hjá hvers konar óhófi; ekki skal hún heldur leita sjer neins bílífis meira en hún er vön. Hið einasta sem á ríður er að hún hafi einfalda og nærandi fæðu, mátulega hreifingu utanhúss og innan og geti verið með glöðu skapi. Það eru til margar gamlar og fremur óljósar reglur um það, hvernig fyrst skuli fæða barnið og koma því á brjóst. Bezta reglan er að leggja barnið undir eins á brjóst og það vill sjúga, og móðirin er fær um það. Það er samkvæmt lögum náttúrunnar, að móðirin ali sitt eigið afkvæmi, og það styrkir ástarsamband það, sem vera á milli móður og barns. Undir eins skal venja barnið á að sjúga og nærast á vissum tímum, þó að stundum geti staðið svo á, að út af því verði að bregða. Fyrsta mánuðinn skal gefa því að sjúga einu sinni á hverjum tveim stundum, og seinna þriðju og fjórðu hverja stund. Verma skal brjóstið með volgu vatni, ef mjólkin vill ekki renna, en forðast skal að núa það með áfengum drykkjum. Ef mjólkin er of mikil, skal konan drekka lítið og taka inn hreinsandi meðöl. Fötin um brjóst og bringu hennar skulu vera laus og liðug.

Kona, sem hefur barn á brjósti, skal hafa nærandi mat en ekki þungan. Kona sem er feitlagin þarf minni fæðu en sú, sem hefur grennra vaxtarlag. Brjóstamjólkin verður optast mest og hollust, þegar móðirin hefur einfaldan mat og þynnandi drykk, t. a. m. tevatn, brauð bleytt í vatni og hafrasaup. Engan áfengan drykk eða neinn annan örfandi drykk skyldi móðirin bragða nema að læknisráði.

Sökum þess að meltingarverkfæri barnsins eru löguð fyrir mjólk, skal því ekki nein önnur fæða gefin, nema ef móðurmjólkina er ekki að fá. Ef bryn nauðsyn ber til að ala barnið upp á spónamat, skal fæða það á þunnu seyði af velsoðnu stórmöluðu mjöli, og bæta það með dálitlu sikri. Ef barnið er látið sjúga úr flösku, skal halda henni vel hreinni. Hvað lítið sem fæðan súrnar spillir það heilsu barnsins.

Venja má barnið af brjósti þegar það er 6 til 9 mánaða gamalt, og fer það eptir heilsu móðurinnar og barnsins og hver tími árs er; ef barnið fer snemma að taka tennur, getur það einnig flýtt fyrir, að barnið sje af vanið. Ekki skal venja barn af brjósti í köldu veðri.

Á hvaða aldri og hvaða tíma sem tekið er að venja barnið af brjósti skal það gjört smámsaman. Fyrst skal gefa því mjölseyði það er áður var nefnt, þar næst mjúkan graut úr smámuldu gamalbökuðu brauði eða tvíbökum og vatni með dálitlu sikri. Þess ber að gæta, að sikrið súrnar í maganum, og verður því að hafa lítið eitt af því.

Fyrsta breytingin á viðurværinu kemur stundum óreglu á meltinguna. Skal þá gjöra tilraunina í tvo eða þrjá daga. Og ef ekki kemst lag á meltinguna, má reyna seyði af kálfskjöti eða hænsna-ungum, eða soð af öðru kjöti, en taka flotið fyrst ofan af, og blanda saman við seyðið meirsoðnum hrísgrjónum. Það, sem mest liggur á, er að byrja smátt og smátt, og gefa barninu lítið eitt af hinni þykkari fæðu einu sinni í sólarhring, og fyrir miðdegisbil, svo sjá megi hvaða áhrif hún gjörir, og það spilli ekki næturværð barnsins. Fæða barnsins ætti ætíð að vera hjerumbil eins volg og mjólkin, þegar hún kemur úr brjóstinu.

Þegar barnið er matað, er það alltítt, að barnfóstran lætur hvern spón upp í sig til að vita hvað heitur maturinn sje, og er þetta bæði ljótur vani og óþarfur. Þegar búið er að næra barnið, skal reisa það á fætur, því þá á það hægra með að losast við vind þann, er venjulega kemur í magann meðan etið er. Ef barninu er gjarnt til að fá uppþembu, má gæta þess vandlega, því þegar vindurinn nær að safnast fyrir, veldur það andarteppu, og ef hún kemur að í svefni, getur hún valdið dauða barnsins, og hún er jafnvel hættuleg, þó barnið sje vakandi, því, ef hún kemur að, getur barnið ekki hljóðað, og ekki dregið andann á meðan.

Ofmikil og óhentug fæða er aðaltilefni til veikinda barnanna. Fyrstu vikurnar af lífinu kenna börnin einungis líkamlegra meinsemda. Þau kvíða engu, þeim bregðst ekkert, þau eru laus við von og ótta, en því miður eru allar sorgir þeirra, kvein og reiði kennt sulti, og þeim er gefin næring sem meðal við öllum meinsemdum þeirra. Þessu er haldið áfram, þangað til barnið er komið á þann aldur, að það getur skilið og trúað því, að það að eta og drekka sje hin mesta sæla og hin mestu gæði. Það er auðvitað, að það er hægust aðferðin til að stilla hljóð barnsins að fylla munninn, einkum á meðan að skilningarvitin eru ekki orðin svo fullkomin, að barnið hafi yndi af að taka eptir, og að þá er ekki um margt að velja; þó má breyta til með barnið, losa fötin um það, og láta fætur og lærin öldungis laus, verma fæturna, leggja barnið þvers um knje fóstrunnar og hreifa þau til beggja hliða hægt og hægt, leggja barnið að brjóstinu og ganga um gólf með það, og eru þetta allt ráð, er hæglega má grípa til og sem opt hafa hinn eptiræskta árangur.

Sumar mæður og barnfóstrur reyna til að spara sjer þá fyrirhöfn, að hugga börnin eða svæfa þau, með því að gefa þeim sætindi, og er það mjög skaðsamlegt og öldungis ógjörandi, og vörum vjer foreldra og fóstrur við slíkum hættulegum óvana. Þegar börnunum er gefið slíkt, skemmir það hinn veika maga þeirra, og þó að það svæfi og friði þau um stundarsakir, veikir það mjög heilsu barnsins, og getur jafnvel á stuttum tíma valdið dauða þess.

Nokkra mánuði eptir fæðinguna, nærist barnið og sefur til skiptis, ef að það er heilbrigt, og dagurinn líður hjerumbil fyrir því eins og nú skal sagt: Setjum svo að það vakni einni stundu eptir miðjan morgun, þá er það lagt á brjóst; þegar búið er að þvo það og klæða sígur það aptur, og sefur þá lengi til hádegis, þá fær það sjer

aptur hressingu, og ef heitt er í veðri, er það borið út. Svo sefur það venjulega eptir að það hefur verið undir berum himni, og opt er nón komið fyr en það aptur biður um brjóstið. Eptir þetta, og þangað til það er afklætt ætti ekki að svæfa barnið, en halda því þó ekki vakandi, ef það er mjög syfjað. það er gott að venja barnið á að sofa alla nóttina. Um miðaptan er farið að búa um barnið, og þegar það er afklætt og þvegið, þreytist það venjulega, svo að líklegt er það sofni, þegar það er búið að sjúga, og sofi þá nokkrar stundir. það er gott að venja barnið á að sjúga rjett áður en móðirin háttar, og það gjörir það jafnvel þó það sje sofandi. Ef að það vaknar, skal lofa því að rjetta úr sjer, strjúka fætur þess, læri og lendar til að liðka það og hressa, og búa það undir annan langan dúr. Milli þessa tíma og þangað til eptir miðjan morgun mun það vakna aptur einu sinni eða tvisvar og biðja næringar.

## Um svefninn.

það er mjög æskilegt, til þess að móðirin hafi meira næði, að barnið sofni án þess þurfi að vagga því eða sussa yfir því, og að það sofi í rúmi en ekki í vöggu. það ætti að venja barnið á þetta að svo miklu leyti sem verður. Til þess að það sofni og fari þegjandi í rúmið ríður einkum á að því sje heitt. Gæt þess vegna, áður en barnið er lagt út af, að andlit þess, hendur og fætur sjeu notalega heitar, að ekki sje holt neinstaðar undir því, og að allir limirnir liggi ókrepptir, og höfuð og herðar rísi dálítið hærra upp á koddann, er skal hallast aflíðandi ofan að sænginni. Ullarrekkjuvoðir eru betri en úr líni. Svo skal breiða ofan á, að barnið geti vel andað, en andlitinu sje þó haldið heitu. Betra er að taka barnið ekki upp undir eins og það vaknar (einkum ef það hefur ekki sofið lengi), eða ef að það hljóðar, þegar búið er að leggja það út af; reyna skal fyrst að breyta um legu þess og hnyssa að því, og ef það bregðst, verður að taka það upp og hugga það í faðminum. það kann líka að þurfa að breyta um föt eða sængurklæði, og í stuttu máli þarf í þessu efni að halda á þolinmæði, eiru og hugviti til að finna það, er barninu hagar, án þess að koma því á neinar óvenjur, (Framhaldið síðar).

---

Jeg hefi orðið þess var úr mörgum áttum, að mönnum hefur ekki fallið sú ályktun, er gjörð var á almennum prentsmiðjufundi 17 júní þ. á. (sbr. Norðra numer 12), að biðja amtmann Havstein að sjá svo um, að málskostnaðinum í prentsmiðjumálinu, og því er þarf til lúkningar á hinum leigulausu lánum, er prentsmiðjan fjekk, þegar hún var stofnuð, verði jafnað niður með því að leggja 1 skilding á hvert lausafjárhundrað í amtinu. þó að mjer nú ekki geti sýnzt nein önnur aðferð betri og ljettbærari fyrir amtsbúa, ef að þeir á annað borð vilja hlynna nokkuð að þessari ungu stofnun sinni, þá vil jeg þó heldur skora á þá, er vilja prentsmiðjunni vel, að þeir gangist fyrir að útvega prentsmiðjunni fjestyrk með frjálsum fjegjöfum, svo að ekki þurfi að halda á þessari niðurjöfnun. Ef að Norðlendingar eiga að geta gjört sjer nokkra von um að koma að nýju á fót stofnunum þeim, sem þeir eru búnir að missa, þá mega þeir ekki sýna það óstöðuglyndi, að þeir styðji ekki prentsmiðjuna, því hún getur þó bezt hjálpað þeim mönnum, sem vilja berjast fyrir slíku. Sv. Sk.

---

# Auglýsingar.

Frá næsta nýári hefi jeg í hyggju að stækka blaðið Norðra svo að hann verði 18 arkir að stærð, og kosti einn ríkisdal. það sem einkum hvetur mig til þessa, auk þess að margir hafa mælzt til þess, er það, að þegar blaðið er svo lítið eins og það nú er, ekki nema 12 arkir, er ekki rúm fyrir meira í blaðinu en allranauðsynlegustu frjettir og örstuttar ritgjörðir, en mörg þau málefni fyrir hendi í vetur og að vori, er ekki verður skrifað svo allskammt um t. a. m. alþíngismálin, póstgöngumálefnið o. fl. Líka hefði jeg viljað segja álit mitt um bækur, sem út eru gefnar, en þess konar tekur ofmikið rúm í svo litlu blaði. þegar blaðið er þannig stækkað, get jeg líka á milli boðið lesendum mínum góðar og gagnlegar skemmtisögur, eins og flest blöð gjöra. Af því að jeg er vongóður um að kaupendur blaðsins fjölgi, einkum frá byrjun næsta árs, vildi jeg biðja hina háttvirtu útsölumenn blaðsins, að láta mig nákvæmlega vita fyrir árslokin til hverra manna þau blöð ganga, sem jeg sendi þeim, hvað kaupendur heita, hvar og í hverri sveit þeir búa, og hvort útsölumenn geti annaðhvort nú þegar, eða frá nýári næstkomanda selt fleiri exx., svo að jeg geti hagað mjer eptir því með stærð upplagsins. En fremur vil jeg biðja útsölumennina að láta mig vita, hvort öll blöðin koma til skila, og hver blöðin vanta, ef nokkuð vantar, og skal jeg þá reyna til að ráða bót á því, að svo miklu leyti sem jeg get.

Að endingu ányja jeg þá bæn mína, að kaupendur greiði andvirði blaðsins svo tímanlega, að jeg geti fengið það innan ársloka, samkvæmt því er jeg beiddist í auglýsingunni í janúarblaðinu.

Sv. Sk.

Nú er þegar búið að prenta hjer í prentsmiðjunni nýja **Lestrarbók** danska á 10 örkum; og fæst hún til kaups í næsta mánuði fyrir 64 skildinga materían.

Akureyri 25. ágústm. 1856.

Svb. Hallgrímson.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlasen.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

1856.

4. ár. September. 17.—18.

Með skipinu Herthu, sem kom hingað frá Kaupmannahöfn kvöld hins 9. þessa mánaðar, barst oss í hendur frumvarp, er nokkrir hinna helztu og lærðustu samþegna vorra í Danmörku hafa samið um að stofna kirkjuþing, og hljóðar þannig:

1. gr. Kirkjuþing skal stofna fyrir þjóðkirkjuna

2. gr. Á kirkjuþinginu skulu vera: Hinir 7 byskupar úr byskupsdæmunum í konungsríkinu, og byskupinn á Íslandi, 2 af háskólakennurunum í guðfræði og 1 háskólakennari í lögfræði — og skal konungur eða (háskólakennararnir) kjósa þá —, 18 þingmenn, er klerkar kjósa og 26, er sóknirnar kjósa. þingmenn skulu kosnir til 6 ára, þó skal helmingur þeirra í fyrsta skipti ganga úr þinginu eptir 3 ár, og skal þá kosið á ný. Síðan skal helmingur ganga úr þinginu 3. hvert ár.

Aths. Ef að konungi sýnist, að fulltrúar úr öðrum þeim hlutum ríkisins, er liggja undir hina andlegu stjórn konungsríkisins, eigi að hafa setu á kirkjuþinginu, má setja ákvarðanir þær, er til þess þurfa, í lagaboðið.

3. gr. Enga breytingu má gjöra í hinum almennu ákvörðunum um ástand og málefni kirkunnar, nema hún sje áður borin undir álit kirkjuþingsins, hvort sem ákvarðanir þessar snerta stjórn kirkjunnar eða lög hennar.

4. gr. Allir prestvígðir menn, sem embætti hafa á hendi, hafa rjett til að taka þátt í kosningu kirkjuþingsmanna þeirra, er andlegrar stjettar menn skulu kjósa. Hver maður, sem kominn er til lögaldurs og hefur óspjallað mannorð, játar þjóðtrúna og ekki er í kjörflokki klerka, hefur rjett til að kjósa þá þingmenn, er sóknarmenn skulu kjósa. Í hverjum flokki eru allir kjörgengir, þegar þeir eru þrítugir að aldri.

5. gr. Kosningu til kirkjuþingisins skal þannig niður skipt, að kjósa skulu

| | Andlegrar stjettar menn. | Sóknarmenn. |
|---|---|---|
| Sjálands byskupsdæmi | 5 . . . . . . . . | 7 |
| Fjóns —— | 2 . . . . . . . . | 8 |
| Lálands og Falsturs —— | 1 . . . . . . . . | 2 |
| Álaborgar —— | 2 . . . . . . . . | 3 |
| Áróss —— | 3 . . . . . . . . | 4 |
| Vebjarga —— | 2 . . . . . . . . | 3 |
| Rípa —— | 3 . . . . . . . . | 4 |

þegar kjósa skal, skal klerkum og sóknarmönnunum skipt í kjördæmi þannig, að ekkert kjördæmi kjósi meira en einn þingmann. Kjörmenn skulu valdir til að kjósa þingmenn fyrir hönd sóknanna, og skulu þeir kosnir eptir sóknum, að aflokinni guðsþjónustugjörð.

6. gr. Kirkjuþingið skal haldið annaðhvort ár og skal standa í tvo mánuði; en þegar stjórninni þykir þess við þurfa, getur hún bæði kvatt til þings þess á milli, og lengt þingtímann.

7. gr. Kirkjuþingið er haldið í Kaupmannahöfn, og er venjulega haldið fyrir opnum dyrum. þeir þingmenn, sem ekki eiga heima í Kmhöfn fá ferðakostnað og 3 dala endurgjald um daginn, er greiða skal úr fjárhirzlu konungsríkisins.

8. gr. Konungi er áskilið að gjöra hinar nákvæmari ákvarðanir til að koma á lögum þessum fyrstu 6 árin.

það er varla fyrirhafnarvert að tala mikið um kosti og lesti á frumvarpi þessu, nema að því leyti, sem ætlazt er til, að það nái einnig til Íslands; en af því að ætlazt er til, að skipulag á þingi þessu verði svo einkennilegt og svo frábrugðið allri tilhögun, sem vant er að hafa á þingum, þar sem frjálslegt stjórnarfyrirkomulag er, verðum vjer að fara um það fáum orðum.

Eins og sjest á uppástungunni hjer að framan, er svo til ætlazt, að andlegrar stjettarmenn kjósi 18 á þingið, og má óhætt gjöra ráð fyrir, að allir þeir verði kosnir af andlegu stjettinni; auk þessa skulu 8 byskupar vera sjálfkjörnir í þingið, og konungur eða háskólinn skal enn fremur kjósa tvo guðfræðiskennendur á háskólanum, svo að andlegrar stjettar menn verða þannig 28. Sóknarmenn skulu einungis kjósa 26 menn á þingið, og einn háskólakennara í lögum skal einnig kjósa; og geta þá orðið 27 leikmenn á þinginu, og er þinginu þannig svo hagað að klerkar geta ætíð ráðið atkvæðafjölda, ef þeir eru samtaka; og þegar gætt er að því, að kosningar sóknarmanna eru tvöfaldar, og að sóknarmenn eiga að velja kjósendur við kirkju eptir guðsþjónustugjörð, þá gefur að skilja að prestarnir geta einnig haft mikil áhrif á þessar kosningar, og stuðlað að því, að þeir verði kjósendur, sem eru klerkum velviljaðir, og sem þá aptur kjósa einhvern prestinn í kirkjuþingið, svo að prestastjettin verður þá enn fjölmennari; og þegar það stendur í frumvarpinu 3. gr., að enga breytingu megi gjöra á hinum al-

mennu ákvörðunum um ástand og málefni kirkjunnar, nema hún sje áður borin undir álit kirkjuþingsins, hvort sem ákvarðanir þessar snerti stjórn kirkjunnar eða lög hennar, liggur það í augum uppi, að prestastjettin getur ráðið öllu ein um þess konar málefni, eins og í hinum katólsku löndum, og náð hinu mesta ofurvaldi í andlegum efnum. En þessi tilhögun er öldungis gagnstæð frjálslegu fyrirkomulagi, þar eð prestarnir eru til sóknarmannanna vegna, en sóknarmennirnir ekki prestanna vegna. Sóknarmennirnir ættu því að hafa öllu gjldara atkvæði um öll málefni, er kirkju og kennidóm snertir, en slíkt getur engan veginn orðið eptir því sem frumvarp hinna 12 dönsku postula fer fram á; enda má sjá á öllu frumvarpinu, að hinir 8 guðfræðingar af þeim 12, er frumvarpið hafa samið, hafa haft hina 4 í vasa sínum.

þessir ókostir, á kosningum til kirkjuþingsins, sem nú voru taldir, snerta nú reyndar ekki oss Íslendinga, því þó að hinir hálærðu 12 dönsku postular hafi þannig ætlazt til, að leikmenn danskir gætu þó átt setu á þinginu, hafa þeir þó ekki álitið þess, þörf fyrir oss, eða ekki álitið neinn hjer á landi hæfan að sitja í þessari samkundu nema sjálfan byskup vorn; þó að nú sumum kunni að virðast það nokkuð ósamhljóða, að öll hin byskupsdæmin skuli hafa byskup, klerka og leikmenn á þinginu, nema Íslands byskupsdæmi, er verður að láta sjer nægja með byskupinn einn. þessir spekingar vita, að byskup vor muni flytja mál kennidómsins, ekki síður en Staða-Árni — þeir hafa víst lesið Árna byskups sögu —, og þeir vita að þessu þingi muni jafnkunnugt og jafnannt um hag landsmanna vorra í andlegum efnum, eins og stjórninni og ríkisþinginu er það um hin veraldlegu málefni vor. Ætli, t. a. m. að þetta þing ætti ekki hægt með að leiðbeina byskupi vorum í því, hvernig ætti að sameina brauðin hjer á landi? Skyldi þetta þing ekki fúslega hjálpa oss um eitthvað af hinum dönsku kirkjulögum, sem gefin yrðu, ef að byskupinn hjeldi að vjer þyrftum þeirra? Sjáið og skiljið Íslendingar! Ætlið þjer ekki, að þessir hálærðu dönsku postular og prestar — og þar á meðal sjálfur skriptafaðir konungsins, hann Tryde gamli —, þessi hálærði lögfræðiskennari, J. E. Larsen, sem sjálfur hefur sagt á prenti, að hann unni Íslandi og innbúum þess, þessir margbökuðu þingmenn úr landsþinginu og þjóðþinginu, viti hvað yður bezt hentar? þessir menn ætla að taka yður og öll yðar kirkjumálefni undir vængi sína. þjer þurfið ekkert að hafa fyrir að stjórna þess konar málefnum, nema að ljá þeim byskupinn til skrafs og ráðagjörðar. Og þeir vita hvað yður kemur þetta vel, og hversu feginsamlega þjer munið taka þessu. þeir taka þetta upp hjá sjálfum sjer af stakri umönnun fyrir yður. þeir vilja ekki einu sinni ónáða yður með að bjóða yður það. Og því skyldi þess líka þurfa? Ó, þú harðsnúna kynslóð, ef þú ekki viknar við slíkt veglyndi! Skjótið nú saman ungir og gamlir, ríkir og fátækir, til heiðursgjafar handa þessum miklu, lærðu og veglyndu mönnum! — Eða ef að þjer eruð svo harðsvíraðir, að þjer þekkið ekki teikn tímanna, og þjer viljið enn einrænningsskapinn (Separatismen), þá skrifið þjer á móti þessu ágæta frumvarpi. Látizt þjer, sem eruð börn, vera komnir til lögaldurs og komið fram fyrir stjórnina með mótbárur svona hljóðandi: Af því að vjer Íslendingar álítum, að rjettindi vor banni bæði konungi og samþegnum vorum að ákveða neitt um lög hjer á landi að oss fornspurðum, og að öll þess konar frumvörp verði fyrst að leggja annaðhvort undir alþingi vort, eða annað þing hjer í landinu sjálfu; af því að vjer álítum, að frumvarp þetta sje illt og ófrjálslegt í sjálfu sjer, og jafnháskasamlegt fyrir allt andlegt frelsi og hið katólska ofurvald var hjer á miðöldunum, af því að vjer álítum að Ísland geti aldrei haft gagn af að eiga þau þing saman við Dani, þar sem ræða á um sjerstakleg mál ríkishlutanna, og ætlum að þetta danska þing geti í engu bætt kirkjumálefni vor, þar eð enginn þeirra, sem setu eiga á því, nema byskupinn yfir Íslandi, geta haft neina verulega þekkingu á því, hvernig þeim málum hagar til hjá oss.

Hvílíkur einrænningsskapur væri nú að tala svona!

þegar vjer Íslendingar nú athugum frumvarp þetta með alvörugefni, þá virðist oss það bein skylda vor við land vort og eptirkomendur vora að mæla opinberlega á móti allri hluttekning í því; og ætlum vjer ráð að skrifa hinni íslenzku stjórnardeild til núna með haustskipum, og biðja hana að tjá dómsmálastjóranum, hve ófúsir vjer sjeum til að eiga nokkurn þátt í þessu þingi; og viljum vjer hvetja alla málsmetandi menn hjer í nálægum sveitum til að íhuga þetta mál, og vera fljótir til aðgjörða; og einkum skora jeg á alþingismanninn hjer í sýslu, að hann taki sjer fram um þetta.

því verður reyndar ekki neitað, að kirkju-

stjórn vor Íslendinga þurfi mikillar endurbótar við; og þó að vjer ekki í þetta skipti höfum tækifæri til að gefa neinar bendingar um það efni, viljum vjer þó geta það seinna; en vjer viljum einungis vekja athuga landsmanna vorra á því að þeir þurfa að vera árvakrir, og láta Dani ekki komast lengur upp á að skipa oss að sitja og standa eptir vild þeirra, án þess vjer með öllu kappi mótmælum slíkum tiltektum, og reynum hvað vjer getum að ná rjetti vorum, þeim rjetti að hafa fullt atkvæði í málefnum þeim, er sjálfa oss snerta, eins og frjáls sambandsþjóð í hverju ríki á að hafa.

---

**Stuttur leiðarvísir fyrir alþýðu til þess að skrifa íslenzku rjett og greinilega, eptir M. Jónsson, stud. theol., Rvík. 1856.**

það hefur lengi tíðkast meðal Íslendinga, lærðra og leikra, er eitthvað skrifa eða semja, að sinn fylgir hverri rjettritun, og hafa lærðu mennirnir þá búið sjer til ýmislegar reglur, er að nokkru leyti hafa verið sjálfum sjer samkvæmar, en hinir ólærðu hafa flestir skrifað öldungis reglulaust, sum orðin, eins og þeir hafa sjeð þau rituð í bókum, og sum eptir framburði í þeim, er hver hefur haft. Magnús stúdent Jónsson hefur nú gjörzt tilraun að bæta úr þessu skipuleysi með því að láta prenta stafsetningarreglur, og hefur hann viljað fara eptir rithætti Konráðs, háskólakennara, Gíslasonar, er án efa mun vera rjettastur, og sjálfum sjer samkvæmastur. þetta ritsmíði ætlum vjer að höfundinum hafi tekizt dável; og þó að því, eins og flestum frumsmíðum, kunni að vera ábótavant, ætlum vjer, að það geti verið hverjum ólærðum manni, sem les það með eptirtekt, til mikilla nota. Höfundurinn „eptirlætur (?) þetta fyrsta rit sitt dómum og áliti manna". og þykir oss því hlýða að fara hjer um það fáum orðum. Vjer höfum reyndar ekki haft tíma til að lesa bækling þenna vel niður í kjölinn, en þó ætlum vjer oss óhætt að fullyrða, að í honum sjeu stafsetningarreglur vorar bezt útskýrðar. þó viljum vjer drepa á fátt, er oss þykir ábótavant, eða sem vjer ekki ætlum rjett vera: Á 14. bls. segir, að rita eigi drottin í þolanda af drottinn eins og af Óðin, en slíkt höfum vjer aldrei sjeð, hvorki í prentuðum bókum nje fornum handritum, og ætlum, að það sje einungis nafnið Óðinn, er svo hneigist. Væru mörg nafnorð, sem svo enduðu, mundu þau hneigjast eins og lýsingarorðin sem endast með - inn í karlkyni, t. a. m. gj. loðinn. og þolandi eins; greinirinn h i n n, gj. og þolandi eins, og eins fornafnið h a n n Að minnsta kosti hefði höfundurinn þurft að færa ástæður fyrir þessari breytingu frá því sem allir aðrir rita, svo að menn sannfærðust um, að hún væri rjett. Rangt virðist mjer höfundurinn hafa, er hann segir 10. bls. að ekki megi rita h n ý t a h n ö t t u r, heldur eigi að rita þau orð með k í byrjun orðs. þar sem framburðurinn er orðinn eins fastur um allt land eins og í þessum orðum, og þegar menn vita að k fyrir framan n í skyldum málum, t. a. m. ensku og svensku er mjög lint eða hverfur í framburði, virðist oss að minnsta kosti fullt eins rjett að rita h n ý t a, h n ö t t u r, h n j e, h n í f u r, og þannig ritar Konráð í orðabók sinni. Óheppilegt er það að höfundurinn verður stundum að vísa til samburðar við dönsku, því þó það sje góð vísbending í sjálfu sjer, er það þó óhentugt, þegar bókin er ætluð alþýðu, því alþýða skilur ekki dönsku. Bezt er gengið frá köflunum um aðgreiningarmerkin; aptur eru skammstafanirnar óþarflega margar, og ofmikið tekið þar af útlendum skammstöfunum, sem aldrei ættu að koma fyrir í íslenzku, og gjöra það varla, t. a. m. s., l. sive, pr. pl. l. præter plura.

Að endingu óskum vjer, að sem flestir ungir menn vildu kaupa þetta kver, því gömlu vísuna. „Að lesa og skrifa list er góð", o. s. frv., er svo að skilja, að enginn verður álitinn „mesti höfðingi" fyrir að kunna vel að búa til stafina, heldur einkum fyrir það að skrifa rjett og skipulega.

---

# Frjettir.

## Útlendar.

Af hinum útlendu blöðum, er vjer höfum fengið fram í miðjan ágústmánuð, höfum vjer lítið frjett, er stórtíðindum gegni. Hið helzta er bylting sú, er orðið hefur á Spáni, sem hjer skal stuttlega lýst. þeir hafa nú hið næstliðna ár ráðið mestu með Ísabellu drottningu á Spáni E s p a r t e r o, er opt hefur ráðið mestu þar í landi, hinn frjálslyndasti maður og vinsælasti, og hershöfðinginn O'D o n n e l, írskur að kyni. Í sumar varð þeim það að deilu, að O'D o n n e l vildi hrinda einum ráðgjafanum, E s c o s u r a að nafni, burt úr ráðinu, en E s p a r t e r o vildi það ekki, og áttu þeir margar stefnur að málum þessum, og samdi

ekki. Kom svo að lyktum, að ráðið fór allt á fund drottningar til ráðagjörðar. Urðu þær málalyktir, að drottning hjelt með O'Donnel og vildi að Escosura færi úr völdum. Lagði þá Espartero og allir hinir ráðgjafarnir niður völd sín; en drottning fól O'Donnel á hendur að fá nýja ráðgjafa. þetta var að morgni hins 14. júlímánaðar. O'Donnel vissi nú, að stjórn hans mundi ekki verða vinsæl, en á hinn bóginn, að herinn mundi fylgja sjer. Brá hann því undir eins við og safnaði saman 16000 hermanna. Síðan kaus hann ráðgjafa með sjer, og gjörðist sjálfur æðsti ráðgjafi og hermálastjóri. þegar það frjettist í Madridarborg, hverjir hinir nýju ráðgjafar væru, kvöddu 40 þingmenn úr ríkisþinginu, sem búið var að skjóta á frest nokkru áður, til fundar — en það eru lög á Spáni, að 20 þingmenn geta kvatt til aukafundar, þegar þinginu hefur verið skotið á frest, og 50 þingmenn geta gjört gildar ákvarðanir —, og komu 91 fulltrúar á fundinn, og ákvörðuðu þar með 90 atkvæðum gegn einu, að kveðja þjóðfulltrúana þegar til þings, lýsa vantrausti fulltrúanna á hinum nýju ráðgjöfum og biðja drottningu að láta þá fara úr völdum, og kjósa aðra, er hefðu traust þjóðarinnar, og stungu fulltrúarnir upp á því, að Espartero yrði æðsti ráðgjafi. Ekki vita menn, hvort Espartero hefur verið í vitorði um þessar ákvarðanir. Nú kusu fulltrúarnir nefnd, er skyldi flytja drottningu þessar bænir þeirra, og fylgdi nefndinni flokkur af þjóðliði. þegar nefndin kom til hallar drottningar, ráku hermenn O'Donnels hana aptur og skutu á hana. þá byrjaði upphlaup um alla borgina. þegar þetta bar við var Espartero staddur í þjóðþingissalnum og hjerumbil 30 aðrir þingmenn. Escosura, og margir aðrir, báðu hann að halda þau heit sín, að taka sjer sverð í hönd, ef frelsi þjóðarinnar væri hætta búin; og hann tók því svo vel, að menn væntu, að hann mundi fara á orustustaðinn, og hvetja þjóðliðið. þetta brást nú, hvort sem það hefur komið af því, að hann hefur þótzt of aflalítill eða af öðrum ástæðum. Valdès, hershöfðingi fyrir þjóðliðinu, talaði þá fyrir liðinu, að fyrst að sá maður, sem einkum væri skyldur að vera í broddi fylkingar þeirra, kæmi ekki, væri hverjum frjálst að fara heimleiðis og sneiða hjá allri hættu. Lögðu þá margir niður vopn sín og herklæði. En þeir sem gripu til vopna börðust með mikilli hreysti dag og nótt, þangað til um morguninn 16. júlí; þá tókst loksins hershöfðingjum O'Donnels að sefa upphlaupið með öllu í höfuðborginni, og var þá fjöldi fallinn af hvorumtveggja. Víða urðu upphlaup á Spáni móti þessum ráðabreytingum, en að síðustu tókst stjórninni þó að vinna aptur án mikils manntjóns allar borgir, er gjört höfðu uppreist. Espartero hefur öldungis dregið sig í hlje, og ekki veitt hinni nýju stjórn neina mótstöðu.

þó að O'Donnel hafi þannig náð hinum æðstu völdum á Spáni, og það varla að öllu leyti á löglegan hátt, og þó að hann haldi landinu undir hervaldi nú sem stendur, þá er mjög vansjeð hve langgæð stjórn hans verður. Hann hefur reyndar látið enn í veðri vaka, að hann mundi halda hinni frjálslegu stjórnarskipun, er áður var, en fáir vilja trúa því og verða til að fylla flokk hans, svo hætt er við, að þjóðþingið verði honum erfitt viðureignar, þegar þing er næst hafið. Menn ætla, að hann hafi enga fasta skoðun á stjórnarmálefnum, og eru því hræddir að fylgja honum. Hann hefur líka og herlið hans sýnt hina mestu grimmd á meðan á uppreistinni stóð, og eykur það lítt vinsældir hans.

Annarstaðar í norðurálfunni hefur allt gengið með friði og spekt, en þó ber enn mikið á afleiðingum hinnar miklu styrjaldar, er gengið hefur; einkum ber á þeim í verzlunarviðskiptum þjóðanna. þó að út líti fyrir ágæta uppskeru á flestum korntegundum í Danmörku og víða annarstaðar, halda þó kornvörur sjer enn í hinu sama háa verði, er verið hefur, og leit ekki svo út, að þær mundu lækka í verði til neinna muna.

Frá áreiðanlegum manni í Kaupmannahöfn hefur oss borist verðlag á íslenzkum vörum erlendis núna þegar „Hertha" fór aptur hingað til landsins. Hann segir svo: Hvít ull norðlenzk ætluðu menn í vor, að mundi verða 120 rd. Skp., nú er hún 125 og 130, jafnvel þó góð Vestmannaeyja ull sje nýlega seld á 118 rd. Mislit ull er 106—9 rd. Tólgur ætluðu menn í vor að mundi verða 22 sk. pd., nú er hann 25 og 26, og ætla menn, að hann hækki enn í verði, því kaupmenn vilja ekki selja á 25. Sokkar 44 sk., og verða, ef til vill, 46 sk.; góðir hálfsokkar 28 til 30 sk.; vettlingar 20 sk.; peisur góðar 9 — 10 til 12 mörk. Lýsi orðið á 44 rd. Saltfiskur 22—24 rd. Kjöt mun verða frá 26—28 rd. tunnan.

Um verð á útlendum varningi skrifar hinn sami: Austursjóarrúgur fæst nú fyrir 9½ rd., dansk-

ur 10 og 10½, grjón. 14 hjer í staðnum í stórkaupum. Í smákaupum er brennuvín 28 sk., kaffi og sikur 26—28 sk. — þetta grjónaverð getur gjört oss skiljanlegt, það sem oss annars kynni að virðast kátlegt, að kaupmenn ekki hafa sent neitt eða sárlítið af þessari korntegund með þessu seinasta skipi.

Á eyjunni Sangir í Austur-Indlands hafi, nálægt eyjunni Celebes, gaus upp hinn mesti jarðeldur í vor. Landnorðan til á eyjunni liggur fjallið Awu 4,300 fóta á hæð, og gnæfa upp úr því margir eldfjállatindar. Vesturhliðin á fjalli þessu er hægt aflíðandi niður að bænum Kandhar, er liggur á háum höfða. Á norðurhlið Awu eru frjófsamar hæðir, og eru þar auðug sáðlönd. Aldrei hafði jarðeldur fyr gosið upp á Sangir, og að eins orðið vart við lítilfjörlega jarðskjálfta; og Spanverji nokkur, er fyrir fáum árum fór upp á Awu, kvað eldfjallið fyrir löngu útbrunnið. 2. marz þ. á., mitt á milli miðaptans og nattmála, byrjaði allt í einu, og án þess vart yrði við nokkur merki til þess áður, óttalegt eldgos. Hraunelfurnar byltust niður að sjó, og lækir og uppsprettur urðu sjóðandi, brutust yfir landið, og eyddu öllu því, er hraunið skildi eptir. Hafið hrökk fyrst undan eldelfunni, en kom skjótt aptur með stórsjóum og braust móti fjallinu og hraunelfunum. Síðan hóf sig í lopt upp kolsvartur reykjar- og öskumökkur og gjörði á hið svartasta náttmyrkur og. fjarskalega grjóthríð, er stóð til miðnættis. Í öðru sinni gaus fjallið 3. marz og 3. skipti 17. marz. Þessi ógurlegu eldgos hafa orðið að bana hátt á þriðja þúsundi manna.

**Innlendar.**

Ekki höfum vjer enn mikið að segja af innlendum frjettum. Það er hvortteggja að land vort er strjálbyggt og lítið gjörist, sem tíðindum skiptir, enda fáum vjer blaðamennirnir opt seint að vita það, og frjetturnar fljúga ekki út um landið; þó að þær sjeu komnar í blöðin, því stundum líða heil og hálf ár, áður en blöðin eru komin til síns samastaðar.

Veðráttan hefur verið hin bezta og hagstæðasta um allan sláttinn þangað til mitt í þessum mánuði. Rjett við byrjun gangnanna gjörði hið mesta áfelli, svo að það snjóaði niður að sjó og hin mesta fannfergja kom á fjöllin, og það jafnvel svo, að geldfje var á sumum stöðum dregið úr snjó, og munu því heimtur víðast hvar ekki góðar, hvort sem seinna bætist úr því. Sökum þess að grasvöxtur var svo sárlítill, voru menn enn við heyskap þegar ófærðin byrjaði, og allmargir eiga því enn hey úti, og er hætt við að það nýtist lítt. Heilsufar manna hefur verið gott alstaðar, þar sem vjer höfum til spurt.

Nú er byrjuð haustverzlunin hjer í norður- og austur-umdæminu, og fjártakan, og hafa kaupmenn aldrei borgað fjeð eins vel og nú, enda mun það verða vel borgað erlendis. Kaupmenn gefa hjer á Akureyri 7 mörk fyrir lýsip. af kjöti af fullorðnum sauðum, 1 rd. 8sk. fyrir lýsip. af geldum ám, veturgömlu fje og dilkum. Fyrir gærur af fullorðnum sauðum 88 sk., tvævetrum 80 sk., af veturgömlu og dilkum 64, og fyrir pundið af mör gefa þeir 18 sk.

Vjer höfum nú reyndar heyrt bæði úr Múlasýslum og af Skagaströnd, að kaupmenn borgi þar betur, t. a. m. 8 mörk fyrir kjöt af fullorðnum sauðum, 20—22 sk. fyrir mör, og 1 rd. og þar yfir fyrir gærur, og þó það, ef til vill, sje ekki of mikil borgun eptir því, hvernig verðið er á hinni útlendu matvöru, og líklega verður næsta ár, svo að landsmenn hafa þó ekki hag af að selja fjeð úr búi sínu, er þó þessi sala, eins og hún er hjer, mjög erfið fyrir alla kaupstaðarbúa, og aðra þá, er kjöt þurfa að kaupa, svo að kalla má að hin mesta dýrtíð sje fyrir alla þá, er lifa af vinnu sinni eða peningum og ekki hafa landvörur að borga með.

Fiskiafli hefur hjer norðanlands verið með minnsta móti og mjög óstöðugur, svo að hann bætir lítið úr. Um hákarlsaflann hjer í kringum Eyjafjörð, sem hefur verið með bezta móti, vonum vjer að geta seinna gefið greinilega skýrslu.

---

**Stökur.**

Þegar jeg lít þig ljúfa mær
lyppu úr körfu spinna,
altekið mig allan fær
yndi handa þinna.
Opt jeg sjálfur óska þá
ofurlitla stundu
í lár að vera lopi sá,
er leikur þjer í mundu.

---

Þegar áðan augað þitt
á mjer dvaldi Fríða,
óðar fannst mjer áfram mitt
æðablóðið líða.

þegar mjúkur munnur þinn
mjer rjeð játning gera,
allur fannst mjer andi minn
endurborinn vera.
Sjálfur hræddist orð mín eg
ei þeim stýrt að fengi;
að bannaðan ei brytust veg
barðist jeg við lengi.

---

## Dæmisaga.

það var einusinni fífill og bjó í brekku. Hann var ungur og frícur, og hugsaði sjer því hátt í heiminum. Nálægt honum bjó sóley. Henni þótti fífillinn fagur og hafði hug á honum, en hann leit ekki við henni og sýndi henni enga blíðu. Hún sat hrygg, og þótti súrt í brotið, að fífillinn skyldi ekki líta við sjer. Hún var að gráta alla nóttina, en á morgnana þurrkaði hún af sjer tárin, því hún duldi ást sína.

Nú leið og beið og fífillinn varð stór og ætlaði sjer einlægt hærra. En nú kom ofboð heitur morgun eptir nokkra kulda daga, og þegar fífillinn vaknaði, og reis upp, sá hann í eldheit augu morgunsólarinnar, og varð allt í einu ástfanginn. Hann starði á sólina, og ímyndaði sjer, að hún hefði ekki augun nema á sjer. Hann þekkti ekki sólina vesalingur! Og hann mændi til sólarinnar öllum dögum, en á næturnar var hann að gráta; og þegar morgungeislarnir þerrðu döggina af honum, hjelt hann að sólin væri að þurrka tárin af augum sjer og verma sig, og þá varð hann frá sjer numinn, og blóðið streymdi enn ákafar í æðum hans. En sólin sem hann elskaði svo heitt kom ekki nær. Framan af deginum var hún einlægt að verða blíðari og blíðari, en þegar á daginn leið, hjelt hann að hún væri að felast fyrir sjer, þegar hún gekk undir brekkubrúnina um miðaptansbilið. Hann sá hana skína á önnur grös, en líta ekki til sín. — Hann hugsaði sjer nú eitt ráð. Til þess að hún skyldi ekki vera að hlaupa frá sjer og stríða sjer, fór hann að verða góður við sóleyjuna. Hann hugsaði, að sólin mundi þá verða hrædd um sig, og koma til sín og vera hjá sjer. Hann þekkti ekki sólina vesalingur! Hann beygði sig ofan að sóleyjunni blíðlega, en hún lagði tárvota kinnina við vanga hans og roðnaði. Og daginn eptir kom sólin og fór aptur; og fífillinn hugsaði með sjer: „Sólin er einsog ung mey í dansleik, hún er fjörug og heit. Mjer fannst líka að það væri eins og við værum að dansa, þegar geislarnir ljeku um um hádegisbilið. En hún er hvikul eins og dansmey, og ekki við eina fjölina felld. Jeg er orðinn roskinn og mjer mál að fara að búa um mig í lífinu. þannig mælti hann og laut niður að sóleyjunni og kyssti hana, og þau grjetu bæði af gleði og vöknuðu brosandi um morguninn, því nú ætluðu þau aldrei að skilja

þannig lækkar hinn fullorðni maður hugarburði unglingsins. Æskumaðurinn ætlaði að finna og ná mynd þeirri, sem hugsjón hans smíðaði, hann ætlaði að sanngjöra draumsjónir sínar. En han reyndi að hugsjónin var ekki annað en hvikul dansmey.

---

# Mannalát.

10. d. júlímánaðar þ. á. andaðist hreppstjóri, stúdent, Halldór Sigurðsson á Úlfsstöðum í Loðmundarfirði, tæplega 55 ára að aldri. Hann var fæddur 24. ágúst 1801, giptist 10. júlí 1830 eptirlifandi konu sinni Hildi Eiríksdóttur. þau áttu saman 10. börn, og eru 7 þeirra á lífi, 5 synir og 2 dætur. Halldór sálugi var hreppstjóri í 12 ár, og þótti jafnan hinn bezti og hjálpsamasti bóndi.

24. ágústm. andaðist merkiskona, Kristín Gunnlaugsdóttir, kona þórarins snikkara Stefánssonar í Arnarnesi í Kelduhverfi, fertug að aldri. Hún var hin ágætasta kona í sinni sveit, harmdauða eptirlifandi manni sínum og þremur börnum, og öllum er þekktu kvennprýði hennar.

11. d. ágústm. andaðist á bezta aldri ein af merkustu konum austanlands, Gunnþórun Ingibjörg Ragnheiður, kona Halldórs prófasts Jónssonar að Hofi í Vopnafirði í Norðurmúlasýslu, og dóttir Gunnlaugs sáluga Oddsens dómkirkjuprests. Hún var fædd 9. maí 1824, giptist sjera Halldóri 1842. þau hjón áttu 10 börn og lifa 8.

Svalur vindur um sumartíð
svala ber fregn af austurlandi,
deyðandi hefur dauða hríð
dregið um lopt og valdið grandi.
Fegurstu jurt úr jurtareit
járnkaldur banaljárinn sneiddi.
Húsfreyju bezta úr blíðri sveit
til betri vistar drottinn leiddi.
Harmatára þó brynji fjöld

af hvörmum þess, er vífið þráir,
og ungbörn þau vanti skæran skjöld
er skýla móðurhönd ei náir,
Drottinn honum þó dýrstur bjó
í drottins orði huggun ríka.
Sá öðrum huggun færði og fró
finna mun hana sjálfur líka.

Móðurleysingjum heitið hann
hefur gefið hið ástarblíða,
þá móður burt taka mildur vann
í móðurstað er hans höndin þíða.
Hún skýlir vel, þó hörðust hríð
og harmafrost í lífi næði.
Hún skýlir vel og vermir blíð
veitir huggun og fróun bæði.

---

## Um uppeldi barna.

### Klæðnaður.

(Framhald). Gæta skal þess, að barninu sje hlýtt og notalegt, en ekki má það verða of heitt hvorki vegna klæðnaðar eða af því, að rúmið sje ofheitt.

Fötin eiga að vera ljett og hæg. Bezt er að skyrtan næst líkamanum sje úr smágjörfu ljerepti eða bómull, og þar utan yfir ljettur úllarvefnaður, og yzt kjóll úr ljerepti eða bómull.

Annað, sem á liggur með fatnað barnanna er, að fötin sjeu-laus loptið á að geta haft frjálst svigrúm að renna milli hörundsins og fatanna. Hvað lítið, sem kreppir að barninu, ollir það því óþægiuda, og ef fötin eru þröng, geta þau valdið vanskapnaði fyr en menn gæta að. Nóg rúm verður að ætla barninu fyrir vextinum, því hann er stöðugur og mikill. Sökum þessa ætti að festa hvert fat með böndum, og varast mjög að reyra þau ekki fast.

Áður var höfð sú vitlausa og skaðsamlega venja að strengja mikið af fötum fast utanum börnin (reifa þau), og láta ein- eða tvíföðraða húfu á höfuð þeirra. Sumstaðar eru börn enn reifuð þannig, að rjett er úr þeim og vafin eins og lík, og borin þannig, og er það mjög háskalegt bæði fyrir vöxt barnins og styrkleika þess. Af ofmikilli umönnun fyrir barninu er það og alltítt, að börnin eru ofmikið klædd, og höfði þeirra og líkama þannig haldið of heitum.

Vjer tökum það fram aptur að láta fötin vera ljett og rúm, og að láta barnið vera berhöfðað, ef árstíminn er heitur að minnsta kosti innanhúss, sje komið allgott hár á höfuðið. Í mesta lagi skal láta barnið hafa ljetta línhúfu, og bæta þar við lausri skýlu yfir höfuðið þegar farið er með það út í kuldann, og vefja þá einnig utanhafnarklút utan um það.

Kjóllinn, sem barnið hefur, á ekki að vera lengri en svo að hann hylji fætur þess, þegar fóstran lætur það sitja á handlegg sjer. Skórnir ættu að vera úr ullarvefnaði. Stundum ber svo við, að þörf er á að vefja dúki eða bandi um mitti barnsins, en slíkt verður að gjöra með aðgæzlu. Sum börn þurfa þetta band marga mánuði; þegar hætt er við það, er haldið og vestið einkum haft til að halda föstum hinum fötunum.

### Hvernig þvo skal barnið og klæða það.

Til þess að barninu líði vel, og heilsa þess eflist, skal þvo það á hverjum morgni og hverju kvöldi, allt saman vel og vandlega, en þó hægt og mjúkt. Ástæðurnar fyrir því eru þessar. Svitaholurnar færa burt ónýtt efni frá líkamanum. Þetta efni festist á húð barnsins og byrgir svitaholurnar, svo að þær geta ekki unnið ætlunarverk sitt, nema þessi óhreinindi sjeu þvegin burtu.

Þvo skal barninu í volgu vatni með sápu og smágjörfum ullardúki eða svampi. Kalt vatn má ekki hafa, því barnið getur orðið sárveikt af því og dáið. Áður hjeldu menn, að það mundi gjöra börnin hraust og hörð, að baða þau í köldu vatni, en reynslan hefur sýnt að slíkt er vitleysa. Þess skal og vel gætt, að ekki komi súgur af köldu lopti á þau. Það er ekki óhætt að afklæða barnið nema við eld fyrstu fjóra mánuðina.

Þegar fara á að þvo barnið og klæða það, skal allt sem á þarf að hald vera við hendina; það sýnir óreglusemi, ef barnfóstran þarf að standa upp til að sækja nokkurn hlut. Þegar allt er við hendina, skal fóstran setjast á lágan stól — hún skal hafa ullarforklæði — Svo afklæðir hún barnið, þvær höfuð þess með sápu, þerrar það og setur síðan línhúfu á höfuð þess. Síðan þvær hún andlit, háls og brjóst, hendur og handleggi (sápu þarf ekki ætíð) og þurrkar það síðan mjúkt en vel. Svo er barninu snúið við og nógu vatni ausíð um bakið, lendar og fætur, skal halda barninu með vinstri hendi og láta fæturna hánga yfir hnjeð svo að vatnið geti streymt af þeim niður í þvottakerið. Kríkana. o, s. frv. þarf vandlega að þvo og þurrka. Síðan skal brjóta upp hornið á forklæðinu, svo barnið hafi þurrt að liggja á meðan það er þerrað. Hrukkurnar á hnakkanum, undir höndunum, í olbogabótum og hnjesbótum skal þvo og þurrka vandlega. Af því núningurinu á þessum stöðum eykur svitann, svo að hætt er við, að taki af skinnið, þarf að dreifa á það línsterkju dupti. Öll hrein klæði barnsins skal verma við eld áður en barnið er fært í þau. Þegar búið er að þvo barnið og þerra, skal strjúka líkamann með hendinni; það kemum blóðinu til að hlaupa aptur út undir húðina og hefur þægileg áhrif á barnið. Þenna þvott skal einlægt við hafa hvern morgun og kvöld, og verja skal barnið sem mest verður fyrir öllum óhreinindum á daginn. Ef barnið selur upp fæðunni, eða ef barnið slefar mikið, þegar það tekur tennur, þarf að þvo andlit þess og háls einu sinni eða tvisvar um dagtímann. Áður en barnið er klætt, skal lofa því að sprikla og teygja úr sjer í kjöltunni, og á því getur maður opt sjeð, hvort það er heilbrigðt. Þessa skyldi nákvæmlega gætt um allan barnsáldurinn.

Það er líklegt að barnið hljóði töluvert meðan verið er að þvo því og klæða það, Ef það hljóðar ekki mjög ákaft eða í sífellu, þá er það barninu hollt. Það æfir lungun, skerpir röddina og andardráttinn, og öðru vísi getur barnið það ekki. Þegar þau eldast og fá aðra krapta minnkar grátufinn. Lægni og viðkvæmni verður fóstran að hafa í þessu eins og öllu öðru, því ef hranalega er farið með barnið við þvottinn, þarf það ekki nema að sjá þvottakerið og heyra hljóðið í vatninu til þess að það verði angrað, og geta þá liðið svo ár, að barninu þyki ekki vænt um að láta þvo sjer, eins og því á að þykja.

Móðir eða barnfóstra sparar sjer mikið ómak með því að innræta barninu að vera þrifið og þokkalegt. Þegar menn gæta að því að dýrin kenna ungum sínum þrifnað, ætti ekki síður að kenna það hinum skynsömu skepnum. Það er óhætt að segja, að ekkert barn hefur verið óþrifið í háttum sínum, svo að það væri ekki fóstrunni að kenna.

## Loptið og hreifingin.

Börnin eiga, eins og fullorðið fólk, að geta andað að sjer góðu lopti. Ef þau draga að sjer illt lopt, verða þau fölleit, veikjast og deyja. Rúmið þarf að viðra vel og halda góðu lopti í svefnherberginu. Herbergisdyrnar skulu standa opnar á daginn, og glugginn líka nokkrar stundir, nema þegar veður er mjög kalt.

Ef að loptið er gott, verður barnið bæði heilsugott og rjótt í kinnum, þó að fæða þess sje lítil og fátækleg, og hreint lopt bætir því margt annað.

Ungt barn þarf að hvíla sig mikið. Þegar kraptar þess aukast, og það getur farið að taka eptir, er bezt að hreifa það, og kenna því að sitja uppi og taka eptir hlutunum í kringum sig. Þegar barnið er borið, ætti það fyrst að liggja á örmum fóstrunnar, síðan skal kenna því að sitja á handlegg hennar. Ekki skal hossa því, eða hreifa það neitt snögglega, fyr en það er orðið sex mánaða gamalt, og er farið að hafa gaman af hreifingunni.

Þegar það er farið að stálpast, svo að það má sleppa því af höndunum, má leggja það á dúk á gólfinu og lofa því að sprikla og velta sjer. Það er betra að lofa því þetta en að halda því einlægt á knjánum eða í höndunum, og þykir barninu mjög vænt um það, ef eptirtektin er vöknuð hjá því, og það getur leikið sjer að einhverjum barnagullum. Þegar barnið er tekið upp, eða sett niður, skal taka um mitti þess, en aldrei skal láta það hanga á handleggjunum, ekki einu sinni sem snöggvast.

Bezta aðferðin til að kenna barninu að ganga er að láta það vera sjálfráða. Þegar það er búið að fá nóga krapta, fer það sjálft að standa á fæturna og heldur sjer í stóla eða hvað annað, sem fyrir hendi er.

Þegar veður er gott, skal jafnaðarlega bera það út undir bert lopt. Ekki skal leggja það niður á jörðina fyr en það er farið að geta hreift sig og gengið. Breiða verður undir það á grasinu og lofa því svo að velta sjer til og frá.

Margar konur verja nærri öllum tíma sínum til þess að vera að ganga með börnin í höndunum, og sumar bera fyrirhöfnina fyrir barninu í bætifláka fyrir allan sóðaskap í klæðnaði sínum og umgengni innanhúss. Mikið af þessum tíma getur barnfóstran sparað með því að venja barnið á að skemmta sjer á gólfinu, og hefur barnið líka gott af því.

## Sjúkdómar.

Ef barnið er heilbrigt af náttúru og hefur hentuga fæðu og góða meðferð, mun það sleppa við marga sjúkdóma. Ef því verður illt, kemur það líkast til af rangri meðferð. Algengast er, að krankleiki barna komi af óhentugri fæðu.

Ef að barnið er ekki mjög veikt, svo að leita þurfi læknis, er heitt bað opt gott til að bæta börnum krankleika. Vatnið skal heita svo, að það sje álíka heitt og blóðið í manninum. Mjög ung börn skulu ekki vera lengur í lauginni en 5 eða 6 mínútur. Fóstran skal halda höndum sínum undir höfði barnins og lendum, svo að því sje sem hægast, og skal vatnið ná að fljóta yfir allt nema höfuð og andlit. Aldrei skal lauga börn, sem hafa útbrot, því kulda getur slegið að barninu á eptir, svo að sjúkleikanum slái inn. Miklu örðugra er að ala upp sveinbörn en stúlkubörn. Drengir hljóða stundum, svo að þeir fá eins konar flog, en stúlkubörn mjög sjaldan, þess vegna þarf enn meiri umhyggjusemi í meðferðinni á sveinbörnum. Heit laug er eitthvert hið vissasta og bezta meðal við slíkum flogum.

Bólusetja skal barnið, þegar það er 6 vikna eða tveggja mánaða gamalt.

Þegar börn eru að taka tennur, eru þau venjulega veik meir eða minna. Hið fyrsta merki til þess, að barnið ætli að fara að taka tennur, er að munnurinn verður venju fremur heitur, og geta menn orðið þess varir þegar barnið sýgur. Annað merki er að barnið slefar þá meira og bítur og nístir saman gómunum. Slefurennslið er barninu mjög hollt, það gjörir vægari hitann og viðkvæmnina í gómnum, sem vant er að fylgja tanntekningunni.

## Lýti og ófullkomlegleiki líkamans.

Það er miklu sjaldgæfara, að lýti á líkamanum sjeu meðfædd, en að þau komi í uppeldinu. Lýti þessi koma annaðhvort af sjúkleika, sem börnin erfa eptir foreldrana og sem aukast af rangri meðferð í uppeldinu, eða þau koma eingöngu af tilviljun, eða skeytingar og kunnáttuleysi þeirra, sem með barnið fara. Það er auðsætt að foreldrar eiga að láta sjer einkar annt um, að slík lýti komi ekki, og reyna af fremsta megni að bæta úr þeim, ef barnið hefur slíka bresti.

Þegar börnin eru afklædd á kvöldin, er það gott ráð að hvetja þau til að hlaupa innan um herbergið, beygja sig, fára á fjórar fætur, setjast og standa upp aptur. Móðirin getur þá tekið eptir hreifingu vöðvanna og liðamótanna, og orðið þannig undir eins vör, hvort barnið hefur meitt sig eða marið, hvort limirnir eru rjettir og liðugir, og af hverju lýtin koma, ef nokkur eru. Sjái menn hvað því veldur, er auðveldara að ráða bót á því. Stundum kann að þurfa læknishjálpar, og skyldi hans þá leitað tafarlaust.

(Framhl. síðar.).

---

# Auglýsingar.

Hjá undirskrifuðum er til sölu:
„Stuttur leiðarvísir til að skrifa íslenzku rjett og greinilega“ í kápu 24 sk.
Ný Fjelagsrit 16. ár, 64 sk.

Akureyri 18, dag septemberm. 1856.

J. Borgfirðingur.

---

Á veginum frá Reinistað, fram Vallhólm, yfir að Sólheimum í Blönduhlíð og út að Hjaltastöðum, týndist í næstliðnum júlímánuði **vasaúr með festi.** Ef einhver kynni að finna úr þetta, er hann beðinn að afhenda það Ólafi presti Þorvaldssyni mót ríflegri þóknun í fundarlaun.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. Október. 19.—20.

### Brjef í sveitina.

Qvid dem qvid non dem,
Rennis qvod tu, jubet alter[1].

Það var vel gjört af þjer Sölmundur minn, gömlum manni, að fara að skrifa mjer langt brjef og skorinort um Norðra; það eru ekki svo margir sem verða til þess. Þeir hafa reyndar sumir sagt mjer hitt og þetta undir fjögur augu um hann, en það hafa nú ekki verið nema fá orð í fullri meiningu. Þeir sem hafa verið mjer meðmæltir, hafa sagt, að það væri annar blær á honum. Jeg hefi skilið það svo, að þeir ættu við betri blær, því þess konar getur maður sjeð á því, hvernig það er sagt; að jeg stílfærði vel — hvað sem á nú að leggja í það —, að yfirlitið yfir útlendu frjettirnar væri greinilegt, og að þeim syndist jeg rita hlutdrægnislaust, o. s. frv. Hinir hafa aptur beðið mig að hafa hann mergjaðan — en mjer hefur þá stundum orðið að segja þeim, að það þurfi að brjóta legginn til að ná mergnum, að skilja það sem skrifað er, til þess að geta fundið, hvað feitt er á stykkinu —, þeir hafa sagt að innlendu frjettirnar væru ofstuttar, og einkum vanti í mannalátin, og jeg ættfæri ekki nógu vel þá sem deyji — og það er nú von, að þeir segi þetta —, að jeg sje að kenna öðrum meðferð á börnum, og eigi þó engin börnin sjálfur, að jeg geti ekki um nein náttúru-undur og hafi oflitlar smásögur; jeg sje ágjarn og hafi fært Norðra upp um fjóra skildinga, og taki peninga af mönnum fyrir hrossalýsingar og þakklætisauglýsingar fyrir hunda, og annað þess konar. Þessar athugasemdir með og mót voru nú svo einstaklegar að jeg gat ekki vel tekið þær til greina. Þessu er nú allt öðru vísi varið með brjefið þitt, góða gamalmenni. Jeg sje það á því, að þú hefur lesið Norðra ofan í kjölinn, og skrifar mjer til í þeim tilgangi að jeg skuli geta lært af því að minnsta kosti, hvernig blaðið eigi ekki að vera. Jeg varð hugsjúkur, þegar jeg las brjefið þitt og sá að þú varst mjer ekki meðmæltur, því jeg sá á öllu, hve annt þjer var um mig og blaðið mitt, eins og góðum landa á að vera. Þú ert hræddur um, að jeg afli mjer óvinsælda; og það er nú hætt við, að þú hafir rjett í því, þegar gætt er að talshættinum „enginn gjörir svo öllum líki“ o. s. frv. En jeg ætla þó að svara aðfinningum þínum, ef verða mætti, að þú og þeir, er líkt hugsa, kynnu þó að sannfærast um, að það, sem þú finnur að, sje þó ekki svo fjarstætt, og haldi áfram að kaupa Norðra.

Það fyrsta og helzta, sem þú finnur að, er júlíbrjefið, og þar í líkar þjer verst það, sem jeg segi um kaffið og brennuvínið í sveitinni; þú segir, að jeg megi búast við, að konurnar styggist við það, því þessi greiði sje þó handhægastur, og það standi sjaldan svo á, að konan hafi spón eða bita á reiðum höndum. Þú segir, að þetta sje nú orðin landsvenja, og sje því ekki vert að hreifa við henni. Jeg veit nú að hið fyr talda er satt, en jeg hefi aldrei sagt að konan þyrfti að standa frammi fyrir hverjum, sem að garði kemur með góðgjörðir; hún á ekki að gjöra það, og umfarendur eiga ekki að vænta þess. Hin ástæðan þín að hreifa ekki við því sökum þess það sje orðin landsvenja er engu nýt. Þar sem þú segir, að fólk firrtist við þess konar aðfinningar, þá segi jeg þjer satt, að jeg get ekki farið eptir því, og enginn sannur blaðamaður. Kaupendur blaðanna verða að geta þolað sannleikann. Þú laumar því reyndar að mjer „að það væri kanske ekki óhollara að hrósa ykkur bændanefnunum innan um og saman við“, og jeg sje, að þú gjörir það í góðu skyni. Það er heldur enginn fúsari til að viðurkenna kosti íslenzku bændastjettarinnar en jeg. Bændur vorir eru velflestir

[1] Um hvað á jeg að skrifa, og hverju á jeg að sleppa? Það sem þú ekki vilt, þess beiðist annar.

skynsamir í tali, glaðlegir og gestrisnir og hjálpsamir hver við annan. Þeir eru flestir miklu námfúsari en bændur í öðrum löndum víðast hvar. En þó að þetta sje nú svo, þá hafa þeir samt suma ókosti, sem nú reyndar fylgja bændastjett alstaðar. Þeir eru margir smámunasamir, og vilja lítið leggja í sölurnar fyrir að afla sjer menntunar; hafa lítinn áhuga á alþjóðlegum málefnum, sem bezt sjest á því, hversu þeir hafa komið fram á alþingi, því þar hafa þeir opt barið niður áríðandi málefni, þegar það varð ofan á, að landsmenn sjálfir þyrftu að leggja á sig fjegjald til að koma nytsömum stofnunum á fót. Þeir eru seinir á sjer og þó þollitlir í öllum fjelagsskap, og ættu þeir þó manna bezt að geta sjeð „að margar hendur vinna ljett verk". Það skyldi engum þykja vænna um það en mjer, að þetta væri ekki satt um neina af bændum vorum, því vjer þurfum allir Íslendingar að vera sem beztir hver í sinni stjett til þess að oss geti munað nokkuð áleiðis.

Það gleður mig nú reyndar stórum, að þú ert ekki einn af þeim, sem halla á prestinn sinn og öfunda hann af kjörum hans, sem þó eru engan veginn öfundsverð; en þessi góði þokki þinn til prestanna hefur, að mjer finnst, leitt þig til að taka upp þykkjuna fyrir prestana þar sem þess ekki þurfti. Þú segir, að jeg hafi fært að prestastjettinni í greininni um kirkjuráðið í september, og jeg hafi þá grunaða um gæzku. Þetta finnst mjer nú ekki rjett hermt. Jeg ímynda mjer einungis, að prestarnir sjeu menn og mannlegum breiskleika undir orpnir. Jeg ímynda mjer, að hver ein stjett sem er, mundi draga sinn taum um of, ef hún mætti ráða lögum og lofum um sín eigin kjör. Eins og það er áríðandi í hverri frjálslegri stjórnarskipun, að jafnvægi sje milli stjórnaraflanna til þess að þjóðlíkaminn sje heill, og allir limir hans geti gegnt störfum sínum, eins er áríðandi, að jöfnuður sje milli valds og rjettinda hinna einstöku stjetta, og engri stjett sje gefið það vald, sem skerði rjettindi hinna stjettanna, og það er þetta sem danska frumvarpið um kirkjuráðið miðar til, og eru það því engin lastyrði um presta, þó jeg ætli, að þessi lög mundu verða þeim ofmikil freistni.

Það er hægt að sjá það á því, sem þú segir um verzlunina, að þú ert ríkur bóndi, sem er viss um að fá skildingnum meira fyrir pundið af vörunum sínum en allur almenningur. Þú segir, að það sje hollast fyrir mig að tala sem minnst um hana, að fæst orð hafi þar minnsta ábyrgð, það tjái ekki að deila við dómarann, og annað þessu líkt; en í þessu efni getum við ekki orðið ásáttir. Þú segir reyndar, að jeg skuli taka mjer í því efni Þjóðólf til fyrirmyndar, sem nærri því aldrei finni að kaupverði, en segi einungis, hvernig það sje. Mjer getur nú ekki fundizt betur en að blaðamaðurinn eigi í þessu efni að líta fremur á hag allrar alþýðu, heldur en kaupmanna; og hjer á landi er þó enn meiri þörf á að fá menn til þess með samtökum að sporna við því, sem er óhaganlegt landsbúum í verzluninni, en í útlöndum, því þar neyðir verzlunarkeppnin kaupmenn til að gjalda sanngjarnt verð fyrir vöruna og selja með svo góðum kjörum, sem þeim er unnt. Aldrei vantar það heldur í útlöndum, þegar kaupmenn nota sjer skort á einhverri vöru til að halda henni í ofháu verði, að blöðin sýni mönnum fram á hve ósanngjarnt verðið sje, og gefi einhver ráð til að ráða bót á því.

Þú sjerð nú, að jeg ekki fellst á aðfinningar þínar um Norðra, en þó ætla jeg að biðja þig framvegis að hafa vakandi auga á honum, og segja mjer til, þegar þjer finnst jeg vera farinn að segja eitthvað ósatt í áríðandi málefnum, en blessaður færðu sem beztar og gildastar ástæður fyrir aðfinningum þínum framvegis, því mjer fundust þær nokkuð ljettvægar í þetta skipti. Vertu nú sæll Sölmundur minn, og skrifaðu mjer sem fyrst aptur línu!

**Sv. Sk.**

---

## Brjef til landlæknis, dr. Hjaltalíns.

Hávelborni herra doktor!

Með þessu brjefi, er jeg set í Norðra, fylgir nú á prenti svar yðar til norðlenzku bændanna, og brjef það, er þjer skrifuðuð mjer um sama efni, og mæltust til að einnig yrði prentað. Þjer vitið að blað mitt er svo lítið, að mjer var ómögulegt að taka svo langa ritgjörð um svo sjerstaklegt efni inn í blaðið, enda var jeg ekki skyldur til þess. Þegar allir kaupendur Norðra fá svar yðar, þykist jeg hafa leyst hendur mínar.

Jeg sakna þess nú reyndar fyrir mitt leyti í svari yðar, sem mjer fannst helzt við þurfa, og það var, að þjer með vísindalegri röksemdafærslu hefðuð sýnt og sannað, að meðlækningar sjeu ónýtar, en þetta hafið þjer ekki gjört. Jeg hefi

enga ástæðu til að vera vilhallur í þessu máli, og jeg vildi einungis, að sannleikurinn yrði leiddur í ljós. Mjer virðist nú þetta svar yðar eins úr garði gjört og ritgjörð yðar í Þjóðólfi og grein norðanbændanna. Ástæðurnar, sem færðar eru af beggja hálfu, eru ekki aðrar en þær, að þjer skírskotið til vitnisburða mótlækna og þess, er tímarit þeirra segja um meðlækningar, en norðanbændurnir tilfæra aptur á mót vitnisburði meðlækna og tímarita þeirra. Sjerhver maður, sem ekki er kunnugur sjálfu málefninu, verður nú að álíta þessa röksemdafærslu af beggja hálfu jafngilda, það er að segja: alþýða og allir, sem ekki bera skyn á læknisaðferð þessa hvora tveggja, verða jafnnærri eptir sem áður.

Í svari yðar virðist mjer, að þjer gjörið yður ofmikið far um að verja lærdómspróf yðar og doktorsnafnbót; slíks þurfti engan veginn. Rit yðar og lækningar voru þar nóg vörn. — Þar sem að þjer í brjefinu til mín farið því fram, að meðlækningar sjeu eins mikil svik og ýmisleg hjátrúarlækning á miðöldunum, þá þarf slíkt sönnunar. Ekki virðist mjer heldur að mönnum — ekki einu sinni í yðar umdæmi — vilji skiljast það, sem þjer segið um lækningar meðlækna á barnaveikinni, því hingað koma þó ekki allfáir að sunnan, að leita hjálpar við henni hjá meðlæknum, og væri því öll þörf á, að þjer lýstuð enn nákvæmlega á prenti sjúkdómi þessum, af hverju hann kemur, hver ráð bezt eru við honum, og að hverju leyti meðöl meðlækna við honum sjeu háskasamleg. Þetta ásamt heppilegum lækningum yðar á barnaveikinni, mundi eflaust ljúka upp augunum á alþýðu í þessu atriði. Það sem þjer vitnið til orða dr. Schleisners um skaðsemi skottulækna, þá ætla jeg með vissu, að hann eigi þar ekki við meðlækna, því meðlækningar voru þá ekki farnar að tíðkast hjer til neinna muna. Hitt ætla jeg og nokkuð orðum aukið, að meðlæknar hjer gjöri sjer far um að níða mótlæknana, og ráði mönnum frá að brúka meðöl þeirra, því jeg hefi heyrt þá fúslega viðurkenna, að mótlæknar væru sjer fremri sem sáralæknar og í öðrum lækningum útvortis meinsemda.

Þegar þjer farið því fram, að meðlækningar sjeu einlægt að útkulna og verða fyrirlitlegri, þá furðar oss, sem ekki þekkjum neitt til lækninga, á því, hve kappsamlega þjer reynið til að bæla þær niður; því vjer ímyndum oss, að sje það satt, þá muni þær heldur ekki eiga langan aldur hjá oss. Oss getur ekki skilizt að meðlækningar sjeu heilsu og lífi manna hættulegar, og hitt virðist miklu sennilegra, að meðöl þeirra sjeu kraptlaus; en sjeu þau kraptlaus, en þó ekki hættuleg, þá er bezt að lofa fólki að reka sig á kraptleysi þeirra; menn kaupa ekki lengi þau meðöl, sem það reynist um, að þau gjöri hvorki til nje frá.

Það sem þjer talið um „lækningakrapt líkamans, er lækni fjölda sjúkdóma með tímanum, eins og af sjálfu sjer"; þá virðist mjer auðsætt, að þessi kraptur hjálpi yður og öðrum mótlæknum ekki síður en meðlæknunum, og verður þá engi sönnun dregin af því; ólíklegt virðist mjer að fjöldi manna hjer á landi hafi ímyndaða sjúkdóma; slíkt ætla jeg mjög ótítt hjá oss.

Þessar fáu athugasemdir bið jeg yður að virða vel sökum fávizku minnar; og það er innileg bón mín, í mínu eigin, og — jeg er viss um — margra annara nafni, að þjer skrifið næst svo um meðlækningar, að þjer takið fyrir og rekið sjálfa lærdóma þeirra, og það svo alþýðlega, að mjer og mínum líkum geti skilizt það.

Að endingu lýsi jeg því yfir, bæði við yður og aðra, sem rita vilja með og mót í þessu málefni, að jeg tek ekki annað um það í Norðra en stuttar ritgjörðir, sem skýra sjálft málefnið með ástæðum, teknum af reglunum fyrir sjálfri læknisfræðinni hvorri tveggja, en ekki þeim ástæðum, sem einungis eru vitnisburðir útlendra manna, en ekki byggðar á eigin reynslu.

**Sv. Sk.**

---

## Um póstgöngur.

Eitt af hinum mest áríðandi málum, sem komu fyrir á hinu síðasta alþingi voru, var málið um fjölgun á póstgöngum hjer á landi, og ætlum vjer nú að fara fáum orðum um það mál, og meðferð alþingis á því.

Það er orðið sannreynt á seinni tímum, að framför og menntun hverrar þjóðar er að miklu leyti komin undir því, hve hæglega hin andlegu og líkamlegu öfl þjóðarinnar geta náð saman; með öðrum orðum: eins nauðsynlegt og það er fyrir heilsu líkamans, að blóðið streymi reglulega í æðunum um hann, og að allir limirnir geti haft sína eðlilega hreifingu, eins nauðsynlegar eru samgöngur og samferðir fyrir þjóðlíkamann. Eins og verzlunin er nauðsynleg til þess, að mannkynið geti skipt þeim gæðum sem haganlegast með sjer,

er náttúran framleiðir, eins þurfa mennirnir að ná hver til annars til þess að geta miðlað hver öðrum andans ávöxtum. þó fjærvistir skilji menn og þjóðir að samveru og samtali, þá geta þó brjef, blöð og bækur flutt hugsanir vorar og andlega iðju til annara og hið sama frá þeim til vor aptur. Eptir því sem samferðirnar eru minni, eptir því dregst hver maðurinn, hver þjóðin meir út úr hinni almennu framför heimsins.

það er því ekkert, sem hinar menntuðu þjóðir nú á dögum kappkosta eins mikið og að hafa samgöngur innanlands og við útlendar þjóðir sem tíðastar og sem fljótastar. Öllu því sem hið sístarfandi hugvit mannsins hefur fundið, er fyrst og fremst beitt til að auka flýtinn. Gufuvagninn flýgur eptir járnbrautinni margar mílur á hverri klukkustundu og eptir rafsegulþráðunum þýtur frjettin land úr landi með flýti hugarins.

það er nú hvorttveggja, að vjer Íslendingar höfum lítinn afla til að keppast á við aðrar þjóðir í framförum í þessu efni, enda eru viðburðirnir æríð litlir. það er ekki að undra, þó útlenda menn furði á því, er þeir ferðast hjer á landi, að hvergi sjást mannaverk á vegum vorum. það má svo að orði kveða, að hestarnir gjöri veginn hjer en mennirnir ekki, því óvíða er gatan annað en troðningur eptir hestana. — En um vegleysið þyrfti nú að tala sjer í lagi. — þó að vegirnir sjeu nú eins og þeir eru, gætu þó samgöngurnar verið meiri og vissari en þær eru nú sem stendur. Stjórnin hefur nú reyndar verið farin að finna til þess, hversu póstferðum var hjer ábótavant, og hefur því leitað álits amtmanna um þetta mál fyrir nokkrum árum; en þó að amtmennirnir sjeu fyrir löngu búnir að senda stjórninni ýtarleg álitsskjöl um það — álitsskjal amtmannsins í Norður- og Austuramtinu er t. a. m. sent stjórninni 1852 —, þá liggur þó málið enn hjá stjórninni, án þess hún hafi borið það undir þau 2 alþingi, er síðan hafa verið haldin. það var því ekki vanþörf á, að alþingi sendi konungi bænarskrá um þetta málefni, og vonandi er að stjórnin finni það skyldu sína að láta það nú ekki lengur liggja aðgjörðalaust, þó að hún ekki hafi orðið við þeirri bæn alþingis, að bæta póstgöngurnar til bráðabyrgða undir eins þetta yfirstandandi ár.

Oss virðist nú sem alþingi hafa ekki tekizt mjög lipurlega með þetta mál. Fyrst gekk allt með himnalagi. Sjálfur konungsfulltrúinn var því meðmæltur, og 5 manna nefnd var þegar kosin, og samdi hún langt og snjallt nefndarálit. Við hina fyrstu umræðu mótmælti enginn aðalmálefninu, og engin breytingaratriði komu fram. En í ályktunarumræðunni lá við sjálft, að öllu málinu væri hrundið. Hinn 3. konungkjörni þingmaður rjeði frá að senda nokkra bænarskrá, 5 bændurnir snjerust allt í einu móti því, og töluðu langt og breitt um óbærilegan kostnað, sem það mundi olla landinu; þó oss virðist, að nógur tími hefði verið að tala um kostnaðinn, þegar frumvarp var komið frá stjórninni. þingmaður Strandasýslu hjelt að íslenzka stjórnardeildin mundi verða afarreið, ef póstagreiðslan væri lögð undir póststjórnina dönsku, en vjer ætlum, að hún mundi verða sárfegin; og við atkvæðagreiðsluna voru mörg merkisatriðin í nefndarálitinu felld.

Hið fyrsta atriði, er fellt var við atkvæðagreiðsluna var það, að aðalpóststjórn ríkisins skyldi framvegis taka að sjer öll póstmál á Íslandi. Vjer hefðum nú búizt við, að þingið mundi þakksamlega hafa fallizt á þessa uppástungu, því vjer álítum oss ekkert hagkvæmara eins og stendur, og vjer getum varla ímyndað oss annað en að þetta hefði fengizt. það er einkar áríðandi fyrir stjórnina sjálfa að lag komist á þetta mál, og þó að vjer vitum til þess, að hinn fyrverandi fjárstjórnarráðgjafi Sponneck vildi ekki fallast á þá tilhögun, þar eð gjört var ráð fyrir að póststjórnin yrði að skjóta nokkru fje til að minnsta kosti fyrst um sinn, þá var þó alllíklegt, að stjórnin hefði þó að lyktum fallizt á það, því póststjórnin sjálf var því ekki neitt fráhverf.

þegar nú þessu atriði var hrundið hefðum vjer ekki búizt við, að hið annað atriði yrði einnig fellt, að stofna póststjóraembætti í Reykjavík, og þó varð þetta niðurstaðan. En það virðist þó auðsætt, þegar búið væri að fjölga póstgöngum, þó ekki yrði meira að gjört en farið er fram á í nefndarálitinu, og þegar afgreiðsla pósta til allra hluta landsins ætti að vera í Reykjavík, að það yrði ókljúfandi ábætir fyrir embættismenn, sem hafa eins mörg og margháttuð embættisstörf á hendi eins og stiptamtmaður og landfógeti, að gegna þar að auki þessum sjerstaklegu póststörfum, svo í lagi færi; en ekkert er þó eins áríðandi, ef að fullt gagn á að hafa af fjölgun póstanna, en að afgreiðsla þeirra í Reykjavík gangi fljótt og vel, og sá maður, sem slíkt annast, sje bæði fljótur og leikinn í störfum sínum; og ekki efumst vjer um, að slíkur póststjóri yrði settur í Reykjavík, ef póst-

mál vor yrðu lögð undir póststjórnina í Danmörku.

Hið 3. atriði er hrundið var við atkvæðagreiðsluna var, „að hæfilegt gjald væri lagt á brjef og sendingar sem fara með póstskipinu milli Íslands og Danmerkur". Þar sem að hinar helstu mótbárur, er komu fram móti málefninu, voru þær, að fje mundi skorta til að koma málefni þessu í gott lag, þá gegnir það furðu, að atriði þetta skyldi falla, því óhætt ætlum vjer að fullyrða að gjaldast mundi að minnsta kosti 200 til 300 dala árlega til póstsjóðsins, ef þetta gjald væri lagt á, og vjer sjáum enga ástæðu til þess, að brjefskrifendur í Kaupmannahöfn og Reykjavík, sem mest nota póstskipsferðirnar, að minnsta kosti hvað sendingar snertir, hafi þetta hagræði fremur en aðrir, sem skrifast á í landinu sjálfu.

Þá var í 4. lagi fellt það atriði „að brjefburðarkaup yrði lækkað og látið vera jafnt, hvaðan sem er á landinu. Alstaðar, þar sem gott lag er komið á póstgöngur, er þessari reglu nú orðið fylgt, og reynslan hefur sýnt, að pósttekjurnar hafa aukizt við það en minnkað ekki; eins og oss líka virðist það ósanngjart, að þeir, sem brjef skrifa, þurfi að gjalda fjarlægðar sinnar frá aðalpóststjórn landsins."

Oss virðist þannig, að þingið hafi með umræðum sínum og atkvæðagreiðslu fremur spillt áliti nefndarinnar en bætt það með að fella þessi fjögur atriði, og að mjög litlar og veikar ástæður hafi komið fram móti þeim af þingmanna hálfu. En það er vonandi að stjórnin taki þau aptur eða að minnsta kosti sum þeirra upp í frumvarp sitt, sem vonandi er að komi fyrir á næsta þingi að sumri.

(Framhaldið síðar).

---

# Frjettir.

## Innlendar.

Síðan í miðjum septembermánuði, er hretið gjörði um gangnaleytið, hefur allt hingað til (í lok októbermánaðar) haldizt hin blíðasta sumartíð, svo að vjer munum ekki annað eins veður hjer á Íslandi nokkurn tíma um sama leyti.

Þess er áður getið, að hákarlsaflinn hjer við Eyjafjörð hefði verið hinn bezti í sumar. Í einum hrepp, Grýtubakkahrepp austanfjarðar var haldið út 7 skipum til þessara veiða og fengu formenn skipanna:

Þeir bræður Guðmundur Jónasson á Steindyrum og Þorsteinn bróðir hans á Grýtubakka, er stýrðu hinu svonefnda Bræðraskipi fengu til hlutar . . . . . . . . . 592 kúta lifrar
Oddur Jónasson á Hvammi, er stýrði þiljuskipi . . . . . . . . 502 ——
Jón Loptsson í Grenivík . . . 361 ——
Jörundur Jónsson á Grímsnesi . 310 ——
Sigurður Jónsson á Látrum . . 232 ——
Jónas Jónsson á Látrum fjekk að sögn fram að slætti . . . . . 160 ——
Magnús Eyjólfsson á Stærraárskógi 60 ——

Þegar nú gjört er ráð fyrir að 14 hlutir sjeu á skipi hverju eins og er hið algengasta, og hin áðurtalda hlutarhæð á hverju skipi er margfölduð með hlutatölunni 14, hafa komið á land í þessum hrepp 31,038 kútar lifrar.

Þegar nú gjört er að 40 kúta lifrar þurfi í lýsistunnuna, hafa af þessum 7 skipum fengizt 776 tunnur lýsis, og, ef að kaupmenn hafa gefið 27 rd. fyrir tunnuna, sem er næsta lítil borgun, eptir því sem annarstaðar hefur verið gefið, hafa þessi 7 skip fengið lýsi fyrir 20,952 rd., og er það fjarska mikið í einum hrepp.

Hákarlamenn þessir hafa þannig tapað 776 rd. á að selja lýsi sitt á Eyjafirði í staðinn fyrir á Siglufirði, og 1552 dölum meira hefðu þeir fengið fyrir það eptir verðlagi því sem á því var á Ísafirði, og ef verðið á því í Kaupm.h. hefur orðið 44 rd. fyrir tunnuna, geta þeir sjeð hvort ekki væri tilvinnandi fyrir þá að flytja sjálfir þessa vöru sína til útlanda.

Fjórða skipinu var hætt að halda úti seint í júnímánuði, en hinum 3. fyrstnefndu ekki fyr en seint í ágústmánuði.

Vjer vildum nú biðja þá, sem stunda hákarlaafla vestanfjarðar og annarstaðar hjer í sýslu að senda oss sem greinilegastar skýrslur um þetta efni, því það getur verið öðrum til upphvatningar, þegar menn sjá, hversu þetta hefur vel gengið, hjer við Eyjafjörð. Líka vildum vjer fá skýrslu um hið sama frá Ísafirði, og vjer skulum gjöra oss far um að fá rjett að vita, hvernig þessi vara vor selzt erlendis í vetur.

Þökk eiga bændur vorir skilið fyrir það, að þeir ljetu hjer sláturfje í kaupstað með minnsta móti í haust, en hitt virðist oss ráðlegt, að sveitamenn vilja heldur selja kaupmönnum kjötið en bæjarbúum hjer, þó að þeir borgi það út í hönd, sama verð í peningum. Sumir hafa það orðtak, „að

þeir þurfi að hugsa um blessaðan kaupmanninn sinn“! Aptur má telja það kaupmönnum til lofs, að þeir eru hjálpsamir með að miðla bæjarbúum nokkru af kjötinu, án þess þeir hafi neinn hagnað af því.

---

### Við Langanes 22. ágúst 1854.

1. Mitt á bláum marar bylgjum staddur
mæni jeg ennú til þín, fóstra kær!
af forlaga kaldri skipun kvaddur
keppist þó að verða langtum fjær.
Hreint forgefins harma dylja reyni
þá hverfa lít frá tárum skyggðri sýn
þig, sem æ frá ungdóms blautu beini
barst og nærðir mig á skauti þín.

2. Þegar fagra fjallatinda þína
að fullu og öllu hylur bólginn sær,
glöggt eg finn að geðstillinning mína
gripið svo sem einhver leiðsla fær.
Spurning þessi vakir mjer á vörum,
von og ótti hvar um þrætast á:
Hvort mun samvist okkar fullt á förum?
og fyrsta og hinnsta skilnað hjer að sjá?

3. Hvurt mun jeg þar háir boðar freyða
hitta minn þann síðsta værðar stað,
eða dögum æfi minnar eyða
útlægur frá þjer, — jeg veit ei hvað —
Skal jeg eiga í skauti systra þinna
skila mínum síðstu leyfum hjer,
og svo djúpt í iðrum landa hinna
eptir bíða því, er síðar sker.

4. Nei, jeg vona, vil og bið jeg fái
að vitja þín, mitt kæra fósturland!
þótt jeg hinna sælukosti sjái
sinni mínu trauðla breytir grand.
þótt um tíma verði jeg fjærri vinum,
að vinsemd ekki — heldur bara' að sýn,
óska jeg þú, en ekki neitt af hinum,
allra síðast geymir beinin mín.

5. Bezta fóstra, mín og bræðra minna,
meðan tími lifir þinn og vor,
blessist fjöldinn fóstursona þinna,
farsæld auðgi sjerhvert þeirra spor!
Já, á meðan land og þjóðin lifir,
lifi tími heilla og farsældar!
Herrans blessun hvíli jafnan yfir
hverjum einum, sem að byggir þar!

6. Forlaganna stríður rennur straumur
með ströndum bröttum dimmrar hjervistar
og tíðum hvellur tilfellanna glaumur
tvístrar því, er áður saman var.
Mig í burtu bera vindar stríðir
á bylgjum ólgnum hverfur sjón inndæl.
Missi þínum mikið þó jeg kvíði,
jeg má ei bíða lengur, vertu sæl!

**J. M.**

---

## Mannalát.

29. ágúst næstliðinn andaðist einn hinn bezti og að maklegleikum vinsælasti höfðingi hjer á landi, Hannes Stephánsson Stephensen á Ytrahólmi, prófastur í Borgarfjarðarsýslu. Ættmenn hans margir hafa lengi verið prýði lands vors og miklir höfðingjar, en engan þeirra þekkjum vjer, sem var jafnvinsæll honum, og enginn hefur af þeirri ætt verið slíkur þjóðvinur sem hann. Hann var að allra rómi einhver hinn bezti og þjóðhollasti þingmaður, og gegndi forsetastörfum á alþingi, og fórst honum það allt ágætlega. Vjer vonum að þjóðólfur, sem hægt á með að fá að vita þau atriði, er bæði snerta hið elskulega heimilislíf hans og hin opinberu störf, er hann tók þátt í, muni lýsa því betur en oss er unnt að sinni.

Hjer á Akureyri sálaðist fyrir skömmu Lárus timburmaður Jónsson, ungur maður og efnilegur.

(Aðsent)

### Um fráfall stúdents og alþingismanns Guttorms Vigfússonar á Arnheiðarstöðum, er andaðist hinn 14, september 1856,

Eptir allþunga banalegu nokkuð á þriðja misseri hvíldi guð hann nóttina milli hins 13. og 14. dags næstliðins septembermánaðar, 52. ára gamlan. þenna síðastnefnda dag voru auk læknis G. Hjálmarssonar nokkrir fleiri helztu vinir hins framliðna, bæði innan- og utansveitar, nálægir á heimili hans; og flutti þá þegar fornvinur hans, prófastur sjera Stefán Árnason á Valþjófsstað til hans skilnaðarkveðju. Mánudaginn hinn 22. september var lík hans hafið út úr húsum þeim, þar sem guð hafði svo lengi og farsællega blessað hann, en líka látið hann kenna þar á raunum lífsins, einkum heilsubresti og ástvina missi, er hann — auk sinna sælu foreldra, hafði þar orðið að sjá á eptir, hálfvaxinni efnilegri dóttur og 2 ástríkum ektakvinnum, hverri eptir aðra — sjálfur áður fyrri legið fleiri stórlegur, varla úr rekkju risið eptir að seinni kona hans ljezt í fyrra sumar, er hún nokkru áð-

ur hafði alið honum son, 10. barn hans sem lifði hann. Húskveðjur fluttu prestarnir sjera Einar í Vallanesi og sjera Jón á Klifstað, og lýstu því í þeim gagnort og ástúðlega, hvílík eptirsjá þeim og öðrum nánum vinum og vandamönnum og kunningjum hins framliðna í honum væri, og hvílíka elsku og virðingu hann hefði af þeim öllum átt skilið fyrir þá uppbyggingu, gagn og gleði, er þeir svo títt hefðu uppskera mátt af hans hollum ráðum, vinsamlegum og skemmtilegum viðræðum og lofsverðum dygðum og dugnaði. Næsta dag fór fram greptrunin að Valþjófsstað; og þótt mjög fáir væru tilkvaddir, voru við hana staddir víst stórthundrað manns. Flutti þá fyrstur í kirkjunni hjeraðsprófastur sjera Halldór Jónsson á Hofi aðallíkræðuna, er samfara andríkri málsnilld, bar með sjer hreinskilna sannleikselsku og viðkvæma hluttekning í missi syrgjandi ástmanna. Orð þau, er hann hann hafði valið sjer til heimfærslu við þetta tækifæri, standa í Davíðsálmi 116 v. 15. Eptir að prófasturinn hafði lokið ræðu sinni fyrir altarinu, gekk að líkkistunni sjera Hjálmar á Hallormsstað og las upp af blöðum það er hugur hans bauð; flutti svo presturinn sjera Einar Hjörleifsson aðra ræðu, og heimfærði í henni þau hin helgu orð: „að þeir færu hjeðan í friði, er hefðu fram gengið fyrir guðs augliti“.

Með þessum hætti var þá heiðruð útför þess manns, er sem alþingismaður var orðinn kunnugur um allt þetta land — mátti teljast með þess beztu og skylduræknustu húsfeðrum, og þess duglegustu og fyrirsjónarsömustu búmönnum —, og hverjum Múlaþing mun lengi eiga mikið að þakka sem forseta þeirra búbótafjelaga, er hann þar var frumkvöðull að; enda hafði hann af guði þegið loflegt atgjörvi sálar og líkama, var einarður í að bera fram vel meintar hugsanir sínar við hvern sem í hlut átti, og honum yfirhöfuð mjög tamt og lagið að láta í ljósi öðrum til uppbyggingar sitt trúrækna hugarþel.

---

## Um uppeldi barna.

(Framhald). Sum börn eru fædd með tunguhandi, það er að skilja, að tungan er of föst í neðri góminum, svo að barnið hefur ekki nóg afl til að sjúga. Ef ekki er gjört við því, getur það seinna hindrað málfærið. Frá þessu skal segja lækninum og á hann hægt með að losa tunguhandið.

Að börn stama eða eru blest, kemur optast af illum ávana, sem aðgætin barnfóstra á hægt með að venja af. Frá því barnið fer fyrst að tala skal venja það á að tala hægt og rjett.

Ef að sjón barnsins er veik, er því opt hætt við, að verða rangeygt. Þegar ljósið fellur opt á það öðru megin, eða ef að bandhnútur er um ennið nær öðru auganu, verður því hætt við að renna augunum rangt, og verður því að varast allt, er slíkir gallar geta leitt af. Það verður eins að kenna barninu að horfa eins og að tala. Það verður að halda því laglega móti birtunni, og þeim hlutum sem það er látið horfa á, og halda þeim mátulega langt frá barninu, svo að það verði að neyta jafnt beggja augnanna. Menn eru sjaldan rangeygðir af náttúrunni, heldur kemur þess konar nærstum ætíð af skeytingarlausri meðferð.

### Um siðferðislegt uppeldi barna.

Vjer höfum sagt að hin fyrsta skylda móðurinnar væri, að annast um heilbrigði barnsins; hin næsta skylda hennar er að ala það svo upp, að það verði blíðlynt og ástúðlegt, að tilhneigingar þess og venjur verði góðar; þetta innibindst í hinu siðferðislega uppeldi. Það er mjög áríðandi að móðirin eða barnfóstran hafi gát á þeim reglum er til þessa eru nauðsynlegar.

Menn verða að gaumgæfa það nákvæmlega, að maðurinn hefur undir eins og fer að brydda á skynseminni, ýmsar tilhneigingar og eptirlanganir, sumar, er fóstran á að uppörfa og gjöra barninu að vana, og sumar, er þarf að bæla niður, barninu og þeim, sem ásamt því lifa í heiminum, til góðs. Hið síðartalda kemur optast fyr í ljós. Það kemur optast fyrst í ljós hjá barninu að berja þann, sem hjá því er, og taka af honum, það er óbilgjarnt, fíkið, grimmt og ákaft, og allt þetta kemur í ljós fyr en það fer að sýna hinar betri tilfinningar, nema, ef til vill, að það er gott við þá, sem það er vant að þiggja velgjörðir hjá. Hið fyrsta, sem að þarf að gæta í uppeldinu, er að eyða þess um vondu tilhneigingum og brjóta þær undir vald venjunnar, en aptur á mót að glæða og gjöra því að vana hið gagnstæða, blíðlyndi, rjettlæti og sjálfsafneitun. Foreldrar sem annt er um þetta atriði, ættu kostgæfilega að varast að fá ekki börn sín heimskum og óreglusömum hjúum til meðferðar, Einnar viku röng meðferð á barninu hjá þess konar hjúum, getur ónýtt alla kostgæfni móðurinnar, og barnið getur fengið þá skaplöstu, sem allt uppeldi seinni áranna getur ekki burt numið,

Mæður og barnfóstrur skulu gaumgæfa þau atriði, er nú skulu talin:

Barnið hljóðar venjulega til þess að fá það, sem það vill; því skal ekki komið á þennan illa vana, með því að láta ætíð undan því; ef það er gjört, verður barnið kenjótt og keipótt; og spillir það seinna meir siðferði barnsins.

Með þolgæði og stillingu, með blíðlegu viðmóti, augnaráði og orðum á að láta barnið smám saman komast að raun um, að það á ekki að fara eptir hverri hinni fyrstu tilhneiging sinni, og að það sje nauðsynlegt sjálfu því til góðs, að það geti stjórnað sjer, og þetta getur jafnvel barni skilizt.

Hvort sem skapbrestir barnsins eru að erfðum teknir eða komnir fyrir ávana, skal bera þá með umburðarlyndi og allra bragða leitað, nema hörku, til að venja þá af. Það er hin mesta villa, þegar foreldrarnir reyna til að stjórna

börnunum með ótta, með hótunum um refsingu, höggum, hörðum ávítum eða reiðisvip. Barnið ætti aldrei að heyra hart orð og aldrei vera barið. Það á að stjórna því með ást en ekki með ótta, með góðu eptirdæmi og hægum áminningum, en ekki með hörðum orðum og fyrirskipunum. Sumir foreldrar segja, ef til vill, að þeir geti ekki stjórnað börnum sínum nema með því að hegna þeim; en þetta er sjálfum þeim að kenna, því fyrst gjöra þau börnin óþæg með því, að hnekkja ekki með blíðu óhlýðni barnsins, þegar hún fer fyrst að koma í ljós, og síðan refsa þau þeim fyrir, að búið er að gjöra þau óþæg.

Ástin á því að vera það, sem hvetur til og stýrir barnauppeldinu. Þegar ástin ræður hjá foreldrinu, mun hún einnig hafa áhrif á hugarfar barnsins, og brýtur hún niður alla sjálfselsku. Þó að lunderni manna sje ólíkt, þó að gáfurnar sjeu misjafnar, og hagur manna ýmislegur, þá er hin mikla skylda manna í lífinu hin sama — sú að efla heill og hagsæld meðbræðra vorra. Það eru fáir brestir, og, ef til vill, enginn, sem ekki hefur áhrif á velfarnað annara eins og sjálfra vor; hver sem bætir sjálfan sig, bætir því mannfjelagið, og hver og ein móðir, sem upp elur barn sitt vel, hjálpar áfram hinum almennu framförum til fullkomunnar.

(Framhaldið síðar).

---

# Auglýsingar.

Af því að jeg undirskrifaður ferðast nú með briggskipinu Herthu til Kaupmannahafnar og býst við að verða þar í vetur, kveð jeg hjermeð alla skiptavini mína og húsbónda míns, herra Gudmanns, og vona að sjá þá aptur að vori komanda, og vona jeg þeir allir haldi áfram að verzla við hins áðurnefnda herra kaupmanns verzlun hjer á staðnum.

Yðar velviljaður kunningi

H. Johnson.

Til minnisvarða yfir læknir sál. E. Johnsen hafa enn fremur gefið: sýslumaður herra Jóhannes Guðmundsson 5 rd. Læknir herra J. Skaptason 10 rd.. Sjera Kristján Þorsteinsson á Völlum 2 rd. Herra S...... 10 rd., sem samlagt við áðurkomna 163 rd., er alls 190 rd.

Undirsrifaður hefur nýlega látið prenta lítið rit, sem kostar 20 sk. í kápu með þessum titli: **Afmælisdagur í 12 stundum.** Athugagreinar á afmælisdegi manns. Það er kafli úr dönsku riti, sem heita mundi á voru máli Leiðtogi manns í lífinu (Veilederen paa Livets Bane). Líki mönnum þessi kafli ritsins, skulu þeir fá það sem eptir er af því í bækling, sem jeg er enn eigi búinn að skíra. Það sje sagt „Leiðtoganum" til gildis, að Fogtmann byskup á Fjóni hefur ritað formála fyrir honum, og kveður hann svo að orði á einum stað „það eru kjör og kostir þessar bókar, að hún inniheldur skipulegt safn af fögrum og sönnum hugsunum, af góðum og heilsusamlegum lærdómum, sem geta verið til leiðarvísis og uppörfunar og huggunar fyrir hvern þann, sem svo er að sjer, að lesið getur góða bók".

Akureyri fyrsta vetrardag 1856.

Svb. Hallgrímsson.

Með þessu blaði Norðra fylgir ókeypis til áskrifenda hans „Svar til Homöopathisku bændanna á Norðurlandi" eptir dr. Hjaltalín.

Akureyri 30. október 1856.

Sv. Sk.

Hjer frá prentsmiðjunni er nýkomin út ritlingur, sem nefnist „Hjaltalín og Homöopatharnir", ein örk í tólfblaðabroti, og fæst hún hjá undirskrifuðum til kaups innfest fyrir 8 skildinga.

Akureyri 30. október 1856.

Sv. Sk.

Í prentsmiðjunni á Akureyri fæst til kaups: **„Nýtt STÖFUNARKVER handa börnum"**, 3 arkir, fyrir **16** sk. í stífu bandi. Hver, sem kaupir **6** og stendur skil á andvirðinu, fær hið **7.** í kaupbætir.

Akureyri 31. október 1856.

I. Ingimundarson.

Jeg undirskrifaður gjöri það almenningi augljóst, að fjármark mitt er „Sneitt framan hægra, og biti aptan, en stýft vinstra og biti framan", svo menn eigi glæpist á að trúa því, sem hin nýprentaða markaskrá fyrir Eyjafjarðarsýslu segir í því tilliti.

Hvanneyri 1. október 1856.

Jón Sveinsson.

---

Ríkur maður nokkur enskur hjet þeim manni 400 dala launum árlega alla æfi sína, er vildi lifa 10 ár í jarðhúsi og sjá enga lifandi skepnu, og láta hár sitt, skegg og neglur vaxa allan þenna tíma. Hann ljet nú búa til jarðhús og flytja allt þangað, er maður gat óskað sjer. Þar voru böð, hljóðfæri, bókasafn og beztu drykkir og krásingar. Þetta var auglýst í enskum blöðum og margir komu, er kváðust fúsir til þessa. Sá sem kosinn var, er nú búinn að vera 8 ár í jarðhúsi þessu.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI.

## 1856.

4. ár. Nóvember. 21.—22.

### Fjárkláðapestin.

Um fjárkláðapestina, sem nú gengur um mestan hluta Suðurlands og nokkurn hlut Vesturlands höfum vjer fengið þessar frjettir. Í vor eð var fór að brydda á fjárkláða í Miðdal í Mosfellssveit, og skipaði stiptamtmaður landlækni vorum að skoða hann. Skoðun þessi fór fram 6. maí, og voru þá, eptir því sem næst varð komizt, 20 kindur með kláða á þessum bæ. Landlæknirinn rjeði til að skilja þær undir eins frá, halda þeim út af fyri sig, og bera í þær kláðasmyrzli unz kláðinn væri horfinn. Daginn eptir skrifaði hann stiptamtmanni þess efnis, að þó hann gæti ekki álitið kláða þenna hættulegan, þá væri hann þó varúðarverður. Hann rjeði til að setja niður nefnd manna, er skyldi sjá um, að kláðinn væri með öllu horfinn áður en rekið væri á fjall. Stiptamtmaður breytti þessu á þann hátt, að hann skipaði hreppstjóranum í Mosfellssveit að hafa gætur á þessum fjárkláða og skýra síðan frá hvernig gengi. Snemma í júlímánuði skrifaði nefndur hreppstjóri landlækninum, að kláðinn væri horfinn, og ný ull komin á kindurnar. Þegar leið á sumarið reyndist þetta öðruvísi, því þá var bæði kláði kominn í búsmalann í Miðdal, og líka sást kláði á kindum, sem komu af afrjett. Um rjettirnar kom þetta allt betur í ljós, og skrifaði landlæknirinn þá aptur stiptamtmanni, að bráðasta nauðsyn væri að lækna þetta kláðafje sem fljótast, og rjeði enn til að setja niður nefnd til að annast um, að því yrði framgengt. En stiptamtið skipaði þá að skera niður allt kláðafje. Þetta eru nú aðgjörðir yfirvaldanna syðra. En fremur má geta þess, að landlæknirinn og Teitur Finnbogason dýralæknir hafa gefið út „Stuttan leiðarvísi til að lækna fjárkláða“.

Þegar einhver þau bágindi bera að höndum meðal siðaðra þjóða, er ógna öllum landsbúum eða miklum hluta þeirra með atvinnubresti, er það hin fyrsta skylda hverrar góðrar stjórnar að reyna til að koma í veg fyrir slíkt og ráða bót á því. Þannig hafa Englendingar, þegar verzlunarkeppnin eða önnur tilefni hafa ollað því, að einhverjar iðnaðarvörur þeirra hafa lækkað svo í verði, að þeir, er að þeim unnu, gátu ekki haft ofan af fyrir sjer með athöfn sinni, sent verzlunarflota sína um allan heim til að leita nýrra markaða fyrir vöruna, og koma henni þannig aptur í sitt náttúrlega verð; þannig hafa Frakkar, þegar uppskeran hefur brugðizt heima hjá þeim, numið burt öll bönd á kornaðflutningum, og uppörfað til þeirra á allar lundir, og frelsað landið þannig frá hungri og mannfalli. Þetta eiga stjórnirnar að gjöra, og þetta láta þær sjer einkar umhugað um.

Stjórn vor Íslendinga er nú því miður svo fjarlæg oss, að vjer náum ekki til hennar, þegar skjótra úrræða þarf við, og er þá ekki ætíð sjálf sem fljótust til úrræðanna. En þegar svona er nú ástatt, er því meiri nauðsyn á, að þeir, sem völdin hafa á hendi hjer í landi, grípi fljótt og vel í strenginn, og velji þau ráðin, sem hollust eru fyrir land og lýð.

Aðalatvinnuvegur allra Íslendinga sem í sveitum búa er fjárræktin, og mikill fjöldi af þeim, sem við sjó búa, hafa landbúnaðinn og fjárræktina sjer og sínum til uppeldis samhliða sjóarútveginum. Sauðfjenaðurinn er mesta og bezta eign Íslendinga. Af honum fæðast þeir, og af honum klæðast þeir. Það er því ekkert sem hnekkir framförum vorum í góðum búnaði og velmegun eins og fjárpestin, ekkert sem eins vafalaust leiðir af sjer örbyrgð og mannfelli eins og ef skeytingarleysi og sjerhlífni fá ollað því, að þessi drepandi óvættur útbreiðist á landi voru, og ekkert stjórnleysi og ráðleysi er eins hryggilegt og það að reyna ekki til að drepa hann í fæðingunni.

Fjárkláðapestin sem gekk hjer á landi frá því fyrir 1769 þangað til 1779 var búinn að ganga á 4. ár áður en kom út tilskipunin af 12. maí

1772, sem fyrirskipaði hið einasta meðal, sem að vorri hyggju dugir við slíkri næmri pest, og það var að drepa niður allt fjeð sem veikt var orðið, og þó varð þessi pest ekki upprætt fyr en 7 árum seinna, þegar búið var að drepa niður mesta fjölda fjár í miklum hlut landsins.

Vjer getum nú ekki sagt, að hve miklu leyti hægra kann að vera að lækna þessa pest en hina fyrri, en þó að fjenaðurinn yrði læknaður, þykir oss allólíklegt, að það fje verði nokkurn tíma aptur jafngott, eins og einnig virðist líklegt, að lömb þau, sem kæmu undan fje, er hefði haft slíka veiki, yrðu að öllu leyti lakari og óhraustari, svo að fjárbragðið, ef til vill, á öllu landinu spilltist.

Þó að vjer fúslega viðurkennum, að landlæknir vor hafi gjört það sem í hans valdi stóð með því að reyna til að kenna mönnum þá aðferð, er hann ætlar duga muni til að lækna pest þessa, og að hann hafi gjört það eptir beztu samvizku, þá vildum vjer óska, að hann hefði ekkert skrifað og ekkert ráðlagt í þessu efni, og að stiptamtmaður hefði borið betri umhyggju fyrir þessu máli en hann hefur gjört; því ekki verður því neitað að afleiðingarnar eru mjög sorglegar af ráðstöfunum þessum, og að það er þeim ráðstöfunum að kenna, að fje er nú orðið veikt meira og minna um allt Suðurland; því líkindi eru til að pestin hefði ekki náð að útbreiðast, ef drepið hefði verið undir eins í vor það fje sem veikt var orðið í Miðdal, og svo alstaðar þar sem á þessari drepsótt hefði borið, og skaðinn því minni sem fyr hefði verið byrjað að skera.

Það var nú varla von, að vjer Norðlendingar mundum sleppa við þessa pest, enda hefur spurzt, að hún sje nú komin í Hrútafjörð og Miðfjörð. Sýslumaðurinn í Húnavatnssýslu hefur nú reyndar gripið til skjótra ráða, og skipað að skera hið veika fje niður, og hefur hann síðan eptir skipun amtmanns sett nefndir í hverjum hrepp til að skoða fjeð iðuglega, og láta drepa allt sem sýkist, og Húnvetningar hafa tekið vel undir það, og er vonandi að þar verði höfð sú árvekni sem hægt er til að stöðva pestina, og vera má að þetta dugi ef veikin hefur ekki náð mikilli útbreiðslu.

Álit vort um þetta mál er það, að bezta ráðið og hið einasta, er dugi, sje að strádrepa niður allan fjenað þar sem hún byrjar; og þó að t. a. m. þyrfti að drepa allan fjenað í þremur hreppum þá er slíkt ekki áhorfsmál, ef maður getur með því frelsað heilar sýslur; og jeg efast ekki um að fjöldi manna hjer í norður og austursýslum mundi verða til að hjálpa þeim með kindur, sem fyrir því yrðu að þurfa að skera niður. Það er einkar áríðandi, að menn varist sem mest allar samgöngur milli fjár úr þeim sveitum, sem pestin er farin að ganga í, og þeim sem enn eru lausar við hana, og ættu nefndirnar, sem settar eru til að skoða fjeð, líka að hafa vakandi auga á því, að þessa væri gætt sem bezt auðið er.

Vjer vonum, að Norðlendingar láti sjer nú víti Sunnlendinga í þessu efni að varnaði verða, og að engi sjerhlífni komi mönnum til að vanrækja boð yfivaldanna um fjárskurðinn, og að gott og fast samheldi hafi þann árangur, að fjárpestin nái ekki að útbreiðast víða hjer hjá oss

---

## Um fiskiverkunarpláts á Dýrafirði.

Frakkar hafa nú seinustu árin gjört ýmsar tilraunir til að fá að eignast lóð á Dýrafirði, byggja þar hús og setja þar fólk til að verka saltfisk. Þeir halda út fjölda fiskiskipa hjer við land árlega, en neyðast til að salta hann jafnóðum niður, og geta ekki þurrkað hann fyr en þeir koma heim til Frakklands. Það má geta nærri, eptir allt sem Þjóðólfur er búinn að segja oss um dýrð þá og vegsemd, er Napóleon sýndi háum og lágum syðra, að sumir hafi tekið það svo, að hann hefði í hyggju að koma sjer í mjúkinn við landsmenn, svo að þeir yrðu fúsari til vináttu við Frakka, og stæðu ekki móti þessu fyrirtæki þeirra, og þetta er nú allíklegt. En sumir hafa leitt meira af þessari ferð hans. Í brjefum, sem skrifuð eru úr Reykjavík, og standa í danska blaðinu F æ d r e l a n d e t, eru settar fram allrahanda getgátur um ferð Napóleons, og látið í veðri vaka að Frakkar muni ekki einungis ætla að þurrka fisk sinn á Dýrafirði, heldur muni þeir og ætla að stofna þar herskipahöfn, og fá Ísland hjá dönsku stjórninni o. s. frv. — Þessi hlæilegu brjef hafa nú gefið tilefni til þess, að herra Þorleifur Guðmundssen Repp kallaði Íslendinga, sem í Kaupmannahöfn voru, til fundar til þess að semja bænarskrá, er senda átti hingað og safna undirskriptum undir, og leggja svo fyrir konung til að afstýra þessum háska.

Uppástunga herra Repps fór fram á, að biðja konung og dönsku stjórnina að banna öllum framandi þjóðum að stofna slík fiskiverkunarpláts, sem það er Frakkar hafa óskað að stofna á Dýrafirði;

að stjórnin bannaði öllum Íslendingum að selja jarðir sínar frönsku stjórninni eða hennar erindisrekum, og að hún afhendi þeim ekki Ísland, hvað sem í boði sje, Íslendingar ytra felldu nú uppástungu herra Repps á fundi, svo það er vonandi, að þessi hlæilega bænarskrá komist ekki lengra.

Það var einhver hin óskanlegasta og eðlilegasta afleiðing frjálsu verzlunarinnar, að útlendar þjóðir, sem í svo mörg ár hafa sent hingað undir land fjölda skipa til fiskiveiða, notuðu sjer frjálsu verzlunina til að setjast hjer að, taka þátt í verzluninni hjer, og bæta úr þeim óhag, er þeir hafa haft af því að vera útilokaðir frá að mega þurrka afla sinn á landinu, og vjer þekkjum engi lög, er banni þeim að kaupa eignir af Íslendingum, ef þeir vilja selja, og að setja sig niður sem borgarar í landi voru, hvort sem þeir starfa að kaupskap eða fiskiveiðum. Það er auðvitað, að vjer getum lært mikið af þessum útlendu þjóðum, í dugnaði og kunnáttu í ýmsum greinum, og teljum vjer það ekki með skaða vorum.

Það einasta, er stjórnin virðist þurfa í þessu efni, er að leyfa Frökkum að sigla beinlínis til Dýrafjarðar, án þess að þeir þurfi að sigla á hina 6 staði, sem getur í verzlunarlögunum, og að hún gjöri það að skilyrði, hvort sem Frakkar setjast þar niður margir eða fáir, að þeir gangi undir landslög. Ef að margir Frakkar settust þar að, þyrfti reyndar, að styrkja lögreglustjórnina, svo að ekki þyrfti að óttast, að þeir gjörðu nokkrar óspektir, því eptir því sem sagan í Þjóðólfi um slaginn við Bjarna segir, virðist hætt við, að kotbændum þættu þeir ríkir í hjeraði. Kostnað allan, sem þyrfti til að halda lögreglu við, ættu þeir sjálfir að bera.

Vjer höfum minnst á þetta málefni, því að vjer vildum ekki að það sýndist, sem vjer Íslendar værum svo hræddir við hinar eðlilegu afleiðingar verzlunarfrelsisins, að vjer færum að biðja stjórnina að bægja útlendum þjóðum frá landinu, því henni mætti virðast þess konar bæn undarleg, þar sem allir Íslendingar í svo langan tíma hafa samhuga beiðst eptir verzlunarfrelsinu, og ef hún færi að taka þessa bæn vora til greina, væri það ekki nema til að bera að oss böndin aptur. Sú eina ástæða sem oss virðist móti því, að stjórnin verði við þessari beiðni Frakka, hefur enn ekki komið fram og hún er sú, hvort ekki sje hætt við, ef að Frakkar tækju mjög að auki fiskiveiðar sínar hjer við land, að þeir mundu draga til sín alla fiskverzlunina, þar eð enginn gæti keppt við þá, og taka svo sjálfir að flytja fiskinn til Spánar og spilla þar markaði fyrir oss.

---

(Aðsent).

Það er gleðilegt að sjá og vita framfarir í dugnaði og kunnáttu í góðum og þarflegum fyrirtækjum á föðurlandi voru, og þegar þess konar fyrirtækjum er haldið áfram með staðfestu og hyggindum, er það ætíð áreiðanlegt, að þau geta átt sjer langan aldur, og orðið landinu til hins mesta gagns og sóma, þegar fram líða stundir. Aðalatvinnuvegir Íslendinga eru eins og allir vita fjárrækt og fiskiveiðar. Til þess að bæta fjárræktina er landsbúum einkum nauðsynlegt að kappkosta að auka grasvöxtinn, og gjöra allt til, að heyskapurinn verði sem mestur, og gangi sem greiðast. En til þess í annan stað að efla fiskiveiðarnar er landsmönnum einkum áríðandi, að efla og tryggja sem mest mega þeir skipaútbúnað sinn og önnur veiðarfæri, því eins og máltækið segir, að „svipull er sjóarafli“, eins er jafnan hættara við, að sjómenn verði fyrir snögglegum sköðum; og það er tilgangur minn með línum þessum að vekja athygli manna á því, hvernig þeir menn, er stunda hákarlaveiðar hjer um Norðurland, sem hafa nú á seinustu árunum reynzt mjög arðsamar, gætu gjört þann atvinnuveg sinn svo óhultan, að þeir leggðu ekki árar í bát, þó einhver óhöpp bæru að höndum.

Hákarlaveiðunum hefur farið svo fram nú á fáum árum hjer í kringum Eyjafjörð, að það sýnir berlega hverju dugnaður og kunnátta fá orkað, þó ekki sje fjárafli mikill, þegar byrjað er. Það er ekki langt að minnast síðan menn komust ekki lengra en 10 til 12 vikur undan landi eptir hákarlinum, og fengu jafnast eigi meira en 20 til 30 kúta í hlut, eða tæpa lýsistunna yfir vorið; því að ekki varð róið nema þegar bezt var veður, og það gjörðu ekki nema sárfáir menn í heilum veiðistöðum, en nú sýna blöðin, hvernig þetta hefur gengið þessi seinustu árin, og er vonandi, að því fari ekki hnignandi.

Það sem mjer virðist mest áríðandi til þess að tryggja þenna atvinnuveg er það, að allir sem stunda hákarlaveiðar hjer um svæði í kringum Eyjafjörð og í Siglufirði og Fljótum, stofnuðu einn eða fleiri sjóði til þess að bæta þeim að nokkru leyti, er yrðu fyrir stórsköðum; því fyri mörgum er svo ástatt, að mesta og verulegasta eignin er í skip-

inu, og tapist skipið, er atvinna mannsins farin, þó að hann komist lífs af, og ef hans missir einnig við, vantar konu og börn, ef til vill, nauðsynlegt viðurværi. Stofnun slíkra sjóða er einnig því nauðsynlegri, að ekki er hægt að fá ábyrgð á skipum þessum í ábyrgðarsjóðum erlendis.

Um það, hvernig stofna skyldi slíka ábyrgðar- eða hjálparsjóði, hefur mjer hugsast, að það yrði bezt á þann hátt, að allir sem eiga skip eða part í skipi, vildu skuldbinda sig til að gjalda í þenna sjóð á hausti hverju 1 ríkisdal af hverri lýsistunnu, er þeir hefðu fengið það ár frá hausti til hausts, og hver hlutarmaður, sem á væri skipunum 48 sk. af lýsistunnu hverri, er í hlut-kæmi; og eins skyldu skipseigendur, sem hefðu vinnumann sinn á skipi sínu, greiða 48 sk. fyrir hann, ef hann tæki hlut, og svo, hver annar, er gjörði mann út til þessara veiða. Þetta mundi skjótt verða allmikið fje, en gjaldendur stæðu þó allir jafnrjettir eptir sem áður; en því vil jeg láta skipseigendr greiða meira að tiltölu, að þeir eiga meira í hættu, ef óhöpp vilja til, og ættu því einnig að líkri tiltölu að fá meiri styrk úr sjóðnum, þegar við þyrftu.

Hvort sem þessir sjóðir yrðu nú stofnaðir einn eða fleiri ætti öngan veginn að ákveða fyrir fram, hve stórir þeir skyldu vera, áður en farið væri að snerta þá, því menn yrðu án efa fúsari til að leggja sinn skerf til þeirra, þegar þeir vissu, að hjálp fengist undir eins úr þeim og brýn nauðsyn þætti til bera. Á hinn bóginn ætti að ákveða nákvæmlega í hverjum tilfellum, og að hverri tiltölu hjálpa skyldi úr þeim, svo menn ættu að vísu að ganga, hvenær hjálpin fengist, og ekki ætti að hjálpa, nema þegar skaðinn á skipi eða veiðarfærum væri svo mikill, að það virtist stórkostlegur hnekkir fyrir atvinnuveg hlutaðeiganda, ef hann ætti af eiginn ramleik að ráða bót á honum. Ætíð skyldi og hjálpa, þegar maður tapast af skipi, sem á eptir konu og börn, og er fátækur.

Stjórnendur þessa sjóðs hjer í Eyjafirði ættu að vera amtmaður og sýslumaður, og hinn þriðji einhver kaupmanna á Akureyri eða einhver annar dándismaður, helzt sá, sem ekki ætti sjálfur þátt í hákarlaveiðum.

Óskandi væri að þjer landar góðir, sem hlut eigið að máli, gæfuð gaum að þessu, og gjörðuð eitthvað í þessu efni fljótt og vel. Ísfirðingar eru fyri nokkrum árum búnir að stofna slíkan ábyrgðarsjóð innbyrðis, en jeg þekki því miður ekki nógu vel, hvernig þessari stofnun þeirra er til hagað, og get því ekki skýrt frá því. Hugsið eptir því, sem hlut eigið að máli, að maður veit ekki nær þörfin kann að bera að hendi, en „gott er að gjöra vel og hitta sjálfan sig fyrir“.

---

## Tvö einföld ráð.

við andarteppuveiki barna (**Strubehoste**), sem þeir gætu reynt, sem engin meðöl hafa, eða þegar þau, þó til sjeu, reynast ónóg.

1.

Heitir bakstrar tilbúnir úr hveitibrauði og mjólk leggist yfir framanverðan hálsinn eða hóstið, og skal jafnframt gefa barninu heita drykki, helzt af sykurvatni. Við þetta á hóstinn að breytast í hættulausan kvefhósta, og þannig að verða komið í veg fyrir hinn rjettkallaða andarteppuhósta. (Dr. **Goelis** í **Wien**).

2.

Heitt vatnsbað um framhandleggina, sem þangað leiðir blóðsóknina, en varnar henni að hálsinum. Barnið er látið halda handleggjunum upp að ölnbogum niðri í svo heitu vatni, sem það þolir, í 10 mínútur, og er það ítrekað einu sinni á hverri hálfri stundu meðan þurfa þykir (Dr. **Grahl**, Hamborg, **Hufel. Journal**, 10. b., bls. 126).

Þetta síðar nefnda ráð var að minni áeggjun einu sinni reynt við andarteppuhóstanum, þar sem engin meðöl voru við höndina, og batnaði fljótt af því, og eins kynni að vera um hið fyrnefnda, væri það við haft í tíma. En vel mun þurfa að búa að þeim böðuðu pörtum á eptir, að ekki komi að þeim kul, skal því halda á þeim svo notalegum og náttúrlegum hita, sem verður, nokkra daga eptir að batnað er.

Bikplástur, milli herða lagður, á að varna því, að barnið fái aptur veikina.

Grenjaðarstöðum, 28. október 1856.

M. Jónsson.

---

## Um póstgöngur.

(Framhald). Hin einstöku atriði um það, hvernig haga skyldi póstgöngunum voru nú betur af hendi leyst af hálfu alþingis. Þingið biður reyndar ekki nema um 6—8 póstgöngur um landið, en hið minnsta, er oss virðist menn geta komizt af með, er 8, og öll nauðsyn á, að þær væru 12. Ferðirnar ættu allar að byrja frá Reykjavík, og setjast í samband við póstskipskomurnar sem ná-

kvæmast. Frá Reykjavík ætti að senda brjefin til Norður- og Vesturlandsins að Hvammi í Norðurárdal, og ættu þau að mæta þar póstunum frá Norður- og Vesturlandinu, er þá snern við norður og vestur með brjef þau, er sunnan kæmu. það getur virðst efunarmál, hvort ekki ætti að hafa sýslupósta, það er að skilja þannig, að engi póstur færi lengra en yfir eina sýslu, og svo tæki nýr við, en þó það væri unnið með því, að pósturinn og hestar hans yrðu óþreyttari, og hann gæti því haft hraðari yfirferð, þá er aptur á hinn bóginn hætt við, að af því leiddi töluverðar tafir á póststöðvunum, og að sá, sem við ætti að taka, væri ekki ætíð til búinn, o. s. frv., svo að oss virðist þó, að betra væri að hafa sama póstinn yfir lengra svið viðlíka og nú er. það sem einkum virðist áríðandi er að póstferðirnar verði jafntíðar til allra sýslna í landinu, því að öðrum kosti hefur ekki öll alþýða gagn af póstferðunum, en þeim ætti að haga svo, að þær væru ekki eingöngu til að flytja embættisbrjef, heldur gætu gefið sem flestum kost á að nota þær til brjefaviðskipta. Til þessa er það nauðsynlegt, að þær nái sem jafnast til allra, og að brjefburðargjaldið sje hið sama frá öllum sýslum landsins, því það hvetur menn mjög til brjefaskriptanna.

það eru gjörðar ýmsar uppástungur í 3. ári Norðra, 3. og 6. blaði þess árs, um það, hvernig greiða skuli kostnað þann, er leiði af að fjölga póstgöngunum, enda virðist eptir ræðunum á alþingi, að eitthvert ráð þurfi að finna til að bera þenna kostnað, að svo miklu leyti sem tekjurnar vaxa ekki að sama hófi, sem varla er við að búast sízt fyrst í stað. Af því sem hinn heiðraði höfundur þeirrar greinar telur upp, virðist oss árennilegast það ráðið að leggja toll á áfenga drykki, og því var miður, að slíkt var ekki gjört, þegar verzlunarlögin voru gefin; því af þeim tolli mætti hafa töluverðar tekjur, og ekki er ólíklegt, að hann mundi hnekkja nokkuð ofdrykkjunni, og væri hann þá til mikils góðs. Oss virðist og einnig gott fyrir landa vora, að lagður væri tollur á suman annan óþarfa, t. a. m. tóbak og jafnvel kaffi, en það er vonandi, að ekkert af þessum tollum þurfi á að leggja til að geta bætt póstgöngurnar, því stjórnin hlýtur að sjá, hversu ómissandi það er fyrir sjálfa hana að verja nokkru fje til þess að geta haft stöðug og viss afskipti af Íslandi, einkum nú síðan að frjálsa verzlunin byrjaði, og að hún dragi Ísland inn undir póststjórn sína, og komi á reglulegum gufuskipaferðum til Íslands að sumrinu til. Vjer fulltreystum því, að það líði ekki á löngu, áðr en póststjórnin fengi allan kostnað sinn endurgoldinn, og þó að vjer ættum að leggja nokkuð í sölurnar til þess að fá þessu áríðandi máli komið í gott lag, væri þeim kostnaði, sem til þess gengi, vel varið.

Bændur vora og einkum þá, er á alþingi sitja, biðjum vjer að taka frændur sína í Noregi sjer til fyrirmyndar, þegar þeir eiga að ræða um þau mál, er miða til þess að bæta samgöngurnar, og að spara þar ekki fje sitt nje vinnu. Norðmenn hafa nú einlægt, síðan þeir fengu að miklu leyti að stjórna sjer sjálfir, á hverju ári varið ærnu fje til að bæta veguna hjá sjer, og bændurnir hafa stutt það mál fremstir í flokki. Í Noregi er margfalt örðugra að gjöra vegu, og lögun landsins er svo háttað, að allar samgöngur eru þar miklu örðugri en hjá oss, en þó hafa Norðmenn sigrast á öllum þessum örðugleikum, og hinar miklu framfarir sínar á seinni tíð eiga þeir mest að þakka því, að þeir með kappi byrjuðu á því að bæta veguna og auka samgöngurnar, því samgöngurnar lífga og glæða allt fjör hjá þjóðunum.

---

# Frjettir.

## Útlendar.

Með póstskipinu höfum vjer fengið brjef og útlend blöð, en allítið frjettnæmt. Friður er alstaðar þar er til spurðist. Rússar eru stöðugt að leita allra undanbragða til að uppfylla ekki friðarskilmálana og finna sjer margt smátt til, en Englendingar og Frakkar halda svo vel saman að ólíklegt er, að Rússar reyni að halda þessu til þrautar.

Á Spáni er stjórn O' Donnels einlægt að hnigna, og varla er ætlandi, að hann geti haldið völdum í vetur. Hann stendur mjög einn síns liðs, því „framfaraflokkurinn“ (Progressister), sem hann skauzt úr, og rauf heit sín við í sumar var, vill ekki sættast við hann, en hinir nýju vinir hans hans hafa ekkert álit á sjer. Hann hefur því reynt til að sætta sig við klerka og konungsflokkinn, og ætla menn því, að hætt verði að selja kirkjueignirnar, og að Spánn komist aptur í sátt við páfa.

Úr Danmörku berast þær frjettir, að ráðgjafarnir voru á förum, og kom það mönnum mjög óvart, því eptir að ráðgjafarnir í fyrra voru dæmd-

ir síknir saka af ríkisdóminum; og eptir að alríkislögin voru komin á, ætluðu menn að ráðgjafaskipti mundu verða miklu sjaldgæfari, enda þykja þeir, sem nú eru, einna bezt til kjörnir, þykja og frjálslyndir dansklundaðir menn, svo trautt er völ á betri af þeirra flokki. Engar tilgátur voru enn um það hverjir líklegastir þættu til að koma eptir þessa ráðgjafa, ef þeir færu. Ekki vita menn heldur mikið um, hvað veldur ágreiningi þeim, sem orðið hefur meðal ráðgjafanna, og sem kom fjárstjórnarráðgjafanum Andræ til að segja sig úr völdum. Sumir kenna þetta leyndarráði konungs Scheel, ráðgjafa í Holsetulandi og yfir utanríkismálefnunum. Hann er mjög handgenginn konungi, og þykir vera mega, að hann hafi orðið þeim meðráðgjöfum sínum drjúgur í ráðunum, svo að þeim hefur þótt betra að draga sig í hlje. Ráðstefnuforsetinn P. G. Bang bar fyri sig heilsulasleik, er hann sagði af sjer.

Uppskeran hafði orðið hin bezta, og korn var því fallið niður í 8. dali um það leyti að póstskipið fór.

Á ferð voru í Danmörku Karl undirkonungur í Noregi, elzti sonur og ríkiserfingi Oskars Svíakonungs. Hann var gjörður undirkonungur í vor, og hefur hann nú ferðast um allan Noreg í sumar, og aflað sjer hinna mestu vinsælda, svo að Norðmenn eru frá sjer numdir af fögnuði yfir honum. Hann fjekk hinar beztu viðtökur hjá konungi vorum eins og nærri má geta, og stúdentar færðu honum ávarp til þakklætis fyrir gestrisni hans í sumar, er þeir voru á Uppsalaferð sinni. Napóleon keisarafrændi, er hjer var í sumar, og minnst er á í Þjóðólfi, var einnig kominn til Kaupmannahafnar, og ætlaði þaðan 29. sept. Honum tók konungur vor einnig með hinum mestu virktum, en ekki vitum vjer hvort Napóleon hefur beðið konung um Ísland í þessari ferð.

## Innlendar.

Veðráttan hefur enn verið hin bezta til þessa tíma (26. nóv.), og það er ekki nema rúm vika síðan snjór kom á jörð. Af suðurlandi færði Þjóðólfur oss engar frjettir nema um fjárkláðann og barnaveikina, og segir dr. Hjaltalín að illa gefist meðöl meðlæknanna við henni þar sem þau hafi verið reynd, og slíkt hið sama skrifar hjeraðslæknir Skúli Thorarensen ábyrgðarmanni Þjóðólfs, hvernig sem nú á því stendur.

Að vestan er oss skrifað, að sumartíðin hafi verið hin bezta, grasvöxtur góður á túnum, en lakari á engjum, nýting hin bezta. Hákarlsafli rjett góður á þiljuskipum, og höfðu sum fengið hátt á annað hundrað lifrartunnur. Fiskiafli góður í vor í fjörðunum, en lakari við Ísafjarðardjúp. Hvalur var róinn á land í Dýrafirði seinast í ágústm., og voru á honum 510 fjórðungar af spiki; höfðu Arnfirðingar skutlað hann, en hann smogið úr greipum þeim. Það er furða hvað litla viðburði Íslendingar hafa við að skutla hvali. Þeir koma þó opt inn á fjörðu, og eru góð og stór veiði, ef menn bæru sig vel eptir henni.

---

### Konunglegur dómur.

*Þegar „Don Pedro“ að viðurnefni hinn rjettdæmi, ríkti í „Portugal“ bar það við að klerkur nokkur voldugur reiddist svo orðum skóara eins, að hann ljet drepa hann. Sonur hins drepna bar mál þetta á hendur prestinum fyrir andlegrar stjettar dómi, sem lög stóðu til. Dómendur drógu mútaum klerksins, og dæmdu hann einungis til þeirrar refsingar að hann skyldi ekki mega flytja messu árlangt. Syninum þótti nú súrt í brotið og skaut máli sínu undir konung. Konungur kvað þegar dóminn mjög ranglátan, þar eð refsingin væri svo miklu minni en sakir hefðu verið til, en kvaðst þó ekki geta ónýtt dóminn, því hann hefði ekki vald til breyta dómum klerka, eins og tíðkast í katólskum löndum.*

*Fáum dögum síðar gekk prestur þessi ásamt öðrum klerkum í hátíðagöngu*[1] *um borgina, og lág leiðin fram hjá höll konungs, og gekk konungur með hirð sinni út á svalirnar. Sonur skóarans var og þar nærstaddur, og þá er presturinn nálgaðist hann, hljóp unglingurinn að honum og rak klerkinn í gegn fyr en nokkur gat bjargað honum. Alla undraði slíkt fólskuverk; og hann var þegar haldinn, og skipaði konungur undir eins að draga veganda bundinn fyrir sinn dóm, og spurði hann, hvernig hann hefði dirfzt að gjöra slíkt hryðjuverk.*

*„Hvernig dirfðist presturinn að láta myrða föður minn?“ svaraði ungmennið. „Jeg leitaðist við að ná rjetti mínum að lögum, og þegar jeg fjekk því ekki fram komið, áleit jeg skyldu mína að ná honum sjálfur.*

*Þeir sem dæmt höfðu prestinn, og aðrir vinir hans, fluttu það nú fyrir konungi, að vegandi hefði áður náð rjetti sínum, því presturinn hefði liðið þann dóm að mega ekki flytja neina messu í heilt ár.*

*Konungur hlustaði þegjandi á málssókn þeirra, sneri sjer síðan að vegandanum og spurði hann, hverja iðn hann hefði.*

*„Jeg er skóari“, svaraði drengurinn.*

*„Þá banna jeg þjer“, mælti konungur, „að starfa nokkuð að skósmíði í heilt ár; en forlayseyri*

[1]) Hátíðagöngu (Processio) kalla menn, þegar klerkar í katólskum löndum ganga um borgir með helga dóma, eða því um líkt.

*fyri þig þenna tíma skal greiða af dánarfje prests-ins. Þetta er minn dómur!“*

## Um uppeldi barna.

(Endir). Foreldrið og barnið eiga að hafa traust hvort til annars. En það getur ekki orðið, þegar foreldrið er eins og löggjafari og dómari, sem ekki hefur neina meðaumkun, sem ekki getur grátið og vonað með þeim er misgjört hefur. Þessi fáu orð: „það hryggir mig að þú ert reiður; reyndu að vera gott barn, og jeg skal hjálpa þjer; þurrkaðu af þjer tárin og segðu mjer hvað að þjer gengur“, eru líklegri til að leiða barnið á rjetta götu, og sefa reiði þess heldur en harðar skipanir eða köld aðfinning. Ekkert er fegurra en að sjá hegðun barns, sem er alið upp í skjóli elskunnar. Þegar það kemur meðal ókunnugra er það ófeimið og óhrætt, það tekur vel á móti öllum, leitar gleðinnar og finnur hana í hverjum hlut, og með hverjum sem það er; hvað lítið, sem því er gjört til eptirlætis, tekur það því þakklátlega. Eins og aðrir hafa hryggst og glaðst með því, eins hefur það næma tilfinningu fyrir sorg og gleði annara. Allir leikir þess eru lausir við duttlunga og eigingirni, hugurinn er starfsamur og kjarkmikill, og ánægjan skín á andliti þess.

Sjáum hið gagnstæða, barnið, sem stjórnað er með ótta. Það þorir ekki að horfa á mann, og dregur sig í hlje, þegar á það er litið, það hjalar ekki af sjálfu sjer, eins og hitt barnið, því hjá því streyma hugsanir og tilfinningar af vörunum; það hefur ekki sannarlega ánægju af neinu, því það hefur einlægt einhvern ótta, að það muni gjöra eitthvað eða tala, sem það verði sneypt fyrir, eða ef það gleður sig yfir einhverju, þá er það þegjandi; hjarta þess er einstæðingur, og þetta leiðir barnið smátt og smátt til að hugsa einungis um sjálft sig. Hreinskilnin er kostur, sem börnunum er eiginlegur, hana á að glæða hjá þeim. Þau eru sjálfum sjer svo ónóg, að það er eðli þeirra að leita trausts og trúnaðar. Þau hafa enga ástæðu til að leyna neinu, nema þá sem óttinn kennir þeim.

Hin mesta og almennasta villa við barna-uppeldið er það að láta vel að þeim aðra stundina og sneypa, þau svo annað veifið. Það er alvenja, að börnin eru stundum kysst og kjössuð, og allt látið eptir þeim, og hina stundina hrakyrt og lúbarin. Sumar mæður vefja barnið sitt í faðmi sínum aðra stundina, og svala reiði sinni á því rjett á eptir. Af óstillingu ber hún barnið fyrir hvað lítið sem því verður á, og aumkast síðan yfir það, og fer að klappa því og kyssa. Allt þetta er mjög rangt, og háskalegt fyrir lunderni barnsins. Foreldrar minnist þess, að dæmið gjörir mikið að verkum til að kenna barninu vonda og góða siði, og að það er áríðandi, að þeir sem takast á hendur barnauppeldi, þekki sjálfa sig og geti stjórnað sjer. Önnur villa er að hafa uppáhaldsbörn. Sumir halda svo mikið upp á eitt barnið af því það er elzt, eða heitir einhverju vissu nafni, að allt er látið eptir því, en hin börnin öll látin sitja á hakanum. Mörg óvild hefur sprottið af því að foreldrarnir hafa gjört sjer barnamun, og er slíkt foreldrunum æ til minnkunar. Öll börn sömu foreldra, hvort sem eitt er gáfaðra eða efnilegra en annað, hvort sem sveinbarn er eður meybarn, skyldi uppala með sömu umhyggju og blíðlæti.

Börnin eru af náttúrunni sannsögul. Náttúran lýgur ekki. Ekkert skyldi gjört, er kemur barninu til að draga dulur á sannleikann. Glæddu hjá því ást á sannleika og hreinskilni og að játa afbrot sín. Það er grátlegt að vita hvaða skelfilegar lygar barninu eru sagðar til að hræða það, svo að það sje spakt og hlýðið. Heimskt fólk hræðir börnin með grýlu, jólasveinum og öðru þessar konar til þess að fá börnin til að liggja kyrr í rúminu. Það er sannreynt, að börn hafa dáið, fengið flogaveiki eða orðið vitstola af slíkum hjegiljum. En þó það nú ekki gjöri svo mikið að verkum, þá hefur það aðrar vissar afleiðingar. Ef barnið verður þess vart, að logið er að því, hirðir það ekkert um hótanir, verður óþekkara og keipóttara heldur en nokkurn tíma áður, trúir engu, sem því er sagt, og þegar það sjer, að aðrir hafa enga virðingu fyrir sannleikanum, hættir það líka að meta hann nokkurs.

Það er einkar áríðandi að halda orð sín við barnið, ef því hefur verið lofað einhverju, og halda því fast fram að barnið hlýðnist því, sem fyrir það hefur verið lagt. Ef að móðirin kemur barninu upp á að óhlýðnast boðum sínum, er hún öldungis óhæf til að ala það vel upp. Hún skal bæla niður óhlýðnina hjá því með stillingu og festu.

Hjá sumum börnum kemur grimmlegt hugarfar snemma í ljós. Þau kvelja smákvikindi, rífa í sundur, brjóta og bramla allt sem þau geta. Þegar svo er, verður móðirin að glæða hina gagnstæðu tilfinningu, Hún verður að sjá um að barnið fái ekki tækifæri til að efla þenna skáplöst, og láta það sjá, að sjer mislíki við það. Ekkert er betra til að venja barnið af slíku, en að láta það hafa eitthvað að starfa, sem meinlaust er. Það á að sýna því, hvernig fara eigi með skepnurnar, og má hafa til þess barnagull, hesta, hunda eða ketti úr trje og því um líkt, og kenna barninu að gefa því að jeta, láta vel að því, og taka leikfangið frá því, ef barnið ætlar að taka til að fara illa með það. Aldrei ætti að láta barnið sjá, þegar mýs eru veiddar í gildru eða þegar drekkt er hvolpum og kettlingum, þau skilja ekki hvers vegna þetta er gjört, skilja ekki hvað skepnurnar líða, þegar þær deyja, en hafa einungis gaman af að sjá það, og venjast þannig á að horfa á kvalir og dauða eins og einhvern leik.

Móðirin kennir barninu opt ofsa og reiðigirni af fávizku einni.. Ef að barnið rekur sig á stól eða borð, segir hún því að berja borðið. Þetta gjörir barnið hefnigjarnt, og þegar barnið er orðið fullvaxinn maður, þolir það engar mótgjörðir. Aldrei skal segja barninu að berja neinn hlut; ekki skal heldur segja því að sneypa eða hrakyrða neinn hlut, sem það meiðir sig á, miklu framar skal kenna því að fyrirgefa mótgjörðir, og líða með þolgæði, og sýna öllum gott og þægilegt viðmót.

Öll börn þurfa að skemmta sjer, Frá því fyrst þau geta farið að taka eptir hlutunum, sem í kringum þau eru, hafa þau gaman af leikföngum, myndum, og öllu, sem gleður auga þess eður eyra.

Að leika sjer að barnagullum er ekki einungis skemmtun fyrir barnið, heldur má kalla að það sje hinn rjetti starfi fyrir það. Annað eins og trjespítur til að byggja sjer hús úr, eða spald með stíl við, getur verið nóg skemmtun fyrir barnið langan tíma. Bækur með fugla og dýramyndum eru líka mjög hentar, því þær leiða barnið til að

spyrja, og gefa þannig foreldrinu færi á að fræða barnið um margt, sem því er gott að vita.

Það má líka hafa barnagullin til þess að kenna börnunum reglusemi, aðgætni og stillingu. Þegar maður venur barnið á að láta sjer lynda með eitt leikfáng hóti lengi, verður það seinna meir ánægðara með hlutskipti sitt, án þess að öfunda aðra, er fleira og meira hafa. Reglusemina má kenna því með að venja það á að láta leikföng sín hvert á sinn stað, þegar það er búið að leika sjer, og mun það einnig hafa áhrif á hið seinna líf þess.

Stúlkubörnum er vant að þykja mjög vænt um brúður, og kemur það af náttúru kvenna að þykja vænt um börn; auk þess sem brúðurnar skemmta þeim, geta þau lært nettleik af að klæða og afklæða brúðuna.

Þess er áður getið, hve nauðsynlegt það er að kenna börnunum snemma að vera þrifin. Þetta ættu menn að innræta þeim sem fyrst. Líka ætti að kenna þeim sem fyrst að matast eins og fullorðið fólk, og hegða sjer rjett, þegar til borðs er setið.

Til þess að leiða í ljós kosti og ókosti hins unga barns, þarf það að geta lifað og leikið með jafnöldrum sínum, hvert barn sem ekki á kost á þessu er mjög aumkunarvert. En hvergi er hin leiðandi hönd skynsamrar móður eins nauðsynleg eins og til þess að kenna barninu elskuverða umgengni við leiksystkyni þess. Meira eða minna af áhrifum þeim, sem barnið fær í umgengni við sína líka á bernskuárunum, fylgir því í öllu lífi þess.

---

Lesendur góðir! Jeg hefi nú endað þetta ágrip af enskri ritgjörð um barna-uppeldi, sem er ágæt að mínum dómi. Jeg vona að sumir kaupendur Norðra hafi haft þolgæði til að lesa hana, þó að hún sje nokkuð löng, og jeg er sannfærður um, að mörg ein móðir á landi voru getur haft gagn af henni, ef hún les hana með íhugun. Það er fátt, og ef til vill ekkert, sem er eins nauðsynlegt og að ala börnin upp hraust og heilbrigð á sál og líkama, og þó að jeg fúslega viðurkenni, að marga af löndum mínum vanti efnin en ekki viljann til að gjöra það vel, þá er hitt víst eins satt að marga vantar lag það og kunnáttu, sem til þess þarf, og margt loðir, ef til vill, enn eptir frá gömlum tímum, af venjum manna við barna-uppeldið, sem ekki er gott, og aldrei hefur verið það. Jeg endurtek þau orð ritgjörðarinnar, og brýni þau fyrir lesendum mínum, að það er **ástin en ekki óttinn, sem á að stýra barna-uppeldinu**, og ef þessi hin rjetta regla er undir eins við höfð, sem börnin fara að skynja nokkuð, þá er það sannfæring mín, að ekkert barn hafi þá meðfædda skaplöstu, er betur verði niðurþaggaðir með öðrum aga.

**Sv. Sk.**

---

## Spurningar.

Hefur nokkurn tíma verið skotið saman fje hjer á landi, og stofnaður sjóður til að styrkja það fyrirtæki að gefa út hin evangelisku smárit? Ef að þessi sjóður hefur verið stofnaður, til hvers er hann þá nú hafður, hverjar reglur eru fyrir brúkun þess fjár, og hverjir eru stjórnendur þessa sjóðs, og hve stór er hann?

**Sv. Sk.**

---

## Ræða grábróður nokkurs fyrir ræningjum.

Grábróðir nokkur var á ferð, og urðu á leið hans ræningjar, er settu byssu fyrir brjóst honum og heimtuðu fje hans af honum. Munkurinn spurði þá, hvort þeir vissu ekki, að grábræður hefðu bundið það heit, að snerta aldrei við peningum, og því síður flytja það með sjer, en fyrst að hann hefði nú ekki fje til að seðja ágirnd þeirra, þá bauð hann þeim að halda fyrir þeim ræðu, er gæti sefað hana, og þeir fjellust á það, því þeim þótti þetta nýstárlegt: Grábróðirinn hóf svo ræðu sína: „Mínir elskanlegir! Þegar jeg athuga lífskjör yðar og frelsara vors, þá virðist mjer þau mjög lík. Hann var mjög fátækur, það eruð þjer einnig. Gyðingar hötuðu hann og ofsóktu; allir menn í þessu landi hata yður einnig og ofsækja yður. Hann var álitinn svikari; og yður halda menn þjófa og morðingja. Hann hafði engan stað, er hann gæti höfði sínu að hallað; þjer hafið heldur engan vissan samastað, svo að skógarnir eru yðar heimili, og úlfarnir yðar fjelagar. Loksins sveik einn af lærisveinum frelsarans hann, svo hann kom á vald óvina sinna; og sömu mun verða örlög yðar fyrir svik einhvers fjelaga yðar. Hann var dreginn fyrir Pílatus; þjer munuð líka verða fluttir fyrir dómara. Hann var dæmdur til að þola krossins dauða, og þjer munuð verða hengdir á gálga. Hann steig niður til helvítis; þangað munuð þjer einnig koma. En heyrið nú tvennan stóran mun milli yðar og hans. Hann var ranglega ákærður og ljet líf sitt saklaus fyrir syndir alls mannkyns; en þjer munuð verða ákærðir með órækum vitnum, og líða dauða fyrir yðar eigin syndir. Hann gekk sigrihrósandi úr helvíti; en þjer munuð brenna þar frá eilífð til eilífðar, amen“.

Ekki segir sagan, hvernig ræningjunum hafi fallizt þessi ræða í geð.

---



---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

// NORÐRI.

1856.

4. ár. Desember. 23.—24.

## Um undirbúningsskóla á Norðurlandi.

Vjer þurfum ekki að eyða mörgum orðum til að segja skólasögu vora Íslendinga, því þetta efni er svo ágætlega útlistað í öðru ári Nýrra Fjelagsrita, að vjer höfum þar engu við að bæta, og vjer vonum, að flestir lesendur vorir hafi kynnt sjer þessa fróðlegu ritgjörð. Tilgangur vor með línum þessum er einungis að leiða athygli Norðlendinga og Austfirðinga að því, hversu vel þeim nú er borgið með endurbót þeirri, sem skólinn í Reykjavík hefur fengið, og hversu auðvelt þeim sje að fá hlutdeild í henni, og að nota sjer þenna eina skóla svo sem þörf þeirra krefur.

Vjer þurfum nú ekki að eyða mörgum orðum til að sýna og sanna hve, hart Norður og Austurland hefur orðið út undan við það að skólinn á Hólum var lagður niður. Afleiðingar þess hafa ekki komið glöggt í ljós fyr en nú síðan að skólinn var fluttur frá Bessastöðum til Reykjavíkur, og afleiðingarnar eru nú orðnar þær, að nú læra mjög fáir að norðan og austan, og að tala þeirra sem læra er einlægt að minnka, og það sýnist að svo muni fara smátt og smátt, að skólinn verði næstum einungis fyrir Reykjavík og næstu sveitirnar, því svo er orðið dýrt að lifa í Reykjavík, að það má telja óvinnandi verk að kosta þar pilt til lærdóms frá hinum fjærliggjandi stöðum á landinu. Þó að vjer nú fúslega viljum játa að skólinn hafi batnað síðan hin seinasta breyting var gjörð á honum að því leyti að fleira er kennt, og sumar vísindagreinir ef til vill vandlegar en áður, þá ætlum vjer, að margir sjeu oss samdóma í því, að flutningur skólans hafi verið oss Íslendingum hinn óhollasti, og eitthvað hið versta, er gjört hefur verið í seinni tíð, síðan að skólarnir í Skálholti og Hólum voru lagðir niður og allt dregið suður. Í hinum mikla endurbætta skóla í Reykjavík eru nú rúmir 30 lærisveinar, færri en nokkurn tíma voru á Bessastöðum seinustu árin, svo að til vandræða virðist horfa með tímanum að fá menn í hin fáu embætti hjer á landi.

Útlendir menn hafa allt til þessa borið það lof um oss Íslendinga víða út um heim, að alþýða vor væri skynsamari og menntaðri en í flestum öðrum löndum, og þetta hafa þeir gjört með rjettu. Þetta hefur nú komið til af því, að áður var svo auðvelt og kostnaðarlítið að leita sjer menntunar, að margir gjörðu það, og gátu gjört það einungis af vísindalöngun, og án þess að setja sjer embættisveginn fyrir mark og mið. Margir stúdentar hafa búið búi sínu sem bændur, og vakið með dæmi sínu og kenningu fróðleikslöngun hjá hinum bændunum og bændaefnunum, og prestarnir vörðu svo litlu til náms síns, að þeir ljetu sjer lynda hin tekjulitlu embætti sín, og voru sjálfir eins og bændurnir, þegar lærdómurinn var frá skilinn; og engri stjett er hið góða orð, sem alþýða vor hefur haft á sjer fyrir námfýsi og fróðleik, eins mikið að þakka eins og hinni fátæku prestastjett vorri, sem hefur lifað með alþýðunni í blíðu og stríðu, og haft við hin sömu kjör að búa.

Þessu er nú allt öðruvísi háttað. Hinn venjulegi skólatími er nú 7 ár, og það er óhætt að fullyrða, að sá maður, sem senda vill son sinn til menntunar syðra hjer úr Norðurlandi, verði að kosta til þess, þegar ferðakostnaður og bókakaup eru með talin, 200 dölum á ári, eða 1400 dölum frá því pilturinn kemur í skóla og þangað til hann tekur burtfarpróf, auk þess kostnaðar, sem hann hefur fyrir að láta kenna honum undir skóla, sem er ekki all-lítill, eptir því hvað skólameistarinn virðist heimta mikið af piltum sem koma í skóla, en það virðist nú reyndar nokkuð mikið í samanburði við það sem fyrir er skipað í skólareglugjörðinni. Þegar kostnaðurinn er nú svo mikill, er von að þeir, sem setja sonu sína til mennta, vilji láta þá ganga embættisveginn, og bætist þá við 5 til 6

hundruð dala kostnaður til að læra á prestaskólanum, eða annars margfalt meira, ef faðirinn vill kosta son sinn til siglingar. það kostar því 2000 ríkisdali að læra til prests auk heimaskólakennslu, og liggur það í augum uppi, að það eru ekki margir, sem hafa efni á að setja sonu sína til bóknáms, og að bændasonum velflestum er þannig sjálfbannað að læra, og að þessi kostnaður er allólíkur því er var á Bessastöðum, því þar lærðu margir, er ekki höfðu annað með sjer að leggja en sumarkaup sitt, enda hrökk það næstum til, þegar pilturinn var kominn á hálfa ölmusu.

því örðugra sem það er nú þannig orðið að afla sjer menntunar í hinum lærða skóla, því meiri nauðsyn er á því, að einhver skóli væri, þar sem unglingar gætu þó fengið nokkra menntun, bæði þeir undirbúning undir skólann syðra, er menn hjer nyrðra vildu láta læra, og aðrir þá menntun, sem hverjum gáfuðum manni er nauðsynleg til þess að geta orðið góður liðsmaður í þjóðfjelaginu, í hverri stjett sem hann er.

þetta hafa menn lengi fundið. Í bænarskrá þeirri um skólamálið, er kom til hins fyrsta alþingis 1845 frá Íslendingum í Kaupmannahöfn, var farið fram á að þeim yrði líka gefinn kostur á kennslu við skólann, sem ekki ætluðu að verða embættismenn, sjómannaefnum, kaupmannaefnum og iðnarmönnum, og hinn núverandi skólameistari hefur einnig borið það upp við kirkju og kennslustjórnina, að utanskólapiltar, sem ekki ætluðu að læra, mættu taka þátt í skólakennslunni í neðsta bekk, að frá skildum gömlu málunum, en stjórnin fjellst ekki á þetta, sökum þess að stiptsyfirvöldin lögðu á móti því[1].

Eins og þörfin er nú mest á því hjer á Norðurlandi að stofna þess konar skóla, eins liggur það líka Norðlendingum næst; og mjög margir eru það líka, sem hafa beðið oss að vekja máls á þessu; en eins og nytsemin, sem af þessum skóla mætti hafa er mikil, eins verða menn að búast við því, að þeir fái ekki slíkt á stofn sett án alls kostnaðar, en þó vonum vjer að geta sýnt fram á, að slíkur kostnaður yrði ekki svo mikill, sem sumir kynnu að leiða sjer í hug.

Hið fyrsta og fremsta, sem við þarf til að geta stofnað skóla þenna, er að fá góða og stóra jörð og hús, og það kostnaðarlaust. þann stað þykjumst vjer sjá gjörla, og eru það Möðruvellir með Friðriksgáfu. þetta verður stjórnin að gefa oss, eða ljá oss leigulaust meðan skólinn stendur, en byggja aptur amtmannshús inn á Akureyri — því þar ætti amtmaðurinn að búa — eða að greiða amtmanni húsaleigu eins og í Vesturumdæminu, og láta hann svo sjálfan sjá sjer fyrir húsnæði. Um þetta verðum vjer allir að biðja í einu hljóði svo að vjer fáum bænheyrslu. Og vjer vonum að amtmaður vor þykki ekki við oss þó að vjer viljum þannig byggja honum út. þegar þetta er fengið, verðum vjer að fá 3 kennara, 1 með 800, 2. með 500 og 3. með 300 ríkisdala launum árlega. Vjer verðum að fá duglegan mann fyrir skólahaldara, sem sjái lærisveinunum fyrir fæði og þjónustu um skólatímann, 8 mánuði fyrir 64 dala borgun, eins og var á Bessastöðum. Hann skal hafa Möðruvelli eptirgjaldslaust, nema kennararnir skulu hafa kýrvöll hver. Skólahaldarinn skal og annast um skólahúsið daglega og um eldivið til skólans, hið síðara fyrir borgun. Hinn efsti kennari, skólameistarinn, skal búa í skólanum, en hinir annarstaðar. Handa þeim þyrfti að byggja snotran bæ, meðan ekki væru föng til að kosta upp á timburhús.

Hinn mesti og næstum einasti kostnaður til að koma upp skóla þessum, ef jörðin og húsið fengist, er þá laun kennaranna 1600 rd., og svo viljum vjer gjöra önnur útgjöld 400 dali á ári; það er 2000 dala útgjöld á ári. þetta eru árleg útgjöld, og þyrfti því að vera fjárstofn til, sem svaraði þessu í leigu, og er það 50,000 dalir. þetta virðist nú, ef til vill, æði mikið fje, að skjóta því saman á stuttum tíma, en þó ætlum vjer að það mætti vel takast, ef nógur væri áhuginn; en það má hæglega haga svo til, að ekki þurfi svo stóran höfuðstól í fyrstu, þó vjer hefðum ætlað það bezt. Á meðan skólinn er svo fátækur, að hann getur ekki goldið kennurum sínum, mætti láta þá, sem í skólann ganga, gjalda kennslulaun, og það er ekki líklegt, að það bægði mjög mörgum frá skólanum. Ef 30 lærisveinar yrðu í skólanum, og hver þeirra skyldi greiða 30 dali í kennslulaun fyrir veturinn, yrðu það 900 rd. á ári, eða hjerumbil helmingur, og væri þá hægra að skjóta saman svo miklu fje, sem á skorti. Ein úrræði væru það og, að amtsbúar ljetu jafna nokkru niður á lausafjártíund í amtinu, og sízt vildum vjer ráða til að lærisveinar þyrftu að gjalda kennslulaun, því mikið er undir því komið, að ungum mönnum sje sem auðveldast að

[1]) Sb. Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands, 17—18. bls.

komast í skólann, svo að sem flestir sæki hann. Vjer getum nú ekki talað meira um kostnaðinn að sinni, en vjer ítrekum það, að menn verða að leggja mikið í sölurnar, þar sem til mikils er að vinna.

Þegar mikið er til kostað er von að menn spyrji hvað sje í aðra hönd, hvað unglingar þeir, er settir verði í þenna skóla, eigi að læra, hvort þeir eigi einungis að búa sig undir skólann syðra? Það væri nú varla við því að búast, að menn vildu leggja svona mikið í sölurnar til þess að geta einungis fengið kennslu handa hinum fáu piltum hjer úr Norðurlandi, sem ætla að læra og verða embættismenn. En þó að vjer höfum kallað skóla þenna undirbúningsskóla, þá var það þó ekki ætlun vor að þetta skyldi vera hið einasta ætlunarverk hans. Það eru fleiri fróðleiksþurfa en embættismannaefnin, og það eru fleiri sem vilja nema en þeir. Vjer ætlumst einmitt til, að efnilegir bændasynir sæki skóla þenna í 2 ár eða lengur, þó að þeir ætli ekki að verða nema bændur. Vjer ætlumst til að í skólanum verði kennt: greinilegt ágrip af veraldarsögunni og landafræðinni, reikningur, danska og enska. Þar að auki ætti að kenna vandlega vora eigin tungu, bókmenntasögu vora; hið helzta ágrip af sögu vorri ásamt lýsing landsins, og einkum ætti að gefa unglingunum greinilegt yfirlit yfir allan hag lands vors, yfir rjettindi og skyldur hverrar stjettar, o. s. fr. Auk þessa væri gott, að skólahaldarinn væri sigldur jarðyrkjumaður, er gæti kennt þeim, sem bændur ætluðu að verða, bæði hið bóklega og verklega, er búnað og jarðyrkju snerti. Eins mætti fá einhvern af hinum sigldu stýrimönnum til þess ásamt reikningskennara skólans, að kenna þeim hið helzta um stýrimennsku, er það vildu kynna sjer. Vjer getum varla annað ætlað, en að nógir yrðu til að sækja skóla þenna, ekki einungis af Norður og Austurlandi, heldur einnig að sunnan og vestan. Ekkert virðist oss ætti að ákveða um aldur þeirra, er þenna skóla sæktu, nema þeirra, er ætluðu seinna að ganga í hinn lærða skóla syðra. Vjer höfum hugsað oss, að embættismannaefni ættu að geta lært svo í þessum skóla, að þeir gætu tekið hinn fyrra hlut burtfararprófs, þegar þeir kæmu suður, og ættu svo ekki eptir nema 2 vetur í fjórða bekk.

Rúmið í blaði voru leyfir oss ekki að ræða þetta mál ítarlegar að þessu sinni, en vjer vonum að þetta sje nóg til að vekja athygli þeirra manna, sem með nokkrum áhuga vilja gagn Norðurlands, og vjer vonum að menn geti þó sjeð af því, sem hjer er sagt, að oss vantar ekki nema áræði og samheldi til að koma þessari stofnun á fót. Vjer viljum enn fremur geta þess, að þó að skóli þessi yrði fyrst stofnaður af litlum efnum, þá eru öll líkindi til þess, að hann auðgist skjótt, því líklegt er að efnamenn, sem enga lífserfingja eiga, mundu finna það skyldu sína, að styrkja jafnþarflega stofnun með gjöfum og testamentisgjörðum, og að fjárstofn skólans ykist þannig bráðum, eins og líka hæglega mætti auka hann með því, að skjóta árlega fje saman, eða láta jafna niður á amtsbúa tiltekinni peningaupphæð árlega. Efni klaustra og skóla uxu óðum hjá oss á fyrri öldum, og er þó óhætt að fullyrða, að landið var þá aflaminna en það nú er, og því skyldum vjer þá úrættast svo, að slíku megi ekki enn koma á fót? En vjer verðum líka að leiða athuga manna að því, að þegar byrjað er með áhuga, verður að halda áfram með kappi og þreki, og ekki þreytast, þó einhverjar mótspyrnur sjeu. Minnumst þess ætíð, að margar hendur vinna ljett verk.

---

(Aðsent).

## Fjelagsritin nýju.

Mjer brá í brún, þegar jeg las skýrsluna í Fjelagsritunum nýju þ. á., á blaðinu, sem er næst hinu síðasta. Jeg hafði ímyndað mjer, að mikill fjöldi væri keyptur af þessum ritum, því jeg hafði heyrt skynsömustu menn segja, að þau væru hin ágætustu rit, sem kæmu út á þessum árum. Og mjer hafði allt af fundizt þau ómissandi fyrir okkur. Þau eru og hafa verið helzta bókin, sem hefur frætt okkur um flest þau málefni, er landinu okkar hefur riðið á miklu, og eitthvað hefur verið gjört við, eða átt að gjöra við á þessum seinni árum. Þau hafa bent okkur á og brýnt fyrir okkur svo margt, sem gæti orðið landi okkar og lýð til heilla. Þau eru löguð til að stefna huga okkar og vilja að svo mörgu því, sem vel fer og skynsamlegt er, en menn höfðu ekki hugleitt áður. Þau hafa skýrt okkur frá flestu því, sem stjórnin og þingin dönsku hafa rætt og ráðgjört opinberlega, um helztu mál okkar, svo það væri okkur ekki hulinn leyndardómur. Þau hafa frætt okkur um fjárhag landsins og eignir þess. Þau hafa alla vega leitast við að glæða hjá okk-

ur elsku til föðurlands okkar og virðingu og rækt við þjóðerni okkar og móðurmál. þau hafa reynt að koma inn hjá okkur þekkingu og smekk á því, sem fagurt er og lofsvert. Eitthvað mun mega finna í Fjelagsritunum nýju, sem nær til alls þessa. Jeg skal nefna til að mynda fernt, sem kemur við mikilvægum breytingum, sem gjörzt hafa hjer á seinni tíð eða eru nú í ráði: þegar verið var að breyta skólanum, færðu þau okkur skólasögguna, sem færstir þekktu; þegar þing átti að setja, komu þau með ritgjörðir um, hvernig það ætti að verða, og hvernig það mundi haga okkur bezt; þegar verið var að þrefa um verzlunina, fengum við í þeim verzlunarsögu Íslands, svo okkur gæti skilizt, hvað verzlunaránauð gjörir. Og núna, þegar stjórnvitringarnir eru að tala um stöðu Íslands í ríkinu, fáum við að sjá hjerna í 16. ári Fjelagsritanna sambandssögu Íslands við Danmörku. því þegar einn danski vitringurinn var búinn að prjedika okkur rjettlausa, og ætlaði að senda prjedikun sína hingað, til að leiða okkur í allan sinn sannleika, þá varð einn höfundur Fjelagsritanna til að sýna okkur, hversu rjett þessi kenning væri, svo við gætum þreifað á sannleika dönsku kenningarinnar. þó dönskum Íslendingum, t. a. m. eins og jeg hefi heyrt um einhverja sýslumennina okkar, sem fullsaðnir eru í stjórnvizkunni dönsku, þó þeim þyki danska kenningin rjett, kenningin um rjettleysi okkar til að vera sambandsþjóð Dana, þá finnst mjer hún verði að vera röng, og hvað sem á henni er byggt hljóti að snúast okkur til bölvunar, því þjóðerni okkar, landstaða og móðurmál stendur öndvert móti öllum heillum af danskri hjeraðsstjórn hjer hjá okkur.

Jeg er nú kominn út í aðra sálma, en jeg ætlaði mjer. Jeg hafði hugsað mesti fjöldi væri keyptur af Fjelagsritunum nýju, svo ágætum ritlingi, en nú sje jeg það eru ein 240., svo útgefendurnir verða að gefa okkur 80 ríkisdali og svo ¼ af þessum 240 til að kaupa hin fáu, og þar að auki alla fyrirhöfn sína að rita þau og senda. það liggur þó í augum uppi, að svo fátækir menn væru ekki að berjast við þetta, ef þeir væru ekki sannfærðir um, að ritin sjeu okkur gagnleg, og þeir vilja oss sannarlega vel.

þá er annað, sem jeg sje á skýrslunni, þvert móti von minni, að við Austfirðingar í Norðurmúlasýslu kaupum flest ritin, við sem allt af höfum sofið frá landnámatíð. Hjer gjörðust færstar sögur forðum, og færst var ritað hjer; og þá er nú ekki að tala um, hversu vært okkur hefur orðið undir vængjaskjóli einveldisins, stjórnarinnar og blessuðu kaupmannanna í Höfn, þegar enginn þurfti að heyra um neitt nema um eymdina, hver á sínu heimili. — En — Vestfirðingar kaupa færst. þar var þó lengi „líf í landi og ljóshæfur andi." Lengi merkir og miklir menn. Og jeg þekki svo marga á Vesturlandi, að jeg veit þeim kippir þó enn nokkuð í kyn forfeðra, þó það sjáist ekki í því arna, sem jeg er að tala um. Jeg vissi að maður, sem ritar mest og bezt í Fjelagsritunum, er kallaður Vestfirðingur, því vænti jeg þeir mundi flestir vilja eiga ritin hans, þó hann vinni og riti jafnt fyrir okkur alla. Nú þó Vestfirðingar sýni það ekki í þessu, að þeir hafi miklar mætur á honum, munu þeir samt geta þegið, eins og við hinir piltarnir, að hann sje grjótpáll okkar, ef við þurfum einhverstaðar að pjakka, og dugum ekki sjálfir — eins fyrir það, þó við gjörum ekkert til að halda honum við, svo hann sljófgist ekki. Jeg veit að sönnu þið hafið vestra annan pál, en hann verður aldrei ykkar páll, svo þekkjum við hann.

Jeg var að leita í skýrslunni, sem jeg er að staglast á, að ýmsum ágætismönnum, er jeg þekki á Vesturlandi og hugsaði mundu útbreiða Fjelagsritin, en fann alls 3., prestana á Kvennabrekku, Hvammi og Stað. Jeg læt nú vera þessi 7 ritin í Dalasýslunni og þó þau ættu að fara um Snæfellsnes og Mýrar, það er þó skaplegur geymur. En ritin hans sjera Olafs míns á Stað ekki nema 3. það er annaðhvort af tvennu, að engir vilja lesa Fjelagsritin nema hann fyrir norðan Gilsfjörð og Bitru, og því trúi jeg aldrei á alla þá, sem búa þar, svo margir framfara- og ágætismenn, sem jeg þekki og veit að eru á mínu máli um ritin, og þó líklega miklu fleiri, sem jeg kannast ekki við — ellegar þessi 3 rit eru þar á ferð sitt um hverja sýslu, eins og sýslutarfar, og er það ofsett á ekki fleiri hræ, um svo illa vegu, eins og eru á Glámu og víðar á Hornströndum.

þistilfirðingar og Sljettungar voru eitt sinn kallaður næsta lítill lýður; einhverjir vilja þó lesa þar 10 Fjelagsrit. Engan sje jeg kaupanda Fjelagsritanna í henni Reykjavík, og þar eru þó margir góðir Íslendingar, margir sem hafa sömu trú og jeg, að Fjelagsritin sjeu ágæt og þarfleg. En jeg get svo vel skilið því engin eru keypt þar. þeir frjetta þar allt svo fljótt, og vita allt svo glöggt, sem um er ritað í fjelagsritunum. þeir eru menn-

irnir, sem „hugsa og álykta" skynsamlega um allt, og þurfa ekki fræðslu þessara bóka. Enda streymir þar daglega alls konar fræði út frá prentsmiðjunni, svo færstir fá yfir komizt meira.

Mig grunar að þeir, sem jeg legg það hjer eins og til lýta, að þeir kaupa ei Fjelagsritin, segi við okkur hjerna: þið munuð þá vera vaknaðir og vitrir orðnir þarna í Norðurmúla- og Þingeyjarsýlunum, þið sem kaupið nærri helming allra þessara góðu bóka. Nei! nei! ekki er því að hrósa! það þarf nú að ýta við okkur og fræða okkur lengur en fáein ár til þess að hrífi Við höfum verið framtakslitlir frá aldaöðli.

Hvað sem þessu líður, þá finnst mjer við Íslendingar eigum ekki að láta þá skömm liggja eptir okkur að Fjelagsritin verði að hætta, fyrir það við tímum ekki að kaupa þau svo mörg, að útgefendurnir fái þau vel borguð, og jeg vil skora á alla, sem láta sjer annt um þjóðlega framför okkar, alla sem þekkja þessi rit, og eru á líku máli og jeg um þau, að þeir kaupi þau, og stuðli til að þau útbreiðist sem bezt um allt landið okkar.

Austfirðingur í Norðurmúlasýslu.

---

(Aðsent).

## Þinghöfðafundur vorið 1856.

Miðvikudaginn næstan eptir Úrbanusmessu var haldinn sýslufundur hjá Þinghöfða í vor sem leið. Þar voru milli 60 og 70 manns, sumir kosnir heima í sveitunum, en flestir ókosnir og úr næstu sveitum. Varafundarstjóri setti fundinn, og kvaddi menn til nýrra kosninga. Þá var kosinn fundarstjóri og annar til vara, svo líka fundarskrifari.

1. Fundarstjóri byrjaði á því að skýra mönnum frá því, sem hann vissi, af brjefum og skýrslum úr sveitunum, um búnaðarbætur liðna árið, og hvað framkvæmt hafði verið af því, sem ráðgert var á Þinghöfðafundi í fyrra. Jarðabótum hafði þokað nokkuð áfram í sumum sveitunum, en lítið í sumum. Þó játaði hann og aðrir, að almennt væri vaknaður áhugi hjá flestum, að gjöra eitthvað til bóta jörðunum, Mest hefir verið gjört í veðursælu sveitunum, Fljótsdal og Framfellum, enda hagar þar vel til með sumt, og þar eru margir búendur vel efnaðir, og ábatinn einna mestur þar af hverju sem eykst við töður og úthey manna. Mestar jarðabætur eru þar af vatnsveitingum, og var enn í ár aukið við þær. Þar er og töluverð jarðeplarækt, en uppskera varð með mesta móti þetta ár alstaðar hjer. Sáð hafði verið í plægða reiti í Fljótsdal en vaxið lítið, nema þar, sem mest var borið á. Stendur áburðareklan þar eins og annarstaðar jarðarræktinni mest fyrir þrifum, og er sumstaðar ekki kostur að bæta úr henni, nema fá svarðtekju í annari sveit. Á nokkrum stöðum hafði fundist svörður og verið tekinn upp þar, sem ekki var fyrr, og reynist nú að víðar má fá hann, en menn hafa hugsað Einstöku menn höfðu nú í ár byrjað að girða tún sín, helzt í ytri sveitunum.

Skýrsla hafði komið til fundarstjóra, um framkvæmdir Jarðabótafjelagsins í Vopnafirði um 6 ár og eru þær miklar og lofsverðar, mest girðingar, túnarækt og plæging, en vatnsveitingar minni og svarðtekja. Mun þessi skýrsla verða birt í öðru lagi,

Heybyrgðir höfðu verið skoðaðar í haust eð var í sumum sveitum og virtust þær sveitir allvel byrgar — Hvergi höfðu fengizt jarðabótamenn, sem gert var ráð fyrir í fyrra, vegna manneklu og hins, að svo fáir kunna að jarðabótum, svo vel fari.

Ekki hafði Jóni landlækni verið skrifað um fjársýkina, en nú komu skýrslur um hana á fundinn.

Verzlunarsamtök höfðu lítil orðið, nema í Fljótsdal og Framfellum og ekki auglýstur þaðan ábatinn, Skuldirnar, einræningsskapur manna og skortur á forgöngumönnum, þeim er margir bera traust til, valdur samtakaleysinu.

Menn höfðu verið keyptir til vegabóta á Vestdals og Fjarðarheiðum. Þeir höfðu bætt víða dável mikið af verstu köflum veganna. Til þessa hafði verið varið 55 rd, 64 sk. af gjafafje til vegabóta. Höfðu Seiðfirðingar gefið af því 30 rd. 16 sk. Ekkert hafði enn orðið af því, sem ráðgert var í fyrra, að skrifa í blöðin, um offur til presta, um betri stjórn kristfjárjarða og um tálmun á giptingum ónytjunga.

Þakklætisávarpið (sjá Þinghöfðafund 1855, 8. grein) hafði verið ritað og sent á Þingvöll í fyrra.

Fundarstjóri hafði sent um sveitirnar niðurjöfnunarreikning á verðinu fyrir tjaldið hjá Þinghöfða, eins og honum var falið á hendur, og lýstu fundarmenn því, að sveitamenn hefðu tekið vel undir, að skjóta þessu saman, þar sem ekki var búið að því.

2. Var enn talað um jarðabætur, helzt að keppast við að fá sem víðast svörðinn til eldiviðar, auka áburðinn sem mest og fara vel með hann, girða túnin og auka við þau plægðum smáreitum, eptir því sem áburðurinn ykist til að rækta þá. Plógarnir eru nú farnir að fjölga og nokkrir kunna að beita þeim.

3, Þrír menn voru valdir til að semja aðalskýrslu um fjársýkina. eptir lýsingum þeim, sem komu á fundinn úr nokkrum sveitum og senda landlækni hana.

4. Þá var talað um, að halda fram vegabótum á Seiðisfjarðarheiðunum. En af því vandi er að fá menn, sem kunna vel að því verki, og gjöra það trúlega og forsjálega, var afráðið þetta sinn að fela hreppstjóranum í Seiðisfirði á hendur, að fá svo sem 2 menn, þá er hann vissi bezta, til að gjöra vandlega við einhvern vondan kafla. Lofaði hreppstjórinn að gjöra hvað hann gæti, til að fá þetta framkvæmt. Síðan voru honum afhentir 20 rd., sem enn voru óeyddir af gjafafjenu til vegabóta.

5. Um verzlun var enn rætt, og um fjelagskap til að auka og bæta vörurnar, sporna við óþarfa kaupum, og losa sig úr skuldum. Þá var og lesið upp brjef alþingis forsetans í fyrra, um hjálparreglur til að verjast skorti og skuldum. En þær eru að mestu leyti hinar sömu og áður hafa verið ræddar á Þinghöfðafundi. Flestum líka þær vel, en lítið kveður að hversu breytt er eptir þeim.

6. Út af þessu var stungið upp á, að stofna frjálsa sveitarsjóði, og fá á leigu með veði nokkuð af sveitarsjóð-

unum, sem nú eru, til að kaupa fyrir korn á sumrum, einkum þegar það er lágt í verði, en kjöt á haustum, og geyma í sveitunum, til að lána fátækum dugnaðarmönnum á veturna og vorin, þegar ekki fæst í kaupstöðum, eða svo þeir þyrfti ekki að sækja sjer björg þangað í illum færðum og þegar korn er hækkað í verði, eins og opt ber við.

7. Nú var talað um að stofna dálitla búnaðarsjóði í hverri sveit, til að kaupa fyrir verkfæri til jarðabóta og til að geta gefið mestu dugnaðarmönnum í jarðarækt og búnaðarbótum, einhver heiðursmerki. Var einn slíkur sjóður nýstofnaður í Fljótsdal.

8. Enn var talað um og hvatt til að senda kosna menn eptirleiðis á þinghöfðafund, og skyldu þeir vera viðbúnir að vera þar lengur en einn dag, ef þörf gjörðist.

9. Þá var borin fram sú uppástunga, að menn leggðu fje saman til að kaupa kynstofn frá Danmörku til að bæta kúakynið. En þeir sem spurt höfðu Dani vandlega um danskar kýr, sögðu þær mundu ei reynast betri þaðan, en þær, sem hjer væru beztar. Enda væri ósjeð hvað kýr gæti orðið hjer góðar, ef menn leggðu sig kappsamlega eptir að bæta okkar kyn, fá sjer kynbeztu kálfa, hvorttveggja kyn, til eldis, og láta ei blandast aptur við verra kyn. Þetta vissu menn reynzlan hafði sýnt hjá einstöku mönnum, sem lengi hafa átt góðar kýr af sama kyni. Fundarmenn lýstu því, að menn væru farnir að hugsa um þetta, og leitast við að bæta kúakyn sitt.

10. Menn voru kosnir til að safna tjaldverðinu því sem ógreitt er.

11. Þá talaði fundarstjóri um sveitastjórnarlögin, sem rædd voru á seinasta alþingi, og bað menn að kynna sjer þau og hugleiða. En flestum virtust þau svo óljós, margflókin og vandasöm, með einhverju útlendu sniði, að þeim kom saman um að kljá sjer ekkert við þau, því þau væru ekki sitt meðfæri.

12. Seinast var margt rætt um prentsmiðjuna á Akureyri, sem kölluð er eign Norður- og Austur-amtsins. Vildu flestir í fyrstu afsala sjer alla hlutdeild í henni, með því þeir gætu ekki átt svo sem neinn þátt í stjórn hennar; sögðu stjórnarmenn prentsmiðjunnar hefðu brotið lög hennar; gefið út á hennar kostnað auðvirðilegar skammir og ónytjú, tekið af öðrum til prentunar ónýtar bækur og illar, er spilltu hugarfari manna, og væru sumstaðar viðbjóður fyrir hvern heiðvirðan mann, og margt var fleira til tínt. Þá urðu nokkrir til að taka málstað prentsmiðjunefndarinnar, og sýndu mönnum fram á, að hún hefði orðið að taka það sem bauðst til prentunar, svo vinnumenn smiðjunnar stæðu ekki verklausir, en stofnunin sjálf of fátæk til að gefa út á sinn kostnað dýrar bækur, sem til hefðu verið, og aðrir treystust ei að leggja upp. Það væri líka minnkun að afsala sjer nú hlutdeild í prentsmiðjunni, þegar hagur hennar væri helzt í vanda; töldu bráðum mundi batna það sem út kæmi og prentsmiðjan rjetta við. Var þá afráðið að eigna sjer enn um sinn einhvern hluta hennar, en óska um leið að við mættum kjósa 2 menn brjeflega í stjórnarnefndina, og skyldu þeir leita atkvæðis hjá forseta þinghöfðafundar (meðan ekki væri sett nefnd hjer í sýslu til þess) um helztu fyrirtæki, þau er prentsmiðjuna snerta. Voru valdir 3 menn til að skýra prentsmiðjunefndinni á Akureyri frá þessu málefni fundarins og ályktun hans.

Skrifað í októbermánuði 1855.

S. G.

---

## Ræða um freistinguna.

Spánskur munkur nokkur var svo hrifinn af fegurð föðurlands síns, að þegar hann átti að leggja út af því, þegar djöfullinn freistaði Krists í eyðimörkinni, sagði hann við tilheyrendur sína: „Það var mikil heppni, mínir elskanlegir, að lausnari vor sá ekki Spán vegna Pyrenæa fjallanna, því annars hefði hann varla getað staðist freistingúna!“.

---

## Auglýsingar.

Í næstliðnum maímánuði fannst hjer á milli Háls og Sigríðarstaða skinnböggull með lömuðu forsigli, sem enginn hefur enn þá leitt sig eiganda að; og bið jeg því Norðra að lýsa því, að í bögglinum eru 8½ alin af þráðardúk. Hver sem getur leitt sig eiganda að þessu, má leita þess hjá undirskrifuðum mót sanngjarnri þóknun.

Sigríðarstöðum 9. dag nóvemberm. 1856.

Benedikt Indriðason.

Á næstliðnu sumri og hausti höfum vjer skotið saman 20 ríkisdölum ríkismyntar, og sent þá herra Arkivsekretera Jóni Sigurðssyni í Kaupmannahöfn til lítilvægrar þakklætisviðurkenningar fyrir hans góðfúsa starfa, að rita og gefa út á sinn kostnað ritgjörðina „Om Islands statsretlige Forhold“ (um landsrjettindi Íslands), sem nú er snúið á íslenzka tungu í nýjum Fjelagsritum. Framanskrifuðum línum biðjum vjer herra útgefara Norðra, að ljá rúm í blaðinu.

Nokkrir búendur og búlausir í Vallnahrepp í Suðurmúlasýslu.

Jeg leyfi mjer að ítreka þá bón mína við hina heiðruðu umboðsmenn NORÐRA, sem ekki hafa enn sent mjer andvirði hans, að þeir vilji gjöra svo vel að senda mjer það með fyrstu ferðum, því jeg hefi skuldbundið mig til að greiða allan prentunarkostnað hans innan þessa mánaðar loka, en hefi enn ekki fengið borgaðan 4. part andvirðisins.

Akureyri 20. desember 1856.

Sveinn Skúlason.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI,

## HÁLFSMÁNAÐAR-RIT

HANDA

## ÍSLENDINGUM,

## 1857.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður

**Sveinn Skúlason.**






**AKUREYRI.**

Prentaður í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins, hjá H. Helgasyni.

1857.

# YFIRLIT EFNISINS.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletrslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. | 16. Janúar. | 1.—2.

Um leið og jeg læt Norðra minn byrja þetta nýja ár sitt, get jeg ekki látið hann fara svo frá mjer, að hann flytji ekki kveðju mína til landa minna til þess að óska þeim gleðilegs nýárs, og þakka þeim fyrir mig og hann þetta liðna ár. Þegar jeg lít yfir þetta ár, finnst mjer jeg hafa gildà ástæðu til að þakka þjóð minni fyrir viðtökur þær sem jeg hefi fengið síðan jeg kom heim til Íslands, og jeg treysti því, að jeg hafi þó hitt á að rita í Norðra svo, að hann sje við skap margra. Því þó að jeg hafi fengið nokkur mótmæli gegn hinu og þessu, þá hefi jeg þó þá von, að flestum hafi líkað blaðið allvel, að minnsta kosti ræð jeg það af því, að kaupendur hafa fjölgað töluvert, og margir skrifað mjer til um að fá blaðið frá þessu nýári, enda var þess öll þörf, því margir höfðu gengið undan merkjum Norðra um ársmótin 1856, svo að Norðri hefur víst þetta ár haft þriðjungi færri kaupendur en frændi hans syðra. Einkum og sjer í lagi tjái jeg útsölumönnum blaðsins kærustu þakkir mínar fyrir starf það og ómak, sem þeir hafa haft fyrir blaðinu, og sem svo margir þeirra hafa gjört án alls endurgjalds. Þeim mönnum sem hafa sent mjer góðar og skemmtilegar ritgjörðir í Norðra tjái jeg enn þakklæti mitt, og óska þess og vona, að fleiri verði til þess þetta ár, því betur sjá augu en auga, og ætíð er hættara við einhæfni þar sem ekki koma fleiri manna skoðanir í ljós. Norðri byrjar nú ferð sína þetta ár með góðri von um að honum verði víða lofað að vera þar sem hann hefur ekki fyr komið, og að margir, sem áður hafa verið vinir hans, hverfi til hans aptur, því hann býður hverjum manni sjálfdæmi, sem sakir þykjast eiga á hendur honum, og þótti það boð gott í fyrndinni.

Jeg ætla nú eins, og jeg hefi gjört ráð fyrir, að stækka Norðra, svo að hann verði 18 arkir að stærð, og kosti einn ríkisdal. Í hverri örk ætla jeg að hafa kafla úr einhverri skemmtisögu eins og tíðkast í flestum blöðum erlendis, og ætla jeg slíkt muni auka vinsældir blaðsins, ef jeg verð svo heppinn að velja sögurnar, að þær líki lesendum mínum.

Þá er nú eptir að minnast á útsendingu blaðsins, sem margir hafa kvartað yfir eins og von er. Jeg get ekki neitað því, að blaðið í hinar fjarlægari sýslur hefur opt orðið að liggja hjá mjer stundum yfir mánuð, áður en jeg hefi getað fengið ferð, sem mjer hefur þótt ráðlegt að senda með. En jeg sje engin ráð að svo komnu til að gjöra út menn til að bera blaðið, því kostnaðurinn yrði svo afarmikill. Jeg get því ekki heitið öðru en því, að gjöra allt sem í mínu valdi stendur til að koma blaðinu skilvíslega, og biðja alla góða menn að greiða veg þess sem fljótast og bezt, þegar það er á ferð.

**Sv. Sk.**

---

## Svar til B. Gröndals eptir sjálfan B. Gröndal, og sem vel á við um B. Gröndal.

Genus irritabile vatum.
Á íslenzku:
Hið uppstökka skáldakyn.

**„Svona var hann að dinta sjer í djöfulsins gríð,
að dinta sjer með lætin og ólætin fríð [1]“,**

**„Dýrðarlega kveðurðu draumasönginn þinn,
en dintaðu þjer ekki svona, bláfuglinn minn [2]“.**

Mig skal ekki furða á því, þegar menn lesa hið mælskuríka svar Gröndals (Þjóðólfur 9. ár, númer 4—5),

**þó allir stari stilli mærðar á,
og standi upp á tá á öðrum fæti [3].**

---

[1]) B. Gröndal: Kvæði og nokkrar greinir um skáldskap, Kmhöfn 1853, 34. bls. —. [2]) Sömu bók, 36. bls. [3]) Sbr. B. Gröndal: Drápa um Örvar-Odd, Reykjavík 1851, 85. bls.

(Aðsent).

## Um heyþurrk í votviðrum.

þegar jeg hefi heyrt eða lesið, að hey hafi hrakizt til skemmda eða með öllu orðið ónýtt sökum votviðra, hefur mjer jafnan sárnað að hugsa til þess, hvílíkum hnekki þetta atvik væri ollandi í peningshaldi og búnaði manna; því opt hefur það verri eptirköst í góðum grasárum, en grasbrestur með góðri nýtingu. það er auðsætt, að heyin verða bæði ódrjúg og óholl þegar þau hrekjast. Svo verða þau ódrjúg, að eigi er unnt að gefa kúm til fullrar nytjar, nje sauðfje til fullra holda, sízt með útigangi, og verða líka hrakin hey á stundum svo óholl skepnum — auk þess sem vanheilindi fylgja optast megurðinni —, að svo mikil lús og óþverri hefur komið á þær, að orðið hefur að sía kúamjólk, þó að þær hafi verið við og við baðaðar, og mjólkin orðið óholl einkum ungbörnum, nema eldborin, og þessu líkt hefur verið um aðrar skepnur.

þess sárara hefur mjer orðið að hugsa til heyja skemmdanna, sem jeg hefi ekki getað dulizt þess, að þær sjeu að mörgu leyti mönnunum að kenna, og að þeim, sem til þess voru færir, hafi ofmjög gleymzt að reyna að ráða nokkra bót á þeim með því að rita um beztu meðferð á heyjum í votviðrum, því til þessa tíma hefur það svo að segja orðið út undan, og er gleymska þessi því undarlegri, sem menn þó hafa orðið, og verða í ára og alda raðir við og við að mæta þessari óblíðu náttúrunnar, votviðrunum. Jeg ætla því ekki óþarft, að vekja máls á efni þessu, með því að geta þess í fáum orðum, sem mjer hefur reynst affarabezt og jeg ætla hagkvæmast viðvíkjandi heyþurrki í óþerrum, til að verja hey skemmdum, og verka þau eins og bezt má verða.

það sem einkum ollir heyjaskemmdum í votviðrum er það: að vatnið sem að ofan kemur rennur svo opt í gegnum heyið, og liggur svo lengi í því, að það dregur á burt með sjer lög grassins, sem er aðalnæringarefni skepnanna, er það áþekkt því, þá menn afvatna um of matvæli er í salti hafa legið. Sje heyið í föngum, fletjast þau ofan í jörðina blauta, og gengur þá vatnið bæði ofan og neðan í heyið, bíði það svona þess, að það fari að sortna, er það merki þess. að rotnun eða fúi er í það kominn. Fái þá hey þetta þurrk, er það snarpt átaks og afar ljett í allri meðferð og að því skapi eins til fóðurs, því ekki er þá eptir nema hulstur stráanna, en mest allur eða allur frjósafi úr runninn. Fyr skemmist hey í votviðrum þá hægviðri og mollur ganga, en þá vindasamt er, einkum framan af slætti, og ber það til þess, að vindurinn þurrkar nokkuð úr því og ver það fúa; mest skemmist hey þegar það þornar nokkurn veginn og alvöknar svo aptur. Aðalvörn heysins fyrir skemmdum er í því fólgin, að ekkert eða sem minnst vatn nái að því að komast eptir að það er slegið, og að það vatn sem í það kemur, náist sem fyrst úr því, verður því að haga svo verkum, að þessi tilgangur náist sem bezt, og ríður þá á að slá í votviðrum á þurrlendi hverja þá stund sem úr jörð þornar, og reyna til að ná þá vatninu úr því heyi jafnframt er á þurru liggur eptir því sem verð-

---

## Maurice og Genevieve,

eður

### Munaðarlausu tvíburarnir (frönsk saga).

þegar ferðamaður fer leiðar sinnar suður eptir Frakklandi frá Parísarborg og stefnir á staðinn Orleans og hið fagra Loirefljót, liggur vegur hans um mikinn hluta af sljettlendi því, sem Beauce heitir. Sljettlendi þetta er stórt ummáls, og yfirborð þess mjög jafnt, og þar eð landið er ávaxtarsamt, er það allt ræktað, og standa þar mörg smáþorp, sem bændur búa í, og aðrir er þar taka þátt í sveitastörfum. Á Frakklandi er það sjaldgæft, að bændabæirnir standi hver út af fyrir sig í miðri landareigninni. Bændur og aðrir jarðyrkjumenn búa þar margir saman í þorpum, og er hinn bezti fjelagsskapur og gott samkomulag meðal innbúanna.

þannig eru nú þorpin á sljettlendinu „Beauce“. Í hverju þorpi stendur kirkja, gamalt gráleitt hús með turni, sem sjá má langt að á sljettunni. Við hverja kirkju er prestur. þessir prestar eru auðmjúkir og iðjusamir klerkar, sem vinna í drottins víngarði fyrir lítið endurgjald, þeir eru blíðir í viðmóti, og hinir beztu ráðanautar sóknarbörnum sínum, þegar einhverr vandi bera að höndum, og unna því allir þeim hugástum.

Fyrir fáum árum bjó fátækur maður nokkur í einum af þessum smábæjum, bærinn hjet Artenay, mesta friðsemdar og iðnaðarþorp, maðurinn hjet Jules Asselin. Jules var iðnaðarmaður, og hafði numið hjólsmíði, og smíðaði hjól í kerrur þær, er bændur höfðu til að flytja afla sinn til markaðarins í Orleans. Kerrur þessar eru lítt vandaðar að smíð, en eru sterkar, og geta borið mikið; kúm eða nautum er optast beitt fyrir þeim. Jules Asselin hafði næga atvinnu af að smíða hjól í kerrur þessar; hann var maður stilltur og iðjusamur, og unni mest heim-

ur, en slá votviðrisdagana á votlendinu, sje þess kostur fyrir vatni, og grípa hverja þá stund sem upprofar til að koma heyinu á þurrt, eða flytja það á þerrivöllinn svo allt sje til taks, þegar flæsustundina ber að, missist mörg þerristund, og margur heyhestur fer til skemmda sökum vangæzlu manna og óframsýni í þessu tilliti; það er opt til fyrirstöðu í þessu, að túnin eru þakin með heimflutt hey, en þegar svo á stendur, verða menn að flytja vota heyið á hvern þann sljettan og þurrlendan blett sem í nánd fæst, og mega menn ekki hlífa sjer við því, þó að svo kynni að virðast sem það væri nokkur tvíverknaður.

Það er almennur vani, hjer vestra, að raka hey það, sem nokkuð hefur þornað úr, upp úr flekkjum í föng eða smásæti, og segja menn að það blási betur svona en öðruvísi meðfarið, en ætíð er þessari aðferð samfara kvíði sá, að heyið í þeim rigni svo, að það gagnvökni á ný, enda bregzt þetta mjög sjaldan í votviðrum, svo nú verður að vinna sömu vinnuna upp aptur að sama heyinu, og það stundum upp aptur og aptur, en hitt heyið, hvort það er svo mikið eða lítið, er þó látið stundum bíða þar, sem það var slegið, í niðurrigndri ljá, föngum eða flekkjum, þangað til þetta kemst frá, sem er þá ásamt hinu að hrekjast. — Þegar hey er grasþurrt eða betur, enda þótt í því sjeu lýskrur og blautt skarn og ljámýs, setja menn það í lanir ýmist, langlanir eða krosslanir, en vatnið gengur í þær, ef nokkra vætu gjörir að mun, og þar hjá rjúka þær um koll, ef hvassveður gjörir, einkum langlanirnar[1], svo því verki er opt líka sóað, sem að þessu er unnið. — Þegar hey hefur náð að þorna betur, þó að ekki sje í garð eða hlöðu berandi, þá er það gömul og ný venja, þar sem ekki er venja að sæta einungis í smásæti, að setja heyið saman í galta, það er stórsæti tví- eða fleirsett, eru þeir ýmislega lagaðir, bæði ferhirndir og aflangir; er opt hafður á þeim hryggur, í stað þess að kollurinn á að vera hár og hvass, þegar vætu á að verja. — Það er auðsætt, reynslan er líka búin að kenna það, að öll þessi viðleitni, er ekki einhlít til að verja heyið í votviðrum, svo að vatnið dragi ekki burt úr því næringarefni fjenaðarins, og að það mun ekki vinnast með öðru móti betur en því, að heyið í sætingunni fái þá lögun, að þó vatnið lemji á því utan, að það geti hrunið ofan eptir því, án þess að það gangi í það, svo um það geti súgað að innan, og það geymist óskemmt, þó um líði að þerrir fáist. Til þess eru sívalir galtar bezt lagaðir, sjeu þeir vel settir, stalla og holulausir, jafnuppdregnir og háir, eins í lögun og sikurtoppur, og það er slæmri setningu að kenna, eða því að galtarnir hafa aflagast, sem opt ber við, ef í þá gengur vatn til muna, enn síður til skemmda, þó miklar og langar rigningar gangi, og á því enga samansetningu heyja í vætutíð að við hafa, nema þessa[2]. Allt hey, sem úr hefur þornað

[1]) Krosslanirnar eru miklum mun betri enn langlanirnar og verst hey vætu og foki í þeim vel settum, eins og illa settum göltum eða betur.

[2]) Jeg hefi heyrt, að aflangir galtar svo settir: tvær fangaraðir á þykktina, seilingar háir eða meir og lángir eptir heymegni þjett troðnir, kúpt mændir neðan frá jörð til beggja enda, með jafnuppdregnum hliða ávala upp úr, verjist undra

---

lífinu, og má þá geta nærri að hann kvongaðist, og bjó í litlu húsi í bænum út af fyrir sig.

Það var fallegt að sjá græna grasflötinn hjá Artenay á helgidagakvöldum sumar og haust. Eldra fólkið sat þá úti fyrir dyrum sínum í sólskininu, og skemmti sjer við að horfa á leikvöllinn þar sem allir unglingarnir stigu dans í smáhnöppum eptir hljómi fiðlunnar, sem einn af bæjarbúum kunni að leika á. Öllum ferðamönnum ber saman um, að gleði þessi fari þar fram mjög siðsamlega. Fólkið er glaðlegt í yfirbragði, og eyðir þannig hvers dags áhyggjum sínum með saklausum skemmtunum; söng og dansleik á tyllidögum.

Einn dag, þegar Jules ásamt grönnum sínum sat fyrir framan húsdyr sínar með konu sinni, og horfði á leik unglinganna, voru börn hans Maurice og Genevieve einnig að leiknum. Jules og þau hjón unnu börnum þessum yfir allt fram. Börn þessi voru tvíburar, og þó annað væri sveinbarn, en annað meybarn, voru þau þó mjög lík ásýndum, og eins var allt inndarlag þeirra mjög svipað.

„Mikið höfum við guði að þakka“, mælti Jules einu sinni við konu sína, sem hjet Lisette, „að hann hefur gefið okkur 2 börn svo góð, hraust og heilbrigð. Það er mikil blessun fyrir fátækan mann, þegar hann þarf ekki að sjá börn sín veslast upp, eða það sem verra er, að þau sjeu illa skapi farin“.

„Víst megum við vera þakklát“, svaraði konan. „Jeg hefi aldrei sjeð þeim verða misdægurt síðan þau voru kornung þó er jeg reyndar hrædd um, að Maurice verði ekki svo sterkur sem iðnaðarmaður þarf að vera, og sjálfsagt liggur það þó fyri honum. En bæði hann og systir hans eru álitin efnilegustu börnin í bænum, og herra presturinn sagði við mig hjerna um daginn, að það væri fallegt að sjá hve mjög þau elskuðu hvort annað. — En Jules minn, hvað

vatnið, hvað lítið sem vera kann, og allt það hey, sem slegið er á þurru í þurru veðri, á að setjast upp í þá á engjunum áður enn það vöknar, og mun þessi meðferð heyja hagkvæmari en hver önnur í votviðrum, enda fyrri hluta sláttarins. Við þetta er þó sá athugi, að bragðnýtt hey sígur meira í galta sett en það eldra, svo þeir verða, þegar um líður, oflágir og flatir til að verjast því, að vatnið gangi í þá, nema við sje gjört, með því móti, að gjöra 1 úr 2, eða þeir sjeu upp á annan hátt lagaðir; setjast mega þeir úr heimreiddum sátum, ef við liggur væta, en betur fer að saxa það hey í fông áður, því þá blása þeir betur[1]. Ekki eiga þeir að standa í skjóli við hús eða hæðir sje annars kostur, og ekki á flekkstæðunum sjálfum. heldur utan við þau, svo flekkstæðin verði notuð að fullu nær sem á liggur, annaðhvort til að þurrka eldra hey til innburðar eða vott hey af engjum. En með því að ekki má renna undir galtana, en opt ekki góð stæði til í nánd, þarf að búa þau til, annaðhvort með því móti, að bera mold í þau, svo ávali verði á, eða lágur hóll og tyrfa svo yfir, eða laga einhverja þúfuna til þess, og er það auðsætt, að þetta á að gjörast áður en á stæðunum þarf að halda, en ekki eiga þau að vera svo þjett, að skjól verði á hvern galtan af öðrum. Eptir því eiga galtarnir að vera smáir eða stórir, sem heyið er, sem í þá er borið; úr illa þurru heyi, og kostagóðu, eða töðu, verða þeir að vera litlir svo sem 1 — 2 hestar, en því betri eru þeir ávallt, sem þeir eru hærri að tiltölu eptir heymegni, útheyisgaltar, einkum úr loðnu grasi mega vera stærri, t. a. m. 2—4 hestar; en við því verður að gjalda varhuga, að ef í göltunum hitnar, eða þeir aflagast með öðru móti, að gjöra strax við, svo ekki gangi vatnið í þá, Eptir því sem líður á heyvinnutímann, og í veðri kólnar, haldist þá rigningar við, eða komi votviðri á ný, er opt bezta ráðið, að setja allt nýslegið hey í galta, hvernig sem veður og slægja er, sje annars hraufað við heyinu til raksturs, en þegar menn vegna bágrar sumartíðar eður annara orsaka, verða að halda áfram heyskap svo lengi sem verður að haustinu, á aldrei að skilja við hey öðruvísi en í sívölum göltum, og með því móti verður sjeð við þeim skaða, sem opt kemur af því, að heyið verður undir fönn eða fast í klaka, af því það er skilið við það í föngum[1]. Opt mun svo standa á, að galtastæðin vanta, þar sem föngin eru sett í rakstrinum, bregða menn þá ljánum á einhverja þúfuna, sem hjá er, og snara henni í lautirnar undir galtana, og er það fljótunnið. Eins og sá ótti fylgir fanga og lanasetningum, og að nokkru leyti líka ferhirndu galta setningunni, að heyið í þeim vökni á ný og hrekist, eins þykir að sínu leyti þeim

vel í rigningum, og að hey verði vel í þeim, þó eigi sje nema grasþurrt, en jeg verð þó að álíta sívölu galtana betri, nema ef þeir kynnu að verða veðurnæmari í ofviðra byljum.

[1]) Opt fer líka vel á því, að bera smáa galta, sem nokkuð hafa staðið, saman í stóra, og láta þá svo standa; þarf þá heyið ekki annan þurrk, sje það eigi mjög megnismikið og borið saman grasþurrt, ef ekki rennur vatn í galtana.

[1]) Að skilja við hey í flekkjum að kvöldi dags á úthallanda slætti, eins og sumstaðar er títt, er sú fásinna, sem allir ættu að varast, því það kemur mjög sjaldan að notum, en hættan og skaðinn vofa alla jafan yfir.

---

kemur til að þú ert svo áhyggjulegur? Hvað gengur að þjer?

„Ekkert, Lisette; jeg var einungis að hugsa —“.

„Þú varst einungis að hugsa! Segðu mjer hugsanir þínar. Þú veizt að þú átt ekki að hafa nein leyndarmál fyrir mjer, litlu konunni þinni“.

„Þú segir það satt, góðin mín; en jeg varð áhyggjufullur, af því að mjer datt í hug, hvernig ganga mundi fyrir þessum barna-aumingjum, ef forsjóninni þóknaðist að taka okkur frá þeim“.

„Talaðu ekki svona, Jules; jeg verð svo hrygg í huga. Þú veizt að við erum bæði ung enn, og mjer sýnist líklegt, að við eigum mörg ár ólifuð. Við skulum vona þess, og gegna skyldu okkar sem bezt á meðan við lifum. Þú manst eptir, að presturinn sagði í ræðunni sinni á sunnudaginn, að það sje mikið varið í, að maðurinn þekki skyldu sína, en miklu meira sje það þó vert, að hann gegni skyldum sínum! Og enginn annast betur um konu sína og börn en þú gjörir. Þess vegna bið jeg þig að vera með glöðu bragði“.

„Jeg skal gjöra það. Mjer datt þetta snöggvast í hug. En nú fyrst mjer dettur það í hug, ætla jeg að vanda uppeldi barnanna sem jeg hefi bezt föng á. Jeg ætla að senda þau í skólann, undir eins og þau fá skynbragð á að læra, og sjálfur ætla jeg að kenna þeim heima það sem jeg get. Jeg ætla sjálfur að kenna Maurice að teikna og búa hann þannig undir handiðn sína“.

„Já það er óskaráð! Og jeg skal kenna Genevieve að sauma og spinna, og allt innan húss. Það verður gaman að sitja við eldinn og kenna þeim. Og þá syngjum við öll eitthvert snoturt kvæðiskorn, til að mynda:

Snemma á vori svífur svala,

eða eitthvað því um líkt“.

Jules Asselin og kona hans framkvæmdu þessa ætl-

vænt um, sem búnir eru að reyna þessa galta, að sem mest hey komist upp í þá, þó að lítill sje á því þurrkurinn og opt enginn, einungis að þeir haldi þeirri lögun sem á þeim á að vera og áður er á vikið. Það ríður á, þegar þessir galtar eru settir, að það gjöri handlægnir menn; en aðferðin er þessi: menn setja fangahring eins stóran og menn ætla að koma miklu heyi í galtann; verður þá að greiða í sundur ytri hlið fanganna, en þrísta hinni innri saman; sje heyið illa þurrt, er fangahringurinn ekki hafður stærri en svo, að eitt fang nægir í miðjuna, til að binda galtann saman með, þá á ætíð miðfangið að vera hæst, svo út af halli á allar síður; á þessu lagi að halda upp úr, og varðar mest að kollinum sje vel þríst saman á alla vegu, og hann sje mjór, en hæðin á þessum göltum karlmanns seiling; sje galtinn hafður stærri, verður að standa upp á einhverju, meðan kollurinn er lagaður, svo að hæðin fáist nóg við ummálið, Þegar hey er svo þurrt að í garð er þerandi, og því verður ekki í það sinn komið við, eður það þykir ofiítið til uppburðar í hey, er ráðlegast að setja það í galta, og eru þeir þá látnir halda sömu lögun og strax var nefnd, en hafðir svo stórir, að upp í þá er farið og troðnir og lagaðir sem bezt, þarf þá að verja þá með voðum, eru þær víða til hjá efna og hirðumönnum hjer vestanlands [1]. Voðir þessar eru lagaðar eins og hettur með lykkjum neðan í, og er band dregið í þær, sem voðirnar eru bundnar með í veðrum um galtana. Meðan galtarnir eru að síga, þarf að líta eptir, að þeir hallist ekki, og þegar frá líður verður að taka losið, sem fellur niður með þeim, í burtu, svo að það rigni ekki og blásið geti með rótum galtanna.

(Framhaldið síðar).

[1]) Þessu veit eg trauðlega yrði komið við til hlítar í heyafla sveitum þar sem sætt er á sumum heimilum á stundum í einu þurrt hey í galta, svo að þeir skipta mörgum tugum.

## Brjef til Kaupmannahafnar[1].

### II.

Það er nú orðið svo langt síðan að jeg skrifaði þjer, og jeg á þjer svo mörg brjef að gjalda, að það er von þó að þú vonist eptir löngu brjefi frá mjer um ýmisleg efni; en það verður nú að bíða, þangað til að vora fer og hlýna, því nú get jeg varla skrifað fyrir kulda. Jeg ætla einungis að skrifa þjer núna lítið eitt um lagaskólabænarskrána, sem þú manst, að við höfðum einu sinni mikinn áhuga á; og ætla jeg að segja þjer álit mitt um meðferð alþingis á því máli, en jeg vonast eptir að fá að heyra hvað þjer ytra hugsið nú um það mál.

Það tókst vel og heppilega til, að herra prófessor Pjetri var send bænarskráin, því jeg ætla að enginn annar hefði fengizt, sem hefði fylgt málinu eins vel fram og hann gjörði, bróðir hans hjálpaði honum einnig vel, og jeg virði það mikils, að alþing skyldi ekki fella það mál, þrátt fyrir alla mótstöðu sumra lögfræðinganna, og þar á meðal konungsfulltrúa, sem allir urðu dauðhræddir um, að allri lögfræði mundi hnigna, og allt af

[1]) Sbr. Norðra 1856, nr. 13—14.

---

un sína, og lifðu glöðu og ánægðu lífi, þangað til tvíburarnir voru 9 vetra gömul. En hver getur sjeð fyrir fram raunir hins komanda dags? Einn morgun gekk Jules til vinnu sinnar eins og hann var vanur, en um kvöldið lá hann lík. Glaðværðin var skjótlega snúin í harm. Jules var kvaddur til að gjöra að vagnhjóli. Vagninn var hlaðinn og steyptist um koll, og varð það hans bani. Hann varð harmdauði öllum sveitungum sínum, og allir aumkuðu ekkjuna og veslings tvíburana.

En sjaldan er ein bara stök. Lisette, sem var mjög viðkvæm í eðli sínu, þoldi ekki þessa hastarlegu ógæfu. Hún dó af harmi innan þriggja daga, og bæði voru lögð til hvíldar í eina gröf.

Þessi annar missir tvíburanna vakti meðaumkvun allra í nágrenninu. Þau voru nú munaðarlaus á bernskuskeiði. Hjólsmíðameistarinn sem Jules hafði unnið hjá, kvaðst skyldi vera þeim í föðurstað, og tók þau á heimili sitt, og er slíkt almennt meðal alþýðu á Frakklandi.

Vjer getum nú farið stutt yfir 5 næstu árin. Á þeim lærði Maurice handiðn föður síns, og systir hans stundaði gagn fósturföður síns á allar lundir, er hún mátti. Þá misstu þau einnig þenna fósturföður, og sonur hans, sem tók við eptir hann, var ekki vel til munaðarleysingjanna. Drengurinn var rekinn til harðari vinnu en kraptar hans leyfðu, og systirin var látin ganga í allt hið versta, svo að þakklætistilfinningin við hinn dána fósturföður gat ekki lengi sætt þau við þrældóm þann, er sonur hans lagði þeim á herðar.

Tvíburarnir hefðu nú getað fengið nægilega atvinnu sitt í hverju lagi, en þau unnust svo mikið, að þau vildu heldur líða allan skort en skilja að samvistum. Að vinna vikum saman á bændajörðum langt í burtu, og skilja við Genevieve meðal ókunnugra manna, sýndist Maurice

göflum ganga, ef að vjer lærðum ekki lögin af háskólakennurunum dönsku, sem þeir nú bera slíka staklega lotningu fyrir, eins og þeir væru nærri því uppspretta allrar vizku. Jeg held þú brosir þegar þú lest, að þeir eiga að vera stálbakaðir í íslenzku allir lögfræðiskennendurnir ytra, þar sem þó enginn þeirra mun vera bænabókarfær í henni, ellegar þegar þeir á þinginu eru að gjöra hann Arnljót okkar að þúsundþjalasmið svona öldungis upp úr þurru. Vjer urðum þess nú varir, hversu **rjett, óvilhallt** og **rækilega** hann Larsen ritaði í fyrra um stöðu Íslands í ríkinu, þar sjáum við hversu holl lagakennslan við háskólann er oss Íslendingum, ef vjer tækjum öll orð hans góð og gild, og Jón Sigurðsson hefði ekki gjört barn í söguna fyrir honum. Viðlíka mundi nú verða sjerstaka kennslan í íslenzkum lögum við háskólann, ef dönsku prófessorarnir ættu að fara að kenna það; og þó að konungsfulltrúinn hefði ekki mikinn gáning á þjóðernisandanum, sem mundi verða í íslenzka lagaskólanum, þá segi jeg fyrir mitt leyti, að jeg hefi ekki betri trú á þeim þjóðernisanda, sem slík kennsla við háskólann getur komið inn hjá lögfræðingunum, ef að þeir festa trúnað á hana. Jeg er öldungis sannfærður um, að í lagaskóla hjer á landi mætti, með helmingi minni kostnaði búa embættismannaefni helmingi betur undir embætti hjer á landi, á helmingi styttri tíma heldur en til þess þarf að lesa lög ytra. Þetta kann nú að þykja gífurlegt.

Það var ein aðalástæðan, er höfð var á móti stofnun lagaskólans, að embættin væru svo fá, að lögfræðingarnir yrðu of margir í þau, og mundu þeir svo verða lagasnápar, og siga alþýðunni upp á móti yfirvöldunum, eða að öðrum kosti mundu svo fáir fara í þenna skóla, að ekki væri kostandi upp á hann. Henni var nú hrundið allvel þessari ástæðu, en þó þótti mjer líka mega tilfæra það, að öll nauðsyn er á, að allir umboðsmenn hjer á landi vissu nokkuð í lögum, og víst mætti búast við því, þegar kostnaðurinn væri ekki meiri að læra lögin í þessum skóla en gjört er ráð fyrir, að menn mundu læra þar lög til að standa nær til að fá umboðin, þó að launin sjeu lítil fyrir störf þeirra, og ættu þeir þá hægra með að standa í sporum sýslumanna, þegar á þarf að halda.

Það var nú í þessu máli eins og svo mörgum öðrum, að mest var fyrirstaðan með kostnaðinn. Nefndin stakk upp á að láta alþing jafna kostnaðinum niður á landið, ef hann fengist ekki hjá stjórninni, en þá ruku sumir upp til handa og fóta, og hjeldu að stjórnin mundi verða bálreið, og halda að Íslendingar vildu draga völdin úr höndum sjer, og þetta væri sama og heimta að alþing fengi að ráða skattgjaldslögum. Þessi hræðsla í þinginu er hálfkímileg, þegar það er borið saman við það, sem nefndin í fólksþinginu danska, sem sett var til að skoða fjárhagslögin, fór fram á við dómsmálastjórann, að henni þækti æskilegt, að alþing fengi vald til að ákveða um inngjöld og útgjöld af Íslandi, og hann tók þessu vel. Það varð nú samt ofan á, sem mjer einnig virðist rjettast, að

---

gagnstætt skyldu sinni, enda gat hann ekki sjeð af henni, og ef að Genevieve tók að reyna að sauma eins og móðir hennar hafði kennt henni, hjá einhverri saumakonu í bænum, þá hafði hún engan frið fyrir þeirri hugsun, hver mundi sjá um Maurice, búa til mat hans, og þjóna honum, og olli þetta allt saman, að þau urðu að vera saman hvað sem í skærist.

Þannig börðust nú tvíburarnir fyrir lífi sínu, þangað til ríkur bóndi aumkvaðist yfir þau, og tók þau bæði í vist hjá sjer, því hann komst við af hinni staklegu elsku, er þau báru hvort til annars, og þau ljetu sjer lynda hverja helzt skilmála sem þeim voru boðnir, þegar þau fengu að vera saman á einu heimili.

Hjer leið þeim nú mjög vel í 2 ár. Maurice hafði nóg að gjöra á þessu stórbúi að smíða og gjöra við akuryrkjuverkfærin, sem var handiðn hans, og stundum gekk hann líka að verki með öðrum mönnum, en systir hans hafði nóg að gjöra við heimastörf, og þroskaðist hún vel og var hin glaðlyndasta stúlka. Vinnan varð þeim ljettari, þegar þau gátu sjest einu sinni á dag, og þegar þau sátu á brekkubarði nálægt bænum á sumarkvöldin, voru þau svo sæl og ánægð, að þau óskuðu einskis meira, og hugsuðu aldrei um að tíminn og raunir mundu breyta þessari yndislegu stundu.

En vegur þeirra, sem unnast, er ekki ætíð sljettur. Það var uppskerutími í Beauce, hinn mesti annatími, þegar allir ungir og gamlir starfa af alefli. Maurice var einlægt fyrstur manna á akurinn, og gekk seinastur frá verki. Þó að hann væri ekki sterkur, var hann þó hinn liprasti maður að verki. Eitt kvöld var hann að keppast við að setja toppknippi á háan kornstakk, og festa það, því stormur vofði yfir með regni, og eldingar voru farnar að ganga; þá laust allt í einu ein eldingin hann niður af stakkinum mállausan og tilfinningarlausan.

biðja stjórnina að leggja til fjeð til að stofna lagaskólann; og er vonandi, að hún verði við þeirri bæn alþingis, því hvergi hefur hún verið eins fús að rjetta oss hjálparhönd eins og til að kosta til lærða skólans og prestaskólans, og þörfin og gagnið af slíkum lagaskóla finnst mjer ómetanlegt, og jeg get ekki annað ætlað en að kennslan verði oss þannig svo miklu hollari, að það vinni það upp, sem lesið er meira við háskólann; og líka er það víst, eins og líka var hreift á þinginu, að margt sem lesið er utanlands kemur lögfræðingunum að litlum eða engum notum, þegar þeir verða embættismenn hjer á landi. Vel og rjett þykir mjer það hugsað, að koma skólanum svo fyrir, að einhverjir af landsyfirrjettardómendunum geti kennt sumt í skólanum. Ef að fjölgað yrði dómendum í honum, eins og öll þörf er á, og enda hvort sem er, er líklegt, að þeir geti varið nokkrum tíma til þess frá öðrum störfum sínum. Jeg hafði hugsað mjer, að þeir eður aðrir lögfræðingar syðra gætu haft svo mikinn þátt í kennslunni, að ekki þyrfti nema einn yfirkennara yfir skólanum.

Jeg vonast eptir að þjer ytra skrifið eitthvað um lagaskólamálið, annaðhvort í Fjelagsritunum eða annarstaðar, því slíkt mál má ekki niður falla, og jeg treysti forstöðumanni hinnar íslenzku stjórnardeildar til að styðja þetta mikilvæga málefni að því leyti sem hann getur.

Meira skrifa jeg þjer ekki að þessu sinni.

## Um fjárkláðann.

(Úr brjefi úr Húnavatnssýslu 29. næstliðinn).

Það mun yður kunnugt, að amtmanni Havstein var skrifað um að hepta ferð fjárkláðans af sýslumanni okkar, og 2. þessa mánaðar skipaði kammerráð Arnesen öllum hreppstjórum hjer í sýslu að skoða nákvæmlega allt fje í sýslunni, og var það gjört fyrir jól. Af þeirri skoðun þóttust menn sjá, að ekki væri kláðasýkin komin hjer í sýslu, þó varð alstaðar vart við meiri og minni lúsakláða, og á einstöku stað hrúðurveru, og var það fje strax skorið. Það vita menn og nú með vissu, að fyrir samgöngu er ómógulegt að faraldrið sje komið hjer að sunnan. Næstum eins var þetta yfir alla sýsluna. En skyldi nú ekki kláði þessi geta verið byrjun til kláðasýki þeirrar sem Finsen nú í riti sínu segir að byrjast geti af kláðalús, en ekki er kláði þessi meiri en algengur lúsakláði opt hefur verið í fje, nema ef vera kynni á stöku stað, og margir góðir fjármenn segja að hann sje með mesta móti. Væri nú mjög æskilegt, ef Finsen vildi benda almenningi á góð ráð til að eyða lús í fje á meðan ekki er orðið að óttast næma sýki, sem alls ekki mun vera hjer í sýslu enn sem komið er. Og gæti hann þá skrifað grein um þetta í blað yðar."

Fyrir sunnan er kláðasýkin að útbreiðast meir og meir, og segir Þjóðólfur, að sumum takist að lækna hann.

---

Hinir verkmennirnir, sem einnig höfðu fengið aðkenning af eldingunni, söfnuðust kringum fjelaga sinn, og hjeldu í fyrstunni, að hann væri dauður. Þeir fundu þó skjótt lífsmark með honum, en þegar hann lauk upp augunum, starði hann í kringum sig, en gat ekki komið upp einu orði Hann gat að eins gefið þeim bendingu, að höfuðið væri veikt, en þó sá ekkert á því, þar á móti sáust áhrif eldingarinnar á limum hans, því þegar þeir reyndu til að reisa hann upp, hnigu fæturnir öldungis aflausir undir honum, og hann leið aptur í öngvit.

(Framhaldið síðar).

## Mannalát.

Um jólin andaðist Níels Havstein faktor á Hofsós í Skagafirði. Alþingismaður sjera Guðmundur Einarsson á Kvennabrekku hefur enn misst 2 börn sín úr barnaveikinni, áður hefur hann misst 4 börn úr henni. Hann skrifar oss, að hann hafi nú haft við höndina barnameðöl meðlækna, og hafi bæði þau og önnur meðöl, er hann hafði fengið að sunnan frá dr. Hjaltalín, ekkert getað hjálpað. Hann á nú ekki á lífi nema 2 sonu.

(Aðsent). Hinn 19. september næstl. andaðist ekkjan Elín Jónsdóttir á Lundabrekku í Bárðardal, 62 ára gömul. Hún var þrígipt, og eignaðist 7 börn, hvar af 3 lifa: Jónas snikkari Hallgrímsson á Lundabrekku, Sigurður bóndi Hallgrímsson á Víðum og Sesselja Andrjesdóttir bóndakona á Lundabrekku. Elín sálaða var sóma- og dugnaðar kona, hreinlunduð, hjartagóð, trygg og guðhrædd, góð ektakvinna og umhyggjusamasta móðir, og því sannkölluð prýði stjettar sinnar.

Sigurbjörg Oddsdóttir, á 27. ári, kona á Arnarstöðum í Núpasveit, er sáluð 8. desember f. á.

þrem dögum áður, 5. s. m., fæddi hún meybarn; það hefur verið afleiðing barnsfararinnar að hún ljezt. Hún var gipt fyrir 1 ári, 4 mánuðum og 15 dögum. Kona þessi var góðkvendi, gerprýðis- og stillingarkona, og fyrirmynd ungra kvenna.

---

# Auglýsingar.

Frá byrjun þessa árs tek jeg engar auglýsingar inn í blaðið, nema borgunin fylgi, 4 skildingar fyrir línuna eða 46 stafi með smáletri en 5 skildinga fyrir línuna eða 40 stafi með stærra letrinu, því þess konar smávegis kemst jeg ekki til að krefja inn brjeflega, en annars gleyma menn að senda það.

Akureyri 14. janúar 1857.

Sveinn Skúlason.

---

9. desember varð fjárskaði í Presthólum í Núpasveit; þann dag var þar yfirtaks stórhríð og óviðráðanlegt veður, hröktust þá 35 fullorðnar kindur, sauðir og ær, frá sjáfarhúsi í Axarfjarðarflóa; síðar fundust þar af víðsvegar við flóann reknir nálægt 20 ræflar, fæstir óskaddaðir, því vargur hirti það sem að landi bar.

Strax og fjármissirinn frjettist, var einn af efnaminni bændum sveitarinnar presti sínum svo mannlundaður, að hann gaf honum 1 sauð.

Presthólum 16. desember 1856.

H. Þorsteinsson.

---

Nýupptekin fjármörk í Þingeyjarsýslu:

1. Sýlt hægra, Sýlt, biti aptan vinstra, Hallgrímur Þorkelsson á Arndísarstöðum í Ljósavatnshrepp.
2. Sýlt, gagnbitað hægra, Sneiðrifað fram. vinstra, Jónas Friðfinnsson á Sigurðarstöðum í Ljósavatnshrepp.
3. Hvatt hægra, Sýlt vinstra, Björn Erlendsson á Gautlöndum í Skútustaðahrepp.
4. Vaglskorið aptan hægra, Tvístýft aptan vinstra, Finnbogi Erlendsson á Gautlöndum í Skútustaðahrepp.

Þessi mörk eru hreppstjórar beðnir að teikna hjá sjer, sem fylgiskjal við markatöflurnar.

Arndísarstöðum 4. janúar 1857.

Bjarni Indriðason.

---

Hjer í Hraunsrjett kom í haust hvíthornótt lambgimbur með mínu marki: sýlt hægra, hálft af aptan vinstra; en stórt gat undir sýlingunni fram yfir, sem baldið var, að væri eptir skrúða, er grafið hefði úr; en þetta lamb varð fram yfir þau, sem jeg átti von á með þeim lit. Vil jeg því biðja Norðra að lýsa þessu marki, svo jeg fái að vita hver á svona sammerkt mjer, og sá geti vitjað andvirðis fyri lambið til mín.

Heiðarbót 24. nóvemb. 1856.

Jón Jónsson.

---

Fjármark mitt, sem gleymst hefur í markatöflum Eyjafjarðarsýslu er: Vaglskorið aptan hægra, hálfur stúfur aptan vinstra.

Vöglum í Hrafnagilshrepp 31. desember 1856.

Friðfinnur Jósefsson.

---

Jeg undirskrifaður hefi í hyggju að kenna ungum mönnum sund að vori komanda, og býð jeg því hverjum, er nema vill þessa íþrótt, að taka þátt í kennslu minni. Borgun fyrir hvern er 2 rd.

Auðnum í Laxárdal 2. jan. 1857.

Arngrímur Gíslason.

---

## Prestaköll.

(Eptir Þjóðólfi).

Veitt: Miðdalaþingin; eptir bæn sjera Vigfúsar Reykdals (— sem hafði áður það brauð, en var veitt Gufudalskall, eins og fyr er getið —), er honum leyft að sitja þar kyrrum að kalli, 10. f. mán. — S. dag var Gufudalur veittur sjera Einari B. Sívertsen á Þönglabakka.

Garðar á Akranesi, 3. þ. mán, sjera Benedikt Kristjánssyni, aðstoðarpresti á Múla.

Auk hans sóktu þessir: sjera Daníel Jónsson á Kvíjabekk, sjera Jón Björnsson í Arnarbæli, sjera Stefán Thorarensen frá Hraungerði, og sjera Benedikt Þórðarson á Brjámslæk 21 árs prestur.

Óveitt: Þönglabakki (Þönglabakka og Flateyjarsóknir) í Þingeyjarsýslu; því kalli verður ekki slegið upp að sinni, eptir því sem í augl. biskupsins 10. nóvember f. á. skýrir frá; mun vera í ráði, að taka af það brauð, og leggja undir önnur (Þönglabakka undir Höfða, og Flatey undir Húsavík(?), ef það þækti tiltækilegt.

---

## Reikningsmaðurinn.

Góður reikningsmaður nokkur hafði lengi verið kvongaður, en hafði ekki orðið barna auðið. Einu sinni var sagt við konu hans, að maðurinn hennar væri afbragðs reikningsmaður. „Það getur vel verið“, sagði hún, „en margfalda kann hann ekki“.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðar-laust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. | 24. Janúar. | 3.—4.

## Íslenzk mál á þingi Dana[1].

Meðal margra góðra og skemmtilegra ritgjörða í seinasta ári Nýrra Fjelagsrita er ofannefnd ritgjörð. Hún er að vísu stutt, en er þó mjög eptirtektaverð. það lýsir sjer ágæta vel á umræðum þingmanna í Danmörku, hversu hentugt það er að láta þingin þar segja og semja um lög og lof hjer í landi. Stjórnin hefur einlægt, síðan vjer Íslendingar áttum að fá hluttekning í grundvallarlögunum góðu, fylgt þeirri reglu, að láta ríkisþingið ræða lög vor sem eru almenns efnis, hvort sem það nú verður eptirleiðis, þegar alríkisstjórnarskipunin er nú algjörlega komin í kring; en svo er að sjá, sem þingið hafi helzt viljað vera laus við öll afskipti þessara mála. það kemur fram í umræðunum hinn hlæilegasti ókunnugleiki á málefnunum, sem verið er um að ræða, og þingmenn finna það sjálfir, og hafa því komið fram með þá uppástungu, að ljetta á sjer, og fá alþingi meiri völd í hendur, þegar um fjárhag Íslands er að ræða, því þeir þykjast eins og von er eiga bágt með að sjá hver útgjöld eru nauðsynleg fyrir landið, og hafa því játað flestu sem stjórnin hefur stungið upp á, mótmælalaust. Svona hefur það nú gengið um langan tíma, að Íslendingar hafa ekkert atkvæði fengið að hafa um útgjöld landsins, og á meðan svo stendur er ekki von að tilfinningin um að vjer ættum að vera sjálfbjarga, lifni hjá þjóðinni. það er fyrst þegar maðurinn er orðinn fjár síns ráðandi, að hann rjettilega hugsar svo, að nú eigi hann að kappkosta að verja því svo, þó lítið kunni að vera, að hann verði ekki öðrum til þyngsla, og eins er það, að þjóðin verður fyrst að sjá, hvernig tekjum hennar er varið, og hafa atkvæði í því máli, áður en hún fær áhuga á því að annast sjálf allar þarfir sínar. Oss virðist að þingið danska eigi þakkir skilið af oss fyrir það, að það kom fram með þessa uppástungu, því óvíst er að vjer hefðum þorað að biðja um slíkt fyrst um sinn, að minnsta kosti er það ekki að sjá á lagaskólamálinu.

Önnur uppástunga kom nú um leið frá fjárhagslaganefndinni, sem oss var miklu ógeðfelldari, og það var, að hún vildi láta oss leggja menn á herflotann danska. Dómsmálastjórinn sýndi nú reyndar fram á, hve torvelt mundi að koma þessu til leiðar, en hins gat hann ekki, að ekkert getur verið landi voru óhollara en að draga unga menn úr landinu, því á engu er hjer hjá oss þvílíkur skortur sem á vinnandi mönnum. Atvinnuvegir vorir eru örðugir og mannfrekir, en fólksfæðin mikil.

[1]) Sbr. Ný Fjelagsrit 1856, 172—191. bls.

---

## Sveitastjórnarmálið á alþingi 1855.

það er auðsjeð, að öll stjórnfræðisleg hugsun er ung hjá oss Íslendingum, eins og líka er von, þegar aðrir hafa nú stjórnað oss hartnær að öllu leyti í mörg hundruð ár, en nokkuð hefur þó lifnað við áhugi vor á alþjóðlegum málum síðan alþingi var stofnað, og ætti þessi áhugi að fara því meir í vöxt, sem hluttekning vor í stjórn vorri vex, og því meiri ávöxtu sem vjer sjáum af hinu frjálslegra fyrirkomulagi, sem komið hefur á allmörg þjóðmálefni vor með alþinginu. En vjer getum þó ekki gengið úr skugga um, að mikil bernskubrögð komu enn fram á þingi voru hinu síðasta, þó að það væri nú fimmta þingið, sem haldið hefur verið hjer hjá oss.

það er hvorttveggja að sveitastjórnarmálið er æði margbrotið, og það, ef til vill, mjög örðugt að finna undir eins hina rjettustu og beztu undirstöðu þessa máls, enda lýsir það sjer á öllum umræðunum, að fáir eða engir hafa haft ljósa hugmynd um hvað þeir vildu, og er það án efa þessu að kenna, að svo margir urðu til að mæla fram með því, sem svo hefði verið ódrengilegt, að biðja

stjórnina um að fresta málinu. Þó getum vjer ekki neitað því, að oss virðist minni hluti nefndarinnar hafi haft ljósasta hugmynd um hvað hann vildi, og þeirri stefnunni var fylgt fram með mestu kappi, enda varð hún ofan á, eins og við mátti búast, þar sem allur fjöldinn var á báðum áttum, og vissi ekki hvað úr skyldi ráða.

Það er enginn efi á því, að margt er gott og nýtilegt í frumvarpi stjórnarinnar í þessu máli, enda hafði hún bænarskrá alþingis 1853 við að styðjast; þó virðist oss, að þeir þingmenn hafi haft rjett fyrir sjer, sem sýndist það ofmjög af útlendum toga spunnið, sem ekki átti við hjer á landi eins og öllu nú til hagar hjá oss. Oss hefur ekki getað betur fundizt, en að þingið hafi gjört öldungis rjett í því að beiðast aptur að sýslunefndir yrðu settar, því allt virðist benda til þess, að þær sjeu nauðsynlegur milliliður milli hreppsnefndanna og æðra úrskurðarvalds; og það virðist mjög óhentugt að þurfa að fara til amtsráðsins með hvað eina smávegis, sem hreppsnefndum kann að bera á milli, enda má gjöra ráð fyrir, að sýslunefndir sjeu miklu betur færar að skera úr þess konar málum en amtsráðið getur verið.

Það var annar galli á amtsráðunum, sem líka var mikils verður, og það var hve flóknar kosningarnar til þeirra voru. Það hefði reyndar verið nokkur bót í máli hefði bætt verið úr því, eins og Vilhjálmur Finsen fór fram á, en amtsráðin voru hjer ekki hafandi, nema líka væru sýslunefndir; en þess konar stjórn hefði eins og þinginu fannst orðið of margbrotin og kostnaðarsöm.

Meiri hluti nefndarinnar var nú eins og allt þingið á því, að sýslunefndir væru ómissandi, og allir virtust ánægðir með nefndarálitið, þangað til kom til hins æðra úrskurðarvalds, þá gat engum komið saman, og enginn hafði þar neina ljósa sannfæring á málinu. Meiri hlutinn vildi búa til amtsráð, sem þó ekki voru nein amtsráð, því alþing átti að kjósa í það og byskup, og virðist oss það fjarstætt, og engu betra en að amtmaður gjöri einn um þau mál, þegar hann auglýsir reikningana og ástand opinberra sjóða. Líka bjó meiri hlutinn til nokkurs konar nefnd, þegar sýslur deildu sín á milli; þá skyldi einn fulltrúi frá hverri sýslu ásamt amtmanni skipa þeim málum, og var þetta nógsamlega rekið á þinginu, og leitt í ljós, að það yrði með þessu lagi ofan á að amtmaðurinn einn skæri úr málunum. Oss virðist því yfirstjórn þessara mála í áliti meiri hlutans mjög óhentug, því það er yfirbragð eitt, að þetta amtsráð, sem nefnt er af alþingi og byskupi, og þessi nefnd af einum manni frá hverri sýslu og amtmanni geti skorið betur úr málunum, eða svo að meiri trygging, eins og þingið kallar það, sje fyrir að úrslit málanna verði rjett heldur en þó amtmaður gjöri það einn. Það var enn eitt er felldi álit meira hlutans, og átti að fella það, og það var, að engin áætlun var gjörð, um kostnað til amtsráðsins og amtsnefndarinnar, og þó að framsögumaðurinn í málinu reyndi til að sýna fram á, að kostnaður þessi mundi ekki verða meiri en gjört var ráð fyrir eptir uppástungu minni hlutans, þá virðist oss að honum hafi ekki tekizt það vel, og oss virðist bágt að

---

## Maurice og Genevieve,

eður

### Munaðarlausu tvíburarnir (frönsk saga).

(Framhald). Það var í hryggum hug, að verkamennirnir gengu af akrinum með vagninum, sem bar hinn unga fjelaga þeirra nær dauða en lífi. En orð fá eigi skýrt ástand systurinnar, þegar hún sá bróður sinn þannig í dauðans greipum, hvernig hún bældi niður óstöðvandi harm sinn, þegar hún var búinn að hjálpa til að leggja hann í rúmið, til þess að geta setið á rúmstokkinum og látið höfuð hans hvíla við brjóst sjer, og hafði ekki augun af tvíburabróður sínum, sem hún elskaði mest, allra manna til þess að sjá hið fyrsta lífsmark, er kæmi í ljós.

Loksins tók hún að sjá lífsmark með honum. Hann raknaði smám saman við, og augu hans hvörfluðu um herbergið og námu hvergi staðar, þangað til þau mættu augum Genevieve, þá sýndist hinn líðandi ungi maður brosa. „Hann þekkir mig!“ kallaði hún upp. „Forsjónin hefur gefið mjer líf hans, og hún mun einnig gefa mjer meðöl í hendur til að lækna hann. Við fæddumst undir eins, og jeg finn það með sjálfri mjer, að við munum lifa saman og deyja saman.“

Röddin, sem hann þekkti svo vel, fjekk mjög á Maurice; feginn hefði hann viljað tala við hana ástar- og huggunarorð, en tunga hans var magnlaus, og hann gat ekki bært hana. Hann gat ekki nema bent á ennið á sjer til að sýna, að sjúkdómurinn hefði þar aðsetur sitt. Bezti læknir þar í hjeraðinu, sem var yfir honum margar klukkustundir, sagði það álit sitt, að höfuðið og fæturnir væru magnlausir, en það væri góðs viti, að hann gæti bent til höfuðsins, og gætu menn því vonast, eptir að hann mundi fá bráðum aptur fullt vit og meðvitund.

Og þegar vesalings pilturinn að viku liðinni gat með

haga uppástungum hans svo, að kostnaðurinn yrði, ekki grófur, eins og einn þingmaður komst að orði, og að minnsta kosti ofmikill í samanburði við gagn það, sem búast mátti við, að menn hefðu af þessum stofnunum; og það er eðlilegt, þó að þingmenn sjeu erfiðir fyrir að koma á fót þeim stofnunum, sem auðsjáanlega baka alþýðu mikil útgjöld. Aptur á mót virðist oss það á engu byggt sem einn bóndinn fór fram á, að menn vonuðust eptir, að þessi nýju sveitastjórnarlög mundu ljetta álögum á bændastjettinni, því þess geta menn ekki vonazt. það sem nýtt og gott skipulag á sveitastjórninni á að gjöra er það, að niðurjöfnunin á útgjöldunum til sveitarþarfanna verði rjettlátari og sanngjarnari, að betur verði sjeð fyrir öllum áríðandi endurbótum sem sveitin eða hreppurinn þarf með, og að beztu menn hreppsins þannig fái fulla hvöt til að skipa fyrir að gjöra það sem gjöra þarf, án þess að hafa tillit til þess hvort útgjöld sveitarinnar verða meiri eða minni en þau hafa verið þetta á vera ávöxturinn af hinum nýju sveitastjórnarlögum; og það, sem einkum á að hvetja menn til að breyta hinum núverandi, er það, að svo margir duglegustu mennirnir geta ekki haft nein veruleg áhrif á stjórn hreppsins á meðan að svona stendur.

Minna hluta nefndarinnar á alþingi kom nú vel saman við meiri hlutann á meðan um hreppsnefndir og sýslunefndir var að ræða; en þegar kom til hinna æðri úrskurðarvalda, þótti honum ekki vera nóg samkvæmni í stjórn sveitarmálefnanna, og vildi einnig hafa nefnd til að hafa hin síðustu úrslit málanna á hendi. þetta virðist líka í fljótu áliti allásjálegt, en þó getum vjer ekki annað en álitið það satt, eins og konungsfulltrúi sagði, að þetta skipulag sje mjög óhæfilegt og ísjárvert, því það fer fram á að draga undir alþing framkvæmdar og úrskurðarvald í mikils áríðandi málefnum, sem oss virðist aldrei ættu að liggja undir alþing, og sem alþing að vorri hyggju getur ekki haft eins ljósa þekkingu á eins og innanamtsstjórn hver sem hún væri. þó hefði nú verið tiltök, að alþing hefði haft þekkingu til að skera úr þeim málum, ef að taka hefði átt þessi mál fyrir á sjálfu þinginu og um sjálfan þingtímann, eins og umboðsmaður Jón Jónsson stakk upp á því þá voru þó nokkur líkindi til, að þingmennirnir úr þeim sýslum, sem málin voru úr, hefðu getað gefið nauðsynlegar skýrslur um málefnin. En engin líkindi voru til þess, að nefnd af þingmönnum í Reykjavík, sem þeir hefðu einkum verið kosnir í, sem þar áttu heima, hefði þekkt svo vel til, að þeir hefðu verið vel kjörnir til að skera úr málunum. Oss virðist það auðsætt, að þess konar nefnd hefði einlægt orðið að biðja um nýjar skýrslur, sökum ókunnugleika síns á málunum, og aldrei er við því að búast, að málin yrðu ætíð svo úr garði gjörð, að allt lægi opið fyrir ókunnugum mönnum. þar að auki getur oss ekki betur fundizt, en að það sje gild ástæða móti þessari tilhögun, að öll mál er til kynnu að falla, rjett eptir að nefndin hefði lokið störfum sínum, yrðu að bíða 2 ár, eins og líka var hreift á þinginu, og öll líkindi eru til, að sum mál yrðu ekki út-

---

veikri röddu komið upp orði, var „Genevieve“ og „systir mín“ fyrstu orðin sem hann mælti, og engi orð fá lýst gleði hennar, sem hafði fæðzt og uppalizt með honum, þegar hún heyrði þau. þegar hún hugsaði um, að hann væri nú ekki lengur skepna, sem einungis gæti dregið andann, án þess að geta lýst nokkurri hugsun sinni eður tilfinningu, sýndust henni það nóg laun fyrir sorglegar nætur, er hún hafði vakað yfir honum. Fyrst að hann var farinn að geta talað, hugsaði hún að magnleysið mundi smátt og smátt hverfa. Armleggirnir tóku líka smátt og smátt að styrkjast, og ekki leið á löngu aður en hann gat bætt við orðið „systir“ öðrum dýrmætum ástarorðum. „Systir góð“, „hjálp mín og huggun“, var hann vanur að segja, og bæta við þeirri kæru bæn, að hún skyldi aumkvast yfir sig.

„Ó, já, já!“ svaraði hún þá; „Guð mun aumkvast yfir okkur, og lofa mjer að gjöra þig heilbrigðan með umhyggju minni og aðhjúkrun“. En ef að, hún um leið og hún sagði þetta, kyssti ofurlítið fastar hið sjúka höfuð, er hallaðist að brjósti hennar, þá kveinaði hann upp, og fjekk nokkurs konar flog, er sýndu, að sjúkdómur hans var enn óbreyttur.

Læknirinn var nú aptur sóttur til hans, og kvaðst hann vera næstum vonlaus um, að hann fengi nokkurn tíma styrk aptur í fætur sína, og þannig leið veturinn í mestu sorg og armæðu fyrir tvíburunum. Genevieve vakti allar nætur við rúm bróður síns, og hverri stund, sem hún gat tekið frá vinnu sinni, varði hún til að annast um hann. þó að hann kvartaði ekki mjög um ástand sitt, gat hann þó ekki að sjer gjört að óska þess, að dauðinn vildi leysa sig undan að vera þannig öllum til þyngsla, og einkum systur sinni, því hann sá, hversu hún eyddi kröptum sínum, og hann fann hversu ógæfa sín hafði svipt hana allri gleði í lífinu.

„Óskar þú mjer þá dauða, þegar þú talar svona“, var

kljáð af nefndinni í fyrsta skipti, og yrði þá drátturinn á málinu óþolandi, nema nefnd þessi væri látin einlægt standa, og yrði það gjört, hlyti kostnaðurinn að verða miklu meiri en minni hluti nefndarinnar stakk upp á. Það er ekki til neins að fylgja föstum hugsunarreglum og samkvæmni, þar sem um það er að gjöra, að semja þess konar stjórnarreglur, því þá er ætíð hætt við að stjórnin verði einungis á pappírnum, og skipunum hennar verði aldrei framgengt. Það verður að hyggja bezt að því, hvað við á, og hverju fram verður komið. Það er áríðandi að haga stjórninni svo, að þeir sem eiga að skera úr málunum hafi sem glöggasta þekkingu á þeim, og sjeu sem hæfastir til þess. Það er enn að oss virðist ástæða móti því að draga þetta undir úrskurð alþingis eður alþingisnefndar, að þegar vjer Íslendingar hugsum, að alþingi muni með tímanum fá meiri þátt í löggjafarvaldi og stjórnarvaldi (politisk Myndighed), þá finnst oss ósamkvæmni í því að leggja úrskurð sveitastjórnarmálefna undir það, líkt og lagt er undir lögþingið í Færeyjum, því oss virðist, að vjer ættum ekki að æskja þess, að verkahringur alþingis yrði lagaður eptir því þingi.

Í næsta blaði viljum vjer stuttlega drepa á, hvernig oss virðist að hentast hefði verið að koma þessu máli í horfið til bráðabyrgða. (Framh. síðar).

---

(Aðsent).

## Um heyþurrk í votviðrum.

(Framhald). Ekki eru þessir galtar eptir því veðurnæmari en þeir ferhyrndu, sem þeir eru mjórri, og sje ekki því meira veður má verja þá fyrir foki með því, að reisa 2 eða 3 spítur upp við þá vindmegin, svo ljettar, að galtarnir hallist ekki, þrýstir vindurinn svo á þær, að heyið náir ekki að flettast upp. Sje meira veður enn svo, að þetta dugi, er bundið um þá reipi niður við jörðina, og svo öðru í kross upp um kollinn og niður í hitt, en anmarki sá fylgir böndum þessum að kollurinn aflagast, og vatn dregst niður með þeim, ef rigning fylgir veðrinu, á því að taka þennan umbúnað í burtu, þá veðrinu slotar, og laga kollana.

Þó að heyjahlöður sjeu heldur að fjölga, eru heyjatóptir eða garðstæði enn víða brúkuð, en það vantar mjög mikið á, að tóptirnar sjeu eins og þær ættu að vera. — Þær eru optast hlaðnar úr einu saman torfefni, og botninn í þeim er jörðin eins og hún kemur fyrir, hörð eða blaut. Þó nú ekki sje í botninum margra ára heybleyta, er auðsætt, hvernig þessi heyjastæði eru til reika í rigningum; er ófagurt til þess að vita, að þarna skuli vera kasað ofan í skrúðgrænu heyinu, sem strax dregur í sig bleytuna allt í kring; á þetta bætist rigningin í torfið, kemur þá hitaseyðingur í, og hleypir niður heyinu, svo það afvatnast ekki lengur og drepur, ef til vill, til botns að ofan; þarna verður nokkuð af heyinu að svartri bleytu, en sumt að rudda, og fer þannig til skemmda og ónýtis í nokkrum tóptum talsvert af heyi, stundum er af þessu sá voði búinn, að heyið brenni, sem optast bíður þangað til búið er að

---

hún von að segja grátandi, þegar hann var þannig að telja harmatölur sínar. „Heldurðu að jeg geti lifað lengi, ef að þú fer og skilur við mig. Mjer finnst jeg líka stundum vera að dauða komin, því mjer er stundum illt í höfðinu, og fæturnir geta varla borið mig, svo jeg er næstum því eins og þú“.

„Jeg trúi því vel“, sagði sjúklingurinn, „en það kemur allt af þreytu; þú hefur enga hvíld nótt eða dag“.

„Vertu óhræddur um það; Guð hefur gefið mjer krapta til að vinna, og sú von, að jeg fái aptur að sjá þig hressan við hina gömlu iðju þína, heldur mjer við heilsu. Láttu ekki hugfallast góði bróðir. Hefurðu ekki sjeð storminn og regnið leggja kornöxin flöt til jarðar, og þó hafa þau risið upp fagrari en áður eptir hæga golu á sólskinsdegi“.

Þessi huggunarorð hinnar viðkvæmu elskandi systur höfðu nú þann árangur að ljetta þunglyndi hans og gefa honum von um, að hann mundi aptur ná kröptum sínum. En til þess að gleyma ekki íþrótt sinni, og týna ekki niður hagleik sínum, skemmti hann sjer með að búa til ýmislega snillilega smíðisgripi á stóli sínum, þar sem hann var settur, þar á meðal gjörði hann lítinn fjögra hjóla vagn á fjöðrum, og var hann opt glaður að hugsa til þess, að einhver af fjelögum sínum gæti dregið sig í honum annaðhvort til kirkjunnar eða út á leikvöll bæjarmanna á helgidagskvöldi til þess að hann gæti horft á leik þeirra, þó að hann gæti ekki sjálfur tekið þátt í leiknum.

Systir hans, sem var í vitorði með um leyndarmál þetta, og hafði útvegað honum allt sem til vagnsmíðisins þurfti, hafði annað í hyggju, og það var, að enginn skyldi draga þenna vagn, þegar hann væri seztur í hann, nema hún sjálf. Og þegar hún var búin að búa sig út og reyna vagninn nokkrum sinnum, fann hún, að hún mundi vera fær um að fullnægja ósk bróður síns, er hann girntist mest af öllu, að hann skyldi geta verið við guðsþjónustugjörð

bera heyið að mestu eða öllu leyti upp. Mörgum verður líka það á, að taka ofstórt stykki af tóptinni fyrir undir lítið hey, svo það afvatnast naumast í fyrstu, og því síður þegar rigningin og bleytan ganga í það, en við þessu er hægast að sjá með því, að geyma heyið í göltum vel vörðum, þangað til að nóg hey er komið til góðs uppburðar. Þar sem grjót er fáanlegt ættu þessar heyjatóptir að minnsta kosti að vera hlaðnar úr einu saman grjóti að innan, og möl að berast í botninn, eða að steinleggjast; bezt væri þó að þær væru hlaðnar úr einu saman grjóti utan og innan, svo þjett hlöðnu, að ekki fennti í gegnum veggina, ættu þeir að hallast frá heyinu á alla vega; færi þá betur, að þurrt hnausalag væri efst. Sjeu tóptirnar svona búnar til, mega þær vera svo djúpar, að litla sem enga veggseta þurfi að hafa, svo torfið nái ofan á tóptarvegg að minnsta kosti á sígnu heyinu, en svo djúpar tóptir eru óhafandi úr torfi og grjóti, og því síður úr einu saman torfefni, grjót-tóptirnar yrðu einar hinar beztu heyjastæður og hentugar á veðrajörðum.

Hvað heyhlöðum viðvíkur, þá er að þeim hin mesta hægð og gagn sumar sem vetur, og lýsir það sjer ekki sízt í heyþurrkinum. Þegar í útihey þarf að bera, er það einatt í votviðrum, að menn geta ekki borið heyið upp sama daginn sem það þornar, og verður því að bíða þangað til, að þurr hægviðrisdagur kemur, og verjast nýrri vætu; en í hlöðurnar verður hverri heytuggunni snarað jafnótt og hún þornar, en opt hættir því heyi við að myggla, sem opt og lítið er í einu borið inn; er mygglan ætíð óþokkagestur og skemmd í heyjum, því hún spillir bæði gagnsmunum af skepnum og heilsufari þeirra og heyjamannsins með, og hefur sumum riðið það að fullu; hún fylgir optast vætutíð, því jafnaðarlega kemur hún í illa þurrt og hrakið hey, sem langvinnur hýrnseyðingur liggur í, eða sem ekki hefur magn til að ryðja sig, er menn kalla. Auk mygglunnar kemur ofan á heyið í hlöðunum bleytuskán eða stakkur, þessu er ekki gott að verja, en minnka má stakkinn og stytta má hitann með því móti, að bera töluvert hærra í miðjuna en við veggina, svo ætíð sje þar hæðst, þó í heyinu hitni, því komi bolli ofan í miðjuna fer hitinn seint úr, þó stakkurinn sje tekinn, sem ætíð á að nemast burt og hirðast sjer í lagi, sje hann ekki ónýtur með öllu. Menn hafa og reynt að tyrfa hey í hlöðum, helzt töðu, með vel þurru torfi eða leppum, og sumir bera fornt hey ljett ofan á til að taka við stakkinum. Opt verður það að liði að ætla svo til, að í hröktu heyi orni svo mikið, að vatnssúrinn þorni í burt af hitanum, því þá verður mygglan minni, en nokkuð er það undir von, að ekki orni um of, eða verði hins vegar að uppþyrrkingi. Söltun heyja bætir bezt úr vondri mygglu, og eru söltuð hey bæði holl kvikfjenaði, og gefa sjálfsagt af kúm meiri arð.

Hin fyrsta söltun heyja hjer í landi er að líkindum sú, sem Ó. Stefensen stiptamtmaður reyndi á Innrahólmi; eru menn nú farnir að brúka hana við og við, ætla margir að það sje mátuleg söltun heyja að miðlungi, að 2 kútar salts gangi í kýr-

---

fyrsta í Hvítasunnu í kirkjunni hjá Artenay, sem lá nærri því mílu frá bænum. Það sem hin glaða systir var einkum í vandræðum með var það, hvernig hún ætti að koma bróður sínum, sem ekki þoldi neinn hristing í vagninum yfir hina ósljettu steinlögðu götu í gegnum bæinn sem var á kirkjuleiðinni; en svo hafði hitt vinnufólkið komizt við af þessum systurlega kærleika hennar, að allur vegurinn var í dögun á helgidagsmorguninn, þegar til kirkjunnar átti að fara, lagður með hálmi, svo þykkt, að hinn sjúki kenndi sjer einkis meins. Frá níundu stund um morguninn stóð allur þorri bæjarbúa beggja megin við kirkjuveginn til að sjá systurina, sem ekki vildi láta neinn taka þátt í því að aka bróður sínum til kirkjunnar, sem hún og gjörði svo laglega og hægt, að enginn hefði getað gjört það eins vel. En hún varð feimin og eins og utan við sig, þegar hinir góðu nágrannar litu til hennar blíðlega, og báðu systkynunum allra virkta.

En það sem einkum fjekk á hjarta hennar var hve hinn æruverði prestur tók henni vel í augsýn allra. Hann talaði um hana fyrir sóknarfólki sínu eins og fyrirmynd í kristilegum kærleika og systurelsku, og bætti við með heitum orðum bæn yfir systkynunum, og sagði að endingu við hana blíðlega: „Vertu hughraust, dóttir, Drottni er starfi þinn geðfelldur, og hann mun vernda þig“.

Það var gott fyrir veslings stúlkuna, að þessi uppörfunarorð voru töluð til hennar, ekki af því að hún þyrfti að láta minna sig á skyldu sína heldur af því, að hún sá þá að aðrir álitu líka að hegðun hennar hefði verið lofsverð. Hin systurlega ást hennar styrktist því við orð prestsins, og hún tók það eins og laun fyrir áhyggjur sínar og næturvökur. En mest laun voru henni þó augu bróðursins sem stóðu full af tárum, og sem bað heitt að Hann sem hefði skotið henni í brjóst, að reynast sjer slík systir, vildi endurgjalda henni það.

fóður; svarar þessi söltun því, að mörk salts fari í heyhestinn, og eptir þessari tiltölu er saltað í hvert sinn, sem hey er borið inn og í hvert lag, sem um heystæðuna er borið [1]. Það mælir mest fram með söltun heyja, að minna má þurrka það hey, sem saltað er, svo næringarvökvinn má halda sjer í heyinu að mestu eða öllu leyti, því hey, sem slegið er og rakað, og sett er strax upp í galta má taka inn, ef saltað er, eptir að þeir hafa staðið í 6—9 daga í blástri eða skemur, og verður það hey þá betra enn annað samkynja, og eins allt það hey, sem minnst er þurrkað en getur þó orðið vel. Þetta hefur konferenzráð M, Stefensen fundið, er hann ræður til að láta orna í heyjum í þurrkinum og snara þeim svo í sundur í þerri, og segir að þau verði betri enn önnur hey, en að þetta sè óvarlegt í vætutíð hefi jeg áður sýnt.

Að gefa nákvæmar reglur um verkaniðurröðun í vætutíð yrði ofmargbrotið og ókljúfandi, því það kemur mest undir glöggsýni verkstjórans á veðri, forsjón á verkaskipun og verkhyggni hans, en hvað um það er vona jeg, að töf sú, sem að því þykir að setja saman heyið í áðurnefnda galta, eins og jeg hefi að framan sýnt að betur færi, eða væri með öllu ómissandi, hverfi smám saman, þá reynslan kemur með sannfæring sína á hagnaðinum, og þyki þá vel til vinnandi. En vorkun er, þó menn fari nokkuð tæplega fram í þessa óvanalegu aðferð, því það hefur mjer og orðið, og fer bezt að hin vanalega aðferð sje þessari samsíða við höfð til að sjá hver betri er í votviðrum.

Skáleyjum á Breiðafirði í skammdeginu 1854.

M. E.

[1]) Jeg heyri sagt, að sumir salti minna heyin, og láti jafnvel 1 kút dnga í kýrfóður, en það mun nægja, því að eins, að heyið sje safalítið. Hey með vatnssúr verður að salta mjög mikið svo þau hvorki brenni nje verði á hinn bóginn að uppþyrrkings heyi, sem er hið lakasta fóður, því við hvorutveggja er hætt:

---

(Aðsent).

Á næstliðnu hausti hafði jeg ásett mjer að reka nokkrar sauðkindur í kaupstað til slátrunar eins og aðrir góðir menn, því álitlega var borgað; en einmitt þá dagana sem jeg vildi reka af stað, flaug sá orðasveimur um hjerað þetta — rjett eins og þoka undan norðanbyl — að vigtarmenn sumir mundu taka ríflega yfirvigt bæði á kjöti og mör fyrir innþornun þess, en þó sem optast án samkomulags við eigendur og umráðamenn kindanna, og yrði þetta þá tilfinnanlegast þeim sem ekki þekktu lóðin. Einkanlega hljómaði þetta um einn spánýjan vigtarmann. Sjálfsagt — ef satt er — mun hann einn af þeim forsjálu ráðsmönnum, sem væntir að verða meðtekinn, nær eð hann þrýtur, í þær matsælu kjötbúðir. Þessi flugufregn var nóg til að setja mig kyrran, og hætta við kindareksturinn, þar sem jeg er maður óframfærinn, kem sjaldan í kaupstað, og þekki ekki hið minnsta á lóðin, ekki einu

---

Vorið leið nú, og ekki vildi Maurice batna til neinna muna. Maímánuður var kominn og nærri liðinn, og með honum hvarf sú von, að sjúklingnum mundi batna þegar veðurblíðan kæmi; og hann var nú öldungis örkula vonar um, að hann mundi nokkurn tíma fá aptur afl í fætur sína, og bjóst við að verða þannig kararmaður alla æfi sína.

Þegar hin óþreytanlega systir hans hafði eitt kvöld dregið hann í kerru sinni undir álmviðareikurnar, er voru í kringum leikvöll bæjarins, heilsaði gamall hermaður Maurice. Hermaður þessi var nýlega kominn til bæjarins í kynnisleit. Hann spurði Maurice vandlega um sjúkdóm hans. Hermaðurinn sagði honum síðan þá sögu, að hann kvaðst hafa verið í bardaganum við Eylau, og hefði flís úr sprengikúlu lostið sig og sært í fæturna, og hefði hann misst allt afl úr þeim í 2 ár; líka hefði hann haft flog í höfðinu, sem nærri því hefðu gjört sig vitstola. Hann kvaðst hafa leitað margra ráða þangað til sjer hefði batnað af sjóböðum. „Jeg var borinn til sjóarstrandarinnar nær dauða en lífi", sagði hinn gamli hermaður", Flokkshöfðingi minn ljeði mjer burðarstól, og eptir hálfan mánuð tóku kraptar mínir og matarlyst að aukast, og eptir þrjá mánuði var jeg albata. Fyrst gat jeg einungis gengið við tvær hækjur, svo kastaði jeg annari, og þriðja september — það er dagur sem jeg gleymi aldrei — gekk jeg hálfa mílu með nokkrum kunningjum mínum öldungis staflaus, Og þrem vikum seinna steig jeg í vagn, og sneri heimleiðis eins hraustur og heilbrigður eins og jeg hafði nokkurn tíma verið"

„Og hvar í heiminum eru þessi ágætu böð?" sagði sjúklingurinn með miklum áhuga.

„Hjá borg sem Boulogne heitir sunnan til í ríki þessu hjerumbil 250 mílur hjeðan."

„250 mílur! Ef jeg þarf að fara svo langt til að fá aptur heilsu mína, þá er jeg nokkurnveginn viss um að verða veikur til dauðadags".

sinni 21 ℔ lóð frá þriggja lýsipundalóði, og hjelt jeg mjer því hollara að skera heima.

Jafnvel þó að þessi frjettaglaumur hafi máske verið helber ósannindi, þá samt ættum við að láta hann kenna okkur — eins og líka árlegur matvöruskortur í kaupstöðum — að keppast ekki svo mjög eptir að koma kjöti okkar út af landinu, en lofa heldur löndum vorum að sitja fyrir því, sem ósjaldan ganga með peningana í höndunum, sárbiðjandi um kjöt, og borga máske fullt svo ríflega sem kaupmenn vorir.

**Sveitarmaður.**

Af því að jeg veit, að það er áríðandi fyrir kaupmenn vora að hafa nákvæmt eptirlit á þjónum sínum, svo að þeir ekki með óráðvendni komi því óorði á verzlun þeirra, sem hún annars ekki á skilið, hefi jeg ekki viljað neita línum þessum inntöku í blaðið. **Ábm.**

---

## Um verzlun Norðmanna næstliðið sumar.

Vjer höfum minnst lítið eitt á verzlun hjer á norðurlandi hjá hinum föstu kaupmönnum í ár, en vjer höfum ekki getið neitt um Norðmenn, er komu hingað til verzlunar mest á austurkaupstöðum og hjer á Akureyri. Hinn helzti af þeim var kaupmaður Bruu frá Kristjaníu, og hann hafði stærst skip, og flestar vörutegundir. Það mun hafa gjört Norðmönnum allmikinn skaða að þeir komu svo seint einkum hingað norður, að menn höfðu lagt inn mestar vörur sínar. Hjer var lítið um trjávið á sumum verzlunarstöðunum, en þó gekk þeim æði tregt að selja. Kom það einkum af því, að viður sá, sem Bruu hafði hjer, þótti lítt nýtur og óhentugur, því borðviðurinn var allur með miklum vanköntum, enda hjeldu þeir honum einlægt í háu verði eptir viðargæðunum. Aðrar vörur, sem þeir höfðu, seldu þeir viðlíka og í landi, en matvara þeirra þótti betri en hjá föstukaupmönnnnum. Menn vildu hjer víst alstaðar á norður- og austurlandi hlynna að verzlun þeirra og hæna þá að sjer, og margir keyptu af þeim fyrir nokkur hundruð dali í þessu skyni. Það sem vjer einkum höfum heyrt fundið að verzlun þeirra var það, að þeir höfðu svo að kalla sitt verðlagið á hverjum verzlunarstaðnum, þar sem þeir komu, en landar vorir fundu það fljótt, og gjörðu því sitt til að þoka prísunum niður. Þannig varð það, að austfirðingar fengu verst verð hjá þeim, en Mývetningar og aðrir sem skiptu við þá á Húsavík, fengu miklu lægra verð á öllu, sem þeir keyptu, því þar komu þeir seinast. Annar galli á verzlun þeirra var sá, að þeir höfðu svo fáar vörutegundir, að engir gátu verzlað við þá eingöngu; en vjer vissum til, að þeir ætluðu sjer að bæta úr því þetta ár, og eins munu þeir sjá um að hafa viðinn betur vandaðan næst, því varla þurfa þeir að búast við, að menn kaupi opt af þeim annan eins við, þegar betri viður er í landi, þó hann sje nokkru dýrari.

Vjer óskum þess, að Norðmenn haldi áfram að verzla við oss, því viðarverzlun þeirra ætti að geta verið oss mjög hentug; en þeir verða að

---

„Reyndu að láta koma þjer þangað, góðurinn minn„ sagði hinn gamli hermaður vingjarulega, „og jeg skal ábyrgjast að þú verður alheill“.

„Að komast aptur á fætur, geta unnið að hinni gömlu handiðn minni, unnið fyrir mjer og, hjálpað systur minni! Nei nei! Slík sæla getur mjer ekki hlotnazt sagði unglingurinn, því honum ofbauð vegalengðin.

„Hvað þá, vinur minn, þú ætlar að sleppa voninni! Þú ert eins og þeir sem ekki trúa neinni lækningu fyrri en þeir sjá það með eigin augum. Þjer er óhætt að treysta á að sjóböðin lækna þig. Jeg hefi sjeð þau lækna marga aðra en mig. Jeg er enginn læknir, en þú ert ungur, og mjer þykir líklegast, að þjer geti batnað, því sjúkdómur þinn liggur í taugunum. Vertu kátur Maurice! Jeg var alveg læknaður um fimmtugsaldur, og því þarftu ekki að örvænta.

„En þjer gætið ekki að því, að jeg get ekki farið á neinum vagni, því jeg líð í öngvit, hvað lítið sem vagninn hristist. Nei það er guðs vilji að jeg verði krypplingur alla æfi mína, og jeg vil einungis biðja hann að stytta lífdaga mína til að ljetta raunum mínum og annara“.

Meðan á þessari viðræðu stóð hlustaði Genevieve nákvæmlega eptir, og hefðu þeir sem töluðu ekki haft hugann á öðru, hefðu þeir getað lesið í andliti hennar fastan ásetning Hún tók hinn gamla hermann á eintal til að fá hjá honum nákvæma lýsingu á þessum ágætu sjóböðum, um hvaða tíma árs ætti að brúka þau, hvað langur skemmsti vegur til þeirra væri, og hvar bezt og ódýrast væri að fara; og þegar hún hafði hugsað sig um allt þetta, leitaði hún undir eins að framkvæma ásetning sinn.

Hún leit yfir allar torfærur, og hafði nú fastráðið að draga sjálf bróður sinn í kerru sinni alla leið úr miðju Frakklandi til Boulogne. Þegar hún um kvöldið sat hjá Maurice og horfði á hann sjúka, gat hún ekki dulið tilfinningar sínar, heldur tók að gráta,

koma svo ár sinni fyrir borð, að þeir geti boðið oss sömu kosti og vjer fáum hjá öðrum.

---



## Hannes Stephánsson Stephensen.

Lengi breiddist limi skrýddur
laufgrænn meiður um byggðar leiðir
Ísafoldar, og vel skýldi
öldnu landi og varði grandi.
Stepháns ættar stofninn þjetti
stóð svo lengi í frægð og gengi,
af honum kvistir komu traustir,
kvistir líkir stofni slíkum.

Ólafur, Stephán, Magnús megni
megindýru, landi stýra
síðstu öld, og sæmd margfaldri,
sjóla að háttum líkir knáttu.
Hjeldu völdum horskir höldar
af hilmi Jóta ráðum skjótir.
Báru skíran skjöld fyri aldir
skatar, ætíð reyndust hvatir.

En þó að hnígju firðar frægir
foldu að, og hyldust moldu;
arfar lifðu lofi reifðir
landsins búum jafnvel trúir.
Þó var fyrstur þeirra' og beztur
— þann vjer látinn allir grátum —
**Stefáns** niður **Hannes**, heiður
hans æ standi á voru landi.

Fyrstur gekk í flokki hraustum
fagurmæltur þjónn guðs laga,
þeim er aldar ósið vildi
eyða, og frelsi í byggðir leiða.
Vitur maður harðstjórn hata
harða vann, er frelsi bannar
alfrjófgandi ausa mundu
of jörð þessa sinni blessan.

Skarð er fyri skyldi orðið
skæður dauði olli nauðum,
og son tók bezta einn, er ástum
unni hrjáðu þessu láði.
Snjallur gekk í himna höllu,
hans þar bíður niðji fríður,
og dætur einnig alnar honum,
yndisstund er þeirra fundur.

Þú sem hjá oss situr og sýtir!
Sárin gróa, það er fróun.
Myrkur grafar ei fær orkað
anda skilja á friðarlandi.
Eptir stundu eina fundum
ykkar hjer mun saman bera,
þar sem dvelur sífelld sæla,
sorgir deyja og harmur þegir.

**Sv. Sk.**

---

„Þú ert einhvernveginn öðruvísi en þú ert vön, systir mín!“ sagði Maurice, og varð áhyggjufullur, „hjer býr eitthvað sjerlegt í skapi.

„Til hvers á jeg að leyna því lengur fyrir þjer, bróðir minn!“ sagði hún, „jeg held jeg hafi nú fundið ráð til að lækna þig.“

„Og hvernig ætlar þú að fara að því?“

„Með sjóböðum, og jeg ætla að aka þjer þangað sjálf, það eru 250 mílur hjeðan.“

„Þú getur aldrei haft krapta til þess.“

„Og því ekki það? Hvað getur maður ekki gjört fyrir tvíburabróður sinn annan eins og þú ert?“

„En hvaðan ætlarðu að fá fje til þessarar ferðar?“

„Jeg hefi í gömlum vettlingi 5 gullpeninga, sem jeg hefi dregið saman af kaupi mínu, og það verður nóg á leiðinni.“

(Framhaldið síðar).

---

Þeir sem með gjöfum hafa styrkt prentsmiðjuna á Akureyri næstliðið ár eru eptirfylgjandi:

| | |
|---|---|
| Herra prófastur Benedikt Vigfússon á Hólum í Hjaltadal | 10 rd. |
| Umboðsm. Einar Stefánsson á Reinistað | 20 – |
| Prestur M. Sigurðsson á Gilsbakka | 3 – |
| — Geir Bachmann í Hjarðarholti | 4 – |

Þessum göfuglyndu herrum votta jeg í nafni meðnefndarmanna minna kærustu þakkir fyrir hönd prentsmiðjunnar.

Akureyri 21. janúar 1857.

**Sv. Sk.**

---



---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 5. Febrúar. 5.—6.

## Ekki er ráð nema í tíma sje tekið.

þess er getið í nóvember blaði Norðra þ. á., að fjárkláðapest sje farin að ganga um Suður- og Vesturland, og sje jafnvel komin norður yfir Holtavörðuheiði. þetta eru illar frjettir, og þá bæta ekki hinar um, sem fara munnmælum, að fjeð hrynji niður af þessum sjúkdómi.

Við Íslendingar höfum reynt áður kláðapest á sauðfje, og vitum sögu hennar, hvílíkt tjón og bágindi hún leiddi yfir landið þar, sem hún gekk og víðar. Hvort sem það er nú rjett hermt eða ekki, að fjeð stráfalli af þessum faraldri, þá sýnir reynslan strax, að hann er furðu eitraður, ef hann hefur slegið út um svo margar sveitir á einu sumri, og það er harla líklegt hann sje fullt eins banvænn og hinn fyrri, sem þessi kvað líkjast. Jeg man ekki til jeg hafi heyrt hinn fyrri 1769 hafi farið eins geyst yfir. því getur hafa valdið að minni hafi þá verið samgöngur fjárins en nú.

Hvort sem þessi faraldur er nú jafnbanvænn sauðfjenu og hinn fyrri, ellegar ekki, þá er engan veginn leggjandi upp að vera að káka við hann með lækningum, en lofa honum að breiðast út um allar áttir á meðan, nema nú þegar sje fundin örugg lækning við honum, sem byrjað yrði með strax í vetur báðu megin, þar sem hann er kominn lengst austur og norður, og um allt þar í milli jafnframt.

Hver sem lifir af sauðfjenaði, getur því nærri með sjálfum sjer, ef kláða faraldur þessi dræpi niður lífsbjargar skepnur hans, að hann og þeir, sem hann á að annast, eiga þá skammt til að deyja úr hungri, og hinn litli velmegunarvísir, sem nú er að spretta í landinu, deyr út ef fjeð fellur, og getur varla lifnað aptur á hálfri öld. Mjer virðist það, sem ritstjóri Norðra segir um þenna nýja meinvætt, sje alls kostar rjett og vel hugað, og ekkert ráð sje til að verja bjargræðisstofn sveitabúanna við farald þessum eins líklegt og það, sem hann segir, og reynslan sýndi áður, að eitt dugði, að drepa niður allt sauðfje báðu megin við hann, og svo hverja skepnu sem veikist innan takmarka hans.

þetta er ill nauðverja fyrir þá sem þurfa að taka til hennar, og það ekki betra, að þeir mundi verða að vera sauðlausir heilt ár, þangað til fullsjeð væri að faraldurinn væri hættur. En þeir sem yrði að verða fyrir þessu, ættu samt ekki að láta nein vandræði, sem því fylgja, aptra sjer að taka þetta hjálparráð, til að bjarga atvinnu meðbræðra sinna nú og seinna, og sjálfra sín eptirleiðis. þeir eiga að líta á það, að þeir geta með þessu eina ráði, að líkindum, varið margar þúsundir landa sinna hungurdauða. En við hinir sem þessir bjarga með neyðarúrræðunum að skera allt fjeð, eigum líka að sýna það með einhverju, að við könnumst þakklátlega við, að þeir hafa svipt sig aðalbjargræði sínu okkar vegna, fullt eins og fyrir sjálfa sig. Við getum sýnt þetta með fleiru en orðunum, við getum líka gjört mikið til að hjálpa þeim aptur, og bæta þeim að nokkru leyti skaðann. En svo þeir gæti vitað sem fyrst að okkur væri alvara, til þess þeir hlífðist því síður við að skera niður, ætti búendur um allt land, milli sveitanna, þar sem skorið væri fyrir faraldurinn, að taka sig saman um að selja með góðu verði og gefa kindur þeim, sem hafa orðið að lóga fje sínu vegna pestarinnar, einkum þeim, sem skorið hafa allt sitt, til að verja henni útbreiðslu. Og til þess það sæist, að sem flestir vildu gjöra þetta, virðist mjer vel fallið, að hreppstjóri eða kosnir menn í hverjum hrepp, kæmist eptir því hjá hreppsmönnum hvað þeir mundi vilja og geta látið burtu af skepnum til þeirra sem leituðu þangað fjárkaupa fyrir þá, sem urðu að skera vegna faraldursins; skyldi auglýsa í dagblöðum hvað mikið hjerumbil mundi fást í hverri

sveit, svo fjárkaupamenn vissi fyrir fram að nokkru leyti á hverju þeir ætti von, hvar sem þeir kæmi. En fjárkaupamenn ætti að vera útbúnir með skýrslu frá presti og hreppstjóra í hverjum hrepp, um efnahag búendanna, sem ætti að fá fjeð, svo þeim sem ljeti úti væri þetta ekki ókunnugt. Þó ekki fengist nema 40 til 80 kindur úr meðalhrepp, gæti það orðið mikil hjálp, þegar allt kæmi saman í sauðlausu hreppana. Ef mönnum að lízt þetta, sem jeg sting hjer upp á, gæti orðið þeim til upphvatningar og gagns, sem verða að skera fje sitt vegna kláðafaraldursins og okkur til sóma, er hjeldum fjenu fyrir þeirra hjálp. Þá ætti að byrja strax í vetur á því.

Víðast hvar á Austurlandi er faraldur í sauðfje helzt með tvennu móti bráðafár eða vinstrardrep og lungnabólga með ýmsum kvillum sem henni fylgja. Þessi ófögnuður gjörir nokkrum búendum stórkostlegt tjón, og mjög mörgum töluverðan baga. Fyrir þetta mundi verða bágt í einstöku sveit að láta burtu fjenað svo teljandi væri. En í flestum sveitum mundi fást margt fje, þegar svo mikil nauðsyn bæri til, og menn gætti þess, að þeir sem fjárins þurfa hafa frelsað með tjóni sínu lífsbjargarskepnur hinna frá kláðapestinni. Við mættum ekki telja, þegar svona stæði á, þó við missum svo sem tíundu hverja kind á ári úr faraldrinum hjerna, hjá hinu að verða að missa allar í einu.

Mjer hefur annars dottið í hug að takast mætti að halda eptir allt að helmingi fjárins, í þeim sveitum þar sem heilbrigt fje er skorið fyrir kláða faraldurinn, með því móti að skera strax niður nokkurn hluta fjárins, helming eða hvað sem þyrfti, en gefa hinu inni vetur og sumar og láta aldrei út, fyr en búið væri að eyða öllu kláðafje og sýkinni og hreinsa öll fjárhús. Húsin sem innigjafa fjeð væri í að sumrinu mætti rjúfa í mæninn og gjöra vindaugu á veggi svo ekki yrði skaðlega heitt á skepnunum, en engan veginn mætti leyfa að láta út, svo það gæti ekki horið til að kind slippi og sækti drepsóttina. Það er líklegt að þetta gæti blessast. Þó væri jeg ragur að telja til þess, af því jeg kvíði fyrir einstöku menn mundi verða svo kærulausir að bregða úr af reglunni.

Svo skal jeg ekki fara um þetta efni fleiri orðum, en biðja menn að hugleiða þetta, sem jeg hefi sagt, og láta sjer vera annt um að finna og rækja öll beztu ráð, sem kostur er á, og miða til þess að verja menn atvinnu missi, eymd og hungri, styðja gagn þeirra og halda uppi sóma þeirra.

* * *

Jeg hefi heyrt að kláðafaraldurinn á sauðfjenu núna hafi komið upp af enskum lömbum, sem einhver hafi látið flytja hingað. Jeg get ekki þagað yfir því, sem mjer datt í hug, þegar jeg heyrði um ensku lömbin, að þau hefði átt að koma til að bæta fjárkynið okkar. Mjer datt í hug: miklir bjánar eru þeir menn, sem ætla sjer að bæta fjeð okkar með útlendu fje sunnan úr löndum, þegar við eigum eitthvert bezta fje í landinu okkar heima, og það áður en farið er að reyna með fullkominni ráðdeild að bæta það eins

---

## Maurice og Genevieve,

eður

### Munaðarlausu tvíburarnir (frönsk saga).

Framhald). „En hvernig eigum við þá að komast heimleiðis?“

„Ef guð lofar verður þá svo komið heilsu þinni“ að þú getur gengið við hlið mjer, og það gjörir leiðina styttri; hann mun ala önn fyrir okkur. Manstu ekki orðin sem hann lagði góða prestinum okkar í munn: Verið hughraust, þið þóknizt drottni, og hann mun vernda ykkur“.

„Já, systir góð, jeg fel mig í hans og þínar hendur, framkvæmdu ráðstöfun hans, því vissulega er það köllun frá honum, fyrst þjer ofbýður ekki vegalengdin“.

„Ekki hót“.

„Eða óteljandi torfærur, sem verða á leið okkar“.

„Við komumst yfir þær“.

„Eða þreytan, því þessi áreynzla verður að ganga fram af þjer“.

„Vertu óhræddur, jeg á hægt með það, jeg er kraptgóð“.

„En þegar þú þarft að fara yfir fjöllin“.

„Þá verðum við einúngis að fara hægra.“

„Þau hepta ferð okkar svo að við verðum mánuð eða lengur á leiðinni“.

„Það verðum við að minnsta kosti, svo það er bezt að fara að búa sig til ferðar“.

„Og villtu endilega ráðast í þetta?“

„Því spyrðu svona!“

Hjörtu þeirra komust svo við, að þau gátu ekki sagt meira, en fjellust í faðma.

Það má nú sjá það af skapsmunum Genevieve, að hún mundi ekki láta af ásetningi sínum. Hún hafði sterka og þrekmikla lund, og hugsaði ekkert um sjálfa sig, þegar

og verða mætti, svo gott fje, að það gæti orðið nærri eins gott og bezta fje á Englandi innan fárra ára, ef hjer væri farið eins að ráði sínu og þar í þeim efnum. það er þó ætíð sannur málsháttur: „Hollt er heima hvað“, og auðvitað að landið okkar loptið og veðráttan hjerna á bezt við það fjeð sem er hjer kynjað og alið upp.

Skrifað á þorláksmessu 1856.

Bóndi austfirðingur.

---

(Aðsent).

Í niðurlagi umræðu fundarins 1854, sem haldinn var eptir stiptsyfirvaldanna fyrirmælum í Suðurþingeyjasýslu viðvíkjandi brauðamatinu, bentu fundarmenn á, að ekki mundi ótiltækilegt að Lundarbrekka eður Halldórsstaðir í Eyjardalsárprestakalli væru prestssetur. þess vegna leitaðist prestur sjera Jón Austmann við árið 1855 að fá aðra hverja þessa jörð til ábúðar og fyrir prestssetur og fylgdu honum í því nokkrir sóknarbændur hans. Voru þá gjörð ýmisleg boð Halldórsstaðaeigendum, en sem urðu í það skipti árangurslaus. Jörðin Halldórsstaðir er 16 hundruð að dýrleika, eiga í henni 12 hndr. bræðurnir Jón eldri og yngri Ingjaldssynir er búa á henni, en 4 hndr. Bergvin Einarsson á Sandvík, sem er fátækur barnamaður. Ljet hann á sjer heyra 1856 — að líkindum vegna fátæktar — að hann vildi selja þessi sín 4 hndr., fóru menn þá að bjóða í þau, og varð einn hæstbjóðandi, en af öfund, til þess að hann ekki hlyti boðið, varð annar hvatamaður til þess að prestur, sjera Jón, bæði Bergvin um hundruðin, kvaðst hann vilja gjöra það fyrir prest, ef hann gæti fengið alla Halldórsstaði, en annars ekki. þess vegna gjörði prestur ásamt 4 sóknarbændum heimreið að Halldórsstöðum í Bárðardal í seinastl. marzmánuði, og fengu leyfi hjá áður nefndum bræðrum fyrir því, að makaskipti yrði á Halldórsstöðum og allri Eydalsártorfunni þó með þeim skilmála, að skriflegur samningur væri gjörður um þetta efni, og eru helztu atriði hans þetta: „að tólf hundruð úr Halldórsstöðum væru látin mæta allri Eyjadalsártorfunni með öllum þeim jarðarhúsum, er henni fylgja í gildu og góðu standi eptir síðustu löglegri úttekt, og að öll kúgildi Eyjadalsártorfunnar skyldu fylgja presti eptir inn á Halldórsstaði; sömuleiðis skyldi kirkjan vera rifin og af lögð með öllu, og Lundarbrekka gjörð að einni aðalkirkju í prestakallinu, en prestssetrið og hjáleigan Hvarf skyldi vera laust, þegar þeir flyttu frá Halldórsstöðum; en jafnframt lofuðu þeir bræður, að ef þessir allir skilmálar væru uppfylltir, þá skyldu þeir gefa 200 spesíur á milli, sem prestur og gjörðarmenn álitu að skyldu gilda fyrir þau 4 hundruð, sem Bergvin átti í Halldórsstöðum“; en færi svo, að ekkert yrði af makaskiptunum, þá skyldu þeir bræður kaupa part Bergvins fyrir þriðjungi meira verð, og ritaði prestur og gjörðarmenn hans hiklaust nöfn sín undir þetta. Að vísu er samningur þessi lengri, en getur hjer ekki komið fyrir alþýðu sjónir allur orðrjettur af því neitað hefur verið um afskript af

---

þegar svona mikið lá við, treysti guði og góðum tilgangi sínum, og flýtti sjer að búa allt undir ferð sína.

Genvíeve hafði ásett sjer að byrja hina örðugu ferð sína 3 júní, á fæðingardegi tvíburanna; á þeim degi höfðu þau ætíð gengið í kapellu hinnar helgu Genevieve, er lá hjerumbil mílu frá bænum. Snemma morguns þenna dag dró hin hugrakka Genevieve bróður sinn af stað. Sólin skein blítt yfir Beauce sljettu, en trjen beggja megin við veginn skýldu þeim við sólarhitanum. Hjer viljum vjer staldra við til að lýsa hinum sjerstaklega útbúningi hennar. Genevieve bjó allt til ferðarinnar sem hún hafði bezt vit á, og efni hennar leyfðu: Yfir fjögra hjóla vagninn, sem var lágur og lítt vandaður að smíð, var gjörður nokkurs konar himin, sem Maurice gat legið undir eins og í rúmi. Leðurband, sem söðlasmiðurinn í bænum hafði gefið þeim, var aktaumurinn, og mátti spenna það fyrir brjóst henni, þar sem vegurinn var svo vondur að meira þurfti á að taka, Hún fjekk sjer ljetta, rúma skó í staðinn fyrir trjeskóna sem tíðkuðust í bænum, og stóran stráhatt bar hún á höfði til að hlífa sjer fyrir brennandi geislum sumarsólarinnar. Maurice var klæddur í spariföt sín, en hún gekk í hversdags fötum sínum, en sparifötin hennar, sem hún ætlaði að fara í, þegar hún kæmi til Boulogne, voru bundnir saman undir höfðalaginu í vagninum.

þannig hjeldu þau nú af stað til kapellunnar, og Genevieve gekk fyrst mjög hart, því hugurinn bar hana hálfa leið.

„Góða systir“, sagði Maurice. „gakktu ekki svona hart, þú verður uppgefinn áður en þú kemur að kapellunni, þú ofþreytir þig undir eins“.

„það er satt“ Maurice, jeg gleymdi að jeg hef nokkuð langt að ganga. Jeg skal fara gætilegar framvegis; en segðu mjer til þegar þú vilt hvíla þig“.

Hún hjelt nú hægra áfram, og leit við og við um öxl sjer

honum, en jeg þori að fullyrða, að honum er í engu haggað hvað inntak hans snertir.

En af því mjer virðist, að það sem samningur þessi fer fram á vera að öllu leyti ótiltækilegt, þá vil jeg benda á það, er mjer finnst og jeg álít að vera sanngjarnast í þessu málefni.

Jeg vil í engan máta hafa á móti því áliti brauðamatsnefndarinnar, að Lundarbrekka væri hinn hæfilegasti beneficii staður í prestakallinu, heldur er það einmitt mitt álit, að svo fari bezt, bæði vegna þess, að hún með hjáleigunum er bezta jörðin í öllu prestakallinu, og hins líka að hún stendur austanvert við Skjálfandafljót, því þeim megin er fólkið flest, og prestur þyrfti því sjaldnar að fara yfir það. Þar á móti get jeg vart álitið Halldórsstaði hálfgildi við Lundarbrekku, og líka standa þeir að vestanverðu við Skjálfandafljót; og skyldi presturinn sitja þar, yrði hann á hverjum messudegi að sækja yfir það, sem ætíð hefur þótt versta tálmun á annexjuleið prestsins og opt hindrað messu; auk þess er ekki mikill munur á vegalengdinni frá Eyjadalsá og að Lundarbrekku, og þeirri leið, ef presturinn skyldi þurfa að fara þrisvar frá Halldórsstöðum fram á svo kallaðan Skollavaðsferjustað og út að Lundarbrekku, sem er tveim hlutum hættulegra og jafnvel kostnaðarmeira, enda hafa tveir af brauðamatsnefndarmönnum játað það fyrir mjer, að þeir engan veginn hafi ætlazt til, að makaskipti yrði höfð að jöfnu á Halldórsstöðum og allri Eyjadalsártorfunni, heldur að þeir fengjust fyrir ljensjörð eða þá í sanngjörnum skiptum á móti Eyjadalsártorfunni, líkt og jarðamatið til tekur; en mjer finnst öðru máli að gegna ef 12 hndr. í Halldórsstöðum eiga að gilda á móti allri Eyjadalsártorfunni, því milligjöfina getur enginn sanngjarn maður álitið meiri en fyrir húsamuninn, því Halldórsstaðir eru nokkuð lakara hýstir, einkum af þeim húsum, sem fylgja jörðunni, heldur en hjáleigan hver fyrir sig, sem liggur undir Eyjadalsá, Hvarf og Hlíðarendi. Auk þessa gæti svo farið, að fátækum presti mætti þykja það tillfinnanlegt, að missa 6 fjórðunga af smjöri og átta til tíu sauði, sem mættu vera í eptirgjald af hjáleigunum. Ekki finnst mjer heldur það vera tiltækilegt, að Eyjadalsár kirkja yrði tekinn af með öllu, því það hefur þótt full erfitt að sækja tvær kirkjur í Eyjadalsár prestakalli, og mundi það ekki síður verða, ætti hún ekki að verða nema ein; og einmitt það hefur sjálfur prestur og gjörðarmenn hans játað, að fjórir yztu bæirnir[1] í prestakallinu hlytu að sækja kirkju að Ljósavatni, og eru allar þær jarðir að mestu leyti eða öllu óhultar fyrir skemmdum af sandfoki; en ef þessar jarðir gengju undan prestakallinu, þá eru ei eptir nema þrjár í öllu prestakallinu, sem ei er hætta búin fyrir þess konar eyðilegging, og lítur ekki út fyrir annað en fremstu bæir prestakallsins fari með tímanum þess vegna algjörlega í eyði, og er þessu til sönnunar, að á næstliðnu sumri 1856, var eitt túnið ekki ljáborið, og nokkur hluti túns á annari jörð því nær eyðilagt, fengust þar og held-

[1]) Bæir þessir eru: Eyjadalsá, Hvarf, Arndísarstaðir og Heiðarsel.

---

til vð vita hvort honam væri að nokkru óhægt, og kl. 7 komu þau að kapellunni, og Maurice kenndi sjer einskis meina, og þó að Genevieve væri bæði sveitt og þreytt, var hún þó glöð að vera kominn þetta áleiðis. Hún dró nú kerruna í anddyrið á kapellunni, og hlýddi í auðmýkt á morgunræðu hins gráhærða prests: og sá Maurice að hún lá lengi á bæn, og að stór tár hrundu niður af kinnum henni. Þegar nú bænin hafði styrkt hana, hjelt hún áfram ferð sinni yfir norðurhluta sljettlendisins, og ferðin var þannig byrjuð.

Fegnir vildum vjer telja hvert smáatvik á ferð þessari, sem er að líkindum dæmalaus í sögu veraldarinnar, er tvíburarnir nú ferðuðust þannig úr miðju Frakklandi út á hin fjarlægustu endamörk þess, en vjer verðum að láta oss nægja að telja hin helztu atriði. Eptir hinum stóru aðalvegum á sljettlendinu gekk ferð þeirra vel áfram, þú að hún gengi ekki fljótt. Í hitanum um miðjan daginn hvíldu þau sig í einhverjum eikarskugganum nálægt bæ þar sem þau gátu keypt sjer nauðsynlegt viðurværi. Margan krók varð Genevieve að fara á sig til að sneiða hjá hinum steinlögðu strætum í bæjunum eða hjá fjölbyggðum borgum, sem hún var enn hræddari við, en hvergi þurfti hún þó að halda á því, að láta bróður sinn í hendur ókunnugum mönnum, nema einu sinni, þar varð hún að láta bera hann á börum gegnum einn bæinn, því á rann í gegnum hann, og var engi brú á henni nema í bænum sjálfum.

En eptir að suður eptir dró, komu fyrir þau meiri torfærur. Hjeraðið sem járnbrautin liggur nú um milli Parísarborgar og Orleans var þá mjög torsótt yfirferðar; vegur var þar engi góður, og hann lág yfir brött fjöll, svo að það var varla fært að fara með hesta undir burði, og var því ekki að furða, þó að Genevieve veitti það örðugt. Fætur hennar voru orðnir bólgnir af göngunni svo hún varð að taka af sjer skóna, og gánga berfætt. Hún

ur ekki fullir tuttugu hestar af útheyi í heimalandi. Einnig hefur þóroddsstaða prestur talað það nýlega við mig, að hann væri ófáanlegur til þess að bæta þessum 4 bæjum við Ljósavatnssókn, sökum erfiðleika þóroddsstaða prestakalls, og hvort eiga þá þessir bæir að sækja kirkju, ef að Eyjadalsárkirkja væri af lögð með öllu. Enn fremur hefur sjálfseignarbóndi og kirkjuhaldari Jón Sigurðsson á Lundarbrekku verið með öllu ófáanlegur til að samþykkja þessa breytingu á prestakallinu, og neitað því að messað skyldi optar verða sína tíð á Lundarbrekku en verið hefði, nefnil. þriðja hvern sunnudag, og er honum það ekki láandi, því hann verður fyrir meiri ágangi af messufólki en flestir aðrir kirkjuhaldarar, sem leiðir af vegalengd þess, því opt beiðist hjá honum gistingar af messufólki frá tuttugu til þrjátíu manns, og skyldu eins margir bætast við úr útsókninni, og það kæmi fyrir hvern messudag, mætti slíkt verða átilfinnanlegt fyrir hvern þann er sæti á jörðunni, er heldur ekki tiltækilegt fyrir fólk í Lundarbrekkusókn að sækja kirkju nema þriðja hvern messudag, þar nokkur hluti þess þarf að vera tvær og þrjár nætur frá heimilum sínum í hvort sinn og það sækir messu. — þegar á þetta er litið, hugsaði jeg að einhverjum fleirum en mjer mundi þykja það kynlegt og ískyggilegt, að prestur skyldi fara að sækja um makaskiptin, og að Eyjadals kirkja yrði af tekin, meðan þetta er enn þá ófengið. — Eitt með öðru viðvíkjandi málefni þessu, er mjer þykir undarlegt er það: að presturinn sjera Jón Austmann óskaði þess næstliðið vor af einum sóknarbónda sínum, sem hann áleit þess um kominn, að bjóða sem mest í part Bergvins, svo hann hefði engan halla af skiptunum, af því hann áleit hann mætti einskis í missa fyrir sig og fjölskyldu sína sökum fátæktar, en sjálfur hann og gjörðarmenn hans áskildu þó, að hann gjörði sig ánægðan með 200 spesíur sem bræðurnir ætluðu að gefa í milli, og má sjá af þessu, að prestur og gjörðarmenn hans hafa ekki álitið hundraðið í Halldórsstöðum nema 50 spesía virði, en þegar nú bóndi sá, er prestur hafði mælst til við, að bjóða sem mest í hundruð Bergvins, frjetti, að skipta ætti að jöfnu Halldórsstöðum og Eyjadalsártorfunni, hugsaði hann, að Bergvin mundi fá fjórða part úr henni móts við sinn fjórða part úr Halldórsstöðum, og skrifaði því Bergvin til í næstliðnum októbermánuði, og bað hann að selja sjer fjórða part úr Eyjadalsártorfunni með öllum sömu skilmálum eptir tiltölu og Halldórsstaða bræður áskildu sjer í samningnum, og bauð nefndum Bergvin 880 dali, og eptir því verður torfan öll á 3,520 rd., og vantar þá til, að Eyjadalsártorfan kvitti Halldórsstaði 420 ríkisdali, sem að þó Bergvin mun ganga eptir og líka getur, þar eð hann skrifaði undir samninginn með þeim fyrirvara, „að hann sleppti sínum hundruðum úr Halldórsstöðum ef hann fengi það fyri þau, sem honum væri þóknanlegt, og hann væri ánægður með“, enda er það vonandi, að enginn vilji verða til þess, að rýra eður skaða rjettindi hans. — En nú vil jeg spyrja: hvaðan eiga þessir 480 dalir að koma verði makaskiptunum framgengt? Eða er ekki

---

varð nú einlægt að vera að standa við og taka hvíldir og komst því lítið áfram, En þó að hún væri þannig örmagna, byrjaði hún þó sæfinlega ferð sína brosandi, þegar hún hafði hvílt sig, því hún sá hversu bróður sínum sveið það að sjá hana þreytta.

Eptir 12 daga þreytandi göngu, þegar hún hafði farið yfir 8 brött fjöll kom hún að bænum Rauðfjalli. þar var gestgjafakona ekkja eptir skotliðsforingja einn, sem fallið hafði við Waterloo; hún reindist henni eins og önnur móðir. Hin góða kona grjet af meðaumkvunarsemi, þegar hún sá kvennmann, sem hafði tekizt slíkt erfiði á hendur af skyldurækt einni saman, og veitti tvíburunum hina beztu aðhjúkrun. Hún neyddi Genevieve til að dvelja hjá sjer nokkra daga, og þegar Maurice var óeyrinn að bíða, og langaði til að halda áfram ferðinni, sagði hún honum að hann skyldi vera hughraustur, því hún vildi enga borgun hafa fyrir greiða sinn. Leðurbandið var búið að særa Genevieve mikið á brjóstinu, og útvegaði gestgjafakonan henni annað betra og hægara. Að skilnaði faðmaði hún Genevíeve, sem þá var tekinn að hressast, og sagði hún skyldi vera trúarörugg, og að fyrirtæki hennar mundi heppnast, því vissulega hefði guð blásið henni því í brjóst.

þessi vingjarnlega kveðja hressti nú upp hug systurinnar, og hún hjelt nú leiðar sinnar. Hún sneiddi hjá Parísarborg, og fór yfir Signu í báti, og kom seint um kvöld til St. Denis. En þar voru viðtökur hennar lakari. Ungir menn frá Parísarborg, sem höfðu farið að veiðum þyrptust kringum hana, og hjeldu hún væri flökkustúlka, og veiki bróður hennar væri uppgerð ein, og hrakyrtu hana því. Stúlkan, sem vissi sig saklausa, skalf af gremju, en gat engu svarað, en Maurice hristi sig magnlaus í vagninum og sagði: „þjer níðingar! bezta sönnunin fyrir því, að jeg sje kryplingur er sú, að jeg haf ekki krapta til að gefa yður ráðningu þá sem þjer eigið skilið“. (Framh. síðar).

töluverð ósamkvæmni í þessari aðferð prests og gjörðarmanna? Ef að gjörðarmenn uppátækis þessa vilja hafa sjer það til afsökunar í máli þessu, að Halldórsstaðir sje hægri jörð en Eyjadalsá, þá skildu þeir gæta þess, að Eyjadalsár prestar hafa komizt vel af með 2 vinnumenn, og sumir með einn, en á Halldórsstöðum ganga þar á mót til vinnu 3 og 4 karlmenn, en hreppsbókin sýnir árangurinn og eru þeir þó taldir góðir búmenn. Enn fremur þyki mjer ísjárverðar undirskriptir bænda undir bænarskrána viðvíkjandi makaskiptunum, er stiptsyfirvöldunum var send, bæði vegna þess hve lengi það stóð yfir að fá þær, sem, var frá aprílmánuði til þess seint í ágústmánuði, og líka vegna hins, að sumir fengust aldrei til að skrifa undir hana; sömuleiðis vegna þeirra ummæla, er við mig voru höfð, þegar jeg neitaði að skrifa undir hana: „að einu mætti mig gilda, hvernig farið væri með brauðið, því aldrei yrði jeg prestur á Eyjadalsá".

Sagt er að prófastur H. Björnsson muni hafa mælt framt með bænarskrá þessari, en hafi þó viðurkennt, að hann aldrei hafi sjeð samningsbrjef milli Halldórsstaða bræðra og prestsins og gjörðarmanna hans.

En hvað breytingu þessari á brauðinu yfirhöfuð viðvíkur, þá er það álit mitt, að hún aldrei geti orðið til verulegra bóta fyr en Lundarbrekka fengist fyrir prestssetur, og Eyjadalsá væri gjörð að annexíu.

Af því nú að einn af bændum í prestakallinu áleit aðferð þeirra manna, sem framfylgt hafa þessum breytingum mjög ísjárverða og ósanngjarna, þá hefur hann ritað byskupi tvö brjef og í þeim tekið fram ástæður sínar fyrir því, að hverju leyti honum virtist þetta óráð, og er helzta inntakið úr brjefunum þetta:

Í seinast liðnum martzm. gjörðu sóknarbændur í Lundarbrekku sókn heimreið að Halldórsstöðum í Bárðardal ásamt presti sínum J. Austmann og komu sjálfseignarbændunum þar til þess, að lofa því að hafa makaskipti á Halldórsstöðum fyrir prestssetrið Eyjadalsá með báðum þar með fylgjandi hjáleigum, Hvarfi og Hlíðarenda.

Jeg er hræddur um að þetta uppátæki hafi fremur stjórnast af kappi en forsjá, því þó Halldórsstaðir sjeu 16 hundruð en Eyjadalsá 12 hndr. að dýrleika, þá er það alþekkt, að sjálft hundraðatalið á jörðum í norðurlandi er lítið að marka, heldur öllu fremur, hvernig á þeim er búið. Á Halldórsstöðum hafa árlega framfærst 2 eða 3 kýr, hestar frá 4 til 7, og sauðfjenaður að því skapi, þar sem á Eyjadalsártorfunni framfærast árlega 6 kýr, hestar frá 12 til 14, og sauðfje fullum þriðjungi fleira en á Halldórsstöðum.

þess vegna þótti mjer slíkt óráð fáheyrt, að ætla að hafa makaskipti og það að jöfnu á þremur lögheimilum fyrir eitt, sem þó er í sumu ekki eins gott og beneficii staðurinn út af fyrir sig, að fráteknum kotunum, sem honum fylgja, sem bæði eru til samans fullt eins mikils virði og staðurinn sjálfur, hvar af þá er auðsætt, að staðurinn getur ekki gilt nema á móti hálfum Halldórsstöðum, en af hálfu Halldórsstaða túni fæst hjer um bil 40 hestar af töðu; af Eyjadalsár túni þar á móti er mælt að fengist hafi nú í sumar með kvíabóls-töðu 140 hestar og af öllum túnum Eyjadalsártorfunnar rúmir 213 hestar, en af öllu Halldórsstaða túni rúmir 80 hestar, svo þegar búið er að heyja í Halldórstaða engi fyrir því, sem taða er meiri á Eyjadalsá, þá mun verða lítið eptir af því í sumum árum, og hvað fæst þá á móti því engi, sem er á Eyjadalsá, sem er svo mikið og víða, að jeg veit ekki til að það hafi unnizt upp á einu ári af öllum ábúendunum?

Líka ber þess að gæta að prestur vor hefur bætt staðinn ár hvert með prýðilegri byggingu og túnið með vatnsveitingum og skarnræktun; auk þessa hefur hann stundað jarðeplaræktun og yfir höfuð setið vel jörðina, en bygging á Halldórsstöðum er að mínu áliti lakari en á kotum þeim, sem fylgja Eyjadalsártorfunni.

Hefði hjáleigan Hvarf verið lögð í eyði, og tekin undir staðinn til allra nota, þá hefði engin jörð í prestakallinu orðið eins góð og Eyjadalsá, að undan tekinni Lundarbrekku og Stóruvöllum, og þó er hjáleigan Hlíðarendi til ofurs, sem víst mætti selja fyrir 400 til 600 dali, og er þetta samhljóða jarðamatinu.

Halldórsstaðir standa svo framarlega í prestakallinu að ekki eru nema tveir bæir fyrir framan þá til öræfa og land þeirra bæja gengur ár hvert af sjer vegna sandfoks, svo það eru líkur til, að fremstu bæir dalsins leggist í eyði þegar framlíða tímar, og skemmdir þessar og eyðilegging ná ekki einungis út að Halldórsstaða landi í öllu fjalllendinu heldur út fyrir það og aukast ár hvert. Þegar jeg því sá þær skemmdir sem vindar gjörðu á næstliðnu vori, hvarf jeg frá því með öllu að gefa fyrir Halldórsstaði eins mikið og jeg áður hafði ætlað, og þá ekki síður frá því, að álíta þá hæfilegan beneficiistað[1].

Mjer er spurn: hvernig ætli það land verði orðið að nokkrum öldum liðnum, þar eð nú er fjórði eða fimmti partur þess kominn í mela, sandflög og rústir, og það hreint ofan undir engi?

Hefðu bændur viljað vera presti sínum til vilja, þá áttu þeir að útvega honum Halldórsstaði til ábúðar hans hjerveru tíð, en láta brauðið halda sjer óskert og byggja staðinn líkt og sjera Jón Kristjánsson á Yztafelli; jeg skyldi hafa mælt fram með því og enda lagt til, eitthvað af minni fasteign.

Hreppsbókin sýnir það, að ábúendur Eyjadalsártorfunnar hafa tíundað hjerum bil 40 hundruð, en ábúendur Halldórsstaða frá 20 til 30 hundruð, sömuleiðis er afgjaldið af Halldórsstöðum hjerumbil 34 dalir, en af Eyjadalsártorfunni 62 dalir.

---

[1]) Menn eru nú enn betur en áður farnir að sjá hvílíkt óráð það sje í þessari sveit, að bjóða geip í þvílíkar jarðir sem liggja undir slíkum áföllum og skemmdum, og vilja því heldur gefa tvöfalt fyrir þær, sem ekki er hætta búin við þeim.

það er því mitt álit, að stór nauðsyn væri á, að mál þetta væri betur prófað, og jarðirnar skoðaðar og metnar af óvilhöllum mönnum, áður en ráðizt yrði í að hafa makaskipti á þeim. og álít jeg alþingismennina í Suður þingeyjarsýslu bezt kjörna til þess.

# Frjettir.

**Innlendar.** Maðurinn, sem senda átti hingað norður að sunnan, undir eins og póstskipið kæmi frá Englandi, er enn ókominn, og vanta oss því enn allar útlendar frjettir, en ef hann kemur, og hefur nokkuð merkilegt til frá sagna, munum vjer láta oss annt um, að lesendur vorir fái það sem fyrst.

Veðráttan hefur frá byrjun jólaföstu verið fremur hörð og frostamikil, þó hefur kuldinn orðið mestur hjer norðanlands 20—25° Reaumur, en minni á austurlandi. Jarðir hafa næstum því einlægt verið nokkrar, en opt ekki gefið að beita fjenaði út sökum illviðra. Sela-afli hefur verið nokkur hjer á Eyjafirði í vetur. Ekki höfum vjer spurt, að neinir hafi farið í hákarlalegu hjer nyrðra sökum gæftaleysis, nema Fljótamenn skutust út snemma í janúar, og fengu 12 kúta mest, en 4 minnst. þiljuskipin eru óðum að fjölga hjer nyrðra, og ekki allfá í byggingu í vetur.

Hafís liggur nú fyrir norðurlandi, einkum austur um frá Sljettu til austfjarða. Til austfjarða kom hann þriðja í jólum, og hefur hann aldrei komið þar svo snemma í manna minnum.

Um fjárkláðann höfum vjer ekki heyrt neitt nýtt síðan vjer gátum hans seinast. Hjer í Eyjafirði bar lítið eitt á lúsakláða, og skoðaði læknir vor hann, og virtist hann að öllu ómerkur, enda hefur ekki á borið, að hann hafi neitt breiðst út. Sama er að segja um Skagafjarðarsýslu, að því er vjer höfum frjett. Á bráðasóttinni í fjenaði hefur víða borið nokkuð hjer norðan og austanlands, en þó hefur hún verið með vægasta móti, nema í suðurfjörðum í Múlasýslu, þar hefur hún víða drepið fjölda fjár.

# Mannalát.

Með austanpóstinum barst oss sú frjett, að Benidikt prestur þórarinsson í Eydölum í Breiðdal sje andaður. Hann var sonur þórarins prests Jónssonar, er síðast var prestur að Múla í Reykjadal. Sjera Benidikt var fæddur 1794, útskrifaðist (úr heimaskóla hjá föður sínum) af byskupi Geir Vídalín vorið 1817. Eptir það var hann í 4 ár skrifari hjá þórði sýslumanni Björnssyni á Garði í Aðaldal. Síðan var hann kallaður fyrir aðstoðarprest af frænda sínum prófasti Árna þorsteinssyni á Kirkjubæ, og tók prestsvígslu af byskupi 1821. Hann gegndi að mestu prestsverkum að Kirkjubæ þangað til honum, eptir andlát Árna prófasts var veitt Desjarmýri og Njarðvíkurbrauð. því næst Ás í Fellum 27. júní 1837, og seinast Eydalir í Suðurmúlasýslu 8. septembr 1851. Árið 1830 gekk hann að eiga fyrri konu sína Sigríði Einarsdóttur frá Hrafnsgerði, og eru 2 börn þeirra á lífi — Jón guðfræðis-iðkari á prestaskólanum og Björg kona verzlunarfulltrúa Schou á Húsavík. Árið 1846 kvongaðist sjera Benidikt í annað sinn þórunni Stephánsdóttur, prófasts á Valþjófsstað, og átti með henni 4 sonu, sem allir eru á barnsaldri. Hann andaðist á gamlaárskvöld 1856. Hann var löngum heilsulasinn síðari hlut æfi sinnar, einkum af brjóstveiki og blóðuppgangi. Sjera Benidikt var einn af merkustu prestum austanlands, hinn háttprúðasti og reglumesti maður í öllu heimilislífi sínu, hinn besti og ljúfasti hússfaðir og ættfaðir, hinn árvakrasti og iðjusamasti embættismaður í öllum greinum, ágætasti kennimaður, og sönn prýði stjettar sinnar, og hafði því að makleglelkum hina mestu virðingu og elsku af öllum er hann þekktu.

Í Breiðdal hefur líka andast merkisbóndi Högni Gunnlaugsson á Skriðu.

Enn fremur hefur andast merkiskonan Jarðþrúður Einarsdóttir á Egilsstöðum á Völlum í Fljótsdalshjeraði. Hún var 77 ára að aldri, hinn mesti kvennskörungur, gestrisin, og gjörði vel til allra, er hún megnaði.

---

## Læknismeðal við óþrifakláða á fje.

16 lóð af rullutóbaki, blöðuð niður eður nokkuð söxuð, soðin í 6 pottum af hlandi, til þess ei er orðið nema 4 pottar, lögurinn svo síaður frá, og kláðablettirinn svo þveginn úr honum. Einnig er vanalegt að greiða ullina sundur eptir endilöngu miðju baki, og hella þar í aptur og fram hjer um hálfpela, en halda ullinni að, svo ekki renni út af, heldur með skinninu ofan hliðarnar beggja megin.

þetta meðal brúkast almennt bæði í Svíaríki og á Englandi, og hefur reynzt vel hjer á landi þar sem það hefur verið við haft, einkum þegar góð gjöf hefur verið samfara, svo kindurnar hafa náð að bragðast.

Eptirfylgjandi leiðrjetting hefur oss verið send að austan:

Í 4 árg; No. 15 — 16, 58 blaðsíðu Norðra er talað um innlendar frjettir, og á meðal þeirra um þau kjör, sem Fljótsdalsfjelagið hafði á verzlun sinni í sumar. Þar eð nú enginn getur betur um þetta sagt heldur en jeg, sem verzlaði við fjelagið álít jeg það nauðsynlegt að fræða lesendur Norðra á því að varla er nokkurt orð rjett í því sem þar stendur, hvorki um sikur og kaffikaupin, 5 eða 10rd. afslattinn nje nærri neinu lagi um dalaupphæð á því sem fjelagið hafi í ágóða, og þar eð þetta á að vera skrifað „eptir sögu eins fjelagsmannsins“, hlýtur þessi að hafa verið að segja Norðra sögur að gamni sinu.

Eskjufirði 13. janúar 1857.

H. H. Svendsen.

Mjer þykir nú allíklegt, að það sem mjer var munnlega sagt í sumar um þenna hag, sem Fljótsdalsfjelagið hefði haft af fjelagsskap sínum, hafi verið orðum aukið, því sami maðurinn, sem þó sagði mjer þetta, skrifar mjer seinna að jeg gjöri of mikið úr þessu, þar sem jeg þó hafði hans eigin orð fyrir mjer, og svo hafa nokkrir af þessu fjelagi skrifað mjer viðlíka og herra faktor Svendsen, og beðið mig að setja það í blað **sitt** (?) Norðra; en eptirtektavert er það, að hvorki herra Svendsen nje þessir fjelagsmenn vilja gefa mjer skýrslu um, hve mikill ávinningur fjelagsmanna hefur að rjettu lagi verið. Það væri þó betra fyrir fjelagsmenn sjálfa að vita slíkt greinilega, svo að þeir hafi ekki forstöðumenn sína ranglega grunaða um að draga sjer nokkuð af ávinningnum. Þó að kaupmenn álíti það gott að halda þess konar samningum leyndum, get jeg ekki sjeð neina ástæðu fyrir verzlunarfjelögin að gjöra það, nema ef vera skyldi sú illa ástæða, að þeir væru þá hræddir um að aðrir fengju líka sömu kosti, en gætu ekki unnt þeim þess. **Sv. Sk.**

---

## Þakklæti.

(Aðsent) Betra er seint en aldrei. Af því jeg hefi allt af hugsað að einhver annar sveitungi eður nærlendismaður minn mundi halda því á lopt opinberlega sem maklegt var — öðrum til eptirbreytni — hefi jeg dregið mig í hlje að geta opinberlega þeirra heiðursmanna, sem veturinn 1854 áttu mestan þátt í, með krapti og góðvilja, að verða bjargvættir með því að gefa, hjálpa og lána fjölda nauðstaddra manna hjer um slóðir, sem af harðindum og bjargarskorti voru yfirbugaðir vegna fiskileysis, dýrra, lítillra og örðugra kornkaupa austur á Djúpavog um vetrartíma. Til þessa nefni jeg einkum prestinn sjera Þorstein Einarsson á Kálfafellsstað í suðursveit innan Austur-Skaptafellssýslu, bóndann Guðmund Hjörleifsson á Starmýri og hreppstjóra Björn Gíslason á Búlandsnesi, báða í Suðurmúlasýslu, sem allir gáfu, hjálpuðu og lánuðu meira og minna, auk þess að tveir þeir síðar nefndu fram yfir þetta veittu ferðamönnum opt hinn bezta fararbeina með aðhjúkrun manna og hesta á þeirra örðuga ferðalagi um hávetrar harðinda tíma, þar báðir eru í þjóðbraut, enda gjörðu það fleiri, jafnvel meir en efni leyfðu. Næst þessum minnist jeg með þakklæti þeirra þriggja sómamanna: hreppstjóra Stefáns Eiríkssonar á Arnanesi, bróður hans Guðmundar Eiríkssonar á Hoffelli, og bóndans Bjarna Gísla sonar á Vindborðsseli, sem allir með örlæti, hjálpsemi og mannúðlegri liðveizlu ljettu undir nauðstaddra meðbræðra sárbágu kjör í þeim almenna bjargarskorti um sömu mundir sem hinir fyrnefndu.

Fyrir slíkar mannúðar athafnir þakka jeg hjer með opinberlega í nafni sveitunga minna og nærlendismanna, áður nefndum heiðursmönnum.

Skrifað í Jólímánuði 1856.

St. Hornfirðingur.

---

# Auglýsingar.

Það gjörist hjer með heyrum kunnugt, að Sigurður Halldóruson hefur upp alizt hjá mjer síðan hann fæddist, nú nærhæfis 17½ ár. Fyrir faðerni hans sór sá sem móðir hans lýsti föður, fyrir aukarjetti á Djúpavog. Af því slíkt má ætíð krenkja huga og tilfinningar ærlegra manna, bæði yfir höfuð að tala, og líka í viðbúð og viðskiptum við aðra menn, að hljóta að brúka móðurnafn í stað föðurnafns, þá leyfi jeg mjer hjer með að lýsa því yfir, að jeg hefi valið honum nafnið **Jón** fyrir föðurnafn, eptir að auglýsing um það er skeð, svo hann í allri umgengni og viðskiptum á sínum tíma nefni sig **Sigurð Jónsson.** Þó þetta kunni að þykja kátlegt með fyrsta, þá rennur það burtu með tímanum í ósýnilega fjarlægð.

Búlandsnesi í desembermánuði 1856.

Björn Gíslason.

Jeg hefi af brjefum og orðsendingum úr Skagafjarðar og Húnavatnssýslum komizt að því, að flesta eður alla kaupendur Norðra þar vantar nóvemberblaðið f. á., og hafa sumir eins og von er hótað að ganga úr blaðinu fyrir það. Jeg hefi nú ekki svo mikinn afgang af upplaginu, að jeg geti bætt úr þessu; en jeg get nú sagt áskrifendum mínum hvernig þessu er varið. Jeg sendi þetta blað með söðlasmið Jóni Guðmundssyni á Neðstabæ í Vindhælishrepp í Húnavatnssýslu, og hefi jeg frjett að blaðið liggi enn hjer í Öxnadal, og skal jeg nú leggja drögur fyrir, að það komist með pósti, og vona jeg að kaupendur mínir sjái að þetta er ekki mjer að kenna.

Akureyri 4. febrúar 1857.

**Sv. Sk.**

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletraða línu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 28. Febrúar. 7.—8.

## Skuldaverzlun og skuldlaus.

Jeg hefi heyrt að einn kaupmaður hjer á austurlandi ætli að byrja eða sje þegar byrjaður á nýrri verzlunaraðferð, sem ekki hefur tíðkast hjer fyrri. Hann vill láta hönd skipta hönd, ákveða strax í hvert skipti verð á báðum vörunum, sinni og okkar, engum lána, og borga hverjum einum sitt.

það er vert að hugsa um, hvort þessi verzlunaraðferð muni vera betri enn sú sem tíðkast ellegar ekki, og virðist hún í nokkru betri, hvort hún muni þá vera það fyrir kaupmanninn ellegar okkur, eða hvoratveggja.

Jeg fyrir mitt leyti álít þessa nýju aðferð langt um betri, bæði fyrir landsmenn og kaupmenn, ef hún gæti komizt á. — það vil jeg reyna að sanna.

þessi verzlunarháttur, sem nú gengst við, og lengi hefur tíðkast, er að minni hyggju mjög affara-illur að mörgu leyti; enda get jeg ekki sjeð að nein verzlunarleg ráðdeild sje í honum, og hann mun óvíða gangast við í heiminum nema hjá okkur. Jeg veit ekki hvað er í sumum nýlendum, sem haldið er í verzlunaránauð. Líklega er hann illar menjar af verzlunarsúrdeiginu gamla, sem dróg svo lengi dáð og dug úr okkur, og færði í helju svo margar þúsundir manna.

það getur verið að mörgum af okkur þyki þetta verzlunarlag, sem nú er, ómissandi, og ekki geti öðruvísi verið, af því menn þekkja ekki annað betra, eru orðnir þessu vanir, og ólagið komið á. Menn eru orðnir þessu svo vanir að vera skuldum bundnir, þykir yfrið hagkvæmt að geta fengið á hverjum tíma ársins það sem þeir vilja hjá kaupmanninum fyrir eintómt loforð að borga það einhvern tíma þegar þeir geti, liggur líka stundum mikið á að fá lánið. En þegar komið er í þessa skuldabendu, sjá fæstir úrræði að komast úr henni, og standast skuldlausir. þá verða menn að láta sjer lynda að allt gangi svona á víxl: skuldborgun og skuld. því verður ekki neitað, að kaupmenn hjálpa opt þurfandi með lánum, og eru furðu þolinmóðir og umburðarlyndir þó tregt og seint gangi skuldagreiðslan, og færstum af þeim verður nú á dögum brugðið um það, að þeir oti fram óþarfa til að binda menn skuldum við sig.

það virðist þó vera auðsjáanlegt, hvað leiðir af þessu skuldavastri fyrir okkur. Við getum aldrei heitið frjálsir ráðendur eigna okkar, og erum að þessu leyti í sífelldu þrælsbandi, sem ervitt gengur að slíta; við látum stundum leiðast í óyndis úrræðum til pretta og óráðvendni, brigðum loforð við lánardrottinn, hlaupum frá þeim til annara, og látum skuldina standa, og svörum stundum illu, þegar þeir finna að. Við verðum opt að missa af góðum kaupum, vegna skuldabandsins. Við verðum að vera utan við öll verzlunar samtök, sem opt gæti orðið okkur til mikilla hagsmuna. Við verðum að smáreita lífsbjargar skepnurnar á haustin upp í skuldirnar, sem heldur okkur jafnan fastari í þeim, eða birlar aðrar þyngri, þó fjeð sýnist vel borgað. — Hjer að auki getum við skuldaþrjótarnir aldrei verið frjálsir í huganum; við verðum eins og á flótta, þó enginn sýnilegur elti. þetta ófrelsi og kvíði dregur mikið úr mörgum okkar dug og áræði til þarflegra fyrirtækja. Bágindin gjöra flesta niðurdrepna og úrræðalitla, og þetta hefur ávalt meinlegust áhrif á dugnað manna, gleði, rósemi og ánægju í lífinu. þetta finnst mjer vera satt, og eru þá skuldirnar ekki, líttill meinvættur tímanlegri velferð okkar, ef þær svipta okkur nokkru eða miklu af því, sem er svo þarflegt og lofsvert í heiminum, manndáð og dugnaði, og svo líka nokkru af hinu, sem maðurinn er skapaður til að njóta, og allir sækjast eptir, gleði, rósemi og ánægju. Eins og það er satt, að hugur vex, þegar vel gengur, svo er hitt, að hann dignar þeg-

ar báglega gengur. Dragi þá skuldirnar úr okkur hug og áræði til framkvæmdar, þá verða þær undirrót til annara skulda, og hjálpa til að halda okkur sífellt í þessari ánauð og bágindum. Skuldum bundin óábyrgð varnar okkur jafnan að ná verðskulduðum heiðri, og sviptir okkur áliti. Það ber líka við að lánardrottnar fyrirlíta okkur vegna skuldanna, og fara verr með okkur en við eigum skilið. Þá er ekki skemmtilegt fyrir neinn, sem finnur til sóma síns, til þeirrar virðingar sem maður á bera fyrir sjálfum sjer til að verjast minnkun, það er ekki skemmtilegt að horfa á okkur stundum skuldaþrjótana, hvernig við berum okkur frammi fyrir lánardrottnunum útlendu og þjónum þeirra, hversu argir sem eru. Jeg ætla ekki að lýsa þessu, jeg hefi sjeð ofmikið. Ímyndið ykkur þá, sem þið hafið sjeð bera sig aumlegast og auðvirðilegast.

Jeg veit margir segja: til hvers er að vera að tala um þetta: við getum ekki verið skuldlausir, nema hætta þá búskapnum og setja krakkana á sveitina. Vilji kaupmennirnir ekki lána okkur, verðum við að fá lán hjá löndum okkar, en þeir eru opt miklu verri; sumir geta ekki lánað, sumir þora ekki að eiga hjá okkur, og margir heimta lánið, þegar okkur gegnir verst.

Þetta er ekki hæfulaust. En það veit jeg, að opt er eitthvert ólag með í leik, þegar um kaupstaðarskuldirnar er að tala. Við erum margir í viðlíka skuld ár eptir ár, gjörir hvorki að minnka eða vaxa. Árs-varan okkar stenzt á við kaupin, en gengur svona allt á víxl; við borgum með vörunni skuld liðna missirisins, og kaupum aptur nýja skuld. Við þyrftum að finna ráð til að breyta þessu. Ætla það væri ekki reynandi að gjöra samning við lánardrottinn, að borga árlega ákveðinn part af skuldinni, og gjalda jafnvel leigu af því sem óborgað er, stritast svo við að borga þetta ákveðna skilvíslega, en verzla að öðru leyti svo að hönd skipti hönd, og setja sýn fyrir að safna ekki nýrri kaupstaðar skuld. Betra er að svelta nokkurn kafla af hverju ári, en selja frelsi sitt fyrir nokkrar magafyllar og munað. Opt er bágra að fá lánsfje hjá innlendum en kaupmönnum. Landsmenn okkar hafa optast minna í höndum, enda veldur stundum viljaleysi. Ef þeir vilja ekki lána okkur, er það annaðhvort af því þeir eru kærleikslausir nirflar, eða þeir þora ekki að lána okkur, því við erum í skuldum, ellegar ekki skilvísir. Svo er hjer á landi mesta ólag á viðskiptum manna, þeirra sem lána og taka lánsfje, eins og á allri annari peninga meðferð. Hjer er optar lánað leigulaust, og lánið ekki eindagað, enda misjafnlega haldinn eindagi, þó hann væri settur. Þessu ólagi valda að miklu leyti kaupstaðar skuldirnar, sem eru hvorki eindagaðar, og ekki goldnir af vextir. Það væri ómissandi að eindaga allt lánsfje og taka vöxtu af. Sá sem tæki lánsfje þannig, og gyldi allt á rjettum skildögum, mundi lengi fá lán.

Það fylgir eitt kaupstaðarskuldunum að þeir, sem eru í þeim, fá stundum ekki nauðsynjar sínar á haustin í kaupstaðnum, því ekki er neitt fyrir að gefa, eða þeir þora ekki að biðja um svo

---

## Maurice og Genevieve,

eður

### Munaðarlausu tvíburarnir (frönsk saga).

(Endir). Þessi orð gjörðu nú ekki annað en æsa upp ófjöfnuð þessara gárunga, svo að Genevieve vildi ekki annað en fara þegar á stað þó hún væri þreytt, og bárust þau fyrir um nóttina undir auðu lopti. Þar lagði hún sig niður við fætur bróður síns, og hallaði höfðinu að knjám honum, og fljettuðu þau höndum saman eins og greinunum var saman bruggðið á eikinni sem þau svafu undir, þannig fundu þau frið og væran svefn um milda sumarnótt

Í annað sinn komust þau einnig í háska á leiðinni., það var í þrumuveðri í Adamsskógi, og varð það þeim næstum óþolandi, því afleiðingarnar af hinu fyrra reiðarslagi komu yfir Maurice, svo að hann fjekk hvert ómegin að öðru. Á meðan á því stóð hjelt systirin höfði hans á brjósti sjer og höndum sínum fyrir augu hans til þess að hann sæi ekki eldingarnar, og hlífði honum við regninu sem bezt hún gat með því að breiða sig yfir hann, og gjörði heitar bænir til guðs, að hún hefði ekki komið bróður sínum svo langt áleiðis til þess að hann yrði aptur lostinn af hinu óttalega reiðarslagi í höndum sjer, eða ef að það væri vilji forsjónarinnar, að hún þá mætti látast með honum".

Þetta sem hún nú óttaðist kom nú samt ekki fram. Stormirnn og þrumuveðrið lægði, og gjörði vegfarendunum engan skaða, nema þau urðu að vera um kyrrt nokkra daga, því Maurice fjekk köldusnert eptir óveðrið.

Eptir 22 daga ferð komu þau til Beuvais, þar sem leið þeirra var hálfnuð, og voru þá 3 gullpeningarnir búnir þrátt fyrir alla sparsemi Genevieve, svo að þau urðu nú að neita sjer um öll hægindi til þess að geta komizt alla leið án þess að þurfa að biðja matar sem förumenn,

mikið vegna skuldarinnar; verða svo að smá knýja á kaupmanninn á útmánuðum og vorum, þegar sulturinn kallar að, en þá er opt lausara fyrir (ef matur er til). En það er bæði, að þá er maturinn jafnan orðinn dýrri, enda verður þá mörgum að kaupa einhvern óþarfa með fram, og sumir kaupmenn fúsari að lána hann. Það rætist þá líka hjer, að skuld elur skuld.

Varla verður högum að því hugað, hversu verzlunarlagið sem nú er elur óhófið og ósómann, þessi fásleikur að lána, til að koma út óþarfanum og binda menn við verzlunina, og þessi góðmennska kaupmanna og meinhægð í skuldakröfunum.

Þá er enn einn annmarki harla leiðinlegur á verzlunarlaginu hjá okkur: við látum vörurnar okkar til kaupmannsins, eins og þær eru til, jafnaðarlega áður en við getum fengið að vita grand, hvað hann muni gefa okkur fyrir þær. Hann veit ekki sjálfur, hvað hann muni verða að gefa, þó hann viti hvað hann vill gefa. Að sönnu höfum við optast eitthvað í aðra hönd af vörum kaupmannsins. Sömu álögin eru á því, hann veit ekki sjálfur hvað það muni kosta, því síður við. Í þessari villu vöðum við fram eptir öllu sumri, og höfum okkur til hugnunar loforðin um „beztu prísa". Þegar við verðum að verzla svona, getur enginn vitað, hvar bezt muni vera að berast fyrir. Allt verður að eiga undir drengskap kaupmannsins, að hann endi loforð sín þessi vanalegu, að láta okkur fá sömu kjör og bezt verða það sumar, þar sem hann er, eða þá í næsta verzlunarstað. Kaupmenn enda jafnan þessi loforð, það er satt, af drenglyndi, hyggindum eða eigingirni. Samt sem áður er þessi verzlunarháttsemi greyleg að mörgu leyti og ískyggileg. Jeg trúi því varla að þvílíkt haldist uppi nokkurstaðar nema hjer.

Nú hefi jeg minnst á kaupstaðskuldir, kaupstaðarlán og óvissuna um verðið á vörunum, hversu þetta sje allt meinlegt fyrir okkur. Það mun varla vera eins fyrir kaupmennina, sem halda við þessari háttsemi. Verið getur þeir sjái sjer hag í því að binda okkur við verzlun sína með skuldum. Jeg held hagurinn geti þó ekki verið mikill, ef vel er gætt að, sízt þar sem fleiri verzla í sama stað en einn, og við getum hlaupið til síns í hvert sinn, eptir því sem við erum mennitnir til, og eptir því hvernig við látum leiðast af fögrum loforðum. Það er þó auðskilið, að hverjum kaupmanni verður að vera óhagur að því, að eiga fje sitt arðlaust út um allar áttir og sumt í óvissum skuldastöðum. Með því lagi getur hann ekki vitað fyrr en um seinan hvað hann hefur upp úr vöru sinni hvert ár. Reyndin verður að sýna honum, hvað hann heimtir saman. Kaupmaðurinn mun þurfa að ábatast nokkuð á vöru sinni árlega, til að standast kostnað sinn. Enginn arður fæst af því, sem lánað er út leigulaust og ekki borgast það ár. Það er kaupmanni ónýt eign, meðan hann heimtir það ekki. Því held jeg kaupmaður verði að selja alla vöru sína dálítlu dýrari, vegna skuldanna, til að ná sjer með einhverju móti. Sje þessi gáta rjett, skilst mjer svo,

---

og langt mætti rita um öll þau vandræði sem systirin hafði við að stríða það sem nú var eptir af leiðinni.

Þegar þau nálguðust **Boulogne**, var landið fjöllóttara, og **Genevieve** var yfir komin af þreytu, en það hughreysti hana, að henni var sagt einn daginn að nú mundi hún að kvöldi, þegar hún kæmi á næstu fjallsbrún, sjá hið eptirþreyða haf, og hinar hvítu strendur Englands í fjarska. Og þegar hún kom á fjallsbrúnina og þau sáu hið óendanlega haf fyrir augum sjer, sem þau höfðu aldrei litið fyrri, fá engin orð skýrt frá tilfinningum þeirra. **Genevieve** gat ekki beðið við, þó bróðir hennar segði henni að taka hvíld, heldur flýtti ferðinni niður af fjallinu og að borginni **Boulogne** sem blasti við þeim. Þegar hún kom til borgarinnar, spurði hún eptir veginum til baðanna, og var henni vísað á stig, sem lá fram með sjónum, og þar lá nú hafið fyrir fótum þeirra, og hreifðist í hægum lognöldum eins og akrarnir á **Beauce** sljettu í hægum sunnanvindi

í skugganum undir hellisskúta við ströndina mættu þau flokki göfugra kvenna frá ýmsum löndum, sem voru að bíða eptir flóði, þegar fara átti í böðin. Þær horfðu á **Genevieve** er hún kom og dró kerruna, og spurðu hana úr hvaða þorpi hún væri þar í nágrenninu; en **Maurice** tók í hönd systur sinnar, og sagði þeim með málsnilld þakklátseminnar hvaðan þau kæmu, og hvað hún hefði haft fyrir sjer, og urðu höfðingskonurnar svo hissa og undrandi, að þeim sýndist sveitastúlkan eins og engill kominn af himnum ofan, og fylgdu henni til baðanna og breiddu út lof hennar við alla sem þær mættu á leiðinni

Eignarmaður baðanna var hinn nýtasti og vænsti maður. Hann tók tvíburunum ágæta vel, og fjekk undir eins **Maurice** í hendur tveimur þjónum sínum, sem beztir og lægnastir voru við böðin.

Tvíburarnir höfðu nú góð herbergi og allt sem þau þurftu, því allir kepptust um að hjálpa þeim. Eptir 10 eða

að við borgum kaupmönnum árlega leigu af skuldunum, sem þeir eiga hjá okkur. þetta er sanngjarnlegt, og við skuldaþrjótarnir megum una því vel, einkum af því að hinir skuldlausu hjálpa okkur til að borga leiguna. En hvernig þeim fellur ráðdeildar og dugnaðarmönnunum skuldlausu að borga skuldaleigu fyrir okkur óspilunarmennina, letingjana og ráðleysingjana, það er annað mál.

þegar kaupmaðurinn lánar eins og vant er vöru sína allt verið, þangað til sumarverzlun byrjar, getur farið svo, að hann bresti nauðsynja vöru, þegar hæst þarf að hófa. Fyrir þetta getur hann misst mikið af vörum okkar til annara, sem eru þá byrgari. Ef lausakaupmaður kemur, getur hann ekki keypt við hann fyrir vöruskorti; eða þó hann ætti kost á miklum vörum og góðum hjá verzlunar samlagsmönnum, er hann ekki fær um að taka móti þeim, þegar hann er búinn að lána burtu sína vöru. Og ofan á allt þetta fær hann sjaldan borgað, nema svo sem rúman helming af því, sem hann lánaði, fyrr en að haustnóttum, vantar þá líka stundum mikið til að allt heimtist, eða kaupmaðurinn verður að lána á ný. Og það mun hafa borið til að sumir, sem kaupmenn lána að vorlagi, koma aldrei það sumar eða það ár með borgunina.

Opt verða kaupmenn að hafa mikið fyrir að ná skuldum sínum, og sumar fá þeir aldrei.

Ekki veit jeg hvort kaupmanninum er eins meinlegt og leiðinlegt sem okkur að vita ekki um verð á sínum vörum og okkar, fyrr en komið er fram eptir öllu sumri. þó skilst mjer honum muni vera það verra enn okkur að mörgu leyti.

Allir þessir annmarkar, sem jeg hefi nefnt, og fylgja verzlunarlaginu því, sem nú tíðkast, held jeg mundi smáhverfa, ef hinn verzlunarhátturinn kæmist á, að selja og kaupa hvert sinn með ákveðnu verði og lána ekki, nema þá með ákveðnum vöxtum og eindaga.

því tel jeg þessu verzlunarlagi þetta til gildis:

A., fyrir okkur.

1., við losumst við kaupstaðar skuldirnar — það hlýtur að verða — og svo smám saman við það illa, sem þeim fylgir. Við verðum frjálsari, áræðnari í öllum atvinnuvegum og úrræða meiri, vitum hvað við eigum í hvert skipti, og engin bönd hamla okkur að verzla því hvar sem við viljum, eða hvernig sem við viljum. þó við þurfum að taka lán, látum við eindaga það, og gjöldum af leigu, það gjörir oss aldrei annað eins mein og kaupstaðarskuldirnar og bindur okkur ekki nærri eins og þær.

2., við leggjum niður töluvert af smá óþarfa kaupunum, og rápum að líkindum sjaldnar í kaupstaðinn, þegar ekkert fæst að láni, en silfur ekki alltjend heima.

3., við lærum að halda saman vöru okkar, og koma því svo fyrir, að geta verzlað með hana mest alla á sumarkauptíð, sem optast verður hollara, en eiga mikið undir haustinu; enda getum við stundum haft hag af því, að eiga vöruna alla í einu, til að fá betra kaup.

4., við fáum opt betra verð á útlendum vör-

---

12 bűð fór Maurice að fá stingi og viðkvæma tilfinningu í fæturna, er áður voru eins og dofnir, og kvað læknirinn það gott merki. það má geta nærri hve glöð Genevieve varð undir eins og hún sá að nokkur bati fór að koma, og hversu glaður og þakklátur Maurice var, þegar hann smátt og smátt fór að geta hreift fæturna, og hvílíkur gleðidagur það var fyrir þau bæði, þegar hann loksins, eins og vinur hans gamli hermaðurinn, gat staðið og komizt lítið eitt áfram við tvær hækjur; og aldrei hefur móðirin verið glaðari að sjá hin fyrstu skjálfandi skref barns síns en Genevieve var, þegar hún gekk aptur á bak fáein skref til að ginna hann áfram, og kallaði til hans: „dálítinn spöl enn bróðir“! og tók hann svo í faðm sinn, þegar hann var orðinn þreyttur.

Boulogne er nafnkennd meðal borga þeirra í Frakklandi, er við sjó liggja, af hinum fallegu sandsljettum, er liggja fram með sjónum. það er skemmtiganga þeirra, sem við böðin eru, á degi hverjum. þangað fóru tvíburarnir líka á hverjum degi. Genevieve bar stól, og setti hann rjett við flæðarmálið, og leiddi svo bróður sinn þangað, og þar naut hann hvern dag hinnar hressandi hafgolu. Stundum fóru þau á lítinn blett, er lá upp í landinu í góðu skjóli þar sem hann gat fengið mjólk á bóndabæ, og haft gott af tilbreytingu loptlagsins.

Af því að sjóböðin voru nú stöðugt við höfð með hinni mestu umhyggjusemi, batnaði Maurice dag frá degi, Fyrst gat hann gengið fáein skref á hækjunum og svo smátt og smátt lengra og að síðustu hálfa míln. Hann gat þá gengið um borgina, og skemmt sjer með að horfa á sölubúðirnar, og studdi hann sig við arm systur sinnar, og hvíldi sig þar sem sæti varð fyrir. þau systkynin urðu þess opt vör á gangi sínum gegnum borgina, að borgarbúar þekktu þau, því saga þeirra hafði víða farið, og allir vissu hina stöku elsku er þau höfðu hvort til annars, og

um eða meira fyrir okkar, þegar kaupmaður neyðist ekki til að halda vörum dýrari vegna arðlausra skulda, er hann á úti hjá öðrum.

5., við getum gengið óhindraðir í verzlunarsamlög til að skipta við hvern, sem býður okkur haganlegustu kosti. Reynslan hefur sýnt að verzlunarsamlög hóflega fjölmenn eru til mikils gagns, ef við vöndum vörurnar sem bezt, og erum sanngjarnir í kröfunum.

6., við þurfum þá sjaldnar að láta lífsbjargar skepnur okkar í kaupstaðinn, nema þá fyrir silfur til að borga einhverjum landa okkar, er við stæðum í skuld við.

7., við fríumst við margan ama og óvirðing sem skuldirnar olla. Þá mundi sjaldnar en hingað til sjást svo gremjuverð sjón, að heiðvirður bóndi fátækur stæði með bligðunar- og lotningarsvip blautum beinum sjer til minnkunar frammi fyrir óvöldum búðarstrák, er ekki hefði sjer til ágætis nema sundurgerð og hroka, og aldrei hafði þekkt hvað dyggð er og drengskapur.

B. En fyrir kaupmanninn held jeg skuldlaus verzlun hafi þá þessa kosti:

1., hann hefur allt árið vöru sína hjá sjer, þá sem óseld er, en andvirði hinnar seldu í hendi, til að verzla því, og ná þeim hagnaði sem fyrst, er hann þarf að hafa af verzlun sinni.

2., ef lausakaupmann ber að, getur kaupmaðurinn keypt við hann til að missa ekki mjög vörur landsmanna, ef hann er ekki búinn að lána út vöru sína, þá getur hann líka tekið móti vörusamlagsmönnum, og gjört sjer og þeim gagn.

3., hann er laus við áhyggjur af skuldum út um allar sveitir, og þarf enga fyrirhöfn að hafa til að ná þeim saman, enda getur hann hvergi misst skuld, ef hann lánar ekki.

4., hann veit hvert skipti hvað dýrt hann verður að selja og kaupa, og þessi vissa held jeg honum sje mikilvæg.

Margt mundi mega fleira telja til gildis þessari nýju verzlunaraðferð, því get jeg ekki betur sjeð, en hún mundi verða okkur affaragóð, og óska, að allir kaupmenn á landinu vildi leggjast á eitt að koma henni á. Þó einn reyni það, vegur það lítið, enda mjög tvísýnt hann standist með því lagi árinu lengur mitt innan um hina. Þeir geta auk heldur notað þetta þarflega fyrirtæki hans til að fella hann.

Ekki kemur mjer það óvart, þó ýmsir gallar fylgi þessari verzlun, sem jeg er að hrósa. Jeg þekki hana ekki af reynslu, og vildi einhverr kunnugur lýsti henni fyrir mjer. Kaupmenn geta ef til vill, okrað með henni betur enn nú, allan veturinn og vorið, og jafnvel allt árið, þar sem einn er um sína hitu, eða fleiri koma sjer saman á einum stað. En við ættum að geta teflt þá niður af þeim leik, með því að skipta svo sem engu við þá, nema á sumrin, þegar helzt er kapp í verzluninni. Og þó einhver einstakur kaupmaður reyndi að okra eins um sumar tímann, af því enginn væri nálægur að keppa við hann, mætti hafa hann niður af því, ef við, sem yrðum fyrir þessu, tækjum í okkur þá mannrænu, að flýja hann og leita annars betra, þó það kostaði mikla

---

allir lofuðu Genevieve fyrir kærleiksverk það, er hún hafði gjört á bróður sínum; það voru því margir í borginni sem ávörpuðu þau með nafni, og margir bentu á þau, þegar þau gengu um stræti borgarinnar, og sögðu: „þarna ganga tvíburarnir frá Beauce“.

Þegar september var liðinn og baðatíminn var á enda, var Mauricee orðinn heill heilsu. Hann bað þá hinn ágæta eiganda baðanna að lána sjer lítið fje til heimferðar, og skyldu þau, hann og systir hans, borga það með fyrsta árs kaupi sínu. En þessa láns þurfti ekki með. Daginn áður en þau ætluðu á stað, kom nefnd frá öllum ungum stúlkum í Boulogne til Genevieve, og bauð henni til hátíðar er þær vildu halda í minningu um hina fögru systurlegu ást hennar. Hún hjelt að slíkt bæri við í draumi og ekki í vöku, því slík virðing veittist aldrei nema æðri stjettar mönnum, og gat ekki skilið það, að því meiri virðing átti hún skylda sem hún fáfróð og menntunarlaus ljet dyggðugt hugarfar kenna sjer þannig hina æðstu kosti.

Næsta dag komu sex höfðingjadætur í tveimur vögnum til að sækja tvíburana og fylgja þeim á veizlustaðinn. Þar var sett kórónа af hvítum rósum á höfuð hinni bispurslausu sveitastúlku frá Beauce, og í lok veizlunnar færði sú sem var fyrir hinum ungu stúlkum henni peningabuddu með 50 gullpeningum, og voru það frjáls samskot frá ungum meyjum í bænum, er þannig kváðust vilja sýna henni þakklæti sitt fyrir það hún hefði sett þeim slíkt fagurt fyrirdæmi í systurást, er aldrei mundi fyrnast.

Lesendurnir geta ímyndað sjer hvernig Genevieve, sem kom allt þetta á óvart, færðist undan og roðnaði, og hvernig hún var neydd til að taka móti gjöf þessari. Hún skundaði þegar veizlunni var lokið til að gjalda skuld sína við böðin, en eigandinn var svo göfuglyndur, að hann vildi enga borgun taka. Læknirinn ráðlagði þeim að ferðast

fyrirhöfn. Hann gæti ekki fundið að því ef hann ætti ekki hjá okkur og alls enga heimting á vörum okkar. — Við gætum líka stundum fengið lausakaupmenn til að keppa við hann. Að minnsta kosti þyrftum við ekki að láta það bera opt við, að hann kúgaði okkur.

Skrifað 3. í jólum 1856.

Bóndi Austfirðingur.

---

## Sveitastjórnarmálið á alþingi 1855.

(Framhl.). Vjer höfum í 3—4 nr. þessa blaðs farið nokkrum orðum um meðferð alþingis á sveitasjórnarmálinu, og höfum lofað að skýra frá áliti voru um hvernig oss virtist hefði verið rjettast að koma því máli fyrir til bráðabyrgða.

Oss virtist nú alþingi hafa tekið rjetta stefnu í máli þessu í öllu sem snertir fyrirkomulag á hreppanefndum og sýslunefndum, og það var einkum er oss þótti vanta, að hin æðri úrskurðarvöld voru eptir uppástungu alþingis annaðhvort óhepplega valin eða óhafandi að öðru leyti. Hið eðlilegasta fyrirkomulag hefði eflaust verið það, að halda hreppanefndunum og amtsráðunum eptir frumvarpi stjórnarinnar, og bæta við sýslunefndum, og þó að úrskurðarvöldin hefðu þá ekki fækkað eins og stjórnarfrumvarpið virðist að ætlast til, þá hefðu málin á þann hátt getað náð góðum og allfljótum úrslitum; en til þess að þetta hefði getað orðið, hefði þurft að koma allri þessari stjórn fyrir sem kostnaðarminnst, því það var einkum hinn mikli kostnaður sem fældi þingið frá að beiðast þessa. Oss getur nú reyndar við nákvæmari íhugun þessa máls ekki skilizt betur en að þessi kostnaður hefði þó ekki þurft að vera svo fjarskalegur, því engin þörf virðist oss, að hreppánefnda- og sýslunefnda-menn hefðu nein laun fyrir störf sín, því oss virðist, að hver maður, sem hefur það traust af sveitarbúum sínum eða sýslubúum, geti gegnt þeim störfum án þess að taka laun fyrir, og vjer getum varla ímyndað oss að það væri mikill kostnaður fyrir þá. Mestu örðugleikarnir eru án efa að koma amtsráðunum svo fyrir, að það yrði ekki ærið kostnaðarsamt, því bezt virðist oss að í amtsráði hverju væru menn úr öllum sýslum amtsins, og án þess að svo verði til hagað geta menn ekki vonast eptir að hafa fullt gagn af þeim; en með því móti þyrftu þeir menn sem í þeim sætu að hafa næstum því eins mikil laun og alþingismenn nú hafa; og yrði það ekki alllítið fje að bæta því við á amtsbúa.

Vjer ætlum því að bezt hefði verið að láta sjer nægja fyrst um sinn að koma hreppanefndum og sýslunefndum á hjer á landi, en láta hin æðri úrskurðarvöld halda sjer, þangað til búið er að ákveða um stöðu Íslands í ríkinu, sem líklega verður ekki langt að bíða. Vjer ætlum yfir höfuð að mest nauðsyn sje á, að gott lag komist á sveitastjórnina innan sveitar og innan sýslu, því þá geta menn fyrst átt von á að málin skírist svo, að hið rjetta og sanna verði ofan á, því miklu er hættara við, að hlutdrægni komi fram í þessum málum hjá hverri sveitarstjórn og sýslustjórn en hjá hinum æðri úrskurðarvöldum, sem eru að öllu eða mestu leyti laus við málin og hafa því enga ástæðu til að vera vilhöll í úrskurði þeirra. Og þó að úrskurðarvöldin fækki reyndar ekki með þessu fyrirkomulagi, þá virðist oss öll líkindi til að málin verði svo úr garði gjörð frá sveita- og sýslu-nefndunum, að amtmaðurinn geti ráðið málum þessum til lykta enn betur en verið hefur, og það verði mjög fá mál sem skjóta þarf til úrskurðar stjórnarinnar, og verður þá ekki, eða þarf ekki að verða of löng dvöl á málunum.

Vjer álítum að ofmikill samdráttur stjórnarvaldanna á einn stað (Centralisation) sje alstaðar skaðlegur, og hjer á landi einkum, þar sem allar samgöngur eru svo litlar og ófullkomnar, og oss virðist það skylda vor Norðlendinga að andæfa á móti því, að öll völd sjeu dregin til Suðurlands og Reykjavíkur, því vjer getum ekki sjeð annað en breytingar þær, sem urðu í þá

---

heimleiðis í vagni í stað þess að ganga eins og þau höfðu ásett sjer, og það gjörðu þau. Eptir að þau höfðu komið við á Rauðfjalli og tjáð hinni góðu konu, sem hafði hjálpað þeim svo vel, þakklæti sitt, komu þau til Orleans um laugardagskvöld, og daginn eptir dró Maurice systur sína í kerrunni upp strætið sem lá til kirkjunnar á Artenay, en allt fólkið flykktist út til að fagna heimkomu tvíburanna, og fylgdi eptir kerrunni og stráði blomgrösum yfir Genevieve.

Hinn góði prestur, sem hafði fengið að heyra heimkomu þeirra, ljet bróðurinn leiða systur sína upp að altarinu, og byggði á þessu lifandi fyrirmyndardæmi uppbvatning til kristilegs kærleika og systkynaástar, og lagði aptur blessun sína yfir stúlkuna og endaði með þeim orðum: „Sagði jeg það ekki satt, dóttir góð, að guði þóknaðist þú, og að hann mundi vernda þig".

---

stefnu um hin næstu aldamót hafi gjört öllu Íslandi og Norðurlandi sjer í lagi margan óleik; og eins og vjer álítum, að það sje nauðsynlegt, að hver hluti hvers ríkis fái jafnrjetti við hina hluti þeirra, ef að stjórnarfyrirkomulagið á að geta heitið frjálslegt og gott, eins ætlum vjer nauðsynlegt, að hver hluti hins sama lands, og hvert hjerað, fái sem mestan þátt í stjórn sinni, eins og tíðkast á Englandi, og vjer höldum að ekkert efli eins kröptuglega framfarir allra og einstakra eins og sú keppni í framförum, sem þetta optast hefur í för með sjer.

Vjer látum nú lenda við þessi fáu orð um mál þetta að sinni, en biðjum lesendur vora, og einkum alþingismenn að hugsa sig um áður en þeir leggja það til í þessu og hverju öðru máli sem er, að stjórn öll sje dregin til Suðurlands, og allt land verði þannig fótaskinn Reykjavíkur; þó hún sje góð í mörgu og margir ágætir menn sjeu þar, ætla jeg hún hafi þó ekki allt til ágætis sjer, og víst ættum vjer Norðlendingar að vita eins vel hvað okkur hagar sjálfum eins og Sunnlendingar.

---

(Aðsent).

## Eptir meybarn.

Dauðans engill frá drottni flýgur,
dyr honum enginn varið fær;
en sverðið gegnum sálu smýgur,
er, svífur burtu vinur kær.
Og grátin augu, ástarrík
ekkert sjá nema stirðnað lík.

Makar, foreldrar, börn og bræður
harma sjer návist dauðans í.
En hann sem öllum hlutum ræður
í himni sínum veit af því;
þaðan telur vor höfuðhár
hann og allt eins vor sorgartár.

Kjörin á rjetta vog hann vegur
og veginn skamtar öllum bezt,
hans er oss vilji heilnæmlegur,
hvort sem það dylst oss eða sjest;
því skal leggja' á hans líknar-arm
lífið og dauðann, gleði og harm.

Börn sín þegar með böli hann særir,
og borin vel er reynsla sú,
með elsku sinni hann endurnærir,
og eflir þeirra von og trú.
Og er vinir þeim víkja frá,
vinur er hann þeim beztur þá.

Vandamenn því og vínir gráti
vægilega, þó drottins ráð
vegu til skilnaðs liggja láti,
lifandi er samt hans eilíf náð
bæði yfir þeim, sem hjeðan hvarf,
og hinum enn sem reynast þarf.

Þessu skulum vjer treysta og trúa,
og taka fúsir ráði hans,
sem bæði vill og veit að snúa
í velferð öllum raunum manns,
og gjörir það ef þreyjum vjer
þolgóðir, meðan stríðið er.

Þegar oss dauðans dimma hræðir
og deyðir vonar-blómin skær,
þá skulum biðja' um þolinmæði,
er þrautir allar sigrað fær.
Faðirinn blíði bæn þá mun
blessa með friði og hugsvölun.

Foreldrar þið sem mey'na misstuð
og minnist fornra harma' um leið,
en hingað til í hjarta kysstuð
höndina þá, er undan sveið,
komið nú, enn, þó krömd sje önd,
og kyssið þessa drottins hönd.

Sú kemur stund að sama höndin,
sem lagðist þungt á ykkur hjer,
samtengir aptur ásta-böndin
og aldrei framar sundur sker;
en sorgin snýst í sigurróp
samfagnaðar með vina hóp.

Ó, hvílíkrar í himnaríki
hafa megið þið gleði von,
að sjá þar öll í engla líki
elskuð börnin og mannsins son,
frelsarann, sem í faðm þau tók,
fyrrum skrifuð í lífsins bók.

---

# Frjettir.

## Útlendar.

(Úr brjefi frá Kaupmannahöfn). Þegar jeg skrifaði þjer seinast voru, ef mig minnir rjett, sumir af ráðgjöfum konungs vors búnir að biðja um lausn frá embættum sínum, og ætluðu þeir hinir aðrir einnig að fara að dæmi hinna, er með engu móti vildu vera við; gekk tregt að fá menn til að verða ráðgjafa, er hvorki vantaði viljann nje máttinn til þess; gekk svo hjer um bil í 3 vikur að kalla mátti að ríkið væri ráðgjafalaust. Loksins heppnaðist þó að bæta úr þessum vanda: 18. október endaði þetta ráðgjafaleysi á þann hátt, að Andræ sem hefur verið, og er enn, fjárhagsráðgjafi varð æðsti ráðgjafi í stað Bangs sem fjekk lausn;

fyrverandi háskúlakennari etatsráð Krieger varð ráðgjafi fyrir innanríkismál konungsríkisins, í staðinn fyrir Unsgaard, sem nú varð ráðgjafi fyrir hin sameiginlegu málefni ríkisins (Minister for Monarchiets fælleds Anliggender), hafði Bang verið það áður. Hinir ráðgjafarnir sátu kyrrir í embættum sínum. þessi breyting á stjórn landsins líkaði þjóðernismönnum einkar vel; Andræ og Hall hafa lengi verið óskabörn þeirra, og Krieger er kunnur að því að vera frjálslyndur og þjóðlegur maður; reyndar fengu þeir ekki allt sem þeir vildu, því Scheel fór eigi frá, en hann vildu þeir fyrir hvern mun hafa burt úr ráðaneyti konungs; gruna þeir hann um gæzku, og treysta eigi frjálslyndi hans. þó ekki beri á öðru en sú stjórn sem nú er sje nokkurn veginn föst í sessi, þá mun þó ekki staða hennar vera svo þægileg. Óánægjan í hertogadæmunum fer ávalt vaxandi, og einkum út af því að alríkislögin voru lögleidd þar án þess að bera þau undir þing hertogadæmanna. Hafa nú bæði Prússar og Austurríkismenn tekið í strenginn með þeim, og skrifað stjórninni hjer brjef um þetta efni, og heimtað að umkvörtunum hertogadæmanna væri gaumur gefinn, fylgir þessu fullalvara, og er um leið stjórninni ráðið til að bæta úr meðan tími sje til. þykir Prússum og Austurríkismönnum að Danir hafi brotið heit, er þeir hafi gjört um fullt jafnrjetti allra landshluta. Stjórnin hjer vill víst ekki láta undan fyrr en full nauðsyn ber til; því það gjörði líka glundroða í öllum stjórnarathöfnum, ef nú skyldi fara að hreifa við alríkislögunum aptur, eptir að búið er einu sinni að koma þeim á með miklum erfiðismunum. Nú er allt undir því komið hvort Prússar og Austurríkismenn vilja láta sjer segjast við svar Dana um kröfur þeirra. Mestu mótstöðumenn alríkisins (Föðurlands-flokkurinn) una eigi svo illa deilum þessum; þykir þeim það með öðru sýna og sanna, að alríkið verði ekki og geti ekki orðið affara gott eður langgæft; þeir vildu fúslega láta af hendi Holstein og Lauenborg, ef aptur væri von til að ná sambandi við Svíþjóð og Noreg, en nauðsyn til slíks sambands yxi óneitanlega, ef Danmörk missti hin þýzku hertogadæmi, og ríkið þannig yrði svo miklu veikara en það nú er; því varla er ábætandi

16. nóv. nl. dó konferenzráð Larsen, sem Íslendingar þekkja af bæklingnum þeim í fyrra. Hann var nú seinast justitiarius í hæstarjetti. Hann var í miklu áliti sem lögfræðingur, og hafði einnig á seinni tímum tekið tölverðan þátt í stjórnarmálum. Hæstirjettur hefur aldrei hingað til gefið neinar ástæður fyrir dómum sínum, en nú er það lögboðið, að þessi dómstóll eins og aðrir skuli láta ástæður fylgja hverjum dómi; höfðu menn einkum í þessu efni búizt við miklu af jafn skarpvitrum lögfræðingi sem Larsen var. Bang sem fyrrum var ráðgjafi er orðinn eptirmaður hans í hæstarjetti.

Milli Prússa og Svyssara horfir til ófriðar, sem rís út af óeyrðum í fylkinu Neufchatel, sem heyrir til svyssneska sambandsins, en er undir stjórn Prússakonungs. Voru 2 flokkar í landinu, frelsisvinir og konungsvinir; í óeyrðum milli flokka þessara bar hinn fyrr taldi hærri hluta, og var þá fjölda af konungsvinum varpað í fangelsi, heimtar Prússakonungur að þeir sjeu látnir lausir, en Svyssarar vilja eigi; taka öll svyssnesku bandafylkin þátt í þessu með Neufchatel, því þeim þykir Prússakonungur skipta sjer af málum, er honum komi eigi við, heldur heyri undir stjórnarþing bandafylkjanna; búast nú hvorirtveggja til hernaðar. Svyssarar eru hraustir menn, og hafa ávalt sýnt hina mestu hreysti, þegar þeir hafa átt frelsi sitt að verja; þeir geta ef til stríðs kemur búið út 214,000 manna. Hafa þeir kallað heim allt málalið sitt úr útlöndum, og er það eigi allfátt. Ferdinand kongur í Neapel, sem er einhver hinn mesti harðstjóri sem nú er uppi, hefur tölavert svyssneskt lið á mála, sem hefur verið einkar aðstoð hans, er þegnar hans einkum á Sikiley hafa reynt til að hrotta af sjer því hinu þunga oki, sem á þeim liggur; mun honum eigi koma vel að missa nú hið bezta lið sitt".

Með póstskipinu frá Englandi, er færði oss þetta brjef, hefur einnig frjetzt, að kornvörur hafi lækkað töluvert í verði, svo að korntunnan hafi verið í 6 rd., og að íslenzku vörurnar hafi gengið vel einkum öll tóvara, lýsi hafði reyndar fallið eptir að seinni skipin komu til Hafnar, en þó þykir oss líklegt, að það haldi sjer hjer í verði næsta ár.

**Innl.** Um fjárkláðann tökum vjer nú að skrifa aptur í næsta blaði. Ekki ætlum vjer að árangurinn af sendingu amtmanns vors suður og vestur hafi orðið mikill, því stiptamtmaður svaraði, að búið væri að uppræta kláðann þar syðra, sem þó mun vera fjærri sannleikanum, og amtmaður Melsteð kvað kláðann eflaust læknanlegan, og vildi því ekki skera niður, og er því líklegt, að hann ætli kláðann í vesturumdæminu ekki pestnæman, sem oss er þó skrifað að vera muni. Amtmaður vor hefur nú stefnt hinum amtmönnunum til fundar við sig í vor, til að ræða um varnir fyrir útbreiðslu fjárkláðans að sumri komandi.

---

# Auglýsingar.

**Fjármark:** Hvatt hægra, Hvatrifað vinstra. Guðmundur Steffán Jónsson á Barði í Fljótum.

þeir menn sem keyptu fjemuni við uppboðið í Brekku í Kaupangssveit þann 10 maí næstliðna, og enn hafa ekki borgað, óska jeg hjer með að borgi hið fyrsta til Ketils Sigurðssonar á Litlaeyrarlandi, sem jeg hefi beðið að veita því móttöku.

Svartárkoti 8. janúar. 1857.

Sigurður Oddsson.

Til minnisvarða yfir læknir sál. E. Johnsen hafa enn fremur gefið: læknir, herra J Finsen 5 rd.; kandidat, herra Sv. Skúlason 2 rd., sem saman lagt við áður komna 190 rd. gjörir alls 197 rd.

Í prentsmiðjunni á Akureyri fæst til kaups: „Tímatal", eða eins konar almanak, „sem nær yfir 56 ár, frá 1854 til 1910" fyrir 6 sk., en álímt 8 sk. Hver sem kaupir 6 fær hið 7. ókeypis.

Í tilliti til kosta þess, vísa jeg til ritgjörðar þeirrar í þjóðólfi 1854, 6 ár, 165. og 166. bl., sem stjörnuspekingur, yfirkennari B. Gunnlögsen hefur ritað þar.

Akureyri 26. febrúar 1857.

I. Ingimundsson.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letri.

5. ár. | 16. Marz. | 9.—10.

(Aðsent).

## Um fjárkláðann.

Norðri og þjóðólfur hafa nú gjört að umtals- og álits-máli fjárkláðann á Suðurlandi, sem þar er að aukast og útbreiðast. það er vel gjört, að láta ekki blöðin þegja um slíkan yfirvofandi almennan háska. Á næstliðnu hausti frjettist hingað norður, að lækningatilraunir mundu nægja til að útrýma þessum faraldri, og hann að því leyti mundi ekki valda almennu tjóni, en síðan hafa þær frjettir reynzt ekki vel áreiðanlegar. það getur vel verið að þessi kláði — eins fyrir það, þó hann sje kominn af ensku lömbunum — sje læknandi, en þar af flýtur samt ekki, að hann verði þar með upprættur, svo hann breiðist ekki út um allt land, eða meiri hluta þess; því hvorki er víst, að lækningar gangi svo fljótt á öllu því sjúka fje, að heilbrigðu fje verði óhætt í samgöngum við hitt, bæði heima í hjeruðum og á afrjettum í sumar; og því síður er það víst, að allir búendur geti komið þessu til leiðar svo nægi, þó þeir undantekningarlaust hefðu þar til hinn bezta vilja, trúmennsku og ástundun; en mest er þó að óttast fyrir hirðuleysi og undanskotum fólks í þessu tilliti og jafnvel þekkingarskorti, þar sem þó allir mega vita, að hin minnsta yfirsjón, hylming eða undanskot í þessu veldur almennum skaða. það getur því vel skeð, þó blöðin og einstakir menn tali skorinort um þessa yfirvofandi hættu, að það verði sem vindur þjóti um eyru margra, enda mun flesta nú í vetur vanta þau meðöl, sem ráðin hafa verið við kláðanum, svo mestu líkur eru til, að allt þetta dragist í deyfð og ráðaleysi, þangað til sýkin flýgur sveit úr sveit, fyrir samgöngur fjárins á næstkomandi sumri, því sama hirðuleysið mun eiga sjer stað hjá allmörgum í því, að hindra samgöngurnar, enda getur það orðið mjög erfitt með mörgu móti. það er kunnugt, að amtmaður Havstein gjörði strax, sem hann átti kost á, þær fljótustu og beztu ráðstafanir til að varna fjársýkinni inn í Húnavatnssýslu, sem nú er fljótust hætta búin. Sýslumaður Arnesen hefur líka með alúð gjört allt það bezta í þessu tilliti, með að skipa nákvæmar almennar fjárskoðanir í öllum hreppum sýslunnar og niðurskurð á þeim kindum öllum, sem fyndust með ískyggilegum kláða, hefur þessu boði hans verið trúlega hlýtt, víst í flestum hreppum sýslunnar. Nefndin sem amtmaður niður setti hjer í sýslu hefur einnig eptir ýtrustu kröptum starfað í þessu málefni.

þannig eru nú tvær fjárskoðanir gjörðar og til ætlað, að tvær aðrar fram fari hjer eptir til vors. Að tilhlutun þessarar nefndar, ferðaðist hreppstjóri sgr Erlendur Pálmason á Tungunesi suður, til að kynna sjer upptök, framgang og ásigkomulag fjársýkinnar þar, hefur hann nú ágætlega leyst af hendi þetta erindi.

Með honum frjettist, að fjárkláðinn sje að aukast og útbreiðast, um allt Suðurland, og að hann sje kominn á nokkra bæi í Borgarfjarðarsýslu allt norður að Hvítá. En að hann sje kominn í Mýrasýslu, þykir enn ekki fullsannað, en þó máske grunsamt, ekki heldur í Húnavatnssýslu, því við rannsóknir í henni, hefur að sönnu orðið vart við lítinn kláðavott, sem álitinn er óþrifalúsa-kláði, en ekki sama eðlis og fjárkláðinn syðra; hefur helzt verið gjört orð á þessu á nokkrum bæjum í Miðfirði, hefur líka frjetzt, að við líkan kláða hafi orðið vart í Skagafjarðar- og Eyjarðar-sýslum. það þykir líka ómögulegt, að þessi kláði hjer norðanlands geti verið kominn af samgöngum við sunnan fjeð. það liggur nú í augum uppi, að fjárpestin, þrátt fyrir allar lækningatilraunir, er að útbreiðast um allt Suðurland, og mun hún halda því stryki áfram á næsta sumri, svo að líkindum verður flest fje orðið þar sjúkt að hausti, og ekki einasta það, heldur mun hún verða kom-

in hingað norður í Húnavatns- og Skagafjarðarsýslur, ef ekki er strax kröptuglega komið í veginn fyrir það. Norðri álítur, að eina ráðið sem dugi, til að að hindra útbreiðslu fjárkláðans sje, að skera fyrir hann, og mun skoðun þessi reynast rjett á endanum, og þetta ráð því betra, sem það verður fyrri framkvæmt. En þó er eitt þar við athugavert, sem er það: að mjög ísjárvert má álítast, að skipa niðurskurð á fjenu syðra hjeðan af í vetur eða í vor, því það er eigendunum óttalegt tjón, að drepa niður horaðar skepnur sínar; verður þannig fjeð og heyið að litlum eða engum notum, og þó að strádrepið verði niður fjeð á þeim bæjum, sem kláðinn er kominn á, getur vel skeð, að sýkin sje komin í það fje, sem sýnist heilbrigt. Það sýnist því tiltækilegra, að fjeð á Suðurlandi lifi hjeðan af til næstkomandi hausts, og sje þá strádrepið á svo stóru svæði, sem nægilegt virðist, til að hindra allar fjársamgöngur við Norðurland, þar til sýkin væri útdauð, því að skera þá fjeð í sæmilegum haustholdum, væri lítill neyðarkostur hjá því, að missa það horað á vordögum, eða mæðast yfir sýkinni í nokkur ár, og þar með að hleypa henni inn í Norðurland, bæði því og Suðurlandi til óbætanlegs tjóns.

Það tiltækilegasta ráð, nú sem stendur, sýnist því vera það, að setja strax á næstkomandi vori nægar sóttvarnir, til að koma í veg fyrir allar samgöngur norðan- og sunnan-fjársins í sumar á afrjettunum. Til þessa þarf varnarlínu með allri Hvítá í Borgarfirði, ætti hún að hafa stöðvar sínar fyrir sunnan ána, og verja öllu fje norður yfir hana, og þannig að verja Norðurland og Vesturland fyrir fjárpestinni. Sömuleiðis ætti ekki að leyfa Borgfirðingum að reka geldfje sitt norður yfir Hvítá, eins og nokkrir þeirra hafa gjört að undan förnu. Þessari einu varnarlínu er samt ekki trúandi, því með mörgu móti gæti kind sloppið norður yfir ána, og gæti hún hæglega flutt sýkina í Norðurland. Þess vegna þarf að setja aðra varnarlínu eptir miðjum afrjettunum frá Langajökli vestur til Hrútafjarðar, til að verja samgönguna milli fjár Mýramanna og Húnvetninga, er þessi varnarlína því nauðsynlegri, sem það kynni álítast líklegra að sýkin væri nú þegar komin í Mýrasýslu eða í Vesturamtið: Enn fremur til meiri óhultleiks fyrir Norðurland, er mjög nauðsynlegt, að setja þriðju varnarlínuna við Blöndu á afrjettinni, því þetta vatnsfall er af náttúrunni vel lagað varnar meðal en þó ekki einhlítt, án manna tilsjónar, því þó sýkin fyrir einhverjar ófyrirsjáanlegar orsakir kynni komast inn í vesturpart sýslunnar, má það sýnast forsómun að hleypa henni austur yfir Blöndu, enda væri ómetanlegt gagn að geta hindrað það og þannig geta frelsað allt Norður- og Austurland. Varnarlínan við Blöndu er líka nauðsynleg í því tilliti, ef kláðinn í Miðfirði reyndist ekki með öllu hættulaus. Nokkra menn þyrfti líka til varnar við hið svo nefnda Jökulfall milli Langajökuls og Hofsjökuls, til að verja fje hreppanna eystra frá að koma saman við fje Húnvetninga og Skagfirðinga hjer fram á afrjettunum.

Ef að þessum sóttvörnum væri kröptuglega og skynsamlega fyrirkomið og í þær settir hæfilegir menn, er reyndir væru að dyggð og trúmennsku, þá eru mestu líkur til, að Norðurland geti fríast við kláðasýkina næsta ár, lengur ætti ekki að þurfa á svo miklum sóttvörnum að halda, því fjárskurðurinn að hausti ætti eptir áður sögðu, alveg að hindra útbreiðslu kláðans.

Til þess að fjárkláðapestin komist ekki inn í Norðurland mun þetta reynast bezt:

1. Að setja áður nefndar sóttvarnir strax á næstkomandi vori og halda þeim á fram eptir þörfum, allt til rjetta að hausti.

2. Að treysta ekki upp á lækningar á kláðafjenu syðra, heldur skipa niðurskurð á því að hausti, á svo stóru svæði sem þörf virðist vera, til að hindra fjársamgöngur, þar til kláðasýkin er út dauð, því með þessum niðurskurði frelsa Sunnlendingar Norðurland frá fjársýkinni, en Norðlendingar munu aptur fúslega frelsa þá frá hungursnauðinni, sem flýtur af skepnu missinum, með því að láta þá fá nógan fjárstofn með góðu verði.

3. Allir Norðlendingar leggi þá mestu alúð á að eyða lús og óþrifa kláða úr fje sínu í vetur, svo að norðlenzki kláðinn verði ekki á endanum að skaðlegum faraldri; ættu tilsettar hreppanefndir að hafa vakandi auga og stranga tilsjón á, að þessu verði fram gengt hjá öllum. Það er líka mjög nauðsynlegt, að læknir J. Skaptason ferðist sjálfur vestur í Miðfjörð, til að komast eptir, hvort kláðinn á fjenu þar, er nokkuð verri og hættulegri, en kláðinn annarstaðar í sýslunni, því það væri mikil yfirsjón sýslunefndarinnar, ef sóttnæmur kláði skyldi leynast þar óaðgættur, en lækninum er einum trúandi til, að dæma rjett um það.

4. Að allur sá kostnaður, sem leiðir af áður nefndum sóttvörnum og þar aðlútandi framkvæmdum um allt landið, verði borgaður í bráð úr jarðabókarsjóðnum, og honum aptur endurgoldinn á sama hátt og alþingiskostnaður er endurgoldinn, því að leggja þenna kostnað á jafnaðarsjóði amtanna, sýnist ekki eiga eins vel við, þar eð af því getur risið ágreiningur milli amtanna út af því hvað hver sjóðurinn ætti til að leggja, og líka út af ýmsum reikningum þar að lútandi. það sýnist ekki heldur efunarmál, að allt landið sameiginlega borgi þenna kostnað, eins og það ekki heldur er líklegt, að nokkur láti sjer hann í augum vaxa, þar sem hann miðar til að af stýra almennu tjóni og hungurs dauða.

En þó öllum sýnist óumflýjanleg nauðsyn á áður nefndum sóttvörnum og skarpri lögreglutilsjón á öllum þar að lútandi framkvæmdum, er samt auðvitað, að þetta kemst ekki í verk, nema með því móti, að háyfirvöld landsins hlutist kröptuglega þar til.

Vjer Húnvetningar megum fulltreysta því, að amtmaður Havstein gjörir allt hvað í hans valdi stendur, til að finna og framkvæma það bezta í þessu tilliti, en hann einn megnar það ekki til hlítar; hinir amtmennirnir þurfa að leggjast á eitt með honum, og er líklegt að þeir gjöri það; eins þurfa sýslumenn og tilskipaðar hreppanefndir, að gjöra trúlega verk sinnar köllunar í þessu, og líða enga yfirtroðslu þar að lútandi skipana.

það hefur í lausum frjettum borizt hingað, að amtmaður Havstein ætli að ferðast í vor suður í Borgarfjörð, til að eiga þar fund með hinum amtmönnunum og koma sjer þar saman við þá, um varnir móti útbreiðslu fjárkláðasýkinnar. þetta þóttu gleðilegar frjettir, og allir telja víst, ef af þessu verður, sem annars sýnist mjög nauðsynlegt, að þá verði ekki einasta afráðið það bezta, heldur líka sjeð um framkvæmdina.

það er ekki líklegt, að stjórnin amist við aðgjörðum amtmanna í þessu, heldur að hún muni fúslega fallast á þær, og af alefli styrkja til að af stýra landsins eyðileggingu og eins að hún láti sjer lynda, þó kostnaðurinn sje tekinn í bráð af jarðabókarsjóðnum. Amtmennirnir ættu að gefa út reglubrjef fyrir hreppanefndirnar, og eins láta auglýsa öllum búendum þeirra skyldur í tilliti til hlýðni og allrar varúðar með fje sitt, svo enginn geti borið fyrir sig þekkingar skort, ef óhlýðni eða hirðuleysi ætti sjer stað. Sunnlendingar ættu líka að gæta þess, að á þeim hvílir eins mikil skylda til að vakta sitt sjúka fje fyrir samgöngum við heilbrigt fje annara, og láta það ekki streyma óhindrað um allar áttir, eins og á Norðlendingum að verja sitt fje sýkinni, enda mun beggja góður vilji og samtök í þessu reynast affarasælast. Margt mætti fleira hjer um tala, en jeg vona, að sú af amtmanninum niður setta nefnd muni bráðum skýra honum frá því sem henni þykir ráðlegast til að hindra útbreiðslu fjárpestarinnar hingað í Norðurland.

Skrifað í febrúarmánuði 1857.

Húnvetningur.

---

Vjer álítum margar góðar bendingar í ritgjörð þessari, og þó að vjer getum ekki fallizt á sumar skoðanir höfundarins, þökkum vjer honum þó fyrir áhuga þann og rjetta skoðun, sem hann hefur á flestum atriðum þessa máls. þó getum vjer engan veginn verið honum samdóma í því að draga ætti að skera fje það sunnanlands, sem veikt verður í vor, því auk þess, sem ómöglegt verður að verja öllum samgöngum milli þess og hins heilbrigða fjár þar allan sumartímann, sjáum vjer ekki að mikið gagn verði að draga að skera það, því vjer ætlum að hið veika fje muni ekki braggast mikið að sumrinu til; og ófært virðist oss að ala upp nokkur lömb undan pestsjúkum ám, því þó að þau lifðu og slippu, ef til vill, við pestina, getum vjer ekki annað ætlað en slíkar skepnur spilltu öllu fjárkyninu, og er það ekki tilvinnandi. Vjer verðum því fastlega að mæla fram með þeirri skoðun, að allt pestsjúkt fje sje drepið niður sunnanlands í vetur og í vor.

Hið annað atriði sem vjer getum ekki fallizt á í grein höfundarins, er að borga kostnaðinn úr jarðabókarsjóðnum. Oss virðist að þess konar gjöld eigi í hverju amti fyrir sig að greiðast úr jafnaðarsjóðunum; og helzt hefðum vjer óskað, að Norðlendingar önnuðust sjálfir um varnirnar og kostuðu þær, því svo áríðandi mál er þetta fyrir Norðurland, að oss finnst Norðlendingar engum eigi að trúa fyrir þessu nema sjálfum sjer, og vjer erum vissir um að engar sýslur hjer í amtinu mundu skorast undan að taka þátt í þessum kostnaði.

**Ábm.**

---

(Aðsent).

## Svar upp á ritgjörð í 5—6. blaði Norðra þ. ár.

Okkur þótti vænt um hjerna, svo nefndum gjörðarmönnum í Bárðardal, þegar vjer sáum nafnlausa nýgjörfinginn í honum Norðra, bls. 19 í febrúarm. 1857, því auk þess, sem ávalt fer bezt á því, að gjörðir manna liggi fyrir almennings sjónum, þá var orðið svo margrætt um makaskiptamálið, milli Eyjardalsár og Halldórsstaða, af Friðfinni bónda Illhugasyni á Litluvöllum í Bárðardal — því svo heitir höfundur nýgjörfingsins — að við sjálft hefði legið, að málefni þetta hefði með tímanum lagst miður út, ef til vill, hefði makaskiptatilraunin fram farið í þegjanda hljóði. En af því oss finnst skoðun höfundarins framar einstakleg og ekki nógu ljós, þá leyfum vjer oss að gjöra við hana fáeinar athugasemdir.

Fyrst skýrir höfundurinn frá því, á hverju makaskiptatilraun þessi er byggð, en það er á brauðabreytinga-nefndarálitinu 1854, í hverri nefnd að voru þeir: prófastur sjera H. Björnsson, prestarnir sjera Jón í Yztafelli og sjera Þorsteinn á Hálsi, ásamt hreppstjórunum Sigurði á Ljósavatni og Jóni á Grænavatni, og er það ekki tekið fram með einu orði í nefndaruppástungunni, að makaskipta sje leitað á Lundarbrekku eða Halldórsstöðum, við Eyjarárdalstorfuna, með milligjöf, sem og ekki var við að búast, því svo voru nefndarmenn þessir kunnugir, einkum prófasturinn, sem upp alinn er á Eyjardalsá og prestur þar í 17 ár, að þeir vissu vel, að fullerfitt mundi að fá makaskiptin milligjafarlaust, eins og höfundur greinarinnar sannar sjálfur, að leitað hafi verið án árangurs með fyrstu.

Því næst minnist hann inntaksins úr makaskiptasamningnum: að 12 hundruð úr Halldórsstöðum, skyldu mæta 12 hundruðum Eyjardalsár — því Eyjardalsá er 12 en Halldórsstaðir 16 hundruð — með sanngjörnu álagi og fylgjandi húsum á báðum þessum jörðum, og að þeir bræður á Halldórsstöðum gæfu á milli — svo makaskiptin á jörðunum á kæmust að sléttu — 200 spesíur, sem svaraði 4 afgangs hundruðum þeim, er Bergvin átti í Halldórsstöðum, og hann gjörði föl til prestakallsins.

Vjer könnumst við, að þessi atriði eru í samningnum, eins og hitt, að bræður á skyldu, samkvæmt nefndaruppástungunni, að Eyjardalsárkirkja væri af lögð; einnig að svo var ætlazt til, að 4 bæir: Eyjardalsá með hjáleigunum og Arndísarstaðir leggðust til Ljósavatnskirkju. — Ekki neytum vèr heldur því, að þeir sem viðriðnir voru makaskiptasamninginn — sem voru, auk Halldórsstaða eigenda og prests okkar: hreppstjóri Sigurður á Ljósavatni, bændurnir Ingjaldur á Mýri, Halldór á Bjarnastöðum, Ásmundur á Stóruvöllum, og Jónas snikkari á Lundabrekku — af hverjum Sigurður hreppstjóri var einn í brauðabreytinga nefndinni, en Ingjaldur jarðamatsmaður — hlynntu framar að því, að þeir bræður og mágar Bergvins, sætu fyrir kaupum á parti hans, ef ekki yrði af makaskiptunum, og Bergvin vildi selja, sem bæði kom af því, að mönnum þótti það eðlilegast, en þó einkum af hinu, að Friðfinnur hafði boðið 800rd. í part Bergvins, svo makaskiptin þar með færust fyrir og sjálfur hann kæmist inn á Halldórsstaði; en þá þóttust tilvonandi sameigendur Friðfinns og fleiri sjá, að ekki myndi til værðar boðið, þar hann hafði farið orðum þeirrar meiningar, þegar hann sá að Bergvin myndi heldur unna prestakallinu partsins „að hann skyldi samt ná parti Bergvins til eignar, og þá skyldi hann kenna þeim að kveða við annan tón“.

Þegar nú þetta ekki tókst Friðfinni, fjekk hann menn til að rita byskupi 2 brjef, en ljet jafnframt berast út í hjeraði, hversu þungt sjer lægi á hjarta, hvernig fara ætti með prestakallið; en þegar honum tók að leiðast eptir svari, ljet hann semja Skollavaðsbálkinn í Norðra, sem vjer ætlum nú ofurlítið að skýra.

Friðfinnur álítur að Lundabrekka eigi að vera prestsetur en Eyjardalsá annexía, en segir þó, að kirkjubóndi Jón Sigurðsson sje svo gagnstæður breytingunni, að hann af taki að messað verði sína tíð, nema 3. hvern sunnudag, og að Þóroddstaða prestur hafi sagt sjer nýlega, „að hann væri ófánlegur til að bæta 4 bæjum við Ljósavatnskirkju“. Auk þess því, sem uppástunga þessi kafnar strax í fæðingunni, hefur höfundi þessum gleymzt að gæta hinna 60 næturgesta — eða þó heldur 59, því sjálfur er hann ekki mjög kirkjurækinn — sem hann ætlar að hýsa hveru messudag á Lundabrekku, ef prestur færi fram í dalinn, því næst 12 fjórðunga mötu sem geldst af Lundabrekku, og loks, að messað er á Lundabrekku annanhvern sunnudag á sumrin, þó þar sje talin þriðjunga kirkja. — En hann hefur á að gizka ránkað við sjer aptur, og gjörir því aðra uppástungu, sem er „að setja hjáleiguna Hvarf í eyði“; þó fer hjer enn á sömu leið, því þá missist smjörgjaldið og allir sauðirnirnir sem hann setur í landskuld, og hin mikla bygging er hann telur þar, hlýtur að hrynja. — Hann kemur því loks að þeirri niðurstöðu, að „hefðu bændur viljað vera presti sínum til vilja, þá áttu þeir að útvega honum Halldórsstaði“, o. s. frv.; en þegar vjer höfum orð höfundarins fyrir oss, þá ætlar að sannast máltækið, að „þegar fara á betur en vel, fer opt ver en illa“, því hann segir að skemmdir og eyðilegging dalsins að framan sjeu komnar út fyrir Halldórsstaði, og jörðin beri ekki nema 20—30 lausafjárhundruð, sem honum þykir víst lítið; hann segir, „að ekki sje mikill munur á vegalengdinni frá Eyjardalsá að Lundabrekku og þeirri leið, ef presturinn færi þrisvar fram á svo kallaðan skollavaðs ferjustað. og út að Lundabrekku, sem sje 2. hlutum hættulegra og jafnvel kostnaðar meira“. — Ekki er nú kyn þó karlinum þyki þetta ískyggilegt, og hann á kollgátuna, að okkur lýst ekki meir en svo á þessar uppástungur heldur, en því er miður, að vjer getum ekki í þetta sinn, vegna rúms í blaðinu, fylgt honum fullkomlega út úr þessu myrkri; þó viljum vjer fræða hann á því, að þar sem hann segir „þá bræður jafnframt hafa lofað, að ef „þessir skilmálar væru uppfylltir, skyldu þeir gefa 200 spe„síur milli, sem prestur og gjörðarmenn hafi álitið að gilda „skyldu fyrir 4 hundruð Bergvins í Halldórsstöðum, en færi „svo að ekkert yrði af makaskiptunum, þá skyldu þó þeir „bræður kaupa partinn þriðjungi meira verði, og að prest„ur og gjörðarmenn hafi skrifað nöfn sín hiklaust undir „þetta, þá kom þetta af því, að veturinn 1855 setti Bergvin sjálfur þetta verð á partinn, ef hann gengi til prestakallsins, og vildi ekki apturkalla það, en veturinn 1856 bauð Friðfinnur fyrst 600 rd., en litlu síðar annar bræðra hið sama, í því skyni að Friðfinnur næði ei partinum, hvað eð gaf tilefni til, að Friðfinnur færði sig aptur upp í rúma 800

sd., og þetta er orsökin hvers vegna parturinn er í hærra verði til bræðra en prestakallsins, því sá þeirra er þetta band vildi láta þar við standa, og getur því naumast kastað skugga á prest eða gjörðarmenn hans. — Þar sem höfundurinn kveðst „þora að fullyrða, að samningnum sje í engu haggað hvað inntak hans snertir“, þá þorum vjer líka að segja honum aptur, að það getur ekki átt sjer stað í samningnum, „að Lundabrekka sje gjörð að einni aðalkirkju“, því það sjer hann sjálfur, að þó hin nýja kirkja þar væri rifin og farið að gjöra Lundabrekku að kirkju, þá yrði sú kirkja svo stór að öll fasteign höfundarins hrykki ekki nærri í annan gaflinn. Þegar hann álítur „leiðina þrisvar farna frá Halldórsstöðum og út að Lundabrekku muna litlu frá því að fara eina ferð frá Eyjardalsá að Lundabrekku, og að fljótið sje versta farartálmun prestsins á annexíuleiðinni“, þá gætir hann ekki þess, að presturinn þarf hvort eð er að fara 3. hvern messudag á vetrum, en annanhvorn á sumrum fram að Lundabrekku og yfir fljótið meðan hann er á Eyjardalsá, og að fljótið hefur ekki tálmað messugjörðum nema alls einu sinni á 40 ára tímabili, en þegar hann talar um hættuför og kostnað fyrir prestinn að fara á skollavaðsferjustað, þá má nú svo að vísu vera, því hjer þekkir engin það vað nema hann, en þá er ferja til á Halldórsstöðum rjett suður og niður undan bænum, og engin hætta þar við framar en annarstaðar. Þegar hann telur húsamuninn 200 sp. virði, þá getum vjer sagt honum, að prestur okkar á mörg af húsum á Eyjardalsá, en lítil sem engin útihýsi fylgja hjáleigunum og ekki handa kúgildinu á annari, en góð úthýsi á Halldórsstöðum. Þar sem hann segir „að kirkjubóndi Jón Sigurðsson neiti að messað verði optar en þriðja hvern sunnudag á Lundabrekku, og að Þóroddstaða prestur sje ófáanlegur til að bæta hinum 4 bæjum við Ljósavatnskirkju“, þá skulum vjer lofa honum að vita, að leyfisbrjef frá báðum þessum eru komin strax stiptinu til handa. Þegar hann segir „að bændur í Eyjardalsár kalli hafi ekki allir samþykkt bónarbrjefið, og það ekki klárast að undirskriptum fyr en í ágústm.“, þá má ekki dylja hann þess, að hann er sá eini sem ekki samþykkti brjefið af bændum til, og það var komið stiptinu til handa í byrjun júlím. — Þegar hann vill sverta prest okkar með „ískyggilegri aðferð“, en prófastinn með því, „að hann hafi ekki vitað með hverjum hann mælti“, þá óskum vjer Friðfinni til lukku þegar svo ber vel lit af lit, að hann er orðin hvítur en þeir svartir, og segjum honum jafnframt í trúnaði, að prófastinum voru send skjöl öll og þá sjálfsagt þar í makaskiptagjörningurinn, áður en þau voru send stiptinu. — Þegar hann segir „að Halldórsstaðir sjeu í sumu ekki eins góðir og beneficii staðurinn, en kotin fullt eins mikils virði og heimajörðin, hvar af sje auðsætt, að staðurinn geti ekki gilt nema móti hálfum Halldórsstöðum“, þá dirfumst vjer að minna hann á, að hann vildi þó ekki sjálfur að Halldórsstaða eigendur skiptu jörðunni við Eyjardalsá, nema þeir fengju svo mikla milligjöf sem svaraði öllum skóginum. — Þegar hann telur 2 bæi í prestakallinu fyrir framan Halldórsstaði, skulum vjer upplýsa hann um það, að þeir eru 9 — 5 austan og 4 vestan fljóts — og þar á meðal Íshóll fremsti bær, sem hann vill ræna eptir í makaskiptum við aðra jörð sem hann er nú að fala fyrir full 900 rd. — En þó hann sje kunnugur hreppsbókunum, þá getum vjer sagt honum, að prestar á Eyjardalsá hafa aldrei haft 30 lausafjárhundruð síðan hreppsbækur til urðu, og það þó þeir hafi má ske lagt minna í hundrað en hann, og haft nálægt 30 lambseldum til að auka fjenað sinn, en hvað afgjaldið snertir, þá er fjórði parturinn í Halldórsstöðum leigður með ásauðarkúgildi og 10 rd. landskuld, hins vegar vitum vjer ekki til að prestar hafi goldið landskuld af Eyjardalsá,

Þetta ætlum vjer að ábyrgjast að sje satt, og nennum ekki að elta höfundinn lengur á öllum hans skollavöðum, allra sízt þar sem hann í 2. dálki 2t. bls grautar svo saman vitleysu og lýgi — með leyfi að segja — að þegar hann dregur verð Halldórstaða eða 1600 rd. frá Eyjardalsá, er hann metur á 3,520 rd. þá verða eptir hjá honum 420, af hverju engin mun fá annað ráðið en að hann ætli með þessu að breiða yfir 800 rd. boð sitt í Bergvins partinn og skjóta Eyjardalsártorfunni upp í meir en helmingi hærra verð en Halldórsstöðum, ef það — þó ekki annað — kynni að geta aptrað makaskiptunum. — Dæmið nú um lesendur! hvað þjer haldið höfundi nýgjörfingsins gangi til að verja dögum og nóttum, kjöti og smjöri, til að standa í þessu stímabraki og koma þessum óektabornu uppástungum fyrir almennings augu, hvort það, t. .a m. muni vera af sannri ást og umhyggju fyrir prestakallinu eða má ske af eigingirni og skorti á mannkærleika. — Vjer látum hvern ráða sinni meiningu um þetta, en ætlum að eins að taka fram 4 atriði sem oss virðist einkum ættu að koma til skoðunar í þessu málefni, og þau eru þessi:

1. Samanburður jarðanna Halldórsstaða og heimajarðarinnar Eyjardalsár í tilliti til afnota og erfiðleika.

2. Afstaða þeirra í prestakallinu í tilliti til prests og sóknarfólks.

3. Hvers presturinn missir í af inntekt sinni við skiptin, og hvort hann fái það upp borið aptur á Halldórsstöðum, og

4. Hvort prestinum væri betra að búa á allri Eyjardalsá en Halldórsstöðum ef hjáleigur staðarins væru lagðar í eyði.

Ef vjer byggjum þenna samanburð á jarðamatinu 1849 og 1850 — sem bezt þykir hlýða —, þá var við matið áhöfn gjörð á Halldórsstöðum 11 málnytukúgildi og 9 í geldum peningi, eru 20, en á heimajörðinni Eyjardalsá 9 málnytukúgildi og 7 í geldum peningi, eru 16. Þegar þar frá dragast 4. kúgildi en 1 á Halldórsstöðum fyrir ókostum, verða eptir 12 a Eyjardalsá, 19 á Halldórsstöðum. — Sje nú farið nákvæmar eptir lýsingu jarðanna við matið, þá er talið til helztu ókosta á Halldórsstöðum: að „túni „sje fremur hætt við kali, bithaga sje yfir á að sækja, að þar „sje ill torfrista, grundir seigslægar og fremur snöggar og „ágangur af afrjettarfje“. En til kosta: „að túnið sje sljett, „hægt til ræktunar, grasgefið — og má færast út — útengi „nærtækt á sljettum grundum, í bezta lagi heygott; land„kostir til málnytu og þrifa; lambaupprekstur fyrir heim„ilið og skógur“. — Aptur á Eyjardalsá ókostir helztir: „túnið „stórt og illt til ræktunar; útengi reitingssamt og í bratt „fjall að sækja; töðu og heyljett; hættur miklar, og í versta„lagi rakasamur bær, skógur og sauðabeit gjöreydd, og land„ið yfir höfuð að ganga af sjer“. — En til helztu kosta: „að nokkuð sje víðslægt; allgott landrými og sæmileg mál„nyta“. — Auk þessa er fremur vorgott á Halldórsstöðum, engi verið bætt með vatnsveitingum — sem allt sjest

af hlaðinn — beitarhúsastæði gott og jörðin yfir höfuð talin með þeim vorbetri og hægari. Þar á móti er Eyjardalsá álitin með vorharðari og erfiðari jörðum; torfrista jafn ill, túninu hætt við kali, beitarhúsastæði ekkert og ágangur eins af geldfje.

Af þessum samanburði er auðsjeð, að jörðin Halldórsstaðir er svo miklu afnotabetri og hægari bújörð en Eyjardalsá.

Hvað afstöðu snertir, eru Halldórsstaðir svo nær sem í miðju prestkallinu, yfir frá Lundabrekku, en Eyjardalsá yzt á enda þess — sem minna vantar allt að þingmannaleið á lengd — hvar af ekki er síður í augum uppi, þvílíkur munur er fyrir sóknarfólk og prest að hann búi á Halldórsstöðum, og vjer getum sannað að erfiðleikar afstöðunnar sem nú er, hafa rekið presta burtu frá kallinu, og að svo hefur farið að dauðvona manneskjur, sem leituðu prestþjónustu hafa burtkallast, áður presti varð náð, og það einmitt af því, að hann var svo óhentuglega settur og sjaldan verður viðkomið hesti að vetrarlagi.

Aptur missir presturinn af inntekt sinni afgjaldið af hjáleigunum Hvarfi og Hlíðarenda sem er: 2 sauðir veturgamlir af annari og 2 sauðir veturgamlir og 10 pund tólgar af hinni, auk þess sem hann yrði að taka með sjer inn á Halldórsstaði hin 8 kúgildi sem fylgja staðnum, eins — ef Eyjardalsá með hjáleigunum og Arndísarstaðir leggðust til Ljósavatnskirkju — af hverjum jarðar- og lausafjár-tíund til prests, ef Eyjardalsá bæri líka tíund og Halldórsstaðir — yrðu þá 20 til 25 álnir eptir sem nú er. En þegar vjer höfum fyrir oss Eyjardalsá sem bújörð prestsins, og það er viðurkennt, að hjáleigurnar eru byggðar henni til mikils óhagnaðar, þar þær svipta hana beit og landrými á báðar hliðar, þa fullyrðum vjer að jörðin Halldórssaðir í tilliti til búskapar afnota, afstöðu og hægðar auðsjáanlega bæti prestinum þenna tekjumissi, sem ekki svarar ómaki hans ár um kring til messuferða og aukaverka frá Eyjardalsá fram að Lundabrekku.

Loks skulum vjer bera saman alla Eyjardalsá við Halldórsstaði, láta prestinn setja hjáleiguna Hvarf í eyði og hafa þar beitarhús, en þó vjer ekki þorum nákvæmlega að ákveða vöxtu á töðu og útheyi á báðum jörðunum, heldur hitt að allur heyskapur er kjarnbetri á Halldórsstöðum og vjer fullyrðum, að talsvert meiri heyskapur hafi tekinn verið á Halldórsstöðum, með helmingi minna liði eptir tiltölu en á Eyjardalsá, þá komum vjer samt að þeirri niðurstöðu, auk þess, sem þá hlýtur presturinn eins að taka heim kúgildin og missa afgjaldið, þá yrði afstaðan jafnerfið og eins óhentug sem áður, og búskaparumhyggja prestsins hlyti að fara vaxandi, þar hann þyrfti ekki einungis að hafa helmingi fleira fólk og hesta, sem flesta þarf að kaupa niður inn í Eyjafirði að vetrarlagi — heldur en á Halldórsstöðum, og arðurinn mundi ekki svara tilkostnaði, þar vart yrðu hafðir fleiri sauðir að heldur en á Halldórsstöðum, heldur liggur það í augum uppi, að hjáleigur þær sem liggja fyrir átroðningi næstu jarða, og ekki sjást að heiman, falla í órækt.

Þegar alls þessa er gætt, auk þess sem flestir munu álíta hverjum embættismanni, þá jörðina hentugri, sem er minni en eins arðsöm, heldur en hina, sem er stór og erfið, þá ætlum vjer þá eina breytinguna horfa til bóta fyrir þetta prestakall, og öllum bæði presti og sóknarfólki til mikils hagnaðar, nema að eins kirkjubóndanum á Lundabrekku, sem óneitanlega hlýtur að líða talsverðan halla af því, að makaskipt sje Eyjardalsá með hjáleigunum[1] við Halldórsstaði einmitt eptir uppástungu brauðabreytinganefndarinnar, því þó Eyjardalsá með hjáleigunum álítist ummáls stærri en Halldorsstaðir, og sje metin nokkuð meira að dalatali, og geti orðið eins góð eign fyrir sameigendur og erfingja þeirra, sem hver í sínu lagi geta betur notað sjer torfuna með því að búa á hjáleigunum — þó önnur sje mjög svo orðin engja lítil af sandfoki[2] — þá þykir oss allt öðru máli skipta þegar Eyjardalsá er skoðuð sem prestssetur, hvert sem hjáleigurnar eru byggðar eða ekki.

Gjörðarmenn í Bárðardal
16. febr. 1857.

---

Gjörðarmenn í Bárðardal hafa nú að oss virðist gjört vel grein fyrir aðgjörðum sínum um jarðaskiptin, og sannað það til fullnustu, að jarðaskiptin sjeu til hagnaðar fyrir prestinn einkum þar eð bújörðin sje miklu betri. En af því oss virðist ekki fullsannað, að Halldórsstaðir sjeu fullkomlega jafngildir Eyjardalsártorfunni, ef báðar jarðirnar væru seldar við verði, virðist oss að bezt hefði verið að reyna til að fá Halldórsstaði keypta handa prestinum, en selja aptur Eyjardalsártorfuna, og láta prestinn njóta ávaxta af því fje, sem meira hefði fengizt fyrir Eyjardalsána en Halldórsstaði ef nokkuð hefði orðið. En líklegt er að þessu hafi ekki orðið komið til leiðar sökum þess, að Halldórsstaða eigendur hafi ekki viljað sleppa jörð sinni nema með þeim kostum að fá skipti á jörðunum.

**Ábm.**

---

## Bókafregn.

„Fróðlegt Ljóðasafn ýmislegs efnis“, safnað og útgefið af bókbindara G. Laxdal, 2. hepti Akureyri 1857.

Þó að vjer getum ekki aktað það eðalsinnugt, er það þó temmilega móðugt af herra bókbindara G. Laxdal að voga sjer útí að gefa út þetta annað hepti af fróðlegu ljóðasafni sínu. Hann hefur nú á fáum árum yfirgengið marga ærutröppu í útgáfum herlegra bóka, og síðan hann ljet Felsenborgarsögurnar hurra af stað, hafa honum ekki merkj-

---

[1]) Athugasemd: Þó ekki sje litið til annars en afnota af skóginum, og hvað engi liggur haganlega, sem sjest allt af hlaðinu á Halldórsstöðum, þá fullyrðum vjer að þessir kostir meir en bæti prestinum afnot af hjáleigunum.

[2]) Þetta er hjáleigan Hlíðarendi sem ritshöfundurinn segir að samhljóða jarðamatinu sje frá 4 til 600 rd, en var þó metin 1850 á 175 rd.

anlega fatast dáðir. Og þó að ekki sje líklegt, að hinn rasandi kostnaður og hinn kljeni ábati geti balancérað, og þetta sje súr forþjenusta fyrir hann, er þó bón lesendanna enn hans rjettarsnúra; svo að ef þeir befala honum — í þann máta að þeir kaupa þetta hepti — ætlar hann að láta 3. heptið lunka frá prentsmiðjunni, svo að lesendunum geti danggast gaman af því, og á það að vera útbúið forskillegum förfum og lystugum innföllum eins og þetta síðara; og þó að kvæðin sjálf og valið á handritunum verði eptir kringumstæðunum, þá mætti það heita dára skikk að finna að slíku; og vilji nú statsmenn ekki læra listinn þann í ljóðasafninu, þá geta þó kokkapíkur mumpað það, og gjört sjer þannig dagamun.

Það væri þó ekki rjett álitið, að bókmenntum vorum Íslendinga fari hnignandi.

**Fyrst vort kæra föðurland**
**fætt með lund ódeiga**
**hefur þá æru hjer í bland**
**höfuð slíkt að eiga![1]**

---

Í grein frá sveitamanni í 3—4 númeri Norðra þessa árs þar sem talað er um vigt á kjöti í verzlun hjer á Akureyri næstliðið haust, er svo að orði komizt, að einn spánýr vigtarmaður hefði einkum tekið yfirvigt á kjötinu. Herra Hallgrímur Thómasson í Miklagarði, sem var í fyrsta sinni við vigt hjer í haust hjá Helga faktor Johnsen, hefur krafizt af oss að auglýsa, hvort þessi orð ættu að ná til sín. Vjer lýsum því þess vegna yfir, að skilríki sem vjer höfum í höndum, sýna það, þó það sje ekki tekið fram í grein sveitamannsins, að umkvörtun þessi snerti hvorki verzlun faktóranna H. Johnsens nje E. Möllers.

**Ábm.**

---

(Aðsent).

Af því það hefur látið sig í ljósi, að ýmsir hafi eignað það hirðuleysi bænda í Mosfellssveit í Gullbringu sýslu, að fjárkláðinn náði þar útbreiðslu á næstl. sumri, þá hefi jeg álitið rjett, að biðja ritstjóra Norðra að prenta eptirfylgjandi skýrslu, sem samin er af presti og helztu bændum í Mosfellssveit, viðvíkjandi byrjun fjárkláðans í Miðdal, og ætti skýrslan sjálf, sem jeg veit að er sönn, bezt að geta upplýst þetta efni:

„Það var 27. næstl. aprílmán., að Eiríkur bóndi Jakobsson vakti máls á því eptir messu að Mosfelli, að hann hefði þá nýlega fengið pata af einhvers konar ókennilegri sýki, eða kláða og útbrotum í sauðfje Guðmundar bónda Eiríkssonar í Miðdal. Hafði hann frjett þetta þá í vikunni af bónda einum frá næsta bæ við Miðdal. Varð nú um þetta umtal nokkurt, og urðu ýmsir á því, að þetta mundi vera lík kláðasýki og hjer á landi gekk á síðustu öld, og ef svo væri, þyrfti nú bráðra aðgjörða við. Sýndist þá Eiríki og fleirum bændum að prestur skyldi forvitnast um, hvað hjer væri satt í, og síðan fá hreppstjóra til að skerast í leikinn, ef nokkur voði þætti á ferð. Prestur skrifaði Guðmundi bónda í Miðdal brjef samdægurs og innti honum þar í frá kvis þeim, sem upp væri kominn um kláða í fje hans, og bað hann þá í vikunni að láta sig vita hið sanna í þessu, svo hjer yrðu tekin þau ráð sem þyrfti. Næsta sunnudag kom Guðmundur bóndi að Gufunesi, og skýrði þar frá, að einhver kláðaútbrot væru í fje sínu nokkru, og eignaði það enskum lömbum, sem hjá sjer hefðu verið um tíma í fyrra haust á leið austur að Hraungerði. Eiríkur bóndi Jakobsson var og hjer við staddur og enn fleiri af bændum. Þennan sunnudag fjekk hreppstjórinn Hafliði Hannesson brjef frá hreppstjóra Þingvallahrepps, Árna Björnssyni, skrifað fyrir rjettri viku. Þar í var sagt, að nýfrjett væri þá austur um kláðasýki í Miðdal, og alvarlega skorað á hreppstjóra Mosfellshreppa, að láta rannsaka hann og sjá um, að vogestur þessi fengi þær viðtökur sem þyrfti, þar sem svo mikið og margra velferð væri í húfi[1].

---

[1]) Sjá Fróðlegt ljóðasafn 2. hepti, 24 bls.

[1]) Brjefið hljóðaði þannig:

„Af því að hingað austur hefur borizt sú hryllilega fregn — og ekki einungis „borizt fregn“ — heldur hefur einn trúverðugur bondi hjer í sveit, verið sjónarvottur þess, að komin muni vera upp kláðasýki í sauðfjenu í Miðdal í Mosfellssveitinni, eða máske víðar þar í kring; þá vildi jeg hjermeð hafa alvarlega áminnt þig um, og þjer ráðið til, sem viðkomandi hreppstjóra, að gánga hlífðarlaust og sem allra bráðast í þetta mál, með því að tilkynna það og tilsegja til rannsaks og úrgreiðslu, bæði viðkomandi sýslumanni og landlækninum.

Það er ekki eintóm framfærni mín eða slettirekuskapur, það er nauðsynin, það er sú almenna þjóðnauðsyn, sem knýr mig til, að skrifa þjer þessar línur, því hvað er það, þó að hálf eða heil sveit og það í óhentugan tíma felli fjenað sinn? hjá því ef það yrði að almennri og algjörðri landplágu: það er þó mögulegt, að bæta fáum mönnum að nokkru eða miklu leyti skaðann; en þegar þetta er orðið útbreytt, og orðið að almennri plágu eins og hjerna á árunum, þá er um seinan að leita ráða og meðala, og þá mega menn hafa allan sinn skaða og þar af leiðandi vandræði óbætt“.

Var það þá meðfram fyrir þessa l ... áeggjun viðstaddra bænda, að hreppstjóri Hafliði skrifaði stiptamtmanni brjef samdægurs, 4. maí, um kláðann í Miðdalsfjenu og ótta manna fyrir honum, og bað hann skipa þangað skoðunarmenn hið bráðasta, og var stungið upp á dr. J. Hjaltalín T. Finnbogasyni dýralækni, svo sem þeim, er helzt væri treystandi í því efni. Brjef þetta kom til stiptamtmanns daginn eptir, og hann brást við vel og skipaði dr. Hjaltalín að rannsaka þetta, og gjörði hann það á miðvikudaginn, 7. f. m. — Veit jeg ekki sannara um álit hans, sem hann ljet uppi, eptir að hann kom aptur frá Miðdal, en það, sem stendur í Þjóðólfi, 8. ári, bls. 84. Þó ráðlagði hann eitthvað við kláða þessum, og mæltist til við Hafliða hreppstjóra, að hafa vakandi auga á, hvað ráð þau dygðu, og senda sjer um það skýrslu, einhvern tíma fyrir fráfærur, og þetta gjörði hreppstjóri, og virtist þá kláðinn horfinn með öllu, og fyrir þá skuld, sem og fyrnefnds álits dr. Hjaltalíns um kláða þenna, fjell þetta hjer við niður og varð í afskiptaleysi, þangað til að kláðinn kom aptur upp í haust og allt var orðið um seinan.

---

# Frjettir.

**Innlendar.** Það er hvorttveggja að það er lítið um ferðir hjer norðanlands um þetta leyti, enda er mjög frjettafátt. Nóttina fyrir annan dag þessa mánaðar kom hjer eitthvert hið mesta stórveður, sem verið hefur hjer norðanlands, og hefur það gjört víða stórskaða, og að líkindum miklu víðar en vjer höfum til spurt. Kirkjan á Upsum í Svarfaðardal fauk af grundvellinum og brotnaði til stórskemmda. Á Karlsá í sömu sveit reif bæjardyralopt, og sópaði burtu flestu fjemætu er bóndinn átti þar, mat og vöru. Á mörgum stöðum hafa menn misst hey, og það svo stóru nemur. Mest brögð hafa orðið að þessu vestur í Húnavatnssýslu, því þar er mælt að á 2 bæjum í Svínavatnshrepp hafi tapazt um 100 hestar af heyi á hvorum bænum, og í landsynningi nóttina milli 13. og 14. hafi Jósep Skaptason hjeraðslæknir á Hnausum misst 80 til 100 hesta af heyi. Seinast í febrúar brann allur bærinn á Núpdalstungu í Miðfirði en ekki er oss skrifað neitt greinilegt um það. Ekki höfum vjer til spurt að mikið hafi tapast af bátum, en þó nokkrir. Nóttina fyrir þann 10. kom hjer næstum því eins mikið ofviðri aptur, en ekki ætlum vjer að það hafi gjört jafnmikið tjón sem hið fyrra.

Úr Svarfaðardal hefur og frjetzt að hrútar hafi kafnað inni í húsi og 40 fjár í einum stað í Húnavatnssýslu, og hlýtur slíkt að vera að kenna hirðuleysi manna, annaðhvort af því, að ekki hefur verið mokað frá húsunum, eða af því að menn hafa vanbirt að líta eptir fjárhúsunum í ofviðrinu. Slíkt ætti að kenna mönnum varúðarsemi framvegis.

---

## Tímarnir breytast.

Í riti sínu „Vandcuren i dens Resultater“ Kmh. 1842 segir dr. Hjaltalín: Nýjar kenningar og skoðanir hafa á seinni tímum komið upp í læknisfræðinni, hver eptir aðra, en fáar hafa verið reyndar til hlítar, eða vísað á rjettan stað í kerfi vísindanna, því meðan sumir læknar íhugunar og rannsóknarlaust hafa aðhyllzt allt nýtt, sem þeir gátu náð í, þá hrinda sumir aptur með dómadags ösku frá sjer öllu sem fráhverft er því, sem þeir hafa haft mikið fyrir að nema. Til að sannfærast um þetta, þarf ekki annað en líta á afdrif hom... thíunnar á seinni tímum. Hefur ekki margur læknir kveðið upp dauðadóminn yfir henni, án þess hann hafi að gagni þekkt aðalástæður hennar? Hafa ekki margir læknar hrokafullir af vizku sinni viljað útskúfa henni með ástæðulausum og drembilegum lærdóms digurmælum? Það er ekki tilgangur minn að verja homöopathíuna, heldur sýna, hvernig læknar í vísindalegri keppni þeirra fara að ráði sínu, og hvernig meiri hluti þeirra lætur leiðast af hleypidómum og hugarburði, þegar eitthvað, sem snertir fræði þeirra, á vísindalega að dæmast.

## Álit eins prests fyrir norðan um sama efni.

Það sem jeg um þetta efni (nefnil. homöopath.) get vitnað eptir beztu sannfæringu hljóðar svo, að jeg veit ekki til, að þessar lækningar hafi haft nein beinlínis áhrif til heilsuspillis eða dauðadaga; því jeg ætla ekki heldur að meðölin sjálf hafi einu sinni krapt til svo mikils. Og jeg þykist ekki hafa orðið var við aðrar skaðlegar verkanir af þessum lækningum en það, að þær kveikja og ala hjegómlega hjátrú, tefja tíma fyrir leitun annarar lækníshjálpar, og eyða efnum hinna sjúku, sem leggja út peninga sína fyrir ekki neitt, til einskis. Aptur eru þær góður gróðavegur fyrir þá sem með þeim látast vera að leiða til heilsubótar, blindir blinda. Hinum kvillitu er og einatt fyrir heimskunnar sakir hugarljettir að því, að fá einn eða tvo dropa á viku af þessum margþynntu ímyndunarmeðölum. Og fyrir trúna, á meðan hún varir, kunna þeir að verða hæfilegri til að taka á móti bata. Því væri það, ef til vill, ísjárvert að taka frá þeim allt í einu þessa vesælu vonarfró. En tíminn, eða rjettara sagt, sá sem honum stjórnar, mun innan skamms, svo sem nægir, leiða í ljós hlægilegt hinnar homöopathisku-vitleysu.

---

## Spurning.

„Þegar náungans veggur brennur, þá er þínum hætt segir gamalt máltæki“. Svo getur nú illa til tekizt fyrir oss Norðlendingum, að vjer þurfum á því að halda að hausti komandi að láta lækna vora skoða fjeð í rjettunum til að vita hvað tiltækilegast virðist, ef að kláðinn skyldi komast norður yfir fjall.

Vjer skorum því á Sunnlendinga að einhver góður maður skýri oss frá skoðun þeirri sem dr. Hjaltalín eptir skipun stiptamtmanns gjörði í rjettunum á næstliðnu hausti; hvernig leysti hann skoðun þessa af hendi? og hverjar voru tillögur hans í því efni?

Svar upp á þetta gæti verið góð bending fyri lækna vora, ef á þyrfti að halda.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 20. April. 11.—12.

## Verðlags-skrár

### sem gilda í Norður- og Austurumdæminu frá miðju maimánaðar 1857 til jafnlengdar 1858.

| | Í Húnav.- og Skagaf.-sýslum. | | | | | Í Eyjaf.- og þingeyjar-sýslum. | | | | | Í báðum Múlasýslum. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. |
| | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | rd | ß | ß |
| ***A.* Frílur peningur:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 1 kýr í fardögum, 3-8 vetra . . . . | 37 | 70 | 37 | 70 | 30 | 33 | 26 | 33 | 26 | 26½ | 27 | 70 | 27 | 70 | 22 |
| — — 6 ær - — 2-6 — hver á | 4 | 31 | 25 | 90 | 21 | 4 | 54 | 27 | 36 | 22 | 4 | 88 | 29 | 48 | 23½ |
| — — 6 sauðir á hausti, 3-5 — — - | 6 | 50 | 39 | 12 | 31½ | 6 | 69 | 40 | 30 | 32 | 7 | 29 | 43 | 78 | 35 |
| — — 8 — - — tvævetrir — - | 4 | 83 | 38 | 88 | 31 | 5 | 7 | 40 | 56 | 32½ | 5 | 80½ | 46 | 68 | 37½ |
| — — 12 — - — veturgaml. — - | 3 | 37½ | 40 | 66 | 32½ | 3 | 61½ | 43 | 66 | 35 | 4 | 2 | 48 | 24 | 38½ |
| — — 8 ær á hausti, geldar . . . . . . . — - | 4 | 37 | 35 | 8 | 28 | 4 | 84½ | 39 | 4 | 31 | 5 | 52½ | 44 | 36 | 35½ |
| — — 10 - - — mylkar . . . . . . . — - | 2 | 76 | 27 | 88 | 22½ | 2 | 77 | 28 | 2 | 22½ | 3 | 42½ | 34 | 41 | 27½ |
| — — 1 áburðarhestur í fardög., 5-12 vetra | 19 | 8 | 19 | 8 | 15½ | 22 | 82 | 22 | 82 | 18½ | 22 | 86 | 22 | 86 | 18½ |
| 90 álnir, 1 hryssa, jafngömul . . . . . . | 15 | „ | 20 | „ | 16 | 18 | 49 | 24 | 65½ | 19½ | 18 | 79 | 25 | 9½ | 20 |
| ***B.* Ull, smjör og tólg:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 120 ℔ af hvítri ullu . . . . . ℔ á | „ | 32 | 40 | „ | 32 | „ | 32 | 40 | „ | 32 | „ | 31 | 38 | 72 | 31 |
| — — 120 - - mislitri — . . . . . . . - - | „ | 26 | 32 | 48 | 26 | „ | 27½ | 34 | 36 | 27½ | „ | 27 | 33 | 72 | 27 |
| — — 120 - - súru smjöri . . . . . . - - | „ | 23 | 28 | 72 | 23 | „ | 22 | 27 | 48 | 22 | „ | 24 | 30 | „ | 24 |
| — — 120 - - tólg, vel bræddri . . . - - | „ | 20 | 25 | „ | 20 | „ | 20 | 25 | „ | 20 | „ | 21 | 26 | 24 | 21 |
| ***C.* Tóvara af ullu:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 60 pör eingirnis-sokka . . . parið á | „ | 24½ | 15 | 30 | 12 | „ | 29 | 18 | 12 | 14½ | „ | 20 | 12 | 48 | 10 |
| — — 30 — tvinnabands gjaldsokka — - | „ | 31 | 9 | 66 | 8 | „ | 34 | 10 | 60 | 8½ | „ | 40 | 12 | 48 | 10 |
| — — 120 — tvíþumlaðra sjóvettlinga — - | „ | 9 | 11 | 24 | 9 | „ | 10 | 12 | 48 | 10 | „ | 8½ | 10 | 60 | 8½ |
| — — 20 eingirnis-peisur . . . . . . hver - | „ | 72 | 15 | „ | 12 | „ | 83 | 17 | 28 | 14 | „ | 73½ | 15 | 30 | 12 |
| — — 15 tvinnabands gjaldpeisur . — - | 1 | 5 | 15 | 75 | 12½ | 1 | 10 | 16 | 54 | 13 | 1 | 24 | 18 | 72 | 15 |
| — — 120 álnir vaðmáls, álnar breiðs, 1 al. - | „ | 40½ | 50 | 60 | 40½ | „ | 36 | 45 | „ | 36 | „ | 45 | 56 | 24 | 45 |
| — — 120 — einskeptu, 4-5kv. á br. - - - | „ | 29 | 36 | 24 | 29 | „ | 29 | 36 | 24 | 29 | „ | 38 | 47 | 48 | 38 |
| ***D.* Fiski:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 6 vættir af saltfiski . . . . . vætt. á | 4 | 12 | 24 | 72 | 20 | 4 | 48 | 27 | „ | 21½ | 4 | 83 | 29 | 18 | 28½ |
| — — 6 — - hörðum fiski . . — - | 3 | 92 | 23 | 72 | 19 | 3 | 88½ | 23 | 51 | 19 | 4 | 77 | 28 | 78 | 23 |
| — — 6 — - smáfiski . . . . . — - | 3 | 89 | 23 | 54 | 19 | 3 | 67 | 22 | 18 | 18 | 4 | 77 | 28 | 78 | 23 |
| — — 6 — - ísu . . . . . . . . — - | 3 | 64 | 22 | „ | 17½ | 3 | 45 | 20 | 78 | 16½ | 3 | 94 | 23 | 84 | 19 |
| — — 6 — - hákarli hertum . — - | 3 | 42 | 20 | 60 | 16½ | 2 | 93 | 17 | 78 | 14 | 3 | 25 | 19 | 54 | 15½ |
| ***E.* Lýsi:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 1 tunna hvallýsis . . . . . 8 pottar á | „ | „ | „ | „ | „ | 1 | 64 | 25 | „ | 20 | „ | „ | „ | „ | „ |
| — — 1 — hákarlslýsis . . . 8 — - | 1 | 73 | 26 | 39 | 21 | 1 | 73 | 26 | 39 | 21 | 1 | 72 | 26 | 24 | 21 |
| — — 1 — sellýsis . . . . . . 8 — - | 1 | 69 | 25 | 75 | 20½ | 1 | 64 | 25 | „ | 20 | 1 | 44 | 21 | 84 | 17½ |
| — — 1 — þorskalýsis . . . 8 — - | 1 | 63 | 24 | 81 | 20 | 1 | 49½ | 22 | 70½ | 18 | 1 | 48 | 22 | 48 | 18 |
| ***F.* Skinnavara:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 4 fjórð. nautskinns . . . . . fjórð. á | 5 | 1½ | 20 | 6 | 16 | 4 | 60 | 18 | 48 | 15 | 4 | 73½ | 19 | 6 | 15 |
| — — 6 — kýrskinns . . . . . . . — - | 3 | 86 | 23 | 36 | 18½ | 3 | 54½ | 21 | 39 | 17 | 4 | 6½ | 24 | 39 | 19½ |
| — — 6 — hrossskinns . . . . . — - | 3 | 27½ | 19 | 69 | 16 | 2 | 79 | 16 | 90 | 13½ | 2 | 82 | 17 | 12 | 13½ |
| — — 8 — sauðsk., af 2 vetr. og eldri — - | 2 | 34½ | 18 | 84 | 15 | 1 | 78½ | 14 | 52 | 11½ | 1 | 95½ | 15 | 92 | 13 |
| — — 12 — — ám, vet.g. sauð. — - | 1 | 57 | 19 | 12 | 15½ | 1 | 44½ | 17 | 54 | 14 | 1 | 49 | 18 | 12 | 14½ |
| — — 6 — selskinns . . . . . . . . — - | 3 | 62 | 21 | 84 | 17½ | 3 | 74½ | 22 | 63 | 18 | 3 | 82 | 23 | 12 | 18½ |
| — — 240 lambskinn (vorl.), einlit hvert - | „ | 6 | 15 | „ | 12 | „ | 6 | 15 | „ | 12 | „ | 7 | 17 | 48 | 14 |

| | Í Húnav.- og Skagaf.-sýslum. | | | | | Í Eyjaf.- og Þingeyjar-sýslum. | | | | | Í báðum Múlasýslum. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. |
| G. Ýmislegt: | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | rd | ß | ß |
| 1 ct. 6 ℔ af æðardúni, vel hreins. . ℔ á | 3 | 72 | 22 | 48 | 18 | 3 | 57 | 21 | 54 | 17 | 3 | 81 | 23 | 6 | 18½ |
| - — 40 - - — óhreinsuðum - - | „ | „ | „ | „ | „ | „ | 30½ | 12 | 68 | 10 | „ | „ | „ | „ | „ |
| - — 120 - - fuglafiðri . . . . . . fjórð. - | 3 | 25 | 39 | 12 | 31½ | 3 | 14 | 37 | 72 | 30 | 3 | 51 | 42 | 36 | 34 |
| - — 480 - - fjallagrösum . . . . — - | „ | 72 | 36 | „ | 29 | „ | 50 | 25 | „ | 20 | „ | „ | „ | „ | „ |
| 5 álnir 1 dagsverk um heyannir . . . . . | „ | 85½ | „ | „ | 17 | „ | 83 | „ | „ | 16½ | 1 | 2 | „ | „ | 19½ |
| - — 1 lambsfóður . . . . . . . . . . . | 1 | 39½ | „ | „ | 27 | 1 | 43½ | „ | „ | 28 | 1 | 28 | „ | „ | 25 |
| MEÐALVERÐ á hverju hundraði og hverri alin í nefndum landaurum verður: | | | | | | | | | | | | | | | |
| eptir A, eða í fríðu . . . . . . . . . . . . . . . | | | 31 | 58½ | 25½ | . . . . . | | 33 | 30 | 26½ | . . . . | | 35 | 83 | 28½ |
| — B, — - ullu, smjöri og tólg . . . . . . | | | 31 | 54 | 25 | . . . . . | | 31 | 69 | 25½ | . . . . | | 32 | 18 | 26 |
| — C, — - tóvöru af ullu. . . . . . . . . . | | | 21 | 94½ | 17½ | . . . . . | | 22 | 32½ | 18 | . . . . | | 24 | 74½ | 20 |
| — D, — - fiski. . . . . . . . . . . . . . . . | | | 22 | 90 | 18½ | . . . . . | | 22 | 26 | 18 | . . . . | | 26 | 5 | 21 |
| — E, — - lýsi . . . . . . . . . . . . . . . . | | | 25 | 65 | 20½ | . . . . . | | 24 | 75½ | 20 | . . . . | | 23 | 52 | 19 |
| — F, — - skinnavöru . . . . . . . . . . . . | | | 19 | 69 | 16 | . . . . . | | 18 | 8½ | 14½ | . . . . | | 19 | 31½ | 15½ |
| En meðalverð allra landaura samantalin . . . . . . | | | 153 | 47 | 123 | . . . . . | | 152 | 49½ | 122½ | . . . . | | 161 | 72 | 130 |
| og skipt með 6 sýna: | | | | | | | | | | | | | | | |
| MEÐALVERÐ ALLRA MEÐALVERÐA | | | 25 | 56 | 20½ | . . . . . | | 25 | 40 | 20½ | . . . . | | 26 | 92 | 21⅔ |

---

(Aðsent).

Í nóvemberblaði Norðra árið sem leið, stendur grein nokkur um það, að hákarlamenn hjer norðanlands stofni ábyrgðarsjóð til að bæta úr tjóni, sem þeir kynnu snögglega að verða fyrir á skipum sínum. Um þetta efni, sem mjer þykir miklu varða, vildi jeg fara fám orðum, því jeg álít gott, að það sje skoðað frá sem flestum hliðum.

Greinin í Norðra, sem hjer ræðir um, líkar mjer ágætlega, að því leyti sem hún vekur máls á þessu efni, sem svo er nauðsynlegt til eflingar þeim aðal-atvinnuvegi lands vors, sem því er helzt auðs og framfara af von: sjóarútveginum. Jeg held jeg gjöri ekki ofmikið úr þessum atvinnuvegi, þó jeg komist þannig að orði um hann, því mjer virðist saga margra þjóða á öllum öldum sýna og sanna hvað mikinn þátt hann hefur átt í, að auka auð og veldi þeirra, sem hafa stundað hann kappsamlega. Og hví skyldi hann ekki, eptir tiltölu, geta borið sömu ávexti hjá oss? Vjer búum í hrjóstrugu og hretviðrasömu landi, sem gæti að vísu með góðri rækt un gefið miklu meira af sjer, en það gjörir nú, en þó aldrei nærri því eins og önnur veðursælli lönd. Aptur er hafið, sem hringvefur sig utan um ættjörðu vora, eitthvert hið auðugasta í heimi, og gæti orðið oss takmarkalaus auðsuppspretta, ef vjer værum menn til að nota gæði þess.

Það eru einkum tveir annmarkar, sem þykja vera fremur við sjóarútveginn en landbúnaðinn: hann þykir fyrst og fremst svipulli, eða bregðast optar algjörlega, og í öðru lagi þykir hættara við að sá, sem sjóinn stundar, verði snögglega fyrir miklu tjóni, en hinn, sem notar landið. Úr báðum þessum annmörkum má þó bæta með ráðum og dugnaði. Hafi menn nógu stór og vel útbúin skip og kunnáttu til að bera sig um sjóinn á þeim eptir björginni, þá hættir sjóaraflinn að vera svipull, þó hann reynist það á ýmsum tímum og í ýmsum stöðum, þegar menn hafa ekk itök á að leita hans, nema skammt eitt fram úr landsteinunum heima hjá sjer. Eins hafa menn fyrir löngu fundið ráð til, að fá undir eins bættan að fullu skaða sinn, ef þeir missa skip sín, eða eignir. Þetta ráð hafa allar siðaðar þjóðir tekið upp, og hjá oss hafa Ísfirðingar einnig byrjað á slíku; en hjer á Norðurlandi hefur þessu ekki verið hreift, fyrri en Norðri nýlega vakti máls á því, að hjer yrði stofnaður ábyrgðarsjóður í þessum tilgangi.

Þegar fara skal að stofna hjá oss fjelagskap, til þess að skipaeigendur geti fengið óhulta ábyrgð á skipum sínum, þá virðist mjer að vjer ættum að laga hann sem mest eptir dæmi Ísfirðinga, nema ef vjer skyldum sjá galla á hjá þeim. Jeg get nú því miður ekki sagt með fullri vissu hvernig þessu er hagað til hjá þeim; en eptir því, sem jeg hefi heyrt sagt frá, þá er það hjer um

bil á þessa leið: Skipseigendur hafa bundizt í fjelagskap, til að bæta þeim af fjelagsmönnum skaða sinn, er verða fyrir tjóni á skipum sínum. Á hverju vori, áður en skipin leggja út, skoða menn, sem til þess eru kosnir af fjelaginu, skipin, og finna að, ef útbúningi þeirra er í nokkru ábótavant, eru þá eigendur skyldir til að bæta úr því. Að þessu gjörðu eru skipin virt af nefnd manna, og eigendurnir gjalda þá þegar í sjóð fjelagsins ákveðið gjald af hverjum 100 dölum í virðingarverði skipsins. Farist nú á sumrinu eitthvert skip (ef það er ekki fyrir handvömm)? þá eru eiganda þess goldnar fullar skaðabætur úr sjóði fjelagsins, ef hann er svo mikill, en ella er því, sem á vantar, jafnað niður á alla skipseigendur eptir rjettri tiltölu.

Jeg get nú ekki ábyrgzt að þetta sje öldungis rjett hermt; en að minnsta kosti mætti hugsa sjer þetta fyrirkomulag á fjelaginu, og að mínu áliti mælir margt með því, fremur en hinu, sem stungið er upp á í Norðra.

Fyrst er það sanngjarnast, að tillagið í sjóðinn og skaðabæturnar, sem von er á úr honum honum, sje í sömu hlutföllum, og svo mun það vera alstaðar í heimi. Eptir uppástungunni í Norðra ætti minnsta og ódýrasta skipið, ef það aflaði mest, að leggja mest í sjóðinn; en eigandi þess mundi þó eiga von á minnstum skaðabótum, ef hann yrði fyrir tjóni.

Í öðru lagi geta ekki nema hákarlaskip tekið þátt í fjelaginu eptir uppástungunni í Norðra; en eptir því sem hjer er talað um, gæti einnig skip, sem höfð eru til annars, t. a. m. verzlunar eða flutninga, einnig tekið þátt í því, og hefur Norðri í 4. ári 77. bls. sýnt fram á, að nauðsynlegt væri að hafa líka skip til þess.

Í þriðja lagi virðist mjer mesta nauðsyn á því, að nú þegar gæti fengist full ábyrgð á skipunum, og hún fæst þegar eigendurnir skuldbinda sig allir til að bæta skaðann, eptir rjettri tiltölu, þó sjóðurinn ekki hrökkvi. Menn geta jafnvel ímyndað sjer ábyrgðarfjelag, stofnað einungis með slíkri skuldbindingu, en engum sjóði, þó jeg engan veginn leggi til, að svo skuli vera. Sjóð ættu menn sjálfsagt að stofna, og þó þetta fyrirkomulag yrði haft, synist mjer ekkert móti því, að taka dálítið aukatillag af hlutum hlutarmanna á hákarlaskipunum, eins og Norðri stakk upp á. N.

---

## Um fjárkláðann.

Vjer vonum að lesendum vorum þyki þetta málefni svo áríðandi, að þeir kippi sjer ekki upp við þó að vjer fjölyrðum um það í blaði voru. það er vafalaust að ekkert málefni er nú fyrir hendi, sem eins er áríðandi að rjett sje skoðað, því öll velferð Íslendinga er undir því komin, að þær ráðstafanir sjeu gjörðar sem geti hrundið þessum óvætti sem fyrst algjörlega af höndum oss, og að þessum ráðstöfunum sje fylgt fram svo kappsamlega, að kláðinn nái ekki að flytjast um allt land, og gjöra í öllum landsfjórðungum slíkan usla sem hann hefur þegar gjört á Suðurlandi, og sem augljóslega kemur af því, að hinar fyrstu varnir þar voru óheppilegar og ónógar. Vjer höfum nú að þakka herra amtmanni Havsteini að hann hefur ljeð oss skýrslu herra Erlendar Pálmasonar, sem gjörður var út suður til að rannsaka þar sunnlenzka fjárkláðann, og er skýrsla þessi svo ýtarleg, og byggð á svo góðum rökum, að herra Erlendur á hinar mestu þakkir skilið fyrir það, hvernig hann hefur leyst þetta verk af hendi. Skýrsla þessi sannfærir oss vel um, að skoðun vor í nóvemberblaði Norðra fyrra árs muni vera rjett, og að engin ráð muni duga til að eyða faraldri þessu nema niðurskurðurinn, og að mest sje þörfin á því að byrja á því sem fyrst í öllum sveitum þar sem pestin er komin.

Til þess að skýra þetta mál fyrir lesendum vorum, tökum vjer hjer kafla úr skýrslu Erlendar, sem oss virðist sanna til fullnustu, að kláðapestin syðra sje af útlendum toga spunnin, og komin af ensku lömbunum í Miðdalsfjeð, og breidd síðan út þaðan fyrir samgöngur fjárins.

„Fimmtudaginn 21. viku af sumri 1855, var Gísli Gíslason í Gröf í Mosfellssveit sendur með 4 ensk lömb reidd í kláfum, sem áttu að fara austur að Hraungerði, en komst ekki sökum óveðurs nema upp undir svo kallað Lyklafell, og sneri þar aptur ofan að Miðdal, þar bað hann fyrir lömbin þangað til betur gæfi að flytja þau, voru þau þar í $1\frac{1}{2}$ viku þangað til sami maður flutti þau austur. Á þessu tímabili voru lömbin á túninu í Miðdal, einkum þar sem fjeð vanalega lagðist við heimrekstur þess, á meðan dvalið var við að reka það inn, og nokkrum sinnum bar það við, að þau rákust inn í fjárrjettina með fjenu. Þar sem þau höfðu haft viðnám á túninu tóku menn eptir að ullin af þeim lá í smálögðum. Kom mönnum þá til hugar að skoða lömbin í nærveru Guðna Guðnasonar þá verandi bónda á Reinisvatni, sem einnig hefur staðfest þessa sögn um

skoðunina með undirskript sinni, og var þá ullin að mestu leyti farin af kviðnum á 2 lömbunum og nokkuð á því 3., en vottaði að eins fyrir því á því 4.; einnig sást á þeim gulleitur kláðaflasi og hrúður með smásprungum, einkum að neðan; fyrir kláðaflasa þessum vottaði einnig um allan kroppinn mest á 2 þeim fyrsta, og klæaði þau dátt í þessu; líka tóku menn eptir því, að þau rifu af sjer ullina með fótunum og munninum (því lömbin voru kollótt). Mjög voru 3 af þeim orðin föst og mögur átekta en skárst hið 4. sem kláðaminnst var, en öll voru þau útlitsljót.

Á meðan lömb þessi voru geymd í Miðdal, kom fyrir lamb lítið eitt dýrrifið, sem látið var til hinna á túnið, og var það hjá þeim eitt dægur, en slapp síðan í fjeð. Að 2 vikum liðnum var tekið eptir því, við heimrekstur fjárins, að ullin lafði í klofinu á lambi þessu; var það þá nákvæmlega skoðað, og var ullin þá dottin úr klofinu, og af kviðnum og vottaði á því fyrir sömu sjúkdómseinkennum sem á ensku lömbunum, var það þá strax tekið og skorið af ótta fyrir þessum ókennilega kláða. Upp frá þessu var fjeð ekki skoðað, og kláðanum ekki veitt eptrrtekt fyr en í 1. viku þorra (því fjeð lifði mest á útigangi), sást þá að ullin var farin að losna á 1 á, og datt af henni smátt og smátt; sömuleiðis vottaði fyrir samkynja kláðaeinkennum á henni eins og áður er sagt á ensku lömbunum; var hún þá tekin og látin 2 daga til lamba. Eptír það var hún frá þeim tekin og hörð sjer, hafðist hún mjög illa við sökum kláðans, og var loksins skorin á Skírdag.

Á góunni veitti fjármaðurinn því eptirtekt, að ærnar neru sjer framar venju við moldarbörð og steina, og að smálagðar á einstöku á voru eins og losaðir út úr reifinu.

Fyrst á laugardaginn fyrir páska var af illum grun um þennan vott farið að smala fjenu, varð þá við skoðun á því vart við hin fyr nefndu kláðaeinkenni á hjer um bil 20 ám mest að neðan, fór það svo í vöxt, að um sumarmálin var allt að fjórðaparti ánna orðið meira og minna kláðaveikt (en þær munu hafa verið margar, og og einkanlega þeir gemlingar sem kláðaveika ærin var fyrst látin til. Skömmu þar eptir var farið að bera á kláðastaðina lýsissápu, hrossafeiti og lýsi; greru þá kláðablettirnir og allur kláði hvarf, en skinnið varð hreint og fylldgaðist, því fjeð gekk vel undan, og gekk venju fremur snemma úr ull í það skipti. En þegar 15 vikur voru af sumri, fór aptur að bera á kláðanum á einstöku ám fyrir framan júfrið, í klofinu, á kviðnum og aptan í lærunum, svo þær urðu varla mjólkaðar, fyrir því að þær klæaði svo mikið; færðist þá kláðinn smámsaman um allan kroppinn og útbreiddist í fleiri ær; var þá leitað lækningaráða til dr. Hjaltalíns; rjeði hann til að bera á kláðastaðina tóbakssósu, lýsissápu og tjöru, og virtist kláðinn rjena við það, en brauzt út á öðrum stöðum. Nokkru seinna beiddi Guðmundur bóndi í Miðdal læknana að koma og skoða kláðann. Álitu þeir þá kláðann næman, og rjeðu til að taka verstu ærnar frá; en sögðu kláðann vel læknandi, og rjeðu til að halda fram sömu lækningatilraunum, en ekkert batnaði við það. Um þessar mundir koma fjeð af fjalli meira og minna sýkt, einkum lömb, og leit svo út sem ullin hefði dottið af þeim að neðan tímanlega sumars, því sum þerrra voru farin að loðnast aptur en vottaði þó á þeim fyrir áður töldum kláða einkennum. En eptir að haustrigningar fóru að koma, steyptist fjeð ákaft út, var þá farið að skera það og farga því stöðugt, þangað til vika var af jólaföstu. En það sem þá var eptir (sem er um 100 fullorðið og 40 lömb), er en lifaudi allt saman kláðaveikt, meira og minna, sumt viðbjóðslega útlítandi með blautum útsláttarflekkjum út úr ullinni, sumstaðar ullarlaust með hrúðri og graptrarkýlum og fleiðrum. Í fjárhúsunum var megn ódaun, en þó voru þau í bezta lagi há og rúmgóð, eptir því sem vanalegt er sunnanlands. Áður en sýki þessi byrjaði í Miðdal, hefur fje þar verið frítt við kláða, þrifagott og lúsalítið".

Á fundi sem Erlendur hjelt á Mosfelli bar fundarmönnum saman um, að kláðinn hefði einungis breiðst út frá Miðdalsfjenu, og í rjettunum bar einkum á kláða í því fje, sem kom úr þeirri átt af heiðinni þar sem Miðdalsfjeð var vant að ganga. Eins sannaðist það þar sem fór að bera á kláðanum í Borgarfjarðarsýslu, að hann hafði komið með kindum, sem heimtust sunnan úr þingvallarjett. Þar sem orð er gjört á, að kláðinn hafi byrjað svo snemma í Bitru í Árnessýslu, að fjeð þar hafi þó ekki getað fengið hann af Miðdalsfjenu, þá er það eptirtektavert, að það er í munnmælum, að vinnumaður sá, er slátraði hinum kláðasjúku ensku lömbum í Hraungerði, hafi komið þangað, og skoðað fje rjett á eptir, og styður það enn að því, að sýkin hafi þar líka komið af ensku lömbunum.

Einkenni kláðans eptir eigin skoðun Erlendar og skriflegum skýrslum frá Mosfellsfundinum, Árna hreppstjóra Björnssyni á Fellsenda og Guðmundi Ólafssyni jarðyrkjumanni í Gröf, eru þessi:

„Gulleit flösuhúð hefur komið í ullarræturnar, föst niður í skinninu, og hefur flasa þessi annaðhvort náð um allan kroppinn eða mestan hluta hans; flasa þessi er mjög smágjörð, og undir hana koma gulleitar graptrarbólur á stöku stöðum og aptur annarstaðar dökkrauður kláðahrúður; flösu þessari fylgir þvali nokkur sem glittir, líkast skúmi af lýsissápu, hvorttveggja flasan og þvalinn fer vaxandi eptir því sem kláðinn magnast, uns þvalinn er kominn út úr þeli á kindinni, er þá flasan orðin að þykkri skóf. Þegar kláðanum er svo langt komið, fer skinnið að dragast saman í hrukkur, og flasan að losna frá því í stórum og hörðum skellum, sem hefur ullina með sjer í stórum flixum, og hefur það jafnan sýnzt

óbrigðull vottur þess, að sýkin sje komin í kindina þegar ullin fer að detta af henni. þegar ullin dettur af kindinni stendur eptir þykk skorpa í skinninu, líkust stórgerðu hreistri, sem smámsaman dregst saman í kýli eða kaun sem grefur í. — þar sem sýkin er algiörlega mögnuð, koma fyr nefndir þvala- eða fitublettir, út úr ullinni með meira eða minna ummáli; er blettur sá sívotur, hvað þurr sem kindin að öðru leyti er, og því líkastur sem olíu eða lýsi hefði verið hellt þar í, er þar þá komin þykk skóf undir. Kláðinn byrjar á ýmsum stöðum á kindinni, en helzt neðan á henni aptarlega eða framarlega, t. a. m. aptan í klofinu og lærunum, á kviðnum, hálsinum, bógunum, baki og stundum framan í kindinni, í kringum munninn með stórum fleiðrum og á fótum með smágjörðum þrefa. Strax fer kindina að klæja ákaflega. Sýki þessi er miklu lökust um öll stórkostleg veðrabrigði, hvort sem fjeð er úti eða inni.

Reynsla er fyrir, að sýkin æsist þegar fjeð er tekið fyrst í hús, og við umskipti á úti- eða innilegu. Einna helzt kemur sýkin í hrúta, en að öðru leyti sýnist hún koma jafnt í hvaða fjé sem er og á hverjum aldri sem er. Sýki þessi kemur misfljótt út; kindur hafa orðið á 1. eða 2. sólarhringum útsteyptar frá því fyrst sá á þeim, en á sumum sjest kláðavotturinn 6—8 vikum áður en þær verða útsteyptar.

Opt getur liðið mjög langur tími frá því heilbrigt fje hefur samgöngu við það sýkta þar til kláðinn vottar sig augljóslega, og er það líklega komið undir því hvað samgangan er mikil og náin, og undir hraustleika skepnunnar.

Víða hefur verið tekið eptir því, að lungu úr kláðasýktu fje sjeu blárauð. Ekkert sýnist sýki þessi fara eptir fjárhirðingu, hvort sem hún hefur verið góð eða ill, hvorki í kvikunn nje útbreiðslu. Engin sönnun er það fyrir kláðasýkinni, þó felllús (kláðalús) finnist á fje, því það hefur víða vottað sig, að þar sem lús þessi er með meira móti, hefur kláðasýkin verið miklu minni, heldur enn þar sem ekkert hefur orðið vart við lúsina".

Um lækningar við kláðanum hefur herra Erlendur fengið ýtarlegar skýrslur, og eru skýrslur dr. Hjaltalíns og dýralæknis Teits Finnbogasonar um þetta mál svo sjerstaklegar, að vjer verðum að lofa lesendum vorum að sjá þær eins og þær eru í heilu líki:

„Eptir beiðni herra hreppstjóra E. Pálmasonar gefst honum hjer með stutt álit mitt um fjárkláðann hjer syðra: Fyrst: Fjárkláðinn hjer í Suðuramtinu er að öllum líkindum afleiðing af sumrinu 1855, sumsje skemmdum heyum og illri hirðingu á fjenu. 2. Allt hvað menn hafa gjört sjer í grun um uppruna kláða þessa af enskum lömbum, er hingað komu inn sumarið 1855, sýnist á engu byggt. 3. Að kláði þessi eigi fyrir löngu er útrýmdur kenni jeg sljóflega framfylgdum lækningatilraunum og ótrú almennings á þeim. 4. Aðferð bænda og skipanir yfirvaldanna um niðurskurð á kláðafjenu er eigi samhljóða framgangsmáta þeim, er við hafður er mót veiki þessari hjá siðuðum þjóðum, og er því varla byggð á reynslunni. — Dæmið úr Rangárvallasýslu sýnir og að við slíkar tilraunir muni kláði þessi naumast sigrast(?). 5. Tilefnið til að Norðurland hingað til hefur að miklu leyti sloppið fyrir kláðanum, álít jeg liggja í því, að þar er betri og haganlegri hirðing á fje, og líka hafði þessi hluti landsins betri og óskemmdari hey í fyrra vetur. 6. Fjárkláðinn sem nú gengur, er allrar annarar artar enn hinn svokallaði fjárkláði frá 1770". (Sjálfur sagði hann mjer munnlega, að sá gamli kláði mundi hafa verið klaufnaveiki). „7. Með því allar líkur eru til að fjárkláðinn hjer syðra eins og hver önnur almenn orðin umgangssýki, sje orðin sóttnæmur, þá álít jeg það nauðsynlegt og rjett gjört, að hjeröð þau, er enn þá eru kláðalaus, haldi fje sínu út af fyrir sig, og forðist samgöngur með kláðafje, meðan hann eigi er útrýmdur. 8. Jeg álít þá einustu rjettu aðferð að sigra kláða þennan vera innifólgna í því, að baða allt fje svo fljótt sem föng eru á í þeim tiltekna kláðalög. 9. Sjöunda maí f. á. rjeði jeg til að hafa nákvæmustu gætur á fjenu í Miðdal og útrýma kláðanum með öllu, áður enn rekið væri á fjall. 10. og 26. september s. á. ítrekaði jeg við stiptamtið að kláðinn þyrfti sem allra fyrst að læknast á opinberan kostnað.

Reykjavík 24. janúar 1857.

J. Hjaltalín".

„Eptir áskorun yðar göfugi herra hreppstjóri Erlendur Pálmason að norðan! þá lýsi jeg því yfir og er sannfærður um af lærdómi og þekkingu þeirri, sem jeg hefi öðlazt, að kláði á sauðfjenaði er meira og minna smittandi eða sóttnæmur, ef ekki er að gjört með lækningum, og hefi jeg í skýrslu til sýslumanns herra Baumanns eptir áskorun hans til mín í haust, látið þá meining mína í ljósi, að annaðhvort sje bezt að byrja nú að lækna kláðann, eða þá að láta drepa niður allar kláðakindur bænda jafnóðum og á þeim sjer, svo að húðsjúkdómur þessi (sem þó er í raun og sannleika svo hæglega læknanlegur, bæði á mönnum og skepnum, ef í tíma er tekið) gangi ekki eins og logi um allt land, og nái ekki fremur að útbreiðast. Skyldi nú svo óhappalega tiltakast, að fjárkláðinn kæmi upp fyrir norðan, þá væri óskandi að þið ljetuð Sunnlendinga víti ykkur að varnaði verða með hyggilegum undirbúning og lækningum eptir prentuðum leiðarvísi okkar doktors herra J. Hjaltalíns, (því ekki er bagi að bandi), og ekki tekur til nema þurfi.

það er óttalegt tilhugsun, ef til þess ræki, að gjöreyða hvílíkum bjargræðisstofn landsins fyrir donk og handvömm, þegar annars er kostur.

Reykjavík þann 23. janúar 1857.

T. Finnbogason".

Um lækningatilraunir á sunnlenska kláðanum viljum vjer einungis geta þess, að þó

skoðunina með undirskript sinni, og var þá ullin að mestu leyti farin af kviðnum á 2 lömbunum og nokkuð á því 3., en vottaði að eins fyrir því á því 4.; einnig sást á þeim gulleitur kláðaflasi og hrúður með smásprungum, einkum að neðan; fyrir kláðaflasa þessum vottaði einnig um allan kroppinn mest á 2 þeim fyrstu, og klæaði þau dátt í þessu; líka tóku menn eptir því, að þau rifu af sjer ullina með fótunum og munninum (því lömbin voru kollótt). Mjög voru 3 af þeim orðin föst og mögur átekta en skárst hið 4. sem kláðaminnst var, en öll voru þau útlitsljót.

Á meðan lömb þessi voru geymd í Miðdal, kom fyrir lamb lítið eitt dýrrifið, sem látið var til hinna á túnið, og var það hjá þeim eitt dægur, en slapp síðan í fjeð. Að 2 vikum liðnum var tekið eptir því, við heimrekstur fjárins, að ullin lafði í klofinu á lambi þessu; var það þá nákvæmlega skoðað, og var ullin þá dottin úr klofinu, og af kviðnum og vottaði á því fyrir sömu sjúkdómseinkennum sem á ensku lömbunum, var það þá strax tekið og skorið af ótta fyrir þessum ókennilega kláða. Upp frá þessu var fjeð ekki skoðað, og kláðanum ekki veitt eptrrtekt fyr en í 1. viku þorra (því fjeð lifði mest á útigangi), sást þá að ullin var farin að losna á 1 á, og datt af henni smátt og smátt; sömuleiðis vottaði fyrir samkynja kláðaeinkennum á henni eins og áður er sagt á ensku lömbunum; var hún þá tekin og látin 2 daga til lamba. Eptír það var hún frá þeim tekin og höfð sjer, hafðist hún mjög illa við sökum kláðans, og var loksins skorin á Skírdag.

Á góunni veitti fjármaðurinn því eptirtekt, að ærnar neru sjer framar venju við moldarbörð og steina, og að smálagðar á einstöku á voru eins og losaðir út úr reifinu.

Fyrst á laugardaginn fyrir páska var af illum grun um þennan vott farið að smala fjenu, varð þá við skoðun á því vart við hin fyr nefndu kláðaeinkenni á hjer um bil 20 ám mest að neðan, fór það svo í vöxt, að um sumarmálin var allt að fjórðaparti ánna orðið meira og minna kláðaveikt (en þær munu hafa verið margar, og og einkanlega þeir gemlingar sem kláðaveikastrin var fyrst látin til. Skömmu þar eptir var farið að bera á kláðastaðina lýsissápu, hrossafeiti og lýsi; greru þá kláðablettirnir og allur kláði hvarf, en skinnið varð hreint og fylldgaðist, því fjeð gekk vel undan, og gekk venju fremur snemma úr ull í það skipti. En þegar 15 vikur voru af sumri, fór aptur að bera á kláðanum á einstöku ám fyrir framan júfrið, í klofinu, á kviðnum og aptan í lærunum, svo þær urðu varla mjólkaðar, fyrir því að þær klæaði svo mikið; færðist þá kláðinn smámsaman um allan kroppinn og útbreiddist í fleiri ær; var þá leitað lækningaráða til dr. Hjaltalíns; rjeði hann til að bera á kláðastaðina tóbakssósu, lýsissápu og tjöru, og virtist kláðinn rjena við það, en brauzt út á öðrum stöðum. Nokkru seinna beiddi Guðmundur bóndi í Miðdal læknana að koma og skoða kláðann. Álitu þeir þá kláðann næman, og rjeðu til að taka verstu ærnar frá; en sögðu kláðann vel læknandi, og rjeðu til að halda fram sömu lækningatilraunum, en ekkert batnaði við það. Um þessar mundir koma fjeð af fjalli meira og minna sýkt, einkum lömb, og leit svo út sem ullin hefði dottið af þeim að neðan tímanlega sumars, því sum þerrra voru farin að loðnast aptur en vottaði þó á þeim fyrir áður töldum kláða einkennum. En eptir að haustrigningar fóru að koma, steyptist fjeð ákaft út, var þá farið að skera það og farga því stöðugt, þangað til vika var af jólaföstu. En það sem þá var eptir (sem er um 100 fullorðið og 40 lömb), er en lifaudi allt saman kláðaveikt, meira og minna, sumt viðbjóðslega útlítandi með blautum útsláttarflekkjum út úr ullinni, sumstaðar ullarlaust með hrúðri og graptrarkýlum og fleiðrum. Í fjárhúsunum var megn ódaun, en þó voru þau í bezta lagi há og rúmgóð, eptir því sem vanalegt er sunnanlands. Áður en sýki þessi byrjaði í Miðdal, hefur fje þar verið frítt við kláða, þrifagott og lúsalítið".

Á fundi sem Erlendur hjelt á Mosfelli bar fundarmönnum saman um, að kláðinn hefði einungis breiðst út frá Miðdalsfjenu, og í rjettunum bar einkum á kláða í því fje, sem kom úr þeirri átt af heiðinni þar sem Miðdalsfjeð var vant að ganga. Eins sannaðist það þar sem fór að bera á kláðanum í Borgarfjarðarsýslu, að hann hafði komið með kindum, sem heimtust sunnan úr þingvallarjett. Þar sem orð er gjört á, að kláðinn hafi byrjað svo snemma í Bitru í Árnessýslu, að fjeð þar hafi þó ekki getað fengið hann af Miðdalsfjenu, þá er það eptirtektavert, að það er í munnmælum, að vinnumaður sá, er slátraði hinum kláðasjúku ensku lömbum í Hraungerði, hafi komið þangað, og skoðað fje rjett á eptir, og styður það enn að því, að sýkin hafi þar líka komið af ensku lömbunum.

Einkenni kláðans eptir eigin skoðun Erlendar og skriflegum skýrslum frá Mosfellsfundinum, Árna hreppstjóra Björnssyni á Fellsenda og Guðmundi Ólafssyni jarðyrkjumanni í Gröf, eru þessi:

„Gulleit flösuhúð hefur komið í ullarræturnar, föst niður í skinninu, og hefur flasa þessi annaðhvort náð um allan kroppinn eða mestan hluta hans; flasa þessi er mjög smágjörð, og undir hana koma gulleitar graptrarbólur á stöku stöðum og aptur annarstaðar dökkrauður kláðahrúður; flösu þessari fylgir þvali nokkur sem glittir, líkast skúmi af lýsissápu, hvorttveggja flasan og þvalinn fer vaxandi eptir því sem kláðinn magnast, unz þvalinn er kominn út úr þeli á kindinni, er þá flasan orðin að þykkri skóf. Þegar kláðanum er svo langt komið, fer skinnið að dragast saman í hrukkur, og flasan að losna frá því í stórum og hörðum skellum, sem hefur ullina með sjer í stórum flixum, og hefur það jafnan sýnzt

óbrigðull vottur þess, að sýkin sje komin í kindina þegar ullin fer að detta af henni. Þegar ullin dettur af kindinni stendur eptir þykk skorpa í skinninu, líkust stórgerðu hreistri, sem smámsaman dregst saman í kýli eða kaun sem grefur í. — Þar sem sýkin er algiörlega mögnuð, koma fyr nefndir þvala- eða fitublettir, út úr ullinni með meira eða minna ummáli; er blettur sá sívotur, hvað þurr sem kindin að öðru leyti er, og því líkastur sem olíu eða lýsi hefði verið hellt þar í, er þar þá komin þykk skóf undir. Kláðinn byrjar á ýmsum stöðum á kindinni, en helzt neðan á henni aptarlega eða framarlega, t. a. m. aptan, í klofinu og lærunum, á kviðnum, hálsinum, bógunum, baki og stundum framan í kindinni, í kringum munninn með stórum fleiðrum og á fótum með smágjörðum þrefa. Strax fer kindina að klæja ákaflega. Sýki þessi er miklu lökust um öll stórkostleg veðrabrigði, hvort sem fjeð er úti eða inni.

Reynsla er fyrir, að sýkin æsist þegar fjeð er tekið fyrst í hús, og við umskipti á úti- eða innilegu. Einna helzt kemur sýkin í hrúta, en að öðru leyti sýnist hún koma jafnt í hvaða fje sem er og á hverjum aldri sem er. Sýki þessi kemur misfljótt út; kindur hafa orðið á 1. eða 2. sólarhringum útsteyptar frá því fyrst sá á þeim, en á sumum sjest kláðavotturinn 6—8 vikum áður en þær verða útsteyptar.

Opt getur liðið mjög langur tími frá því heilbrigt fje hefur samgöngu við það sýkta þar til kláðinn voitar sig augljóslega, og er það líklega komið undir því hvað samgangan er mikil og náin, og undir hraustleika skepnunnar.

Víða hefur verið tekið eptir því, að lungu úr kláðasýktu fje sjeu blárauð. Ekkert sýnist sýki þessi fara eptir fjárhirðingu, hvort sem hún hefur verið góð eða ill, hvorki í kviknun nje útbreiðslu. Engin sönnun er það fyrir kláðasýkinni, þó fellilús (kláðalús) finnist á fje, því það hefur víða vottað sig, að þar sem lús þessi er með meira móti, hefur kláðasýkin verið miklu minni, heldur enn þar sem ekkert hefur orðið vart við lúsina".

Um lækningar við kláðanum hefur herra Erlendur fengið ýtarlegar skýrslur, og eru skýrslur dr. Hjaltalíns og dýralæknis Teits Finnbogasonar um þetta mál svo sjerstaklegar, að vjer verðum að lofa lesendum vorum að sjá þær eins og þær eru í heilu líki:

„Eptir beiðni herra hreppstjóra E. Pálmasonar gefst honum hjer með stutt álit mitt um fjárkláðann hjer syðra: Fyrst: Fjárkláðinn hjer í Suðuramtinu er að öllum líkindum afleiðing af sumrinu 1855, sumsje skemmdum heyum og illri hirðingu á fjenu. 2. Allt hvað menn hafa gjört sjer í grun um uppruna kláða þessa af enskum lömbum, er hingað komu inn sumarið 1855, sýnist á engu byggt. 3. Að kláði þessi eigi fyrir löngu er útrýmdur kenni jeg sljóflega framfylgdum lækningatilraunum og ótrú almennings á þeim. 4. Aðferð bænda og skipanir yfirvaldanna um niðurskurð á kláðafjenu er eigi samhljóða framgangsmáta þeim, er við höfður er mót veiki þessari hjá siðuðum þjóðum, og er því varla byggð á reynslunni. — Dæmið úr Rangárvallasýslu sýnir og að við slíkar tilraunir muni kláði þessi naumast sigrast(?). 5. Tilefnið til að Norðurland hingað til hefur að miklu leyti sloppið fyrir kláðanum, álít jeg liggja í því, að þar er betri og haganlegri hirðing á fje, og líka hafði þessi hluti landsins betri og óskemmdari hey í fyrra vetur. 6. Fjárkláðinn sem nú gengur, er allrar annarar artar enn hinn svokallaði fjárkláði frá 1770". (Sjálfur sagði hann mjer munnlega, að sá gamli kláði mundi hafa verið klaufnaveiki). „7. Með því allar líkur eru til að fjárkláðinn hjer syðra eins og hver önnur almenn orðin umgangssýki, sje orðin sóttnæmur, þá álít jeg það nauðsynlegt og rjett gjört, að hjeröð þau, er enn þá eru kláðalaus, haldi fje sínu út af fyrir sig, og forðist samgöngur með kláðafje, meðan hann eigi er útrýmdur. 8. Jeg álít þá einustu rjettu aðferð að sigra kláða þennan vera innifólgna í því, að baða allt fje svo fljótt sem föng eru á í þeim tiltekna kláðalög. 9. Sjöunda maí f. á. rjeði jeg til að hafa nákvæmustu gætur á fjenu í Miðdal og útrýma kláðanum með öllu, áður enn rekið væri á fjall. 10. og 26. september s. á. ítrekaði jeg við stiptamtið að kláðinn þyrfti sem allra fyrst að læknast á opinberan kostnað.

Reykjavík 24. janúar 1857.

J. Hjaltalín".

„Eptir áskorun yðar göfugi herra hreppstjóri Erlendur Pálmason að norðan! þá lýsi jeg því yfir og er sannfærður um af lærdómi og þekkingu þeirri, sem jeg hefi öðlazt, að kláði á sauðfjenaði er meira og minna smittandi eða sóttnæmur, ef ekki er að gjört með lækningum, og hefi jeg í skýrslu til sýslumanns herra Baumanns eptir áskorun hans til mín í haust, látið þá meining mína í ljósi, að annaðhvort sje bezt að byrja nú að lækna kláðann, eða þá að láta drepa niður allar kláðakindur bænda jafnóðum og á þeim sjer, svo að húðsjúkdómur þessi (sem þó er í raun og sannleika svo hæglega læknanlegur, bæði á mönnum og skepnum, ef í tíma er tekið) gangi ekki eins og logi um allt land, og nái ekki fremur að útbreiðast. Skyldi nú svo óhappalega tiltakast, að fjárkláðinn kæmi upp fyrir norðan, þá væri óskandi að þið ljetuð Sunnlendinga víti ykkur að varnaði verða með hyggilegum undirbúning og lækningum eptir prentuðum leiðarvísi okkar doktors herra J. Hjaltalíns, (því ekki er bagi að bandi), og ekki tekur til nema þurfi.

Það er óttaleg tilhugsun, ef til þess ræki, að gjöreyða hvílíkum bjargræðisstofn landsins fyrir donk og handvömm, þegar annars er kostur.

Reykjavík þann 23. janúar 1857.

T. Finnbogason".

Um lækningatilraunir á sunnlenska kláðanum viljum vjer einungis geta þess, að þó

að vera kunni, að einstöku manni hafi tekizt að lækna einstöku kind, þá hefur optast farið svo, að þegar kláðinn hefur sýnz læknaður á einum stað á kindinni, þá hefur hann brotizt annarstaðar út um hana, hálfu verri, svo að þar af má ljóslega álykta hvað slíkar lækningar dugi.

Af þessari skýrslu Erlendar, sem og hinum nákvæmu athugasemdum hjeraðslæknis J. Skaptasonar um fjárkláðann, virðist oss að nú sje fullsannað, að sunnlenzki kláðinn sje útlendur og kominn af ensku lömbunum, og oss getur ekki annað en þótt skopleg fastheldni dr. Hjaltalíns við það, að kláðinn sje innlendur, þó að honum sje nokkur vorkun, þegar hann hlýtur að vita með sjálfum sjer, að útbreiðsla kláðans er að miklu leyti því að kenna, að þeir Teitur og hann þekktu ekki kláðann á ensku lömbunum, og að dr. Hjaltalín gjörði svo lítið úr kláðanum í Miðdalsfjenu, og kvað hann svo vel læknanlegan, að alþýða hirti ekki um kláðann og áleit hann, því miður, meinlausari en hann hefur reynzt. Það virðist enn fremur hlægilegt í álitsskjali dr. Hjaltalíns til Erlendar að hann segir að það sje „sljóflegum lækningum og ótrú (= vantrausti) almennings á þeim að kenna, að kláða þessum sje eigi útrýmt“, þegar reynslan hefur þó sannað, að hann sjálfur hefur ekki getað læknað þær kindur sem honum hafa verið sendar. Það er sorglegt þetta trúarleysi alþýðu á kláðalækningum doktorsins, og kemur illa saman við oftrú hennar á hinum svo nefndu hjegiljum homöopathanna.

Stiptamtmaður og danska stjórnin hafa nú leyst hendur sínar í þessu máli, og tekið til þeirra ráðanna, líkt og hinir fornu Rómverjar gjörðu, þegar einhver geigvænleg hætta vofði yfir, að setja alræðismann (Dictator), og hún gat þá ekki valið neinn betri mann en dýralækninn, herra Teit Finnbogason, sem lýsir því yfir, að fjárkláðinn sje hæglega læknanlegur bæði á mönnum og skepnum, svo að sunnlendingar geta þó að minnsta kosti verið óhræddir um að lækna má fjárkláðann á þeim, hvernig sem nú gengur að lækna fje þeirra, og það er þó nokkur huggun. Það er lítið gagn að bera þess konar mál undir stjórnina, því þó að hún hafi góðan vilja, þá getur hún lítið þekkt til hvernig hjer hagar til, og verður því lítill árangur af ráðstöfunum hennar, enda sjest þetta ljóslega af reglugjörð þeirri, er stiptamtmaður hefur nú gefið út, og sem byggð er á tillögum dýralækningaráðsins utanlands; það er nú hvorttveggja að dýralækningaráðið getur ekkert skynbragð borið á það, hvernig haga eigi kláðalækningum hjer á Íslandi, enda mun reglugjörðin í mörgum atriðum vera verri en ekki neitt (sbr. Þjóðólf þ. á. 14—16 blað).

Norðlingur einn til sjóróðra fyrir sunnan hefur ritað laglega grein um kláðamálefnið í 17. og 18. blaði Þjóðólfs, sem vjer verðum að drepa stuttlega á. Þessum Norðlingi þykir það hart að amtmaður Havsteinn hefur farið fram á það við hina amtmennina, að skorið væri niður fje í þeim sveitum, sem næst liggja norðurlandi með fjársamgöngur, og telur Norlendingurinn það einkum til, að slíkt væri mjög harðneskjulegt, ef að það yrði ofan á, að hinn sami sóttnæmi kláði dyldist í fje hjer norðanlands. Þó að oss virðist það nú nokkurn veginn fullsannað í athugasemdum hjeraðslæknis Jóseps Skaptasonar að sunnlenzki kláðinn sje hjer ekki fyrir norðan fjall, þá hefði Norðlingurinn nokkuð fyrir sjer, ef hann hefði ekki sleppt þeim atriðum úr brjefum amtmannsins nyrðra, sem gjörir þessa kröfu bæði eðlilega og sanngjarna, og það voru þau atriði, að um leið og amtmaðurinn skipaði nákvæmar fjárskoðanir í Húnavatnssýslu og annarstaðar í umdæmi sínu, skipaði hann líka að skera vægðarlaust niður fje hjer nyrðra, ef vart yrði við þess konar kláða, og að hann í öðru lagi hjet liðveizlu sinni að mæla með, að norðlendingar gæfu og seldu með góðu verði fje í þær sveitir, sem skæru þannig niður sauðpening sinn, með fram í þeim tilgangi að frelsa norðurland fyrir kláðanum.

Amtmaður vor fer nú suður í þessum mánuði og alþingismaður Stephán Jónsson á Steinsstöðum með honum hjeðan úr sýslu, og vonum vjer og óskum, að ferð þeirra gæti orðið til þess að styrkja sunnlendinga í góðum ráðum á móti þessum óvætti, og til að bægja honum frá norðurlandi. Norðri mun á sínum tíma segja frá hvað afráðið verður í ferð þessari um kláðavarnirnar.

---

# Frjettir.

**Innlendar.** Úr öllum áttum eru bágar frjettir úr hjeruðum sökum hey- og bjargarleysis. Um miðja góuna kom góður bati, og voru síðan blíðviðri hjer nyrðra og eystra fram að Skírdegi, en síðan hafa hjer gengið hörð veður, einkum báða páskadagana nú í 10 daga, og mun víða yfrið lítið um jörð. Hafís er kominn hjer inn á Eyjafjörð, og

hákarlamenn er út veru komnir fyrir hátíðina í legur hafa einnig orðið varir við töluverðan ís í hafinu. Víða hjer um Eyjafjörð og Skagafjörð eru menn komnir í heyskort svo að til vandræða horfir, og að austan höfum vjer frjett hið sama, og oss er skrifað að fje hafi verið farið að falla sunnan til í Múlasýslum við sjóarsíðuna þegar póstur fór. Fimmtudaginn næstan fyrir þorra var mannskaða veður mikið fyrir austan, urðu 3 menn úti, og fjárskaðar miklir urðu þar víða. Á Þvottá í Álptafirði fórust nærfellt 100 fjár, og rak það fje á sjó; á Þverhamri í Breiðdal týndist 40 fjár, og víða annarstaðar urðu fjárskaðar miklir. Af suðurlandi hefur líka frjetzt að mjög hörð tíð hafi gengið og fiskileysi framan af vetri, og var orðið hið mesta harðæri af bjargarskorti um suðarnes.

**Útlendar.** Skip komu frá Danmörku hjer á Eyjafjörð snemma í þessum mánuði, 3 hvert á eptir annað. Hið fyrsta var frá Hillebrandt kaupmanni á Hólanesi á Skagaströnd, og er það í fyrsta skipti, að hann sendir hingað skip til verzlunar; hin 2 skipin voru frá þeim stórkaupmönnum Örum & Wulff og Guðmann til verzlunar þeirra hjer á Akureyri.

Hið merkasta er frjettist með þessum fyrstu skipum er þetta:

Tíðarfar í Danmörku í vetur hefur verið einkar gott, og allólíkt því sem hjer hefur verið. Skipaferðir í Danmörku hafa getað verið næstum allan veturinn, svo hafa ísalög verið þar lítil. Af stjórnarmálefnum í Danmörku er lítið að segja, og virðist sem hinir nýju ráðgjafar sitji enn allfastir í sæti. Á þingi Sljesvíkur manna var nokkuð róstusamt, og tók stjórnin það ráð að slíta þinginu; í hertogadæmunum vex einlægt óánægjan með sambandið við Danmörku, og eiga Danir þar við ramman reip að draga, því þýzku ríkin styðja hertogadæmin, og hafa Prússar og Austurríkismenn skrifað Dönum hörð brjef um þetta efni, og virðist svo sem stjórnin leiti allra bragða að fresta málum þessum svo lengi sem henni er unnt, og mikill ágreiningur er meðal sjálfra Dana um það, hvað ráð sje bezt til að greiða úr þessum málum. Blaðið Fædrelandet, og flokkur sá, er líka skoðun hefur, fylgir nú fast fram þeirri skoðun, að alríkið geti aldrei orðið affarasælt, og að bezta ráðið sje að sleppa hinum þýzku hertogadæmum og láta þau fara inn í þýzka sambandið, og stofna úr þeim ríki handa danska ríkiserfingjanum Kristjáni af Glücksborg, en sameina það sem þá er eptir af Danmerkurríki við Svíaríki og Noreg. Þó að þessi skoðun hafi nú enn marga andvígismenn í Danmörku, virðist þó svo sem hún ryðji sjer smásaman til rúms, enda virðist margt að mæla með því, og litlar líkur eru til að stjórnin geti til langframa haldið saman þessu ríki, þar sem hin ólíku þjóðerni liggja í sífelldu stríði hvort við annað.

Þess er áður getið í blaði þessu, að deilur miklar voru í í vetur milli Prússa og Svizzara, og var um hríð búið við stríði milli þessara ríkja. Þetta mál var þannig undir komið, að Prússakonungur hafði ráð yfir Nýkastalafylki (Neuchatel) þangað til fylkismenn rifu sig undan 1848 og gengu í svizzneska sambandið, og hafa þeir síðan haldið frjálslegri lýðstjórn, er þeir þá tóku sjer. Í haust gjörðu nokkrir konungsvinir uppreist í landinu, og vildu reyna til að koma því aptur undir Prússakonung, en lýðstjórnarmenn urðu þeim yfirsterkari, sefuðu upphlaupið, tóku konungsvini höndum, settu þá í dýflissu og drógu þá fyrir dómstólana fyrir landráðasakir. Þegar Prússakonungur heyrði þetta, vildi hann ekki að þessum mönnum væri gefin sök á því, að þeir hefðu viljað koma fylkinu í hendur sínar, og hótaði Svizzum stríði, ef þeir ljetu vini sína ekki lausa. Sambandsþing Svizza og öll þjóðin var einhuga á því að leyfa ekki útlendri stjórn að ráða þannig lögum og lofum í landi, og draga landráðamenn undan verðskuldaðri hegningu, og bjuggust til að verja frelsi sitt, ef að Prússar færu með her á hendur þeim. Í þessu hefur staðið allan veturinn, og Prússakonungur var rjett í þann veginn að gjöra útboð um ríki sitt til þessarar herferðar, þegar að Napóleon Frakkakeisari gat komið sættum á, á þann hátt, að Svizzar ljetu uppreistarmenn lausa, og ráku þá úr landi, en Frakkar munu hafa heitbundizt í, að fá Prússa konung til að sleppa tilkalli sínu til Nýkastalafylkis, svo að allar líkur eru til að þessi deila leiði þó ekki til stríðs.

Úr þýzku löndunum er ekki annað sjerlega frjettnæmt. Austurríkiskeisari fór í vetur til Ítalíu, og voru viðtökur hans víðast hvar góðar að yfirvarpi, enda munu Ítalir varla hafa átt annars kost fyrir hervaldi því, sem er yfir landinu. Þó má sjá hve glaðir Ítalir hafa verið í huga af því að neyðast þannig til að fagna keisara, á því að borgarmenn í Milano sendu um það sama leyti þakklætis gjafir til Sardiníumanna fyrir hjálp þeirra í seinasta stríði Langbarða við Austurríki, og kváðust gjöra það á þessum tíma til að sýna hve djúpar rætur það hefði hjá löndum sínum að fagna Austurríkiskeisara.

Hjá Frökkum hefur lítið markvert borið til tíðinda. Töluverður misklíður var milli Rússa, Frakka og Englendinga um einstök atriði friðarskilmálanna þeirra í fyrra sumar; en Napóleon kvaddi aptur saman sendiherra frá stjórnendum þeim, sem höfðu átt þátt í friðarsamningi þessum, og hafa svo ágreinings atriði þau er voru þaggast niður. Hann hefur einnig eins og áður er sagt átt mestan þátt í því að miðla málum milli Prússa og Svizza. Síðan að stríðið hætti, hefur Napóleon gefið heimfarar leyfi miklu af liði sínu til að minnka ríkis útgjöldin, enda mun þess öll þörf, því til vandræða horfðist með fjárhag Frakka, og mun það hafa stutt mikið að því, að Napóleon var svo gjarn til friðarins í fyrra. Í flestum atriðum hefur Englendingum þótt hann draga fram hlut Rússa, og þó að samband Frakka og Englendinga standi enn óraskað, þá mun Englendingum falla það allþungt. (Framhaldið síðar).

---

**Vöruverð erlendis.** Með skipinu höfum vjer fengið þessar frjettir um vöruverð erlendis,

1. Fyrir íslenzkar vörur, buðust; 36—40 rd. fyrir Skpd af hvítri ull; 25—26 mörk fyrir Lpd af tólg; 43—44 ß fyrir vandaða smábandssokka; 28—32 ß fyrir hálfsokka; 20—24 ß fyrir vettlinga; 35 rd. fyrir tunnuna af hákarlslýsi, en þó seldist sumt af því fyrir miklu hærra verð, eins og áður er getið í Norðra; 26 rd. fyrir kjöttunnuna; 22 rd. fyrir Skpd af saltfiski og 24—25 rd. fyrir harðfisk; 27—28 mörk fyrir pundið af hinum bezta æðardún.

2. Fyrir útlendar vörur gáfu kaupmenn hjerumbil þetta: 6 rd. 48 ß til 6 rd. 72 fyrir rúg; 7 rd. fyrir baunir; 9 rd. 32 ß fyrir grjón, 16 ß fyrir brennuvínspottinn. Kaffi og sikur var 22 ß í stórkaupum.

Flestar aðrar vörur voru að hækka í verði, einkum tóbak, chokolade, rúsínur, silkivörur og vínvörur.

---

Jeg get ekki látið hjálíða að svara fáum orðum anglýsingunni í 5. ári Norðra bls 24, um Sigurð Halldóruson, fósturson hr. hreppstjóra B. Gíslasonar á Búlandsnesi; þó hann hafi áu efa gjört vel, að uppala dreng þenna, ef hann hefur gjört það fyrir ekki neitt, þá ætla jeg, að það sje bæði ólöglega og ranglega gjört, að taka honum Jóns nafnið til föðurnafns, þar eð það vantar, sem átti að fylgja með, nefnilega: þinglýsta heimild frá einhverjum Jóni, til að láta kenna drenginn við nafn sitt; þess vegna verð jeg að álíta, sem þetta sje fremur gjört til að gjöra mig, sem fyrir drenginum sör, að meinsærismanni, heldur en af rækt eða elsku til drengsins. Ef herra hreppstjórinn af rækt við piltinn, vildi útvega honum föðurnafn, því tók hann þá ekki sitt eigið nafn, sem hann átti með, og krýnaði með því góðverk sitt, að taka drenginn í sonar stað, ef honum á annað borð var svo annt um hann, eða þá ef honum þótti þetta ofmikið, útvegaði honum það nafn, sem hann hafði einhverja heimild fyrir, Jeg fæ ekki sjeð, að drengnum sje meiri sómi að því, að bera heimildarlaust eða stolið föðurnafn, heldur enn að vera föðurnafnslaus, því áður var hann eins og nokkurs konar ómerkingur, en nú hefur herra hreppstjórinn sett á hann heimildarlaust eða stolið einkenni, og get jeg því ekki látið hjálíða, að lýsa því yfir að meðan herra hreppstjórinn hefur ekki auglýst neina löglega heimild fyrir þessu föðurnafni þá banna jeg bæði hreppstjóranum, piltinum sjálfum og hverjum öðrum, að nefna hann eða skrifa með þessu föðurnafni framvegis.

Ósi í Marzm. 1857.

J. Þorvarðarson.

---

# Auglýsingar.

**Prentsmiðjufundur.** Á mánudaginn 15. júnímánaðar næstkomandi verður almennur prentsmiðjufundur haldinn á Akureyri, og byrjar hann um hádegi; og skorum vjer því, fyrir hönd prentsmiðjunefndarinnar, á Norðlendinga og Austfirðinga að þeir fjölmenni til fundar þessa.

---

Vegna þess að jeg fer frá verzlun herra kaupmanns F. Gudmanns á Akureyri í vor, vil jeg mælast til, að allir skiptavinir mínir hjer norðanlands komi með, eða sendi mjer viðskiptabækur sínar fyrir útgöngu þessa mánaðar, svo að hver og einn geti sjeð, hve mikið hann er skuldugur verzluninni, eða á hjá henni áður en jeg fer frá áminnstri verzlun.

Akureyri 11. april 1857.

H. Johnson.

**Tilforordnede**
i den kongelige Landsover samt
Hof og Stadsret i Kjöbenhavn.

Gjöre vitterligt: *at efter Begjæring af Procurator Maag som beskikket Sagförer for Student Ari Arason af Flugumyri i Skagefjords Syssel inden Islands Nord- og Öst Amt, og i Kraft af en denne under 19de dennes meddeelt Kongelig Bevilling, indstævnes herved den eller de, som maatte have ihænde en i Islands Landfoged Contor den 11 Marts 1832 af Finsen, som constitueret i Krigsassessor Ulstrups Fraværelse, udstedt Tertiaqvittering for 72 rd. 34 sk. r. S. meddeelt under en trykt, af Finsen bekræftet, Copie, af vedkommende, i Islands Stiftscontor den 11 Marts 1832 af L. Krieger udstedt Ordre til Landfogden om i Jordebogskassen at modtage til Forrentelse i Overeensstemmelse med det Kgl. Rentekammers Skrivelse af 28de September 1822 den Summa 72 rdl. 34 sk. r. S. tilhörende den umyndige Lilie Johnsdatter af Merkegili inden ovennævnte Syssel, hvilken Tertiaqvittering er bortkommen, med Aar og Dags Varsel til at möde for os heri Retten, som holdes paa Stadens Raad- og Domhuus den förste Retsdag i Juli Maaned 1858, Formiddag Kl. 9, for der og da at fremkomme med bemeldte Tertiaqvittering, og deres lovlige Adkomst til samme at beviislig-gjöre, da den i modsat Fald paastaaes mortificeret ved Dom.*

*Forelæggelse og Lavdag er afskaffet ved Forordningen 3 Juni 1796.*

*Denne Stævning udstedes paa ustemplet Papiir paa Grund af det Citanten meddeelte beneficium processus gratuiti.*

*Dets til Bekræftelse under Rettens Segl og Justitssecretairens Underskrift.*

Kjöbenhavn, d. 31te Januar 1857.

**(L. S.)**

**A. L. C. de Coninck.**

---

Fjármörk upptekin í Þingeyjarsýslu 1857.

Hvatt hægra, Sneiðrifað aptan vinstra.
Jóhannes Jónsson á Þúfu, Brennim. Joh. J. S.

Miðhlutað í stúf hægra, tvístýft fr. vinstra,
Jón Jóhannesson á Þúfu.

Sneitt fr., gagnfjaðrað hægra, Stúfrifað vinstra,
Jón Helgason á vestari Krókum.

Sneitt fr., gagnfjaðrað hægra, tvírifað í heilt vinstra,
Indriði Helgason á vestari Krókum.

---

Hjer með bið jeg bæði hreppstjóra og aðra góða menn í nálægum sveitum, að aðgæta, að fjármark mitt á 80. bls. í markaskrá Þingeyjarsýslu breytist þannig: Vaglskorið aptan hægra, Sneitt framan vinstra og brennimark K. Þ. S.

Grýtu í Höfðahverfi 17. april 1857.

Kristján Þorsteinsson.

---

Á næstliðnu hausti komu hjer í Neðrifjallarjett tvö lömb, og eru ekki mörk þeirra í markabókum Norðurmúlasýslu og Þingeyjarsýslu. Markið á öðru þeirra er: Stýft hægra, biti aptan og stýft vinstra. Hitt lambið hefur mark á vinstra eyra, sem jeg ekki nefni, en hægra eyra hefur aldrei á það skapast. Ef nokkur getur leitt eign sína að þessum lömbum, þá vitjar hann borgunar fyrir þau til mín.

Grímsstöðum á Fjöllum 5. april 1857.

Jón Sigurðsson.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.
Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 4. Maí. 13.—14.

## Brjef til Kaupmannahafnar.

III.

Þú ert svo þolinmóður við mig að skrifa mjer, að jeg verð nú að fara að ljetta svefnhettunni um sumarmál, og óska þjer og vinum mínum hjerlendis og erlendis góðs og gleðiríks sumars, og um leið og jeg gjöri það, ætla jeg stuttlega að drepa á hitt og þetta sem snertir hagi vora Íslendinga í andlegum og veraldlegum efnum.

Þessi vetur sem nú er liðinn hefur verið með harðara móti, en þó enginn harðindavetur. En víða hefur þó heybjörg manna verið ónóg, svo að gjöra má ráð fyrir, að peningur gangi illa undan einkum í sumum sveitum; veldur því að nokkru leyti óframsýni manna, að þeir setja ofmikinn fjenað á eptir heybyrgðunum og að nokkru leyti það, að hey hafa verið mjög ljett og gjafafrek í vetur — þó að nýtingin í fyrra sumar yrði góð — af því svo snjóalaust var í fyrra vetur, og jörð því blásin upp venju meir. Veturinn var hinn bezti fram til jólaföstu, en eptir það var hörð tíð til miðgóu, og þó að jarðbannir væru ekki allmiklar, varð þó útigangur ekki að hálfum notum sökum illviðra. Í páskaviku byrjaði annað kast sem hjelzt fram um sjálf sumarmálin, svo að skip þau þrjú er hjer komu fyrir og í páskavikunni hafa öll frosið inni og vörunum hefur verið ekið á sleða úr þeim. En nú er hjer komin hin mesta blíða, sólskinsveður og sunnanátt.

Svona hefur nú tíðarfarið verið hjer á Fróni, og er það mæðulegt, að búnaður vor Íslendinga skuli ekki enn vera orðinn betri en það, að liggur við bjargarskorti bæði fyrir fólk og fjenað í meðalári, svo að þú sjerð að ekki þarf mikið á að bjáta til að kippa fætinum undan velmegun andsmanna, sem þó hefur aukizt dálítið á seinni árum.

Þú veizt að hákarlaveiðar og útvegur til þeirra hefur farið mjög í vöxt hjer við Eyjafjörð núna seinustu árin, og hafa menn sýnt hjer mikinn dugnað og áræði til að auka og efla þenna atvinnuveg, sem getur orðið hjer mjög ábatasamur, en þó vantar mikið á það að nægileg varúð fylgi kappsemi manna í þessu efni. Það kemur hjer fram eins og svo víða hjá oss Íslendingum að forsjá og reglusemi vantar í vinnustjórninni. Skipin fjölga óðum, en duglegir sjómenn fjölga ekki eins fljótt, og agaleysið skaðar hjer eins og annarstaðar. Vjer þyrftum að hafa nákvæmar tilskipanir um rjett og skyldur skipstjórnarmanna og háseta, því agaleysi hásetanna gjörir atvinnuveg þenna hættulegan, og setur skip og fólk í veð. — Annað sem nauðsynlega við þarf til að tryggja þenna atvinnuveg er að fá ábyrgð fyrir skipunum, og hefi jeg vakið máls á því í Norðra, en engi árangur er enn orðinn að því, og finna þó allir hver nauðsyn er á því, en framtaksleysið um allan fjelagsskap aptrar þessu. Annar gallinn á þessum bjargræðisvegi er sá, að sjómenn vorir eru svo heimtufrekir og ofneyzlugjarnir að útgjörðarmenn skipanna verða að hafa svo mikinn tilkostnað, að þeir geta, ef til vill, ekki staðizt þegar fram í sækir nema í hinum beztu aflaárum. Hásetar vilja ekki annað til sjónestis en hinn bezta mat, er fengist getur, og enn sem komið er ætla jeg, að þeir láti sjer annara um sumir hverjir að læra að helgja kaffi og brennuvín en að afla sjer þekkingar á góðri sjómennsku og að hafa hirðusemi og reglusemi á skipunum. Það er nú reyndar vonandi að skipaeigendur komi sjer saman um einhverjar reglur handa hásetum og stýrimönnum, því þeim er þó einkar áríðandi, að farið sje vel með skipin, sem eru aleiga þeirra sumra hverra, og þeir verða að geta haft vissu fyrir því, að hinir dýrkeyptu formenn og hásetar gegni skyldu sinni.

Þó að nú þessi sjóarútvegar hafi enn sem komið er reynzt allvel ábatasamur, þá er hann

þó hættulegur jarðyrkjunni og landbúnaðinum. Fólksfæðin er einlægt mikil hjá oss, og er vinnuaflinu því ekki tvískiptandi; en meiri er þörfin að bæta sveitarbúskapinn og jarðyrkjuna en sjóarútveginn, því miklu fleiri geta notið jarðabótanna, og langtum vissari og hagsælli er allur landafli en sjóarafli. það eru að vísu margir menn, sem láta sjer einkar annt um að bæta jarðir sínar og gjöra tilraunir með jarðyrkju, en þó getur ekki orðið neinn tölnverður ávinningur að þessum viðburðum, því jarðyrkjumennirnir eru svo fáir, og verða því að vera á mörgnm stöðum, svo að hætt er við, að víða sje ekki haft hið nauðsynlega eptirlit og uppápössun á þeim blettum sem hafa verið plægðir og sánir. það er varla við því að búast að mikil not verði að jarðyrkjutilraunum hjer á landi fyrri en búið er að koma upp búnaðarskóla eða búnaðarskólum, á góðum jörðum þar sem jarðyrkjuna má reyna til hlítar og með þeirri alúð sem þarf, ef hún á að takast hjer hjá oss. Jeg hefi nú farið fram á, að hjer yrði stofnaður undirbúnings eða gagnfræðisskóli á Norðurlandi, og er hin mesta nauðsyn til þess, því hjer á landi er öllum varnað að leita sjer neinnar verulegrar menntunar, ef að þeir geta ekki farið í skólann í Reykjavík, og þó að þar sje kostur á miklu og góðu námi, þá vantar þar þó allan lærdóm, sem einkum kemur að notum í borgaralegu lífi, og öll kennslan er þar eins og von er löguð til að búa menn undir embættislestur, og ber því lítinn ávöxt til að kenna mönnum dugnað og framkvæmd í öðrum iðnum og athöfnum lífsins. Allir sem hafa skrifað mjer um þetta efni hjer Norðanlands síðan að jeg vakti máls á því, hafa mælt fram með þessu málefni og tekið vel undir það, en þó eru litlar líkur til að slík stofnun komist bráðlega á fót hjer norðanlands, því bæði er það að mikils fjár þarf við til að koma slíku á fót, en enginn hægur vegur til að ná fje saman með frjálsum samskotum þar sem svo mikils þarf með.

þú biður mig að skrifa þjer eitthvað um Akureyri, sem þú kallar höfuðstað Norðurlands, en þetta er nú ekki svo hægt. þú þekkir máltækið „þá eik skal fága sem undir skal búa“, svo að jeg vildi heldur syngja lof en last um bæjargreyið, en hægra ætla jeg að tína eitthvað til á hinn hóginn: Akureyri liggur eins og þú hefur heyrt getið vestan við Eyjafjarðarbotn undir háu melbarði. Í bænum eru hjerumbil 40 íbúðarhús, flest timburhús að nafninu, og í þeim búa hjerumbil 300 manns; þar af 1 læknir, 1 apótekari, 1 prestur, 1 umboðsmaður, 5 verzlunarmenn, 1 hreppstjóri, 1 barnakennari, norðlenzki ritstjórinn, 1 gestgjafi og hitt bókbindarar, prentarar, gullsmiðir, söðlarar, skóarar, járnsmiðir, trjesmiðir, beikirar, tómthúsmenn, o. s. frv. þú sjerð nú á þessu að bærinn er ekki allfámennur, en þó að nú svo sje, þá er ekki mikið um gleði og skemmtanir hjer í bænum. Hjer hýrist næstum einlægt hver í sínu horni allan liðlangan veturinn, svo að hefði ekki blessaður læknirinn minn og apóthekarinn verið, hefði veturinn orðið mjer hálfleiðinlegur. þú getur því nú nærri að í svona litlum bæ muni vera töluvert af bæjarhjali og bæjarsögum, sem mundu þykja all-lítið umtalsefni í stærri borgum, en þetta er ekki láandi, því eitthvað verða menn að hafa sjer til dægrastyttingar. Flest fólk er hjer viðkunnanlegt í umgengni og hjálpsamt, þegar það getur, og er slíkt góður kostur. Versti gallinn hjer eins og víðar í kaupstöðum vorum er drykkjuskapurinn, og hann er því miður mikill. Síðan skipin komu hefi jeg varla nokkurntíma gengið svo um bæinn, að jeg hafi ekki sjeð fleiri en einn ofdrukkinn, og leiðir af slíku slark og áflog, og verða því meiri brögð að þessu, af því hjer er enginn lögreglustjóri eða lögregluþjónn. Jeg gleymdi að segja þjer, að þegar menn hafa byggt hjer, einkum framan af, hefur enginn hugsað um að hafa neina reglusemi á húsunum. Bærinn er fæddur á apturfótunum, húsin snúa þvert og endilangt, rjett eins og hverjum datt þá í hug að byggja, en nú höfum vjer fengið byggingarnefnd, sem mun því öllu vel til vegar koma.

Um hið andlega ástand þjóðar vorrar veit jeg að þig fýsir að heyra, og þó að jeg hafi ekki penna sjera Tómasar Sæmundssonar, þá verð jeg að fara um það fáum orðum. Vjer Norðlendingar megum þakka það hamingju vorri, að hann lifði ekki til að dæma um bókmenntir vorar, því jeg er hræddur um að æði margt af bókum þeim er hjer koma út hefði orðið hjá honum í tölu ónýtu bókanna. Hið mesta af því sem út kemur hjer nyrðra, er að minnsta kosti ljettvægt, og margt af því illa úr garði gjört. þeir sem eru hjer menntaðir menn skrifa ekki, en handverksmenn eru það hjer helzt, sem fást við útgáfur bóka. þannig hafa 2 bókbindarar, einn gullsmiður, og einn prentari gefið út rit hjer í vetur. Húnvetningar ætla nú að láta prenta hjer 1. hepti af búnaðarriti sínu, sem heitir Hún-

vetningur, og verður það víst gott rit og þarflegt. Sunnanlands prentsmiðjan stendur sig nú án efa vel, því hún gefur einlægt út gamlar guðfræðisbækur, sem einlægt seljast, og engu er til kostað. Biflían er nú að hlaupa þar af stokkunum, lærdómskver og passíusálmar spretta þar upp eins og gras á vordegi. Þó er það eitt nýtt guðfræðisrit sem komið hefur út í fyrra og prentað er í Kaupmannahöfn, sem hefur og það að makleglleikum selst betur en nokkur önnur ný bók, sem vjer þekkjum til á seinni tímum, og þó að einn nafnkunnngur og merkur kennimaður vor Íslendinga hafi lýst því yfir í Þjóðólfi, að andlegt fjör og mælska væri ekki sjerlegt í henni — enda finnst honnm það aldrei eiga rjett vel við (?) —, þá er það ekki að sjá að þessi skortur, ef hann er til, spilli fyrir bókinni, því hún hefur þegar öðlazt þá hylli hjá lærðum og leikum, að það er fram komið, sem vjer hefðum ekki trúað, á þessari öld, að menn vilja heldur Pjetur en Vídalín, Prófessor Pjetur á hinar mestu þakkir skilið fyrir þetta ágæta rit sitt, og útgefarinn Egill Jónsson, sem ætíð hefur látið sjer annt um að styðja að því að koma út nýjum og góðum bókum á líka þakkir skilið fyrir áræði sitt í þessu efni. Það er skaði að í bókinni eru æði miklar prentvillur. Það er enginn góður vottur um vísinda-anda prestastjettar vorrar, að enginn af þeim hefur enn orðið til þess að lýsa nákvæmlega þessari merkilegu bók, og finna að henni, ef þess þarf; vjer höfum ekki þekkingu til þess, þó vjer vildum. Prófessorinn er nú að gefa út tækifærisræður sínar, og hefur hann gefið prestaskólasjóðnum handritið, og eru slík fyrirtæki eins fögur, eins og þau eru sjaldgæf hjá oss.

Síðan vjer Íslendingar fengum hinn nýja skólameistara Bjarna Johnsen, virðist sem allt vísindalíf sje slokknað í skólanum, svo að allir þessir lærðu og hálærðu kennarar, sem nú eru við skólann, hafa ekki getað gefið út eitt einasta skólaboðsrit síðan Svb. Egilsson sálugi andaðist, því þessar íslenzku og dönsku skólaskýrslur getum vjer ekki kallað boðsrit. Þessi skólaboðsrit voru þó áður ætíð til prýðis bókmenntum vorum, því þau voru betur vönduð en flest annað sem út var gefið, og voru því lifandi vottur þess, að vísindin lifðu í skólanum, og að kennararnir verðu ekki einungis tíma sínum til að berja skólalærdóminn inn í lærisveinana, heldur líka til að fást við vísindaleg efni, og sýna ávöxt af eigin rannsókn, enda eru ekki litlir ávextirnir, er spruttu af þessu menntalífi kennaranna þar sem rit dr. Svb. Egilssonar eru og orðabókarsafn dr. Schevings.

Þá er nú eptir að segja þjer frá hversu lifandi áhugi þjóðar vorrar er á stjórnar málefnum vorum. Þú veizt það, vinur minn, að bókmenntirnar eru ekki eins óbrigðull vottur um menntunarstig hverrar þjóðar, eins og áhugi hennar á þjóðmálefnum sínum. Það geta verið til þeir menntamenn hjá þjóðinni, sem skrifi fagrar bækur, án þess þjóðin sje fær að fylgja þeim, þó að hún lesi bækur þeirra. En hið lifandi fjör og áhugi sem sumar þjóðir sýna, þegar um almenn þjóðmálefni er að ræða, þegar þær koma fram sem verjendur rjettinda sinna, það sýnir bezt hvort að þjóðirnar eru vaknaðar til verulegs lífs, hvort að þjóðin er þjóð; og þessi andlega hreifing kemur mjög lítið fram hjá oss um þessar mundir, og jeg held mjer sje óhætt að fullyrða, að áhugi manna á landsrjettindum vorum sje ekki nærri því eins lifandi hjá oss nú eins og hann var það 1851. Hvergi heyri jeg nú getið um fundi hjer nyrðra, sem alþingismenn eigi við kjósendur sína, til þess að geta verið sannir talsmenn landslýðsins, og þingmannskosningin í fyrra sumar í Norðurmúlasýslu sýndi þetta líka allvel, því alls einn kjósenda kom á kjörfundinn, svo að enginn varð kosinn, hvernig sem nú fer, því nú á að kjósa aptur. Jeg get nú ekki annað en kennt stjórninni að nokkru leyti þessa deyfð og áhugaleysi sem menn hafa á alþingi. Menn vonast þó eptir hinum mest áríðandi frumvörpum frá stjórninni, og þinginu er gjört að skyldu að láta þau sitja í fyrirrúmi, en þó veit jeg ekki til, að alþingismennirnir fái neina vitneskju um hvað lagt verði fyrir þingið fyr en þeir eru komnir suður á þing. Þeir vita því ekki hvað þeir eiga að ræða, og geta því ekkert búið sig undir til að komast niður í skynsamlegri skoðun á málefnunum, og verða því opt að láta það fjúka sem þeim fyrst dettur í hug, ef þeir vilja segja nokkuð. Þegar að þingið er nú ekki haldið nema annaðhvort ár, sýnist það vera vinnandi vegur fyrir stjórnina, að búa frumvörpin svo snemma frá sjer, að þau gætu komið til stiptamtmanns með póstsskipinu haustinu áður en þingið er haldið, eða látið stiptamtmann að minnsta kosti vita hvers efnis frumvörpin væru, og væri þá hægurinn heima fyrir alþingismennina að vera búnir að búa sig nokkuð undir umræðurnar um hin helztu mál. Stjórnin hefði þann ábata á þessu

fyrirkomulagi, að tillögur alþingis yrðu skipulegri og á betri ástæðum byggðar, og virðist mjer slíkt tilvinnandi. Mig minnir að alþingi hafi á hinum fyrstu þingum farið þessa á leit, en ekki veit jeg hverjar ástæður stjórnin hefur haft til að neita svo sanngjarnri bæn þingsins.

Jeg held þjer og lesendum mínum þyki þetta brjef nú orðið nógu langt, ætla jeg því að enda það, og allt er það, eins og þú sjer, sundurlausir þankar.

---

Eptir ósk herra ritstjóra Norðra, rita jeg þessa skýrslu yfir jarðyrkjustörf mín næstliðin 2 ár, jafnvel þó mjer finnist að hreppstjórarnir í þeim hreppum, þar sem jeg hefi gjört jarðyrkjutilraunir mínar, hefðu fremur átt að gjöra það en jeg; og væri það sönn gleði mín, ef þetta litla sýnishorn gæti orðið bændum upphvatning til að leggja betri ástundun á ræktun jarða þeirra, sem þeir hafa yfir að ráða; því ekkert er oss Íslendingum eins ómissandi eins og það að bæta og efla grassprettuna á landi voru sem mest má verða, því með henni öðlumst vjer nægð kvikfjár, en kvikfjáraflinn er og verður aðalatvinnuvegur vor, sem allir aðrir atvinnuvegir vorir kvíslast út af, en jafnframt því sem kvikfjenaðurinn vex, vex grassprettan, því þá fyrst fá bændur nógan áburð til að rækta jörðina með, og án hans verða flest öll jarðyrkjufyrirtæki til lítillra eða engra nota, og er hinn gamli málsháttur sannur „að bóndi er bústólpi, og bú er landsstólpi“.

Sumarið 1855 plægði jeg í þessum hreppum:

Í Húsavíkurhrepp.

1. Hjá herra presti J. Ingvaldssyni á Húsavík 2½ dagsláttur.
2. Hjá herra verzlunarfulltrúa Schou á Húsavík 1 dagsláttu.
3. Hjá bónda H. Bjering á Kallbak 1 dagsláttu.
4. Hjá sgr. J. Jóhannessyni á Laxamýri 1 dagsláttu.

Í Helgastaðahrepp.

5. Hjá sgr. J. Jóakimssyni á Þverá 1 dagsláttu.
6. Hjá bónda S. Magnússyni á Hólum 3 dagsláttur.
7. Hjá bónda J. Björnssyni á Narfastaðaseli 3½ dagsláttur.
8. Hjá bónda J. Guðmundssyni á Skógarseli 1 dagsláttu.
9. Hjá sjera S. Tómássyni á Múla ½ dagsláttu.

Í vor eð var sáði jeg í flesta þessa bletti höfrum, og lukkaðist spretta þeirra misjafnt, og varð víða lítil, sem orsakaðist af kuldasömu vori, áburðar- og girðingaleysi, því bæði var það að áburður var ekki helmingur við það sem þurfti, og líka það, að enginn bletturinn var umgirtur og ázt því og tróðst grasið víða til stórskemmda. Í Laxamýrarflagið var borinn nógur áburður, og var það varið svo vel að engin skepna komst að því, enda spratt það líka bezt, og fengust 16 baggar af dagsláttunni, sem þó var mjög eðlismögur jörð, og einna lökust af því, sem jeg plægði, og ekki annað en brunaholt og lyngmór; í bletti þessa verður sáð höfrum og grasfræi í vor eð kemur.

Í vor eð var undirbjó og starfaði jeg að sáningu í garði þeim í Húsavík, sem herra assistent P. Th. Johnsen hefur á sinn kostnað umgirt og látið plægja, sem er að stærð 5½ dagsláttur. Garður þessi var vel undirbúinn að öllu, áburður í fullkomnasta lagi, jarðvegurinn sjálfur frjófefnamikill og ágæta góður til ræktunar, og grjótgirðingar ágætagóðar umhverfis hann, sem bæði gerðu skjól og vörðu öllum átroðningi. Úr garði þessum fengust 80 hestar af vænu bandi af góðu hafraheyi, og er þetta hjer í plássi einasta jarðyrkjutilraun sem vel er að marka, því ekkert skorti upp á það sem með þurfti til ræktarinnar, og má þetta heita ágæta góð uppskera í fyrsta sinni, því eptir því sem lengur er ræktað, því betur sprettur.

Í fyrra sumar plægði jeg upp á nýtt í þessum hreppum.

Í Húsavíkurhrepp:

7. Hjá bónda B. Pálssyni á Bakka tæpar 2 dagsláttur.
2. Hjá sgr. J. Jóhannessyni á Laxamýri ½ dagsl.

Í Helgastaðahrepp:

3. Hjá bónda J. Björnssyni á Narfastaðaseli 1 dagsláttu, auk þess sem jeg þar plægði strengi í 170 faðma langan vallargarð.
4. Hjá bónda J. Guðmundssyni á Skógarseli ½ dagsláttu.

Í Ljósavatnshrepp:

5. Hjá herra presti J. Kristjánssyni á Yztafelli 4½ dagsláttur, auk þess plægði jeg þar 193 faðma langan vatnsleiðsluskurð, sem þurrkar upp plægða blettinn.
6. Hjá bónda J. Björnssyni á Fellseli 1½ dagsl.
7. Hjá bónda S. Ólafssyni á Hrappstöðum ½ dagsláttu.
8. Hjá bændunum Árna og Kristjáni Kristjánssonum á Hóli 2 dagsláttur.

9. Hjá bónda G. Jónssyni á Geirbjarnarstöðum 1½ dagsláttu.

10. Hjá jarðyrkjum. J. Jóhannessyni á Granastöðum 1 dagsláttu. Í þessa bletti verður sáð höfrum á næstkomandi vori.

Auk þess hjer að ofan talda, plægði jeg upp aptur flest öll þau flög, sem jeg plægði í hitt eð fyrra og garðinn í Húsavík, og herfaði það sem jeg plægði í fyrra og áður er um getið.

Jarðepli spruttu hjer í sveitum all vel í sumar og gáfu frá 15—20 fallt.

Laxamýri 24. febrúar 1857.

S. Eiríksson.

---

## Bókafregn.

Töfralist eður eðlilegur galdur á kostnað I. Ingimundarsonar, 1. hepti, Akureyri 1857.

Kostnaðarmaður bæklings þessa segir í dálitlum formála framan við hann, að „þó bæklingurinn kunni að þykja óþarfur þeim, sem hafi næg efni til að útvega sjer yfirgripsmeiri þekkingu á þess konar vísindum, þá geti hann þó sparað íþrótta iðkendum þeim nokkuð ómak með, að safna saman í eitt hinu skemmtilega úr mörgum töfrafræði-bókum, og að því leyti geti hann einnig orðið þeim að notum“.

Vjer höfðum nú ímyndað oss, að „töfralist“ þessi væri einkum ætluð unglingum af alþýðunni til dægrastyttingar þangað til að vjer sáum á þessum dálitla formála, að þetta á að vera samsafn af hinu skemmtilegasta og bezta úr mörgum töfrafræðibókum, og ætlað íþróttamönnum í töfralist og sjónhverfingum til að spara þeim ómak að tína það saman. Það er nú hvorttveggja, að þess konar íþrótta-iðkendur munu ekki vera margir á landi hjer, enda ætlum vjer að þeir mundu ekkert geta lært af þessari bók. Nóg ætlum vjer að verið hefði að setja á titilblaðið, að kverið væri ætlað unglingum til skemmtunar, því það getur verið, að sumir unglingar hafi gaman af því, og sumt hvað í kverinu getur verið til að hvessa skilning þeirra og hugvit, en litla gagnsmuni ætlum vjer fullorðið fólk hafa af þess konar bókum.

Versti gallinn á bókinni er það, að flestir töfrarnir sem lýst er, hvernig gjöra megi, verða ekki gjörðir, nema menn hafi í höndum ýmisleg efni, sem alþýða getur ekki haft, og sumt hvað er, ef til vill, hvergi að fá hjer á landi. Það væri gaman að vita, hve marga af þessum göldrum kostnaðarmaðurinn hefur sjálfur reynt! Fyrst að kostnaðarmaðurinn hefur valið þetta saman úr svo mörgum töfrafræðibókum, hefði honum verið innan handar að velja alþýðlegri töfra, það er að skilja, þá töfra, sem alþýðu hefði verið hægra að gjöra.

Málið og frágangurinn á kverinu er allsnotur eptir ómenntaðan mann.

Að endingu verðum vjer að þakka kostnaðarmanninum fyrir, að hann hefur ekki gefið þetta út til að ábatast á því, en lætur sjer lynda, ef hann verður svo heppinn að fá upp kostnaðinn, því þá er nú ekki til mikils mælst!

---

# Frjettir.

## Útlendar.

(Framhald). Af Englandi er það að segja að þar hefur verið og er enn góður friður og spekt eins og vant er. Stjórnin hefur látið sjer einkar annt um að lækka aptur skattana, sem höfðu orðið að hækka svo mikið á stríðstímanum. Í öllum ágreiningi þeim, sem varð við Rússa, voru Englendingar harðari á sprettinum en Frakkar, en af því Napóleon var mjög friðgjarn, drógust þau mál þó til sætta. Milli Englendinga og Persa hófst stríð í vetur, því að Persar rjeðust á Dost Mahometh, er ræður fyri Akhvanistan, en hann var í sambandi við Englendinga. En þegar Englendingar komu til liðs við hann ljetu Persar undan síga, og var þá tekið að leita um sættir, og kom sendiherra Persa til Norðurálfu. Englendingar sýndu hina mestu hófsemi í kröfum sínum, og tóku Persar þá kosti er þeir buðu. Kínverjar hafa líka brotið samninga sína við Englendinga og hafið stríð við þá, og er alllíklegt að stríð þetta leiði til þess, að Kínverjar neyðist til að leyfa hinum siðuðu þjóðum frjálsari samgöngur við ríki sitt. Englendingar hafa haft allmikla verzlun í borginni Kanton í Kínalandi, en Kínverjar vildu reka þá þaðan, en þegar Seymour flotaforingi Engla í Austurhöfum gat ekki lengur miðlað málum, ljet hann fyrst skjóta á borgina og tók síðan með áhlaupi nokkur sterkustu virki borgarinnar, og sýndu Kínverjar litla hreysti í vörn sinni. Skömmu seinna varð vart við mikinn sjúkleik í sjóliði Englendinga, en þeir höfðu fengið vistir til kaups úr borginni; varð það þá uppvíst, að Kínverjar höfðu eitrað brauðið, er þeir seldu þeim, en af því skjótt var leitað ráða móti þessari eiturbyrlun batnaði flestum fljótt aptur. Enska þinginu þótti nú ekki hafa verið næg ástæða til að fara svo hart að Kínverjum, og mótstöðumenn Palmerstons, æðsta ráðgjafa Englendinga, notuðu þetta færi til að byrja margar umkvartanir um stjórn hans, en af því að hann vissi að öll þjóðin var á hans máli sleit hann þinginu, og eiga nú nýjar kosningar að fara þar fram.

Það bar opt á því á meðan á stríðinu stóð við Rússa, að mönnum þóttu Frakkar bera höfuðið hærra en Englendingar og vera atkvæðameiri í orustum, svo að allir álitu, að Frakkar hefðu meiri virðingu úr býtum. En það er líka allt sem þeir hafa haft upp úr því; enska stjórnin hefur hugsað meira um hagsmuni þá, sem þjóðin gæti borið úr býtum í stríðinu en virðinguna eintóma. Englendingar hafa því kostað kapps um að fá ýms verzlunarhagræði í Tyrkjalöndum, og þeir hafa fengið leyfi hjá soldáni að leggja þar járnbrautir og

frjettafleygja frá landamærum Austurríkis til Persalands, og gefur þetta þeim með tímanum hið sannasta og sterkasta verndarvald yfir Tyrkjalöndum, og þeir fá þannig hið bezta færi á að stemma stiga fyrir yfirgangi Rússa í Austurheimi.

Frá Spáni hefur frjetzt eins og við var að búast, að stjórn O. Donnels er þar komin úr völdum, og hinn gamli uppáhaldsmaður Ísabellu drottningar Narvaez er orðinn þar æðsti ráðgjafi. Þó er nú heldur ekki stjórn hans fastari en það að á hverjum tíma má búast við, að hann verði að fara frá völdum. Ekki hefur stjórn Spánar batnað undir hinni stuttu stjórn hans, heldur hefur hún verið enn ófrjálslegri en áður, og þó er flokkur manna til á Spáni, sem næstur stendur að hrinda honum frá völdum, er vill gjöra konungsættina einvalda og ónýta öll rjettindi þjóðarinnar.

Í þjóðveldinu mikla í norðurhluta Vesturálfu er nú nýbúið að velja ríkisforseta fyrir næstu 4 árin, og má nærri geta að kosningarnar gengu þar líflega eins og vant er. Buchanan, sem fyrir kosningu varð, hefur einkum komizt til valda fyrir tilstyrk suðurfylkjanna og mun hann því lítið styðja að því að afmá þrældóminn í ríkinu, enda mun það verða örðugt fyrir, því hvað sem norðurfylkin segja, mundu suðurfylkin heldur láta skríða, til skara og jafnvel rjúfa sambandið heldur en sleppa þrælunum. Víða hafa þrælarnir gjört upppreist, en hefur þó ekki komið að neinu liði, og þeir hafa verið drepnir niður í strá án þess að fá neinu til vegar komið.

Walker hershöfðingi sem áður er getið í Norðra að braust til ríkis í Miðameríku hefur nú beðið hvern ósigurinn á fætur öðrum, og er ætlað að hann muni neyðast þar til að flýja land fyrir mótstöðumönnum sínum.

## Innlendar.

Að sunnan höfum vjer fengið brjef dagsett 31. marz, þar var þá hin bezta tíð og fiskiafli góður um öll suðurnes. Hjer er nú allt þakið ís úti fyrir Eyjafirði, svo að skip þau sem ætluðu út til hákarlaveiða hafa orðið að koma inn aptur. Nýkomið er hjer á höfn þiljuskip, sem umboðsmaður Þorsteinn Daníelsson hefur látið kaupa utanlands í vetur, og er á því vörufarmur til Siglufjarðar. Skip herra Gudmanns, William er nýlega komið á Húsavík. Það skip hafði harða útivíst fyrir austan og sunnan land í páskahretinu.

---

Hjá ritstjóra Norðra eru þessar bækur bókmenntafjelagsins til sölu:

Skýringar Páls. Vídalíns 1.—4. hepti 2rd. 64/ß
Safn til sögu Íslands 1. hept . . . . . 1 - „ -
— — — — 2. — . . . . . 1 - 48 -
— — — — 3. — . . . . . 1 - „ -
Skýrslur um landshagi 1.—2. hepti . 1 - 32 -
Tíðindi um stjórnarmálefni 1.—2. hepti „ - 56 -
Byskupasögur 1. hepti . . . . . . . 1 - 32 -
Árbækur Espólíns XI. og XII. deild . 2rd. „ ß
Skírnir 1856 . . . . . . . . . . . . „ - 32 -

---

Hjá hinum sama er enn fremur til kaups:
J. Espólin útskýring yfir opinberunarbókina . . . . . . . . . . . . . . . 1rd. „ ß
Dönsk lestrarbók eptir Svb. Hallgrímsson . . . . . . . . . . . . . . „ - 64 -

---

## Leiðrjetting.

Í greininni um vöruverð á 47. bls. Norðra þetta ár hefur misprentast verðið á ullinni. Því fyrir hvíta **ull** var boðið **136** til **140** rd., og er það hærra verð en nokkurn tíma hefur áður boðizt.

Ábm.

---

Ljóðabrjef ort af sjera Þórarni Jónssyni sjá Fróðlegt ljóðasafn ýmislegs efnis, safnað og útgefið af bókbindara Grími Laxdal. Akureyri 1857 bls 91 og þar á eptir.

Eins og það er hrósvert að halda á lopti verkum þeirra manna er að einhverju þóttu merkilegir, eður sköruðu fram úr öðrum meðan þeir voru uppi, hvort heldur það var með vel kveðinn skáldskap, eður hvað annað sem að einhverju var nýtt, eins er það líka lastvert, að taka verk þeirra — að þeim látnum heimildarlaust, og gefa þau út á prent, rángfærð og afbökuð bæði að orðfæri og meiningu. — Þetta ætla jeg að eigi sjer stað með ljóðabrjefið eptir sjera Þórarinn sál. Jónsson, seinast prest að Múla í Þingeyjarsýslu, því það lýsir í mesta máta skeytingarleisi útgefarans, þar sem að mjög var hægt fyrir hann að fá áreiðanlegt handrit hefði hann nokkuð reynt til þess.

Ljóðabrjef þetta er tilskrifað einum skólabróður árið 1775, og hefir síðan þótt laglega kveðið, eins og líka sjera Þórarinn sál: var almennt álitinn gott skáld á sinni tíð. Og af því jeg hefi í höndum handrit er jeg fjekk frá sjera Benedikt sál, syni skáldsins, sem jeg verð að álíta að sje hið rjettasta er maður gat fengið, þar er hann sendi mjer það í þeim tilgangi, að eptir því yrði má ske prentað, vil jeg nú að nokkru leyti sýna frágang útgefarans á þessu ljóðabrjefi, honum og hans fróðlega Ljóðasafni til verðskuldaðs heiðurs.

Jeg hefi þó ekki tínt til allt, og er þetta samt ærið mikið úr ekki meir enn 65 vísnaerindum. — Þannig hefir þá útgefarinn sett t. a. m. 1 er. en stöðvi á að v. stöðvi, 2 er. seinni á að v. seini; gleði veitist þankinn þinn, á að v. gamni veiti þanka þinn, 3 er. skeinkt á að v. veitt, stand, á að v. grand, norðanlands á að v. um norðurland, 7 er. skýja þjett á að v. skýja grett, 8 er. Björgin flúði á að v. Bjargir flúðu, 12 er. bylti þessu við á að v. byltist þetta við, fárið á að v. farið, sólin á að v. sólskin, 13 er. þó á að v. þá, þey á að v. gey, 15 er. kaupmanns á að v. kaupskaps, Danmörk á að v. Dönum, 16 er. þusti á að v. þeysti, 17. er. Færðist á að v. Tærðist,

býtti á að v. býtt, 19 er. Snotran á að v. snotra. Hjer eru nú skakkt sett 2 erindi það 21 á að vera það 20, en það 20 aptur í þess stað, verður því efnið þarna allt vitlaust, þegar bætist ofan á orða munurinn í 21 er. 20 er. gladdi á að v. glöddu, 22. er. hrein á að v. hvein, 23 er. bændur á að v. bátar, með á að v. og, júra á að v. jór, 24 er. veð'rin á að v. veður, 25 er. að halli á að v. halli, 26 er. heitum enn á að v. heitu senn, 28 er. liðu því, á að v. liðu frí, 29 er. spyrjast víða á að v. spurðust víðar, 31 er. velgir, á að v. velgja, risu bylgjur á að v. rjeð en bylgjur, hafviðrin á að v. að hömrum inn, 32 er. á stundu, á að v. að stundu, 36 er. blíðkuð á að v. blíknuð, síðan vera á að v. verða síðan, ljóma (í seinni staðnum) á að v. blóma, 37 er. grösum á að v. liljum, mesta á að v. bezta, 38 er. svívirðing á að v. óvirðing, 42 er. vöru á að v. vörur, samt á að vera sumt, 43 er. skiptist á að v. skipta, 44 er. ljezt við, á að v. ljet hið, lipra á að v. ljósa, 49 er. meður á að v. meðan, hýrnar sólar hátt um far bæru bólin á að v. hjúkrar sólar heitt umfar hærðu bólum, 50 er. Finn Jón á að v. fyr Jón, 52 er, þjáði stríðið bjarta á að v. þjáðist stríðu björt. 54 er. listum háfum á að v. kostum hafin, dáfíðruð, á að v. dáfegruð, 55 er, dýrum kostum á að v. dýrðar krönsum, dauða á að v. dauðans, 56 er. minnka fer á að v. mögnuð hjer, 57 frítt á að v. fjátt, kvenna sólar, á að v. kennisólinnar, spennur forgylltar, á að v. spennu forgylltrar, 58 er. dreif að söndum dröfnin blá, á að v. drífur á löndin dröfnin sjá, norður á að v. vestur, 59 er. af landi þjóðir á að v. að landi þjáðir, siglum á að v. seglum, 60 er. sízt á að v. sút, spenntum á að v. strengdum, bylgjum á að v. bylgjan, sprengdu á að v. sprengdi, 61 er. skerjum á, á að v. skerjum há, 62 er. slengdi á að vera fleygði, 63 er. engum á að v. ei nokkrum, 66 er. þundur á að v. þundar. mætur á að v. mæti, talda á að vera tjalda.

Þetta ætla jeg nú nóg til að sýna skeytingarleysi útgefarans; jeg vil ekkert tala um hin kvæðin í hans fróðlega Ljóðasafni; en hafi hann enga þökk fyrir, að hann setti þetta ljóðabrjef heimildarlaust inn an um eins ómerkilegt og ófróðlegt rusl eins og hann hefr tínt þar saman, hvorki hann nje aðrir eiga skilið þakklæti fyrir annað eins óhræsi, þegnóg mætti fá af öðru betra; og loksins get jeg ei annað en kallað það þorparabragð, að smána fyrir löngu dauðan manninn með því að bera þetta ljóðabrjef í almenning rangfært og afbakað, þegar þó var hægt að fá rjett handrit, skrifað af syni höfundarins, og eptir handriti skáldsins sjálfs.

H. Kristjánsson.

---

## Mannslát.

(Aðsent), Þann 2. september næstliðinn andaðist, eptir langvaranda heilsulasleik og nokkrar sjúkdómslegur með smáköflum, merkiskona María Þorsteinsdóttir, 47 ára gömul, eptir að hafa lifað í farsællegu hjónabandi með valinkunnum hreppstjóra Sölva Guðmundssyni að Sjóarborg í Skagafirði 25 ár, frá honum og 6 mannvænlegum börnum, 5 sonum og 1 dóttur, sem ein var þá nýlega ráðstöfuð, en þó sem bræðurnir svo að kalla í föðurhúsum. — Kona þessi var sannlega meira en gullvirð, bæði að ágætum náms- og greindargáfum, eins og ýmsir fleiri í þeirri ætt; hún var bróðurdóttir hins nafnfræga gáfumanns og snillings Sveins handlæknis Pálssonar; og svo líka fram úr skarandi kvennkostum búin, hverra jafnan nutu að tiltölu, meir og minna vandabundir henni. Bera þess óræk merki börnin, hverjum hún innrætti snemma drottins ótta, ásamt sannri, þeim annars ættgengri mannást; vottur þess er eins sameiginleg saknan allra þeirra, sem við hennar náttúrufar og kosti kynntust, og reyndu sífelldan góðleik, nákvæmni, ráðhollustu, gestrisni og góðgjörðasemi af henni. — Saknar ektamaki, syrgja börn, trega vinir og vesælir! Yrði sæti hennar varla mögulegt jafnvel að skipa síðan, þótt við væri leitazt og víða leitað. En minning hinna vel kristnu varir í blessun.

Jarðarför hennar framfór að Sjóarborg 10. dag septemberm., hjelt öldungurinn sjera Jón Reykjalín, í sjúkdóms forföllum sóknarprestsins, líkræðuna, sem, eptir áliti tilheyrenda, ber ljósan vott um gáfur og málsnilld höfundarins, samt innilega hlutdeild í tilfinningum og söknuði viðstaddra ættingja og vina.

1. Velgjörða móðir mín
**María Þorsteins jóð!**
sáran jeg sakna þín
sannkölluð varstu góð,
efast jeg mjög að eigi
byggðarlag vort þjer betra fljóð.

2. Nú er þitt strunga stríð
stöðvað, og fengin ró,
hjer veitist hvíldin blíð
holdi þínu sem dó,
en andi þinn ódauðlegur
leystur úr fjötrum lifir þó.

3. Hann sólu hærra skín
skapara sínum hjá,
áður hvern utan þín
í anda var að sjá;
umbreytt er von í vissu,
trú og skoðun hjer skiptust á.

4. Augunum eptir þjer,
ættsystir hjartanlig!
rósamir rennum vjer,
reynslunnar meðan stig
göngum, og gjarnan bæði
samgleðjumst þjer og syrgjum þig.

5. Ekki samt einir vjer
erum sem gjöra það;
þig hver sem þekkti hjer
þinn tregar viðskilnað;
minning þín mun æ vara
í heiðri' og blessun á hverjum stað.

S......

# Auglýsingar.

## Tilforordnede

i den kongelige Landsover samt Hof og Stadsret i Kjöbenhavn.

Gjöre vitterligt: *at efter Begjæring af Procurator Maag som beskikket Sagförer for Student Ari Arason af Flugumyri i Skagefjords Syssel inden Islands Nord- og Öst Amt, og i Kraft af en denne undet 19de dennes meddeelt Kongelig Bevilling, indstævnes herved den eller de, som maatte have ihænde en i Islands Landfoged Contor den 11 Marts 1832 af Finsen, som constitueret i Krigsassessor Ulstrups Fraværelse, udstedt Tertiaqvittering for 72 rd. 34 sk. r. S. meddeelt under en trykt, af Finsen bekræftet, Copie, af vedkommende, i Islands Stiftscontor den 11 Marts 1832 af L. Krieger udstedt Ordre til Landfogden om i Jordebogskassen at modtage til Forrentelse i Overeensstemmelse med det Kgl. Rentekammers Skrivelse af 28de September 1822 den Summa 72 rdl. 34 sk. r. S. tilhörende den umyndige Lilie Johnsdatter af Merkegili inden ovennævnte Syssel, hvilken Tertiaqvittering er bortkommen, med Aar og Dags Varsel til at möde for os heri Retten, som holdes paa Stadens Raad- og Domhuus den förste Retsdag i Juli Maaned 1858, Formiddag Kl. 9, for der og da at fremkomme med bemeldte Tertiaqvittering, og deres lovlige Adkomst til samme at beviisliggjöre, da den i modsat Fald paastaaes mortificeret ved Dom.*

*Forelæggelse og Lavdag er afskaffet ved Forordningen 3 Juni 1796.*

*Denne Stævning udstedes paa ustemplet Papiir paa Grund af det Citanten meddeelte beneficium processus gratuiti.*

*Dets til Bekræftelse under Rettens Segl og Justitssecretairens Underskrift.*

Kjöbenhavn, d. 31te Januar 1857.

**(L. S.)**

**A. L. C. de Coninck.**

---

Ný upptekið fjármark í Norðurmúlasýslu: Hvatt hægra, miðhlutað í stúf vinstra, Sigurður Pálsson á Húsey í Hróarstunguhrepp.

---

Bleiktoppótt hryssa, 8—9 vetra, mark: stýft, stig aptan, eða tvístýft aptan h., blaðstýft aptan vinstra biti neðan. Dreirrauður foli, 5—6 vetra, mark: sneiðrifað aptan hægra, snúnir út framfótahófarnir, eru í vörzlum hjá hreppstjóra Þórði Ólafssyni á Steinsholti í Árnessýslu, og getur rjettur eigandi þeirra vitjað þeirra til hans, mót borgun fyrir hirðingu, hjúkrun og þessa auglýsingu.

---

☞ **Þjóðólfur**, 20 arkir að stærð, verð 7 mörk, fæst til kaups hjá útgefanda Norðra á Akureyri.

---

## Nýútkomin lagaboð.

6. janúar 1857. Opið brjef, er lögleiðir á Íslandi, með breytingum, lög 5. apríl 1850 um að útlendir gyðingar megi setjast að í ríkinu.

— — — Opið brjef, um að stofna byggingarnefnd á verzlunarstaðnum Akureyri.

— — — Tilskipun um breyting á tilskipun 8. mars 1843, viðvíkjandi kosningunum til alþingis.

---

## Sundurlausir þankar,

(eptir J. Englending).

1.

Því eru svo margir sorgmæddir í heiminum, og vilja heldur deyja en lifa? Það er ekki auðskilið, því þó margt græti, er það þó líka ætíð margt sem kætir, og margar hörmungar eru sjálfskaparvíti. Ef hugur mannanna væri einbeittur, og þrekið meira, ef að þeir fyndu, hvað miklu góður og öruggur vilji getur til leiðar komið, ef að hver og einn reyndi að ná fastri stefnu í lífi sínu, og ljeti ekki hugfallast þó móti bljesi, þá er nógu líklegt, að prestarnir þyrftu ekki eins opt að tala um „eymdar-" og „táradal" „útlegð mannsins hjer á jörðunni" o. s. frv., eins og þeir nú verða að gjöra.

2.

Það er undarlegt hvað sjerhver einstakur og heilar þjóðir eru þess fúsar að ráða yfir öðrum, þó að svo örðugt sje að stjórna sjer sjálfum, og þó vill hver maður og hver þjóð vera frjáls. Mennirnir og þjóðirnar þyrftu því að gjöra sjer hugfastari orð frelsarans: „það sem þjer viljið að mennirnir gjöri yður, það sama eigið þjer þeim að gjöra".

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. | 26. Maí. | 15.—16.

## Frumvarp
## stjórnarinnar til alþingis í sumar, um að gefa því hluttekning í að ákveða tekjur og útgjöld Íslands.

Vjer höfum áður getið þess í Norðra, að fjárhagslaganefndin í danska ríkisþinginu fór fram á það við dómsmálastjórann, hve óviðurkvæmilegt það væri, að ríkisþingið ákvæði tekjur og útgjöld Íslands, þar eð þingið gæti ekki þekkt svo vel til hjer á landi, að það vissi hver útgjöld væru nauðsynleg, og rjeði því stjórninni til að leggja fjárhagslögin, að því leyti er Ísland snertir, fyrir alþingi, eða að veita alþingi rjett til að ákveða tekjur og útgjöld landsins (Skattebemyndigelsesret). Dómsmálastjórinn tók nú vel í þetta mál, og kvaðst mundi leggja frumvarp um það efni fyrir alþingi, og vjer höfum frjett, að stjórnin muni ætla að binda enda á þetta loforð sitt. En því er nú miður, að vjer höfum ekkert fengið að sjá um innihald frumvarps þessa, og ætlum vjer þó að þingmenn vorir hefðu þurft að kynna sjer þetta mál nákvæmlega, og að það þurfi ítarlegrar rannsóknar við, áður en því er til lykta ráðið. Það er nú nærsta örðugt fyrir oss að benda þingmönnum vorum og landsmönnum á rjetta skoðun á þessu mikilvæga málefni, þegar vjer þekkjum ekkert til frumvarpsins, og verðum að geta oss í vonirnar um það, hvað það hafi inni að halda.

Vjer játum það fúslega, að það eru einhver hin mikilvægustu rjettindi hverrar þjóðar að hafa hluttekning í því að ákveða hve mikið gjaldast skuli til almennings þarfa, og hvernig þessu sameiginlega fje þjóðarinnar skuli varið. Eins og það vekur hverjum manni hug og dug, að komast til lögaldurs og fá forráð fjár síns, eins er það þá fyrst, þegar þjóðirnar ráða sjálfar fje sínu, að maður getur búizt við, að það komi vel í ljós hversu annt þeim er um framfarir sínar, og hve mikið þær vilja leggja í sölurnar til að efla hagsæld sína andlega og líkamlega.

Vjer viljum einnig fúslega játa, að það væri mikill hagur fyrir oss Íslendinga, að mega ráða oss sem mest í þessu efni eins og í hverju málefni sem snertir verulega þjóðlíf vort. Vjer getum ekki dulizt þess, að vjer ætlum, að það mundi styðja mjög mikið að því að efla og glæða þjóðaranda vorn, að það hvessti sjón vora á landsrjettindum vorum, og gæfi oss meiri áhuga á því að afla oss viðlíkra rjettinda í öðrum þeim löggjafaratriðum sem innibinda sannarlegt frelsi hverrar þjóðar, hvetti oss áfram til þess að hafa vakandi auga og umhugsun fyrir því sem oss getur að gagni komið, og í stuttu máli glæddi allt þjóðlíf vort.

En nú er að líta á, hvað til þess þarf, að vjer getum sannarlega orðið aðnjótandi þeirra gæða, sem þessi skattgjaldsrjettindi virðast að geta látið oss í tje.

Til þess þarf þá að vita:

1. Að alþingi eptir tilhögun sinni sem ráðgjafarþing sje bært og hæft til að fá ályktunarvald í einu atriði landsrjettindanna, en einungis bænarrjett í öllum öðrum.

2. Að þetta fóstur stjórnarinnar, sem enn er, ef til vill, óborið, það er að skilja frumvarpið, sem vjer ætlum nú að spá örlög, eins og völvur gjörðu að fornum sið, verði getið í frelsisanda, og ekki fætt með erfðasynd stjórnarfrumvarpanna sumra hverra, að vera fremur löguð handa Dönum en oss, eða að stjórnarfrumvarpið verði verulega frjálslegt, og bjóði oss rjettindi, sem ekki sjeu nein hálfrjettindi, og að þessi rjettindi hafi þá ekki neitt það skilyrði, sem gjöri oss þau álíka afnotamikil, eins og bóndanum verður vinnukona, sem hefur ungbarn í eptirdragi, og

3. Að vjer Íslendingar sjeum hæfir til að færa oss þessi rjettindi vel í nyt, ef að vjer nú skyldum fá þau, að vjer notum þau ekki svo að þau verði oss til hnekkis og apturfarar í stað þess að efla frelsi vort og framfarir.

Hvað hið fyrsta atriði snertir, þá virðist, ef

til vill í snöggu áliti, að ef þessi viðauki við rjettindi vor er góður í sjálfu sjer, þá standi á sama hvernig vjer fáum hann, hvort að alþingi fái hann, eða eitthvert annað þing, o. s. frv. En oss getur reyndar ekki annað virzt en formið gjöri hjer töluvert til, og að það sje einstaklegt og óviðurkvæmilegt, að alþing fái þannig ályktunar~~rjett í einu einasta stjórnarmálefni~~. Vjer erum hræddir um, að hlutaðeigandi ráðherra gjörði sjer hægt um hönd og gleymdi ályktunarvaldi þingsins í þessu efni, ef að það kæmi í bága við aðgjörðir sjálfs hans, og að það færi eins um tillögur þingsins, eins og farið hefur um sumar bænarskrár alþingis að undan förnu, að stjórnin og konungur, „hafa ekki fundið ástæðu til að taka þær til greina eptir því sem á stendur“, það er að skilja, að stjórnin hefur stungið þeim undir stól, án þess að færa neina ástæðu fyrir því. Og ef svo færi, hvernig ætti þá alþingi að framfylgja rjetti sínum móti ráðgjafanum og fyrir hverjum dómstóli ætti það að vera, því varla mundi ráðgjáfinn koma á alþingi til að rjettlæta þar gjörðir sínar.

En, í öðru lagi, hvað skyldi nú frumvarp þetta hafa inni að halda? Skyldi stjórnin ætla að bjóða alþingi að ákveða sjálft, hve mikið fje þurfi til nauðsynja landsins, og leggja svo fram það fje, sem tekjurnar skortir á við útgjöldin. Vjer höfum þó sjeð, að stjórnin hefur áður látið það í veðri vaka, að landið ætti að bera sig sjálft, og ekki væri lengur von til þess, að stjórnin legði fje til þarfa landsins, og að alþingi yrði að geta bent á hvaðan taka skyldi kostnaðinn, ef það vildi beiðast einhvers, sem kostnað leiddi af. Þetta hefur nú stjórnin berlega látið í ljósi, og virðist því ekki þurfa að efast um, að hún haldi þeirri sömu stefnu áfram. Af þessu virðist mega ráða, ef að stjórnin leggur áætlun um tekjur og útgjöld Íslands fyrir þingið, að hún ætlar sjálfsagt þinginu að finna ráð til að jafna reikninginn, það er að skilja, leggja ráð til, að tekjurnar af landinu nái útgjalda-upphæðinni, svo að landið beri sig sjálft, og þetta virðist nú líka sanngjarnlegt. Vjer gjörum nú ráð fyrir, að stjórnin fari ekki fram á meira, og krefjist ekki af oss, að vjer skulum greiða meiri skatt til almennra ríkisþarfa — t. a. m. til hersútbúnaðar á sjó og landi, enda hafa varnir Dana sjaldan orðið oss að miklu liði — og að hún láti sjer lynda að hafa veg og virðing af að ráða yfir oss, og halda oss inn í danska alríkinu. Þessu ætlum vjer að frumvarpið muni fara fram að bezta kosti, og þó kynni það að virðast áhorfsmál að þiggja þetta boð.

Þegar búið er að reita fjaðrirnar af fuglinum, getur hann ekki flogið, það sjá nú allir. Eins liggur það í augum uppi, að þegar óhaganlegt stjórnarfyrirkomulag og dugnaðarleysi sjálfra vor er nú um langan aldur búið að reita fjaðrirnar af velmegun vorri, muni hún ekki vera fær um að fljúga hátt, og oss muni því veita örðugt að bæta á oss þeim sköttum, t. a. m. 20,000 dölum á ári, eins og reikningshallinn nú er orðinn. En oss þætti nú reyndar líklegt að stjórnin gjörði þó ekki ráð fyrir að landið skyldi annast þann hlut útgjaldanna sem gengur til lærða skólans í Reykjavík, því hún hefur nokkurs konar skuldbindingu til að annast hann og launa byskupi fyrst andvirðið fyrir byskupstóla-eignirnar hefur verið látið ganga í konungssjóð. Og auk þess höfum vjer fullkomna heimtingu á því að andvirði klausturjarða og annara þjóðjarða, sem seldar hafa verið, verði reiknað í tekjustofni landsins, og hver veit nema frumvarpið fari því fram. Ef að nú þessu yrði þannig hagað í frumvarpinu yrði munurinn á tekjum og útgjöldum ekki svo mjög mikill, og þá væri að því leyti takandi boði stjórnarinnar.

Vjer getum nú varla vonazt eptir, að frumvarp stjórnarinnar í þessu máli taki allt það til greina sem vjer mundum kjósa enda mundi bágt að gjöra skíran reikning milli Íslands og Danmerkur, ef að skilja ætti fjárhag landanna. Hið mest áríðandi virðist oss, að frumvarpið bæri það með sjer, að stjórnin ætlaði að láta landið njóta fullkomlega sinna eigin þjóðeigna, seldra og óseldra, því hart væri fyrir oss að búa undir því, að hún áliti andvirði hinna seldu þjóðeigna sem eyðslufje, og þá mætti sannarlega segja, að þjóðjarðasalan hefði verið einhver hin skaðlegasta ráðstöfun fyrir land vort og lýð.

Hið þriðja atriði þyrfti líka vel að athuga, hvort vjer erum hæfir að færa oss þessi rjettindi vel í nyt, og vjer getum ekki dulizt þess, að oss virðist það efunarmál. Vjer megum engan veginn hugsa, að af því leiddi nein gullöld fyrir alþýðu, að skattar yrðu burt numdir og álögin minni. Vjer höfum nú í mörg ár sjeð það, að bæði tekjur landsins og útgjöld hafa farið vaxandi, og vjer teljum það víst að svo muni einnig verða framvegis. Eptir því sem þjóðin ver meiru fje sjer til framfara-eflingar, eptir því auk-

ast útgjöldin eðlilega; og þó að þau vaxi, ef til vill í fyrstunni meira en tekjurnar, þá er það eðlilegt, því fyr verður að rækta völlinn en taðan sprettur, fyrri að sá en uppskera, og menn mega ekki ætíð vonast eptir að hin fyrsta uppskera borgi kostnaðinn. Vjer vitum hversu góðir foreldrar vinna baki brotnu fyrir börnum sínum, og vilja heldur þola harðæri en þau bresti, þannig verðum vjer að bera hita og þunga dagsins til þess að búa í haginn fyrir eptirkomendur vora, það sem vjer tökum frá oss og verjum til framframa lands vors, hverra sem er, það er innstæðufje, sem þeir njóta ávaxtanna af. Ef að alþýða vor hugsar ekki þannig, heldur einungis að gjöra sjer lífið sem ljettast og ómaksminnst, ef menn biðja einungis „gef frið um vora daga", og hugsa ekki um annað en leggja sem minnst í sölurnar, eða, ef til vill, nurla einhverju saman, þá eru það arðlausir peningar sem niðjar vorir kunna ekki að færa sjer í nyt, og þá má búast við, að vjer höfum einberan skaða af að ráða nokkru um fjárhag sjálfra vor. það eru þeir peningar sem vjer verjum til að mennta börn vor, bæta jarðarræktina og sjóarútveginn, auka og gjöra auðveldari samgöngurnar meðal vor, sem bera arð fyrir ókomna tímann, en ekki þó að maður safni nokkrum jarðarhundruðum í eigu sína, eða láti fjeð liggja ávaxtarlaust í handraðanum.

Af því, sem nú er talið, vonum vjer, að lesendur vorir sjái hjerumbil tillögur vorar í máli þessu. Ef að stjórnarfrumvarpið skyldi nú verða enn betra og haganlegra fyrir oss en vjer höfum gjört ráð fyrir, þá væri nú á það lítandi; en það er oss mest virðist standi á móti því, að vjer að svo stöddu tökum þessu boði, það er, að oss virðist það koma fram á óhentugum tíma. Oss virðist að fyrst ætti að ráða til lykta málinu um fyrirkomulag Íslands, í ríkinu svo að vjer gætum sjeð, hvaða vald alþingi þá öðlast, því fái það lítið eða ekkert stjórnarvald í öðrum málum, er hætt við að tillögur þess í fjárhagslögunum verði ekki mikils metnar, og að rjettindi þessi verði nafn eitt, og álítum vjer það verra en ekkert. það hefði líka verið æskilegt, að lokið hefði verið jarðamatinu áður en þetta mál skyldi ræða, svo að menn gætu betur sjeð, hvern krapt landið hefur til skattagreiðslu, hvort hin betri niðurjöfnun á sköttunum, sem ætti að verða afleiðing jarðamatsins, leiðir það í ljós, að töluvert megi auka skattana án þess þeir verði þungbærari fyrir alþýðu.

Vjer vonum að lyktum, að stjórnin fari því ekki fram að skorast nú undan að bera nokkur útgjöld til þessa lands, þar sem að allt það er landið átti til að leggja til hinna opinberu stofnana, þjóðjarðir og klaustraeignir, er nú í höndum hennar, og að þingmenn vorir hugsi það mál vel áður en þeir ganga að slíku. þegar verzlunarbandið hefur um svo langan aldur hnekkt velmegun vorri og auðgað stjórnina og Dani, er það sanngjart, að Danmörk láti fram nokkuð fje til vorra þarfa, þangað til hjer er kominn nokkur velmegunarvísir, svo að landið geti borið sig sjálft, án þess að það gjöri því neinn hnekkir.

---

(Aðsent).

## Fátt er of vel athugað.

Austfirðingur einhver í Norðurmúlasýslu hefur ritað langa grein um Ný Félagsrit og kaupendur þeirra m. fl. í 4. ári Norðra 91—93 bls.; en af því hann beinist að okkur Vestfirðingum með álasi, spotti og ósönnum áburði, sem hann byggir á skýrslu í Nýjum félagsritum 16. ár, þá verð jeg að leiðbeina honum dálítið í þessu máli, en ekki ætla jeg að fylgja honum á allri hans krókóttu leið í áminnstri grein hans, því sumt af því, sem í henni er, stendur öðrum nær.

Jeg er hræddur um, að höfundurinn hafi ekki skilið áminnsta skýrslu í fjelagsritunum rjett, og skal jeg því segja honum, hvernig jeg hefi ímyndað mjer rjettan skilning hennar. Jeg held þeir sjeu einungis taldir í skýrslunni, sem hafa ritað sig fyrir kaupi Nýrra félagsrita á boðsbrjefið sem kom með 15 ári þeirra, en þetta hafa þeir líklega helzt gjört, sem við hafa bætzt, en ekki þeir allir sem verið höfðu stöðugir kaupendur þeirra undan farin ár, og ræð jeg þetta af því, að mjer hafa verið send 14 exempl. undan farin ár, og hefi jeg borgað þau eptir skilmálum þeim, er verið hafa að undan förnu, enda þó jeg hafi ekki ætíð getað selt þau öll. Jeg skrifaði einum útgefara ritanna í fyrra, að jeg hefði ekki getað selt þau öll, en nú fjekk jeg að eins 7 exx., og varð það of lítið, svona gæti verið fyrir fleirum. Jeg veit með vissu að prófastur herra Ó. Sívertsen í Flatey hefur keypt rit þessi í sumar, en hvorugs okkar nafn stendur á skýrslunni [1].

[1]) Vjer höfum einungis tekið það úr þessari grein eins Vestfirðings er oss virtist nóg til að sýna, að Vestfirðingar hafa keypt töluvert meira af fjelagsritunum, en Austfirðingurinn ætlar. Abm.

---

**Árni læknir Eyfjörð.**

dáinn 1. apríl 1854.

1. Eitt sinn þá röðull gekk ránar að djúpi
reikaði' eg úti um aptanskeið hljótt,
leit eg til austurs þar húmleitum hjúpi
himininn sveipaði koldimma nótt;
á hugfleygum ljóss-vængum veik þaðan dagur
til vesturs hann geislandi dýrð sinni brá,
kvöldroðinn sló sjer um hvelfingu fagur
unz kransar hans eldrauðir fjellu í dá.

2. Þá vóx með skyndi dimman í dölum
dreifðust um himininn grátþrungin ský,
nöldruðu sorghljóð í fjalltindum fölum
eg fjekk ekki skilið hvað valdið gat því;
dökkleitan skýflóka einn þá eg eygði
upp hvar eð færðist á sjóndeildarbring
frá vestri til austurs með flýtir sjer fleygði
frostköldum helrósum settur um kring.

3. Til mín úr skýinu rödd ein svo ræðir:
„Reikul og skammvinn er hjervistin manns,
dauðinn í aldingarð lífs opt sjer læðir,
og laufeikum frjófgustu sviptir burt hans;
þannnig er mennta- og-mannvinur iðinn
mörgum alkunnur að hreinskilni' og dyggð
hann Árni Jónsson læknir burtliðinn
líf hans hjer upprætti dauðans helsigð".

4. Skýflókinn hvarf mjer eg horfði þá hissa
hjalandi þannig við sjálfan mig lágt:
„Sárt er þig vinur! úr veröld að missa
var þjer nú ákvörðuð helstund svo brátt;
hví ertu Árni svo hraðla burt hrifinn
hjeðan af æskunnar glánsandi braut?
hví ertu helkaldri dökkmóðu drifinn
dauðans, og lagður í Fjörgínar skaut?

5. En — orðstír þinn lifir og mannkosta minning
moldu þó hjúpaður líkaminn sje,
eðallund guðhrædd og ærutilfinning
eign þín var stöðug sem betri var fje;
kurteysa hegðun og málfærið mjúka
mynduðu gáfurnar tilgjörðarlaust,
hönd þín var nákvæm við sára og sjúka,
sinnið frá skorti með árvekni brauzt.

6. Skáldmæltur, glaðvær og eldfjörgur andi
upplífgun gjörði og skemmtun að ljá,
hjartað og svipurinn sífellt brosandi
sakleysis búningi ljeku sjer á;
líf þitt var ofvaxið líkamans kröptum
og langvinnri sambúð við hann hjer á jörð,
sálin því leystist úr hjervistar höptum
hennar var frelsunin bráð'ega gjörð.

7. Eg sakna þín vinur! en sje þig í anda
sólfagran skína guðs hástóli nær;
eg kætist að vita þjer komna til handa
kórónu lífsins þar blessunin grær;
framhalda muntu á friðarins landi
í fegurstu skoðun, og helgri með lyst
í eilífðar hásölum engilblikandi
ilhýru málfæri vegsama Krist.

8. Við munm finnast á vorinu sæla,
og vinskapar minnast á fornkveðin heit,
þar sem að linnir ei líf vort inndæla
og ljúfust viðkynning með heilagra sveit;
þar munum gleðjast um eilífar aldir
og unaði seðjast guðs dýrðarheim í,
þar munu kveðja oss vinir útvaldir
og við aptur geðjast hver öðrum á ný

**J. Á.**

---

(Aðsent).

Það munn allir játa, að oss Íslendingum sje mikil nauðsyn á að fara vel með efni vor og hagnýta sem bezt þá hluti, sem vjer eigum sjálfir og öflum, og verja þeim heldur til eigin hagsmuna en selja þá öðrum þjóðum fyrir lítið verð.

Eitt af því, sem jeg ætla oss væri hollara að nota sjálfum heldur en selja það útlendum er skinnavara vor. Vjer fáum varla meira af henni á ári hverju, en vjer þyrftum sjálfir við, og getum notað oss á ýmsan hátt, ef vjer kynnum bæði að verka þau á rjettan hátt, og seldum svo löndum vorum þau til ýmislegs hagræðis, er þeir þyrftu með, og gætu haft betra af heldur en kaupa þenna varning af útlendum dýru verði.

Skinnavöru þurfum vjer til skæða, sjóklæða, skinnsokka og skinnleista, líka væri skinnavaran hin þarflegasta, ef vjer lærðum að verka skinnin vel og hafa þau til ýmislegra utanhafnar fata, t. a. m. í utanhafnarbuxur, ólpur og peisur, og er það öll furða, að Íslendingum skuli varla hafa hugsazt að nota neitt af skinnavöru sinni þannig. Líka má verka skinnin til belgja og margs annars, t. a. m. bókfells, og úr nautshúðum getum vjer búið oss til gott leður til reiðfæra, beislistaumna og alls, er söðlarar þurfa að hafa við handiðn sína, og væru skinn vor vel borguð með helmingi þess er söðlarar þurfa að gefa fyrir þess konar skinn hjá útlendum. Það væri því ekki lítill hagur fyrir alþýðu alla eða einstaka menn í hverri sveit að vita hvernig verka má skinn, svo að þau geti orðið hæfileg til áðurtaldra afnota.

Allir vita, að þau skinn, sem ætluð eru til skæða eða sjófata verða haldbetri og ófúagjarnari, og það svo miklu munar, ef að þau eru börkuð eða eirlituð. Til skinnabörkunar er almennt hafður eikarbörkur, en í hans stað getum vjer notað birkibörk og sortulyng, en þegar þetta fæst eigi, má nota aðrar jurtir og jurtarætur, sem hafa barkandi bragð, t. a. m. burni (græðirót; Pholypodium), blágresi með rót þess, sem víða á Suðurlandi er notað til litargjörðar í stað sortulyngs (Geranium sylvaticum) fjall-

dala fífill og einkum rót hans (Geum rivale); hann má þekkja af því að blöðin breiðast út með jörðunni, og líkjast mest hálfvöxnum næpnablöðum, stöngullinn sívalur, hjerumbil kvartils langur mjór að ofan með blómknappi, er hangir niður á því efsta og mjósta af stönglinum með saffranlitum blómblöðum. Rjúpnalauf hefur og nokkurt börkunarefni í sjer.

þetta er athugavert við skinnabörkun:

1. Að eigi skal láta skinnin bráblaut í barkarlöginn, heldur á að þurrka þau til hálfs eða meira, áður en þau eru lögð í hann, og hörð skinn skal bleyta, en láta þá vatnið þorna utan af þeim áður en þau eru lögð í hann.

2. Tempra þarf börkunina, því sje skinn barkað um of verður það seigjulaust og of þerrið í sjer, og heldur illa þegar sauma skal. — 3. Ekki er hægt að gefa vissa reglu fyrir því, hvað lengi skinn skal vera í barkarlegi, því bæði fer það eptir þykkt skinnsins, og því hversu sterkur lögurinn er, en það má þó nokkurn veginn ráða af því, að litur sá sem skinnið fær í hverjum helzt legi sje að eins genginn í gegnum það, og má komast að því með að skera litla ræmu af skinninu á hálsi eður skekkli og sjá hvort skinnið er orðið litað í gegn, en sje það eigi má láta það liggja lengur í leginum. — Liggi mönnum á að flýta börkun skinna má bæði leggja skinnið í löginn volgan í fyrstu, og líka gjöra hann svo sem nýmjólkurvolgan einu sinni á dag en taka skinnið upp úr á meðan.

Önnur notkun skinna vorra ætti og mætti vera sú að verja þeim til klæðnaðar og fatnaðar handa oss, og ættu þau þá að halda loðnunni að minnsta kosti að nokkru leyti. Skinn af sumardauðum kindum ættu að halda henni allri, en af haustskornu ætti að klippa gærurnar, og skilja svo mikið af ullinni eptir, sem henta þætti, á þeim fötum er þær væru ætlaðar til. Um meðferð á þeim skinnum er ætluð væru til þvílíks fatnaðar vil jeg gefa þessa fyrirsögn: þegar menn vilja elta loðin sauðskinn til fatnaðar er svo að farið: þyki gæran ekki ofloðin, breiða menn hana út, skafa vandlega úr henni allar kjöthimnur og fitu og vega skinnið, taka síðan svo mikið álún og matarsalt að 2 lóð álúns og ½ lóð af salti samsvari hverju pundi er skinnið vegur blantt, blanda því saman og mylja það vel smátt og sá því jafnt innan í gæruna, leggja hana svo saman tvöfalda og aptur fjórfalda geyma hana svo við yl í 3 eða 4 daga þangað til álúnið með saltinu er bráðið eður gengið inn í hana þar á eptir er hún hengd upp á stag til þurrks og snúið klippingnum út, og þegar þún er þurr orðin má fara að elta hana, þarf eigi til þess brák heldur dugir að núa hana milli handanna þangað til hún er vel elt.

þegar lita á skinnið svart, er tekið 1 pund af brúnspæni og 4 lóð af grænu eður járnviktríli, og soðið svo lengi í vatni, að krapturinn sje úr brúnspæninum, og hafi vatnið verið svo mikið, að þessi lögur þyki ofþunnur, er hann seyddur þangað til hann er mátulega þykkur og borinn svo á skinnið volgur með bursta, en takist liturinn ekki vel í fyrsta sinni, má bera hann á aptur þar sem ekki þykir vel hafa litazt.

Ef menn vilja lita skinn blátt, skal hafa álún í stað viktrílsins, en rauðatrje (Fernambuk), ef menn vilja lita rautt, en aðferðin er öll hin sama.

Jeg vona að mönnum skiljist, hversu miklu betra það væri að nota þannig skinn vor til fata, í pelsur og stakka í vetrarkuldunum, því engi föt getum vjer fengið jafnheit og skjólgóð, heldur en að láta þau í kaupstaðinn fyrir svo gott sem ekkert, því kaupmenn borga svo gærurnar lítið meir en ullin er verð.

Rotuð skinn má elta til bókfells á líkan hátt og hin loðnu, en þó með þeim mun að bera í þau álún eða lítið af salti með því.

þeir sem vita kunna betri aðferð en hjer sagða til að elta skinn til iverufatnaðar, eður kynnu að súta skinn, hrossleður og nautsleður, til söðulskinna, gjörðu mjög vel í að kenna mönnum aðferðina með að lýsa því á prenti.

---

## Vegabótareglugjörðin.

Lesendum vorum er það kunnugt, að hið síðasta alþingi vort 1855 sendi konungi bænarskrá og beiddist frumvarps um vegabótalög, er byggð væru á þessum atriðum:

1. að skylduvinna bænda til vegbóta, yfir höfuð að tala sje tekin úr lögum.
2. að öllum kostnaði til endurbótar þjóðveganna í hverju amti sje jafnað niður af amtmanni eða amtsráði á alla amtsbúa undanþágulaust, sem eiga löglega með sig sjálfir.
3. að endurbót allra þeirra hjeraðavega, sem ekki eru alfaravegir eða þjóðvegir, hvernig hana skuli vinna, og hvort heldur fyrir daglaun eða skylduvinnu, kostnaði til hennar niðurjafna; ákveði þær hreppstjórnir og sýslustjórnir, sem nú eru eða skipaðar verða að lögum.
4. Að yfirvaldið eigi rjett á að skera úr því, hverjir vegir sjeu þjóðvegir, og hverjir ekki, einnig hvar vegabót sje nauðsynleg, hvort heldur er þjóðvegur, eður eigi.

Af því vjer höfum nú frjett, að stjórnin hafi nú tekið svo fljótt og vel í þetta mál, að nú eigi að leggja fyrir alþing í sumar frumvarp til vegabótalaga eða vegabótareglugjörðar, viljum vjer fara nokkrum orðum um þetta mikilvæga málefni.

því verður ekki neitað, að land vort er stórt og örðugt yfirferðar, og miklir örðugleikar fyrir hina fámennu og aflalitlu þjóð vora að gjöra góða vegu í landinu, enda má það með sönnu segja, að vegirnir eru hjer víðast hvar eins og hestarnir hafa gjört þá, og svo að kalla hvergi sjást nokkur mannvirki, sem teljandi sjeu, á vegum vorum. Vjer getum nú ekki annað en verið hinu síðasta alþingi öldungis samdóma í því, að þetta muni koma að miklu leyti af því, hve óhentugar þær lagareglur eru, sem gilt hafa hingað til og enn gilda um vegabætur, og að uppástunga þings-

ins um aðtekningu skylduvinnu í því efni sje rjett. Oss furðar reyndar á því, að þingið viljandi skyldi sneiða öldungis hjá því að tala um á hvaða gjaldstofn leggja ætti vegabótaskattinn, því oss virðist það verra en ekki neitt að ákveða að kostnaðinum skuli jafna niður á alla amtsbúa undanþágulaust, sem eiga löglega með sig sjálfir, þegar ekkert er drepið á eptir hverjum reglum það skuli gjört.

Vjer vonum nú að stjórnin í reglugjörð þessari taki það allt vel fram, hvernig vegabótum skuli haga, svo að hætt verði að gjöra þær eins og verið hefur, að þar sje gjörður krókur á leiðinni, sem hann þarf ekki að vera, og vegurinn sje einlægt grafinn niður í stað þess að hlaða hann upp, o. s. frv.; og að stjórnin gefi skynsamlega reglu fyrir niðurjöfnun kostnaðar þessa, svo að þurrabúðarmaðurinn í kaupstaðnum, sem engan hest á, og ekkert fer, og sjóarbóndinn, sem fer allar ferðir sínar sjóleiðis, þurfi ekki að gjalda eins mikið og embættismaðurinn eða landbóndinn sem á og hefur til ferða 10 til 20 hesta. Það virðist oss eptirtektavert sem einn góður bóndi stakk upp á við oss, að skatturinn til vegabóta yrði lagður á hesta-eignina, svo að hver sá sem hest ætti, skyldi gjalda t. a. m. 2 til 3 mörk til vegabóta, og yrði það ekki alllítið árlegt gjald og mundi hrökkva langt til vegabótanna á alfaravegum, sem gjörðar yrðu á ári hverju. Það eru hestarnir sem troða veginn og slíta honum, og því virðist það ekki ósanngjarnt að hesta-eigendur borgi ríflega til vegabótanna. Oss getur ekki skilizt hvernig yfirvöldin, eða sýslu og sveitastjórnir, geta jafnað slíkum sköttum niður, sem eiga að ná yfir alla, er eiga með sig sjálfir; það yrði líklega að ganga álíka og með niðurjöfnun útsvarsins til sveitarþarfinda, og vita menn hve örðugt veitir að gjöra niðurjöfnun þessa sanngjarnlega, þar sem það á að vera nokkurs konar tekjuskattur, og opt yrði það ofan á, að þeir yrðu þannig að gjalda mest til vegabóta, sem minnst þyrftu á vegunum að halda.

Þetta mál er svo áríðandi fyrir oss að jeg efast ekki um, að alþingismenn vorir gjöri allt sem í þeirra valdi stendur til að leysa það vel af hendi, og bæta um frumvarpið þar sem þess þarf við. Vegabæturnar eru skilyrði fyrir meiri og betri samgöngum hjá oss, og samgöngurnar efla og glæða fjelagslíf og þjóðlíf vort, og að því þurfum vjer að hlynna af fremsta megni.

## Ávarp.

Af Þjóðólfi 9. ári, bls. 72. 2 dálki, má sjá, að það er nú í ráði, að Borgfirðingar reisi minnisvarða yfir föðurlandsvininn, prófast H. sál. Stephensen; eru það því vinsamleg tilmæli mín, að allir þeir hjer nærlendis, sem finna sjer skylt að fylla flokk þeirra, er heiðra minningu hans, gefi til minnisvarðans. Jeg skal fúslega veita þeim gjöfum viðtöku, hvort sem þær eru miklar eða litlar, og annast um að nöfn gefendanna verði auglýst í blöðunum, ásamt upphæðinni.

Akureyri í maí 1857.

J. Borgfirðingur.

---

Til gamans og samburðar við auglýsinguna í 11. — 12. blaði Þjóðólfs þ. á., viljum vjer geta þess, að eitt af hinum frönsku trjeduflum með miða í, fannst á rekafjöru Gunnarsstaða í Þistilfirði, og sendi ábúandinn, Gunnlaugur hreppstjóri Sigvaldason, sýslumanni S. Schulesen miðann, en sýslumaður aptur hinu danska vísindafjelagi.

Auk frönskunnar, sem bar saman við það sem Þjóðólfur segir, var þetta skrifað á hann á ensku:

Þessum seðli var fleygt í sjóinn 9. júlí 1856, kl. $2\frac{1}{2}$ um morguninn í ísinn.

Breidd 68° 0"

Lengd 22° 20' frá Parísar miðbaug.

Hver maður, sem skyldi finna þetta blað, er beðinn að koma því til hins næsta franska fulltrúa, og tilgreina staðinn þar sem það fannst.

En á latínu var þetta á miðanum:

*Quo fluant septentrionalis oceani fluctus testimonium perhibitura ab Hortensia regina, navi jubente Napoleone principe.*

*sub latitudine* 68° 0"

— *longitudine* 22° 20'

*hac in mare ampulla jacta est. Nauticæ scientiæ cult(or?) ad consulem proximæ urbis Gallium referat*[1].

Rússneskuna, sem líka var á miðanum, skiljum vjer ekki.

Þó að vjer getum nú ekki sjeð, að þessi rannsókn norðurhafsstraumanna komi oss að neinum beinlínis notum, vonum vjer, að þeir sem

---

[1]) Þessari flösku (trjeduflí) er kastað í sjóinn (á áður nefndu breiddar og lengdar mælistigi) af Hortensíu drottningu, skipi, sem Napóleon keisarabræðrungur ræður fyrir, til að bera vitni um, í hverja átt straumar norðurútsævar falli. Sá sem unnir sjóvísindum, skili henni (þ. e. miðanum í henni) til fulltrúa hinnar næstu frönsku borgar.

kynnu að finna þessa „leigla hans Láka“, láti sjer annt um að koma miðunum skilvíslega til hlutaðeigandi sýslumanna.

---

# Mannalát.

16. d. októbermánaðar næstliðinn vetur andaðist í Kristjánssandi í Noregi ágætis konan Maddama Karen Christine, ekkja eptir kaupmann Lever á Akureyri; hún var norsk að ætt og faðir hennar Bergendahl var prestur. Hún varð 68 ára að aldri, og dvaldi hjer á landi 40 ár, þeim öllum hugþekk og harmdauða, er hana þekktu bezt, og henni voru nákomnastir.

þetta auglýsist hjer vinum og kunningjum hinnar framliðnu.

Eins og móðir börnum sinum blíð
býtir ást, og skýlir þíðri mundu,
eins þú leiddir okkur hverja tíð,
og athvarf varst á hverri rauna stundu.
Von er því að falli tára jöld
og fölni okkar kinn af þungum harmi,
fyrst ei máttum efsta æfikvöld
ástkæra verma þig á okkar barmi.

**Wilhelmine Lever. H. W. Lever.**

---

**Sigurður Pjetursson í Ási í Hegranesi.** Dáinn 22 marz 1856.

Eins og bændastjettin er hin fjölmennasta hjer á landi, og allur styrkur lands vors er svo að segja kominn undir styrk og eflingu þessarar stjettar, eins virðist oss enginn maður eins sæll hjer á landi eins og sómasamlegur og heiðvirður bóndi; og ef vjer hugleiðum sögu seinni áranna, þá munum vjer fáa finna, sem í sínum verkahring hafi gjört jafnmikið gagn og hinir bestu af bændum vorum.

Vjer norðlendingar eigum nú að sjá á bak einum ágætasta bónda vorum Sigurði Pjetursyni á Ási í Hegranessþingi í Skagafjarðarsýslu, og því er miður, að vjer höfum ekki fengið neina skýrslu um framkvæmdir hans í lífinn og fráfall hans, en hann er þó svo alþekktur af góðum orðstír, að vjer getum ekki sleppt að minnast hans að nokkru. Sigurður tók við hreppstjórn í Hegranesi fyrir árið 1818 eptir því sem Espólín segir í Skagfirðingasögu, og var hann hreppstjóri í meira en 20 ár. Hann var hinn mesti alúðarmaður í þeirri stöðu, gagnsamur og tillagagóður, og er orð á því gjört, að betra skipulag hafi verið í hjeraði hans en annarstaðar í Skagafirði og meiri samtök manna milli, og hafi það verið honum mest að þakka.

Sigurður sálugi var auðsæll maður, og fór staklega vel með fje sínu, og reyndist æ hinn gjöfulasti og góðgjörðasamasti, sýnir það meðal annars, að hann nú í nokkur ár gekkst fyrir að útvega Sigurði málara Guðmundssyni styrk til að geta stundað íþrótt sína í Kaupmannahöfn, og þó að fyrirtæki þetta gjörir öllum þeim Skagfirðingum, er að því studdu, mikinn sóma, þá átti hann þó mestan hlut að því og mesta þökk og virðing skilið fyrir það, því hann gekkst fyrir því, og lagði sjálfur mest fram.

þessi virðuglegi maður skildi hjer við ekkju og 3 börn á lífi, sem öll eru komin á fullorðins aldur, og öll vel mennt. Vjer vitum að náungar hans geyma minningu hans með sárum trega, og að Skagfirðingar sakna hans eins og maklegt er. Vjer óskum að eptirmæli hans verði börnum hans og sveitungum fögur fyrirmynd.

því eitt veit jeg sem aldrei deyr
dómur um dauðan hvern.

---

# Auglýsingar.

**Tilforordnede**
i den kongelige Landsover samt
Hof og Stadsret i Kjöbenhavn.

Gjöre vitterligt: *at efter Begjæring af Procurator Maag som beskikket Sagförer for Student Ari Arason af Flugumyri i Skagefjords Syssel inden Islands Nord- og Öst Amt, og i Kraft af en denne under 19de dennes meddeelt Kongelig Bevilling, indstævnes herved den eller de, som maatte have ihænde en i Islands Landfoged Contor den 11 Marts 1832 af Finsen, som constitueret Krigsassessor Ulstrups Fraværelse, udstedt Tertiaqvittering for 72 rd. 34 sk. r. S. meddeelt under en trykt, af Finsen bekræftet, Copie, af vedkommende, i Islands Stiftscontor den 11 Marts 1832 af L. Krieger udstedt Ordre til Landfogden om i Jordebogskassen at modtage til Forrentelse i Overeensstemmelse med det Kgl. Rentekammers Skrivelse af 28de September 1822 den Summa 72 rdl. 34 sk. r. S. tilhörende den umyndige Lilie Johnsdatter af Merkegili inden ovennævnte Syssel, hvilken Tertiaqvittering er bortkommen, med Aar og Dags Varsel til at möde for os heri Retten, som holdes paa Stadens Raad- og Domhuus den förste Retsdag i Juli Maaned 1858, Formiddag Kl. 9, for der og da at fremkomme med bemeldte Tertiaqvittering, og deres lovlige Adkomst til samme at beviisliggjöre, da den i modsat Fald paastaaes mortificeret ved Dom.*

*Forelæggelse og Lavdag er afskaffet ved Forordningen 3 Juni 1796.*

*Denne Stævning udstedes paa ustemplet Papiir paa Grund af det Citanten meddeelte beneficium processus gratuiti.*

*Dets til Bekræftelse under Rettens Segl og Justitssecretairens Underskrift.*

Kjöbenhavn, d. 31te Januar 1857.

**(L. S.)**

**A. L. C. de Coninck.**

---

## Uppboðsauglýsing.

Kunnugt gjörist: að mánudaginn 15. dag næstk. júním. um hádegi verður á Akureyri í húsi hreppstjóra Indriða þorsteinssonar haldið opinbert uppboð til að selja jarðirnar:

Mýrarlón í Glæsibæjarhrepp 20 hndr. að dýrleika með 2. kúgildum og 120 álna landskuld, og

þröm í Öngulsstaðahrepp, 20 hndr., með 2. kúgildum og 100 álna landskuld. — Skilmálarnir eru til sýnis hjá undirskrifuðum og verða auglýstir við uppboðið.

Óska jeg því, að kaupendur komi á nefndan stað á tilteknum tíma.

Skrifstofu Eyjafjarðarsýslu, 15 dag maímán. 1857.

**E. Briem.**

---

Nýupptekin fjármörk í Skútustaðahrepp í þingeyjarsýslu.

Stýft hægra, miðhlutað í stúf vinstra
Sigurgeir Jónsson á Skútustöðum.

Sneitt fr., fjöður apt. hægra, stúfrifað, biti apt. vinstra
Jón þorláksson á Skútustöðum.

Sneiðrifað fr. hægra, stýft, gagnbitað vinstra
Sigfús Kristjánsson á Skútustöðum.

Sýlt hægra, miðhlutað í stúf vinstra
Jón Jónsson á Skútustöðum.

Tvístýft apt. hægra, miðhlutað í stúf vinstra
Jónas Jónsson á Skútustöðum.

Stýft, biti fr. hægra, sýlt vinstra
Guðni Jónsson á Arnarvatni.

Tvístýft apt. hægra, vaglskorið apt. vinstra
Sigurður Jónsson á Arnarvatni.

Stúfrifað hægra, sneitt fr., biti apt. vinstra
Anton P. Kristjánsson á Arnarvatni.

---

Nýupptekið mark í þingeyjarsýslu.

Sneitt aptan hægra, gagnfjaðrað vinstra
Grímur Grímsson á Akurseli í Axarfirði.

Hreppstjórar umbiðjast að skrifa þetta mark í viðauka markabóka.

---

Á annan dag páska þ. á. týndust litlar silfurdósir, grafnar á lokinu, á leiðinni frá húsi Indriða þorsteinssonar gullsmiðs á Akureyri út fjöruna og í gegnum bæinn upp að Eyrarlandi. Ef nokkur kynni að finna dósir þessar, er hann beðinn gegn sanngjörnum fundarlaunum, að skila þeim á skrifstofu Norðra.

---

Með skipi sem komið er hingað nýlega, hefi jeg fengið mikið af góðu glaubersalti, sem jeg sel við góðu verði, 8 skildinga pundið, þegar keypt eru 4℔ eða þar yfir.

Stykkishólms apotheki 4. apríl 1857.

B. Jacobsen.

---

## Sundulausir þankar,

(eptir J. Englending).

8.

Hvað kemur til þess, að minning æskunnar er manninum einlægt svo hugföst og hugþekk, því í æskunni getur maðurinn þó ekki staðið straum af sjer sjálfum, og meðan hann er barn, langar hann optast til að vera orðinn fulltíða? það er eins og manninum þyki einlægt betri liðinn tími eða ókominn heldur en sá tíminn, sem yfir stendur, þó að allt sýnist leika honum í lyndi. Von og endurminning gjöra gleðilega liðna stund og ókomna. það er líkt og fyrir smalanum; hann sjer fagra fjallshlíð í vestri, sem sólin er farin að skína á, þar sem hann stendur á hjeluðum túngarði í morgunkælunni, og hugsar gott til að komast þangað; en þegar þar er komið, þykir honum ekki betri vætan á jörðunni og hlíðarbrattinn.

4.

það segja sumir, að mennirnir sjeu hvikulli í ástum en kvennmennirnir, en það er þó varla svo. Í augum meyjarinnar er ástin allopt eins og óljós draumur, þangað til meyjan er orðin móðir, en maðurinn beitir eins í því efni krapti vilja síns; viljakraptur hans lætur hann skilja betur ástand sálar sinnar, og því er hann þar opt alhuga og heilhuga, þar sem, hún vaknar upp af draumi ástarinnar, og gleymir þessum draumi.

5.

Benjamín Franklín ræður ungum mönnum, sem vilja fara að biðja sjer stúlku, að velja hana þar sem margar systur eru, og færir það til síns máls, að þar sem dætur eru fleiri en ein, þá bæta þær hver aðra, keppast á sín á milli, og afla sjer því meiri kosta, gjöra meira og vita meira heldur en einkadóttir, sem eptirlæti foreldranna opt skemmir. þetta er nú til huggunar þeim er eiga margar dætur að gipta.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 13. Júní. 17.

## Keilir og Krafla með kálfi.

Ný-útkomið rit á Akureyri 1857.

Furðaði sig firða drótt,
fjöllin tóku ljettasótt, o. s. frv.

„Opt veldur lítil þúfa þungu hlassi", segir máltækið, og sannast það á meistaranum norðlenzka í bókbandi, Grími Laxdal. Hann er smár vexti, og kominn á þann aldur, að vel mætti halda miðaptan á kolli hans — þegar mannsaldurinn er skoðaður eins og sólarhringur — ekki síður en miðdegi er haldið á Keilistoppi á Suðurlandi. þessi litli herra hefur nú samt með skáldlegri trú sinni gjört litla þúfan, og flutt tvö af fjöllum vorum Keili og Kröflu, sem þó eru allþungt hlass, suður á Hofmannaflöt; og til hvers þá? Til þess, eins og lög gjöra ráð fyrir, að tala um landsins gagn og nauðsynjar; og það er líka synd að segja, að hann komi ekki víða við.

það er nú ekki auðvelt að sjá, hvað bókbindarinn hefur ætlað sjer með þessari ritgjörð sinni, því hann hverfur svo fljótt frá einu efni til annars. Honum er mikið niðri fyrir, en ekki er nú hægt að koma öllum ósköpum fyrir á hálfa örk. þegar hann er nú búinn að labba með fjöllin á Hofmannaflöt, og láta þau heilsast, leggur hann þeim orð í munn, og er svo fyrst að sjá, að Keilir eigi að tala eins og hinir konungkjörnu þingmenn og höfðingjarnir, þó að hann nú reyndar gleymi sjer seinast, og fari að tala í lýðstjórnaranda, vilji láta flytja alþing úr Reykjavík, og prentsmiðjufundinn fyri norðan út á Oddeyri. Kvennfjallið er það nú samt einkum sem á að bera fram skoðanir Laxdals, og tekur henni sárast til sunnudagsins og helgarinnar, hvað stutt hún er orðin hjá oss síðan nýja tilskipunin kom út.

Aðalefninu í ritgjörðinni mun eiga að skipta eptir Keilisræðunum. Hin fyrri byrjar ofarlega í öðrum dálki og nær yfir 3. og 4. dálk. Í þessum kafla lætur Laxdal Keili þilja upp skoðanir sínar um stjórnarássigkomulag vort, og finnst þeim Keili og Laxdal þar margt ábótavant. Byskupinn hefur vald til að breyta boðorðunum; konungkjörnu þingmennirnir og hinir höfðingjarnir samþykkjast orðalaust öll frumvörp stjórnarinnar, til þess að stjórnin bæti við laun þeirra; þjóðkjörnu þingmennirnir (sumir) tala þar ekkert á móti, af því þeir fá 3 rdli í laun um þingtímann og ferðakostnað, og þessi illviljaði hluti alþingismannanna villir þá Jónana og aðra góða þingmenn með alþingistilskipuninni, svo að þeir t. d. þekkja ekki selhaus á sjó; og að endingu drekka höfðingjarnir og byskupinn svo mikið, að þeir vilja með engu móti láta leggja toll á vínföngin nema þeir fái enn meiri launaviðbót, því þeir vita svo hvort sem er, að þessi tollur verður þeim ærið þungbær vegna þess þeir kaupa svo mikið af hinum ljúffengari vínum, Schampania, Cognac, Madera, Porto og alls konar Líkjura —; svo mikinn viðbjóð hafa þeir Keilir og Laxdal á vínföngunum, að þeir geta ekki eða vilja ekki stafa nöfnin rjett, og telja cognac með ljúffengum vínum; faðir Bacchus fyrirgef þeim! — þetta eru nú bendingar ritgjörðarinnar í stjórnfræðinni.

Seinni ræða Keilis er nú miklu sjerstaklegra efnis. það eru lausafrjettir, sem Keilir hefur heyrt suður á land um norðlenzka ritstjórann; og Krafla, sem kemur að norðan, og hefði því átt að geta frætt Keili um, hvort þær væru sannar eða ekki, kemst ekki til þess, því hún verður að fara að taka byskupinn aptur „í þjenustuna". Efnið í ræðu þessari um ritstjórann er nú áþekkt hinu. Keilir og Laxdal telja hann með höfðingjunum, og þá er hann nú sjálfdæmdur: Hann drekkur, er latur og morgunsvæfur, situr við púnsglös og spil fram á nótt, lætur menn bíða eptir Jóns lagabók, sem hann er að gefa út, o. s. frv.

Svo fer Keilir inn í tjaldið hennar Kröflu á Holmannaflöt.

Það eru nú enn einstöku kímileg atriði, sem koma fyrir í ritgjörðinni, sem jeg gat ekki komið laglega inn í þetta ágrip af aðalefninu. Byskupinn var t. a. m. hjerna um árið, þegar hann var á ferðinni, svo fastur við vínflöskurnar, að hann komst ekki til að tala við þá menn, sem vildu leita hjálpar hans til að koma upp kirkju á Akureyri. En þegar það tókst ekki, þá byggði einn af iðnaðarmönnum musteri handa Bacchus, og þar kennir nú, segir Laxdal, prestur, sem hefur hvítan silkihatt fyrir messuskrúða. Það er ekki svo hægt að sjá hvað það er, sem veldur þessum kala herra bókbindarans við Bacchus og musteri hans. Það vita þó allir hjer fyrir norðan, og þess hefði Krafla átt að geta, að herra Grímur Laxdal hafði hjer lengi drykkju- og veitingahús, og jeg ætla jafnvel, að hann hafi verið sá fyrsti, sem hjer á staðnum fjekk leyfi til þess hjá yfirvöldunum. Það skyldi þó ekki vera, að honum sviði það, að þessi atvinnuvegur er þannig kominn úr höndum hans! Hver veit, nema honum sje nú svo annt um að koma upp kirkju, til þess að honum sje hægurinn heima að iðrast þeirra synda, sem hann áður drýgði, þegar hann sem veitingamaður var sann-nefndur prestur Bacchusar?

Það er engan veginn sjaldgæft hjá oss Íslendingum, að kappdeilur hafa risið í ritum, optast um mikils-áríðandi málefni, og að þess konar keppni hafi stöku sinnum gengið úr hófi. Það er eðlilegt, þegar maður hefur einhverja fasta og einbeitta skoðun á einhverju þjóðmálefni, að maður beiti öllu kappi til að verja það sem maður álítur sannleika. Þegar svo stendur á er jafnvel villan fyrirgefanleg, því þá er þó ætíð virðandi leitunin eptir sannleikanum.

Þegar jeg fer að hugsa um, hvað knúð hafi herra Laxdal til að gefa út ritkorn þetta með fallega nafninu, þá verður ástæðan öll önnur en elska til sannleikans. Grímur Laxdal „flanaði", eins og hann segir, til að gefa út annað hepti af fróðlegu Ljóðasafni, og voru kvæðin valin svo í það, að meira en helmingur þeirra var alls ónýtt og staklega ófróðlegt; og handritin voru svo undir búin, að hver maður, sem þekkir nokkuð af kvæðunum, getur sjeð, að þau eru herfilega rangfærð. Jeg áleit það nú skyldu mína að láta alþýðu sjá hvað henni væri boðið, en til þess að hlífa þó Laxdal, lagði jeg ekki þungan áfellisdóm á Ljóðasafnið, og hvernig það væri út gefið, heldur valdi jeg fáeinar dönskuslettur, málleysur og smekkleysur úr Ljóðasafninu, og bjó til úr því lof um Laxdal.

Af því herra Laxdal varð nú bæði, eins og von var, að hugsa um hag sinn og virðing sína sem útgefanda, þá kom guttur í hann við mig; og hann athugaði ekki, að þó hann ætti gott eitt skilið af mjer. Sveini Skúlasyni, þá gat þó ritstjóri Norðra eptir loforði sínu í janúarblaðinu í fyrra, ekki látið bókbindarann sleppa; skylda hans við almenning varð að ganga undan skyldu hans við Laxdal. Það er því víst ekki fjærri lagi að geta þess til, að herra Laxdal hafi ætlað að láta fjöllin hefna fyrir sig, og segja mjer til syndanna, enda verður hann allbeizkur. Hann bregður mjer t. a. m. um, að jeg hafi lært mörg tungumál, en hafi ekkert gagn af því hjer á Íslandi, af því hann og hans líkar skilji þau ekki. Mætti jeg nú ekki skammast mín? Það sem Bergsöe sálugi hefur syndgað í Íslands lýsingu, það bitnar á mjer, þýðandanum, rjett eins og jeg hefði hnuplað ritgjörðinni, og ekki gjört grein fyrir, hver hana hefði samið. Í brjefunum til Kaupmannahafnar á ekki allt að vera rjett hermt; það er nú allíklegt, en því sýnir herra Laxdal það ekki? Jeg sje að honum líka ekki þau fáu kvæði, sem komið hafa í Norðra frá minni hendi; og þau eru nú líklega ekki á marga fiska; en fyrst hann finnur að þeim með parti úr stöku, því kemur hann ekki með hana alla, svo það sjáist, hversu vel hún er hugsuð og orðuð. Hún er svona, hvort sem Laxdal sjálfur eða einhver annar er nú höfundur hennar.

Lærdóms rýra loparaus
lýsir skilning smáum,
elda mýra eyðir gaus
upp úr nýrum hráum.

Beri nú þeir menn, sem vit hafa á kveðskap, þessa stöku saman við þær á 69. bls. Norðra f. á., og dæmi svo um, hverjar skáldlegri eru; og herra Laxdal verður að fyrirgefa mjer, þó jeg skjóti einstöku sinnum kveðling inn í Norðra, þegar hann hefur þótzt fær um að láta prenta sálma eptir sig aptan við bænakver sitt, þó sumir láti sjer um munn fara, að hann eigi þá ekki sjálfur.

Þó sjest nú best, að hann er að hefna sín fyrir Ljóðasafnið, á því, að hann er að hnýta við Jónsbók, og það áður en hún kemur út; það virðist þó ætíð nógur tíminn að finna að bókinni, þegar hún er fullprentuð, og jeg vona að Laxdal

gleymi ekki að gjöra það, þó hann hafi nú þannig tekið dálítið fyrir sig fram.

En herra Laxdal ljet sjer nú eins og áður er sagt ekki nægja að hefna sín fyrir lofið í Norðra um Ljóðasafnið, heldur notar hann tækifærið til þess að koma öðrum hugsunum sínum á prent. Jeg lasta það engan veginn, þó að hann gjöri það, því hver rödd, sem lætur til sín heyra, og vill reyna að skýra þjóðmálefnin, og lagfæra það sem áfátt er í háttum þjóðarinnar, yfirvaldanna sem alþýðunnar, hinna æðri sem hinna lægri, er virðingarverð. En því er nú miður, að herra bókbindarinn kemur hjer ekki vel til dyra. Enginn almúgamaður, sem vill hugsa nokkuð um rit þetta, ef hann sjer það, getur álitið það annað en svívirðilegt níðrit um yfirvöld landsins og alþing vort, og þó eru það embættismennirnir og þingið, sem vjer verðum að treysta á til að halda fram rjettindum vorum, á meðan áhugi alls almennings á þjóðmálefnum vorum er ekki meiri en nú er. Það getur varla hugsazt neitt hlægilegra og undir eins illgjarnlegra en að bregða öllum embættismönnum og lærðum mönnum um drykkjuskap og leti, en segja um leið, að alþýðan erji dag og nótt, og drekki vatn við þorstanum. Þess konar lygar miða til að eyða öllu góðu sambandi milli yfirboðaranna og lýðsins. Þess konar setningar hafa hinir verstu menn á öllum öldum notað til að sasa upp sína líka til þess að umhverfa lögum og rjetti í löndunum og vekja styrjöld og óspektir.

Jeg get ekki verið að fara fleiri orðum um þetta rit herra Laxdals. Mjer þykir það illt hans vegna að hann skyldi gefa það út, því hann hafði ekki of gott orð á sjer áður fyrir það sem hann hefur látið prenta handa almenningi, og hann ætti ekki að reyna til að spilla meira fyrir eigin mannorði sínu. Jeg legg það nú undir dóm almennings, hvort jeg hefi gjört rjett í að finna að Ljóðasafninu, og hvort það er sómasamlegt af Laxdal að troða inn í prentsmiðjuna því sem henni hlýtur að vera til ævarandi smánar, einungis til að svala hefnigirni sinni. Það er almenningur sem á að dæma ónýtu ritin með því að kaupa þau ekki, heldur láta útgefendurna fá þau aptur heim í hlaðið. Og jeg er óhræddur fyrir þessum dómi. Vjer Íslendingar ættum að vera svo skynsamir að geta greint rjett frá röngu, gagnlegt frá gagnslausu í bókmenntunum.

---

Þegar að þau Keilir og Krafla hættu talinu, fór Keilir inn til hennar, en hvað sem þau nú hafa hafst þar að, þá sjest það ekki nema á titlinum „með kálfi“, og er þá svo að sjá sem þau hafi bæði orðið með kálfi, sem þó virðist nokkuð ólíklegt sökum kynferðisins. En hvernig sem kálfurinn er nú undir kominn, þá fylgir hann þó Keili og Kröflu og heitir Ingimundur. Þessi kálfur er kallaður prentari í prentsmiðjunni norðlenzku, og vel að sjer í töfralist og galdri (það er að skilja: náttúrlegum galdri), og hefur gefið út kennslubók í þeirri list eptir allra nýjustu dönsku bókum sem til voru þegar hann fæddist; að minnsta kosti er jeg hræddur um að þessi *allernyeste Hexe- og Konst-Bog*, sem hann kallar, sje ekki sú nýjasta sem núna er, heldur hafi hún einhvern tíma verið það, því svo hygginn er hann að segja ekki ártalið þegar hún eða hinar bækurnar eru gefnar út.— Prentsveininum þykir, að jeg hafi ekki vel efnt orð mín að lýsa áliti mínu á öllum bókum sem út hafa verið gefnar hjer á Akureyri; en 1. hefi jeg aldrei lofað að segja álit mitt um allar bækur sem út eru gefnar; 2. hefi jeg aldrei ætlað mjer að segja álit mitt einungis um bækur sem prentaðar eru á Akureyri, og 3. tel jeg ekki allt, sem prentað hefur verið á Akureyri, bækur eða rit, heldur kalla jeg sumt af því smádót, sem enginn leggur sig niður við að geta um, o. s. frv.; og sjer hann þá að jeg eptir stærð blaðsins hefi haldið loforð mitt fullt eins dyggilega eins og hann hefur haldið loforð sín við prentsmiðjuna síðan að jeg kom honum aptur í þjónustu hennar í fyrra vor. Ekki skilst prentsveininum, eða kálfinum, eins og hann kallar sig, heldur, að bók sín muni ónýt þeim, sem iðki töfralist; og kemur það til af því, að honum þykir sinn fugl fagur; því mjer virðist það liggja í augum uppi, að ef nokkrir leggja sig eptir þess konar hindurvitni hjer á landi, þá sjeu þeir komnir svo langt á leið, að þeir hafi ekkert gagn af þessari litlu og illa völdu töfralist, því annars eiga þeir ekki það nafn skilið, að þeir hafi iðkað þá íþrótt. Kálfurinn heldur einnig, að jeg hefði ekki getað valið betur úr þessum gömlu töfrabókum en hann hefur gjört, og þó að það kunni nú að vera satt, þá hefði jeg að minnsta kosti getað sagt honum, að þessir töfrar væru svo ómerkir, að honum og alþýðu væri betra, að hann legði sig einungis vel eptir prentunarlistinni en fengist ekki við að gefa út töfrafræði. Prentarinn er annars frábærlega hárfleygur í orðfæri sínu, t. a. m. er hann segir: „þetta er sem 1 dropi úr uppsprettulind hans frábæra sjónhverfinga brunns, hjarta hans“. Það eru nú víst ekki nema töframenn, sem skilja þenna háleik í málinu, eða það þurfa að minnsta kosti að vera þeir, sem hafa nákvæma tilfinningu á að finna það, sem feitt er á stykkinu, því vel sýnist þar í borið.

Að endingu get jeg ekki skilizt svo við þetta nýsmíði í bókmenntum vorum, að jeg ekki lýsi ánægju minni yfir því, að einn af kaupmönnum vorum hjer í bænum hefur nú að sögn í fyrsta skipti gjörzt verndarmaður vísindanna með

því að kaupa mörg exemplör af Norðri þessu. Það er svo sjaldgæft, að einstakir menn hjálpi þannig rithöfundum vorum til að auðga bókmenntirnar, að þeir, sem það gjöra, eiga það skilið, að þess sje opinberlega getið!

**Sv. Sk.**

---

# Frjettir.

**Útlendar.** Síðan að vjer skrifuðum seinast útlendar frjettir hafa oss borizt brjef og blöð utanlands frá fram til miðju maímánaðar, en ekki er þó neitt sjerlega markvert í hinum útlendu blöðum er tíðindum gegni. Schele, utanríkisráðgjafinn danski, sem lengi hefur legið í erjum við hina ráðgjafana, og þótt lítill vinur þjóðernismanna, varð nú loksins að fara frá. Kom það af því að hann hafði af eigin rammleik, og án þess að spyrja hina embættisbræður sína til ráða, svarað þýzku ríkjunum í ágreininginum milli þeirra og Dana um hertogadæmin, og ætluðu því hinir allir að sleppa völdum sínum heldur en þola þenna yfirgang hans. Schele gat nú enga fengið til stjórnar með sjer, og stóð lengi í því, þangað til hann sleppti loksins völdum, en hinir sitja enn við; þó hefur þeim ekki enn tekizt að fá menn aptur í það ráðgjafasæti, er Schele sat í. Ekki er enn lokið deilum Dana við þjóðversku ríkin, en þó eru engar líkur til, að þær leiði til stríðs, því hin ríkin skerast þá að öllum líkindum í leikinn.

Á Englandi hefur það gjörzt, að þingmenn tóku hart á Pálmerston ráðgjafa fyrir aðgjörðir stjórnarinnar í Kínalandi, og þótti þingmönnum ekki hafa verið næg ástæða til að beita hörku við Kínverja. Palmerston vissi það vel, að enska þjóðin mundi vera sjer samdóma í þessu máli, því það var auðvitað, ef að Englendingar slökuðu til við þá, að þeir mundu missa verzlunarhagræði þau, er þeir hafa haft þar í landi, en á hinn bóginn, að sjálfsögð afleiðing af stríðinu væri sú, að þeir gætu brotið þar nýjan veg fyrir verzlun sína. Hann tók það því til bragðs að slíta þinginu og láta kjósa á ný; og hafa kosningar gengið svo, að stjórn hans virðist nú miklu fastari í sæti en hún áður var. Englendingar búa nú út mikið skipalið í Austurheim, og ætla þeir einnig að búa út 50,000 landhers þangað. Þangað er og skipað öllu liði þeirra, sem átti í stríðinu við Persa. Orð er á því, að Frakkar muni gjöra þenna leiðangur með þeim, en ekki var því fullráðið þegar seinast spurðist. Þó að það kunni í snöggu bragði að virðast, að Kínverjar hafi ekki svo mikið til gjört, að þjóðarrjetturinn mæli með því að færa þeim stríð á hendur, þá verður því ekki neitað, að hin mesta nauðsyn er til þess að neyða Kínverja til þess að draga ekki lengur hið frjófsama og fjölbyggða ríki sitt út úr framför og menntun heimsins.

**Innlendar.** Um veðuráttufarið hjer norðanlands í vor viljum vjer geta þess, að af því bráðlega batnaði úr sumarmálunum varð hjer að ætlun vorri enginn fellir, þó víða væru menn farnir að koma fje niður í fóður, og vjer ætlum, að fje hafi víðast hvar gengið allvel undan hjer nyrðra. Vorkuldar hafa verið hjer miklir, eins og von er, því ísinn lá hjer svo lengi við land, og dagana í þessari viku 8., 9. og 10. júní var hjer grimmdarkuldi, og snjóaði ofan undir Eyjafjörð, og þumlungsþykkan ís lagði á vatn er úti stóð í keri hjer á Akureyri. Í Húnavatnssýslu hefur vorkuldinn verið enn meiri en hjer norður, enda hefur íshroði verið inn á Húnaflóa allt til þessa. Hjer í Eyjafjarðarsýslu og austar um hefur ísinn ekki fært mönnum nema kulda og tálmað mjög utferðum hákarlamanna, en í Húnavatnssýslu hafa náðst miklir hvalir. Þeir faktórarnir á Hólanesi, og Skagaströnd Holm og Knudsen ásamt öðrum fleirum mönnum á 5 bátum drápu 3 hvali í vök á milli kaupstaðanna og reru þá síðan í land. Þessir hvalir voru frá 30 til 60 álna að stærð. Aðra 3 drápu sveitarmenn þar nokkru utar í Harastaðavík í Spákonufellslandi, og er sá reki kirkjueign; vjer höfum heyrt að þeir hafi verið álíka að stærð. Jón bóndi í Stöpum, klausturlandseti lagði einn hval til bana og náði honum; hann var 30—40 álna. Enn rak hval á Bakkakotslandi í Skagafjarðarsýslu, er oss hefur verið sagt, að væri Miklabæjarkirkjueign. Rúmar 20 hnýsur voru reknar á land í Víkum á Skaga.. Flugufregnir, sem hingað hafa borizt um illdeilur út af hvölum þessum eru að öllu ósannar.

Af suðurferð amtmanns Havsteins, og þeirra er með honum fóru, hefur það frjetzt með póstinum og Þjóðólfi, að þeir voru komnir suður, en urðu að bíða lengur en þeir bjuggust við, því brjef höfðu komið frá stjórninni, sem aðhylltust alla skoðun amtmanns Havsteins á kláðamálinu og skipuðu amtmannafund, er skyldi semja frumvarp um varnir fyrir fjárkláðanum, er leggja skal fyrir alþingi í sumar og gefa því ályktunarvald til að skera úr málinu, svo að úrskurði þess verði fylgt að minnsta kosti þangað til búið er að bera hann undir stjórnina til staðfestingar. Af því amtmaður Melsteð var nú eigi nærstaddur varð að senda eptir honum, og geta menn því ekki búizt við, að amtmaður vor komi aptur fyr en í byrjun næsta mánaðar. Stiptamtmaður og fundarmenn hinir sunnlenzku halda sterklega fram böðun á fje í kláðalegi áður en það sje rekið á fjöll í vor, og Þjóðólfur mælir með hinu sama. Það er nú svo að sjá, að Þjóðólfur sje að lyktum orðinn trúarveikur með kláðalækningar Teits, enda munu Sunnlendingur velflestir hafa alllítið traust á þeim.

Af hákarlaveiðunum hjer við Eyjafjörð er það að segja að þær byrjuðu með seinasta móti, en hafa gengið ágætavel enn sem komið er. Oddur Jónsson í Hvammi í Grýtubakkahrepp hefur fengið hæstan hlut í einni ferð í vor, 120 kúta lifrar, eða hjerumbil 90 tunnur lifrar á skip. Skipastóll til hákarlaveiða hefur aukizt hjer mjög þetta seinasta ár, og ef að vel aflast, þá geta hákarlamenn líka gjört sjer góða von um að þurfa ekki að sjá eptir því sem þeir hafa lagt í þann kostnað, því lýsi er nú einhver hin útgengilegasta vara vor Íslendinga.

Nóg er komin siglingin hingað til Akureyrar. Auk hinna venjulegu skipa hinna föstu verzlunarmanna hafa 2 skip komið til herra Örums, sem stendur hjer fyrir verzlun þeirri, er herra Havsteen kaupmaður ætlar að byrja með frá nýári næstkomanda, 1 norskur lausakaupmaður frá Björgvin (hjá honum var ágæta gott verð á salti og steinkolum, strengjum og köðlum og sumu af trjáviði). Nýlega er herra lausakaupmaður Tærgesen kominn, og er á orði, að hann muni gefa mjög vel fyrir íslenzku vörurnar; og svo má nú vænta daglega, að Brun frá Kristjanín komi hingað á stórn skipi með alls konar vörur. Lausakaupmaður Robbertsen er líka kominn hingað snemma í þessum mánuði.

Ekki getum vjer frætt menn neitt enn um vöruverð, því eins gengur það og vant er, að ekkert verður uppskátt um prísa fyr en um sjálfan verzlunartímann; þó mun óhætt að fullyrða, að vel verkuð ull verði í háu verði, allt að 40 skildingum fyrir pundið, og að lýsi verði að minnsta kosti tunnan á 30 rd.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 30. Júní. 18.

# REIKNINGUR

## yfir tekjur og útgjöld prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins árið 1856.

| Tekjur. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Eptirstöðvar frá fyrra ári | .... | .. | 122 | 66 |
| 2. Gjafir: | | | | |
| a, frá prófasti B. Vigfússyni á Hólum | 10 | „ | | |
| b, — umbm. E. Stefánssyni á Reinistað | 20 | „ | | |
| c, — presti M. Sigurðssyni á Gilsbakka | 3 | „ | | |
| d, — — G. Bachmann á Hjarðarholti | 4 | „ | 37 | „ |
| 3. Fyrir það, er gefið hefur verið út á kostnað prentsmiðjunnar: | | | | |
| a, fyrir Norðra árin 1853, 1854 og 1855 | 128 | 28 | | |
| b, — Barnalærdómsbókina | 49 | 17 | | |
| c, — Smásögurnar | 15 | 87 | | |
| d, — Markaskrár, er smiðjan á | 3 | 56 | 196 | 92 |
| 4. Fyrir pappír og prentun fyrir aðra: | | | | |
| a, á Norðra árið 1856 | 259 | 75 | | |
| b, - Leiðarvísi A. Sæmundsens, skuld frá f. á. 43rd. 64sk., þar af borgaðir | 28 | 40 | | |
| c, á Ræðum sjera Sveinbjarnar, skuld frá f. á. | 20 | 12 | | |
| d, á Bænakveri búkb. G. Laxdals | 160 | 23 | | |
| e, - Viðaukanum við Norðra | 21 | 21 | | |
| f, - Jarðeplaræktar - bækling J. og H. | 27 | 26 | | |
| g, á Sumargjöf handa foreldrum | 11 | 66 | | |
| h, - Markaskrá Norðurm.s. auk prófarkal. | 37 | 30 | | |
| i, - — Suðurms. — — | 32 | 72 | | |
| k, - — Eyjafjarðars. með — | 50 | 30 | | |
| l, - — Skagafjarðars. — — | 77 | 74 | | |
| m, - Viðauka við markaskrá Húnavatnss. | 3 | „ | | |
| n, - Aldaskrá sjera Jóns Yngvaldssonar | 31 | 7 | | |
| o, - Kvittunarseðlum Kristjáns sýslum. | 1 | 64 | | |
| p, - Ljóðasafni búkb. G. Laxdals 58rd. 44sk., þar af borgaðir | 14 | 47 | | |
| q, á Aldaglaumi búkb. Ara Jónssonar | 10 | 73 | | |
| r, - Hústöflu heilbrigðinnar 81rd. 35 sk., þar af borgaðir | 40 | „ | | |
| s, á Lestrarbók sjera Sveinbjarnar 151 rd. 81sk., þar af borgaðir | 77 | 1 | | |
| t, á Rímum af Indriða ilbreiða | 19 | 52 | | |
| u, - Leiðarvísi til að hepta fjárkláðann | 11 | „ | | |
| Flyt | 935 | 41 | 356 | 62 |

| Útgjöld: | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Fyrir letur | .... | .. | 12 | 56 |
| 2. — 5 balla og 1 riis af pappír með umbúðum | .... | .. | 189 | „ |
| 3. Fyrir eldivið | .... | .. | 28 | „ |
| 4. Til ljósa | .... | .. | 13 | 91 |
| 5. Aðgjörð á ýmsu í þarfir prentsm. | .... | .. | 26 | 93 |
| 6. Ýmislegt keypt — — | .... | .. | 34 | 68 |
| 7. Ýms útgjöld | .... | .. | 27 | 2 |
| 8. Ársleiga eptir prentsmiðjuhúsið 53rd., en þar frá dragast aptur 10rd. sem er hluttekning eiganda hússins í aðgjörð þess, eptir | .... | .. | 43 | „ |
| 9. Laun H. prentara Helgasonar | .... | .. | 300 | „ |
| 10. — I. — Ingimundarsonar þ. á. | .... | .. | 214 | „ |
| 11. — drengsins B. M. Stefánssonar frá 1. oktúber 1855 til 31. desember 1856 65rd., ásamt launa viðbót 5rd., eða samtals | .... | .. | 70 | „ |
| 12. Eptir af launum fyrir ritstjórn og útsendingu Norðra 1855 | .... | .. | 11 | 11 |
| 13. Leiga: | | | | |
| a, af þeim 175rd., sem getið er um í fyrra árs reikningi | 7 | „ | | |
| b, af þeim 110rd., sem getið er um í yfirlitinu í fyrra | 4 | 38 | 11 | 38 |
| 14. Til Cand. Sv. Skúlasonar, eptir loforði, þegar hann tæki við Norðra | .... | .. | 100 | „ |
| 15. Borgað af bráðabyrgðarlánum frá f. á.: | | | | |
| a, til sýslumanns E. Briem | 57 | 24 | | |
| b, - Þingeyinga | 20 | 88 | | |
| c, - verzlunar Örum & Wulffs | 100 | 61 | 178 | 77 |
| 16. Af eptirstöðvunum tekjumegin ganga aptur frá | .... | .. | 25 | „ |
| 17. Eptirstöðvar: | | | | |
| a, fyrirfram borgað til Helga prentara | 70 | „ | | |
| b, — — - Ingim. — | 41 | 68 | | |
| Flyt | 111 | 68 | 1285 | 52 |

| Tekjur. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| Fluttir | 935 | 41 | 356 | 62 |
| v, á Dansreglum S. J. Norðmanns . . | 1 | 10 | | |
| x, - Grafskriptum: | | | | |
| 1, fyrir D. heitinn Níelsson . . . . | 2 | 82 | | |
| 2, — bókbindara Þ. Laxdal . . | 1 | 20 | | |
| 3, — S. Sigmundsson á Grýtub. | 2 | 10 | | |
| 4, — prentara I. Ingimundarson | 1 | 36 | | |
| y, á markaskrá Þingeyjars., skuld frá f. á. | 1 | 61 | | |
| z, - svari til homöopathisku bændanna í Norðurlandi . . . . . . . . . | 10 | 45 | | |
| þ, á, Hjaltalín og Homöopöthunum . . | 21 | 64 | | |
| æ, hluttekning Helga prentara á endurprentun 1 arkar af útleggingartilraun sjera H. Espólíns . . . . . . | 4 | „ | 974 | 24 |
| 5. Bráðabyrgðarlán tekin þetta ár: | | | | |
| a, hjá Benedikt járnsmið Þorsteinssyni | 9 | 48 | | |
| b, — Jóni bónda Jónssyni á Kambst. | 23 | 3 | | |
| c, — verzlun Örum & Wulffs á Akureyri | 49 | 38 | 81 | 89 |
| Alls | .... | .. | 1412 | 79 |

| Útgjöld. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| Fluttir | 111 | 68 | 1285 | 52 |
| c, fyrirfram borgað til drengsins Baldv. | 10 | „ | | |
| d, í peningum . . . . . . . . . . . . | 5 | 55 | 127 | 27 |
| Alls | .... | .. | 1412 | 79 |

**Athugasemd:**

*Þeir, sem vilja kynna sjer reikninginn betur, geta fengið að sjá skilríki fyrir honum hjá sjera Sveinbirni Hallgrímssyni á Akureyri.*

**Prentsmiðjunefndin.**

# YFIRLIT

## yfir efnahag prentsmiðju Norður- og Austur-umd. við árslokin 1856.

| Eigur. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Áhöld: | | | | |
| a, samkvæmt fyrra árs yfirliti . . . . . | 1317 | 72 | | |
| b, letur keypt 1856 fyrir . . . . . . . | 12 | 56 | 1330 | 32 |
| 2. Pappír m. fl., auk umbúða . . . . . . | ..... | .. | 452 | 70 |
| 3. Skuldir hjá öðrum fyrir pappír og prent.: | | | | |
| a, umboðsm. A. Sæmundsen fyrir leiðarvísirinn, eptirst. 1855. 43rd. 67ß síðan er borgað . . . . . 28 - 40 - | 15 | 27 | | |
| b, bókb. G. Laxdal fyrir fróðlegt ljóðasafn. . . . . . . . . . . . . 58rd. 44ß þar af er borgað. . . . . 14 - 47- | 43 | 93 | | |
| c, sama manni fyrir 2 arkir af nýju ljóðasafni . . . . . . . . . . . . . | 23 | 35 | | |
| d, verzlunarfulltrúa B. Jónssyni fyrir hústöflu heilbrigðinnar . 81rd. 35ß þar af er borgað . . . . 40 - „ - | 41 | 35 | | |
| e, sjera Svb. Hallgrímss. fyrir afmælisd. | 53 | 66 | | |
| f, sama manni fyrir ræðu hans. . . . | 14 | 25 | | |
| g, Cand. Sv. Skúlasyni fyrir lestrarbók sjera Sveinbjarnar . . . 151rd. 81ß þar af er borgað. . . . 77 - 1 - | 74 | 80 | | |
| h, sama manni fyrir 15 arkir af Jóns Lagabók . . . . . . . . . . . . . | 242 | 52 | | |
| i, sama manni fyrir 3 örk af Norðra 1857 | 67 | 35 | 576 | 64 |
| Flyt | ..... | .. | 2359 | 70 |

| Fjárstofn og skuldir: | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Gjafir til stofnunar prentsmiðjunnar: | | | | |
| a, samkvæmt fyrra árs yfirliti . . . . | 1408 | 54 | | |
| b, greiddar árið 1856 . . . . . . . . | 37 | „ | 1445 | 54 |
| 2. Samlagshluti kaupm. Á. Ásgeirssonar | ..... | .. | 100 | „ |
| 3. Skuldir: | | | | |
| a, lán án leigu, samkv. f. á. yfirliti . | 610 | „ | | |
| b, — á — — — — — . | 285 | „ | | |
| c, bráðabyrgðarlán tekin 1856: | | | | |
| 1, hjá Benedikt járnsm. Þorsteinssyni á Akureyri . . . 9rd. 48ß | | | | |
| 2, hjá Jóni bónda Jónssyni á Kambstöðum 23 - 3- | | | | |
| 3, hjá verzlun Örum & Vulffs á Akureyri . . 49 - 38- | 81 | 89 | 976 | 89 |
| 4. Ávinningur . . . . . . . . . . . . | ..... | .. | 596 | 35 |
| Flyt | ..... | .. | 3118 | 82 |

| Eigur. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| Fluttir | .... | .. | 2359 | 70 |
| 4. Eptir af andvirði óborgaðra og óseldra bóka, er smiðjan á: | | | | |
| a, Norðra 1853—55, eptirst. 402rd. 12ß síðan er borgað .... 128 - 28 - | 273 | 80 | | |
| b, Lærdómsbókinni, eptirst. 166rd. 44ß síðan er borgað .... 49 - 17 - | 117 | 27 | | |
| c, Smásögunum, eptirst. . 219rd. 53ß síðan er borgað .... 15 - 87 - | 203 | 62 | | |
| d, Markaskrám smiðjunnar 17rd. 16ß + 23rd. 48ß = ...... 40rd. 64ß síðan er borgað ..... 3 - 56 - | 37 | 8 | 631 | 81 |
| 5. Eptirstöðvar, eptir reikningi fyrir árið 1856 ................ | .... | .. | 127 | 27 |
| Alls | .... | .. | 3118 | 82 |

| Fjárstofn og skuldir. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| Fluttir | .... | .. | 3118 | 82 |
| Alls | .... | .. | 3118 | 82 |

Athugasemdir:

1. *Slit á stíl og áhöldum er ekki tekið til greina í þessu yfirliti.*
2. *Andvirði þess, sem enn er óselt af smásögunum og markaskrám smiðjunnar má búast við að missist smiðjunni að meiru eða minna leytinu; eins er enn töluvert óselt af þriðja ári Norðra, sem líklegast er að lítið fáist fyrir.*

## Prentsmiðjunefndin.

---

Samkvæmt auglýsingunni í 11. og 12. blaði Norðra þ. á. var almennur prentsmiðjufundur haldinn á Akureyri næstliðinn 15. dag júnímánaðar, og voru þar allir nefndarmenn á fundi, nema prófastur sjera Daníel Halldórsson, sem hafði tilkynnt meðnefndarmönnum sínum forföll sín brjeflega, og beðizt undan kosningu í nefndina framvegis. Alls voru á fundinum 20 til 30 manns. Forseti var ritstjóri Sveinn Skúlason.

Aðalumtalsefni á fundinum var fjárhagur prentsmiðjunnar; og sökum þess að 5 ár voru nú liðin síðan þeir menn, er um er getið í fyrsta ári Norðra 17. bls., lánuðu prentsmiðjunni peninga leigulaust um svo langan tíma, þá sögðu nú nokkrir þessara manna lánunum upp. Það voru þessir:

Sjera Jón Thorlacíus í Saurbæ . . 50 rd.
Þorsteinn járnsmiður Þorsteinsson á Víðivöllum . . . . . . . . . . 100 -
Stephán bóndi Magnússon á Tungu á Svalbarðsströnd . . . . . . . . . 25 -
og Sigurður bóndi Sigfússon á Breiðabóli 25 -

Allir þessir menn fjellust þó á þá uppástungu nefndarinnar, að fyrst að lánunum væri ekki fyrri upp sagt, skyldi prentsmiðjan mega halda þeim til loka yfirstandandi reikningsskaparárs; þó skyldi prentsmiðjan gjalda lögleigu af þeim fyrir þetta ár.

Þar á móti kom Guðmundur bóndi Davíðsson í Hjaltadal, sem líka hafði lánað prentsmiðjunni 100rd. leigulaust í 5 ár, fram á fundinum, og beiddist að fá helming borgaðan í sumar af láni sínu, en kvaðst gefa prentsmiðjunni 30 dali af þeim 50, sem þá stæðu eptir, en lána henni 20 fyrir lögleigu um nærsta fimm ára tíma, og þakkaði forseti og nefndin honum fyrir þetta örlyndislega boð sitt. Jón læknir Finsen gaf prentsmiðjunni einnig á þessum fundi 5 rd.

Þar næst var rætt um, að svara skyldi umkvörtunum Ásgeirs kaupmanns Ásgeirssonar, yfir því, að honum hefði ekki verið sent reglulegt hlutabrjef fyrir eign sinni í prentsmiðjunni, og þótti bezt hlýða, að nefndin skrifaði honum til um það.

Forseti kvartaði yfir því, að einn af nefndarmönnunum Grímur Laxdal hefði gagnstætt reglum nefndarinnar látið prenta rit eitt, sem prentsmiðjunni væri lítill sómi að, á laun við nefndina; stakk hann því upp á að kjósa skyldi ritnefnd, sem skoða ætti allt, sem kæmi til prentunar, og ákveða hvort og í hverri röð það skyldi komast að, og fjellust fundarmenn á það, og voru kosnir í þá nefnd: Jón læknir Finsen, Sveinbjörn prestur Hallgrímsson og Sveinn ritstjóri Skúlason.

Að síðustu var rætt um nefndarkosningu, og var fyrst stungið upp á, að einungis 5 skyldu vera í nefndinni, og það samþykkt með atkvæðafjölda, og virtist það einkum í umræðunum styðja

að þessu, að það þótti örðugt að fá nefndina saman, og alla til að taka þátt í störfum nefndarinnar, þegar svo margir væru í henni.

Í nefndina voru þessir kosnir:
Sveinbjörn prestur Hallgrímsson á Akureyri.
Jón prestur Thorlacius í Saurbæ.
Jón læknir Finsen á Akureyri.
Grímur bókbindari Laxdal á Akureyri.
Sveinn Skúlason cand. philos. á Akureyri.

Þar eð fleiri málefni voru ekki borin fram á fundi til umræðu var síðan fundi slitið.

**S. Skúlason.**

## Opið brjef
### um að stofna bygginganefnd á verzlunarstaðnum Akureyri.

1. gr. Í bygginganefndinni skulu vera sýslumaðurinn í Eyjafjarðarsýslu, 2 menn er þeir skulu kjósa, sem lóð eiga á verzlunarstaðnum, og 2, er amtmaður kýs, og á hann öðrum fremur að nefna til þess þá menn, sem bera skyn á húsasmíði.

2. gr. Kosningarrjettur er bundinn einungis við fullan lögaldur, óflekkað mannorð og eigin fjárforráð, en kjörgengir eru ekki nema þeir, sem eiga trjehús eða steinhús á kaupstaðarlóðinni.

3. gr. Nefndarmenn skulu vera kosnir til 6 ára.

4. gr. „Nefnd þessi á hjer eptir samkvæmt tilskipun 17. nóvemberm. 1786, 5. gr., að taka til húsastæði til allra nýrra húsa er byggja skal, svo og til garða, ef enn virðist vera rúm fyrir þá á lóð verzlunarstaðarins, og einnig til jurtagarða, en til þeirra má þó að eins taka brekkuna. Til þessa þarf eptir á að fá samþykki hjá amtmanni. Síðan lætur sýslumaður mæla hlutaðeigendum út lóðir þessar; eiga þeir svo að umgirða þær og nota innan tveggja ára; annars falla þær aptur til verzlunarstaðarins.

Til þess verzlunarstaðurinn hjer geti orðið byggður eptir ákveðinni reglu, ber nefndinni enn fremur með samþykki amtmannsins að ákveða, hvar auð svæði megi vera, og hvar leggja skuli strætin; á sýslumaðurinn í því skyni að gefa nefndinni skýrslu um þær lóðir, er hann einn áður hefur mælt út; skal svo nefndin rita þær í sjerstaka bók, og svo lóðir þær, er hún sjálf úthlutar. Kostnað þann, sem leiðir af því að útvega bók þessa, og aðrar þær embættisbækur, er nefndinni kynni þykja við þurfa til að rita í gjörðir sínar og brjef, skal til bráðabyrgða greiða úr jafnaðarsjóði amtsins, þangað til verzlunarstaðurinn sjálfur kann að eignast sjóð út af fyrir sig.

5. gr. Til þess að koma á betri reglu um húsabyggingar á verzlunarstaðnum, og komast hjá hættu af húsbruna, ber nefndinni að gæta þess, er nú skal greina:

A. Ef nefndinni þykir þurfa að breikka eitthvert stræti, eða þoka einhverju eldra húsi aptur á við, til betri varnar við húsbruna, eða til að fá greiðari veg um verzlunarstaðinn, þá skal sjerhver sá, sem úthlutuð hefur verið óbyggð lóð, er veit að stræti, skyldur til að láta af hendi svo mikið af lóð þessari, sem þurfa þykir til þess strætið verði nógu breitt, og skal einnig sá, er húsið á, vera skyldur til, þegar hann byggir upp húsið á ný, að færa það aptur á við eins og þarf; þó skulu þeir fá endurgjald fyrir það af verzlunarstaðnum; skal nefndin, með samþykki amtmannsins, meta það eptir stærð og verði alls byggingarsvæðisins, og rýrnun þeirri sem það hefur orðið fyrir, við það, að af því hefur verið tekið, eður hús flutt aptur á við, og jafna því niður á innbúa verzlunarstaðarins, þannig, að helmingurinn komi á hina eiginlegu húseigendur, eptir flatamáli húsa þeirra, en helming greiði allir þeir, er lóð hafa fengið úthlutaða, eptir stærð lóðar þeirrar, er hver hefur fengið, án þess tillit sje haft til þess, til hvers hún hefur verið notað.

B. Þess ber grandgæfilega að gæta, þá er byggð eru ný hús þar sem áður var autt svæði, að þau hvergi nái saman við hús þau, sem í grennd eru, og skal ávallt vera 10 álna autt svið frá hinu nýja húsi að næsta húsi í grennd við það; þó má á þessu svæði byggja grindur eður aðrar girðingar, þær er skjótlega mætti niður brjóta, ef húsbruni kæmi fyrir.

C. Þegar byggja skal nýtt hús, á nefndin að ákveða takmarkalínu þess út til strætisins, og aðrar reglur, sem henni þykir þurfa að gæta við byggingarlag hússins bæði að utan og innan, til tryggingar mót húsbruna. Um þetta skal síðan leita samþykkis amtmanns. Enn fremur ber nefndinni að gæta þess svo sem verður, að iðnaðarmenn þeir er hafa þá atvinnuvegi, er óttast mætti, að hljótast kynni húsbruni af, fái hússtæði á afviknum stöðum. Svo skal nefndin og hafa stöðugt gætur á öllum nýjum húsum, meðan þau eru í smíðum. Einnig á hún að hafa umsjón með aðalviðgjörðum á húsum, og gæta þess nákvæmlega, að þeir sem hlut eiga að máli hlýði grannt reglum þeim, sem þeim eru settar.

D. Sjerhver sá, sem ætlar að byggja hús af nýju, eða breyta gömlu húsi, eða gjöra talsverðar umbætur á því, á, áður en hann byrjar á því, að gefa nefndinni það til vitundar, og fá skriflegar ákvarðanir hennar, er sjeu samþykktar af amtmanni, um það, hvort hann megi byggja og eptir hverjum reglum, að því leyti sem snertir augnamið það, sem um er getið í greininni C hjer á undan“.

E. Um sektir þær er við liggja, ef út af þessum reglum er brugðið.

6. gr. Reglugjörð þess skal einnig gilda um hús þau á lóð verzlunarstaðarins, sem byggð eru með torfþaki og torfveggjum, og jurtagarða þá, er til þeirra heyra, að því leyti sem það getur við átt.

---

☞ Síðan menn lásu ritgjörðina í 28. bl. Þjóðólfs, sem út kom 6. d. þ. m. með þessari yfirskript: „Oss frá Páfans vondum vjelum verndi bezt og Tyrkjans grjelum“! hafa margir látið í ljósi þá ósk sína að vita, í hverju hin katólska trú, sem Þjóðólfur segir, að nú verði farið að boða mönnum, sje frábrugðin hinni lúthersku trú, sem vjer játum. Þessi ósk manna hefur leitt mig til þess að láta nú prenta ritling, sem tekur fram og skýrir frá þeim atriðum, er kathólskan mismunar í frá trúarjátningu vorri. Ritling þessum fylgir sem formáli áminning, sem Lúther gaf kristnum mönnum á sínum dögum.

Akureyri 30. d. júním. 1857.

**Svb. Hallgrímsson.**

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 15. Júlí. 19.—20.

## Suðurferð
### amtmanns Havsteins og norðlendinga til að rannsaka kláðamálið og semja um það við sunnlendinga.

Vjer höfðum lofað lesendum vorum að skýra þeim frá því í Norðra, hvaða árangur yrði af ferð amtmanns vors suður, og hverjar ráðstafanir hann og önnur yfirvöld landsins nú hafa gjört til varnar fyrir útbreiðslu hinnar útlendu drepsóttar í sauðfjenaði, sem geysar nú um Suðurland. En af því að flestar skýrslur um málefni þetta hafa verið fengnar alþingi í hendur, þá verða lesendur vorir að láta sjer í þetta skipti nægja með stutt ágrip af hinu helzta sem gjörzt hefur í þessu máli, og hvernig því nú er komið.

Amtmaður hafði kvatt til ferðar með sjer 1 mann úr hverri af hinum 4 vestari sýslum umdæmisins, og voru til þessa kosnir úr þingeyjarsýslu varaþingmaður Sigurður hreppstjóri Guðnason frá Ljósavatni, úr Eyjafjarðarsýslu Stephán alþingismaður Jónsson frá Steinstöðum, úr Skagafjarðarsýslu Ari stúdent Arason frá Flugumýri og úr Húnavatnssýslu Erlendur hreppstjóri Pálmason frá Tungunesi.

Í Hnausum í Húnavatnssýslu hjelt amtmaður fjölmennan fund við Húnvetninga, og voru þar lagðar fram skýrslur úr öllum hreppum sýslunnar, yfir 3. skoðunargjörð á fjenaði, er fram hafði farið í næstliðnum marzmánuði. Þó að það virtist nu fullsannað af skýrslum þessum, að enginn annar kláði hefði verið í Húnavatnsýslu en hinn almenni óþrifakláði, bauð amtmaður sýslumanni að kalla saman nokkra bændur í Miðfirði til fundar að Melstað, því þaðan höfðu borizt ýmsar sögur norður og suður, að kláði hefði verið þar venju meiri. þessir bændur, sem voru frá þeim bæjum þar sem mest hafði borið á kláðanum báru það fyrir rjettinum, að þeir hefðu ekki orðið varir við neinn annan kláða á fjenaði sínum í vetur en hinn vanalega, innlenda og alþekkta óþrifakláða, þó heldur sumstaðar með-meira móti, og þenna framburð staðfestu þeir með eiði. Á meðan á rjettarhaldi þessu stóð, ljet amtmaður þá Sigurð Guðnason og Ara Arason skoða fjeð á þessum bæjum, þar sem mest hafði borið á kláðanum — því áður hafði verið skipað að hafa það allt heima við — og sáu þeir engan ókennilegan kláða á því fje, en það kom illa fyrir sjónir, var magurt og ullin óhrjáleg, og þó að lúsin væri þá orðin lítil á því, var þó auðsjeð, að hún hafði verið töluverð, og að fjeð hafði verið mjög illa hirt. þetta álit sitt á fjenaðinum staðfestu þeir Sigurður og Ari með eiði. Eptir beiðni amtmanns var Jósep hjeraðslæknir Skaptason við á Melstað; voru reknar þangað nokkrar lökustu kindurnar, og skoðaði læknirinn þær nákvæmlega og með sjónauka, og leitaði hann með athygli eptir því, hvort hann sæi nokkur merki til sunnlenzku kláðasýkinnar, t. a. m. kláðamaurinn, sem kveikir sóttnæmið, en hann fann alls engin ókennileg kláðamerki á fjenaði þessum — þegar það var nú þannig orðið vafalaust sannað, að allt fje í Húnavatnssýslu var algjörlega frítt frá öllum hinum mörgu og illu einkennum drepkláðapestárinnar sunnlensku, ákvarðaði amtmaður, að setja skyldi varnarlínu frá Hrútafjarðarbotni til Langajökuls, 28 valda menn úr Húnavatnssýslu og aðra línu með 4 mönnum milli Hofsjökuls og Langajökuls.

þegar amtmaður og fylgdarmenn hans komu suður í Mýrasýslu, hafði allur fjenaður verið þar vandlega skoðaður en hvergi hafði þar borið á hinni útlendu fjársýki, en á almenna lúsakláðanum hafði borið þar í meira lagi; og hefur það, ef til vill, bæði þar og hjer nyrðra einungis komið af því, að menn hafa betur en að undan förnu tekið eptir honum vegna hinna sífelldu fjárskoðana.

þegar kom suður fyrir Hvítá í Borgarfjarðarsýslu var allt öðruvísi ástatt. þar var hinn

vondi sóttnæmi kláði kominn í flestar sveitir, og fóru þeir Erlendur Pálmason og Sigurður Guðnason þar víða um sveitir og spurðu skýrslum um útbreiðslu sýkinnar, og sönnuðu þær allar, að þar sem kláðasýkin hefur komið í fjenað manna, er alstaðar hægt að sanna að hún hefur í fyrstu flutzt frá Miðdalsfjenu, af kind á kind, bæ frá bæ, og hvergi komið nema fyrir samgöngur við kláðasjúkt fje.

þegar að suður kom, og amtmaður vor sá, að hann þurfti að dvelja þar nokkuð lengi meðan beðið var eptir amtmanni Melsteð, sendi hann fylgdarmenn sína austur og víðar til að kynna sjer mál þetta sem gjörsamlegast. Í Rangárvallasýslu hafði kláðasýkin flutzt í haust með manni, sem flutti þangað búferlum í fyrra vor úr Árnessýslu, en rak geldfjenað sinn í haust í forboði tveggja yfirvalda austur yfir þjórsá. Fjenaður þessa manns, og tveggja annara, sem höfðu fengið skepnur hjá honum í haust, sýktist af kláðapestinni, og var fjenaðurinn drepinn hjá þeim öllum, og hefur síðan ekki orðið vart við pestina þar í sýslu, og sýnir þetta dæmi hverju niðurskurðurinn getur til leiðar komið.

Um alla Árness sýslu hefur fjársýkin geysað nema um Selvogshrepp, og það sumstaðar fjarskalega. Frá Bitru dreifðist hún fyrst út, og er nú komin á marga bæi um allt hið stóra, fjármarga og góða svæði, sem er á millum þjórsár og Ölfusár; en frá Ölfusá til Hvítár í Borgarfirði, er fjársýkin alstaðar upprunnin frá Miðdalsfjenu.

það hryggir oss, að doktor Hjaltalín og Teitur dýralæknir, stiptamtmaðurinn og fleiri aðrir sunnlendingar hafa ekki enn viljað sannfærast um, að sýki þessi sje svo ólæknandi eins og hún reynist og verður að vera eptir því sem hjer hagar til. þrátt fyrir allt sem alþýða hefur kvartað undan því, hvað allar tilraunir Teits hafi verið árangurslausar, og þó að ábyrgðarmaður þjóðólfs í seinni tíð hafi vel sýnt fram á, að lækningatilraunir hafi ekki orðið að neinum notum, hefur stiptamtmaður þó ekki viljað fallast á frumvarp hinna amtmannanna til að tálma útbreiðslu fjárkláðasýkinnar, heldur samið frumvarp, út af fyrir sig til þingsins, sem líklega fer fram á, að lækningunum sje haldið áfram, og niðurskurðurinn verði ekki nema, ef til vill á nokkrum hluta fjárins. þó að vjer nú höfum þá von til þingsins, að það muni í aðalefninu fallast á frumvarp amtmannanna P. Melsteðs og Havsteins, þá hefði það þó verið óskandi, að stiptamtmaðurinn, sem þó líklega mætti vera búinn að fá sig fullreyndan á lækningaferðum Teits, hefði ekki gjört þenna ágreining við hina amtmennina. þegar önnur eins vandræði bera að höndum, þurfa fyrirmennirnir að koma sjer niður sem fyrst á rjetta skoðun málanna, svo að alþýða verði ekki deig og hiki sjer, þegar hún sjer hversu fyrirliðarnir eru óvissir og óstöðugir í skoðunum sínum. Stiptamtmaðurinn hefði þó getað sjeð það, að varla mundi hægt að framkvæma skipanir hans um lækningarnar, þar sem svo fáir syðra hafa fylgt þeim skipunum rækilega hingað til, og þegar hann gat ekki látið Seltjarnarnesmenn gegna sjer til að reka fjeð saman til böðunar í laugunum, þá mátti hann geta sjer í vonirnar, hvernig fara mundi á hinum fjarlægari stöðum.

Rjett núna barst oss í hendur 30—31 númer af þjóðólfi, og getur hann þar um amtmannafundinn. Ábyrgðarmaður þjóðólfs hefur reynt að safna ástæðum beggja, þeirra sem vilja fjárskurðinn, og þeirra sem ekki vilja hann, og furðar oss öldungis hvað staklega ónýtar ástæður þeirra eru sem ekki vilja niðurskurðinn. Hin fyrsta er sú að kláðinn sje á Norðurlandi, og sje því nauðsynlegt að halda nokkrum fjárstofni eptir syðra, þar eð heilbrigt fje fáist hvergi; og þetta bera þeir fram sem ástæðu eptir að beztu menn á Norðurlandi hafa borið það með eiði, að fjársýkin sje ekki hjer nyrðra og hafa rakið spor hennar og ákveðið á hverju svæði hún nú er orðin útbreidd.

Önnur ástæðan er, að kláðinn sje læknanlegur af því hann er útlendur, því þar megi lækna hann. þessi ástæða er nú jafnveik. þó að kláðinn sje útlendur og læknanlegur þar, þá vitum vjer ekki hvernig hann reynist í fjárkyni voru og loptslaginu hjer á landi. Enn á hafa lækningar ekkert dugað, og á næstliðinni öld varð sama raunin á með útlendu fjárpestina, að ekkert dugði nema niðurskurðurinn, og vjer hefðum gaman af að sjá reikning yfir hvað lækningar á fje svo mörgu að 1000 skiptir kostaði um langan tíma; vjer getum ekki ætlað annað en það slagi upp í skaðann, sem menn hafa af að skera allt niður að haustlagi og kaupa að vorlagi aptur í skarðið; vjer ætlum að lækningarnar mundu verða eins dýrar þegar á allt væri litið. þriðja ástæðan er sú, að Norðlendingar mundu setja svo vitlaust á sig, ef að þeir vissu að þeir ættu að farga fje til Suðurlands, og fjeð fjelli þess vegna, nema vetur yrði því betri, og yrði þá valt að ætla á fjárkaupin hjá þeim.

Ekki getur oss nú skilizt, að neinar líkur sjeu til, að menn setji ógætilegar á, þó að fallizt yrði á frumvarp amtmannanna, og norðlendingar yrðu þannig að farga nokkru af fje sínu, því bæði er gjört ráð fyrir, að nefndir verði kosnar til þess meðal annars að sjá um skynsamlega ásetningu, svo að meiri vissa fáist fyrir því, að sunnlendingar geti reitt sig á að fá fjeð aptur, og líka sjáum vjer ekki betur en að vel megi koma því saman, að hafa skynsamlega ásetningu á vetrarforðann, og hafa um leið sem mest aflögu handa sunnlendingum til að koma aptur fjárstofni þar á fót; ekki þarf annað en að nordlendingar minnki geldingatölu sína, en dragi á legg hverja gimbur þangað til nógur ærstofn er aptur fenginn á Suðurland. Hægt finnst oss að skilja það hvers vegna norðlendingar vilja ekki hjálpa sunnlendingum um fje, ef að þeir skera ekki. Það er ekki annað en auka eldsneytið handa þessum óvætti til að eyða, því engi von er að menn uppræti svo kláðann án niðurskurðar, að menn geti fengi fulla vissu fyrir því, að hann brjótist ekki aptur fram, svo að af því leiðir, að norðlendingar neyðast til að hafa hinar kostnaðarsömu fyrirstöður ár frá ári, og er þá ekki furða þó að þeir vilji ekki ala hið pestsjúka fje syðra með að farga þangað fje sínu. Sama er að segja um þá, sem þegar eru orðnir sauðlausir syðra, að þeir geta ekki fengið fje keypt úr heilbrigðu sveitunum, bæði vegna þess að hinir vilja ekki selja, þegar þeir vita að öll líkindi eru til að það verði einungis til þess að fjölga pestarfjenu, og svo voga hinir ekki að kaupa sjer fjárstofn meðan kláðinn er allt í kringum þá, og þeir mega því búast við að missa fje sitt aptur, eins og reynslan sýndi líka á næstliðinni öld, að sumir menn neyddust til að skera fjenað sinn tvisvar niður einmitt af því þeir höfðu farið að afla sjer fjárstofns áður en búið var að útrýma fjársýkinni í kringum þá.

Frumvarp það sem amtmennirnir Havstein og Melsteð hafa lagt fyrir alþingi um þetta mál hljóðar þannig:

## Frumvarp

**til tilskipunar um ráðstafanir til þess að útrýma og varna útbreiðslu kláðafaraldursins, er gengur á Suðurlandi.**

1. gr. Til þess að útrýma og varna útbreiðslu þess hættulega og sóttnæma kláðafaraldurs, er nú gengur á Suðurlandi, skal almennur fjárskurður framfara strax í haust í Árness, Gullbringu og Kjósar ásamt Borgarfjarðar sýslum.

2. gr. Þar sem kláðasýki og niðurskurður hefur átt sjer stað, skal rjúfa öll fjárhús og láta tóptirnar standa opnar yfir næstkomandi vetur, en hreinsa vandlega viðu alla, annaðhvort í eldi, sjó eða söltu vatni, einnig bræla veggina, samt brenna, hreinsa eða uppræta sjerhvað það, sem nokkur líkindi eru til, að efni til kláðasýkinnar geti dulizt í.

3. gr. Til þess að annast um niðurskurð fjárins og rof húsanna, skal amtmaður kjósa 2 eða 4 menn í hverri sýslu, hlutaðeigandi sýslu-yfirvaldi til ráðaneytis og aðstoðar, en hver sýslunefnd skal útnefna nokkra menn í hverjum hrepp til þess að hafa hið nákvæmara tillit með framkvæmd þess fyrirskipaða, og skulu nefndarmenn láta skera fjeð og rjúfa húsin á eiganda kostnað, ef þeir óhlýðnast, en borgun fyrir þenna starfa takist lögtaki hjá eigendum á þann hátt sem fyrir er mælt í opnu brjefi 2. apríl 1841.

4. gr. Niðurskurður fjárins byrjar að afloknum fjallgöngum, og sje honum í sjerhverju byggðarlagi lokið fyrir næstu jólaföstu. Rjúfa skal húsin jafnskjótt og fjenu er lógað og áður en frost hindra.

5. gr. Þeir sem af skeytingarleysi verða fundnir að því að flytja hið sóttnæma kláðafaraldur inn í ómenguð hjeruð og byggðarlög, skulu auk skaðabóta sæta fjársektum frá 4 til 30 rdla r. m., og skal þau mál sækja sem opinber lögreglumál. Sömu fjársektum skal það og varða, ef nokkur sýnir óhlýðni eður mótþróa gegn því sem skipað er í þessari tilskipun til að útrýma og varna útbreiðslu kláðafaraldursins. Skyldi nokkur af ásetningi eða illvilja flytja kláðafaraldrið inn í ósýktar sveitir varðar það frelsistjóni eptir málavöxtum frá 2 til 5 ára.

6. gr. Sjerhver fjáreigandi maður í þeim sýslum og byggðarlögum hvar almennur niðurskurður fjárins vegna fjársýkinnar ekki hefur átt sjer stað skal skyldur, eptir tiltölu til fjáreignar sinnar að selja svo mikið af ám með lömbum að vorlagi, að hver búandi í þeim sýslum, er kláðafaraldrið hefur gengið yfir, geti fengið helming þeirrar ærtölu, sem hann næst undangangandi ár 1856 hefur talið fram til landbúskapartöflunnar, og skulu yfirvöld annast um útbýtingu fjárins eptir þessu hlutfalli.

7. gr. Ærnar skulu látnar af hendi í fullgildu standi, og borgist eptir verðlagsskrá þeirri er ræð-

ur frá miðju maímánaðar 1858 til jafnlengdar 1859, úr þeim sýslum hvaðan ærnar eru.

8. gr. Amtmenn ákveði eptir landbúskapartöflunni úr hverju amti, hvað margt fje hverri sýslu ber að selja, en sýslumaður í hverri sýslu, hvað margt kemur á hvern hrepp, og hreppstjóri í hverjum hrepp hvað hverjum fjáreiganda ber skylda til að selja. Skal það með miðsvetrarpóstum tilkynnt stiptamtmanni, hvað margt fje fáist í hverju byggðarlagi fyrir sig, svo hann geti til tekið, hvert hver sveit eigi að leita fjárkaupanna. Ef það virðist óvinnandi að reka fje úr hinum fjarlægustu sýslum til Suðurlands, skulu þær nálægari sýslur leggja því fleiri ær til, en sje aptur það, sem þær láta í fje fram yfir rjetta tiltölu, endurgoldið frá þeim fjarlægari sýslum. Kostnaðurinn til þessa fjárflutnings greiðist úr hlutaðeigandi amts jafnaðarsjóði.

9. gr. Til fjárkaupa komi sunnlendingar um Jónsmessu leyti næsta ár, og skal hreppstjóri í hverjum hrepp með helztu mönnum hreppsins vera þeim hjálplegur í því að ná saman hinu lofaða fje.

10. gr. Að afloknum fjárskurði í þeim meinguðu sýslum, skal stiptamtmaður og amtmenn, hver fyrir sig með tilstyrk sýslumanna og annara manna alúðlega gangast fyrir því að safna gjöfum til hjálpar hinum nauðstöddu, er hlotið hafa tjón af kláðafaraldrinu.

11. gr. Í öllum þeim sýslum landsins, hvar almennur niðurskurður fjárins vegna fjársýkinnar ekki hefur átt sjer stað, skal hlutaðeigandi amtmaður kjósa 5 manna nefnd næskomandi vetur, og svo lengi þurfa þykir, til þess að vaka yfir heilbrigðisástandi fjárins, góðri fjárhirðingu og skynsamlegum ásetningi. Skal amtmaður gefa hverri nefnd erindisbrjef, eptir því sem tilhagar í hverri sýslu.

12. gr. Skyldi mót von hið sóttnæma kláðafaraldur dreifa sjer til þeirra sýslna, sem nú eru ómeingaðar, skal strax sem verður vart við það á einstöku bæjum halda saman öllu fje í ströngu varðhaldi svo það alls engar samgöngur geti haft við annað fje, og skera það niður án allrar undantekningar eptir yfirvaldsins tilhlutun móti því, að tjónið verði bætt sumpart með niðurjöfnun á amtsbúa sumpart með gjöfum.

Vjer vonum að alþing sýni það nú og sanni, að það sje lífatkeri vort Íslendinga, þegar úr vöndu er að ráða; vjer vonum, að þingmenn láti sjer skiljast, að landinu verður það minni hnekkir og velmegun þess, þó að skurðurinn sje framkvæmdur í 3 sýslum suðuramtsins, heldur en að þetta faraldur liggi lengi í landi, og leggist í fjárkyn vort. Vjer erum þó færir um að bera það tjón, sem leiðir af niðurskurðinum í þessum hluta lands, og það er vonandi með tilstyrk hinna parta landsins, að þessar sýslur nái sjer fljótt aptur, en hitt liggur í augum uppi, hvað af því muni leiða, að kláðinn haldist við og nái að útbreiðast um allt landið, þá er fóturinn farinn undan velgengi vor Íslendinga og það í mörg ár. Oss virðist nú, að amtmaður Havstein og norðlendingar hafi gjört allt sem í þeirra valdi stóð til þess að koma þessu máli vel til lykta, og hvernig sem því reiðir af, þá á amtmaður Havstein að voru áliti það skilið að það sje viðurkennt opinberlega, að hann hefur frá byrjun litið rjett á þetta mál og fylgt skoðun sinni fram með hinni mestu festu, stillingu og þreki, Honum má Ísland þakka það, ef það kemst hjá því, að fjársýki þessi gjöri helzta bjargræðisvegi landsins óbætanlegan skaða.

Að endingu viljum vjer geta þess, að verðir eru settir úr Húnavatnssýslu 28 menn á línunni milli Hrútafjarðar og Langjökuls og 4 milli Langjökuls og Hofsjökuls. Frá Mýrasýslu eru 29 varðmenn fram með Hvítá til að verja samgöngum milli fjár Mýramanna og Borgfirðinga, og 4 menn eru settir til geymslu milli Arnarfells og Tungufellsjökla til að verja samgöngum á fje Þingeyinga og Árness og Rangárvalla sýslna.

---

## Um byggingarnefndarlögin.

(sbr. seinasta blað Norðra).

Nú höfum vjer þá Akureyrarbúar fengið byggingarnefnd og byggingarlög handa bæ vorum, svo nú er það þessari reglugjörð og nefndinni sem á að stjórna eptir henni að kenna, ef að ekki verður hjeðan af gott skipulag á húsabyggingum í bænum. Í nefnd þessa kaus amtmaður þá herra faktor E. E. Möller og S. Sigurðsson timburmann, en bæjarbúar kusu kaupmann J G. Havstein og Björn Jónsson, og ætlum vjer að allir þessir menn sjeu vel kjörnir og heppilega.

Það sem oss virðist, að helzt muni geta valdið því, að nefnd þessi gjöri ekki fullt gagn, er það, að reglugjörðin er víða að voru áliti óljós og ekki nógu nákvæm, og það sumstaðar þar sem mest ríður á. Þannig er t. a. m. hvergi

tekið fram, hvern myndugleika nefnd þessi hafi til að ráða yfir því svæði hjer í bænum, sem búið er, og það ef til vill fyrir löngu, að mæla út, og nú er notað annaðhvort til jurtagarða eða eru auð svæði og grasblettir. Það er ákveðið að sýslumaður skuli gefa nefndinni skýrslu um hverjar lóðir áður eru mældar út, og skuli nefndin rita þær í bók sína ásamt þeim er hún sjálf mælir út. Af þessu virðist nú meiga leiða að hún hafi engi ráð yfir neinu af lóðum þeim, sem áður hafa verið mældar út, án tillits til þess hvort þess konar byggingarsvæði eru óþarflega stór; og þó að það standi á einum stað (í 4. gr.) að ekki megi brúka nein svæði í sjálfum bænum til jurtagarða heldur að eins brekkuna, og menn kynnu því að hugsa, að nefndin hefði ráð yfir þess konar auðum svæðum og jurtagörðum, sem nú eru í bænum, þá vantar þó alla ákvörðun um það. Þessi óvissa um myndugleika nefndarinnar kom undir eins fram. Kaupmaður Hoepfner beiddist að fá hentugt byggingarsvæði til að byggja hjer bakarahús og mylnu, og mæltist til, að sjer væri mælt út svæðið fyrir sunnan íbúðarhúsið við verzlun Guðmanns og fram að sölubúð Havsteins kaupmanns. Þessi lóð er stór og einhver hin fallegásta hjer í bænum, og eru ekki aðrar byggingar á henni en torfhús nokkur, sem kaupmaður Havstein á; hitt hafa þeir kaupmennirnir Havstein og Guðmann fyrir jurtagarða. Kaupmaður Havstein vildi nú ekki, eins og ekki var von, þegar laga-ákvörðunin var svo ónákvæm, sleppa neinu af lóð þeirri er einu sinni hafði verið mæld honum út til húsabygginga, og neitaði nefndin því Hoepfner kaupmanni um þenna byggingarreit, og eru þannig líkur til að þetta þarflega fyrirtæki farist fyrir. Oss gefst eflaust seinna færi að tala nákvæmar um aðgjörðir nefndar þessarar.

---

27. júní næstliðinn kom hingað á Akureyrarhöfn skip Bretadrottningar skrúfugufuskip „Snákurinn“. Þess konar skip kalla Englendingar fallbyssubáta. Fyrir skipi þessu rjeði ungur maður John Edmund Commerell, og var með honum á skipi mágur hans, enskur herramaður Bushby að nafni. Þeir fóru snöggva ferð upp að Mývatni og út að Laxamýri til að reyna laxveiðar að gamni sínu. Skip þetta er gjört út af stjórn Breta til að rannsaka umkvartanir þær yfir sjómönnum af enskum fiskiskipum, er Grímseyingar hafa borið undir hina dönsku stjórn. Það er vonandi að sendimenn þessir nái hinum þarflega tilgangi ferðar sinnar, og að þannig verði komið í veg fyrir, að fiskimenn enskir áreiti framvegis þessa fátæku eyjarbúa.

Vjer getum ekki, um leið og vjer nefnum skipkomu þessa, annað en álitið það skyldu vora að votta öllum yfirmönnum á skipi þessu þakklæti vort fyrir hinar ágætu viðtökur, er bæjar- og sveitarmenn fengu á skipi þessu. Yfirmenn sýndu fúslega öllum skipið, og gjörðu sjer allt far um að útlista allan útbúning skipsins, gufuvjelina og herbúnað skipsins.

Fallbyssubátur þessi tók þátt í hinu mikla stríði við Rússa, og var í umsátri Sebastópólarborgar; og í einum sjóbardaga þar, gjörði skip þetta fráskila 3 fallbyssubáta rússneska og skaut þá í kaf.

Auk skipstjóra voru þessir yfirmenn á skipinu: læknir Dr. William S. Roche, næstur skipstjóri Edward C. Smyth, gjaldkeri John Wotton. Þrír rjeðu fyrir gufuvjelinni John Fox, William Inglis og John R. Cooper.

---

## Álit Robert Chambers um alþing og stjórnmálefni vor 1855[1].

Um miðdegisbilið fylgdi herra Sivertsen mjer inn á alþingis salinn. Þetta smáþing sat upp á loptsal í skólahúsinu, og gat jeg ekki annað en dáðst að því, hvað það var einfalt og viðhafnarlítið. Tveir stólarnir voru hæstir, annar handa konungsfulltrúa og annar handa forseta, og á milli þeirra hjekk mynd hins síðasta Danakonungs (Kristjáns 8.), en aðrir þingmenn sátu í tvöföldum hálfhring út frá til beggja hliða á stólum 25 að tölu, og svo voru 2 eða þrír stólar handa þingskrifurunum en engir aðrir. Sumir af þingmönnum þessum voru í óvönduðum „duffels“frökkum og buxum, eins og þeir væru heima hjá sjer; allir voru þeir hversdagslegir, en ekki vantaði það, að þar á meðal væru spaklegir og gáfulegir menn í sjón. Mjer þótti það sorglegt, að jeg fjekk að vita, að þjóðþingi þessu kemur ekki vel sam-

---

[1]) Tracings of Iceland and the Faröe islands by Robert Chambers, London and Edinburgh 1856, heitir lítið kver á ensku, sem Robert Chambers hefur skrifað um ferð sína til Íslands með gufuskipinu Thor. Af því að stiptamtmaður vor var með sama skipinu, og tók þessum ferðamönnum alúðlega eins og hans var von og vísa, er ekki svo ósennilegt, að hann hafi frætt þenna Chambers á hinu og þessu er lýtur að stjórnarsambandi voru við Dani, og þó að vjer höfum ekki tekið meira, þá ætlum vjer vjer þetta litla nóg til að sýna ávöxtinn af kennslunni, og hve holl og velviljuð hún er landinu.

an við dönsku stjórnina, og yfirhöfuð er lítið vinfengi milli allra Íslendinga og drottna þeirra. Að því leyti sem jeg gat skilið þetta mál — en það var nú svo lítið, að jeg ber varla traust til að tala um það — þá er þessari óánægju Íslendinga við stjórnina líkt háttað eins og lengi var á Írlandi við aðalstjórn Breta, þó að Danmörk verji 12000 pundum sterling (hjerumbil 102,000 rd.!) til almennings þarfa á Íslandi, en fái ekki nema 5000 pund (hjerumbil 42.000 rd.) í tekjur af landinu, þá þykir þó Íslendingum þetta framlag Dana ofllítið. Þeir vilja láta Danmörku gjöra endurbætur í ýmsum efnum á Íslandi, án þess að hafa annað í aðra hönd en vonina um að þess konar fyrirtæki borgi sig: stjórninni á annan bóginn þykir nóg að leggja Íslandi 7000 pund sterling árlega, og vill að Íslendingar leggi á sig sjálfir dálitla skatta, og verji því til framfara landinu. Jeg er hræddur um að það sje hjer eins og á Írlandi, að hið langa fóstur stjórnarinnar hafi tekið frá þjóðinni viljann til að spila upp á sínar eigin spítur. Það er að minnsta kosti mikil óvirðing fyrir þjóðina, að landið skuli nú hafa verið byggt í þúsund ár, og þó skuli enginn reglulegur vegur vera til, ekki svo mikið sem svari fjórðungi mílu. Árið 1848, þegar þjóðir þær, sem voru óánægðar með stjórn sína, byltust um í bólinu, fóru Íslendingar að rumskast líka, og heimtuðu stjórnarskipun. Konungur sendi eina undir eins, er greifi Trampe átti að leggja fyrir alþing, er kallað var saman til að ráða þetta mál. En þingið las ekki einu sinni frumvarpið, sem stiptamtmaðurinn lagði fyrir það, heldur tók það sjálft að búa sjer til stjórnarskipun. Greifinn sagði, að það leyfðist ekki, þeir yrðu að hafa hið konunglega frumvarp fyrir undirstöðu, en breytingar mættu þeir gjöra þær sem þeir vildu. Þegar þeir sátu við sinn keip, hótaði hann að slíta þinginu. Þingmenn mönuðu hann til þess, og hann gjörði það — og álíta flestir að það hafi verið ástæðulaust, og því sje ekki bót mælandi. Óhljóðin sem urðu þegar þinginu var slitið hefðu mátt skjóta þeim skelk í bringu, er ekki var eins einbeittur og greifinn. Eptir þetta varð nokkurs konar uppreist, svo að það varð að senda herlið til landsins til þess að koma friði á aptur. Þessi herflokkur var nú ekki stærri en 1 undirforingi og 36 menn, og undir eins og þeir komu og sýndu sig hættu óeyrðirnar.

Nú sem stendur liggur þessi misklíð öll í þagnargildi. Hvaða eina sem stjórnin leggur fram Íslandi til gagns mætir mótspyrnu. Og þegar stjórnin skiptir sjer ekkert af landsmönnum, þá gjöra þeir ekkert annað en kvarta um að stjórnin vanræki þá.

---

# Frjettir.

**Innlendar.** Veðráttan er hjer einlægt hin bezta fyrir grasvöxtinn og víðast hvar lítur allvel út með hann; en fremur er tíðin einlægt köld og fáir sólskinsdagar hafa verið hjer í sumar. Verzlun er nú sem mest hjer, og gefa kaupmenn vel fyrir íslenzka vöru, 42 fyrir ull og 24 fyrir tólg og 30 rd. fyrir lýsistunnuna (þetta gefa þeir að minnsta kosti sumum). Bruu lausakaupmaður frá Kristjaníu, sem ætlaði að koma hingað í miðjum júní, er enn ókominn hingað, en frjetzt hefur að hann sje kominn eystra, og líka hefur borizt, að hann gefi 44 sk. fyrir ullarpundið. Lausafregn gengur hjer líka, að lausakaupmaður muni koma hingað að sunnan, og þykir ekki ólíklegt að hann bjóði töluvert meira bæði fyrir lýsið og ullina, því sagt er að kaupmenn í Reykjavík gefi 44 sk. fyrir góða ull.

Alþing er nú byrjað, en engin frumvörp voru komin til þingsins í byrjun þessa mánaðar, en frjetzt hefur, að þau hafi komið eptir fyrstu þingdagana. Í Norðurmúlasýslu fór alþingismannskosning fram 22. maí í vor, og var kjörþingið ekki mjög fjölskipað. Á alþing fór þaðan úr sýslu Vilhjálmur hreppstjóri Oddsen, sem kosinn var til varaþingmanns. Runólfur M. Olsen frá Þingeyrum var kjörinn á þing fyrir Húnavatnssýslu, því Jósep læknir Skaptason sagði af sjer kosningu í vetur, svo að þingið mun nú fullskipað.

---

## Bókafregn.

**Þúsund og ein nótt** arabiskar sögur 1. hepti, útgefandi Páll Sveinsson bókbindari, prentuð í Khöfn. 1857. til sölu hjá Jóni Borgfirðingi á Akureyri.

Vjer höfum einlægt óskað þess, síðan að B. Gröndal sýndi það með úrvali sínu af sögum úr 10001 nótt, hve mikla skáldskapar fegurð bók þessi hefur að geyma, að einhver yrði til þess að ráðast í að snúa þessu meistarasmíði í austurlanda bókmenntum á vora tungu. Þetta er nú orðið fyrri en vjer hefðum búizt við. Útgefandinn Páll Sveinsson á þakkir skilið fyrir það, að hann hefur ráðist í að láta snúa þessu merkilega riti, og enn meiri þakkir á hann skilið fyrir það, að hann hefur fengið þann mann til að snúa sögunum á íslenzku er svo ágætlega hefur leyst það af hendi. Þegar þess konar skáldskaparrit eru lögð út á aðra tungu, ríður ekki alllítið á því, að þýðingin sje fjörug og skáldleg, og blærinn á henni sem líkastur frumritinu. Þó að vjer höfum ekki og getum ekki lesið þessa bók á frummálinu, þá getum vjer þó borið það, að vjer höfum enga þýðingu sjeð á þessari bók á öðrum málum liprari eða fjörugri heldur en þessa. Vjer óskum þess og vonum, að landar vorir kaupi svo bók þessa, að útgefandinn geti haldið henni áfram, því vjer álítum það mikla prýði fyrir bókmenntir vorar, að fá þess konar snilldarverk útgefin á voru máli. Þó að málið sje ágætlega lipurt á þýðingunni eru þó smágallar á því sem varast ætti t. a. m. „að elska út af lífinu“ og þess háttar.

## Ný útkomin rit á Akureyri.

**Homöopathían** á borð við **allopathíuna og antipathíuna**, eptir sjera Þ. Pálsson á Hálsi, 64 bls., innhept á 16 sk. fæst til kaups hjá ritstjóra Norðra.

**Dr. Hjaltalín og vísindin**, eða **Svar** upp á rit hans: „Vísindin reynslan og homöopatharnir“, eptir sjera M. Jónsson á Grenjaðarstað (fæst hjá sama).

---

Af því að Hornfirðingum þykir verzlunarkeppnin lítil á Djúpavogi, mælast þeir til að lausakaupmenn vilji koma á Papós, og skora þeir einkum á Thómas kaupmann Thomsen á Seiðisfirði að gjöra það eptirleiðis, og láta því hjer með fylgja lýsingu á Papós og innsiglingunni á hann:

Papós liggur yzt og syðst út úr firðinum beint í austur, og eins liggar útfallsstraumurinn; en aðfallsstraumurinn liggur suður á við fyrir utan ósinn fyr en komið er í hann sjálfan, þá liggur hann beint í vestur. 2 sker eru fyrir utan ósinn, bæði á vinstri hönd þá inn er siglt; hjer um bil 2 til 300 faðma er á milli þeirra. Það sem fjær er landi heitir Bóla, og fer ekki í kaf nema með stórstraums háflóðum. Hitt skerið heitir Kráka, og er töluvert minna, svo að það fer í kaf með hverju flóði, það má heita allt af brim á skerjum þessum, en djúp mikið allt í kringum þau einkum Kráku þar sem innsiglingin er; þar er 3 til 4 faðma djúp um háfjöru, en fyrir innan skerið er dálítið grynnra. Í ósnum sjálfum er vel 5 faðma djúp með flóði. Ósinn er hjer um bil 100 faðmar á breidd þar sem hann er mjóstur. Að norðanverðu við ósinn liggur klettaklasi nokkuð langur hár að austanverðu með smáskörðum í. Þessi sker heita Klappir. Frá þeim skerjum liggja grynningar til austurs og suðausturs norðanmegin við innsiglinguna. En syðramegin við ósinn er fyrst sker, að austanverðu mjög lágt svo upp á það flæðir, en hátt að vestan. Þar næst byrjar sandur inn með ósnum þar til hár klettur kemur viðlíðandi að norðanverðu, er Hellir heitir. Yfir af honum er skipalegan nokkuð frá landi. Alstaðar er góður sandbotn í og fyrir utan ósinn. Stórstraums háflóð er við ósinn kl. 4 til 5. Bezt er að sigla hann inn í norðaustan, austan og suðaustan vindi, og óhætt er hverju því skipi sem ekki er stærra en Keflavík að sigla inn á hann; hún hefur opt siglt inn á hann og legið þar langan tíma og ekkert að orðið.

---

# Auglýsingar.

Kláðafaraldur það, sem kom hingað til suðurlandsins 1855 með ensku lömbunum, er allt af að út breiðast, og verður því miður, enn ei sjeð fyrir endann á tjóni því, sem landinu öllu má ske er þar af búið. Órækk dæmi og sannanir eru fyrir sóttnæmi drepsóttar þessarar, sum sje, að ein sauðkindin sýki aðra, eins og fyrir því, að hún geti flutzt með ferðamönnum og ýmsum farangri þeirra. Til þess að sýkin ekki út breiðist til vestur- og norðurlands við samgöngur veika og heilbrigða fjárins, er þegar afráðið, að setja verði á þeim stöðum, er bezt vi ðist við eiga; en ráða hefir verið leitað hjá læknum um, hvað tiltækilegast mundi til varúðar og varnar því, að kláðafaraldrið flyttist í Vestur- og Norðurland með ferðamönnum, einkum kaupafólki; samkvæmt ráðum læknanna fyrirskipum við því þannig:

„Allir Norðlendingar og Vestfirðingar, sem í sumar veita að einhverju leyti viðtöku kaupafólki af Suðurlandi, skulu skyldir til, strax og kaupafólkið er komið á heimili þeirra, að láta vandlega þvo úr heitu hlandi, með uppleystu matarsalti í, íverufatnað kaupafólksins og sjerhvað annað af farangri þess, sem nokkur líkindi eru til að geti geymt í sjer sóttnæmt efni til kláðafaraldursins. Í þessu verður að við hafa mestu nákvæmni og alúð, svo að gengið verði úr skugga um, að hinn lífsegi og sóttnæmi kláðamaur, sem auðveldlega getur flutzt með fötum eða farangri kaupafólksins, sjer í lagi gæruskinnum, sje dauður og alveg eyddur. Það er einnig mjög áríðandi, að allir gjaldi varhuga við því, að sunnlenzkt kaupafólk komi nærri sauðfje nyrðra og vestra, eða kaupakonur mjalti málnytupening, áður en þvottur þessi er framkvæmdur; þangað til skulu líka heimamenn alvarlega forðast að handfjatla föt eða annað, sem kaupafólki til heyrir, og kláðamaurinn getur dulizt í“.

p. t. Reykjavík 11. d. júním. 1857.

**P. Melsteð. Havstein.**

---

## Hið íslenzka bókmenntafjelag.

Af því opt hefur verið ágreiningur um, hvort fjelagsmenn hafi meðtekið bækur þær frá fjelaginu, er þeim ber að fá fyrir tillögin, hefur deildin í Kaupmannahöfn sent hverjum fjelagsmanni, sem til hennar greiðir tillög, ávísun til bókanna hjá umboðsmönnum. En af því að þessi brjef hafa stundum týnzt, stundum ekki verið send aptur, þá verða í ár ekki send nein slík ávísunarbrjef, heldur fær **hver umboðsmaður** kvitt-

unarform, og er ætlazt til, að hver fjelagsmaður riti í það þegar hann meðtekur bækurnar og greiðir tillagið umboðsmanni. Nöfn umboðsmanna eru prentuð í „Skýrslum og reikningum fjelagsins“, er fylgja Skírni, og sendar verða þarauðauki til ýmsra manna í hverri kirkjusókn á landinu.

**Deild hins ísl. bókmenntafjelags í Khöfn 18. maí 1857.**

---

Þar eð jeg hefi í hyggju, að láta prenta ljóðmæli sjera Páls Jónssonar skálda — ef engir af erfingjum hans banna það —, þá er það mín innileg bón til allra, er kveðlinga kynnu að eiga eptir hann, að senda mjer þá, móti borgun eptir því sem um semur. Jeg er búinn að safna nokkru, en mikið vantar.

p. t. Akureyri 12. júlí 1857.

Þ. Laxdahl.

---

Þegar jeg í fyrra vor þurfti að flytja búferlum frá Melrakkasljettu til Grímseyjar, gat jeg ekki kostað sjálfur upp á flutning á mjer nema til þess að skerða svo mikið þær litlu eigur sem jeg átti, að jeg þess vegna hlaut að verða óhæfur til að taka jörð hjer til ábúðar; eins og líka að geta sjeð fyrir fjölskyldu þeirri, sem jeg hafði meðferðis; hvers vegna að sóknarpresturinn og hreppstjórinn í Presthóla hrepp ásamt Mr. B. Jónssyni á Grjótnesi mannkærlegast gengust fyrir því við sveitarbændur sína, að þeir legðu saman svo jeg fengi gefins flutning til eyjarinnar, og brugðust þeir vel undir það, svo að flutninginum á mjer varð bæði fljótt og vel framgengt. Jeg þakka því öllum innilega sem mannkærlegan hlut áttu að bæði þessari og annari uppáhjálp við mig á meðan jeg dvaldi hjá þeim, og sjerdeilis fyrir höfðinglega gjöf á flutningskaupinu.

Grímsey þann 4. febrúarm. 1857.

Jónathan Daníelsson.

---

Ef nokkur á og vill selja Ambalessögu, og rímur af Þorsteini uxafæti, verða þessar bækur vel borgaðar á skrifstofu Norðra.

---

**Hjá undirskrifuðum fást þessar eptirfylgjandi bækur.**

| | rd. | sk. |
|---|---|---|
| Dr. P. Pjeturssonar Tækifærisræður | „ | 38 |
| Nýja testamenti í materíu | „ | 64 |
| Sálmabækur í alskinni, á | 1 | 32 |
| Passíu sálmar í gylltu alskinni | „ | 64 |
| Herslebs biflíusögur í gylltu velsku bandi | 1 | 24 |
| Kvöldvökur I — II partur | „ | 88 |
| Lærdómsbókin, endurbætt útgáfa, innbundin | „ | 32 |
| Biflíukjarni í materíu | 1 | 64 |
| Barnagull í materíu | „ | 12 |
| Stafrofskver með mynd | „ | 32 |
| Dönsk málfræði | „ | 40 |
| Egilssaga innbundin í ljerept | 1 | 24 |
| Þjalarjóns saga | „ | 24 |
| 10001 nótt með mynd I hefti | „ | 72 |
| Myndabækur I—II hefti | „ | 20 |
| Algebra | „ | 40 |
| Ljóðmæli Egilssens | 1 | 40 |
| Grettissaga hept | „ | 80 |
| Gestur vestfirðingur 1—5 ár | 1 | 40 |
| — — 5 — | „ | 40 |
| Vefarinn með 12 kongaviti | „ | 12 |
| Indriða rímur ilbreiða | „ | 16 |

Seint í haust verða til sölu rímur af Víglundi og Ketilrfði, eptir Breiðfjörð prentaðar í Kaupmhöfn útgefnar af E. Jónssyni með eptirmála af G. Brynjulfssyni.

Akureyri 29 Júní 1857.

J. Borgfirðingur.

---

**Fjármörk í Þingeyjarsýslu.**

Tvírifað í stúf hægra, stýft vinstra og gagnbitað, brennimark M. Kr.

Magnús Kristjánsson Leifshúsum Svalbarðsstrandarhrepp.

Sneitt framan hægra, hvatrifað vinstra.

Jóhannes Torfason Hlíð Sauðanesshrepp,

**Fjármörk í Norðurmúlasýslu.**

Tvírifað í sneitt framan hægra.

Benidikt Pjetursson í Möðrudal

Tvístýft fr. hægra, biti fr. vinstra,

Þorsteinn Þorsteinsson á Ljósalandi í Vopnafirði.

Sneiðrifað aptan hægra, stýft vinstra biti fr.,

Stephán Þorsteinsson á Ljósalandi.

Standfjöður aptan hægra, hamarskorið vinstra,

Helgi Jónsson Ljósalandi.

Hvatrifað hægra, sneiðrifað aptan vinstra, biti fr.,

Kristján Jónsson á Strandhöfn.

Hvatrifað hægra, sneiðrifað aptan vinstra,

Jósep Jónsson á Strandhöfn.

Gagnbitað hægra, geirstýft vinstra,

Jón Jónsson á Strandhöfn.

Stúfrifað hægra, geirstýft vinstra,

Jóhann Jónsson á Strandhöfn.

**Leiðrjetting á Markabók Norðurmúlasýslu:**

Sneitt aptan hægra, biti undir, tvístýft fr. vinstra.

Jón Jónsson í Krossavík.

---

„Gefðu mjer hringinn þann arna“, sagði spjátrungur við stúlku, sem hafði hring á hendi, „því hann er eins og ástin sem jeg ber til þín, hann endar aldrei“. „Þú mátt ekki þykkja það við mig“, svaraði stúlkan, „þó jeg verði ekki við bón þinni; jeg ætla að bera hringinn til að minna mig á ást mína á þjer. Hringurinn er eins og hún; hann hefur ekkert upphaf“.

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 24. Ágúst. 21.—22.

Nú kemur að því, sem mælt er, Sveinn fjelagi, að í þörf skal vinar neyta, og flý jeg nú undir þinn áraburð, og ykkar Norðra. Enda verður mjer það fyrst fyrir, að fara í átthagana (sem er norður á bóginn), og vænta mjer þar halds og trausts.

Þú munt spurt hafa, að jeg er sekur orðinn, á vorþingi vestra (jeg þarf ekki að nefna þingið), ekki að eins hjeraðs-sekur, heldur land-sekur, skógarmaður óæll og óferjandi, óráðandi öllum bjargráðum. Eru þar margir á móti mjer einum, og ekki litlir fyrir sjer; en fæstir eru þeir „Norðmenn, sem vjer erum". Þó er þar einn maður í því liði, meiri og fríðari enn aðrir menn, „norðlenzkur, norðan-að-maður". Sá heitir Arnljótur, eptir Arnljóti gellina frænda sínum, og höfum vjer fyrir satt að hann sje hinn bezti drengur, og mundum vjer hann úr kjósa andskotaflokki vorum, ef kostur væri á. En sá heitir Guðbrandur, er fyrir sektinni ræður, og er honum ólíkt farið: hann er maður hlutsamur og áleitinn — þykist einn vita allt. Varla mun hann úr Norðurlandi ættaður, nema ef hann er kominn af Kaupahjeðni.

Tala Guðbrands.

„*Nú eru nærfelt 40 ár, síðan Jakob Grimm ritaði hina nafnfrægu stafsfræði sína . . .*" (Ný Fèlagsrit, 1857, bls. 117).

Skil jeg það! Grimm ritaði fyrir 40 árum, og er hann fyrir það nafnfrægur orðinn; en einn kemur öðrum meiri, og hjer er jeg — **Goðbrandr Vigfúss sunr** —, og er Grimm mikill, en þó ekki annað, enn lítilfjörlegur fyrirrennari minn!

„*En nú vill svo óheppilega til, að . . . Grimm hefr vísað íslenzkunni til sætis utarlega á hinn óæðra bekk*". (Á sama stað).

Grimm hefur (í útgáfunni 1840) sett íslenzkuna fyrir framan sænsku og dönsku, og þar á hún sæti, hvort sem það er heppni eða óheppni fyrir Gbr. En nú segir Gbr., „*að hún sè hið göfgasta fornmál, sem gengið hefir fyrir norðan Alpafjöll*"; og vil jeg ekki þræta, að svo sje í marga staði; því sá er fuglinn verstur, sem í sjálfs síns hreiður drítur. En þó dugir seggjum satt að mæla; og verður það ekki varið, að (íslenzka eða) norræna kemst varla í hálfkvisti við gotnesku, þegar um aldurinn (upphafleikann) er að ræða, og veit það hver maður, sem nokkuð veit um hinn gotneska tungnaflokk, og kemur Guðbrandi fyrir lítið að vera svo hjámáll eða sjervitur að þræta því í móti, nema hann færi sönnur á mál sitt. En í gróðrar-sögu málanna, eða vaxtar þeirra og breytingar, verður það að ganga á undan, sem eldra er, hvort sem það er íslenzkt eða ekki; nema öllu sje steypt á hausinn, Gbr. okkar kallaður faðir föður síns, og þar fram eptir götunum. — Gbr. talar um „að komast fyrir upptökin á hinni íslenzku hljóðfræði"?; en

„hljóðstafa rjettan hitta stað —

„hvernig á hann að geta það?,

ef hann þekkir ekki neitt upphaflegra, hvorki gotnesku nje annað, og heldur að íslenzka hljóðfræðin sje orðin af engu.

Nú kemur mikill „guðbrenzkur" árstraumur í tveimur stórkvíslum, og er önnur þeirra fávizka Grimms, en hin speki Guðbrands; og sje jeg þar ekki vöð á, nema hundavöð, og fer jeg yfir á einu þeirra; en hef þó augun hjá mjer, og tek eptir því um leið, sem allra fróðlegast er, þó hjer sje um margt að kjósa. Og nú sje jeg, hvernig maðurinn fer „*að fá skipulega og rètta íslenzka stafsfræði*", en það er með því „*að taka upp hinar „latínsku beygingar*", svo nú verður líklega að beygja þannig:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Sing: | nom. | hic | *þorskus* |
| | gen. | hujus | *þorski* |
| | dat. | huic | *þorsko* |
| | acc. | hunc | *þorskum* |

voc. o *þorske!*
abl. ab hoc *þorsko*
Plur. nom. hi *þorski*
gen. horum *þorskorum*

o. s frv.; o. s. frv. Ef þetta er gjört, *„þá eykr“* íslenzka staffræðin *„og fyllir á margar lundir máls-„þekkíngu þeirra, sem á undan hafa lært þessi „mál“* (þ. e. latínu og grísku), en hingað til hefur *„hin íslenzka staffræði spillt og komið í bága „við hina latínsku og grísku“*. Tarna er ljóta sagan! En bótin er, að Gbr. kippir í liðinn öllum þremur málunum í senn, það er að skilja: hann gefur ekki að eins tvö, heldur þrjú, tálknin í einu höfðinu, og furðar mig þó, að þau eru ekki enn fleiri. Enda kemur hjer fjórða tálknið, þar sem að sagt er, að hljóðvarpið sje miklu fjölbreyttara og skipulegra í íslenzku, enn í latínu og grísku. Næsta skipti getur vel verið, að Gbr. *„riti Íslendíngum“* grasafræði — því hann er sjálfsagt ekki síður að sjer í grasafræði, enn í þessu, er hann ritar nú um — og þá mun hann segja oss, að þau grös, er spretta á landi, sjeu miklu fjölbreyttari, enn þau er spretta á sjó, og verður það þó naumast jafnsatt og þetta um hljóðvörpin.

*„Rúnir eða stafir deilast í hljóðstafi „(vocales) og málstafi (consonantes)“* segir herra Gbr. Þessar rúnir koma hjer eins og djöfullinn úr sauðarleggnum, því ekki eru menn vanir að kalla latínustafina rúnir!

Og eru málstafir sama og consonantes? Nei, málstafir eru consonantes, en ekki sama og consonantes, á þann hátt sem asnar eru dýr, en ekki sama og dýr. Edda segir: „fimm hríngar eru um þá stafi“ (þ. e. um alla stafina) „segnir „.... Í fyrsta hring eru ... höfuðstafir, þá „má til enskis annars nýta, en vera upphaf ok „fyrir öðrum stöfum“ (það verða nú h og þ) .... „Í öðrum hring eru stafir tólf, þeir heita málsstafir, hverr þeirra má vera bæði fyrir og „eptir í orðinu ...: b, d. f, g, k, l, m, n, p, r, „s, t .... Í fimmta hring eru ritaðir þeir þrír „stafir, er heita undirstafir: ð, z, x, má þeim „við engan staf koma, nema þeir sè eptir hljóð-„staf í hverri samstöfun“. En hvað stoðar Edda þar sem Gbr. er annars vegar? — Málstafur er óljóst að merkíngu af sjálfu sjer; en samhljóðandi er skýrt orð, og ekki grískara eða latínskara, enn hljóðstafur.

Á einum stað segir, að ja, já, jú, jó, sjeu engin *„rún fyrir sig“*. En hefur þá nokkur sagt, að j, a, á, ú, ó, sjeu rúnir (rúnastafir)? eða að ja (o. s. frv.) sje einfalt hljóð eða einn stafur?

Í sambandi við þetta kemur sú spurning: *Hvernig má hljóðstafur kljúfast í málstaf og hljóðstaf?* (þ. e. i í ja). — Hjer á móti dirfist jeg að spyrja: Hvernig getur eitt hljóð breyzt í annað (a í e eða ö, á í æ, o. s. frv.)? Sjer ekki hver maður, að a (t. a. m.) er ekki deig, er hnoða megi úr hverja hljóðmynd er vera skal? Og þó eru menn svo djarfir, að segja að eitt hljóð breytist í annað eða önnur, eða verði að þeim, og stytta menn svo mál fyrir sjer. Og er hitt jafnrjett, að hljóð kljúfist í tvö, þegar það er úr fellt og tvö sett í stað þess.

Nú fer Gbr og *„setr upp“* sagnirnar

gjalla — gall — gullu,
hverfa — hvarf — hurfu,

og segir, að ja í gjalla sje ekki framar klofningur, það er: ekki framar sprottið af einum staf, enn ve í hverfa og va í hvarf. — Veri þjer ekki að gera gabb að okkur, monsjer Gbr. minn! Haldi þjer við sjáum ekki, að gall og hvarf eru rætur (radices) þessara sagna? Má svo að orði kveða, að hvarf sje móðirin, en hverf og hurf dætur hennar; og geta þá va og ve ekki verið klofningar af u, nema móðirin (hvarf) sje dóttir dóttur sinnar (hurf), og dóttirin (hverf) ekki dóttir móður sinnar (hvarf), heldur systur sinnar (hurf). Hitt má til sanns vegar færa, að va breytist (ekki að eins í ve, heldur einnig) í u, og er það gagnstætt því sem Gbr. segir vera. Ef hann vissi (það sem flestir vita), hvað til þess kemur, að hurfu er sett fyrir hvurfu, þá hefði hann komizt hjá þessari „guðbrenzku“.

En sjaldan er ein bára stök, og hver „guðbrenzkan“ rekur aðra. Af kona dregur hann kven, kván, kvæn það eru þrjú egg í hreiðri. Tökum sitt hvor, Sveinn minn! því kven er fúlegg, og er bezt að Gbr. eigi það sjálfur. En hvernig geta kván og kvæn leiðzt af kona? kona er komið í staðinn fyrir kuna, og kuna í staðinn fyrir kvina (eins og koma fyrir kuma, og kuma fyrir kvima; o. s. frv.); og má því kalla, að kván og kvæn sjeu ömmusystur konu (en ekki dætur hennar).

Nú segir þessu næst, að i sje hljóðvarp af ja, og sjáist það á hneigingunni:

örn — arnar — erni,
björn — bjarnar — birni;

en þetta er missýning, líkt og annað. Hljóðstafurinn í örn er að upphafi a; en þetta a helzt ekki við, nema þar sem a fer á eptir í endingunni (örn, örnu, örnum; erni, ernir; en arnar, arna). Hljóðstafurinn í björn er að upphafi i (í hinum gotneska tungnaflokki); en þetta i helzt ekki við, nema þar sem i fer á eptir í endingunni (björn, björnu, björnum; bjarnar, bjarna; en birni, birnir).

Hjer fer á eptir sú fræðagrein, að ý sje hljóðvarp af jú, en œ hljóðvarp af ó, og valdi j því, að hljóðvarpið „dýpki“ (!). En ý er ekki að eins hljóðvarp af jó, heldur einnig af jú, en optast af ú, og stundum af ó (úr — ýra, fljúga — flýg, bjóða — býð, ból — býli). Og hvað kemur nú til, að hljóðvarpið „dýpkar“ (!) þar sem ekkert j er í framhljóðinu (út — ýta, súpa — sýp, ból — býli)? Enda er hjer allt öðruvísi ástatt, enn Gbr. ætlar; og er ú, að upphafi, aukið u; önnur aukning af u var fyrir öndverðu iu, og hefur sú breyzt í jú (i rýrzt, en u þróazt); en þetta jú snýst í jó fyrir framan t, ð, s, l, n (optast nær), r, m, það er í stuttu máli: fyrir framan tannhljóð og m, (sb. drjúpa, kljúfa, rjúka, fljúga, við skjóta, bjóða, kjósa, o. s. frv.). Allar þrjár aukningarnar: ú, jú, jó, eru þá samar að uppruna og jafn-þungar í máli, sem sjest á því að bera saman súpa, krjúpa, þjóta, við ræturnar sup, krup, þut, eða við saup, kraup, þaut, sem eru hinar meiri aukningar rótanna. Eptir þessu er nú engin furða, þó ú, jú, jó, hafi öll sama hljóðvarp (ý), og þarf ekki j að valda þar neinu um (hvorki í jó nje jú). Á hinn bóginn er ó víðast hvar komið í staðinn fyrir seint a (og hefur œ að hljóðvarpi), en stundum er ó sprottið af ú. Hin fyrri ó-tegund er miklu ríkari og dregur hina síðari ó-tegund eptir sjer að hljóðvarpinu til: bœr af bó — (sb. bóndi og bóandi, fyrir búandi) fyrir bú —; en þó ber við, að hinni síðari ó-tegund kippir í kyn, og snýst hún þá í ý (ból — býli)

Nú kemur ný speki: *„Um è er það að segja, að nokkur dœmi finnast til þess, að það er hljóðvarp af já, t. d.: sè, trè, fè, knè. af sjá, trjám, „fjám, knjám, sýnir þetta, að è ber að álíta sem „hljóðstaf, og að það því er rangt að rita je; „að fornu rituðu menn è eða é, ė, og hendingar „í kveðskap sýna, að framburðrinn hefir í fornöld verið samr og nú. t. d.; „Brjánn fèll og hèlt velli““.* Er è í sè hljóðvarp af já í sjá?! Er þá er í ber hljóðvarp af era í bera?! Nei, þetta hljóðvarp kemur úr leggnum hans Guðbrands! Og hitt er jafn-fráleitt, að è sje hljóðvarp af já í hinum orðunum. è í trè er ekki framar hljóðvarp af já í trjám (fyrir trjóm, sem er eldra), enn ip í skip er hljóðvarp af ipum í skipum, eða amb í lamb af ömbum í lömbum, eða andr í Guðbrandr af öndum í Guðbröndum. Enda er óþarfi að ræða hjer lengra um það mál; því þó hún væri jafn-sönn, sem hún er ósönn, þessi „guðbrenzka“, að è sje hljóðvarp af já, þá getur ekki þar af leiðzt, að è beri að „álíta sem hljóðstaf“. Lítum á hljóðbreytingarnar

já — è

og já — je,

og sjáum, hvort hin síðari breyting verður ekki minni og nær eðli þó báðar sjeu rangar, ef þær á að meta sem hljóðvarp. En hvað á þetta niðurlag (um hendingar í kveðskap)? Á það að vera nokkurs konar „smiðshögg“, að framburðurinn hafi verið samur í fornöld og hann er nú? Er þá framburðurinn ekki je nú? Eða eiga hendingarnar fèll .... velli að sanna að je geti ekki merkt sama hljóð og è? Verða hendingarnar rangar, ef jeg skrifa

Brjánn fjell ok hjelt velli?

„En fornmenn rita ýmist e eða , . . . “. þeir rita reyndar á fleiri vega, enn Gbr. segir. Á þá að taka upp alla þeirra ritshátta í þessu efni, og skrifa ýmist e, eða é, eða ee, eða ée, eða eé eða éé, o. s. frv.? Ellegar á að taka upp nokkra af þeim (tvo, þrjá, fjóra)? eða einn af þeim? En è er ekki þar á meðal! það er satt, að je er ekki fornt heldur; og það er af því j tíðkast ekki í fornöld á þann hátt sem nú er; en ie er fornt, og er það sama og je.

Nokkru síðar segir, að „hljóðvarpsmyndir“ sjeu „mest við hafðar við einsatkvæðis orð“. Jeg svara því þannig: þó þetta væri „heilagur sannleiki“, þá er hitt víst, að hljóðvarp finnst ekki í neinni orðmynd, sem ekki hefur verið nema ein samstafa fyrir öndverðu.

þegar Gbr. er búinn að nefna eins atkvæðis myndir (gel, el, fel, o. s. frv.), kemur ályktun í þessum orðum: *„Er þetta eitt af mörgu sönnun „móti því, að horfið j eða i sè undirrót hljóð„varpsins“.* það er að skilja: „af því þessar „myndir eru nú ekki nema eitt atkvæði hver, þá „er auðvitað, þær hafa aldrei verið lengri“. En þetta er ekki annað enn „guðbrenzka“; því það

er auðsjeð, ekki að eins á hinum fornari málum, indversku, send, grísku, latínu, heldur einnig á gotnesku, fornþjóðversku, miðþjóðversku, fornsaxnesku, engilsaxnesku, hinni eldri hollenzku, og jafnvel á nýþjóðversku, engsku, o. s. frv., að slíkar sagnir hafa allar verið tvær samstöfur, ekki að eins í fleirtölu, heldur einnig í eintölu núlegs tíma í framsöguhætti.

Þessu næst kemur mikil „guðbrenzka" um hljóðvarpið a — ö, og á sumt að vera lítils vert (!), en sumt að ráða tölu (numerus), eða kyni (genus) eða hvorutveggju. Tölu á það að ráða, t. a. m. í barn — börn. En ef ö ræður hjer tölu, hvað kemur þá til, að það stendur ekki í eig. barna? eða er barna síður fleirtala, enn börn og börnum? Og gat nokkur meiri þörf verið á að greina sundur eintölu og fleirtölu í þeim orðum, sem hafa a að hljóðstaf, enn í öllum öðrum? eða hvar er það hljóðvarp, er tölu ræður í hraun, sel, bein, grey, él, skip, síl, brot, (joð), fól, hljóð, grunn, bú, fjúk, fyl, bý („flugu unda bý"), hræ, öl („hvölfa elfum ölva í hra sá"), mjöl („en er mjölin komu heim" Sturl.), kvæði, ríki, o. s. frv., o. s. frv.?

Í öðru lagi, á ö að ráða kyni í sök, gjöf, o. s. frv. En hvað kemur þá til, að saka, sakar, (sakir), gjafa, gjafar, (gjafir), hafa ekkert ö? eru þessi orð ekki kvennkyns, nema í sumum föllum (eða myndum)? Og ef ö gjörir kvennkyn, hvað kemur þá til, að öl er kynlaust? og hjörr karlkyns? Og hvað ræður þá kyni í raun, leið, hlið, og öllum öðrum kvennkynsorðum, sem ekki hafa a að raddarstaf, og, fyrir þá grein, ekkert ö í gjöranda, þolanda og þiggjanda eintölunnar, og þiggjanda fleirtölunnar?

Í þriðja lagi, kvað hljóðvarpið a — ö ráða bæði kyni og tölu í einkunnum (adjectiva), og er fögr tekið þar til dæmis. En hvað skiptir þá kyni og tölu í digr, bitr, vitr, snotr, o. s. frv.? og og hvar er ö í fagri, fagrar, þiggjanda og eiganda eintölunnar í kvennkyni? Enn fremur: hvaða gagn á ö að gjöra í löt, spök, o. s. frv.? því þó ö væri hjer sleppt, og a sett í stað þess, yrði munurinn allt eins greinilegur, sem hver maður getur sjeð:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| latr | latt | löt | latr | latt | lat |
| latan | latt | lata | latan | latt | lata |
| lötum | lötu | latri | lötum | lötu | latri |
| lats | lats | latrar | lats | lats | latrar |
| latir | löt | latar | latir | lat | latar |
| lata | löt | latar | lata | lat | latar |
| | lötum | | | lötum | |
| | latra. | | | latra. | |

En er það nú ekki skrítið, að hjer skuli hvergi vera hljóðvarp, nema þar sem u fer á eptir í endingu (lötu, lötum), eða ending er alls engin (löt)? og þetta skuli vera jafnt, í hvaða kyni, tölu eða falli sem þessar myndir eru hafðar (spöku barni; hina spöku konu; hina spöku menn; hinni spöku; hinnar spöku, hinir spöku; hin spöku, gjörandi og þolandi; hinar spöku gjör. og þol.; hinna spöku karlkyns og kvennkyns og kynlaust; hinum spökum, eða hinum spöku, karlkyns og kvennkyns og kynlaust; spökum manni, spökum konum, spökum börnum; spök kona; spök börn gjörandi og þolandi)? Er þá ekki eins og u vanti aptan við spök, löt, úr því ö er með öllu óþarft til hneigingar? — Og þó ekkert hljóðvarp væri til íslenzkt, þá sýnir saga málanna, allt í frá indversku, að horfinn er hljóðstafur ekki að eins aptan af löt, heldur einnig af góð, börn, skip, sök, þjóð, o. s. frv.; en að þessi hljóðstafur hafi verið u, eins og í fornþjóðversku, engilsaxnesku, o. s. frv., sýnir hljóðvarpið sjálft.

Enda er bezt að nema hjer staðar í þetta sinn. Þó jeg hefði tilbera að senda, gæti hann ekki tínt saman, hvíldarlaust, allt það sem hjer liggur eptir eina kind í þeim þremur sveitum, sem ritgjörðin skiptist í („I. Um stafrof". „II. Um hneigingar". „III. Um stafsetníngu"); og bíður hvað sinnar stundar.

Kaupmannahöfn, 2. júlí 1857.

**Konráð Gíslason.**

---

(Aðsent)

## Loptið í Kaupangskirkju
og
## Loptur yfir Vöðluheiði.

3. *Boð: Minnstu að halda helgan hvíldardaginn!*

Mig minnir að jeg hafi einhverstaðar sjeð skopast að áhuga Akureyrarbúa, er þeir vildu koma upp kirkju hjá sjer. Ef það er rangminni mitt, kemur það til af því að mjer er æfinlega hætt við að ætla heiminum, þegar um kirkju er að gjöra, heldur illt enn gott; og mun það enginn kostur við mig. Vilji menn vita einhvern sannleika í máli þessu, verða þeir að hafa nenn-

ángu til að lesa tímaritin, því annaðhvort í þeim eða þessu óverðuga tali „að Akureyrarkirkja eigi að vera á hjólum“ á rangminni mitt sína rót. Jeg fyrir mitt leyti veit eigi gjörla hvað áhuga Akureyrarbúa líður í kirkjnlegu tilliti; en „af ávöxtunum skuluð þjer þekkja þá“, og þá veit jeg það og vitna hjer með, að flestir málsmetandi menn á Akureyri hafa skotið saman 16 rdl. í peningum (fyrir utan borð, sem sumir hafa lofað) til að koma upp **lopti í Kaupangskirkju**, svo þeir geti átt þar sæti og þurfi eigi á helgum degi t. a. m. eins og núna 9. sunnudag eptir Trínitatis, að ríða fram hjá kirkju þeirri bæði fyrir og eptir sjálfa messugjörðina og sæta svo straffi synda sinna í flóði og vaðli á Vöðluheiði, þegar þeir tugum saman ætla sjer í musteri Drottins[1]. Akureyri 15 d. agústm. 1857.

**Svb. Hallgrímsson.**

þessa grein frá kapiláninum við Kaupangskirkju álítum vjer oss skylt að taka í blað vort, þó oss virðist hitt og þetta athugavert við hana. Oss finnst nefnilega, að þó að Akureyrarbúar hafi skotið saman 16 rd. í lopt handa sjer í Kaupangskirkju, þá geti þeir þó ekki margir fengið sæti á þessum 16 rd., fyrri en búið er að búa til lopt fyrir þá, og að Loptur á Vöðluheiði hafi því enga ástæðu haft til að reiðast syndum þeirra eða skort á kirkjurækni. Vatnar á Vatnsskarði steypti sama daginn húðarrigningu yfir mann, sem var á langferð, þrátt fyrir það þó að hann hefði verið við messugjörð við Bólstarðahlíðarkirkju og fengið báðar blessanir, áður en hann lagði á skarðið, svo af þessu sjest, að forsjónin lætur rigna bæði yfir rjettláta og rangláta.

þegar kapiláninn getur þess, að hann hafi heyrt, eða sjeð í tímaritum „að Akureyrarkirkja ætti að vera á hjólum“, þá getum vjer þess til, að henni hafi verið ekið burt, því ekki sjást nein merki hennar svo vjer vitum til hjer í bænum þó er það bót, að fenginn er kapilán, þó kirkja sje eigi. En margir hefðu ætlað kapiláninum, sem er álitinn hinn mesti prestur, að hann hefði reynt að vekja áhuga manna hjer í bænum og á Norðurlandi til að láta fyrirtæki þetta ekki detta um sjálft sig, því líklegt er að tillögur hans í því efni hefðu mátt sjer mikils; og varla finnst oss það ætlandi Akureyrarbúum að vera mjög kirkjuræknir, á meðan kirkju er ekki komið þar upp, því svo miklir örðugleikar eru þar á því að sækja sveitakirkjur.

[1]) Seinna skal verða auglýst hvað kirkjuloptinu líður.

---

Úr

# Konunglegri Auglýsingu

## um árangur af tilögum alþingis á fundinum 1855.

### I.

þessar rjettarbætur hafa gjörðar verið um þau mál, er vort trúa alþingi hefur sent oss þegnlegar tillögur um.

1., 24. nóvember f. á. opið brjef um það, hvernig greiða skuli kostnað þann, er þarf til að framfylgja lögum 15. apríl 1854 um siglingar og verzlun á Íslandi.

2., 6. janúar þ. á. tilskipun um breyting á tilskipun 8. marz 1843, viðvíkjandi kosningunum til alþingis.

3., s d. opið brjef, um að stofna bygginganefnd á verzlunarstaðnum Akureyri.

4. s. d., opið brjef, er lögleiðir á Íslandi. með breytingum, lög 5. apríl 1850 um að útlendir gyðingar megi setjast að í ríkinu.

A rjettarbótum þessum getur alþingi sjeð, hversu athugasemdir þær, er það hefur gjört um lagaboð þau, er nú voru talin, hafa verið grandgæfilega íhugaðar, og hvernig lagaboðum þessum hefur eptir þeim verið breytt, nákvæmar ákvörðuð og aukin.

Auk þessa hafði alþingi farið því á flot, að ríkiserfðalögin 31. júlí 1853 yrði lögð út og birt á íslenzku, og að lagaboðið 10 febr. 1854, sem breytir nafninu á ríkisbankamyntinni í ríkismynt, yrði einnig lögleitt á Íslandi, með tveimur smábreytingum. En Oss hefur ekki þótt nauðsyn á að gjöra frekari ráðstöfun í þessu efni, einkum vegna þess ætla má að lagaboð þessi sjeu fyrir löngu birt á Íslandi.

Eptir að nefnd sú, sem sett var árið 1855 til að lagfæra jarðamatið á Íslandi 1849 og 1850, hefur nú lokið störfum sínum, verður frumvarp það, sem nefndin hefur samið til nýrrar jarðabókar fyrir Ísland, nú borið undir alþingi.

Breytingar þær, sem alþingi í þegnlegu álitsskjali hefur stungið upp á að gjörðar væri við frumvarp það til tilskipunar um sveitastjórn á Íslandi, er fyrir það var lagt, voru í mörgum atriðum svo lagaðar, að þær gátu ekki orðið teknar til greina, en á hinn bóginn þótti oss ísjárvert, að gefa frumvarpið út sem lagaboð eins og það var í upphafi, og verður það því tekið til nákvæmari yfirvegunar, hvað nú sje tiltækilegast að gjöra, til að koma máli þessu fram.

Frá yfirvöldunum á Íslandi eru nýlega komnar nákvæmari skýrslur og uppástungur viðvíkjandi barnaskóla þeim, sem stofnsetja átti í Reykjavík eptir frumvarpi, sem áður hefur verið borið undir alþingi. En af því menn hafa ekki getað, sem stendur, með vissu vísað á, hvernig fengið yrði fje það, sem þarf til stofnunar skólans og til skólahaldsins, verður að skrifast ítarlegar á um þetta atriði við fyrtjeð yfirvöld áður málið verði á ný borið undir alþingi.

### II.

Um þegnlegar bænarskrár, er vort trúa alþingi hefur sent oss, birtum vjer alþingismönnum allramildilegast:

er auðsjeð, ekki að eins á hinum fornari málum, indversku, send, grísku, latínu, heldur einnig á gotnesku, fornþjóðversku, miðþjóðversku, fornsaxnesku, engilsaxnesku, hinni eldri hollenzku, og jafnvel á nýþjóðversku, engsku, o. s. frv., að slíkar sagnir hafa allar verið tvær samstöfur, ekki að eins í fleirtölu, heldur einnig í eintölu núlegs tíma í framsöguhætti.

Þessu næst kemur mikil „guðbrenzka" um hljóðvarpið a — ö, og á sumt að vera lítils vert (!), en sumt að ráða tölu (numerus), eða kyni (genus) eða hvorutveggju. Tölu á það að ráða, t. a. m. í barn — börn. En ef ö ræður hjer tölu, hvað kemur þá til, að það stendur ekki í eig. barna? eða er barna síður fleirtala, enn börn og börnum? Og gat nokkur meiri þörf verið á að greina sundur eintölu og fleirtölu í þeim orðum, sem hafa a að hljóðstaf, enn í öllum öðrum? eða hvar er það hljóðvarp, er tölu ræður í hraun, sel, bein, grey, él, skip, síl, brot, (joð), fól, hljóð, grunn, bú, fjúk, fyl, bý („flugu unda bý"), hræ, öl („hvölfa elfum ölva í ítra sá"), mjöl („en er mjölin komu heim" Sturl.), kvæði, ríki, o. s. frv., o. s. frv.?

Í öðru lagi, á ö að ráða kyni í sök, gjöf, o. s. frv. En hvað kemur þá til, að saka, sakar, (sakir), gjafa, gjafar, (gjafir), hafa ekkert ö? eru þessi orð ekki kvennkyns, nema í sumum föllum (eða myndum)? Og ef ö gjörir kvennkyn, hvað kemur þá til, að öl er kynlaust? og hjörr karlkyns? Og hvað ræður þá kyni í raun, leið, hlið, og öllum öðrum kvennkynsorðum, sem ekki hafa a að raddarstaf, og, fyrir þá grein, ekkert ö í gjöranda, þolanda og þiggjanda eintölunnar, og þiggjanda fleirtölunnar?

Í þriðja lagi, kvað hljóðvarpið a — ö ráða bæði kyni og tölu í einkunnum (adjectiva), og er fögr tekið þar til dæmis. En hvað skiptir þá kyni og tölu í digr, bitr, vitr, snotr, o. s. frv.? og og hvar er ö í fagri, fagrar, þiggjanda og eiganda eintölunnar í kvennkyni? Enn fremur: hvaða gagn á ö að gjöra í löt, spök, o. s. frv.? því þó ö væri hjer sleppt, og a sett í stað þess, yrði munurinn allt eins greinilegur, sem hver maður getur sjeð:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| latr | latt | löt | latr | latt | lat |
| latan | latt | lata | latan | latt | lata |
| lötum | lötu | latri | lötum | lötu | latri |
| lats | lats | latrar | lats | lats | latrar |
| latir | löt | latar | latir | lat | latar |
| lata | löt | latar | lata | lat | latar |
| | lötum | | | lötum | |
| | latra. | | | latra. | |

En er það nú ekki skrítið, að hjer skuli hvergi vera hljóðvarp, nema þar sem u fer á eptir í endingu (lötu, lötum), eða ending er alls engin (löt)? og þetta skuli vera jafnt, í hvaða kyni, tölu eða falli sem þessar myndir eru hafðar (spöku barni; hina spöku konu; hina spöku menn; hinni spöku; hinnar spöku, hinir spöku; hin spöku, gjörandi og þolandi; hinar spöku gjör. og þol.; hinna spöku karlkyns og kvennkyns og kynlaust; hinum spökum, eða hinum spöku, karlkyns og kvennkyns og kynlaust; spökum manni, spökum konum, spökum börnum; spök kona; spök börn gjörandi og þolandi)? Er þá ekki eins og u vanti aptan við spök, löt, úr því ö er með öllu óþarft til hneigingar? — Og þó ekkert hljóðvarp væri til íslenzkt, þá sýnir saga málanna, allt í frá indversku, að horfinn er hljóðstafur ekki að eins aptan af löt, heldur einnig af góð, börn, skip, sök, þjóð, o. s. frv.; en að þessi hljóðstafur hafi verið u, eins og í fornþjóðversku, engilsaxnesku, o. s. frv., sýnir hljóðvarpið sjálft.

Enda er bezt að nema hjer staðar í þetta sinn. Þó jeg hefði tilbera að senda, gæti hann ekki tínt saman, hvíldarlaust, allt það sem hjer liggur eptir eina kind í þeim þremur sveitum, sem ritgjörðin skiptist í („I. Um stafróf". „II. Um hneigingar". „III. Um stafsetningu"); og bíður hvað sinnar stundar.

Kaupmannahöfn, 2. júlí 1857.

**Konráð Gíslason.**

---

(Aðsent)

## Loptið í Kaupangskirkju og Loptur yfir Vöðluheiði.

3. *Boð: Minnstu að halda helgan hvíldardaginn!*

Mig minnir að jeg hafi einhverstaðar sjeð skopast að áhuga Akureyrarbúa, er þeir vildu koma upp kirkju hjá sjer. Ef það er rangminni mitt, kemur það til af því að mjer er æfinlega hætt við að ætla heiminum, þegar um kirkju er að gjöra, heldur illt enn gott; og mun það enginn kostur við mig. Vilji menn vita einhvern sannleika í máli þessu, verða þeir að hafa nenn-

ingu til að lesa tímaritin, því annaðhvort í þeim eða þessu óverðuga tali „að Akureyrarkirkja eigi að vera á hjólum“ á rangminni mitt sína rót. Jeg fyrir mitt leyti veit eigi gjörla hvað áhuga Akureyrarbúa líður í kirkjulegu tilliti; en „af ávöxtunum skuluð þjer þekkja þá“, og þá veit jeg það og vitna hjer með, að flestir málsmetandi menn á Akureyri hafa skotið saman 16 rdl. í peningum (fyrir utan borð, sem sumir hafa lofað) til að koma upp **lopti í Kaupangskirkju**, svo þeir geti átt þar sæti og þurfi eigi á helgum degi t. a. m. eins og núna 9. sunnudag eptir Trínitatis, að ríða fram hjá kirkju þeirri bæði fyrir og eptir sjálfa messugjörðina og sæta svo straffi synda sinna í flóði og vaðli á Vöðluheiði, þegar þeir tugum saman ætla sjer í musteri Drottins[1]. Akureyri 15 d. ágústm. 1857.

**Svb. Hallgrímsson.**

þessa grein frá kapiláninum við Kaupangskirkju álítum vjer oss skylt að taka í blað vort, þó oss virðist hitt og þetta athugavert við hana. Oss finnst nefnilega, að þó að Akureyrarbúar hafi skotið saman 16 rd. í lopt handa sjer í Kaupangskirkju, þá geti þeir þó ekki margir fengið sæti á þessum 16 rd., fyrri en búið er að búa til lopt fyrir þá, og að Loptur á Vöðluheiði hafi því enga ástæðu haft til að reiðast syndum þeirra eða skort á kirkjurækni. Vatnar á Vatnsskarði steypti sama daginu hlúðarrigningu yfir mann, sem var á langferð, þrátt fyrir það þó að hann hefði verið við messugjörð við Bólstarðahlíðarkirkju og fengið báðar blessanir, áður en hann lagði á skarðið, svo af þessu sjest, að forsjónin lætur rigna bæði yfir rjettláta og rangláta.

þegar kapiláninn getur þess, að hann hafi heyrt, eða sjeð í tímaritum „að Akureyrarkirkja ætti að vera á hjólum“, þá getum vjer þess til, að henni hafi verið ekið burt, því ekki sjást nein merki hennar svo vjer vitum til hjer í bænum þó er það bót, að fenginn er kapilán, þó kirkja sje eigi. En margir hefðu ætlað kapiláninum, sem er álitinn hinn mesti prestur, að hann hefði reynt að vekja áhuga manna hjer í bænum og á Norðurlandi til að láta fyrirtæki þetta ekki detta um sjálft sig, því líklegt er að tillögur hans í því efni hefðu mátt sjer mikils; og varla finnst oss það ætlandi Akureyrarbúum að vera mjög kirkjuræknir, á meðan kirkju er ekki komið þar upp, því svo miklir örðugleikar eru þar á því að sækja sveitakirkjur.

[1]) Seinna skal verða auglýst hvað kirkjuloptinu líður.

---

Úr

## Konunglegri Auglýsingu

um árangur af tillögum alþingis á fundinum 1855.

### I.

þessar rjettarbætur hafa gjörðar verið um þau mál, er vort trúa alþingi hefur sent oss þegnlegar tillögur um.

1., 24. nóvember f. á. opið brjef um það, hvernig greiða skuli kostnað þann, er þarf til að framfylgja lögunum 15. apríl 1854 um siglingar og verzlun á Íslandi.

2., 6. janúar þ. á. tilskipun um breyting á tilskipun 8. marz 1843, viðvíkjandi kosningunum til alþingis.

3., s. d. opið brjef, um að stofna bygginganefnd á verzlunarstaðnum Akureyri.

4. s. d., opið brjef, er lögleiðir á Íslandi. með breytingum, lög 5. apríl 1850 um að útlendir gyðingar megi setjast að í ríkinu.

Á rjettarbótum þessum getur alþingi sjeð, hversu athugasemdir þær, er það hefur gjört um lagaboð þau, er nú voru talin, hafa verið grandgæfilega íhugaðar, og hvernig lagaboðunum þessum hefur eptir þeim verið breytt, nákvæmar ákvörðuð og aukin.

Auk þessa hafði alþingi farið því á flot, að ríkiserfðalögin 31. júlí 1853 yrði lögð út og birt á íslenzku, og að lagaboðið 10 febr. 1854, sem breytir nafninu á ríkisbankamyntinni í ríkismynt, yrði einnig lögleitt á Íslandi, með tveimur smábreytingum. En Oss hefur ekki þótt nauðsyn á að gjöra frekari ráðstöfun í þessu efni, einkum vegna þess ætla má að lagaboð þessi sjeu fyrir löngu birt á Íslandi.

Eptir að nefnd sú, sem sett var árið 1855 til að lagfæra jarðamatið á Íslandi 1849 og 1850, hefur nú lokið störfum sínum, verður frumvarp það, sem nefndin hefur samið til nýrrar jarðabókar fyrir Ísland, nú borið undir alþingi.

Breytingar þær, sem alþingi í þegnlegu álitsskjali hefur stungið upp á að gjörðar væri við frumvarp það til tilskipunar um sveitastjórn á Íslandi, er fyrir það var lagt, voru í mörgum atriðum svo lagaðar, að þær gátu ekki orðið teknar til greina, en á hinn bóginn þótti oss ísjárvert, að gefa frumvarpið út sem lagaboð eins og það var í upphafi, og verður það því tekið til nákvæmari yfirvegunar, hvað nú sje tiltækilegast að gjöra, til að koma máli þessu fram.

Frá yfirvöldunum á Íslandi eru nýlega komnar nákvæmari skýrslur og uppástungur viðvíkjandi barnaskóla þeim, sem stofnsetja átti í Reykjavík eptir frumvarpi, sem áður hefur verið borið undir alþingi. En af því menn hafa ekki getað, sem stendur, með vissu vísað á, hvernig fengið yrði fje það, sem þarf til stofnunar skólans og til skólahaldsins, verður að skrifast ítarlegar á um þetta atriði við fyrtjeð yfirvöld áður málið verði á ný borið undir alþingi.

### II.

Um þegnlegar bænarskrár, er vort trúa alþingi hefur sent oss, birtum vjer alþingismönnum allramildilegast:

1. Viðvíkjandi þegnlegri bænarskrá alþingis um breyting á 4. grein lagaboðsins 15. apríl 1854 um siglingar og verzlun á Íslandi, má skírskota til laga, sem um það eru gefin út 26. febr. f. á. þar að auki er 28. febr. f. á. komin út auglýsing um breytingu á auglýsingu 4. des. 1854 um það, hvernig fá megi íslenzk leiðarbrjef, og enn fremur 2. apríl 1856 auglýsing um aukagjald fyrir sum utanríkis skip sem sigla til Íslands; 7. júlí s. á. auglýsing um að frakknesk skip sem fara kaupferðir til Íslands og Færeyja, sjeu undan þegin að greiða tjeð aukagjald, og 19. nóvember s. á. auglýsing sama innihalds með tilliti til skipa, sem eiga heima í konungsríkinu Sikileyjum og fara kaupferðir til Íslands og Færeyja.

2. Samkvæmt þegnlegri bænarskrá alþingis höfum Vjer löggilt verzlunarstað við Sauðárkrók í Skagafjarðarsýslu í Íslands Norðuramti, og er komið út um það opið brjef dagsett í dag.

3. Alþingi hefur í þegnlegri bænarskrá farið því fram, bæði að póstgöngum yrði til bráðabyrgða strax fjölgað á Íslandi þannig, að nýrri póstferð yrði bætt við milli Friðriksgáfu og Reykjavíkur og 3 nýjum póstferðum milli Stykkishólms og Reykjavíkur, og að samið yrði og lagt fyrir alþingi frumvarp til almennra laga eða reglugjörðar um póstmál á Íslandi. Hin fyrst nefnda ráðstöfun er þegar komin á, þar sem þegar í fyrra var bætt við nýrri póstferð milli Akureyrar og Reykjavíkur, og einnig er búið að leggja svo undir, ekki að eins að póstgöngum verði fjölgað milli Stykkishólms og Reykjavíkur, heldur einnig að póstgöngunum innanamts í Vesturamtinu verði fjölgað og komið í lag, samkvæmt því sem alþingi hefur farið fram á, og kemst þetta ef til vill á þegar í ár eða þá innan skamms. En með því póstgöngurnar á Íslandi, eins og alþingi hefur drepið á, verða að standa í sambandi við póstskipsferðirnar milli Danmerkur og Íslands, þá þarf fyrst að gjöra út um það, hvernig póstskipsferðum þessum verði hagað eptirleiðis, áður en samdar verði ákvarðanir um hvernig póstgöngunum á Íslandi verði breytt; og með því nú er komin fram uppástunga nokkur um að koma á gang gufuskipaferðum hjeðan til Íslands, þá hefur þótt rjettast, að gefa alþingi færi á að segja álit sitt um þetta mál, áður en frekari ráðstöfun er gjörð viðvíkjandi þessu málefni, sem er svo mikils varðandi fyrir Ísland.

4. Eptir bænarskrá alþingis hefur frumvarp til tilskipunar um vegina á Íslandi verið samið og verður nú borið undir álit þingsins.

5. Alþingi hefur í þegnlegri bænarskrá farið þess á leit, að veittur yrði styrkur þeim manni eða mönnum, sem vildu stofna jarðyrkjuskóla á Íslandi, og fátækum lærisveinum, sem vildu ganga á þann skóla. Hefur nú um það mál verið leitað álits yfirvaldanna á Íslandi, en eptir því sem þar er greint og sem fulltrúi Vor mun skýra þinginu gjörr frá, getur ekki sem stendur orðið gjört meira við þetta mál, en að öðru leyti mun stjórnin láta sjer framvegis vera einkar annt um það.

6. Málið um betri læknaskipun á Íslandi, sem alþingi hefur sent þegnlega bænarskrá um, er nú svo vel á veg komið, að líkindi eru til, að því verði ráðið til lykta áður langt líður, og mun stjórnin framvegis róa að því öllum árum.

7. Út af þegnlegri bænarskrá alþingis um, að 2 eða 3 löglærðir málaflutningsmenn yrði skipaðir við yfirdóminn á Íslandi, hefur verið leitað álits stiptamtmanns og dómendanna í yfirdóminum bæði um það, hve mikinn styrk mundi þurfa til að koma þessu fram, og úr hverjum sjóði hann yrði greiddur. Nú er ekki neitt því til fyrirstöðu, að fyrst um sinn verði settir 2 löglærðir málaflutningsmenn við yfirdóminn, og álízt hæfilegt, að hver þeirra fái 3 eða 400 rd. árlegan styrk, en með því að helmingurinn að eins, eða í mesta lagi 350 rd., verður greiddur úr hinum íslenzka sakagaldssjóði, og þar stjórnin sjer ekki færi á að útvega neinn meiri styrk til þess, verður að bíða eptir ítarlegri uppástungu frá alþingi um það, hvernig það verði fengið, sem á vantar.

8. Oss hefur ekki þótt ástæða til að taka til greina þegnlega bænaskrá alþingis um, að 15. gr. í tilskipun 26. janúar 1821 verði numin úr lögum, og að settur verði kennsluskóli í Reykjavík handa íslenzkum lögfræðingum.

9. Vjer höfum allramildilegast veitt þegnlega bæn alþingis um að vitnisburðir þeir, sem konunglegur úrskurður 8. apríl 1844 áskilur, verði ekki teknir gildir, nema þeir sjeu frá kennaranum í íslenzku máli við háskólann í Kaupmannahöfn, eða frá þeim föstum kennara við hinn lærða skóla í Reykjavík, er kennir þar íslenzku, og höfum Vjer auk þessa gefið stjórn dómsmálanna á vald, að ákveða nákvæmar hvernig próf það skuli vera, sem menn þurfa að standa í íslenzku áður en þeir geti fengið vitnisburð um að þeir kunni málið.

10. Alþing hefur í þegnlegri bænarskrá farið fram á, að greinilegur og skipulegur reikningur yrði saminn yfir „Kollektupeningana“ síðan um árslok 1797, og auglýstur þinginu. En með því málið um „Kollektupeningana“, sem alþingið hefur einu sinni áður haft tækifæri til að kynna sjer, er fullkomlega útkljáð með allrahæstum úrskurði 25. júlí 1844, er ákveður að stærð peninga þessara sje til þess tíma 28,165 rd. 24 sk., hefur ekki virzt nein ástæða til að gefa þinginu ítarlegri skýrslu um hvernig „Kollektupeningunum“ fyrrum hefur verið varið, en þá, sem gefinn var þinginu af konungsfulltrúa árið 1845. Þar á móti hefur svo virzt, að ekki bæri að neita þinginu um skýrslu hvernig hjálparsjóði þeim, sem stofnaður var með áðurnefndum allrahæstum úrskurði og vöxtum af honum hafi verið varið síðan 25. júlí 1844, og verður þess vegna í því skyni sent fulltrúa Vorum á alþingi staðfest eptirrit af optnefndum allrahæzta úrskurði og sömuleiðis af reikningi þeim, sem saminn hefur verið yfir tjeðan sjóð síðan hann var stofnaður, og verður um leið skýrt frá hvernig sjeð er fyrir sjóði þessum og hvar hann er geymdur.

11. Út af þegnlegri bænarskrá alþingis um, að sýslumanninum í Skaptafellssýslu verði gjört að skyldu að taka sjer aðsetur á hentugra stað fyrir sýslubúa en verið hefur, hefur stjórn dómsmálanna lagt svo undir, að þessu verði komið í betra lag. En að öðru leyti viljum Vjer leiða athuga þingsins að innihaldi tilskip. 8. marz 1843 77. gr., er alþingi eptir henni á ekki að hafa afskipti af bænarskrám og kvörtunum einstakra manna, heldur vísa þeim til hlutaðeiganda yfirvalds úrlausnar.

Vjer höfum ekki getað annað en álitið það nauð-

synlegt að taka þessa konunglegu auglýsingu nokkturn veginn í heilu líki í blað vort, því ekkert ætti almenningi að vera annara um en að kynna sjer sem bezt áranguriñn af tillögum þingsins, því af honum getur hún bæði sjeð, að hve miklu leyti stjórnin leitast við að gegna áskorunum landsmanna, er þingið ber fyrir hana, og að hve miklu leyti alþingi leysir ætlunarverk sín svo vel af hendi, að landsmenn mættu eiga von á því, að stjórnin tæki þau mál til greina.

Vjer sjáum nú á þessari konunglegu auglýsingu, að það er í mjög fáum málum, og það næstum einungis í hinum smærri, að stjórninni hefur þóknast að taka tillögur alþingis 1855 til greina, og að hið einasta markverða lagaboð, sem komið hefur út síðan, eru ný kosningarlög, miklu rýmri og betri en áður voru; því hin 3 lagaboðin, sem byggð eru á hinum konunglegu frumvörpum til þingsins 1855, um kostnað er þarf til að framfylgja verzlunarlögunum 15 apríl 1854, um bygginganefnd á Akureyri og um gyðinga álítum vjer miklu þýðingarminni.

Enn minni árangur hafa hinar þegnlegu bænarskrár alþingis haft, svo að einungis fjórar þeirra hafa fengið áheyrslu, og þær allar hinar umfangsminnstu, um breytingu á verzlunarlögunum, um löggilding Sauðárkróks í Skagafirði, um staðfestingu vitnisburða þeirra danskra manna, er sækja vilja um embætti hjer á landi, og um að sýslumaður Skaptfellinga skipti um bústað, en öllum öðrum og þar á meðal mörgum áríðandi bænarskrám annaðhvort neitað eða að eins gefið vilyrði fyrir, að stjórnin skuli seinna íhuga þær betur

Þannig hefur stjórnin neitað algjörlega að stofna lagaskóla hjer á landi, án þess að færa neinar ástæður fyrir neitun, sinni og sama er um að gjöra reikning fyrir kollektusjóðnum, er alþingi hafði beðizt, og hefur þó enga ástæðu fært fyrir því nema þá, að málið væri fullkomlega útkljáð með konungsúrskurði 25 júlí 1844, þó að það liggi í augum uppi, að þar er engi grein gjörð fyrir reikningum sjóðsins um hin liðnu ár frá 1797, heldur einungis gefnar reglur fyrir því, hvernig verja skuli leifunum af þessum sjóði framvegis; og þó sýnist það vafalaus rjettur Íslendinga, að stjórnin gjöri skíran reikning fyrir rjettri brúkun á fje þessa sjóðs fyrir þann tíma eins og eptir hann.

Búnaðarskólamálinu hefur stjórnin líka eytt, og ástæður þær er konungsfulltrúi bar fram fyrir því fyrir hönd stjórnarinnar voru hinar ljettvægustu, t. a. m. hjer á Norðurlandi — og það jafnframt þó amtmaður hefði mælt vel fram með málinu — „að slíkur skóli mundi ekki verða stofnaður í bráð, bæði vegna þess að byggja þyrfti amtmanninum íbúðarhús aptur inn á Akureyri, og líka af því, að nægir kennendur handa slíkum skóla mundi ekki vera fyrir hendi“. En oss virðist nú að stjórnin hefði getað stofnað skólann eða gefið leyfi og ljeð hús og jörð til að stofna hann, eins fyrir það þó ekki væri búið að byggja amtmanninum hús til íveru, því ætíð var hægt að binda stofnun skólans við það, þegar þeim starfa væri lokið. Hin ástæðan, að kennarar mundu eigi fást, er enn ómerkari, því árlega útskrifast þó nokkrir úr Reykjavíkurskólanum, og ungir stúdentar eða guðfræðingar frá prestaskólanum væru vel kjörnir til að kenna flest atriði í þessum skóla; en nóga höfum vjer lærða jarðyrkjumenn, er gætu tekið þá grein að sjer. Það er sorglegt, þegar stjórnin sjer og viðurkennir brýna þörf vora á þess konar skólum, að hún skuli ekki sem bráðast verða við bón vorri, því biðin er í svo áríðandi málefnum hverjum hlut verri, og oss kemur það að litlu haldi, þegar ekkert verður af framkvæmdinni, þó að stjórnin segi „að hún muni láta sjer framvegis einkar annt um það.“

Málin um læknaskipun og um að skipa löglærða málaflutningsmenn, álítur stjórnin næstum útkljáð og fellst á þau, en þó brennur það við, sem víða og opt hefur komið fram, að hún horfir í kostnað allan til Íslands þarfa, og getum vjer því ekki annað en óttast, þó að læknum verði fjölgað, að stjórnin nemi þá endurbót við neglur sínar sökum kostnaðaraukans, eins og oss virðist að vant verði alþingi úr því að ráða hvernig greiða skuli það sem ávantar til málaflutningsmannanna.

Það gleður oss að stjórnin ætlar að framfylgja póstgöngumálinu, og hefur því tekið undir boð Kochs gufuskipastjóra að láta gufuskip ganga til Íslands eptirleiðis, og þá fyrst getum vjer vænst að póstgöngunum verði komið í bærilegt horf hjer innanlands, Sama er að segja um vegabótamálið, sem nú er lagt fyrir þing; og getum vjer ekki kennt stjórninni um, þó að ýmsir gallar kunni að vera á frumvarpinu, því í þess konar algjörlega innlendum málum ætti alþing að taka miklu nákvæmar fram uppástúngur sínar en það gjörði á hinu síðasta þingi, því auðvitað er,

að þingið þekkir miklu betur til en stjórnin hvernig hjer hagar, þegar um slík mál er að ræða.

---

Um ekkert málefni er mönnum nú jafntíðt talað, sem um kláðafaraldrið, og af engu máli ganga jafnmargar sögur sem af því; en því miður eru sumar af þeim sprottnar af vanþekkingu, lýgi og illgirni, og þar á meðal er sagan af hrútunum við Arnarvatn, sem flogin er um allt land, mjög svo rangfærð, og þar eð jeg er nokkuð viðriðinn hana, finn jeg mjer skylt að kippa henni í liðinn.

Um lestatímann hafði einn af flokksforingjum í verðinum á Arnarvatnsheiði að nafni Björn Helgason handleikið tvo hrúta úr Miðfirði, og þar eð vart varð við kláða á öðrum þeirra, sendi hann þá yfirforingjanum þorleifi þorleifssyni í þeim tilgangi, að hann sýndi mjer þá, þegar jeg færi norður um aptur, og voru þeir í tjóðri við Arnarvatn þegar jeg kom þangað. þessa hrúta skoðaði jeg nákvæmlega, og fundust engin kláðamerki á öðrum þeirra, en á hinum var hrúðurværing báðumegin á hálsinum að mestu leyti laus við skinnið, og skinnið hreint undir. Annarstaðar sást ekki kláði á honum; hann var í góðu standi og vel fylldur. þó jeg væri sannfærður um, að þessi kláði væri aldeilis ósaknæmur, og ætti ekkert skylt við sunnlenzka faraldrið, datt mjer samt í hug að láta skera hrútinn eigandanum til straffs, sem auðsjáanlega hafði forsómað að þvo hrútinn í vor, þvert á móti skipun sýslunefndarinnar; en hætti við það aptur vegna þess að jeg óttaðist fyrir, að þá mundu bráðum komast á gang sögur um það, að nú væru varðmennirnir farnir að skera niður fje að norðan úr kláðafaraldrinu, og líka þótti mjer betra, að brúka þessa hrúta, til að sanna með þeim, að norðlenzki kláðinn ekki útbreiðist við samgöngur eins og sá sunnlenzki. þess vegna bað jeg varðmennina fyrir, að geyma þá á afviknum stað, þar sem þeir ekki hefðu samgöngu með öðru fje, og kom okkur saman um það, að það mundi vera tiltækilegast, að hafa þá upp með Norðlendingafljóti, hvar varðmenn höfðu daglega umgöngu, og minnstar fjárvonir væru bæði að norðan og sunnan. Vegna umtalsins, sem varð út af hrútum þessum, ljetu eigendurnir sækja þá fram að Fljóti, hvar þeir enn nú voru í vörzlum varðmannanna, og höfðu þeir á tímabilinu frá því jeg hafði sjeð þá, og þangað til þeir voru sóttir, ekki komið saman við nokkra kind, hvorki að norðan nje sunnan. þegar þeir komu til byggða voru þeir skoðaðir af prestinum síra Hinriki á Bergstöðum, sem þá var staddur vestur í Miðfirði, og af bónda Jóni á Bjargastöðum, sem tóku skriflega lýsingu yfir hrútana, og sagði velnefndprestur mjer, að á þeim hrútnum sem kláðann hafði, hefðu fundist á 3 stöðum litlir dýlar, hvar að eins hefði vottað fyrir roða í skinninu, en að öðru leyti engin merki til kláða á honum. — Jeg hefi lagt drögur fyrir það, að hrútarnir megi halda lífi til haustsins, en að þeir verði geymdir á afviknum stað, svo það sjáist, hverja verkun þeir hafa hvor á annan, með tilliti til kláðans.

**J. Skaptason.**

---

Fyrstu dagana í þessum mánuði barst hingað fregnin um hinn mikla hvalreka á Skagaströnd núna um næstliðin sumarmál, brugðum vjer Strandamenn þá strax við og vjer álitum fært að komast yfir um Húnaflóa sakir hafísa, og fórum frá Gjögri við Reykjarfjörð á 10 skipum, þeim er vjer annars brúkum til hákarlaveiða, yfir á Skagaströnd til þess að fá þar keyptan hval, með því hjer var sumstaðar um þær mundir heldur bjargarskortur manna á meðal. þegar vjer komum á Skagaströnd, gátum vjer að vísu ekki fengið keyptan hval til muna, eða eptir þörfum, því búið var þá að mestu að skera hvalina; þó viljum vjer geta þess, að verzlunarstjóri herra J. Holm og umboðsmaður herra R. M. Ólsen á þingeyrum stuðluðu til þess, eptir því sem unnt var, að ferð vor þangað yrði ekki árangurslaus, og vjer ekki þyrftum að fara svipferðir, auk þess sem þeir báðir, og einkum hinn fyrnefndi, sýndu oss öllum yfir höfuð staka gestrisni og velvild, fyrir hvað allt vjer hjer með vottum þessum herrum og heiðursmönnum alúðlegar og virðingarfullar þakkir vorar, sem þeir svo fyllilega eiga af oss skildar; enn oss finnst þar á móti síður tilefni til að halda á lopti minningunni um góðvilja verzlunarstjórans á Hólanesi oss til handa, enda mun hann, að oss virtist, máske fremur hafa hugsað um ágóðann af hvalrekanum, enn um þarfir hinna fátæku.

ritað í Strandasýslu í maímánuði 1857.

**Nokkrir Strandamenn.**

---

☞ Af því að jeg hefi í hyggju að hætta meðalasölu hjer næsta vor, þá bið jeg alla, sem um næstliðið nýár fengu reikning frá mjer að gjöra svo vel að borga þá reikninga í haust eða í seinasta lagi fyrir næsta nýár 1858.

Akureyri 11. ágúst 1857

O. Thorarensen.

2. þessa mánaðar týndist reiðbeizli með koparstöngum á leiðinni frá húsi Jóseps gullsmiðs á Akureyri upp undir svarðargrafirnar fyrir utan Naust. Ef nokkur finnur þetta beizli er hann beðinn að skila því á skrifstofu Norðra móti sanngjarnri þóknun.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.
Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 5 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

**5. ár.** **15. September.** **23.—24.**

## Alþing 1857.

Vjer höfum til þessarar stundar dregið að skrifa neitt um alþingi vort í sumar og störf þess, enda erum vjer svo illa settir hjer svo langt frá þingstaðnum, að vjer getum lítið fengið að vita nema það, sem vjer heyrum á skotspónum, því þingtíðindin koma ekki fyr en löngu seinna, um miðjan vetur eða að vori; og þó að vjer tækjum oss ferð á hendur til Reykjavíkur í enda hins reglulega þingtíma, þá gátum vjer lítið fræðst af þeirri ferð, því fá mál voru rædd til lykta meðan vjer vorum syðra, því verkefni þingsins var svo mikið, að lengja varð þingið til hins 17. ágústmánaðar, og voru því flest mál ókomin úr nefndum, þegar vjer vorum syðra.

þegar vjer nú sjáum, hvaða málefni þingið hefur haft til meðferðar, getum vjer nú reyndar ekki annað en furðað oss á því, að svo mikið skyldi þurfa að lengja þingtímann, og oss virðist það einkum hafa valdið því, að stiptamtmaður dró svo lengi að leggja fram frumvarpið um vörn og ráðstafanir móti fjárkláðasýkinni fyrir þingið. það er eðlilegt þó það hepti störf þingsins framan af þingtímanum, þegar stjórnarfrumvörpin koma ofseint, og þingmenn eru því að kynoka sjer við að taka önnur mál í nefndir, af því þeir vita ekki hvað yfirgripsmikil frumvörpin kunna að verða, og enn óheppilegar hefur það tekizt, að frumvarp amtmannanna fyrir vestan og norðan skyldi ekki vera lagt fyrir þingið fyr en þann 14. júlí — að oss minnir —, því annars hefði það mál ekki þurft að valda því, að þingtíminn var lengdur svo mjög. það er ætíð hart fyrir almenning að þurfa að greiða þriðjungi meiri alþingiskostnað en verið hefur, og þó einkum, þegar menn sjá, að þetta er að nokkru leyti sprottið af hirðuleysi stjórnarinnar og yfirvaldanna.

Hin helztu mál, sem komu til umræðu á þinginu voru þessi:

A, frá stjórninni:

1. Jarðamatsmálið. þingið fylgdi í þessu máli yfir höfuð frumvarpi nefndar þeirrar er sett var í Reykjavík samkvæmt tillögum alþingis 1855. og urðu þau úrslit, að sinn deilir skyldi vera fyrir hvert umdæmi til að fá hundraðatöluna. Skyldi hann vera 29 rd. 48 sk. í Norður- og Austurumdæminu, 30 rd. 48 sk. í Suðurumdæminu og 26 rd. 48 sk. í Vesturumdæminu, og skyldi eptir þessum deili reikna hundraðatölu hverrar jarðar og skyldi sú jarðabók löggild og standa óbreytt í 20 ár.

2. Um fjárhagsefni Íslands. það fór að getu vorri (sbr. maímánaðarblað þessa árs), að stjórnin mundi ekki bjóða oss nein sjerleg kostaboð um hluttekning í að ráða fjárhag vorum. Ekkert frumvarp um þetta efni var lagt fyrir þingið, heldur skrifaði dómsmálastjórinn konungsfulltrúa, og bað hann að bera undir þingið, að hve miklu leyti það áliti að það gæti gefið ráð um fjárhag landsins, og þar með fylgdi og það atriði, á hvern hátt Íslendingar gætu lagt til menn á flotann danska. þingið sá nú eins og var, að lítið mundi stoða, að það fengi leyfi til að ráðleggja stjórninni hitt og þetta í þessu máli, sem hún ekki þyrfti ekki að taka til greina framar en hún vildi, og beiddist því, að alþingi fengi vald yfir tekjum og útgjöldum landsins, og að stjórnin leggi til, á meðan verið er að koma fjárhag Íslands í rjett horf, vissa upphæð á ári hverju. þó að oss nú geti ekki betur virzt en að það sje einhvern veginn kátlegt, að alþingi fengi þannig fullkomið vald að ákveða tekjur landsins og útgjöld, meðan það þó ekki hefur fengið löggjafarvald í öðrum málum, þá virðist oss þó, að þingið hafi gjört rjett í að neyta því ekki öldungis að taka að sjer þetta sjerstaka löggjafarvald; því bæði er öll þörf á, að þessu sje ljett á þingi Dana, sem kvartað hefur undan að þurfa nokkuð við það að fást, og svo ættu menn að geta vonazt eptir, þegar alþingi

hefur nú í annari bænarskrá enn að nýju beðizt þess, að ráðið yrði til lykta sem fyrst málinu um stöðu Íslands í ríkinu, að bæði þessi mál yrðu nú lögð fyrir næsta þing. Það gleður oss, að þingið hefur sett sig á móti hinu atriðinu „að leggja menn á flota Dana", því bæði yrði slíkt framlag af vorri hendi lítill sem enginn styrkur, og svo er land vort svo fólksfátt, að vjer höfum þörf fyrir miklu meiri vinnuafla en vjer höfum, þar sem flestir atvinnuvegir vorir eru ónotaðir eða að eins hálfnotaðir sökum mannfæðar

3. Hið þriðja mál, er stjórnin fjekk alþingi til yfirvegunar, var um það efni, hvort Frakkar mættu fá leyfi til að þurrka fisk sinn á landi á Dýrafirði; og var þingið móti því. Það höfðu komið bænarskrár bæði frá Austfirðingum og Vestfirðingum á móti þessari beiðni þeirra, og vjer ætlum það ekki ofhermt, að utanríkisþjóðir, t. a. m. Englar, hafi ekki verið þeim meðmæltir. Þingið reyndi þar til að þræða einhvern meðalveg, og vildi gjöra Frökkum kost á að fá bæn sína uppfyllta, ef að þeir lækkuðu tolla þá, sem eru á fiskflutningi til Frakklands, og gæfu Íslendingum og Dönum leyfi til að standa þar jafnhliða Frökkum. Vjer getum nú ekki láð þinginu, þó að það hefði mikið tillit til bæna landsmanna í þessu efni; því verður ekki neitað, að eitthvað er ísjárvert við þessa beiðni Frakka, einkum eins og þeir stýla hana, og öll von til að vitringum vorum í stjórnarefnum virðist það efunarmál að gefa þeim þetta leyfi á móti eindreginni bón landsmanna. Eptir því, hvernig Frakkar hafa beiðzt þessa, þá getum vjer ekki sjeð rjettara en að þingið hafi gjört rjett í að neita þessari bæn þeirra; því þó að það væri gott fyrir landsmenn að útlendar þjóðir kæmu hingað og settust hjer að, þá er það æfinlega bezt, að slíkir menn sjeu að öllu leyti undir landslögum, og þegar útlendir menn vilja ekki þýðast það, geta þeir ekki misvirt, þó vjer neitum bón þeirra.

4. Hið fjórða álitsmál frá stjórninni var um gufuskipaferðir milli Íslands og Danmerkur, og aðhylltist þingið það í einu hljóði með þeim viðauka, að æskilegt væri, að skipið gæti skroppið um leið í hvert sinn inn á Eskifjörð. Þessi viðauki er nú reyndar góður og gagnlegur, en því nær hann ekki lengra? Hverjir rjeðu honum? Var hann til þess að Austfirðir og Reykjavík næðu saman? En vjer ætlum, að Austfirðir og Norðurland þurfi fremur að ná saman, því margt er þar sameiginlegt, yfirstjórnin og fleira. Vjer Norðlendingar yrðum illa út undan, ef gufuskipið færi átta ferðir til landsins en ljeti þó ekki sjá sig á Norðurlandi. Vjer óskum því og vonum, að stjórnin sjái svo um, að skipið hlaupi í kringum landið einu sinni eða tvisvar á sumri, og komi við á Eskjufirði, Akureyri, Ísafirði og Stykkishólmi.

5 Hið einasta frumvarp frá stjórninni sem lagt var fyrir þetta þing var frumvarp til tilskipunar um vegina hjer á landi, og fjellst þingið á það með töluverðum breytingum. Um kostnaðinn til þjóðveganna, var gjörð sú breyting, að hver verkfær karlmaður frá 18 til 60 ára að aldri skyldi greiða hálft dagsverk eptir verðlagsskrá til vegabótanna án undantekningar; húsbóndi borgi fyrir vinnumenn sína og syni; og skal fyrir þetta fje leigja menn til vegabótanna með framkvæmd og eptirliti hreppsnefnda og yfir umsjón sýslumanns.

6. Hið mest áríðandi málefni, sem af stjórnarinnar hálfu var lagt í þetta skipti fyrir alþingi var kláðamálið, og stjórnin hafði búið þetta mál svo vel undir sem bezt varð, með því að ákveða amtmannafund í landinu, til að búa til frumvarp um þær ráðstafanir, er þættu nauðsynlegar til að útrýma þessu faraldri, og vjer getum ekki annað sjeð en að þetta frumvarp væri vel undir búið í alla staði frá amtmannanna hálfu, hefði stiptamtmaður vor ekki fundið sjer skylt að gjöra ágreiningsatriði við hina amtmennina.

Úrslit þessa máls urðu nú reyndar ekki þau, er vjer höfðum vonazt eptir. Þingið hefur reyndar gjört frumvarp til tilskipunar til þess að útrýma og varna útbreiðslu fjárkláðans, og farið því fram að fargað yrði sauðfjenaði í Árness, Gullbringu og Kjósar og Borgarfjarðarsýslum í haust komanda, með þeim takmörkunum, að hver bóndi þar má setja nokkrar ær á vetur, en þó ekki fleiri en 100 að meðtöldum kúgildisám. Þar á móti skal lóga öllum geldfjenaði og lömbum hvort sem sjúkt reynist eða heilbrigt, og er þar frá ekkert undan skilið nema hrútar, er til ánna þurfa, og veturgamlar gimbrar, svo ær verði allar til samans allt að hundraði. Búið skal vera að skera fje þetta allt 31. desember 1857.

Hinn takmarkaði niðurskurður fjárins varð því ofan á hjá þinginu, og auk þess skyldi greiða þeim, er þannig neyddust til að skera meira af fje sínu en þeir þyrftu í bú sitt, 9000 rd. til endurgjalds og skyldi það fje greiða fyrst um sinn úr ríkissjóðinum mót endurgjaldi af Íslands hálfu

seinna meir. Ekkert hefur þingið ályktað um það. hvort þetta frumvarp sitt skyldi álítast sem bráðabyrgðarlög, eða hvort bíða skyldi eptir staðfestingu konungs. Vjer höfum reyndar heyrt, að forseti hafi skrifað amtmönnum syðra og vestra og spurt þá, hvort þeir fjellust á frumvarp þingsins, og að þeir hafi svarað, að þeir hefðu engan myndugleika til að staðfesta frumvarpið, eins og líka lá í augum uppi. Oss getur ekki skilizt, að þessi aðferð forseta hafi verið rjett. Eptir því valdi, sem stjórnin gaf þinginu í þessu máli, virtist oss skýlaust, að alþingi hefði með atkvæðum átt að skera úr því, hvort þörf virtist til að gefa frumvarpið út sem bráðabyrgðarlög, eða nægur tími væri að byrja að framfylgja því, þegar samþykki konungs væri fengið. Oss virðist það nú ekki efunarmál, að öll þörf hefði verið á því að gjöra frumvarpið undir eins að lögum, því seint verður að byrja fjárskurðinn eptir að póstskip er komið í miðjum októbermánuði eða seinna, Forseti hefur. að oss virðist, ekki viljað, að hann og þingið hefði þessa ábyrgð, sem því þó að rjettu lagi bar að hafa, því ekkert vald höfðu amtmennirnir í þessu máli nema til að framfylgja frumvarpinu, þegar það var orðið að lögum, og gat því að vorri ætlun engin ástæða verið til að leita samþykkis þeirra.

Vjer getum nú ekki neitað því að oss virðist úrslit þessa máls, ef þau verða staðfest og þeim vel framfylgt, muni styðja til þess og gjöra það hægra að verja hin ósýktu hjeruð landsins, ef að varnirnar hafa í sumar reynzt svo nægar, að kláðinn hefur ekki náð að útbreiðast; en hitt hefur oss enn ekki getað skilizt, að það sje annað en hinn mesti óhagur fyrir Sunnlendinga sjálfa að verða þannig að vera fjárlausir svo að kalla ári lengur, kosta tíma og fje til lækningatilraunanna, og þurfa svo, ef til vill á eptir að drepa niður allt fje sitt haustið 1858.

(Framhaldið síðar).

---

„Af því oss þykir hitt og þetta athugavert við hana, greinina sumsje frá ritstjóra Norðra neðan við greinina mína í 21 — 22. blaði hans, „álítum vjer oss skylt“ að svara henni.

**Ólafur on er þá ekki hið sama og Ólafur upon.** Það getur vel verið „að Loptur á Vöðluheiði hafi enga ástæðu til að reiðast syndum Akureyrarbúa eða skorti á kirkjurækni þeirra;“ jeg held það nú líka, því Loptur þessi á heiðinni mun vera lítið betri enn Laxi hans á eyrinni. Hefði ritstjórinn boðið slíkt Lopti mínum **yfir** Vöðluheiði, skyldi jeg ekki segja hann vera hinn bezta blaðamann. En jeg þarf að skjalla ögn um leið Vatnar á Vatnsskarði, því það er piltur, sem ekki lætur fara í kringum sig. Og víst er það ekki að furða, þó hann bleytti húðina á þeim, sem blessan þáði í **Bólstaðar**hlíðar kirkju; því blessunaróskin þar mun hafa verið lík kirkju heitinu. Sje þetta prentvilla biður kapiláninn ritstjórann að fyrirgefa sjer, er hann eigi les í málið fyrir hann; en sje villan með vilja sett, sæmir þeim „sem álitinn er hinn mesti preatur“ að refsa öllum ásetningssyndum. Hvað því viðvíkur „er ritstjóranum finnst að Akureyrarbúar er sækja kunna kirkju að Kaupangi rúmist trautt á 16 kringlóttum“ þá er eitthvað spámannlegt við þá tilfinningu, er gefur kaupstaðarbúum „fína“ bendingu í hag fyrir kirkjuloptið.

En **„þó er það bót að fenginn er kapilán þó kirkja sje eigi.“** Þessa huggun gefur ritstjórinn rjett á eptir getgátu sinni um það, að Akureyrarkirkju hafi verið ekið burt. Eins og getgátan er meiningargóð, eins er huggunin meiningarmikil; því setjum svo að kapiláninn sje á hjólum eins og kirkjan, og honum verði ekið burt, hver er þá bótin? Eða ætli ritstjórinn sjái fremur merki kapilánsins enn kirkjunnar? Hann gat þó augum litið tvo grundvelli hennar, hefði hann viljað. Nei, Akureyri er lítil bót í klerki án kirkju. en mætti vera mikil bót í kirkju með klerki. Því hefði það sannarlega verið illa gjört af kapiláninum, ef hann heiði brugðizt „ætlun margra að reyna að vekja áhuga manna hjer í bænum og á Norðurlandi til að láta fyrirtæki það“ — að koma upp kirkju á Akureyri, — „ekki detta um sjálft sig“. En hefur kapiláninn verulega brugðizt hjer? Látum oss sjá hvern hlut hann hefur átt að hinni ósýnilegu Akureyrarkirkju. Þegar kapiláninn við Kaupangskirkju kom fyrst á Akureyri og settist þar að, gaus upp á móti honum allmikill áhugi einstakra eyrarbúa, að koma þar upp kirkju; en áhugi sá líktist loga, sem blossar með köflum upp úr öskuhrúgu, þar er eldurinn er að elda út. Svo var því varið, að um undanfarinn tíma hafði verið hin mesta hreifing á eyrinni að byggja þar kirkju; skutu menn saman fje til þess, og margir lofuðu því, svo líkur voru til að fást mundu allt að þúsund ríkisdölum. Málið var í hinu bezta horfi að því leyti sem snerti áhuga og útlát bæjarbúa. Kirkjusleði var smíðaður, og grjóti ekið í „grunna“ tvo. En tveir grundvellir undir eina kirkju, er annar var reistur efst upp á svo kölluðum Eyrarlandshöfða, en hinn settur neðst við flæðarmál í svo nefndri Fjörunni, og kirkja reist á hvorugum, — sýna það ljóslega, að hjer hefur brytt á einhverju svipuðu því, sem truflaði byggarsmiði Babels. Því má nú nærri geta, að þeim, sem höfðu mestan áhuga á kirkjubyggingunni, muni hafa gramizt það. að hún skyldi farast svona fyrir. En svona var mál með vexti, kergja nóg, en kirkja engin, þegar kapiláninn kom hjer að. Hann var brátt leiddur að grundvellinum og látinn skoða; og blossaði þá upp hjá sumum, sem horfðu þar á bera steinana, sá hinn logalíki áhugi, sem jeg áður gat um. Kapiláninn sá það strax, að hjer hafði dottið um sjálft

sig gott málefni, og hugsaði sjer að reisa það við, ef kostur væri. Talaði hann því um kirkjumálefnið við helztu bæjarmenn, og það með því fylgi, sem honum er lagið, en honum er það ekki lagið mikið. og varð þess þá fljótt var, að allir vildu að vísu fá kirkju, en voru nú búnir að ráða það, að bíða til þess byrjar, því heldur sem kirkjustofnuninni hafði reitt svo illa af í höndum þeirra, en stjórnin — svo hefur mjer skilizt — lofað góðu um hana, þegar breyting yrði í kallinu. Kapiláninn var þá ekki meiri áhugamaður enn svo. að hann fjellst þegar á skoðun þessa, því heldur sem honum þókti ærið nóg að vera kapilán við þrjár kirkjur, og ísjárvert að sækja eptir því, að bæta við hinni fjórðu. Svona hefur nú malið legið niðri til þessa, er loptið í Kaupangs. kirkju virðist ætla að vekja það af nýu; kapiláninn hefur þjónað þremur kirkjunum, og kaupstaðarbúar sókt þær, báðir eptir hætti, hvorugur átalið annan. Hafi hin gamla kergjan kveikt upp í einhverjum einstökum, og hann þá viljað reka kapiláninn á stað eptir timbri í kirkjuna; þá þekki jeg kapiláninn svo, að hann er vís til að hafa svarað: Nei, það á líkast til að sannast á ykkur, Akureyrarbúum, sökum synda yðvarra, að þjer deyið út á eyrinni, án þess að sjá þar kirkju. eins og Ísraelsmenn dóu út í eyðimörkinni, og fengu eigi að sjá landið góða! Önnur svör þyngri, sem kapiláninn kann að hafa haft um málið, sæmir mjer sízt að hafa eptir honum. — Hvað átti annars, minn góði ritstjóri! veslings kapiláninn að gjöra fyrir kirkjuna á Akureyri, þegar áhugi helztu manna hjer í bænum hafði tekið þetta apturkast? Þjer nefnið til Norðurland í kirkjumálefni Akureyrar, Hvað á það að þýða? Gátuð þjer ætlazt til þess að jeg færi að skora á Hrútfirðinga, Siglfirðinga, Grímseyinga að skjóta fje til kirkju á Akureyri, þegar eyrarbúar ljetu sjer sjálfir hægt um hana? Þjer hafið þá ónærgætnari skoðun á þessu máli enn öðru, sem jeg hef sjeð yður rita um. Það eruð þjer einmitt, sem vekja áttuð áhugann á Norðurlandi, eins og jeg hjer í bænum, því þjer vitið það, að umdæmi yðar sem borgaralegs blaðamanns er miklu víðara enn mitt sem kirkjulegs blaðamanns; og tel jeg það líklegt, að tillögur yðar við Norðlendinga hefðu mátt sjer mikils, að minnsta kosti ekki minna enn tillögur mínar við Akureyrarbúa. — En hvað er þetta sem þjer segið síðast í grein yðar? „Yður finnst varla ætlandi Akureyrarbúum að vera mjög kirkjuræknum“! Hvað gekk yður til að skrifa þetta, herra ritstjóri? Eruð þjer að segja eptir nokkrum, sem ætlast til að Akureyrarbúar sjeu mjög kirkjuræknir? og eruð þjer svo að sýna heiminum nærgætni yðar hjá ónærgætni hans? Eða eruð þjer að setja eyrarbúum tilfinningu yðar sem mælisnúru fyrir kirkjurækni þeirra, meðan þeir eru kirkjulausir? Tilfinningu yðar og nærgætni bæjarbúum til handa virði jeg og vona að allir virði eins og hún á skilið í þessu tilliti.

**Svb. Hallgrímsson.**

Það var nú engin furða, þó kapiláninn, sjera Sveinbjörn Hallgrímsson vildi reka af sjer sliðruorðið, að hann hefði ekki hjerna um árið stutt kirkjumálefnið á Akureyri nógu kappsamlega, er vjer dróttuðum að honum í seinasta blaði voru, enda fræðir hann oss nú á því, — þegar hann er búin að leika sjer að Lopti sínum og prentvillu einni hjá oss — að hann hafi fylgt því máli fram „með því fylgi sem honum er lagið“, og hafi þó ekki stoðað, af því áhugi helztu manna hjer í bænum hafði þá tekið „apturkast“. enda hafi það verið augljóst um fyrirtæki þetta „að hjer hafi brytt á einhverju svipuðu því sem truflaði byggingarsmiði Babels“. Oss getur nú ekki fundizt betur, hvernig sem presturinn vill nú þýða þenna stað gamla testamentisins, en að hjer sje ólíkum fyrirtækjum saman að jafna, því aldrei höfum vjer heyrt, að byggingarsmiðir Babels hafi ætlað að smíða musteri, drottni til dýrðar og sjer til sálargagns; en það ætluðu Akureyrarmenn, og var ekki líklegt, að þeir mundu sæta neinum refsidómi drottins fyrir það. Vjer viljum biðja prestinn að skrifa prestlega um kirkjuleg málefni, og vjer getum fullvissað hann um, að það á bezt við, að klerkurinn áminni með alvörugefnum orðum. Hafi hann gjört allt sem í hans valdi stóð til að efla og styðja kirkjumálefnið, þá getur hann huggað sig við sína góðu samvizku.

---

## Bókmenntafjelagsbækur 1857.

Núna með briggskipinu Freyju fjekk jeg loksins hinar seinustu af bókum bókmenntafjelagsins í ár, og mælist jeg til við alla fjelagsmenn, að þeir vitji bókanna hið bráðasta og greiði tillag sitt, svo að jeg geti sent fjelaginu peningana í haust komanda. Allir þeir, sem tóku hjá mjer bækur í fyrra en nú taka þær hjá nýjum umboðsmönnum fjelagsins geta fengið hjá mjer registur, titilblað og formála, sem til heyrir hinu 1. bandi af „safni til sögu Íslands“, en sem fjelagið gat ekki látið fylgja með 3. heptinu í fyrra sökum tímaleysis.

Fyrst af þessum bókum tel jeg Skírni, sem er sjerlega vel skrifaður þetta ár, og nákvæmlega skýrir frá misklið Dana við þýzku ríkin, sem nú kreppir svo að Dönum, að ekki verður sjeð fyrir endann á, hve langan aldur alríkislögin og stjórnarskipun sú, sem nú er komin á í Danmörku, muni eiga sjer. Nýr kafli næsta þarflegur er líka í Skírni þessa árs um stærð landa og mannfjöldu

ríkja í öllum heimi, og er það mikil meðmæling með bókinni.

2. Skýrslur um landshagi á Íslandi 3. hepti, og er það auðugra og fjölbreyttara en verið hefur. Í því eru þessar ritgjörðir: 1. Um landshagsfræði Íslands, o. s. frv. 2. Um mannfjölda á Íslandi. 3. Fólkstala á Íslandi 1. d. októberm. 1855. 4. Búnaðarástand á Íslandi í fardögum 1855. 5. Um fjárhag Íslands frá 1. apríl 1857 til 31. marz 1858.

3. Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands, eða safn af hinum merkari brjefum stjórnarinnar til yfirvaldanna hjer á landi, og nýjum lagaboðum handa Íslandi frá 8. marz 1856 til 31. marz 1857.

4. Biskupasögur annað hepti. Þar í Jóns saga Hólabyskups, Þorlákssaga hin yngri, Guðmundar saga, byskups Arasonar hin elzta. Þessar sögur, sem aldrei hafa verið gefnar út í heilu líki áður, skýra mörg atriði í fornöld vorri, bæði ættir og sögulega viðburði, og kraptaverka kaflarnir lýsa ágætlega ýmsu í daglegu lífi og hugsunarhætti þjóðar vorrar á þeim tímum.

5. Ilíons-kvæði Hómers, Benidikt Gröndal íslenzkaði, gefið út í Reykjavík. Jeg hefi ekki enn getað kynnt mjer þessa bók, en þar sem að jeg hefi gripið ofan í hana, þá virðist mjer þýðingin ágæta fögur og íslenzkuleg. Ekki veit jeg hvort það er hugarburður minn einn, að Gröndal hafi lagt sig nokkuð meira eptir kveðskaparlagi fornmanna og kenningum en faðir hans sálugi í þýðingu Odysseifs-kvæðis.

6. Íslenzkt fornbrjefasafn, sem hefur inni að halda brjef og gjörninga, dóma og máldaga, og aðrar skrár, er snerta Ísland eða íslenzka menn, 1. hepti

Þetta fyrsta hepti hefur inni að halda allt, sem tínt hefur verið saman fram að árinu 1200, og mun svo vandlega safnað að þar verði lítið um bætt. Þegar búið er að gefa út sögurnar og annálana, þá er ekkert, er eins getur hjálpað sagnafræðinginum til að skyggnast inn í hina óljósu fornöld vora en slíkt brjefasafn, og landar vorir mega eiga það víst, að safn þetta verður svo vel úr garði gjört sem mögulegt er; því Jón Sigurðsson skjalavörður, sem hefur unnið að því, er langfróðastur af öllum núlifandi mönnum í flestu er snertir sögu lands vors.

Jeg vona nú að landar mínir sjái af þessu stutta yfirliti, hvaða hagur það er fyrir námfúsa menn að ganga í fjelag þetta, er þeir fyrir tillag sitt 8 rdl. fá bækur fyrir 5 rdl. 72 sk., og er þó verð bókanna sett mjög lágt eptir arkatali og arkastærð. Það eru engar öfgar þó að jeg segi, að ekkert vísindalegt fjelag á Norðurlöndum hafi afkastað meiru en hið íslenzka bókmenntafjelag síðan Jón Sigurðson tók við stjórn þess erlendis; enda hafa Íslendingar sýnt það að þeir viðurkenna þenna sannleika, slíkur fjöldi sem nú gengur árlega í fjelagið.

**Sv. Sk.**

---

## Ættarnöfn og titlatog.

Það er nú án efa almennt álit manna hjer á landi, og eflaust á nokkrum ástæðum byggt, að menn gjöri sjer á þessari öld meira far um að vanda mál sitt, íslenzkuna, að minnsta kosti bókmálið, en nokkurn tíma áður síðan í fornöld, þó að það takist nú allmisjafnt. Það er margt sem hefur stutt að þessu á seinni tímum. Hið íslenzka bókmenntafjelag, sem ætíð hefur kappkostað að bækur þær, er það lætur prenta, væru vandaðar að orðfæri; sum tímaritin, einkum Fjölnir og Ármann á alþingi, hið fyrra svo ágætlega vandað að orðfæri, að ekkert af þess konar ritum hefur síðan jafnast við það; þar að auki rit einstakra manna, dr. Sveinbjarnar Egilssonar og Jóns sýslumanns Espólíns, og að endingu íslenzka kennslan í skóla vorum, þó að hún hafi nú ekki haft mikil áhrif fyr en Halldór kennari Friðriksson kom til skólans, því hann á eflaust það lof skilið, að hann hefur látið sjer annara um þessa kennslu, en þeir sem áður voru, þó að hann sje ekki eins fær um að kenna málið vel eins og dr. Sveinbjörn var.

Margt mætti nú reyndar fleira til tína, en það er ekki tilgangur vor í þetta skipti að hæla þessari endurfæðingu máls vors, heldur hitt, að minna þjóð vora, bókmenntamenn og alla þá, er unna þjóðerni voru á nokkur atriði í þjóðlífi voru, sem þvert á móti þessum framförum bókmálsins gjörast með ári hverju óþjóðlegri.

Það eru þá fyrst hin útlendu ættarnöfn (*Familienavne*), sem hafa fjölgað svo óðum og fjölga daglega hjer á landi, einkum á þessari öld, er vjer viljum leiða athygli lesenda vorra að. Þau eru nú reyndar fáein til orðin á næstliðinni öld, og þó einkum í lok hennar, en fleiri af hinum eldri útlendu ættarnöfnum vorum eru þá tekin eptir latínu, t. a. m. Thorlacius og hin styttu latínsku nöfn, Vídalín, Hjaltalín. Stephensens nafnið

byrjar með Ólafi stiptamtmanni, og höfum vjer þó sjeð hann skrifa Ó. Stephánsson, en Magnús konferensráð mun fyrst algjörlega hafa tekið það nafn upp og þeir bræður. Viðlíka gamalt er Thorarensens nafnið. En eptir að þessi fáu voru komin, spretta þau upp á þessari öld eins og mý á mykjuskán; höfum og vjer hraflað fáein saman til sýnis, og teljum vjer þá fyrst þau er enda á **sen:** Arnesen, Benidiktsen, Björnsen, Brynjúlvsen, Christjansen, Danielsen, Einarsen, Friðriksen, Finsen, Finnbogasen, Gunnlögsen, Gunnarsen, Gudmundsen, Gudjohnsen, Halldorsen, Hansen, Helgasen, Johnsen og Johnson, Jonassen, Magnussen, Oddsen. Ólafsen, Paulsen, Petersen, Sveinbjörnsen, Schulesen, Skaptasen, Sivertsen, Steinsen, Svendsen og Svenzon, Sverrisen, Sæmundsen, Thorsteinsen og Thorstensen og Thorsteinson, Thordersen, Thoroddsen og Thorlaksen. Þetta er nú ekki nema lítið sýnishorn af **sen**-flokkinum, því í Reykjavík og í flestum kaupstöðum er hver maður, sem nokkuð kveður að, kallaður **sen**, ef móðir hans hefur getað feðrað hann.

Hvort sem að sumum öðrum, er þó vildu fá sjer ættarnöfn, hefur nú þótt það óviðkunnanlegt að skella **sen** aptan við föðurnafn sitt eða afa, eða þeim hefur þótt annars konar útlent nafnasnið hentugra, og láta betur í munni, þá er það víst, að fjölda mörg ættarnöfn eru einnig komin upp fyrir og eptir aldamót, er dregin eru af bæja eða sveitanöfnum og öðru þess háttar, t. a. m. Briem, Blöndal, Gröndal, Laxdal, Bergsteð, Fjeldsteð, Austmann, Norðmann, Austfjörð, Norðfjörð, Skagfjörð, Öfjörð, o. s. frv. Auk þessa eru nú sum, sem gjörð eru í líkingu við Vídalín, t. a. m. Espólín, Snóksdalín, og sum er vjer ekki vitum hvort til eru orðin af því, að ættirnar eru útlendar t. a. m. Bachmann, Kuld, Eggertz, Havsteen. Sumir gjöra íslenzkt nafn dönskulegt með því að kasta burt endingunni, t. a. m. Thorberg, og sum ættarnöfn eru alveg útlend, sem þó eru orðin hjer ættgeng, t. a. m. Scheving, Wium, o. s. frv.

Það mætti nú efalaust tína margt enn til, en oss virðist þetta nóg til að sýna, hve mjög þessi ættarnöfn fara fjölgandi, og hve mjög þau eru sniðin eptir dönsku og öðru útlendu sniði.

Það sem vjer nú viljum rannsaka er þá það, hvort að ættarnöfnin eru þjóðleg hjá oss, og hvort að ættfræði vor muni verða auðveldari, ef þau yrðu almenn. Síðan að Ísland byggðist hafa forfeður vorir látið sjer nægja sitt eigið heiti og föðurnafn, og þó vjer sjáum, að það sje alltítt í sögunum að menn hefðu auknefni, t. a. m. Eyvindur austmaður, Helgi magri, o. s. frv.. þá gekk þetta auknefni aldrei í ættir. Ættstofnarnir, eða heilar ættir eru opt nefndar eptir sveit þeirri eða höfuðbóli þar sem helztu menn ættarinnar voru, t. a. m. Oddaverjar, Haukdælir, Síðumenn, o. s. frv., og ætlum vjer að slík einkenning ættanna sje miklu eðlilegri en að hafa eitt karlmannsnafn til að auðkenna alla ættina. Það leiðir einnig af þessu síðara, að kvennleggirnir í ættum verða miklu óljósari, þegar kvennmaðurinn er fyrst nefnd hinu almenna ættarnafni sínu, og tekur síðan nafn mannsins, svo að kunnugir menn vita, ef til vill, ekki um annað en að konan er af þeirri eða þeirri ætt, en þegar hún ber nafn föður síns, þá kannast samtíða menn þegar við, og minningin og nafnið flytzt þannig rjett ættfært til seinni tímanna. Enn fremur leiðir af þessu að skírnarnafn konunnar þekkja ekki nema nánustu skyldmenni, enda fylgir það útlendum, siðum að það þykir ókurteysi af ókunnugum að nefna konuna skírnarnafni hennar; þeir verða að kalla hana maddömu eða frú mannsins síns og láta sjer það lynda

Það er margt hlæilegt, er leiðir af þessum nýupptekna ættarnöfnum. Þannig geta bræður sambornir nefnzt ólíkum nöfnum, þegar annar nefnir sig eptir föður og annar eptir afa, t. a. m. Jón Snæbjörusson, en Snæbjörn (bróðir hans Snæbjarnarson) Benidiktsen. Stundum hafa bræður ættarnafnið með sínu sniðinu hvor, annar íslenzkulegra og annar dönskulegra, t. a. m. Havstein (amtmaðurinn) og Havsteen (kaupmaðurinn). Ein vandræðin eru þegar nefna á konur þeirra manna, sem hafa sama ættarnafn; þegar ekki má nefna þær skírnarnafninu verður maður að gefa þeim allt mannsnafnið til aðgreiningar, og lætur það undarlega í eyrum vorum, t. a. m. í Reykjavík: Maddama Sigurður Melsteð og maddama Páll Melsteð (ekki Páll minnir mig!), á Akureyri maddama Eðvald Möller og maddama Pjetur Möller, eins yrði að segja frú Jón Finsen og frú Vilhjálmur Finsen, ef að greina þyrfti konur þeirra bræðra

Það er nú ekki svo auðvelt að sjá, hvað mönnum gengur til að sleppa þannig góðum og gömlum vana forfeðra vorra; vjer viljum fúslega, að landsmenn vorir taki upp alla þá háttu erlendra, sem geta stutt að því, að efla framför vora andlega eða líkamlega, en vjer viljum fastlega mæla

á móti hverju því, er spillir máli voru, án þess að auðga andlega hugsun vora, er breytir skírnarnafni voru, án þess að gjöra oss í neinu menntaðri eða kurteysari en vjer erum, þó menn, ef til vill, haldi að svo muni verða. Er það þá veglegra, að hnýta **sen** aptan við nafn sitt, eða heita einhver **dalur** eða **staður** en kristilegu skírnarnafni sínu? Ekki hafa konungar auknefni, og kenndir eru þeir við föður sinn eða ættarröð konunganna; ekki er það í gamla eða nýja testamentinu; og ekki gjörðu fornmenn vorir það heldur. Það er eptirtektavert að byskupar vorir og konur þeirra hafa að minnsta kosti allt til þessa tíma verið kallaðir skírnarnafni sínu, og hefur það eflaust ekki verið af virðingarskorti; að minnsta kosti heyrðum vjer aldrei hina nýlega dánu, mestu og merkustu konu Íslands, tveggja byskupa ekkju, kallaða annað en frú Valgerði. Það er reyndar enn ekki komið svo illa, að þessi ósiður sje kominn til muna inn hjá alþýðu eða prestastjett vorri; það eru einkum kaupstaðarbúar og hinir æðri embættismenn, er keppast við um þetta; og heyrt höfum vjer, að Bjarni skólameistari Johnsen sje nú búinn að kenna öllum skólapiltum að gegna, þegar hann hnýtir **sen** við nöfn feðra þeirra. Þessi kaupstaðasiður er nú orðinn svo ríkur, að þeir sem einlægt hafa nefnt sig og skrifað nafn sitt á íslenzku, og aldrei ætlað eða viljað eignast þetta dýrmæta ættarnafn, komast ekki upp fyrir moðreik: Pjetur Pjetursson, Jón Sigurðsson, Árni Helgason kalla sig þetta og skrifa, en þó kallar Reykjavík þá Petersen, Sivertsen, Helgesen; og ef að þeir sleppa með rjett nafn, þá sleppa þó ekki konurnar þeirra; þær mega til að heita frú Petersen, o. s. frv. Þau ár, sem ritstjóri Norðra var í Kaupmannahöfn, kölluðu þó Danir hann Skúlason, en á Akureyri fær hann varla fólk til að kalla sig annað enn Skulesen, og því síður Svein eins og hann var skírður.

Áður en vjer skiljumst við þetta efni, viljum vjer einnig geta þess, að það fer mjög í vöxt hjer á landi að gefa börnum tvö eða þrjú nöfn, og miklu fleiri útlend en áður hefur tíðkast, og álítum vjer það líka aldarspjöll. Einna líðlegast er þó nöfnunum komið fyrir, þegar farið er að skíra börnin með tveimur ættarnöfnum; þannig minnir oss að „organistinn" í Reykjavík, P. Guðjohnsen eigi tvo sonu, sem eru skírðir Pjetur Havstein Guðjohnsen og Þórður Sveinbjörnsen Guðjohnsen, viðlíka og bændur á Jótlandi láta heita **Hans Jensen Lassen**, o. s. frv.

Og þá er nú hitt atriðið titlatogið:

Það er nú ekki svo gott að segja í stuttu máli, hvað titlatóg sje, og vjer getum það ekki vel nema með því að tilfæra fyrst vísu um það efni eptir Þorlák Þórarinsson, því þó að vjer sjeum honum nú ef til vill ekki samdóma, þá er þó stef hans nóg til að sýna, að þeir titlar sem nú eru hafðir, eru ekki af innlendum rótum sprottnir. Hann kveður svo:

Titlum tíðir anna,
telja má hið sanna;
kljenar virktir kanna
kveðjur fornaldanna.
Virðuglegum herra hjet
hátitill konganna.
Frómum herra lýður ljet
lesinn byskupanna.
Heiðurlegum hvervetna
heilsan mundi prófasta;
Sæmilegum samtlega
sóknar hirðaranna.
Góðum bónda gafst kveðja,
gildum klausturhaldara,
ærusömum öfringja(?)
undir þingstólanna. —
Nú er segg og svanna
sett um veldi fanna
titla manna
til spanna
trónanna.
Margfalt eðla
makar seðla
miðlungs höfðinganna.
Skauzt veleðla á skjanna
skildings markettanna.

Oss þykir nú reyndar vanta mikið í titlatogið af því að svo fátt er upptalið, en vjer ætlum oss nú ekki — af því vjer erum heldur ekki einvalds konungar, er getur skipað allt eptir vild sinni — að gefa nákvæmar reglur fyrir því hvaða titla hver stjett á að hafa, en hitt getum vjer með fám orðum tekið fram, hvað oss virðist samkvæmt þjóðerni voru og einfaldri hugsun, og þá getum vjer ekki neitað því, að oss finnist titlar nú vera orðnir svo háfleygir, að tunga vor leyfi oss varla að halda svo áfram titlatoginu, að vjer jöfnumst eins vel við aðrar þjóðir í því eins og í öðrum menntum þeirra, ef vjer eigum að láta titlatog og aðrar framfarir vorar ganga jafnhliða.

Vjer viljum nú ekki bera á móti því, að vjer unnum konunginum, að hann sje kallaður „Hans hátign", þó vjer verðum að játa, að vjer þá ættum að ávarpa guð drottinn að minnsta kosti þannig, að vjer kölluðum hann Hæstu Tign. En það

er nú einkum um titlatoglð hjer á landi að vjer vildum tala, og þá koma fjöldamargar einkunnir fyrir oss, sem eru eins „óverðugir“ titlar eins og þær eru svívirðileg íslenzka. Vjer tökum það sem fyrst liggur fyrir, og er það þá: háæruverðugur og velæruverðugur, hávelborinn og velborinn, háeðla (sem sumir skrifa) og veleðla, velbyrðugur, heiðraði, háttvirti og hæstvirti, o. s. frv. Hver getur neitað því að þetta er bull og vitleysa, sem hvergi ætti að vera? Og oss stoðar það lítið, þó að Danir og þjóðverjar, Frakkar og Englendingar hafi þetta eða þessu líkt; vjer köllum eins bezta og versta manninn með hæsta titli, sem vjer ætlum að vjer getum boðið honum, og hvar er þá virðingarmerkið í titlinum? þetta er eitt af hinu útlenda affarasniði, er vjer höfum tekið eptir Dönum á seinni tíð. Vjer skyldum ekki berjast á móti þessum ávörpum, ef vjer vissum að hugur fylgdi máli, eða þeir, sem til væri talað, ættu það ættíð skilið, hver einstakur; en þegar það er haft stöðugt eins og opinbert hugsunarleysi, þá er oss vorkunn, þó að vjer virðum það að vettugi. Vjer álítum að hvern mann eigi að kenna eptir stjett sinni, það er með öðrum orðum „gefa keisaranum það keisarans er“; kalla hann prest sem prestur er, o. s. frv., en hvað sem gjörir eina stjett velbornari eða velæruverðugri en hverja aðra — einmitt af því að það er þessi stjett — „það er vont“.

þó er það eitt nafn sem flestir karlmenn eiga, sem eru nokkurs ráðandi, og það er: að þeir eru herrar, hver yfir sínu, hver í sinni stjett. þegar fyrst er farið að hafa þetta orð í Norrænu, er það haft í ávörpum til konunga, orðið myndaðist til að herra þá; en síðan herruðu konungar aðra menn, lenda menn sína og skutulsveina, o. s. frv., og frá þeim tíma hefur merking orðsins rýmkað svo, að háttur aldar vorrar gjörir alla að herrum, sem nokkurs eru ráðandi.

Lesendum vorum kann nú að virðast, að vjer höfum gjört lítið úr þessum aukatitlum karlmanna; og áður höfum vjer farið því fram, að ættarnöfnin drægju dulur á kvennanöfnin og kvennlegginn. Nú er þá að minnast á titla kvennfólksins, og er þeim öðruvísi háttað en hinum næst áður töldu, er bæði eiga við karlmenn og kvennmenn. Ógipt kona er nú kölluð jómfrú eða fröken eða frauken N. og gipt kona maddama eða frú N., til þess að þurfa ekki að nefna skírnarnafnið, eins og herra er sett fyrir karlmannsnafnið, t. a. m. jómfrú Skúlesen, o. s. frv. þetta væri nú allgott, ef öll nöfnin væru eins vel íslenzk. En nú er ekki því máli að gegna. Tvö orðin eru ljót og að engu hafandi í íslenzku máli; það eru „fröken“ eða „frauken“ og „maddama“, sem bæði eru útlend og afbökuð, hið fyrra líklega komið í dönsku úr þýzku, og hið síðara frakkneskt orð, sem reyndar hefur fengið landsvist hjá mörgum þjóðum, en á engu að síður engan griðastað að hafa hjá oss, og þýðir upprúnalega ekki annað en „kona mín“ eða „kona góð“. En vjer viljum nú samt hugga kvennfólkið, og skilja ekki við það öldungis titlalaust, enda eigum vjer tvö nöfnin eptir handa giptum og ógiptum, og þau eru jómfrú og frú; en hið fyrnefnda þarf að laga í hendi sjer.

Frú er nú líka komið til vor í fornöld frá hinum skyldu þýzku málum, en bæði frú og þýzka orðið Frau eiga kyn sitt að rekja til nafns ástagyðju Norðurlanda, Freyju; og það er sannarlega fagurt, að heimilisprýðin, húsmóðirin, beri nafn hennar. þetta hafa líka fornmenn fundið, er kalla konur sínar húsfreyjur; þeir segja húsfreyja til aðgreiningar frá gyðjunni, er alkunnug var í fornum sið; konan var þeirra húsgyðja. Frú er fyrst haft um drottningar hinna seinni Noregskonunga, en almennt eru merkiskonur kallaðar húsfreyjur í fornsögum vorum; en, eins og vjer áður höfum sagt um orðið herra, þýðingin hefur rýmkað, svo að hver húsmóðir er húsfreyja eða frú í húsi sínu, enda sjest það ljósast af því að þjóðverjar kalla allar giptar konur Frau, og í Danmörku eru allar heldri manna konur kallaðar frúr, þó að menn þeirra hafi ekki áunnið þeim það sem náðargjöf með því að komast á titlaskrá stjórnarinnar. þess vegna viljum vjer biðja allar konur að taka upp húsfreyju eða frúar titilinn, því bæði fá þær þá „fínara“ nafn, og undir eins þjóðlegra og íslenzkulegra og ætti engin menntuð kona að hirða um það, þó aðrar konur vilji ekki gjöra hið sama; þess konar smálagast með tímanum.

Jómfrúarnafninu þurfum vjer nú að víkja dálítið við, því, eins og vjer höfum það nú, er það komið í mál vort næstum óbreytt úr dönsku; en vjer höfum sama orðið í fornmáli voru, jungfrú, eins og þjóðverjar hafa Jungfrau; og ef vjer viljum færa það fjær þýzkunni, getum vjer vel nefnt það ungfrú, og er það að öllu leyti eins íslenzkulegt og yngismey, yngismær, yngismaður, sem öll eru svipfikt mynduð. Vjer skorum því á hinar ungu konur vorar íslenzku að þær vinni það ekki fyrir neinn hjegóma eða metnað að kalla sig fröken eða frauken heldur junfrú eða þó heldur ungfrú; og þegar svo er komið, að menn og konur láta einungis nefna sig skírnarnöfnum sínum og kenna sig til föður síns, og menn og konur er talast við, eða eiga brjefum að skipta bæta einungis áðurtöldu framan við nöfn manna í titla skyni, þá skulum vjer vera ánægðir, og þá þykjumst vjer hafa gjört landi voru gagn með þessum línum.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. | 10. Októker. | 25.—26.

## Alþing 1857.

*B.* frá þjóðinni.

(Framh.) 1. Á þingi voru kom í þetta skipti fram uppástunga um stjórnarskipun, og komu margar bænarskrár til þings um það efni. Þegar hið næsta þing var haldið 1855, var þessu máli ekki hreift, því þá vonuðust menn eptir að stjórnin mundi leggja frumvarp fyrir næsta þing, þegar alríkislögin voru komin á, og því líkindi til að stjórnin mundi vilja flýta sjer að koma einhverju skipulagi á Íslands stjórnarmálefni. Af því að þetta brást og málinu var ekkert hreift af hálfu stjórnarinnar, tók þingið nú upp bæn sína 1853, að frumvarp um þetta yrði nú lagt fyrir næsta þing 1859, og að það yrði byggt hjerumbil á þeim undirstöðu-atriðum, er þar voru tekin fram.

2. Uppástunga frá þinghöfðafundi um að Seiðisfjörður yrði gjörður að aðalverzlunarstað á Austurlandi í stað Eskjufjarðar, og fjellst þingið á það mál og skrifaði um það bænarskrá til konungs.

3. Bænarskrár ýmsrar komu til þingsins þess efnis, að breytt yrði hinni nýju sunnu- og helgidaga tilskipun. Var það einka-umkvörtunarefnið í bænarskrám þessum, að helgin, sem ákveðin er í tilskipuninni, væri ofstutt. Það varð ofan á í þessu máli hjá þinginu að beiðast þess að sunnudagurinn væri gjörður allur helgur til bráðabyrgðar; en að nefnd yrði sett í landinu til að semja frumvarp til nýrrar helgidaga tilskipunar

4. Uppástunga um að fjölga ölmusum við prestaskólann og auka húsaleigustyrk þeirra, er á hann ganga; og fjellzt þingið á það.

5. Um undirskript konungs undir hinn íslenzka texta lagaboða þeirra, sem gefin eru handa Íslandi. Þingið hjelt nú enn fram þessu máli, sem stjórnin hefur einlægt neitað til þessa, enda er það auðsætt, að Íslendingar eiga fulla heimtingu á því, að sá textinn sje staðfestur með konungs hendi og fylgt við dómstólana, er þeir skilja.

6. Þingið fór því enn fram, sem og von var, að stjórnin gjörði skíran reikning fyrir kollektusjóðnum, hvernig fje hans hefði verið varið frá 1797 til 1844, og að ríkissjóðurinn skyldi endurgjalda sjóði þessum aptur ef að nokkru fje hefði verið varið úr honum til þess konar gjalda, er virtust ósamkvæm ákvörðun hans

7. Eins og vjer áður höfum getið í Norðra, 86. bls., svaraði konungur beiðni alþingis 1855, um að löglærðir málaflutningsmenn yrðu settir við landsyfirrjettinn þannig, að ekkert væri því til fyrirstöðu; en stjórnin gæti ekki lagt þeim til launa nema 350 rd. báðum úr sakagjaldssjóðinum og leitaði því stjórnin álits alþingis um það, hvernig fengið yrði fje það, sem á skorti til þess að þeim væri hæfilega launað. Alþingi varð nú eins og von var ráðafátt að vísa á fjárstofn, er þessi laun skyldi af taka, en rjeði þó til þess að launa þeim fyrst um sinn með 250 rd., hverum fyrir sig, og taka þetta fje, 500 rd. alls á ári úr sakagjaldssjóðinum, eptir að þingið hafði fært sönnur á, að sjóðurinn gæti borið þessi útgjöld, og fór því um leið fram, að hætt yrði að greiða úr þessum sjóði nokkurn hluta af launum undirdómendanna í landsyfirrjettinum.

8. Vjer höfum getið þess áður, að stjórnin tók vel í læknamálið, er alþingi hafði hafði sent bænarskrá um 1855, og að hún kvað það svo langt á leið komið, að því mundi bráðum verða ráðið til lykta. Þinginu þótti nú samt ástæða til að láta stjórnina sjá áhuga landsmanna á því, að þessu máli verði sem bezt og haganlegast fyrir komið, með því að biðja um á ný, að flýtt verði fyrir máli þessu, og taka fram hin helztu atriði, er því virtist þurfa, ef endurbótin á læknaskipun í landinu ætti að vera meira en nafnið eitt. Í bænarskrá þeirri, er þingið sendi konungi um þetta mál, beiðist þingið að hjer verði bætt við 7 læknum, og að spítali verði settur í Reykjavík; auk þess

að presta-efnum verði á prestaskólanum kennd ráð við voveifiegum tilfellum og ýms handtök lækna, og að yfirsetukonum verði svo fjölgað, að ein sje í hverjum hreppi. Vjer viljum nú ekki neita því, að miklu væru landsmenn vorir betur staddir ef allt þetta fengist, en oss virðist á hinn bóginn, að þessi breyting muni verða mjög kostnaðarsöm, ef að stjórnin hleypur ekki undir bagga með; því eptir því sem læknum eru borguð störf sín hjer, þá virðist oss að þeir megi engan veginn hafa minni föst laun en 500 rd. um árið. Vjer vitum nú ekki hve mikið fje þingið hefur ætlað til spítalastofnunarinnar, eða hvort eignir spítalanna, sem nú hafa verið látnar standa og aukast um nokkur ár, hrökkva til þess; en hitt sjáum vjer, að eptir því sem hjer hagar til á landi, þá yrðu lítil not sem aðrir en Reykjavíkurbúar og Sunnlendingar gætu haft af spítalanum, því fjarlægð og vegaleysi hamlaði flestum sjúklingum úr öðrum landsfjórðungum að sækja hann sjer til heilsubótar. Og þó að spítalafjeð hrykki til spítalastofnunarinnar, þá vantar þó öll laun handa læknunum; og góður ábætir er það fyrir hvern hrepp að borga yfirsetukonu 24 rd., sem oss minnir að yfirsetukonan eigi að hafa til launa eptir uppástungu þingsins.

9. Málið um lögfræðingaskólann, sem stjórnin hafði neitað, án þess að færa nánar ástæður fyrir neitun sinni, kom nú aptur fyrir á þingi eins og við var að búast. Og þrátt fyrir það þó að hinn konungkjörni þingmaður sem 1855 fylgdi þessu máli svo ágætlega, brigðist nú svo, að hann ekki legði málinu eitt liðsyrði, þá fjekk það áheyrn og meðmæling þingsins.

10. Þess var og beiðst af þinginu, að ráðherraúrskurður, um að ekki megi setja minna fje á vöxtu í einu í jarðabókarsjóðinn en hundrað ríkisdala, verði aptur kallaður; en þingið bað um að setja megi 25 ríkisdali og þar fram yfir í þenna sjóð af ómyndugra fje. Þessi bæn þingsins var og á góðum rökum byggð, því ráðherra úrskurði þessum, sem breytt hefur eldri skýlausum lagaboðum í þessu efni, hefur verið fylgt hjer að fornspurðu þinginu; og er þetta eitt meðal annars til dæmis um, hvernig ráðherrarnir nota sjer hina óákvörðuðu stöðu Íslands í ríkinu til skipa það er þeim lízt, án þess að hirða um að gjöra það eina sinni í rjettu formi.

11. Það hefur nú á seinni árum einkum hjer norðanlands opt komið fram, þegar að bændur hafa viljað kaupa ábýlisjarðir sínar, að yfirvöldin hafa mælt á móti því, þó að það liggi í aug uppi, að það sje hjer eins og annarstaðar h landinu og þjóðinni, að óðalseignir fjölgi sem me því einlægt eru líkur til að jarðeigandi kosti me til að bæta jörð sína en leiguliði. Aðalásta yfirvaldanna til að standa móti þjóðeignasölu mun nú hafa verið aðferð sú, sem stjórnin langan aldur hefur haft með andvirði seldra ja þegar jörð eða jarðir hafa verið seldar, hefur ja arverðið runnið inn í ríkissjóðinn smátt og sm eptir því sem jörðin hefur verið borguð, og þe andvirði seldra jarða talið í hvers árs tekjum að minnka mismuninn á tekjum og útgjöldum lands. Þannig hafa hinar seldu þjóðeignir or eyðslufje, svo að tekjur landsins minnka ætíð afgjald jarðarinnar sem seld er, og þess sjer ald lengur stað. Á þenna hátt er mikill hluti af þj eignum landsins seldur á ýmsum — og það stu um hinum óhentugustu — tímum, þegar lítil engin von var, að jarðirnar næðu sínu náttúrl verði, og stundum hefur verið svo mikið sel einu, að gott söluverð gat ekki fengizt sök kaupendafæðar og peningaleysis í landinu. Þe hefur nú knúið góða embættismenn vora til standa móti þjóðeignasölunni.

Hvernig á nú að koma því saman auka óðalseignir í landinu og láta ekki tekjustofn landsins minnka?

Af því að bænarskrá kom til alþingis, sem fjellst á, um að biðja konung þess, að engar þj eignir yrðu hjer seldar framvegis nema með sa þykki alþingis, og af því oss virðast líkindi að stjórnin verði fúslega við þessari bæn þin ins, þá hefur oss dottið í hug að svara með um orðum spurningu þessari.

Það er degi ljósara, að flestar sölur opinbe eigna hjer í landinu hafa verið því til sk hingað til; en þó er þessi reynsla ekki nóg stæða til að þvertaka fyrir söluna. Nú um la an tíma hefur Ísland átt að fagna betra árf en ef til vill nokkurn tíma áður. Síðan aldamót hafa engin hallæri dunið yfir landið; þó að velmegun manna hafi ekki aukizt að sa skapi og mátt hefði vera, ef vel hefði verf haldið, þá er þó margt, er sýnir það ljósle að landsmenn hafa allmikla krapta yfir að rá Þessi batnandi hagur landsmanna kemur nú sa ekki mjög í ljós þegar litið er á tekjur landsi og er, það ekki efnilegt, þegar stjórnin er nú f in að fara fram á, að vjer skulum bera oss sj

ir. Það er reyndar auðvitað, að tekjurnar aukast nokkuð eptir því sem tíundin vex og verðlagsskrárnar hækka; en leigumálinn á þjóðeignunum er því til fyrirstöðu, að tekjurnar aukist í sama hlutfalli og landaurarnir hækka í verði. Hið fyrverandi rentukammer og stjórnarráðin, sem síðan hafa haft afskipti af Íslands málefnum, hafa róið að því öllum árum að koma landskuldargjaldi leiguliða á þjóðeignum í peninga; svo að nú er svo komið að velflestir landsetar þessara jarða mega kjósa um hvort þeir vilja heldur gjalda landaura, eins og ákveðið er í hinum eldri byggingarbrjefum, eða þá andvirði þeirra í peningum eptir hvers árs verðlagsskrá, og í hinum yngri byggingarbrjefum mun þessum landsetum optast gjört að skyldu að greiða landskuld og leigur eingöngu í peningum eptir verðlagsskrám. Síðan að frjálsa verzlunin komst á, hafa nú landaurar hækkað fjarska mikið í verði; og þó að verðlagsskrárnar hækki líka ár eptir ár, þá eru þær þó svo miklum mun lægri að telja má víst, að tekjur landsins missi við þetta svo þúsundum rda skipti. Oss þætti gaman af að sjá leigumála á öllum jörðum á landi til að geta ráðið þar af hvort ekki verður æði drjúgara afgjaldið af einstakra manna eignum en þjóðeignunum að tiltölu, og það þó leigumálinn sje hinn sami, þegar annar leiguliðinn geldur landskuld og leigur í landaurum eða sauðum, en annar í peningum eptir verðlagsskrá. Vjer ætlum að þessi munur á afgjaldi jarðanna geti orðið í ár allt að helmingi. Þegar þessu er nú þannig háttað geta tekjur landsins af þjóðeignunum ekki hækkað eins mikið og vera bæri. Þetta er nú ein ástæða til að selja, ef að söluverð fæst svo mikið fyrir jörðina, að leiga af því sje töluvert meiri en landskuld og leigur nú eru. Vjer þekkjum eina jörð 20 hundruð að dýrleika; þar er allgott undir bú en engir aðrir kostir. Þessi jörð er nú ekki metin meira en 600 rd. eptir hinu nýja jarðamati, og afgjald hennar í peningum hjerumbil 28 rd. Fyrir þessa jörð vill nú leiguliði gefa 12 til 1400 rd., og er leigan af því söluverði 56 rd. Landið getur þar fengið helmingi meira eptirgjald eptir peningana en jörðin gefur, og þó er á jörðinni hinn venjulegi leigumáli. Þegar svona er nú ástatt virðist oss einsætt, að efnaðir leiguliðar fái kost á að kaupa ábýlisjarðir sínar, því þó að menn vildu segja, að jarðirnar geti batnað svo enn, að þær hækki meira í verði, og meira verð bjóðist seinna, þá er hitt eins víst að jarðirnar geta fallið í verði og það svo stóru muni, ef að landið fær einhvern sjerlegan hnekkir.

Þá er nú eptir hitt atriðið, að jarðarverðinu, ef að selt er, sje þannig varið, að það verði landinu ekki eyðslufje heldur leiguberandi, svo að það verði höfuðstóll, er landinu ekki getur brugðist að fá leiguna af í árstekjur sínar, og þetta virðist oss að ætti að vera hægt. Annaðhvort er þá fyrir hendi, að jarðarverðið gangi í konungssjóð gegn leiguberandi skuldabrjefum með 4 af hundraði í leigu, og getum vjer ekki annað en álitið að það sje hættulaust; því þó að skapadægur ríkjanna kæmi fram við Danmerkurríki, og það greindist sundur, þá getum vjer ekki ímyndað oss annað en að sú þjóð eða það ríki, sem hlut ætti að máli, leysti af hendi skuldbindingu Dana við oss, sem væri á svo góðum rökum byggð. Það er auðvitað, „að allt er hverfult í heimi nema hverfleikinn sjálfur“; en varla getum vjer búizt við að Danir setji oss veð fyrir þess konar fje, eins og Tómas sálugi Sæmundsson stakk einhvern tíma upp á, og þó að það veð fengist, væri ekkert unnið. Þá er hitt annað að koma jarðarverðinu svo fyrir í landinu að það geti borgað fulla leigu, og ætlum vjer einnig að það mætti takast, því eptir því sem öll framtakssemi vex í landinu eptir því geta menn vænt, að fleiri þurfi að halda á peningum til að auka iðnað sinn og atvinnuveg, og þá eru líka því meiri líkur til að full leiga fáist af peningunum.

Vjer vonum þess, ef að alþingi fær að ráða sölu þjóðeignanna, að það finni það ráð, er gefi landinu vissu fyrir höfuðstól þeim, er jarðarverðið myndar, og að það um leið verði þó við sanngjarnri beiðni leiguliða um sölu á þjóðeignum, þegar þeir bjóða það verð fyrir jörðina, að sjóður landsins hefur hag af því svo að miklu muni, því það er þó ætíð hin mesta upphvatning fyrir leiguliðann til þess að vera nýtur bóndi, ef hann veit það að hann á kost á að eignast jörðina sem hann situr á.

Vjer getum nú ekki í þetta skipti skýrt nákvæmar frá alþingis aðgjörðum, en verðum að bíða þess að þingtíðindin koma oss til handa. Vjer vonum að þetta stutta yfirlit verði nóg til þess að vekja áhuga alþýðu á þinginu og störfum þess, og vjer biðjum lesendur vora sem flesta að kynna sjer þingtíðindin, því þó margt komi fram í þeim, sem ljettvægt er, þá er það þó engu að síður víst, að þaðan eigum vjer að vænta

hins bezta og mesta stuðnings frelsis vors og framfara.

það er eptirtektavert, þegar menn koma á þing, að taka eptir umræðunum og sjá hversu mjög þær hafa breytzt frá því 1845 að þing var fyrst stofnað. Á hinu fyrsta þingi komu bændur vorir lítið fram við umræðurnar; þeir hinir lærðu töluðu, en bændurnir þögðu og hlýddu að miklu leyti. Nú er þetta smátt og smátt orðið allt öðru vísi. Bændurnir eiga nú víst þingtíðindin að sínum hluta. þeir halda málum til jafns við hina lærðustu og hafa stundum betur í röksemdafærslunni. þetta þykir nú ef til vill ólíklegt, en það er þó satt. það kemur af því að þeir hafa opt svo gott málefni að verja. það er svo að sjá og heyra sem að hinir konungkjörnu þingmenn hafi gjört sjer það að almennri reglu að mæla með öllum uppásungum stjórnarinnar, hvernig sem þær eru, og á móti öllum uppástungum frá þjóðinni, sem þeir halda að stjórninni geðjist ekki, hvað nauðsynlegar sem þær eru. Vjer höfum nú aldrei getað skilið annað en að hinir konungkjörnu þingmenn, sem landið borgar eins og hinum þjóðkjörnu, væru eins frjálsir að halda fram þeirri skoðun á þinginu, er þeir álíta rjettasta eins og hinir þjóðkjörnu, og þyrftu því ekki fremur en þeir að fylgja fram skoðunum stjórnarinnar. Oss virðist því næsta undarlegt í atkvæðagreiðslu þingsins að sjá þá næstum stöðugt greiða atkæði móti öllum hinum þjóðkjörnu, því opt geta menn fundið það á vörninni, að hún er fremur til málamyndar, eða að minnsta kosti virðist það, af því að ástæður þeirra eru stundum ljettvægar svo lærðir menn sem eiga hlut að máli.

---

## Bókafregn.

### Axel

eptir **E. Tegner.**

Steingrímur Thorsteinson íslenzkaði.

það er, ef til vill, ekkert af norðurlanda skáldum sem eins er norrænt í anda eins og E. Tegner, þjóðskáld Svía. Fegurst af ritum hans er vjer þekkjum eru: Friðþjófs saga, fermingarbörnin og Axel og þjóðsöngur Svía um Karl konung tólfta. Vjer höfum nú eignast hjer íslenzka þýðingu af hinum tveimur síðarst nefndu. Vjer höfum nú ekki frumritið við hendina, og þó að oss sje það kunnugt að fornu, þá munum vjer ekki svo vel eptir því, að vjer getum dæmt um hve nákvæm útleggingin er, þó ætlum vjer að oss muni óhætt að fullyrða, að hún sje ekki mjög bundin við frumkvæðið. Kvæði þetta er um einn af köppum Karls konungs, er hann sendi gegnum óvina lönd frá Tyrklandi heim til Svíþjóðar. Axel — svo hjet kappinn — varð fyrir óvina flokki á leiðinni og var borin ofurliða og fjell í valinn. Höfðingjadóttir nokkur, sem var á veiðum með þjónum sínum, fann hann í valnum og græddi hann; tjáðu þau hvort öðru það sem á daga þeirra hafði drifið og bundu síðan ástir sínar. þegar Axel var orðinn heill sára sinna hjelt hann áfram ferð sinni til að reka erindi konungs, og komst þá heim til Svíþjóðar, ætlaði hann síðan að fá leyfi hjá konungi til að vitja heitmeyjar sinnar. En María eirði ekki að bíða apturkomu unnustans. Hún tók sjer karlmanns búning og fór til Pjetursborgar og á herflota Rússa er þar lá búinn í leiðangur til Svíþjóðar; ætlaði hún, að hún mundi þannig fá komizt til unnusta síns. þegar Rússar komu til Svíþjóðar greiddu þeir uppgöngu og eyddu landið og brenndu; kom þá landher móti þeim, og var það fátt lið og lítt vopnað, því mannval Svía var þá fallið í orustum Karls konungs í öðrum löndum. Voru landsmenn mjög svo á flótta komnir þegar Axel kom til orustu; gekk hann svo vel fram að Rússar flýðu til skipa sinna, en unnustu sína fann hann skammt frá vígvelli særða til ólífis.

það er hvorttveggja að efni sögunnar er fagurt, enda hefur skáldið farið aðdáanlega með það, og þýðingin virðist oss ágætlega af hendi leyst. Vjer tökum hjer dálítið sýnishorn um lög þau er kappar Karls konungs settu sjer:

„Eiðbundu lög — í orra voða
Einn fyrir sjö að hörfa mátti,
En við heiptmögum horfa átti
Brjóst, og enginn á bak þeim skoða,
þyngst var samt lagt á þeirra líf,
þeir máttu' ei ást til meyjar snúa.
— Mikið var undir slíku að búa —
Fyr en að Karl sjer veldi víf.
Hversu sem brunnu brúnaljós.
Og brosti munnur eins og rós,
Hversu iðandi brjóstin bliðu
Bifðust svanhvít á sprundi fríðu,
Sköpuðu mátti ei skeika parið,
Skálminni höfðu þeir ástir svarið".

Eins og vjer óskum og vonum, að landar vor-

ir veiti þessu afbragðskvæði góðar viðtökur eins skorum vjer á þýðandann, að hann snúi Friðþjófs sögu eptir sama skáld, og þætti oss líklegt, að bókmenntafjelagið mundi styrkja þess konar fyrirtæki.

Nýlega er komið út hjer frá prentsmiðjunni á Akureyri nýtt ársrit HÚNVETNINGUR út gefið af búnaðar- og lestrarfjelaginu í Svínavatns og Bólstaðarhlíðar hreppum.

Í riti þessu eru fyrst skýrslur um stofnun þessara fjelaga og lög þeirra; þar á eptir koma ritgjörðir ýmislegs efnis: Um hússtjórn á Íslandi, um undirbúnig til hjú- og búskapar, um vatnsveitingar, heyhlöður, mjölgjörð úr jarðeplum, verzlun og fleira, og að síðustu greinir ýmislegs efnis útlagðar úr dönsku.

Það er fátt nauðsynlegra, og því miður undir eins sjaldgæfara, en að sjá hjer á landi fjelög stofnuð til fróðleiks eflingar og búnaðarbóta, og þó er það enn sjaldgæfara, að menn sjái nokkurn verulegan árangur af stofnun þessara fjelaga. Þau hafa flest orðið skammvinn, gjört lítið að verkum og dáið svo smátt og smátt út af. Þetta nýja rit Húnvetninga er nú góður vottur þess, að hugur hefur fylgt máli, þegar þeir stofnuðu fjelag sitt. Hver sem fer um Húnavatnssýslu á bágt með að neita því, að þar sje að leita eptir öllu hinu fegursta í þjóðlífi voru, og ef þar á nokkurn mun að gjöra, skara austursveitirnar fram úr, og er þetta rit eitt til merkis þar um. Rit þetta er þannig undir komið, að þegar fjelagið var stofnað, settu fjelagsmenn á aðalfundum sínum fram ýmsar spurningar, er fjelagsmenn skyldu athuga og skrifa um, og af þessu eru ritgjörðir þær sprottnar, sem eru í ritinu. Þetta er sviplíkt því sem Franklín og fjelagsbræður hans gjörðu í Vesturheimi, og síðar varð svo mikill árangur að. Ritgjörðirnar eru vel valdar að efni og mjög haganlegar fyrir alþýðu. Einkum viljum vjer ráða löndum vorum að kynna sjer ritgjörðirnar um hússtjórn og um undirbúning til hjú- og búskapar, sem eru ágætlega samdar. Líka er ritgjörðin um vatnsveitingar mjög þarfleg og vel af hendi leyst. Ritgjörðin um verzlun líkar oss miður, því oss finnst þar ekki vel haldið fram þeirri hugsun, að jafnt skuli ganga yfir fátækan og ríkan, enda virðist oss að höfundurinn hafi hugsað ritgjörð sína of mjög eptir því, að hann gjörir eingöngu ráð fyrir að fjelögin ættu við aðra útlenda en Dani að skipta

Það er nú hvorttveggja að vjer óskum að sem flestir vildu eignast og lesa ársrit þetta, enda skorum vjer á fjelagið að draga sem minnst að gefa út fleiri ritgjörðir af safni sínu fyrst að töluvert er fyrir hendi, því vjer teljum það víst, að þess konar búnaðarrit gangi vel út meðal landa vorra.

---

# Frjettir.

**Útlendar.** Það gjörist ekki margt sögulegt í Norðurálfu um þessar mundir, konungarnir ferðast að heimsækja hver annan; sumir eru að semja aptur og aptur sín á milli og eru þó jafnsáttir. Dönsku stjórnarherrarnir eru enn hinir sömu, hvort sem að þingi Holseta, sem nú er stefnt saman, og enn mun vera Dönum þungt í skauti, tekst nú með aðstoð þýzku ríkjanna að ryðja ráðgjöfunum úr sæti. Í Danmörku hefur í sumar verið fjarska heitt; og hefur það tálmað grasvextinum svo að fækka hefur þurft peningi, og hefur því verðlag á kjöti lækkað mikið. Fyrst voru menn mjög hræddir um, að uppskeran af korntegundum mundi verða sárlítil, en á þessu hefur ráðist mikil bót af því svo gott veður var um uppskerutímann; og þó uppskeran sje ekki eins mikil og í fyrra, þá eru kornvörurnar aptur betri. Rúgur var eptir miðju ágústmánaðar 6½ rd., og þótti það dýrt og keyptist lítið. Eptirspurn var um baunir og voru þær þá á 9 til 9½ rd.

Hinar merkustu útlendu frjettir, sem blöðin hafa fært oss, er hið stórkostlega upphlaup í eignum Breta á Indlandi. Lönd Breta þar eru yfir 60,000 ferhyrnings mílur og fólkstala meir en 150 milliónir manna. Eignir þessar eru komnar undir vald Englendinga á þann hátt, að þeir stofnuðu verzlunarfjelag á Indlandi, en sökum óeirða og stjórnleysis þar í landi á dögum „Stórmógúlanna", urðu kaupmenn að fá sjer vopnað lið til að hrinda af sjer ofbeldi og ósanngjörnum kröfum landshöfðingja. Þetta breyttist nú smámsaman þannig, að kaupmannafjelagið fór að taka þátt í innanlands ófriði, og hafði lið þess hvervetna sigur, og ljetu kaupmenn höfðingja fá sjer lönd í herkostnaðargjöld; og um hin næstliðnu aldamót og síðan fór svo að flest lönd á Indlandi urðu að lúta veldi Breta, svo þannig hefur myndast eitthvert hið víðlendasta og fjölmennasta ríki í heimi. Hið gamla kaupmannafjelag og stjórn Breta skipta nú valdinu yfir þessu ríki með sjer. Það má nærri geta að Bretar þurfa að hafa mikinn herafla á Indlandi til að verja þetta víðlenda ríki; og það hafa þeir líka. En sökum þess að kostnaðarsamt er að koma liði úr Norðurálfu þangað, og loptslag þar sökum hita mjög óhollt útlendum mönnum, hefur kaupmannafjelagið frá því fyrst að það hóf stríð á Indlandi tekið mestan hluta liðs úr landinu sjálfu, og sett yfir það foringja frá Bretlandi og látið kenna því herkunnáttu Breta. Af her Breta eru því nú um stundir 200,000 inn-

lerdra hermanna, en ekki nema rúmar 40.000 af Norðurálfuher. En allir hinir æðri foringjar eru brezkir, enda er mikill munur á herkunnáttu liðsins hvors fyrir sig, því Indverjar eru þreklitlir menn og deyfðarlegir eins og flestar þjóðir, er í svo heitum löndum búa. Englendingar hafa nú alla tíð stjórnað þar með hinni mestu mildi, að því leyti sem þeir hafa getað; því sökum landsstærðar þurfa þeir að hafa hin lægri embætti og lögreglustjórn í innlendra höndum, sem eru eins harðúðugir við undirmenn sína eins og þeir eru auðmjúkir og þrællundaðir, þegar þeir eiga að skipta við yfirmenn sína. Bretar hafa reynt að boða þeim trú, en þó aldrei beitt neinni hörku til að neyða þá til að taka við kristniboðinu.

Mikill hluti af þessum innlenda her á Indlandi hefur nú í sumar hafið uppreist gegn Englendingum, og verður það stríð að líkindum hið stórkostlegasta, því mikið af landslýð fylgir innlenda hernum eins og við er að búast. Englendingar áttu nú eins og vjer áður höfum getið í stríði við Kínverja og voru þeir að búa út her þangað, þegar þeim barst þessi nýja hersaga. Hafa þeir því ekki getað haldið Kínverjastríðinu áfram af kappi, heldur orðið að senda allt lið er þeir gátu á hendur uppreistarmönnum, og þó gat lið þetta ekki komið nógu snemma.

það er nú ekki auðvelt að sjá vel hvað valdið hefur uppreist þessari. Meginhlutinn af hinu innlenda liði í Indlandi er í hinu stærsta landshöfðingjadæmi Bengalen er norðast liggur, og þeim löndum er þar liggja í kring. sem ekki eru enn að fullu og öllu lögð undir Breta. Allur þessi her er tekinn úr hinum helzta flokki Indverja Bramínaflokkinum. Bramínaflokkurinn er hinn lærðasti og menntaðasti á Indlandi og mjög fjölmennur. Af honum eru allir prestar Indverja, og í Bengalen eru nú allir hermenn teknir af þeim flokki. Bramínar eru menn háir, fríðir sýnum og vel skaptir, en undirhyggjumenn miklir og ótryggir. þeir vilja ekki samneyta hinum flokkum þjóðarinnar, og þykir þeim það óvirðing; en sökum þess að öll goðadýrkunin er í höndum samflokksmanna þeirra geta þeir haft hin mestu áhrif á lýðinn. Í hinum landshöfðingjadæmunum Madras og Bombay eru þar á móti allir flokkar án greinarmunar teknir í herþjónustu, og ávinna þeir sjer laun og nafnbætur eptir því hve vel þeir standa í stöðu sinni, og ekkert af liðinu í þessum landsálfum hefur gjört uppreist.

það eru því einkum Bramínar sem valda uppreistinni, og er allíklegt að þeir gjöri það einkum vegna þess, að þeir eru hræddir um að vald þeirra muni á enda bráðum, því Englendingar reyna mjög að efla skóla og upp ræðingu, og vonast þannig að geta laðað landsmenn smátt og smátt til kristindómsins, og vilja Bramínar þess ekki að bíða.

Bramínar ljetu fyrst ósátt sinni við Engla með því að þeir gjörðu ýmsar umkvartanir um smávegis í heræfingunum og vopnabúnaðinum, er væri gagnstætt trú þeirra; og þegar Englendingar ljetu leiðast til að breyta þessu, gjörðust þeir djarfari og djarfari, og fóru fram með alls konar ákærum og hvöttu alla aðra hermenn til uppreistar. Stórkostlegust varð uppreistin í Delhi hinni fornu höfuðborg Mógólanna. þá borg hafa Englendingar víggirt sterklega, og hafa þar hin mestu undur af alls konar herbúnaði og vistir til hálfs árs. Ekki höfðu þeir annað setulið í borg þessari en þrjár hersveitir af innlendu liði, og sýnir það meðal annars hve lítt þeir hafa uggað að sjer. þessar hersveitir voru einhverjar hær fyrstu er hófu uppreistina; drap lið þetta fyrst hina ensku foringja sína og svo alla aðra Englendinga, karla, konur og börn, er þar voru í borginni og ekki gátu forðað sjer með flóttanum. Eptir þetta hljóp upphlaupið borg úr borg, og þegar setuliðið í hverjum stað var búið að drepa niður Englendinga hjelt það til Delhi og safnaðist þangað fjöldi liðs. Upphlaupsmenn látast berjast fyrir hinni fornu keisaraætt að koma henni aptur til valda. en reka Englendinga úr landi. Hafa þeir gjört það yfirvarp, að Englendingar ætli að neyða landsmenn af trú sinni.

Alstaðar þar sem tölnvert hefur verið saman af ensku liði hefur því tekizt að kúga upphlaupsmennina til að leggja niður vopn sín. Indverjar hafa síðan þeir náðu Delhi haft nægan herbúnað og skotfæri þeirra eru betri en Englendinga, enda hafa þeir lært skotmennsku alla ágæta vel af Englendingum; en þrátt fyrir þetta, og þó að liðsmunur hafi opt verið svo mikill, að 10 hafa verið um einn, þá hefur þó hið hugrakka og hernaðarvana Norðurálfulið borið sigur úr býtum, svo enginn efi virðist á því, að Englendingar muni fá bælt uppreist þessa. Nú sem standur hafa uppreistarmenn orðið ofan á í fjölda mörgum borgum; en síðan að nokkuð af liði því, er ætlað var til Kínverjastríðsins, var sett þar í land, hafa Englendingar getað unnið nokkrar þeirra aptur, og nú situr aðalher Breta um Delhi og er hann reyndar enn ekki stærri en 2000 vopnfærra manna, en upphlaupsliðið í borginni er yfir 30,000. Upphlaupsmenn hafa þar gjört margar útrásir úr borginni en borið ætíð lægri hlut og misst tvöfalt og þrefalt meira lið en Bretar, en þó gjöra þeir usla á þessu litla liði með skotum sínum, og er því ekki að búast við að Bretar nái borginni fyr en meiri liðsstyrkur kemur frá Englandi. En þess verður nú ekki langt að bíða að lið þetta komi, því langt er síðan það fór af stað, og eru nú komnar meira en 30,000 hermanna á stað úr Englandi til að taka þátt í þessu stríði. Vjer munum geta um hina seinni viðburði þessa merkilega stríðs hið fyrsta þegar frjettir koma.

Oskar Svíakonungur hefur verið lasinn í sumar, en er nú í apturbata. Hann hefur lagt fyrir þing Svía frumvarp um að leggja stórar járnbrautir um allt ríkið, og er nú byrjað á þessum stórkostlegu fyrirtækum og Svíar leggja fjáslega mikið í sölurnar.

**Innlendar.** Veðuráttan hefur verið hjer norðanlands hin bezta og hagstæðasta seinni part sumarsins, og hefur því nýting orðið góð, þó að heyföngin sjeu sumstaðar lítil. Nú um mánaðar-

mótin er veðri brugðið, snjóveður og rigningar skiptast á.

Í rjettunum hjer og í Skagafjarðarsýslu og austursýslunum hefur ekkert borið á sunnlenzka kláðanum, en þar á móti hefur frjetzt lauslega að töluvert hafi farið saman hjá varðmönnunum í Húnavatnssýslu, og að ekki muni allt fje kláðalaust sem komið hefur norður yfir fjall. Húnvetningar munu nú gjöra allt sem þeir geta til að gæta þess að hann komizt ekki norður yfir Blöndu og til að uppræta hann úr fje sínu, og munum vjer skýra betur frá því, þegar vjer höfum fengið áreiðanlegar skýrslur þaðan.

Haustverzlun er nú senn lokið hjer, og má telja að landsmenn hafi fengið fjenað sinn vel borgaðan 6 til 7 mörk fyrir lýsipundið af kjötinu og sama fyrir sauðargæruna og 22 sk. fyrir mörpundið. En þó að svo sje, virðast þeir þó hyggnari, sem ekki láta neitt í kaupstaðinn, því enn brennur það við að kaupmenn eru illa byrgir af þarfavörum, svo að líkindi eru til að kaupstaðurinn verði matarlaus undir eins þegar haustverzlun er lokið. Það gegnir furðu, hve faktórar gleyma ár frá ári að byrgja sig með smávegis þarfavörur, sem menn geta ekki án verið. Bæði í fyrra og núna hefur kaupstaðurinn þannig verið grænsápulaus, og nú fæst ekkert „edik“ og er það bagalegt fyrir kaupstaðarbúa, sem vanir eru að súrsa slátur sitt í „ediki“.

Hjer eru nú sem stendur tveir svenskir meistarar í heimspeki Otto Torell og Olson Gadde, þeir eru náttúrufræðingar og komu hingað til lands í vor á Þórshöfn á Langanesi og ferðuðust austur og suður Múlasýslur og svo vestur með að sunnanverðu allt til Reykjavíkur, og svo norður hingað og ætla að sigla hjeðan með Freyju. Þeir hafa gengið mikið á jökla til að kynna sjer myndan þeirra til samanburðar við jökla á Mundíafjöllum, er þeir einnig hafa kannað. Að öðru leyti hafa þeir einkum lagt sig eptir að veiða smádýr á sjóarbotni og hafa þeir fengið margt fásjeð. Þeir eru hinir alúðlegustu menn og tápmiklir ferðamenn.

---

Á jólaföstunni næstliðinn vetur kom töluverð lús í lömb mín, sem olli því, að þau þrifust illa og reittu af sjer ullina; um sama leyti bar einnig á vanþrifum í ám mínum; bar jeg þá tóbakssósu í lömbin þannig: að jeg ljet kljúfa ullina eptir hryggnum og hella sósunni þar í frá miðjum hálsi aptur á malir. Við fyrri fjárskoðunina hjer voru þau álitin lúsalaus í öllu bakinu en að neðan með mikilli lús og óþrifakláða; virtist sem lúsin hefði flúið undan tóbakssósunni, sem ekki hafði náð að brjótast um alla kindina; líka fannst við þessa skoðun meiri og minni óþrifakláði á öllum ánum, með bólum og nöbbum, áþekkur þeim, er læknir J. Skaptason nefnir í athugasemdum sínum um fjárkláðann, var kláði þessi einkum báðumegin á bringukolli og í fram og aptur nárunum, og voru þær farnar að reita ullina af kviðnum. Bar jeg þá tóbakssósuna bæði í ærnar og lömbin ofan og neðan. Að 6 dögum liðnum komu fjárskoðunarmenn aptur, og virtist þeim þá allur kláði horfinn, og úr því fannst engin lifandi lús á fjenu allt fram á vor að það var rúið, hvorki hin smáa fellilús nje hin stóra svo nefnda færilús. Strax eptir íburðinn, þegar lúsin var dauð, fór fjeð að þrífast miklu betur og komst jafnvel af með minni gjöf. Í vor fjekk jeg allri venju fremur mikla og góða ull af ánum, enda hef jeg aldrei borið í þær tóbakslög að undan förnu.

Tóbakssósuna bjó jeg þannig til, að jeg í 12 potta af stæku manna og kúahlandi ljet 1 pund af nokkuð söxuðu munntóbaki, sauð þetta þangað til ekki voru nema 8 pottar, og ljet það nægja í 32 kindur.

Þar eð jeg álít nú kosnaðinn og ómakið við tjeðan íburð langtum minna vert enn hagnað þann er maður hefur af betri þrifum samt betri og meiri ull á fjenu en annars væri, vildi jeg hjer með ráða einum og sjerhverjum fjáreiganda til að bera hina umgetnu tóbakssósu í allt fje sitt á hverju hausti þegar farið er að hýsa það, hvort sem nokkra hættulega fjárkláðasýki er að óttast eða ekki.

Fornhaga 1. dag septemberm. 1857.

Björn Þorláksson.

---

## Mannalát og slysfarir.

Við leiði konu minnar

**Jóhönnu Kleófasdóttur**

framvarpað 6. maí 1857.

Værðar er von í jörðu,
Veröld nær kveðja gerum;
Sofðu því sæl í lofðungs
Sólar almættis skjóli!
Andstreymið allt í heimi
Ekkert þig framar blekkir.
Gefi þjer guð eilífar
Gleði útvöldum meður.

Hans Friðrik Hjaltalín.

Það er miklu fremur Norðlendingum en oss að kenna að svo sjaldan er getið þeirra er látast í blaði vorn, því ef að vjer værum látnir vita um andlát og stöðu hins látna með fáum línum, þá gætum vjer þó optast getið þess með fám orðum.

Í sumar hafa ekki aðrir andast sem vjer höfum heyrt nafngreinda en Jón prestur Reykjalín á Ríp í Skagafirði. Stiptsyfirvöldin höfðu nú loksins aumkast yfir hann og veitt honum Heydalabrauð í Breiðdal, en gjöfin kom of seint og varð því hefndargjöf. Hann andaðist á Fremrikotum í Norðurárdal, þegar hann var nýkominn á austurleið að vitja brauðs síns. Sóknarmenn hans, er verið höfðu, fóru fjölmargir þangað og sóktu lík hans og fluttu hann aptur til Skagafjarðar og önnuðust um greptran hans.

Slysfarir hafa orðið ekki allfáar á þessu sumri bæði á sjó og landi. Snemma í sumar drukknaði í Hjeraðsvötnunum í Skagafirði ungur maður og efnilegur Eggert Jónathansson, sonur Jónathans hreppstjóra á Uppsölum í Blönduhlíð; tveir menn eystra duttu af hestum svo þeim vannst

til bana, nöfn þeirra höfum vjer ekki frjett. Hjer í Eyjafirði hafa líka orðið mannskaðar af hákarlaskipum. Svalbarðsstrandarskip, er svo er nefnt, missti formann sinn Gottskálk Jónsson. Gottskálk þessi var ungur maður en hinn efnilegasti. Hann hafði varið öllu sínu til að sigla og læra stýrimennsku og hafði náð prófi í henni; hann var námsmaður og bókavinur, og ætlum vjer að þar hafi látizt hið bezta mannsefni, er hann var.

þessa stöku hefur einn af náfrændum Gottskálks sáluga beðið oss að setja í Norðra.

Sárt er að frjetta þig sáladan, frændi,
sofnaðan einmana bylgjunum á!
Eptir þjer hugur minn ávelt svo mændi,
ættarlaukur, en stytta von þá
vor hefur drottinn; að vorum heimkynnum
þú vendir ei aptur, og lífsböl ei sjer.
þá fundar þíns óski jeg fjölmörgum sinnum,
:,: vjer frændurnir aptur þig lítum ei hjer. :,:

---

þar sem prentsveinn I. Ingimundarson á Akureyri auglýsir það í þjóðólfi, að ritnefnd sú er jeg stakk upp á á almennum prentsmiðjufundi í sumar, hafi ekki verið samþykkt, og að það sje „rangherint og ósannindi“, þá álít jeg það skyldu mína að láta almenning vita, að prentsveinninn hleypur hjer í gönur og verður sjer til minnkunar með því að bera fram ósannindi vísvitandi. Hið eina sanna sem er í auglýsingu prentsveinsins er það, að ekki var gengið til atkvæða um ritnefndina, því þegar jeg hafði með fáum orðum skýrt frá tilgangi hennar og ætlunarverki mælti enginn á móti henni, og stakk þá sjera Jón Thorlacius upp á að kjósa okkur Sveinbjörn prest Hallgrímsson, Jón lækni Finsen og mig í þessa nefnd, og ljetu allir á fundi sjer það vel líka; en jeg þekki enga reglu fyrir því, að til atkvæða þurfi að ganga um þess konar kosningu á almennum prentsmiðjufundi, þegar enginn ágreiningur er um, hverja kjósa skuli. Hvað satt það sje, að ætlunarverk ritnefndar þessarar hafi „virzt annaðhvort hljóta að stríða móti nú gildandi lögum um prentfrelsi á Íslandi, eða þá að vera þýðingarlaust“, það ætla jeg nú að lofa prentsveininum og hinum lögfróða útgefanda þjóðólfs að sýna og sanna. það auglýsist því hjer, að ritnefndin er á Akureyri og hefur einlægt verið síðan fundurinn var haldinn, og gegnir hún þeim störfum, sem jeg stakk upp á, og jeg bið þjóðólf að láta prentsveininn ekki koma annari flugu í munn sjer.

Akureyri 1857.

Sveinn Skúlason.

---

(Eptir þjóðólfi). Embættispróf Íslendinga 1857.

1. við háskólann í lögvísi.
Jón Snæbjörnsson með 2 aðaleinkunn.
Bergur Thorberg með sömu einkunn.
í dönskum lögum.
Páll Pálsson Melsteð með 2. aðaleinkunn.

2, við prestaskólann,
Davíð Guðmundsson með 1. aðaleinkunn.
Sæmundur Jónsson með sömu einkunn.
Jón Benediktsson með 2. aðaleinkunn.
Jón Guttormsson með sömu einkunn.
Magnús Jónsson með sömu einkunn.

---

# Auglýsingar.

Hjer með læt jeg alla þá vita, sem lesið eða keypt hafa fyrsta hepti af þúsund og einni nátt, er út kom hjer í vor, útgefin af mjer; að framhaldið, eða 2. hepti af bók þessari verður byrjað að prenta hjer í enda þessa mánaðar. Jeg vona að bók þessi fái þá móttöku á Íslandi, sem hún eptir margra meiningu á skilið, og lofa jeg því framhaldinu á hverju vori þar til bókin er enduð fyrir 6 sk. hverja örk.

Kaupmannahöfn 16. júlí 1857,

Páll Sveinsson.

Undirskrifaður hefur til sölu: „Hugvekjur við nokkur tímaskipti; samið hefur Jónas Guðmundsson skólakennari“, kosta innb. 24 sk. Axel (kvæði), kostar í kápu 28 sk. Rímur af Gísla Súrssyni ortar af S. sál. Breiðfjörð á 32 sk.

Akureyri 16. ágúst 1857.

J. Borgfirðingur.

Jeg undirskrifaður gjöri vitanlegt, að herra prófastur G. E. Johnsen hefur eptir látið mjer að brúka fjármark sitt, sem er: Hvatrifað bæði eyru, og biti framan vinstra.

Krossastöðum 4. september 1857.

Jón Snorrason.

Greinarkorn, sem jeg vildi svara með herra ritstjóra Norðra upp á grein hans aptan við ritgjörð mína í 23.—24. blaði Norðra, neitaði hann mjer að taka í blað sitt. Jeg stefndi honum til sættafundar og bryndi hann með 11. gr. tilskipunar frá 9. maí 1855 um prentfrelsi á Íslandi, en ritstjórinn sat við sinn keyp. Hefi jeg svo vísað máli þessu til dóms og laga.

Akureyri 30. september 1857.

Svb. Hallgrímsson.

☞ Af því að jeg á að greiða allan prentkostnað Norðra fyrir nýár vil jeg biðja alla umboðsmenn mína að gjöra svo vel að greiða mjer andvirði blaðsins fyrir þann tíma, ef að þeir geta fengið nokkra ferð. Mjer væri mikil þökk á því ef umboðsmenn framvegis gætu sent borgunina svo snemma, að jeg ætíð væri búinn að fá hana fyrir þann tíma.

Akureyri 6. október 1857.

Sveinn Skúlason.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 31. Október. 27.—28.

**Af** því að jeg á að greiða allan prentkostnað fyrir Norðra fyrir nýár, vil jeg biðja alla umboðsmenn mína að gjöra svo vel að greiða mjer andvirði blaðsins fyrir þann tíma, ef að þeir geta fengið nokkra ferð. Mjer væri mikil þökk á því, ef umboðsmenn framvegis gætu sent borgunina svo snemma, að jeg ætíð væri búinn að fá hana fyrir þann tíma.

**Sv. Sk.**

---

„Engum er allt gefið og engum alls varnað, það sannast á öllum“ segir Þjóðólfur (35—37. bl.) og þá verður það líka að sannast á hinum mikilsvirta varaforseta, þó að hann sje nú löglærður, þar sem hann fer að bera hönd fyrir höfuð forseta og þinginu (Þjóðólfur 9. ár, 152. bls.). Hann ætlar þar að kenna ritstjóra Norðra og almenningi rjettan skilning á forsetabrjefinu, er þar var um getið, og löggjafarvaldi alþingis í kláðamálinu, og finnst oss þó ekki að honum hafi verið það „gefið“, þegar vjer athugum grein hans. Vjer getum nú ekki sjeð, að neitt verði dregið af skilningi vorum á löggjafarvaldi alþingis í kláðamálinu, er sýni skilning vorn eða skilningsleysi á löggjafarvaldi yfir höfuð að tala, eða á valdi alþingis, því að vjer álítum vald alþingis í kláðamálinu sjerstaklegt (extraordinairt), og það virðist oss auðsætt af brjefi dómsmálastjórans. Eina ástæðan, sem herra varaforsetinn ber fyrir sig, sem nokkuð kann að þykja í varið, er sú, að það var dómsmálastjórinn en ekki konungur sjálfur, sem gaf alþingi þetta sjerstaka vald, að gefa út bráðabyrgðarlög í þessu máli; og sú ástæða virðist þá að vera byggð á landsrjettindum Íslands, þeim er vjer álítum landið hafa, en sem stjórnin því miður hefur þó ekki enn viðurkennt. Þetta gæti nú verið ástæða; en þá gat heldur aldrei verið umtalsmál, að þingið eptir þessu brjefi dómsmálastjórans gæfi út bráðabyrgðarlög um þetta mál. Vjer ætlum nú reyndar í þessu máli, er snertir hinn verulegasta atvinnuveg velflestra landsmanna, að alþingið hefði getað gengið þegjandi fram hjá þessum formgalla stjórnarinnar, að það var dómsmálastjórinn en ekki konungur er valdið gaf, og hefði því, að óskertum öllum landsrjettindum vorum, getað notað þetta leyfi til þess að ráða góðar og skjótar bætur á kláðamálinu með bráðabyrgðarlögum.

Hinar ástæðurnar hjá hinum mikilsvirta varaforseta finnast oss nú á svo litlu byggðar, að vjer verðum að reyna að lesa þær ofan í kjölinn, en biðjum hann þó að fyrirgefa, ef að vjer skyldum nú misskilja hann. Það gjörum vjer ekki viljandi. Brjef dómsmálastjórans segir: Að konungsfulltrúi skuli leggja fyrir alþing frumvarpið (amtmannanna í kláðamálinu), og þegar alþing er búið að samþykkja það, þá má, ef brýn nauðsyn liggur við, gjöra það gildandi sem lagaákvarðanir til bráðabyrgða eptir uppástungu alþingis. Af þessum orðum brjefsins leiðir nú herra varaforsetinn:

„Hefði alþing „samþykkt“ frumvarp amtmannanna, þá gat orðið umtalsmál um að gjöra það frumvarp að bráðabyrgðarlögum, ef þinginu hefði litizt að gjöra um það uppástungu; og til hverra? sjálfsagt amtmannanna, sem áttu að framfylgja þessum eins og öðrum ákvörðunum. Nú samþykkti ekki alþing frumvarp amtmannanna, heldur bjó til nýtt frumvarp, en því hafði þingið alls enga heimild til að gefa bráðabyrgðar-lagagildi af sjálfs síns ramleik; því varð, eins og alþing ákvað og forseti þingsins gjörði, að skora um það á amtmennina, þessa tvo sem til náðist, „hvort þeir vildu samþykkja þetta nýja frumvarp alþingis sem bráðabyrgðarlög“, eða með öðrum orðum, hvort þeir vildi framfylgja því hver í sínu amti til bráðabyrgða, þar til konungs samþykki væri fengið; hvorki alþing nje forseti þess átti neitt vald á að halda valdstjórninni til að framfylgja þessum nje öðrum uppástungum þingsins“.

Oss virðist nú, að eins hefði getað verið verið amtalsmál að gjöra frumvarp amtmannanna að bráðabyrgðarlögum, þó að þingið samþykkti það ekki óumbreytt, því ekki er það gjört að skilyrði í brjefi dómsmálastjórans, að þingið megi einungis gjöra bráðabyrgðarlög um þetta mál, ef það fallist á frumvarp amtmannanna óumbreytt; það hefði þá líka verið tilgangslaust að bera málið undir þingið, því varla var við slíku að búast, eins og líka raun gaf vitni; enda hefur það aldrei verið tilgangur stjórnarinnar; heldur að amtmennirnir, sem voru bezt kunnugir málinu, og því færastir um að setja fram þau undirstöðu-atriði, er á skyldi byggja, skyldu búa málið þinginu í hendur. Þingið átti því að taka frumvarp amtmannanna, rjett eins og frumvörp frá stjórninni, breyta því og laga eptir vild sinni, og eptir því, er það áliti bezt og hentast, og gjöra svo um það uppástungu (Indstilling). En til hvorra? Sjálfsagt til stjórnarinnar, mikilsvirti varaforseti! en ekki til amtmannanna. Eru ekki uppástungur alþingis ætíð lagðar fyrir stjórnina en ekki amtmennina til samþykkis? Alþingið átti því eptir brjefi dómsmálastjórans, ef það á annað borð er umtalsmál, að brjef það gæti gefið alþingi rjett til að gefa út bráðabyrgðarlög, að gjöra uppástungu til stjórnarinnar eins í þessu máli eins og öðrum; en sá var nú munurinn mikli, að uppástunga alþingis gat í þessu máli orðið að lögum, ef alþingi þótti brýn nauðsyn til bera, áður en samþykki konungs var fengið, en ekki áður en samþykki amtmannanna var fengið; þess vegna átti alþingi að skera úr því hvort, brýn nauðsyn væri til að gjöra frumvarp sitt, sem var byggt á frumvarpi amtmannanna, eða með öðrum orðum uppástungu sína til stjórnarinnar að bráðabyrgðarlögum; og að því búnu var það ábyrgðarhluti hvers amtmanns, hvort hann fylgdi því fram, rjett eins og það er hans ábyrgðarhluti, hvort hann fylgir fram konunglegum lagaboðum, sem honum eru send þegnum konungsins til eptirbreytni. Alþing þurfti ekki annað en senda amtmönnunum bráðabyrgðarlögin til eptirbreytni; en það gat aldrei gefið uppástungu alþingis neitt lagagildi til bráðabyrgðar, þó að amtmenn hefðu fallizt á hana. Vjer vonum nú að herra varaforsetinn skýri þetta mál betur fyrir oss og öðrum fáfróðum, því sízt vildum vjer að „misskilningur vor leiddi almenning á ranga skoðun á aðferð forseta og þingsins“.

## Jarðeplaræktin á Akureyri.

Það er ekki furða þó að margir ferðamenn undrist, þegar þeir koma hingað til bæjarins seint á sumri, að sjá allt melbarðið fyrir ofan bæinn út og fram vera orðið fagurgrænan akur, enda er það falleg sjón og björguleg. Akureyrarbúar eiga mikið lof skilið fyrir það, hvað þeir gjöra sjer mikið far um að efla og auka þenna atvinnuveg. Jarðeplavöxturinn hefur nú í ár verið í góðu meðallagi, enda hafa bæjarmenn fengið 700 tunnur af jarðeplum, og þegar tunnan er metin á 3

## Auðdalur.

### I.

Það er nú ekki allstutt síðan að Auðdælir á einu fögru sumarkvöldi, stóðu með hendurnar í buxnavösunum úti fyrir húsdyrum sínum í kauptúninu Auðdal, og renndu hálfsofandi augunum yfir hjeraðið og ána, er streymdi eptir dalnum ofan í fjörðinn Langafjörð. Þá varð þeim litið til hvar maður reið utan með sjónum og stefndi að kauptúninu sem lá við fjarðarbotninn. Maður þessi var hár vexti og vel á sig kominn, og var auðsjeð að maðurinn var ekki hvers dags gestur. Hann hafði skegg mikið, er náði ofan á bringu, kolsvart, og skaut ungu börnunum skelk í bringu að sjá hann, og hlupu þau með ópi og gráti inn í húsin; komu þá aldraðar konur fram í dyrnar og þekktu sumar þeirra komumann og sögðu: Er hann Ásvaldur kominn aptur! Það er hann Ásvaldur sem sigldi núna fyrir 20 árum, og seinast frjettist, að væri orðinn hermaður. Það voru allir búnir að telja hann af fyrir löngu en nú hefur hann komið með haustskipunum á næstu höfn! Og sjer er nú hvað! Menn söfnuðust nú skjótt kringum Ásvald, og þeir sem höfðu þekkt hann að fornu spurðu hann hver um annan, hvort hann ætlaði nú að setjast að í Auðdal. Ásvaldur sagði þeim hið ljettasta af ferðum sínum og að honum hefði verið farið að leiðast að flækjast í hernaði, enda hefði hann ekki lengur getað stillt sig að leita í áttkagana, og kvaðst hann ætla að vera nú í Auðdal það sem eptir væri æfi sinnar. Þessi fregn líkaði bæjarmönnum vel og langaði þá til að frjetta um fasis hans og buðu honum hið skjótasta inn á gildaskála bæjarins til að fá sjer í staupinu og segja frjettirnar. Ásvaldur þakkaði þeim boð sitt, neitaði því kurteyslega, en spurði þá, hver nú byggi í húsi föður síns. Faðir Ásvalds hafði andast meðan hann var erlendis, og hafði mylnumaður bæjarins um-

ríkisdali til 3½, þá verður þessi jarðeplagróði undir 2400 ríkisdala virði, og er það ekki allítið fje þar sem svo litlu er til kostað. Það er ekki lítið í það varið, að landar vorir noti sjer og auki sem mest þenna atvinnuveg, er getur orðið mönnum svo mikil björg þegar harðnar í ári, eða ef að fjárfellirinn skyldi færast yfir landið. Jarðeplaræktin eins og hver önnur jarðarrækt verður jafnan hin heilladrjúgasta; og svo stendur á fyrir flestum bændum, að þeir geta fengið sjer tíma til að koma upp garði með fólki sínu, og eptirtekjan verður þar optast meiri, en af nokkrum þeim peningum sem á leigu eru settir. Víða hjer í sýslu eru jarðeplagarðar, og þætti oss vænt um ef að hreppstjórar vildu útvega og senda oss skýrslur um jarðepla uppskeruna hver í sínum hrepp þar sem jarðeplaræktin er eins mikil og hjer um svæði, er það auðvitað, að menn geta ekki fært sjer alla þessa vörutegund vel í nyt, og þurfa því að selja nokkuð af afla sínum; en af því að innanlands verzlun hjer er svo lítil, og flutningar til fjarlægari staða svo örðugir, þyrftu menn með samtökum að ráða bót á þessu, því annars liggja jarðeplin óseld, eða eigendur verða að selja þau fyrir lægra verð en samsvarar öðru vöruverði hjá oss. Oss virðist nú að hægt væri að ráða bót á þessu. Ekki þyrfti annað en að seljendur leigðu á haustin eitthvert af hinum stærri hákarlaskipum, sem ætíð er hætt að halda úti, þegar farið er að taka upp jarðeplin, og fermdu það og sendu austur og vestur þangað sem minni er jarðeplaaflinn og þess vegna betri markaður fyrir þau. Leigan fyrir skip og menn gæti varla orðið svo mikil, að þetta borgaði sig ekki vel, því skipið gæti verið á öðrum höfnum um sjálfar haustlestirnar, þegar líkindi eru til, að jarðeplin yrðu helzt keypt og bezt borguð, og gætu kaupendur borgað í kjöti og öðrum þeim vörum, sem bæjarbúar hjer þarfnast og kaupendum væri hagur úti að láta í stað peninga. Þegar að Norðmenn geta haft hag á því að gjöra hingað út skip til að selja jarðepli, liggur það í augum uppi, að landsmenn sjálfir ættu að geta haft gagn af þessari milliverzlun.

Eptir ósk margra áskrifenda vorra skorum vjer á jarðyrkjumenn, einkanlega herra Björn Þorláksson á Fornhaga og Sæmund Eiríksson á Laxamýri, að senda oss skýrslu um jarðyrkjutilraunir sínar og árangur af þeim í sumar. Líka eru það vinsamleg tilmæli vor við hákarlamenn hjer vestan við Eyjafjörð, að þeir sendi oss skýrslu um þau aflabrögð sín í sumar næstliðið. Það er næsta nauðsynlegt, að blöðin geti á ári hverju sýnt þess konar skýrslur, svo að vjer getum sjeð hvort oss munar nokkuð áleiðis í atvinnuvegum vorum.

---

## Bókafregn.

Andlegt sálmasafn eptir Ólaf prest Indriðason, Akureyri 1857.

Það er fyrir löngu viðurkennt, hversu messusöngsbók vor þurfi lagfæringar og aukningar við. Hún er komin og gefin út á þeim tímum, þegar skynsemistrúin (Rationalismen) var hvað ríkust hjer á landi, enda ber hún það með sjer, svo að vand-

---

ráð yfir þessu erfðafje Ásvalds. Mylnumaðurinn var nú sóttur, og kvað hann húsið skyldi tilbúið eptir nokkra daga, og væri Ásvaldi velkomið að búa hjá sjer þangað til. Ásvaldur tók nú þessu vingjarnlega boði mylnumannsins; var hann í húsi hans fáa daga og flutti síðan í hús sitt, er það var tilbúið.

Ásvaldur hafði nú svo mikið að gjöra um nokkurn tíma að bæta og laga hús sitt, að hann komst ekki til að heimsækja nágranna sína, enda leizt honum ekki á bæjarbraginn og háttalag þeirra. Þegar bæjarmönnum þótti hann nú ekki vilja samþýðast sig eins og þeir vildu tóku þeir að hafa illt auga á honum, og breyta um hann dulyrðum. Kvaðst þeim þykja maður þessi kynlegur, og hefðu ferðir hans í útlöndum gjört hann þumbaralegan og ófjelagslegan, hann væri einlægt í stritvinnu eða hann væri að lesa bækur, og gæti ekki litið út af því til svo mikils sem til að snerta vínflöskuna, og væri það kátlegt, að gamall hermaður gæti ekki tekið sjer í staupinu.

Ásvaldur var af náttúru hygginn maður og spakur, enda hafði ferðalag hans aukið lífsreynslu hans, og hafði hann aflað sjer þekkingar á mörgu með að lesa góðar og nytsamar bækur; Hann hafði allt aðra skoðun á ýmsum málefnum sambæjarmanna sinna, og líkaði honum lítt atferli þeirra. Minningin um æsku hans hafði dregið hann aptur heim í Auðdal, og þótti honum vænt um bæinn, þó margt gengi þar á trjefótum. Þegar hann leit yfir bæinn og heyrði hvernig gengið hafði þar til, hryggði það hann, að auðsæld bæjarmanna hafði farið mjög hnignandi svo að ástand þeirra var nú mjög bágborið. Áður höfðu þar verið margir efnamenn, er gengu í broddi bæjarmanna, þegar einhverju þurfti að hrinda í lag, og allur þorri bæjarmanna voru þá iðjusamir bjargálnamenn, og sveitarþyngsli mjög lítil. Nú var þessu öðruvísi háttað. Þegar mylnumaðurinn, einn

leitað er þar að sálmum, sem sjeu verulega hjartnæmir og lýsi þeirri auðmýkt andans, sem einkenni á að vera hinnar sönnu evangelisku trúar. Það hefur því um stundarsakir verið í ráði að fara að bæta hana, en þó virðist þessu máli lítið skila áfram, svo ekki eru líkindi til að þessi endurbót komist á fyrstu árin, og þá vandsjeð hvernig hún verður. Það er því sjerlegra þakka vert, að Ólafur prestur Indriðason hefur ráðizt í að gefa út sálmasafn, viðlíka niðurskipað að efni og messusöngsbókin, svo að það er mjög hentugt til að hafa samsíða henni við guðsþjónustugjörð í heimahúsum, og vjer efumst ekki um, að margir af sálmum þessum verði á sínum tíma teknir upp í hina breyttu og auknu messusöngsbók. Um efni sálmanna segir höfundurinn sjálfur í formála bókarinnar: „Að efninu til er sálmasafni þessu svo hagað, að það kemur við flest merkið-atriði hins kristilega trúar og siðalærdóms, einkanlega þau, er annaðhvort hafa framar orðið út undan, eða eru meir á annan veg fram tekin í þeim sálmum, er finnast í messusöngsbókinni“, Tilgangi sínum með kverið lýsir höfundurinn þannig, að hann ætlist til „að safn þetta geti verið ekki óhentugt handkver handa unglingum og almúgamönnum, er geti stutt að því að glæða skilning þeirra á hinum einföldu sannindum kristinndómsins, og gjöra þeim þau hugföst og hjartfólgin“.

Vjer getum nú ekki, eptir voru skynbragði, annað en álitið, að höfundurinn hafi leyst þessa ætlun sína ágæta vel af hendi, og að guðræknisblær sá, og hin ljósa og ástheita framsetning á höfuðatriðum kristinndómsins, er þar koma svo skýrt fram, muni vinna kveri þessu marga lesendur, og að kver þetta muni, þó að það sje eingöngu andlegs efnis, vinna sjer það uppáhaldsnafn alþýðu bókanna að heita Ólafskver. Þess gætir varla, þar sem svo mikið gott finnst, að sumir, einkum hinir eldri sálmar, er skáldinu hefur þótt hlýða að taka inn í safn sitt, eru ef til vill nokkuð stirðir í rími, og eins finnst það hjá höfundi þessara sálma, eins og öllum öðrum skáldum, að andagiptin er ekki ætíð jafnalifandi.

---

## Brjef til ábyrgðarmanns Þjóðólfs.

Við höfum skipzt svo mörgum brjefum á okkar á milli, mikilsvirti ábyrgðarmaður Þjóðólfs! að jeg álít mjer skylt að ávarpa yður einu sinni á prenti, til þess að þakka yður fyrir góðar og skemmtilegar viðtökur í sumar, og karpa lítið eitt við yður um kláðamálið eins og við síðustu samfundi, því það getum við blaðamennirnir með sönnu kallað að tala um landsins gagn og nauðsynjar. Jeg er nú líka öldungis óhræddur, þó eitthvað kunni að bera okkur á milli, þá tökum vjer öllu hægt og stillilega, og höngum ekki eins og hundar á roði á hverju einu ófimlegu, sem öðrum kann um munn að fara, þegar í kappræður er komið, heldur færum ástæður fyrir máli voru og sannfæringu, er við eigumst við orðaleik, en gjörum hvor öðrum ekki neinar gersakir, og látum þar mál falla er ástæður bila, og látum sannfærast, þar sem við verð-

---

gestgjafinn og tveir eða þrír kaupmenn voru fráskildir, voru bæjarbúar meir en fátækir, því þeir voru í stórum skuldum. Húsin voru mjög af sjer gengin, og sum komin að falli, óhroðinn lá víða í haugum, og lagði úr þeim óþverradaun um bæinn, og eins voru húsin innan, ljót og óþrifaleg. Klæðnaður bæjarbúa var nú að því skapi verri en áður hafði verið, óþrifalegur og tötralegur, og sýndi það ljóslega að þá skorti á virðingu þá, er hver heiðvirður maður á að bera fyrir sjálfum sjer. Við þetta allt bættist nú að fjöldi bæjarbúa eyddi tíma sínum með að standa svo tímum skipti með tóbakspípuna í munni sjer úti fyrir dyrum sínum í staðinn fyrir að starfa eitthvað nytsamt. Allt þetta sýndi ljóslega að iðjuleysi og leti hafði spillt bæjarbragnum. Asvaldur drap nú á það við suma bæjarbúa, að bænum færi hnignandi, en þeir svöruðu illu einu. Það er óþakklátt verk að minna fólk á skyldur sínar.

Einn dag gekk Asvaldur í þungu skapi til mylnumannsins, er leit á þetta mál eins og hann. „Segðu mjer vinur“, sagði Asvaldur, „hvað veldur því að Auðdælir úrættast þannig. Þegar jeg fór frá Auðdal var bær þessi hinn snotrasti og bæjarbúar starfsamir, en nú hefur bænum hnignað fjarskalega og sveitarbúum hjer í kring að sama hófi. Það hefur þó ekki verið harðara í ári hjer um svæði en annarstaðar“.

„Þú segir satt“, mælti mylnumaðurinn, „það hefur ekki verið harðara hjer í ári en í mörgum öðrum byggðarlögum, sem eru í mesta uppgangi. Það er annað er þessu veldur, og skal jeg reyna til að segja þjer hvernig þessu víkur. Bæjarbúar og sveitamenn hjer í kring hafa smátt og smátt vanizt á að lifa í deyfð og makindum. Tveir eða þrír af bæjarstjórum vorum eru brennivínssölumenn og gestgjafinn er einn af þeim, og stjórna þeir bæjarmálum sjer í hag hvað sem almenningsgagninu líður. Landið sem liggur til bæjarins, og áður var að miklu gagni, er nú lítið notað.

um undir í röksemdafærslunni, en reynum ekki, þá svo fer, að verja oss með keskni og hártogunum, áreitni og illyrðum. Við eigum að færa röksemdir til að finna hið rjetta og sanna, og láta skynsamlegar ástæður buga oss, þegar ekki verður í móti barizt. En jeg ætlaði nú að deila við yður um fjárkláðann í þetta sinn, og segja yður hvernig sumum okkar Norðlendingum líkar grein yðar á 145—7. bls. þjóðólfs.

Jeg er nú öldungis ásáttur við yður og þórð gamla, sem núna er að skeggræða á kvöldvökunum hjá yður, að við verðum að hafa eptirlit á þeim höfðingjunum, vinnumönnum þjóðarinnar, og láta þá, ekki orðlaust frá okkar hálfu, beita neinu ofurvaldi (gjörræði, eins og þjer kallið það) við undirmenn sína. En þá skal jeg nú segja yður hvað einn bóndinn sagði við mig. Hann sagði bóndinn — okkur um að tala var hann kaupandi Norðra —, að við blaðamennirnir værum á líkan hátt vinnumenn alþýðunnar, og þó að það hjeti ekki svo, að stjórnin launaði okkur, fengjum við þó margan góðan skildinginn hjá bændunum, og oss væri því fullt eins skylt, að vera varúðarsamir með það, sem við segðum og rjeðum alþýðunni, ekki síður en höfðingjunum, og það sagðist hann segja mjer, að hann keypti ekki Norðra, ef ekki væri hvert orð satt í honum. Jeg fór nú að hugsa um það sem bóndinn sagði, og gat jeg ekki annað en viðurkennt, að hann hefði rjett fyrir sjer í því, að okkur blaðamönnunum værl mjög áríðandi að reyna til að kenna alþýðunni það einungis er til betra horfir, og rangfæra ekkert það sem embættismennirnir, meðbræður vorir í því að vera vinnumenn alþýðunnar, gjörðu; enda sá jeg líka að það var eins nauðsynlegt fyrir þá til þess að embættisvirðing þeirra, og framkvæmd embættisverkanna sem þar af flýtur, væri óskert, að hafa sem beztan orðstír, rjett eins og það er nauðsynlegt fyrir blöðin okkar, að umtalsefni þeirra miði til að glæða og vekja eitthvað gott og þarflegt hjá þjóð vorri, ef að þau eiga að verða vinsæl.

Jeg get nú ekki sagt yður álit allra Norðlendinga um grein yðar á áminnstum blaðsíðum þjóðólfs, en af því að blaðamaðurinn, eins og þjer vitið, er eins og konungurinn að því leyti, að hann hefur mörg eyru, þá held jeg að jeg geti sagt yður álit allmargra um þessa grein. Jeg ætla nú að gjöra þeirra álit að mínu.

Jeg og þeir kæra sig nú ekkert um að verja amtmann Havstein og aðgjörðir hans í kláðamálinu. Hann hefur nógu breitt bakið til að bera það, hafi hann í því gjört nokkuð illa og ólöglega; ef að allir aðrir gætu eins vel valdið sínum hluta af rangri og klaufalegri aðferð í því máli, þá þyrfti það ekki að leggjast þungt á almenning. En þó finnst mjer, að þjer, sem hafið nú um stund látið aðgjörðir hans í því máli njóta sannmælis, snúa heldur snöggt við blaðinu. þar sem þjer t. a. m. talið um þarflitinn kostnað og tvísýnan árangur af ferð þeirra Norðlendinga, er fóru með amtmanni suður í vor, þá held jeg geti sagt yður á hverju ferð þeirra var að nokkru leyti byggð. það þótti auðsætt hjer á Norðurlandi í

---

Bæjarsjóðnum er illa varið, og allmikið af honum gengur til að halda veizlur og samdrykkjur á ráðstefnum bæjarstjóranna. þú kannt nú samt að segja, að það sje þó bæjarbúum sjálfum að kenna að af þeim gengur, því ekki geti það verið einhlítt, þó illa sje varið bæjarsjóðnum. þetta er nú dagsanna. En „hvað höfðingjannir hafast að, hinir ætla sjer leyfist það". þegar forstöðumenn bæjarins gefa af sjer illt dæmi, verður allur þorri bæjarmanna hirðulaus, taka ósiðuna eptir hinum, og eyða miklu af ágóða sínum á gestgjafahúsinu eða við búðarborðin. það eru fáir af bæjarbúum sem geta lafað á eignum foreldra sinna. Fyrst komast þeir í skuldir og neyðast svo til að selja eigur sínar. Og allt þetta kemur af því að þeir taka upp illa háttsemi".

„þegar þú sjer nú allt þetta", mælti Asvaldur, „því leiðirðu það ekki bæjarbúum fyrir sjónir, eða eru þeir sveitarbúarnir í Auðdal ekki betur farnir".

„Lítið er að mununum", sagði mylnumaðurinn, „þeir hafa af sjer marga vinnustundina með að rápa hjerna ofan í Auðdal, og taka lífsbjörgina frá munninum á konu og börnum til að láta í kaupstaðinn fyrir margan óþarfann, selja töðuna af túnunum í kaupstaðinn og geta svo ekki setið jarðirnar svo í skilum sje; og margt þessu líkt hnekkir búsæld þeirra. En því leiði jeg mönnum þetta ekki fyrir sjónir? því það er óþakklátt verk og árangurslaust. þeir viðurkenna allir að hagur þeirra sje bágur, þeir berja sjer nóg, og kenna ýmsu um, en engi tekur því með þökkum að jeg reyni til að finna hið sanna tilefni apturfarar vorrar, því allir eru hræddir, að skömmin lendi á sjer að nokkru leyti".

„Hver undur eru þetta", mælti Asvaldur. „Eru menn þá samvizkulausir og trúarlausir hjer í bænum? Hvað segir presturinn um þetta ráðlag"?

„Hann hefur upp gömlu ræðurnar sínar um almennar trúarkenningar, en talar aldrei um ástand sóknarmanna;

fyrra vetur. eptir að Erlendur Pálmason fór suður, og eptir að menn höfðu heyrt aðgjörðir yfirvaldanna syðra, og sjeð það sem þjer skrifuðuð þá um það mál í þjóðólfi, að enginn á Suðurlandi hefði vit nje vilja til að rannsaka kláðann til hlítar eða gæta að hvernig útbreiðslu hans væri háttað, og mundu því yfirvöldin syðra og þjer ekki geta gefið amtmönnunum nægar skýrslur um þetta mál, nema menn færu hjeðan suður með amtmanni, sem enga sök ættu að máli, og gætu því hlutdrægnislaust sjeð hvernig ástatt var, og náð þessum skýrslum, og töldu menn hjer í sýslum ekki eptir sjer að borga þann kostnað, til þess að málið yrði því betur búið til alþingis. Enda mun sú raunin hafa á orðið, að ekki veitti af skýrslum þeirra Norðlendinganna til að skýra málið [1].

[1]) þjer getið þess í athugasemd á 145. bls. þjóð. að jeg leitist við í ritgjörð minni um suðurferð amtmanns Havsteins að hrekja ástæður yðar móti niðurskurðinum (þjóð. 123—124 bls.), og segist ekki lá mjer þetta úr því jeg sje á annari skoðun á annað borð. En því bætið þjer því við að gruna mig fyrir gæzku — sem einlægt, frá því jeg fór fyrst að skrifa um fjárkláðann, hefi stöðugt fram fylgt sömu skoðun, að ekki dygði annað en algjörður niðurskurður —, og gjöra mjer þær getsakir, að það sem jeg segi í því efni sje, ef til vill, eins mikið byggt á vilja Havsteins amtmanns eins og á sannfæringu minni. Slíkar óheiðarlegar getsakir eigum við ekki að gjöra hver öðrum, heiðraði fjelagi! að minnsta kosti ekki að fyrra bragði. Ef að það er víst, að enginn af norðlenzku alþingismönnunum hafi fylgt þeirri skoðun fram að allt væri skorið niður í hinum kláðasýktu hjeruðum, þá hefi jeg verið heyrnarlaus þegar mjer veittist sú virðing að vera á kláðanefndarfundi á alþingi í sumar. En jeg ætla þeim ekki minna norðlenzku alþingismönnunum en að þeir láti það opinberlega heyrast, hvort þeir hafa ekki með einu orði fylgt fram þeirri skoðun. þegar þjer á sama stað segið, að þjer ætlið mjer að afbaka ekki og rangfæra mjer í hag, þegar jeg er að reka ástæður yðar, þá ætla jeg yður líka að sýna mjer hvar og hvenær jeg gjöri það, og er það með því einu móti skylda mín að kippa slíku í liðinn.

Mig furðar nú reyndar ekki á því, þó að yður þyki leitt fjárrekstrabannið að norðan, því eðlilegt er að yður og aðra í Reykjavík langi í kjötkatlana í Egiptalandi, það er að skilja: norðlenzka sauðakjötið, og engin furða þó að þið uggið sunnlenzka kjötið að bera yður það til munns. En þó megið þjer nú ekki láta kjötlöngun eina ráða, þegar um slíkt er að dæma, því fyrst og fremst er ekki annað í áteiknun amtsins á uppástungu sýslunefndarinnar í Húnavatnssýslu um fjárrekstrana en „að amtið verði fastlega að skora á sýslunefndina, að hún með öllu leyfilegu móti hindri, að sent verði í haust skurðarfje, hvorki sauðir nje annað, til suðurlands, því bæði geti þetta verið hættulegt, ef eitthvað skyldi sleppa hjá rekstrarmönnum, og þar hjá yrði það skaði fyrir Sunnlendinga, ef skurðarfje kæmi að norðan, vegna þess að miklu geldfje muni verða lógað á Suðurlandi í haust". Líka eru það einber ósannindi að sýslumaður Arnesen hafi orðað bannið eins og þjer tilfærðuð á 146. bls. þjóð., svo að þjer hæðist þar að yðar eigin orðum. þjer munið það nú víst sjálfur, að þegar við og aðrir vorum að karpa um niðurskurðinn í kláðasýslunum syðra í sumar, þá var það ein ástæðan móti niðurskurðinum sem Sunnlendingar tilfærðu, að ef algjörður niðurskurður yrði, þá kæmi svo mikið sauðfje á markaðinn, að það fjelli ákaflega í verði, svo að eigendum yrði lítið sem ekkert úr því. það var því auðsætt, að það hefði verið illa gjört af Norðlendingum að keppa við sunnanmenn um fjársölu í Reykjavík, þegar líkur voru til, að svo miklu mundi slátrað syðra, enda munu Húnvetningar vel-flestir ekki telja það eptir, þó að þeir hafi fengið 8 til 16 sk. minna fyrir lýsipundið af kjötinu á Skagaströnd en þeir hefðu fengið í Reykjavík [1],

[1]) þjóðólfur hermir það skakkt, að kaupmenn á Skagaströnd og Akureyri hafi ekki gefið nema 5 mörk fyrir lýsipund af sauðakjöti og eins fyrir sauðargærur, því kaupmenn á Skagaströnd gáfu 1 rd. fyrir kjötið og 8 mörk fyrir sauðargærur, en hjer á Akureyri 7 mörk fyrir hvorttveggja. Jeg held það verði heldur aldrei sýnt, að fjársalan suður hafi haft nein veruleg áhrif á fjártökuna á Skagaströnd, að minnsta kosti þekki jeg ekki til, að fjárprísar hafi nokkurn tíma verið þar betri en hjer nyrðra og austur um, þar sem menn þó ekki geta náð til að reka til Reykjavíkur.

---

kenning hans snertir ekki neitt hið daglega líf þeirra. Hann er aldraður maður, auðmaður og drambsamur. Hann prjedikar af vana, eins og fólkið fer í kirkju af vana, og kemur jafngott úr kirkju. Og æskulýðurinn fetar í spor hinna eldri".

„Er þá barnakennari bæjarins eins ónýtur"?

„þegar faðir þinn dó", mælti mylnumaðurinn, „hafði barnaskólinn lifað sitt fegursta. Drengirnir og stúlkurnar eru rekin til að læra að lesa, skrifa og reikna dálítið að nafninu, og, ef til vill, að þylja upp nokkrar bænir. En hvað gagnar þetta gegn öllu því, er þau læra af foreldrum sínum í heimahúsum: svik og lygar, blót og rifrildi, beintugastagl og þjófnað, óhóf og iðjuleysi, öfund og bakmælgi"?

Asvaldi þótti saga mylnumannsins ófögur, hristi höfuðið og gekk heimleiðis hugsandi um hið hryggilega ástand sveitunga sinna. (Framhaldið síðar).

enda má ætíð reikna töluverðan mun fyrir rekstrarlannin suður, og það sem fjeð leggur af á svo langri leið.

En hvað er nú hitt, sem þjer eruð að færa að oss Norðlendingum? þjer segið að oss Norðlendingum sje helzt að skapi rússnesk eða þess konar stjórn, og yður furðar á því, að Húnvetningar skuli láta það að orðum yfirvaldanna að reka ekki fje suður, og að engu yfirvaldi syðra mundi detta í hug að skipa slíkt, enda sjeu þar engir, er þyldu að sjer væri boðið annað eins, o. s. frv. Jeg held að þjer segið nú eitthvað satt í því, að oss Norðlingunum sje nú nokkuð ólíkt farið og Sunnanmönnum. því ef að jeg mætti taka til dæmis kláðamálið, þá held jeg að það sje hverju máli sannara, að þeir hafi ekki látið bjóða sjer að hlýða skipunum yfirvaldanna í því efni; svo að jeg gæti, þegar þjer talið um rússneska ofstjórn hjer á Norðurlandi, bent yður á vanstjórn eða stjórnleysi á Suðurlandi. Getið þjer neitað því, að bæði hafi skipanir yfirvaldanna syðra í máli þessu verið mjög á reiki og lítil framkvæmd fylgt þeim, og að Sunnlendingar hafi líka verið mjög sljófir og seinir að hlýðnast skipunum þeirra? Virðist yður nú ekki betur fara, að skipanirnar sjeu eindregnar og þeim vel framfylgt af undir gefnum og yfirboðurum? Virðist yður ekki fallegri hinn samhuga áhugi yfirvaldanna hjer nyrðra og Húnvetninga til að standa móti fjárpestinni heldur en sundurlyndið og afleysið sem hefur verið sunnanlands í þessu máli? Jeg get ekki neitað því, að mjer þótti munur að heyra umræðurnar um kláðamálið á sýslufundi í Húnavatnssýslu, þegar jeg kom að sunnan í sumar, við það að heyra umtalið um hið sama mál í alþingisnefndinni og í Reykjavík. Mjer fannst þjer sunnanmennirnir á þinginu og aðrir í Reykjavík berja einlægt blákalt áfram, að kláðinn væri ekki hættulegur, en væri vel læknanlegur og lítið í húfi, þó að hann færðist yfir landið. Og hvað hafa nú lækningarnar yðar dugað? Jeg heyrði reyndar miklar frásögur um það, að þessir útlendu dýralæknar væru svo að segja almáttugir að lækna fjárkláðann, enda var öll þörf á, að árangurinn af ferð þeirra til Íslands væri ekki tvísýnn, ef að þeir hafa næstum því 5 ríkisdali til launa hvern dag, því ef að meðalaleysi og ónóg umsjón yfirvaldanna syðra og annað þess konar, gjörir lækningatilraunir þeirra árangurslausar, þá verður kostnaðurinn að halda þá hjer á landi öllu óþarfari en suðurferð norðanmannanna með amtmanni Havstein. Á sýslufundi Húnvetninga voru þar á móti allir samráða og samhuga í því að spara engan tilkostnað og hlífast ekki við neinn niðurskurð til að varna útbreiðslu kláðans, enda hafa þeir einlægt gjört allt sitt til að varna útbreiðslu hans; og þeir og yfirvald þeirra Arnesen eiga að minni hyggju miklar þakkir skilið fyrir það af öllum Norðlendingum, eins og amtmaður Melsteð, Bogi sýslumaður og Mýrasýslubúar eiga þakkir skilið fyrir það af Vestfirðingum, hve vel þeir hafa varnað útbreiðslu kláðans vestur á bóginn.

það er því, eins og jeg hefi áður sagt, skylda okkar blaðamannanna að vanda um það sem miður fer bæði hjá yfirvöldunum og alþýðu, en þjer megi ekki leita þar að flýsinni í auga Havsteins, er þjer gleymið bjálkanum í auga háyfirvaldanna sunnlenzku. Okkur er skylt að gefa þeim heiður sem heiður heyrir.

Jeg ætla nú að biðja yður velvirðingar á þessu karpi. Jeg veit að okkur hefur ekki komið saman um kláðann; en við getum nú verið góðir vinir þar fyrir utan; einungis vil jeg af alhuga biðja yður að bera ekki upp á mig, að jeg tali af annara sannfæringu en minni eigin, því að þjer þekkið ekki betur hug minn en jeg yðar, og að þjer berið ekki Norðlendingum á brýn rússneskt þrællyndi, því það eiga þeir sannarlega ekki skilið.

**Sv. Sk.**

---

(Aðsent).

(Úr brjefi að austan). þú baðst mig að segja þjer greinilega sögu um aðgjörðir Bernharðar prests, frakkneska, eða hvað hann heitir, og Ólafs „katólska“. það er ekki hægt fyrir mig. Meðan þeir voru saman, mátti líkja aðgjörðum þeirra við veðrið hans Jónasar, „veðrið er hvorki vont nje gott“. o. s. frv. þeir sváfu og vöktu og höfðu mannlegar þarfir, komu eitthvað tvisvar í Hjerað og litu yfir byggðina, töluðu um hitt og þetta, lítið eða ekkert um trú og svo veit ekki meira. þeir sem sáu Ólaf töldu hann ekki álitlegan og ekki líklegan til drengskapar, hjeldu margir að hann væri ekki meðal-strákur; en öllum lízt betur á prestinn, því hann er að sjá siðprúður maður og góðmannlegur, forhægur og viðfeldinn. Lítið hefi jeg heyrt getið um að hann minnist á trúarbrögð, en farið hefur hann á duggur, og veitt duggumönnum sakramentið hálft segja menn,

fyrra vetur. eptir að Erlendur Pálmason fór suður, og eptir að menn höfðu heyrt aðgjörðir yfirvaldanna syðra, og sjeð það sem þjer skrifuðuð þá um það mál í þjóðólfi, að enginn á Suðurlandi hefði vit nje vilja til að rannsaka kláðann til hlítar eða gæta að hvernig útbreiðslu hans væri háttað, og mundu því yfirvöldin syðra og þjer ekki geta gefið amtmönnunum nægar skýrslur um þetta mál, nema menn færu hjeðan suður með amtmanni, sem enga sök ættu að máli, og gætu því hlutdrægnislaust sjeð hvernig ástatt var, og náð þessum skýrslum, og töldu menn hjer í sýslum ekki eptir sjer að borga þann kostnað, til þess að málið yrði því betur búið til alþingis. Enda mun sú raunin hafa á orðið, að ekki veitti af skýrslum þeirra Norðlendinganna til að skýra málið [1].

[1]) þjer getið þess í athugasemd á 145. bls. þjóð. að jeg leitist við í ritgjörð minni um suðurferð amtmanns Havsteins að hrekja ástæður yðar móti niðurskurðinum (þjóð. 123—124 bls.), og segist ekki lá mjer þetta úr því jeg sje á annari skoðun á annað borð. En því bætið þjer því við að gruna mig fyrir gæzku — sem einlægt, frá því jeg fór fyrst að skrifa um fjárkláðann, hefi stöðugt fram fylgt sömu skoðun, að ekki dygði annað en algjörður niðurskurður —, og gjöra mjer þær gersakir, að það sem jeg segi í því efni sje, ef til vill, eins mikið byggt á vilja Havsteins amtmanns eins og á sannfæringu minni. Slíkar óheiðarlegar gersakir eigum við ekki að gjöra hver öðrum, heiðraði fjelagi! að minnsta kosti ekki að fyrra bragði. Ef að það er víst, að enginn af norðlenzku alþingismönnunum hafi fylgt þeirri skoðun fram að allt væri skorið niður í hinum kláðasýktu hjeruðum, þá hefi jeg verið heyrnarlaus þegar mjer veittist sú virðing að vera á kláðanefndarfundi á alþingi í sumar. En jeg ætla þeim ekki minna norðlenzku alþingismönnunum en að þeir láti það opinberlega heyrast, hvort þeir hafa ekki með einu orði fylgt fram þeirri skoðun. þegar þjer á sama stað segið, að þjer ætlið mjer að afbaka ekki og rangfæra mjer í hag, þegar jeg er að reka ástæður yðar, þá ætla jeg yður líka að sýna mjer hvar og hvenær jeg gjöri það, og er það með því einu móti skylda mín að kippa slíku í liðinn.

Mig furðar nú reyndar ekki á því, þó að yður þykí leitt fjárrekstrabannið að norðan, því eðlilegt er að yður og aðra í Reykjavík langi í kjötkatlana í Egiptalandi, það er að skilja: norðlenzka sauðakjötið, og engin furða þó að þið uggið sunnlenzka kjötið að bera yður það til munns. En þó megið þjer nú ekki láta kjötlöngun eina ráða, þegar um slíkt er að dæma, því fyrst og fremst er ekki annað í áteiknun amtsins á uppástungu sýslunefndarinnar í Húnavatnssýslu um fjárrekstrana en „að amtið verði fastlega að skora á sýslunefndina, að hún með öllu leyfilegu móti hindri, að sent verði í haust skurðarfje, hvorki sauðir nje annað, til suðurlands, því bæði geti þetta verið hættulegt, ef eitthvað skyldi sleppa hjá rekstrarmönnum, og þar hjá yrði það skaði fyrir Sunnlendinga, ef skurðarfje kæmi að norðan, vegna þess að miklu geldfje muni verða lógað á Suðurlandi í haust“. Líka eru það einber ósannindi að sýslumaður Arnesen hafi orðað bannið eins og þjer tilfærðuð á 146. bls. þjóð., svo að þjer hæðist þar að yðar eigin orðum. Þjer munið það nú víst sjálfur, að þegar við og aðrir vorum að karpa um niðurskurðinn í kláðasýslunum syðra í sumar, þá var það ein ástæðan móti niðurskurðinum sem Sunnlendingar tilfærðu, að ef algjörður niðurskurður yrði, þá kæmi svo mikið sauðfje á markaðinn, að það fjelli ákaflega í verði, svo að eigendum yrði lítið sem ekkert úr því. Það var því auðsætt, að það hefði verið illa gjört af Norðlendingum að keppa við sunnanmenn um fjársölu í Reykjavík, þegar líkur voru til, að svo miklu mundi slátrað syðra, enda munu Húnvetningar velflestir ekki telja það eptir, þó að þeir hafi fengið 8 til 16 sk. minna fyrir lýsipundið af kjötinu á Skagaströnd en þeir hefðu fengið í Reykjavík [1],

[1]) Þjóðólfur hermir það skakkt, að kaupmenn á Skagaströnd og Akureyri hafi ekki gefið nema 5 mörk fyrir lýsipund af sauðakjöti og eins fyrir sauðargærur, því kaupmenn á Skagaströnd gáfu 1 rd. fyrir kjötið og 8 mörk fyrir sauðargærur, en hjer á Akureyri 7 mörk fyrir hvorttveggja. Jeg held það verði heldur aldrei sýnt, að fjársalan suður hafi haft nein veruleg áhrif á fjártökuna á Skagaströnd, að minnsta kosti þekki jeg ekki til, að fjárprísar hafi nokkurn tíma verið þar betri en hjer nyrðra og austur um, þar sem menn þó ekki geta náð til að reka til Reykjavíkur.

---

kenning hans snertir ekki neitt hið daglega líf þeirra. Hann er aldraður maður, auðmaður og drambsamur. Hann prjedikar af vana, eins og fólkið fer í kirkju af vana„ og kemur jafngott úr kirkju. Og aðstoðarpresturinn fetar í spor hinna eldri“.

„Er þá barnakennari bæjarins eins ónýtur“?

„Þegar faðir þinn dó“, mælti mylnumaðurinn, „hafði barnaskólinn lifað sitt fegursta. Drengirnir og stúlkurnar eru rekin til að læra að lesa, skrifa og reikna dálítið að nafninu, og, ef til vill, að þylja upp nokkrar bænir. En hvað gagnar þetta gegn öllu því, er þau læra af foreldrum sínum í heimahúsum: svik og lygar, blót og rifdeildir, beintugastagl og þjófnað, óhóf og iðjuleysi, öfund og bakmælgi“?

Asvaldi þótti saga mylnumannsins ófögur, hristi höfuðið og gekk heimleiðis hugsandi um hið hryggilega ástand sveitunga sinna. (Framhaldið síðar).

enda má ætíð reikna töluverðan mun fyrir rekstrarlannin suður, og það sem fjeð leggur af á svo langri leið.

En hvað er nú hitt, sem þjer eruð að færa að oss Norðlendingum? þjer segið að oss Norðlendingum sje helzt að skapi rússnesk eða þess konar stjórn, og yður furðar á því, að Húnvetningar skuli láta það að orðum yfirvaldanna að reka ekki fje suður, og að engu yfirvaldi syðra mundi detta í hug að skipa slíkt, enda sjeu þar engir, er þyldu að sjer væri boðið annað eins, o. s. frv. Jeg held að þjer segið nú eitthvað satt í því, að oss Norðlingunum sje nú nokkuð ólíkt farið og Sunnanmönnum. því ef að jeg mætti taka til dæmis kláðamálið, þá held jeg að það sje hverju máli sannara, að þeir hafi ekki látið bjóða sjer að hlýða skipunum yfirvaldanna í því efni; svo að jeg gæti, þegar þjer talið um rússneska ofstjórn hjer á Norðurlandi, bent yður á vanstjórn eða stjórnleysi á Suðurlandi. Getið þjer neitað því, að bæði hafi skipanir yfirvaldanna syðra í máli þessu verið mjög á reiki og lítil framkvæmd fylgt þeim, og að Sunnlendingar hafi líka verið mjög sljófir og seinir að hlýðnast skipunum þeirra? Virðist yður nú ekki betur fara, að skipanirnar sjeu eindregnar og þeim vel framfylgt af undirgefnum og yfirboðurum? Virðist yður ekki fallegri hinn samhuga áhugi yfirvaldanna hjer nyrðra og Húnvetninga til að standa móti fjárpestinni heldur en sundurlyndið og afileysið sem hefur verið sunnanlands í þessu máli? Jeg get ekki neitað því, að mjer þótti munur að heyra umræðurnar um kláðamálið á sýslufundi í Húnavatnssýslu, þegar jeg kom að sunnan í sumar, við það að heyra umtalið um hið sama mál í alþingisnefndinni og í Reykjavík. Mjer fannst þjer sunnanmennirnir á þinginu og aðrir í Reykjavík berja einlægt blákalt áfram, að kláðinn væri ekki hættulegur, en væri vel læknanlegur og lítið í húfi, þó að hann færðist yfir landið. Og hvað hafa nú lækningarnar yðar dugað? Jeg heyrði reyndar miklar frásögur um það, að þessir útlendu dýralæknar væru svo að segja almáttugir að lækna fjárkláðann, enda var öll þörf á, að árangurinn af ferð þeirra til Íslands væri ekki tvísýnn, ef að þeir hafa næstum því 5 ríkisdali til launa hvern dag, því ef að meðalaleysi og ónóg umsjón yfirvaldanna syðra og annað þess konar, gjörir lækningatilraunir þeirra árangurslausar, þá verður kostnaðurinn að halda þá hjer á landi öllu óþarfari en suðurferð norðanmannanna með amtmanni Havstein. Á sýslufundi Húnvetninga voru þar á móti allir samráða og samhuga í því að spara engan tilkostnað og hlífast ekki við neinn niðurskurð til að varna útbreiðslu kláðans, enda hafa þeir einlægt gjört allt sitt til að varna útbreiðslu hans; og þeir og yfirvald þeirra Arnesen eiga að minni hyggju miklar þakkir skilið fyrir það af öllum Norðlendingum, eins og amtmaður Melsteð, Bogi sýslumaður og Mýrasýslubúar eiga þakkir skilið fyrir það af Vestfirðingum, hve vel þeir hafa varnað útbreiðslu kláðans vestur á bóginn.

það er því, eins og jeg hefi áður sagt, skylda okkar blaðamannanna að vanda um það sem miður fer bæði hjá yfirvöldnum og alþýðu, en þjer megi ekki leita þar að flýsinni í auga Havsteins, er þjer gleymið bjálkanum í auga háyfirvaldanna sunnlenzku. Okkur er skylt að gefa þeim heiður sem heiður heyrir.

Jeg ætla nú að biðja yður velvirðingar á þessu karpi. Jeg veit að okkur hefur ekki komið saman um kláðann; en við getum nú verið góðir vinir þar fyrir utan; einungis vil jeg af alhuga biðja yður að bera ekki upp á mig, að jeg tali af annara sannfæringu en minni eigin, því að þjer þekkið ekki betur hug minn en jeg yðar, og að þjer berið ekki Norðlendingum á brýn rússneskt þrællyndi, því það eiga þeir sannarlega ekki skilið.

**Sv. Sk.**

---

(Aðsent).

(Úr brjefi að austan). þú baðst mig að segja þjer greinilega sögu um aðgjörðir Bernharðar prests, frakkneska, eða hvað hann heitir, og Ólafs „katólska“. það er ekki hægt fyrir mig. Meðan þeir voru saman, mátti líkja aðgjörðum þeirra við veðrið hans Jónasar, „veðrið er hvorki vont nje gott“. o. s. frv. þeir sváfu og vöktu og böfðu mannlegar þarfir, komu eitthvað tvisvar í Hjerað og litu yfir byggðina, töluðu um hitt og þetta, lítið eða ekkert um trú og svo veit ekki meira. þeir sem sáu Ólaf töldu hann ekki álitlegan og ekki líklegan til drengskapar, hjeldu margir að hann væri ekki meðal-strákur; en öllum lízt betur á prestinn, því hann er að sjá siðprúður maður og góðmannlegur, forhægur og viðfeldinn. Lítið hefi jeg heyrt getið um að hann minnist á trúarbrögð, en farið hefur hann á duggur, og veitt duggumönnum sakramentið hálft segja menn,

og er það líklega satt; sumir segja hann hafi prjedikað fyrir þeim. Jeg hefi talað við hann tvísvar æðistund og nefndi hann ekkert trúarorð hvorugt sinn. Íslenzku er hann að lesa og byrjaður að tala einstöku greinir. Sagt er hann verði á Seiðisfirði í vetur. En — þó hann kynni sig svona vel, virðist mjer aðferð hans Jesúítaleg, að koma sjer við menn, læra málið og kynna sjer siði manna og hugsunarhátt, áður en hann fer að byrja ætlunarverkið. Þó kvað hann þverneita því mjög alvarlega að hann sje úr Jesúmanna flokki.

Það finnst oss harla ólíklegt, þó prestur sá færi að telja mönnum páfavillu, að nokkur gefi því gaum. Það væri ekki ólíklegt, að það æsti menn til vandlætingar vegna trúar sinnar, og vekti að nýju gremju við katólskuna jafnvel meira en vert er; því flestum er kunnugt af sögum og munnmælum svo margt illt sem hlaust hjer á landi af þeirri villu: fáfræði alþýðu, blind hjátrú, ranglæti, vjelar og yfirgangur klerka og valdsmanna.

## Hákarlsafli í Grýtubakkahrepp vorið 1857.

1. Oddur Jónasson á Hvammi fjekk á þiljubát sinn „Hermóð" 484 kúta til hlutar í 15 staða skipti eður í allt á skip . . . . . **7260** kúta.
2. Guðmundur Jónasson á Steindyrum fjekk á „Úlf" eður fjórmenningaskipið: 395 kúta til hlutar í 15 og 16 staði eður í allt . . . **6160** —
3. Jón Loptsson fjekk á „Jaktina" 72 tunnur lifrar eður í allt . . . **1728** —

Opnu skipin:

1. Þorsteinn Jónasson á Grýtubakka fjekk á „Hafrenning": 241 kút til hlutar í 14 og stundum 15 staða skipti eður í allt . . . . . **3427** —
2. Sigurður Jónsson á Látrum fjekk á skip sitt „Ísak": 182 kúta til hlutar í 14 staða skipti eður í allt **2548** —
3. Jörundur Jónsson á Grímsnesi fjekk á skip sitt „Víking": 174 kúta til hlutar í 14 staða skipti, eður í allt . . . . . . . . . . . . **2436** —
4. Jónas Jónsson á Látrum fjekk á „Felix" sem hann hjelt úti í Grímsey: 90 kúta til hlutar í 14 staða skipti, eður í allt . . . . . . . . **1260** —

Jörundur fór eina vetrarlegu fyrir páska á litlu skipi frá Höfða og fjekk 18 kúta til hlutar í 11 staða skipti eður í allt. . . . . . . . . . . . . . . . . **198** —

Þetta verður nú samtals . . . . **25062** kútar lifrar á öllum skipunum; og þegar það er venjulega talið svo, að 40 lifrar kúta þurfi í lýsistunnuna, verður aflinn 626$\frac{22}{40}$ lýsistunnur eða 150 tunnum minna en í fyrra; en varla er nú við að búast, að nákvæm sje lifrar-hluta talan hvorki í ár eða í fyrra. Ef að almenni prísinn á lýsinu hefur verið 35 rd., þá hafa skipin í Grýtubakkahrepp aflað lýsi fyrir 21.927 rd. eða þessir hákarlamenn hafa fengið 975 rd. meira fyrir afla sinn en í fyrra, þó að þeir hefðu þá 150 lýsistunnum meira. Þarna sjá menn hvað góðu prísarnir gjöra!

## Mannalát og slysfarir.

21. nóvember f. á. deyði Höskuldur Jónsson að Búðarhóli í Landeyjum innan Rangárvallasýslu. Hann fæddist 8. júní 1767. Varð tvígiptur og bjó 63 ár. Hann var góður smiður á trje, járn og kopar. Allir sem þekktu hann elskuðu hann og virtu því hann var gáfu- og vitsmunamaður. — Í næstliðnum mánuði andaðist hjer á Akureyri Ari skipstjóri Arason, lipur og liðmannlegur sjómaður og nettmenni í allri umgengni, — Í ágústmánuði í sumar drukknaði sýsluskrifari í Þingeyjarsýslu Antoníus Antoníusson í svo nefndum Dauðhyl í sýki nokkru er fellur í Laxá. Antoníus þessi var unglingsmaður, ágætlega gáfaður, og eitthvert hið liprasta og bezta skáld af ungum mönnum ólærðum, er vjer höfum heyrt nokkuð eptir, en dulur að kveðskap sínum.

# Auglýsingar.

Allir hjer nærlendis, er á annað borð ætla að lóga hundum, umbiðjast að færa mjer þá gegn þóknun. Líka vil jeg biðja menn að færa mjer sulli eða sollin innyfli úr stórgripum, og höfuð af vönkuðum sauðkindum, og skal jeg greiða borgun fyrir þetta eptir samkomulagi.

Akureyri 31. október 1857.

Jón Finsen.

Hin ýmislegu sjókvikindi, t. a. m.: kuðungar, skeljar, hörpudiskar og kúskeljar, ígulker og annað þess konar, sömuleiðis krabbar, krossfiskar, kolkrabbar og alls konar sjaldgæfir fiskar, sem fiskimenn opt fá í net sín eða koma öðruvísi höndum yfir, allt þetta smátt og stórt er mjög áríðandi til að skýra þekkingu vísindamanna á náttúrusögu Íslands. Eru menn hjer í nærsýslunum því beðnir að hirða allt þess konar og senda það eins og það kemur úr sjó, annaðhvort lifandi eða lagt niður í brennivín, til Jóns læknis Finsens á Akureyri, sem borgar fyrir það.

Otto Torell
doktor í heimspeki.

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason**.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletrslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. | 17. Nóvember. | 29.—30.

## Svar upp á brjef frá S. til ritstjóra Norðra.

Það er dagsanna, vinur minn! að það er súrt í brotið fyrir þig og aðra, sem vilja vel landi og lýð, og eru fúsir á að styrkja öll góð og þarfleg fyrirtæki af fremsta megni, að bæði stjórnin og þjóðin skuli einatt skella við skollaeyrunum um sumar uppástungur sem fram koma, og landi voru eru einkar áríðandi, en vera að þrefa og þjarka um annað sem fánýtt er, og jeg get vorkennt þjer það, af því þú ert Norðlendingur, þó að þjer falli það illa bæði við mig og aðra, að uppástungan um skóla á Norðurlandi skuli hverfa og gleymast svo að segja orðalaust af minni hálfu, sem vakti þó máls á því efni. En jeg get nú sagt mjer það til nokkurrar afsökunar, að það er ekki mikið hvetjandi og lífgandi fyrir okkur blaðamennina, þegar við höfum komið fram með uppástungu, sem við álítum góða og einkar áríðandi, þegar að þjóðarandinn tekur ekki betur í strenginn með okkur en svo, að flestir láta það sem vind um eyrun þjóta. Þú segist ímynda þjer, að jeg hafi nú fengið að heyra álit margra manna um þetta efni, og muni jeg því geta skýrt það mál betur og lagað uppástungu mína betur eptir ósk almennings. Jeg get nú sagt þjer hvaða árangur ritgjörð mín um þetta mál í desemberblaðinu í Norðra í fyrra hefur haft, að svo miklu leyti sem jeg til veit. Einn bóndi eða vinnumaður skrifaði mjer til, nafnlaust brjef, og var hinn glaðasti ef að þetta mál fengi framgang, og tjáði sig búinn til að styrkja það eptir veikum mætti. Einn af kunningjum mínum ungur prestur taldi það úr, vegna þess að skólinn syðra væri búinn að gleipa allar þær þjóðeignir, er ætlaðar hefðu verið hjer til menntunarstofnana, svo að menn ættu með góðri samvizku að geta heimtað það af stjórninni, að hún leggði honum svo mikið fje, að hann fullnægði kröfum þjóðarinnar í alla staði, og gjörði skólagönguna svo ódýra eins og vera þyrfti í samanburði við efni landsmanna. Einn af merkisbændum vorum skrif-

## Auðdalur.

### II.

(Framhald). Næsta sunnudag eptir messu, þegar fólkið kom úr kirkju, þyrptist það saman norðan við kirkjudyrnar eins og Auðdælir voru vanir. Það var mikilsvarðandi mál, sem um þurfti að ræða, því bæði átti að ákveða hvernig jafna skyldi niður kostnaði þeim, er þurfti til ársútgjalda bæjarins, og hvernig bæjarmenn gætu bidlokað með að greiða gamlar skuldir. Heldri mennirnir í Auðdal stóðu næst kirkjudyrunum og konur og börn stóðu í kring til að heyra ráðagjörðina.

Ásvaldur hafði ætlað að leita sjer færis að tala við sveitunga sína um ástand bæjarins, og hugði hann, að nú mundi sjer gefast kostur á þessu, og gekk því á fundinn. Þegar bæjarstjórarnir og aðrir höfðu talað málum sínum, steig hann upp á legstein í kirkjugarðinum og bað sjer hljóðs og er það fjekkst ávarpaði hann Auðdæli þessum orðum:

„Sambúar góðir og sveitungar; Jeg skildist frá yður á æskualdri og hefur margt síðan drifið á dagana fyrir mjer, og nú er jeg miðaldra maður, er jeg kem til yðar aptur. Jeg þekki varla Auðdal aptur svo hefur bærinn tekið stakkaskiptum, og hjarta mitt er sorgbitið, þegar jeg sje hver umskiptin eru. Áður var það sann-nefni, að bær vor var kallaðir Auðdalur. Þjer vitið að flestir voru þjer í þá daga efnamenn; fáir voru hjer fátækir og engir sem ekki björguðust af eigin handafla. Vjer gátum þá lánað nágrönnum vorum og þekktum ekki áhyggjur og andstreymi skuldum bundinna manna. Tún vor voru þá vel ræktuð, húsin voru nett og þrifaleg utan og innan. Hver einn af Auðdælum var þá mikilsvirtur maður og gat fengið 100 rd. að láni að orði kveðnu. Svona var nú auðsældartími Auðdæla“.

aði mjer enn fremur um þetta mál, og vildi hann ekki neitt nema búnaðarskóla, og þótti því uppástunga mín langtum of kostnaðarsöm.

Þú sjerð nú á þessu, hve mikill áhugi okkar Norðlendinganna er á þessu máli, þegar til á að taka, og hve vænlega það horfir, og þó að margir í orði kveðnu samþykkist þetta og viðurkenni nytsemi þess, þá er slíkt ekki nema orðin ein og kemur ekki fram þegar til á að taka. Þú heldur nú, að jeg muni geta vakið betur áhuga Norðlendinga á þessu máli, ef að jeg gæti þess í blaði mínu, sem að þig furðar á að Þjóðólfur skuli ekki hafa gjört fyrir löngu síðan, nefnilega hvernig framfer í skólanum. Þú segir: „að þó aðhaldið til lærdómsins hafi aukizt og hinn núverandi skólameistari eigi þakkir skilið fyrir það, þá vanti þó annað aðhald og aðra reglusemi í sumum efnum í skólanum; að skólameistarinn láti sig það litlu skipta þó að sumir af skólasveinunum leiðist afvega til drykkjuskapar, og að honum hafi einhvern tíma farizt þau orð um þetta, að hann tæki ekki hart á því, þó að piltar yrðu kenndir, ef að þeir kæmu upp í skólann; og lentu ekki í slarki eða lægju fyrir fótum manna niður í bæ“. Jeg hafði nú heyrt eitthvað svipað þessu undir væng áður en jeg fjekk brjefið þitt, en mjer þótti það svo ótrúlegt, að jeg vildi ekki geta þess að neinu. Jeg veit ekki hvað gæti verið sorglegri tilhugsun fyrir foreldra, sem láta börn sín suður, og ekki neitt, sem eins gæti veikt álit manna og traust til skólameistarans, eins og ef að slíkur ósiður við gengist. Hitt er heldur, ef til vill, ekki lítið í varið, er þú segir: að Reykjavíkur skólinn gjöri lærisveinana afvana öllum sveitabrag, svo þeir nenni ekki að taka neitt handarvik, er til vinnu heyrir, því þó að jeg geti nú ekki fallizt á það, að menn, sem til mennta eru settir, eigi endilega að vinna á stundum, þá get jeg ekki neitað því, að öll þörf er á, að minnsta kosti fyrir prestsefnin okkar að hafa gott vit á öllum verkum, svo að þeir geti haft full not af hinu bezta af embættistekjum sínum síðar meir, sem eru prestsjarðirnar, og það held jeg satt að, það sje nú um stundir sjaldgæfara, að skólapiltar vinni á sumrum, en það var áður en skólinn kom til Reykjavíkur, enda er það nú eðlileg afleiðing af því, að ekki geta aðrir lært en hinir efnuðustu, því þeir eru eins og von er óvanastir verkum.

Jeg þarf nú engan veginn að tína til ókosti skólans syðra, því það liggur í augum uppi, þó að hann væri að öllu góður sem lærður skóli og þó að allir, sem hefðu efni til og hug á að læra, gætu fengið þar inngöngu, og þó að jafnvel ekki væri dýrara að kosta þar pilt til kennslu en var á Bessastöðum, þá höfum vjer Norðlendingar samt þörf á að koma oss upp skóla. Andi tímans bendir oss ljóslega til þess, ef að vjer viljum reyna, eptir því sem vjer getum, að fylgja öðrum þjóðum í menntun, að vjer verðum að leggja eitthvað í sölurnar til þess að geta það, og með engu móti getum vjer það betur en með því að koma oss upp gagnfræðisskóla hjer á Norðurlandi.

Gagnfræðisskólarnir eru hinir beztu menntunarskólar alþýðunnar, og án þeirra getur eng-

---

Allur þingheimur gjörði góðan róm að máli þessu, og mæltu: „Ásvaldur hefur satt að mæla.“

Asvaldur tók þá aptur til máls: „þessi góði hagur vor er nú löngu horfinn, og bær vor ætti nú ekki lengur að heita Auðdalur, heldur Saurdalur, Sinudalur eða Svínadalur. Blessun drottins er horfin frá völlum vorum; sumir hafa of mikið land og sumir oflítið, og flestir yðar niðurníða það land, er þeir hafa. Þjer fyllið skilningarvit yðar með tóbaki, og látið áfenga drykki taka frá yður vit og rænu; flestir yðar eru skuldum vafnir og hafa þröngt í búi; og af því þjer notið ekki tímann til nauðsynlegra starfa, verjið þjer honum til að tala illt um náungann. Bær vor hefur misst góðan orðstír, er hann áður hafði, og er nú talinn eitthvert hið mesta óhófs og óaldarbæli í landinu, og þegar menn út um land vilja smána einhvern í orðum, segja þeir að hann sje einn af Auðdælum“.

Þegar bæjarmenn heyrðu þessa lýsingu tóku, þeir að hleypa brúnum og líta óhýru auga til Asvalds, og Elisabet, dóttir mylnumannsins, sem stóð allskammt þaðan, þótti í óefni komið fyrir honum, og varð dauðhrædd, að bersögli hans mundi verða honum hættuleg. En hann hjelt áfram: Auðdælir! Ef nokkur ærlegur blóðdropi rennur í æðum yðar, þá takið höndum saman og segið: á þessu skulum vjer ráða bót; Hvað er það sem veldur apturför þessari? Það er búðarborðið og gestgjafahúsið. Þar ganga jarðarverðin fyrir brennivín, og sauðaverðin fara á knattborði eða í spilum. Jeg spyr bæjarstjóra yðar: Hvað er orðið af bæjarsjóðnum, og hvar sýna þeir skil fyrir því, hvernig fje hans sje varið? Því viljið þjer heldur snæða á almennings kostnað en veita vatni á almenninginn eða bæta veginn í kringum bæinn, sem nú er engum manni fær nema með lífsháska.

Þegar Asvaldur sagði þetta, gjörðu tveir eða þrír af bæjarstjórunum þys mikinn og kölluðu: „þegi þú flækingsbjálfinn þinn! Ef að þú heldur áfram að níða yfirvöldin skulum

in heimakennsla verið nægileg. Heimakennsla vor á börnunum getur verið góð og ef til vill hollari heldur en hinir svo nefndu alþýðu- eða barnaskólar eru í öðrum löndum; en eins og kennslan, sem börnin fá þar, er ónóg til að búa menn undir hin ýmislegu ætlunarverk þeirra í lífinu, eins er heimakennslan ónóg til þess. En gagnfræðisskólinn getur þetta bezt af öllu. Í honum er ekki heimtað af lærisveininum, að hann lími sig við djúpsettan lærdóm, er hann hefur, ef til vill, engin not af í öllu lífi sínu, þegar skólatímanum er lokið. Þessir skólar heimta, að maður kynni sjer hið almenna í vísindunum, það sem einkum um snertir hið daglega líf og kringumstæður, sem lærisveininn seinna kemst í, og í þetta er ekki lítið varið. Það er margur maðurinn, sem lærir að skrifa og reikna án þess að læra neitt að hugsa um það sem hann skrifar eða að nota reikninginn eins og bezt verður. Það er gagnfræðisskólinn, sem þetta á að kenna. Þegar búið er að kenna lærisveininum undirstöðu málsins og rjettritun, á kennarinn að velja sveinunum þau efni til að skrifa um, sem þeir geta haft vit á og þekkingu, og láta þá svo skrifa af eigin brjósti um málið. Það venur unglinginn við að koma skipulega fyrir hugsunum sínum, og auk þess að laga þetta í máli, á kennarinn líka að laga það í hugsun. Íslendingar eru í eðli sínu lagaðir fyrir sögu og kveðskap. Þetta eðlisfar á skólinn að efla og glæða með því að kenna þeim og sýna þráðinn í mannkynssögunni, skýra helztu viðburði hennar og sýna lærisveinunum tilefni viðburðanna og afleiðinga þeirra, og einkum taka fram þau atriðin, er hafa stórkostlega stutt að framförum heimsins og valdið frelsi og styrk og auðsæld þjóðanna. Landafræðina á skólinn að kenna þannig, að lærisveininum fái ljósa hugmynd um lögun og eðli hnattar vors og um stöðu hans í sólkerfinu, áhrif hnattstöðu landanna á þjóðirnar og um eðlisfar og stjórnarfyrirkomulag þjóðanna, er á hnettinum búa, o. s frv. Af tungumálunum ætti að kenna dönsku og ensku; dönskuna af því að Danir hafa mest viðskipti við oss og þjóna undir sama konung, og ensku af því, að það mál mun einna bezt koma oss að haldi, þegar vjer eigum að skipta við aðra sjófarendur, er hingað koma til lands. Jeg get nú ekki verið að tala meir um kennsluna, því jeg álít það sjálfsagt, að landbúnaður yrði kenndur viðlíka eins og jeg stakk upp á í fyrra, og þó að slíku yrði nokkuð öðruvísi fyrir komið en jeg stakk þá upp á, þá gjörir það ekki neinn aðalmun.

Um kostnaðinn þarf jeg nú, ef til vill, að ræða, því jeg hefi orðið þess var, að sumum hefur þótt hann feykilega mikill, enda getur það verið, að hægt væri að koma þessum skóla á fót með miklu minni tilkosnaði, en þó verður það ætíð satt, að því betur sem kennurum er launað, því betri kennara fær maður, og því stöðugri verða þeir við skólann, og að minnstz kosti væri öll þörf á að geta hækkað laun þeirra smámsaman. Einn góður reikningsmaður hefur sagt að 50,000 rd. væri þó lítið meira en 2 rd. á hvern mann í norður og austurumdæminu, og þó að það sje

---

vjer kasta þjer í fangelsi og gefa þjer vatn og brauð í tvo sólarhringa". 

En Ásvaldur hjelt samt áfram: Þjer getið að vísu varpað mjer í fangelsi, en jeg get líka stefnt yður fyrir æðri yfirvöld; og þegar jeg tjái þeim ráðlag yðar, verður yður það, ef til vill ekki öllu notalegra en vatn og brauð verður mjer. En jeg skýt því til yðar sveitunga minna, hvort jeg hefi ósatt mælt, og hvort jeg hefi ranglega talað óhróður um nokkurn mann. Aðspyrjið samvizku yðar, hvernig ráðlag yðar hafi verið, hvort að þjer hafið auðgað sjálfa yður, eða eigur yðar hafa minnkað, hvort þjer eruð kunnari að ráðvendni og guðhræðslu eða að ómennsku, prettum og eigingirni. Eða, ef að samvizka yðar sefur, þá lítið bara í kringum yður og horfið á hús yðar og garða, sem komið er að falli; horfið á tún yðar, sem mosinu er vaxinn upp úr, og matjurtagarðana sem ekkert vex í sökum vanhirðingar. Horfið í kistuhandraðann, hann er tómur. Sjálfir eruð þjer tötrum vafðir og börn yðar eins og útburðir! Þetta allt skal bera mjer vitni gegn yður:"

Vandlætarinn vildi nú hafa sagt meira, en nú var kominn fítungur í bæjarmenn, og hrundu þeir honum niður af steininum. Sumir ætluðu að veita honum aðgöngu, en Ásvaldur ruddist gegnum þyrpinguna, tók í hönd sjer digran lurk, og gjörði sig líklegan til að berja með honum hvern þann er dirfðist að leggja hendur á sig. Þeir eltu hann heimleiðis með ópi og eggjan og grýttu steinum eptir honum; kom einu steininum á enni hans svo blóð flaut um andlit honum, en hann komst þó með illan leik heim til sín. Hann þerrði blóðið af andliti sjer og batt sár sitt og ljet sem ekkert hefði í orðið. Elísabet fjellst mikið um, þegar hún sá að Ásvaldur var særður, en hann bað hana að vera í góðu skapi, því þetta væri að eins lítil skeina, og mundi sig það ekki saka.

Svo lauk fyrstu tilraun Ásvalds að bæta siðu bæjarbúa, en

mikill skattur, þá ímynda jeg mjer, að hann gæti vel fengist, því margir leggðu meira til en fyrir sig og sína, ef almennur áhugi væri á málinu. En jeg vil nú sýna þjer fram á, að minna þarf til að kosta ef menn vilja það heldur.

Sá sem að stæði fyrir skólanum mætti ekki hafa minna til launa en 400 rd. og svo sem 2 kýrfóður af jörðunni, sem stjórnin þarf að láta oss fá, en hinir 2 kennararnir gætu, ef til vill, fengist fyrir 150 rd. hvor til launa, og fæði að auk hjá skólahaldaranum, og getur maður talið það fæði til 200 dala; kennslan ætti að vera gefin og meðgjöfin með sveinunum 64 rd. um skólatímann 8 mánuði, auk þess ætti skólahaldarinn að hafa 200 rd. fyrir eldivið og aðra umsjón sína og fría ábúð á jörðunni, og verða þetta 1100 rd. um árið, og er það leiga af 27500 rd. auk jarðarinnar, sem jeg gjöri einlagt ráð fyrir að stjórnin ljeti til ókeypis. þetta fje er nú reyndar æði mikið, en jeg ímynda mjer að margir aðrir en Norðlendingar mundu styrkja til að koma þessum skóla upp.

Jeg vil nú ekki í þetta skipti svara þjer fleirum orðum um þetta mál, jeg þykist hafa leyst hendur mínar, og þú mátt reiða þig á, að jeg skal eptir veikum mætti styrkja og leiðbeina þjer og öðrum, sem ekki daufheyrast og vilja láta þetta fyrirtæki verða meira en orðin ein. Jeg vildi óska að landar vorir hefðu sem mestan og beztan áhuga á þess konar áríðandi málefnum.

---

## Gufuskipsferðir til Íslands.

Vjer höfum á 90. bls. í Norðra þessa árs farið fáum orðum um afdrif þessa máls á alþingi í sumar, en nú þegar vjer höfum sjeð þingtíðindin og umræðurnar um mál þetta á þinginu, þá getum vjer ekki stillt oss um að fara um það nokkrum fleiri orðum. það hefur nú verið lengi eitt af því, sem töluvert hefur hnekkt framförum lands vors, að milliferðirnar milli þess og annara landa hafa verið svo fáar og stopular. það var því góð frjett, þegar það heyrðist, að einn af hinum helztu gufuskipa-eigendum í Kaupmannahöfn, Koch, hefði boðið stjórninni að láta gufuskip ganga til Íslands og Færeyja 6 til 8 sinnum á ári, og það var auðsætt, að stjórnin mundi ætla sjer að þiggja boð þetta, þegar hún leitaði um það álits alþingis. þegar mál þetta var lagt í nefnd og rætt á þinginu, kom það fram í nefndarálitinu og hjelzt síðan og var tekið upp í álitsskjalið til konungs, að þess var beðið, að gufuskipið skyldi koma við á Eskjufirði, og voru þær ástæður færðar fyrir því, „að bæði ætti skipið því vissara að fá nægilegt af vörum til flutninga til og frá Íslandi sem það kæmi við á fleiri verzlunarstöðum, og einnig gætu flutningar milli Suðurlands og Austfjarða með þessu móti, ef til vill, á komizt og samgöngur í öllu falli aukizt við þetta fjarlæga hjerað“. þetta voru nú góðar ástæður; en þær sömu ástæður voru einnig fyrir því, að láta skipið að minnsta kosti í einni ferðinni vor og haust hlaupa kringum land og inn á alla hina aðalverzlunarstaðina. Viðstaðan á hverj-

---

hann uppgafst ekki að heldur. Eptir þenna dag er hann hafði sagt bæjarmönnum til syndanna; gjörðu þeir honum margar glettur. Einu sinni brutu unglingar í bænum rúður í húsi hans á náttaþeli, og aðra nóttina slitu þeir upp allt kálið í garði hans. þegar Asvaldur bar sig upp um þetta við bæjarstjórana, sögðu þeir, að hann hefði sjálfur bakað sjer óvild bæjarmanna, og ætti hann verra skilið, en hann hefði enn orðið fyrir.

Hann ljet nú ekki hugfallast, þó að upphvatningarorð hans hefðu þanni haft lítinn árangur, því hann hafði mikinn áhuga, eins og hver maður, sem er sannfærður um að hann hefur rjett að mæla. og ásetti hann sjer nú að reyna til að fá prestinn á sitt mál. það þarf, ef til vill, ekki annað, hugsaði hann, en fara vel að honum, því hann hefur að öllum líkindum látið offljótt hugfallast. Ásvaldur fór því á fund prestins, og sýndi honum með eins miklu blíðu og hann gat fram á ástand sveitarinnar, en flutti þó mál sitt því skörunglegar sem á leið.

þegar Ásvaldur hafði borið fram mál sitt, eins og honum líkaði, svaraði presturinn: „þú fer í geitarhús að biðja þjer ullar, þegar þú kemur til mín með þetta mál. Jeg hefi engin afskipti af þessum málefnum, og ekki get jeg verið að ganga í mál þetta með þjer. Bágindi bæjarmanna eru öll sprottin af syndsemi þeirra. þeir fyrirlíta guðs orð og svíkjast um að gjalda mjer tekjur mínar á allar lundir. Drottinn getur ekki umborið þetta öllu lengur, þó að langlundargeð hans sje mikið, og ekki getur hjá því farið, að þeir sæti þungum refsidómi.“

„En þjer getið, prestur góður! „mælti Ásvaldur“, gjört yðar til að bæta siðu sóknarmanna. þeir lifa í löstum, af því að þeir eru ómenntaðir og vita ekkert. Ef að þjer sæjuð um, að betra skipulag væri haft á skólanum, svo að

um stað þurfti ekki að vera nema örskömm, og gagnsmunirnir væru stórmiklir. Á vorferðinni kringum landið gæti gufuskipið þannig bætt dálítið úr bráðustu nauðsyn landsmanna á hverjum stað með vörubyrgðir, og kaupmenn erlendis gætu þá fengið fregn um ástandið á verzlunartsöðum sínum hjer á landi. Á haustin gæti það flutt þeim fljótustu og vissustu fregn um hvernig verzlunin hefði gengið, og hve mikinn vöruafla þeir ættu í vændum, og líka gæti það þá bæði vor og haust flutt vörur og sendingar hafna á milli hjer á landi, sem er einkar nauðsynlegt, þar eð skipaferðir hafna milli eru hjer engar vissar, en allur flutningar landveg, sem nokkru munar, svo fjarska örðugur sökum fjarlægðar og vegaleysis.

Oss furðar það nú mikillega, að enginn af þingmönnum skyldi láta sjer detta þetta í hug, þegar þó kom til umtals að gufuskipið skyldi koma við austanlands. Oss virðast allar líkur til, að póstferðunum hjer á landi verði varla hagað svo, að þeir verði ætíð vissir um að ná í skipið í Reykjavík, auk þess sem allir vita, að ómögulegt er að koma með þeim neinum stórum sendingum; og fyrst að þingmenn vorir hafa nú ekki farið þessu fram, en öll líkindi eru til, að gufuskipsferðirnar byrji þegar á næstkomandi vori, þá viljum vjer skora á menn hjer á Akureyri og aðra norðanlands, að þeir semji bænarskrá til konungs og biðji hann, þegar þessar ferðir komast á, að gufuskipið verði, að minnsta kosti tvisvar á ári, haust og vor, látið hlaupa kringum landið og koma við á öllum aðalverzlunarstöðum þess, þannig, að það í annari ferðinni komi fyrst við á Eskjufirði, og gangi svo norður um landið og vestur fyrir til Reykjavíkur, og í annari ferðinni fyrst til Reykjavíkur og svo vestur um og austur fyrir norðan land. Hjer á Akureyri skorum vjer á málsmetandi menn að halda fund með sjer og ræða þetta mál, og semja síðan bænarskrá, er menn síðar gætu sent til undirskripta í næstu sveitir, og sent síðan með næstu póstskipsferð.

---

## Úr brjefi að sunnan.

Þegar jeg kom suður yfir fjöllin, fór jeg ofan í Borgarfjörð bæði til að sjá sveitina og hitta kunningjana. Þar komst jeg undir eins í kláðasveit, og voru þeir þar fyrir greifi Trampe og annar dýralæknirinn, Jensen, í rjettum Borgfirðinga. — Vjer hittum þá í Lundartungurjett; voru þeir báðir að özla innan um rjettina og skoða fjeð; var það dregið í dilk sjer, sem þeir sáu sjúkt, en énga höfðu þeir kjörið skoðunarmenn, því þeir þóttust ekki hafa haft tíma til þess í sumar, og ætluðu svo fjárlækninum allt; þótti mjer heldur fljótaskript á skoðuninni. Það var langt frá að þeir skoðuðu hverja kind, en tóku af handa hófi það, sem þeir ráku augun í, og það gátu varla verið nema þær kindurnar, sem yfirkomnar voru. Síðan voru kindurnar taldar í kláðadilknum, og voru það svo og svo fáar kindur, en hitt safnið allt var talið heilbrigt. Í Lundartungurjett voru 80 kindur taldar með kláða. Jeg játa það, að það sem jeg sá þar af fje, nefnilega safnað við Lundartungurjett, var ekki mjög yfirkomið eða ljótt að ytra áliti.

Trampe var mjög svo ánægjulegur og jeg held ánægður uppi yfir kláðakindum sínum, og ljek

---

æskumennirnir yrðu uppaldir í guðs ótta og góðum siðum, þá munduð þjer sjá góðan ávöxt af vinnu yðar!"

Presturinn mælti; „þetta á skólakennarinn að sjá um en jeg ekki, enda komst jeg ekki til þess. Jeg hefi nóg að gjöra að taka saman ræðurnar mínar."

Ásvaldur ól nú samt á máli sínu, og mælti: „Jeg verð þó að minna yður, prestur góður! á það, að þjer eigið sem góður hirðir að láta yður umhugað um hvern og einn af hjörð yðar. Ef að þjer húsvitjuðuð hjá þeim, og sæjuð hversu þeir hafa tamið sjer þennan ósóma, ef að þjer —".

Presturinn, sem varla hafði getað setið á sjer að heyra þessa tölu komumanns, greip nú fram í og sagði með reiði mikilli: „Hvílík fyrn eru þetta! þú kemur hingað, ólærður maðurinn, til þess að kenna mjer, hvernig jeg eigi að gæta skyldu minnar. Veiztu ekki við hvern þú átt málum að skipta? Á jeg að vera að snuðra í hverju hreysi eins og lögregluþjónar? Hjörðin á sjálf að annast hið veraldlega ástand sitt. Jeg er andlegur hirðir, og veit hvað til míns friðar heyrir. Snáfaðu burt, jeg vil ekki lengur gegna þjer, þú ert svo ósvífinn í orðum.

Ásvaldur fór nú leiðar sinnar frá prests-setrinu, og þótti honum von sín hafa mjög brugðizt, og var hann nú næstum ráðþrota, en ásetti sjer þó að leita ráða hjá sýslumanni og amtmanni, er höfðu nokkurs konar yfirstjórn yfir bæjarmálefnum í Auðdal. Þegar hann kom á fund sýslumanns, og vildi bera undir hann vandræði Auðdæla, kvaðst sýslumaður engan tíma hafa til að hlusta á mál hans. Hann var nýseztur í dómarasætið, og ætlaði að fara að dæma í landaþrætumáli milli Jaðars og Öldu á Sultarströnd. Stóðu þar tvær hundaþúfur við veginn fram með sjónum milli bæjanna og voru tuttugu faðmar milli, og var málið um það, hvor hundaþúfan ætti að ráða landamerkjum, því frá annari átti að ráða sjónhending fjalls og fjöru milli. Sýslumaður sat á stóli sínum, með loðið lambskinn undir fót-

við fingur sjer; það var mikil rigning. Hann var í skinnsokkum, er náðu upp fyrir hnje og stóð í miðri rjettinni og var að tala við bændur; hverjum manni var hann ljúfari og lítilátari. og leyfði hann bændum að reka kláðakindur sínar, hverjum heim til sín, þó ekki ásamt því, sem sagt var heilbrigt, og átti kláðafjeð að skerast óðar en heim kæmi og það hafa menn víst gjört. Jensen gefur góðar vonir, að hann muni koma öllu í gott lag í vetur, en nú sem stendur geta þeir ekkert að hafzt sökum meðalaleysis. — Hann hefur boðið að byggja hús á þeim bæjum, þar sem kláðinn hefur verið verstur og segja menn, að þeir sjeu þegar teknir til þess starfa.

Hinn dýralæknirinn Hansteen hefur haldið til eystra í sumar og haust, og verið þar í rjettunum; af honum hefi jeg minna heyrt, en þó það, að hann hafi sjálfur, og geli öðrum, minna traust á sjer, að hann geti læknað. nema þá með löngum tíma (á 3 árum). Hann lætur skera það versta úr, eins og Jensen. það er líka látið miklu ver af kláðanum eystra en í Borgarfirði, því þar er enn kláðalaust á mörgum bæjum, og veit jeg ekki víst um útbreiðslu hans þar, en hitt er víst, að eystra hefur hann aukizt í sumar, og er nú kominn austur yfir þjórsá, því ekki hafði verið skorið þar nægilega fyrir hann í sumar og vor.

Sumir segja að læknarnir hafi læknað margt fje, en það mun þó vera sannara, að þeir hafi enga skepnu læknað. þeir segja stundum, að pestin sje innlend, stundum, að hún sje útlend, svo menn, eða jeg að minnsta kosti, get engri niðurstöðu náð af því.

Jeg hefi heyrt kynlegan lærdóm eptir Hansteen, sem er dr. philos., og þykist hafa skyggnzt djúpt inn í fylgsni og leyndardóma náttúrunnar, og þessi lærdómur er sá, að fjárpestin sje breyting (transformatio) upp úr bráðapestinni, sem nú er í Eyjafirði: það sje nefnilega vant svo til að ganga, þegar einn sjúkdómur sje lengi búinn að geysa, að hann breytist undir hið síðasta í annan sjúkdóm, enn fjarskalegri. og þá sje honum lokið.

þessi hans lærdómur hefur þegar fengið áhangendur, og telst þeim svo til, að bráðapestin hafi á 18. öld komið upp suðaustan til á landinu — þar sem nú spratt upp þessi nýja, sem nú er verið að þjarka um —, og rakið sig svo vestur eptir og sett sig svo norður yfir fjöll, og sje nú komin þetta áleiðis (í Eyjafjörð). Ekki átti hún að koma á Vestfjörðu. Nú muni þessi nýja lesa sig í spor móður sinnar og jeta hana upp; aðrar sveitir gjöri jeg ráð fyrir að ekki þurfi að ugga um. Ó hvílík speki!

Hansteen á að hafa vetursetu í Árnesssýslu. jeg trúi austur við sýslumót, aptur Jensen í Borgarfirði, eins vestur við sýslumót, svo að þeir ekki missi pestina út, heldur svæli hana inni eins og tóu í greni.

---

## Úr brjefi frá bónda í Árness-sýslu til bónda í Norðurlandi.

Jeg get nú orðið því fáorðari um kláðann í brjefi þessu sem jeg veit að fleiri hjeðan skrifa þjer um hann, og kláðinn er nú aðalumtalsefnið á þessari tíð. Hann geysar nú svo ákaft yfir alla Árness-sýslu, að engi ræður við hann, nema með bráðasta niðurskurði, á flestum bæjum; einstöku bæir eru enn kláðalitlir, flestir í Byskupstungum, en fáir annarstaðar kláðalausir. Á lækningunum eru flestir uppgefnir, nema má ske Árni á Ármóti og fáeinir hans menn; þó er faktor Thorgrímsen hættur. sem hefur af alefli reynt þær, og er búinn að eyðileggja allt sitt fje, því hann er skynsamur maður, og ekki sá þrákálfur, að hann stríði gegn sannfæringu sinni. — Varla get jeg annað skilið en að allt sauðfje verði fellt niður milli Hvítár og þjórsár, fjalls og fjöru í milli

---

fótunum, stakk pennanum undir eyrað og leit stórum augum upp á Ásvald, og sagði að hann sæi það sjálfur að hann kæmist ekki til að gegna umkvörtunum hans. Asvaldur fór nú á fund amtmanns, og þótti honum nú fara að fjúka í flest skjól. Amtmaðurinn var maður gamall. Hann var grár fyrir hærum og hrumur að fótum, hafði hann jafnan verið afskiptalítill í embættisfærslu sinni, og skotið fram af sjer flestum málum þangað til í fulla hnefana, líka þótti hann fremur hlutdrægur og vilhallur frændum sínum. þegar Asvaldur kom fyrir amtmann, leit hann við honum lítillátlega og spurði, hvað honum væri á höndum, en bauð honum þó ekki til sætis. Asvaldur flutti fram erindi sitt um volæði Auðdæla, hið illa háttalag bæjarstjórans og vankunnáttu skólakennarans, og hristi amtmaður höfuð sitt mjög alvarlega, er hann heyrði þetta.

Asvaldur varð nú öruggari, er honum virtist amtmaður þannig gefa vel gætur að máli sínu, og fór nokkrum orðum um afskiptaleysi prestsins; en þá kom nú annað hljóð í strokkinn. Amtmaður leit mjög reiðuglega til Asvalds og hristi hærukollinn, og sagði honum að hætta slíkum lygaáburði. „Heldurðu, fanturinn þinn! að jeg sitji þegjandi og hlusti á að þú níðir niður öll yfirvöld andlegrar og veraldlegrar stjettar? þú ert líklega einn af þessum mannhundum, sem ekkert láta sjer líka og finna að öllu, sem aldrei geta haldið kyrru fyrir, en vildu helzt umhverfa öllu. Snautaðu burt með allar þínar umkvartanir, eða jeg skal senda þig í betrunarhúsið. það er svo langt frá, að presturinn ykkar sje eins og þú lýsir honum, að hann er allravænsti maður, og náskyldur mjer.“

þegar Asvaldur hafði nú fengið þess ofanígjöf, fjellst honum allur hugur að leita hjálpar lengur hjá öðrum, og sneri heimleiðis í þungu skapi.

á þessu hausti, því þó Stóra Ármót vilji að líkindum verða eptir, mun verða lítið úr því, þegar til skara á að skríða.

Fyrst er meir en helmingur bænda, sem segjast skera niður allt sitt fje hvað sem aðrir gjöri og hvað sem heilbrigðinni líði fyrir norðan, því það falli hvort sem sje, og svo munu, þegar fram í sækir, koma samtök manna að gjöreyða öllu fje í þessu byggðarlagi, ef það frjettizt, að ekki sje kláði á norðurlandi, en Þjóðólfur okkar er nú að segja frá kláða þar í seinasta blaði; en honum verður stundum mismæli, og tekur sig svo aptur; betur svo yrði enn.

Ekki þekki jeg annað en að Rangárvallasýsla sje í fári og falli, hún er víst ekki betur komin nú en Árnessýsla var í fyrra, að minnsta kosti austur að Markarfljóti; en þeir ætla nú að halda sýslufund og jafnvel að ákvaiða almennan niðurskurð í þremur eða fjórum sveitum, því þeir vilja sem vonlegt er láta sjer annara víti að varnaði verða; en guð má ráða, hvernig það fer.

Ekki er Þjóðólfur búinn að snúa svo þanka mínum, hvað sem hann þvaðrar, að jeg ekki enn í dag virði mikils alvörugefni og framkvæmdir amtmanns ykkar Havsteins í þessu máli, frá fyrsta til þessa tíma; ogenda líka bannið, að reka skurðarfje suður, því það skil jeg ekki, að kaupmenn og sjálfir bændur hjer syðra horgi ver fje okkar — sem nú er rekið mörgum 100 saman til þeirra — fyrir það, þó ekki komi norðanrekstrar.

Þjóðólfur hugsar um einsamla Reykjavík, þegar hann er að þvaðra um þetta.

Jeg hætti nú í þetta sinn, því tíminn er naumur; en mun rita yður hvenær sem jeg get, og einkum þegar jeg veit betur en nú, hvað gjörist hjer og víðar; en bið yður og alla vini mína og kunningja þar nyrðra að minnast okkar sunnlenzku aumingjanna í náð og miskunnsemi; því það er víst, að við verðum upp á ykkar hjálp komnir, ef þið verðið megnugir um að hjalpa, og jeg vona að drottinn veiti okkur þá líkn, í þessari yfirgeysandi landplágu, ef við gjörum okkur ekki hjálpar hans óverðuga, með einhverjum þverhöfðaskap, sem varla mun verða hjer í þessum hluta Árness-sýslu.

# Frjettir.

**Innlendar.** Veðuráttan er hjer norðanlands einlægt enn hin bezta, alautt í sveit og litlir snjódýlar hæst í fjöllum nú í miðjum nóvembermánuði, og einkum hefur núna seinustu dagana verið hlýr sunnanvindur eins og á sumardag, þó stundum með regni. Hitinn varð einn daginn 12 mælistig.

Nú höfum vjer fengið greinilegar frjettir um hvernig gengið hefur í rjettum Húnvetninga; og ~~er það stutt frá að segja, að hvergi~~ urðu menn varir við, að sunnlenzka kláðafaraldrið væri komið þar í fje, og fór þó skoðunin þar fram með hinni einstökustu nákvæmni. Ein dilkær kom fyrir í göngum Víðdælinga frá Reykholti í Borgarfirði með mjög grunsamlegum kláða, og var hún og dilkurinn undir eins skilin frá uppi á fjallinu, handsömuð, drepin og dysjuð. 2 sauðir frá sama bæ komu og fyrir í rjettunum, og voru þeir skornir. Margt kom þar fyrir af fje Mýrasýslumanna, og var það allt heilbrigt; það fje var rekið suður, en þó lagðar drögur fyrir, að það væri skorið, þegar heim kæmi.

Á óþrifakláðanum bar töluvert í rjettum Húnvetninga, eins og við var að búast, þegar svo grandgæfilega var skoðað, og voru þær kindur allar auðkenndar, og þær skornar, er nokkuð mikil óþrif þóttu í, lakast var fje eins og í fyrra vetur í Miðfirði. Alla fjárrekstra norður yfir Blöndu hefur sýslumaður og sýslunefndin bannað til þess að stemma stiga fyrir kláðanum, ef hann móti von skyldi seinna koma fram þar í sýslu., því þó ekkert bæri á honum í rjettunum er það þó ekki ómögulegt, að hann dyljist þar enn, og geti seinna komið fram, og verður þess konar varúðarreglum ekki svo hrósað, sem þær eiga skilið. Um veturnætur átti hin fyrsta almenna fjárskoðun að fara þar fram, og þá vonum vjer að verði fullreynt um, hvort að Norðurland allt er enn þá frítt við ófögnuð þenna. Annarstaðar hjer í sýslum var fje líka skoðað í rjettunum, og höfum vjer hvergi heyrt, að það hafi borið á neins konar kláða til muna.

## Seglvefarinn.

Ungur maður nokkur, sem var í Lundúnum að læra seglvefnað, fjekk orðlof hjá meistara sínum að fara heim til móður sinnar á jólunum, hún bjó í Kenthjeraði, og saga þessi gjörðist 1723. Hann fór nú leiðar sinnar fótgangandi, og kom að kvöldi dags að þorpi nokkru, því að hann hafði ekki dag til að komast alla leið. Hann var líka mjög þreyttur af göngunni, og fjekk líka innuntökur og kveisu; beiddist hann gistingar hjá gestgjafarakonu einni, sem var kunnug móður hans. Þar var húsfyllir og maður í hverju rúmi, en konan sagði, að ef hann vildi sofa hjá frænda sínum, sem nýlega væri kominn í land — hann var sjómaður á Indíafari —, þá væri honum það velkomið. Hann tók þessu boði feginsamlega, skemmtu þeir sjer saman um kvöldið og gengu síðan til sængur.

Um miðja nótt vaknaði unglingurinn með mikilli kveisu, vakti hann þá rúmfjelaga sinn, og spurði hann um veg til salernis. Sjómaðurinn sagði honum að ganga í gegnum eldhúsdyr, en af því að hespan væri stirð skyldi hann taka hníf úr vasa sínum, og mundi hann þá ná upp hespunni. Seglvefarinn gjörði eins og honum voru ráð til kennd, og var burtu hálfa stund, en þegar hann kom aptur, furðaði hann á því, að sjómaðurinn var allur í burtu. Af því honum var annt heim, fór hann á fætur fyrir birtingu, og hjelt fram ferð sinni og kom heim um miðjan dag. Gestgjafakonan, sem hafði vitað af því, að hann ætlaði snemma af stað, furðaði sig nú ekki á burtför hans, en þegar hún sá ekki frænda sinn um morguninn, ætlaði hún að fara að vekja hann. Henni brá heldur en ekki í brún, er hún sá að rúmið var alblóðugt, og frændi hennar hvergi að finna.

Nú urðu allir hræddir, blóðferillinn var rakinn úr svefnherberginu út fyrir húsdyr og ofan í flæðarmál. Ýmsar getur voru þegar um þetta, og menn tóku undir eins að gruna seglvefarann, er sofið hafði hjá honum, að hann hefði myrt manninn og kastað líkamanum út í sjó. Það var undir eins skipað að taka hann höndum, og var hann tekinn um kvöldið hjá móður sinni. Þegar leitað var á honum, voru skyrta hans og nærbuxur blóðugar, og í vasa hans fannst hnífur og sjaldgæfur peningur, sem gestgjafakonan sór, að hefði verið eign frænda síns, og hún hefði sjeð hann hafa hvorttveggja um kvöldið þegar hann gekk til sængur ásamt seglvefaranum. Þessar líkur voru nú svo miklar, að seglvefarinn var dæmdur til líffláts.

Hann sagði í vörn sinni frá öllu eins og hjer er sagt að framan, en af því, að hann gat enga grein gjört fyrir blóðblettunum á fötum sínum, nema ef hann hefði fengið það þegar hann lagðist aptur í rúmið, eða fyrir silfurpeningnum sem fannst á honum, þá var sögu hans eigi trúað. Sjómaðurinn var horfinn, og blóðferillinn rakinn alla leið að strönd niður, og þóttu þetta fullar ástæður fyrir því, að hann hefði verið myrtur, og dómarinn var svo sannfærður um, að vefarinn væri sekur, að hann skipaði, að aftökunni skyldi eigi fresta lengur en um þrjá daga. Við sjálfan gálgann stóð vefarinn enn á sakleysi sínu, og það með svo mikilli mælsku, að margir aumkvuðu hann, þó að fáir efuðust um, að hann væri rjett dæmdur.

(Framhaldið síðar).

Orðlagði höfðingsmaðurinn, Björn hreppstjóri Gíslason á Búlandsnesi, hefur sent prentsmiðjunni á Akureyri **5 rdll** að gjöf, og tjái jeg undirskrifaður honum miklar þakkir fyrir það í mínu eigin og annara meðnefndarmanna minna nafni.

Hinn sami hefur einnig sent **5 rdll** að gjöf **til kirkjubyggingar á Akureyri**, og er þeirra að vitja hjá ritstjóra Norðra; og vona jeg, að menn hjer á staðnum og nærsveitis láti sjer þetta dæmi að kenningu verða, að halda fram þessu máli sem er svo óumflýjanlega nauðsynlegt fyrir Akureyrarbæ. **Sv. Sk.**

---

Vöruverð á sláturfjè á Akureyri haustið 1857.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Á kjöti: | af fullorðnu | . . . . . . . . . . | 7℞ L℔ |
| | af yngra | . . . . . . . . . . | 6 - 8ß |
| Á gærum: | Beztu tegund No. | 1. . . . . . . | 7℞ |
| | | 2. . . . . . . | 6 - 8 - |
| | | 3. . . . . . . | 6 - „ |
| | | 4. . . . . . . | 5 - - 8 - |
| A mör | | . . . . . . . . . . . . . . | 22ß ℔. |
| Á tólg | | . . . . . . . . . . . . . . | 24ß ℔. |

---



---


Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 30. Nóvember. 31.—32.

Þó að ótrúlegt sje, hefur það frjetzt með póstskipinu, að **Trampe stiptamtmanni** sje nú fallið á hendur að **ráða einn öllu** um **fjárkláðamálið** á Suðurlandi, þrátt fyrir það, hvað árángurslausar allar fyrirskipanir hans og aðgjörðir hafa verið hingaðtil í því máli; þetta er nú úrskurður stjórnarinnar, en til allrar hamingju er sú bót í máli, að hinum amtmöanunum er um leið fallið á hendur að annast um þær ráðstafanir, er þurfi til að varna útbreiðslu kláðasýkinnar, hvorum í sínu amti.

Stiptamtmaðurinn hafði nú, eins og við mátti búast, mælt móti hinum takmarkaða niðurskurði, sem alþingi stakk upp á, og fært þá hlægilegu ástæðu til síns máls að aðal atvinnuvegur manna í suðuramtinu yrði með því móti eyðilagður, um langan tíma, eins og líkindi sjeu til að það verði skemur, að þeir missa not sauðfjáraflans með lækningakákinu. Stjórnin segist nú verða að fallast á þetta af því hún viti ekki glöggt, hversu útbreidd sýkin sje á Suðurlandi, og dýralæknarnir segi hana ekki neitt tilkynjaða og gefi góða von um að útrýma henni með duglegum lækningum, sem reynslan líka sýni, því á mörgum stöðum sje búið að lækna hana (?), líka viti stjórnin ekki nema hún sje nú komin í önnur hjeröð landsins. Stjórnin þykist því þurfa betri tími til umhugsunar, og geti því ekki gefið nákvæmar fyrirskipanir um málið, því svo stutt sje síðan hún hafi fengið frumvarp alþingis, enda hafi ekki verið hægt að leggja málið fyrir konung, þar eð hann hafi verið á ferð um ríki sitt.

Það getur nú vel verið, að stjórninni hafi verið nokkur vorkunn, þó að hún skyti frá sjer þeim vanda að gjöra nú þegar fastar ákvarðanir um að fyrirbyggja útbreiðslu fjárkláðapestarinnar, bæði sökum þess, að tillögur þingsins voru ekki eindregnar eins og vera þurfti og vera átti, og þegar ekki náðist nú til konungs, en þó virðist það mjög undarlegt, þegar tillögur alþingis í þessu máli áttu, eptir brjefi dómsmálastjórans í sumar að vera

## Auðdalur.

### III.

(Framhald). Þegar Ásvaldur kom um kvöldið heim í. Auðdal, sagði hann engum, hvernig ferðin hafði gengið, en tók á sig gleðibragð og heilsaði vingjarnlega þeim er hann mætti. Þegar hann kom fram hjá mylnunni, þótti honum vænt um að hitta Elísabet, dóttur Sigurðar mylnumanns, er sat undir reynitrjenu, er stóð fyrir framan mylnuna. En þó að hann reyndi til að vera með glöðu bragði, sá hún þó að honum var þungt í skapi undir niðri, og spurði hann hvað til þess kæmi. „Það hefur ekki verið hjer í bænum í dag“, sagði hún, „og þú hefur sjeð, að betur gengur annarstaðar, svo að þú ferð nú líklega bráðum að skilja við oss hjer í Auðdal“.

Ásvaldur sagði henni nú alla sögu, hvernig honum hafði gengið um daginn; kvaðst hann ekki ætla að fara úr Auðdal, en sjer væri það mikill harmur, hvernig bænum færi einlægt aptur. Elísabet sagði: „það hefur nú enn eitt dæmið komið fyrir hjerna í bænum; skólakennarinn er dauður. Hann var eins og þú hefur heyrt mesti drykkjumaður, og gekk heim augafullur úr gestgjafahúsinu í gærkvöldi, og datt á höfuðið í bæjarlækinn og fannst þar drukknaður. Til allrar hamingju átti hann hvorki konu nje börn“.

Þessi tíðindi virtust fá mikið á Ásvald, hann varð mjög hugsandi er hann heyrði þau, og gekk heimleiðis, og skildi Elísabet ekki í því, hvað hann hafði fyrir stafni, en hún fjekk að vita það næsta sunnudag. Eptir messu voru bæjarbúar kallaðir saman til að kjósa nýjan skólakennara, og var Ásvaldur á þeim fundi. Elísabet bað föður sinn að standa við hlið hans til þess að aptra honum, svo að vandlætingarsemi hans espaði ekki bæjabúa gegn honum.

Fyrst tók Brandur gestgjafinn til máls, sem var forstöðumaður bæjarstjórnarinnar. Kvað hann nú þurfa að

hjerumbil einhlítar, og þegar málið kom frá þinginu viðtekið með miklum atkvæðafjölda, að stjórnin skuli þá ganga beinlínis fram hjá alþingis frumvarpinu, en setja þann mann einráðan yfir þetta á Suðurlandi — þar sem mest reið á —, er Íslendingar hafa aldrei haft ástæðu til að bera gott traust til, og sem — þó að hann vildi vel — ekki getur haft vit á hvernig hjer hagar til, eins og hinir beztu menn á alþingi, og sýnir þetta að stjórninni hefur verið það lítil alvara að gefa þinginu vald til að gefa bráðabyrgðarlög í þessu máli. Það sjer nú ekki á, að vjer eigum íslenzka stjórnardeild utanlands, því ef að forstöðumaður hennar hefði þau áhrif á úrslit mála vorra, sem hann ætti að hafa, þá er líklegt að þau yrðu oss ekki svona óhagfelld, því ekki er hætt við því, að hann sje svo skammsýnn, að hann ætli oss þetta fyrir beztu, eða svo óþjóðlegur, að hann vilji brjóta niður álit alþingis, og gjöra það fyrirlitlegt í augum landsmanna, með því að styðja að því, að tillögur þess sjeu þannig fótum troðnar. Hvað mundi stjórnin nú hafa gjört, ef að alþingi hefði haft þrek og þor til að gjöra frumvarp sitt í kláðamálinu undir eins að bráðabyrgðarlögum, eins og það eptir brjefi dómsmálastjórans hafði fulla heimild til? Vjer ætlum það mikinn skaða fyrir land vort, þegar alþingi hefur ekki þor til að neyta þess valds fullkomlega, sem því er í hendur fengið, því meira mundi stjórnin þó hafa hikað sjer við að hrinda aptur bráðabyrgðarlögunum, hefðu þau verið á komin heldur en að ganga nú fram hjá tillögum þingsins. Vjer getum því ekki annað en álitið að stjórnin hafi hjer gjört fremur óheppilega ráðstöfun hvað Suðurlandið snertir, og að hún geti aldrei orðið að miklu gagni, því enginn þarf að vera spámaður til þess að segja, hvernig þessi ráðstöfun muni gefast, því reynslan er þegar búin nógsamlega að sýna, hvað stjórn stiptamtmanns í þessu máli er farsæl.

Þetta er nú úrskurður stjórnarinnar í þessu mest umvarðandi málefni Íslands, og þá eigum vjer nú eptir að gizka á, hverjar afleiðingar verða muni af henni. Það má nú geta nærri, að herra stiptamtmaðurinn, sem nú er settur einráður yfir þetta mál syðra, muni nú taka sjer ráðaneyti þar í Reykjavík, líklega fjórmenningana, sem skrifuðu undir uppástungur Halldórs kennara Friðrikssonar, eða þó einkum sjálfan Halldór sem æðsta ráð. Það er nú bágt að vita, hverjar aðgjörðir þessara manna verða, en þó má þess til geta, að þær verði þannig, að haldið verði áfram með lækningarnar að minnsta kosti þangað til allt fje er dautt á Suðurlandi. Vjer getum nú ekki annað en álitið, að miklu æskilegra hefði verið að losa herra stiptamtmanninn úr útlegðarstandi sínu hjer — eins og vinur hans Chambera kallar það — til þess að hans kjarnkæra föðurland þurfi ekki lengur að missa gagn það og sóma, er herra greifinn gæti unnið því, heldur en að fela honum á hendur að stemma stigu fyrir útbreiðslu kláðasýkinnar hjer, og vjer ætlum herra Halldóri hentara að leiðrjetta stílabækur skólapilta, en að frelsa Ísland frá fjárkláðasýk-

---

kjósa mann til skólakennara, væri það víst hvert hið minnst áríðandi í bænum, því launin væru ekki nema 40 rd. á ári. kvaðst hann geta boðið bæjarmönnum hæfilegan mann til að gegna þessum starfa, og sem væri fús til að takast það á hendur, og væri það Sigurður saumari, sem væri skyldur sjer í móðurætt.

Annar af bæjarstjórum stóð nú upp, og bauð fram til að takast þetta embætti á hendur haltan langspilsleikara, frænda sinn, er bíðist til að gegna embættinu fyrir 35 rd. á ári; væri hann fjölskyldumaður, svo að það væri tvöfaldur hagur fyrir bæjarsjóðinn að veita honum embættið, því bæði sparaði hann þá 5 dali, og þyrfti síður að leggja langspilsmanninum af sveit. Þegar Sigurður saumari heyrði þetta, tók hann að níða langspilsmanninn og brakyrtust þeir um stundarsakir, og undirbuðu hvor annan, þangað til langspilsmaðurinn kvaðst skyldi verða skólakennari hjá þeim fyrir 20 rd. um árið, þótti Sigurði það of lítið og gekk þá frá embættisbeiðslunni.

Bæjarmenn ætluðu nú að fara að gefa langspilsmanninum atkvæði; en þegar Ásvaldur sá það, stökk hann upp á stein nokkurn og tók til máls: „Ætlið þjer að gefa stelpunni sem situr yfir kúnum meiri laun heldur en þeim manni, sem á að kenna börnum yðar guðsótta og góð fræði. Fyrir verðið þjer yður ekki að gjöra slíka óhæfu? Jeg veit það vel, að ekkert fje er í bæjarsjóðnum, og að fátæklingarnir, sem ekki hafa dug í sjer að vinna sjer til matar, geta ekki borgað fyrir skólagöngu barna sinna; Jeg skal nú gjöra yður eitt kostaboð, jeg skal verða skólakennari yðar launalaust".

Auðdælir litu nú hver til annars, og urðu hreint forviða. Sumir sögðu að þetta væri óráð, því ekki væri að vita hvað slíkur maður mundi kenna börnunum, hann kenndi þeim má ske galdur. En flestum þótti það gott að þurfa

inni, því vjer álítum það heilagan sannleika, er ábyrgðarmaður þjóðólfs ber honum á brýn á alþingi í sumar (sbr. alþingistíð. 800. bls.), „að væri hann dálítið kunnugri sveitalífinu og búinn að inndrekka dálítið minna af loptköstulum í Reykjavík, þá mundi hann ekki hafa komið á þing með aðrar eins loptkastalabyggingar“.

En — það er nú komið sem komið er, svo að vjer verðum nú sjálfir Íslendingar að reyna til að bjarga oss í þessum vandræðum, að minnsta kosti þangað til stjórnin er búin að hugsa sig nógu lengi um. Vjer kunnum nú því mi ur ekki að gefa Sunnlendingum þau ráð, er duga muni, af því þeir standa rjett undir handarjaðri stiptamtmanns og dýralæknanna, því varla er að búast við því þreki og samtökum hjá þeim, að þeir verði allir á eitt sáttir, að skera, hvað sem hver segir, en þó munu þeir flestir sjá fram á, að óhagur einn verður að halda áfram að káka við lækningarnar, ef að þær fá ekki útrýmt kláðanum hjá þeim í vetur. En fyrst að hin ömtin vorn nú til allrar hamingju ekki lögð undir stiptamtmann, þá er nú reyndar miklu hægra fyrir þau, því þar þarf ekki nema að halda áfram nákvæmum og iðuglegum fjárskoðunum, góðri ásetningu og fjárhirðingu, eins og brjefið frá stjórninni líka skipar, niðurskurði þar sem pestin er farin að stinga sjer niður og harðfengilegum vörnum.

---

Af því að alþingistíðindin munu því miður ekki vera í höndum nema fárra af lesendum vorum, efast jeg ekki um að mörgum muni þykja gaman að sjá hina ágætu **ræðu alþingisforseta herra Jóns Sigurðssonar** í fjárhags og útboðsmálinu á alþingi í sumar, sem að vjer álítum beztu ræðu, sem nokkurn tíma hefur verið haldin hjer á þingi, og þannig hljóðar:

Jeg hefi gjört mjer það að reglu, að taka ekki þátt í þingræðum að því leyti sem efni málanna viðvíkur, en mjer þykir þetta mál í mörgum greinum svo mikils varðanda, að jeg held jeg verði að neyta þess leyfis, sem mjer er veitt í alþingistilskipuninni, til að fara um það nokkrum orðum. Jeg hefi verið einn af þeim, og er enn — það vita allir — sem hafa álitið, að miklir kraptar lægi fólgnir í þessu landi og í þessari þjóð; jeg hefi verið einn af þeim, og er enn, sem álít, að Íslendingar sje eigi svo ónýtir, að þeir sje til einskis færir, eigi heldur svo fráhverfir öllu nýju, að þeir fáist ekki til að taka eptir neinu, eða taka sjer fram í neinu; mjer hefir opt þótt þeir helzt til fljótir á sjer að taka upp margar nýjungar, sem þeir hafa verið taldir á. Þar sem jeg hefði heldur kosið, að þeir hefði haldið fastara við hið gamla. Jeg er sannfærður um, að Íslendingar bæði geti vaknað og muni vakna, þegar þeim er gefið tækifæri til þess; það getur líka verið, að það fari eins fyrir Íslendingum eins og í sögunum stendur, að þegar svefnþorn ið verður hrist úr hári þeim, þá vakni þeir, og vakna til góðs En til þess að nokkuet líf og fjör geti færzt í þjóð vora, þá þarf hún fyrst og fremst að fá að ráða fje sínu, því eins og hver einstakur maður er áhugalaus, sem ekki er fjár síns ráðandi, svo er því og varið með hverja þjóð; þess vegna hefir mjer jafnan þótt það undarlegt, að stjórn vor skuli aldrei hafa viljað samþykkja að gefa oss nein fjárhagsráð, þar sem þó aðrar þjóðir, t. d. Englendingar, einhver hin voldugasta

---

ekki að borga skólakennslunna, og studdu mál hans, enda var hann að lyktum kosinn í einu hljóði.

Þegar Elísabet heyrði hvað gjörzt hafði á fundinum varð hún eins og utan við sig, og var það ekki furða, því næst vökumanns embættinu þótti þetta hið ljelegasta og auðvirðilegasta í bænum. Mylnumaðurinn, sem þó var mjög skynsamur maður, hristi höfuðið, og sagðist halda að Ásvaldur væri genginn af vitinu. En Ásvaldur hafði nú hugsað sjer nýtt ráð, og fylgdi því fram af kappi. Hann gekk nú reglulega undir einfalt próf, er ákveðið var fyrir skólakennarann, og af því hann skrifaði góða hönd og kunni meira í reikningi en bændur þurfa, var hann álitinn kjörgengur og kosning hans staðfest En nú vildi hann sannfæra vini sína um, að þessi aðferð sín væri skynsamleg. „Örvæntu ekki“, sagði hann við Elísabet, „um fyrirtæki mitt, og álíttu það ekki heimsku eina! Þú sjerð að fullorðna-fólkið vill ekki fara að ráðum mínum, jeg ætla því að byrja á börnunum, og sjá hvort ekki má bæta um uppeldi þeirra. Satt er það, að embætti mitt þykir auðvirðilegt, en heilög ritning kennir oss, hversu sjálfur frelsarinn lítillækkaði sig til að fræða mannkynið. Ef að stjórnendurnir hefðu vit á, ættu þeir ekki síður að vera vandlátir að velja kennendur handa alþýðuskólunum, heldur en lærðu skólunum. En þeir skeyta ofálítið um fræðslu almúgans, og gæta þess ekki, að bóndi er bústólpi, en bú er landstólpi, og þess vegna standa líka lönd og ríki einatt á völtum fótum“.

Þegar Ásvaldur hafði nú tekizt þenna starfa á hendur, hugsaði hann sjer að gegna köllun sinni rækilega, það var efalaust óþakklátt verk, en skyldurækinn maður hugsar ekki um það. Hann vissi með sjálfum sjer að honum gekk gott til, og hann hugsaði, að launin mundu verða þau, að hann kæmi fram tilgangi sínum. Hann var nú í góðu skapi, og bjó sig nú undir að kenna, og byrjaði um veturnætur. Fyrsta daginn settist hann við dyrnar á skólastofunni

þjóð í heimi, veita sjerhverri, jafnvel hinni aumustu, nýlendu sinni fjárforráð í hendur, og borga þó sjálfir embættismönnum stjórnarinnar í nýlendunum, auk þess sem þeir sjálfsagt kosta allan her og flota, sem þeir hafa þar til að verja og gæta hagsmuna nýlendanna; mjer hefur þótt það undarlegt, að stjórnin svarar oss í þessu máli jafnan á tvo vegu, því ef vjer bjóðumst til að bera oss sjálfa og bjóðum framlag, þá segir hún: „það er ekki til neins að veita ykkur fjárhagsráð, þið getið ekki borið ykkur sjálfir“; en ef vjer biðjum um fje til þess, sem vjer þurfum með hjá þessum fjárhaldsmanni vorum, stjórninni, þá segir hún: „komið með fjeð! þið fáið það ekki, því þið hafið ekki vísað á fjeð til þess“. Þetta sjá nú allir að er hvað á móti öðru; hún leyfir oss ekki að bera oss sjálfa, þegar vjer viljum, en segir oss að vísa á fje, sem hún hefur í sínum höndum, en ekki vjer. Sama ósamkvæmi kemur fram við Ísland í öðrum greinum; það er ekki tekið inn í konungsríkið og heldur ekki í alríkið, og ekki er það heldur beinlínis nýlenda. Þó er auðvitað, að það verður annaðhvort að vera sjerstakur landshluti, eða ríkishluti, eður þá nýlenda. En nú eru Danir sjálfir, þeir sem eru fyrir utan stjórnina, farnir að sjá, að svo má eigi lengi standa; þeir fá að sjá á hverju ári, að eptir reikningunum á að vera skotið til Íslands 20,000 rd., eða stundum 25,000 rd., og jafnvel er farið að bregða fyrir 30,000 rd. á ári; því þetta er allt af að hækka. Þá er von, þótt þeir spyrji: „er Ísland sannarlega svo bágstatt, að það þurfi þessa styrks við, og geti ekki borið sig betur“? og þegar þeir nú enn fremur sjá, að tillagið er einlægt að vaxa, þá hafa þeir tjáð sig fúsa að leggja til um sinn, en ekki framar. Ríkisþingið hefur nú tvisvar sinnum haft fjármál Íslands til meðferðar, 1856 og 1857. Fyrra skiptið stakk fjárhagsnefndin upp á því, að Ísland fengi fjárhagsráð sín, en gat þess um leið, að það væri sanngjarnt að Íslendingar tæki meiri þátt í almennum ríkisþörfum, t. a. m. sem tekið var til dæmis, að leggja nokkra menn til flotans, og hreifði nefndin þá um leið, að Danmörk kynni að skjóta tiltekinni upphæð til styrktar við Ísland á ári, að minnsta kosti fyrst um sinn. Ráðgjafinn kvaðst skyldu hugsa eptir þessu og taka það til greina. Nú kom ríkisþingið aptur saman, og enn lýsti fjárhagsnefndin, að sjer þætti nauðsynlegt, að Ísland fengi fjárhagsráð sín, og að skjóta ætti heldur fje til um hríð, ef þyrfti, en gat þá alls ekki um nokkurt tillag af Íslands hálfu til almennra ríkisþarfa, hvorki til flotans eða nokkurs annars; síðan skoruðu menn á ráðgjafann að segja, hvað gjört hefði verið í þessu frá því í fyrra. Ráðgjafinn svaraði þá hjer um bil á þessa leið: „alþingi hefur ekki verið haldið í sumar, en jeg hefi skrifast á um þetta mál við embættismenn á Íslandi; en alþing verður að sumri, og er jeg nú að semja frumvarp um þetta til alþingis“. En nú er ekkert frumvarp komið til alþingis, heldur er mál þetta lagt fyrir sem álitsmál, og það með útboðsmálinu knýttu þar við. Þetta þykir mjer því undarlegra, að ráðgjafinn skuli hafa ráðið konungi til, að **spyrja að eins**, sem hann sjálfur hefur **lofað frumvarpi**, og sagt ríkisþinginu frá, að hann væri að búa það til. Með þessu móti er málið dregið í tvö ár að nauðsynjalausu og á móti vilja ríkisþingsins; og af því að sjerhver dráttur á þessu máli er dráttur á að veita oss Íslendingum náttúrleg rjettindi vor, þá er mjer óskiljanlegt, hvernig stjórnin ein geti fengið af sjer að veita þessu máli slíka mótstöðu, eptir að svo lítur út sem flestir aðrir sje orðnir sannfærðir um, hvernig því sje rjettilega hagað. Mjer sýnist, að stjórninni sjálfri megi vera það skiljanlegt, eins og öðrum, að það sje hagnaður eigi minni fyrir Danmörk en oss, ef landið hefði sjálft fjárráð sín.

Það er nú ekki nauðsyn á, að fara út í skulda-

---

og tók börnunum blíðlega. Sum voru óhrein um fæturna, og sagði hann þeim að þurrka vandlega af sjer áður þau gengju inn í skólaherbergið sem var hreint og nett. Hann klappaði á kollinn á þeim börnunum, sem vöru hrein og þrifaleg, en þau, sem komu með ógreitt hár og ekki höfðu þvegið sjer, sendi hann heim aptur til að þvo sjer og greiða hár sitt. Börnin urðu forviða, þau voru því óvön að svona vel væri farið að þeim, sum hlóu og sum grjetu. Margir foreldrar kvörtuðu undan þessum þrifnaðarreglum og sögðust ekki vita hvaða gagn væri að slíku, en Ásvaldur krafðist þess, og innan skamms tíma sást árangurinn, að öll börnin voru nú dag hvern hrein og þrifaleg, og breytingin sem orðin var á börnunum á hálfu missiri var svo mikil, að foreldrarnir undruðust. Gamlar kerlingar nokkrar sögðu þetta væri ekki einleikið, og mundi hann kunna eitthvað fyrir sjer. Aðrir sögðu gamla sögu um flökkukarl, sem hefði ginnt mörg börn til að fylgja sjer, og hefði svo horfið snögglega með þau öll saman, og væri betur að hjer færi ekki svo. En mest orð fór þó af því, að Ásvaldur mundi kenna börnunum einhverja trúarvillu, og komst þetta svo á lopt, að tveir lærðir menn voru sendir til að rannsaka hvað fram færi.

Óvinir Ásvalds í bænum urðu nú mjög glaðir við þessi tíðindi og vonuðu nú fastlega, að hann mundi verða afsettur. Skoðunarmennirnir komu að óvörum einn morgun, en Ásvaldur ljet sjer ekki bilt við verða, því hann þurfti engu að leyna. Þegar þeir höfðu sagt honum erindi sitt, gættu þeir að börnunum, er voru að koma og gengu hvert til sætis síns með kyrrð og spekt. Þegar þau voru öll komin í sæti sín talaði Ásvaldur til þeirra eins og hann var vanur.

„Börnin góð“, sagði hann, „látum oss fyrst af öllu snúa huga vorum til guðs og flytja honum bænir vorar og þakkargjörð“. Þegar hann hafði sagt þetta fjellu öll börnin, 44 að tölu, á knje. Ásvaldur kraup þá einnig og rannsóknarmennirnir, sem urðu forviða, gjörðu það líka að hans dæmi. Ásvaldur

skipti Íslands og Danmerkur; en jeg vil þó fara um það fáum orðum, því mjer þótti hinn háttvirti framsögumaður fara um þetta efni nokkuð sterkum orðum, og að minni ætlun ekki alls kostar sönnuðum, þar sem hann var að tiltaka, að land þetta ætti að gjalda 90,000 rdl. til almennra ríkisþarfa. Það er nú kunnugt, og hinn háttvirti framsögumaður veit það eins vel og jeg, að tekjur af einum landshluta geta verið með tvennu móti, þær geta verið beinlínis eða óbeinlínis, og sá, sem geldur óbeinlínis, getur goldið eins mikið, og jafnvel miklu meira en hinn, sem greiðir beinlínis tillag sitt. Íslandi hefur nú aldrei ið ofþyngt með beinlínis sköttum, það játa jeg fullkomlega, en því hefir verið fram yfir allt hóf ofþyngt með óbeinlínis álögum, einkum með verzluninni. Það er nú hálf þriðja öld síðan að verzlunin á Íslandi komst alveg í hendur einstökum mönnum í öðrum ríkishluta í Danmörku, og kaupskrár eða taxtar voru settir á alla innlenda og útlenda vöru. Ef menn bera saman verðlag það, sem áður var, við það, sem það varð eptir þessum töxtum, þá var öll innlend vara þar með felld um 200%, en útlend vara, þegar á allt er litið, færð fram um 150—400% fram yfir það sem áður var; óhagnaður Íslendinga í verzlunarviðskiptum við Dani, verður því frá 350—600% og það sjá þó allir, að þetta er oss hið sama eins og að jafnhár tollur hefði verið lagður á verzlunina, auk allra annara ókosta, sem leiddi af verzluninni, er jeg vil ekki taka fram í þetta sinn. Jeg vil einungis nefna það til, að í taxtanum er öll landvara felld 40—60% meira en sjóvaran, og þessi breyting á verðlaginu hefur öldungis dregið menn frá landbúnaðinum að sjónum, svo að hjeðan er sprottin hin mikla apturför og eyðilegging alls landbúnaðar vors. Þegar verzlunarokið hafði nú legið á oss meir en hálfa aðra öld, þá var landbúnaðurinn og allt landið orðið svo gjörsamlega eyðilagt, að stjórnin varð í fullri alvöru að leita álits embættismannanna hjer á landi um, hvað mundi kosta að flytja þær fáu hræður, sem eptir lifðu, burt af landinu, því menn álitu, að hjer væri ekkert við að gjöra, landið væri óbyggilegt, og allt af að eyðileggjast. Landið var þannig alla jafna að þokast nær og nær gjörvallri auðn fram að 1786, þá er konungsverzlunin var af tekin. Eptirgjald það, sem beinlínis var goldið af verzluninni og kom inn í ríkissjóðinn, var ýmislegt, en það var opt um 20,000 rdl., það er 20,000 spesíur á ári, og er þó ótalið, hve miklu dýrari peningar voru þá en þeir eru nú. Jeg skal nú ekki reyna að ákveða, hve stóra kröfu einn landshluti getur haft, sem er þannig svo að segja kastaður undir fætur hinum, eða, sem verra er, einstaka mönnum í öðrum landshluta um heilar aldir; því þessi krafa er ómetanleg. Jeg skal ekki heldur leitast við að að sýna, hversu mikinn ábata Danmörk hafi haft á verzluninni við oss, því jeg er sannfærður um, að hann verður ekki metinn; en jeg skal einungis geta þess, að 1815, þegar fyrst var talað um, að láta verzlunina lausa við allar þjóðir, þá kom einn kaupmaður fram, og taldi ábata þann, er Danmörk hefði af verzluninni, ekki minna en 200,000 spesíur á ári. Jeg skal nú ekki skera úr því, hvort þessi reikningur sje rjettur, enda þótt menn hafi fulla ástæðu til að halda það, því höfundurinn þekkti manna bezt til allrar verzlunar hjer á landi, og að minnsta kosti mun reikningur þessi hafa verið orsök til þess, að verzlunin var látin laus með þeim kjörum, sem ekki voru aðgengileg fyrir nokkurn utanríkismann. Danir hafa nú enn töluverðan hagnað af verzluninni, af því hún hefur verið bundin svo lengi; en land vort mun seint eða jafnvel aldrei fá viðrjett halla þann, er það hefur beðið af verzluninni; þess vegna mundum vjer eiga að minnsta kosti mikla sanngirniskröfu til Danmerkur, ef rjettir reikningar ætti að ganga yfir vor á millum. En þó krefjumst vjer nú eigi annars en þess, sem

---

las síðan fagra bæn og svo einfalda, að 6 ára gamalt barn átti hægt með að skilja hana. Þegar bæninni var lokið, stóðu börnin upp og sungu morgunsálm eptir rjettum söngreglum, og voru söngnóturnar kritaðar á stórt spjald, sem hjekk í skólaherberginu, þeim til leiðbeiningar. Síðan skipti Asvaldur börnunum í flokka, og sögðu þau börnin, sem lengra voru komin, hinum til, í því sem lesa átti um daginn. Eins skal sjerstaklega getið um kennsluaðferð Asvaldar, að hann varði ætíð seinasta tímanum til að segja börnunum einhverja skemmtilega sögu, sem einhver nytsamur lærdómur lá í. Skoðunarmennirnir sáu nóg af kennslu hans um daginn til að sannfærast um, að hann væri einhver bezti kennarinn í landinu, og að allt sem um hann hafði verið talað væru einber ósannindi.

Veturinn leið, og um sumarið var skólinn ekki haldinn, því að eldri börnin gátu þá verið foreldrunum til gagns við heyskap og önnur sumarstörf. En Asvaldur safnaði yngri börnunum kringum sig og kenndi þeim eitthvað eða skemmti þeim með ýmsum smástörfum kringum bæ sinn. Hann var sannfærður um að ekkert gagn væri að kennslunni ef að háttsemi unglinganna væri ekki líka löguð, þegar til verka kæmi. Hann reyndi því til að venja börnin á iðjusemi, og að koma þeim í skilning um, hvernig þau ættu að nota það, sem þau lærðu, í vinnu sinni og búnaðarháttum. Með þessu lagi kenndi hann þeim garðyrkju og þekkingu á matjurtum og blómgresi ýmislegu, sem til prýðis er haft, og margt annað, er seinna gat komið þeim að liði í lífi þeirra. Það sem hann einkum reyndi kostgæfilega var að venja börnin á reglusemi og þrifnað, og hann gjörði það ekki einungis í skólatímunum, heldur sýndi hann þeim einfaldlega fram á nytsemi þess við hvert handarvik utanbæjar. Ekki mat hann nú verknaðinn samt svo mikils, að hann gleymdi að laga og leiðbeina tilfinningum þeirra og smekk; hann vakti hjá þeim ást á því fagra, viðkvæma og skáldlega

báðum má vera í hag, að Danmörk leyfi oss að standa straum af oss sjálfir, og hætti að fara með oss sem nýlendu. 1831 var því fyrst hreift, að Ísland skyldi bera sig sjálft. og það hefur verið tekið opt fram síðan en þó er, haldið áfram að telja oss með nýlendu, og það síðast í fyrra í samningum við Holland. Ef vjer nú erum nýlenda Danmerkur, eða meðan vjer erum taldir svo, þá leiðir það af sjálfu sjer, að enginn rjettur er til að fara út í reikninga við oss um tillögur til almennra ríkisþarfa. Skyldur og rjettindi hljóta í því eini að fylgjast að, og það er sjálfu sjer móthverft, að heimta þar tillögur, sem ekkert kemur í móti. Þetta er jeg viss um að hver sanngjarn danskur maður játar, eins og hitt, að Ísland hefur hina fullkomnustu sanngirniskröfu til að fá styrk frá Danmörku, þó á þyrfti að halda, meðan það væri að koma fjárhag sínum í lag.

En ef nú reikningar Íslands og Danmerkur væri að greindir, þá sje jeg þó ekki betur, auk sanngirniskröfunnar, sem jeg nefndi, en að allar reikningskröfur vorar til ríkissjóðsins stæði að öðru leyti óhaggaðar fyrir því. Það yrði of langt mál að þessu sinni, að fara nákvæmlega út í þetta, og það er heldur engin nauðsyn; en þess verð jeg þó að geta, að Íslandi geta þeir 25 000 rdl. engan veginn reiknast til skuldar, sem nú er talið, því þar í móti getum vjer talið skólagózin, sem runnin eru inn í ríkissjóðinn mót þeirri skuldbinding að sjá fyrir skólanum, og voru þau góz fullkomlega 16—20.000 rdl. virði í árlegri leigu eptir núverandi verðlagi. Þessi góz, eða andvirði þeirra er nú hvergi reiknað meðal tekjanna í ríkisreikningunum, þó talin sje ein 16,000 rdl. til útgjalda handa skólanum. Þá eru í öðru lagi þjóðjarðirnar: meðan þær eru óseldar. eru tekjurnar af þeim reiknaðar Íslandi, en undir eins og þær eru seldar. sjest ekkert eptir, hvorki höfuðstóll nje leiga, heldur er þeirra að engu getið. Þessir reikningar hljóta að koma til greina eins fyrir því, þótt fjárhagurinn sje að skilinn, og krafan til þeirra er svo sanngjörn og svo ljós, að jeg er viss um, að hver danskur maður hlýtur að sjá það og viðurkenna.

Það hefur verið talað um sambandið á milli fjárhagsins og útboðsins í álitsmálinu; en mjer virðist þessi tvö atriði fremur vera sett þar saman af hendingu, heldur en af því, að þau eigi í raun og veru saman, svo jeg er nefndinni samþykkur í því, að það sje ekkert eðlilegt samband þar á milli; jeg get heldur ekki skilið, að vjer eigum að taka þeim kostum, að kaupa af öðrum það, sem er í þeirra eiginn hag að láta; því að því lengur sem vjer eigum fjárhag saman við Danmörku því meiri skaði, því meiri kostnaður er það fyrir Danmörk sjálfa, sem hún sjer aldrei fyrir endann á; en því fyr sem fjárhagurinn er að greindur, því fyr getur Ísland borið sig sjálft; jeg get því ekki betur sjeð, en Dönum mætti vera það kærast af öllu, að verða lausir við fjárhaldið fyrir oss. En þá fyrst, þegar rjettindin koma, kemur skyldan, og jeg er alls kostar á þeirra máli, sem engum skyldum vilja játa, meðan rjettindi ekki fást. Jeg vil því lýsa því yfir, að þótt útboðið falli hjer á þingi, þá er það ekki af því, að vjer viljum skorast undan skyldu vorri, þegar vjer fáum samsvarandi rjettindi í móti, heldur af hinu. að vjer viljum ekki játast undir skyldur án rjettinda. Hvað nú annars útboðið sjálft snertir, þá finnst mjer margt í þeirri uppástungu mjög óviðkunnanlegt, og byggt á rangri undirstöðu, þó jeg að öðru leytí sjái á nefndarálitinu, að hinir háttvirtu nefndarmenn hafa gjört sjer mestu alúð til að reyna koma lagi á. Það er auðsjáanlega byggt á þeirri skoðun, að allir Íslendingar sje sjómenn; en það er þó engan veginn svo; þeir eru langtum fleiri sveitamenn, og hjer er margur maður, sem aldrei hefur á æfi sinni sjeð sjó. Þegar nú á að taka til útboðsins af öllu landinu, þá mundu menn hitta marga öldungis óhæfa til flotans; alstaðar erlendis eru og ekki

---

í náttúrunni og hversdagslífinu, því hann vissi að þetta mýkir og lagar hugarfarið, og vekur nákvæmar tilfinningar fyrir dásemdarverkum drottins. Það var yndislegt að sjá hann og skólabarnahóp hans, sem elskuðu hvort annað; aldrei var hann afundinn eða ofstrangur við þau, og þau báru til hans barnlega elsku en engan ótta. Sambandið milli hans og þeirra var ástarband. Ekkert þeirra var hrætt við að spyrja hann að hverju sem því datt í hug, því hann var bæði vinur þeirra og kennari. Þegar eldri börnin sáu þetta, komu þau til hans, og báðu hann að gleyma sjer ekki, og sagði hann þeim að koma til sín á laugardagskvöldum, þegar vikuverkum þeirra var lokið, og ganga þá með sjer um garða sína og túnin. Við þessi tækifæri útlistaði hann margt fyrir þeim, er þau þekktu ekki áður um hina dásamlegu niðurröðun náttúrunnar, skyldur og tilgang mannfjelagsins, o. s. frv. Hann gætti þess að þetta yrði þeim ekki leiðinlegt, og sagði þeim á milli ýmsar sögur úr náttúrufræðinni, frá öðrum löndum og þjóðum, um villudýr, fjöll, vötn, höf og stórelfur veraldarinnar.

Þegar ungir menn í Auðdal heyrðu sagt frá þessum skemmtilegu viðræðum, tóku hinir gáfaðri og námfúsari meðal þeirra að leita viðkynningar við Asvald. Safnaði hann þá saman nokkrum þeirra og varði nokkrum af frístundum sínum á sunnudögum til að kenna þeim; setti hann þeim fyrir ýmisleg efni að lesa um vikuna, og ljeði þeim hentugar bækur. En þó að hann gæti þannig dregið til sín æskulýðinn, voru þó margir af heldri mönnum bæjarins fjandmenn hans. Því þó að þeir gætu ekki skilið aðferð hans, sáu þeir að hún miðaði til að umsteypa öllu í Auðdal. Asvaldur hafði því lítil kynni af bæjarmönnum nema mylnumanninum, því þar tók Elísabet og foreldrar hennar honum ætíð vel.

Eitt kvöld þegar Asvaldur að venju sinni kom til mylnumannsins, var honum tekið svo þurrlega, að hann vissi ekki

aðrir menn teknir til hans en þeir, sem lifa og uppalast við sjó, eða ætlaðir eru til sjávaratvinnu; verð jeg því að segja. að útboðið sje að þessu leyti byggt á ónáttúrlegum grundvelli, og þar að auki mjög skaðlegum, því það heldur fram hinu forna háskalega háttalagi stjórnarinnar, að lokka menn frá sveitinni og landbúnaðinum. Það undrar mig, að nefndin, sem þó hefur tínt til svo marga annmarka og vandkvæði við útboðið, skuli hafa gleymt þessu merkilega atriði. Þá er það og næsta óhentugt, að þessir Islendingar skuli allir fara út úr landinu, án þess að það sje sjeð neitt fyrir því, að þeir geti verið til varnar fyrir landið, því ekki verja þeir Ísland, meðan þeir eru í Danmörku, og ekki getum vjer heldur ráðið því, eða verið vissir um, að stjórnin gæti þess sem fastrar skyldu, að senda hingað herskip til að verja oss, þó vjer sendum til Danmerkur ekki einungis 40 manns, heldur reyndar eptir mínum reikningi gefum út 120 manns á ári. Það sýndist vera miklu eðlilegra, að hafa varnarskyldu hjer á landi, líkt og enn er á Borgundarhólmi; þeir hafa þar sitt eigið lið og heræfingar, og þar með fullnægja þeir varnarskyldu sinni. Þá finnst mjer hugsunin í varauppástungu hins heiðraða þingmanns Rangæinga vera miklu skynsamlegri, því hann vill þó ekki hafa kennslu handa tómum kokkum, heldur og líka handa foringjaefnum. Mjer þætti líka munur, ef það væri gjört að skilyrði, að herskip lægi hjer við land á sumrum, og tæki við mönnum, þegar þau kæmi á vorin, og skilaði þeim aptur að haustinu til. Þessar athugasemdir eru þær einu, sem mjer þykir þörf á að sinni að koma fram með í þessu máli".

---

(Aðsent).

Það er gleðilegt „teikn tímanna" að sjá guðfræðinga þessa lands fremur nú enn opt að undanförnu vinna að því að hin andlega menntun og guðrækni glæðist og eflist meðal vor, með því að láta birtast á prenti andlegar „ræður" og „hugvekjur", er þeir hafa samið.

Meðal þessara teljum vjer **sex hugvekjur við nokkur tímaskipti** eptir **Jónas** kennara **Guðmundsson**. Frá hugvekjum þessum er — að vorn áliti — vel gengið að öllum hinum ytra búningi, er vjer leyfum oss svo að nefna, en þó er hinn innri búningur engu síður, því vjer köllum hann að mörgu leyti **ágætan**. Eins og höfundinum hefur eptir því sem oss finnst tekizt vel að velja ritningar greinir þær, er hann hefur fyrir umtalsefni í hugvekjum þessum, eins eða engu síður hefur honum tekizt að greiða sundur sannleika guðs orða og brýna hann fyrir mönnum, með mjög greinilegri niðurröðun efnisins, með ljósum og fræðandi röksemdum, með sannri alvörugefni og guðrækni, og víða hvar með heppilegri, hrífandi eða hjartnæmri heimfærslu upp á lífið. Vjer finnum oss því skylt að mæla fram með bæklingi þessum (að því leyti sem hann nemur) sem góðri húslestrarbók, og lifum í þeirri von, að höfundurinn láti oss fá innan skamms eitthvert yfirgrips meira rit andlegs efnis frá sinni hendi.

Sveitaprestur.

---

# Frjettir.

**Útlendar.** Póstskipið er komið, og pósturinn að sunnan, en lítið færir hann og útlendu blöðin oss af merkilegum frjettum frá útlöndum. Frá Danmörku eru frjettir góðar um árferði og uppskeru, og þó að hún hafa orðið lítil á sumum sáðtegundum og fóðuraflinn einkum orðið með minnsta móti, þá bætir það aptur um, að nýting og hirðing á sáðtegundum öllum og fóðurafla hefur orðið hin bezta. Um stjórnarmálefni er lítið frjettnæmt. Ráðgjafarnir eru enn hinir sömu, og konungur vor hefur verið hress og heilbrigður og hefur hann í haust farið að veizlum um Jótland með konu sinni og öðrum vildarmönnum.

Þess er áður getið, að stjórnin lagði frumvarp fyrir þing Holseta í haust um það, hver skyldu vera hin sjerstaklegu stjórnarmál þess hertogadæmis, er skyldu liggja undir það þing, og hvaða vald þing Holseta skyldi hafa, og tók þingið málið til meðferðar, og setti nefnd í það. Álit þessarar nefndar í málinu er dagsett 4. sept. næstl., og tekur nefndin þar fyrir öll hin seinni stjórnarlög, er Holsetum hafa verið gefin, síðan að stríðið hætti milli þeirra og Dana, og leitast við að sanna, að þau sjeu hvorki til orðin á löglegan hátt, þar eð þing þeirra hafi ekki fengið

---

hvaðan á sig veðrið stóð. Mylnumaðurinn var fátalaður, kona hans í illu skapi, og Elísabet var hrygg og harmslegin. Stundu seinna gengu hjónin út, og spurði Asvaldur hana hverju þetta gegndi. Hún gat fyrst eigi svarað fyrir grátt; seinast sagði hún honum þó, að Brandur gestgjafinn, sem var ríkastur maður í bænum hefði fyrir ári síðan beðið sín til handa elzta syni sínum, sem var drykkjumaður og slarkari. Hefði hún getað fengið árafrest hjá foreldrum sínum til umhugsunar, en nú hefði faðir sinn, sem gjarna vildi að hún staðfesti ráð sitt, orðið sjer reiður, af því hún hefði ekki viljað játast manninum. Þetta segir hún grátandi, en Asvaldur þóttist sjá hvað valda mundi. Hann sagði henni þá, að hann fyrir löngu hefði hugsað sjer þar til konu er hún væri, og tjáði henni ást sína, og þótti henni þá batna sinn hagur. Hann gekk síðan á fund foreldra hennar, og sýndi föður hennar skilríki svo góð fyrir fjáreign sinni, að mylnumaðurinn kom eptir litla stund inn til hennar með Asvaldi, og festi honum dóttur sína, og óskaði þeim heilla og hamingju.

(Framhaldið síðar).

að segja álit sitt, um sum þeirra enda hafi það ekki verið tekið til greina, sem þingið hafi bezt, þó að tillögur þess hafi fengið að koma fram. þeir leitast við að sýna fram á, að Danir hafi gagnstætt þeim lögum, er gilda um rjettindi ráðgjafarþinganna, þröngvað kosti þeirra, og smámsaman minnkað verkahring þings þeirra, og dregið valdið yfir málefnum Holseta í hendur sjer, og einkum hafi alríkislögin 2. október 1855 gjört þetta. því að ríkisþingið (Rigsraadet) verði þeim að litlu haldi, því svo sje kosningum hagað milli landshlutanna, að þeir verði ætíð í minni hlutanum, svo að hinn fjölmennari danski flokkur ráði þar öllu, og verði hertogadæmið þannig undirlægja Danmerkur; það hafi líka komið fram í ýmsum greinum að þeir verði fyrir ójöfnuði, þannig hafi hertogadæmið orðið fyrir þyngri álögum og sköttum, en því beri að greiða að rjettum jöfnuði, og fjárhagsstjórinn krefji stundum skattgjalda móti öllum rjetti, og háskóli þeirra sje niðurníddur, og Slesvíkurmenn með ýmsum ráðum teygðir frá að sækja hann, og í margri lagasetningu komi það fram, að ekki sje hugsað um, hvað þeim hagar og hvern rjett þeir hafa sem þýzkt sambandsland. Nefndin ræður því þinginu til að taka ekki frumvarpinu, þar eð það gjöri einungis vont verra. þingið tók nú þetta ráð nefndarinnar, og sendi konungi langa rollu með allar umkvartanir sínar, hvað sem nú seinna gjörist í því máli.

Stríð Englendinga á Indlandi stendur enn yfir, og veitir Englum fremur þungt, því mjög langan tíma þarf til að koma herliði um svo langan veg, en Englendingum kom þessi uppreist mjög á óvart, því þeir hafa nú um langan aldur haldið Indlandi í skefjum með örfáu Norðurálfuliði. Uppreistarmenn fjölga einlægt, og alstaðar þar sem þeir fá yfirhönd drepa þeir allt niður, menn, konur og börn með hinni frálettustu grimmd. Margan sigur hafa Englendingar unnið yfir uppreistarmönnum, en hjer fer sem jafnan, að drjúgur er landherinn, og er því varla við að búast að Englendingar geti bælt niður uppreistina fyr en seint í vetur, þegar þeir eru búnir að koma þangað nægu liði og vopnabúningi.

Alexander Rússakeisari var um það leyti að póstskip fór að hefja ferð sína suður á þýzkaland og ætlaði Napóleon keisari að hitta hann þar, og er tíðrætt, um hvort að nokkuð sjerlegt muni búa undir þessari ferð, og fundi þessara stórhöfðingja.

Oskar Svíakonungur hefur verið mjög veikur í sumar, og eru svo mikil brögð orðin að vanmætti hans, að hann hefur sagt af sjer allri ríkisstjórn fyrst um sinn, og hefur þar nú tekið við stjórn elzti sonur hans Karl, sem áður var orðinn undirkonungur í Noregi, og næst stendur erfðum. Svo er fyrirskipað í lögum Svía og Norðmanna, að ef konungur fer úr landi, eða fær hann sjúkleik, að hann getur ekki annast um ríkisstjórn, skal konungur nefna 10 menn úr hvoru ríkinu, og skal þetta ráðaneyti stjórna ríkinu í konungs stað hið fyrsta ár, en þá skal rjettur ríkiserfingi taka við stjórn; en Svíar og Norðmenn hafa nú breytt þessari reglu, og fengið stjórnina undir eins í hendur Karli konungsefni, og var allmikill ágreiningur um það í Svíþjóð, en þó urðu þessi málalokin þar að dæmi Norðmanna.

Einn af fyrverandi stiptamtmönnum vorum Íslendinga Bardenfleth hefur nýlega andazt. Hann var hjer stiptamtmaður ekki allskamman tíma, og það mun óhætt að fullyrða, að enginn af hinum dönsku stiptamtmönnum, sem verið hafa hjer á seinni tíð, muni hafa haft eins glöggva þekkingu á Íslands högum. Hann var konungsfulltrúi á hinu fyrsta alþingi voru 1845, og þótti hann þar nokkuð harðdrægur með stjórninni. Seinna var hann opt í ráðaneyti konungs, og nú seinast forstjóri þjóðeignanna; hann andaðist á ferð í Sveiss, er hann hafði tekizt á hendur til að bæta heilsu sína.

(Aðsent). Mannslát. Á næstl. sumri, 30. júní, dó **þórður Pálsson** á Miðhúsum í Húnavatnssýslu, 85 ára gamall; hann var fæddur í Fnjózkadal í þingeyjarsýslu, og uppólst þar hjá foreldrum sínum fram yfir tvítugsaldur, þá fór hann í vinnumennsku að Eyjadalsá í Bárðardal, til prófasts sjera Bjarnar Halldórssonar, sem gipti honum systur sína valkvendið Björgu Halldórsdóttur; með henni lifði hann í hjónabandi í 43 ár; bjuggu þau fyrst á Sörlastöðum í Fnjózkadal, og eignuðust þar 13 börn — 4 sonu og 9 dætur —. Síðan fluttu þau búskap sinn að Kjarna í Eyjafirði; þar bjó þórður heitinn 30 ár, fyrst með konu sinni og síðan ekkjumaður í 8 ár. þaðan fluttist hann vestur í Vatnsdal í Húnavatnssýslu til tengdasonar síns, timburmanns Jóns Jónssonar og dóttur sinnar Bjargar á Miðhúsum, og þar deyði hann; þórður heitinn var vandaður maður, stjórnsamur búmaður, þrifinn og iðjusamur, gestrisinn og guðhræddur, ráðhollur, hver sem í hlut átti, og hagleiksmaður einkum á járnsmíði, og góður veðari.

það mun sjaldgæft, að mönnum hafi auðnazt að eignast eins mörg barnabörn og börn þeirra, eins og þórði sáluga; því að hann var í lifandi lífi orðinn afi 86 barnabarna, en langafi 7 barna þessara. — Óskandi væri að land vort byggðist af mörgum líkum hans.

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðar-laust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. | 20. Desember. | 33.—34.

Dómur við aukarjett í Eyjafjarðarsýslu í málinu: prestur sjera Sveinbjörn Hallgrímsson gegn ritstjóra Sveini Skúlasyni.

Mál þetta er risið út af því, að verjandinn, ritstjóri Sveinn Skúlason á Akureyri, hefir neitað um að taka í blaðið Norðra ritgjörð, er sækjandinn, prestur sjera Sveinbjörn Hallgrímsson hefir samið til andsvars grein ritstjórans, er finnst í tjeðu blaði 15. sept. 1857 No. 23—24, bls. 92, og er bæði nýnefnt blað og ritgjörð sækjandans fram lögð í þessu máli.

Sækjandinn hefir krafizt, að verjandi verði skyldaður til að taka nefnda ritgjörð í hið fyrsta blað af Norðra, er hjer eptir út kemur, og byggir hann þessa kröfu á tilsk. 9. maí 1855 § 11. því ritgjörðin miði til að leiðrjetta það, sem um hann var sagt í grein ritstjórans, og sjerílagi þær dylgjur, er honum finnst að liggi í þessum orðum greinarinnar: „Hafi hann gjört allt sem í hans valdi stóð til að efla og styðja kirkjumálefnið (á Akureyri), þá getur hann huggað sig við sína góðu samvizku“.

Verjandinn hefir þar á móti krafizt, að málinu verði annaðhvort frá vísað eða hann dæmdur sýkn af kæru sækjanda, og byggir hann frávísunarkröfu sína á því, að sækandinn hafi í kærunni til sáttanefndarinnar byggt málssóknina á öðru en í málsútlistuninni fyrir rjettinum, nefnil. á fyrsta lið í 11. gr. tilsk. 9. maí 1855, er segir: að sá sem þykist vera áreittur í einhverju tímariti og höfðar mál út af áreitninni, geti krafizt, að veitt sje viðtaka í ritið auglýsingu um málshöfðunina, en fyrir rjettinum hafi hann byggt málssóknina á öðrum lið fyrnefndrar greinar, er segir: að sá sem æskir að leiðrjetta það, sem um hann er sagt í einhverju tímariti, geti krafizt, að veitt sje viðtaka í ritið leiðrjettingu, sem þó eigi má vera lengri enn ¼ úr númeri.

Rjetturinn getur nú ekki skilið kæruna til sáttanefndarinnar á sama hátt og verjandinn, því þó sækandinn láti það í ljósi í kærunni, að hann sjái ekki betur eptir nýjustu löggjöf en að hver ærlegur blaðamaðr eigi að taka ritgjörðir, sem miða til að verja þann, sem blaðamaðurinn sjálfur hefir kastað skugga á, þá virðist ekkert vera á móti því, að leiðrjetting geti miðað til slíks; líka segir sækandinn síðar í kærunni, að ritgjörð hans miði til að kippa því máli í liðinn, sem ritstjórinn hafi tekið rangt í, og að öðru leyti ber kæran það auðsýnilega með sjer, að sækandinn

## Auðdalur.

### IV.

(Framhald). Næsta sunnudag, þegar lýst var á stólnum með þeim Ásvaldi og Elísabet, brá Auðdælum heldur í brún, og stungu stúlkurnar saman nefjum og hvísluðust á; en Brandur gestgjafi stóð upp og gekk úr kirkju, og var hinn reiðasti, kvaðst hann skyldu launa mylnumanninum brigðmælgina og verða honum og tengdasyni hans erfiður. En Ásvaldur og Elísabet hjeldu nú brúðkaup sitt rúmum þrem vikum seinna, og skeyttu ekkert um hótanir hans.

Þegar veizlan var liðin, kom Ásvaldur að máli við konu sína: „Til þess að hjúskapur vor verði nú sem farsælastur, skulum vjer gjöra þrjú heit. Í fyrsta lagi, skulum við aldrei hafa nein leyndarmál hvort fyrir öðru; í öðru lagi, skulum við aldrei láta frændum nje foreldra eða neinn annan dæma okkar á meðal; og í þriðja lagi, skulum við aldrei tala óástúðlega hvort til annars, ekki einu sinni í gamni“. Á þetta fjellst Elísabet fúslega.

Þó Ásvaldur væri nú orðinn hinn vinsælasti meðal unglinga og barna í Auðdal, var þó öllum þorra bæjarbúa lítið um hann gefið. Þeir sem elztir voru og reyndastir, þótti margt undarlegt um hagi hans, bæði af því, að börnin höfðu fengið svo mikla elsku til hans, að þau vildu miklu heldur vera í skólanum heldur en eiga frí og vera heima hjá foreldrum sínum, og af því, að hann hafði náð svo góðum ráðahag, eins og Elísabet þótti, og það þó sonur ríkasta mannsins í bænum hefði verið meðbiðill hans; þetta væri ekki einleikið, og mundi hann hafa haft brögð í tafli. Mylnumaðurinn hló að þessu heimskuhjali, en kona hans, sem var mjög guðhrædd og viðkvæm en nokkuð hjegómleg gat ekki staðizt það álas, að hún hefði gefið dóttur sína örfátækum skólakennara. Þegar ein konan í bænum var eitt kvöld að dylgja um það, að dóttir hennar væri ekki vel gefin, varð

hefir höfðað þetta mál út af neituninni um, að taka svar hans í blaðið, en ekki út af áreitninni. það er þannig hin sama athöfn, af verjandans hálfu, sem er kærð bæði fyrir sáttanefndinni og fyrir rjettinum (sem sje neitunin), og verður því krafa hans um frávísun málsins ekki tekin til greina.

Hvað nú málefnið sjálft snertir, þá eru úrslit þess komin undir því. hvort ritgjörð sú, er verjandinn hefir neitað viðtöku í blaðið Norðra sje þess eðlis, að tilsk. 9. maí 1855 § 11 veiti höfundinum rjett til að fá henni veitta viðtöku í blaðið. þar sem nú tjeð lagagrein ræðir um leiðrjettingu á því sem um mann er sagt, þá virðist þetta hljóta að vera eitthvað faktiskt eða verklegt, sem skakkt sje hermt, svo að það geti komið undir dómsatkvæði, hvor rjettara hafi að mæla, ef þá ágreinir, blaðamanninn og þann sem æskir að leiðrjetta eitthvað; því geti blaðamaðurinn sannað sögu sína, getur neitun hins ekki heitið leiðrjetting. Sje nú þetta rjett álitið, þá virðist ekki ágreiningur í hugsunum, eða skoðun og áliti um almenn málefni, sem einstakir menn kunna þó að vera viðriðnir geta heimfærzt undir tjeða lagagrein; því það er ekki ætlunarverk dómstólanna að skera úr þess háttar ágreiningi. Eptir þessum skilningi á lagaboðinu getur rjettinum ekki virzt ritgjörð sækandans innihalda leiðrjettingu á rangri frásögn af verjanda hálfu, með því líka greinin í Norðra 15. sept. 1857, bls. 92 sýnist lítið annað innihalda en hugsanir hans í tilefni af ritgjörð sækjanda, sem prentuð er í sama blaði, en hvort þær sjeu í óviðurkvæmilegum búningi eða meiðandi fyrir sækjandann, ber ekki að dæma neitt um í þessu máli.

Eptir málavöxtum virðist rjettinum. að málskostnaður eigi að falla niður, og að engin ástæða sje til þeirrar kröfu verjanda, að sækjandanum sje dæmd sekt fyrir þrætugirni.

## því dæmist rjett að vera:

Verjandi, ritstjóri Sveinn Skúlason, á af kæru sækjanda, prests sjera Sveinbjarnar Hallgrímssonar, sýkn að vera. Málskostnaður fellur niður

---

## Bæjarstjórn á Akureyri.

það var svo til ætlazt í hinum nýju verzlunarlögum vorum 15. apríl 1854. að sýslumenn og læknar skyldu vera í hverjum af hinum 6 aðalverzlunarstöðum landsins, því þetta yrði brýn nauðsyn, þegar verzlunarbreytingin yrði. það hefur nú ekki borið svo mjög á því enn, að þessa þurfi beinlínis verzlunarinnar vegna, því útlendar þjóðir hjer ókunnar hafa ekki enn leitað á markað vorn. En ár frá ári verður það þó ljósara, hversu mjög nauðsynlegt það er, að lögstjórn sje í kaupstöðum, og eptir því verður nauðsynin til þessa æ brýnni.

Vjer viljum lýsa þessu nokkuð gjör, að því leyti sem snertir Akureyri, sem er næst Reykjavík stærstur bær á landinu. Vjer Akureyrarbúar, sem erum þó rúm 300 að tölu, höfum nú ekki því láni að fagna, að hjer sje nein lögreglustjórn í bænum. Sýslumaður vor, sem hefur fjölskyldu mikla, og var búinn að verja ærnu fje til að byggja sjer hús og reisa búnað í sveit, þegar verzlunarlögin komu út, færðist, eins og von var, undan því að flytja hingað, og þó að oss minni, að amtmaður hafi einhvern tíma farið því fram, að Akureyri yrði gjörð að lögregluumdæmi út af fyrir sig þá mun það hafa strandað á vanalega sker-

---

henni það því á að fara að hæla sjer og ráðahag dóttur sinnar. „Vertu ekki að segja að tarna, sagði hún. þú veizt ekkert hvernig á stendur Jeg segi þjer satt, að hann Ásvaldur á eins mikið eins og maðurinn þinn og hann Brandur gestgjafi báðir til samans. Jeg hefi sjeð skilríki fyrir því sem jeg segi, og ef jeg mætti segja allt sem jeg veit, þá mundirðu falla í stafi af undrun.

En undir eins og hún hafði mælt þessum diguryrðum iðraðist hún þess, og fjekk kunningjakonu sína til þess að lofa að segja engum frá þessu. Hún gjörði það nú ekki heldur, því hún sagði engum frá því, nema manni sínum og systur sinni, sem líka lofuðu órjúfanlegri þagmælsku. En þjóð veit ef þrír vita. Og innan skamms gekk sú saga, að allur fjarski af gulli og silfri hefði sjest í húsi Asvaldar, að hann gæti keypt allan Auðdal ef hann bara vildi, og ef menn vissu allt það sem gjörðist í húsi hans, þá mundi hárið rísa á höfði þeirra. Og jafnóðum og sagan barst um bæinn, óx hún og margfaldaðist eins og handfylli af snjó sem velt er í hálfþíðum snjó. Menn, sögðu að Ásvaldur væri annar Sæmundur fróði, en þó væri sá munurinn, að Ásvaldur hefði gjört þann samning við óvin mannanna, að fjandinn skyldi þjóna honum um 30 ár, og gjöra allt er hann vildi, en síðan skyldi Ásvaldur þjóna honum um alla eilífð, Asvaldur gæti því búið til gull eins fljótt og hann vildi, og hefði hann töfrað Elísabet, og neytt hana til að eiga sig, gæti hann vakið upp drauga og fundið fje í jörðu; og að endingu þóttust menn hafa orðið þess varir, að hann riði lopt og lög við gandreiðarbeizli.

þessar heimskulegu sögur, er gengu um Asvald, gögnuðu honum nú að nokkru leyti, því þegar þetta barst, hættu Auðdælir öllum áreitingum við hann; því þó að þeir vildu ekki sýna honum virðingu sökum dyggða hans og mannkosta, þorðu þeir ekki að eiga neitt í höggi við hinu nafntogaða

inu hjá stjórninni, að ekki væri fje til að koma þessu á fót, svo að vjer höfum hjer ógnarlega lítið af stjórn að segja í bænum, og menn verða því einatt að þola, að hin gamla regla, sem eldri er öllum lögum, það er rjettur hins sterkara, gildi hjer hjá oss; því örðugt er að leita með hvað eina til sýslumanns, sem er langt í burtu; og það má nærri geta, hvaða áhrif þetta hefur á bæjarbraginn, enda er einlægt að verða hjer róstusamara.

Vjer getum nú engan veginn neitað því, að vjer álítum, að Akureyri sje lítið borgið með því, þó að sýslumaður væri hjer á staðnum, því embættisannir hans í sýslunni, þingferðir og aðrar, gjöra veru hans og stjórn hjer mjög stopula, og það einkum á þeim tímunum, þegar hann einkum þarf helzt að vera hjer, nefnilega á vorin og framan af sumri meðan sigling er sem mest. Sá sem á að gæta hjer góðrar reglu í bænum má ekki hafa það eins og í hjáverkum, hann verður að vera hjer að öllu, en ekki að hálfu.

Vjer álítum því ómissandi, að hjer verði settur lögreglustjóri eða bæjarfógeti, og Akureyri verði að öllu leyti skilin frá Eyjafjarðar lögsagnarumdæmi, og gjörð að lögsagnardæmi út af fyrir sig, og að hjer verði stofnuð bæjarstjórn, viðlíka og er í Reykjavík, og að ætlunarverk byggingarnefndarinnar verði fengin þessari bæjarstjórn í hendur og byggingarnefndin upp hafin. Það getur varla verið óhentugri tilhögun fyrir bæinn heldur en sú sem nú er, þegar bærinn er látinn vera partur af Hrafnagilshrepp, og gjöldum þeim, er bæjarbúar mega greiða, og sem ekki eru alllítil, er varið til að borga með ómögum út um allan hrepp, en litlu sem engu af því er varið til þarfa bæjarins, sem þó virðist liggja beinast við. Af þessu flýtur, að ef eitthvað þarf til þess konar, þá verða bæjarmenn í hvert skipti að leggja á sig nýtt gjald, og þá er nú varla furða, þó að þeir trjenist upp á því, eins og orðið hefur í vetur með næturvörðinn. Oss furðar á því, þegar að byggingarnefndarmálið var fyrir á alþingi, að Akureyrar menn skyldu ekki senda bænarskrá þessa efnis einkum af því vjer efumst varla um, að hinn núverandi sýslumaður og amtmaður mundu hafa verið málinu meðmæltir. Hinn eini vegur fyrir bæjarbúa til að fá eitthvað gjört í þessu áríðandi málefni er að bera fram fyrir stjórnina umkvartanir sínar yfir ástandinu hjer í bænum, og beiðast þess samkvæmt anda verzlunarlaganna, að hjer sje að minnsta kosti á einhvern hátt sett regluleg lögstjórn, og enn fremur, að Akureyrarbær sje að öllu leyti skilinn frá Hrafnagilshrepp.

---

## Í Berlingatíðindum stendur eptirfylgjandi grein um Vestmannaeyjar.

„Það hefur áður leikið það orð á í Íslandi, og það ekki án orsaka, að Vestmannaeyjar væru aðalaðsetur drykkjuskapar og annara lasta, og að eyjabúar væru lakari að sjer og ver siðaðir en menn í öðrum hlutum lands. Vjer höfum nú um tíma verið á eyjum þessum, og það er oss sönn gleði að hafa tekið eptir því, að eyjabúar hafa nú um

---

galdramann, og margir af hinum einföldustu signdu sig til varúðar þegar þeir mættu skólakennaranum.

Betri orðstír hafði nú Elísabet. Ungir menn og meyjar signdu sig ekki þegar þau mættu henni, heldur svöruðu blíðri og vingjarnlegri kveðju hennar. Hún varð innan skamms bezti vinur og ráðanautur allra ungra meyja í Auðdal. Einu sinni komu tvær ungar stúlkur, sem áttu að giptast, til hennar og báðu hana að kenna sjer hið áríðandi leyndarmál að halda fegurð sinni eptir að þær væru giptar. Elísabet sagði að það þyrfti nú engan galdur til þess. „Ef að konur“, sagði hún, „týna því niður, sem dregur mennina til þeirra, og viðheldur líka einnig ást bæði þeirra eptir brúðkaupið, þá er það optast þeim sjálfum að kenna. Á meðan þær voru að halda sjer til ógiptar, voru þær þrifnar og nettar í klæðaburði; þær eru ættð, hreinar og hárið mjúkt, greitt og skínandi eins og á málverkum; en undir eins og þær eru búnar að ná í einhvern, skassast þær innan um bæinn morgun og miðjan dag með sokkana á ristunum, láta skóna lappast neðan í hælunum, og hárið stendur eins og strí, sitt út í hverja áttina, sjett eins og óþrifin kona sje bezt og yndislegust handa manninum. En þið megið búast við því, að þar sem konan gengur með kálfsfætur, þar gengur hjúskapur og hjónaband á trjefótum.

„Það eru nú ekki allar sem eiga eins hægt með að fá ný föt eins og þú“, sagði önnur stúlknanna.

Mjer þykir allíklegt að jeg eyði minna til fata en sumar ykkar ungu stúlknanna, sagði Elísabet. Jeg læt ekki fötin mín liggja rifin og tætt, heldur gjöri jeg við þau undir eins og eitthvað bilar“.

Þá stökk blóðið fram í kinnar annari stúlkunni. „Það er skömm frá að segja“, sagði hún, „mjer hefur aldrei verið kennt að sauma, en jeg vildi hjartans fegin læra það, ef nokkur gæti og vildi kenna mjer“. „Það er guð-

nokkur ár tekið slíkum framförum, að það er, ef til vill ekki allvíða annarstaðar á Íslandi, að háttsemi manna hafi tekið öðrum eins umbótum og þarfleg fyrirtæki haft eins góðan framgang. Vjer viljum til dæmis geta þess, að eyjabúar, sem mest megnis lifa á fiskiafla, hafa með mikilli fyrirhöfn og töluverðum tilkostnaði lagt vagnbrautir um eyna, og fengið sjer vagn, svo nú má aka í vagni næstum um alla stærstu eyjuna, sem er hjerumbil 1 ferhyrningsmíla að stærð, og er þetta til mikils hægðarauka og gagns bæði fyrir alla þá, er eiga hlut í vagninum, og einkum til allra almennra fyrirtækja, sem allir taka þátt í, og allir kosta til. Vegabót þessi er einkum að þakka sýslumanni A. A. Kohl, sem bæði hefur hvatt eyjabúa til þessa, og líka varið miklum tíma til að stjórna þessu verki. Alúð hans og dugnaði eiga eyjabúar líka að þakka liðsflokk þann sem nú er á eyjunum. Í flokki þessum eru 76 manns, er sýslumaðurinn, sem sjálfur er herkapteinn, hefur vanið við heræfingar eins og þær tíðkast hjer. Útlendir ferðamenn, er komið hafa til eyjanna, og sjeð flokk þenna undir vopnum, segja, að hann standi ekki á baki neinum landher, sem þeir hafi annarstaðar sjeð, að víglegleik og vopnfimi. Stjórnin hefur eptir bón herra sýslumannsins sent flokknum 30 byssur að gjöf og lofað fleirum seinna. Þess ber líka að geta, að þeir feðgar Bryde, sem ásamt hinum kaupmönnunum hafa fúslega rjett eyjabúum hjálparhönd til nytsamra fyrirtækja, hafa í fyrra vor gefið flokknum fallegan silkifána og málmtrumbu. P. Bryde, sem er einn af flokksforingjunum hefur einnig með þó nokkrum tilkostnaði gjört stóran garð, og hefur sáð í hann og plantað þar trje. Vjer getum nú ímyndað oss, að sumum þyki sem lítill þarfi hafi verið að stofna þenna liðsflokk, og lítið gagn muni vera að honum. En þó verða allir að fallast á það, að það sem eykur iðjusemi og góða siðu, sje gott og þakkarvert. Og þetta hvorttveggja hefur stofnun herflokksins gjört. Áður var þar drykkjuskapur, nú þvert á móti; það þykir drengskapur manns við liggja að vera í herflokknum, en enginn sem leggst í drykkjuskap er álitinn liðfær, og ef hann er kominn í flokkinn, en gjörist drykkjumaður, þá er hann gjör liðrækur, og hefur alls einum manni orðið það á, síðan flokkurinn hófst. Líka hefur það eflt iðjusemi og atorku, því enginn ætli, að eyjabúar hafi sökum þessa vanrækt fiskiveiðarnar og önnur störf sín; þeir hafa einungis varið til þessa tómstundum þeim, er þeir áður vörðu í leti og ómennsku og til drykkjuskapar, og þegar þeir sjá, að þeir geta fengið tóm til þessa, sjá þeir líka, að þeir geta notað tómstundir sínar til annara hagsmuna, er þeir hafa aldrei fyr hugsað um, til að mynda til að gjöra hinn áður nefnda veg, o. s. frv. Vjer getum því með sanni sagt, að stórum hefur breytzt til batnaðar á Vestmannaeyjum seinni árin; og til þess að vera rjettlátir, og gefa þeim heiður sem heiður heyrir, bætum vjer því við, að þessar framfarir eru einkum að þakka herra sýslumanni Kohl, er með áminningum sínum og umhyggjusemi fyrir að efla gagn eyjabúa í hverju einu, hefur

---

velkomið að jeg kenni ykkur það sem jeg kann", sagði Elísabet, „komið þið báðar til mín einhvern tíma í vikunni jeg skal gjöra ykkur boð".

Þegar hún sagði Ásvaldi þessa ráðagjörð, gladdist hann stórlega yfir góðfýsi konu sinnar, og sagði, „að hún skyldi stofna saumaskóla. „Það er ekki hægt að telja það saman, hve mikið gengur í súginn, og hvað fátækir menn eiga því örðugt uppdráttar, sökum þess, að konan hefur enga þekkingu á því, sem vita þarf innanhúss. Hún getur verið karlmanns í gildi við útivinnu, en hún kann ekki svo lag sje á að bæta brók mannsins síns, hún getur mjólkað og hrært í blóðinu, en að fara vel með og nota haganlega mjólkina eða allt sem úr kindinni kemur, það kann hún ekki; hún getur gengið á engjarnar með barnið á bakinu, en að halda því hreinu og þriflegu og hjúkra því svo það deyi ekki kornungt, það kann hún ekki. Það er tjón mikið landi voru, að ekki skuli vera á hverjum bæ skynsöm kona og vel að sjer innanhúss, er gæti kennt, ungum fátækum stúlkum að búa til góðan, heilnæman og ódýran mat, og dálítið að sauma. Það mundi verða mikill sparnaður fyrir fátæka búandi menn, og gjöra margt eitt hjónaband sælla og hamingjusamara".

Elísabet ljet sjer nú þetta að kenningu verða, og ljet þessar tvær stúlkur, sem höfðu átt tal við hana, bjóða fleiri ungum stúlkum að koma til sín, og kenndi hún þeim ekki einungis að sauma, heldur kenndi hún þeim líka í eldhúsinu, og sagði þeim hvernig þær gætu tilbúið einfalda og kostnaðarlitla rjetti handa heimili sínu. Þær gátu líka lært af því að sjá hina nettu og reglulegu umgengni í húsi hennar, sem fullt var með alls konar húsbúnað og búsgögn, allt hreint og þrifalegt. Þau Ásvaldur og Elísabet höfðu nú nóg að gjöra, en þau vildu þó gjöra meira. Hann var nú búin að venja börnin á iðjusemi, og nú tók hann að kenna drengjunum að ríða smákörfur, og Elísabet kenndi smástúlkunum að prjóna, og nú var vetrarkvöldunum varið

tekizt að vekja áhuga þeirra sjálfra, og með því komið þeim í skilning um, hversu mikilu gott samlyndi og iðjusemi fá til leiðar komið“.

---

## Seglvefarinn.

(Framhald). Böðlarnir um þær mundir voru nú ekki eins leiknir og þeir nú eru, og þá var ekki haft svo mikið við að búa til hápalla til aftökunnar, eða að kippa stalli undan fótum þeim er hengja átti. Seglvefarinn var hár maður, og snertu fætur hans stundum jörðina, og nokkrir af vinum hans, sem stóðu nálægt gálganum gátu einhvern veginn stutt undir líkamann, þegar hann var hengdur. Þegar búið var nú að taka hann ofan, lögðu vinir hans hann í kistu og báru hann burtu og eptir litla stund tók hann að anda aptur, og þannig frelsaðist hann, saklaus maðurinn, frá dauða. Þegar hann var lifnaður við, hvöttu vinir hans hann til að fara úr landi og koma aldrei aptur. Hann fór því burt á náttarþeli, og gekk í þjónustu á herskipi, sem var ferðbúið til að sigla í aðrar fjarlægar heimsálfur, og af því hann breytti nafni sínu og duldist komst sagan um undankomu hans aldrei á lopt.

Hann var nú nokkur ár í herþjónustu og geðjaðizt hverjum manni vel. Eitt sinn kom hann til Vestureyja, og vildi hann þar ráðast í annað skip, er þangað var nýkomið, og liðfátt var; en allir geta ímyndað sjer hve hissa hann varð og þó glaður, er hann fann þar heilan og lifandi sjómanninn, er hann hafði verið lögsóttur, dæmdur til dauða og hengdur fyrir að hafa drepið fyrir mörgum árum, og ekki datt síður ofan yfir sjómanninn, þegar hann heyrði hvernig farið hafði.

Sjómaðurinn skýrði honum nú frá, hvernig allt hefði til gengið það er áður var óljóst. Hann sagðist rjett skömmu áður en þeir höfðu sofið saman í gestgjafahúsinu, hafa fengið síðusting, og hefði skeggrakari nokkur tekið sjer blóð um daginn áður, en það hefði frændkona sín eigi vitað; hann kvaðst hafa orðið þess var, þegar seglvefarinn var genginn út, að bindingin um handlegginn hefði dottið af, og að æðin var tekin að blæða að nýju, hefði hann orðið hræddur og staðið upp og ætlað að ganga til skeggrakarans, sem bjó hinumegin í strætinu, en strax þegar hann kom út úr dyrunum kæmu þar að sjer herskipa menn er hefðu tekið sig höndum, flutt sig á skip, er lá ferðbúið til siglingar til Austur-Indía, og neytt sig að ganga í þjónustu á skipi þeirra. Er slíkt alltítt á Englandi, þegar skipstjórar eru liðfáir. Kvaðst hann hafa gleymt að skrifa heim, hvað valdið hefði hinni snögglegu burtför sinni. Þannig var nú gjörð grein fyrir öllum höfuðatriðunum. Að silfurpeningurinn fannst á seglvefaranum gátu þeir ekki gjört grein fyrir nema þannig að hann hefði smeygzt milli knífsblaðanna og hefði þannig komizt í vasa seglvefarans með knífnum, og orðið með því gildasta sönnunin móti honum.

Þegar þeir komu aptur til Englands sögðu þeir þessa undarlegu sögu dómaranum og nefndardómendunum, og er líklegt að þeir hafi aldrei síðan dæmt mann til dauða fyrir líkur einar.

---

til þessa starfa, í stað þess að eyða þeim í iðjuleysi og óreglu.

Með þessu lagi áunnu þau Asvaldur og Elísabet sjer ást hinna ungu bæjarbúa, en þó gat Asvaldur ekki útrýmt illum orðrómi, sem gekk um hann í bænum. Einkum var það Brandur gestgjafi, sem vissi, að það er hægasti vegur til þess að koma mönnum út úr húsi hjá almenningi að koma því orði á, að maður sje vantrúaður; hann leitaði sjer því að komast í gott færi að gjöra Asvaldi eitthvað mikið illt. Loksins hjelt þessi fjandmaður Asvaldar, að hann hefði fundið góðan höggstað á honum; og sem rannsóknar þyrfti við að lögum. „Jeg er nú búinn að ná því tangarhaldi á honum“, hugsaði Brandur, „að jeg get snúið snöru um háls honum, og jeg skal neyða tengdamóður hans til að bera vitni gegn honum. Af því að jeg er einn af bæjarstjórnunum, er það skylda mín að bera það fram opinberlega sem jeg hefi heyrt.

Einn sunnudag bjó Brandur sig því að heiman, og þá var nú tjaldað því sem til var. Hann fór í sparifötin sín, og setti vandaðan flókahatt á höfuð sjer, og tók sjer í hönd spánskan reyrstaf með silfurbúnum hún, skálmar nú á stað og ætlaði að hitta sýslumann. Engum hafði hann sagt frá fyrirætlun sinni, því hann var hræddur um, ef Asvaldur yrði þess var af kunnáttu sinni, mundi hann verða fyrir einhverjum slysum fyr en hann gæti komið fram klögun sinni gegn galdramanninum í Auðdal. Hann var nú á leiðinni að hafa yfir ræðu þá, er hann ætlaði að halda fyrir syslumanni til að gjöra sjer hana hugfasta, og eptir því sem harðnaði ræðan, herti hann gönguna og veifaði prikinu. Hann varð nú svo ákafur, að hann gáði sín ekki, og setti stafinn óvart milli fóta sjer og skall áfram svo þunga byltu að þegar hann stóð upp, var nef hans bólgið og þrútið. „Þetta hefur orðið af völdum Asvalds“, sagði Brandur við sjálfan sig þegar hann stóð upp seint eptir fallið og bljes mæðilega.

## Úr brjefi frá Húnavatnssýslu.

Jeg skrifaði þjer seinast að sunnan, þegar jeg var á ferðalaginu í Borgarfirði um rjettatímann, og sagði þjer frá, hversu mjer leizt á fjárkláðann þar hjá stiptamtmanni og Jensen dýralækni. Síðan að jeg kom heim hingað norður hefi jeg lítið frjett um fjárfaraldrið syðra, og aðgjörðir stiptamtmanns og dýralæknanna til að standa í móti því. Nýlega hefur reyndar sú illa fregn borizt að fjárkláðinn væri kominn yfir Hvítá, en líkindi eru til að, að þar verði höfð sú eina lækningin, er duga mun, sú að skera niður.

Þó að vjer Húnvetningar sjeum að minni hyggju svo heppnir, að þessi óvættur er ekki enn til vor kominn, þá höfum vjer fengið annan illan gest hjer í sýslu, og er það bráðapestin, sem aldrei hefur verið hjer jafnskæð eins og þenna tíma, sem liðinn er af vetrinum. Hún hefur þegar drepið fjölda fjár svo að hundruðum skiptir, og engi ráð duga heldur en vant er til að lækna hana. Verst hefur hún enn sem komið er verið á Vatnnesi og í þinginu, en linari inn til dalanna; og læknir vor er sagt að búinn sje að missa yfir 50 úr henni

---

## Um fjárhag vorn.

Vjer sýndum það í seinasta blaði Norðra með hinni ágætu ræðu Jóns forseta Sigurðssonar í fjárhagsmálinu á alþingi, hvernig hann — sem vafalaust þekkir bezt allra landa sinna fjárhagssamband vort við Danmörku, eins og hvert annað atriði í stjórnarsögu lands vors, og sem einnig veit hin beztu skil á hinum almennu lögum þjóðmegunarinnar —, lítur á þetta ástandi mál vort. Hann telur þar fram ýmislegar kröfur, er vjer með sönnu getum haft til ríkissjóðsins í Danaveldi, og hve sum atriði eru hlutdrægnislega tilfærð eða ranglega undan skilin í reikningum Dana við oss, og að þetta gjörir að miklu leyti hinn tölverða reikningshalla sem árlega kemur fram í reikningum Dana, og sem gjörir oss í augsýn þeirra, annara þjóða, og þeirra meðal sjálfra vor, er ekki kunna betra skyn, að ómögum Danmerkur. Vjer getum sjeð það ljóslega, hvað lítið er í rauninni satt í þessum reikningi Dana, á því, hvernig forsetinn heldur því kappsamlega áfram, að vjer fáum sjálfir fjárhagsráð vor, því það mundi hann ekki gjöra, ef hann sæi, að landið gæti með engu móti borið sjálft sig án hjálpar frá Danmörku, ef allir reikningar væru rjett gjörðir. Enda er það auðfundið á ræðu hans, að hann álitur að vjer eigum að kappkosta að færast ekki undan neinum skyldugjöldum, eða nauðsynlegri hluttekningu í almennum ríkisþörfum, ef vjer fáum á mót þau rjettindi, er vjer eigum og höfum sanngjarna kröfu til, eptir sambandi voru við ríkið.

Forseti hefur nú tekið fram ýmsar kröfur vorar til Dana, sem vjer höfum, ef að þeir vilja láta oss ná rjetti vorum, en það er nú allt undir óvissu hvað vjer fáum af þessu, svo að það virðist ekki eiga illa við að hugleiða hvort að land vort og þjóð geti að líkindum greitt meira til landsþarfa, en nú er, ef að oss sjálfum yrði

---

þegar hann var nú að þurrka framan úr sjer eptir byltuna kom maður til hans ríðandi. Er maður nokkur Asvaldur að nafni, í bæ þínum“, spurði komumaður, eða hvar á jeg að leita hans“.

„Jú hann er í Auðdal, hvað viltu honum“, sagði Brandur.

„Konungssonurinn er á leiðinni hingað til að heimsækja hann“, sagði komumaður, og hjelt áfram til Auðdals.

Það má nú geta nærri, hversu Brandi varð við þessa frjett, hann hafði raunar heyrt að konungsson væri kominn til landsins, en að hann skyldi gjöra lykkju á leið sinni til að finna Asvald, það yfirgekk allan mannlegan skilning.

„Það er nú komið fallega fyrir mjer“, sagði Brandur, „Konungssonurin hefði nú sjálfsagt komið til mín, og svo er jeg ekki heima, og hann fer ef til vill til annara““. Þegar honum datt þetta í hug, sneri hann heimleiðis og hljóp allt hvað af tók; þegar hann kom heim, var enginn konungsson hjá honum; en vinnukonan hans kom með öndina í hálsinum, og sagði, allir væru að þyrpast saman í kringum hús Asvaldar til þess að sjá konungsson. Þegar Brandur kom þangað stóð mikill fjöldi fólks fyrir framan hús Asvaldar. Skömmu síðar var dyrunum lokið upp og konungsson kom út, og gekk í millum þeirra hjónanna, og tók blíðlega í hönd þeim að skilnaði, stje síðan á bak og reið leiðar sinnar, og urðu nú allir áhorfendur enn sannfærðari um að Asvaldur væri töframaður.

„Mikið er um dýrðir“ sagði einn af vitringunum í Auðdal, seinna þegar talað var um þetta „að sjálfir konungarnir koma til að lána peninga hjá Asvaldi. Ef að jeg vissi eins mikið og hann kann fyrir sjer, haldið þið að jeg væri þá hjerna skólakennari? Nei svei mjer sem Jeg skyldi ríða yfir land með flokk manna eins og konungssonurinn, borða dýrindis rjetti og drekka hið bezta vín. Ef jeg ofurseldi mig sjálfur fjandanum, þá vildi jeg hafa eitthvað í aðra hönd“.

í hendur lagt að annast um fjárhag vorn, og sjá fyrir nægu fje til nauðsynlegra gjalda vorra.

Það er nú reyndar auðvitað, að vjer getum vonast eptir því af stjórninni, að hún fyrst um sinn styrki oss með fjárframlagi þangað til efnahagur vor er kominn í lag, svo að oss verði aðskilnaðurinn á reikningunum ekki til vandræða; en engu að síður er oss öll nauðsyn á að hugsa sem fyrst um það, hvernig vjer getum af eigin rammleik borið oss sjálfir, þegar vjer höfum fengið fjárforráð vor, og því verðum vjer að leita þeirra fjárstofna hjá oss, er geti borið meiri útgjöld, ef að þau skyldu vaxa við breytinguna sem oss þykir líklegast, eins og vjer höfum áður getið til í blaði voru.

Vjer þykjumst nú engan veginn færir um að segja, hvort að hið nýja jarðamat muni svo nokkru nemi hafa áhrif á skattgjöldin, svo að þau eða tekjur landsins aukist við það til muna, en þó ætlum vjer, að það muni ekki verða. Vjer verð- því að benda á aðrar tekjur, og dettur oss þá í hug:

1. Efna og atvinnuskattur. Það er kunnugt, hvernig sveitarútsvari er jafnað niður í hverjum hrepp. Það gjöra hreppstjórar með tilkvöddum mönnum til ráðaneytis, og hafa þeir tillit til tíundar bænda og annara eignar, en hjá öðrum fara þeir eptir sannfæringu sinni um það hve mikil efni, laun eða atvinnuhag hver gjaldþegn hafi. Það er nú auðvitað, að hjer verða nokkrar misfellur, og er opt og mörgum sinnum kvartað yfir því, en þó ætlum vjer þessa niðurjöfnun all rjettvíslega og holla, enda nær hún til flestra stjetta, og það er mikill kostur, því það gjörir ætíð hverja álögu vinsælli, að sem fæstir sjeu undan henni þegnir. Ef að jafnað væri nú þannig niður fjórðungi meira ásamt sveitarútsvarinu og á sama hátt, og þessum fjórðungi væri varið til almennra landsþarfa, mundi þar fást allmikið fje, og álaga þessi kæmi jafnt niður og yrði því að líkindum allvinsæl, og ekki mjög þungbær gjaldþegnunum; þenna skatt gjörum vjer hjerumbil 20,000 rd. á ári og er það ekki alllítið fje,

1. Skipaskattur, eður gjald af sjóarafla og sjóarútvegi. Það hefur lengi verið almenn umkvörtun hinna vitrustu manna vorra, að löggjöfin hafi verið óholl landbúnaði vorum, með því á margan hátt að gjöra þeim er við sjó lifa atvinnu sína ljettari og minni álögum bundna en landbóndans. Nú er sjóarútgjörðin næst fjáræktinni aðalatvinnuvegur þjóðar vorrar, og það er því bæði rjettvíst og sanngjarnt, að þeir, sem þenna atvinnuveg stunda, beri að sínum hluta álögur þær er þurfa til nauðsynlegra útgjalda þjóðarinnar. En af því vjer erum svo lítt kunnir þessum atvinnuvegi vitum vjer eigi hvort rjettara væri að leggja gjaldið á skipin eða skipaeigendur, sem þá gætu látið hlutarmenn sína endurgjalda sjer það að nokkrum hlut, eða hitt, sem oss virðist rjettast, að víst gjald væri lagt á aflann sjálfan, t. a. m, á hverja vætt fiska, og hverja tunnu lýsis, þó þar komi fram, að óráðvandir menn geti framar skotizt undan álögunum með því að segja rangt til aflans, viðlíka og er um tíundarsvikin.

---

Mikil fátækt spillir opt hugarfarinu eins og mikill auður; sumir fátæklingarnir í Auðdal, sem álösuðu Asvaldi fyrir þenna samning, er þeir hjeldu að hann hefði gjört við óvin mannkynsins, óskuðu þó með sjálfum sjer að þeir væru í hans sporum.

V.

Bæjarbúar í Auðdal voru eins og ráða má af því er þegar er sagt, illa uppfræddir og fullir af hjátrú og hindurvitni; og af því þeir báru ekki skyn á eðlilegan gang viðburðanna, eignuðu þeir allt merkilegt og framúrskarandi einhverju yfirnáttúrlegu, göldrum og fjölkyngi. Það var engin furða þó að þeim þætti það yfirnáttúrlegt, að Asvaldur, nábúi þeirra, sem var rjettur og sljettur hermaður, og ekki hafði fje að erfðum tekið til neinna muna, skyldi lifa góðu lífi og skorta aldrei fje, og að konungssonurinn skyldi heimsækja hann. Orðasveimur sá, er byggður var á því, sem tengdamóðir hans hafði sagt, fór því einlægt vaxandi.

Margir af hinum fátækustu mönnum í Auðdal tóku því hver í sínu lagi að leita vináttu við Asvald. Þegar þeir sáu sjer færi, brugðu þeir honum á eintal og ljetu í veðri vaka, að þeir vildu leita ráða til hans í vandræðum sínum. Það var auðsjeð, að eitthvað meira bjó undir þessu er þá langaði til að koma fram með. Loksins dirfðist einn þeirra að segja, hvað honum bjó í brjósti. „Þú kannt að gjöra gull Asvaldur“, sagði hann, „kenndu mjer að gjöra það líka. Jeg er svo fátækur að jeg hika mjer ekki við neitt, og ekki þó jeg eigi að sjá fjandann sjálfan; jeg er fastráðinn í því, að taka hverjum skilmálum sem hann býður að komast úr fátækt minni“. Asvaldur varð öldungis frá sjer numinn af því hvað maðurinn var heimskur og óguðlegur, og vissi hann fyrst ekki, hverju hann átti að svara.

(Framhald síðar).

# Mannalát.

30. nóvember næstliðinn andaðist ein af hinum elztu og merkustu konum hjer á Norðurlandi **Þorgerður Runólfsdóttir**, seinni kona hins háaldraða kennimanns Jóns prests Jónssonar á Grenjaðarstöðum, riddara af dannibrogsorðunni. Hún var fædd 5. janúar 1776, giptist eptirlifandi manni sínum 5. júní 1801, og áttu þau saman 10 börn. Þar af önduðust 3 á unga aldri. En þau sem fulltíða urðu eru þessi, hjer talin eptir aldri. Björn Jónsson á Akureyri, Guðný sáluga, fyrri kona sjera Sveins Níelssonar á Staðarstað — hin alkunna ágæta skáldkona —; Kristrún, kona Hallgríms prófasts Jónssonar á Hólmum austur; Hildur, kona Jakobs kaupmanns Þórarinssonar Johnsens; sjera Magnús á Grenjaðarstað aðstoðarprestur föður síns; Margrjet, kona verzlunarfulltrúa E. E. Möllers á Akureyri og Halldór bóndi á Geitafelli. Hin burtsofnaða merkiskona var jarðsett 11. þessa mánaðar og hjeldu þeir Magnús aðstoðarprestur Jónsson á Múla og Jón Yngvaldsson á Húsavík húskveðjur til minningar hinnar framliðnu, en Jörgen prestur Kröyer á Helgastöðum flutti ræðuna í kirkjunni.

Það hefur gleymzt í blaði voru að geta um lát Eggerts Jóhannessonar, Jónssonar söðlasmiðs frá Syðrahóli í Kaupangssókn í Eyjafjarðarsýslu. Hann drukknaði í hjeraðsvötnunum í Skagafirði 28. október 1856, er hann var í kynnis eið til ættingja sinna þar vestra; hann fannst aptur í vötnunum 12. maí vorið 1857, og var jarðsettur 29. s. m.

Eggert var fæddur 7. maí 1826, en giptist 7. október 1854 Guðrúnu Halldóru Magnúsdóttur Grímssonar læknis, og átti við henni 2 börn.

Eggert var prúður maður, glaður og mjúklyndur hversdaglega, hagur í iðn sinni, og hagorður snoturlega.

Af ekkjunnar hálfu erum vjer beðnir að tjá herra presti S. Árnórssyni á Mælifelli opinberlega þakklæti hennar fyrir það, að hann annaðist um greptrun hins framliðna án allrs endurgjalds, sömuleiðis hinum heiðruðu mönnum í Skagafirði, er kostgæfilega og með mikilli fyrirhöfn leituðu hins látna og báru hann til grafar.

Sá sem gefur ekkjum og föðurleysingjum, öðlast góðan orðstír þessa heims og æðri laun annars heims.

31. næstliðins maímánaðar andaðist bóndakonan Aðalbjörg Pálsdóttir í Brenniási. Hún var fædd 29 desember 1779; hafði verið ekkja 37 ár eptir mann sinn Jóakim sál. Ketilsson, sem eptir ljet henni 9 börn á lífi, sem þá mátti kalla öll á unga aldri, og stýrði hún sjálf búi sínu með elzta syni, unz hún hafði komið börnum sínum öllum vel á fót án styrks af mönnum, þó af litlum efnum; af þeim lifa enn 7: 1. Páll á Stóruvöllum fyrrum bóndi á Hólum í Laxárdal og þar næst á Grímsstöðum við Mývatn. 2. Madama María prestskona á Hnappstöðum. 3. Sigurður bóndi í Þistilfirði. 4. Hálfdán bóndi á Grímsstöðum (fyrrum í Brenniási). 5. Sigríður bóndakona við Mývatn. 6 Jóakim bóndi í Árbót. 7. Jón hreppstjóri og snikkari á Þverá í Laxárdal. — Það mun óhætt að fullyrða að fáar konur henni samtíða hafi jafnazt við hana í búzstjórn, þreki, vandvirkni og kunnáttu bæði til munns og handa

**Slysfarir.** Það verður skammt á milli með slysfarir hjer nálægt Akureyri um þetta leyti. Fyrir nokkru síðan reið ungur bóndi Rasmus að nafni hjeðan úr kaupstað um kvöldtíma, sjálfsagt mikið drukkinn, og fannst hestur hans og hundur sem honum fylgdi út á Oddeyri morguninn eptir og nokkrum dögum seinna fannst hann sjálfur örendur í víkinni fyrir innan eyrina; er ætlandi að hann hafi riðið út í víkina og dottið þar af hestinum. Bróðir hans, sem var í ferðinni viðlíka á sig kominn, en fór seinna úr kaupstaðnum, fannst utan til á Oddeyri sama kvöld ð í flæðarmáli, sofandi og dauðadrukkinn, en vegfarendur björguðu honum til bæja.

17. þessa mánaðar fannst Hrólfur ungur bóndi á Öngulstöðum í Eyjafirði látinn hjer fyri framan ána. Hann hafði farið úr kaupstað seint um kvöldið, líklega drukkinn, og mætt mönnum, er yrtu á hann, en hann svaraði þeim engu. Hann fannst á ísnum liggjandi á grúfu, og er þess til getið, að hann hafi farið af baki til að ná sjer vatni. Til þess eru víti að varast þau.

---

# Auglýsingar.



---


Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1857.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletrslínu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

5. ár. 31. Desember. 35.—36.

## Um fjárhag vorn.

(Framhald). 3. Skattur á óhófsvörum. þenna skatt teljum vjer þarfastan, og það virðist oss, að slíkan skatt ætti að leggja á, þó að fjárhagur vor væri í þeim blóma, að tekjur væru meiri en gjöld, því betra væri þá að nema burt aðrar álögur en setja þenna skatt í staðinn. Vjer viljum nú ekki leitast við að telja ýtarlega upp óhófsvörurnar, sem þenna skatt skyldi á leggja; enda köllum vjer ekki allt óhófsvörur sem menn geta án verið. Vjer viljum, t. a. m. ekki leggja skatt á útlendan varning til klæða, þó menn geti verið án hans, því þó vjer viðurkennum fúslega, að hann verður oss einatt ærið dýrkeyptur, og margur landi vor kann sjer lítt hóf í klæðaburði, þá er það gott við slíka sundurgerð, að hún vekur hjá mönnum löngun og viðleitni að halda sjer hreinum og þrifalegum. það er líka langt frá því, að vjer köllum það óhóf eður óþarfa, þó að menn verji miklu fje til að bæta húsakynni sín og húsbúnað, því allt þess konar miðar til að efla og auka fegurð heimilins og gjöra manninum það inndælt, og þetta er því einkar þarflegt og áríðandi. þar á móti teljum vjer sumt af því óþarfa og óhófsvörur, sem jafnvel er orðið svo almennt, að hinn fátækasti bóndi verður að hafa það, t. a. m. brennuvín og önnur vínföng, tóbak og jafnvel kaffi og sykur. þessar vörur einkum vínföngin og tóbakið álítum vjer það mjög nauðsynlegt að skattur væri á lagður, og hann ekki alllítill. þegar borin er saman búsæld landsmanna nú á dögum við það sem hún var fyrir og um næstliðin aldamót, þá liggur það hverjum í augum uppi, að allur atvinnuafli alþýðu manna, hjer á landi er miklu meiri og betur borgaður nú en þá var, og álögur alþýðu hjerumbil þær sömu eða lítið eitt meiri, en þrátt fyrir þetta sjest lítill munur á því, að menn sjeu efnaðri eða betur byrgir í búi en þá var; og þó það sje sjálfsagt að menn verji nú meiru til fata, húsabygginga og húsbúnaðar en fyrri, þá mun þó hitt vafalaust,

## Auðdalur.

(Framhald). þegar Ásvaldur hafði hugsað sig um stundarkorn, datt honum í hug að nota sjer það, að þessir menn voru svo fúsir að hlíta ráðum hans og forsjá, til þess að bæta hugarfar þeirra og háttalag, hann lofaði þeim því öllum, hverjum út af fyrir sig, að hann skyldi kenna þeim að búa til gull, og að þeir skyldu koma til sín á tilteknu kvöldi rjett fyrir miðnætti. það má nú geta nærri, að þeir tóku þessu glaðlega, og hètu að koma á ákveðnum tíma.

Allir þessir, er vildu læra þenna ábatasama galdur að búa til gull komu nú samkvæmt því sem ákveðið var til Ásvaldar á tilteknum tíma, og vissi engi þeirra um annan, og var þeim öllum fylgt inn í herbergi sitt; þar var niðamyrkur. Ekki var trútt um að þeim sígi hjarta í brjósti þegar þeir ráku sig hver á annan í myrkrinu, og hjeldu þeir það væru óhreinir andar; engi þorði samt að æmta nje skræmta, en biðu nú grafkyrrir, og þorðu ekki að draga andann, þangað til klukkan sló 12. þá var snögglega lokið upp dyrunum, og Ásvaldur gekk inn í öllum hermannabúningi, girtur sverði, og tvö kertaljós, sitt í hverri hendi Ásvaldur taldi 32 aðkomandi, og blygðuðust þeir sín, þegar þeir þekktu hver annan, enda skaut þeim skelk í bringu er þeir sáu þann, er þeir ætluðu útlærðan úr Svartaskóla. Ásvaldur leit nú yfir hópinn með miklum alvörusvip og tók til máls: „Aumir menn og vesælir! horfið í andlit mjer, og vitið hvort jeg er eins og tröll úr hömrum gengið, eða eins og seyðkona á hjalli. Jeg er engi galdramaður, og ekki hefi jeg fjandann fyrir sendisvein. Jeg dýrka einan og sannan guð, og þeim einungis veitist lán og farsæld, er á hans vegum ganga. þjer hafið drukkið frá yður vit og atvinnu, þjer eruð fyrirlitlegir í augum kvenna yðar, og viðbjóður barna yðar, og nú lifið þjer í eymd og volæði vafðir skuldum og skömmunum. Viljið þjer að jeg rjetti yður hjálparhönd? Ef að

að það eru einkum kaupin á óþarfavörunni sem tálma framför manna í velgengni.

Það er nú auðvitað, að flestir tollar og álögur sem lagðir eru á verzlun í hverju landi eru óhollir, og því verri sem verzlunin er frjálsari: en það gjörir hjer þó mesta mismuninn, að þessar vörur, sem hjer er ætlazt til að skatturinn sje lagður á, eru hinar óþörfustu, og afleiðingin af brúkun þeirra hin skaðlegasta fyrir land og lýð. Vjer álítum þann skatt beztan, sem menn greiða af heimsku sinni, og hver getur neitað því, að hin fjarskalegu, ár frá ári vaxandi, kaup á þessum óþarfa sjeu heimskuleg og skaðvænleg fyrir efni landsmanna.

Reynslan hefur nógsamlega sýnt og sannað, að drykkjuskapur hefur minnkað þar sem þess konar tollur hefur verið á lagður, og þannig hefur það gengið í Noregi og Svíþjóð, þar sem nú fyrir fáum árum er búið að leggja mikinn toll á brennuvínsbrennslu, að það hefur gefið landsjóðnum mikla peninga, og afleiðingin hefur verið hin heillaríkasta. Því drykkjuskapur hefur minnkað þar svo undrum gegnir síðan. Það mætti nú reyndar segja, að fjárhag vorum væri lítill styrkur að þessum skatti, ef að afleiðingin af því að leggja hann á yrði sú, að sala á þessum vörum minnkaði mjög mikið, eða menn gjörsamlega hættu að kaupa þær; því ef salan hætti, hætti landið líka að fá skattinn og hafa hans not. En til þessa liggja bein svör að vorri hyggju. Vjer ætlumst nefnilega engan veginn til, að skattur þessi sje settur svo hár, að það verði frágangssök að kaupa þessar vörur, svo að vjer teljum þess vissa von, að hann gæfi sjóði landsins allmikla peninga einkum í fyrstu. Og þó að sama yrði afleiðingin hjer eins og annarstaðar, að sala á vínföngum og tóbaki minnkaði með tímanum, svo að skatturinn gæfi lítið af sjer, þá getum vjer verið þess fullöruggir, að því meira sem kaupin á þessum óþarfa minnka, því meira vex önnur velgengni, og af því leiðir aptur, að landsbúar verða því megnugri að bera aðrar álögur, sem tíminn og þörfin kynni að skapa, og velgengnin í landinu hlýtur að vaxa, eptir því sem óþarfakaupin minnka, og það um miklu meira en nemur öllum þeim fjarska af peningum, sem árlega gengur af landinu fyrir þær, því kaupendurnir spara ekki einungis andvirði þeirra, heldur græða þeir líka allt það vinnutjón og verkaspillir, sem þar af hlotnast, og er sá gróði ómetanlegur.

Ef að vjer ættum nú að ákveða nokkuð um hve hár þessi skattur skyldi vera, finnst oss að ekki væri of mikið, þó lagðir væru 4 skildingar á hvern brennuvínspott og 8 skildingar á pottinn af öðrum dýrari vínum, og 2 skildingar á hvert tóbakspund, og 1 skildingur á hvert pund af kaffi og sykri. Þetta yrði undir eins stórmikið fje, því óhætt mun að fullyrða, að þessi skattur hnekkti ekki sölunni neitt til muna fyrst. Það er einn kosturinn við þenna skatt, að þó hann eflaust nái til flestra manna á landi voru, þá kemur hann þó optast ljett niður á þá fátækustu, því þeir taka þó að líkindum lítið af óhófsvörunum, en hann leggst aptur þyngra á þá sem

---

þjer viljið verða eins auðugir og jeg er, þá verðið þjer að breyta eins og jeg". Að svo mæltu vatt Ásvaldur upp stórum sjóði, og steypti á borðið úr honum, og voru það skyggðir og skærir gullpeningar. Mann-aumingjarnir einblíndu á hið glóandi gull, og gátu ekki slitið augun af því, og hitnaði þeim heldur en ekki um hjartarætur. Ásvaldur tók þá aptur til máls: „Þjer hafið komið hingað til að læra að búa til hinn dýrasta málm, þann hlut er mestu ræður í heiminum. Jeg skal kenna yður það; en það er ekki tekið út með sældinni. Þjer verðið að vera 7 ár og 7 vikur að læra það. Sá sem hlýðir ráðum mínum um þenna tíma, hann skal þegar kennslutíminn er liðinn, hafa meira gull heldur en hjer liggur á þessu borði. En jeg skal segja yður fyrir, að það er örðugt að fylgja reglum mínum nema þjer snúið hjörtum yðar og íklæðist nýjum manni.

Allir hinir ... nú biðu nú með angistarfullri eptirvæntingu, rjett eins og Ásvaldur ætti að kveða upp dóm yfir þeim.

„Heyrið nú", sagði Ásvaldur „reglur mínar til að búa til gullið, sem þjer eigið að hlýða í 7 ár og 7 vikur. Ef nokkur yðar er sá, er eigi vill ganga að þessum kostum, þá fari hann burtu!" Þegar nú enginn hreifði sig úr sporunum, sagði hann þeim eptirfylgjandi reglur:

1. Þjer skuluð forðast veitingarhúsið og að slæpast við búðarborðið, en þjer skuluð sækja kirkju yðar rækilega,

2. Þjer skuluð ekki verja tíma yðar og peningum við spil og tafl. Slíkt eigið þjer gjörsamlega að forðast.

3. Hafið eigi vondan munnsöfnuð, blót og hrakyrði, og forðist alla lygi og þvaðurburð.

4. Hvern dag skuluð þjer stunda vinnu yðar með alúð og iðjusemi, og hafa hvern dag guðs orð um hönd á heimili yðar, því það er drottinn sem blessar iðn og atvinnu yðar.

efnaðri eru, og meira kaupa að verja til veitinga, og eru líka megnugri að þola hann.

Vjer getum ekki skilizt svo við þetta mál, að vjer ekki leggjum öllum þeim. Það á hjarta, sem nokkuð geta stutt að því, að þessi síðarst taldi skattur komist á, hversu mjög áríðandi hann er. Ár frá ári vex og þróast þessi óþarfi í landinu, og brennuvínssalan er hjer líkast því sem hún er hjá villuþjóðum, sem drekka frá sjer vit og mál, lán og líf með þessum ófögnuði. Þar sem að stjórnendur landa og lýða hafa sannan áhuga á velgengni þegnanna, þar er reynt til að eyða slíkum fjandmönnum frelsis og velmegunar með viturlegum lögum; og þar sem jafnillur andi og brennuvínið gengur laus sem grenjandi ljón, þar þarf löggjöfin að taka fram í; því löggjöfin á að verja lönd og þjóðir fyrir þess konar óvinum, eins og synir landsins eiga að verja það fyrir árásum ófriðarmanna.

Það er nú margt ótalið enn af því sem vjer gætum lagt skatt á, svo að það væri gott bæði fyrir atvinnu og velgengni landsmanna, en vjer geymum það seinni grein í blaði voru.

---

## Um verzlun.

Vjer Íslendingar erum nú þegar búnir að njóta hinna frjálsu verzlunarlaga í 3 ár, og því kominn tími til að vjer virðum fyrir oss, hvort að verzlun vor hefur á þessum árum farið batnandi, og hvort það, ef svo virðist, muni einkum að þakka lögum þessum, eður tilefni þess sjeu önnur, og að hugleiða hvernig vjer háttum oss í verzlun vorri, og hvort þetta mætti ekki öðruvísi betur fara.

Það er nú án efa örðugt að sýna, að sigling Norðmanna hingað til Norðurlands hafi haft nokkur veruleg áhrif til að bæta verzlunina — og aðrar þjóðir hafa enn ekki siglt hingað til verzlunar —, því bæði hafa þeir haft vörur alldýrar og sumar ekki sem beztar, og svo hafa þeir haft skort á svo margri vöru, að fáir hafa getað haft alla verzlun sína við þá, og líka hafa þeir verið tregir að gefa eins mikið auk heldur meira fyrir íslenzku vörurnar en hinir föstu verzlunarmenn, og þó að það hafi stutt mjög verzlun þeirra hjer, að landsmenn hafa viljað hæna þá að sjer, þá þykir oss lítil von, að verzlun þeirra aukist hjer til muna eða haldist við, þegar til lengdar lætur, ef þeir geta ekki betur staðið að vígi að keppa hjer við aðra verzlunarmenn. Þó er það eitt, sem vafalaust má telja árangur af frjálsu verzluninni, og það er, að kaupmenn gjöra sjer nú miklu meira far um að búa skip sín fyr til Íslandsferða en áður, af því að þeir hafa hitann í haldinu, að aðrir komi fyrri á markaðinn, en vita að vorverzlunin verður æði drjúg og bindur menn við borð, þegar vörubyrgðirnar til vetrarins reynast optast svo ónógar. Það má og telja árangur verzlunarlaganna nýju, að T. Thomsen kaupmaður á Seyðisfirði hefur byrjað hina skuldlausu verzlun, sem getið er um á 25—20. bls. Norðra þessa árs, og höfum vjer ekki aðrar frjettir af henni en að hún geðjist flestum vel, og að hann hafi haft fullt

---

5. Hvorki skuluð þjer bragða brennuvín eða aðra áfenga drykki; verið hófsamir í hvívetna, og afneitið allri tóbaksbrúkun.

6. Látið engan arfa nje illgresi vaxa í görðum yðar, því arfinn aflar óræktar og óræktin aflar fátæktar. Sópið og prýðið hús yðar sem mest, og látið engan óþverra liggja þar stundu lengur.

7. Verið sjálfir og látið börn yðar vera hrein og þrifaleg og sómasamleg í allri framgöngu. Jeg skal sjá það á því hvernig þjer haldið hina síðustu reglu, hvernig að þjer haldið hinar aðrar. Ef að þjer viljið nú gangast undir þessar reglur um hið tiltekna tímabil, þá komið nú og takið saman höndum við mig!

Þeir gengu nú að borðinu og rjettu hendur sínar yfir gulldyngjuna, og tóku höndum saman við Asvald og sögðu: þessar reglur skal jeg halda; og þannig bundu þeir allir loforð sitt.

„Farið nú", mælti Asvaldur, „hver til síns heimkynnis, og minnist þess, að þjer hafið svarizt í fóstbræðralag til að efla eigin velgengni yðar. Vjer skulum allir frá þessari stundu vera sem einn maður til að gjöra fjelagsskap vorn sem fastastan. Hver skal styrkja og styðja annan. Ef nokkur yðar er breiskur og kjarklítill, þá skulum vjer hjálpa honum. Farið og verið heilir og sælir!"

Þegjandi gengu Auðdælir heimleiðis, hver til síns heimkynnis; þótti þeim kynlegt, hvernig gullgjörðarlærdómurinn hafði snúizt, og allt annað orðið ofan á en þeir hugðu, og hefðu þeir gjört heit það, er áður getið hver í sínu lagi þá hefðu þeir, ef til vill, brugðið því; en nú höfðu þeir bundizt þessu heiti hver í áheyrn annars, svo að þeir blygðuðust sín hver fyrir öðrum að rjúfa særi sín. Að minnsta kosti var það víst, að allir komu þeir að þeirri niðurstöðu að bezt væri að hlýðnast ráðleggingum Asvalds; og undir

eins mikla verzlun eins og að undanförnu, þó að hann hafi ekkert lánað. Því er miður, að aðrir kaupmenn vorir taka ekki upp sömu reglu, sem hlýtur að vera hin affarabezta bæði fyrir sjálfa þá og landsmenn; því hún ætti þó helzt að geta komizt á í öðrum eins árum og þessum, þegar landsmenn fá vörur sínar vel borgaðar. Af skuldunum leiðir það, að hinir skuldugu, sem, ef til vill. varla eiga fyrir þeim, fá minna fyrir vöru sína, og nauðsynjar sínar með lakari kjörum, því þegar kaupmaðurinn verður að lána þeim mikið eða allt upp á óvissa von um borgun, getur hann ekki gefið eins mikið fyrir vörurnar eins og þegar hönd selur hendi.

Þegar nú, eins og áður sagt, svo að kalla engin aðsókn hefur verið hjer af útlendum þjóðum síðan verzlunarlögin komu út, verðum vjer fremur að eigna hina betri verzlun og einkum hið hærra verðlag hjá kaupmönnum á öllum varningi landsmanna ýmsum heppilegum kringumstæðum, og að nokkru leyti því, að landsmenn hafi gjört sjer meira far um að vanda vörur sínar seinni árin en að undanförnu. Þetta síðara væri nú gleðirikur ávöxtur af góðu verzluninni; en því er nú miður, að hvorki kaupmenn nje landsmenn styðja hann svo sem skyldi til þess að hann þróist, og þó er það svo einkar áríðandi, því ekki er að hugsa til þess að íslenzka varan haldi sjer lengi í háu verði erlendis, ef hún verður lakar vönduð ár frá ári. Það hefur ætíð reynzt í verzluninni, að því betur sem eitthvert land vandar vöru sína, því vissara á það að geta selt hana, og því hærra verð fær það sífellt fyrir hana. Hjer er vöru vönduninni það til fyrirstöðu, að hver kaupmaður keppist svo eptir að fá vöruna, eins og líka nokkur von er, að hann gætir ekki nógu vel að, að gjöra verðlagsmun eptir vörugæðum, enda er mjög bágt að koma því við; og en fremur er það frá landsmanna hálfu vöruvönduninni til hnekkis, að menn hugsa meira um að svæla út hæsta verð fyrir vöruna, hvernig sem hún er, en að vanda hana sem skyldi, og þegar þeim, sem lakari hafa vöruna, tekst það, þá er það auðvitað, að vöndunin á vörunni er hinum til svo mikils skaða sem varan er betri og meira er haft fyrir henni. Þetta spillir nú áhuga manna að vanda vöruna; og kemur innan skamms illu orði á hana, ef ekki er við gjört í tíma; en þá er miklu örðugra viðgjörðar. Því hægra er að spilla vöruverðinu en að bæta það aptur, þegar óorð er einu sinni komið á vöruna.

Þó er, það nú einkum háttsemi manna í verzlun sinni sem. gjörir hana óhallkvæma bæði sjálfum þeim og kaupmönnum; og er það líka hvorumtveggja að kenna, kaupmönnum að nokkru leyti, og landsmönnum þó, ef til vill meira. Þegar að skipin koma á vorin, þá láta kaupmenn vörur sínar af hendi, án þess að leggja neitt verðlag á það, er þeir selja verzlunarmönnum sínum, nje heldur greiða ákveðið verð fyrir vörur þær er lagðar eru inn í reikning. Af þessu leiðir, að menn geta ekki vitað neitt um verðlag fyr en um sjálfar lestirnar, þegar að verzlunarkeppnin er sem mest, því þá fyrst láta kaupmenn uppi

---

eins næsta dag tóku þeir að ditta að ýmsu hjá sjer utanhúss og innan, eins og Ásvaldur gaf þeim ráð til.

„Hvað gengur á? Er aptur von á konungs syninum?„ Sagði gamall maður nokkur, er staulaðist út snemma næsta morgun, og sá ýmsa menn venju betur til fara. Enda gekk mikið á þann dag í Auðdal; þar var verið að þvo og sópa, fága glugga, borð og bekki.

Og þessi undur hjeldust bæði degi lengur, og ýmsar nýjungar bættust við, svo að alla rak í roga stanz. er ekki þekktu leyndarmál bandamanna Asvaldar. Það tók að gjörast gestafátt á veitingahúsinu, og varla var á tafli tekið nje í einu slag farið. Þeir, sem áður höfðu bezt sótt veitingarhúsið, voru nú heima hjá konum og börnum eða gengu út að líta yfir bú sitt. Brandur gestgjafi sagði með grátstafi í kverkum sjer, þegar hann sá stólana auða hjá sjer: „Eru menn gengnir af vitinu? Hjer verður eitthvað við að gjöra, því það er óþolandi að búa undir slíku. Þetta eru svívirðileg samtök móti mjer!„ Bráðum tók gamli presturinn að taka eptir framförum Auðdæla; og sagði hann að þetta væri nú ávöxturinn af einni af hinum lengstu ræðum sínum

VI.

Þegar liðið var nú á árið komu ýmsir af bandamönnum Asvaldar til hans og báru það undir, hann að jafnvel þótt þeir færu að öllum hans sparnaðarreglum heptu þó gamlar skuldir framför þeirri, gætu þeir því ekki staðið í skilum, svo við sjálft lagi, að þeim mundi verða byggt út. Asvaldur gætti vandlega að reikningum þeirra: en reikningar þessir voru svo óskipulegir og vantaði svo margt í þá, að þetta gjörði Asvaldi fyrirhöfn mikla. Síðan hjálpaði hann hinum fátæku til að reikna saman arð atvinnu sinnar og hverjum útgjöldum þeir ekki gætu hjá komizt, og hvað mikið þeim yrði afgangs af handafla sínum, er þeir gætu haldið saman til að borga með gamlar skuldir sínar.

hið fasta verðlag, er þeir vilja gefa, en af því að margir þurfa að fá ýmsar nauðsynjar sínar fyrir þann tíma, eru menn búnir að binda sig að nokkru leyti við borð með verzlun sína, og geta því ekki ætíð notað þann eldinn er bezt brennur. þetta er nú ókostur frá kaupmanna hálfu, og mætti við því gjöra, ef að þeir kvæðu strax upp hið almenna vöruverð þegar skip kæmu. þó að nú landsmenn kaupi nú þannig óverðlagða vöru, þegar nauðsyn býður, þá eiga þeir þó fullt eins mikla sök í máli, að verðlagið er svo óstöðugt, því þeir gjöra sjálfir mestan graut í vöruverðinu, vegna þess að þeir ganga ekki í verzlunarfjelög, og fá svo hver sitt verðlagið. þegar að menn verzla í fjelögum, þá ganga forstöðumennirnir milli kaupmannanna og semja við þá, hvað þeir vilji mest gefa fyrir hverja vörutegund, og velja svo þann er bezt kjör býður þeim, og hæst verð vill gefa á hverri vöru eptir gæðum, og þar við situr; enda fá þau optast hjerumbil hæsta verð, af því þeir eru margir saman og geta látið kaupmanninn í einu fá töluverðan vöru-afla og allir fá þeir jafnmikið fyrir vöruna eptir gæðum. þetta köllum vjer nú skynsamlega verzlun. En þá eru aðrir, sem ætla sjer að hafa, og hafa, ef til vill, meira upp úr verzluninni á annan hátt. þeir bindast ekki í fjelög, en fá þó, og ef til vill fyrir lakari vöru jafnmikið eða meira fyrir vöru sína. þeir fá kaupmanninum nefnilega vöruna fyrir hæsta verðlag sem gjörist á verzlunarstaðnum, og svo setja þeir upp að auki að fá svo og svo mikið í þokkabót eða ofanálag. þegar nú kaupmaðurinn tekur við vörunum á þenna hátt, þá er það auðsjeð, að hann getur varla annað en verzlað sjer í skaða. og verzlunarkeppnin neyðir hann, ef til vill, opt til þess að neita ekki þessum afarkostum. þegar nú almenna gangverðið í verzlun, t. a. m. á ullarpundinu er 40 sk., og kaupmaðurinn gefur fyrir vönduðustu og beztu ull yfir 42 sk., þá neyðist hann eptir loforði sínu til að gefa þeim mönnum, er hann hefur gefið áður nefnt loforð, það sama verð, hvernig sem ullin er, og svo þokkabót þar á ofan; og þetta er nú það einkum sem niðurdrepur vöndun á vörunum; og þegar sumir kaupendur neyða þannig kaupmanninn til að gefa jafnvel meira en hæsta verð á vönduðustu vöru, þá spilla þeir fyrir sjálfum sjer í stað þess að bæta, því þess konar verður að lækka verðlagið á vörunni, því geti kaupmaðurinn svo ekki selt vöruna nema sjer í skaða eða með oflitlum hag, þá gefur hann minna fyrir hana næsta árið og spillir það þá jafnt fyrir öllum

það virðist því rjettust verzlunaraðferð hjá oss, að menn forðist sem mest að þurfa að leita til verzlunarinnar nema að sumrinu til þegar verzlunarkeppnin er sem mest, og mest líkindi til að hið almenna verðlag á varningi manna verði hæst, og landsmenn komi þá kaupi sínu við kaupmenn sem fremst hver má — því sjálfsagt er, að hver reyni að fá sem hæst verð fyrir vöru sína —, eptir vörugæðum, og það eiga menn að láta sjer lynda. þá mun það verða ofan á, einkum þar sem menn eru í fjelögum og ekki skuldum bundnir, að menn ná allgóðu verðlagi, og að gjörður

---

Sumum mönnum hjálpaði hann með því að útvega börnum þeirra vinnu í bænum.

Asvaldur hafði meðal annars kynnt sjer nytsemi sparnaðarsjóða þegar hann var erlendis, og sá hann fljótt að mikið hagræði væri það bæjarbúum að koma slíku á. Hann safnaði þá að sjer mörgum bæjarbúum, og þar á meðal nokkrum af bandamönnum sínum, og útlistaði fyrir þeim, hvernig þessu yrði komið í verk. Öllum kom saman um, að þetta mundi verða mjög gagnlegt, ef Asvaldur vildi takast á hendur stjórn alla á þessum sjóði, og kvaðst hann þegar fús til þess. Sparnaðarsjóðurinn var stofnaður, og fje það, sem menn lögðu í hann, var lánað gegn leigu og veði þeim er á þurftu að halda og áreiðanlegir voru.

Að fá leigu af peningum sínum var svo nýtt fyrir Auðdæli, að þeir tóku að keppast við að spara, og urðu jafnvel svo ákafir í þessu, að þeir tóku að svelta sig og börn sín. þegar Asvaldur varð þessa var, hugsaði hann upp nýtt ráð til búhægindа bæjarmönnum. Hann fjekk tengdamóður sína og aðrar konur til að takast á hendur að matreiða handa mörgu fátæku fólki fyrir mjög lágt verð svo að þetta sparaði fólkinu bæði tíma til matreiðslu, enda þurfti þá mikið minni eldivið þegar matreitt var handa mörgum í einu, og leið ekki á löngu áður en fjöldi manna nýtti sjer þetta.

Auðdælir fóru nú óðum að reisa við, og eptir því sem velgengni manna í bænum óx, eptir því uxu vinsældir Asvaldar; en sumir gamlir menn vildu þó ekki láta sjer segjast, en hristu höfuðið og sögðu: „Bærinn er kominn á fallanda fót, og nú er ekki nema eitt gestgjafahús, og gestir þó einlægt að fækka þar"! Asvaldur sagði, þetta væri skakkt álitið, því veitingahúsið væri illdýri, sem riði í sig eigur þeirra og bæjarins. þegar Brandur gestgjafi heyrði, að Asvaldur hefði kallað veitingahúsið illdýri, varð hann afarreiður og hótaði að draga Asvald fyrir lög og dóm, en Asvaldur ljet þessar hótanir hans eins og vind um eyrun þjóta. (Framhaldið síðar).

eins mikla verzlun eins og að undanförnu, þó að hann hafi ekkert lánað. Því er miður, að aðrir kaupmenn vorir taka ekki upp sömu reglu, sem hlýtur að vera hin affarabezta bæði fyrir sjálfa þá og landsmenn; því hún ætti þó helzt að geta komizt á í öðrum eins árum og þessum, þegar landsmenn fá vörur sínar vel borgaðar. Af skuldunum leiðir það, að hinir skuldugu, sem, ef til vill. varla eiga fyrir þeim, fá minna fyrir vöru sína, og nauðsynjar sínar með lakari kjörum, því þegar kaupmaðurinn verður að lána þeim mikið eða allt upp á óvissa von um borgun, getur hann ekki gefið eins mikið fyrir vörurnar eins og þegar hönd selur hendi.

Þegar nú, eins og áður sagt, svo að kalla engin aðsókn hefur verið hjer af útlendum þjóðum síðan verzlunarlögin komu út, verðum vjer fremur að eigna hina betri verzlun og einkum hið hærra verðlag hjá kaupmönnum á öllum varningi landsmanna ýmsum heppilegum kringumstæðum, og að nokkru leyti því, að landsmenn hafi gjört sjer meira far um að vanda vörur sínar seinni árin en að undanförnu. Þetta síðara væri nú gleðiríkur ávöxtur af góðu verzluninni; en því er nú miður, að hvorki kaupmenn nje landsmenn styðja hann svo sem skyldi til þess að hann þróist, og þó er það svo einkar áríðandi, því ekki er að hugsa til þess að íslenzka varan haldi sjer lengi í háu verði erlendis, ef hún verður lakar vönduð ár frá ári. Það hefur ætíð reynzt í verzluninni, að því betur sem eitthvert land vandar vöru sína, því vissara á það að geta selt hana, og því hærra verð fær það sífellt fyrir hana. Hjer er vöru vöndnninni það til fyrirstöðu, að hver kaupmaður keppist svo eptir að fá vöruna, eins og líka nokkur von er, að hann gætir ekki nógu vel að, að gjöra verðlagsmun eptir vörugæðum, enda er mjög bágt að koma því við; og en fremur er það frá landsmanna hálfu vöruvönduninni til hnekkis, að menn hugsa meira um að svæla út hæsta verð fyrir vöruna, hvernig sem hún er, en að vanda hana sem skyldi, og þegar þeim, sem lakari hafa vöruna, tekst það, þá er það auðvitað, að vöndunin á vörunni er hinum til svo mikils skaða sem varan er betri og meira er haft fyrir henni. Þetta spillir nú áhuga manna að vanda vöruna; og kemur innan skamms illu orði á hana, ef ekki er við gjört í tíma; en þá er miklu örðugra viðgjörðar, því hægra er að spilla vöruverðinu en að bæta það aptur, þegar einu sinni komið á vöruna.

Þó er það nú einkum háttsemi manna í verzlun sinni sem gjörir hana óhallkvæma bæði sjálfum þeim og kaupmönnum; og er það líka hvorumtveggja að kenna, kaupmönnum að nokkru leyti, og landsmönnum þó, ef til vill meira. Þegar að skipin koma á vorin, þá láta kaupmenn vörur sínar af hendi, án þess að leggja neitt verðlag á það, er þeir selja verzlunarmönnum sínum, nje heldur greiða ákveðið verð fyrir vörur þær er lagðar eru inn í reikning. Af þessu leiðir, að menn geta ekki vitað neitt um verðlag fyr en um sjálfar lestirnar, þegar að verzlunarkeppnin er sem mest, því þá fyrst láta kaupmenn uppi

---

eins næsta dag tóku þeir að ditta að ýmsu hjá sjer utanhúss og innan, eins og Ásvaldur gaf þeim ráð til.

„Hvað gengur á? Er aptur von á konungs syninum?„ Sagði gamall maður nokkur, er staulaðist út snemma næsta morgun, og sá ýmsa menn venju betur til fara. Enda gekk mikið á þann dag í Auðdal; þar var verið að þvo og sópa, fága glugga, borð og bekki.

Og þessi undur hjeldust bæði degi lengur, og ýmsar nýjungar bættust við, svo að alla rak í roga stanz. er ekki þekktu leyndarmál bandamanna Ásvaldar. Það tók að gjörast gestafátt á veitingahúsinu, og varla var á tafli tekið nje í einn slag farið. Þeir, sem áður höfðu bezt sótt veitingarhúsið, voru nú heima hjá konum og börnum eða gengu út að líta yfir bú sitt. Brandur gestgjafi sagði með grátstafi í kverkum sjer, þegar hann sá stólana auða hjá sjer: „Eru menn gengnir af vitinu? Hjer verður eitthvað við að gjöra, því það er óþolandi að búa undir slíku. Þetta eru svívirðileg samtök móti mjer!„ Bráðum tók gamli presturinn að taka eptir framförum Auðdæla; og sagði hann að þetta væri nú ávöxturinn af einni af hinum löngu ræðum sínum

VI.

Þegar liðið var nú á árið komu ýmsir af bandamönnum Ásvaldar til hans og báru það undir, hann að jafnvel þótt þeir færu að öllum hans sparnaðarreglum hoptu þó gamlar skuldir framför þeirri, gætu þeir því ekki staðið í skilum, svo við sjálft lagi, að þeim mundi verða byggt út. Ásvaldur gætti vandlega að reikningum þeirra: en reikningar þessir voru svo óskipulegir og vantaði svo margt í þá, að þetta gjörði Ásvaldi fyrirhöfn mikla. Síðan hjálpaði hann hinum fátæku til að reikna saman arð atvinnu sinnar og hverjum útgjöldum þeir ekki gætu hjá komizt, og hvað mikið þeim yrði afgangs af handafla sínum, er þeir gætu haldið saman til að borga með gamlar skuldir sínar.

hið fasta verðlag, er þeir vilja gefa, en af því að margir þurfa að fá ýmsar nauðsynjar sínar fyrir þann tíma, eru menn búnir að binda sig að nokkru leyti við borð með verzlun sína, og geta því ekki ætíð notað þann eldinn er bezt brennur. þetta er nú ókostur frá kaupmanna hálfu, og mætti við því gjöra, ef að þeir kvæðu strax upp hið almenna vöruverð þegar skip kæmu. þó að nú landsmenn kaupi nú þannig óverðlagða vöru, þegar nauðsyn býður, þá eiga þeir þó fullt eins mikla sök í máli, að verðlagið er svo óstöðugt, því þeir gjöra sjálfir mestan graut í vöruverðinu, vegna þess að þeir ganga ekki í verzlunarfjelög, og fá svo hver sitt verðlagið. þegar að menn verzla í fjelögum, þá ganga forstöðumennirnir milli kaupmannanna og semja við þá, hvað þeir vilji mest gefa fyrir hverja vörutegund, og velja svo þann er bezt kjör býður þeim, og hæst verð vill gefa á hverri vöru eptir gæðum, og þar við situr; enda fá þau optast hjerumbil hæsta verð, af því þeir eru margir saman og geta látið kaupmanninn í einu fá töluverðan vöru-afla og allir fá þeir jafnmikið fyrir vöruna eptir gæðum. þetta köllum vjer nú skynsamlega verzlun. En þá eru aðrir, sem ætla sjer að hafa, og hafa, ef til vill, meira upp úr verzluninni á annan hátt. þeir bindast ekki í fjelög, en fá þó, og ef til vill fyrir lakari vöru jafnmikið eða meira fyrir vöru sína. þeir fá kaupmanninum nefnilega vöruna fyrir hæsta verðlag sem gjörist á verzlunarstaðnum, og svo setja þeir upp að auki að fá svo og svo mikið í þokkabót eða ofanálag. þegar nú kaupmaðurinn tekur við vörunum á þenna hátt, þá er það auðsjeð, að hann getur varla annað en verzlað sjer í skaða, og verzlunarkeppnin neyðir hann, ef til vill, opt til þess að neita ekki þessum afarkostum. þegar nú almenna gangverðið í verzlun, t. a. m. á ullarpundinu er 40 sk., og kaupmaðurinn gefur fyrir vönduðustu og beztu ull yfir 42 sk., þá neyðist hann eptir loforði sínu til að gefa þeim mönnum, er hann hefur gefið áður nefnt loforð, það sama verð, hvernig sem ullin er, og svo þokkabót þar á ofan; og þetta er nú það einkum sem niðurdrepur vöndun á vörunum; og þegar sumir kaupendur neyða þannig kaupmanninn til að gefa jafnvel meira en hæsta verð á vönduðustu vöru, þá spilla þeir fyrir sjálfum sjer í stað þess að bæta, því þess konar verður að lækka verðlagið á vörunni, því geti kaupmaðurinn svo ekki selt vöruna nema sjer í skaða eða með oflitlum hag, þá gefur hann minna fyrir hana næsta árið og spillir það þá jafnt fyrir öllum.

það virðist því rjettust verzlunaraðferð hjá oss, að menn forðist sem mest að þurfa að leita til verzlunarinnar nema að sumrinu til þegar verzlunarkeppnin er sem mest, og mest líkindi til að hið almenna verðlag á varningi manna verði hæst, og landsmenn komi þá kaupi sínu við kaupmenn sem fremst hver má — því sjálfsagt er, að hver reyni að fá sem hæst verð fyrir vöru sína —, eptir vörugæðum, og það eiga menn að láta sjer lynda. þá mun það verða ofan á, einkum þar sem menn eru í fjelögum og ekki skuldum bundnir, að menn ná allgóðu verðlagi, og að gjörður

---

Sumum mönnum hjálpaði hann með því að útvega börnum þeirra vinnu í bænum.

Asvaldur hafði meðal annars kynnt sjer nytsemi sparnaðarsjóða þegar hann var erlendis, og sá hann fljótt að mikið hagræði væri það bæjarbúum að koma slíku á. Hann safnaði þá að sjer mörgum bæjarbúum, og þar á meðal nokkrum af bandamönnum sínum, og útlistaði fyrir þeim, hvernig þessu yrði komið í verk. Öllum kom saman um, að þetta mundi verða mjög gagnlegt, ef Asvaldur vildi takast á hendur stjórn alla á þessum sjóði, og kvaðst hann þegar fús til þess. Sparnaðarsjóðurinn var stofnaður, og fje það, sem menn lögðu í hann, var lánað gegn leigu og veði þeim er á þurftu að halda og áreiðanlegir voru.

Að fá leigu af peningum sínum var svo nýtt fyrir Auðdæli, að þeir tóku að keppast við að spara, og urðu jafnvel svo ákafir í þessu, að þeir tóku að svelta sig og börn sín. þegar Asvaldur varð þessa var, hugsaði hann upp nýtt ráð til búhægind a bæjarmönnum, Hann fjekk tengdamóður sína og aðrar konur til að takast á hendur að matreiða handa mörgu fátæku fólki fyrir mjög lágt verð svo að þetta sparaði fólkinu bæði tíma til matreiðslu, enda þurfti þá mikið minni eldivið þegar matreitt var handa mörgum í einu, og leið ekki á löngu áður en fjöldi manna nýtti sjer þetta.

Auðdælir fóru nú óðum að reisa við, og eptir því sem velgengni manna í bænum óx, eptir því uxu vinsældir Asvaldar; en sumir gamlir menn vildu þó ekki láta sjer segjast, en hristu höfuðið og sögðu: „Bærinn er kominn á fallanda fót, og nú er ekki nema eitt gestgjafahús, og gestir þó einlægt að fækka þar“! Asvaldur sagði, þetta væri skakkt álitið, því veitingahúsið væri illdýri, sem riði í sig eignir þeirra og bæjarins. þegar Brandur gestgjafi heyrði, að Asvaldur hefði kallað veitingahúsið illdýri, varð hann afarreiður og hótaði að draga Asvald fyrir lög og dóm, en Asvaldur ljet þessar hótanir hans eins og vind um eyrun þjóta. (Framhaldið síðar).

verður rjettur og sanngjarn munur á vandaðri vöru og óvandaðri.

---

(Aðsent)

Í vor eð var heifaði jeg og sáði í 16 dagsláttur höfrum, byggi og dönzku grasfræi; en víðast spratt lakara en í fyrra, sem líklegast hefur orsákast af því, að seinna varð sáð, og svo af þeim miklu rigningum, sem komu fyrst á túnasljetti og gjörðu sáðblettina mikið of blauta, því skurði vantaði. Af einum þessara sáðreita fengust góðir 30 baggar af velverkuðu heyi af dagsláttu, enda var hann bezt hirtur, og búið að feita hann áður með nægum áburði. — Úr garðinum á Húsavík fengust 50 hestar af heyi, eða 30 hestum minna en í fyrra.

Jarðepli lukkuðust hjer víðast í meðallagi, en þó að minni vitund, óvíða eins vel og í fyrra sumar.

Vegna þess að jeg er nú farinn að búa, og hefi því um heimili að hugsa, hefi jeg ekki getað starfað eins mikið að jarðyrkju í ár og að undan förnu, og jeg hefi að eins brotið upp af nýju liðugar 2 dagsláttur; enda er jeg kominn á þá meiningu, að það sje til lítils, fyrri en jarðyrkjumenn fara að rækta fyrir sjálfa sig og geta hirt um allt sjálfir, því mislukkist hjá hinum, þá missa þeir huginn, og ekki nema fáir, er hafa góð efni, geta varið fje til að kosta upp á þess háttar, því enginn má hugsa, að allur sá kostnaður borgi sig á einu eða tveimur árum, heldur með tímalengd, vakandi pössun og stöðugu áframhaldi.

S. Eiríksson.

---

## Árslok.

Skjótt líður ár og öld
eilífð mót, straumi lík.
Atburða ótal fjöld
almættishöndin rík
framleiðir dag frá degi.
Athugum betur undur slík!

Árslokum líkja má
líf mannsins þannig við:
Sköflum opt skellir á
skammdegi hauðurs svið,
eins og þá hærur hylja
gamalmenni, og gefa frið.

Hvílandi fræva fjöld
felst niðrí jarðarskaut.
Eins svæfir ellin köld
og sefar hverja þraut
ákafra æskudaga;
að nýrri lífið sjer leitar braut

Vetrar um aptna opt
unað ljær stjarnaher,
og norðurljós um lopt
leika skínandi fer.
Eins hniginn elli halur
gegnum hærur hann himin sjer.

Sæll er sá halur og hrund,
í huga sjer er veit
að hverja árs-ins stund
munu gott, trúar heit.
Nýtt ár þeim fögnuð færir
og bæjar þeirra blessar reit.

Sá þó enn sælli er
sem, gjörvallt æfiskeið
í elli þá yfir sjer,
ekki sinn hræðist deyð:
og fús og glaður gengur
á hina dimmu dauðans leið.

---

Ættgöfga Ísaþjóð!
Jeg óska af hjarta þjer:
Efli þig árin góð
eins og það liðið er!
Gefi þjer sælu' og sigur
hann sem að árin áfram ber.

Þú hefur námið nóg!
Nóg hefur guð þjer veitt!
Fagran þjer bústað bjó;
hið bezta ei skortir neitt,
ef að þú orku neytir;
Mikið kaup hlýtur höndin svelit.

M.

---

## Norðri.

Um leið og Norðri endar göngu sína þetta ár, þakkar hann kærlega þeim löndum sínum, sem hafa veitt honum góða gistingu; og hann þakkar þeim líka alúðlega, sem opt fyrir ekkert hafa lofað honum á bak baja millum, eða þegar ferð hefur fallið, og enginn hesturinn hefur verið í ferðinni, hafa jafnvel tekið hann göngu þreyttir á bak sjer og hjálpað honum áleiðis. — Norðri er nú 5 vetra foli, ganglaginn en kostalítill, því hann hefur alizt mest upp á útigangi. Hann er nú samt kominn að tamningu, en hvað úr honum verður er nú komið undir ritstjóranum, sem ekki þykir nú reyndar góður reiðmaður, en vill þó helzt það sem viljugt er; og líka er það komið undir viðurgjörningi, og folinn er ekki fóðurþungur, þó að það kosti einn dal um árið; það er ekki einu sinni lambseldi. Norðri biður því alla góða menn að sjá sjer fyrir ársfóðrinu, því ritstjórinn segist ekki geta þrýst að honum, svo hann verði góður gæðingur, nema hann sje kappalinn, og þetta er þó ekki svo örðugt, ef margir leggjast á eitt; og hart væri ef fola greyið horfjelli í eins góðu ári og þetta hefur verið.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

# NORÐRI,

## HÁLFSMÁNAÐAR-RIT

HANDA

## ÍSLENDINGUM.

## 1858.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður

**Sveinn Skúlason.**






**AKUREYRI.**

Prentaður í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins, hjá H. Helgasyni.

1858.

# YFIRLIT EFNISINS.

Sendur kaupendum kostnaðar-laust; verð árg. 18 arkir 1 rd.; einstök nr. 3 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru tekuar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár. 31. Janúar. 1.—2.

## Gleðilegt nýár, kæru landar!

Bæði ungir og gamlir, ríkir og fátækir óska og biðja við áraskiptin sjer og öðrum gleði og ánægju, hamingju og heilla. Það er svo margt, sem breytist á hverju ári lífi hvers manns og hverrar þjóðar, að það er eðlilegt, að hugurinn sje alvarlegur við þessi tímaskipti; og eins og ferðamaðurinn staldrar við, þar sem vegamót eru, til að átta sig á leiðinni, og bera saman farinn veg og ófarinn, eins hugsa menn við áraskiptin um liðna tíð og ókomna; athuga það sem á dagana hefur drifið liðna árið, og hugsa um hvað hið komandi muni geyma þeim í skauti sínu. Hið liðna árið hefur nú að vísu verið eitthvert hið ágætasta víðast hvar á voru landi, en saga vor kennir oss, og hnattstaða landsins svo nærri norðurskauti heims, að vjer megum ekki treysta góðu árunum of mjög, heldur búast jafnt við stríðu sem blíðu. Góðu árin eiga að vera oss undirbúningstími undir hin hörðu, svo að vjer getum að því leyti sem unnt er afstýrt hallæri og hungursnauðum, þegar bágindi og harðæri bera að höndum. Framsýnin er dóttir vizkunnar; og vjer getum verið þess fullöruggir, að vizkunnar upphaf, Drottinn, hjálpar þeim sem skynsamlega leitast við að hjálpa sjer sjálfum.

**Sv. Sk.**

---

## Hugvekja.

Nú er þá hinn sunnlenski, eða rjettara sagt útlendi, drepkláði kominn í Norðurland, þrátt fyrir allar tilraunir til að verjast þessum óvætti. Nú þarf ekki lengur að hafa þá góðu von, að Norðurland allt mundi frelsast frá kláðanum. En þá huggun hafa Norðlendingar í þessum yfirvofandi vandræðum, að þeir hafa hingað til gjört það sem í þeirra valdi stóð til þess að afstýra kláðanum, og koma Sunnlendingum í skilning um, hvernig nokkrir, og jafnvel margir verða að leggja eigur sínar í sölurnar til að verjast slíkum landplágum, til að frelsa hið almenna. Málshátturinn segir: Óvandari er eptirleikurinn; og hann sannast ágæta vel í þessu efni. Norðlendingar hafa nú sjeð árangurinn af hinum bandvitlausu ráðstöfunum syðra, sem hver hefur verið ofan í aðra, og hver annari til hnekkis. Þeir hafa sjeð ávöxtinn, útbreiðslu sýkinnar um allt Suðurland, drepandi og eyðileggjandi. Þeir hafa sjeð ávöxtinn af lækningunum, óendanlegan kostnað og tímatöf, gjörsamlega árangurslaust, þeir hafa sjeð þetta skrímsli í bókmenntum vorum, er útgefendurnir kalla Hirði, en sem miðar ekki til að hirða fjáreignina heldur til að glata henni gjörsamlega á öllu landi. Og af hverju geta menn lært, ef ekki af slíku? Norðlendingar verða að sjá, að þeim er engrar hjálpar að vænta af líkum ráðstöfunum; og þær sýslur og sveitir, sem kláðinn er enn ekki kominn í, geta fyllilega krafizt þess af yfirvöldunum og meðbræðrum sínum, sem hlut eiga að máli, að hjer sje tekið öðru vísi í strenginn, að hjer sje kröptuglega tekið fyrir hálsinn á þessum fjandmanni allrar eignar landsmanna, svo að hann nái ekki að færast yfir allt Norðurland. Norðlendingar hafa sjeð ávöxtinn af sundurlyndinu og ráðleysinu á Suðurlandi, og því brýnari er skyldan fyrir þá, að vera sem eindrægnastir og ötulastir, svo að menn geti ekki borið þeim það á brýn, að þeir kunni ekki að læra af reynslunni. Og hvað eiga nú Norðlendingar að taka til bragðs til að verja útbreiðslu kláðans? Vort ráð er enn hið sama og verið hefur, öflugur fyrirskurður og varnir móti samgöngum; og vjer höfum þá von til amtmanns vors, að hann fylgi þessu eina skynsamlega ráði fast fram, og til Húnvetninga að þeir hlífist ekki við fje sitt, nje horfi í tjón það, sem niðurskurðurinn óumflýjanlega verður að baka þeim um stundar sakir; því þeim ber að gæta þess, að því

meiri hluti af Norður og Austuramtinu, sem varinn verður fyrir drepsótt þessari, því færari verða aðrir að hjálpa þeim, og bæta þeim aptur skaðann. — Það er nú að vísu auðvitað, að tíminn, sem eptir er vetrar, er mjög óhentugur til að farga öllum þeim fjenaði, sem farga þarf í Húnavatnssýslu, ef uppræta skyldi fjársýkina; en það er þó þar eins og alstaðar að biðin með niðurskurðinn er þó enn meiri annmörkum bundin; því hættan fyrir hin ósýktu hjeruð eykst æ því meir, og þá verður líka æ meiri tvísýni á því, að þau geti hjálpað aptur með fje.

Kláðinn er nú, eptir því sem vjer höfum gleggst af spurt kominn alls á 28 bæi í Húnavatnssýslu í þessum sveitum: Miðfirði, Víðidal, Vatnsdal, þinginu og Vesturhópi; og allmiklar líkur til, að hann sje víðar kominn,[1] heldur en vjer höfum enn spurt. Vjer getum nú ekki álitið neitt nægilega tryggjandi fyrir útbreiðslu kláðans, nema ef að nú undir eins í vetur er strádrepið niður allt fje, þar sem kláðinn hefur sýnt sig og allt geldfje í allri sýslunni fyrir vestan Blöndu. þetta verður nú eflaust stórkostlegt tjón fyrir alla sýslubúa, en ef að þeir gjöra það, geta þeir líka átt von á mikilli hjálp frá öllum amtsbúum; og oss finnst, að hinar sýslurnar ættu að taka jafnan þátt eptir tiltölu til fjáreignar sinnar í að bæta þeim skaðann. Vjer getum ímyndað oss að margir í Húnavatnssýslu verði deigir að skera, meðan þeir hafa enga vissu fyrir endurgjaldi frá hinum sýslunum, þó að þeir gjöri það; því haganlegra væri það eflaust fyrir þá að sumu leyti, að skera ei annað en það fje sem veiktist, þangað til að hausti komandi, til þess að hafa þó sem mest upp úr fje sínu, og þetta mundi, ef til vill ráðlegast, ef að þeir hefðu einungis um það að hugsa. En hjer verður fleira að koma til íhugunar. Ef að kláðinn yrði nú drepinn í Húnavatnssýslu í vetur, og Vesturland að öllu frítt fyrir honum, þá efumst vjer ekki um, að Vestfirðingar gjörðu þá kröfu eins og Norðurlands sýslurnar fyrir austan Húnavatnssýslu, að þar verði skorið svo rækilega fyrir, að ekki þurfi að óttast útbreiðslu kláðans yfir Húnavatnssýslu á hvorugan bóginn. þetta er sanngjörn krafa, þegar þeir, sem gjöra hana, bjóðast til að taka þátt í skaðabótunum.

þegar mál þetta er enn fremur skoðað frá Húnvetninga hálfu, þá gefur sá niðurskurður, sem vjer höfum stungið upp á hjer að framan þeim þó nokkra von um að geta frelsað nokkuð af peningi sínum um leið og þeir tálma útbreiðslu sýkinnar víðar hjer um Norðurland. því ef að þeir skera ekki, geta þeir með engu móti varið samgöngum við sunnanfje að sumri, eða haft nokkrar gætur á því, að geldfje veiki ekki hvað annað á fjalli, og svo ærpening, þegar það rennur til byggða að sumri. Eina vonin fyrir því, að þeir geti frelsað nokkuð af ærpeningi sínum, er því sú, að drepa undir eins allt fje nema ærpening í þeim sveitum, sem kláðapestin hefur enn ekki komið fram í, og það þó eingöngu hagvanan og sveltvanan ærpening, sem þá yrði að geymast, og verjast fyrir öllum samgöngum bæja milli sem unnt mætti verða, og lömbin að vori annaðhvort drepast eða keflast og haldast í heimahögum. það eru nú ekki alllitlar líkur til, að þessi fyrirskurður mundi duga; og ef hann dygði ekki, þá yrði að strádrepa allt að hausti þar í sýslu, og, ef til vill, allt vestan Hjeraðsvatna, ef tortryggilegt þykir, að sýkin sje lengra komin.

þá er nú að geta þess, sem enn er gjört af sýslunefndinni og yfirvaldanna hálfu til þess að verja útbreiðslu kláðans til bráðabyrgða. Allt fje fyrir vestan Blöndu er sett á gjöf, og stranglega bannaðar allar samgöngur fjárins, og svo ríkt við lagt, að þær kindur sem komast á aðra bæi skulu dræpar og rjettlausar. Svo skal drepa niður allt fje þar sem kláðinn hefur sýnt sig og alstaðar þar sem hann kemur fram í fje þar sem það sett er á gjöf. þetta eru bráðabyrgðarákvarðanir þær sem gjörðar eru. Nú hefur amtmaður samið og sent út umburðarbrjef um allan hinn hluta amtsins með áskorun til amtsbúa að taka þátt í tjóni því, er Húnvetningar verða fyrir, ef fyrirskurður er gjörður rækilega í Húnavatnssýslu. Er svo ákveðið að hver fjáreigandi maður bindist í að lofa tólfta hluta af fjártölu sinni, jöfnum eptir fjáreign, til skaðabóta Húnvetningum, til þess að rækilega verði skorið fyrir, og af því að þeir þurfa að lóga fjenaði sínum nú á óhentugasta árs tíma.

Vjer getum nú ekki annað ætlað en að hver forsjáll maður fjáreigandi vilji vinna það til að láta nokkuð af fje sínu til þess að fá þó nokkurn veginn örugga vissu fyrir því, að fjáreign hans frelsist frá drepkláðanum; og vjer álítum þessa áskorun amtsins á góðum rökum byggða, og vonum að sem flestir gjöri góðan róm að því máli, því þetta er þó eini vegurinn til að forðast almennt tjón amtsbúa, er eflaust leiðir af faraldri

þessu, ef það nær að útbreiðast. Hinn ákveðni hluti af fjáreigninni allt að tólfta parti er án efa metinn nærri lagi, þegar Húnavatnssýsla hefur fimmtung alls fjár í amtinu. Samum kann nú að virðast, að þörf sje að gjöra það skilyrði þegar þeir lofa framlagi sínu til skaðabótanna, að þeir geti þenna hlut einungis með svo feldu móti, að kláðinn komi ekki til þeirra, og fyrirskurðurinn dugi. En þetta skilyrði virðist oss að öllu óþarft, því lítið gagn er Húnvetningum, þegar þeir eyða fje sínu að fá aptur sýkt fje, enda verður hvergi fornað að fá aptur fjárstofn nema úr þeim hjeruðum þar sem sýkin alls ekki hefur komið. Ekki þurfa menn heldur að láta sjer neitt í augum vaxa, hve miklar skaðabæturnar verða, því þó að þær yrðu svo miklar sem til er tekið, þá er það vel tilvinnandi, heldur en að mega ganga að því vísu, að faraldrið færist yfir allt. Og ekki tekur til nema þurfi, svo að framlög manna verða sjálfsagt minnkuð aptur, ef að skaðinn verður minni, svo að ekki þarf, á öllu hinu framboðna að halda.

Vjer viljum að endingu skora fastlega á alla Norðlendinga nærri sem lægri, í hverri sýslu sem eru, að þeir taki svo í þetta mál, að þeim verði sómi að. að þeir láti enga smámunasemi koma fram, er geti orðið þess ollandi, að þessi hluti lands vors frelsist eigi fyrir þessum vandræðum. Vjer skorum sjer í lagi á Húnvetninga, að þeir framfylgi því nú í verkinu, er þeir hingað til hafa framfylgt í skoðuninni. Á þeim liggur nú hinn mesti ábyrgðarhluti, því þeir eiga nú með eigin tjóni um stundar sakir að vera vörn og skjöldur fyrir norður og austurlandi. Það er sómi að láta niðja sína taka þann orðstír í arf, að láta það eptir sig í sögu lands vors, að þeir hafi staðið fastir á tíma neyðarinnar, og brugðizt ekki þegar hættan dundi yfir. Þeir eiga nú að sýna, hverju eindrægni og samheldni fá orkað, og að ekkert er svo örðugt að yfirstíga að öruggur og óbilugur vilji og samtök margra geti ekki sigrazt á því. Og vjer skorum líka fastlega á hina aðra amtsbúa, að þeir sýni það með frjálsum framboðum sínum, að þeir ekki vilji láta sambræður sína standa eina uppi fyrir áföllum, heldur styrkja þá og afstýra þannig háskanum bæði fyrir sig og þá. Þegar þess konar vanda ber að höndum, getur ekkert hjálpað nema einbeittar skipanir yfirvaldanna, samheldi og fúsleiki alþýðu, að taka vel undir þessar skipanir, og trygg og óbrigðul framkvæmd frá beggja hálfu. Ok þegar menn gjöra þannig allt, er skynsemin býður til að verjast hallærum; þá geta menn öruggt treyst því, að guð hjálpar þeim, er sjálfum sjer hjálpar.

---

(Aðsent).

## „Sumt var þarft, sumt vjer ekki um tölum“.

„Engum er allt gefið og engum alls varnað“. Þetta sannast á öllum konungum sem kotungum, og það sannast einnig ábyrgðarmanni Þjóðólfs, herra lögfræðingi Jóni Guðmundssyni. Vjer viljum með ánægju láta hann njóta sannmælis um það, að margar af ritgjörðum hans í nefndu blaði eru þarflegar og fróðlegar, og lýsa viðurkenningar verðum áhuga á þjóðmálefnum vorum, svo að vel mætti umbera og leiða hjá sjer „einstaka dettilokur“ þó þeim brygði fyrir innan um margt gott og gagnlegt. En mörgum þykja dettilokurnar vera of margar og eptirtektaverðar, til þess að þær geti átt skilið umburðarlyndi og afskiptaleysi; enda hefur Þjóðólfur og ábyrgðarmaður hans einstöku sinnum fengið að kenna á alvarlegum aðfinningum og hörðum dómum; og mundi það hafa skeð optar, ef menn hefðu ekki metið meira, að hlífa sjer við illdeilum, og litið á það, að það er hvorki til gagns nje sóma, að fylla blöðin, sem eiga að fræða, gleðja og gagna, með óviðurkvæmilegri orðakeppni og meiðandi ónotum, sem reynslan hefur því miður sýnt, að búast má við af Þjóðólfi, og sem Norðri yrði því líka að hafa meðferðis, ef borga ætti í sömu mynt. En vjer viljum samt ekki kasta þungum steini á Þjóðólf eða ábyrgðarmann hans, og það því síður, sem rit þetta hefur á seinustu árunum haft minna meðferðis af því, sem óskandi væri, að útgefari blaðsins hefði ekki borið á borð fyrir landa sína; samt getum vjer ekki dulizt þess, að enn koma fyrir í Þjóðólfi ritgjörðir, sem vjer þykjumst hafa ástæður til að óska, að hefðu annaðhvort ekki orðið til, eða verið lagaðar mjög á annan veg en þær eru; nefnum vjer nú einkum til þessa ritgjörðina í 9. ári Þjóðólfs, blaðsíðu 145—147, og blaðsíðu 153 um ráðstafanir þær, sem gjörðar voru á næstliðnu hausti móti fjárrekstrum úr Húnavatnssýslu til Suður- Vesturlands og úr þeim parti sýslu þessarar, sem liggur fyrir vestan Blöndu, í kaupstaðinn.

Með ritgjörð þessari ætlar höfundur hennar að sýna, að hin áminnsta ráðstöfun gegn fjárrekstr-

um suður hafi verið harðstjórnarleg, og ómetanlega skaðleg fyrir Húnvetninga; og að Sunnlendingum standi einnig af henni óhagræði eitt og skaði, en vjer ætlum nú að sýna, á hve ónógum rökum að dómur þessi er byggður.

það er nú fyrst ekki rjett hermt, að amtmaður Havstein hafi úrskurðað og látið berast um alla Húnavatnssýslu: „Engir rekstrar til Suður- og Vesturlands mega eiga sjer stað“ o. s. frv. Hitt er satt. að í brjefi til sýslumanns í Húnaþingi, skoraði amtmaðurinn á hann og meðnefndarmenn hans, að þeir vildu með öllu leyfilegu móti afstýra fjárrekstrum út úr sýslunni til Suður- og Vesturlandsins, ok óskaði amtmaðurinn, að hann yrði látinn vita af, ef nokkrir rækju. Að höfurinn hefur í þjóðólfi snúið þessari áskorun amtmanns upp í bann, er, ef til vill, vorkunarmál, að því leyti sem það getur, eins og útlítur fyrir af framhaldsritgjörðinni, verið byggt á orðatiltækjum úr einhverjum brjefum að norðan frá þeim, sem ekki höfðu sjeð amtsbrjefið, en tekið eins og bann það sem þeir höfðu heyrt talað um efnið í því, en meðan höfundurinn gat ekki haft meiri vissu fyrir sjer um þetta efni, þá hefði það verið óhultara fyrir hann, og mannúðlegra, að færa heldur til betri en verri vegar, eða þá að geyma sjer, að kveða upp óvægan áfellisdóm yfir amtmanninum fyrir „ástæðulaust embættisgjörræði“ þangað til hann hefði verið búinn að fá fulla vissu um áreiðanlegleika undirstöðu þeirrar, er hann byggir á áfellisdóminn; en annaðhvort hefur hann verið of auðtrúa og fljótfær, eða þá affært það. sem honum kann að hafa verið skrifað um fjárrekstra tálmunina. En látum nú þetta atriði vera. Vjer viðurkennum, að amtmaðurinn rjeði frá, að nokkurt fje yrði rekið úr Húnavatnssýslu suður næstliðið haust, og að hann fór í þessari áskorun sinni lengra en sýslunefndin, sem ráðgjört hafði að farga mætti út úr sýslunni skurðarfje, tvævetrum sauðum og ekkli; en þó að miklar líkur sjeu til, að það hefði verið hættulaust, þá er samt til fleira en eitt dæmi þess, að fullorðnir sauðir hafa týnzt á suðurleið og aldrei komizt þangað, sem þeir áttu að fara. þvílíkt hefði og getað skeð í haust er var, ef að fje hefði verið rekið suður, auk þess sem það ekki var ómögulegt, að kindur sem eptir urðu á heiðunum í fyrri göngunum, hefðu komizt í fjárrekstrana suður, og þannig farið að óskilum sem skeð hefur að undanförnu optar en einu sinni.

það verður því ekki annað sagt með sanni, en að tillögur amtmannsins væru betur fallnar en nefndarinnar til að gjöra það ómögulegt, að norðlenzkar kindur gætu sloppið að sunnan, og fært með sjer kláðafárið inn í Húnavatnssýslu, svo þegar um jafn-mikilsvarðandi mál er að vera, eins og fjárkláðamálið er, þá getum vjer ekki sjeð, að amtmanninum hefði með nokkrum rökum getað orðið lagt það til lýta, þó hann hefði bannað fjárrekstra út úr sýslunni, og það því síður, þegar hann að eins skoraði á sýslunefndina, að hún reyndi til að koma í veg fyrir þá.

Sýslunefndin hafði þannig fullgylda ástæðu til að fallast á ráð amtmannsins og fylgja því fram, og það því heldur, sem nefndin mun í fyrstunni hafa álitið óhultast, að engir fjárrekstrar yrðu látnir fara út úr sýslunni, þó hún rjeði af að fara því ekki fram, að tálma burtrekstri fullorðinna sauða, af því hún sá, að það gat orðið einstökum mönnum bagalegt. það sem helzt og fremst ætti að líta á í máli þessu, og sem Húnvetningar hafa almennt viðurkennt, er það, að tilgangur bæði amtmannsins og sýslunefndarinnar með þeirri ráðstöfun, sem á endanum var gjörð, var sá, að vernda Norðurland fyrir sunnlenzka fjárkláðanum, og mega ekki einasta Norðlingar, heldur og Sunnlendingar, ef rjett er álitið, kunna hlutaðeigendum þakkir fyrir þessa ráðstöfun þeirra, því það sjá allir, sem sjá vilja, að ekki hefði Sunnlendingum, þeim er þurftu að farga svo miklu af fje sínu, gengið það betur út, þó skurðarfje hefði komið suður að norðan; miklu fremur hefði því torveldara orðið, að selja sunnlenzka fjeð, sem meira hefði verið fáanlegt til kaups af norðlenzku fje, sem þjóðólfur játar sjálfur, að sje miklu vænna til frálags en sunnlenzka fjeð; þannig er það auðsjeð, að það getur ekki verið satt, að Sunnlendingum hafi staðið óhagræði eitt og skaði af því, að ekki varð rekið suður skurðarfje að norðan, nema ef litið er að eins á þá Sunnlendinga, sem búa við sjóinn, og þurfa að kaupa fje, og er þó að ráða af orðum sjálfs þjóðólfs, að þeir hafi fengið sunnlenzka fjeð með einkar góðu verði; en hafi svo verið, þá bætti það einnig hag þeirra, að þeir þurftu ekki í þettað sinn að vera komnir upp á norðlenzka skurðarfjeð, sem eigendur þess hefðu að vonum viljað fá fullt verð fyrir, með hvað lágu verði sem sunnlenzka fjeð hefði verið.

þá er nú eptir að líta á, hvort það er satt, sem segir í þjóðólfi, að ráðstöfun sú, er hjer ræð-

ir um, hafi verið „öllum hjeraðsbúum (: í Húnavatnssýslu) til ómetanlegs skaða". Víst hefur hinum heiðraða höfundi sýnzt svo, en það er óhætt að segja, að það hefur verið tóm missýning, sprottin af ókunnugleika, og ósönnum frjettum, sem hann hefur tekið trúverðugar. Vjer berum ekki á móti því, að sumum hefði komið vel að geta selt einstökum Sunnlendingum kindur í rjettum, eða látið þær af hendi við kaupafólk upp í nokkuð af kaupi þess; en þó þessa væri nú ekki kostur í þetta sinn, þá má það ekki heita almennur, og því síður ómetanlegur skaði; hitt hefði mátt heita almennur skaði, ef það hefði leitt af fjárrekstraleysinu suður, að fjártaka á Skagaströnd hefði orðið með miklu lakari kjörum en ella, en því er betur, að það er með öllu tilhæfulaust, að kaupmennirnir á Skagaströnd hafi, eptir að viðtekið varð að reka ekkert fje hjeðan suður „afsagt að kaupa bezta sauðakjöt dýrara en 5 sk. pundið, og 5 ℔ gæruna af gömlum sauð". Þeir buðu aldrei minna fyrir pundið af sauða kjöti en 6 sk. og 8 ℔ fyrir sauðargæruna; og þetta verð munu þeir hafa verið búnir að ákvarða áður en þeir vissu, að fjárrekstrar mundu ekki verða suður; og við það hjetu þeir sitja, einnig eptir að þeir vissu, að fje yrði ekki rekið í kaupstaðinn, úr meginhluta sýslunnar fyrir vestan Blöndu; og sýnir þetta, að þeim var alls ekki umhugað um, að fá mikið af sláturfje, þar eð ekki leit út fyrir að kjötið yrði selt með ábata erlendis. Þó nú fje hefði verið rekið suður, þá verður það ekki ályktað af viðtökum þeim, er fjárrekstrarmenn að norðan hafa stundum fengið á Suðurlandi að undanförnu, að Húnvetningum hefði orðið hagræði að fjársölu þar á næstliðnu hausti, þar sem Sunnlendingar áttu kost á þvílíkri gnógt af sunnlenzku skurðarfje; miklu fremur hefði það orðið að hafa þá verkun, að menn hefðu í þetta sinn sótt minna en áður eptir norðlenzka fjenu, og ekki boðið meira fyrir það, en sjálfum þeim þóknaðist. Það er líka að líta á kostnað þann, erfiðleika og áhættu, sem því er samfara að reka fje suður á land á haustin þegar allra veðra er orðin von; reynslan hefur sýnt að menn og fje hafa opt orðið að þola mikinn hrakning á þeim ferðum, og er það auðvitað að Húnvetningar verða að eiga góðum kostum að fagna fyrir sunnan, ef það á að vera tilvinnandi fyrir þá að færa Sunnlendingum skurðarfje.

Verið getur — eins og þegar hefur verið bent til — að sumir bændur hefðu goldið kaupafólki sínu nokkuð af kaupi þess með skurðarfje, ef fje hefði mátt fara suður úr sýslunni, en það hefur þó ekki almennt viðgengizt að undanförnu, og fjöldi af kaupafólki hefur ekki æskt þess, en fremur afbeðið það, og viljað heldur fá smjör og peninga; nú gekk það til í haust einmitt eins og vant hefur verið, að bændur guldu kaupafólki svo mikið sem þeir gátu í smjöri, en sumir nokkuð meira í peningum en áður; og vitum vjer ekki til, að nokkurt kaupahjú hafi mælt á móti þeim, eða talað um afföll á þeim, enda kannast Húnvetningar engan veginn við það, sem skyldu sína, að binda vinnulaun kaupafólksins við landaura fremur en við peningareikning. Hitt viðurkenna þeir, að það er sanngjarnt, að kaupafólk fái með fram upp í kaup sitt svo mikið sem kostur er á af þeim vörum, sem Suðurland þarfnast mest, einkanlega smjöri.

Vjer vitum ekki hverjir, eða hve margir vera kunna „brigðmælgismenn" þeir í Húnavatnssýslu, sem Þjóðólfur segir, að tekið hafi við skotsilfri að sunnan, og skuldbundið sig til að láta fyrir það, og koma þangað skurðarfje, eða þeir, sem hafi skuldbundið sig til að greiða skurðarfje, bæði í meðgjöf með skólapiltum og upp í önnur skuldaskipti. Vjer ætlum að þeir muni að vísu vera fáir; og víst munu þeir — ef nokkrir eru — ekki geta kannazt við, að þeir eigi skilið að heita brigðmælgismenn fyrir það, þó ekki gætu þeir efnt loforð sín, þegar ófyrirsjeð hindrun gjörði þeim það ómögulegt. Þeim er nú gefið að skilja að þeir hefðu ekki átt að skeyta um áskorun amtmannsins og tilhlutun sýslunefndarinnar, en það hefði þó verið ofmikill ábyrgðarhluti fyrir einstaka menn, að breyta þvert á móti ráðum yfirvaldsins og beztu manna í sýslunni; því enginn gat ábyrgzt, að ekki kynni að leiða illt af því, nje bætt tjón það, sem Húnavatnssýsla hefði orðið fyrir, ef þvílíkt þverúðarfullt einræði hefði orðið meðal til að draga kláðafaraldrið inn í hana. Vjer skyldum af hjarta hafa kunnað höfundinum þakkir fyrir það að hafa tekið málstað Húnvetninga, ef rjetti þeirra hefði verið hallað af yfirvöldunum, og þeir ekki sjálfir getað af sjer hrundið; en vjer getum með engu móti kunnað honum þakkir fyrir þær bendingar, sem miða til að vekja óánægju yfir vel meintum og velhuguðum ráðstöfunum hinna yfirboðnu, og espa til óhlýðni við þær, — miða til að sundra góðu sam-

heldi í miklls umvarðandi málum, í einu orði, miða til óreglu og stjórnleysis. Vjer verðum því að álíta, að Húnvetningar haldi óskertum heiðri sínum, þrátt fyrir þann dóm, að þeim sje helzt að skapi „rússisk“ eða þessleiðis stjórn; sem mun eiga að skiljast svo, að þeir sjeu þrællyndir, og alveg háðir vilja og boðum yfirvalda sinna. Vjer verðum að álíta þenna dóm engu merkari nje á betri rökum byggðan, en hinn, sem fyrrum birtist í Þjóðólfi, þar sem allmörgum jafnvel merkari mönnum meðal þeirra var borin á brýn „einstakleg heimska og ósvífni“.

(Framhaldið síðar).

---

(Aðsent).

Af því menn eru komnir að raun um og hafa sjeð, hve nytsamleg stofnun ýmsra fjelaga hefur orðið, hvílíkum framförum fjelög þessi hafa tekið, hve farsæl og staðföst þau hafa getað orðið, þá gegnir það allri furðu, að það skuli ei hafa sætt athygli manna, hve strjál og staðfestulaus bindindisfjelögin hafa verið hjer á landi og sjerdeilis í nyrðri hluta þess; og þó er það ætlan vor, að sjerhver, sem kominn er til vits og ára og hefur öðlast heilbrigða skynsemi, hljóti að vera sannfærður um það, hvað meira eður minna illt leiði af meiri eða minni nautn áfengra víndrykkja; vjer ætlum því heldur ekki hjer að lýsa þessum illu afleiðingum, þar eð þær eru svo kunnar og dæmi þeirra eru líka hjá oss deginum ljósari.

Það er mála sannast, að þeir eru mjög margir, sem sneiða sig hjá miklum drykkjuskap, og virðist, ef til vill, í fljótu áliti, að þeir hafi enga þörf eða tilefni til þess að ganga í bindindi, en þegar betur að er gáð, virðist oss þessa ekki síður þörf, bæði til þess að gefa öðrum gott eptirdæmi og líka hins, að þeir koma í veg fyrir svo mikið illt, þegar þeir hafa enga víndrykki til að bjóða gestum sínum, sem einatt hafa ekkert annað erindi við nágranna sína, en að fá í staupinu; en sjálfsagt er þó, að þeir sem hneigðastir eru til vínfanga og neyta þeirra í óhófi — hvort sem þeir eru ríkir eða fátækir meiri eða minni háttar — hafa helst þörf á að hætta að kaupa þau og neyta þeirra.

Að vísu er við því að búast, að þeim, sem vanið hafa sig á nautn áfengra drykkja, veiti örðugt að stíga hið fyrsta fetið, sem leiðir til sjálfsafneitunar þessarar, en vjer ætlum, að það muni ei verða nema fyrst í stað, og að hjer rætist eins og optar málshátturinn: að sigursæll er góður vilji; en þó að þessir menn ekki vildu neita sjer um áfenga drykki, þá samt gætu þeir og ættu, eins og allir aðrir, sem komnir eru til fullorðins ára, að koma í veg fyrir það, að börn og ungmenni vendust þeim, og jafnan að vera minnugir sannmælis þessa: smekkurinn sá sem kemst í ker keiminn lengi eptir ber.

Það væri vissulega fagurt og vjer óskum þess innilega, kæru Eyjafjarðarsýslu búar! að fá að heyra áreiðanlegar sögur um það, að margir meðal yðar gengu í bindindisfjelag. Vjer vonum að þjer takjuð oss það ekki illa upp, þó vjer í stuttu máli segðum álit vort um fyrstu tilhögun áforms þess ef svo langt kæmist, að þjer vilduð gefa því nokkurn gaum, og er það þá þannig: Tveir eða þrír menn í hverjum hrepp ættu að takast á hendur að safna áskrifendum, og færi vel á því, að hreppstjórar þeir, sem hlyntir væru á það, tækju þátt í því. Hvort sem fjelagsmenn þessir yrðu margir eða fáir, álítum vjer bezt að bindindis tíminn yrði fyrst um sinn takmarkaður, t. a. m. frá næstkomandi sumarmálum 1858 til sumarmála 1859. Yrðu þeir nokkrir, er gjörðu góðan róm að málefni þessu, þá óskum vjer að þeir vildu senda nöfn sín, heimila sinna og stjettar til kandid. J. Halldórssonar á Akureyri, sem lofað hefur oss að veita þeim viðtöku, ok munum vjer þá, sem ritum línur þessar jafnframt láta sjást nöfn vor, og þegar svo langt væri komið fara að tala saman og skrifast á um nákvæmari tilhögun og stjórn á fjelaginu.

Nokkrir Eyfirðingar.

---

## Bókafregn.

Ný út komin er á Akureyri lögbók Magnúsar konungs lagabætis handa Íslendingum, eða Jónsbók. Útgefandi Sveinn Skúlason.

Þessari útgáfu fylgja: „Nokkrar athugasemdir um núverandi gildi Jónsbókar, og um löggjöf Íslands yfir höfuð“, eptir amtmann Havstein og sýslumann Briem; og er í þeim tekið fram hvernig og hvenær breytingar hafa orðið á lagaskipunum Jónsbókar, og getið allra hinna helztu nýjari lagaboða, er breytt hafa henni svo nokkru nemur. Þar að auk fylgir bókinni registur yfir bálka og kapítula og efnisregistur.

Í formálanum gjörir útgefarinn þannig grein fyrir því, er hafi komið sjer til að gefa út bók þessa: „Aðalhvöt mín til þessa var sú, að þó að lögbók þessi sje, nú orðin, í mörgum atriðum úr gildi gengin, þá er hún þó eina lögbókin, er vjer Íslendingar höfum, og hefur verið að mikla leyti gildandi landslagabók hjer á landi hátt á fjórða hundrað ára, og fjölda margar af hinum almennustu lagasóknum hjá oss fá enn þann dag í dag úrslit sín eptir laga-ákvörðunum hennar, og fjölda margar af hinum seinni tilskipunum konunga vorra, er breyta sumum atriðum hennar, eru eðlilega leiddar af henni sem frumlögum. Auk þessa eru mörg atriði í þessari hinni fornu lögbók, sem þrátt fyrir það, þó að þau sjeu úr gildi gengin sem laga-ákvarðanir, sýna oss ljóslega og kenna, hver rjettindi land vort hafi, og hversu Magnús konungur, er setti þessa lögbók, viðurkenndi fullkomlega hinn frjálsa sambandssáttmála, er vjer gjörðum við Noregs konunga,

þegar stjórnleysi innlendra höfðingja vorra, þrekleysi alþýðunnar og slægvitusleg ásleitni Hákonar gamla kollvarpaði hinni fögru og frjálslegu stjórnarskipun forfeðranna.

---

## Skýrsla,

um jarðeplarækt og plægingu í þóroddsstaðarsókn sumarið 1857.

Nú eru menn hjer farnir að leggja stund á jarðeplaræktina. Og hefur þessu mest farið fram í tvö, þrjú ár næstliðin. Varparnir, ösknhaugarnir og bæjarrústirnar fornu, er nú sumstaðar orðið að görðum, og það eru fáir bændur hjer í sókninni, sem ekki hafi jarðeplagarð við bæ sinn eða skammt frá honum, og sumir fleiri en einn. Og þó þeir sjeu fáir smekklega eða fagurlega byggðir, og prýði þeirra ei ekki samboðin gagni þeirra, er þó mikilsvert að þeir eru orðnir til. En þó er, er ekki minna varið í það, hve vel flestum hefur heppnazt þetta, einkum þegar þess er gætt, að hjer verður ekki sáð eins snemma, og er ekki eins haganleg veðurátt fyrir jarðepli eins og víða annarstaðar. Í haust varð uppskeran frá 16 til 40 föld, eða þar yfir, og 66 tunnur af jarðeplum alls í sókninni. Þar sem uppskeran var 40 föld, voru útsæðisjarðeplin í smærra lagi, en vel valin og geymd,, og garðarnir sæmilega hirtir.

Frá plægingunum er áður skýrt í Norðra hjerumbil, nema dálitlu sem áður var, og því, sem bættist við þar í sumar. En jeg ætla nú ekki að nefna neina stærð á þeim, heldur einungis geta þess, hvernig þær reyndust hjer í sumar. Þær voru sánar mestallar á næstliðnu vori, og þá mikið seint víða hvar, sem kom af því, að mikið af höfrum fjekkst ekki nógu snemma, ekki heldur maðurinn til að sá, og svo hornaði jörðin nokkuð seint. Nú var grasið slegið víðast hjerumbil í 18. viku sumars, og var þá hvergi nærri fullþroska, en menn vildu nota þurrkana sem voru svo ágætir um þann tíma. Það var síðan þurrkað, ekki minna en viku; það var svo sumstaðar enn látið standa úti í sæti eða fúlgum hjerumbil eins lengi, áður en það var alveg hirt. Og á meðan á þessu stóð mátti kalla að væri besti þerrir. Nú eptir allt þetta þótti mönnum það síst betur en vel þurrkað. En það ber nú ekki eins mikið á að heyið þurfi þenna makalausa þurrk, þegar það er slegið fullþroska, því á meðan grasið er ekki fullvaxið, er ótrúlega mikill vökvi í því, sem veldur því, að það er svo seint að þorna. Nú þó að væri eptir vonum stofn á þessu áður en slegið var, þá varð mjög lítið úr því eptir þurrkinn, og munu hafa fengizt hjerumbil 9 til 20 baggar af dagsláttunni. Í vetur reynist hey þetta álíka og taðan.

Granastöðum í desemberm, 1857.

Jóhann Jóhannesson.

---

# Frjettir.

**Innlendar.** Það hefur sjaldan verið eins fátt um ferðir hjer norðanlands eins og í vetur, enda hefur lítið frjetzt með þeim fáu sem komið hafa, og frjettirnar þær sem eru heldur bágar, nema hvað tíðarfarið snertir, sem hefur víðast hvar á landi verið hið æskilegasta það sem af er vetri, þó höfum vjer frjettir að hart og illviðrasamt hefur verið úti í Siglufirði og þeim hjeruðum, er þar næst liggja, enda er þar vetrarríki mikið venjulega. Um útbreiðslu kláðasýkinnar á sauðpeningi er getið hjer að framan, og sjáum vjer bæði á Þjóðólfi og brjefum frá Suðurlandi að hann er einlægt að versna þar, svo nú er hann kominn að kalla um nálega allt Suðurland. Misjafnir eru dómar manna um lækningar hinna útlendu dýralækna, en þó ber flestum saman um að árangurinn af þeim sje lítill sem enginn, og mega Sunnlendingar vera farnir að þreytast á lækningunum, enda er svo að sjá, sem flestir sjeu orðnar með fyrirskurði til að útrýma faraldrinu, einkum Árnesingar og aðrir austanfjalls.

Sorglegar frjettir hefur Þjóðólfur að færa oss um að strandað hafi skip kaupmanns Bjerings fyrir Mýrum syðra. Var hann þar sjálfur á með konu og tveimur elztu börnum sínum, og hefur það skip farizt með allri áhöfn. Bjering var einhver mesti kaupmaður í Reykjavík, hinn hjálpsamasti og vinsælasti maður af allri alþýðu suður um land, og er þessi viðburður því sorglegri að hann átti hjer eptir 7 börn flest öll á barns aldri. Hingað hafa líka borizt frjettir með brjefum úr Húnavatnssýslu og þangað komnar að vestan að póstskipið „Sæljónið" muni einnig hafa farizt í hinu sama fjarskalega óveðri undir Snæfellsjökli á sama stað og það fórst áður nú hjerumbil fyrir 40 árum undir hinum svo nefndu Svörtuloptum. Með póstskipinu hefur frjetzt að farið hafi 2 kaupmenn úr Reykjavík Ditlev Thomsen og Jón Markússon, og þar að auki verzlunarmaður Snæbjörn Benediktsen, og voru hinir 2 fyrnefndu framtakssmenn miklir í sinni stjett, og væri mikill mannskaði, ef þeir skyldu allir hafa farizt. Óskandi væri að frjettir þessar um póstskipið reyndust ósannar, en oss er skrifað að því miður muni lítill vafi á þessu.

---

# Mannalát.

Með Þingeyingum nokkrum, er komu vestan af Ísafirði barst hingað sú sorgarfregn, að þar hafi drukknað við þriðja mann á 3. dag í jólum Erlendur sýslumaður Þórarinsson á heimleið til Ísafjarðar frá Vigur. Erlendur sálugi var sonur sjera Þórarins Erlendssonar, prests að Hofi í Álptafirði í Suðurmúlasýslu. Hann var á bezta aldri, nær þrítugur, er hann ljezt. Hann var fyrst ætlaður til að ganga skólaveginn; en þegar breytingin

varð á skólareglugjörðinni, fjekk hann ekki skóla fyrir aldurs sakir, því hann þótti þá orðinn of gamall. Síðan var hann nokkurn tíma við bóknám hjá Árna stiptprófasti Helgasyni í Görðum, og sigldi þaðan til Kaupmannahafnar, og nam þar danska lögfræði, og tók próf í henni með bezta vitnisburði. Honum var síðan veitt Ísafjarðarsýsla, mig minnir sama árið 1855. Síðan var hann þar til dánardægurs. Hann var trúlofaður ungri stúlku efnilegri í Vigur, og var það á leið úr kynnisferð til hennar að hann drukknaði. Erlendur sálugi var enginn sjerlegur gáfumaður, en hinn mesti alúður og iðnismaður við allt bóknám. Hann var hinn vinsælasti maður af öllum ungum mönnum, sem jeg hefi verið samtíða bæði hjer á landi og í Kaupmannahöfn, síglaður og sískemmtinn, og allir, sem nokkur kynni höfðu af honum, unnu honum hugástum, eins og von var, því góðlyndi hans og blíðlyndi var framúrskarandi, enda var hann líka hið mesta prúðmenni og aðdáanlega kurteys í allri hegðun. Hinn örasti maður var hann að fje sínu, og þó hinn mesti reglumaður. Hann kunni sjer hvervetna hóf, og engan hefi jeg þekkt á hans aldri, er hafði aðra eins mannhylli af háum og lágum.

Jeg veit að sýslubúar hans mega sárlega sakna hans og gjöra það líka, því þeim varð að fara eins og öðrum, að unna honum. Annað var ekki hægt. Og hinir öldruðu foreldrar, systkyni og vinir, hve mega ekki allir sakna hans. En það er þó mikil huggun fyrir alla, að hann var svo góður, og hafði varið lífi sínu, þó stutt væri, svo vel. Sá hefur lifað lengi sem vel hefur lifað.

Sv. Sk.

16. þ. m. andaðist hjer ung og efnileg kona, Guðný Jónsdóttir Sigurðssonar á Víðirgerði, virðuglegs bónda í Eyjafirði Hún var gipt Jóni skrifara Ólafssyni, og voru þau saman tæp tvö ár. Þau áttu eitt barn, er andaðist ársgamalt.

9. október næstliðið ár andaðist óðalsbóndinn Einar Halldórsson í Firði í Mjóafirði í Suðurmúlasýslu, nær fertugur að aldri. Hann hafði með stakri atorku og dugnaði aflað sjer talsverðra eigna að kalla mátti á stuttum tíma, og mátti þó allt af jafnframt heita stoð og stytta fátæklínga í sveit sinni.

(Aðsent). 9. dag nóvembermánaðar 1857 ljest merkisbóndinn Ólafur Gottskálksson á Fjöllum í Kelduhverfi, sáttasemjari í sömu sveit nokkur ár, eptir langa og stranga sjúkdómslegu. Hann var fæddur 18. dag desemberm. 1799, giptist ungfrú Kristínu dóttur Sveins sál. bónda á Hallbjarnarstöðum á Tjörnesi vorið 1825 og reisti bú við lítil efni sama vorið á Auðbjargarstöðum í Kelduhverfi; þar bjó hann í 10 ár: þá flutti hann að Fjöllum og bjó þar til dauðans. Hann átti við áðurnefndri konu sinni 6 mannvænleg börn, 4 sonu og 2 dætur, sem öll eru nú fullorðin (flest gipt) og ásamt henni syrgja nú hinn framliðna. Hann eptirljet töluverð efni, er hann hafði komizt yfir með frábærri ráðdeild og sparsemi. Hann var maður hygginn, rjettsýnn, friðsamur, fáskiptin, og manna orðvarastur, vinfastur og vinvandur, ráðsnjall og ráðhollur, háttprúður og skyldúrækinn, gjafmildur við þá, sem bágt áttu, og hann tók því við, gestgjafi var hann mikill og gladdist eigi síður af velliðan annara, en sinni eigin. Allir, sem þekktu hann nákvæmlega, unnu honum hugástum.

# Auglýsingar.

Þar eð arfs tilkall nokkurt í dánarbúinn eptir prestinn Sigurð sál. Árnason frá Hálsi og fyrr dána seinni konu hans Valgerði Magnúsdóttur, nú er til lykta leitt með hæstarjettardómi frá 29. júní f. á. þá er af mjer sem skiptaráðanda ákveðinn fundur í greindu dánarbúi á skrifstofu sýslunnar á Húsavík, fimmtudaginn þann 3. dag júnímánaðar næstkomandi kl. 10. f. m., hvar þá bæði fjærverandi erfingjar prestsins sál. og aðrir hlutaðeigendur, er nokkra kröfu meina sig að hafa til dánarbúsins eptir áminnst hjón, eru kallaðir að mæta eða mæta láta, til að gæta rjettar síns að lögum.

Skrifstofu þingeyjarsýslu 8. Janúar 1858.

S. Schulesen.

Undirskrifaður hefur til sölu nokkur exempl. af „Stjórn" 1—3. hepti, hvert á 72 sk. Framhaldið fæ jeg síðar frá Noregi.

Stjórn er einhver hin merkilegasta af fornbókum vorum. Hún er nokkurs konar biflíuþýðing eður biflíusaga, en snertir þar að auki ýmsar aðrar fræðigreinir og fornar setningar vísindamanna.

Akureyri 29. Jan. 1858.

J. Borgfirðingur.

Ný upptekin fjármörk í Helgastaðahrepp í þingeyjarsýslu:

Sneiðrifað aptan, biti framan hægra; tvístýft framan, biti aptan vinstra. Benidikt Arason á Hamri.

Stýft, gagnfjaðrað hægra, sneitt framan, biti aptan vinstra. Andrjes Andrjesson á Þverá.

Hvatt hægra, stýfður helmingur aptan vinstra. Jón Halldórsson á Birnustöðum.

Ný upptekið fjármark mitt er sneitt aptan hægra, gagnfjaðrað vinstra. Brennimark: Gr. Gr.

Gr. Grímsson á Ákurseli í Axarfirði.

Öll þessi mörk eru hreppstjórar vinsamlega beðnir að skrifa hjá sjer í viðauka markabóka.

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

**6. ár.** **28. Febrúar.** **3.—4.**

## Endurgjaldið.

Það má nú geta nærri, að ekki sje um annað optar talað hjer í norðursveitum en um niðurskurðinn í Húnavatnssýslu til að verja útbreiðslu fjárkláðans, og hvernig endurgjaldið skuli greiða, hvað mikið það skuli vera, o. s. frv. Þetta er nú náttúrlegt, og ekki er nú heldur furða, þó að menn verði allmisjafnt við, því svo er margt sinnið sem maðurinn er. Þó er oss óhætt að fullyrða að alstaðar hafa menn tekið vel og fúslega undir það að bæta Húnvetningum að miklu leyti skaða sinn, og treysta þá þannig til að standa móti drepsótt þessari. En það sem einkum ber á, þegar menn eiga að tilgreina framlag sitt í þessum tilgangi, er það, að menn vilja setja hin og önnur skilyrði fyrir hluttekningu sinni í því. Þetta er nú, ef til vill, vorkunn. Því sumir líta svo á málið, að þegar þeir sjeu búnir að lofa einhverju framlagi, þá muni amtmaður þegar taka það, og komi svo pestin seinna, þá sjeu þeir þeim mun ver farnir en Húnvetningar, sem framlaginu nemi. Þeir láta sjer nú detta í hug ýms skilyrði fyrir lúkningu endurgjaldsins. Hin almennustu eru þau, ef að pestin komi ekki hingað; ef að nægur og tryggjandi tími sje látinn líða áður en farið sje að koma upp fjenu aptur í Húnavatnssýslu; ef að allt fje sje strádrepið austur að Hjeraðsvötnum í Skagafirði, o. s. frv. — Það er nú hægt að sjá á þessu hvað lítið gagn það gjörir að hafa nokkur skilyrði í einstökum sveitum, því skilyrðin verða þá að líkindum eins mörg eins og sveitirnar eru, og veikja þannig hvert annað, og skemma um leið það málefni, er þau eiga að styrkja. Hvað hinu fyrsta skilyrðinu viðvíkur, þá er það óþarft, eins og vjer drápum stuttlega á í næsta blaði, því það leiðir af sjálfu sjer, að þeir sem missa fje sitt, eða verða að drepa það niður fjárpestarinnar vegna, eins hjer og annarstaðar, verða einmitt þess vegna ekki færir um að láta fjárstofn til Húnavatnssýslu; og þó að þeir lofi tólfta parti fjár síns nú, þá hverfur það loforð að nokkru eða öllu leyti, ef að þeir sjálf-

## Auðdalur.

### VII.

(Niðurlag) Um þetta leyti andaðist sóknarprestur Auðdæla, enda var hann orðinn gamall maður, og var þá ungum stúdent Jóni Jónssyni veitt það brauð, því eptir orði því, sem áður var komið á Auðdali, þótti brauðið ekkert keppikefli „Hvað eigum við að gjöra við annan eins ungling fyrir prest og þessi er?“ sögðu Auðdælir, þegar nýi presturinn kom, sem ekki hafði nema sjö um tvítugt; og þegar þeir heyrðu til hans sögðu þeir: „Nú, hann er þá, presturinn okkar, einn af þessum nýmóðins prestum. Það skilst hvert orð, sem hann segir. Hvaða gagn er nú að slíkum prestum. Hann þyrfti að vera dálítið lærðari, svo að hann gæti komizt dypra inn í efnið. Þá er munur á honum og gamla prestinum; hann gat blessaður haldið ræðu svo tímum skipti, sem gekk langt yfir okkar skilning, það var sönn gleði að hlusta á hann, kallinn.“

En því var nú betur, að sumir í Auðdal kunnu nú betur að meta nýja prestinn, sem var guðhræddur maður og afbragðsvel að sjer, þótt hann væri ungur. Hann var blíður í viðmóti, en þó alvarlegur, lítillátur og auðveldur í umgengni, en þó höfðinglegur og svipmikill, og hinn þrautbezti maður. Hann sagði mönnum til syndanna, en rödd hans var mjúk og viðkvæm sem föðursins. Skömmu eptir að hann kom í Auðdal húsvitjaði hann í sókn sinni. Hið blíða viðmót hans ávann honum traust sóknarfólksins. Hann hlustaði á umkvartanir þeirra, jafnaði misklíð milli þeirra, og gætti að öllu, er þá mest vanhagaði um, og optast heimsótti hann hina fátækustu og vesælustu af hjörð sinni. Og þegar sunnudagurinn kom talaði hann þannig af stólnum, að hverjum og einum tilheyrendanna fannst ræðan vera til sín töluð.

ir fella fjenað sinn. Hið annað skilyrðið er því óþarfara, að binda endurgjaldið við það, að láta líða langan tíma þangað til farið er að koma aptur fje til Húnavatnssýslu; því það liggur þó í augum uppi, að það er mestur hagur fyrir alla, er hlut eiga að máli, að þessa sje gætt, og er engin ástæða til að efast um, að Húnvetningar og yfirvöldin gæti þessa. Því þegar Húnvetningar leggja svo mikið í sölurnar að drepa niður fje sitt, þá er þeim líka allt um að gjöra, að frelsa stofn þann, er þeir eiga von á að fá aptur. Þá eru enn nokkrir, sem fara því fram, að nú þegar sje felldur allur fjenaður að Hjeraðsvötnum í Skagafirði, og bjóða þeir, ef þetta er gjört, að leggja meira fram til endurgjaldsins en amtsbrjefið fer fram á. Þó að það sje nú auðsjeð, að þessir menn vilja ekki sitt til spara til þess að stöðva þessa hættulegu drepsótt, og slíkt sje að því leyti mjög virðingarvert, þá virðist oss það ekki gjört með nægilegri fyrirhyggju. Þegar menn vilja reyna til að reisa skorður við útbreiðslu fjárkláðans með niðurskurði, þá er fyrst það tvennt, sem kemur til íhugunar, að drepa niður fjenaðinn á svo stóru svæði, að samgöngum sje auðvelt að verja, og á hinn bóginn að gjöra þó skaðann með fjárdrápinu ekki meiri en þörf er á. Þegar skoðað er nú landslag og annað, þá er Blanda í Húnavatnssýslu án efa bezti veggur fyrir fjársamgöngum, ef nægileg vörn fylgir. Blanda rennur lengst af í einu frá jökli til sjóar, en Hjeraðsvötnin skiptast og það jafnvel niður í byggð, svo að þau gjöra þannig alla fyrirstöðu óhægri og torveldari. Þar við bætist að sveitirnar kringum Blöndu eru einhverjar þær beztu í Húnavatnssýslu, og menn þar ágætir og áhugamiklir til fyrirstöðunnar beggja megin árinnar; og er ekki lítið varið í það. En þar á móti er margt fátækt fólk milli Hjeraðsvatna og Blöndu, og jafnvel afskekktar afrjettir, svo að skaðinn, að drepa á því svæði, yrði að tiltölu svo langtum meiri en svaraði hinni meiri vissu, sem fengist fyrir því, að samgöngur yrðu ekki.

Þá er enn eitt, sem sumir hafa farið fram á, að amtmaður Havstein hefði þegar átt að kalla menn saman hjer úr hinum næstu hjeruðum til að ráðgast við þá um niðurskurðinn og endurgjaldið. Vjer getum nú engan veginn sjeð, að neitt gagn hefði verið að slíku, heldur ógagn eitt. Því að láta Eyfirðinga eða aðra hjer úr næstu sýslum gefa atkvæði um niðurskurðinn í Húnavatnssýslu mundi hafa orðið þar mjög óvinsælt; eins og líka menn hjer hefðu lítið skynbragð borið á að dæma um hve mikill niðurskurðurinn þyrfti að vera. Vjer berum engar brigður á það, eptir því sem undan er gengið, að amtmaður Havstein hafi hinn bezta kunnugleika á málinu, og hinn bezta vilja til að gjöra allt, sem heilbrigð skynsemi býður, til að stemma stiga fyrir drepsótt þessari, og vjer viljum því ekki mæla með því, að neitt ráðaneyti sje sett við hlið hans, nema það sje þá svo saman sett, að verulegt gagns sje að vænta af því, og það virðist oss ekki hefði verið, þó að amtmaður hefði kvatt nokkra menn með sjer einungis hjer úr nærsveitunum.

---

Mikið þótti presti varið í skóla Ásvaldar þegar hann kom þangað fyrst. Þegar hann sá hversu þrifnaður, kyrð og spekt og góð reglusemi áttu þar heima, undraðist hann mjög og dáðist að því. Þegar að Ásvaldur kraup niður að flytja Drottni bæn af barnanna hendi, þakklætis og lotningarbæn, kraup hinn ungi kennimaður við hlið hans, og hrundu tár af augum honum. Þegar bæninni var lokið, tjáði hann Ásvaldi innilegustu þakkir sínar fyrir umhyggju hans fyrir börnunum. „Ágætur maður ertu,“ sagði hann, „þú hefur sáð hjer hinu góða sæðinu, sem upp skorið verður í eilífðinni. Veiti Drottinn mjer að feta í spor yðar! Ef að jeg nokkurn tíma missi hug og dug til að gegna skyldu minni, þá skal jeg koma hingað, og verða sjálfur lærisveinn þinn. Þegar börnin sáu nú, hve mikils hinn nýi prestur mat Ásvald, virtu þau hann og elskuðu því meir. Jón prestur læknaði bæði líkama og sálu sóknarbarna sinna. Hann sneri þeim frá þeirri villu að við hafa ýms hjátrúar og heimskuleg meðöl við sjúkdóma er áður hafði tíðkast. Og af því að hann hafði lagt sig eptir læknisfræði, svo hann þekkti meðöl við hinum almennustu sjúkdómum, læknaði hann svo marga, að fólk tók að hafa mikið traust á honum. Þannig fylgdi hann fótsporum frelsarans, að hann græddi sjúka og prjedikaði Guðs ríki.

Vjer hlaupum nú yfir nokkurn tíma, er þeir Jón prestur og Ásvaldur vörðu til að halda áfram endurbótum sínum í Auðdal. Ávextirnir urðu þeir eins og við mátti búast, að gott orð komst aptur á bæinn. Allar vörur bæjarmanna urðu smátt og smátt svo vandaðar, að allir sóttust eptir þeim. Bandamenn Ásvaldar stóðu allir stöðugir við heit sín, og unnu sjer bráðum svo marga áhangendur að þeir og Ásvaldur rjeðu mestu í bænum. Ásvaldur var nú kosinn í bæjarstjórnina, og aðrir fleiri af vinum hans; og fóru þeir undir eins að rannsaka reikninga hinna fyrri bæjar-

Annað mál virðist oss það, að amtmaður skoraði hið fyrsa á ákveðna menn úr öllum sýslum amtsins, 3 úr hverri, til vorfundar, til að ráða nákvæmar hinar ýtarlegri ráðstafanir um þetta málefni, t. a. m. um mat á skaðanum og niðurjöfnun á endurgjaldinu. Vjer vitum, að amtmaður hefur haft hug á að fá sjer þess konar ráðaneyti, þó að hann hafi sjeð, að ómögulegt væri að kalla það saman í vetur, og vjer álítum það mjög nauðsynlegt, að slíkur fundur yrði haldinn í vor. því hvað sem Húnavatnssýslu líður, þá þarf líka að tala sig saman um ýtarlegri varnir og ýtarlegri niðurskurð, ef að kláðinn skyldi útbreiðast lengra en til þeirrar sýslu, og væri mikið gagn að því, að þessar ráðstafanir yrðu sem eindregnastar, og alþýðu sem fyrst kunnar, svo háskinn kæmi engum að óvörum; og oss virðist, að það sje hið bezta ráð til þess. að fá hina hyggnustu menn hjer norðanlands til þess að koma fram og segja hugsun alþýðu skýrt og greinilega um málið; og oss þykir það líklegt, að óhætt megi fulltreysta því, að þessi fundur yrði hið bezta meðal til að jafna úr og samrýma hið marga ólíka og sjerstaka sem komið getur fram í þessum áður greindu skilyrðisloforðum

---

(Aðsent).

Jeg hefi opt orðið þess var, háttvirti ritstjóri Norðra, að yður hefur verið annt um að frelsa okkur bændurnar á Norðurlandi frá fjárkláðapestinni; og þó að aðrir sveitungar mínir segi, að Norðri sje æði málugur um þetta efni, þá hefi jeg aldrei fyllt flokk þeirra, heldur barið það fram jafnt og þjett — eins og þjer gjörið sjálfir — að það væri skylda yðar sem blaðamanns að tala iðuglega og rækilega um þetta efni.

En af því þjer hafið einhverstaðar sagt: betur sjá augu en auga, þá vona jeg. að þjer gjörið svo vel og gefa nokkrum línum, sem jeg nú skrifa yður, rúm í blaði yðar; því bæði finnst mjer,að þjer hafið lítið eða ekkert getið þess atriðis, og svo hefi jeg hvergi sjeð það koma fram núna, þegar verið er að tala um niðurskurðinn og endurgjald til þeirra, er skera þurfa, og þetta er nú mest tíðrætt um á þessum dögum hjer í sveitinni hjá okkur fjármönnunum.

þetta atriði, sem jeg vil tala um er þá:

**Lífsbjargarpeningur** og **gróðapeningur**, eða **sauðir** og **ær**.

Mig furðar nú á því, ritstjóri góður, að þjer skulað ekki enn hafa reynt að skýra það fyrir mönnum, hversu ólík þessi fjáreign er víðast hvar, hversu ómissandi okkur bændunum eru kvíaærnar eða mjólkurærnar, og hversu ólíkt er varið sauðaeigninni, sem víðast hvar er gróðapeningur. þjer, sem vitið, hver jeg er, hugsið nú, ef til vill, að jeg skrifi þetta af hlutdrægni, af því, að jeg hefi sagt yður, rjett eins og er, að jeg hefi 70 ær í kvíum. en ekki nema 30 sauði eldri en veturgamla, þegar jeg hefi haft þá flesta. En þó er það nú engin hlutdrægni sem ræður hjá mjer. þjer þekkið manninn hjerna í sveitinni, sem ekki hefur nema 80 ær, en setur þó

---

stjóra. Kom það þá í ljós, hve sviksamlega þeir höfðu stjórnað fje bæjarmanna, dregið það undir sig og sóað því, en látið bæjarsjóðinn safna skuldum svo þúsundum skipti. Var það einkum Brandur gestgjafi sem mest varð uppvís að slíkum fjárplóg, og hlífði Ásvaldur engum þeirra. Kom svo að lokum, að Brandur varð að selja allar eignir sínar til skaðabóta, og gat þó ekki goldið nær allt, er hann hafði dregið sjer af fje bæjarmanna.

Eptir að Ásvaldur og fjelagsmenn hans voru komnir í bæjarstjórnina, fundu þeir ýmisleg góð ráð til þess að koma upp velgengni bæjarmanna og borga skuldir bæjarsjóðsins, og tókst þeim það hvorttveggja vonum bráðara, og ávöxturinn af dugnaði og ástundun Ásvaldar og Jóns prests varð sá, að Auðdalur var á fáum árum orðlagður, bær um allt land, og álitin fyrirmynd annara.

VIII.

Nú var Ásvaldur fyrst ánægður, þegar Elísabet kona hans fæddi honum fallegan og frískleganm son. þegar barnið var fætt, gekk Ásvaldur til hins nýja gestgjafa í bænum, sem var einn af hinum staðföstu bandamönnum hans, til að segja honum tíðindin. „Vinur minn,“ sagði Ásvaldur, „jeg hefi aldrei beðið þig bónar, en nú verð jeg að gjöra það. Kona mín hefur nú fætt mjer son og erfingja. Jeg get ekki skilið við hana til að vera mjer í pengaútvegum, en mjer liggur á 500 rd. í 8 daga; geturðu ekki lánað mjer þá?“

„Jeg vil hjartans feginn lána þjer þá“, sagði vinur hans, „en jeg hefi ekki svo mikið í gullpeningum.“

„Láttu það vera gullpeninga, ef þú getur“, sagði Ásvaldur. „Gjörðu hvað þú getur, og færðu mjer þá annað kvöld klukkan átta, en láttu engan vita af því.“

ætíð á 120 sauði veturgamla og eldri. Það gjörir jörðin hans, sem er bezta útigangsjörð, svo að vetrarfóðrið er ljettbært, og afrjettarlandið, sem liggur svo nærri, að hann getur notað það nærri því eins og heimalandið. Þjer vitið líka, að þó að jeg hafi barni fleira á heimili en hann, þá hefi jeg allvel í búi, en hann er gróðamaður. Jeg bjargast vel — og eptirgjaldið af jörðunum er jafnt —, en hann græðir svo stórn nemur. Jeg vil nú ekki hæla mjer neitt fyrir búskapinn, en þó segja sveitungar mínir, að mjer mundi álnast eins vel og honum, ef ekki væri jarðamunurinn. Og hvað er það þá, sem gjörir muninn? Jeg gegni þeirri spurningu, og segi: Það er betri sauðjörð. Þar sem hentugt er og kostnaðarlítið að hafa marga sauði, þar er meiri gróði af jörðinni, ef báðar eru jafnvel notaðar. Það er nú reyndar auðvitað, að sauðahaldið getur orðið nokkuð dýrt, þar sem ekki er hægt að hafa svo margar ær, að lömbin nægi til viðaukans á sauðunum. En þó að nágranni minn hafi nú einlægt keypt geldinga að hausti, og núna seinustu árin gefið allt að spesíu fyrir fallegan gelding, þá er þó þess að gæta, að litlu er til kostað nema lambseldinu; og eptir lambsárið borgar sauðurinn einlægt töluvert meira en fóður og hirðingu með vorullinni, á þess konar jörðum, og á sauðunum er fyrir minnstum vanhöldum að gjöra, nema með bráðafárið, sem tekur jafnt úrval úr öllum peningi; og þegar bráðafárið drepur ærnar hans niður, þá er hann reyndar því ver farinn, sem jörðin hans leyfir honum að hafa meira upp úr lömbunum.

Þegar jeg sá nú amtmannsbrjefið, eða þó rjettara sagt sýslumannsbrjefið hjá prestinum mínum um niðurskurðinn, sem ætti að verða í Húnavatnssýslu, þá fór jeg nú að hugsa um gamla máltækið, sem jeg sá í einhverri nýju bókinni, og þekkti ekki áður — er það íslenzkt? — „Þegar náungans veggur brennur, þá er þínum hætt“; og þá datt mjer í hug, hver harðara yrði út undan okkar nágrannanna — því, okkur um að tala, hefur ætíð verið nágrannajeg vil ekki segja ríkismannarígur milli okkar —. Mjer fannst þá undir eins, að mjer væri það engin skript að drepa niður — einkum að haustlægi — þessa 30 sauði, en mjer væri þar á móti óhreppandi tjón að drepa niður mjólkurærnar. Mjer fannst nú líka, að þó að granni minn yrði skyldaður til að drepa niður 120 sauðina sína, þá væri það honum engin skript heldur. Jeg hugsaði mjer það svona: Framan af í búskap mínum, og allt þangað til jeg átti fjórða barnið, hafði jeg enga sauði, enda hefi jeg lítinn hag haft af þeim, því þeir verða mjer þó æði fóðurþungir að vetrinum, en allir sauðirnir hans granna míns, eru honum gróðafje, og er hann því þess vegna betur farinn, þó að hann verði að slátra þeim öllum, því það er eins og leigufje, sem maður á hjá manni. En í stað þess, að maður fjekk 12 rd. af 100 rd. fær maður nú varla innstæðuna. Þetta er gróðahnokkir mikill, en engan veginn nein sjerleg búmissa, eins og Jónsbók yðar kallar það. Jeg er því nokkurn veginn — en hann öldungis — jafnrjettur eptir sem áður.

---

Á líkan hátt gekk Ásvaldur til allra hinna þrjátíu og tveggja bandamanna sinna, er gengið höfðu undir hinar sjö reglur hans. Hann beiddi þá alla hins sama, og ákvað sama tíma fyrir þá alla til að koma með peningana. Allir þessir vinir fundust nú að Ásvaldar í rökkrinu kvöldinu eptir, og var þeim fylgt inn í herbergi, sem lítil sem engin birta var í. Ásvaldur gekk til að sækja ljós, og kom aptur eptir litla stund í hermannabúningi, kross á brjósti og sverð við síðu, rjett eins og hann hafði staðið þar fyrir þeim 7 árum áður. „Hafið þjer fært mjer fjeð, vinir mínir!“ mælti Ásvaldur. „Ef að þjer færið mjer, þá gjörið svo vel og leggja það hjer á borðið.“ Nú kom hver eptir annan, og lagði sína gullpeningahrúgu á borðið.

Þá tók Ásvaldur til máls: Minnist þess nú, vinir mínir! að reynslutími yðar er nú liðinn. Sjö árin og 7 vikurnar eru nú á enda. Og nú hafið þjer lagt meira gull á borð þetta heldur en á því var nóttina sem þjer bunduð heit yðar. Jeg hefi efnt loforð mitt. Jeg hefi kennt yður þá íþrótt að búa til gull. Standið nú stöðugir í trausti yðar til Drottins, og haldið framvegis eiða yðar, þá mun velgengni yðar aukast dag frá degi. Þegar þjer alið börn yðar upp, þá kennið þeim hinar sömu reglur, og munu þau þá hljóta bæði auðlegð yðar í arf, og blessun þá, er fylgir vel öfluðum auð.“

Þegar Ásvaldur hætti máli sínu, tjáðu þeir honum á margan veg hjartanlegar þakkir fyrir allt er hann hafði gjört fyrir þá. Hann fjekk nú hverjum þeirra aptur fje sitt, og sagði þeim að hann væri ekki fjeþurfi. Hvað getum vjer nú gjört til þess að votta þjer þakklæti vort? sögðu þá margir þeirra einum munni. Segðu oss það, því vjer erum fúsir til að leggja lífið í sölurnar fyrir þig, því hefðir þú ekki hjálpað oss, værum vjer nú allir á sveitinni.“

Þá svaraði Ásvaldur máli þeirra á þessa leið:

þegar jeg var nú búinn að bollaleggja allt þetta, þá fór jeg nú fyrst að hugsa um Húnavatnssýslu. — þjer verðið að fyrirgefa mjer þó að jeg hugsaði fyrst um niðurskurðinn hjá sjálfum mjer; því hver er sjálfum sjer næstur. — þá datt mjer líka í hug, að víðlíka mundi ástatt víða í Húnavatnssýslu, að sauðaeignin væri gróðaeign, og mjólkurær eignin einkum til lífsbjargar. Jeg var þar einu sinni á ferð — það var þegar jeg átti í málinu fyrir landsyfirrjettinum hjerna fyrir æði mörgum árum —, og jeg spurði mig þá svo vel fyrir sem jeg gat, því það var þá undir eins orð komið á, að Húnvetningar væru fjárríkari og hefðu betri hirðingu á sauðfje en við Norðanmenn. Og þá virtist mjer hið sama verða ofan á og í minni sveit. þar í sýslu voru þá margir sauðir í Miðfjarðardölum — Hrútafjörð kom jeg ekki í — Víðidal, Vatnsdal, þingi, Svínadal, Blöndudal, Svartár- og Langadal og á Ásum. þetta eru nú fjársveitirnar, sem jeg man. þar á móti heyrði jeg nefndar sem fjárlitlar sveitir: Sveitirnar fyrir utan Blöndu, þar að auki, Vesturhóp og Vatnsnes og Síðu — hvar hún er, veit jeg ekki —. þó var í þá daga nefnd Sauðadalsá — jeg held á Vatnsnesi — sem var sauðajörð.

Jeg fór þá að hugsa um hversu mikill skaðinn væri að skera niður, og fannst mjer hann undir eins fjarskalegur. Jeg hugsaði nú eins og einfaldur bóndi, að það þyrfti að skera niður allt fje í Húnavatnssýslu, eða að minnsta kosti allt geldfje að Blöndu að vestanverðu, og svo allar ær í þeim sveitum þar sem kláðinn hefur komið fram, eða að minnsta kosti á þeim bæjum þar sem drepsótt þessi hefur komið í ljós, og á næstu bæjum þar í kring. Mjer fannst nú að bæta yrði mjólkurærnar fullum bótum, það er að skilja, að meta yrði, hvað mikið minna fengist upp úr ánni, þegar hún er skorin að vetrarlægi heldur en að haustlægi, og þenna mismun ætti að bæta. Líka þyrfti að virða og bæta þann skaða, sem Húnvetningar hafa af því, að missa þenna ærpening frá sumargagni að komandi sumri, því þeir missa ekki einungis það, sem ærin er lakari en að haustlægi, heldur missa þeir líka lambið, sem hún hefði átt í vor, og málnytu hennar, það er að skilja, þeir missa lömbin til að fjölga fjenu, og málnytuna til að leggja í búið, þangað til þeir geta komið upp ám aptur. En þegar nú aptur á móti á að skera sauðina, þá finnst mjer þar vera öðru máli að gegna. þar er skaðinn mestur í því fólginn að drepa nú í vetur í staðinn fyrir að haustlægi. það er nú auðvitað að það nemur stóru, hvað sauðir eru nú orðnir lakari á útmánuðum, einkum þegar þess er gætt, hve örðugt menn eiga með að hagnýta sjer þá, og verja þeim sjer til hagnaðar og í peninga. Jeg gjöri þó ráð fyrir að menn hafi allt að helmingi upp úr þeim, og þá ættu þeir að hafa þá bætta hálfum bótum að tiltölu; en nú kemur mín kredda. Af því að jeg álít sauðina gróðapening, þá vil jeg ekki láta bæta þá, nema fjórðungi verðs þeirra að haustlægi, og þetta bið jeg yður og aðra, þegar kemur að því að meta skaðabæturnar, að yfirvega hvort ekki sje sanngjarnt. Að minnsta kosti finnst mjer að töluverðan mun

---

„Jeg kann yður, góðir vinir, miklar þakkir fyrir vináttu yðar og velvilja mjer til handa; en jeg þarf engrar hjálpar eða fjestyrks af yðar hendi. Jeg hefi það að þakka föður mínum, sem var skynsamur maður og ljet gefa mjer gott uppheldi. þegar jeg komst í herþjónustu, þá sá jeg fyrst, hve mikil not jeg hafði af öllu, er jeg hafði lært, og af því að jeg kunni vel landmælingar, og gætti vel skyldu minnar og þótti góður liðsmaður, þá varð jeg foringi fyrir riddaraflokki. Einu sinni bar svo við í orustu, að konungs sonur varð gjörður fráskila frá mönnum sínum, og höfðu óvinir hans slegið hring um hann. þá gjörði jeg þeim atreið með riddurum mínum, og frelsaði hann úr háskanum. Í þeirri hríð fjekk jeg sárið það sem enn sjer merki á enni mínu; en að launum fjekk jeg virðingarmerki það sem jeg ber á brjósti, og rífleg árslaun meðan jeg lifi. Konungs sonur hefur aldrei gleymt mjer síðan, en verið jafnvel svo lítillátur að heimsækja mig hjer eins og þjer hafið sjeð. þegar jeg kom aptur hingað í Auðdal, og sá hversu öllu hafði farið hjer hnignandi, þótti mjer það hyggilegt að láta ekki á bera, hvernig stæði á högum mínum. Jeg varð nú fljótt fullreyndur í fyrstunni að búa hjer í Auðdal, og hefði jeg ekki sjeð Elísabet, hina ágætu konu mína, og fengið ást til hennar, hefði jeg skjótt farið hjeðan burtu. En þegar jeg hafði fengið ást til hennar, einsetti jeg mjer að reyna af fremsta megni að afla bænum viðreisnar. Og til þess að koma því til leiðar, leyndi jeg auðæfum mínum fyrir öllum nema henni og foreldrum hennar. En þó að þjer vitið nú hver jeg er, þá látið það ekki gjöra neinn mun í umgengni yðar við mig; þjer eruð bræður mínir, og engin nafnbót þykir mjer eins mikils verð og sú að heita vinur yðar.“ „þá,“ sagði forgöngumaður bandamanna, „ætlum vjer allir með konu og börnum að vera við skírn sonar þíns, og halda þann dag hátíðlegan á heimilum vorum,

ætti að gjöra á skaðabóta-endurgjaldi fyrir ær og sauði, og meiru ætti að bæta ærnar, sem eru lífsbjargarpeningur en sauðina; en að reikna út þann sanngjarnasta mismun, til þess þarf nú meira vit en mitt bóndavit.

---

## „Sumt var þarft, sumt vjer ekki um tölum“.

(Niðurlag). Það er satt, að Húnvetningum fyrir vestan Blöndu var í haust bannað að reka fje í kaupstað, en orsökin til þess var sú, að í göngunum hafði fundizt suður á heiðunum kláðaveik kind frá Reykholti, sem komið hafði saman við nokkuð af fjársafni því, er átti heima fyrir vestan Blöndu; nokkrir málsmetandi menn fyrir vestan Blöndu sömdu því bónarbrjef um, að sýslunefndin leyfði ekki fjárrekstra norður eða austur yfir ána, ef ske kynni, að einhverjar kindur hefðu fengið kláða af hinni nýnefndu kláðakind. Þó nú hin nákvæma skoðun, sem framfór strax í rjettum á hverri skepnu, gjörði það mjög ólíklegt, að nokkuð væri að óttast í þessu tilliti, þótti sýslunefndinni samt vert — svo öll varúð væri við höfð — að taka til greina beiðni þeirra fyrir vestan Blöndu.

Einhverjir kynnu nú að hugsa og segja, að sýslunefndin hafi með þessu banni gjört ómetanlegan skaða öllum sýslubúum fyrir vestan Blöndu; en vjer ætlum að sú ímyndun eða áburður falli af sjálfu sjer, þegar að gætt er, að matvöruskortur var svo mikill í haust við báðar verzlanirnar á Skagaströnd og Hólanesi, að margir fengu ekki nærri því svo mikið af kornvöru, sem þeir þurftu og óskuðu eptir, og peningar voru ekki heldur fáanlegir til nokkurra muna. Það mun því reynast, ekki einasta skaðlaust, heldur jafnvel affarabetra en fjársala í kaupstaðinn, sem vjer heyrum sagt, að almennt hafi verið gjört vestan megin Blöndu, að bændur hafi lagt frá til heimilis þarfa sinna nokkuð fleira fje en venjulega, enda vitum vjer ekki betur, en allflestir, eða allir hinir betri og hyggnari bændur könnuðust fljótt við, að ráðstöfun sýslunefndarinnar, þessu efni viðvíkjandi, væri heillavænleg, eptir því sem ástatt var.

Vjer vonum nú að allir sjái, og einnig hinn heiðraði höfundur öndverðlega nefndrar greinar í Þjóðólfi, að öll ástæða hefir verið til að leiðrjetta opinberlega álit hans, og dóm þann er hann hefur lagt á málefni þetta. Það er alkunnugt, að amtmaður Havstein hefur ekkort látið ógjört, er í hans valdi stóð, til að sporna á móti því, að sunnlenzki fjárkláðinn kæmist inn í Norðurland, og það er með öllu samkvæmt öðrum hjeraðlútandi ráðstöfunum hans, að hann vjeði frá að reka fje út úr Húnavatnssýslu á næstliðna hausti, og dregur það því alls ekkert úr heiðri hans og þakklæti, er hann á skilið fyrir umhyggju hans í þessu efni fyrir heillum amtsbúa sinna. Sýslunefndin hefur og ekki látið sitt til vanta, hún hefur með stöðugri árvekni og samheldi gjört allt, sem gjört hefur orðið af hennar hálfu, til að vernda Húnavatnssýslu og norðurland fyrir voða þeim, sem búinn væri, ef fjárkláðinn kæmist inn í það;

---

fyrst að vjer getum á engan annan hátt sýnt þjer þakklæti vort.“

Þegar sunnudagurinn kom voru unglingar og börn í Auðdal snemma á fótum, því þenna dag átti að skíra son Ásvaldar. Um morguninn þegar Ásvaldur kom út, gekk hann inn aptur og kyssti konu sína og barn. Komdu, líttu út Elísabet sagði hann. Jeg get varla tára bundizt. Jeg gleðst svo yfir syni mínum, og hvernig bærinn hjerna tekur þátt í gleðinni minni. Hver getur neitað því að góðsemi og þakklæti búi í brjóstum mannanna? Í nótt hafa bæjarmenn þakið hús okkar utan með jurtakerfum eins og börnin gjörðu á giptingardag okkar, og þar að auki eru öll húsin í bænum skreytt með grænum skógviðar laufgreinum og ýmislega litum blómgrösum, eins og hátíðarhald okkar í dag sje hátíð í hverju húsi, og um allan veginn frá húsi okkar til kirkjunnar er stráð grænu birkiviðarlaufi, fjólum, bláklukkum og sóleyjum.

Gleðiroði flaug um kinnar hinnar ungu móður, og tár stóðu í augum henni, þegar Ásvaldur sagði henni þessar frjettir. „Jeg heyrði fótatyt og mannamál í nótt,“ sagði hún, „og vissi jeg ekki hvað á gekk“. Hún klæddist nú og leit út um gluggann, og runnu þögul gleðitár um kinnar henni, því ekkert hrífur meira viðkvæma sálu, en að finna samfögnuð margra af góðum huga sprottinn, sú tilfinning er fyrirboði hins himneska fagnaðar. Hin góða tengdamóðir Ásvaldar gat ekki ráðið sjer fyrir fögnuði „Aldrei hefur slík viðhöfn verið við skírn nokkurs barns í Auðdal í mannaminnum, og ekki einu sinni, þegar konungi vorum hefur fæðst ríkiserfingi? Skömmu seinna komu öll ungbörn í Auðdal í fylkingu; komu þau inn tvö og tvö í einu, og voru búin í hin beztu spariföt sín, og fluttu þau öll syni Ásvaldar smávegis fallegar vöggugjafir, kysstu á hönd Ásvaldar og Elísabetar og kölluðu þau fóstra sinn og fósturmóður.

hún hefur ekki hlíft sjer við margs konar fyrirhöfn og umbunarlausum ómökum, sem flotið hafa af þessari köllun hennar; og á hún því allt annað skilið en að sæta álasi og óþakklæti, hvort heldur af Norðlendingum eða Sunnlendingnm, því það er vel athugandi, að Sunnlendingum ríður ekki minna á því en Norðlendingum sjálfum, að Norðurland yrði verndað fyrir fjárkláðanum, bæði vegna atvinnu þeirrar, er svo margir á Suðurlandi hafa af kaupavinnu fyrir norðan, og vegna þess, að með því móti gætu Sunnlendingar átt kost á að eignast aptur fjárstofn, ef þeir missa fje sitt, eins og út lítur fyrir. Þess væri óskandi, að frá upphafi hefði verið lögð jafnmikil alúð á, að kefja fjárkláðann fyrir sunnan og varna útbreiðslu hans, eins og hingað til hefur verið lögð á, að verja honum inn í Norðurland; væri þá ekki ólíklegt, að nú áhorfðist betur fyrir Sunnlendingum um sauðfjárhöld þeirra, en sögur fara af, og væri betur þær væru ekki sannar.

Hvað áhrærir hin hátslegu orðatiltæki, sem kom fyrir í optnefndum greinum, t. a. m. um „keituplakatið gó a“ og þar sem talað er um „þetta virkilega kammerráð, sem situr að ríkjum á Ytriey, og að bannið sje útgengið frá „veldisstólnum að Ytriey“, þá er þetta og þvílíkt ósamboðið menntun höfundarins, ósamboðið mannúð þeirri og kurteysi, sem hver rithöfundur er lesendum sínum skyldugur um, ósamboðið aðferð þeirri, sem viðurkvæmilegust er og bezt fallin bæði til að leiðrjetta, þar sem þess kynni við að þurfa, og til að vernda heiður og hylli blaðsins og blaðamannsins; auk þess, að það er mjög óverðugt, að brúka þvílík orðatiltæki um kammerráð Arnesen, sem að er miklu fremur kunnur sýslubúum sínum að elskuverðri mannúð og velvilja, en að harðstjórnarlegri aðferð. Vjer leyfum oss því að lyktum að mælast til þess í bróðurlegri vinsemd og hógværð, en jafnframt með fullri einurð og alvörugefni, að ábyrgðarmaður Þjóðólfs vandi rit sín að efni og orðfæri, riti af hreinskilinni sannleiksást og kristilegum kærleika, eins og sæmir menntun hans og tilgangi blaðs þess, er hann gefur út, án efa af bezta vilja til að vinna löndum sínum sannarlegt gagn; og að svo mæltu óskum vjer honum og blaði hans ástsældar og hylli allra góðra manna.

Húnvetningur.

---

Með brjefi af 21. jan. næstliðsins til sýslumanns í Húnavatnssýslu hefur amtmaður skipað að skera niður tafarlaust alla geldsauði fyrir vestan Blöndu í Húnavatnssýslu, sömuleiðis alla gemlinga, nema lembdar gimbrar, og líka ær, er að undan förnu hafa gengið með dilkum, og láta hreppstjóra um leið semja nákvæmar og greinilegar skýrslur um tölu og tegundir þess fjár, sem þannig verður lógað, eins og líka sjerstaklegar um þær kindur, sem sýktar og grunaðar kláðans vegna verða skornar. Líka skal framfylgja hinum sömu ráðstöfunum sem þegar hafa verið gjörðar um förgun hins sýkta og grunaða fjár og

---

Nú var hringt öllum kirkjuklukkum. Barnið var klætt og flutt í kirkjuna. Næst á epir því gengu afi þess og amma. Þar næst Ásvaldur, sem var mjög glaður, og bar í huga sínum saman þennan dag og þann er Auðdælir börðu hann grjóti. Allir sóknarmenn, ungir og gamlir, höfðu raðað sjer í hálfhring fyrir kirkjudyrum, og biðu þar Ásvaldar. Þegar hann kom, sagði söfnuðurinn með blíðri, vingjarnlegri röddu: „Komdu blessaður og sæll, Ásvaldur fóstri, og fylgdu honum síðan allir í kirkju. Þegar búið var að skíra barnið, hjelt Jón prestur ræðu til safnaðarins, og lagði út af „hinum góða hirði.“ Þann dag tókst sjera Jóni upp. Hvert orð ruddi sjer rúm til hjarta áheyrandanna. Þegar hann að lyktum kom til bænarinnar, og bað með skjálfandi röddu fyrir hinum góðu hirðum Auðdæla, þegar hann nefndi nafn Ásvaldar, og gat sjálfur ekki tára bundist, þá grjet allur söfnuðurinn, því hver og einn minntist þá alls þess, er Ásvaldur hafði gjört, allrar árvekni hans og umhyggju fyrir velferð þeirra, og þeir gjörðu allir af hjarta bæn sína fyrir velfarnan hans.

Þegar Ásvaldur kom heim, settist hann og allir hinir helztu Auðdælir að skírnarveizlunni, og í hverju húsi í Auðdal var mikið um dýrðir því allir bæjarmenn hjeldu daginn sem stórhátíð, eins og hver bæjarmaður hefði haft barn í kirkju til skírnar. Ásvaldur kvaðst ómaklegur allrar þeirrar, velvildar er bæjarmenn sýndu honum, en þó fagnaði hann þakklátsemi þeirra. Um kvöldið gekk hann um bæinn til að þakka mönnum velvild þeirra. Og allt kvöldið voru ungir menn að dansa og syngja á leikfleti bæjarins; og minntust menn lengi þessa dags í Auðdal. Síðan hafa ungir menn í Auðdal einlægt kallað Ásvald fóstra, og Elísabet fóstru sína.

---

um vöktun alls sauðpenings við hús og hey, og skulu menn skera af heyjum þar sem ekki eru nægar heybirgðir. Brjefið endar amtmaður þannig: „Jeg fulltreysti því, að mínir kæru Húnvetningar, er jeg hefi skoðað sem fyrirmynd annara Íslendinga hvað dugnað og drenglund snertir, láti ekki ímyndaðan eiginn hag og sjerlyndi aptra sjer frá að fylgja mjer samhuga í framkvæmd þess, er eitt getur frelsað þá og aðra amtsbúa frá hallæri og hungursneyð."

Í öðrum brjefum af 6. og 10. þ. m. brýnir amtmaður enn betur niðurskurðinn fyrir Húnvetningum, og tekur fram hinar nánari reglur er fylgja skuli við framkvæmd hans; bannar einnig allar lækningatilraunir, þar eð þær geti ekki samþýðst öðrum þeim ráðstöfunum, er gjörðar hafa verið til að sporna við útbreiðslu kláðafaraldursins.

---

# Auglýsingar.

**Þriðjudaginn 9. marz næstkomandi lætur verzlunarfulltrúi P. Th. Johnsen á Akureyri selja þar í húsum sínum við opinbert uppboð mikið af járnvöru, smíðað járn og ósmíðað, ljereptum og klútum og alls konar kramvöru, og nokkur búðaráhöld, ásamt ýmsu fleira, móti borgun í peningum eða verzlunarvörum innan næstkomandi septembermánaðar loka.**

**Við sama uppboð, og á sama tíma, lætur læknisekkjan, frú A. Johnsen á Akureyri, selja stóla og dragkistur og ýmislegan annan húsbúnað, borðbúnað og eldhúsgögn, flest vandað, og margt annað smátt og stórt úr búi sínu; þar að auki tölu vert af bókum, o. s. frv. Borgunarskilmálarnir eru hinir sömu.**

**Óskar því sýslumaður, að allir, er slíka hluti kaupa vilja, komi til uppboðsins á nefndum stað og tíma.**

---

Þar eð arfs tilkall nokkurt í dánarbúinu eptir prestinn Sigurð sál. Árnason frá Hálsi og fyr dána seinni konu hans Valgerði Magnúsdóttur, nú er til lykta leitt með hæstarjettardómi frá 29. júní f. á., þá er af mjer sem skiptaráðanda ákveðinn fundur í greindu dánarbúi á skrifstofu sýslunnar á Húsavík, fimmtudaginn þann 3. dag júnímánaðar næstkomandi kl. 10. f. m., hvar þá bæði fjærverandi erfingjar prestsins sál. og aðrir hlutaðeigendur, er nokkra kröfu meina sig að hafa til dánarbúsins eptir áminnst hjón, eru kallaðir að mæta eða mæta láta, til að gæta rjettar síns að lögum.

Skrifstofu Þingeyjarsýslu 8. janúar 1858.

S. Schulesen.

Vegna þess að vjer, ráðendur heiðarlandsins Dalskvísla — sem að stærð og gæðum er álitið nægilegt fyrir 8—10 býli — höfum að engu verið sæmdir með borgun fyrir þann afarfjölda sauðfjár og stóðhrossa, sem af báðumegin aðliggjandi heiðum hefur yfirtroðið þær —, þá bjóðum vjer nú hverjum sem girnist nýbýli, að koma sem fyrst og semja við oss um byggingu í nefndum Dalskvíslum, sem orðið getur næstum óslitin byggð frá Vatnsdalnum; og til merkis um, að menn ei þurfa að fráfælast þetta, þá gjörum vjer vitanlegt, að 2 dugandismenn hjer í grenndinni sem þekkja landið, hafa þegar tjáð sig mjög viljuga til þessa fyrirtækis,

Þórormstungu og Forsæludal í Vatnsdal 1. desember 1857.

Björn Guðmundsson. Brynjólfur Brynjólfsson.

Piltur eða unglingsmaður, sem ekki er yngri en hjerumbil 16 ára, dyggur og ráðvandur, vel læs á prent og skrif, og nokkurn veginn skrifandi, í góðu meðallagi að líkamsburðum, heyrnargóður og sjóngóður, handlæginn og verklæginn, námfús og lagaður til bókmennta, á nú kost á að verða tekinn til að læra prentlist í prentsmiðjunni á Akureyri, með þeim kjörum, að hann sje 3—5 ár í kennslu, og fái að launum hvert ár 80—120 ríkisdali, og að öðru leyti með þeim skilmálum, er honum um semur við prentsmiðjunefndina. Hver, sem vill sæta þessu boði, er beðinn, eða þeir sem að honum standa, að semja um þetta við nefndina fyrir næstkomandi krossmessu.

Akureyri 24. febrúar 1858.

Fyrir hönd prentsmiðjunefndarinnar

**Sv. Skúlason.**

Ný upptekið fjármark í Hálshrepp í Þingeyjarsýslu:

Tvístýft framan vinstra. Brennimark: B Joh.

Bjarni Jóhannesson á Sellandi.

Þetta mark eru hreppstjórar vinsamlega beðnir að skrifa hjá sjer í viðauka markabóka.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd.; einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletrslínu, en 5 sk. fyrir línu með ... letri.

6. ár. 20. Marz. 5.—6.

# Verðlags-skrár

## sem gilda í Norður- og Austurumdæminu frá miðju maimánaðar 1858 til jafnlengdar 1859.

| | Í Húnav.- og Skagaf.-sýslum. | | | | | Í Eyjaf.- og Þingeyjar-sýslum. | | | | | Í báðum Múlasýslum. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. |
| **A. Prísdur peningur:** | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | rd | ß | ß |
| 1 ct. 1 kýr í fardögum, 3-8 vetra . . . | 40 | 47 | 40 | 47 | 32½ | 37 | 58 | 37 | 58 | 30 | 31 | 44½ | 31 | 44½ | 26 |
| - — 6 ær - — 2-6 — hver á | 4 | 48 | 27 | „ | 21½ | 4 | 88½ | 29 | 51 | 23½ | 5 | 31½ | 31 | 93 | 25½ |
| - — 6 sauðir á hausti, 3-5 — — - | 6 | 27 | 37 | 66 | 30 | 6 | 87 | 41 | 42 | 33 | 7 | „ | 12 | „ | 33½ |
| - — 8 — - — tvævetrir — - | 4 | 73½ | 38 | 12 | 30½ | 5 | 37 | 43 | „ | 31½ | 5 | 51 | 44 | 24 | 35½ |
| - — 12 — - — veturgaml. — - | 3 | 34 | 40 | 24 | 32 | 3 | 85½ | 46 | 66 | 37½ | 3 | 95½ | 47 | 90 | 38½ |
| - — 8 ær á hausti, geldar . . . . — - | 4 | 33½ | 31 | 76 | 28 | 5 | 17 | 41 | 40 | 33 | 5 | 29½ | 42 | 44 | 34 |
| - — 10 - - — - mylkar . . . . — - | 2 | 75½ | 27 | 83 | 22½ | 2 | 86½ | 29 | 1 | 23 | 3 | 43 | 34 | 48 | 27½ |
| - — 1 áburðarhestur í fardög., 5-12 vetra | 19 | 90 | 19 | 90 | 16 | 23 | 22 | 23 | 22 | 18½ | 22 | 84 | 22 | 84 | 18½ |
| 90 álnir, 1 hryssa, jafngömul . . . . . . | 16 | 33 | 20 | 44 | 16½ | 19 | 5 | 25 | 38½ | 20½ | 16 | 27 | 24 | 36 | 19½ |
| **B. Ull, smjör og tólg:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 120 ℔ af hvítri ullu . . . . . ℔ á | „ | 39 | 48 | 72 | 39 | „ | 40½ | 40 | 60 | 40½ | „ | 41 | 51 | 24 | 41 |
| - — 120 - - - mislitri — . . . . . . - | „ | 29½ | 38 | 84 | 29½ | „ | 32 | 40 | „ | 32 | „ | 32 | 40 | „ | 32 |
| - — 120 - - - súru smjöri . . . . . . - | „ | 24½ | 30 | 60 | 24½ | „ | 24 | 30 | „ | 24 | „ | 25 | 31 | 24 | 25 |
| - — 120 - - - tólg, vel bræddri . . . - | „ | 23½ | 29 | 36 | 23½ | „ | 23 | 28 | 72 | 23 | „ | 24 | 30 | „ | 24 |
| **C. Tóvara af ullu,** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 60 pör eingirnis-sokka . . . parið á | „ | 27½ | 17 | 18 | 14 | „ | 35 | 21 | 84 | 17½ | „ | 19 | 11 | 84 | 9½ |
| - — 30 — tvinnabands gjaldsokka — - | „ | 35½ | 11 | 9 | 9 | „ | 41 | 12 | 78 | 10 | „ | 36 | 11 | 24 | 9 |
| - — 120 — tvíþumlaðra sjóvetlinga — - | „ | 12 | 15 | „ | 12 | „ | 15 | 18 | 72 | 15 | „ | 9 | 11 | 24 | 9 |
| - — 20 eingirnis-peisur . . . . . hver - | „ | 84 | 17 | 48 | 14 | „ | 94 | 19 | 56 | 15½ | „ | 84 | 17 | 48 | 14 |
| - — 15 tvinnabands gjaldpeisur . — - | 1 | 17½ | 17 | 70½ | 14 | 1 | 25 | 18 | 87 | 15 | 1 | 32 | 20 | „ | 16 |
| - — 120 álnir vaðmáls, álnar breiðs. 1 al. - | „ | 44 | 55 | „ | 44 | „ | 41 | 51 | 24 | 41 | „ | 48 | 60 | „ | 48 |
| - — 120 — einskeptu, 4-5kv. á br. - - - | „ | 30 | 37 | 48 | 30 | „ | 32½ | 40 | 60 | 32½ | „ | 42½ | 58 | 12 | 42½ |
| **D. Fiskur:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 6 vættir af saltfiski . . . . . vætt. á | 5 | „ | 30 | „ | 24 | 4 | 64 | 28 | „ | 22½ | 4 | 80½ | 29 | 3 | 23 |
| - — 6 — - hörðum fiski . . — - | 4 | 35 | 26 | 18 | 21 | 4 | 3½ | 24 | 21 | 19½ | 4 | 83½ | 29 | 21 | 23½ |
| - — 6 — - smáfiski . . . . . — - | 4 | 28 | 25 | 72 | 20½ | 3 | 93 | 23 | 78 | 19 | 4 | 88 | 29 | 48 | 23½ |
| - — 6 — - ísu . . . . . . . — - | 3 | 92½ | 23 | 75 | 19 | 3 | 56 | 21 | 48 | 17 | 3 | 84 | 23 | 24 | 18½ |
| - — 6 — - hákarli hertum . — - | 3 | 91½ | 23 | 69 | 19 | 3 | 53 | 20 | 18 | 16 | 3 | 36 | 20 | 24 | 16 |
| **E. Lýsi:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 1 tunna hvallýsis. . . . . 8 pottar á | 1 | 36 | 20 | 60 | 16½ | 1 | 64 | 25 | „ | 20 | „ | „ | „ | „ | „ |
| - — 1 — hákarlslýsis . . . 8 — - | 2 | „ | 30 | „ | 24 | 2 | 17 | 32 | 63 | 26 | 1 | 90 | 29 | 6 | 23 |
| - — 1 — sellýsis . . . . . . 8 — - | 1 | 86 | 28 | 42 | 23 | 2 | 8½ | 31 | 31½ | 25 | 1 | 85½ | 28 | 34½ | 22½ |
| - — 1 — þorskalýsis . . . 8 — - | 1 | 85 | 28 | 27 | 22½ | 1 | 88 | 28 | 72 | 23 | 1 | 53 | 23 | 27 | 18½ |
| **F. Skinnavara.** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 4 fjórð. nautskinns . . . . . fjórð. á | 5 | 16½ | 20 | 66 | 16½ | 4 | 90½ | 19 | 74 | 16 | 5 | 14 | 20 | 56 | 16½ |
| - — 6 — kýrskinns . . . . . . — - | 4 | 3 | 24 | 18 | 19½ | 3 | 76 | 22 | 72 | 18 | 4 | 7 | 24 | 42 | 19½ |
| - — 6 — hross-skinns . . . . . — - | 3 | 42 | 20 | 60 | 16½ | 3 | 7½ | 18 | 45 | 15 | 2 | 82 | 17 | 12 | 13½ |
| - — 8 — sauðsk., af 2vetr. og eldri — - | 2 | 36 | 19 | „ | 15 | 2 | 3½ | 16 | 28 | 13 | 1 | 59 | 12 | 88 | 11½ |
| - — 12 — — af ám, vet., g. sauð. — - | 1 | 62 | 19 | 72 | 16 | 1 | 64 | 20 | „ | 16 | 1 | 22 | 14 | 72 | 12 |
| - — 6 — selskinns . . . . . . — - | 3 | 67½ | 22 | 21 | 18 | 4 | 17 | 25 | 6 | 20 | 4 | 47 | 26 | 90 | 21½ |
| - — 240 lambskinn (vorl.), einlit, hvert - | „ | 6 | 15 | „ | 12 | „ | 7 | 17 | 48 | 14 | „ | 7½ | 18 | 72 | 15 |

um vöktum alls sauðpenings við hús og hey, og skulu menn skera af heyjum þar sem ekki eru nægar heybirgðir. Brjefið endar amtmaður þannig: „Jeg fulltreysti því, að mínir kæru Húnvetningar, er jeg hefi skoðað sem fyrirmynd annara Íslendinga hvað dugnað og drenglund snertir, láti ekki ímyndaðan eiginn hag og sjerlyndi aptra sjer frá að fylgja mjer samhuga í framkvæmd þess, er eitt getur frelsað þá og aðra amtsbúa frá hallæri og hungursneyð.“

Í öðrum brjefum af 6. og 10. þ. m. brýnir amtmaður enn betur niðurskurðinn fyrir Húnvetningum, og tekur fram hinar nánari reglur er fylgja skuli við framkvæmd hans; bannar einnig allar lækningatilraunir, þar eð þær geti ekki samþýðst öðrum þeim ráðstöfunum, er gjörðar hafa verið til að sporna við útbreiðslu kláðafaraldursins.

---

# Auglýsingar.

**Þriðjudaginn 9. marz næstkomandi lætur verzlunarfulltrúi P. Th. Johnsen á Akureyri selja þar í húsum sínum við opinbert uppboð mikið af járnvöru, smíðað járn og ósmíðað, ljereptum og klútum og alls konar kramvöru, og nokkur búðaráhöld, ásamt ýmsu fleira, móti borgun í peningum eða verzlunarvörum innan næstkomandi septembermánaðar loka.**

**Við sama uppboð, og á sama tíma, lætur læknisekkjan, frú A. Johnsen á Akureyri, selja stóla og dragkistur og ýmislegan annan húsbúnað, borðbúnað og eldhúsgögn, flest vandað, og margt annað smátt og stórt úr búi sínu; þar að auki töluvert af bókum, o. s. frv. Borgunarskilmálarnir eru hinir sömu.**

**Óskar því sýslumaður, að allir, er slíka hluti kaupa vilja, komi til uppboðsins á nefndum stað og tíma.**

---

Þar eð arfs tilkall nokkurt í dánarbúinu eptir prestinn Sigurð sál. Árnason frá Hálsi og fyr dána seinni konu hans Valgerði Magnúsdóttur, nú er til lykta leitt með hæstarjettardómi frá 29. júní f. á., þá er af mjer sem skiptaráðanda ákveðinn fundur í greindu dánarbúi á skrifstofu sýslunnar á Húsavík, fimmtudaginn þann 3. dag júnímánaðar næstkomandi kl. 10. f. m., hvar þá bæði fjærverandi erfingjar prestsins sál. og aðrir hlutaðeigendur, er nokkra kröfu meina sig að hafa til dánarbúsins eptir áminnst hjón, eru kallaðir að mæta eða mæta láta, til að gæta rjettar síns að lögum.

Skrifstofu þingeyjarsýslu 8. janúar 1858.

S. Schulesen.

Vegna þess að vjer, ráðendur heiðarlandsins Dalskvísla — sem að stærð og gæðum er álitið nægilegt fyrir 8—10 býli — höfum að engu verið sæmdir með borgun fyrir þann afarfjölda sauðfjár og stóðhrossa, sem af báðumegin aðliggjandi heiðum hefur yfirtroðið þær —, þá bjóðum vjer nú hverjum sem girnist nýbýli, að koma sem fyrst og semja við oss um byggingu í nefndum Dalskvíslum, sem orðið getur næstum óslitin byggð frá Vatnsdalnum; og til merkis um, að menn ei þurfa að frátælast þetta, þá gjörum vjer vitanlegt, að 2 dugandismenn hjer í grenndinni sem þekkja landið, hafa þegar tjáð sig mjög viljuga til þessa fyrirtækis.

Þórormstungu og Forsæludal í Vatnsdal 1. desember 1857.

Björn Guðmundsson. Brynjólfur Brynjólfsson.

---

Piltur eða unglingsmaður, sem ekki er yngri en hjerumbil 16 ára, dyggur og ráðvandur, vel læs á prent og skrif, og nokkurn veginn skrifandi, í góðu meðallagi að líkamsburðum, heyrnargóður og sjóngóður, handlæginn og verklæginn, námfús og lagaður til bókmennta, á nú kost á að verða tekinn til að læra prentlist í prentsmiðjunni á Akureyri, með þeim kjörum, að hann sje 3—5 ár í kennslu, og fái að launum hvert ár 80—120 ríkisdali, og að öðru leyti með þeim skilmálum, er honum um semur við prentsmiðjunefndina. Hver, sem vill sæta þessu boði, er beðinn, eða þeir sem að honum standa, að semja um þetta við nefndina fyrir næstkomandi krossmessu.

Akureyri 24. febrúar 1858.

Fyrir hönd prentsmiðjunefndarinnar

**Sv. Skúlason.**

Ný upptekið fjármark í Hálshrepp í þingeyjarsýslu:

Tvístýft framan vinstra. Brennimark: B Joh.

Bjarni Jóhannesson á Sellandi.

Þetta mark eru hreppstjórar vinsamlega beðnir að skrifa hjá sjer í viðauka markabóka.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár. 20. Marz. 5.—6.

# Verðlags-skrár

## sem gilda í Norður- og Austurumdæminu frá miðju maimánaðar 1858 til jafnlengdar 1859.

| | Í Húnav.- og Skagaf.-sýslum. | | | | | Í Eyjaf.- og Þingeyjar-sýslum. | | | | | Í báðum Múlasýslum. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. |
| **A. Fríður peningur:** | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | rd | ß | ß |
| 1 ct. 1 kýr í fardögum, 3-8 vetra . . . | 40 | 47 | 40 | 47 | 32½ | 37 | 58 | 37 | 58 | 30 | 31 | 44½ | 31 | 44½ | 26 |
| - — 6 ær - — 2-6 — hver á | 4 | 48 | 27 | „ | 21½ | 4 | 88½ | 29 | 51 | 23½ | 5 | 31½ | 31 | 93 | 25½ |
| - — 6 sauðir á hausti, 3-5 — — - | 6 | 27 | 37 | 66 | 30 | 6 | 87 | 41 | 42 | 33 | 7 | „ | 42 | „ | 33½ |
| - — 8 — - — tvævetrir — - | 4 | 73½ | 36 | 12 | 30½ | 5 | 37 | 43 | „ | 31½ | 5 | 51 | 44 | 24 | 35½ |
| - — 12 — - — veturgaml. — - | 3 | 34 | 40 | 24 | 32 | 3 | 85½ | 46 | 66 | 37½ | 3 | 95½ | 47 | 90 | 38½ |
| - — 8 ær á hausti, geldar . , . . — - | 4 | 33½ | 31 | 76 | 28 | 5 | 17 | 41 | 40 | 33 | 5 | 29½ | 42 | 44 | 34 |
| - — 10 - - — - mylkar . . . . — - | 2 | 75½ | 27 | 83 | 22½ | 2 | 86½ | 29 | 1 | 23 | 3 | 43 | 34 | 46 | 27½ |
| - — 1 áburðarhestur í fardög.. 5-12 vetra | 19 | 90 | 19 | 90 | 16 | 23 | 22 | 23 | 22 | 18½ | 22 | 84 | 22 | 84 | 18½ |
| 90 álnir, 1 hryssa, jafngömul . . . . . . | 16 | 33 | 20 | 44 | 16½ | 19 | 5 | 26 | 38½ | 20½ | 16 | 27 | 24 | 36 | 19½ |
| **B. Ull, smjör og tólg:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 120 ℔ af hvítri ullu . . . . . ℔ á | „ | 39 | 48 | 72 | 39 | „ | 40½ | 40 | 60 | 40½ | „ | 41 | 51 | 24 | 41 |
| - — 120 - - mislitri — . . . . . . - | „ | 29½ | 36 | 84 | 29½ | „ | 32 | 40 | „ | 32 | „ | 32 | 40 | „ | 32 |
| - — 120 - - súru smjöri . . . . - - | „ | 24½ | 30 | 60 | 24½ | „ | 24 | 30 | „ | 24 | „ | 25 | 31 | 24 | 25 |
| - — 120 - - tólg, vel bræddri . . - - | „ | 23½ | 29 | 36 | 23½ | „ | 23 | 28 | 72 | 23 | „ | 24 | 30 | „ | 24 |
| **C. Tóvara af ullu,** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 60 pör eingirnis-sokka . . . parið á | „ | 27½ | 17 | 18 | 14 | „ | 35 | 21 | 84 | 17½ | „ | 19 | 11 | 84 | 9½ |
| - — 30 — tvinnabands gjaldsokka — - | „ | 35½ | 11 | 9 | 9 | „ | 41 | 12 | 78 | 10 | „ | 36 | 11 | 24 | 9 |
| - — 120 — tvíþumlaðra sjóvetlinga — - | „ | 12 | 15 | „ | 12 | „ | 15 | 18 | 72 | 15 | „ | 9 | 11 | 24 | 9 |
| - — 20 eingirnis-peisur . . . . . hver - | „ | 84 | 17 | 48 | 14 | „ | 94 | 19 | 56 | 15½ | „ | 84 | 17 | 48 | 14 |
| - — 15 tvinnabands gjaldpeisur . — - | 1 | 17½ | 17 | 70½ | 14 | 1 | 25 | 18 | 87 | 15 | 1 | 32 | 20 | „ | 16 |
| - — 120 álnir vaðmáls, álnar breiðs. 1 al. - | „ | 44 | 55 | „ | 44 | „ | 41 | 51 | 24 | 41 | „ | 48 | 60 | „ | 48 |
| - — 120 — einskeptu, 4-5kv. á br. - - - | „ | 30 | 37 | 48 | 30 | „ | 32½ | 40 | 60 | 32½ | „ | 42½ | 53 | 12 | 42½ |
| **D. Fiskur:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 6 vættir af saltfiski . . . . . vætt. á | 5 | „ | 30 | „ | 24 | 4 | 64 | 28 | „ | 22½ | 4 | 80½ | 29 | 3 | 23 |
| - — 6 — - hörðum fiski . . — - | 4 | 35 | 26 | 18 | 21 | 4 | 3½ | 24 | 21 | 19½ | 4 | 83½ | 29 | 21 | 23½ |
| - — 6 — - smáfiski . . . . . — - | 4 | 28 | 25 | 72 | 20½ | 3 | 93 | 23 | 78 | 19 | 4 | 88 | 29 | 48 | 23½ |
| - — 6 — - ísu . . . . . . . — - | 3 | 92½ | 23 | 75 | 19 | 3 | 56 | 21 | 48 | 17 | 3 | 84 | 23 | 24 | 18½ |
| - — 6 — - hákarli hertum . — - | 3 | 91½ | 23 | 69 | 19 | 3 | 53 | 20 | 18 | 16 | 3 | 36 | 20 | 24 | 16 |
| **E. Lýsi:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 1 tunna hvallýsis. . , . . 8 pottar á | 3 | 36 | 20 | 60 | 16½ | 1 | 64 | 25 | „ | 20 | „ | „ | „ | „ | „ |
| - — 1 — hákarlslýsis . . . 8 — - | 2 | „ | 30 | „ | 24 | 2 | 17 | 32 | 63 | 26 | 1 | 90 | 29 | 6 | 23 |
| - — 1 — sellýsis . . . . . . 8 — - | 1 | 86 | 28 | 42 | 23 | 2 | 8½ | 31 | 31½ | 25 | 1 | 85½ | 28 | 34½ | 22½ |
| - — 1 — þorskalýsis . . . 8 — - | 1 | 85 | 28 | 27 | 22½ | 1 | 88 | 28 | 72 | 23 | 1 | 53 | 23 | 27 | 18½ |
| **F. Skinnavara.** | | | | | | | | | | | | | | | |
| 1 ct. 4 fjórð. nautskinns . . . . . fjórð. á | 5 | 16½ | 20 | 66 | 16½ | 4 | 90½ | 19 | 74 | 16 | 5 | 14 | 20 | 56 | 16½ |
| - — 6 — kýrskinns . . . . . . — - | 4 | 3 | 24 | 18 | 19½ | 3 | 76 | 22 | 72 | 18 | 4 | 7 | 24 | 42 | 19½ |
| - — 6 — hross-skinns . . . . . — - | 3 | 42 | 20 | 60 | 16½ | 3 | 7½ | 18 | 45 | 15 | 2 | 82 | 17 | 12 | 13½ |
| - — 6 — sauðsk., af 2vetr. og eldri — - | 2 | 36 | 19 | „ | 15 | 2 | 3½ | 16 | 28 | 13 | 1 | 59 | 12 | 88 | 11½ |
| - — 12 — — af ám, vet., g.sauð. — - | 1 | 62 | 19 | 72 | 16 | 1 | 64 | 20 | „ | 16 | 1 | 22 | 14 | 72 | 12 |
| - — 6 — selskinns . . . . . . — - | 3 | 67½ | 22 | 21 | 18 | 4 | 17 | 25 | 6 | 20 | 4 | 47 | 26 | 90 | 21½ |
| - — 240 lambskinn (vorl.), einlit, hvert - | „ | 6 | 15 | „ | 12 | „ | 7 | 17 | 48 | 14 | „ | 7½ | 18 | 72 | 15 |

| | Í Húnav.- og Skagaf.-sýslum. | | | | | Í Eyjaf.- og Þingeyjar-sýslum. | | | | | Í báðum Múlasýslum. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism. | | hundr. | | alin. | Ríkism | | hundr. | | alin. |
| **G. Ýmislegt.** | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | rd | ß | ß | rd | ß | dr | ß | ß |
| 1 ct. 6 ℔ af æðardúni, vel hreins. . ℔ á | 4 | 35 | 26 | 18 | 21 | 4 | 27 | 25 | 66 | 20½ | 4 | 58 | 27 | 60 | 22 |
| - — 40 - - — óhreinsuðum - - | „ | „ | „ | „ | „ | „ | 47½ | 19 | 76 | 16 | „ | „ | „ | „ | „ |
| - — 120- - fuglafiðri , . . . . fjórð. - | 3 | 72 | 45 | „ | 36 | 3 | 66 | 24 | 24 | 35½ | 3 | 61½ | 43 | 66 | 35 |
| - — 480- - fjallagrösum . . . . — - | „ | 72 | 36 | „ | 29 | „ | 53½ | 26 | 72 | 21½ | „ | „ | „ | „ | „ |
| 5 álnir 1 dagsverk um heyannir . . . . . | „ | 88½ | „ | „ | 17½ | „ | 88 | „ | „ | 17½ | 1 | 6 | „ | „ | 20½ |
| - — 1 lambsfóður . . . . . . . . . . . . | 1 | 43 | „ | „ | 28 | 1 | 52½ | „ | „ | 29½ | 1 | 33 | „ | „ | 26 |
| **MEÐALVERÐ á hverju hundraði og hverri alin í nefndum landaurum verður:** | | | | | | | | | | | | | | | |
| eptir A, eða í fríðu . . . . . . . . . . . . . . . | | | 31 | 81 | 25½ | . . . . . | | 35 | 25½ | 28 | . . . . . | | 35 | 72½ | 28½ |
| — B, — - ullu, smjöri og tólg . . . . . . | | | 36 | 39 | 29 | . . . . . | | 37 | 33 | 30 | . . . . . | | 38 | 12 | 30½ |
| — C, — - tóvöru af ullu . . . . . . . . . . | | | 24 | 41½ | 19½ | . . . . . | | 26 | 24½ | 21 | . . . . . | | 26 | 41 | 21 |
| — D, — - fiski . . . . . . . . . . . . . . . | | | 25 | 85 | 20½ | . . . . . | | 23 | 52 | 19 | . . . . . | | 26 | 24 | 21 |
| — E, — - lýsi . . . . . . . . . . . . . . . . | | | 26 | 80 | 21½ | . . . . . | | 29 | 41½ | 23½ | . . . . . | | 26 | 86½ | 21½ |
| — F, — - skinnavöru . . . . . . . . . . . . | | | 20 | 20 | 16 | . . . . . | | 19 | 94 | 18 | . . . . . | | 19 | 34½ | 15½ |
| En meðalverð allra landaura samantalin . . . . . . | | | 165 | 58½ | 132 | . . . . . | | 171 | 78½ | 137½ | . . . . . | | 172 | 78½ | 138 |
| og skipt með 6 sýna: | | | | | | | | | | | | | | | |
| MEÐALVERÐ ALLRA MEÐALVERÐA | | | 27 | 58 | 22 | . . . . . | | 28 | 61 | 23 | . . . . . | | 28 | 77 | 23 |

# Frjettir.

**Útlendar.** Fyrir fáum dögum kom sendimaður að sunnan, er sagði skipkomu í Reykjavík, og kom hingað með brjef, er með því bárust. Þetta skip heitir „Christiansgave“, og á það stórkaupmaður Knudzon. Það kemur í stað póstskipsins „Sölöven“, er fórst í vetur, og kostar stjórnin það að rúmum helmingi, og hinir íslenzku kaupmenn erlendis að nokkru leyti. Skip þetta hefur haft stutta ferð, og hinar helztu frjettir, er það hefur að færa úr brjefum — því blöð hafa ekki komið svo að gagni sje hingað norður — eru þessar: Stríð Englendinga á Austur-Indlandi stendur enn, og veitir ýmsum betur. Þó hafa Englendingar borið sigur úr flestum orustum við uppreistarmenn, en það fer sem jafnan, að drjúgur er landherinn, en Englendingar hafa allt til þessa tíma verið þar mjög liðfáir, því svo fjarska örðugt er að koma þangað liði, að langan tíma þarf til, enda eru Englar sjaldan fljótir í bragði, en því drjúgari, þegar fram í sækir. Þeir hafa nú snemma í vetur unnið höfuðborgina Delhi, er þeir höfðu setið lengi um, og sem var varin af margfalt meira liði en þeir höfðu til umsátursins; ætla það sumir menn, að Englendingar hafi farið þar fram með mikilli grimmd, og er það einkum byggt á því, að ensk blöð þykja fara fáum orðum um töku borgarinnar. En ósjeð er þó, hvað mikið satt er í því, þó að full orsök væri til þess, því Bretar áttu þar um sárt að binda, því þetta var aðal-aðsetur upphlaupsins, og þeir höfðu misst fjölda liðs áður þeir næðu borginni, og það mest af harðæri og sjúkdómum sökum liðfæðar og þess hve seint þeim kom liðstyrkur og herforði frá Englandi. Í Delhi tóku þeir höndum konung þann, er uppreistarmenn höfðu tekið yfir sig, og allt Indíaveldi, og verður þannig ríki hans skammvinnt. Hann er nú og allt skuldalið hans á valdi Breta. Liðsmenn hans hafa Bretar hengt og skotið hópum saman. En þó að líklegt væri að þetta bugaði uppreistina, eru þó margir flokkar uppreistarmanna enn óunnir, og þar á meðal foringinn Nena Sahib, hinn hættulegasti og þrekmesti af uppreistarmönnum, með liði sínu. Bretar hafa líka orðið fyrir miklum mannskaða á liði, sínu í stríði þessu, og misst suma af hinum beztu hershöfðingium sínum, þar á meðal Havelock, er var þeirra frægastur.

Þess er áður getið, hvernig þeir Holsetar neituðu frumvarpi stjórnarinnar dönsku í haust um stjórnarfyrirkomulag hertogadæmisins í alríkinu. En eptir að þinginu var lokið, báru Holsetar kvartanir sínar fyrir hið þýzka sambandsþing í Frakkafurðu; en þó að Þjóðverjar vilji styðja mál þeirra, eru litlar líkur til, að það muni valda nokkurri styrjöld, því bæði eru líkindi til að hin stórríkin komi í veg fyrir það, og svo mun hin mikla verzlunarnauð, er nú gengur víðast um heim, og vjer munum skýra frá í sjer-

stakri grein í þessu blaði, draga kjark úr mönnum að standa í ófriði. Frakkar virðast Dönum töluvert meðmæltir í þessu máli.

14. janúar var enn reynt til að drepa Napóleon keisara, þegar hann með konu sinni og vildarmönnum sínum fór til leikhússins. Var lögð fyrir hann ógurleg sprengivjel, er molaði vagn hans í smátt, og særði og drap fjölda fólks af fylgdarmönnum hans; sjálf komust þau af, keisarinn lítt særður, og hún ósærð. þessari morðtilraun á keisara ætla menn að óróamenn á Ítalíu valdi, og eru allmargir þeirra í höptum á Frakklandi. Napóleon hefur notað þetta tækifæri eins og einvaldar opt gjöra til að kreppa enn meira að mannfrelsi og blaðafrelsi í landi sínu.

Í vetur sprakk púðurturn í Mainz og drap fjölda fólks og eyðilagði stóran hlut borgarinnar. Líka hafa gengið ógurlegir jarðskjálftar í Napóliríki, svo að margar borgir hafa hrunið til grunna, og eru menn hræddir um að það sje fyrirboði þess, að Vesuviusfjall ætli að taka að gjósa enn að nýju.

Elzta dóttir Viktoríu drottningar Aðalheiður giptist 25. janúar Friðreki elzta syni Prússakonungs og konungsefni í því ríki. Var þá mikið um dýrðir í Lundúnum. Líkur eru til, að Friðrek þessi konungsefni komi bráðum til ríkisstjórnar í Prússlandi, því Friðrek Vilhjálmur faðir hans hefur legið mjög sjúkur lengi í vetur, og ekki getað haft stjórnarstörf á hendi. Í orði er að næst elzta dóttir Viktoríu eigi að lofast elzta syni Hollendinga konungs, er kallast prins af Óraníu. Hann á að fara til háskólans í Cambridge á Englandi til að nema þar vísindi og um leið komast í kunningskap við drottningardóttur.

Tíðarfarið hefur verið hið ágætasta í vetur, og það svo að varla hefur sjezt snjór á jörðu í Danmörku það sem af er vetrar, og varla komið frostdagur fyr en seinustu dagana í janúarmánuði; en þó er svo að frjetta, að skip muni koma seint hingað til lands frá Danmörku, og veldur því án efa það, að kaupmenn vilja draga að búa út skip sín, þangað til þeir sjá hvort verzlunarnauðin, sem nú stendur yfir breytist ekki til batnaðar.

Með skipi þessu frjettist, að forstöðumaður hinnar íslenzku stjórnardeildar, etatsráð Oddgeir Stephensen sje orðinn riddari af dannebrogsorðunni, og hann hefur líka verið settur yfir ýmisleg stjórnarmálefni Dana undir yfirstjórn ráðgjafanna svo að þar sannast hið forna: „Vandi fylgir vegsemd hverri.“ þess er óskandi og vonandi, að hann sem góður Íslendingur láti sjer samt sem áður annt um hin íslenzku málefni, því ekki kemur landi voru það vel, ef að forstöðumaður mála vorra erlendis verður að hafa þau eins og hjáverkum. — Magnús kammerráð Stephensen sýslumaður Rángvellinga hefur eptir beiðni sinni fengið lausn frá embætti sínu og eptirlaun og þar með jústitsráðs nafnbót. Larsen sýslumaður Borgfirðinga hefur fengið embætti utanlands, svo að 3 sýslur eru nú lausar. Rangárvalla, Borgarfjarðar og Ísafjarðarsýsla.

---

Skýrsla um íslenzkar vörur fluttar til Kaupmannahafnar árið 1857,
(eptir „Dagbladet“).

Af ull voru flutt þangað 3000 sk℔. Leifar af þessari vöru voru nú við árslokin 750sk℔. Leifarnar frá 1856 hjerumbil 4 – 500 sk℔; voru þær seldar fyrstu mánuði ársins fyrir 132—32 rd sk℔ af næst beztu ullartegund og 105—6 rd. fyrir mislita ull. Fyrirspurn um þessa vöru byrjaði þegar með vorinu frá Englandi, og voru 2000 sk℔ pöntuð flutt í enskar hafnir fyrir hjerumbil 44 sk. fyrir pundið. þegar nýjar vörur komu frá Íslandi íjúlímánuði til Kaupmannahafnar, voru borgaðir fyrir hvíta ull næst beztu 140 rd., og fyrir mislita 114—115 rd. fyrir sk℔. Í ágúst 150 fyrir hvíta og 120 fyrir mislita. Fyrir úrvals hvíta ull voru þá borgaðir 155 rd., (eða 46½ sk. fyrir pundið), og þetta verðlag hjelzt framan af í september, en næst bezta hvít ull var þá seld fyrir lítið eitt minna. Í miðjum septembermánuði tók verðlagið að lækka, svo að bezta hvít ull var seld 148, og seinna 144 rd. sk℔ og mislit 118 og 117 rd. sk℔. Eptir byrjun októbermánaðar hætti öll fyrirspurn eptir ull fyrir þetta verð, en seljendur hjeldu í vörurnar í von um að hún mundi hækka í verði á hinum enska markaði. þannig liðu seinustu mánuðir ársins án þess neitt væri selt eða keypt til muna af þessari vöru. Um verð á þessari vöru nú sem stendur er ekki hægt að segja neitt heldur en um flestar aðrar vörutegundir, því engir vilja kaupa ekki einu sinni fyrir töluvert lægra verð sökum hinnar miklu peningaeklu. Af ull kom 110 sk℔ meira frá Íslandi hið næsta ár en 1856.

Af lýsi fluttust þangað hjerumbil 7000 tunn-

ur, og óseldar eru hjerumbil 1900, en leifarnar frá 1856 voru hjerumbil 1000 tunnur, og seldust þær snemma að vorinu 1857 fyrir 34 til 35 rd., og var það mest keypt af Hamborgurum. Seldist það svona vel af því mjög illar frjettir voru um fiskiveiði frá Noregi. Björginarmenn heimtuðu afarhátt verð, og leituðu því þjóðverjar, er þurftu vörunnar, eptir á hinum ódýrri mörkuðum og einnig í Kaupmannahöfn, svo að varan hækkaði þar svo í verði, að lýsið í maímánuði var komið í 38 rd., í byrjun júnímánaðar í 41 og seinna í sama mánuði buðu menn 44 til 45 rd. fyrir lýsi er kæmi með haustskipum. Betri frjettir um fiskiveiði frá Finnmörku, og selaveiðamenn frá Noregi og Englandi, er höfðu veitt með bezta móti, breyttu þessu og lækkuðu verðlagið, svo að lýsið var í júlímánuði komið ofan 38 og í ágúst ofan í 37 rd, og lækkaði verðið eptir það í haust í 35 rd. fyrir gott hákarlslýsi soralaust. Aðflutt af þessari vöru var 1700 tunnum minna en árið 1856.

Af saltkjöti fluttust til Kaupmannahafnar 2300 tunnur, og var það 300 tunnum minna en næsta ár á undan. það var selt 24, 22 og 21½ rd. eptir gæðum

Af tólg fluttust 2900 skæ, og liggja óseld 300. Leifarnar frá 1856 seldust seinni part vetrarins á 23, 24 til 25 mörk lýsipundið. Framan af sumrinu pöntuðu nokkrir tólg þegar hún kæmi að haustinu fyrir 25 til 26 mörk. þegar fyrstu sendingar af tólgi komu í byrjun júlímánaðar var borgað fyrir hana 26 til 26½ mörk, og í september varð verðið hæðst á henni, nefnilega 26 mörk 12 sk. Seinna lækkaði verðið ofan í 26 mörk, og það hefur verið fast verð framan af þessum vetri fyrir góða tólg. Aðflutt 300 skæ meira en næsta ár á undan.

---

## Verzlunarnauðin.

Ein af frjettunum með skipinu „Christiansgave“ var hin mikla verzlunarnauð og peningaekla, er gengið hefur í vetur um mikinn hlút heimsins. þessi verzlunarnauð byrjaði snögglega í Vesturálfu í lok októbermánaðar næstliðinn, og varð svo mikil, að hinn mesti fjöldi kaupmanna smárra og stórra urðu gjaldþrota. Amerikumenn hafa fjarskamikil verzlunarviðskipti við Breta, og má því nærri geta, að þetta hafi því haft stórkostleg áhrif á verzlun þeirra, er þeir áttu stórmiklar fjárheimtar að Amerikumönnum, sem þeir fengu ekki en urðu þó að gjalda þangað sínar eigin skuldir. Afleiðingin varð því líka sú, að margir ríkir og frægir kaupmenn á Englandi urðu einnig gjaldþrota; en Bretar hafa eins og allir vita hin mestu verzlunarviðskipti við allt meginland Norðurálfu, svo að þegar að kreppir verzlun þeirra, þá er líka meginlandinu hætta búin. þetta reyndist nú líka. því skamma bríð hafði verzlunarnauðin gengið í Englandi, þegar Hamborg fór. Urðu í þeirri einu borg 150 kaupmenn og verzlunarfjelög gjaldþrota, og dró Hamborg með sjer Danmörk, Noreg og Svíaríki, er ætíð hafa haft mikla verzlun við Hamborgarmenn. Hinn mesti fjöldi kaupmanna hjá Svíum og Norðmönnum hafa því líka farið á höfuðið; en þó að allmargir danskir kaupmenn hafi einnig orðið gjaldþrota, og mikið muni hafa sorfið að flestum þeirra þó að þeir standist, þá hafa þeir þó enn sem komið er sloppið einna bezt; enda hefur stjórnin danska hlaupið vel undir bagga með þeim og lánað kaupmönnum 7 milliónir dala, og er vonandi að það hrökkvi til að sigra peningaekluna.

það er nú ekki svo hægt að gjöra alþýðu skiljanlegt hve makalausar breytingar slíkt gjörir í allri verzlun. Aðal-máttarstólpi allrar verzlunar er lánstraustið, en þegar slíkt ber að höndum þorir enginn að lána, og allir sem peninga eiga leggja þá í handraðann, og liggja á þeim; og dragast þannig fyrir hræðslu sakir peningarnir úr verzluninni, þegar þeirra þarf mest við. þetta hefur nú aptur þau áhrif, að kaup og sala hætta svo að segja. því engir vilja selja nema fyrir borgun út í hönd, og sökum peningaskortsins geta menn ekki keypt þannig. Af þessu leiðir nú aptur að vörurnar liggja óseldar, og ef þær seljast, seljast þær með afföllum. Og þannig gengur þetta nú erlendis; vörurnar liggja á markaðinum og verða ekki seldar, þó að seljendur felli þær í verði sjer til skaða og bjóði þær fyrir minna en innkaupsprís.

það má nú geta nærri, að íslenzku kaupmennirnir hafi ekki sloppið ósærðir og óbrunnir úr þessum hreinsunareldi kaupmannanna. Tveir þeirra, Sveinbjörn Jacobsen og Elís Iversen úr Reykjavík og Hafnarfirði hafa orðið gjaldþrota, og þó að Norðurlands kaupmennirnir, sem standa á gömlum merg, hafi afborið óveður þetta, þá hefur þeim þó þótt hyggilegra að lækka seglin; og hafa því boðið verzlunarfulltrúum sínum að

birta almenningi eptirfylgjandi boðskap, og sagt það um leið, að hann mundi ganga yfir allt land, svo að þeir kaupmenn, sem sjálfir eiga verzlun sína verða einnig að feta í fótspor þeirra:

„Sökum hinnar miklu og einstöku verzlunarnauðar, er nú gengur um mestan hluta heims, og sem hefur steypt mörgum hinum elztu og beztu verzlunarhúsum, svo trautt verður sjeð, hver endir á verður, hafa eigendur verzlana þeirra, er vjer stöndum fyrir, skipað oss, að birta öllum skiptavinum og verzlunarmönnum, er hingað sækja til verzlunar:

a, að frá 20. þ. m. verður engum lánað neitt í verzlun, og það undantekningarlaust. Allt, sem keypt er eða selt af vörum, skal þegar borgað, annaðhvort með peningum eða vörum, með því verði, bæði á íslenzkum og útlendum vörum, sem gildir þann dag kaup er gjört; og skal frá hvorugra hálfu nein breyting vera gjörð á því kaupi sem einu sinni er gjört. Af þessu leiðir, að engar vörur verða teknar eða látnar af hendi með óákveðnu verði (prísslausar), eins og heldur engin uppbót á kaupum, hverju nafni sem nefnist, verður gefin;

b, að allar skuldir skulu borgaðar innan ársloka 1859, þannig: að ¼ partur skuldanna borgist í sumarverzlun 1858, innan 14. ágúst, ¼ partur í haustverzlun áður skip sigla hjeðan sama ár; ¼ partur í sumarverzlun 1859 innan 14. ágúst, og hinn seinasti ¼ partur í haustverzlun það ár, áður skip sigla hjeðan, eða í seinasta lagi innan ársloka, allt með því verðlagi sem er á íslenzkum vörum á hverjum hinum ákveðna tíma, þegar skuld er goldin; á sama hátt og á sömu tímum skal allt er inni stendur hjá verzlununum greiðast, ef það er ekki áður goldið.

Leyfum vjer oss því hjer með að biðja yður þóknanlegast að auglýsa þetta hreppsmönnum yðar hið fljótasta skeð getur“.

Verzlunarnauð þessi hefur nú þannig gjört það að verkum, sem vjer álítum mjög nauðsynlegt og sem vjer áður höfum mælt fram með. Neyðin hefur kennt kaupmönnum að byrja á hinni skuldlausu verzlun, og neyðin, sem fylgir breytingu þeirri fyrst í stað, ætti að kenna löndum vorum að færa sjer hana rjett í nyt. Ef að kaupmennirnir standa nú stöðugt og láta enga verzlunarkeppni koma sjer til að brjóta sínar eigin reglur, þá er nú algjörlegur endir kominn á allar vöru uppbætur eptir á, og allar þokkabætur sem stungið hefur verið í vasa verzlunarmanna og ekki hefur komið til reiknings. Kaup á að standa eins og það er gjört; og þetta líkar oss nú vel. En þá er nú eptir að skoða, hvernig þessi verzlun verður, og hvernig hana á að nota. Oss virðist auðsætt, að kaupmenn eigi yfir höfuð að geta gefið meira að sínu leyti fyrir íslenzku vöruna, og selt sína vöru með betra verði, þegar allt er borgað út í hönd; en þó er við því að búast, að þeir, eins og þeir eiga að gjöra, fari það sem þeir komast. Það er því að búast við því, að verðlagið verði aldrei rjett gott nema um lestatímann að sumrinu og haustinu, þegar verzlunarkeppnin er sem mest; og mest allt sem selt er á öðrum tímum verður að líkindum lakar borgað, og þegar uppbótin fæst ekki lengur, verður það svo mikill skaði landsmönnum, sem prísarnir á öðrum tímum verða lakari en í sjálfri verzlunartíðinni. Íslendingar ættu því sem fyrst að koma svo ár sinni fyrir borð, að þeir þurfi ekki að leita til kaupstaðarins nema að sumrinu og haustinu, og allt ráp í kaupstaði að vetrinum ætti öldungis að hætta. Þetta smáráp og smákaup í kaupstað hefur ætíð verið landsmönnum til hins mesta skaða, því, auk þess að menn fyrir lítil erindi tefja af sjer tíma, fá þeir optast vöruna, sem þeir sækja, með lakara verði, svo að skaðinn er þannig tvöfaldur; og ættu því allir málsmetandi menn í sveitinni — eins og vjer höfum heyrt að einn gamall og merkur hreppstjóri í Húnavatnssýslu gjöri — að sporna með öllu móti gegn öllu rápi í kaupstaðina utan verzlunartímans.

Hið annað, er vjer af alhuga viljum leggja löndum vorum á hjarta, er það að takmarka sem mest eða hætta öldungis að kaupa alls konar óþarfavörur og ofneyzlu. Þessi verzlunar breyting útheimtir, að menn neyti allra krapta sinna til að komast sem fyrst úr skuldunum, svo að menn geti verið alveg frjálsir; og hin yfirvofandi fjárkláðaplága ætti líka að kenna mönnum að spara sem mest og nota sem bezt eigur sínar, en verja þeim ekki til að kaupa útlenda óhófsvöru.

Vjer munum seinna gefa fleiri bendingar um þetta efni.

---

Ár 1858, 25. dag febrúarmánaðar á Akureyri var fundur haldinn af sýslumanni í Eyjafjarðarsýslu, öllum hreppstjórunum innan fjalla, og

nokkrum úr hverri sókn, alls yfir 50 að tölu, til þess að yfirvega uppástungu amtmanns í brjefi frá 10. þ. m. um að senda einn 1 eða 2 menn vestur til Húnavatnssýslu, honum til ráðaneytis þar, við framkvæmdir hans, áhrærandi niðurskurð sauðfjársins, og aðrir varnir gegn kláðafaraldrinu.

Kom öllum ásamt um, að kjósa til þessarar ferðar 2 menn, og voru til þess kjörnir: umboðsmaður Stephán Jónsson á Steinstöðum og hreppstjóri Árni Pálsson á Syðraholti, báðir sýslunefndarmenn, og var þeim tilkynnt, að þeir þyrftu að vera komnir vestur um miðjan marzmánuð, til framkvæmdar fyr greindu erindi þeirra. Hvað kostnaðinn við ferð þeirra snertir, þá var það samþykkt, að hann skyldi greiðast af sveitarsjóðum sýslunnar, og jafnast niður á þær, eptir lausafjárhundraða tölu. Jafnframt var skorað á þá, að framfylgja svo yfirgripsmiklum niðurskurði, sem virtist nægja, til að útrýma kláðafaraldrinu algjörlega.

Vegna ýmsra athugasemda, er komið hafa fram eins og skilyrði við loforð manna úr sumum sóknum hjer í sýslu, um að taka þátt í skaða þeirra, er skera niður fje sitt, til að varna útbreiðslu sunnlenzka fjárkláðans hjer í Norðurlandi, þá áleit fundurinn tilhlýðilegt, að láta í ljósi þá sannfæringu sína, að Eyjafjarðarsýslubúar vilji engan veginn standa á baki annara amtsbúa í tiltölulegri hluttöku í skaðanum, eptir þeim almennu reglum, er á sínum tíma verður álitið hentast að fara eptir við niðurjöfnun skaðabótanna, og álítur því þessa niðurjöfnun á fjáreigendur í Eyjafjarðarsýslu, ekki bundna við annað skilyrði en það, að þeirra fje frelsist frá kláðafaraldrinu, eða með öðrum orðum, að faraldrið verði með niðurskurðinum algjörlega upprætt hjer í amtinu; en jafnframt má geta þess, að allra sambuga vilji er, að niðurskurðurinn verði sem mest tryggjandi, og þurfi hann að ná yfir svo stórt svið, að hinn ákveðni og lofaði tólfti hluti af fjáreign manna nægi ekki til að bæta skaðann eptir tiltölu (við Húnvetninga og aðra amtsbúa), þá eru menn fúsir til að leggja meira fram eptir tiltölu við Húnvetninga og aðra amtsbúa, og eins og þessa vilja manna er getið í sumum loforða skýrslunum, þannig lofa fundarmenn því fyrir sitt leyti, sem og að skora á aðra sýslubúa í sama tilliti, sem þeir líka eptir þekkingu sinni eru sannfærðir um að sjeu fúsir til þessa frekara framlags ef þörf gjörist.

Að því leyti margir af sýslubúum hjer hafa haft það í skilyrði við loforð þeirra, að framlag þeirra skyldi miðast við þá fjáreign er þeir ættu á þeim tíma, er kindurnar eða framlagið skyldi afgreiðast, þá áleit fundurinn að vísu, að það væri nauðsynlegt, að niðurjöfnunin yrði á sínum tíma miðuð við fjáreign manna á sama tíma um allt amtið; en yrði í því tilliti tiltekið eitthvert annað tímabil en menn hafa álitið sanngjarnt fyrir niðurjöfnunina í Eyjafjarðarsýslu, þá vill fundurinn biðja amtmanninn að gjöra niðurjöfnunina á sýslubúa yfir höfuð, eptir fjárframtalinu á sama tímabili sem aðrar sýslur amtsins, en fela sýslunefndinni á hendur að jafna niður framlagi Eyjafjarðarsýslu á fjáreignina á því tímabili er niðurjöfnunin fram fer.

Enn fremur var afráðið, að almenn fjárskoðun hjer í sýslu skyldi framfara á næstkomandi einmánuði, á þann hátt sem áður hefur verið fyrir skipað.

---

## Skýrsla frá fundi Þingeyinga.

Vjer fundarmenn, sem erum komnir saman að Yztafelli 17. dag febrúarmánaðar 1858, úr nærfellt öllum prestaköllum í suðurhluta Þingeyjarsýslu, fúllumst á, að öll þau brjef, sem send verða með undirskriptum sóknarmanna úr hverju prestakalli í þessum sýsluparti, til svars upp á amtsbrjef frá 20. f. m., innihaldi þau atriði er nú skal greina:

1. Að menn gangist fúslega undir, að greiða allt að $\frac{1}{12}$ hluta af fjáreign sinni, til að taka þátt í skaða þeirra manna, er skera fje sitt niður til að varna útbreiðslu fjárkláðans hjer í amtinu.
2. Að þetta loforð verði bundið þessum skilmálum:
   a. Að ekki sje hlífst við að skera fyrir kláðann svo fljótt og á svo stóru svæði sem amtmanninum, með ráði kunnugustu og beztu manna, virðist nægja til að útrýma kláðanum algjörlega.
   b. Að haft verði svo nákvæmt eptirlit sem auðið er á öllum samgöngum milli hjeraðanna, þar sem kláðasýkin hefur komið, og hinna ósýktu hjeraða, unz sýkin er þar algjörlega upprætt.
   c. Að fjártillag þetta verði ekki fyr látið af hendi en hættulaust er, eptir áliti amtmanns og sýslunefndarinnar í Húnavatnssýslu, að innfæra heilbrigðan fjenað í hinar sauðlausu sveitir.
3. Skyldi niðurskurðurinn, til að verða tryggilegur, eptir fyrirskipun amtmannsins, með ráði beztu manna, verða svo stórkostlegur, að þetta fjárframlag reynist ónógt, eru menn ljúfir á meira framlag, ef fljótt og heppilega getur tekizt að uppræta fjárkláðann.

---

(Aðsent).

Hin geigvænlega fjárkláðasýki, sem geysað hefur yfir Suðurland næstliðin ár, er nú þrátt fyrir tilraunir þær, sem hingað til hafa verið gjörðar til að verja henni inngöngu í Norðurland, komin á marga bæi í Húnavatnssýslu; og allt sýnist sanna það álit er margir skynsamir menn hafa látið í ljósi, að vogestur þessi verði ekki stöðvaður nema með algjörðum niðurskurði alls sauðpenings á svo stóru svæði frá sjó og upp til öræfa, að samgöngur hins sjúka og heilbrigða fjár hindrist þár við algjörlega. Mjer hugkvæmist því að hreifa þeirri hugmynd, að ná megi sama tilgangi með því að flytja fjeð burtu af slíku svæði yfir í önnur hjeröð; þetta er að vísu engan veginn auðgjört, einkum ef það væru margar og fjárríkar sveitir, sem sauðlausar þyrfti að gjöra, og líklega yrði ómögulegt að komast bjá nokkrum niðurskurði með fram. Það er víða svo ástatt hjer norðanlands bæði í þingeyjar- og Múlasýslum, að landið gæti vafalaust borið talsvert fleira fje, einkum um fá ár, en það sem nú er framfleytt á því, ef ekki skorti svo mjög vinnukraptinn til að nota landið og vinna fyrir fjenu — jeg meina einungis á venjulegan hátt — en þeir sem þyrftu að reka fje sitt yfir í önnur hjeröð til að frelsa það frá niðurskurði, gætu líka látið vinnandi fólk fylgja fjenu til að vinna fyrir því; og ímynda jeg mjer að þeir engan atvinnuveg gætu fengið fyrir allt það fólk sem þeir gætu misst frá heimilum sínum. Þegar þeir væru annars orðnir sauðfjárlausir, eins arðsaman og þennan; af fje þessu gætu þeir líka haft nokkur afnot á meðan á þessu stæði, og einnig átt þar fjárstofninn til óeyddan, þegar fjársýkinni væri alljett og reka mætti fjeð heim aptur. Eptir því sem mjer er kunnugt, er svæðið á millum Skjálfandafljóts og Jökulsár í Axarfirði hið hentugasta byggðarlag til að standa fyrir útbreiðslu fjárkláðans ef það væri gjört sauðlaust. Það er aðskilið með stórvötnum frá öðrum hjeruðum á báðar hliðar, og fjarska breitt yfirferðar fram til heiða, en þó ekki mjög þjettbyggt eða fjármargt. Í þessu hjeraði liggja 4 hreppar, nefnilega: Keldunéss, Tjörnness, Skútustaða, Helgastaða og partur af Ljósavatnshrepp, og fjárfjöldinn mun varla vera meiri enn 24000 — í búskaparskýrslunum fyrir árið 1855 er sauðfjeð í allri þingeyjarsýslu talið 48,227, en hjerað það, sem hjer ræðir um, er þó ekki nema rúmur þriðjungur sýslunnar. — Gæti nú þetta hjerað lagt til 400—500 vinnandi fólks bæði karla og konur, ímynda jeg mjer að jafnmargt fólk gæti unnið fyrir og bjargað hjer austur um Norðurþingeyjar- og báðar Múlasýslur hjerumbil helmingi fjárins, eður 12000, það eru 24—30 sauðkindur á mann; það þyrfti að skipta fólki þessu og fjenaði sem haganlegast niður á hreppana hjer eystra, og það ættu sýslustjórnirnar að gjöra, en sveitastjórnirnar síðan að skipta því niður hver í sínum hrepp, og innbúar þessara sýslna mundu fúslega veita fólki þessu allt það liðsinni sem hægt væri til að bjarga sjer og fje sínu sem bezt, og það að miklu leyti ókeypis. Hitt fjeð sem eptir yrði að skilja mætti hafa til afnota heima fyrsta sumarið — því að vorlægi yrði að reka af stað — en skera það síðan gjörsamlega niður næsta haust, eins og þá líka skera þyrfti niður allar þær sauðskepnur, er sloppnar kynnu vera til baka af því fje sem rekið væri. Jeg vil raunar ekki stinga beinlínis upp á því, hvar eða hvenær helzt væri reynandi að nota þetta ráð, margt mælir með því að byrjað sje með burtrekstur fjárins svo vestarlega som óhult er fyrir sýkinni, og eins hinu að þetta sje byrjað strax á næsta vori; en jeg vil einungis biðja innbúa þess hjeraðs sem hjer að framan er til nefnt, nefnilega milli Skjálfandafljóts og Jökulsár í Axarfirði að hugleiða, hvort ekki væri gjörandi fyrir þá að grípa til slíkra ráða strax á næstkomandi sumri, ef svo skyldi fara — sem sízt er óskandi — að ekki yrði framgengt nú í vor duglegum niðurskurði eða öðrum tryggum vörnum í Skagafjarðarsýslu eða þar nálægt hvar fjárkláðinn finnst að vera kominn, því annars óttast jeg fyrir, að sýkin kunni í sumar komandi að komast norður yfir Skjálfandafljót, og þá yrði ekki framar hugsandi til að reka fje þaðan í heilbrigðar sýslur.

Skrifað 7. febrúar 1858.

---

# Mannalát.

## Þorleifur Guðmundsson Repp.

Einn af vorum góðu og gömlu Íslendingum hefur andast erlendis í vetur, Þorleifur Guðmundsson Repp. Hann gjörði þá ráðstöfun áður hann ljezt, að hann væri fluttur til Reykjavíkur, svo hann fengi að hvíla í skauti ættjarðar sinnar, og stendur lík hans í vetur í Hólmskirkju kapellu. Þegar hann var út hafinn voru Íslendingar margir viðstaddir. Enski presturinn í Kaupmannahöfn hjelt ræðu yfir kistu hans, og Íslendingar sungu „Allt eins og blómstrið eina,“ og tvö vers úr passíusálmunum. „En með því út var leiddur,“ o. s. frv.; svo að hann var seinast kvaddur á tungu þeirra þjóða, er hann unni mest allra. Síðan báru Íslendingar lík hans í kappelluna.

Þorleifur Repp var fæddur 1794 í Reykjadal, þar var faðir hans prestur, kom til háskólans í Kaupmannahöfn 1814, og lagði sig eptir málfræði, einkum hinum nýrri málum, og vann verðlaunapeninga háskólans fyrir ritgjörðir í heimspeki og fögrum vísindum 1819 og 1824. Hann ferðaðist um England 1821—22, og var síðan eptir að hann kom til Danmerkur aptur einn af stofnendum lestrarfjelagsins Athenæum 1825;

nokkrum úr hverri sókn, alls yfir 50 að tölu, til þess að yfirvega uppástungu amtmanns í brjefi frá 10. þ. m. um að senda einn 1 eða 2 menn vestur til Húnavatnssýslu, honum til ráðaneytis þar, við framkvæmdir hans, áhrærandi niðurskurð sauðfjársins, og aðrir varnir gegn kláðafaraldrinu.

Kom öllum ásamt um, að kjósa til þessarar ferðar 2 menn, og voru til þess kjörnir: umboðsmaður Stephán Jónsson á Steinstöðum og hreppstjóri Árni Pálsson á Syðraholti, báðir sýslunefndarmenn, og var þeim tilkynnt, að þeir þyrftu að vera komnir vestur um miðjan marzmánuð, til framkvæmdar fyr greindu erindi þeirra. Hvað kostnaðinn við ferð þeirra snertir, þá var það samþykkt, að hann skyldi greiðast af sveitarsjóðum sýslunnar, og jafnast niður á þær, eptir lausafjárhundraða tölu. Jafnframt var skorað á þá, að framfylgja svo yfirgripsmiklum niðurskurði, sem virtist nægja, til að útrýma kláðafaraldrinu algjörlega.

Vegna ýmsra athugasemda, er komið hafa fram eins og skilyrði við loforð manna úr sumum sóknum hjer í sýslu, um að taka þátt í skaða þeirra, er skera niður fje sitt, til að varna útbreiðslu sunnlenzka fjárkláðans hjer í Norðurlandi, þá áleit fundurinn tilhlýðilegt, að láta í ljósi þá sannfæringu sína, að Eyjafjarðarsýslubúar vilji engan veginn standa á baki annara amtsbúa í tiltölulegri hluttöku í skaðanum, eptir þeim almennu reglum, er á sínum tíma verður álitið hentast að fara eptir við niðurjöfnun skaðabótanna, og álítur því þessa niðurjöfnun á fjáreigendur í Eyjafjarðarsýslu, ekki bundna við annað skilyrði en það, að þeirra fje frelsist frá kláðafaraldrinu, eða með öðrum orðum, að faraldrið verði með niðurskurðinum algjörlega upprætt hjer í amtinu; en jafnframt má geta þess, að allra samhuga vilji er, að niðurskurðurinn verði sem mest tryggjandi, og þurfi hann að ná yfir svo stórt svið, að hinn ákveðni og lofaði tólfti hluti af fjáreign manna nægi ekki til að bæta skaðann eptir tiltölu (við Húnvetninga og aðra amtsbúa), þá eru menn fúsir til að leggja meira fram eptir tiltölu við Húnvetninga og aðra amtsbúa, og eins og þessa vilja manna er getið í sumum loforða skýrslunum, þannig lofa fundarmenn því fyrir sitt leyti, sem og að skora á aðra sýslubúa í sama tilliti, sem þeir líka eptir þekkingu sinni eru sannfærðir um að sjeu fúsir til þessa frekara framlags ef þörf gjörist.

Að því leyti margir af sýslubúum hjer hafa haft það í skilyrði við loforð þeirra, að framlag þeirra skyldi miðast við þá fjáreign er þeir ættu á þeim tíma, er kindurnar eða framlagið skyldi afgreiðast, þá áleit fundurinn að vísu, að það væri nauðsynlegt, að niðurjöfnunin yrði á sínum tíma miðuð við fjáreign manna á sama tíma um allt amtið; en yrði í því tilliti tiltekið eitthvert annað tímabil en menn hafa álitið sanngjarnt fyrir niðurjöfnunina í Eyjafjarðarsýslu, þá vill fundurinn biðja amtmanninn að gjöra niðurjöfnunina á sýslubúa yfir höfuð, eptir fjárframtalinu á sama tímabili sem aðrar sýslur amtsins, en fela sýslunefndinni á hendur að jafna niður framlagi Eyjafjarðarsýslu á fjáreignina á því tímabili er niðurjöfnunin fram fer.

Enn fremur var afráðið, að almenn fjárskoðun hjer í sýslu skyldi framfara á næstkomandi einmánuði, á þann hátt sem áður hefur verið fyrir skipað.

---

## Skýrsla frá fundi Þingeyinga.

Vjer fundarmenn, sem erum komnir saman að Yztafelli 17. dag febrúarmánaðar 1858, úr nærfellt öllum prestaköllum í suðurhluta Þingeyjarsýslu, föllumst á, að öll þau brjef, sem send verða með undirskriptum sóknarmanna úr hverju prestakalli í þessum sýsluparti, til svars upp á amtsbrjef frá 20. f. m., innihaldi þau atriði er nú skal greina:

1. Að menn gangist fúslega undir, að greiða allt að $\frac{1}{12}$ hluta af fjáreign sinni, til að taka þátt í skaða þeirra manna, er skera fje sitt niður til að varna útbreiðslu fjárkláðans hjer í amtinu.

2. Að þetta loforð verði bundið þessum skilmálum:

a. Að ekki sje hlíft við að skera fyrir kláðann svo fljótt og á svo stóru svæði sem amtmanninum, með ráði kunnugustu og beztu manna, virðist nægja til að útrýma kláðanum algjörlega.

b. Að haft verði svo nákvæmt eptirlit sem auðið er á öllum samgöngum milli hjeraðanna, þar sem kláðasýkin hefur komið, og hinna ósýktu hjeraða, unz sýkin er þar algjörlega upprætt.

c. Að fjártillag þetta verði ekki fyr látið af hendi en hættulaust er, eptir áliti amtmanns og sýslunefndarinnar í Húnavatnssýslu, að innfæra heilbrigðan fjenað í hinar sauðlausu sveitir.

3. Skyldi niðurskurðurinn, til að verða tryggilegur, eptir fyrirskipun amtmannsins, með ráði beztu manna, verða svo stórkostlegur, að þetta fjárframlag reynist ónógt, eru menn ljúfir á meira framlag, ef fljótt og heppilega getur tekizt að uppræta fjárkláðann.

---

(Aðsent).

Hin geigvænlega fjárkláðasýki, sem geysað hefur yfir Suðurland næstliðin ár, er nú þrátt fyrir tilraunir þær, sem hingað til hafa verið gjörðar til að verja henni inngöngu í Norðurland, komin á marga bæi í Húnavatnssýslu; og allt sýnist sanna það álit er margir skynsamir menn hafa látið í ljósi, að vogestur þessi verði ekki stöðvaður nema með algjörðum niðurskurði alls sauðpenings á svo stóru svæði frá sjó og upp til öræfa, að samgöngur hins sjúka og heilbrigða fjár hindrist þar við algjörlega. Mjer hugkvæmist því að hreifa þeirri hugmynd, að ná megi sama tilgangi með því að flytja fjeð burtu af slíku svæði yfir í önnur hjeröð; þetta er að vísu engan veginn auðgjört, einkum ef það væru margar og fjárríkar sveitir, sem sauðlausar þyrfti að gjöra, og líklega yrði ómögulegt að komast hjá nokkrum niðurskurði með fram. Það er víða svo ástatt hjer norðanlands bæði í Þingeyjar- og Múlasýslum, að landið gæti vafalaust borið talsvert fleira fje, einkum um fá ár, en það sem nú er framfleytt á því, ef ekki skorti svo mjög vinnukraptinn til að nota landið og vinna fyrir fjenu — jeg meina einungis á venjulegan hátt — en þeir sem þyrftu að reka fje sitt yfir í önnur hjeröð til að frelsa það frá niðurskurði, gætu líka látið vinnandi fólk fylgja fjenu til að vinna fyrir því; og ímynda jeg mjer að þeir engan atvinnuveg gætu fengið fyrir allt það fólk sem þeir gætu misst frá heimilum sínum, þegar þeir væru annars orðnir sauðfjárlausir, eins arðsaman og þennan; af fje þessu gætu þeir líka haft nokkur afnot á meðan á þessu stæði, og einnig átt þar fjárstofninn til óeyddan, þegar fjársýkinni væri afljett og reka mætti fjeð heim aptur. Eptir því sem mjer er kunnugt, er svæðið á millum Skjálfandafljóts og Jökulsár í Axarfirði hið hentugasta byggðarlag til að standa fyrir útbreiðslu fjárkláðans ef það væri gjört sauðlaust. Það er aðskilið með stórvötnum frá öðrum hjeruðum á báðar hliðar, og fjarska breitt yfirferðar fram til heiða, en þó ekki mjög þjettbyggt eða fjármargt. Í þessu hjeraði liggja 4 hreppar, nefnilega: Keldunéss, Tjörnness, Skútustaða, Helgastaða og partur af Ljósavatnshrepp, og fjárfjöldinn mun varla vera meiri enn 24000 — í búskaparskýrslunum fyrir árið 1855 er sauðfjeð í allri Þingeyjarsýslu talið 48,227, en hjerað það, sem hjer ræðir um, er þó ekki nema rúmur þriðjungur sýslunnar. — Gæti nú þetta hjerað lagt til 400—500 vinnandi fólks bæði karla og konur, ímynda jeg mjer að jafnmargt fólk gæti unnið fyrir og bjargað hjer austur um Norðurþingeyjar- og báðar Múlasýslur hjerumbil helmingi fjárins, eður 12000, það eru 24—30 sauðkindur á mann; það þyrfti að skipta fólki þessu og fjenaði sem haganlegast niður á hreppana hjer eystra, og það ættu sýslustjórnirnar að gjöra, en sveitastjórnirnar síðan að skipta því niður hver í sínum hrepp, og innbúar þessara sýslna mundu fúslega veita fólki þessu allt það liðsinni sem hægt væri til að bjarga sjer og fje sínu sem bezt, og það að miklu leyti ókeypis. Hitt fjeð sem eptir yrði að skilja mætti hafa til afnota heima fyrsta sumarið — því að vorlægi yrði að reka af stað — en skera það síðan gjörsamlega niður næsta haust, eins og þá líka skera þyrfti niður allar þær sauðskepnur, er sloppnar kynnu vera til baka af því fje sem rekið væri. Jeg vil raunar ekki stinga beinlínis upp á því, hvar eða hvenær helzt væri reynandi að nota þetta ráð, margt mælir með því að byrjað sje með burtrekstur fjárins svo vestarlega sem óhult er fyrir sýkinni, og eins hinu að þetta sje byrjað strax á næsta vori; en jeg vil einungis biðja innbúa þess hjeraðs sem hjer að framan er til nefnt, nefnilega milli Skjálfandafljóts og Jökulsár í Axarfirði að hugleiða, hvort ekki væri gjörandi fyrir þá að grípa til slíkra ráða strax á næstkomandi sumri, ef svo skyldi fara — sem síst er óskandi — að ekki yrði framgengt nú í vor duglegum niðurskurði eða öðrum tryggum vörnum í Skagafjarðarsýslu eða þar nálægt hvar fjárkláðinn finnst að vera kominn, því annars óttast jeg fyrir, að sýkin kunni í sumar komandi að komast norður yfir Skjálfandafljót, og þá yrði ekki framar hugsandi til að reka fje þaðan í heilbrigðar sýslur.

Skrifað 7. febrúar 1858.

---

# Mannalát.

## Þorleifur Guðmundsson Repp.

Einn af vorum góðu og gömlu Íslendingum hefur andast erlendis í vetur, Þorleifur Guðmundsson Repp. Hann gjörði þá ráðstöfun áður hann ljezt, að hann væri fluttur til Reykjavíkur, svo hann fengi að hvíla í skauti ættjarðar sinnar, og stendur lík hans í vetur í Hólmskirkju kapellu. Þegar hann var út hafinn voru Íslendingar margir viðstaddir. Enski presturinn í Kaupmannahöfn hjelt ræðu yfir kistu hans, og Íslendingar sungu „Allt eins og blómstrið eina,“ og tvö vers úr passíusálmunum. „En með því út var leiddur,“ o. s. frv.; svo að hann var seinast kvaddur á tungu þeirra þjóða, er hann unni mest allra. Síðan báru Íslendingar lík hans í kappelluna.

Þorleifur Repp var fæddur 1794 í Reykjadal, þar var faðir hans prestur, kom til háskólans í Kaupmannahöfn 1814, og lagði sig eptir málfræði, einkum hinum nýrri málum, og vann verðlaunapeninga háskólans fyrir ritgjörðir í heimspeki og fögrum vísindum 1819 og 1824. Hann ferðaðist um England 1821—22, og var síðan eptir að hann kom til Danmerkur aptur einn af stofnendum lestrarfjelagsins Athenæum 1825;

sama ár varð hann undirbókavörður við bókhlöðu málaflutningsmanna í Edínaborg. Repp kom aptur til Danmerkur 1837, var um tíma útgefandi blaðs sem hjet „Dagurinn.“ Seinna varð hann túlkur, og hafði ofan af fyrir sjer með að kenna mál og ritaði jafnframt ýmislegt vísindalegt og um stjórnarmál. 1848 tókst hann aptur á hendr að gefa út blað, sem hjet „Tíminn,“ og reyndi þar til að leiða Dani til að laga hina nýju stjórnarskipun sína eptir stjórn Breta, er honum eins og svo mörgum öðrum þótti hin bezta. Repp var ágætlega menntaður, fjölfróður og vitur maður, en harðsnúinn og ófyrirleitinn í orðum við hverja sem um var að eiga. Hann elskaði Ísland mest allra landa, en lítill Danavinur var hann, og sagði þeim opt beiskan sannleikann.

Með manni, sem kom hingað fyrir skömmu frá Sauðanesi, frjettist hingað lát sjera Stephans Árnasonar á Valþjófsstað í Fljótsdal, fyrrum prófasts í Norðurmúlasýslu. Jeg efast ekki um, að jeg fái seinna ágrip af æfi þessa manns, greinilegar en jeg til þekki, frá náungum hans eystra; en jeg get þó ekki bundizt að minnast hans með fáum orðum eptir þeirri þekkingu sem jeg hafði á honum; því hann var sá sem mest styrkti mig til bókmennta af öllum mönnum, og göfuglyndi hans var svo mikið, að varla var hægt að finna þann sælumun, sem er milli þess að gefa og þiggja, þegar maður þáði af honum. Jeg var kaupamaður hjá honum sumarið eptir að jeg kom fyrst í skóla, og tel jeg það sumar með sælustu æfistundum mínum, því hann var mjer eins og góður faðir, og ljet sjer annara um að jeg fengi að gegna kröfum námfýsi minnar, en hans eigin gagni. Sumir gjörðu orð á því, að hann ekki hefði verið neinn sjerlegur gáfumaður, en það get jeg borið, að fáir af hinum meir gáfuðu hafa eins alúðlaga og kostgæfilega leitað sjer menntunar og hann; enda var hann staklega vel að sjer í mörgu, einkum í hinum hjer á landi lítið þekktu náttúruvísindum. Hann var ætíð hinn mesti örlyndismaður, glaður og skemmtinn, hversdagslega, og mjög elskaður af sóknarbörnum sínum. Sv. Sk.

---

# Auglýsingar.

Kunnugt gjörist, að fimmtudaginn 8. dag næstkomandi aprílmánaðar verður á Akureyri í húsi skipstjóra Ara sál. Arasonar haldið opinbert uppboð til að selja a) fjármuni dánarbúsins nefnilega: íbúðarhús, rúmföt, fverufatnað, bækur, hirzlur, bús- og eldsgögn; o. fl., b) fjármuni þá, er Daði fróði Níelsson ljet eptir sig, nefnilega: föt hans, hirzlur, bækur og handrit, og er það töluvert safn og sumt af því mjög sjaldfengið. Áreiðanlegum kaupendum veitist borganarfrestur til Mikalismessu. Uppboðið á að byrja kl. 10. f. m.; óska jeg því, að kaupendur komi á nefndan stað á tilteknum tíma.

Skrifstofu Eyjafjarðarsýslu 13. dag marzmán. 1858.

**Briem.**

Hinn 11. águst f. á. skoraði jeg í Norðra á alla þá, er höfðu fengið reikning frá mjer við nýár þar næst á undan, að borga þá reikninga í seinasta lagi innan ársloka 1858. Nú hafa að vísu allmargir borgað mjer það sem þeim bar, en þó eru enn nokkrir, sem ekki hafa gjört skil fyrir skuld sinni, og verð jeg því — einkum sökum þess að jeg fer ef til vill hjeðan í sumar komandi — að ánýja við þá, er enn standa í skuldum við mig, hvern fyrir sig, að borga mjer þær að fullu innan 14. maí næstkomandi eptir reikningum þeim, er þeir fengu frá mjer næstliðið nýár.

Akureyri 15. marz 1858.

O. Thorarensen.

Hjá undirskrifuðum fást til kaups járnbent keröld af ýmsri stærð er taka frá 1 til 7 tunnur, hentug undir skyr og líka undir lifur og lýsi og annað þess konar.

Akureyri 1. marz 1858.

Lárus Jensen.
Beikir

Af því að oss virðist það enginn velgjörningur, að veita ókeypis beina öllum þeim sem eru að óþarfa flakki á veturna; og það eru bæði þeir húsgangar, sem kallaðir eru lausamenn, og svo líka hinir, sem eru að sækja óþarfa og munaðar vörur til Húsavíkur eptir að haustverzlun er úti; og það því heldur sem þessi kaupskapur er þeim sjálfum til eintóms skaða, þá lýsum vjer undirskrifaðir því hjer með yfir, sem búum beggja megin Tunguheiðar, og verðum fyrir mestum óþarfa átroðningi: að vjer hjer eptir gjörum greiðann falan einungis fyrir borgun samstundis útilátna sem verður frá 16—24 sk. fyrir manninn um nóttina. Þetta biðjum vjer ritstjóra Norðra að auglýsa í blaði sínu svo að það verði heyrum kunnugt.

Þingeyjarsýslu í janúarmán. 1858.

F. Ólafsson. Ísak Sigurðsson. St. Ólafsson. Þ. Þórarinsson. Þ. Grímsson. Þ. Bjarnason. H. Sveinsdóttir. B. Grímsson. Jón Jónsson. Jón Jónsson. K. Jóhannesson. S. Ólafsson.

Ný upptekið fjármark:
Sýlt, gagnbitað hægra, Sneitt framan vinstra
Brennimark D D S
Davíð Davíðsson á Efriglerá í Glæsib. hrepp.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletrslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár. 17. April. 7.—8.

## (Úr brjefi að austan).

(Desember 1857). Jeg sje grein úr brjefi frá mjer í 27 – 28. Norðra blaði þínu um Bernharð prest frakkneska og Ólaf stundarfjelaga hans. Ætla það sje ekki næst, að jeg bæti enn við ofurlitlum þætti í útfararsögu sjera Bernharðar? Jeg segi rjett það sem jeg hefi heyrt. Þú veizt jeg er ekki hjá honum, því get jeg ekki ábyrgzt að sögurnar sjeu sannar. Sama verður og um það, ef jeg fer að segja þjer álit mitt um eitthvað í þessu máli. Þú veizt jeg er hvorki lærður nje djúphygginn. Þetta er nú svo sem formáli þáttarins!

Síðan jeg skrifaði þjer seinast, er sagt að Bernharður prestur hafi jafnan setið við bókiðnir sínar hjer í Vestdalseyrar-kaupstaðnum, og lesi mest íslenzku. Hann er mesti iðjumaður. Í haust sáu kaupstaðarmenn hann sjaldan. Bæri það við, var hann eins og fyr prúður og fálátur; en taki menn hann tali, er hann viðfelldinn og stillilega glaðlyndur. Þó liggur töluverð alvara og áhyggja í yfirbragði hans. Enginn hefur getið um, að hann hafi orðað trú við nokkurn komumann, enda er honum mjög stirt um málið enn, og skilur ekki nema stillilega sje talað, og fjölda orða alls ekki. Eitt sinn kom það upp í haust að hann mundi vera mikill læknir. Var sú orsök til þess, að einhverjir, sem höfðu kýli eða skeinu gengu til hans, sýndu honum og báðu ásjár. Af því maðurinn er efalaust góðmenni, gaf hann einhverjum, sem kvörtuðu við hann plásturklínu, og þótti þeim skjótt batna við. Af þessu spunnust sögurnar. Þú veizt, að við erum ætíð fljótir að trúa því sem er ólíklegt eða lýgilegt — það eru leyfar katólskunnar gömlu —. Þegar prestur varð þess var, að menn mundi vera farnir að fá lækningahjátrú á sjer, og einhverr leitaði ráða til hans, sagði hann: „jeg get ekki læknað og má ekki lækna.“ Síðan vetraði, er mjer sagt hann sje farinn að tala dálítið um trúarefni yfir borðum á kvöldin við kaupmenn, eða hvað jeg á að kalla þá — selráðsmenn þeirra Ö. & W. sál, á Vestdalseyri —. Segja sumir að kaupmenn hafi dugað dável í trúarvörn sinni.

Í haust heyrði jeg, að Bernharður prestur ætli að byggja mikið hús í vor komandi hjá Vestdalseyri. Fóru margar sögur um höll þessa. Þar átti að verða spítali, skóli og kirkja, og svo framvegis eptir götunum.

Flestir menn álíta hjer, að ekki sje annað gjörandi en banna presti að byggja hjer, svo hann nái ekki að villa trú manna; og fari hann að kenna, þá sje eina hjálparráðið. að banna honum það, og gjöra hann og alla falskennendur útlæga að lögum fyrir öllum ströndum Íslands. Sagt er mjer að lögmenn okkar telji þessa aðferð rjetta eptir íslenzkum lögum.

Jeg veit ekki um þetta; lögin þekki jeg ekki. En það finnst mjer skoðunarmál, hvort það muni verða hollara fyrir trúna okkar, að spyrna móti villukennendunum, ellegar meinast ekki við þeim. Það er annaðtveggja, til að mynda um þessa katólsku norðurlanda postula, að þeir fara trúarboðunarferðir af trúarsannfæringu um það, að þeir gjöri guði þægt verk með þessu, og hjálpsamlegt fyrir okkur, sem þeir vilja leiðrjetta — ellegar þeir hafa gengið í þjónustu einhvers prestafjelags eða katólsks trúarboðunar fjelags, til að fá að jeta, eins og sumir segja um Ólaf katólska, að hann hafi kastað trú sjer til matar. Fleiri geta enn verið efni norðurfarar þeirra, sem jeg get einskis til um í þetta sinn. Hafi nú þessir postular farið til að afla sjer fjár og uppheldis, og trúarboðun sje yfirskynið, þá get jeg vel trúað, að okkur dygði fullvel, að vísa sendiboðum þeirra hjeðan að lögum, og það gæti verið, að þessir miklu trúmenn á Frakklandi ljeti sjer hægt um hræðurnar hjerna, þegar þeir vissu, að hjer væri trúarófrelsi í lögum. En hafi postularnir farið af trú-

arsannfæringu, og menn rísa öndverðir móti þeim, og vilja gjöra landræka, er jeg hræddur um að, þeim fari eins og Þór í Vimur, að því meira andstreymið gjörist, því meiri móður vaxi þeim eða trú þeirra. Svo hefi jeg heyrt að farið hafi, þegar bannað hefur verið að kenna einhverja trú, að því heldur hafi þá verið leitað bragða að útbreiða hana. Því jeg ætla hverri trú aukist styrkur, þegar hún er ofsótt. Mjer er líka sagt að það sje trúarregla Jesúíta, að tilgangurinn helgi meðalið; og þeir eru kunnir að því alstaðar, að þeir svífast engra vjela til að framkvæma það, sem þeir kalla gott. Ef það eru þá Jesúítar, sem gjöra út þessa postula, þá fellur ekki sú eik við fyrsta högg; skil jeg, þeir geta fundið nóg ráð til að smeygja hjer inn villulærdómum sínum, þó postulum þeirra sje bannað að kenna hjer. Vil jeg þá miklu heldur opinbera villukenningu, en leynilega. Vestmanneyingar þóttust hafa hnekkt Mormónavillunni strax í upphafi. En það er óvíst hvort það hefði reynzt verra, að lofa þessum Mormóna gikkjum að rugla sem þeir vildu, en kenna móti þeim, og gjöra þá að athlæi, heldur en að banna þeim.

Þessi tilraun katólskra, að breiða hjer út páfavillu annað sinn, ætti að stranda á okkur sjálfum, og verða þeim til minnkunar. Það væri sigur okkur til sóma, en hitt ekki, að reka kennendurna úr landi, af hræðslu við sjálfa okkur og trúarleysi okkar. Jeg veit menn segja: þessi loflegi sigur verður ekki unninn hjerna; þó minnkun sje að geta þess til, að við munum hafna beztu trú, sem okkur er kennd, og taka í staðinn katólska villu, sem mesta ógæfu og hörmungar hefur leitt af hjer á landi — öðru en verzlunaránauðinni —, að taka í staðinn þá villu, sem nærri alls konar illt og alls konar ódáðaverk hafa risið af um aldur heims. Mjer finnst þessi viðleitni, að koma hjer inn páfavillu, vera svipuð ofsókn móti trú okkar. Ætti hún því miklu heldur að auka trúnni okkar styrk, sem hún þarf svo mjög við á þessum dögum, heldur en að fella hana, þegar hún skyldi, að sjer væri háski búinn af villunni. Þó við gjörum ráð fyrir því versta, að katólskir gæti komið hjer upp söfnuði, geturðu samt ímyndað þjer, að aðrir gengi í hann, en þeir, sem áður höfðu enga trú, nema hvað þeir hefði reist mammoni stallá í hjarta sínu; og slíkur söfnuður væri þeim varla ofgóður páfavillumönnum. Þú segir, veit jeg, að börn þessara trúarníðinga læri villuna af þeim og svo haldist hún við. Ef krakkarnir yrði betrfeðrungar, mundi vinnandi verk að laga þá. En líktist þau feðrum sínum, hjeldu þau líklega sömu stefnu, og það mun þá vera skaði að missa þá úr trúarfjelagi okkar! Jeg held hvorugir yrði ver farnir. Þegar við athugum vel, sýnist mjög torvelt að stofna hjer katólska söfnuði í svo strjálbyggðu landi, það yrði, held jeg, aldrei nema hræður á stangli hjá okkur sem köstuðu trúnni, og dæi þær smámsaman út, ef fáir væri til að viðhalda trúarlífi þeirra.

Þú heyrir á þessu, að jeg er ekki neitt hræddur við katólskuna. Jeg held hún nái aldrei að útbreiðast hjer, því hún er hötuð frá fyrri tíðum, og hver maður með viti skilur, að það sem hún kennir ólíkt okkar trú, er heimska og hjegómi, gagnstætt skynseminni og guðs orði; en tilraunirnar gæti orðið trúarlífi okkar til góðs. Jeg vil því helzt lofa þessum páfavillupostulum að vera í friði, og umgangast þá eins og bræður, meðan þeir sýna okkur ekkert misjafnt; og þó þeir byggi hjer hús, sje jeg enga hættu í því. Okkur gæti vel staðið margt gott af þeim, ekki síður en illt. Ef þeir færi að reyna að kenna villulærdóma, vil jeg prestarnir okkar kenni á móti þeim — til þess eiga þeir líka að vera — sýni okkur bændunum og alþýðunni hvað rangt er og móti ritningunni, og vari okkur við að trúa því nokkru, eða hlýða á slíkar kenningar. Þeir ætti að brýna fyrir okkur, að slík árás á okkar trú eigi að hvetja okkur að vanda framferði okkar, svo við smánum ekki þá trú, sem okkur er kennd, og við álítum rjettasta allra trúarbragða, að við smánum hana ekki með þeirri hegðan, sem er gagnstæð boðum hennar.

Þó álít jeg ekki ráðlegt, að selja nokkrum útlendum trúarboða eða öðrum, fyrst um sinn, stærri lóð, en undir hús, er hann vildi byggja, eða jafnvel selja ekki, heldur leigja fyrir leigu og með ákveðnum skilmálum. Því ef við seldum slíkum útlendum mönnum jarðir eða jarðar-parta, einkum við sjó, gæti þeir sett þar niður einhvern óþjóða- eða ójafnaðarlýð, eða stofnað þar eitthvað það, sem okkur yrði að meini, þegar framliði stundir, þó það reyndist meinlaust eða gott í fyrstu.

Svo hætti jeg þá í þetta sinn að tala um katólskuna og postulann hennar. — Ef þjer finnst álit mitt í þessi efni fjærri lagi, ertu

skyldugur að leiðrjetta mig, lærður maðurinn ólærðan.

Seinna skal jeg segja þjer, þegar meira bætist við útfararsögu Bernharðar prests.

---

(Marz 1858). Stuttur verður þátturinn, sem jeg bæti við sögu sjera Bernharðar. Það er ekki kominn enn sá tíminn, að neitt gjörist sögulegt í ferðum hans hjer. En þó hann hafi hjer einasta vetursetu einn síns liðs, og búi eins og munkur í klaustri, hefur samt hugur margra snúizt til hans, ekki af því sem enn hefur gjörzt, heldur hinu, sem menn hugsa seinna muni gjörast af ferð hans hingað.

Hann situr enn jafnan við bækur sínar, og er allur hinn sami og fyr í daglegri umgengni, viðfelldinn, mannúðlegur og góðgjarn. Íslenzkuna er hann að reyna að tala, en engin mynd er á því; framburðurinn er frakkneskur og orðin rangt hneigð; mörg orðin eru líka dönsk hjá honum, eins og hann heyrir daglega kringum sig, og víða man hann ekki. Ekki skilur hann okkur, nema við tölum sem stilltast, og þó opt alls ekki. Hann minnist nú jafnan á trúarbrögð okkar við þá, sem hann umgengst og lastar það, sem ólíkt er páfavillunni. Hafa sumir verzlunarþjónarnir gaman af að herma eptir honum, og lasta villulærdóma katólskunnar, og það stundum svo ákaft, að prestur verður uppvægur af vandlætingu. En engin þykkja sjezt á honum þegar frá líður. Halda þeir, sem bezt hafa tekið eptir geðslagi hans, að hann geti stillt sig þegar hann vill, og stýrt geði sínu öldungis eptir vild sinni.

Það telja menn víst, að hann muni ætla að byggja hjer hús í vor, og bætir hann þá líklega við sig fleiri postulum; og talað er hann hafi sótt í vetur til yfirvaldanna um leyfi til að byggja. Minnst hefur hann á það, að menn væri hjer í dæmalausu þrælsbandi, ef það væri satt, að menn mætti ekki selja hjer lóð hverjum sem vildi, og hverjir sem vildu mætti ekki byggja hjer hús og lifa á fje sínu.

Margar kátlegar sögur hafa spunnist hjer út af presti þessum, svo sem að hann væri búinn að skíra eina 3 eða fleiri af kaupstaðarbúum á Seiðisfirði, að hann hafi gefið einum 70 spesíur til að kasta trúnni, og fl., en allar eru þær smíðar einhverra ganta og tóm lokleysa.

Mjer þykir líklegast að þrælsband það, sem prestur talar um, hvíli hjer ekki á mönnum. Hitt er annað mál, hvort lög okkar leyfa þeim hjer landsvist, sem hafa aðra trú en við. Þó minnir mig Gyðingar megi búa hjer. Hvað sem þessu líður, þykir mjer næsta líklegt, að katólskir postular nái að nema hjer staðar, og að við eigum í vændum stundarglímu við þá. Feður okkar voru góðir glímumenn, og kunnu mörg brögð, og skömm er að því, að sú fagra og nytsama þjóðar íþrótt er nú nærri út dauð, sú íþrótt sem styrkti allan líkamann, og gjörði alla limi liðuga og snara til hvers sem þurfti. En þú munt segja, nú er önnur æðri list komin í staðinn; ekki á jeg við dansinn útlenda, því jeg gjöri þig aldrei þann þjóðlera, að trúa þú metir hann nokkurs móti glímunni, heldur hin listin að glíma í andanum. Jæja! látum oss nú sjá, hvernig prestar okkar duga að glíma í andanum móti katólskunni og kenna okkur góð tök til þess að snúa af okkur brögð Jesúíta. Ef prestar okkar eru svo lærðir sem nú er sagt, vorkenni jeg þeim ekki að halda okkur föstum á fótum, því aldrei efast jeg um góðan vilja þeirra, og í þessum efnum, sem hjer ræðir um, erum við fúsir ar taka tilsögn þeirra, því við hötum katólskuna, eða villulærdóma hennar, eins og vert er, þó við megum ekki hata mennina sem leiðast af þeim. Okkur langar víst ekki til að katólskan hneppi samvizkur okkar í þrældóm eins og henni er títt. Okkur langar ekki til að taka upp hjáguðadýrkun hennar eða vitlausar hjegiljur og okkur langar ekki til, þjer að segja, að byskupar og klerkar okkar verði eins voldugir og ráðríkir og hjerna á árunum, þegar þeir fjefljettu hvern sem þá lysti, hræddu, pintuðu og smánuðu undir yfirskyni trúarvandlætingar og helgra laga, er þeir nefndu svo, af því páfar höfðu sett þau, en til að auka veldi sitt og klerkanna og kúga samvizkur manna og frelsi.

Mjer finnst mjög ólíklegt, að nokkur kasti hjer trú sinni, ef prestar okkar duga að gegna skyldu sinni, og þegar þessi hætta vofir yfir, vona jeg við áhlýðumst ráð þeirra venju fremur í þeim efnum, sem trúna snerta. Veit jeg að sönnu, að Jesúítar eru slægir og ráðast fyrst á einfeldinga, trúlitla menn og börn með blíðmælum, gjöfum, fögrum fyrirheitum og þvílíku, en okkur er varla minna ætlandi, sem betur þykjumst viti bornir, en að verja aumingjana fyrir vjelum þeirra.

Jeg er því enn sem fyr hughraustur, og vona við höfum ekki illt, heldur gott, af árás katólskra á trúna okkar. En þeir eru vísir til að ætla sjer

eitthvað annað, sem gæti orðið okkur til ills, en hafa trúarboðunina fyrir yfirskyn. Slíkt hefur opt verið háttur Jesúíta, heyri jeg sagt, þó er ekki vert að fullyrða að svo muni nú vera að óreyndu. þá skal jeg ekki fara fleiri orðum núna um þetta efni, en bæta við seinna, ef postuli Djunkowskýs kveður okkur ekki alfarinn í vor.

**Bóndi austfirðingur.**

---

# Reglur

## til að uppræta fjársýkina í Húnavatnssýslu, og til að varna útbreiðslu hennar

Á amtsfundi hjer á Hólanessverzlunarstað í gær hefur amtmaður Havstein skipað í nefnd A. Arnesen sýslumann í Húnavatnssýslu, J. Skaptason hjeraðslækni, sjera H. Hinriksson, Ó. Jónsson dannebrogsmann, Stefán Jónsson alþingismann á Steinstöðum, Erlend Pálmason hreppstjóra og Daníel bónda Jónsson á þóroddsstöðum; eptir frekari umræður og umhugsun samkvæmt áliti fundarins hefur nefndin í dag komið sjer saman um reglurnar sem fylgir:

1. Allt geldfje, nefnilega sauðir og geldingsgemlingar í allri Húnavatnssýslu vestan Blöndu, sem enn þá eru til óeyddir, skal tafarlaust niðurskorið; engin undanþága þar frá er möguleg. þeir fjárríkustu skulu hafa lokið þessu innan 20. apríl næstkomandi; en allir aðrir skulu fullnægja þessu boði strax, og má hvergi skerast færra enn 50 á viku; þetta undir viðlagðan þvingaðan niðurskurð án endurgjalds, sem ekki má dragast ef tregða er sýnd.

2. Hreppstjórar og hreppsnefndamenn gangi strangt og trúlega eptir framkvæmd á þessu undir umsjón sýslunefndarmanna.

3. Leyft er að lambhrútar lifi á bæ, svo margir, sem ærtalan eptirleiðis útheimtir, en þar sem eigi er lambhrútur til, má að eins einn eldri hrútur lifa, þó ekki nema hrúturinn sje hagvanur, skal hreppstjóri ákveða tölu hrútanna eptir ærfjölda.

4. Skurður á sýktu og grunuðu fje framhaldist einnig tafarlaust; grunað fje meinast allt sauðfje á þeim bæ, hvar sýkin hefur gjört vart við sig á einni kind eða fleirum, án alls tillits til þess, hvort einbýli eða fleirbýli er á bænum; en vegna kringumstæðanna og tímalengdarinnar álízt að ekki þurfi að koma til niðurskurðar á ánum fyrst um sinn á Undirfelli, þorkelshóli og Ásgeirsá, þó að eins með því skilyrði, að ærnar geymist vandlega við hús og hey til sumarmála, og skulu tveir útvaldir menn af sýslunefndinni hafa sjerlega tilsjón með fjárvarðveizlunni á þessum bæjum.

5. Fjárrannsókn framfari strax úr páskum í öllum hreppum sýslunnar bæði miðandi til þess, hvort lokið sje niðurskurði á sýktu og grunuðu fje og á sauðum og geldingum, og til að aðgæta heilbrigðis ásigkomulag fjárins á vanalegan hátt.

6. Finnist nokkuð óskorið af áðurnefndu fje, í móti því, sem bæði áður er margfyrirskipað, og nú ítrekast í 1. og 2. grein, þá tilkynna skoðunarmenn það hreppstjóranum og hann aptur tafarlaust sýslunefndinni til frekari aðgjörða. — Telja skal fjeð við rannsóknina.

7. Næsta rannsókn framfari rjett fyrir sauðburð eða um krossmessu; sú 3. rannsókn rjett eptir fráfærur, og aðgætist talan strangt í hvort sinn, og rannsakist orsökin til framkominnar breytingar. — þar næst framfari fjárrannsóknir eptir nákvæmari ákvörðun sýslunefndarinnar. Vanalegar skýrslur um rannsóknina og tölu fjárins sendist tafarlaust sýslunefndinni.

8. Hver einasti bóndi aðgæti vandlega fje sitt eptir amtsbrjefi frá 17. og sýslumanns frá 26. desember síðstl., og tilkynni hreppstjóra tafarlaust, ef hann finnur hin minnstu ískyggileg kláðaeinkenni; en varist þar á móti að lóga nokkurri grunaðri kind, fyr en skoðuð er af hreppstjóra; þetta undir viðlagðar sektir ef ekki er hlýtt.

9. Allar ær og gimbrar skulu hýsast á hverri nóttu allt fram á sauðburð, en varðveitast á daginn, svo ekki sleppi úr heimalandi, og allra sízt komi saman við annara fje; um sauðburðinn geymist fjeð eins vandlega dag og nótt, ef ekki inni á nóttum þá í hjásetu.

10. Eptir fráfærur geymist ærnar og gimbrarnar í hjásetu á daginn en inni á nóttum, svo ekkert fari úr heimalandi, og allt fjeð jafnan sje víst, þar með einnig hrútar. þessi fjárvarðveizla má sameinast fyrir fleiri nálæga bæi eptir nánara áliti og leyfi sýslunefndarinnar. En komi drepkláðinn fram í einni kind, þá er allur flokkurinn, sem samgang hefur haft, dræpur strax.

11. Fráfærnalömbin geymist hvervetna í hjásetu heima í búfjárhögum á daginn, en hýsist á nóttunni; engin ær má ganga með dilki; sameinuð geymsla lambanna fyrir fleiri nálæga bæi leyfist af sýslunefndinni þegar nauðsyn krefur.

12. Fjárrannsóknin eptir fráfærurnar samkvæmt

7. grein framfer þá einnig á lömbunum og tala þeirra aðgætist.

13. Hreppsnefndin hafi stöðugt eptirlit á dyggilegri fjárvarðveizlu eptir áðursögðu, og telji allt fjeð á hverjum bæ á hverjum 2 vikna fresti, þar hjá rannsaki jafnóðum tafarlaust, nær sem hún verður vör við einhverja vangæzlu eða eitthvað ískyggilegt, og hafi hún sem bezta njósn þar um á hentugasta hátt.

14. Svo framt ein eða fleiri kindur sleppa úr heimavöktun, skal bóndinn strax leita þær uppi, og verði þær ekki aptur fundnar á næsta degi, tilkynni hann það strax næsta hreppsnefndarmanni, sem þá annast tafarlaust um leitina á eigandans kostnað.

15. Ef að eins 1, 2 eða 3 kindur sleppa frá sýktum eða grunuðum bæjum, og sömuleiðis ef fáar kindur sleppa af ógrunuðum bæjum á grunaða bæi, skulu þær dræpar þar sem þær finnast; sleppi kindur milli ógrunaðra bæja, varðar það sektum fyrir hlutaðeigendur, ekki minna enn 1 rd. En ef fleiri kindur skyldu sleppa saman við fje á öðrum bæjum, þá vaktist þær aðskildar, og tilkynnist þetta strax sýslunefndinni til frekari aðgjörða.

16. Engir fjárrekstrar eða fjárflutningar bæja eða sveita á milli mega eiga sjer stað á næstkomandi vori og sumri; en þar sem þetta bann kynni olla sjerlegum óhægindum eða vandræðum fyrir eigendur fjárins, þá er hreppsnefndinni falið á hendur að ráða fram úr því á sem lempilegastan hátt, þó að óskertu sjálfu banninu.

17. Hvorki kjöt nje slátur af nýskornu fje, nje ull eða skinn yfir höfuð má flytjast af sýktum og grunuðum bæjum á aðra bæi. Allar verzlunarvörur þaðan gangi beinlínis til verzlunarinnar á þeim stöðum vestan Blöndu hvar vörunum veitist móttaka, allt eptir þeim ákvörðunum, sem þar um verða síðar gjörðar.

18. Búferla- og vistferlafólk, sem flyzt sveita á millum, skal vandlega láta þvo föt sín og farangur, sem kláðamaurinn gæti dulizt í, áður enn það leggur upp, og taka skýrteini þar um, hjá hlutaðeigandi hreppstjóra, til að sýna það hreppstjóranum í þeirri sveit, hvar það tekur aðsetur; vinnufólk innansveitar, sem skiptir um staði, sýni sínum nýja húsbónda þetta skýrsteini.

19. Allt ferðafólk frá sýktum og grunuðum bæjum brúki þá ýtrustu varúð á því, að það flytji ekki faraldurslúsina á ósýkta bæi, þess vegna skal það ætíð hafa fataskipti áður en það fer af heimilinu, og ekki hafa hunda með sjer.

20. Á næstkomandi sumri má enginn í Húnavatnssýslu undir viðlagðar sektir taka kaupafólk, nema það sje útbúið með áreiðanleg skýrteini um, að föt þess og farangur sje vandlega þvegið, svo ei þurfi að óttast fyrir, að það flytji fjárkláðafaraldrið með sjer. Ef kaupafólk hefur með sjer gæruskinn skulu þau strax brennd eða niður grafin. Ekki má kaupafólk umgangast sauðfjenað.

Nákvæmari ráðstöfun um þetta verður síðar auglýst.

21. Engir vöruflutningar norður yfir Blöndu í vor eða sumar mega eiga sjer stað, þar til nánari ákvarðanir verða þar um gjörðar, og einkum ákveðið hvernig verzlunin megi framfara á næsta sumri. Ullin af faraldursfje verði þvegin í sjóðheitu þvæli, svo lúsin drepist.

22. Á bæjum, hvar faraldur hefur komið, skal, strax sem lokið er niðurskurði á sýktu og grunuðu fje, gjöra vandlega hreinsun bæjarhúsanna, og alls þess hvar í sóttnæmi getur dulizt, samt þvo bæði rúmföt og íveruföt, hreinsa burt allt hey úr rúmstæðum og þvo innan baðstofur m. m. Þeir menn sem nú í vor vilja byrja að rífa þau gömlu fjárhús og byggja önnur ný, á sýktum og grunuðum bæjum, skulu byggja þau á öðrum stað, svíða viðuna vandlega úr þeim gömlu, og helzt brenna veggina og rofið; en þar sem þetta ollir hættu fyrir heybruna, þá fella niður og sljetta vandlega yfir hvorttveggja; þau órofnu gömlu hús skulu apturneglast, svo engin skepna nái þar inn að komast. Hreppsnefndin á að hafa nákvæma umsjón með, að þessu sem öðru verði framgengt.

23. Á öllum bæjum í Húnavatnssýslu austan Blöndu út að Laxá skal búsmali vaktast nótt og dag á sama hátt og fyrir vestan ána er fyrirskipað. Öll heimalönd í Blöndudal, Svartárdal vestanverðum, og Langadal út að Laxá, skulu á vissum tilteknum degi í hverri viku hreinsast af öllu geldfje sem í þau kann að koma, skal það fje rekast að á hentugum stöðum, vandlega skoðast, og ef ógrunað virðist rekast til afrjettar Hreppstjórarnir hafi eptirlit á þessu og fyrirskipi það nauðsynlegasta í því. Ef í þessu fje kemur fyrir kind sloppin vestan yfir Blöndu, skal hún og allur sá hópur takast í vöktun, og þetta tilfelli strax tilkynnast næsta sýslunefndarmanni. Allir Svartdælingar og Laxdælingar skulu dag-

lega reka allt geldfje sem til þeirra kemur norður og austur til fjalla.

24. Öllum búendum, sem búa langs með Blöndu beggjamegin er hjer með stranglega skipað; að hafa gætur á, að engin kind, hvorki af þeirra eiginnje annara fje sleppi yfir Blöndu, þess vegna skulu þeir tafarlaust taka hverja þá kind, sem þeir sjá að flækist hirðingarlaus með ánni eður nálægt henni, og varast að hundar elti fje yfir hana; en skyldi samt nokkur kind með einhverju móti sleppa yfir Blöndu, skal hún strax dræp þar sem hún finnst. — Fulltryggjandi eptirlit á þessu skulu þeir hafa sýslunefndarmennirnir hreppstjóri E. Pálmason á Tungunesi og hreppstjóri J. Guðmundsson á Gunnsteinsstöðum með styrk þeirra manna, er þeir sjálfir þar til kjósa. Ef einhver sýnir tregðu eða skeytingarleysi í þessu, þá skal hann ákærast til sekta eptir málavöxtum, eins og fyrir afbrot móti reglum þessum yfirhöfuð.

Reglur þessar eru sámdar til amtsins nákvæmari samþykkis og staðfestingar.

Hólaness verzlunarstað 24. dag marzm. 1858.

A. Arnesen. H. Hinriksson. Ólafur Jónsson. J. Skaptason. E. Pálmason. St. Jónsson. D. Jónsson.

þessar reglur samþykkjast hjer með.

**Havstein.**

---

Herra verzlunarfulltrúi Guðmundur Thorgrimsen á Eyrarbakka hefur hlaupið upp til handa og fóta, fokreiður, og lýst því yfir í þjóðólfi (15. bl. þ. á.), að það sje lýgi ein, er sagt var í brjefi frá bónda í Árnessýslu, er stóð í blaði voru, að hann sje skynsamur maður og enginn þrákálfur, og allt það er í því brjefi stóð um kláðalækningar hans. það er nú bæði von og orsök til þess, þó að menn reiðist því, þegar borinn er á þá óhróður og það ósannur, en hitt ætlum vjer að reynslan sje búin að sanna nógsamlega, að lækningarnar hafi mistekist svo víða á Suðurlandi, og að heilbrigði hins læknaða fjár sje þar svo óviss, að menn þurfi ekki að álíta það skerða virðingu sína, þó sagt sje um einhvern þeirra, að þeir hættir við lækningarnar, af því þeir sjeu skynsamir menn og engir þrákálfar. Vjer getum því ekki fundið það með neinu móti, að herra Thorgrimsen sje að nokkru meiddur af því sem bóndinn segir um hann, og vjer finnum enga ástæðu til að segja honum nafn bóndans fyrst að herra Thorgrimsen sjálfur segir að sjer sje ekki ókunnugt hver hann sje, en hvað mikið hann getur haft upp úr því að draga bóndann fyrir lög og dóm, það ætlum vjer að láta hinn lögfróða fjelaga vorn í Reykjavík segja honum.

Hinn heiðraði sambróðir vor þjóðólfur notar nú, eins og við er að búast, þessa „kaupmanns lund“ til að taka upp í sig, og segja það helbera lýgi, er bóndinn hafði skrifað, og skorar á Norðra, að birta nafn bónda þess, er hafi borið þenna ósanna óhróður á kaupmanninn, ef að Norðri vilji ekki sjálfur liggja undir(!) þessum helberu ósannindum“; og atyrðir þjóðólfur svo bóndann um leið með hörðum orðum. Vjer viljum nú fyrst og fremst benda þjóðólfi á gamla málsháttinn, að „hægra er að kenna heilræðin en halda þau,“ og vjer viljum líka minna ritstjóra hans á 81. bls. í 8. ár þjóðólfs, þar sem hann neitar að gegna áskorunum um að nafngreina sögumenn sína, því ekki ætti hann að heimta það af öðrum, er hann ekki kveðst gjöra sjálfur. En þó að vjer álítum það skyldu blaðamanna að taka eigi það, sem þeir geta ekki ættfært, þá erum vjer afsakaðir í þetta skipti, þar eð sá, sem hlut á að máli, segir sjer ekki ókunnugt hver maðurinn sje, sem þetta hafi ritað. En til þess að benda vorum heiðraða fjelaga þó á, að vjer höfum haft töluverða ástæðu til að trúa þessu, þá getum vjer sagt honum, að það mun og hafa frjetzt hingað norður frá öðrum manni, að herra Thorgrimsen hafi fargað í haust að minnsta kosti nokkru af kláðafje sínu, er hann var að lækna í fyrra vetur, en keypt aptur í skarðið — líklega annað kláðafje — til þess enn betur að reyna árangur lækninganna, Og merkur maður, sem vjer munum geta nafngreint seinna, ef krafizt verður, hefur skrifað hingað um lækningar herra Thorgrimsens í vetur: „Í Stokkseyrarhrepp 20 (kindur) hjá Guðmundi faktor Thorgrimsen, sem eru undir umsjón dýralæknis Hansteens, fáeinar hjá hreppstjóranum, hvorartveggju undir beztu hirðingu, en þó dauðans herföng vegna kláðans að sögn þeirra manna sem hafa sjeð þær.“ þetta getur nú ekki annað en gjört oss hina algjörlegu heilbrigði, er Thorgrimsen lýsir yfir á kindum sínum, nokkuð tortryggilega, og vonum vjer, að Thorgrimsen og hinn heiðraði fjelagi vor þjóðólfur fræði oss betur um þetta; því engan skyldi það gleðja meir en oss, að lækningarnar reyndust óbrigðular gegn kláðanum á sauðfjenaði.

Ritstjórinn.

## Þinghöfðafundur vorið 1857.

Miðvikudaginn í 6. viku sumars 1857 var haldinn þinghöfðafundur eins og hin fyrri árin. Var þar heldur fámennt þetta sinn.

1. Þegar búið var að kjósa embættismenn fundarins, var lesið upp ágrip af skýrslum þeim, er komið höfðu til fundarstjóra um jarðabætur liðna árið. Engar skýrslur höfðu komið úr sumum hreppum, og var því ekki hægt að vita, hvað sumstaðar hafði verið framkvæmt. Af því sem kunnugt var, sást, að sáð hafði verið, helzt kartöflum, í rúma 100 garða smáa og stærri í 4 hreppum og höfðu fengizt úr þeim rúmar 200 tunnur. Í þessum sömu hreppum höfðu verið hlaðnir hjer um bil 1800 faðmar af túngörðum, og 1000 faðmar af engigörðum í einum hrepp. Í einum hrepp hafði verið sljettaður rúmlega hálfur þúfnateigur og í 4 hreppum grafnir 2000 faðmar af vatnsveitingaskurðum. Svörður hafði verið tekinn upp á 50 bæjum í 4 hreppum, mest í einumþeirra. Fleira var ekki talið til nývirkja í þessum hreppum, nema í Fljótsdal; þar hafði verið plægt dálítið og sáð höfrum í eldri reiti; fengust af þeim 40 hestar af hafragrasi.

Fundarmönnum var kunnugt, að töluvert hafði verið gjört í hinum hreppunum, sem engin skýrsla var til um.

2. Þeir sem til þess voru kjörnir í fyrra að skrifa landlækni um fjársýkina á austurlandi, lýstu því nú, að þeir hefði gjört það, en ekkert svar eða ráð hefði en sjezt frá lækninum.

3. Þá var talað um, hvort nokkurstaðar væri farið að safna hjer búnaðarsjóðum, og sagði forseti búnaðarfjelagsins í Fljótsdal, að þar væri komnir 40 rd. Nú lofuðu 3 merkismenn að reyna að gangast fyrir dálitlu safni í sínum sveitum.

4. Þessu næst voru ræddar samþykktar og undirskrifaðar 2 bænarskrár til alþingis, um stöðu Íslands í ríkinu, og um aðalkaupstað austurlands á Seiðisfirði. Þriðja bænarskrá um það að fyrirmuna Frökkum fiskiverkun hjer á landi var felld af fundinum.

5. Eptir þetta var margt talað um verzlun, verzlunarsamtök og skuldalosun. Kom mönnum saman um, að ómissandi væri, að styðja verzlun Thomsens á Seiðisfirði, sem hefði verið okkur svo þörf. Þó margir segðu sjer kæmi nú ver að skipta við hann, síðan hann vildi engum lána, þá játuðu menn samt, að sú verzlun mundi vera hollust, þegar menn væri búnir að koma sjer fyrir að nota hana.

6. Að síðustu var kvartað yfir því, að fundurinn væri illa sóttur og voru framkvæmdamenn hvattir til ad bæta úr því, helzt á þann hátt, að halda fundi heima, og kjósa þar ætíð nokkra menn á vorfundinn úr hverjum hrepp.

Svo var forseti beðinn að senda uppástungur frá sjer eða öðrum, um sveitirnar á vetrum, svo menn gæti hugleitt þær heima, og búið sig undir að taka þær eða hafna þeim á vorfundi. Fleira var ekki talað um.

Það er hvorttveggja, að það hefur mátt heita „aðfenginn andi“, sem stofnaði og hefur haldið uppi þessum eina nýja vorfundi okkar austfirðinga, enda reynist hann ekki haldbetri en svo, að fundurinn er nú að sofna. Sama anda eru og háðar flestar framkvæmdir vorfundarmálanna. Því verða þær svo alvörulitlar, nema hjá einstöku manni. Við höfum vanist því um svo margar aldir að gjöra fátt annað, en þeir hafa boðið, sem önnuðust velfarnan okkar, og höfðu líka vönd laganna til að flengja okkur með, ef við gegndum ekki — fátt annað, segi jeg, og svo það, sem þessi „þráa lífs nauðsýn“ hefur knúð okkur að vinna fyrir því. Fyrir þetta erum við enn þá heldur óvanir við að gjöra margt af sjálfsdáðum og í sameiningu, sem er nýtt og okkur finnst mega án vera. — Það er vonandi að þetta smá lagist — eins og töluverður vísir sýnist nú sprottinn til í landi okkar — eptir því, sem þjóðernis andinn glæðist í okkur.

Skrifað í nóvember 1857.

**S. G.**

## Úr þingtíðindun Dana.

Einn af þingmönnum bar upp á ríkisþinginu þá spurningu fyrir dómsmálastjóranu, hvort hann vildi ekki hið bráðasta leggja fyrir ríkisþingið frumvarp til laga þess efnis, að „homöopathar fengju leyfi til með vissum skilyrðum að fást við lækningar, eða að þeir að minnsta kosti væru ekki lögsóttir og dæmdir sem skottulæknar. Kvaðst hann eigi gjöra fyrirspurn þessa af því hann efaðist um dugnað allopatha eða vilja þeirra og viðburði til að komast til sannleikans viðurkenningar, heldur af því, að hann væri efins um, að löggjöfin ljeti lækninga-aðferð þessa ná rjetti sínum. Dómsmálastjórinn kvaðst hvorugt þetta atriði taka til greina, því að í hverju ríki, þar sem stjórn væri í góðu lagi, yrðu læknar að taka próf í læknisfræði til þess að þeim yrðu leyfðar lækningar. En þeir sem að hefðu gengið undir læknapróf, þeir mættu lækna með „allopatha“ eða „homöopatha“ meðölum eptir eigin vild, og skipti stjórnin sjer ekki af því. Lehrmann — sem skrifað hefur varnarrit fyrir „homöopathíuna“ — kvaðst þess viss, að þingmenn sæu það af riti sínu, að hann hefði stjórnlausan áhuga á því að halda fram homöopathíunni. Hjelt hann langa tölu um yfirburði homöopathíunnar einkum við kólerulækningar, og sagði mikið frá uppgangi „homöopatha“ á Englandi og Prússlandi, og hlóu þingmenn að. Monrað, einhver hinn merkasti þingmaður Dana, kvaðst ekki geta orðið Lehrmann sammála, en kvaðst ekki vilja tala um málefnið sjálft, þar eð hann bæri lítið skyn á það, því slíkt væri ekki til annars en gjöra sjálfan sig og þingið að athlæi. Fjell þessi umræða þannig niður árangurslaus. Þess má geta, að annar hinn bezti læknir „homöopatha“ Thomsen var í fyrra sektaður um 100 rd. fyrir ranga og vitlausa meðferð á algengum sjúkdómi, og prestur einn, Hass að nafni, sem farið hafði með

lækningar „homöopatha“ var við undirrjett dæmdur til vatns og brauðs hegningar fyrir skottulækningar, en slapp fyrir refsingu við hæstarjett, þar eð ekki þótti fullsannað, að hann hefði selt þessi meðöl.

---

## Mannalát og slysfarir.

(Aðsent). 4. dag febrúarmán. næstl. andaðist á Grásíðu í Kelduhverfi Þórarinn Þórarinsson 82 ára gamall; hann var fæddur á Víkingavatni í sömu sveit, missti á unga aldri föður sinn og uppólst ásamt bræðrum sínum — sem allir eru dánir — hjá móður sinni, ekkjunni Ölöfu sál. Grímsdóttur. Árið 1810 byrjaði hann búskap í Kílakoti í tjeðri sveit og giptist árið eptir jómfrú Björgu Sveinsdóttur frá Hallbjarnarstöðum á Tjörnesi. 1815 flutti hann að eignarjörð sinni Meiðavöllum, og bjó þar 2 ár, þaðan 1817 aptur að Kílakoti, hvar hann bjó í 33 ár, eða til vors 1855, þá hann brá búi og fór til sonar síns að Grásíðu. Með konu sinni eignaðist hann 5 börn, 4 sonu og 1 dóttur; dó eitt þeirra ungt og annað um tvítugs aldur, en þau sem ásamt ekkju hins framliðna lifa eptir eru þessi: Þórarinn hreppstjóri, á Grásíðu í Kelduneshrepp, Sveinn skrifari amtmanns Havsteins á Friðriksgáfu, hjá hverjum ekkjan er til heimilis, og Margrjet gipt fyrrum hreppstjóra Jóhanni Pálssyni á Ytrireistará. Þórarinn sál. var einhver hinn vandaðasti maður í öllu framferði sínu, umhyggjusamur ektamaki og faðir, iðju, sparsemdar og reglumaður, glaður og gestrisinn, ljúfmenni mesta, jafnan frá sneiddur þrætum og misklíð, en ávann sjer hylli allra þeirra er þekktu hann; enginn var hann auðmaður, en búnaðist þó vel. Hann var yfir höfuð merkur maður í sinni stjett.

Bóndi nokkur í Þistilsfirði Jón Marteinsson á Sveinungsvík, aldraður maður, gekk einn dag í vetur til vatnsmylnu á bæ sínum að hyggja að hvernig hún malaði. Hafði hann lotið undir kvarnarstokkinn til að troða í rifur á honum, svo mjöl spilltist eigi; en af því að veður var kalt hafði hann bundið sjer stórklút í strút, og tókst svo óheppilega til, að klúturinn hafði flækzt um járnmöndul mylnunnar, og reyrzt þannig að hálsi honum, og fannst hann þar örendur.— Frjetzt hefur einnig að austan, að kona nokkur á Þorvaldsstöðum í Breiðdal hafi skorið sig á háls í búri sínu.

---

# Auglýsingar.

Hin ýmislegu sjókvikindi, t. a. m.: kuðungar, skeljar, hörpudiskar og kúskeljar, ígulker og annað þess konar, sömuleiðis krabbar, krossfiskar, kolkrabbar og alls konar sjaldgæfir fiskar, sem fiskimenn opt fá í net sín, eða koma öðruvísi höndum yfir, allt þetta smátt og stórt er mjög áríðandi til að skýra þekkingu vísindamanna á náttúrusögu Íslands. Eru menn hjer í nærsýslunum því beðnir að hirða allt þess konar og senda það, eins og það kemur úr sjó, annaðhvort lifandi eða lagt niður í brennivín, til Jóns læknis Finsens á Akureyri, sem borgar fyrir það.

Otto Torell
doktor í heimspeki.

Mjer hefur þótt það furðu gegna, þegar hvað eptir annað er verið að gefa út ljettvægar og lítt vandaðar rímur, að ekkert skuli koma fyrir almennings sjónir af hinum ágætu sagnaritum Jóns sál. Espólíns; því það er alkunnugt, bæði að Íslendingar elska hvað mest sönn og fróðleg söguvísindi, og að rit þessa ágæta manns eru af söguritum vorum hin fróðlegustu og vinsælustu. Eptir Espólín sáluga eru til margar sögur um merkismenn Rómverja. Og hafa þær það tvennt til ágætis síns, að þær kynna mönnum sögu hinnar merkustu og ríkustu þjóðar í heimi, og eru þar að auki teknar og samdar eptir hinum merkustu latínsku og grísku rithöfundum í fornöld, er allra manna hafa bezt ritað. Jeg hefi því ráðizt í að gefa út eina af sögum þessum, söguna af Scipio Afrikanska, sem sýnishorn; og mun jeg gefa fleiri út af þeim, ef að saga þessi fær góðar viðtökur. Sagan fæst til kaups hjá mjer innhept í kápu fyrir 16 sk.

Akureyri 15. dag marzm. 1858.

Jón Borgfirðingur.

### Fjármörk.

Blaðstýft framan hægra og standfjöður aptan vinstra.
Eyúlfur Jónsson á Rauðholti í Norðurmúlasýslu.

Stúfrifað hægra, hvatrifað vinstra.
Björn Hannesson á Hvítbjörgum í Jökulsárhlíð.

Tvístýft framan hægra, hamarskorið vinstra.
Eiríkur Jónsson á Höfða á Völlum í Suðurmúlasýslu.

### Fjármörk á Svalbarðsströnd í Þingeyjarsýslu.

Sneitt aptan hægra, hangandi fjöður framan vinstra.
Kristján Kristjánsson á Þórirstöðum

Stúfrifað hægra, geirstúfrifað vinstra. Brennimark S G.
Stefán Guðmundsson á Þórirstöðum.

---

Einn gamansamur málaflutningsmaður sagði einu sinni frá því, hvernig hann hefði komizt í þessa stöðu sína. Þegar jeg var strákur, var jeg ólmur að hlaupa, svo faðir minn hjelt jeg væri hæfastur til að verða hlaupari. Hann setti mig í skóla til að læra þessa íþrótt, og nú átti að taka úr mjer miltað, svo jeg yrði þolnari. En læknirinn, sem átti að gjöra það, var sá erkiklaufi, að hann tók samvizkuna í staðinn fyrir miltað. Jæja! hvað var þá til ráða. Nú var jeg til einskis nýtur nema að verða málaflutningsmaður.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletrslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár. 28. April. 9.—10.

## Verzlun á Seiðisfirði árið 1857.

Í fyrra vetur sendi jeg þjer, Norðri karl! til meðferðar á húsgangi þínum, grein um skuldaverzlun og skuldlausa. Jeg taldi þar margt til gildis skuldlausri verzlun, og enginn hefur orðið til að reka það. En heyrt hefi jeg, að sumir hafi kallað ástæður mínar ljettvægar. Jeg segi það sje af því, þeir hafi ekki vegið þær vel. Sumum kvað hafa þótt jeg mæla þar með því, sem hjer gæti ekki komizt á, og væri hjegómi að tala um. Þetta er annað mál, sem þeir eiga eptir að sanna.

Núna ætla jeg að fá þjer dálitla sögu um verzlunina á Seiðisfirði árið sem leið, og einkum það, hvernig þessum kaupmanni reiddi af, sem engum vildi lána. Svo er jeg vís til að bæta inní smá athugasemdum frá mjer.

Þú veizt, eins og landshornamaður, að þrjár eru verzlanir hjá Seiðisfirði; ein sú, sem er dóttir móðurverzlunar Austfirðinga og stendur á Vestdalseyri, út með firði, önnur sem á Th. Thomsen kaupmaður, og þriðja sem er eignuð Knútzon stórkaupmanni í Kaupmannhöfn, er Sunnlendingar munu þekkja; þær standa báðar innan við fjarðarbotn.

Thomsen var sá, sem byrjaði á því að lána engum í fyrra vetur, og lýsti ráðsmaður hans því fyrir fram með brjefum í sveitirnar. Heyrði jeg þá, að flest allir töldu þetta ráð hans mestu vitleysu og óeigandi við hann, meðan hann hjeldi slíku fram. Það bætti nú ekki heldur fyrir, að þegar grannar hans, sem stýrðu hinum verzlununum, vissu þetta nýmæli, styrktu þeir menn í trúnni, að þetta verzlunarlag væri óhafandi og lánuðu á báðar hendur hverjum sem hafa vildi, sögðu menn. Það hafa og nokkrir kunnugir talað fyrir mjer, að sumir hafi verið ginntir til að taka ýmsan óþarfa að láni, til að binda þá skuldum. En líklegt er að í þessu sje ekki mikið tilhæfið. Þrátt fyrir þetta seldi verzlunarráðsmaður Thomsens tölu-vert í fyrra vetur, af því litla sem hann hafði til.

Þegar verzlun byrjaði í sumar, var svo undarlega snúinn hugur manna, að Thomsen fekk strax í upphafi miklu meiri verzlun en hinir, og bauð þó engu betur og lánaði engum. Hann hafði að sönnu bætt prísinn um 2 sk. á hvítu ullinni, en það tóku líka hinir strax eptir. Eyrarverzlunin eða móðurverzlunin, sem jeg kalla, varð mest út undan, og prettuðu margir hana í fyrstu, sem hún hafði þó lánað í fyrra vetur nauðsynjar. Orsök þessa töldu menn einkum, að frá þeirri verzlun fór í vor mjög vel þokkaður ráðsmaður, en annar kom í staðinn ókenndur, er mönnum geðjaðist síður að í bráð. Þegar á þessu stóð, kom á Vestdalseyrina fulltrúi þeirra Ö. & W-s, er ræður miklu í ríki þeirra á austur og norðurlandi, Jakob Þórarinsson af Akureyri, er Danir og Dana-apar kalla Johnsen, og sumir fleiri, af því þeir vita ekki hvað hann heitir. Hann kippti brátt öllu í liðinn með viturleik, blíðmælum og fögrum loforðum. Enda efndist það allvel er hann lofaði, að eins gott skyldi að verzla hjá sjer og annarstaðar. Nú jafnaðist verzlunin milli allra, eins og bezt hentaði, svo enginn varð út undan. En sá varð endir sumaverzlunar Thomsens, sem engum lánaði, að hann fjekk fullt eins mikla vöru og í fyrra, og gekk honum þá með allra bezta móti. Þessi afdrif urðu miklu betri, en menn höfðu vænt, þar sem engum var lánað. — Vilja menn þó jafnan fá lán á sumrum til haustverzlunar. Þó Thomsen keypti eina 2 flokka af verzlunarsamlagsmönnum, með því að gefa þeim nokkuð um fram almenning, þá gjörðu hinir það líka.

Þessi fyrsta tilraun hans, að verzla hjer skuldlaust, og hvernig henni reiddi af, mitt innan um hina, er vottur þess, að margir finna það, sem enginn getur neitað með nokkrum sanni, að slík verzlun er okkur hollust eins og öllum þjóðum. Hitt

er annað mál, hvort hentara mundi vera, að koma henni á smámsaman, ellegar svona allt í einu. Hvort tveggja getur farið vel. — það er að sönnu óvinnandi að fylgja hjer öllum reglum skuldlausrar verzlunar ætíð, t. a. m. þegar mest er ös að kljá alla reikninga áður enn hver fer af stað í hvert skipti. Enda stendur slíkt ekki á miklu. Thomsen varð og í sumar að bregða út af ýmsu, vegna hinna sem kepptu við hann, og fyrir það hann skorti silfur til að jafna viðskipti. Hann varð að bæta upp prísa, ef aðrir gáfu betri, og hann varð að biðja suma að lána sjer, eða eiga hjá sjer til hausts. Hann reyndist því síður fær um að byrja skuldlausa verzlun, en við að þiggja hana.

þá er vert að minnast þess, hvernig verðið var að smá hækka á sumum vörunum fram eptir sumrinu. Var það þó ólíkt hjer í sumar og áður, að nú fengum við að heyra í tíma flest allt verðlag, og það breyttist lítið síðar. það var helzt hvíta ullin sem smáhækkaði. Fyrst var pundið 36 sk. Ekki man jeg hver það verð setti fyrstur. En þegar Thomsen sigldi inn fjörðinn, þá bauð ráðsmaður Knútzons 38 sk. — Síðar bauð Thomsen 40 sk. og við það stóð alla sumarverzlun, nema lausakaupmaður sem kom á Seiðisfjörð bauð og gaf 5 rd. bót á hverja 100 rd., sem verzlað var við hann, því hann mun hafa grunað, að verðlagið mundi hækka, en hyggur líklega að koma aptur á næsta sumri. það fór líka svo, að eptir sumarverzlun setti ráðsmaður Knútzons 42 sk. verð á hvítu ullina, og fetuðu þá hinir eptir í fótspor hans. Svona er það nú notadrjúgt, þar sem verzlun stendur mörgum fótum á sama stað, þá smágetur fótur við fæti skildinga handa okkur. þessi tvískildingur á hverju hvítu ullarpundi nemur ekki svo litlu á mikilli vöru. Hver 2 sk., sem jókst í sumar á Seiðisfirði við verðið á hverju hvítu ullarpundi, bætti hjerumbil 1800 rd. við ullarverðið okkar, sem verzluðum þar.

Verzlunin í sumar hefur orðið okkur svo arðsöm, framar en áður, að líklegt sýnist við værum nú betur staddir, til að fara að smákaupa okkur frelsi úr skuldaþrældómnum. Eptir því sem jeg hefi komizt næst um ull og tólg, sem flutzt hefur af Seiðisfirði í sumar og haust, hefur það, sem verðið var hærra af þessum tveim vörutegundum nú en í fyrra, svarað allt að 12000 rd. Hjer að auki var lýsið horgað 4 rd. meira en í fyrra og allur útlendur matur miklu ódýrari. Jeg held það sje því óhætt að fullyrða, að við, sem verzluðum á Seiðisfirði í sumar, höfum haft hjerumbil 16000 rd. hagnað á því, sem verzlun var þar betri nú en hitt árið. þetta sýnist ekki lítið fje, og varla ætla jeg skuldir okkar á Seiðisfirði sjeu það sem stendur miklu meiri en þessu svari. þessir 16000 rd. verða þó að hafa borgað eitthvað, ellegar vera enn okkar eign að mestu leyti. því hvorki var margt í kaupstöðum dýrara nú en í fyrra og ekki er líklegt við höfum keypt mikið meiri óþarfa nú en hitt árið. Hins vegar gjörist okkur bændum margt kostnaðarmeira ár eptir ár, optir því, sem landaura verð hækkar. þinggjöldin vaxa árlega að dala tölu,

---

## Maðurinn var Englendingur.

það er satt að ýmsar hugarsóttir eru svipaðar hjá öllum mönnum, en þó hefur jafnan sinn hvert hugarfar.

Maður er nefndur Tómas eðalmaður í Lundúnaborg. Hann var ágætur maður, stór-auðugur, dáfríður, en kominn undir fertugt þegar þessi saga gjörðist. það var einkennilegt um Tómas, að hann hafði aldrei hneigt hug til nokkurar konu, og hló að þeim sem höfðu áhyggjur af kvennástum; enda sagðist hann sjálfur mundi fara svo í gröfina, að sú heimska kæmi aldrei að sjer. Margar fríðustu stúlkur af göfugum ættum höfðu lengi gjört hvað þær gátu að leiða huga hans til sín, og komust engu nær. Eitt sinn fór hann að heiman úr borginni á dýraveiðar að skemmta sjer. þá vildi svo til, að hann kom á stórbæ nokkurn. Honum varð gengið þar inn í dálítið hús. þar var allt hreinlegt og hispurslaust. Í húsinu sátu 2 konur, önnur öldruð, hin ung — þær voru mæðgur af göfugum ættum og höfðu farið úr Lundúnaborg út í sveit, af því þær misstu eigur sínar fyrir eitthvert óhapp. Hin unga konan var dáfríð og lá einhver yndisleg angurblíða í svip hennar. Hún hjet Sigrún. Tómasi brá undarlega þegar hann sá þessa konu, og vissi ekki fyrst hvað því mundi valda. En bráðum sagði honum einhver rödd í huga hans, að hann hefði fengið ást á stúlkunni. Hann var nokkra daga á dýraveiðum, kom opt til þeirra mæðgna, talaði við þær, og fann að Sigrún var vitur og eðlisgóð, eins og hún var fríð. þó hann reyndi að eyða úr huga sjer þessum nýja kvilla, er hann kenndi, þá var það til einskis. Honum versnaði daglega, svo honum fannst sjer ekki lifandi nema hann fengi Sigrúnu. Seinast sagði hann henni hvað sjer væri í huga og bað hennar. Sigrún roðnaði við, svaraði hæverskiega, og sagðist ekki mega giptast. Honum brá við þetta svar, gekk

eins landskuldir og önnur útgjöld sem greiðast eptir landauraverði. þess er að gæta, að nokkuð af hagnaðinum, sem betra vöruverð veitir, lendir hjá þjónustufólkinu, sem margt á dálítið af vörum. þó kemur ávalt mesti hlutinn til okkar. Samt gjörir þessi ábati miklu minna til skuldalúkningar en sýnist í fljótu bragði hann gæti gjört. Hann lendir mestur hjá þeim, sem mestar hafa vörurnar og skuldlausir eru. Við sem í skuldunum erum, eigum flestir svo litlar vörurnar, að verðmunurinn kvittar lítið. þó hlýtur ætíð góða verðið að hjálpa okkur dálítið til að smálosast, ef við gjöldum varhuga við að kaupa ekki meiri óþarfa en áður, heldur minni. Og með því lagi gæti þó margir af okkur lifað fullt eins sælu lífi. það er engin sæla að kaupa sjer munað fyrir frelsi.

Enn kom það fram í sumar, sem opt hefur borið til áður og bakar okkur svo mikinn óhróður, eins og vert er, að nokkrir sviku kaupmenn, sem höfðu lánað þeim jafnvel lífsnauðsynjar í fyrra vor, og fóru til annara, án þess að borga skuld sína. þetta er eitt hið illa sem fylgir skuldaverzluninni, þó það ætti ekki að þurfa að vera. Sumir segja sjer til afbötunar: þegar jeg verð að kaupa fyrir alla sumarvöru mína, og get ekkert borgað af skuldinni, má einu gilda hvar jeg er. þetta er ekki rjett. Kaupmaðurinn sem á fje sitt hjá mjer, hefur hag af því að fá vöru mína, til að hafa hana í veltu, þó jeg borgi ekki skuldina. þetta er honum góð hugnun, og það, sem hann á leigulaust hjá mjer gjörir honum þá minni eða lítinn baga. það er því ósæmilegt fyrir mig, að unna ekki honum, sem hefur hjálpað mjer, þessa hagnaðar, einkum ef hann skiptir við mig eins vel og aðrir. Stundum tökum við, sem erum í skuldunum, það ráð að hlaupa frá lánardrottni til annars með skuldina og allt saman; við bjóðum öðrum vöruna, með því skilyrði að hann láni okkur silfur í skuldina hjá hinum, þetta er nú fyrir sig og ekki lastandi, ef við höfum ekki lofað lánardrottni vöru. — En opt taka kaupmenn okkar illa silfri í skuld, ef þeir vita að vara er til. Í því efni get jeg varla mælt þeim bót, því að silfur er góður gjaldeyrir og það, geta þeir optast selt samsumars fyrir vöru.

Lítið var um verzlunarsamtök hjer hjá okkur í sumar, og því síður í góðu lagi, eins og við er að búast, meðan skuldirnar standa. Jeg hefi ekki heyrt getið nema um tvenn. Önnur í Fljótsdal og Framfellum, hin í Hróarstungu. — Í Fljótsdals samtökunum kváðu hafa verið hjerumbil 36 búendur, líklega allir skuldlausir. Riðu forstöðumenn þeirra milli kaupmanna fyrir sumarverzlun, til að semja um kostina. Enginn af okkur hinum veit glöggt hvað samizt hefur. þetta fjelag, er sumir kalla, skiptist á endanum í 3 staði og varð einn hlutinn á Eskifirði. Ekki er kaupmönnum vel við þessi samtök, framar en við er að búast. Og jeg get ekki neitað því, mjer er ekki vel við þau heldur, eins og Fljótsdælingar haga þeim. þau munu vera þeim bezt, öðrum eru þau alls ekki góð. það er mælt þeir haldi öllu á

---

á tal við móður hennar, og bar upp fyrir henni erindi sitt, og lagði að henni að fylgja sínu máli. Kerling stundi við, og sagðist ekki geta það, því jeg hefi lofað dóttur minni að ráða sjer sjálf.

Tómas gafst samt ekki upp við þetta og sótti því fastara á að ná ráðahagnum. Hann spurði Sigrúnu, hvað til þess kæmi að hún neitaði sjer, hvort hún hefði nokkra óbeit á sjer. því fer fjærri, sagði Sigrún. Jeg hefi aldrei fellt hug til nokkurs manns. þó skal jeg ei dylja yður þess, ef jeg mætti giptast þá kysi jeg yður framar öllum öðrum. — „Ef þjer mættuð giptast"! sagði hann. „Hún móðir yðar hefur sagt mjer þjer væruð öldungis sjálfráð". Hún móðir mín, sagði Sigrún! því hefur hún þá ekki sagt yður hvers vegna jeg hefi einsett mjer að lifa ógipt. Jeg ætla að vera ógipt og verð að vera það". „Ef það er vegna fátæktar sagði Tómas, að þjer viljið ekki verða við bæn minni, sem öll stundleg gæfa mín er komin undir hvort jeg fæ eða ekki — þá segi jeg yður það satt, að jeg met lítils auð hjá ástum yðar. Enda á jeg nógan auð handa báðum okkur.

En þetta varð allt til ónýtis; hvað sem Tómas sagði, sat hún fast við sinn keip, svo hann fór hryggur frá henni og heim til sín. þegar hann var kominn heim, lokaði hann sig inni, og fór að hugsa um hvað því gæti valdið, að Sigrún vildi ekki giptast. því ætli móðir hennar segði mjer ekki þenna leyndardóm, sem dóttir hennar getur ekki fengið af sjer að segja mjer? Ætli stúlkan hafi verið tæld og orðið sjer til minnkunnar? því trúi jeg varla um Sigrúnu. það getur trauðlega verið: eða — þó þetta hefði borið til — ætti þá skyndileg hrösun af breiskleika að gjöra svo ágætan kvennmann ólánsskepnu alla lífdaga hennar? — það er skylda mín — það er kærleiks skylda, að sætta hana aptur við mannfjelagið og koma henni í þá stjett, sem hún á skilið.

Eptir þessar hugleiðingar fór Tómas af stað

er annað mál, hvort hentara mundi vera, að koma henni á smámsaman, ellegar svona allt í einu. Hvort tveggja getur farið vel. — það er að sönnu óvinnandi að fylgja hjer öllum reglum skuldlausrar verzlunar ætíð, t. a. m. þegar mest er ös að kljá alla reikninga áður enn hver fer af stað í hvert skipti. Enda stendur slíkt ekki á miklu. Thomsen varð og í sumar að bregða út af ýmsu, vegna hinna sem kepptu við hann, og fyrir það hann skorti silfur til að jafna viðskipti. Hann varð að bæta upp prísa, ef aðrir gáfu betri, og hann varð að biðja suma að lána sjer, eða eiga hjá sjer til hausts. Hann reyndist því síður fær um að byrja skuldlausa verzlun, en við að þiggja hana.

þá er vert að minnast þess, hvernig verðið var að smá hækka á sumum vörunum fram eptir sumrinu. Var það þó ólíkt hjer í sumar og áður, að nú fengum við að heyra í tíma flest allt verðlag, og það breyttist lítið síðar. það var helzt hvíta ullin sem smáhækkaði. Fyrst var pundið 36 sk. Ekki man jeg hver það verð setti fyrstur. En þegar Thomsen sigldi inn fjörðinn, þá bauð ráðsmaður Knútzons 38 sk. — Síðar bauð Thomsen 40 sk. og við það stóð alla sumarverzlun, nema lausakaupmaður sem kom á Seiðisfjörð bauð og gaf 5 rd. bót á hverja 100 rd., sem verzlað var við hann, því hann mun hafa grunað, að verðlagið mundi hækka, en hyggur líklega að koma aptur á næsta sumri. það fór líka svo, að eptir sumarverzlun setti ráðsmaður Knútzons 42 sk. verð á hvítu ullina, og fetuðu þá hinir eptir í fótspor hans. Svona er það nú notadrjúgt, þar sem verzlun stendur mörgum fótum á sama stað, þá smágetur fótur við fæti skildinga handa okkur. þessi tvískildingur á hverju hvítu ullarpundi nemur ekki svo litlu á mikilli vöru. Hver 2 sk., sem jókst í sumar á Seiðisfirði við verðið á hverju hvítu ullarpundi, bætti hjerumbil 1800 rd. við ullarverðið okkar, sem verzluðum þar.

Verzlunin í sumar hefur orðið okkur svo arðsöm, framar en áður, að líklegt sýnist við værum nú betur staddir, til að fara að smákaupa okkur frelsi úr skuldaþrældómunum. Eptir því sem jeg hefi komizt næst um ull og tólg, sem flutzt hefur af Seiðisfirði í sumar og haust, hefur það, sem verðið var hærra af þessum tveim vörutegundum nú en í fyrra, svarað allt að 12000 rd. Hjer að auki var lýsið borgað 4 rd. meira en í fyrra og allur útlendur matur miklu ódýrari. Jeg held það sje því óhætt að fullyrða, að við, sem verzluðum á Seiðisfirði í sumar, höfum haft hjerumbil 16000 rd. hagnað á því, sem verzlun var þar betri nú en hitt árið. þetta sýnist ekki lítið fje, og varla ætla jeg skuldir okkar á Seiðisfirði sjeu þá sem stendur miklu meiri en þessu svari. þessir 16000 rd. verða þó að hafa borgað eitthvað, ellegar vera enn okkar eign að mestu leyti. því hvorki var margt í kaupstöðunum dýrara nú en í fyrra og ekki er líklegt við höfum keypt mikið meiri óþarfa nú en hitt árið. Hins vegar gjörist okkur búendum margt kostnaðarmeira ár eptir ár, eptir því, sem landaura verð hækkar. þinggjöldin vaxa árlega að dala tölu,

---

## Maðurinn var Englendingur.

það er satt að ýmsar hugarsóttir eru svipaðar hjá öllum mönnum, en þó hefur jafnan sinn hvert hugarfar.

Maður er nefndur Tómas eðalmaður í Lundúnaborg. Hann var ágætur maður, stór-auðugur, dáfríður, en kominn undir fertugt þegar þessi saga gjörðist. það var einkennilegt um Tómas, að hann hafði aldrei hneigt hug til nokkurar konu, og hló að þeim sem höfðu áhyggjur af kvennástum; enda sagðist hann sjálfur mundi fara svo í gröfina, að sú heimska kæmi aldrei að sjer. Margar fríðustu stulkur af göfugum ættum höfðu lengi gjört hvað þær gátu að leiða huga hans til sín, og komust engu nær. Eitt sinn fór hann að heiman úr borginni á dýraveiðar að skemmta sjer. þá vildi svo til, að hann kom á stórbæ nokkurn. Honum varð gengið þar inn í dálítið hús. þar var allt hreinlegt og hispurslaust. Í húsinu sátu 2 konur, önnur öldruð, hin ung — þær voru mæðgur af göfugum ættum og höfðu farið úr Lundúnaborg út í sveit, af því þær misstu eigur sínar fyrir eitthvert óhapp. Hin unga konan var dáfríð og lá einhver yndisleg angurblíða í svip hennar. Hún hjet Sigrún. Tómasi brá undarlega þegar hann sá þessa konu, og vissi ekki fyrst hvað því mundi valda. En bráðum sagði honum einhver rödd í huga hans, að hann hefði fengið ást á stúlkunni. Hann var nokkra daga á dýraveiðum, kom opt til þeirra mæðgna, talaði við þær, og fann að Sigrún var vitur og eðlisgóð, eins og hún var fríð. þó hann reyndi að eyða úr huga sjer þessum nýja kvilla, er hann kenndi, þá var það til einskis. Honum versnaði daglega, svo honum fannst sjer ekki lifandi nema hann fengi Sigrúnu. Seinast sagði hann henni hvað sjer væri í huga og bað hennar. Sigrún roðnaði við, svaraði hæverskléga, og sagðist ekki mega giptast. Honum brá við þetta svar, gekk

eins landskuldir og önnur útgjöld sem greiðast eptir landauraverði. Þess er að gæta, að nokkuð af hagnaðinum, sem betra vöruverð veitir, lendir hjá þjónustufólkinu, sem margt á dálítið af vörum. Þó kemur ávalt mesti hlutinn til okkar. Samt gjörir þessi ábati miklu minna til skuldalúkningar en sýnist í fljótu bragði hann gæti gjört. Hann lendir mestur hjá þeim, sem mestar hafa vörurnar og skuldlausir eru. Við sem í skuldunum erum, eigum flestir svo litlar vörurnar, að verðmunurinn kvittar lítið. Þó hlýtur æfið góða verðið að hjálpa okkur dálítið til að smálosast, ef við gjöldum varhuga við, að kaupa ekki meiri óþarfa en áður, heldur minni. Og með því lagi gæti þó margir af okkur lifað fullt eins sælu lífi. Það er engin sæla að kaupa sjer munað fyrir frelsi.

Enn kom það fram í sumar, sem opt hefur borið til áður og bakar okkur svo mikinn óhróður, eins og vert er, að nokkrir sviku kaupmenn, sem höfðu lánað þeim jafnvel lífsnauðsynjar í fyrra vor, og fóru til annara, án þess að borga skuld sína. Þetta er eitt hið illa sem fylgir skuldaverzluninni, þó það ætti ekki að þurfa að vera. Sumir segja sjer til afbötunar: Þegar jeg verð að kaupa fyrir alla sumarvöru mína, og get ekkert borgað af skuldinni, má einu gilda hvar jeg er. Þetta er ekki rjett. Kaupmaðurinn sem á fje sitt hjá mjer, hefur hag af því að fá vöru mína, til að hafa hana í veltu, þó jeg borgi ekki skuldina. Þetta er honum góð hugnun, og það, sem hann á leigulaust hjá mjer gjörir honum þá minni eða lítinn baga. Það er því ósæmilegt fyrir mig, að unna ekki honum, sem hefur hjálpað mjer, þessa hagnaðar, einkum ef hann skiptir við mig eins vel og aðrir. Stundum tökum við, sem erum í skuldunum, það ráð að hlaupa frá lánardrottni til annars með skuldina og allt saman; við bjóðum öðrum vöruna, með því skilyrði að hann láni okkur silfur í skuldina hjá hinum, þetta er nú fyrir sig og ekki lastandi, ef við höfum ekki lofað lánardrottni vöru. — En opt taka kaupmenn okkar illa silfri í skuld, ef þeir vita að vara er til. Í því efni get jeg varla mælt þeim bót, því að silfur er góður gjaldeyrir og það, geta þeir optast selt samsumars fyrir vöru.

Lítið var um verzlunarsamtök hjer hjá okkur í sumar, og því síður í góðu lagi, eins og við er að búast, meðan skuldirnar standa. Jeg hefi ekki heyrt getið nema um tvenn. Önnur í Fljótsdal og Framfellum, hin í Hróarstungu. — Í Fljótsdals samtökunum kváðu hafa verið hjerumbil 36 búendur, líklega allir skuldlausir. Riðu forstöðumenn þeirra milli kaupmanna fyrir sumarverzlun, til að semja um kostina. Enginn af okkur hinum veit glöggt hvað samizt hefur. Þetta fjelag, er sumir kalla, skiptist á endanum í 3 staði og varð einn hlutinn á Eskifirði. Ekki er kaupmönnum vel við þessi samtök, framar en við er að búast. Og jeg get ekki neitað því, mjer er ekki vel við þau heldur, eins og Fljótsdælingar haga þeim. Þau munu vera þeim bezt, öðrum eru þau alls ekki góð. Það er mælt þeir haldi öllu á

---

á tal við móður hennar, og bar upp fyrir henni erindi sitt, og lagði að henni að fylgja sínu máli. Kerling stundi við, og sagðist ekki geta það, því jeg hefi lofað dóttur minni að ráða sjer sjálf.

Tómas gafst samt ekki upp við þetta og sótti því fastara á að ná ráðahagnum. Hann spurði Sigrúnu, hvað til þess kæmi að hún neitaði sjer, hvort hún hefði nokkra óbeit á sjer. Því fer fjærri, sagði Sigrún. Jeg hefi aldrei fellt hug til nokkurs manns. Þó skal jeg ei dylja yður þess, ef jeg mætti giptast þá kysi jeg yður framar öllum öðrum. — „Ef þjer mættuð giptast"! sagði hann. „Hún móðir yðar hefur sagt mjer þjer væruð öldungis sjálfráð". Hún móðir mín, sagði Sigrún! því hefur hún þá ekki sagt yður hvers vegna jeg hefi einsett mjer að lifa ógipt. Jeg ætla að vera ógipt og verð að vera það". „Ef það er vegna fátæktar sagði Tómas, að þjer viljið ekki verða við bæn minni, sem öll stundleg gæfa mín er komin undir hvort jeg fæ eða ekki — þá segi jeg yður það satt, að jeg met lítils auð hjá ástum yðar. Enda á jeg nógan auð handa báðum okkur.

En þetta varð allt til ónýtis; hvað sem Tómas sagði, sat hún fast við sinn keip, svo hann fór hryggur frá henni og heim til sín. Þegar hann var kominn heim, lokaði hann sig inni, og fór að hugsa um hvað því gæti valdið, að Sigrún vildi ekki giptast. Því ætli móðir hennar segði mjer ekki þenna leyndardóm, sem dóttir hennar getur ekki fengið af sjer að segja mjer? Ætli stúlkan hafi verið tæld og orðið sjer til minnkunnar? Því trúi jeg varla um Sigrúnu; það getur trauðlega verið: eða — þó þetta hefði borið til — ætti þá skyndileg hrösun af breiskleika að gjöra svo ágætan kvennmann ólánsskepnu alla lífdaga hennar? — það er skylda mín — það er kærleiks skylda, að sætta hana aptur við mannfjelagið og koma henni í þá stjett, sem hún á skilið.

Eptir þessar hugleiðingar fór Tómas af stað

huldu, svo að fjelagsmenn vita varla sjálfir kostina. Svo ýta forstöðumennirnir þangað til að kaupmönnum, að þeir bjóða það, sem þeir munu varla geta staðið við, nema með því að ná sjer á einhverju öðru eða öðrum. Ef það er satt, sem flogið hefur fyrir, að Fljótsdælingar og samlagamenn þeirra hafi fengið í sumar, fram yfir hæstu prísa, sem urðu, 12 rd. bót á hverjum 100 rd. sem þeir verzluðu, þá getur sú verzlun sízt bætt fyrir okkur hinum. Meira vil jeg ekki segja. Hitt verzlunarfjelagið í Hróarstungu var fámennt; jeg ætla ekki fleiri en 12 manns. Er mjer sagt þeir dyldi ekki kostina, er þeir settu, nema fram um kauptíð; en það var hjer um bil 5 rd. bót á hverjum 100 rd í hvítri ull, og gat það varla minna verið, ef skuldlausir menn áttu í hlut, sem höfðu vandaða vöru. Hjer að auki veit jeg með vissu, að sumir kaupmenn hafa gefið nokkrum verzlunarmönnum sínum einhvern bóta, og ekki minni en Tungumenn fengu. Líklega hafa þessir, sem bóta fengu, sett kaupmönnum bann fyrir í ár.

Ef verzlunarsamtök eru gjörð, vil jeg þeir einir gjöri þau, sem skuldlausir eru; haldi engu á huldu, vandi sem bezt vöru sína og sjeu hóflegir í kröfunum. Kaupmenn ætti að geta gefið meira, sjer að skaðlausu, fyrir vandaða vöru en óvandaða, meira skuldlausum mönnum en skyldugum. Ábatinn hefur lengi verið einn hvassasti spori á mennina. Því hugsa jeg slík verzlunarsamtök, þar sem allt væri opinbert, allt hreint og vandað, hvetti okkur betur en flest annað að losa af okkur skuldaböndin, svo að við gætum notið hagnaðarins með hinum. Við getum jafnvel margir af okkur komizt strax í verzlunarsamtök skuldlausra, þó við værum í nokkurri skuld, ef hinir skuldlausu vildi og gæti tekið okkur að sjer og lánað okkur í skuldina. Þetta mundi þeir vilja gjöra, ef þeir sæi að við vönduðum vöruna okkar, færum vel að ráði okkar, værum skilvísir og gjörðum hvað við gætum til að losast úr skuldum og verjast þeim.

Í ársriti Húnvetninga eru talin yms ráð til að losast úr skuldum, og eru þau einkar vel hugsuð eins og fleira í því riti.

Áður en jeg skilst við þetta mál um verzlunina hjerna í sumar, vil jeg segja þjer, Norðri! — þó þú vitir flest eins og landshornamönnum er títt — aðra sögu, fyrir hvað jeg nefndi í upphafi eina verzlunina á Seiðisfirði dóttur móðurverzlunar Austfirðinga. Síðan elztu menn muna til hjer hjá okkur og fram að þessum árum, hafa 2 kaupmenn búandi í Kaupmannahöfn átt eða ráðið mestallri verzlun á austurlandi og norðurlandi, að minnsta kost vestur í Eyjafjörð, eða á svæðinu frá Skeiðará til Eyjafjarðar. Þessir menn eru nefndir Örum & Wulf, og þó þeir sjeu nú löngu dauðir; er verzlunin eignuð þeim, eins síðan þeir fóru inn í eilíft líf. — Þessi verzlun hefur haft margt til kosta, svo óvíst er, að nokkur útlend verzlun svo einráð, hefði reynzt betur. Hún hefur verið auðug, optar byrg af nauðsynjavörum, og eigendur hennar hafa mjög opt haft hjer merka og vandaða ráðsmenn fyrir útbúum sínum, sem hafa verið fúsir að hjálpa þurfandi, og furðu vægir í

---

í annað sinn að finna Sigrúnu síða. Hún tók honum þægilega eins og áður. Nú fór hann að tala um sín mál með mestu stillingu og kurteysi, og ljet hana skilja, með ofur viðkvæmum orðum, hvað sjer hefði dottið í hug um hag hennar. Sigrún tók strax undir og sagði, nei! nei! Hamingjunni sje lof! mjer hefur aldri viljað neitt til á æfi minni, sem jeg þarf að roðna fyrir. Það er ekki nema ólán mitt, sem jeg set fyrir mig. Þegar hún sagði þetta fór hún að gráta. Það gat Tómas ekki horft á, og bað hana á allar lundir að gráta ekki. Síðan lagði hann að henni að segja sjer hvað hana hryggði, og gat ekki sjálfur bundizt tára. Þetta tók svo á hana, að hún sagði: Jæja! Jeg skal þá láta yður vita þetta, sem jeg á svo bágt með að segja frá. Jeg segi yður það satt, mjer hefði verið það mesta gleði að eiga yður, svo ágætan mann og jeg skyldi hafa elskað yður af hjarta. En hjer eru þeir meinbugir á, sem skilja milli okkar meðan við lifum. Þjer viljið vita þessa meinbugi. Hana þá! Jeg slasaðist fyrir nokkrum árum, jeg datt og fótbrotnaði. Hvað er um slíkt að tala, sagði Tómas, þetta verður mörgum og missir enga kosti fyrir það. Jeg verð að segja yður meira, sagði Sigrún, lítið þjer á!. það varð að taka af mjer fótinn og jeg geng á trjefæti.

Á trjefæti, sagði Tómas; það er satt, þetta var slysalegt! En hvað um það; fegurð yðar og vitsmunir og kvennkostur er mjer eins dýrmætt fyrir þetta. Þessum kostum og blíðu hjarta, sem getur elskað mig — þessu haldið þjer öllu óskertu, þó fóturinn færi. Eins getið þjer fyrir þetta virt einlæga ást og velvild, er jeg ber til yðar.

Ekkert brá Sigrúnu við þessar fortölur; hún var hin sama og áður, og sagði eins og við sjálfa sig: Sú kona sem skjögtir á trjefæti, getur ekki geðjast lengi slíkum manni sem þessum, er verður að lifa eptir sinni stjett, borgalífi. Og hvað er hjónabandið, nema löng skapraun, þegar annaðhvort hjónanna hefur óbeit á hinu. — Tómas reyndi á allar lundir að telja henni trú um, að

skuldakröfum. þessi verzlun hefur því verið okkur vel í mörgu, og þó hún hafi viljað sitja ein að vörum okkar og ráða verði þeirra, þá má kalla það eðlilegt, þegar við vorum svo mjög komnir upp á hana, en hún orðin vön við að ráða hjer nærri ein lögum og lofum í verðlagi á vörum sínum og okkar; gat líka eignað sjer, að hún hjeldi lífinu í okkur, en gleymdi hinu, eða vildi ekki muna, að við hjeldum líka lífinu í henni og hennar. — þó er langt síðan við fórum að sjá, að hún var okkur ekki svo holl eða móðurleg í öllu. Eitt sinn settist að hjer á austurlandi og bjó lengi kaupmaður af öðru verzlunar - sauðahúsi, Kjartan Ísfjörð að nafni. Var hann talinn kænn maður og vilja eiga sitt. þó bætti hann mikið verðlag hjá okkur og margt fleira, því hann var mikill dugnaðarmaður ágætur í mörgu. Móðurverzlunin okkar amaðist ávalt við honum og elti við hann grátt silfur, þangað til hann varð hjer ellidauður, þá náði hún einhvern veginn verzlun hans eða verzlunarhúsum. Opt komu hjer lausakaupmenn og bættu stórmikið fyrir okkur, og ráðsmenn móðurverzlunarinnar neyddust til að sveigja um stund verðlagið hjá sjer eptir gestunum. þá sáum við þó, að einhverjir gátu selt okkur betur og borgað okkur betur okkar vöru heldur en móðurverzlunin gjörði. En það er okkur í minnum enn í dag, hvernig sumir ráðsmenn og þjónar voru ílits og við suma af okkur, meðan þeir sáu lausakaupmanninn á höfninni hjá sjer. Mátti þó telja öllu gott, meðan sumir þeirra lögðust ekki í hugsýki. Samt voru opt margir af þjónunum, sem báru þenna mammonskross með hugprýði eða þá með frjálslyndi. Einn af þessum skapraunagestum gömlu verzlunarinnar okkar, var um fáein ár Th. Thomsen, er fyrstur byggði verzlunarhús á Seiðisfirði, nú fyrir hjerumbil 10 árum. þá brá hún við og setti útbú, spölkorn frá honum, og lá við sjálft það fengi ekki að standa, því það var heldur fjærri honum; enda sögðu sumir það hefði ekki verið sett niður að lögum. Síðan hefur okkur fundizt móðurverzlunin gjöra sitt til að ýta nágrunnanum burtu, en það hefur ekki tekizt. Hefur þó Thomsen opt verið óheppinn í förum sínum og mikils til of efnalítill, til að standa jafnfætis svo auðugri verzlun sem þessi gamla er. Svo hefur honum ekki lánazt heldur ætíð að hafa lrentuga ráðsmenn á búi sínu, en valdir ráðsmenn á hinu búinu. Margur hefur því ekki skilið í því, að Thomsen skuli ekki hafa gefizt hjer upp við verzlun sína. Við austfirðingar eigum mikið að þakka þessum kaupmanni, ef við kynnum rjett að meta, þó hann hafi opt haldið hjer uppi verzlun af vanefnum. Hann hefur jafnan bætt verðið á innlendri eða útlendri vöru, að einhverju leyti — svo sá bóti hefur munað okkur, þegar allt var saman lagt, um margar þúsundir dala. Margir hafa líka kannast við þetta og látið hann njóta þess, þó verzlun hans hafi stundum ekki verið einhlít þeim sem skiptu við hann. Og hann ætti að njóta þess, meðan hann verzlar hjer, hversu hann hefur bætt fyrir okkur, þó ekki líki okkur allt við hann.

Einu sinni vísaði móðurverzlunin ráðsmanni

---

hún þyrfti aldrei að kvíða þessu hjá sjer, því hann virti hana og elskaði eins fyrir það, þó hún væri fötluð. En hún ljet ekki teljast, svo hann fór að verða vonarlaus um að geta nokkurn tíma fengið hana. Hann hafði setið hjá henni lengi og leitað allra ráða til að snúa huga hennar, en allt í einu spratt hann nú á fætur og sagði: Jeg bregð[]mjer heim um tíma jómfrú góð! Innan skamms mun jeg koma aptur og þá skuluð þjer ekki geta fengið af yður að neita mjer, nema ef þjer gjörist svo óþakklát að endurgjalda einlægar ástir mínar með illu.

Sigrúnu varð hverft við, og vildi fara að telja um fyrir honum, en hann gaf því engan gaum og skundaði heim. — Strax þegar hann var heim kominn, sendi hann eptir sáralækni og bað hann að koma með verkfæri sín. En á meðan taldi hann fram á stofuborðið sitt 300 gullpeninga og færði á annan endann, en á hinn endann lagði hann 2 skammbyssur hlaðnar.

þegar læknirinn kom, sagði Tómas: Verið þjer velkominn læknir góður! hafið þjer góð verkfæri með yður? Harla góð, herra minn! sagði læknir; hvað á jeg að gjöra? Ofurlítið handarvik, sagði Tómas, sem vandalítið er — leysti af sjer sokkabandið og rjetti fram vinstra fótinn — þenna fót, sagði hann, skuluð þjer taka af mjer og gjöra það fljótt. þenna fót, herra minn! sagði læknirinn, jeg sje ekki honum sje ekki neitt að meini. Hvað um það, sagði Tómas, hvort sem hann er heill eða ekki, þá vil jeg þjer takið hann af mjer á samri stundu.

Læknirinn þóttist viss um, að maðurinn væri vitlaus og hugsaði sjer að komast burtu, en hinn sá um að honum tækist það ekki. þjer skuluð ekki sleppa, sagði hann, fyr en þjer eruð búinn að taka af mjer fótinn. Hvernig á jeg að geta fengið af mjer, herra minn! að gjöra slíka vitleysu? Mjer þykir fyrir að segja yður, sagði Tómas, hvernig þjer eigið að fá það af yður.

sínum frá embætti hjer á útbúi sínu á Seiðisfirði. þetta bragð ætlaði nú ekki að verða henni að fje, því útlæginn reisti verzlun móti henni, með fje Knútzons stórkaupmanns, og er nú farinn að færa upp verð á vörum okkar eins og Thomsen. En það hefur optast verið einkenni móðurverzlunar okkar, að hún hefur verið eptirbátur þeirra, sem hjer hafa keppt við hana, í því að bæta prísana, en hefur, þó dansað með á endanum, og orðið eins góð viðskiptis og hinir. Hjer eru þá komnir þessir þverþrætir, sem jeg hefi nefnt, í einveldi móðurverzlunar okkar. þykir okkur svo fara betur og hagur okkar hafi hækkað síðan. Okkur hefur allt af líkað það illa við hana, hversu hún hefur verið meinsöm við alla, sem hafa viljað bjarga sjer sambliða henni, allt eins og henni hafi fundizt enginn nema hún ætti með að skipta við okkur, eða við værum börn hennar ellegar þjónar, sem engum mætti taka handarvik, nema henni. En þó okkur líki nú þetta illa og sumt fleira í fari hennar, megum við samt ongan veginn sleppa rækt við hana síðar og því síður sýna henni nokkurt ranglæti eða pretti. Við eigum henni margt gott upp að inna, og hún er okkur ómissandi með hinum. Við verðum að reyna að halda við öllum verzlununum, svo kappið geti haldizt meðal þeirra, og engin nái að verða einráð aptur.

**Bóndi austfirðingur.**

---

## Hólanessfundurinn.

Í marzmánuði ferðaðist herra amtmaður Havstein til Húnavatnssýslu, eptir að hann var búinn að dagsetja almennan fund á Hólaness verzlunarstað, til að tala sig þar saman við sýslubúa um hinar nákvæmari ráðstafanir til að hepta útbreiðslu fjárkláðans, og fylgdu honum kosnir menn úr Skagafjarðar, Eyjafjarðar og þingeyjarsýslum. Á þessum fundi var líka flestallur þorri hinna helztu Húnvetninga.

Eptir að menn höfðu skýrt fyrir sjer málefnið, og rætt hin helztu atriði bæði um niðurskurðinn og fyrstöðuna við Blöndu, kaus amtmaður 2 nefndir, aðra 5 manna nefnd til að ræða reglur fyrir Blönduverðinum í sumar, er hjer koma á eptir, og aðra 17 manna nefnd til að semja reglur þær, er stóðu í hinu síðasta blaði voru, til að uppræta fjársýkina þar í sýslu og varna útbreiðslu hennar. Sum atriði gátu ekki orðið leidd til lykta fyr en frjettist, hvaða ráðstafanir yrðu gjörðar á almennum fundi vestra, er halda átti 19. þ. m.

## Erindisbrjef

fyrir hina eiðsvörnu varðmenn á varnarlínunni frá byggð í Blöndudal með fram Blöndu upp að jökli og við jökulfallið.

1. þeim 20 mönnum, sem kosnir eru í vörð þenna, sje skipt í 6 flokka, sem hver hefur sínar föstu varðstöðvar, nefnilega hinn fyrsti flokkur við Refsá með 4 mönnum, hinn annar við Tjaldhól með jafn marga menn, hinn 3 í Ránni vestur undan Urðarvatni með 3 menn, hinn fjórði í fremsta grösum í Svörtutungum skammt frá Blöndu með 3 mönnum og hinn fimmti á Rjettum einnig með 3 mönnum, samt hinn sjötti flokkur í Gránunesi sömuleiðis með 3 mönnum, en takmörkin milli hinna 4. fyrst nefndu varðstöðva sje fyrir hinn fyrsta flokk frá byggð fram á Langatanga, fyrir hinn annan frá Langatanga að Ströngukvísl, fyrir hinn þriðja frá Ströngukvísl í miðjar Svörtutungur og fyrir hinn fjórða frá miðjum Svörtutungum fast upp í Hofsjökul.

---

þjer þurfið ekki að telja um fyrir mjer. Heyrið, hvað jeg segi! Gegnið þjer mjer! Sjáið til! þarna eru 300 „gíneur," og þarna 2 skammbyssur hlaðnar. þjer skiljið nú; veljið um þessa kosti!

Aumingja læknirinn skalf af hræðslu og sá sjer ekki annað vænna en að hlýða. Hefði Tómas verið frakkneskur, mundi læknir hafa treyst sjer til að snúa huga hans, en hann þekkti svo landa sína, að honum datt nú ekki í hug, að teljast lengur undan, heldur tók fótinn af manninum svo fljótt og laglega sem hann gat. Tómas brá sjer ekki við, en sagði, þegar búið var: Jeg þakka yður kærlega fyrir! þjer eruð laghentur maður. Jeg skal bæta 100 „gíneum" við hinar fyrri, og svo vona jeg þjer hugsið vel og vandlega um sár mitt meðan það er að gróa. þar að auki bið jeg yður að útvega mjer vandaðan trjefót. Ef þjer leysið þetta vel af hendi, skal jeg muna yður það.

Sár Tómasar greri fljótt. En strax og það var gróið flytti hann sjer af stað til að finna Sigrúnu. Trjefóturinn var svo klæddur að enginn sá annað en maðurinn væri heilfættur. þegar Tómas kom til Sigrúnar, sagði hann: heil og sæl jómfrú góð! ætlið þjer enn að vera mjer eins ervið og áður? Segið mjer nú í einlægni er það ekkert nema trjefóturinn yðar, sem stendur í vegi fyrir gæfu minni? Jeg er búinn að segja yður það, herra Tómas! sagði hún, og er það ekki nóg til að gjöra yður óbærilegt að eiga mig. Jeg mun sætta mig við yður, segir hann, heyrið þjer! þetta kalla jeg ekki nema lítilræði. Mjer er gleði ef yður gengur ekki annað til að að neita mjer, því þá veit jeg vel að jeg mun verða maðurinn yðar. þá sýndi hann henni trjefótinn sinn, og sagði: Sjáið nú til! jeg hefi trjefót líka. Sigrún varð illt við, stundi og sagði: hvaða ósköp eru að sjá þetta! Hvað er þetta! Ekki nema lítill vottur um ást mína til yðar, sagði hann. Síðan sagði hann henni svona blátt

2. Fjórir sýslunefndarmenn í Húnavatns- og Skagafjarðarsýslum sem hlutaðeigandi sýslumenn tilnefna, tveir úr hvorri sýslu, kjósi meðal varðmanna bæði oddvita fyrir og varðmenn í hvern áður greindra flokka, og sje aðalforingi oddvitanna við Blönduvörðinn sá þessara, sem kosinn er til oddvita fyrir varðflokknum við Tjaldhól.

3. Allir varðmenn standa undir stjórn sýslumannsins í Skagafjarðarsýslu og eru skyldir að hlýða sjerhverju því, sem annaðhvort hann sjálfur skipar þeim, eða einhver sýslunefndarmanna í umboði hans.

4. Sameiginlegt ætlunarverk varðmannanna við Blöndu er að gæta þess vandlega, að engin sauðkind nái að komast austur eða vestur yfir á þessa; og í því tilliti ber þeim jafnan að hafa nægilegt autt svið beggja megin árinnar, og eins og allt starf þeirra miðar að sama tilgangi, þannig skulu allir varðflokkarnir halda jafnan góðri einingu sín á milli og aðstoða hver annan, sem ýtrast verður, til að vinna að ætlunarverki þessu dyggilega. Sjer í lagi skal sá flokkur varðmanna, sem hefur varðstöðvar sínar austan Blöndu, leita daglega austurhluta Kúluheiðar, og sjá einkum í því tilliti um þann hluta sem fyrir utan þá er, og fari ætíð eður sem optast tveir þeirra út á bóginn allt út á svokallaðan landsenda og gæti þeir þess einkum vandlega, að engin kind geti verið í eða nálægt Blöndugili og svo langt vestur á heiðina sem þeir til ná, en einn þeirra fari daglega fram með ánni að minnsta kosti fram undir Helgufell og svo vestur á við eptir sem framast verður; ennfremur að gæti þeir daglega, hvort þeir sjái ekki fje í Blöndugili að austan og gjöri þeir þá austan flokksmönnunum vara við, ef svo er, eins og líka þeir að austan láti hina tafarlaust vita, ef þeir sjá kindur við gilið vestanmegin. — Lokeins ber varðflokknum í Gránunesi að hafa nákvæmar gætur þess að engin sauðkind komist yfir Jökulfallið og Hvítá.

5. Í þessu skyni ber hverjum varðmanni að halda daglega vörð og vera kominn á hverjum morgni kl. $4\frac{1}{2}$ á sínar ákveðnu varðstöðvar og framhaldi verði til kl. 11 á kvöldin og má hvorki þoka nje óveðurhamla þessu, því eins og varðmönnunum í björtu og góðu veðri ber að gæta þess, að fjenaðinum sje haldið í nægum fjarska frá varðlínunni, þannig ber þeim í þokum og óveðri að fara með hundgá aptur og fram hver um sínar varðstöðvar.

6. Oddvitarnir sem ásamt varðflokki sínum hafa náttstað hver á sínum aðalvarðstöðvum, segja fyrir hvernig hver varðmaður skal tilhaga daglega vörð sínum, samt gæta þess vandlega, að fjenaðinum sje jafnan haldið í nægum fjarska, og að varðmennirnir vinni dyggilega að ætlunarverki sínu, og er hver varðmaður skyldur jað hlýða fyrirmælum þeirra. — Yfir allt, sem framfer á verðinum haldi hver oddviti dagbók, og er hann skyldur að sýna hana aðalforingjanum, sem að minnsta kosti tvisvar í viku ber að ríða á milli allra varðflokkanna með fram Blöndu og hafi nákvæmt eptirlit á, að allir varðmennirnir gæti skyldu sinnar og að vörðurinn framfari alstaðar á viðlíkan hátt. Í þessu skyni ber honum að rannsaka dagbækur oddvitanna og rita hjá sjer ef nokkuð athugavert og ískyggilegt fyrir kemur, sem þá tafarlaust sje tilkynnt sýslumanninum í Skagafjarðarsýslu.

7. Líka ber aðalforingjanum að gæta þess, að verk þau, sem vörðurinn út krefur, komi sem jafnast niður á varðmennina, og að þeir geti notið tilbærilegra hvílda; má hann því eptir samkomulagi við oddvitana ekki einungis skipta um einstöku varðmenn, heldur og um heila varðflokka, þegar slíkt er nauðsynlegt til þess að örðugleikinn komi sem jafnast niður.

8. Að öðru leyti ber oddvitunum, að því leyti umsjón sú, sem þeim er trúað fyrir ekki útheimtir annað, taka þátt með varðmönnunum í hinum daglegu varðstörfum jafnt öðrum varðmönnum.

9. Skyldi nú nokkur kind þrátt fyrir árvekni varðmanna, komast vestur yfir Blöndu mega þeir samt ekki sækja hana aptur, nema því að eins þeir nái henni strax og hafi ekki misst sjónir á henni, og viti með fullri vissu að hún hefur ekki náð að hafa samgöngur við fjenað vestan við ána, en hver sú skepna, sem kemur vestan yfir Blöndu eður sunnan yfir Jökulfallið og Hvítá eður finnst á Kúluheiði, er strax dræp; álítist nú sú kind eða slíkar kindur að eins tortryggilegar ber strax að urða þær eða dysja á óhultum stað, hvers einnig ber að gæta í tilliti til gærunna af kindum þeim sem annars kynnu að álítast heilbrigðar. Að öðru leyti má enginn varðmaður nema ýtrasta nauðsyn krefji drepa á verðinum nokkra kind án þess að hafa áður í því tilliti útvegað ráðstöfun oddvitans, sem ritar jafnan hjá sjer mörk, aldur og ásigkomulag slíkra kinda.

10. Nú ná ein eða fleiri kindur vestan yfir Blöndu að komast saman við fjenað fyrir austan ána, þá sje hópur sá strax allur að skilinn og honum vandlega haldið frá öðrum fjenaði og hann rekinn að Bollastöðum í Blöndudal til niðurskurðar eptir ráðstöfun hlutaðeigandi hreppstjóra, sem þetta sje gefið til vitundar tafarlaust.

11. Meðan stendur á verðinum, sem byrjar og endar eptir nákvæmari ráðstöfun sýslunefndanna í Húnavatns- og Skagafjarðarsýslum, má enginn varðmaður gefa sig við störfum, sem verðinum ekki við koma, og finnist nokkur varðmaður skeytingarlaus, skal hann í fyrsta sinn mæta áminningum, en brjóti hann í annað sinn, missi hann viku til hálfsmánaðar laun og sje rækur úr verðinum.

12. Að öðru leyti ber varðmönnunum og oddvitum þeirra í framkvæmd sinna varðstarfa: að hegða sjer sem dyggum og árvökrum dugnaðarmönnum vel sæmir, samkvæmt eiði

---

áfram, eins og Englendingum er títt, það sem hann hafði látið gjöra. Þá grjet Sigrún og sagði: Drottinn minn; hvaða ósköp voru á yður? Hví gjörðuð þjer þetta? Ástin skipaði mjer það, sagði hann, og aldrei hefi jeg gjört neitt atvik á æfi minni með meiri ánægju. Þjer grátið yfir mjer, það er mjer nógar bætur fyrir þetta. Þá lagði Sigrún grátandi hendurnar um háls honum, og sagði: Slíkum manni get jeg ekki neitað.

Þenna sama dag voru þau vígð í kirkjunni, og lifðu saman til elli glöð og farsæl, virtu og elskuðu hvort annað, og frjefæturnir glöptu aldrei í neinu gleði þeirra og ánægju.

---

þeim, sem þeir að ætlunarverki sínu hafa unnið og því trausti, sem til þeirra er borið.

Á nefndarfundi á Skagastrandar verzlunarstað 24 dag marzmánaðar 1858,

**Christjansson. J. Hallsson. J. Guðmundarson. J. Pálmason. Jón Sigurðsson.**

þetta erindisbrjef samþykkir (sama dag)

**Havstein.**

---

✝

## Erlendur þórarinsson.

Mönnum veitti dýrðar Drottinn
dýra ímynd sína og skíra;
gaf þeim vald á hauðri' og hafi
og höfuðskepnur sigra keppni.
Sævaröldur bátar brjóta,
bruna skip í vinda svipan,
húsið ramma hríðum dimmum
hrindir burt og geysan vinda.

Efnismegni á að hnigna,
andans sigur hljóta vigur.
Ímynd Drottins á að standa
alráðandi' á jarðarláði.
þegar náð er þessu miði,
þá er fagur runninn dagur,
þá er tíð og tími liðinn,
tekur lífið við eilífa.

---

Svo er þó enn að á oss vinna
öflin sterk, þess sjáum merki.
Funi æðir, voða veður
valda grandi' á sjó og landi.
Unnir sævar eigi minna
eyða friði, lífið deyða,
sollnar brjóta far og fírum
færa skaða holskaflaðar.

Líttu til vor, dýri Drottinn!
Dugar þú oss hættur buga!
Hönd þín alráð hún kann venda
hvirfilvindi' í logn í skyndi.
Funi lægist, sá ef segir,
sem hann skapti guðdóms krapti;
höfuðskepnum hann því vefur
handar fingur minnsta kringum.

---

Aldan stríða steypti friði,
stökk á skip í einum svipi,
Vestfirðinga valdsmann ungan,
vafinn sóma í æsku blóma,
öndu svipti; og von frænda,
ást foreldra sorgum hrelldra
burtu tekur, vinum vaka
votar brár af harmi sárum.

Tár þjer allir yfir fella,
ástkær vinur! Móður- stynur
-foldin. þegar fregnar aldin
farna von hins góða sonar.
Alúð þinni' og notum nýtu
nú er hún svipt. En því vjer trúum:
þegar aldir þú við skildir
þjer án efa meir skal gefast.

Drottinn heitið hefur ýtum
hærra valdi' of allar aldir,
sem að pundi vel hinu vanda
vörðu meðan lifðu' á jörðu.
Ríki betra valdur vitur
víðgeims hjúi gefur trúa,
þars ei grandið vötn nje vindar
vinna mega', í himna inni.

Sofðu vinur sætt á Ránar
svásum armi, frelstur harmi,
skær unz vekur himins hara
hljómur þig að efsta dómi.
þegar öllum yfir gjallar
ómur hár, er kallar að dómi,
þinna dyggða' og traustu tryggða
tekur gjöld þú með útvöldum.

Sv. Sk.

---

(Aðsent).

**Mannslát.** Árið 1857 24. d. ágústmán' dó bóndinn á Skjöldólfsstöðum á Jökuldal Jón Jónsson 65 ára gamall. og var hann harmaður af öllum þeim, er við hann höfðu kynnst, því hann var maður trúfastur og tryggur, skynsamur og guðrækinn, forsjall, duglegur, aðgætinn og reglufastur, svo með sanni mátti um hann segja, að hann var sómi og prýði stjettar sinnar, og því var mikill söknuður að burtkallan hans, ekki einasta hans eptirlifandi ekkju og sonum, heldur líka sveitarfjelaginu og mörgum fleirum.

---

# Auglýsingar.

þann 6. nóvember f. á. hefur tapast úr hagagöngu frá Leifshúsum á Svalbarðsströnd, fífilbleik hryssa 7 vetra, ójárnuð, rjett hæfð, með marki á eyrum, sneiðrifað og stúfrifað og tveir bitar, en með því mjer er gleymt hvernig markið stóð á eyrunum þótt mig minni helzt, að sneiðrifað væri framan hægra og stúfrifað vinstra og biti sinn á hvoru eyra.

Jónas Jónsson á Sörlastöðum í Fnjóskadal.

Fjármörk í þingeyjarsýslu.

Sýlt í stúf bæði eyru.

Guðjón Pálsson á Breiðumýri,

Hvatrifað hægra, biti aptan, stúfrifað vinstra, biti aptan.

Jónathan Hjálmarsson á Kálfaborgará í Bárðardal.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletrslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár. | 10. Maí. | 11.—12.


Yfirkennari Björn Gunnlaugsson hefur í 17. blaði Þjóðólfs, 17. marz þ. ár, sett nokkrar greinir til að bera af skólanum og skólameistaranum þau orð, er stóðu í Norðra næstl. ár, No. 29—30, 114. bls. þar stóðu nefnil. nokkur orð úr brjefi til ritstjóra Norðra, „að skólameistarinn ljeti sig það litlu skipta, þó að sumir af skólasveinunum leiðist afvega til drykkjuskapar". Eptir skýrslu þeirri, er herra yfirkennarinn þar setur um reglusemi og umsjón í skólanum, viljum vjer biðja lesendur vora að álíta þessi orð í Norðra ósönn, og aðrar lausafregnir er um slíkt kynnu að berast. því vjer álítum vottorð herra Björns Gunnlaugssonar, sem er svo merkur maður og samvizkusamur, fullu vissu fyrir því, að hann hafi rjett að mæla, og hann segir skýlaust „nú finnst enginn drykkjuskapur í skólanum". Hann hefur því alla ábyrgðina fyrir alþýðu, ef nokkuð væri til hæft í því. En hver sem líta vill á tilgáng vorn með það að ljá hinum umgetnu orðum rúm í Norðra, getur sjeð, að tilgangur vor var góður, nefnilega sá, að vekja athygli á þessu, svo við því yrði gjört, ef satt væri, og þetta órð opinberlega borið af skólanum, ef ósatt væri.

Nú hefur þá herra Björn Gunnlaugsson borið járn fyrir skólann og orðið vel skír.

Ritstjórinn.

## Um kosningar til alþingis.

I.

það þykir ætíð eptirtektavert í sögu þjóðanna, þar sem allsherjarþing eru, sem taka nokkurn þátt í stjórn lands og lýða, þegar nýjar kosningar eiga fram að fara. Þjóðin á þar að koma fram, eða allur þorri hennar, til þess að velja sjer þá til talsmanna, er hún hefur bezt traust á að muni fylgja fram rjetti sinum við stjórnina, og leggja til hin beztu og skynsamlegustu ráð um landstjórnina. það er nú hvorttveggja, að hið nýja alþingi vort Íslendinga er ekki gamalt, og hefur ekki haft það vald, er geti gjört tillögur þess svo mikilsverðar í augum almennings, sem vera þyrfti; enda

## Rjettlætistilfinning villimanna í Norðurameriku.

Fyrir næstu aldamótin áttu Englendingar jafnan í orustum við villimenn í Norðurameríku. þá bar það til einu sinni, sem optar, að Englar biðu ósigur og flýðu. Í bardaganum hafði fallið með mörgum öðrum þjóðverskur maður, Vilhjálmur að nafni, er gengið hafði á mála hjá Englum. Skömmu eptir að bardaganum sleit, vaknaði hann við í valnum og sá engan lifandi mann nærri sèr. En nóg var þar af dauðum ná kringum hann. þetta var ekki skemmtileg sjón, og þó gladdist hann af lífinu. Allur var hann blóði storkinn, en hvergi sár, svo hann fyndi. þó var honum mjög illt í höfði og fann hann þá seinast, að þar mundi hann særður vera. Höfuðið var dofið, hárið fullt af storknu blóði, og sárið þrútið, því hann hafði legið lengi í óviti

Í valnum lágu vinir hans og óvinir í öllum klæðum og herbúnaði. Af þessu rjeði hann, að orustunni mundi ekki hafa lokið fyr en í myrkri, og mundi þeir, sem sigrinum rjeði, koma strax með degi, að skoða hlutskipti sitt. En hann vissi ekki, hverjir sigrast hefði.

Hann fór þá að hugsa sig um, hvað hann skyldi taka til bragðs, Hefði vinir hans sigrað, var óhætt að bíða þarna, en ef villimenn hefði vegið sigurinn, var honum vís bráður dauði, nema hann rólaði eitthvað burtu. En hann var svo ókunnugur, að hann vissi ekki hvort hann átti að stefna, enda var enn ekki ljóst orðið af degi. Seinast datt honum í hug að fela sig upp í hárri eik í þykkum skógi skammt þaðan.

Hann klæddi sig nú úr skykkju sinni, fjekk sjer aðra hreina af einum fjelaga sinna, tók brennivínsflösku er hann hafði hjá sjer, og þvoði sár sitt úr víninu, þó það sviði sárt, batt síðan um sem best hann gat. því næst fyllti hann vasana og tösku sína af peningum og nesti, er hann tók

má kalla að það gegni allri furðu, hve lítinn áhuga þjóðin hefur haft á því og kosningum til þess. Vald alþingis er enn eins og það hefur verið einungis bænarvald, og þegar bænir þess hafa ekki fengizt, þá hefur þjóðinni hætt við að gefa þinginu það að sök, án þess að íhuga, hvort það hefur verið gott og skynsamlegt sem þingið beiddist; því þegar það var, þá hafi i alþingið gegnt skyldu sinni og gjört hvað í þess valdi stóð, en þá er stjórninni um að kenna, ef enginn árangur verður að bæninni. Þá er nú annað atriðið, sem miklu hefur um valdið til að rýra áhuga almennings á kosningunum, og það eru kosningarlög þau sem verið hafa. Í alþingistilskipuninni 8. marz 1843 var kosningarrjettur og kjörgengi bundið við töluverða fasteign eða fasteignar ábúð, og gátu því að tiltölu mjög fáir orðið hluttakandi í kosningunum. Þessu er nú breytt eptir bæn alþingis, svo að nú verða það miklu fleiri, sem hluttakandi verða í þessum þjóðrjettindum. Eptir hinum nýju kosningarlögum 6. jan. 1857 hafa kosningarrjett 1. allir bændur, sem hafa grasnyt og gjalda nokkuð til allra stjetta, 2. embættismenn, 3. þeir sem tekið hafa lærdómspróf við háskólann, eða embættispróf við prestaskólann í Reykjavík, þó ekki sjeu þeir í embættum, 4. kaupstaðaborgarar, ef þeir gjalda til sveitar að minnsta kosti 4 rd. árlega, og 5 þurrabúðarmenn, ef þeir gjalda til sveitar eða bæjarþarfa að minnsta kosti 6 rd. árlega. Auk þessa stendur óhögguð 4. gr. í alþingistilskipuninni, að þeir einir hafi kosningarrjett, sem hafi óflekkað mannorð, sjeu 25 ára, og hafi fullkomin fjárforráð sín. Kjörgengi er bundið þessum sömu skilmálum og kosningarrjetturinn, sem nú var talið, og þar að auki stendur það úr alþingistilskipunarinnar 5. gr. að hann sje þegnskyldur Danakonungi einum, að hann sje kristinnar trúar, að hann hafi í 5 ár verið í löndum Danakonungs í Norðurálfu, og að hann sje þrítugur að aldri.

Það er nú vonandi, þegar að kosningarlögunum hefur verið þannig breytt, að áhugi manna á alþingiskosningunum aukist svo, að ekki spyrjist lengur þau fádæmi, að alþingismenn sjeu kosnir með tveimur og þremur atkvæðum, og til þess af vorri hálfu að styðja að því, að landsmenn afrækist ekki þessa þjóðstofnun sína viljum vjer með fám orðum skýra frá því, hvílík góð þjóðareign alþingi er, og hvers menn geta vænzt af því framvegis eins og að undanförnu.

Það eru margir sem kvarta yfir því, hversu mörg áríðandi mál, sem þingið hefur haft til meðferðar, og verið löngum tíma til að ræða, hafi ekki fengið framgang; og láta sjer því um munn fara: „Til hvers er alþingi þegar eini árangurinn af störfum þess er kostnaður fyrir landið“? En þetta er þá ekki rjett álitið. Það er að vísu hart undir slíku að búa, en leiðir þó eðlilega af því, að vald alþingis vors er enn svo takmarkað. Það er jafnvel óhætt að fullyrða, að landið hafi þó haft gagn af meðferð þeirra málefna; því nytsemi alþingis er ekki einungis í því fólgin, að það skýrir málefnin og leiðbeinir stjórninni, svo að lögin sem vjer fáum verða oss hentug, heldur, líka í því, að það breytir og bandar á móti þeim laga-

---

af lagamönnum sínum föllnu, því þar var hann rjettur erfingi þeirra. Með þenna útbúnað, sverð og tvær hlaðnar byssur rólaði hann af stað og klifraði upp í háa eik skammt þaðan.

Stundu síðar en hann kom upp í trjeð, sjer hann hvar hópur herklæddra villimanna kemur. Þeir sungu allt af á göngunni fagnaðarkvæði og æptu gleðióp. Þegar þeir komu að valnum, grófu þeir margar grafir og færðu landa sína í þær í öllum klæðum og hertýjum. En Norðurálfumenn afklæddu þeir, og ljetu líkin liggja nakin handa hröfnum og vörgum. Síðan tóku þeir allar brennivínsflöskur er þeir fundu í valnum, fóru með þær og herfangið í rjóður eitt, drukku allt úr flöskuuum og urðu svo ölvaðir að þeir ultu út af eins og rotaðir selir.

Nú sá Vilhjálmur, að hann fjekk bezta færi til að forða sjer og fór ofan úr eikinni. Þá datt honum í hug að drepa alla þessa sofandi fjendur sína, svo hvorki hann nje aðrir þyrfti að hræðast þá. En hann hryllti við hugsun sinni og skildi að þetta var níðingsverk, að vega að sofandi mönnum, og að stríðslögin leyfðu það ekki. Hann sagði við sjálfan sig: verið getur menn hrósi mjer fyrir handarvikið og veiti mjer heiður, en samvizkan ávítar mig meðan jeg lifi, og kallar mig morðvarg, en aldrei sigurvegara. Þá datt honum líka Davíð í hug, þegar hann skar skykkjulafið af Sál konungi og vog hann ekki, og ljet sjer dæmi hans að kenningu verða. Þó vildi hann sýna villimönnum, að hann hefði átt kost á lífi þeirra, en hefði þirmt því. Þess vegna tekur hann nú sverð allra þeirra og ber saman í hrúgu, stingur sínu niður hjá hrúgunni, en tekur með sjer það sverðið, er hann ætlaði höfðingi villimanna ætti.

Honum datt ekki í hug að villimenn mundi hafa elt Englendinga á flótta og komið þaðan um morguninn. Því stefndi hann nú í aðra átt en þeir komu, en gekk seint áfram fyrir skógum, fenj-

frumvörpum, sem koma frá stjórninni, og miður þykja úr garði gjörð, eða oss miður holl; og þó að þá stundum leiði af því, að stjórnin hætti við málið, þá getur alþingi einmitt með því hafa gagnazt landinu mikið, því betra er að búa við þau lög, sem menn hafa og þekkja, heldur en að fá önnur, þegar þau fást ekki svo löguð að þau eigi við háttu vora. Það er heldur ekki lítið varið í sum af lögum þeim, sem alþingi hefur að kalla má útvegað oss, t. a. m. verzlunarlögin, sem óhætt mun að fullyrða, að vjer hefðum aldrei fengið að minnsta kosti ekki svo frjálsleg, nema fyrir ítrekaðan bænastað þingsins. Þegar vjer því gætum þess, hversu ungt þingið enn er, og að það hefur verið kosið til þess eptir mjög takmörkuðum kosningarlögum, sem enda hefur bægt frá kosningu mörgum góðum mönnum, finnst oss öll ástæða til að gleðja sig yfir alþingi og athöfnum þess, og til að álíta, að vjer Íslendingar höfum sýnt eins gott vit að halda fram rjetti vorum á þingum, og oss mælist þar að voru leyti eins vel og gjörist hjá frændum vorum í Noregi og Danmörku. Eins og oss virðist þetta um alþingi yfirhöfuð, eins gildir það líka um allan þorra þingmanna, að þeim velflestum farast þingstörf vel og liðmannlega; sumir einkum af bændaflokknum tala máli sínu svo greinilega og skipulega á þingi, að það sannast á þeim, sem almennt hefur verið sagt um alþýðumenn vora, að þeir sjeu flestum útlendum bændum greindari og betur að sjer; enda finnst oss að á alþingi beri lítið á þeim mismun milli lærðra og ólærðra, sem svo opt og ljóslega kemur fram á þingi Dana; því hjer eru mjög fáir lærðir menn á þingi, sem taka hinum beztu af bændunum fram. Vjer þurfum ekki annað til að sanna þessa sögu vora en vísa mönnum til umræðanna í hinum seinasta alþingistíðindum um kláðamálið. Ræður bændanna þar: Magnúsar Andressonar, Páls Sigurðssonar, og Ásgeirs Einarssonar samanbornar við ræður byskups, háyfirdómarans og sjálfs forseta geta bezt sýnt það. Og það er óhætt að fullyrða, að enginn hafi í því máli talað eins vel og bændurnir nema varaforsetinn Jón Guðmundsson, sem bæði við undirbúnings- og ályktunarumræðuna hjelt ágætar ræður í því máli; og vjer erum efsins um, hvort að álit meiri hluta nefndarinnar hefði fengið atkvæði þingsins, þegar að sjálfur forsetinn Jón Sigurðsson lagðist á með öllu afli að fylgja fram uppástungum minni hlutans, og vann það til að breyta frá reglu þeirri, er hann virðist að hafa sett sjer, að taka sem minnstan þátt í umræðunum, hefði ekki varaforseti svo vel og kappsamlega varið málið, og hrakið ástæður hans.

En þó að mörg og merkileg mál hafi verið rædd á þingum þeim, er verið hafa hingað til, þá er þó það málið enn ekki til lykta leitt, er oss ríður á mestu, og það er stjórnarbótarmálið. Það hefur nú reyndar ætíð verið álit vort, að þetta mál bæri ekki að ræða á alþingi, sem er ráðgjafaþing, heldur á nýjum þar til kjörnum þjóðfundi, og það hefur líka verið álit herra Jóns Sigurðssonar í riti hans um landsrjettindi Íslands.

---

um og ófærum og fann hvergi veg eða mannabyggð. Þegar dimma tók um kvöldið, var hann orðinn dauðþreyttur, og iðraðist nú eptir, að hann gekk ekki á vald villimönnum, heldur en að deyja úr hungri í óbyggðum, eða verða óarga dýrum að bráð.

Nú settist hann niður til að hvíla sig, og ætlaði ekki að sofna. En af því hann var lúinn og vímaður mjög í höfðinu af sárinu, sofnaði hann á samri stundu svo fast, að hann vaknaði ekki fyr en um morguninn eptir, þá sól var komin upp á lopt. Þegar hann leit upp, sá hann fjölda manna kringum sig, og þekkti, að það voru þeir sömu og hann skildi við sofandi. Honum varð illt við í fyrstu, en skyldi þó að hjer var ei færi til undankomu, enda verkjaði hann mjög í höfuðið, svo hann þreifaði strax til sársins. Fann hann þá, að höfuðið var smurt með einhverjum smyrslum. Nú töluðu villumenn til hans; en hann hristi höfuðið, því hann skildi ekkert orð. Þá talaði einn til hans, sem kunni ensku. Það mál skildi Vilhjálmur, því hann hafði dvalið nokkur ár hjá Englendingum.

Villumenn settust nú allir hringinn í kringum Vilhjálm, og túlkurinn tók til máls á þessa leið: þegar vjer vorum búnir að bera saman hlutskipti vort í gærdag, og oss vildi sú hrösun til, að drekka hinn skaðlega drykk yðar, sofnuðum vjer allir. Þegar vjer vöknuðum, söknuðum vjer vopna vorra. Varð oss þá hverft við, og horfðum hver á annan. En þegar vjer lituðumst betur um, sáum vjer vopnin öll á einum stað. Hver tók sitt vopn, en herforingjans vantaði. Ókunnugt sverð stóð hjá vorum, og vjer þekktum að það var ekki af hlutskiptis vopnunum, því vjer höfðum talið þau. Þá þóttumst vjer skilja, að maður nokkur hefði fundið oss, og mundi hann hafa farið að sækja fjelaga sína til að vinna á oss. Vjer hjeldum því af stað í skyndi og gengum með fylktu liði til kvölds. Í nótt átum vjer skammt hjeð-

En í hinni nafnkenndu konunglegu auglýsingu 12. maí 1852, er ekki lofað öðru, en að því máli skuli ekki ráðið til lykta fyr en það hafi verið borið undir alþingi, og álítur stjórnin, ef til vill, þar með brugðið hinu eldra loforði í konungsbrjefi 23. september 1848; enda er svo að sjá, að stjórnfræðingar vorir vilji nú láta sjer það lynda, eins og líka kemur fram á hinu seinasta alþingi, er þingið beiðist að því yrði veitt ályktandi vald um tekjur og útgjalda áætlun Íslands, sem er einhver hinn verulegasti hluti af þjóðrjettindum þeim, er vjer getum vonast eptir með hluttekning vorri í stjórnarbótinni. það eru því öll líkindi til, að fyrir hið nýja alþingi verði lagt frumvarp um fjárhagsmálið, og ekki væri það ólíklegt, að stjórnin færi nú bráðum að hugsa til að koma Íslandi í eitthvert reglulegt samband við ríkið; því það var mjög satt orð er einn af þingmönnum kallaði hið núverandi stjórnarsamband vort við Danmörku „viðrynisstjórn,“ því varla getur maður hugsað sjer neitt fyrirkomulag vitlausara og ósamkvæmara en það sem nú er; enda leiðir þar af hina mestu ósamkvæmni í aðgjörðum stjórnarinnar og rjettleysi oss til handa. það má því ráða af framan sögðu, að fyrir þá þingmenn, sem nú skal kjósa, verði að öllum líkindum lagt það mál, er mest er áríðandi af öllum málefnum, er nokkur samkoma hjer á landi hefur haft með höndum síðan landið kom undir konungs vald; þessir nýju þingmenn eiga að taka þar við, sem þjóðfundurinn og hin seinni þing hætta, og reyna til að koma því fram, að vjer fáum tiltölulega hlutdeild í stjórnarbót þeirri, er konungur vor fyrir löngu hefur gefið hinum dönsku löndum sínum. þeim verður líklega ætlað það vandamál í sögu vorri að leiða þetta mál til lykta, og er það því ekki alllítill ábyrgðarhluti sem þing þetta hefur, og heldur ekki lítill ábyrgðarhluti alþýðu, ef að hún leggur ekki svo mikinn áhuga á kosningarnar til þessa þings, að þingmenn geti með sönnu nafni kallazt fulltrúar þjóðarinnar, því þetta eru þeir ekki nema að nafninu einu, ef að þeir að eins eru kosnir af fáum mönnum. Vjer álítum það því skyldu vora sem blaðamanns að skora á alla, sem eptir hinum nýju kosningarlögum eiga kosningarrjett að gegna þessari þjóðskyldu sinni hver og einn. það er sannarlega stór minnkun fyrir landsmenn að vilja og beiðast eptir, að þjóðrjettindi vor sjeu aukin, og neyta þó slaklega þess rjettar, sem vjer erum búnir að fá. Vjer álítum að áhugi þjóðarinnar sem lýsir sjer við kosningarnar til þessa þings, eigi því ljóslega að sýna áhuga vorn á því, að vjer bæði viljum fylgja fram kröfum til sanngjarnra rjettinda fyrir föðurland vort, og að þjóðin sýni það í verkinu með því að taka sem fjörugast þátt í kosningunum og reyna til af fremsta megni að stuðla til þess, að þeir hljóti kosningu til þingsins, sem almenningur ber það traust til, að bezt og fastast muni fylgja fram þessum vilja landsbúa; og eins og þetta er skylda kjósendanna, eins er það brýn skylda þeirra, sem fyrir því almennings trausti verða, að vera kosnir, að skorast ekki undan kosningum, nema þeir sjeu í þeirri stöðu, sem alls ekki leyfir þeim að yfirgefa störf sín.

---

an, en fundum þig hjer í morgun, og sverð hershöfðingja vors hjá þjer. þá skildum vjer, að vjer höfðum verið á þínu valdi, og þú hefðir gefið oss öllum líf. Vjer erum þakklátir við alla góða menn. það var skylda vor að vega þig ekki, heldur gjöra þjer gott. Vjer skoðuðum sár þitt og fundum drep var komið í, svo þú hefðir orðið að deyja innan fárra daga. þá helltum vjer smyrzlum vorum í sárið, og þú munt brátt gróa og ná aptur heilsu þinni. Vjer höfum gefið þjer einum líf, en þú gafst oss nærri 60 lífið. þess vegna, erum vjer í mikilli skuld við þig. Heyrðu nú hvað vjer höfum af ráðið. 12 vikur þarf til að græða sár þitt. Einn hraustasti hermaður vor verður að fara heim til sín, því hann hefur unnið sjer nóg til frægðar, og hamlar öðrum frægum að verða. þessi höfðingi vor ætlar að flytja þig heim til sín, vera vinur þinn og annast þig. þegar þú ert heill orðinn máttu sjálfur kjósa um tvo kosti: Ef þú vilt vera hjá oss, ertu oss vel kominn; en viljirðu fara til þinna landa, skaltu verða sæmdur gjöfum og heiðri, og leiðsögumaður skal fylgja þjer. Slík eru lög þakklætisins hjá oss.

þegar Vilhjálmur heyrði þetta, vissi hann varla, hvort hann átti að trúa eyrum sínum. Hann fjell á knje og þakkaði Guði, að hann sneri honum frá því óráði að vega þessa menn. þetta gladdi villumennina og þeir sögðu: Hver sem heiðrar hina æðstu veru, hann er góður maður. Vilhjálmur þakkaði þeim með mörgum fögrum orðum þenna mikla drengskap þeirra.

Síðan tóku þeir sig upp og ætlaði hann að gánga með; þeir vildu það ekki. Heldur fljettuðu þeir honum beð af víðirgreinum, og sögðu honum, að hann mundi bráðum fá sárasótt, sem skildi hið skemmda blóð frá hinu heilbrigða og væri til lækningar. þess vegna báru þeir hann milli sín eins og á börum.

það kom fram, sem þeir sögðu. Vilhjálmur

**Fjárkláðinn.**

Vjer þreytumst sjálfir, og vjer þreytum aðra, með hinu stöðuga umtalsefni fjárkláðanum; og því þreytulegra er og verður það málefni, því meiri sem ósamkvæmnin verður í framkvæmdinni til að sigrast á honum. Vjer höfum nú í næst undangangandi blöðum sýnt lesendum vorum ráðstafanir yfirvaldanna hjer nyrðra um það mál, og vjer höfum nú lengi ekki talað neitt sjálfir um málið, til þess að sjá hverju fram vildi vinda, en nú ætlum vjer að gjöra nokkrar almennar athugasemdir um málið, og ástand þess hjer á Norðurlandi.

það kemur opt fyrir á hinu síðasta alþingi, að þingmenn taka sjer og öðrum vara fyrir, að beita kappi í þessu kláðamáli; en þó varð allt fyrir það kappið svo mikið, að uppástungan til stjórnarinnar í þessu varð í tvennu lagi; meiri hlutinn mælti með takmörkuðum niðurskurði, en minni hlutinn með lækningum, til að bjarga því sem bjargað yrði, eins og minni hlutinn kallaði það eptir orðum forseta. þjóðólfur fræðir oss nú líka um, að niðurskurðarmenn og lækningarmenn sjeu nú svo ættir hver á móti öðrum, að varla verði neinu tauti við komið, og kennir hann því báðum flokkunum heilræði, en þó einkum niðurskurðarmönnunum, sem nú, ef til vill, þurfa þess hvað helzt við. það er satt að það er mjög nauðsynlegt í öðrum eins áríðandi málefnum, að blöðin og blaðstjórarnir sjeu öldungis óvilhallir; en af því leiðir ekki og má ekki leiða, að þau eigi að vera hölt báðum fótum, rugga á tvær hliðar, og hafa þannig sjálf engan dóm um málið, heldur hitt, að þau meti að verðungu og með stillingu ástæður þeirra er móti standa. Vjer viljum nú játa það, að örðugt er að dæma um kláðamálið, því þrátt fyrir allt sem stendur í Hirði og þjóðólfi, þá hafa menn engar greinilegar töluskýrslur um árangur lækninganna á sauðfjenaði syðra. Lækningamennirnir syðra, eða þó heldur öldungis óvilhallir menn, ættu því að sanna það með töluskýrslum: hversu margir bændur að tiltölu, hefðu haldið við meiri hluta fjár síns með lækningum, hversu margt hefði drepist eða verið drepið sem dauðvona og ólæknandi, og hversu margt hefði verið drepið syðra eptir niðurskurðarreglum; líka þyrfti að sýna og sanna með tölum, hve margt fje er eptir sem fengið hefur kláðann, og er alveg læknað, og hve margt hefur læknazt um stundarsakir en fengið kláðann aptur, hve lengi hið læknaða fje hefur verið heilbrigt, og hve langt lengst hefur um liðið þangað til læknað fje hefur fengið kláðann aptur; hvort að hið læknaða fje fær aptur kláðann svo, að hann komi aptur fram í því, af því hann hafi leynzt, eða hvort það fái hann aptur fyrir samgöngur. þetta allt byggt á áreiðanlegum töluskýrslum ætti að sanna af þeim mönnum sem maður gæti trúað, þá væri mikið unnið til að skýra málið.

Vjer höfum nú ekki því láni að fagna eins og útgefandi þjóðólfs, að vjer höfum verið liprir að snúa oss í þessu máli. Vjer erum enn og höfum verið fyrir niðurskurðinum, og vjer höfum einungis sveigt til eptir tillögum meiri hlutans á alþingi eða í líka átt; eins og líka niðurskurðinum er nú hagað í Húnavatnssýslu. það hefur verið og

---

fjekk ákafa sárasótt og talaði höfuðóra. þeir fluttu hann heim til höfðingja síns og þó sáralyf þeirra væri góð, varð hann að vera þar 12 vikur áður en sár hans væri fullgróið. Á þessum tíma lærði hann mál villimannsins svo þeir gátu talað saman.

það þótti Vilhjálmi kynlegt í háttum húsbónda síns, að hann fór að heiman á hverju kvöldi og kom aptur snemma á morgnana. Einu sinni spurði Vilhjálmur hann hverju það sætti. Bóndi svaraði: það má jeg ekki segja þjer.

þegar Vilhjálmur var búinn að vera heilt missiri hjá honum, og þeir sátu eitt kvöld yfir borðum, sagði bóndi við hann: Heyrðu gestur minn! þú ert svo góður maður og mikill vinur minn, að jeg vil trúa þjer fyrir leyndarmálum, sem enginn annar veit og eru mín mestu leyndarmál. Jeg á konu, sem jeg er hjá á hverri nóttu. Jeg bað hennar fyrir nokkrum árum, en faðir hennar vildi ekki gefa mjer hana. En stúlkan elskaði mig og strauk frá föður sínum til mín Á þessu liggja þung víti hjá oss. Ekkert illt má faðir hennar gjöra mjer, en hana má hann taka af lífi hvar sem hann finnur hana. þess vegna geymi jeg hana svo vandlega. Í dag ætla jeg að lofa þjer að koma með mjer til hennar, og muntu sjá, að hún er þess verð, að jeg vinni mikið fyrir hana.

Skömmu seinna fór bóndi með gest sinn út í skóg og leiddi hann þar ofan í jarðhús. þar voru fyrst göng niður í jörðinni 50 faðma löng; síðan kom jarðhúsið sjálft. Var það laglega gjört, svo villimaður gat verið vel ánægður með það. þar sat ung kona fríð og viðmótsgóð og hin kurteysasta í allri umgengni. Hún tók Vilhjálmi vel, því hún vissi hver hann mundi vera. Hann sagðist kenna mjög í brjóst um hana, að hún skyldi verða að vera lokuð niðri í þessu jarðhúsi. Ekki þarftu að aumka mig fyrir það útlendingur góður! sagði hún: Mig vantar ekkert og mjer

er enn sannfæring vor, að hið eina rjetta til að sigra pestina sje að skera niður fyrst allt geldfjeð, eins og meiri hluti alþingis mælti með, af því að geldfjársamgöngunum á sumrin verði ekki sundur stíað, og það er enn fremur, sannfæring vor að ekki eigi að halda eptir nema heilbrigðum ærstofni, eins og nú er skipað í Húnavatnssýslu, því að vjer trúum ekki lækningunum, meðan ekki koma fram þær sannanir, er vjer hjer að framan töldum ómissandi til þess að þeim yrði trúað, og ætlum því ekki að sjúkar ær gæti nokkurn tíma orðið góður fjárrtofn. Hjer á Norðurlandi er og í öllum aðalatriðum fylgt uppástungu meiri hlutans, og á Suðurlandi uppástungum minni hlutans allvíða. Það er nú langt frá því, að vjer viljum gjöra kláðamálið að neinu kappsmáli. Hið einasta, sem vjer viljum mæla með af kappi, er það, að allir samhuga reyni sem fyrst að komast að vissri niðurstöðu um hinn sanna árangur af báðum aðferðunum. Þessa reynslu ættu menn að verða búnir að fá í haust, því þá verður búið að reyna árangurinn af niðurskurðinum i Húnavatnssýslu; en um lækningarnar hafa menn þegar tveggja ára reynslu, svo að ætla mætti, að yfirvöldin syðra gætu nú gefið þær áður nefndu skýrslur, svo að árangurinn sæist. Þjóðólfur fer nú reyndar mörgum orðum í umgetinni grein sinni um það, að niðurskurðurinn sje ekki rjett gjörður hjer á Norðurlandi, því hann hefði einkum átt að framfara milli Blöndu og Hjeraðsvatna, því mest ríði á að taka vel fyrir endann á kláðasýkinni. Þetta væri nú satt, ef að nokkur líkindi væru til að kláðinn væri kominn austur yfir Blöndu. En þegar reynsla heils vetrar hefur sannað það, að hrepparnir sem liggja næst Blöndu að vestanverðu hafa einlægt verið algjörlega lausir við fjárkláðann; þegar enn fremur allt geldfje er drepið í þessum hreppum, og líka sterkur vörður settur til að verja samgöngum, sem þó ekki þarf að ætla, að bágt verði að koma í veg fyrir, þegar ekki lifir nema ærpeningur og lömb, hvorttveggja í vöktun, þá virðist oss, að meiri trygging ekki geti fengizt. Að kollfella fjenað á jafnstóru svæði, sem er milli Blöndu og Hjeraðsvatna, einungis til að gjöra hið auða svið enn stærra, virðist oss að hefði verið ógjörandi, svo mikill niðurskurðarmaður erum vjer ekki. Þjóðólfur má eiga það skilið, að hann fer hjer greipilega að leggja á ráðin; en undarlegt er þó, að hann skuli fara þessu nú á flot, þegar hvorki ábyrgðarmaður hans eða meiri hluti alþingis komst að þeirri niðurstöðu á síðasta þingi. Þó að niðurskurðarmennirnir verði að vera, og eigi að vera sjálfum sjer samkvæmir, þá getur mesta samkvæmni þar orðið mesta ósamkvæmni og vitleysa, því eins hægt væri að segja að drepa niður fjeð í heilum fjórðungi eða öllu landi nema úteyjum. Niðurskurðarmennirnir verða að kunna sjer skynsamlegt hóf.

Vjer getum því ekki betur sjeð en að fyrirskipunin um niðurskurðinn í Húnavatnsýslu sje gjörð eptir rjettum grundvallarreglum, sem niðurskurðarmennirnir eigi að fylgja, og sem meiri hlutinn á alþingi mælti fram með og þar á meðal ábyrgðarmaður Þjóðólfs sjálfur Ef að ábyrgðarmaðurinn vill því vera sjálfum sjer samkvæm-

---

leiðist ekki; jeg er að vinna allan daginn og á nóttunni er blessaður maðurinn minn hjá mjer. Það eitt hryggir mig, að hann faðir minn er reiður við mig. Ætla hann fáist ekki til að sættast og fyrirgefa þjer, sagði Vilhjálmur: það efast jeg um sagði hún. Þó getur það verið ef þú biður hann, þú sem ert útlendingur og vel þokkaður hjá oss. Það er jeg fús að reyna, sagði Vilhjálmur.

Bónda var nauðugt að þessa væri freistað, en ljet þó tilleiðast fyrir bænastað konu sinnar. Vilhjálmi gat ekki dottið í hug að karl mundi vera svo grimmhjartaður að fyrirgefa ekki dóttur sinni æsku hrösun hennar. Því vonaði hann sjer mundi takast að koma á sátt, og vildi gjarna útvega velgjörðamanni sínum þá gleði.

Vinur hans fylgdi honum nú á leið, lýsti fyrir honum húsakynnum tengdaföður síns og sagði hann skyldi bera honum kveðju dóttur hans og biðja fyrirgefningar í hennar nafni. Síðan kvöddust þeir og bað bóndi Vilhjálmi allra virta.

Þegar Vilhjálmur kom til gamla mannsins, fjekk hann beztu viðtökur. Karl spurði hvert væri erindi hans. Vilhjálmur bar fram erindið svo vel sem hann gat, en hinn hlustaði á og þagði á meðan. En þá Vilhjálmur hafði lokið máli sínu, tók karl til orða: Illa gjörir, þú góði vin! að færa mjer þessa frjett, að dóttir mín lifi. Mjer kom ekki annað í hug, en hún mundi hafa sjeð skömm sína og tekið lífið af sjer til að afmá hana. Vegna þessa hefi jeg farið mjer hægt og ekki leitað að henni. Nú verð jeg að fara af stað. Jeg segi þjer satt, slík afbrot getur ekkert bætt hjá vorri þjóð nema dauðinn. Hann einn getur afmáð þau. Meðan dóttir mín lifir, er hún ærulaus. En þegar hún er dauð, hefur hún fengið aptur sóma sinn, og jeg, sem er faðir hennar er skyldugur að útvega henni aptur þetta hnoss, sem hún glataði með óhlýðni sinni. Hefðirðu

ar, vonum vjer að hann verji enn hinn takmarkaða niðurskurð eins vel og hann gjörði á þingi, því þar gjörði hann það sannarlega vel og með góðum rökum; eða hann þá, ef lækningarnar hafa reynzt svo heppilega í vetur — sem þó ekki er að sjá af viðureign hans við Hirði — að honum hafi snúizt hugur, að hann þá stuðli að því, að nægar og áreiðanlegar skýrslur komi um það fyrir almennings augu, því að hin einstöku dæmi, sem hann til færir í No. 17 af blaði sínu sanna ekkert meira en brjef, þau er vjer höfum í höndum og öðruvísi segja frá, því bæði hefur frjetzt hingað eptir vermönnum að austan og úr brjefi frá merkisbóndanum Ófeigi á Fjalli, að 7 sjeu jafnvel dauðar af hinum nafnfrægu fósturkindum þeirra Thorgrimsens á Eyrarbakka og Hansteens. Þegar Þjóðólfur ber þær sögurnar um lækningarnar, sem geta eflt trú manna á þeim, þá á hann líka að segja hinar gagnstæðu sögur, þegar þær eru jafnsannar, ef að hann ætlar að vera öldungis óvilhallur í málinu.

Það er alkunnugt, hversu fyrirskipanir yfirvaldanna syðra voru lengi framan af hver á móti annari, og hversu ólíkt og misjafnt það var, hvernig þeim var hlýtt. Hjer hefur ekki enn borið á þessu frá yfirvaldanna hálfu, eða minnsta kosti ekki frá amtmannsins hálfu, svo vjer vitum, því fyrirskipanir hans hafa frá því fyrsta verið einbeittar, sjálfum sjer samkvæmar, og allar í sömu stefnu. En því er miður, að Húnvetningar hafa sumir brugðizt að hlýða, og ætluðum vjer þó ekki að svo mundi fara. Kristján Jónsson bóndi í Stóradal, mesti sauðabóndi Húnvetninga, sem kom á prent hjerna um árið í Nýjum Fjelagsritum sem fyrirmynd íslenzkra bænda, hefur svikið fullkomið loforð sitt að skera sauði sína, og strokið með þá suður yfir fjöll. Einn af prestunum, sjera Gísli á Staðarbakka hefur líka sent fje sitt suður. Það má nú geta nærri, að þvílík dæmi hafa ill áhrif á almenning, enda hafa líka einstöku bændur í Víðidal, Miðfirði og á Vatnsnesi hætt að skera það er þeir áttu eptir og þvertaka nú fyrir að framkvæma niðurskurðinn, og stofna þannig öllum hinum heilbrigða stofni hinna sýslunga sinna í mikinn háska. Vjer getum nú ekki annað en áfellt þessa menn, er þannig rjúfa fjelagsskapinn við sambræður sína og þverskallast við að gegna skipunum yfirvaldanna, en vjer getum heldur ekki annað en gefið sunnlenzku stefnunni sök á þessu, og prjedikunum lækningamanna og þó einkum stjórninni, er sýndi hið ósvífnasta hirðuleysi um stjórn landsins, að gjöra engar fastar lagaákvarðanir í málinu næstliðið haust. En — eins og Þjóðólfur segir — tíminn og reynslan, eða með öðrum orðum sagan, dæmir í málinu, hún dæmir niðurskurðarmennina og lækningamennina, hún dæmir stjórnina og aðgjörðir hennar, og einhverjum ber hún ekki vel söguna.

---

(Aðsent).

Vestfirðingur nokkur hefur sent mjer í 15—16. bl. Norðra þ. á. áminningargrein fyrir það, að jeg muni hafa misskilið skýrsluna í seinustu Nýum Fèlagsritum 16. ári, og beint fyrir það álasi og spotti að Vestfirðingum,

En hann bendir mjer ekki á eitt einasta orð í skýrslunni sem jeg hafi villst á, eins og ekki er von, því jeg skildi hana rjett, og sjálfur segir hann: „**eg held** þeir sjeu einungis taldir". o. s frv.

---

verið einn af vorri þjóð, mundi jeg hafa sagt við þig: Vísaðu mjer til dóttur minnar, jeg ætla að taka hana af lífi. Og hefðirðu ekki viljað gjöra það, mundi smán hennar hafa horfið á þig. En af því þú ert útlendingur, get jeg ekki heimtað þetta af þjer, því það er ekki líklegt þú vitir hvar hún er. Því geturðu ei heldur bætt fyrir hana. Nú má jeg ei tefja lengur. Hvíldu þig gestur minn! og farðu síðan í friði.

Það má geta nærri hvað hryggur aumingja Vilhjálmur varð, þegar hann skildi, að sáttaleitun sín mundi verða vini sínum til mestu harma, þegar karl færi að hefna á dóttur sinni. Hann reyndi því allt sem honum datt í hug til að blíðka geð karlsins og grátbændi hann að vægja konunni og manni hennar. Hann hlýddi með þolinmæði á allar ræður Vilhjálms, en sagði síðan: Vel farast þjer orð, útlendingur! og breyta mundu þau ætlun minni, ef dóttir mín gæti öðlazt sóma sinn aptur fyrir þín hin fögru orð. En það getur ei orðið. Hefðirðu beðið með slíkri mælsku og góðvild fyrir þá dóttur, sem numin var burtu eða vís varð að lausung, þá hefðirðu getað útvegað henni fyrirgefningu. En eins og hjer er komið, eykur það sekt strokukonunnar, að þú eyðir svo mörgum fögrum orðum fyrir hennar sakir.

Vilhjálmur varð að kveðja og fór af stað án þess að fá nokkra miskunn fyrir konu vinar sins. Þegar hann fór, sagði karl: Jeg vil ekki fara á eptir þjer, svo þú hugsir ekki, að þú sjert í nokkru valdur að því, sem jeg ætla nú að gjöra. Innan skamms sjáumst við aptur.

(Endast í næsta blaði).

Hann heldur það, af því honum voru send Fèlagsrit til sölu, án þess hann sje nefndur í skýrslunni, en hann getur ekki haldið það af orðum skýrslunnar. Jeg hefi skilið skýrsluna rjett, og hann getur ekki skilið hana öðruvísi en jeg. Hann hafði reynsluna fyrir sjer, að fleiri voru seld Fèlagsritin vestra, en hún nefnir, og þetta sama hefi jeg nú fengið að þekkja hjer austan lands. Jeg var skrifaður í skýrslunni fyrir Fèlagsritum, þeim sem jeg hafði áður selt, og svo áleit jeg væri um aðra. Við sjáum nú báðir að skýrslan var röng, því útgefendurnir hafa ekki vitað með vissu, þegar þeir rituðu hana, hvort fleiri mundi nú kaupa ritin, en þeir sem rituðu nöfn sín á boðsbrjefin, en hafa samt sent hinum eldri kaupendum jafnt og fyr.

Nú get jeg skilið að Vestfirðingar halda uppi heiðri Fèlagsritanna nýu eins og jeg hafði vænzt af þeim, en ekki eins og jeg varð að ráða af skýrslunni.

Jeg hefi því ranglega sneitt að þeim, því jeg byggði á röngu, sem jeg þekkti þá ekki. Þess vegna bið jeg Vestfirðinga að virða á betra veg sneiðyrði mín.

Skrifað 30. dag desemberm. 1857.

Austfirðingur í Norðurmúlasýslu.

# Auglýsingar.

## Prentsmiðjufundur.

21. næsta mánaðar verður almennur prentsmiðjufundur haldinn á Akureyri, og byrjar hann, ef hægt verður um miðjan dag. Vjer setjum fundinn fáum dögum seinna en vant er, svo að hann geti orðið samfara hinum almenna amtsfundi, sem hjer á að halda 20. sama mánaðar. Vjer skorum því á alla þá í Norður og Austurumdæminu, er hafa áhuga á prentsmiðju Norðurlands og vilja kynna sjer ástand hennar, að koma sem fjölmennastir á þenna fund.

Fyrir hönd prentsmiðjunefndarinnar,

Sv. Skúlason.

Hjá ritstjóra Norðra á Akureyri fást til sölu: Fornmannasögur, eða Noregs og Danakonungasögur allar 12 bönd (kosta nýjar óbundnar 24 rd.), sumar þeirra eru í bandi . . . . . 12 rd.

---

Hjer hafa lengi legið á lóðinni nokkrir plankar, sem jeg ekkert veit hver á, og hefi þó lýst þeim fyrir ýmsum, en enginn þeirra viljað eigna sjer þá eða vitað deili á þeim.

Sá er getur sannað sjer eignarrjett sinn til tjeðra planka, hann vitji þeirra hjá mjer, gegn því að greiða kostnað þann sem flýtur af auglýsingu þessari.

Akureyri 24. dag aprílm. 1858.

Björn Jónsson.

Það er opt, að hingað til póststöðvanna hafa komið brjef, sem fara hafa átt í aðrar sýslur eður fjórðunga landsins, á hverjum þó einungis hefur staðið nafn viðkomanda og heimili hans, en ekki í hvaða sveit, dal, hverfi, firði, vík, nesi eða strönd, hrepp eða sýslu, og eru þó sem menn vita margir bæir á landinu, jafnvel sveitir, dalir og firðir samnefnt. Af þessu leiðir, að slík brjef eru stundum send í gagnstæðar áttir við það þau eiga að fara, sem ekki að eins tefur fyrir fararbeina þeirra, heldur og að þau fyrir hrakning þenna aptur og fram, geta svo auðveldlega misfarizt. Til þess nú að koma í veg fyrir vankvæði þessi, er áríðandi, að utanáskript brjefa yfirhöfuð, sje sem greinilegust, og lýsi því ekki einungis hver viðtakandi er, embætti hans, stjett eða staða, og hvar hann eigi heimili, heldur og í hvaða hrepp og sýslu, og viti menn það ekk, þá t. a. m. í hvaða sveit, dal, hverfi, firði, nesi eða strönd, o. s. frv. svo enginn vafi geti orðið um, enda í hvers hendur brjefið svo kemur, hvort það á að fara, og það sem fyrst nái tilgangi þess, sem það á að útrjetta og opt getur varðað miklu.

Akureyri 28. dag aprílm. 1858.

Björn Jónsson.

Ný upptekið fjármark,

Stýft í hamar hægra, tvírifað í stúf vinstra. Brennimark: I G S.

Jón Guðmundarson á Framlandi í Eyjafjarðarsýslu.

---

Munkur nokkur vildi einu sinni hugga reyfara, sem átti að hengja, og sagði honum meðal annars í huggunar ræðunni: „Nú er búið að bera á borð fyrir þig í himnaríki.“ Þá sagði ræninginn: „Jeg fasta í dag, svo yður er velkomið að borða fyrir mig.“

---

Einu sinni var prestur að ávíta bónda fyrir það að hann kæmi svo sjaldan til kirkju, og seinast sagði hann: Lestu nokkurn tíma í ritningunni? „Nei, sagði hann, jeg er ekki lesandi“. „Jeg held þú vitir varla hver hefur skapað þig, sagði prestur. „Nei, það veit jeg ekki, sagði hann.“ Þá sneri prestur sjer til drengs, sem stóð hjá þeim og sagði: „Hverr hefur skapað þig, barnið mitt? Guð, sagði drengur. Þá sagði prestur við bónda: Skammastu þín ekki, að geta ekki svarað því sem barnið svarar? Nei, sagði bóndi; það er annaðhvórt þó strákurinn muni þetta, það er svo skammt síðan hann var skapaður. En jeg er búinn að lifa svo lengi, og er því von jeg sje farinn að ryðga í þessu.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru tekjar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletrs línu, en 5 sk. fyrir línu með sama letrinu.

6. ár. | 31. Maí. | 13.—14.

# REIKNINGUR

## yfir tekjur og útgjöld prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins árið 1857.

| Tekjur. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Eptirstöðvar frá fyrra ári | .... | .. | 127 | 27 |
| 2. Gjafir: | | | | |
| a, frá lækni J. Finsen | 5 | „ | | |
| b, — G. bónda Davíðssyni á Hjaltadal | 30 | „ | | |
| c, — B. hrst. Gíslasyni á Búlandsnesi | 5 | „ | | |
| d, — fyrr. hrst. S, Baldvinssyni á Akureyri, samkvæmt sáttasamningi | 10 | „ | 50 | „ |
| 3. Fyri það, er gefið hefur verið út á kostnað prentsmiðjunnar: | | | | |
| a, fyrir Norðra árin 1853 1854 og 1855 | 84 | 87 | | |
| b, — Barnalærdómsbókina | 19 | 6 | | |
| c, — Smásögurnar | „ | 32 | | |
| d, — Markaskrár, er smiðjan á | 1 | 40 | 105 | 19 |
| 4. Fyrir pappír og prentun fyrir aðra: | | | | |
| a, á Lestrarbók sjera Sveinbjarnar, eptirstöðvar frá f. á. | 74 | 80 | | |
| b. - Leiðarvísi A Sæmundsens eptirst. frá f. á. | 15 | 27 | | |
| c, - Ljóðasafni G. Laxdals eptirst. frá f. á. | 43 | 93 | | |
| d, - nýju Ljóðasafni —, 121 rd. 42sk. þar af borgaðir | 32 | 55 | | |
| e. - Keilir og kröfin með káli | 10 | 14 | | |
| f, - Keilir og Kröfin 2. blað | 5 | 9 | | |
| g, - Töfralist I. Ingimundarsonar | 65 | 78 | | |
| h, - Hústöflu heilbrigðinnar, eptirst. frá f. á. | 41 | 35 | | |
| i, - Bænum J Grímssonar | 41 | 58 | | |
| j, - Afmælisdegi sjera Sveinbjarnar, eptirst. frá f. á. | 53 | 66 | | |
| k, - Ræðu — — — — - - | 14 | 25 | | |
| l, - Umgsmannsg. — — | 45 | 64 | | |
| m, - Almanaki — —, 16rd. 1sk. þar af borgaðir | 3 | 53 | | |
| n, - Markaviðbætir Húnvetninga | 4 | 56 | | |
| o, - Skýrslu frá amtmanni Havstein | 13 | 86 | | |
| Flyt | 466 | 31 | 282 | 46 |

| Útgjöld. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Fyrir 6 balla af pappir með umbúðum | .... | .. | 312 | „ |
| 2. — eldivið | .... | .. | 17 | 60 |
| 3. — ljós | .... | .. | 20 | 4 |
| 4. Aðgjörð á ýmsu í þarfir prentsm. | .... | .. | 4 | 72 |
| 5. Ýmislegt keypt — — — | .... | .. | 58 | 80 |
| 6. Ýms útgjöld | .... | .. | 18 | „ |
| 7. Ársleiga eptir prentsmiðju húsið | .... | .. | 53 | „ |
| 8. Laun H. prentara Helgasonar | .... | .. | 300 | „ |
| 9. — I. — Ingimundarsonar | .... | .. | 206 | 60 |
| 10. — drengsins B. M. Stefánssonar | .... | .. | 59 | 21 |
| 11. Borgað, 1. af gömlum lánum: | | | | |
| a, til Þ. járnsm, Þorsteinss. á Víðiv. | 100 | „ | | |
| b. - J. bónda Jónass. á Stórhamri | 50 | „ | | |
| c, - G, — Davíðss á Hjaltadal | 80 | „ | | |
| d, - prests E. B. Sivertsens á Gufudal | 60 | „ | | |
| e, - prests M. Thorlacíusar á Botni | 10 | „ | | |
| f, - S. bónda Magnúss. á Tungu | 25 | „ | | |
| g, - S. — Sigfúss. á Breiðabóli | 25 | „ | | |
| 2. af bráðabyrgðarlánum frá f, á.: | | | | |
| a, til verzlunar Ö. & W. | 49 | 30 | | |
| b - J. bónda Jónss. á Kambstöðum, | 23 | 3 | 422 | 41 |
| 12. Leiga: | | | | |
| a, af þeim 175rd., sem getið er um í reikningum undanfarandi ára | 7 | „ | | |
| b, - — 100rd., — — - — undir stafnið a hjer á undan | 2 | „ | | |
| c, af þeim 25rd., f — - — | „ | 48 | | |
| d, - — 25 -, g — - — | „ | 48 | 10 | „ |
| 13. Eptirstöðvar: | | | | |
| a, fyrirfram borgað til Helga prentara | 30 | 38 | | |
| b, — — , - Ingim. — | 26 | 82 | | |
| Flyt | 57 | 24 | 1482 | 50 |

| Tekjur, | rd. | ß | rd | ß |
|---|---|---|---|---|
| Flnttir. | 466 | 31 | 282 | 46 |
| p, - „Homöopathían á borð við Allop, og Antip.“ | 44 | 40 | | |
| q, - „Dr Hjaltalín og vísindin“ | 43 | 9 | | |
| r, - Skýrslu um fjárkláðann | 23 | 40 | | |
| s, - Æfiminningu G. Vigfússonar | 54 | 24 | | |
| t, - Húnvetningnum, 136rd, 38sk. þar af borgaðir | 124 | 92 | | |
| u, - Sálmasafni sjera Ó Indriðasonar, 116rd. 60sk. þar af borgaðir | 58 | 30 | | |
| v, - Flöskumiðum apóth. O. Thorarensens | 2 | „ | | |
| x, - Fjártökubrjefi P. Jónssonar | 2 | „ | | |
| y, - Tímatali J. Einarssonar | 25 | „ | | |
| z, - Ármannssögu | 67 | 10 | | |
| þ, - Norðra 1857, 425rd, 92sk., þar af borgaðir | 366 | 34 | | |
| æ, - Grafskriptum: | | | | |
| 1, fyri G. Laxdal . . . 2rd 64sk. | | | | |
| 2, eptir Guðnýju Jónsd 2 - 62 - | | | | |
| 3, fyri cand. S. Skúlason 2 - „ - | | | | |
| 4, — — - — 2 - 8 - | 9 | 38 | | |
| ö, fyrir 4 rís af pappír | 4 | „ | 1290 | 60 |
| 5. Bráðabyrgðarlán tekin þetta ár hjá G. bónda Gunnlaugssyni á Nýabæ | .... | .. | 14 | 62 |
| Alls | .... | .. | 1587 | 72 |

| Útgjöld. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| Flnttir. | 57 | 24 | 1482 | 50 |
| c, hjá verzlun Ö. & W. á Akureyri | „ | 39 | | |
| d, í peningum | 47 | 55 | 105 | 22 |
| Alls | .... | .. | 1587 | 72 |

**Athugasemd:**

*Þeir, sem vilja kynna sjer reikninginn betur geta fengið að sjá skilríki fyrir honum hjá herra candid. Sveini Skúlasyni á Akureyri.*

**Prentsmiðjunefndin.**

---

# YFIRLIT

## yfir efnahag prentsmiðju Norður- og Austur-umd. við árslokin 1857.

| Eigur. | rd. | ß | rd, | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1. Áhöld, samkvæmt fyrra árs yfirliti | .... | .. | 1330 | 32 |
| 2. Pappír m. fl. | .... | .. | 294 | 12 |
| 3. Skuldir hjá öðrum fyrir pappír og prentun: | | | | |
| a, bókb. G. Laxdal fyrir nýtt Ljóðasafn . . . 121rd. 42sk. þar af eru borgaðir . 32 - 55 - | 88 | 83 | | |
| b, sama manni fyrir 1 örk af Sig. fót | 19 | 36 | | |
| c, sjera Svb. Hallgrímssyni fyri Almanakið . . . 16 - 1 - þar af eru borgaðir . 3 - 53 - | 12 | 44 | | |
| d, sama manni fyrir Páfatrúna | 42 | 44 | | |
| e, Jóhannesi bónda á Gunnsteinsstöðum fyrir Húnvetning. 136 - 38 - þar af eru borgaðir 124 - 92 - | 11 | 42 | | |
| f, ritstjóra Sv. Skúlasyni fyri Sálma | | | | |
| Flyt | 174 | 57 | 1624 | 44 |

| Fjárstofn og skuldir. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| 1, Gjafir til stofnunar prentsmiðjunnar: | | | | |
| a. samkvæmt fyrra árs yfirliti | 1445 | 54 | | |
| b, greiddar árið 1857 | 50 | „ | 1495 | 54 |
| 2. samlagshluti kaupm. Á. Ásgeirssonar | | | 100 | „ |
| 3. Skuldir: | | | | |
| a, lán án leigu: | | | | |
| 1, frá sjera E. Thorlacius á Saurbæ . . . 200rd. „ sk. | | | | |
| 2, - alþm. J. Jónsyni á Árbakka . . 50 - „ - | 250 | „ | | |
| b, lán á leigu: | | | | |
| 1, frá sýslm. E. Briem 175rd. „ sk. | | | | |
| 2, - sjera E, B. Sívertsen á Gufudal . . . 50 - „ - | | | | |
| 3, - sjera J. Thorlacius í Saurbæ . . . 50 - „ - | | | | |
| Flyt | 250 | „ | 1595 | 54 |

| Eigur. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| Fluttir | 174 | 57 | 1624 | 44 |
| sjera Ó. Indriðasonar 116rd. 60sk. þar af eru borgaðir . 58 - 30 - | 58 | 30 | | |
| g, sama manni fyri Norðra 1857 . . . . . . . . . . 425 - 92 - þar af eru borgaðir . 366 - 34 - | 59 | 58 | | |
| h. sama manni fyri Jóns lagabók . . | 375 | 9 | | |
| i, sama manni fyri 1 örk af Norðra 1858 . . . . . . . . . . . . . . . . | 23 | 84 | | |
| k, amtmanni Havstein fyri prentun á brjefi til presta, áhrærandi fjárkl | 2 | „ | | |
| l, sýslum. J. Thorstensen fyri prent. á kvittunarseðlum . . . . . . . . | 2 | „ | | |
| m, bókb. Þ. Laxdal fyrir pr. á Minnisb. | 1 | „ | 696 | 46 |
| 4. Eptir af andvirði óborgaðra og óseldra bóka, er smiðjan á: | | | | |
| a, Norðra 1853—55 eptirst. 273rd. 80sk. síðan eru borgaðir . . . 84 - 37 - | 189 | 43 | | |
| b, Lærdómsbókinni, eptirst 117rd. 27sk. síðan eru borgaðir . . . 19 - 6 - | 98 | 21 | | |
| c, Smásögunum eptirst. 203rd. 62sk, síðan eru borgaðir . . . „ - 32 - | 203 | 30 | | |
| d, Markaskrám smiðjunnar 37 - 8 - síðan er borgaður . . . 1 - 40 - | 35 | 64 | 526 | 62 |
| 5 Eptirstöðvar, eptir reikningi fyri árið 1857 . . . . . . . . . . . . . . . . | ... | . | 105 | 22 |
| Alls | .... | .. | 2952 | 78 |

| Fjárstofn og skuldir. | rd. | ß | rd. | ß |
|---|---|---|---|---|
| Fluttir | 250 | „ | 1595 | 54 |
| 4, frá G. bónda Davíðss. á Hjaltadal . . . . . 20rd. „ sk. | | | | |
| 5, - B. járnsmið Þorsteinss. Akureyri . . . 9 - 48 - | 304 | 48 | | |
| c, bráðabyrgðar lán tekin 1857 hjá G. bónda Gunnlaugssyni á Nýjabæ . | 14 | 62 | 569 | 14 |
| 4. Ávinningur . . . . . . . . . . . . . . . | .... | .. | 788 | 10 |
| Alls | .... | .. | 2952 | 78 |

Athugasemd:

*Þegar ávinningurinn sá í fyrra er dreginn frá ávinningi þessa árs, sjest, að prentsmiðjan hefur grætt þetta árið* 191 *rd.* 71 *sk.*

## Prentsmiðjunefndin.

Vjer höfum að öllu leitt hjá oss að tala um rit þeirra Halldórs skólakennara Friðrikssonar og doktors Hjaltalíns, hinn svo nefnda „Hirðir.“ því vjer viljum með engu móti vera í þeirra tölu, er halda minningu þess á lopti. Menn þekkja svo aðgjörðir þeirra manna í kláðamálinu, að vjer vonum, að alþýða leggi ekki lengur neinn trúnað á orð þeirra sjálfra í því máli. En rit þetta gjörist nú skaðlegt á annan hátt. Höfundarnir láta sjer ekki nægja að þvætta þar og þeyta flautir úr sínum eigin heilaspuna, heldur látast þeir tilfæra þar brjef og fyrirskipanir yfirvaldanna, og gjöra það á þann hátt, að þeir rangfæra annara orð. það vill svo vel til, að vjer höfum í höndum brjef amtmannsins hjer nyrðra til sýslumansins í Húnavatnssýslu, dagsett 10. febr. þetta ár, sem tilfært er í 19 blaði Hirðis. Og í Hirði er brjef þetta allt annað. þar er breytt orðum, sleppt úr heilum setningum, sem ekki máttu missast, og öllum seinni hluta brjefsins. Ef að þessu er nú eins háttað með önnur brjef, er í Hirði standa, þykir oss það furðu gegna, að yfirvöldin skuli líða það, að menn þessir skuli óátaldir afbaka og rangfæra brjef sín fyrir þessari og komandi öldum. þeir hafa gjört nóg að verkum með sínum eigin ræðum og ritum til að spilla skynsamlegri meðferð kláðamálsins, þó að þeir fái ekki líka einkaleyfi til að falsa opinber embættisbrjef.

## Víða koma Hallgerði bitlingar.

það er nú svo gamalt og margreynt, að ef að blöð vor eða önnur rit finna að einhverju hjer á landi, þá rjúka menn upp til handa og fóta til að reka af sjer sliðruorðið, og reyna að gjöra þá, sem að einhverju finna, að ósannindamönnum. það var nú svo ofboð lítið, sem jeg hafði skrifað um Reykjavíkurskólann, að jeg bjóst ekki við, að skólinn, sem er nú vagga menntunarinnar eins og allir vita, mundi taka sjer það nærri, nema

því meira væri úr lagi fært. En mjer varð nú ekki kápan úr því klæðinu. Fyrst kom hinn elzti og merkasti kennari skólans Björn Gunnlaugsson, og lagði við virðingu sína að bera af skólanum það sem Norðri hafði sagt, og því varð jeg að trúa, því virðing hans er mjer of dýrmæt til þess, að jeg vilji skerða hana í nokkru; en nú koma skólapiltar með ofurlítinn stíl í þjóðólfi til að sýna sig, og nefnast þar staklega nettu nafni „lærisveinar Reykjavíkurskóla.“ Piltungar þessir byrja fyrst með því að verja skólameistarann, og tek jeg því vel, því þar sannast máltækið: „þá eik skal fága sem undir skal búa,“ og þeim hefur, ef til vill, verið skipað að gjöra það. þeir eru nú líka reiðir út af titlatoginu, og segja það hrein og bein ósannindi, er sagt var í því um skólann, en það er þó satt, hvað sem þeir segja, og tek jeg eins og þeir Reykjavíkurbæ til vitnis um það, og skólabræður mína, sem útskrifazt hafa hjá Bjarna, að hann hefur kallað marga eins og sagt er í titlatoginu. Hefur hann ekki líka skipað piltum að kalla kennarana Friðriksen, o. s. frv. svona í virðingarskyni í, stað þess að nefna þá skírnarnöfnum?

það er svo langt frá því, að jeg hafi viljað eða vilji níða Reykajavíkur skólann, að jeg ann honum jafnt fyrir það, þó piltar hafi þotið þannig upp á nef sjer. Jeg tek mjer það ekki heldur nærri, þó að þeir segi, að skólavera mín liggi þeim allnærri, svo að þeim sje kunnug háttsemi mín þar. Jeg skammast mín ekki neitt fyri skólaveru mína, því jeg var alla mína tíð efstur, annar eða þriðji í bekk í skóla, þegar jeg tók próf, og vann fyrir mjer á sumrum með kaupavinnu og hafði lítið annað við að styðjast. Klausurnar seinustu um Jesúmenn, sem þeir hafa lært í neðsta bekk, og um hvíta hattinn, sem þeir hafa lært af Keili og Kröflu, eru eintóm barnabrek og æskubrögð, og þarf jeg ekki að svara því. En, blessaður Halldór! lagfærðu betur stílana drengjanna, því varla er neitt orð eða greinarmerki rjett í þessum sameiginlega stíl þeirra, og er það kennaranum til minnkunar.

**Sv. Sk.**

## Kláðamálið.

Síðan að Norðri kom seinast út, hefur töluvert frjetzt um kláðamálið, bæði af Vesturlandsfundinum og af undirtektum stjórnarinnar undir málið. Af Vesturlandsfundinum er það að segja, að þar var sett nefnd í kláðamálinu, og málið rætt reglulega líkt og á þingi, en þrátt fyrir það er þetta nefndarálit mjög undarlegt, því hin sama nefnd gjörði 2 uppástungur, aðra um niðurskurð og varnir og aðra um heimageymslu á sýktu fje og ósýktu, ef niðurskurður fengist ekki. það virðist því, að amtmaður vestra hafi lýst því yfir, að hann þættist eigi hafa vald til að framkvæma niðurskurð hjá þeim í Hvítársíðunni; og skiljum vjer ekki, hvernig amtmanni Melsteð hefur þótt það rjett, að skipa niðurskurð á sýktu fje í Mýrasýslu tvisvar í vetur, en efast þó nú um, að hann hafi vald til að framkvæma skipanir sínar; því annaðhvort hafði hann ekki rjett til að skipa þetta, og þá ekki heldur rjett til að framkvæma skipanirnar, eða hann hafði rjettinn til hvorstveggja, sem vjer reyndar ætlum vafalaust, að hann hafi haft.

Á vesturamtsfundinum var líka samið ávarp til konungs, er lýsti vel ástandi kláðans eins og honum nú er komið; en enga meiningu hefur fundurinn látið þar í ljósi og einskis beiðst annars, en að stjórnin líti á nauðsyn vora og gjöri nú þegar í sumar þær ráðstafanir, sem hennar vísdómi þyki nauðsynlegar til að útrýma fjársýkinni. Oss furðar nú reyndar, að fundurinn skyldi ekki bera fram fyrir stjórnina þau atriði, er honum sjálfum þótti tiltækilegust til að koma þessu í verk, því það virtist oss, að hefði verið brýn skylda hans til þess að láta stjórnina sjá, hver væri vilji almennings vestra í þessu mikilsvarðandi málefni.

15. apríl næstliðinn hefur stjórnin skrifað amtmanni hjer nyrðra um fjárkláðann; og þó að hún láti þar í veðri vaka, að hún hallist að lækningunum, og vilji draga efa á það, að kláðinn sje útlendur, og hafi komið að sunnan fyrir samgöngur, kveðst hún þó ekki finna ástæðu til að breyta aðgjörðum amtmanns að minnsta kosti þangað til sjest hvaða árangur verður af hinum fyrirskipaða niðurskurði í Húnavatnssýslu. Eptir þessu brjefi fellst stjórnin því á þær skipanir, sem þegar eru gjörðar um niðurskurðinn í Húnavatnssýslu, svo að vjer Norðlendingar getum þó að líkindum lifað í þeirri von, að vjer fáum að sjá árangur beggja aðferðanna niðurskurðarins og lækninganna, og að reynslan geti þannig fengið að skera úr, hver happasælli verður. Ef að fjársýkin breiðist út fyrir Húnavatnssýslu þrátt fyrir þær ráðstafanir, sem þegar eru gjörðar, hefur stjórnin bent á, að reynandi væri að fara að byrja lækningar, en það

er vonandi, að ekki þurfi á slíku að halda, enda er líklegt, að stjórnin taki þau bónarbrjef til greina, sem margir helztu menn í Norðurlandssýslunum munu vera búnir að senda henni, þess efnis, að hún lofi að halda áfram þeim ráðstöfunum hjer nyrðra til að sporna móti kláðanum, er gjörðar hafa verið, og amtsbúar hjer álíta beztar til að útrýma þessum skaðnæma sjúkdómi.

Um þetta brjef stjórnarinnar til amtmanns Havsteins er líka getið í 20, bl. Hirðis, og því bæði vikið þar úr lagi, og dregnar af því rangar ályktanir, þar sem Hirðir býr til úr brjefinu bann móti niðurskurðarboðum amtmanns; en til allrar lukku getur enginn fengið þann skilning úr brjefinu nema Hirðir, eins og hjer má sjá að framan. Þjóðólfur getur líka um á bls. 84, að amtmaður Havstein muni hafa fengið ákúrur frá stjórninni fyrir það, hve hann hafi haldið fram niðurskurðinum; en um þetta er ekkert orð í brjefinu, heldur lítilfjörlegar ákúrur út af brjefum til greifans um lækningapjesann og dilkána, er greifanum hafa ekki líkað, og hlaupið því með í stjórnina. Það er, ef til vill, töluverð ástæða til að vorkenna stjórninni, þó að hún hallist fremur að lækningunum, þar sem greifinn hennar syðra. landlæknirinn og dýralæknarnir og margir, fleiri af Víkurhöfðingjunum, fylgja þeim fram af kappi, og lýsa málinu svo fyrir stjórninni, að þetta sje eina ráðið; en hitt virðist nokkuð undarlegt, að hún, með því að draga það að gjöra einhverjar eindregnar lagareglur um málið, sýnist að nokkru leyti kasta ábyrgðinni á amtmennina; því á meðan svo gengur, verða þeir að fara eptir sínu eigin höfði og tillögum amtsbúa að svo miklu leyti sem þeir geta fengið að vita vilja almennings.

---

## Um kosningar til alþingis.

II.

Það ætti nú vel við, og það væri skylda vor, ef vjer værum nógu kunnugir alstaðar um land, að benda mönnum á, hverja vjer álítum best fallna til þingmanna, en sökum ókunnugleika vors sunnan og vestan viljum vjer einungis tilnefna nokkra menn í Norður- og Austuramtinu, er vjer ætlum vel kjörna til þingmanna og varaþingmanna, og byrjum vjer á Húnavatnssýslu. Þar er nú reyndar um marga góða að velja, en þó verðum vjer helzt að mæla þar með að kosinn verði Ólafur dannebrogsmaður Jónsson á Sveinsstöðum. Aðrir sem vel mega þykja tilfallnir eru: Erlendur hreppstjóri Pálmason, R. Olsen á Þingeyrum, Páll Vídalín í Víðidalstungu, og af prestum sjera Jón Blöndal. Í Skagafirði mælum vjer með að kosinn verði Ólafur bóndi Sigurðsson í Ási. Auk hans teljum vjer prófast sjera Jón Hallsson, sjera Jakob Guðmundsson og Pjetur bónda á Hofdölum, því í þeirri sýslu mun ekki vera kostur á prófasti sjera Benidikt á Hólum, eins og vjer líka ætluðum um lækni J. Skaptason og prófast J. Jónsson í Húnavatnssýslu og nefndum þá því ekki. Í Eyjafjarðarsýslu mælum vjer fram með, að kosinn sje hinn sami og verið hefur, Stephán bóndi Jónsson á Steinsstöðum. Auk hans teljum vjer Árna hreppstjóra á Syðraholti og sjera Jón Thorlacius í Saurbæ. Í Þingeyjarsýslum teljum vjer vel fallna til kosninga — auk sjera Jóns Kristjánssonar, ef hann tekur við kosningu — Einar gullsmið Ásmundsson í Nesi, Jón hreppstjóra Sigurðsson á Gautlöndum og sjera Björn Halldórsson í Laufási. Í Múlasýslum mælum vjer fram með, að kosinn verði prófastur Halldór Jónsson á Hofi, ef hann fæst með nokkru móti, og sjera Sigurður Gunnarsson. Þar að auki nefnum vjer Vilhjálm hreppstjóra Oddsen, og Sigurð óðalsbónda Jónsson í Möðrudal.

Vjer efumst nú reyndar ekki um, að nokkrir menn finnist jafnvel til fallnir og sumir þessara, en vjer álítum alla þessa vel til fallna, og þekkjum ekki aðra, er vjer mundum betur treysta.

Það er enn eitt atriði, er vjer viljum hjer drepa á, þó að það snerti ekki beinlínis kosningarnar til alþingis, og það er, að vjer viljum hvetja alla þá, er fyrir kosningum verða, til að eiga fundi við kjósendur sína að vori áður en þeir fara til þings. Oss virðist það skylda alþingismanna að kynna sjer sem bezt vilja kjósendanna, og vekja áhuga þeirra á alþingi með því að eiga fundi við þá. Það hefur, ef til vill, ekki alllítið stutt að því, að áhugi almennings á þinginu, kosningum til þess og athöfnum, hefur svo mjög rjenað seinni árin, að þingmenn hafa sjálfir svo víða ekki skeytt um að fá menn á fundi, og ráðfæra sig við hina skynsömustu menn um þau mál, er áríðandi væri, og er þó slíkur undirbúningur hinn nauðsynlegasti fyrir þingmenn sjálfa og getur í mörgu skýrt skoðun þeirra á alþjóðlegum málum. Vjer tökum það líka hjer upp aptur, sem vjer höfum áður sagt, hve mikil nauðsyn væri á því, að stjórnin ljeti fyrir fram uppskátt, hver hin helztu mál væru, er hún í hvert

skipti ætlaði að leggja fyrir þingið, svo að menn betur gætu hugsað sjer málin og meðferð þeirra, og tillögur þingsins þannig orðið stjórninni og þjóðinni að sem mestu gagni.

---

# Frjettir.

**(Útlendar).** Um miðju þessa mánaðar kom loks nóg sigling hjer á Eyjafjörð, 3 skipin sama daginn sitt til hvers kaupmannsins, og höfðu þau sum mjög lánga og harða útivist, því þau urðu sum að liggja lengi við ísinn fyrir austurlandi, er einlægt hefur legið þar í vor, og ollað framt að hálfsmánaðarhreti með snjóhríðum og frostum fram á Hvítasunnu. Með skipum þessum bárust oss blöð en frjettir fáar. Allsherjarþing þjóðverja í Frakkafurðu dregur nú mjög fram hlut hertogadæmanna, svo að Danir eiga þar við ramman reip að draga að verjast kröfum þeirra; og svo er að sjá sem þeir fái ekki haldið alríkislögum sínum óbreyttum, nema Frakkar og Englendingar styðji þá, enda leita Danir nú liðsinnis þeirra í krapti, og hefur meðal annara Grímur doktor þorgrímsson Thomsen, landi vor ferðast, að líkindum þeirra erinda, til Parísar og Lundúna.

Á Austur-Indlandi er nú Bretum farið að ganga vel, síðan þeir komu þangað nægu liði, og hafa nú náð í sitt vald flestum stórborgum, en þó eru nú margir flokkar uppreistarmanna óunnir enn. þeir hafa nú fengið færi á að fjölga her sínum í Kínlandi, svo að þeir með aðstoð Frakka, hafa tekið þar stórborgina Kanton eptir skamma vörn, og tekið þar höndum undirkonung Kínlandskeisara Yeh, er margt illt hafði gjört þeim, og er því líklegt, að friður komizt þar á, því lítinn þrótt munu Kínlandsmenn hafa til að halda fram stríði við Norðurálfu þjóðir til langframa.

Á Bretlandi hafa orðið ráðjgafa-skipti. Eptir að reynt hafði verið, eins og fyr er getið í blaði voru, að ráða Napoleon keisara af dögum, kvörtuðu Frakkar mjög yfir því, að flóttamenn úr ýmsum löndum hefðu ekki einungis hælí í Englandi heldur einnig fullt frelsi til að gjöra samsæri til að koma fram konungadrápi og byltingum á meginlandinu. Vildi Palmerston lávarður sveigja nokkuð til sökum vináttu við Frakka, og gjörði því lagafrumvarp til að takmarka rjettindi útlægra manna í Bretlandi. Var þjóðin og þingið þessu mjog mótsnúið, og lauk svo að Palmerston og allt það ráðaneyti, er hann var fyrir, fór frá, og komu til stjórnar aptur Derby greifi og aðrir Torymenn.

**Innlendar.** Með skipunum kom að vísu hingað nóg af vörunum, en öll von er þó, að landsmönnum þyki kaupin gjörast þungbær, þegar allar hinar innlendu vörur eru felldar svo fjarskalega, en hinar útlendu flestar að kalla má eins dýrar og í fyrra, og það þó að líkindi sjeu til, að margar þeirra sjeu keyptar fyrir lægra verð erlendis — þegar peningaeklan var svo mikil — að minnsta kosti fyrir þá sem hafa getað keypt þær fyrir peninga. Líklega hafa nú margir kaupmenn vorir haft hart í búi, og sumir þeirra hafa ekki getað staðizt, þar á meðal Norðurlandskaupmennirnir Jacobsens synir á Skagaströnd. Mest breytingin hefur þó orðið hjer á verzlun með það, að kaupmenn eru nú hættir að lána, svo að hönd selur hendi við öll kaup. Er þar hætt við að landsmönnum verði fjefátt með silfur til að kaupa nauðsynjar sínar þangað til aðalverzlun byrjar, og helzt eru líkindi til að verðlag batni, svo að þeir neyðist til að láta töluvert af vöru sinni fyrir hið núverandi lága vöruverð. það varð hjer eins og optast algjör skortur áður en skip komu á flestum vörum þörfum og óþörfum, en nú er mælt að, kaupmenn hjer hafi byrgt sig með bezta móti, og er það ætíð mikill kostur við verzlunina.

Af hákarlaveiðunum hjer við Eyjafjörð höfum vjer þær frjettir, að þær ganga í ár allmisjafnt, en þó flestum allvel. Hefur einkum gæftaleysi og ís tálmað veiðinni en optast verið nógur hákarl fyrir þegar gefið hefur til að liggja. Hlutar hæstir eru enn, að því er vjer höfum heyrt, hinir svonefndu fjórmenningar í Grýtubakkahrepp.

þó að veturinn hafi hjer um Norðurland verið ágæta góður, þá hafa þó kuldarnir og hretin í vor orðið mönnum svo heyfrek, að fjöldi manna er hjer heylaus, enda er það mjög haft á orði, að heyin þau í fyrra hafi reynzt mjög ljett og ódrjúg til gjafa. Hvernig mundi oss ganga Íslendingum, ef vjer fengjum mjög harðan vetur? það virðist komið mál til, að menn fari að hugsa betur um að ætla sjer hóf með að setja á, því annars er landinu hætta búin, að einn harður vetur eyðileggi alla velmegun vora.

---

**Hver sem sjálfan sig niðurlægir,**
o. s. frv.

því niðurlæging er það, að þurfa að svara þeim mönnum, sem eru svo óvandaðir, að þeir ljúga af illgirni og rangfæra af heimsku þar sem þeir koma fram opinberlega, og þetta á sjer stað um Ingimund Ingimundarson þar sem hann hefur enn skrifað langan kapítula í Þjóðólf um ritnefndina. Að hann lýgur, sjest bezt á því, að hann segir, að jeg hafi sagt það ætlunarverk ritnefndarinnar „að velja bækur og ritlinga sem prentsmiðjunni á Akureyri sje hneysulaust að prenta,“ því á 71. bls. Norðra f. á, stendur uppástunga mín, að „ætlunarverk ritnefndarinnar ætti að vera, að skoða allt sem kæmi til prentunar, og ákveða hvort og í hverri röð það skyldi komast að.“ Að hann rangfærir og rangskilur af heimsku, sýnir það, er hann ræður af orðum mínum í 25—26. blaði Norðra „að það megi virðast næg kosning, þegar þeim sje ekki mótmælt, er kjósa sig sjálfir,“ en mín orð voru og eru á 104. bls. Norðra, að sjera Jón Thorlacius hefði stungið upp á oss þremur, sem urðum í nefndinni, og að allir hafi látið sjer það vel líka. Jeg get nú ekki fundið á þessum orðum, að jeg hafi kosið mig sjálfur eða álitið nægilegt, að menn kysu sig sjálfir. Það ætla jeg Ingimundi að sanna. Hann hefur nú reyndar ætlað að koma með 7 öndum sjer verri þar sem hinir þrír undirskriptarmenn hans eru, en þeir sanna einmitt það, að sjera Jón Thorlacius stakk upp á mönnum í nefndina, en að við kusum oss ekki sjálfir. Að þessir einir 3 herrar af öllum fundarmönnum ekki þykjast hafa verið nefndarkosningunni samþykkir sannar lítið, þar sem Ingimundur skorar á alla, er á fundinum voru, að bera þessum sannleika sínum vitni, því fáir og lítt merkir eru þó þessir þrír móti öllum öðrum, og jeg veit þó að Ingimundur hefur gengið fyrir knje mörgum manni til að reyna að fá undirskriptir þeirra. Það sem einn þeirra Laxdal segir, að ekki hafi verið gengið til atkvæða, er satt, og það hafði jeg áður sagt, en það sem hann segir, að ritnefndin hafi ekki verið kosin fyr en á nefndarfundi í ágústmánuði, þá er það sprottið af hans eigin misskilningi og hrærigraut, því hann var þá búinn að láta Ingimund hræra í sjer svo að hann vildi þá í fyrstu ekki viðurkenna nefndina, þegar um Keili og Kröflu No. 2. var að ræða; en þó gjörði hann það.

Jeg ætla nú ekki að fara fleiri orðum um þetta að sinni. Ritin berast svo fá að prentsmiðjunni, og ritnefndin hefur því svo lítið að gjöra, að vel getur verið, að hún verði ekki nema ársgömul. Ef að mönnum finnst það ekki gott og þarflegt, að þau ritin sjeu helzt tekin til prentunar, þegar fleiri en eitt standa til boða, sem bezt eru og gagnlegust almenningi, þá skal jeg ekki reyna að halda lífinu í henni. Sv. Sk.

---

# Mannalát.

(Aðsent). Madame Jarðþrúður Jónsdóttir Benedictsen er fædd á Stað í Grunnavík þann 8. maí 1776. Foreldrar hennar voru þau Jón prestur Sigurðsson og madame Solveig Ólafsdóttir, er þá voru á Stað í Grunnavík, og var hún einka barn þeirra. Seinna fór hún með foreldrum sínum að Arnarbæli í Ölvesi, og þaðan aptur ur að fáum árum liðnum að Holti í Önundarfirði; þar voru foreldrar hennar seinast. Hún giptist verið 1797 Boga stúdent Benedictsen frá Staðarfelli, og reistu þá bú í Arnarbæli á Fellsströnd og bjuggu þar fáein ár. 1804 fluttu þau að Bíldudal, og varð hann þar verzlunarstjóri fyrir riddara Ólaf sál. Thorlacius til 1808; það árflutta þau í Stykkishólm, og hafði hann þar sama starfa á hendi og fyrir sömu verzlun til ársins 1826. Vorið 1826 fluttu þau að eignarjörð sinni Staðarfelli, og höfðu þar bú mikið lengi síðan og voru þar til dauðadags. Þau lifðu í heiðarlegu hjónabandi hjerumbil 52 ár, og varð 8 barna auðið er úr æsku komust, og eru þau þessi, hjer talin eptir aldri: 1. Benedict kaupmaður Benedictsen í Stykkishólmi, 2. frú Hildur á Staðarfelli, ekkja amtmanns Bjarna sál. Thorarensens, 3. madama Solveig sál. fyrri kona lifsala Odds Thorarensens á Akureyri, 4. Jens Jakob sál. var kaupmaður í Kaupmannahöfn, 5. Brynjólfur Benedictsen kaupmaður í Flatey, 6. frú Ragnheiður kona konsúls M. Smith í Kaupmannahöfn, 7. frú Sigríður kona prófessors og dr. P. Pjeturssonar í Reykjavík og 8. frú Jóhanna Sophía sál. fyrri kona landsyfirrjettardómara J. Pjeturssonar í Reykjavík, Barnabörn þeirra sem enn eru lifandi munu vera 32 að tölu.

Madame Jarðþrúður Benedictsen var einhver hin mikilhæfasta kona stjettar sinnar, og hinn mesti skörungur, enda var hún gædd miklu atgjörfi sálar og líkama. Sálin var fjörug og þrekmikil og minnið óbilandi. Árvekuin og fyrir-

hyggjan í hússtjórninni var frammúrskarandi, og má vafalaust telja hana með hinum þrekmestu og ráðdeildarmestu konum þessa lands í búnaðarefnum. Vegna stöðu sinnar hlaut hún að hafa mikil afskipti af sveitarfjelaginu og við aðra út í frá, og sýndi breytni hennar í þeim efnum sem öðrum hvílíka mannkosti hún hafði að geyma. Höndin var ávalt útrjett til að bæta úr þörfum hinna snauðu, eða hverju því sem til bágindi sýndist horfa, með stakri ráðdeild og hjálpsemi, enda var hún sannnefnd prýði, fyrirmynd og máttarstoð fjelags þess sem hún var í, er lengi mun minnast hennar með innilegri og þakklátri endurminningu. Dagfarið var skemmtilegt, vandað og viðfelldið, og var opt fagurt að heyra af hennar skynsamlegu viðræðum, hversu traustið á forsjóninni var sterkt og þakklátsemin við gjafarann lifandi og hjartnæm. Hún var alla æfi fremur hraust og heilsugóð, og það fremur vonum á seinustu árunum, þegar aldurinn var þó orðinn svo hár, þangað til þung lega gjörði enda á hennar þarfa og heiðarlega lífi þann 13. marz seinast liðna; hafði hún þá lifað hartnær 82 ár, en í ekkjustandi hjer um bil 9 ár. Þó þjáningarnar væru miklar, hafði hún þó fullkomna ráðdeild svo að segja fram í andlátið, og sagði fyrir um það, sem henni þótti viðliggja. Jarðarför hennar fram fór að Staðarfelli sómasamlega og eins og henni hæfði þann 24. marz s. l., og hjeldu þessir prestar fallegar ræður við útför hennar: prófastur sjera Þ. Jónsson í Hvammi, prófastur sjera L. Johnsen á Dagverðarnesi og presturinn sjera E. Kuld í Flatey.

---

# Auglýsingar.

**Útkomið á prent í Kaupmannahöfn.**

Þúsund og ein nótt, 1rd. 8sk. Bragðamágus saga 72sk. og Rímur af Þorsteini Uxafæti 32sk.; þessar bækur eru til sölu á Akureyri hjá herra bókbindara J. Borgfirðingi og yfir höfuð hjá flestum á Íslandi er fást við bókaverzlun. Páll Sveinsson.

## Proclama.

Samkvæmt konunglegu leyfisbrjefi frá í dag, sem birt mun verða bæði á Reykjavíkur bæjarþingi og í hinum konunglega íslenzka landsyfirrjetti, kveð eg hjer með alla þá, sem skuldir þykjast eiga að heimta í dánarbúi Viceconsuls kaupmanns **Moritz Wilhelm Bjerings** hjer úr bænum, til þess innan árs og dags, *sub pœna prœclusi et perpetui silentii*, að lýsa skuldakröfum sínum og sanna þær fyrir mjer sem hlutaðeiganda skiptaráðanda.

Skrifstofu bæjarfógetans í Reykjavík, hinn 5. marz 1858.

**V. Finsen.**

## Proclama.

Samkvæmt konunglegu leyfisbrjefi frá í dag, sem birt mun verða bæði á Reykjavíkur bæjarþingi og hinum konunglega íslenzka landsyfirrjetti, kveð eg hjer með alla þá, sem skuldir þykjast eiga að heimta í dánarbúi kaupmanns **Jón Marússonar** hjer úr bænum, til þess, innan árs og dags, *sub pœna prœclusi et perpetui silentii*, að lýsa skuldakröfum sínum og sanna þær fyrir mjer, sem hlutaðeiganda skiptaráðanda.

Skrifstofu bæjarfógetans í Reykjavík, hinn 5. marz 1858.

**V. Finsen.**

---

Fjármörk:

Fjöður framan hægra, gagnhöfbitað vinstra.
Jóhannes Jónsson á Möðrudal í Norðurmúlasýslu.

Miðhlutað hægra, stúfrifað vinstra.
Sigurður Steffánsson á Snartastöðum í Þingeyjars.

Stýft hægra, biti fr. (en ekki fjöð.) hamarskorið vinstra.
Einar Jónsson á Hóli í Sauðanessrepp í Þingeyjars.

Sneiðrifað fr. h., b. a.; stýft r heim. fr. v., b. a. Brm. H. M. Hallgr. Manassesson á Möðruv. í Arnarnesshrepp.

Miðhlutað í stúf hægra, stýft og gat vinstra. Brennim. J. O.
Jónas Ólafsson á Kraunastöðum

## Stafkarlinn.

Kaupmaður nokkur í Þýzkalandi hafði gjört sjer það að reglu að gefa stafkarli nokkrum 4 skildinga hvert sinn, er hann gekk út úr kaupmanna húsinu. Þetta hafði hann gjört í mörg ár. Einu sinni, þá hann gekk heim af kaupmanna fundi, sneiddi hann hjá kallinum og var dapur og þegjandi Karl tók eptir þessu og þótti fyrir að sjá kaupmann hryggan, gekk til hans og sagði: „Herra minn góður! þó þjer álítið mig vesæling, gæti það komið yður að haldi að þjer segðuð mjer hvað yður hryggir.“ Ó! þú getur ekki hjálpað mjer, sagði kaupmaður, jeg þarf að borga þessa dagana 1200 rda. skuldabrjef, en á engan pening hjá mjer“. „Ekki nema það“! sagði karlinn. „þessa peninga getið þjer hæglega fengið hjá mjer. Jeg á svo mikið til og trúi yður fyrir því. Jeg hefi boðið beininga af tómri ágirnd, án þess mig bresti nokkuð. Þjer hafið sýnt mjer góðvild í mörg ár og þegar eg sje nú að þjer eruð dapur, iðrast jeg eptir því sem jeg hefi gjört, og vil bæta fyrir það með því að hjálpa velgjörðamanni mínum. Innan stundar skal jeg koma með peningana heim til yðar og megið þjer halda þeim leigulaust heilt ár. Það gleður mig að geta ljett áhyggum yðar. Kaupmaðurinn varð hissa og glaður við, þegar hann heyrði þetta, og tók þakklátlega boði stafkarls. Eptir þetta hætti karl að biðja beininga, og bjargaðist af handafla sínum sómasamlega til dauðadags.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðar laust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár. 16. Júní. 15.–16.

## Frjettir.

**Útlendar.** Vjer minntumst í hinu seinasta blaði voru að eins með örfáum orðum á sum hin helztu atriðin, sem frjetzt höfðu með vorskipunum, og viljum vjer nú fara um frjettirnar nokkrum fleirum orðum, og tala þá fyrst um **England og Palmerston.**

það hefur varla nokkurt land eða nokkurs lands stjórn á seinni öldum verið eins lofuð og elskuð af öllum skynsömum mönnum og vel menntum eins og England og Bretastjórn. Og þetta er mjög eðlilegt. Allt það sem fagurt er og frjálslegt í stjórn og þjóðarathöfn er lengst komið á Englandi; og mjög fáir af vísindamönnum annara landa geta í huganum smíðað sjer haganlegri stjórn eða fegurri framfarir heldur en þar eru í raun og verki. þar eru engin nákvæm frjálsleg grundvallarlög, samin í einum rykk með mikilli speki, en lítt eða ekki haldin, af því þau hafa aldrei náð að festa rætur í meðvitund þjóðarinnar. Grundvallarlög Englendinga eru smámsaman til orðin með löngum tíma og gegnum mikla baráttu, og þó er margt enn ófullkomið hjá þeim eins og öllum þjóðum, sem þeir sjá og vita af, en þeir hrapa ekki að algjörlegum breytingum, fyrir nýungagirni sakir, á því sem lengi hefur staðið. Á Englandi er því, sem miður kann að fara í raun og veru, ekki breytt allt í einu, ekki fyrri en svo, að bæði þjóðin og stjórnin finni þörfina brýna, og röksemdirnar fyrir breytingunni óyggjandi. það er varla nema að nafninu til, að menn geti sagt, að stjórnin eða þingið gangist þar fyrir að koma á nýjum lögum og nýjum breytingum, er til framfara horfa, því þar ræður mestu rjett prófað almennings álit. þar hefur um langan aldur hverjum manni verið frjálst að frambera orð og álit í ræðum og ritum og á mannfundum um hvað eina þjóðar- og stjórnarmálefni. Og Englendingar hafa allra manna bezt notað sjer þessi rjettindi. þar er varla sá maður, er ekki hafi einhver afskipti og umhugsun um landstjórnina. þegar skáldið hefur kveðið, og unnið sjer til frægðar, snýr hann sjer til að hugsa um stjórn lands síns; þegar kaupmaðurinn hefur grætt svo, að hann getur lifað af eignum sínum, hættir hann verzlun og gjörir hið sama. þar eru blöðin engir kraptlitlir vesælingar, sem keypt eru af náð, og flosna upp og deyja út á fáum árum, því einveldiskonungar og keisarar skjálfa fyrir áfellisdómum þeirra. þar þarf ekki að reka menn saman til funda með ópi og eggjan eins og fje í stekk, því þar gengur vinnumaðurinn þreyttur frá verkinu, til þess heldur 1 tíma að heyra hvað gjörist á fundi, en auka hvíldarstund sína um tvo tíma. þau málefni, sem ræða þarf og hrinda í lag, eru því þannig rædd og undir búin margfaldlega, og ef þau þykja mjög nauðsynleg eru stundum stofnuð stór fjelög til að framfylgja þeim og koma þeim fram. Og þegar þau þannig hafa gengið gegnum hreinsunareld almennings álitsins, þá koma þau fyrir þingið og stjórnina, og verður þó opt, að ekki liggur laust fyrir að koma þeim fram, þegar þau þykja ekki nógu brýn, eða vel undir búin; en þegar þau fá að lyktum framgang, og lög eru gjörð þar um, má optast líka ganga að því vísu, að þau eru orðin samvaxin meðvitund þjóðarinnar, og þá fyrst er það að lögin verða ekki dauður bókstafur, sem enginn skeytir um, heldur einn kvistur á lífstrje þjóðarinnar, sem eins og aðrar limar viðarins fegrast og fölna með stofninum.

En nú er þess að gæta, þó að þessi lifandi áhugi hinnar ensku þjóðar á frjálslegri stjórn og framför, og hin ágætasta samverkun milli hennar og stjórnarinnar í innanlandsstjórninni sje einstök, þá eru þó hin stærri þjóðfjelög svo í heiminn sett, að þau fá ekki og eiga ekki að fá lof og virðing allra einungis fyrir það, hvernig þau

fara með sitt eigið land, hvernig þau — að vjer komumst svo að orði — haga eigin búskap sínum og heimilisháttum. Hin stærri og voldugri þjóðfjelög hafa meiri vanda á höndum en hin smærri og aflaminni. Því eins og menn vonast eptir meiru til eflingar þjóðfjelagsins eða sveitafjelagsins af hinum menntaða aflamanni en hinum fáfróða fátækling og lítilmagna, eins eru það einmitt hinar voldugu þjóðir sem hafa sjerstaka köllun til að koma fram sem stýrendur framfara mannkynsins og eflingarmenn frelsis og hags hins gjörvalla heims, og eptir því sem stórþjóðirnar leysa þetta ætlunarverk af hendi, eptir því á veraldarsagan að bera þeim orðstírinn. Þegar vjer nú lítum til Englendinga, þá hefur sagan einnig í þessu efni á seinni tíð borið þeim ágætan orðstír. Alla tíð síðan 1688, að hin svo nefnda Hannoversætt tók stjórn á Englandi, hefur stjórn Breta verið mikill til friðar og frelsis, til að hnekkja ófriði og halda viðjöfnuði milli konunga og stjórnenda í þessari álfu heims.

Þegar talað er um þessi afskipti þjóðanna hverrar af annari, og áhrifum hverra þeirra á söguna, er það almennast, að einn eða fáir hafa þau afskiptin á hendi svo land og þjóð nýtur eða geldur dugnaðar þeirra eða ódugnaðar. Það eru venjulega konungarnir og þeirra handgengnustu vildarmenn, sem koma fram af hendi þjóðanna og ráða ráðum, og er það allvíða, að þjóðin hefur sjálf lítil afskipti af þess konar málefnum. Einna skírast koma nú hjer fram áhrif Bretaþjóðar eins þar sem um utanríkismálefni er að gjöra. Víðast hvar annarstaðar er það hulinn leyndardómur opt um langan tíma, hverjar ráðagjörðir stjórnendur hafa um viðskipti þjóðanna, en á Englandi er það ekki. Þar birtir stjórnin næstum jafnóðum allt hvað gjörist, og þingið krefst þess líka stöðuglega, svo að ráðherrarnir verða fyrir allri þjóðinni að geta gjört grein fyrir stjórn sinni og fyrir því, hvernig þeir hafi komið fram sem forgöngumenn hennar í viðskiptum við aðra, og þingið og þjóðin getur þannig haft eptirlit á, að þeir gjöri sjer ekki neinn vansa, en styðji almenn þjóðarjettindi og hag Breta, hvar sem þeir koma fram.

Það flýtur nú eðlilega af því, sem sagt er hjer að framan, að á Englandi er það einkum að góðir menn og vitrir koma fram að standa fyrir málefnum landsins. Það gildir alstaðar, að frelsið og framförin skapar sjer duglega verkamenn. Þó má segja það um Palmerston lávarð, er seinast hefur verið æðsti ráðgjafi Bretadrottningar nú um nokkur ár, að hann hefur skarað jafnmikið fram úr öllum ráðgjöfum Englendinga sjálfra um utanríkisstjórn eins og Róbert Peel gjörði meðan hann lifði um innanlandsstjórn. Palmerston er einn af þeim, er hafa alið allan aldur sinn við stjórnarstörf. Hann var tuttugu og þriggja ára þegar hann kom fyrst í ráðaneyti Breta, og hefur í rúm fimmtíu ár átt þátt í sögu Englands. Hann var þá ráðgjafi fyrir hermálum, þegar Bretar áttu í hinni mestu styrjöld við Napóleon hinn mikla Frakkakeisara, og varð nú að leggja niður ráð-

---

## Rjettlætistilfinning villimanna í Norðurameríku.

(Niðurlag). Samt gekk Vilhjálmur allt aðra leið en hann kom og marga króka, svo hann var þrem dögum lengur en hann þurfti heim til sín. Þegar hann kom heim, sat vinur hans við borð sitt og var harmþrunginn; en þegar hann sá Vilhjálm spratt hann upp og faðmaði hann. Jeg hje't þú værir dauður, vinur minn! sagði bóndi. Jeg átti víst, að karl mundi hafa brotið gestarjett vorn á þjer og vegið þig; því hann gat fengið efni til þess.

Æ, vinur minn góður! sagði Vilhjálmur. Jeg er hræddur um, að ferð mín verði þjer til böls. Það grunaði mig í upphafi, sagði hann. Karl mun engum sáttum vilja taka. Jeg veit allt fyrir vinur! Hann er farinn að leita að dóttur sinni til að refsa henni. Hún hefur nú heyrt í 3 nætur sverðmerki hans í fjarska. Þegar vjer eruma ferð og verðum dagþrota, þá látum vjer heyra til vor sinn með hverju móti, til þess ef einhver kunningi væri nálægur, að hann vísaði oss þá heim til sín og hýsi oss. Þegar kona mín heyrði til föður síns fyrsta sinn, hugsaði hún sig hefði dreymt. Annað sinn ætlaði hún að ganga móti honum, en jeg aptraði henni. Nú ætla jeg að kalla á hann sjálfur í kvöld. Ætlarðu að kalla á hann, sagði Vilhjálmur, til að kvelja þig, — það verð jeg að gjöra; að öðrum kosti vanræki jeg helgustu skyldu vora gestrisnina. Ef hann getur sannað það, að jeg hafi heyrt til hans, og ekki boðið honum heim til mín, þá verð jeg rekinn út úr þjóðfjelagi voru eins og níðingur.

Síðan gengu þeir báðir út í jarðhúsið og Vilhjálmur sagði konu vinar síns, hvernig sjer hefði gengið erindið. Hún fór að gráta, en sagði þó: Við verðum að sætta okkur við þetta, og talaði síðan lengi við manninn um æfilok sín með blíðum og rólegum harmi.

gjafavöld sökum þess að þjóðinni þótti hann ofmikill vinur Napóleons þriðja, hins núverandi keisara Frakka. Hann er nú lengi að aldri, hjerumbil hálf-áttræður, svo að vera má, að hann verði ekki optar oddviti í ráði drottningar, þó að öll líkindi sjeu til þess að öðru leyti eins og síðar skal getið. En hann hefur þegar unnið sjer það nafn í sögu heimsins, er lifa mun margra konunga minningu. Síðan hann fór að hafa verulegáhrif á utanríkisstjórn Breta 1830 og til þessa tíma hefur hann alstaðar staðið í broddi fylkingar, þegar frelsi og framfarir annara þjóða var að verja, og þó að sú fylking hafi ekki til orustu gengið, má þó óhætt fullyrða, að ekki hafi margar þúsundir hermanna gjört eins mikið að verkum til að efla frelsið og framhalda því en orð hans eins í málstofum Englendinga. Hann hefur í hendi forsjónarinnar verið hin þyngsta reiðisvipa yfir þrældómsgjörnum einvöldum á meginlandi Norðurálfu, er hlífðarlaust hefur sýnt ofríki þeirra og leitt hina aflamiklu þjóð sína til að styrkja þá er standa vildu móti ofbeldi þeirra, og halda fram þjóðrjettindum. Honum er það að þakka, að frelsi og friður og góð stjórn er í Belgíu. Það var einkum honum að þakka, að Don Carlos á Spáni og Don Miguel í Portúgal urðu undir, er þeir brutust þar til ríkis, en þeir voru báðir hin verstu harðstjóra-efni. Pólínalands mönnum og Ítölum hefur hann lagt margt liðsyrði, og hin frjálsa stjórn Sardiníumanna á honum mikið að þakka. Þjóðveldi Sveissa bjargaði hann 1847, þegar einvaldar á meginlandinu vildu þröngva rjettindum þeirra. Aðalstefna hans í utanríkisstjórn sinni var sú, að Englendingar ættu að fá sjer fylgismenn og vini á meginlandinu með því að styðja tilraunir hinna smærri ríkja að ná löglegu frelsi, og hann hjelt þessari stefnu svo fast fram sem hann gat, án þess að koma þó föðurlandi sínu í þá hættu, að hin ríkin sameinuðu sig móti því. Margir hafa kastað steini að honum fyrir það, að hann hjelt ekki til þrauta máli Pólverja og Ungverja, þegar harðstjórar bældu þá aptur niður eptir hina síðustu frelsisbyltingu 1848, en á þessu gat hann engan veginn ráðið bót, því hvorki hefði hann með nokkru móti getað fengið Englendinga til að ganga í þá styrjöld með þeim, enda var það heldur ekki færi þeirra, því þá hefðu allir ríkustu einvaldar á meginlandinu gjört samband móti þeim. Hann gjörði það sem í hans valdi stóð, hann talaði ætíð máli þjóðanna móti drottnum þeirra, og þegar þær höfðu borið hærra hlut, viðurkenndi hann þegar hina frjálsu stjórn þeirra. Enda báru orð hans á þeim tímum mikla ávöxtu, því þau vörðu opt rangsleitnum afskiptum annara þjóða gegn frelsishreifingunum. Og þó að margur ávöxtur frelsishreifinganna sje nú upprættur, og mörg þjóð aptur kúguð, þá hefði þó ástand Norðurálfu nú verið stórum lakara hefði England og Palmerston ekki staðið móti því að frelsið yrði upprætt.

Frá 1830 til 1848, meðan Lúðvík Philip sat að völdum í Frakklandi, var lengstum samband milli Englendinga og Frakka, þangað til að seinustu, að Lúðvík tók að draga sig meir eptir ein-

---

Æ! þið talið um þetta sagði Vilhjálmur, eins og ekki verði hjá því komizt. Takið ykkur strax upp og flýið hjeðan!

Það gagnar ekki, sagði konan; faðir minn eltir okkur, og mundi finna okkur, þó við færum landið á enda, því hvert manns barn segði honum til okkar.

Þið verjið ykkur þó, ef karlinn ræðst á ykkur, sagði Vilhjálmur. Hvað verður þá úr rjettvísinni, sagði villimaðurinn, og úr dótturlegri elsku og hlýðni, sagði aumingja konan. Því báðum datt þeim í hug, að karlinn mundi aumkast yfir þau.

Nú leið að kvöldi, þá heyrðu þau einkenni karlsins. Villimaðurinn gekk úr jarðhúsinu og kallaði móti. Karl gekk á hljóðið og fann tengdason sinn hjá jarðhússmunnanum, heilsaði honum blíðlega og faðmaði hann að sjer. Jeg hefi heyrt frægð þína, son minn! sagði karl, og að þú værir sextur heim úr hernaði, fyrir sakir hreysti þinnar, svo öðrum gæfist færi á að sýna hreysti sína, Að svo mæltu gekk hann í jarðhúsið, og sá dóttur sína. Og þú ert þá hjer, sagði hann, og lifir enn. Það furðar mig þú skulir ekki hafa tekið þig af lífi, til að gjöra enda á svívirðing þinni. Konuaumingiun fjell föður sínum til fóta, og faðmaði knje hans, grjet fögrum tárum, og bað hann um fyrirgefningu með svo mikilli blíðu og stillingu, að karl komst við, og tárin komu fram í augu hans. Hver getur fyrirgefið, sagði hann. Jeg hefi ekki lifað ofan jarðar, sagði hún; enginn hefur sjeð mig. Og ef jeg lifi nú eins hjer eptir?

Er það nokkurt líf að verða að fela sig fyrir augum allra manna, sagði karl. Ó, að dóttir min skuli geta það! Eykur það ekki enn meira harma mína: Þú verður að deyja! Jeg get ekki hjálpað þjer; stattu upp!

Verði þinn vilji, faðir minn! sagði hún, og kyssti fætur hans, stóð síðan upp, faðmaði hann og kyssti aptur.

Gátuð þið ekki beðið þangað til hugur minn

völdum á meginlandinu og bregða fjelagsskap við Breta; enda missti hann þá ríki skömmu eptir, og varð að flýja land fyrir þegnum sínum, en Palmerston viðurkenndi þegar frelsi Frakka, því hann sá, að Lúðvík var ekki lengur tryggur sambandsmaður eða vinur frelsis, og honum var annt um að halda vináttu og sambandi við hina menntuðustu þjóð á meginlandinu. þegar Lúðvík Napóleon braut þar stjórnarlög og gjörðist þar keisari, voru Englendingar hinir áköfustu að atyrða hann fyrir breytni sína, svo að við sjálft lá, að til stríðs horfði, en Palmerston, sem þá hefur verið orðinn sannfærður um, að þjóðstjórnin gæti ekki heldur þá en fyrri staðizt til langframa í Frakklandi, vildi halda sambandinu við Frakka, hvað sem í kynni að skerast, enda bar raun þess vitni, að slíks þurfti við, þegar Rússar skömmu síðar hófu ófrið til að ráðast á Tyrkjalönd, því þá hefðu Englendingar varla getað staðið móti yfirgangi Rússa og frelsað Tyrkjaríki, hefðu þeir ekki haft eins góða og örugga sambandsmenn og Frakkar voru. Og í öllum raunum og fyrirhöfn stríðs þess, þegar Bretar sjálfir voru hartnær farnir að láta hugfallast, þá stóð Palmerston fremtur allra til að halda stríðinu fram með afli miklu, þangað til sigurinn var unninn, og ávöxturinn orðinn sá, að Tyrkland var frelsað, og eyðilagður aðalfloti Rússa og herborgir allar við Svartahaf. það var því ekki kyn, þó að Palmerston vildi halda vel samband við Frakka, enda hjelt hann því svo fast, að hann missti fyrir það völd á Englandi eins og nú skal greina:

Eptir að ítalskir menn nokkrir höfðu í vetur reynt til að drepa Napóleon Frakkakeisara með því að kasta nokkurs konar smáum sprengikúlum undir vagn hans, þegar hann ók með konu sinni til leikspilahúss, er varð nokkrum mönnum að bana og særði fjölda fólks, sannaðist það, að nokkrir þessara morðingja höfðu komið frá Englandi, og að þeir höfðu þar með höndum haft ráðagjörð þessa. Napóleon lagði þá fyrir sendiboða sína að fylgja því fram í Englandi, Belgíu og Sveiss, að hættulegir útlagar Frakka fengju ekki griðastaði í löndum þessum og yrðu gjörðir landrækir, eða þær skorður reistar við samtökum þeirra, að þeir yrðu honum ekki framar hættulegir. Sveissara og Belgastjórn gjörðu nú svo mikið fyrir orð hans, að þeir gjörðu nákvæmari lagareglur um rjettindi útlendra flóttamanna, er aðsetur höfðu í þeim löndum. Í Englandi ætlaði þetta nú að ganga öðruvísi. Palmerston lávarður vildi reyndar styðja að því, að gjörðar væri þær breytingar á lögum í landi, að slík samsæri yrðu ekki gjörð þar svo að lög næðu eigi yfir þau. En þó að hann gjörði nú frumvarp sitt til þessarar lagabreytingar svo úr garði, að það virtist einungis nauðsynleg breyting á landslögunum, þá vildi þó þingið eða þjóðin engan veginn, að lögunum yrði breytt þannig, ekki vegna þess, að þeir álitu ekki að þurfa kynni að breyta, þessu heldur sökum hins, að þjóðin taldi víst, að þessi nýju lög væru gjörð ekki vegna þarfarinnar heldur eptir beiðni Frakkakeisara, og til að þóknast honum. Við fyrstu umræðu greiddi þingið reyndar atkvæði

---

hefði snúizt? Heldurðu maður! jeg hefði ekki látið tilleiðast um síðir að gefa þjer dóttur mína? Jeg hefði þó orðið að endurgjalda þjer í einhverju hreysti þína. Nú eru þið sjálf völd að hörmum ykkar.

Eptir þetta sagði hann við dóttur sína: Geturðu ekki búið mjer kvöldverð, svo jeg fái að borða með þjer einu sinni áður en þú deyr.

það get jeg, faðir minn! sagði hún, og hljóp fram svo glöð eins og hann hefði gefið henni lífið, bjó kvöldverðinn, og þau settust öll að borðinu. Vilhjálmur var hryggur og óttasleginn, en furðaði sig þó mjög á stillingu og stöðuglyndi þessara manna.

Bóndinn var sorgbitinn vegna konu sinnar, því hún var lífsgleði hans. Meðan setið var yfir máltíðinni, leitaðist karlinn við að hugga hann og gleðja. Allt er hverfult og fallvalt í heiminum, sonur minn! sagði hann. Rjettvísin ein gjörir manninn sælan. Drekk þú og vertu glaður, því þú átt föður sem virðir hana!

Litlu seinna sagði hann: þú átt fágætan vin, þar sem er þessi útlendingur. Hann er elskuverður maður, vitur og rjettvís. það hefur hann sýnt vorri þjóð. Jeg get ekki komið orðum að því, hvernig hann bað fyrir konu þína, Enginn gæti beðið betur fyrir barn sitt. Mjer þótti sárlega fyrir, að jeg varð að neita honum. Jeg vildi hann væri sonur minn.

Síðan sneri hann sjer til Vilhjálms og sagði: sástu dóttur mína, sem er heima? Hvernig leizt þjer á hana? Mjer leizt vel á stúlkuna, sagði Vilhjálmur: þá skal jeg ábyrgjast ráðvendni hennar, trúlyndi og rjettvísi. Viltu eiga hana og vera kyrr hjá oss?

Víst vil jeg það, sagði Vilhjálmur: Hvar mun mjer líða betur? En jeg veit ekki, hvort stúlkunni lízt á mig.

Henni lízt á þig, sagði karl: þegar þú varst

fyrir frumvarpinu, en við aðra umræðu gjörði einn af þingmönnum nokkurs konar varauppástungu, sem var reyndar ekki beinlínis móti frumvarpinu heldur lýsti mistrausti á stjórn Palmerstons, og við atkvæða greiðsluna urðu flest atkvæði fyrir þessari uppástungu. Palmerston vissi nú ofvel hvernig landsmönnum fjell frumvarpið illt í geð til þess að hann vildi ráðast í að slíta þinginu og láta nýjar kosningar framfara. Hann vjek því úr völdum, og komu þá til valda andvígismenn hans, Torymenn, er miður þykja frjálslyndir. þeir Derby greifi og D'Israeli eru hinir nafnkenndustu af hinum nýju ráðgjöfum. það sjest nú ljóslega á þessu, hversu lítið til þess þarf að ráðgjafar á Englandi missi völd sín. þegar almennings álitið þar í landi hefur tekið þá stefnu, að það er andstætt þeirri stefnu, er ráðgjafar þykjast vera bundnir við að fylgja, segja þeir af sjer, og það gjörði Palmerston líka. En svo skildi hann við stjórn í þetta skipti, að þó að mótstöðumenn hans kæmu til valdanna eptir hann, þá hafa þeir þó ekki getað annað eða vogað annað en framfylgja málum öllum öldungis í sömu stefnu eins og hann gjörði. þannig hefur hið nýja stjórnarráð eptir langa mæðu fengið jafnað niður hinn áðurgreinda misklíð við Frakka, og enn er óráðið nema það taki upp og framfylgi lagafrumvarpi Palmerstons um flóttamenn. það er því ekki kyn þó að margir spái því á Englandi, að þessi hin nýja stjórn muni ekki verða langgæð, og ef svo fer, þá eru allar líkur til að Palmerston komi aptur til valda, ef heilsa hans og aldur leyfa honum það.

(Framhaldið síðar).

---

Vjer gátum þess í seinasta blaði voru, að margir helztu menn hjer úr Norður- og Austuramtinu mundu vera búnir að skrifa stjórninni bónarbrjef þess efnis, að hún lofi að halda áfram þeim ráðstöfunum hjer nyrðra til að sporna móti kláðasýkinni, sem gjörðar hafa verið, og amtsbúar hjer álíta bezta til að útrýma þessum skaðlega sjúkdómi.

Til sönnunar þessum orðum vorum setjum vjer hjer hið mesta af brjefi þingeyinga til stjórnarinnar um þetta efni, er oss hefur í hendur borizt.

„það er að ætlun vorri fullsannað og engum vafa undirorpið, að hin áminnsta fjárkláðasýki er útlend, og hefur flutzt hingað til lands fyrir fáum árum; en að ekki var í tíma nógu sköruglega til verks gengið með að uppræta hana í Suðuramtinu, þar sem hún fyrst upp kom, mun meðfram hafa komið af því, að landlæknir dr. Hjaltalín hefur minna en þeim manni var ætlandi, varað við sóttnæmi kláðans í fyrstu, og síðan, bæði í orði og verki, framfylgt þeirri skoðun, að auðvelt mundi að uppræta kláðasýkina hjer á landi með lækningum, þvert á móti reynslu næstl. aldar og þessa tíma.

En meðan landlæknirinn telur mönnum trú um þetta, hefur sýkin náð að útbreiðast, ekki einungis um megin hluta suðuramtsins, heldur einnig náð að slæðast inn í Húnavatnssýsluna á næstliðnu hausti, og grípa þar um sig á allmörgum bæjum, og er ekki að vita, á hvað stuttum tíma

---

farinn frá okkur, sagði hún við mig: slíkan mann vildi jeg eiga, sem er svona góður við nærri ókenndan mann. Mikið mundi hann vilja gjöra fyrir konu sína.

þar eð svo er, sagði Vilhjálmur. Gjörðu mig þá gæfumann og gefðu mjer dóttur þína.

þá skipaði karl tengdasyni sínum að færa sjer hvítt kefli, því jeg vil rista rúnir nokkrar á það. Skal Vilhjálmur fara með það á morgun til að sækja konu sína, jeg mun verða hjá þjer á meðan til að hugga þig.

þegar bóndi fór fram eptir keflinu, gekk Vilhjálmur með honum, og sagði við hann: Tengdafaðir þinn deyðir þó líklega ekki konu þína? það gjörir hann efalaust, sagði bóndi: þetta verður svo að vera meðal vor, og er gjört reiðilaust, eins og með köldu hjarta.

þegar þeir komu inn aptur, var konan að gráta. Faðir hennar var þegjandi og rólegur, tók við keflinu og risti á það, rjetti síðan að Vilhjálmi og sagði: Eptir þessum rúnum verður dóttir mín kona þín: lifið þið ætíð sæl!

Nú drukku þau öll saman, og karl bað þau að vera glöð og róleg. En dóttir hans var nú miklu hryggari en áður, svo maður hennar furðaði sig mjög á því.

Um miðnæturleytið sagði karl: Nú skulum við fara til þess, sem á að gjöra. Dóttir hans vildi tala eitthvað, en hann lagði fingur á munn henni, og hún þagði.

Síðan sagði hann við mann hennar: þú veizt son minn! að hún er undir mínu valdi, og ekkert getur fríað hana frá því. þú hefur hagað þjer vel í öllu, svo jeg þarf ekki að kvarta yfir þjer. Nú skulu allir þegja við því, sem jeg ætla að tala: › Bölvaður sje sá, sem tekur fram í mál mitt eða hindrar mig að gjöra það, sem jeg ætla mjer; þú útlendingur! ert nú son minn, og verður að hlýða mjer.

Jeg kom hingað til að taka lífið af dóttur

þessi næmi sjúkdómur geysar yfir allt landið, sjeu ekki rammar skorður við reistar í tíma.

það mun engum manni blandast hugur um, að hin brýnasta nauðsyn beri til, ekki einungis að aptra meiri útbreiðslu sýkinnar, heldur og, að uppræta hana með öllu; aptur hafa menn gengið í tvær sveitir um, hvernig þessu yrði skynsamlegast komið til leiðar. Nokkrir menn í suðuramtinu, ásamt landlækninum, hafa fylgt fram lækningatilraunum á kláðasjúku fje, en aptur hafa aðrir — margir af þeim merkismenn — í nefndu amti samt allir Norðlendingar, undir forgöngu amtmanns síns, sem einna mestan og beztan þátt hefur átt að því, að sýkin næði ekki að útbreiðast meira en skeð er í Norður- og Austuramtinu —, ekki getað aðhyllzt lækningatilraunirnar, heldur fylgt fram af alefli þeirri skoðun, að nógu yfirgripsmikill niðurskurður fjárins, þar sem sýkin hefur náð að útbreiðast, sje hið eina tryggjandi ráð, til að frelsa þann fjárstofn sem enn er eptir í landinu frá algjörðri eyðileggingu.

þegar vjer nákvæmlega íhuguðum þetta mál, fjellumst vjer, ásamt öllum almenningi þessarar sýslu, algjörlega á fyrirskurðinn, og höfum fúslega lofað, að taka eptir tiltölu þátt í þeim skaða, er honum hlýtur að vera samfara í Húnavatnssýslu. En það sem einkanlega hefur knúð oss til að fallast á fyrirskurðinn er þetta:

Frá Suðuramtinu berast allajafna áreiðanlegar fregnir um það, hvað kláðalækningarnar eru miklum annmörkum bundnar, svo, þó nokkrar kindur sýnist orðnar alheilbrigðar, verða þær að stuttum tíma liðnum útsteyptar aptur. Af þessu er auðsætt, að sýkin verður ekki upprætt til hlítar með lækningum, og þó takast kunni að bæla hana niður um sinn með aðfylgi útlendra dýralækna, og þegar ekki eru nema fáar sauðkindur eptir á hverju heimili, — eins og nú kvað vera víða í suðuramtinu —, þá er í augum uppi, að með nefndum lækningatilraunum, verður sýkin að innlendri umgangsveiki, sem mundi hafa það í för með sjer, að meðan nokkur sauðkind væri til í landinu, þyrfti dýralæknir að vera við hönd til að lækna hana; en að viðhalda litlum fjárstofni hjer í landi með stöðugum lækningum ætlum vjer alls ekki tilvinnandi, allra sízt í Norðuramtinu, hvar loptslag og veðurátt er svo miklu óblíðara en á Suðurlandi, en almenningur þó tilneyddur, að halda fje á útigangi, hvernig sem viðrar um vetrartímann, sökum þess hvað heyja-afli er hjer lítill, og mundi það gjöra kláðann miklu áhrifameiri hjer en á Suðurlandi.

Vjer höfum nú reynsluna fyrir oss um það, hverjar verkanir niðurskurðurinn hafði á fjárkláðasýkina, sem geysaði yfir meiri hluta landsins á næstl. öld, og að það var einungis fyrir hann, að nokkur hluti fjárins fríaðist við eyðileggingu; getur engum verið kunnugra en oss um þetta atriði, því það var einmitt í þessari sýslu, að mönnum tókst að útrýma sýkinni með yfirgripsmiklum fyrirskurði, og höfum vjer órækar sögur eptir forfeður vora og aðra gamla og merka menn, um byrjun framhald og afleiðingar fyrirskurðarins, svo vjer þannig eigum að vísu að ganga, hverjum annmörkum slíkar ráðstafanir eru bundnar; en eins og fyrirskurðurinn þótti, ef til vill, á þeim tíma óaðgengilegur, eins ætlum vjer, að allir hafi eptir á sannfærzt um, að hann væri, og mundi ætíð verða hið eina ráðið, sem grípandi væri til, þegar þvílík vandræði sem hjer eru umtalsefni bæri að höndum, eptir því sem tilhagar hjer á landi. Og munu nöfn þeirra manna, sem mest og bezt gengust fyrir fyrirskurðinum á næstliðinni öld, geymast í þakklátri endurminningu innbúa þessarar sýslu meðan landið byggist.

þar sem það hlýtur að liggja í augum uppi, að lækningatilraunir þær, sem við eru hafðar á Suðurlandi, og ýmsar fleiri ráðstafanir, geta ekki samrýmzt þeim ráðstöfunum, sem gjörðar hafa verið og framvegis hljóta að gjörast til að koma

---

minni og velta manni hennar með því aptur sóma sinn. Ef jeg tek lífið af mjer fyrir hana, þá kemur sama fram, og það ætla jeg að gjöra. þegar jeg kom til ykkar, gat jeg ekki viljað þetta, því jeg átti þá dóttur ógefna, sem jeg þurfti að annast.

Nú get jeg viljað deyja, því dóttir mín er vel gefin. Með henni fær þú útlendingur nóg handa ykkur að lifa af.

Jeg vil deyja. Himininn heyri það! Hinn blái himin er góður við mig. Hann þekkir hreinleika hjarta míns. þegar jeg kem í hinn bláa himin, mun jeg vilja, að börn mín njóti heiðurs og gleði hjer á jörðu. Jeg elska dóttur mína og fyrirgef henni. þegar jeg er dauður, þá fyrirgef jeg henni. Kysstu mig dóttir mín! Kyss þú mig son minn! Kyss þú mig son minn útlendi!

Himininn mun halda við minningu minni hjá yður. Kunngjörið þjóðinni, að dóttir mín hefur öðlast aptur sóma sinn, og að jeg er dáinn fyrir hana! Segið hinni dóttur minni það, sem jeg ætla nú að tala, en ekki fyrr en hún kemur hingað!

Bölvaður sje sá, sem kveinar yfir mjer, því jeg verð farsæll, og gjöri aðra farsæla. Bölvaður sje sá, sem stillir ekki harm sinn út af mjer, undir eins og hann getur. Ef hann getur, á hann ekki að fella tár. Strax og dóttir mín kemur hingað, skuluð þjer halda brúðkaups veizlu og bjóða grönnum og kunningjum.

Eptir þessa ræðu dróg hann sverð sitt úr slíðrum og lagði á borðið.

Jeg dey fúslega, sagði hann, því jeg elska yður. Jeg formæli þeim, sem vill varna mjer að leggja mig í gegn.

Að svo mæltu tók hann sverðið og lagði sig í gegn. Allt var kyrrt, Enginn grjet. þau gengu til hans, kysstu hann, drógu sverðið úr sárinu, luktu sárið, og lögðu hann til í rúminu. Hann var þegar framliðinn.

í veg fyrir útbreiðslu kláðasýkinnar hjer í Norðuramtinu, eða unnið hjer almennings meðhald; þá höfum vjer fundið oss skylt, að frambera í dýpstu undirgefni fyrir hið háa stjórnarráð, þá áskorun og ósk vora, að engar þær ráðstafanir verði innleiddar hjer í Norður- og Austuramtinu, sem komi í bága við eða ónýti framkvæmd þeirra ráðstafana, sem gjörðar hafa verið, eða gjörast þurfa til að uppræta sýkina í Norðurlandi.

---

Herra umboðsmaður Jakob Pjetursson á Breiðumýri í þingeyjarsýslu, eigandi neðannefndrar ábúðarjarðar minnar, hefur veitt mjer undirskrifuðum hundrað ríkisdala styrk til engjabetrunar, sem jeg hefi á komið með garðahleðslu og vatnsveitingum, og svarar þessi gjöf hans eins árs jarðareptirgjaldi mínu; áður hafði hann tekið talsverðan þátt í húsabygginga betrun hjer, og jafnan verið mörgum öðrum sanngjarnari í landskuldatekjum sínum. þessa finnst mjer tilhlýðilegt opinberlega að geta, honum til verðskuldaðs sóma, og jafnvel um leið þeim jarðaeigendum og umráðendum til hugvekju, sem ekki hirða um viðhald — því síður betrun — jarðanna, nema með óuppfyllanlegum byggingarskilmálum, sem svo heldur aldrei er gengið eptir að haldnir sjeu, en hugsa meira um eptirgjalds-upphæðina eða festuborgun, sem hvorttveggja opt er hægast að fá hjá ónýtustu landsetum.

Grund í Eyjafirði 15. maí 1858.

Ó. G. Briem.

---

## Handa þeim er temja hesta.

Engir hestamenn erlendis hugsa nú um þessar mundir um annað en mann einn frá Vesturheimi, er temur hesta. Maður þessi heitir Rarey. Hann hefur nú um tíma í Parísarborg og Lundúnum gjört alla menn forviða með því að sýna þeim íþrótt sína. Engi hestur er svo óstýrilátur, þó hverjum öðrum sje voði nærri að koma, að hann gjöri hann ekki á einum eða tveimur klukkustundum svo spakan og hógværan, að hvert barn getur farið með hann. þetta þykir nú næstum með gjörningum gjört. Rarey hefur boðizt til að kenna 250 enskum göfugmennum íþrótt þessa, ef að þeir borgi sjer 170,000 dala og lofi þagmælsku, og nokkrir eiðsvarnir menn, sem hann hefur sagt þann leyndardóm, vilja ábyrgjast að það sje ekki ofborgað. það væri nógu gaman fyrir hestamenn, sem gjarnan vilja nema íþrótt þessa, án þess að gefa stórfje fyrir það, að reyna aðferð þá, sem blað nokkurt í Vesturheimi skýrir frá, og segir að sje aðalatriðið í kraptaverkum þeim, er Rarey gjörir. Blað þetta segir: „þrjú efni eru til í ríki náttúrunnar, sem nota má til að temja óstýriláta og andvíga hesta án þess að skaða þá. Hið fyrsta, er Englendingar kalla horse castor, er hornkennd hárlaus arða eður varta, vel gómstór, innan á bóglegg á hverjum hesti, og vanalega líka á apturfótum. Hún hefur óþægilegan þráan daun, og er hægt að taka hana af eða skafa hana burt. Ammoniak-efnið í líkama hestsins virðist einkum að safnast saman í vörtu þessari, og hinn sterki þefur af þessu hefur sjerstakan krapt til að laða að sjer öll dýr, einkum dýrin af hundakyni og hestinn sjálfan. Annað efnið er olían af rósatrjenu (oleum rhodium), sem öllum dýrum finnst mikið um og spekjast við. Hið þriðja efnið er kúmenolía (eða olían af „cuminum cymenum"), og fæst hún og rósatrjesolían bezt frá Arabíu. Hesturinn er staklega fíkinn í hana, og getur eigi að sjer gjört að renna á lyktina af henni. þegar neyta á þessara meðala til að spekja hesta, er þannig að farið: Hestamaðurinn, eða sá sem

---

þá sagði bóndinn við konu sína: Harla rjettlátur var faðir þinn: Og hann dó fyrir mig, sagði konan, og felldi nokkur tár, en þurrkaði þau strax af sjer aptur. Síðan föðmuðust hjónin nokkra stund þegjandi.

Daginn eptir jörðuðu þau líkið, og Vilhjálmur fór af stað að sækja konu sína. þegar hann kom til hennar og færði henni keflið, varð hún glöð við, hljóp um háls honum og sagði: Komdu sæll! þú ert maðurinn minn! Svo bjó hún sig strax að heiman og fór með honum. Fann hann brátt að hún var svo mikið góðkvenndi, að hann mundi aldrei iðra þess, að hann fór burt úr Norðurálfunni. þegar þau komu til vina sinna, var henni sagt, hvað faðir hennar hefði gjört. Hún grjet ekki, en gekk að leiði hans og kyssti jörðina þrisvar.

7 dögum eptir dauða karlsins, var haldin brúðkaupsveizlan með mikilli gleði, og dáðust allir að því, hversu rjettvís og góður faðir þeirra systra hefði verið.

Nokkru seinna en þetta gjörðist, gat Vilhjálmur komið brjefi til ættmanna sinna í Norðurálfu, er sagði frá öllu þessu. Bjó þá Vilhjálmur í nágrenni við vin sinn við gleði og nægtir, og sagði sig fýsti aldrei þaðan til fornra átthaga sinna.

---

hestinn temur, nýr lítilræði af kúmenolíu, sem geymist í vel um búinni flösku, svo lopt komist ekki að henni, á hendur sínar, og gengur svo að ótemjunni í haga forviðris. Hesturinn finnur þegar þefinn og stendur grafkyrr. Maður nýr hægt með flatri hendinni um flipann á hestinum svo að dálítið af olíunni kemur á flipann, og getur þá undir eins teymt hestinn hvort er hann vill. Hin áður nefnda hestvarta smárifin, rúmlega eins mikið og samsvarar tóbaksnefi, er lögð á sykurmola og látið í munn hestinum. Hann gleipir við því. Átta dropum af rósatrjesolíu er hellt í silfurfingurbjörg, maður heldur á henni með þumalfingri og löngutöng, og leggur baugfingur yfir, svo olían hristist ekki upp úr, lýkur upp munninum á hestinum og hellir olíunni á tungu hans. Samstundis hlýðir hesturinn manninum í öllu, og eltir hann eins og fylgisamur hundur, og maðurinn getur kennt honum hvað sem hann vill, ef maður einungis er góður við hann gefur honum nægt fóður, og lætur hann hafa að öllu sem bezta hirðingu".

---

þann 25. þessa mánaðar andaðist mín elskuverða og hjartkæra kona, **Dómhildur þorsteinsdóttir**, fertug að aldri, að næstum fylltu okkar tuttugasta hjúskaparári og að nýafstöðnum burði okkar fimmtánda barns. — þessa fregn finn jeg mjer skylt að flytja fjærverandi ættingjum og vinum okkar beggja. þeir sem þekktu þá dánu, vita hvað jeg missti, en mjer er það huggun, að missir minn er orðinn henni að ávinningi. — Blessuð sje hennar minning.

Grund í Eyjafirði 31. maí 1858.

**Ó. G. Briem.**

# Auglýsingar.

Frá tuttugasta degi þessa mánaðar tek jeg við Eyjafjarðar apótheki, og skal jeg af fremstu kröptum annast um, að ætíð sjeu þar að fá nóg og góð meðöl. En vegna þess, að tímarnir eru svo bágir, og hvergi lán að fá, get jeg ekki heldur neinum lánað, en verð að lýsa því yfir, að jeg sel meðölin einungis fyrir borgun út í hönd.

Akureyri 15. júní 1858.

**J. P. Thorarensen.**

## Proclama.

Samkvæmt konunglegu leyfisbrjefi frá í dag, sem birt mun verða bæði á Reykjavíkur bæjarþingi og í hinum konunglega íslenzka landsyfirrjetti, kveð jeg hjer með alla þá, sem skuldir þykjast eiga að heimta í dánarbúi Viceconsuls kaupmanns Moritz Wilhelm Bjerings hjer úr bænum, til þess innan árs og dags, *sub pæna præclusi et perpetui silentii*, að lýsa skuldakröfum sínum og sanna þær fyrir mjer sem hlutaðeiganda skiptaráðanda.

Skrifstofu bæjarfógetans í Reykjavík, hinn 5. marz 1858.

**V. Finsen.**

## Próclama.

Samkvæmt konunglegu leyfisbrjefi frá í dag, sem birt mun verða bæði á Reykjavíkur bæjarþingi og í hinum konunglega íslenzka landsyfirrjetti, kveð eg hjer með alla þá, sem skuldir þykjast eiga að heimta í dánarbúi kaupmanns Jóns Markússonar hjer úr bænum, til þess, innan árs og dags, *sub pæna præclusi et perpetui silentii*, að lýsa skuldakröfum sínum og sanna þær fyrir mjer, sem hlutaðeiganda skiptaráðanda.

Skrifstofu bæjarfógetans í Reykjavík, hinn 5. marz 1858.

**V. Finsen.**

### Bókafregn.

Sögur Sólons hins spaka, og Platons heimspekings, útlagðar af Jóni sýslumanni Espólín, eru til sölu, heptar í kápu, hjá bókb. J. Borgfirðingi á Akureyri, fyrir 20 sk.

---

### Asnaþjófarnir.

þrír strákar voru einu sinni á ferð og fundu bónda sofandi í einni gróf. Hjá honum stóð klifjaður asni, og hjelt bóndi í tauminn. þá sagði einn strákurinn: Ef þið viljið hjálpa mjer til, þá getum við nú komist yfir fiskvirði, og við þurfum þess með, því við erum fjelausir. þeir lofuðu því að hjálpa honum. Jæja! sagði hann, takið þið þá asnann, og seljið hann; á morgun verður haldinn markaður, þá vill einhver kaupa hann, en látið þið baggana upp á mig, og leggið þið við mig beizlið, jeg skal vera eptir hjá bónda. þeir gjörðu allt eins og hann sagði þeim.

Skömmu seinna vaknaði bóndi, og varð öldungis hissa, þegar hann sá, að asninn var orðinn að manni. Æ! í hamingjunnar bænum! sagði skelmirinn, takið þjer beizlið út úr mjer og baggana ofan af hryggnum á mjer! „Hver skrattinn er þetta, sagði bóndi, hvernig hefir þú komið hingað"? „Æ! sagði hinn, hann faðir minn er galdramaður, og lagði það á mig, að jeg yrði að asna, af því jeg var honum einu sinni óhlýðinn. Nú er honum runnin reiðin, svo hann hefir tekið mig úr álögunum. þess vegna bið jeg yður að lofa mjer að fara heim, til að þakka honum fyrir þenna velgjörning". „það skal jeg feginn gjöra, sagði bóndaskepnan; jeg vil ekkert eiga við ykkur eða töfra ykkar". Síðan tók hann allt ofan af skelminum og hleypti fram af honum beizlinu; en hann tók til fótanna og hljóp eptir lagsmönnum sínum. Skemmtu þeir sjer vel með peningunum, sem þeir fengu fyrir asnann.

Daginn eptir gekk bóndinn á markaðinn til að kaupa sjer annan asna. Hann skoðaði marga sem þar voru til sölu, og fann seinast þann sem hann átti fyrr. þegar hann sá hann þarna, sagði hann: á! á! þú hefur þá farið aptur að rífast við hann föður þinn. Nei! Nei! þú skalt nú ekki svíkja mig optar! Skrattinn hafi allt ykkar fjölkyngi!

---

☞ Með þessari örk Norðra fylgir sem viðaukablað dómur í Víðidalsfjallsmálinu $1\frac{1}{4}$ örk, nokkur exempl. til hvers umboðsmanns til útbýtingar meðal þeirra kaupenda er girnast kynnu.

☞ Prentsmiðjufundurinn verður haldinn 15. júlí í stað þess 11., sem af vangá stóð í 11.—12. bl. Norðra.

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðar laust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár. | 10. Júlí. | 17.

Ekkert málefni hefur á seinni tímum gagntekið eins hug allra Íslendinga og fjárkláðamálið, og um ekkert mál hefur verið ritað eins mikið á jafnlöngu tímabili í blöðum vorum, enda er það ekki að furða, þar sem um eins mikilsvarðandi málefni er að tefla fyrir land og lýð. Hingað til hafa 2 flokkar, fyrirskurðarmennirnir og lækningamennirnir staðið andspænis hvor á móti öðrum, og horfir ekki enn til, að þeir muni sættast hvorir við aðra. Aðal-ágreiningsatriðið milli þessara tveggja flokka virðist mjer að vera það, að lækningamennirnir berja það fram blákalt, að kláðinn sje innlendur, sprottinn upp af spillingu og vanhirðingu á fjárkyni voru, og að hann þess vegna spretti upp hjer og hvar án sóttnæmis og samgöngu; en fyrirskurðarmennirnir aptur á móti segja, að kláðinn sje aðfluttur með ensku lömbunum, og lýtur allt að því að svo sje. Blöðin hafa ekki, að mínu áliti, hrakið sem skyldi þessa villu lækningamannanna, og álít jeg það því skyldu mína að skýra þetta atriði að svo miklu leyti mjer er unnt, og það því fremur sem stjórnin hefur byggt brjefið til amtmanns Havsteins frá 15. aprílm. næstl., og sem getið er um í 13.—14. blaði Norðra á því, að kláðinn væri innlendur; og hefur hún auðsjáanlega í þessu efni farið eptir skýrslum læknanna fyrir sunnan.

Sje kláðinn innlendur, þá hlýtur hann annaðhvort að hafa legið í fjárkyninu frá því sauðfje kom fyrst til landsins, ellegar hann hlýtur að vera eptirleifar af kláðanum, er geysaði hjer á landi á seinni hluta 18. aldar, ellegar hann loksins verður að vera sprottinn upp sjálfkrafa nú fyrir 2 árum, þegar fjárkláðafaraldrið byrjaði. Hvorttveggja hið fyrtalda hefi jeg ekki heyrt getið, að nokkur hafi farið fram á, en aptur á móti er hið síðarstnefnda álit Hirðis og lækningamannanna fyrir sunnan, og skal jeg nú leitast við að sýna, að þetta er ekki á rökum byggt.

Það er álit nærfellt allra lækna og náttúrufræðinga nú á tímum, að kláðamaurinn sje orsök til kláðans, og sanna þeir það með því, að ef kláðamaur er látinn á kláðlausa skepnu, þá fær hún af því kláða, og virðist þetta að vera órækt sönnun. Hirðir er nú að vísu að segja mönnum, að kláðamaurinn sje afleiðing af kláðanum, en kláðinn komi af spilltum vessum; en ástæður þær, sem færðar eru fyrir þessu, eru að mínu áliti mjög svo ljettvægar, og kollvarpa engan veginn hinu álitinu, sem er fullsannað með nákvæmum tilraunum. Þeir bera nefnilega fyrir sig, að heilar hjarðir geti fundizt með kláða án þess nokkur kláðamaur finnist, og að kláðamaurinn finnist ekki allstaðar á líkamanum, þó að kláði sje þar. Hvað hinu fyrra viðvíkur, þá hefur maður víst fulla ástæðu til að efast um, að það sje kláði, heldur einhver annar hörundskvilli, sem að hinu ytra er líkur kláðanum[1], og hvað hinu síðara aptur á móti viðvíkur, þá er það að minnsta kosti öllum læknum kunnugt, að kláða eru mjög svo opt samfara aðrir hörundskvillar.

En sje nú kláðamaurinn orsök til kláðans, sem flestum ber saman um, þá ætti kláðamaurinn, ef kláðinn væri innlendur, að vera kviknaður af sjálfu sjer, en að engi líkindi sjeu til, að þetta geti átt sjer stað, ætla jeg nú að sýna. Trúin á sjálfsmynduninni (generatio æquivoca), það er á því, að dýr geti myndazt án þess að vera afkvæmi

---

[1]) Þannig sá jeg í fyrra sumar sjeð hörundskvilla á ærfje á Kjarna í Eyjafirði. Þar höfðu ærnar gengið í flæðum, en voru látnar standa inni á nóttunni í heitu og blautu fjárhúsi. Hörundskvilli þessi var að öllu ytra áliti áþekkur sunnlenzka fjárkláðanum; en það vantaði tvennt, því kindurnar klæaði ekki, og enginn fannst kláðamaurinn, og hafði jeg þó góðan sjónauka; enda hvarf útsláttur þessi vonum bráðara undan tóbaksósu, og hefur ekki borið á honum síðan og ekki breiddist hann þaðan út, jafnvel þó samgöngur hefðu verið milli bæjanna.

annara dýra eins og af sjálfu sjer, hefur drottnað á ýmsum tímabilum meðal hinna lærðu. Mönnum hefur verið gjarnt að grípa til þessa neyðarúrræðis, þegar menn ekki hafa getað sýnt eðlilegan uppruna dýranna. þetta hefur samt sem áður ekki átt sjer stað nema um hin lægri dýr; þó álitu menn í fornöld, að jafnvel sumir fiskar ættu ekki kyn sitt að rekja til annara fiska. þannig segir hinn frægi heimspekingur Aristoteles, að állinn myndist úr leðju. — þegar náttúruvísindin fóru að blómgast aptur eptir miðaldartímann, og einkum eptir að menn uppgötvuðu breytingar þær (Metamorphose) sem flugnaflokkurinn (Insecter) er undirorpinn [1], dofnaði trúin á sjálfsmynduninni mikið, ok frambar þá hinn nafnfrægi Englendíngur Vilhjálmur Harvey þann lærdóm, að allt lifandi kæmi úr eggi (omne vivum ex ovo). En þegar menn á 17. öld uppgötvuðu hin svo nefndu infusionsdýr, sem eru svo lítil, að 500 millíónir eiga að geta rúmast í einum vatnsdropa, gat mönnum ekki skilizt, hvernig þessar smáu skepnur ættu að geta myndazt nema við sjálfsmyndun; og fóru þá margir aptur að aðhyllast trúna á hana. Bættist þar við, að menn með engu móti gátu hugsað sjer, hvernig ýmsir innýfla-ormar gætu verið afkvæmi innýfla-orma í öðrum dýrum, hvernig, t. a. m., heilasullurinn (coenurus cerebralis) í sauðfje, sem er lifandi, og sem er orsök til vanka, gæti verið afkvæmi af heilasulli úr öðrum sauðkindum. En eptir að Ehrenberg, prófessor í Berlín, var búinn að skýra mönnum frá uppgötvunum sínum um eðli infusionsdýranna og byggingu, og hafði sýnt, að bygging þeirra var ekki eins einföld og menn höfðu ímyndað sjer, að þau kæmu upp þannig, að hvert dýr klofnaði í tvennt, og að viðkoman var fjarska mikil, og hann loksins hafði sýnt, að þeim mátti raða niður í flokka eins og öðrum dýrategundum, og eptir að presturinn Sars í Noregi, Loven, háskólakennari í Svíaríki, og einkum Steenstrup háskólakennari í Kaupmannahöfn, er ferðazt hefur hjer á landi, höfðu sýnt, hvernig ýms af hinum lægri dýrum og innýfla-ormum eru undirorpin margvíslegum breytingum, áður en þau ná þeirri mynd, er móðirin hafði, og geti fætt af sjer egg, þurfu menn með öllu frá trúnni á sjálfsmynduninni. Upp frá þessum tíma hefur náttúrufræðingunum á hverju ári tekizt að sýna, að mörg þau dýr, er áður voru álitin að kvikna af sjálfu sjer, eru afkvæmi annara dýra, er opt eru þeim öldungis ólík. þannig hefur — svo að jeg brúki sama dæmi — Dr. Küchenmeister, læknir í Zittau, sýnt að heilasullurinn í sauðfjenu á kyn sitt að rekja til bendilorms (tænia coenurus) er finnst í kindunum, og hefur sannað það með því, að hann hefur gefið sauðkindunum þenna bendilorm, og hafa þær eptir nokkurn tíma orðið vankaðar; á hinn bóginn hefur hann gefið hundum inn heilasull, og hefur þá einnig hundurinn eptir nokkurn tíma fengið bendilorm. það er því álit nærfellt allra náttúrufræðinga og lækna, að sjálfsmyndun eigi sjer alls ekki stað; og álíta þeir það með öllu óleyfilegt, samkvæmt uppgötvunum þeim, er gjörðar hafa verið um hinn eðlilega uppruna hinna lægri dýra á hinum síðustu árum, að álíta, að nokkurt dýr myndist af sjálfu sjer, jafnvel þó menn í þann svipinn ekki geti sýnt eðlilegan uppruna þess; því sagan hefur sýnt, um öll þau dýr, er menn á ýmsum tímum hafa álitið, að væru sprottin upp á þenna óeðlilega og óskiljanlega hátt, að menn seinna hafa getað sýnt, að þau eigi kyn sitt að rekja til annara dýra.

Svo að jeg snúi mjer aptur til kláðamaursins, þá er það fullsannað, að hann getur af sjer kláðamaur, jafnvel þó hann, eins og flest hin lægri dýr, sje breytingum undirorpinn áður en hann verður fullþroska. þannig kastar hann þrisvar hýði áður en hann nær þeirri mynd, er fullþroska kláðamaur hefur, og getur getið af sjer afkvæmi. Að kláðamaurinn kvikni ekki af sjálfu sjer, er álit flestallra hinna frægustu náttúrufræðinga og lækna; þannig segir prófessor Valentin í Bern í lífsfræði (Physiologie) sinni, sem er nýkomin út á dönsku: „Dýr þau er taka sjer bústað utan á hinum mannlega líkama (de udvendige Snyltedyr), lýs, flær, kláðamaur, o. s. frv., berast utanað á líkamann, ellegar kvikna af eggjum þessara dýra, er verið hafa þar fyrir áður“, og mun enginn efast um, að hið sama á sjer stað hjá öðrum skepnum. En að kláðamaurinn hafi bæði eðlilegan uppruna, og geti þó líka myndazt af sjálfum sjer, er óhugsandi og gagnstætt mannlegri skynsemi.

þar eð nú kláðamaurinn ekki getur kviknað upp af sjálfum sjer, eða án þess að vera afkvæmi annars kláðamaurs, og þar hann að allra áliti er orsök til kláðans, þá getur fjárkláðinn, sem nú geng-

[1]) Allir vita, að fiskiflugan leggur egg sín á kjöt og fisk, og að eggið verður að maðki, en eptir nokkurn tíma deyr maðkurinn, hýðið utan á honum rifnar og fiskiflugan flýgur út úr því.

ur hjer á landi, ekki verið innlendur nema því að eins, að hann væri fornar leifar af fyrri kláðanum; en það er með öllu óhugsandi.

Gæti menn nú loksins að útbreiðslu kláðans hjer á landi, þá mun mega rekja spor hans bæ frá bæ, og úr einu hjeraðinu í annað. Að hann sumstaðar hefur komið seinna fram eptir samgöngurnar en títt er í útlöndum, mun bæði geta komið af loptslagi ok fjárkyni, en þó einkum, að mínu áliti, af því, að hörundið (**Epidermis**) er þykkra á sauðfje hjer á landi sökum útigangs, kulda og vosbúðar.

Jeg er nú búinn að sýna, að það er með öllu óhugsandi, að kláðinn sje innlendur, og að álit Hirðis og læknanna fyrir sunnan um þetta efni, er því byggt á villu tómri, og gagnstætt því, sem reynsla bæði eldri og einkum nýjari tíma hefur sýnt. Mjer er að vísu kunnugt, að við og við hafi heyrzt einstöku raddir, er mæla með sjálfsmynduninni, og mjer er það einnig kunnugt, að á þessu er farið að brydda núna; en það er sannarlega áhorfsmál, að aðhyllast undir eins sjerhvern nýjan lærdóm, einkum þar sem svo margar ástæður tala á móti eins og í þessu efni, því sagan hefur sýnt, að trúin á sjálfsmynduninni hefur aldrei staðið til lengdar; og þó að einhver dýr eða jurtir finnist, er menn geta ekki ættfært enn, mun þess varla vera lengi að bíða, að það verði. Jeg leyfi mjer því, að skora á sunnlenzku læknana að íhuga þetta vel, og að standa ekki of fast á því við stjórnina, að kláðinn sje innlendur, því jeg er sannfærður um, að ef þetta væri borið undir alla náttúrufræðinga og lækna, að minnsta kosti í Danmörku, þá mundi vart 1 af 100 verða á þeirra máli.

Loksins skora jeg og á alla fyrirskurðarmenn, að þeir láti eigi þessa villulærdóma Hirðis og sunnlenzku læknanna koma sjer til að trúa því, að fjárdrepsótt þessi sje innlend. Þeim er óhætt eptir áður sögðu að ætla upp á það, að fjársýki þessi er útlend, og að ekkert betra og vissara meðal fæst til að uppræta hana úr landinu en skynsamlega stofnaður og kappsamlega framkvæmdur fyrirskurður, ásamt sterkum vörnum til að varna fjársamgöngum.

**Jón Finsen.**

---

## Amtsfundurinn fyrir norðan.

Þess er áður getið í Norðra, að amtmaður Havstein hafi kallað saman fund til þess að koma saman hjer á Akureyri 12. þ. m. til að ræða og ráðgast um:

*a*, framhaldandi og ýtarlegri ráðstafanir til að uppræta fjársýkina í Húnavatnssýslu og koma í veg fyrir frekari útbreiðslu hennar, og

*b*, um endurgjald fyrir það fje, sem lógað er kláðasýkinnar vegna.

Kveðst amtmaður einnig muni bera upp önnur atriði kláðamálinu viðvíkjandi, t. a. m., hvenær tími álitist að vera kominn til þess, að þeir, sem fjárlausir eru orðnir í Húnavatnssýslu, fái fjárstofn aptur, meðferð á fjárhúsum þar, o. s. frv., fjársölu til sauðlausra sveita í Árness-sýslu, sem leitað hafa fjárkaupa í Norðurlandi, fjárrekstra suður í haust, o. s. frv., eins og líka fundarmönnum sjálfsagt sje heimilt að koma fram með önnur umtalsefni, er áhræra fjárkláðamálið.

Þessi atriði tók amtmaður fram í brjefum sínum til sýslumanna, um leið og hann bauð þeim um að láta kjósa hina beztu menn, sem almenningur hefði mest traust á, til þessa fundar. Þessar kosningar eru nú fram farnar, og fundur þessi á nú bráðum að byrja; og þar eð oss þykir það líklegt, að amtmaður leggi ekki sjálfur neitt frumvarp fyrir fundinn, þar eð aðalætlunarverk fundarins er tekið fram í brjefi þessu, þykir oss við eiga, að fundarmenn og alþýða sjái, hvað vjer leggjum til um þetta mál.

Hið fyrsta, er vjer vildum óska, er þá það, að fundurinn reyni til að komast til einhverrar fastrar undirstöðu í málinu, og að hann samhuga fylgi fram einhverri vissri grundvallarreglu, því án þess verður fundurinn endileysa ein, eins og oss virðist um Vesturlandsfundinn á næstliðnu vori.

Eptir því sem oss er nú kunnugt álit almennings hjer í amtinu, getum vjer ekki ætlað, að neinn ágreiningur verði með fundarmönnum um það; hvorri stefnunni fylgja eigi til að útrýma kláðanum, það er að skilja hvort fylgja eigi lækningunum eða fyrirskurðinum, eða með öðrum orðum sunnlenzku eða norðlenzku stefnunni. Vjer þykjumst ganga að því vakandi, að allir fundarmenn verði samhuga á því, þegar um hinar framhaldandi ráðstafanir til að uppræta drepsótt þessa er að ræða, að halda fast við þá grundvallarreglu, að fyrirskurður og sterk varðhöld sjeu hið eina ráð til að hnekkja landplágu þessari; og nefnd sú, er kosin verður til að segja álit sitt um það atriði málsins, getur því haft til undirstöðu fyrirskurðar og varnarreglur þær, er þegar eru gjörðar í Húnavatnssýslu, og búið til nýjar reglur til varúðar, ef að sýkin skyldi móti von færast lengra norður eptir. — Hið vandamesta, sem þessi nefnd hefur um að ræða, virðist oss það að ákveða, hvenær byrja má að láta aptur sauðfjenað til Húnavatnssýslu, því alllíklegt er að hin brýna þörf Húnvetninga komi þeim til að vera bráðlátir að fá fjeð; en varúð býður að gjöra það eigi offljótt. Hinn fyrsti tími, að láta fje til Húnavatnssýslu er þá næstkomandi haust, en ekki virðist oss, að svo snemma megi láta þangað nokkuð til lífs, heldur einungis skurðarfje, því það er einmitt hið næstkom-

andi haust og vetur, sem á að gefa reynsluna um það, hvernig hinar þegar gjörðu ráðstafanir hafa dugað. Að vori komanda 1859 verður því að voru áliti hinn fyrsti tími til afgreiðslu skaðabóta fjárins, og fjárkaupa, og það þó einungis með svofelldu móti, að allt gengi vel og kláðinn yrði sigraður.

Hin nefndin, sem þegar er kosin til þess að meta skaða þann, er af skurðinum hefur leitt fyrir fjáreigendur í Húnavatnssýslu, hefur að vorri hyggju mjög svo vandasamt ætlunarverk; og liggur þar mjög mikið á, að nefndarmenn nái sjer niður á almennum grundvallarreglum, svo að sem minnst sjerstaklegt komi fram í matinu. Auk þess nú sem sjálfsagt verður að meta sauði, ær og gemlinga, hvert í sínu lagi, ætlum vjer nauðsynlegt að skipta fjenu í flokka eptir því á hverjum tíma það hefur verið skorið. Ætti þá í fyrsta flokki að vera allt fje sem skorið hefur verið til þorraloka. Í öðrum flokki það sem skorið hefur verið frá Góubyrjun til sumarmála, og í þriðja flokki það fje, sem skorið hefur verið eptir þann tíma. Það leiðir af sjálfu sjer, að því seinna sem skorið hefur verið, því meiri skaði hefur það verið eigendunum, og því meiri þurfa bæturnar fyrir það fje að vera. Það getur nú vel verið, að margt mæli með því, að þessi flokkaskipti á fjenu, eptir tímanum sem fjeð er skorið á, þurfi að vera fleiri, en vjer ætlum það þó ekki ráðlegt, því ef þau verða mörg verður matið enn flóknana og margbrotnara; en í mati þessu ríður einkum á því, að yfirlitið sje sem almennast, og að engin sýtingssemi komi fram, hvorki af hendi þeirra, sem skaðabæturnar eiga að fá, eða þeirra, sem þær eiga af höndum að láta Ef að nú Húnvetningar kynnu að þurfa nokkuð fje til matarkaupa í haust, virðist oss að það ætti mest að greiða í peningum, og ætti amtmaður að útvega það til bráðabyrgðar úr jarðabókasjóðnum, en hjeðan mætti endurgjalda það í haust með innleggi í kaupstað og ávísunum til stjórnarinnar í haust, og gengi þetta fje þá til borgunar skaðabótanna.

Þessi almenni fundur Norðlendinga verður einkum að gæta þess, að ætlunarverk hans er, eins og brjefa þeirra, er margir merkustu menn úr hverri sýslu hafa í vor skrifað stjórninni, að reyna til að ávinna oss Norðlendingum það frelsi, að vjer getum sjálfir gjört þær ráðstafanir, sem vjer eflaust erum færastir um, til að forða oss við fjárfelli og þar af fljótandi hallæri, sem vjer álítum bestar, og að stjórnin, sem ekkert að gagni þekkir til málsins, fari ekki með vitlausum skipunum að taka fram fyrir hendur oss í þessu velferðarmáli voru, sem einungis snertir vorn eiginn hag, en hennar lítið eður ekki. Þetta verður fundurinn að hafa fyrir augum, og þetta á að gjöra hann eindrægan, því vjer getum ekki ætlað stjórninni þá einþykkni, að hún gangi þvert á móti samhuga bæn hinna beztu manna. sem kjörnir eru af öllum innbúum amtsins. En vjer álítum það nauðsynlegt, þegar vjer gætum að árangri þeim, er hinar ráðlausu skipanir stjórnarinnar hafa haft á Suðurlandi, að vjer fáum að vera sem mest sjálfráða í þessu efni, og til þessa þarf eigi annað en að hinn almenni Norðurlandsfundur verði sem eindrægnastur í tillögum sínum.

---



Leiðrjetting á marki á 48. bls. Norðra þ. á.

Stýft í hamar hægra, á að vera sýlt í ham. hægra.

☞ Í viðaukablaðinu við Norðra í júní þ. á. 2. bls. 2. línu í fyrra dálki, orðabreytinga, les: orðabreytinga.

---


Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár. | 31. Júlí. | 18.—19.

það er nú kominn 25. júlí, og komið fram á túnaslátt, og þó engin verzlun byrjuð hjer á Eyjafirði fyrir alvöru. Vanalegi lestatíminn hjer norðanlands er liðinn, og lestir að mestu enn ókomnar. Kaupmennirnir ganga með höndurnar í vösunum fyrir innan búðarborðið, og hafa ekkert að starfa, og þó nálgast sá tími fyrir þeim, að þeir eiga að fara að senda skipin heim til húsbændanna í Kaupmannahöfn; og nærri má geta hvernig herrar þessir muni verða undir brún að sjá, þegar þeir fá aptur skipin, sem vön eru að flytja þeim mikinn auð heim í hlaðið, tóm eða hálffermd. Hvað er það nú sem veldur öllu þessu?

það er nú, ef til vill, ekki svo hægt að svara þessari spurningu í fáum orðum, því það er margt sem styður að þessu, og allt ekki enn í ljós komið. Vjer viljum þó reyna til að benda á ýmisleg atriði, sem munu vera þessa ollandi. Fyrsta ástæðan til þessarar deyfðar í verzlun vorri er þá hin alkunna verzlunarneyð erlendis, sem svo mörgum kaupmanni hefur á knje komið. það er öllum vitanlegt, og kaupmenn hafa sjálfir gjört á því mikið orð, að þeir margir hverjir sitji enn með íslenzku vöruna þá í fyrra sumar, og að þeir, sem hafi selt hana, hafi gjört það með stórkostlegum afföllum. Af þessu hefur nú allur þorri kaupmanna komizt í beyglur með að útbúa skip sín í vor, og sumir orðið að hætta kaupverzlun sinni. Kaupmennirnir hafa nú ætlað að verða hyggnir af skaðanum, og gjört því samninga með sjer, að keppast ekki hver við annan um að ná í íslenzku vöruna, og hleypa henni þannig upp, eins og þeir hafa gjört undan farin ár, heldur komið sjer saman um allir að gefa sama verð, og það mjög lágt, fyrir hana, svo að þeir gætu, ef vel gengi, náð sjer sem fyrst aptur eptir skaða þann, er verzlunarnauðin hefur bakað þeim. Jafnhliða þessu hafa þeir sett töluvert hátt verð á hina útlendu vöru í samanburði við það er ætla mætti að þeir gætu selt hana fyrir, og er þar tilgangurinn hinn sami. Loksins hafa þeir nú líka komizt til þeirrar sannfæringar, að það sje þeim bagalegt að eiga hjer á landi ár frá ári margar þúsundir dala í útistandandi skuldum, og það allt leigulaust og sumt hvað á óvissum skuldastöðum. þeir hafa því fylgt þeirri reglu: „það sem mennirnir gjöra yður, það sama eigið þjer þeim að gjöra," en ekki hinni: „það sem þjer viljið að mennirnir gjöri yður, o. s. frv;" og hafa allt í einu, að minnsta kosti hjer á norðurlandi í hinum svonefndu föstu verzlunum, aftekið með öllu að lána nokkrum manni, ekki einu sinni viku tíma eða hálfan mánuð, þó borgun væri alveg viss. þessa reglu hafa þeir sett sjer, og hana segjast þeir hafa haldið. þeir hafa um leið krafizt borgunar á öllum kaupstaðarskuldum á næstkomandi tveim árum.

þegar vjer í næstl. marzmánuði færðum löndum vorum fregnina um þenna kaupmanna boðskap, töldum vjer það víst, að þessi nýja verzlunar aðferð mundi verða góð og notadrjúg hvorumtveggjum, kaupmönnum og oss; því að vjer ímynduðum oss, að þó kaupmenn lánuðu ekki ótakmarkað, mundu þeir þó sveigja til og lána að minnsta kosti vissum og áreiðanlegum mönnum viku og hálfan mánuð, það er að skilja þangað til í kauptíð, og vjer töldum líka víst, að verð það sem þeir kölluðu dagsverð (Dagspris), mundi verða breytilegt, og batna töluvert um verzlunartímann, því vjer álítum það sjálfsagt, að kaupmenn ættu að geta gefið meira fyrir vora vöru og selt sína eigin með betra verði, þegar þeir fengju allt borgað, og lánið tækist af. En hvorttveggja þetta hefur brugðizt oss. Kaupmenn hafa ekkert — að minnsta kosti ekki svo vjer höfum heyrt — látið tilsveigjast með lán, ekki einu sinni til bráðabyrgðar, og dagsverðið er hjer svo fast, að það líkist

mest að því leyti gömlu töxtunum einokunu verzlunarinnar.

Vöruverðlagið hjá kaupmönnum hjer er nú, eptir sögn sjálfra þeirra, þannig:

*a.* Á íslenzkri vöru:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Hákarlslýsi | tunnan (án trjesins) á | 20 rd. | |
| þorskalýsi | — — | - 15 - | |
| Æðardún .... | pundið | - 3 - | 48 sk. |
| Hvít ull .... | — | - „ - | 24 - |
| Mislit og svört .. | — | - „ - | 20 - |
| Tólg ..... | — | - „ - | 18 - |
| Tvinnabands heilsokkar | parið á | . | 24—26 - |
| — hálfsokkar | — - | . | 14—16 - |
| — peisur, hver | .... | | 64 - |
| Vettlingar | parið á | .. | 12 - |
| Eingirnis heilsokkar | — - | .. | 20 - |
| — hálfsokkar | — - | ., | 12 - |

*b.* Á útlendri vöru:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Rúgur, .... | tunnan á | 8 rd. | |
| Grjón ..... | — | - 11 - | „ - |
| Mjöl ..... | — | - 8 - | „ - |
| Salt frá Liverpól . | — | - 3 - | „ - |
| Steinkol .... | — | - 2 - | 48 - |
| Kaffi og sykur, ... | pundið á | | 26—28 - |
| Brennivín .... | potturinn | - | 16—18 - |
| Róltóbak ..... | pundið | - | 64 - |
| Munntóbak ..... | — | - | 80 - |
| Járn í stöngum ... | — | - | 10—14 - |
| Gjarðajárn ..... | — | - | 10 - |

Ef að þetta vöruverð er nú ekki rjett hermt, þá bið jeg landsmenn að skýra mjer frá því, ef raunin skyldi verða önnur.

það er nú ekki kyn, þó að landsmönnum þyki súrt í brotið að búa við þessa verzlun, þar sem næstum helmings munur er á verðinu á sumum aðalvörunum frá því í fyrra, til að mynda hvítri ull, tóvinnu og lýsi, og hið nú boðna verð lægra en verið hefur nokkurt seinustu áranna. Landsmenn hafa því valið rjettu aðferðina; þeir hafa dregið að verzla, en keypt bráðustu þarfir sínar fyrir peninga í þeirri von að þetta svonefnda dagsverð breyttist með tímanum, og þeir hafa verzlað það sem þeir hafa getað við lausakaupmenn, sem hingað hafa komið, til þess að geta dregið að láta vöruna þangað til hún hækkaði í verði eða eitthvað yrði til slakað með útlendu vöruna. þetta hefur nú samt ekki komið enn að neinum notum, því faktorar hjer eru svo bundnir af húsbændum sínum erlendis, að þeim mun vera örðugt að sveigja nokkuð til, og má þó álíta þetta vöruverð sem nú er óþolandi fyrir landsmenn, því með þessum prísum geta ekki nema efnamenn fengið allar nauðsynjar til bús síns, en fátækir menn geta það ekki, og því síður í sumar og haust borgað helming allra kaupstaðaskulda sinna. Eptir því sem frjettirnar bárust frá útlöndum er kornvaran í mjög lágu verði, rúgur 4 rd. 56 sk. til $5\frac{1}{2}$ rd. og grjón á $7\frac{1}{2}$—8 rd., og þó miklar líkur til, að verðið lækki enn meir, því mikið hefur safnazt fyrir af því að verzlunin hefur stanzað, og þar að auki er líklegt, að verðið muni lækka enn meir, því alstaðar eru beztu frjettir um að uppskera í kornlöndunum muni verða afbragðsgóð í sumar. Af öllu þessu leiðir, að með vöruverði því sem nú er þröngva kaupmenn um of kosti vorum, og verða menn því að leita sjer ráðs, svo að þeir taki ekki af oss ofþungan skatt þetta árið.

Vjer gátum þess nú áður, að verzlun væri hjer lítil sem engin orðin, og getum vjer bætt því við, að það eru einkum fjelögin og forgöngumenn sveitanna, sem hafa aptrað mönnum frá þessari óhægu verzlun, og sum fjelögin eru búin að sjá sjer farborða á annan hátt en að verzla við kaupmenn hjer, og hafa fengið loforð um töluvert betri kaup, og er mikið í það varið, því ekkert getur orðið verzlun vorri hollara, en ef að landsmenn færu að hafa hug og dug til að flytja vörur sínar lengra burtu til að vera við þann eldinn sem bezt brennur; því ef það kæmist einu sinni á, mundu margir verða til að leika slíkt eptir, og yrði það til að vekja hina sönnu verzlunarkeppni, og bola kaupmenn frá einveldisskoðun þeirri, er þeir svo lengi hafa fylgt hjer á landi. Kaupmönnum vorum hjer norðanlands er án alls efa ekki vorkennandi að gefa jafnhátt verð fyrir íslenzku vöruna og gefið er annarstaðar hjer á landi, því hjer nyrðra mun þó vöruaflinn vera bæði mestur og beztur, einkum hvað landvöruna, ull, tólg og prjónles snertir. það er heldur ekki annað sennilegt, þegar íslenzku vörurnar hafa nú í nokkur ár gengið vel á útlendum kaupstefnum, en að verð þeirra haldi sjer nokkurn veginn, því ekki má taka neitt mark á því, þó að þær seldust ekki í vetur þegar ekkert seldist — en þær þó keyptar hjer fyrir hæsta verð, sem hjer hefur gefizt — því það hefur einungis komið af peninga-eklunni.

Hið hæfilega verð, sem kaupmenn hjer ættu að geta gefið fyrir íslenzku vöruna, þegar þeir halda sinni vöru í svo háu verði, finnst oss vera

32 sk. fyrir hvíta ull, 26 fyrir svarta og mislita, 22 sk. fyrir tólg, 36 sk. fyrir tvinnabandssokka, 1 rd. fyrir peisur og 25 rd. fyrir hákarlslýsið án trjes, því öll líkindi eru til þess, að vöruverðið hækki erlendis, og ætla má líka, að þeir hafi góðan hag á sinni vöru með því verði sem nú er á henni. það er því vonandi, að hinir svonefndu yfirfaktórar Höepfner og Johnsen sjái svo hag húsbænda sinna, að þeir slaki töluvert til heldur en að láta Norðlendinga hjer um svæði þurfa að fara að flytja mestu og beztu vörur sínar sjóleiðis til annara kaupstaða í öðrum landsfjórðungum.

Sumir faktorar vorir hjer nyrðra hafa látið það í ljósi, og nokkrir landsmenn hafa, ef til vill, lagt trúnað á það, að þegar vjer Íslendingar gjörðumst svo djarfir að halda vörunum, og malda í móinn gegn þessu vöruverði, er kaupmenn þannig setja með einræði sínu, þá mundu kaupmenn vorir erlendis reiðast svo, að þeir hættu að sjá landinu fyrir vörubyrgðum, og mundum vjer þá verða hungurmorða. Oss hefur nú aldrei getað skilizt sá lærdómur, að danskir kaupmenn hjeldi í oss lífinu, og ætlum því, að það sje eins þeirra hagur eins og vor að koma hingað til verzlunar, og vjer viljum engan veginn gjöra þeim þær gjörsakir, að þeir sjeu svo heimskir að baka sjálfum sjer mikið tjón til þess að gjöra oss um leið nokkurn baga. En ef að vjer verjum efnum vorum skynsamlega, ætlum vjer að sá halli yrði miklu meiri fyrir kaupmennina en oss, því engan veginn ætti það að valda neinum bjargarskorti hjer um norður og austursveitir, þó að nokkru minni yrðu aðflutningar af kornvöru eitt eða tvö ár, því landsmenn þurfa þá ekki annað en leggja meira skurðarfje í bú sitt í stað þess að reka sláturfje í kaupstaðinn. Oss furðar það mjög að þingeyingar norður um, og Múlasýslumenn skuli ekki hafa reynt til með biðinni að brjóta þenna þriggja manna samning (Trippelalliance) kaupmannanna, því þeir gátu þó margra hluta vegna verið einna færastir um að bjóða byrginn.

Vjer munum á sínum tíma skýra frá hvernig verzlunin gengur hjer á endanum í Eyjafirði, og hversu fjelögunum tekst að fá sjer betri kosti.

---

## Almennur prentsmiðjufundur.

Prentsmiðjufundur var haldinn 15. júlí 1858, og heiðruðu hann með nærveru sinni allir fundarmenn úr norður- og austur-amtinu, sem kosnir voru til þess að segja álit sitt í kláðamálinu. Í fjærveru forsetans sjera Sveinbjarnar Hallgrímssonar stýrði fundinum presturinn sjera Jón Thorlacíus í Saurbæ. Ritstjóri Sveinn Skúlason bar þá upp, hvernig menn skyldu finna ráð til þess að bæta efnahag prentsmiðjunnar, og urðu flestir fundarmenn á því, að bezt mundi verða, að prentsmiðjan gæfi bækur út á sinn kostnað einkum sögulegs efnis eður nokkurs konar tímarit, ýmislegs efnis, en fundarmenn gátu þó ekki bent á neinn, er takast vildi á hendur að semja tímarit þetta. Enn fremur var stungið upp á því, að útvega prentsmiðjunni faktor, en menn gátu heldur ekki í því efni bent á neinn, er takast vildi slíkt á hendur. Aptur varð það álit sumra fundarmanna að reyna til að útvega prentsmiðjunni fje með samskotum, því allir vildu að prentsmiðjan gæti haldizt við líði. Amtmaður Havstein stakk upp, á, að fundarmenn veldu nefnd manna til að velja einhverja nýtilega bók handa prentsmiðjunni til þess að gefa út á sinn kostnað, og skyldu svo fundarmenn vera prentsmiðjunni hjálpsamlegir með að selja hana. Stakk þá sjera Jón Thorlacíus upp á ritstjóra Sv. Skúlasyni og lækni Jóni Finsen, er fundarmenn allir höfðu ekkert á móti, heldur lofuðu að styrkja það fyrirtæki og hjálpa til að selja bókina hver í sínu umdæmi með alúð og áhuga. Síðan var gengið til atkvæða um þessi tvö áður nefndu atriði, og voru þau samþykkt af öllum, en í nefndina voru líka kosnir auk tveggja hinna áður nefndu, prófastur sjera D. Halldórsson í Glæsibæ og presturinn sjera Jón Thorlacíus í Saurbæ. Sumir fundarmenn lofuðu þó að styrkja sölu bókar þeirrar, er valin yrði, einungis með því skilyrði, að hún fyrst yrði sjer send, áður heldur en farið væri að selja hana í þeim hjeruðum sem þeir eru í. Flestir fundarmenn æsktu þess, að bækur þær, sem þeim yrðu sendar, væru innbundnar. Í prentsmiðjunefndina voru eptirleiðis kosnir 7 menn, og var það viðtekið á fundinum að hver sýsla fyrir sig kysi í þetta sinn einn, en þær allar í sameiningu hinn sjöunda. Fyrir Húnavatnssýslu var kosinn ritstjóri Sv. Skúlason, Skagafjarðar sjera Jón Thorlacíus, Eyjafjarðar læknir Jón Finsen, þingeyjarsýslu gullsmiður E. Ásmundsson á þverá, Norðurmúlasýslu bókbindari G. Laxdal, Suðurmúlasýslu gullsmiður Indriði þorsteinsson, og af öllum fundarmönnum verzlunarstjóri Páll Johnsen, Fleira kom ekki til umræðu, og var svo fundi slitið.

Jón Thorlacíus.

Á fundi, er prentsmiðjunefndin hjelt með sjer 16. þ. m. var kosinn til forseta nefndarinnar Jón læknir Finsen, og til fjehirðis Páll verzlunarfulltrúi Johnsen, og til að hafa daglega umsjón í prentsmiðjunni bókbindari Grímur Laxdal. Það var og viðtekið, að Sveinn ritstjóri Skúlason gegndi forsetastörfum þegar forseti væri ekki við látinn, og Indriði gullsmiður Þorsteinsson hefði hina daglegu umsjón, þegar Grímur Laxdal væri ekki við. Eptir brjeflegri beiðni Stefáns Baldvinssonar, að bæta við laun sonar síns Baldvins 10rd. um árið, var það samþykkt af nefndinni; og verða þeir goldnir honum með launum hins síðasta mánaðar ársins.

Prentsmiðjunefndin.

---

## Amtsfundurinn.

Það var nýtt fyrir oss Norðlendinga að halda fjölmennan fund hjer norðanlands, og vjer ætlum að mjög langt sje síðan að annað eins mannval hjer á Norðurlandi hefur komið saman á einn stað, og er því ekki meira en skylt, þó að Norðri fari um þenna fund fáeinum orðum. Til fundar þessa voru, eins og áður er getið í blaði voru, kosnir menn af öllum sýslnabúum á manntalsþingum næstliðið vor, og ætlum vjer að kosningar þessar hafi tekizt vel yfir höfuð að tala. Fimm menn voru kosnir úr hverri sýslu í Norður og Austurumdæminu, og skyldu allir þessir 5 úr Húnavatnssýslu sjálfkjörnir í matsnefndina, og einn úr hverri af hinum 5 sýslunum. Líka hafði amtmaður boðið nokkrum mönnum á fundinn, er áhuga höfðu á þessu mikilsvarðandi málefni, til skrafs og ráðagjörðar, en engan þátt tóku þeir í fundarstörfum nema lítið eitt í umræðum.

Vjer urðum nú sannspáir að því, að fundur þessi mundi einhuga hallast að þeirri stefnu, er áður hafði verið fylgt hjer á Norðurlandi í kláðamálinu, og kom engin uppástunga fram, og enginn fundarmanna ljet sjer í hug detta að fara fram á, að reyna skyldi lækningarnar, því allir voru samhuga og sammála á því, að þeim yrði hjer ekki komið við til neinnar hlítar. Fundurinn samdi því bænarskrá til konungs, og beiddist þess, að hinni sömu stefnu yrði framvegis framfylgt hjer í amtinu, og frumvarp til reglugjörðar sem fundurinn samdi yrði gjört að lögum til bráðabyrgðar, og að hún fyrirskipaði þær ráðstafanir í hinum ömtunum, er væru nægilega tryggjandi til þess, að þessu amti væri ekki hætta búin úr þeirri átt.

Það var nú reyndar varla við því að búast, þegar tíminn var svo stuttur, að fundur þessi yrði mjög þinglegur, en þó verðum vjer að játa, að umræðurnar fóru mjög skipulega fram, og að hið margbrotna og vandasama skaðabótamat fór fljótt og vel fram, því engin sýtingsemi kom fram frá hvorugra hálfu. Mest var starfið í nefndunum, og unnu þær stöðugt mestan þann hluta dags sem ekki gekk til fundanna. Mjög bráðlega verða gefin út tíðindi hjer frá prentsmiðjunni, sem hafa inni að halda nákvæma skýrslu um allt er gjörðist á fundinum, frumvarpið um klaðamálið, bænarskrána til konungs og brjef fundarins til amtmanns um álit fundarins um einstök atriði, og matsnefndarálitið; og fá menn þar að sjá skipulega frásögn um allt er gjörðist á fundinum.

---

## Hið íslenzka bókmenntafjelag.

Frá hinu íslenzka bókmenntafjelagi hafa þessar bækur komið út á prent í vor:

1. Skírnir. Herra Arnljótur Ólafsson hefur enn skrifað frjettirnar í hann, og er það vel og skipulega gjört, og málið ágætt. Vjer ætlum óhætt að fullyrða, að Skírnir hafi aldrei fyr verið eins vel ritaður eins og síðan Arnljótur tók að gjöra það. Yfirlitið um viðburði sögunnar er gagnort, og allt það valið til frásagnar, er mest er í varið.

9. Byskupssögur 3. hepti. Með þessu hepti er nú lokið fyrsta bindi, og þar með hinum fornu sögum um byskupa vora. Eru hjer á seinasta heptinu einnig prentaðar nokkrar aðrar sögur, sem ekki eru um byskupa heldur um einstaka menn, er mjög hafa verið þeim handgengnir, sem eru sögur Rafns Sveinbjarnarsonar, er fylgði Guðmundi byskupi Arasyni til vígslu, og Aroni Hjörleifssyni, og eru það góðar sögur, og hafa aldrei fyr verið prentaðar. Þessu hepti fylgir og registur yfir mannanöfn og staðanöfn, og formáli, og er þannig þessi sagnaflokkur vor í fyrsta sinni kominn á prent vel úr garði gjörður. Guðbrandur Vigfússon hefur starfað mest að útgáfu þessari.

3. Skýrslur um landshagi. Þetta hepti er stærra en hin fyrirfarandi, og lýkst með því fyrsta bindi af þeim. Þar í er merkileg ritgjörð um mannanöfn á Íslandi, og þó einkum önnur um jarðamatið hið nýja, því þar er sýnt allt hið leiðrjetta jarðamat, eins og það fór frá alþingi

seinast og reiknað út hundraðatal eptir þeim mælikvarða sem alþingi stakk upp á.

4. Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands.

Vjer vonum nú, fyrst að hinar eldri byskupasögur eru út komnar, að fjelagið láti fornbrjefasafnið vera í fyrirrúmi, því bæði er það einkar áríðandi að fá það sem fyrst prentað, og líka mun flesta fjelagsmenn langa mjög til, að flýtt verði fyrir því.

---

## Gripdeildir útlendra fiskimanna

Ekki líður svo neitt árið nú á seinni tímum, að hinir útlendu fiskimenn gjöri landsmönnum ekki einhverjar óspektir, og hefur stjórninni ekki enn tekizt að ráða neina bót á umkvörtunum landsmanna í þessu efni, þó að mikil þörf virðist vera á því, því það er hart fyrir landsmenn sem eru vopnlausir og varnarlausir að sæta þvílíkum yfirgangi, og brýn skylda stjórnarinnar að verja oss fyrir slíku. það hafa nú í ár verið Frakkar sem rænt hafa svo mest hefur að kveðið, en til allrar hamingu hafa þeir þó sjálfir orðið nokkuð tannsárir af þeim viðskiptum. Eitt af skipum þeirra kom inn á Borgarfjörð eystra, og fóru úr því 6 menn á báti í varpsker, er þar til liggur, og tóku að ræna þar dún og eggjum. Tveir af landsmönnum, sem sáu til ferða þeirra, fóru út í skerið, og hafði annar járnkarl í hendi. þegar þeir komu í skerið hafði einn hinna frönsku tekið æður og stúngið í barm sinn, og tók landsmaður hana af honum. Sló þá í bardaga með þeim. þorði Íslendingurinn lítt að neyta járnkarlsins, því hann var hræddur um að hann mundi drepa þá, enda var járnkarlinn varla vopnfær sökum þyngsla. þau urðu orustulok, aðFrakkar flýðu 6 fyrir hinum tveimur, en fengu haldið mestöllu ráninu sökum liðsmunar; Íslendingar voru dasaðir mjög og allmikið barðir. þegar þeir komu í land, var brugðið við skjótt, og sent til Seiðisfjarðar eptir hinum nýkomna franska presti, er Baldvin heitir, og kom hann þegar og rjeri til duggunnar. Höfðu þá duggarar negit segldúk yfir skipsnafnið svo það sæist ekki, en prestur reif það frá, og var svo að sjá sem hann hefði í öllum höndum við þá. Síðan var sent til franska herskipsins sem lá á Norðfirði, og beiðst bóta fyrir rán og barsmíði, Kröfðust hlutaðeigendur 400 rda. bóta fyrir skemmd á varpinu, og hver þeirra tveggja, sem fyrir högg-um og barsmíði höfðu orðið af duggurum 100rd. þessa 600rd. hjeldu menn að foringi herskipsins mundi borga, en hann kvaðst mundi finna dugguna síðar. þessa sögu og málalok höfum vjer fengið eptir hákarlamönnum hjeðan, er um það leyti lágu á Seyðisfirði. Sje nokkuð verulegt mishermt í henni mun það síðar leiðrjett.

það hefur mjög sjaldan borið við, að duggarar hafi komið hjer inn á Eyjafjörð, og ef þeir koma, fara þeir sjaldan lengra en til Hríseyjar. þar hafa líka í þessum mánuði komið nokkur skip og átti eitt þeirra nokkur kaup við Sæmund bónda Eiríksson í Hrísey, fengu hjá honum veturgamla kind og ljetu í mót salt, en þegar í land kom, vildu þeir hafa aptur tunnurnar sem saltið var í, en sem þó áttu að fylgja með í kaupgjörð þeirra. Sæmundar hjelt þó sínum hlut. En þegar þeir sigldu út, fóru þeir austan um eyna þar sem ekki má sjá frá bænum, og skutu þar báti í land og stálu 2 hrútum frá bónda. Engi rjetting mun enn hafa fengizt á þessu. En líklegt er, að Sæmundur hafi gætt að skipsnafni, hvort sem það kemur fyrir nokkuð.

---

## Ferðamenn.

þessa dagana hafa þeir verið hjer á ferð, háskólakennari doktor Konrað Maurer frá München í Bæjaralandi og doktor Winkler. Hingað til Íslands hefur vafalaust aldrei komið neinn maður, nema ef til vill Rask, er jafnvel hefur verið að sjer í íslenzkum fræðum; enda er hann svo fróður og minnugur um forna sögu vora og lagasetningu, að vjer ætlum, að mjög fáir af vorum eigin fræðimönnum standi honum þar jafnfætis. Hann hefur langan tíma æfi sinnar stundað íslenzka fornfræði, og hefur ritað um þingsköp vor hin fornu; krisniboðssögu hjer á Norðurlöndum, mjög stórt rit og ágætt og hið bezta um það efni, sem nokkurn tíma hefur verið ritað. Nú í ár hefur hann gefið út eina af fornsögum vorum, sem ekki hefur verið fyr prentuð, og er það Gullþóris saga, og er það afbragðsvel gjört af útlendum manni. Hann hefur og eins og mörgum er kunnugt skrifað fallega ritgjörð í Fjelagsritin nýju um bók Jóns Sigurðssonar um landsrjettindi Íslands. Vjer efumst ekki um, að allir góðir menn hjer á landi sýni þessum virðuglega manni alla alúð og gestrisni, sem hann á svo mjög skilið af oss, því að hann elskar land vort og þjóð, og

þess konar menn sem hann eru góðir talsmenn rjettinda vorra fyrir hinum menntaða heimi. Konráð Maurer talar íslenzku, og vill helzt láta tala hana við sig, og er það öll furða hvað hann talar vel, og merkilegt að hann talar málið svo víða fallegar en sjálfir við, af því að hann hefur lært það af fornsögunum. Hann ætlar hjeðan vestur í Skagafjörð, Húnavatnssýslu og svo allt til Ísafjarðar, þaðan suður til Reykjavíkur, og sigla þaðan 12. október í haust.

Með amtsfundarmönnum kom hingað norður Bernharður prestur franski, og fór með þeim aptur austur. Hann er háttprúður maður og laglegur í allri framgöngu. Erindi hans hingað var að finna amtmann, og vita hvert hann fengi leyfi til að byggja sjúkrahús og kappellu eystra, en hann fjekk enga úrlausn þess máls, því það mun vera sent stjórninni. Hann er farinn að tala íslenzku allskiljanlega, og ekki neitar hann því, að sjer þætti enginn skaði skeður, þó að Íslendingar snerust aptur til páfatrúar, en þó mun hann enn ekki gjöra sjer neitt far um að prjedika trú sína að svo komnu.

---

(Aðsent).

Það er alkunnugt, hvernig hið skæða bráðafár gjörir mönnum víða hjer á landi stórkostlegt fjártjón á hverju ári, og að engi ráð hafa enn fundizt, er gætu ráðið bót á þessu vandkvæði til nokkurrar hlítar. Mjer hefur því dottið í hug að skýra mönnum frá reynslu minni í þessu máli, ef að svo heppilega kynni til að takast, að einhverjum, sem vildi reyna það sem mjer hefur helzt hjálpað til að frelsa sauðfjenað minn, gæti orðið reynsla mín að liði. Bráðafárið hefur komið í fjenað minn nú í samfleytt 7 ár, og drepið hvert ár meira og minna, samtals hundrað fjár, mest sauði. Jeg hefi reynt allt sem jeg hefi heyrt og sjeð skrifað og ráðlagt gegn þessum sjúkdómi, en ekkert orðið að liði, þangað til að mjer í fyrra vetur, er jeg hafði misst 6 sauði alla á þriðja vetur, datt í hug að reyna við þann sjöunda, er veikina hafði fengið, og því var heim fluttur, að gefa honum eina mörk af órokinni kúamjólk, og næsta dag aðra mörk; og við þetta batnaði honum. Jeg hafði tekið eptir því, að bráðapestin tók jafnan hjá mjer fyrir, einn fjárflokk í senn af sama aldri og sömu tegund, og ljet jeg því daginn eptir reka heim alla sauðina á sama aldri, og gaf þeim öllum hinn sama mjólkurskamt, ljet þá standa inni um daginn, og gaf þeim litla gjöf af töðu, og missti jeg engan af þeim eptir það, og var þó eptir þann dag hirðingin hin sama og áður hafði verið. Í fyrra vor gat jeg þessarar aðferðar minnar við Erlend bónda á Gilsá, en næstliðinn vetur tók bráðapestin að geysa hjá honum, og drap á einum degi rjett fyrir jólin þrjár veturgamlar kindur fyrir honum. Þá ljet hann reka heim allar kindur, er hann átti á þeim aldri, og brúka hina sömu aðferð, en mjólkin á búinu hrökk ekki, svo að þrjár urðu afgangs, og var ein þeirra dauð að morgni. Þá ljet hann gefa hinum tveimur, og upp frá því missti hann enga. Þessi sama aðferð hefur mjer og sjálfum gefizt vel í vetur, þó að jeg hafi ekki getað reynt hana til hlítar sökum þess, að jeg hefi lítið kúabú, því jörðin leyfir það ekki. Jeg finn það skyldu mína að lýsa þessu yfir, og vil jeg um leið biðja þá, sem gætu reynt þessa aðferð til hlítar, að auglýsa á sínum tíma í Norðra árangur hennar.

Eyjum í Breiðdal í júní 1858.

S. Jónsson.

---

(Eptir Þjóðólfi). Útskrifaðir frá hinum lærða skóla í Reykjavík í júlí 1858.

Þorvaldur Björnsson (bónda (†) Sigurðssonar á Belgsholti), með fyrstu aðaleinkunn, (91 „tröppu“).

Theodór Sveinbjörnsson (sonur konferenzráðs (†) Þórðar Sveinbjörnssonar), með fyrstu aðaleinkunn 91 tr.).

Eggert Theodor Jónassen (sonur háyfirdómara Þórðar Jónassonar), með fyrstu aðaleink. (88 tr.).

Fritz Wilhelm Zeuthen (sonur konungl. þjónustusveins (†) Franz Zeuthen í Reykjavík), með fyrstu aðaleink. (84 tr.).

Oddur Vigfús Gíslason (snikkara Jónssonar í Reykjavík) með annari aðaleink. (78 tr.).

Stefán Einarsson (umboðsmanns Stefánssonar á Reynistað) með 2. aðaleink. (76 tr.).

Brandur Tómásson (bónda Jónssonar á Þórustöðum í Strandasýslu) með 2. aðaleink. (72 tr.).

Þorvaldur Ásgeirsson (Finnbogasonar á Lambastöðum á Seltjarnarnesi) með 2. aðaleink. (55 tr.).

Páll Pálsson (kjörsonur Páls prófasts Pálssonar á Hörgsdal á Síðu — lærði utan skóla —), með fyrstu aðaleink. (84 tr.).

---

# Frjettir.

**Innlendar:** Síðan að batna tóku vorharðindin var tíðarfarið lengi hjer hið æskilegasta, svo að grasvöxtur á túnum var hjer norðanlands víðast hvar orðinn í góðu meðallagi um sláttarbyrjun. En þurrkar hafa enn ekki verið góðir á töðum manna, því nú í seinni hluta júlímánaðar hafa suma daga verið miklar rigningar með kulda og snjó ofan í mið fjöll.

Hákarla-aflinn hefur hjer orðið góður að öllu samtöldu, en misjafnt hefur hann gefizt eins og að undan förnu. Fiskiafli hefur verið nokkur hjer út á Eyjafirði, en þó með minna móti, en hjer inni einlægt mjög lítið um afla. Hvalreka höfum vjer enga frjett þó að vorið væri svo ísa-mikið nema ef telja skyldi tvítugan hval sem rak á Langaness-ströndum.

---

(Aðsent).

## Mannskaði.

Laugardaginn fyrstan í sumri í vor eð var fóru 2 bændur í Borgarfirði austur með 2 vinnumenn sína á einu skipi í hákarlalegu. Bændurnir hjetu Halldór Benidiktsson á Hofströnd og Guðmundur Olafsson í Höfn, en vinnumennirnir Stefán og Björn. Veður var lygnt og blítt á landi, en lítil suðaustangola út á sjónum, hafísinn úti fyrir og á stangli innum fjörðinn. Þegar degi hallaði, höfðu bændurnir hlaðið skipið af hákarli og 6 utanborðs. Þá drápu þeir seinast 2 brettinga og vildu draga upp í skipið. Stefán mælti móti og kvað nóg hlaðið, en bændurnir rjeðu. Var þá skipið varla fært nema í blíðu. En skammt var til lands og innfall. Þegar þeir vildu draga stjórann, var krakinn leirufastur. Strengdu þeir um stund á hnífi. Stefán vildi að stjórinn væri skilinn eptir og bundið á mastur, því strax mundi verða farið aptur, en formaður vildi ekki, færði heldur stjórann aptur að bita, og tóku að draga. Höfðu þeir bændur aldrei gjört slíkt fyrr á hlöðnu skipi. Þegar stjórinn kom á mitt borð, sneri vindurinn skipinu og fallið lagðist á, borðið drógst niður og alda fór inn, svo hálffyllti. Þá var sleppt stjóranum í hasti svo skipið rjetti, en meira heldur en skyldi og fjell sjór inn af hinu borði, svo óðum sökk og fyllti. Þá skáru skipverjar frá sjer hákarlana og veltu hinum smáu út, stigu síðan lítið eitt í annað borð eins og til að hleypa sjó út úr skipinu. Þá tók skipinu að hvolfa. Skipverjar klifruðu fyrst upp á hið efra borðið síðan til kjalar og hina blið upp í skipið aptur, því það veltist undir. Fór enginn þeirra á kaf og enginn missti af skipinu, nema Björn vinnumaður og tók þó ekki kaf. Var hann dreginn inn á ár, og þá mjög yfirkominn, því maðurinn var lúinn og heilsulítill, hneig hann niður í austurinn. Litlu seinna settist Guðmundur bóndi á bita og leið yfir hann; höfðu þvílík aðsvif fyrr viljað koma að honum. Nú tóku þeir Halldór og Stefán árar, og rjeru standandi fullu skipinu, höfðu árar í olbogabótum, og varð brátt skriður af róðrinum undan vindi og falli. Þá tóku þeir að kalla sjer til hjálpar. Skip sat norður á sjó, og voru hlaðnir af hákarli, hjeldu skipverjar að hinir væri að kveða. Þegar þeir Halldór og Stefán lúðust af róðrinum, settust þeir í stafna, börðu sjer og kölluðu. Þá sneri golan skipinu og hvolfdi, því mennirnir sátu of hátt, drógust þeir þá á kjöl, og var Halldór að mestu þrotinn. Þegar hinir sáu mennina í stöfnum, töldu þeir víst, að þeim hefði borizt á, skáru frá sjer 10 hákarla og rjeru til hjálpar. Var Halldór með litlu lífi þegar þeir náðust og andaðist skömmu seinna, en Stefán nærri heyrnarlaus og sjónlaus, gat þó róið sjer til hita í land.

Alls höfðu þeir verið meira en 2 stundir í háskanum. — Það má fullyrða, að ískuldinn í sjónum hafi einkum flýtt dauða þessara manna, því enginn þeirra drakk sjó sjer til bana.

Það var mikil eptirsjá að þessum bændum, sem hjer fórust, öllum vandamönnum þeirra og vinum og sveitinni. — Þeir höfðu verið fágætir vinir frá barnæsku og samtaka í öllu góðu. Stilltir voru þeir og háttprúðir og vinfastir, beztu húsfeður og mestu reglumenn; vini völdu þeir eptir sjer, og voru vandir í valinu. Þeir voru framsýnir búmenn og drjúgir í öllum framkvæmdum. Hvert verk sem mátti unnu þeir á sínum tíma og geymdu ekki næsta degi. Jafnan lofuðu þeir litlu, en efndu meira. Heimili þeirra voru orðlögð fyrir siðprýði og reglusemi eins og sjálfir þeir. Það mundi engum kunnugum hafa dottið í hug, að þeir mundi farast á sjó fyrir nokkur misgrip, því þeir voru taldir einir beztu sjómenn og manna varasamastir — en reynzlan virtist sýna, að á síðustu æfistundinni hefði það flest verið blindað fyrir þeim, er til bjargar horfði.

Skrifað 10. júlí 1858.

S. G.

---

# Auglýsingar.

## Fasteignaruppboð.

Kunnugt gjörist: að Laugardaginn þann 25. dag septembermánaðar næstkomandi um hádegi framfer á skrifstofu Þingeyjarsýslu á Húsavík, að fyrimælum hins fjarlæga eiganda, opinbert uppboð á jörðunni Hallbjarnarstöðum á Tjörnesi, að fornu matin sextán enn nú tuttugu og fimm hundruð til dýrleika, og verður hún þá seld þeim sem mest býður, ef sæmilegt þykir, með þeim skilmála, að helmingur jarðarverðsins — að minnsta kosti — greiðist á þessu hausti, en helmingur megi standa sem skuld móti 4 pC árlegri rentu og fyrsta veð-

rjetti í allri jörðunni. Hinir aðrir skilmálar fyrir sölunni verða ýtarlegar birtir á uppboðsþinginu.

Skrifstofu þingeyjarsýslu, 17. dag júlímánaðar 1858.

S. Schulesen.

**Uppboðsauglýsing.**

Kunnugt gjörist, að miðvikudaginn 1. september næstk. verður haldið opinbert uppboð á Akureyri, **a.** kl. 12 í húsi jarðyrkjumanns Jens Stæhr til að selja tjeð hús, 3 hesta, plóg, herfi, vagn og ýmisleg hús- og búsgögn. **b.** kl. 4 á Stóra Eyrarlandi til að selja borð, stóla, sofa, kommóðu, spegla, kistur og ýmislegt fleira, og loksins hús Lárusar Hallgrímssonar á Oddeyri.

Skrifstofu Eyjafjarðarsýslu 27. júlí 1858.

E. Briem.

Týndir peningar

Á almennings veginum frá Krossastöðum á þelamörk og að Krossanesi í Kræklingahlíð eru týndir 20 rd., sem voru í röndóttum peningalangsekk með hringum á. Ráðvandir menn, er kynnu að finna þessa peninga, eru beðnir að skila þeim á skrifstofu Norðra gegn ríflegum fundarlaunum.

Presturinn sjera þorsteinn Pálsson á Hálsi hefur með sínum dýrmætu læknisdómum hjálpað dóttur minni, sem var þjáð af hættulegum og langvinnum veikleika, til heilsunnar aptur; einnig hefur hann af sínum mikla mannkærleika rjett mínum nákomnu líknarhönd á sárt að þrengjandi neyðartíma.

þernumýri 18. dag maím. 2858.

Jósef Jósafatsson.

Nýútkomnar eru, prentaðar í Kaupmannahöfn, Hugvekjur til kvöldlestra frá veturnóttum til langaföstu eptir doktor og prófessor Pjetur Pjetursson; útgefandi Egill Jónsson í Reykjavík. Bókin er prentuð með stóru, skíru og fallegu latínuletri, á rjett góðan en ekki vel sterkan pappír, og vel frá henni gengið. Hún er 27 arkir, og fæst til kaups fyrir gott verð, í materíu 1 rd. og, í gylltu alskinni 9 mörk hjá Jóhannesi guðfræðingi Halldórssyni á Akureyri.

Alla þá, sem enn eiga óteknar hjá mjer bókmenntafjelagsbækur, bið jeg að vitja þeirra hið fyrsta, greiða tillag og afhenda mjer ávísunarbrjef þau, er þeir hafa fengið frá fjelaginu, svo jeg geti gjört fjelaginu full skil með haustskipum eins og það beiðist og því er mjög áríðandi.

Akureyri, 30. júlí 1858.

S. Skúlason.

Hryssa ljósjörp, hjer um bil átta vetra, ómörkuð og illgeng kom til hrossa minna í vor, og má eigandinn vitja hennar til mín gegn sanngjarnri þóknun fyrir hirðingu og þessa auglýsingu.

Hörgsdal við Mývötn í júní 1858.

Jón Magnússon.

Litlu eptir sumarmál hvarf mjer úr hagagöngu í Kræklingahlíð bleikskjótt hryssa, að mestu hvít á lend og fax, en bleik á síðum, smá vexti, en vökur og viljug, mörkuð á báðum eyrum, en jeg man ekki hvernig; líka var fljettuð blá ull í faxið. Bið jeg því vinsamlegast alla þá, sem hitta kynnu tjeða hryssu að halda henni til skila til mín, fyrir sanngjarna borgun.

Hallgilsstöðum, í Fnjóskadal.

Guðjón Steinsson.

Nýupptekin fjármörk í Skútustaðahrepp:

Stýft, sagnbitað hægra. sneitt framan vinstra.

Guðni Jónsson Kálfaströnd.

Sýlt, biti aptan hægra, sneiðrifað aptan vinstra.

Sigurður Jónsson Kálfaströnd.

Hvatt hægra, heilrifað vinstra.

Jón Jónsson Hörgsdal.

Vaglskorið aptan hægra, sneitt framan, biti aptan vinstra.

Anton Kristjánsson á Arnarvatni.

Fjármark mitt er:

Tvírifað í heilt hægra, tvírifað í heilt vinstra.

Bessi Eiríksson í Skógum í Hálshrepp.

---



---

Pílagrímarnir.

Tveir pílagrímar gengu suður til Rómaborgar. þegar þeim leiddist vegalengdin, fóru þeir að spyrja, hvað langt væri til þessarar heilögu borgar. þeim var sagt það væri 30 mílur eptir. Jæja! sögðu þeir, það tekur þá einhvern tíma enda; þetta eru ekki nema 15 mílur handa hverjum okkar.

---

Eðalmaður nokkur gjörði boð eptir gyðingi til að selja honum nokkra gamla muni. þegar verzlunin var búin, sagði hann við gyðinginn: hefirðu heyrt það, að þegar gyðingur er hengdur í Englandi, þá er vant að spyrða asna móti honum. Nú! sagði gyðingurinn, en sjo svo, þá er vel að við erum þar ekki báðir.

---


Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár. | 15. September. | 20.—21.

## Kosningarþingin í september.

Nú er þá senn komið að þeim tíma, að alþingiskosningarnar eiga fram að fara fyrir hin 3 næstu alþingi, og finnum vjer oss því skylt enn á ný að leiða athuga manna að þessu efni, og að skora á alla presta og hreppstjóra að vekja og leiða áhuga kjósendanna, bæði til að koma sem fjölmennastir á kjörþingið, og hafa áður á kirkjustefnum og öðrum mannfundum komið sjer saman um að kjósa einhvern góðan mann á þing, sem bæði hafi einurð, vit og vilja til að flytja fram þjóðmál vor kappsamlega og óttalaust. Oss virðist það fyrsta skylda kjósendanna í sýslunum, að koma sjer saman sem best um hvern þeir eigi og vilji kjósa fyrirfram, svo að kosningarnar verði sem eindregnastar; hin önnur, að þegar um fleiri er að velja, að kjósendurnir þá ætíð velji þá mennina, sem þeir vita að eru frjálsastir, og sem engin bönd eða skyldur geta dregið frá að fylgja fram rjettindum þeirra. Þetta verður að vera mönnum hugfast. Vjer höfum enn litlu við að bæta um kosningarnar í hinum einstöku sýslum. Vjer getum ekki, síðan að vjer heyrðum Ólaf dannebrogsmann Jónsson á Sveinsstöðum tala á amtsfundinum, annað ætlað en að vjer höfum — þó að fjelagi vor syðra ætlaði það mundi örðugt — hitt þar á feitasta mörsauðinn, og vonum vjer, að þeir Húnvetningar, sem voru hjer á fundi, og heyrðu, með hvílíkri greind og snilld hann flutti fram mál sitt, og hversu góðar og velhugsaðar röksemdir hans bar fram fyrir því, er hann áleit rjett, gjöri hvað í þeirra valdi stendur til að ná í hann fyrir þingmann; og mega þeir eigi láta það fæla sig þó að hann fyr meir hafi skorast undan alþingiskosningu, því vera má, að hann hafi þá ekki verið orðinn jafnfær til þingstarfa, enda eiga kjósendur að hugsa mest um að fá bezta þingmanninn; og þá finnst oss, að það sje mikill ábyrgðarhluti fyrir þann sem fyrir kosningu verður að neita kosningu nema með því gildari ástæðum. Og vjer þykjumst einnig sannfærðir um, að Ólafur Jónsson vilji ekki verða orsök til þess, að Húnavatns-sýsla verði enn þingmannslaus.

Í Skagafjarðarsýslu höfum vjer nokkurn veginn nýlega fengið vissu fyrir því, að cand. philos. Gísli Gíslason Brynjúlfsen í Kaupmannahöfn hefur gjört þar kost á sjer til þingmanns. Vjer, sem í mörg ár höfum þekkt þenna mann, getum borið það, að hann er afbragðs Íslendingur, þjóðlyndur og frjálslyndur, gáfaður og fjölfróður mjög, og svo ráðvandur og samvizkusamur maður, að vjer erum þess fulltrúa, að hann muni gjöra sjer allt far um að búa sig svo vel undir alþingisstörfin, að hann geti unnið þar eins mikið og meira gagn en sumir þeir, er reyndari kynnu að virðast. Ef að hann því hefur fylgi þeirra sýslumannanna Lárusar frænda síns Torarensens og Kristjáns kammeráðs þykir oss líklegt að Skagfirðingar muni kjósa hann.

Í Eyjafjarðar og Suðurþingeyjarsýslu þykir oss líklegt að sömu þingmenn verði aptur kosnir, fyrst að kostur er á sjera Jóni Kristjánssyni. Ýmsir góðir menn í Norðurþingeyjarssýslu hafa mælzt til, að ritstjóri þessa blaðs tæki þar við kosningu, og hefur hann gefið kost á því.

Þegar að kosningar eru farnar fram, vildum vjer biðja kjörstjórana með fyrstu ferðum að láta oss vita, hverjir fyrir kosningum hafa orðið, hverjir aðrir hafi fengið flest atkvæði, og hve vel kjörþingin hafa verið sótt.

---

## Brjef til Kaupmannahafnar.

Jeg hefi nú lengi svikizt um að skrifa brjef til yðar kunningjanna erlendis, og ætla nú að bæta dálítið úr því, með að skrifa þjer, vinur minn! dálítið um ferðalagið mitt í sumar. Þá

veizt, að almennt er álitið, að hjer á landi sje lítið um skemmtanir, og að vjer lifum hjer glaðværðarlitlu lífi í samanburði við aðrar þjóðir. Það er nú hverju orði sannara, að oss vantar flest það, er útlendar þjóðir hafa sjer til dægrastyttingar; sjónarleikahúsin, þar sem ljelegir leikarar spilla og vanhelga einatt fegurstu skáldhugsanir með klaufalegum framburði og látbragði, þar sem að danskonan sýnir hinn frábæra lipurleik sinn með því að standa á annari stóru tánni, snúa sjer í hring en lypta hinum fætinum svo hátt upp, að allir áhorfendur sjá svo langt sem byggt er; reiðmanna húsin, þar sem reiðkonur málaðar í andliti, og reiðmenn rauðir af drykk, með úttroðna kálfa, standa og dansa á hestbaki á harðri ferð, stökkva í gegnum tunnusviga, eða leika að hnöttum og handsöxum. Þetta og margt annað vantar oss, en þó lifum vjer ánægðir við smávegis baðstofuhjal, og finnum ekki til hinna svonefndu leiðinda á lífinu, er opt þjáir útlendar borgaþjóðir, sem sólgnar eru í skemmtanir. Hjerna á voru landi, þar sem skemmtanir eru ekki orðnar svo almennar, þykir stúlkunni meira gaman að ríða góðum hesti til annarar kirkju en fríðustu dansmeyju að koma á dansleikinn þar sem ótal biðlar bíða hennar. Ofttíður vani gjörir hverja skemmtun leiðinlega, og engin skemmtun er betri og hollari en sú, sem maður hefur sjaldan og nýtur í hófi.

Þú mátt nú samt ekki halda að jeg meti alla prýði menntunarinnar að vettugi, að jeg gleymi hinum fagra og samstillta söng og hljóðfæraslætti, eða jeg meti eigi að verðungu blíðu náttúrunnar og skraut skóganna. Það eru líka svo mörg hægindi sem menntunin veitir þjóðunum, þar sem að brjefið mitt berst út á landsenda á minna en viku, þar sem jeg get flogið landshorna á milli á tveimur sólarhringum í gufuvögnum eða gufuskipum, og verið kominn heim aptur á vissum klukkutíma. Þetta er þægilegt, og opt næsta gagnlegt; en betra og skemmtilegra þykir mjer þó að ríða dal og fjöll á góðum hestum; því þá er jeg verulega frjáls á ferðalaginu. Jeg stend við þar sem fegurst er um að litast, og ræð sjálfur viðstöðunni, en hvet aptur sporið þess á milli. Hesturinn leikur við tauminn, tyggur mjelin, og þýtur af stað eins og elding, þegar jeg hleypi honum. Fjörugur hestur heldur líka blóðinu sífellt í hreifingu; allir kraptar líkama og sálar eru vakandi og fjörugir, og veit jeg því fátt betra en að ríða með góðum vinum í fallegri sveit á lífgóðum hestum. Reiðhestarnir vorir íslenzku eru líka afbragð, þolnir og þíðir, fjörugir en þó taumliprir og viðráðanlegir, fótfastir, og það svo, að góður hestur dettur varla, nema það sje manninum að kenna. Svona eru nú hestarnir, sem vjer höfum til ferðalaganna, og þá er nú landið ekki miður fagurt. Reyndar eru vegirnir ætíð hálf-ófærir, en það er mönnunum að kenna, því víðast hvar hjer á landi má með nokkurri fyrirhöfn leggja allgóða vegi. En mitt um sumarið eru vegirnir þó svo góðir, að þeir skerða lítið þá gleði og og unað, er maður hefur af að ferðast um fagrar sveitir.

Mesta yndið af að ferðast sprettur af fegurð og tilbreytni náttúrunnar. Landið er næsta fagurt um miðsumarskeið, alstaðar þar sem jeg hefi komið, og þó finnst mjer fegurst á Norður- og Austurlandi, enda hefi jeg aldrei farið um þær sveitirnar í hinum ömtunum, sem fegurstar þykja. Jeg hefi aldrei sjeð Rangárvalla og Skaptafellssýslur og aldrei komið lengra vestur en á Holtavörðuheiði. Hjer eru margar sveitir og margir dalir á Norðurlandi, sem mundu þykja hverjum útlendum manni afbragðs fagrir, svo að óvíða findist þvílíkt, og þó vantar oss alstaðar að mestu og víðast hvar að öllu leyti eitt af því sem mjög mundi prýða hjá oss og það eru skógarnir. Hefðum vjer neðan til í hverri fjallshlíð breitt belti af þjettum og hávöxnum skógi, þá skyldi jeg að minnsta kosti einskis sakna af fegurð útlandanna.

Jeg brá mjer núna í sumar vestur í Skagafjarðar og Húnavatnssýslu, og læt jeg hjer fylgja sundurlausar athugasemdir, er jeg skrifaði upp til og frá á leiðinni.

1. **Vatnsskarð** er eins og allt annað fallega að guði gjört. Víðsýnið af því austanverðu um allan Skagafjörð, yfir allan endilangan Hólminn, sem er hið langstærsta grasivaxið sljettlendi á Norðurlandi, og sem hefur gjört Skagfirðinga að svo nafnfrægum hestamönnum — því jeg eigna það allt Hólminum —, allt þetta er fögur sjón og fráhær; og þó er fegurst að sjá út á sjálfan fjörðinn, þar sem Drangey situr með strókinn við hliðina eins og gömul valva með staf í hendi; mjer finnst hún vera nokkurs konar heillavættur Skagafjarðar, svo er hún fögur og mikilúðleg. Og þá er nú líka eigandi að sjá vestur af skarðinu, einkum fyrir mig Húnvetninginn; þar blasir við Svartárdalsmynnið, þar sem Bólstaðarhlíð stendur, hin fríðasta jörð, og Ásarnir með

Tungunesi, þar sem hann gamli (eins og Hirðir kallar hann) Erlendur minn Pálmason er að reyna til að byggja bæinn sinn eins háan að sínu leyti eins og hálsinn sem hann stendur á. Og yfir Ásana sjer maður Strandir og Húnaflóa, þar sem staðið hafa tvær hinar frægustu sjó-orustur vorar, hin fyrri milli Þórðar kakala og Kolbeins unga en hin seinni í fyrra milli hetjunnar hans Hólms á Skagaströnd og hvalfiskanna á Flóanum. Og þó að hinnar fyr nefndu verði ef til vill lengur getið í landssögu vorri, þá er þó hitt víst að hin seinni var Húnvetningum miklu þarfari.

Það er nú ekkert gaman, þegar maður er kominn í þriðja himin af glaðværð, af að sjá og hugsa um allt þetta, þegar vegurinn er svo vondur að allt liggur á kafi, menn og hestar. Vegurinn fyrir sunnan vatnið á skarðinu er mesta handarskömm og skora jeg á norðlenzku kammerráðin að láta gjöra þolandi veg á þessum stutta og fagra fjallvegi.

**Svínadalur.** Þegar komið er upp á hálsbrúnina frá Tungunesi fyrir framan og vestan bæinn hjerumbil þar sem hálsinn er hæstur, þá birtir nú líka fyrir augum; þá sjer maður nú fyrst það sem næst er, Svínavatn sjálft og dali beggjamegin Auðkúlu langt fram-eptir; í vestri sjer maður hann Sigurð minn á Reykjum, og lengra burtu endann á Vatnsdalsfjalli, og í fjarska Vatnsnesfjall. Svínadalur er engan veginn tiltakanlega fagur, en grasgefinn er hann mjög og búsældarsveit hin mesta, enda eru þar ekki allfáir góðir búmenn. Fegursta jörðin þar og líklega hin bezta, eins og víða annarstaðar, er prestssetrið Auðkúla. Presturinn þar er frumbýlingur, en þó átti hann jeg veit ekki hvað marga kálfa, enda þurfa þeir nú Húnvetningarnir að auka kúabúin til að reyna með því að nokkru leyti að bæta sjer fjármissirinn.

**Fyrir utan Blöndu.** Það er mikill munur á því sem kallað er fyrir austan Blöndu og fyrir utan Blöndu. Fyrir austan Blöndu í Langadal og Svartárdal er optast blíða og veðursæld, en fyrir utan Blöndu er argasta illviðrisbæli. Mjer þótti stinga í stúf að koma úr sólskininu frá Tindum og Sauðanesi á Ásum og út yfir Hrappseyrarvaðið, því undir eins og komið var upp á hæðirnar fyrir utan ána gaus á móti mjer hrímþoku svæla og kaldur og hvass norðansteglingur. Það var rjett eins og skáldið mitt frá T. hefði tekið með sjer allt góðviðrið aptur fram í sveitina, þegar hann skildi við mig. Það var nú tvennt ólíkt að vera að tala um kveðskap, og fá að heyra fallegar vísur, sem svo mikið er til af í Húnavatnssýslu, eða að ríða út Refasveitina þembingsreið á móti norðangarranum, því það var sannarlega ekki skemmtilegra eða skáldlegra en lakasti forrjettingastíll hreppstjóra og sýslumanna. Þó að töluverður guttur væri nú í mjer út af illviðrinu, jafnaðist það allt saman þegar jeg var búinn að fá heitt glas og gott rúm hjá kammerráðinu á Ytriey.

**Þingeyrar og Þingið.** Jeg er nú búinn að sjá Ytriey, Hólanes og Skagastrandar kaupstaðina, finna hann J. kaupmann, sem eins er gjörður og flestir menn, að hann segir ekki ætíð satt, heilsa upp á sjera Björn á Höskuldsstöðum, sem var svo góður við mig í gamla daga, og ríða svo inn að Þingeyrum með Runólfi Ólsen. Jeg er því kominn í hjartað af Húnavatnssýslu, Þingið, og á hinn forna og merka fræðimanni aðsetursstað, þar sem þeir Gunnlaugur og Oddur rituðu bækur sínar í klaustur einverunni. Það má geta nærri, þegar klerkarnir vorir gömlu kathólsku voru svo laglegir, að þeir optast náðu beztu jörðinni í sveitinni fyrir kirkju-heimajörð — sem líka flaut eðlilega af því, að höfðingjar og göfugir menn, sem höfðu hinar beztu staðfestur, urðu í hinni fyrstu kristni hjer á landi fyrstir til að byggja kirkjur á bæjum sínum, en klerkarnir náðu þeim staðfestum seinna með kirknaforráðunum — að þær jarðirnar, sem klaustrin voru sett á, væru góðar, og vel í sveit komnar; enda má þetta með sanni segja um Þingeyrar. Óvíða hjer á landi hefur maður eins mikið og fagurt víðsýni. Til austurs sjer maður allt út undir Skagaströnd öll fjöll og dalsmynni þar útfrá, upp um Ása og lengra til austurs mæna þar upp Langadals og Svartárdals fjöllin. Mót suðri blasir við allt Þingið, sem er svo grösugt að varla sjer á stein, fram undir Vatnsdalshóla, þar að austan hið háa og skrautlega Vatnsdalsfjall. Í miðdegisstað hjerumbil er Ásmundargnúpur og Víðidalsfjall, þrætueplið sem nú er, og í nónsstað hið ágæta og merkilega Borgarvirki milli Stóru og Litluborgar, sem önnur sögnin segir, að Vígabarði hafi hlaðið til að verjast sunnanmönnum eptir heiðarvíg, og önnur að Finnbogi hinn rammi hafi gjört sjer til hælis þegar hann deildi við Vatnsdæli. Þar fram af sjer maður yfir Víðidalinn, og svo í vestri fyrst Hópið svo hálsana út af Borgarvirki og Vest-

urhópsvatni og lengra burtu allt Vatnsnesfjall frá Miðfjarðarhálsi og út að sjó.

það er því ekki ofsögum sagt af því, að það sje fagurt um að litast á þingeyrum. Túnið er vel ræktað, engjarnar afbragð að líta yfir; en landlítil er jörðin heima við, svo hún er ekki vel setin nema ábúandinn njóti einhvers annars, Víðidalsfjalls eða annars úr nágranna landi. — það er margt á þingeyrum, sem minnir mann á forna tíma, öskuhaugarnir fyrir austan bæinn, sem eru svo stórir að þeir sýna, að gömlu íslenzku munkarnir hafa, eins og fjelagsbræður þeirra í öðrum löndum, kunnað að elda og eiga gott, og dómhringurinn, sem kallaður er, út á túninu, þar sem þing á að hafa verið haldið í gamla daga; þó að jeg ætli það líklegra, að þetta sje eitthvað annað, því þingið mun hafa verið haldið á sjálfri hinni svonefndu þingeyri sem liggur fyrir utan og vestan bæinn, enda ætla jeg það ólíklegt, að þing hafi verið haldin í túni, að minnsta kosti hafa það ekki verið nein af hinum fjölmennari.

Og þó var það einkum ejtt er jeg dáðist að á þingeyrum, og það var hin yndislega háaldraða frú Jóns kammeráðs frá Melum. Hún er nú komin yfir áttrætt, en ungleg og frískleg að sjá, og minnið óskert og sálarfjörið. Af henni má eflaust nema margan fallegan og sjaldgæfan fróðleik. Jeg hefi aldrei fundið eins ljóslega sannleika kvæðisins: „Óttist ekki elli, þjer Íslands meyjar!“ hjá Bjarna amtmanni Thorarensen, eins og þegar jeg sá og talaði við þessa merkiskonu.

það er fljótfarið fram að Steinnesi frá þingeyrum, þegar maður þekkir prófastinn þar, og eina erindið er að sjá hann, og þakka honum fyrir gamalt og gott, því ef maður þekkir hann, er það víst, að maður geymir í minni sínu svo mörg alúðar og vinahót frá hans hálfu, að ekki þarf að hugsa um veginn á jafnstuttu svæði, þó hann væri vondur, og jeg held hann sje það nú ekki einu sinni svo tiltakandi sje. Mikið hefur Steinnesi farið fram síðan jeg var þar 1847. þar er nú vel hýstur bær og túngarður um allt túnið með einu fallegu trjehliði á og góðri breiðri tröð. Prófasturinn var að ljúka við þenna túngarð í vor eptir að hann var búinn að kollfella fjenað sinn vegna klaðans, svona hefur hann góða trúna, að guð muni hjálpa oss Norðlendingum, þegar vjer reynum sjálfir að gjöra það með kappi og skynsemi; og varla mun hann kveða jákvæði við þeirri sögu Hirðis, að mikið hafi þurft til að fá hann til að farga ánum sínum, þegar það þótti nauðsynlegt vegna málefnisins. það var gaman að finna þá báða bræðurna Ólaf á Sveinstöðum og sjera Jón, og þó þriðja bróðurinn frá Hofi vantaði, þá hafði jeg hjá þeim skemmtilega stund og viðræðu. það má eflaust leita lengi að öðrum eins þremur bræðrum og þessir þrír eru.

Hofstaðasel: Jeg er þá búinn að komast austur úr þinginu, og átti þar áður góða nótt hjá hjeraðslækni Skaptasen, og skemmtilega og káta samreið að Hjaltastöðum í Skagafirði með sjera Ó. þorvaldssyni, og er nú kominn til kammerráðsins Skagfirðinga, sem hjer býr á hinni fegurstu jörð í sýslu sinni. það er nú engin furða, þó að Kristján kammerráð, sem áður hefur byggt vel og búið vel á jörðu sinni á meðan hann var sýslumaður Skaptfellinga, þyki skemmtilegra að búa í sveit en að eiga heima í Hófsós; því fyrir þann mann, sem hefur vit á að byggja vel og stórmannlega á fagurri jörðu, og sem þar að auki hefur gaman að búskapnum, finnst mjer enginn hlutur geta verið ánægjulegri. K. Kristjánsson er nú ekki búinn að búa nema eitt ár á Hofstaðaseli og hefur þó þegar látið byggja þar eitthvert hið stærsta og undir eins nettasta hús, sem jeg hefi sjeð með torfveggjum og þaki af sama, og timburstöfnum. þeir sem koma þangað, geta sjeð, að það má þó byggja þess konar hús án þess að byggja út birtunni, sem svo mörgum hjá oss verður, af því gluggarnir eru gjörðir of litlir. Jeg þarf ekki að segja neinum frá viðtökunum hjá Kristjáni, þær eru svo alþekktar, hvar og í hverri stöðu sem hann hefur verið. það hjálpast allt að höfðinglyndur maður og góð kona að gjöra mann glaðværan og eins og heima hjá sjer.

Gestrisnin og fylgðir: það er einhver mesta ánægjan við að ferðast hjer á Norður- og Austurlandi, bæði að öll gestrisnin er hjer svo alúðarfull og hjartanleg, að maðurinn, að minnsta kosti þegar hann er nokkuð kunnugur, og optast hvort sem er, er eins og hann komi til foreldra eður systkyna. Auk þess telja fáir Norðlendingar eptir sjer að ríða bæjarleið með vegfaranda, og styttist þar við leiðin, svo ferðin verður veruleg skemmtiferð. En sjerstakar þakkir eiga þeir einkum skilið, sem eins og Stephán alþingismaður á Steinstöðum og Einar bóndi á Víðimýri, sitja í hinni mestu þjóðbraut, og taka öllum vegfarendum eins ágætlega nær sem að garði bera. það er gleðilegt til þess að vita, þegar guð

blessar svo efni þeirra, að gestrisnin verður slíkum mönnum ekki að búhnekki, eins og húsfreyjan á Víðimýri sagði mjer að væri sín raun.

Margt er eptir, en rúmið í blaðinu leyfir mjer ekki að skrifa meir um þessa skemmtilegu ferð mína, og læt jeg til þakkklætis fylgja niðurlags stöku úr Sveitakveðjunni minni gömlu.

Jeg kveð þig seinast
mitt sveitarlíf,
er sjúkum reynast
opt náðir hlíf.

Þjer bændur góðir,
sem beinduð mjer,
og blíð húsmóðir
„heill þjer, heill þjer!“

---

## Verzlunarfundur.

Frá því að jeg fyrst gekk í verzlunafjelag og tók að hafa nokkuð greinilega hugmynd um þess konar fjelagsskap, hefi jeg æ betur og betur komizt að raun um, að það væri mjög áríðandi fyrir oss Íslendinga, að verzlun vor framfæri í fjelagsskap. Það eru nú af þeir tímarnir, þegar höfðingjar hjer á landi riðu til skips, þegar skipkoma spurðist, og lögðu lag á varning kaupmanna. Nú eru kaupmenn einráðir að verðleggja bæði sína og vora vöru, og allt hvað þeir slaka til frá því verði, er þeir fyrst setja, láta þeir sem gjört sje af einskærri náð og miskunnsemi. Þetti álit um nauðsyn verzlunarfjelaganna er nú auðsjáanlega meir og meir að ryðja sjer til rúms, ekki einasta hjá einstökum, heldur líka hja öllum þorra bænda í ýmsum sveitum; og er það ljósastur vottur þess, að nú á seinustu árunum hafa allmörg verzlunarfjelög verið stofnuð hjer í Norður- og Austurumdæminu; og tel jeg það víst, að öll hafi þau verið fjelagsmönnum til töluverðra nota, þó jeg á hinn bóginn efist um, að nokkurt þeirra hafi fyllilega náð tilgangi sinum; og ætla jeg, að til þess liggi einkum þrjár aðalórsakir: 1 að fjelagsandinn er enn ekki svo almennur sem skyldi, og fjelögin því enn of fá og aflalítil; 2. mótspyrna sú, er kaupmenn vorir og verzlunarfulltrúar þeirra hafa hingað til veitt fjelagsskapnum; og í þriðja lagi — það sem mestu um veldur — sambandsleysi milli fjelaganna. Þó að nú kaupmenn vorir hafi — víst móti vilja sínum — með sambandi þeirra á næstliðnum vetri, unnið oss í haginn með því að efla fjelagsandann hjá alþýðu, svo að fjelögin hafa þó bezt í ár haldið saman og reynt til að bíta þess, að batnaði verzlunin, þá er þó á hinn bóginn ekki ólíklegt, þegar að alþýða sjer, hversu óhæg og erfið verzlunin hefur verið í ár, og hversu lítið að tiltölu fjelögin hafa áunnið þrátt fyrir alla biðlund þeirra, og ef að kaupmenn — sem að líkindum lætur, þegar svo hefur vel tekist í ár — halda áfram sambandi sínu, að fjelögin sundrist að meira eða minna leyti, ef ekki er tekið ráð við því í tíma. Jeg hefi átt tal við ekki allfáa af forstöðumönnum fjelaganna, og hefur oss jafnan komið saman um, að bezt mundi vera að forstöðumenn fjelaganna og sem flestir hinir helztu menn hjer í Eyjafjarðar- og Suðurþingeyjarsýslum ættu fund með sjer hjer á Akureyri á næstkomandi hausti til að ræða um verzlunarmálefni vor, ef verða mætti, að menn gætu fundið eitthvert ráð til að hrinda af sjer verzlunaránauð þeirri, er kaupmenn hafa lagt á oss í sumar, og að geta á einhvern hátt notað oss betur verzlunarfrelsið hjer eptir en verið hefur hingað til.

Það hefur því verið mælzt til þess við mig, af því að jeg er hjer á staðnum, að jeg væri í útvegum um hús til að halda fundinn í og tiltæki daginn, er fundinn skyldi halda, og tilkynnti það í Norðra.

Samkvæmt þessu auglýsist, að til að ræða þetta málefni verður fundur haldinn 1. október næstkomandi í húsi Indriða gullsmiðs hjer í bænum.

Að endingu skora jeg á alla forstöðumenn verzlunarfjelaga í Suðurþingeyjar- og Eyjafjarðarsýslum að sækja fund þenna, og gjöra allt hvað í þeirra valdi stendur, til að koma því til leiðar, að allir hinir merkari menn úr sveitum þeirra sæki hann líka, svo að fundurinn verði sem almennastur og þýðingarmestur, og nái því betur tilgangi sínum. Sömuleiðis skora jeg á hvern þann, er vill og getur, að koma þar fram með skriflegar uppástungur um fyrgreint málefni.

*Akureyri 4. september 1858.*

**P. Magnússon.**

---

## Bókafregn.

(Aðsent). Herra prófessor P. Pjetursson hefur reynzt löndum sínum hinn frjófsamasti rithöfundur um þessar mundir, þar sem á eitthvað tveggja ára bili hafa komið út eptir hann Helgidaga prjedikanir, Tækifærisræður og Hugvekjur. Á allar þessar bækur hefur þegar verið nokkuð minnzt í blöðum vorum, og þeirra að góðu getið, sem líka má. Prjedikanirnar hafa náð á sig miklu lofsorði, svo sumir hafa því jafnvel um þær spáð,

urhópsvatni og lengra burtu allt Vatnsnesfjall frá Miðfjarðarhálsi og út að sjó.

það er því ekki ofsögum sagt af því, að það sje fagurt um að litast á þingeyrum. Túnið er vel ræktað, engjarnar afbragð að líta yfir; en landlítil er jörðin heima við, svo hún er ekki vel setin nema ábúandinn njóti einhvers annars, Víðidalsfjalls eða annars úr nágranna landi. — það er margt á þingeyrum, sem minnir mann á forna tíma, öskuhaugarnir fyrir austan bæinn, sem eru svo stórir að þeir sýna, að gömlu íslenzku munkarnir hafa, eins og fjelagsbræður þeirra í öðrum löndum, kunnað að elda og eiga gott, og dómhringurinn, sem kallaður er, út á túninu, þar sem þing á að hafa verið haldið í gamla daga; þó að jeg ætli það líklegra, að þetta sje eitthvað annað, því þingið mun hafa verið haldið á sjálfri hinni svonefndu þingeyri sem liggur fyrir utan og vestan bæinn, enda ætla jeg það ólíklegt, að þing hafi verið haldin í túni, að minnsta kosti hafa það ekki verið nein af hinum fjölmennari.

Og þó var það einkum ejtt er jeg dáðist að á þingeyrum, og það var hin yndíslega háaldraða frú Jóns kammeráðs frá Melum. Hún er nú komin yfir áttrætt, en ungleg og frískleg að sjá, og minnið óskert og sálarfjörið. Af henni má eflaust nema margan fallegan og sjaldgæfan fróðleik. Jeg hefi aldrei fundið eins ljóslega sannleika kvæðisins: „Óttist ekki elli, þjer Íslands meyjar!“ hjá Bjarna amtmanni Thorarensen, eins og þegar jeg sá og talaði við þessa merkiskonu.

það er fljótfarið fram að Steinnesi frá þingeyrum, þegar maður þekkir prófastinn þar, og eina erindið er að sjá hann, og þakka honum fyrir gamalt og gott, því ef maður þekkir hann, er það víst, að maður geymir í minni sínu svo mörg alúðar og vinahót frá hans hálfu, að ekki þarf að hugsa um veginn á jafnstuttu svæði, þó hann væri vondur, og jeg held hann sje það nú ekki einu sinni svo tlitakandi sje. Mikið hefur Steinnesi farið fram síðan jeg var þar 1847. þar er nú vel hýstur bær og túngarður um allt túnið með einu fallegu trjehliði á og góðri breiðri tröð. Prófasturinn var að ljúka við þenna túngarð í vor eptir að hann var búinn að kollfella fjenað sinn vegna klaðans, svona hefur hann góða trúna, að guð muni hjálpa oss Norðlendingum, þegar vjer reynum sjálfir að gjöra það með kappi og skynsemi; og varla mun hann kveða jákvæði við þeirri sögu Hirðis, að mikið hafi þurft til að fá hann til að farga ánum sínum, þegar það þótti nauðsynlegt vegna málefnisins. það var gaman að finna þá báða bræðurna Ólaf á Sveinstöðum og sjera Jón, og þó þriðja bróðurinn frá Hofi vantaði, þá hafði jeg hjá þeim skemmtilega stund og viðræðu. það má eflaust leita lengi að öðrum eins þremur bræðrum og þessir þrír eru.

Hofstaðasel: Jeg er þá búinn að komast austur úr þinginu, og átti þar áður góða nótt hjá hjeraðslækni Skaptasen, og skemmtilega og káta samreið að Hjaltastöðnm í Skagafirði með sjera Ó. þorvaldssyni, og er nú kominn til kammerráðsins Skagfirðinga, sem hjer býr á hinni fegurstu jörð í sýslu sinni. það er nú engin furða, þó að Kristján kammerráð, sem áður hefur byggt vel og búið vel á jörðu sinni á meðan hann var sýslumaður Skaptfellinga, þyki skemmtilegra að búa í sveit en að eiga heima í Hófsós; því fyrir þann mann, sem hefur vit á að byggja vel og stórmannlega á fagurri jörðu, og sem þar að auki hefur gaman að búskapnum, finnst mjer enginn hlutur geta verið ánægjulegri. K. Kristjánsson er nú ekki búinn að búa nema eitt ár á Hofstaðaseli og hefur þó þegar látið byggja þar eitthvert hið stærsta og undir eins, nettasta hús, sem jeg hefi sjeð með torfveggjum og þaki af sama, og timburstöfnum. þeir sem koma þangað, geta sjeð, að það má þó byggja þess konar hús án þess að byggja út birtunni, sem svo mörgum hjá oss verður, af því gluggarnir eru gjörðir of litlir. Jeg þarf ekki að segja neinum frá viðtökunum hjá Kristjáni, þær eru svo alþekktar, hvar og í hverri stöðu sem hann hefur verið. það hjálpast allt að höfðinglyndur maður og góð kona að gjöra mann glaðværan og eins og heima hjá sjer.

Gestrisnin og fylgdir: það er einhver mesta ánægjan við að ferðast hjer á Norður- og Austurlandi, bæði að öll gestristnin er hjer svo alúðarfull og hjartanleg, að maðurinn, að minnsta kosti þegar hann er nokkuð kunnugur, og optast hvort sem er, er eins og hann komi til foreldra eður systkyna. Auk þess telja fáir Norðlendingar eptir sjer að ríða bæjarleið með vegfaranda, og styttist þar við leiðin, svo ferðin verður veruleg skemmtiferð. En sjerstakar þakkir eiga þeir einkum skilið, sem eins og Stephán alþingismaður á Steinstöðum og Einar bóndi á Víðimýri, sitja í hinni mestu þjóðbraut, og taka öllum vegfarendum eins ágætlega nær sem að garði bera. það er gleðilegt til þess að vita, þegar guð

blessar svo efni þeirra, að gestrisnin verður slíkum mönnum ekki að búhnekki, eins og húsfreyjan á Víðimýri sagði mjer að væri sín raun.

Margt er eptir, en rúmið í blaðinu leyfir mjer ekki að skrifa meir um þessa skemmtilegu ferð mína, og læt jeg til þakkklætis fylgja niðurlags stöku úr Sveitakveðjunni minni gömlu.

Jeg kveð þig seinast
mitt sveitarlíf,
er sjúkum reynast
opt náðir hlíf.

Þjer bændur góðir,
sem beinduð mjer,
og blíð húsmóðir
„heill þjer, heill þjer!"

---

## Verzlunarfundur.

Frá því að jeg fyrst gekk í verzlunafjelag og tók að hafa nokkuð greinilega hugmynd um þess konar fjelagsskap, hefi jeg æ betur og betur komizt að raun um, að það væri mjög áríðandi fyrir oss Íslendinga, að verzlun vor framfæri í fjelagsskap. Það eru nú af þeir tímarnir, þegar höfðingjar hjer á landi riðu til skips, þegar skipkoma spurðist, og lögðu lag á varning kaupmanna. Nú eru kaupmenn einráðir að verðleggja bæði sína og vora vöru, og allt hvað þeir slaka til frá því verði, er þeir fyrst setja, láta þeir sem gjört sje af einskærri náð og miskunnsemi. Þetti álit um nauðsyn verzlunarfjelaganna er nú auðsjáanlega meir og meir að ryðja sjer til rúms, ekki einasta hjá einstökum, heldur líka hja öllum þorra bænda í ýmsum sveitum; og er það ljósastur vottur þess, að nú á seinustu árunum hafa allmörg verzlunarfjelög verið stofnuð hjer í Norður- og Austurumdæminu; og tel jeg það víst, að öll hafi þau verið fjelagsmönnum til töluverðra nota, þó jeg á hinn bóginn efist um, að nokkurt þeirra hafi fyllilega náð tilgangi sinum; og ætla jeg, að til þess liggi einkum þrjár aðalórsakir: 1 að fjelagsandinn er enn ekki svo almennur sem skyldi, og fjelögin því enn of fá og aflalítil; 2. mótspyrna sú, er kaupmenn vorir og verzlunarfulltrúar þeirra hafa hingað til veitt fjelagsskapnum; og í þriðja lagi — það sem mestu um veldur — sambandsleysi milli fjelaganna. Þó að nú kaupmenn vorir hafi — víst móti vilja sínum — með sambandi þeirra á næstliðnum vetri, unnið oss í haginn með því að efla fjelagsandann hjá alþýðu, svo að fjelögin hafa þó bezt í ár haldið saman og reynt til að bíta þess, að batnaði verzlunin, þá er þó á hinn bóginn ekki ólíklegt, þegar að alþýða sjer, hversu óhæg og erfið verzlunin hefur verið í ár, og hversu lítið að tiltölu fjelögin hafa áunnið þrátt fyrir alla biðlund þeirra, og ef að kaupmenn — sem að líkindum lætur, þegar svo hefur vel tekizt í ár — halda áfram sambandi sínu, að fjelögin sundrist að meira eða minna leyti, ef ekki er tekið ráð við því í tíma. Jeg hefi átt tal við ekki allfáa af forstöðumönnum fjelaganna, og hefur oss jafnan komið saman um, að bezt mundi vera að forstöðumenn fjelaganna og sem flestir hinir helztu menn hjer í Eyjafjarðar- og Suðurþingeyjarsýslum ættu fund með sjer hjer á Akureyri á næstkomandi hausti til að ræða um verzlunarmálefni vor, ef verða mætti, að menn gætu fundið eitthvert ráð til að hrinda af sjer verzlunaránauð þeirri, er kaupmenn hafa lagt á oss í sumar, og að geta á einhvern hátt notað oss betur verzlunarfrelsið hjer eptir en verið hefur hingað til.

Það hefur því verið mælzt til þess við mig, af því að jeg er hjer á staðnum, að jeg væri í útvegum um hús til að halda fundinn í og tiltæki daginn, er fundinn skyldi halda, og tilkynnti það í Norðra.

Samkvæmt þessu auglýsist, að til að ræða þetta málefni verður fundur haldinn 1. október næstkomandi í húsi Indriða gullsmiðs hjer í bænum.

Að endingu skora jeg á alla forstöðumenn verzlunarfjelaga í Suðurþingeyjar- og Eyjafjarðarsýslum að sækja fund þenna, og gjöra allt hvað í þeirra valdi stendur, til að koma því til leiðar, að allir hinir merkari menn úr sveitum þeirra sæki hann líka, svo að fundurinn verði sem almennastur og þýðingarmestur, og nái því betur tilgangi sínum. Sömuleiðis skora jeg á hvern þann, er vill og getur, að koma þar fram með skriflegar uppástungur um fyrgreint málefni.

*Akureyri 4. september 1858.*

**P. Magnússon.**

---

## Bókafregn.

(Aðsent). Herra prófessor P. Pjetursson hefur reynzt löndum sínum hinn frjófsamasti rithöfundur um þessar mundir, þar sem á eitthvað tveggja ára bili hafa komið út eptir hann Helgidaga prjedikanir, Tækifærisræður og Hugvekjur. Á allar þessar bækur hefur þegar verið nokkuð minnzt í blöðum vorum, og þeirra að góðu getið, sem líka má. Prjedikanirnar hafa náð á sig miklu lofsorði, svo sumir hafa því jafnvel um þær spáð,

að þær muni innan skamms byggja Vídalín gamla út hjá alþýðu vorri. Vera kann nú að svo verði; því vandsjeðir eru tímar og lýðir. Jeg er ekki maður til að spá þar með eður móti. En laust trúi jeg því samt, af því mjer finnst andi Vídalíns vera svo miklu styrkvari, sjálfum sjer líkari og þjóðkennilegri heldur en Pjeturs, sem satt að segja flýgur með svo ýmsum fjöðrum aðfengnum, sinni úr hverju landi. Tækifærisræðunum hefur verið hælt, mig minnir einhverstaðar í þjóðólfi, og vil jeg ekki bera hól hans til baka. þó verð jeg að álíta, þær töluvert síðri enn postilluna, í stað þess sem heldur mátti búast við að þær tækju henni fram; því aldrei gefst ræðumanninum betri kostur á að sýna andlega atgjörfi sína heldur en þá, þegar hann kemur fram við hin breytilegu tilfelli lífsins og stendur þar í hátíðlegum sporum alvörunnar, — sorgarinnar eða gleðinnar

En jeg ætlaði mjer sjer í lagi að fara nokkrum orðum um hina síðustu bók höfundarins, nefnilega Hugvekjurnar, sem komið hafa út á þessu ári. Jeg er þegar nokkuð búinn að yfirfara þær, og verð að játa, að þær falla mjer vel í geð, og að jeg finn hjá þeim marga góða kosti, en ókosti fáa, sízt þá er stórvægir sjeu. þær eru yfir höfuð ljósar og sæmilega vandaðar að orðfæri, hæfilega langar til kvöldlestra, skynsamlega hugsaðar samkvæmt því efni, sem tekið er fyrir í hverri fyrir sig, viðfeldnar og dável sniðnar eptir hugsunum og háttum landsmanna, og víðast hvar svo hjartnæmar, að kristileg tilfinning lesandans gjarnan getur orðið samferða íhuguninni. þar að auk eru hugvekjurnar, sem ekki er minnst í varið, eins og önnur rit höfundarins, rjettkristilegar að öllu inntaki og framsetningu kenningarinnar.

þegar litið er á allt þetta, sem varla nokkur sanngjarn dómari bókarinnar mun fá hrakið, þá þykir mjer ekki vert að vera að leita uppi smágalla til að tína saman, svo sem ólögulegar orðaskipanir og setningar á einstaka stað, prentvillur, dönskublendinga, valta og ósamhljóða rjettritun o. s. frv., þó vil jeg geta þess, að hugvekjurnar á sumum stöðum sýnast bera þess merki, að þeim sje snúið úr öðru máli (sbr. t. a. m. á bls: 279. „Kristindómurinn þekkir hvorki fátækan nje ríkan" og kaflann sem stendur á neðri hluta bls. 366.).

Væri nú þetta svo, sem mjer þykir harla líklegt, að höfundurinn hafi tekið fleiri eða færri hugvekjur sínar, eins og prjedikanirnar úr útlendum bókum, þá vil jeg að vísu ekki ámæla honum fyrir það í sjálfu sjer; en samt vildi jeg ætlast til svo mikillar kurteisi af menntuðum manni, að gjöra grein fyrir slíku, og það nógu skilmerkilega, svo sjáist hvaðan hver hin aðfengna ræða sje tekin eða saman lesin.

Og reyndar get jeg ekki gjört að einu, nefnilega, að mjer þykir rjettritunin hálfskopleg á Hugvekjunum. það er hvorki hrein „guðbrenzka" nje heldur „koðræna" (þ. e. rjettritun Konráðs Gíslasonar), heldur eitthvert sambland, þó öðruvísi enn hjá þjóðólfi mínum, sem er að apa guðbrenzkuna eptir, en getur það nú ekki meir en svo. Annars mun höfundurinn sjálfur víst ekki vera sök í þessu, heldur einhver annar, sá er hann í því efni hefur trúað betur en sjálfum sjer.

En slíkt og því um líkt er svo marklítið, að það vegur ekki til að rýra kosti annarar eins bókar og Hugvekjurnar eru. það er og engan veginn tilgangur minn með línum þessum, að vilja spilla fyrir þeim eður niðra höfundi þeirra. Miklu fremur óska jeg, að þær fái góðar viðtökur, eins og þær eiga skilið, að þær verði landsbúum til andlegrar ánægju og uppbyggingar, en geymi nafn höfundarins í sóma og þakklátri minningu.

1.

---

(Aðsent). Af því jeg hefi sannfrjett, að herra verzlunarstjóri G. Thorgrimsen á Eyrarbakka eigni mjer fremur öðrum, að hafa út borið meðal manna þann orðasveim, að fjárkláðalækningar hans hafi haft önnur afdrif en þau, er hann sjálfur frá skýrir í þessa árs þjóðólfi, bls. 58—59, finn jeg mig knúðan til að gjöra grein fyrir því, hvað jeg hefi sagt um heilbrigðis ástand kinda hans. þegar jeg 23. dag janúarm. þ. á. kom á Eyrarbakka, stóð svo á, að herra Thorgrimsen var þá að sýna kindur sínar — nálægt 30 að tölu — manni austan af Rangárvöllum, kom jeg til þeirra í fjárhúsið, mælti þá Thorgrimsen strax til mín: „þetta fje álít jeg nú allæknað og heilbrigt;" eptir að jeg hafði skoðað nokkuð margar kindur, og sá, að á þeim flestum var meira eða minna af graptrarkýlum, af hverjum hann sprengdi sum með fingrum sínum, og rann úr þeim þykkur gröptur, sagði jeg, að hann skyldi ekki bregðast ókunnuglega við, þó hann heyrði eptir mjer, að jeg áliti kindur hans ekki allæknaðar, meðan þær hefði þvílík kýli; en hann sagði þau væri ekki kláði, heldur heilbrigðismerki, og bar fyrir því dýralækni Hansteen, sem þá var ekki heima; þessu átti jeg bágt með að trúa, af því jeg hafði áður sjeð þau, bæði á því fje, sem aldrei varð framar heilbrigt, og líka á því, sem ekki var farið að lækna.

Jeg veit heldur ekki til, að dýralæknarnir hafi nokkur staðar opinberlega skýrt mönnum frá því, líkum heilbrigðismerkjum, sem þó hefði verið öldungis ómissandi, svo menn vissu, að þegar þau færi að sýna sig, væri óþarft að brúka lengur kláðameðölin, sem varla hafa mátt við því til þessa, að þau væri brúkuð ónauðsynlega. þetta er allt sem jeg hefi sagt um heilbrigðisástand ofantjeðra sauðkinda, að jeg áliti þær ekki hafa verið alheilbrigðar áður áminnstan dag, og það sagða jeg herra Thorgrimsen sjálfum fyrstum allra, er jeg ekki tek aptur, enda þó honum þóknast kynni „að draga mig fyrir lög og dóm", sem jeg aldrei mun biðja hann gott fyrir.

þar herra ábyrgðarmanni þjóðólfs hefur ekki þóknazt — einhverra orsaka vegna — að ljá þessum línum rúm í blaði sínu, bið jeg hinn heiðraða blaðamann á Akureyri að koma þeim fyrir almennings augu, með því að prenta þær í Norðra.

Birtingaholti 30. dag marzmán. 1858.

Helgi Magnússon.

---

# Frjettir.

**Innlendar.** Heyskapartíðin hefur verið hin örðugasta alstaðar þar sem vjer höfum til spurt sökum rigninga og óstöðugleika á þurrki, svo að töður allar hafa víða ekki náðst inn fyr en seinast í ágústmánuði, og allvíða mjög skemmdar.

Af kláðanum er heldur ekkert gott að frjetta enn sem komið er. Úr Árness og Rangárvallasýslum frjettist, að kláðinn sje víða að koma enn aptur upp í hinu margbaðaða fje sumra lækningamannanna, en þó lifir trúin enn hjá sumum þeirra. Úr Borgarfjarðarsýslu er hið sama að frjetta, og maður sem þaðan er nýkominn segir, að Jón á Leirá sje þó búinn að missa nokkuð og skera sökum kláðans, og reynist það satt, hefur Hirðir líka logið um það mál. því er nú ver, að sagan er ekki betri hjer á Norðurlandi, en það er þó bót í máli, að það sem í sumar er fram komið í Húnavatnssýslu, staðfestir enn betur grundvallarreglu vora, niðurskurðinn. Á Harastöðum austan undir Vatnsnesfjalli hefur sunnankláðinn komið upp í ám Árna bónda Snorrasonar, er þar býr. Bærinn liggur svo sem 400 faðma fyrir utan Klömbur þar sem Snorri hreppstjóri faðir Árna býr; en hjá honum kom kláðinn upp í fyrra vetur, svo að allt fje hans var fellt. Árni sonur hans fór að búa í hitt eð fyrra, og eru allar líkur til, bæði að hann hafi fengið kindur frá föður sínum bæði haustin síðan, að samgöngur hafi verið allt haustið milli fjárins af báðum bæjunum, og að báðir hafi rekið geldfjenað sinn á framheiðar í fyrra sumar, því vjer vitum ekki betur en að Snorri hafi gjört það. Ef að þessi tilgáta vor er rjett, álítum vjer að sýslunefndin í Húnavatnssýslu hefði átt að láta drepa á Harastöðum þegar skorið var í Klömbrum þó að kláðinn væri ekki kominn þar fram. Lömb Árna og geldar kindur, ef hann hefur átt þær, ganga eflaust í sumar í Vatnsnesfjalli, og er því allt fjallfje þar nú að álíta grunað. Við þetta bætist, að vörðurinn framan við Vatnsnesfjall hefur, að sögn, ekki verið dyggilega haldinn, svo fje hefur náð að ganga út fyrir varðlínuna fram í kláðasveitirnar Víðidal og Miðfjörð, og eykur allt þetta gruninn. þannig hefur nú fyrst fylgisleysi sýslumanns Húnvetninga, að fá Vatnsnesinga til að hlýðnast niðurskurðarbrjefi amtmanns í vetur jafnt og aðrir, og síðan mótþrói Vatnsnesinga sjálfra, orðið þess ollandi, að nú hlýtur að skera niður í haust ekki einungis allt geldfje eldra og yngra á öllu því svæði, heldur líka öll lömb, sem í fjallinu hafa gengið og má jafnvel álíta allan búsmala þar grunaðan, því geldfje mun hafa gengið þar saman við kvífje á flestum stöðum.

það kom nú þegar fram í umræðum hjer á amtsfundinum, að Húnvetningar sjálfir voru mjög hræddir um, að kláðinn mundi aptur koma fram fyrir vestan Víðidalsá, og er það nú þegar fram komið. Oss virðist það nú rjett og sanngjörn krafa fyrir hönd allra þeirra, er heitið hafa 67,000 rd. til skaðabóta handa Húnvetningum, til þeirra og amtmanns, að allt verði gjört, er skynsamleg niðurskurðarregla býður, til að uppræta og hepta fjárfaraldrið, að allt fje, sem grunur getur á legið, vestan til í sýslunni verði skorið niður í haust, þetta er skylda Húnvetninga og yfirvaldanna, og þessari skyldu verða þeir og þau að gegna, ef málefnið á ekki að komast í ólag. það er líka því síður ástæða til að hlífast við þenna nauðsynlega niðurskurð, þegar nú má hreinsa þetta svæði að haustlagi, því það getur aldrei orðið mönnum stórkostlegur skaði. Ekki getum vjer ráðið til þess, að Vatnsnesingum eða öðrum er skera þurfa verði leyft að reka skurðarfje suður eða í kaupstað, því oss virðist það auðsætt, að fje þetta sje ekki svo mikið, að því verði ekki haganlega komið í lóg hjá hverjum fjáreiganda, og engi trygging getur nú fremur en í fyrra fengizt fyrir því, að suðurrekstrar geti ekki komið Norðlendingum að tjóni.

Ýmislegt annað frjettist, er snertir kláðamálið. þannig hafa Hrútfirðingar tekið og drepið 20 sauði úr Mýrasýslu, er norður komu, og selt þá við uppboð, að sagt er fyrir 9 mörk sauðinn. Amtmaður hafði nú aðvarað hina amtmennina um að allt yrði drepið, sem slippi norður úr hinni fyrirskipuðu heimavöktun þar; en sanngirni mælir með, að Norðlendingar hverjir sem eru, neiti sjer það ekki til að drepa niður fje manna fyrir ekkert verð. þeir hefðu átt að selja sauðina til dráps fyrir lágt en þó hæfilegt verð, en það virðist oss ekki hafa verið gjört. Vjer vonum að Hrútfirðingar geti gjört svo vel grein fyrir þessu uppboðsverði, að ekki verði sagt um þá, að þeim farizt eins og þeim, er nýta sjer neyð skipbrotsmanna, (sb. *Hver lever christelig og nærer sig af Vrag. Peder Paars*).

Enn fremur sjest það af þjóðólfi, að sjera Gísli, sem þó hann sje gáfaður og góður prestur, átti lengi ekki upp á pallborðið hjá stiptsyfirvöldunum, hefur fengið Gilsbakkann fyrir prófastinum í Mýrasýslu. Ekki er þess tilgetandi, að það hafi

haft áhrif, sem meðmæling með honum, að hann er lækningamaður, og hefur brotið yfirvaldsskipanir hjer nyrðra, og er að klaga amtmann Havstein fyrir stjórninni, og safna undirskriptum undir hana í Húnavatnssýslu, en prófasts-aumingjinn vitlaus niðurskurðarmaður?

---

Á blaðamaður að svara Hirði? það er líklegt. Annar útgefandinn er landlæknirinn og hinn skólakennari. Og hverju á þá að svara? Eigum vjer að tala um framfærslu landsómaga? Nei! það á illa við, þegar það er borið saman við landlæknir; það á illa við, en er þó satt um Hirði, eins og fjelagi vor þjóðólfur vel og á margan hátt hefur tekið fram, og þó er það einkum og sjer í lagi satt, þegar óhræsið er gefið út á kostnað hinnar svonefndu landsprentsmiðju; enda er það þess utan satt, að það blað er ómagi, sem ekki borgar kostnaðinn, þó betlaður sje dalurinn, og selt á 52 sk., og það gjörði Hirðir þegar frá fæðingu sinni. Eigum vjer að svara Hirði því, að staðfest eptirrit hans af brjefi sýslumanns Húnvetninga sje eins og á sama hátt staðfast eins og staðfestan hjá Jóni Hjaltalín. það gjörum vjer, og eigum sönnunina hjá Hirði fyrir því, að brjef hans sje rjett, og þangað til hún er færð, verður hann að fyrirgefa oss þó vjer tökum ekki upp amtmannsbrjefið sem um ræðir. Vjer geymum það því til seinni skipanna.

Viðvíkjandi stjórnarbrjefinu til amtmanns Norðlendinga í vor af 15. apríl, er þess að geta, að Hirðir segir söguna nær sanni í hið seinna skiptið heldur en fyrri, þegar hann var að búa það fyrst til upp úr sjer. Efnið úr brjefinu er þetta: að stjórnin vilji ekki taka fram í fyrirskipanir sem þegar sjeu gjörðar hjer nyrðra, þar eð amtsbúar sjeu á sama máli og yfirvöldin, og engir læknar eða meðöl fyrir hendi, þó hún á hinn bóginn ekki geti trúað, að kláðinn sje ólæknandi og kominn af Reykholts ánni; því hann sje vel læknandi, og innlendur sjúkdómur eptir þeirra áliti sem vit hafi á lækningum; og þeirra álit styðjist enn fremur við það, hve tilraunirnar að lækna kláðann hafi tekizt vel(?) á Suðurlandi. „þess vegna verði stjórnin, ef að það, sem hætt sje við, skyldi reynast, að það sem þegar er framkvæmt í í Húnavatnssýslu, ekki nægði til að taka fyrir útbreiðslu kláðans til annara hjeraða, einkum utan Húnavatnssýslu, að álíta það óráðlegt að halda áfram jafnmiklum niðurskurði og hingaðtil, því með því eyddist að lokum allur sauðfjenaður Norðanlands“, og biður því amtmanninn að skora fast á amtsbúa að íhuga sem nákvæmast, hvort ekki sje ástæða til að sleppa þessari stefnu og reyna lækningar, þegar með niðurskurði sje búið að fækka fjenu mátulega(?), sem sjálfsagt þurfi.

---

**Staka.**

(Aðsend).

Í kláðalúsar leitargjörð
læknar á Víkur grundu
kennarans alla kinda hjörð
kanna, og hreina fundu.
Óþrifagimbill einn þó var
eptir á velli skoðunar.
Segja þeir svo hann slóri,
þenna verðum að þvæla vjer
því að hann næsta skitinn er.
Sauðskepnan sú hjet D...

# Mannalát.

Í sumar andaðist í Húnavatnssýslu ung og elskuleg kona Ingibjörg Pálsdóttir á Útibleiksstöðum við Miðfjörð. Hún var ekkja eptir Jón sáluga Jónsson á Söndum í sömu sveit, sem einnig dó ungur. Ingibjörg sáluga var hin mesta afbragðs búkona, og hjelt vel við, þó hún missti mann sinn eptir fárra ára samveru, góðgjörðasöm, svo hún mátti engan auman sjá, og hin yndislegasta í umgengni allri. þeir sem þekktu hana, geta borið það, að þetta er ekki oftalað.

**S.**

þann 20 dag fyrra mánaðar andaðist hjer á bæ móðir mín elskuleg Björg Sveinsdóttir eptir viku sjúkdómslegu; hún var fædd 14 maí 1791. giptist 1811, átti 5 börn, af hverjum 3 lifa; hún hafði að eins dvalið hjer 2 næstliðin ár og kynnst við fáa, en þeir sem þekktu hana, þar sem hún lifði og bjó mestan hluta æfi sinnar, nefnilega í Kelduhverfi innan þingeyjarsýslu, munu lengi minnast hennar framúrskarandi gáfna og skörungskapar í sjerhverju tilliti.

þetta dauðsfall álít jeg mjer skylt að tilkynna þannig börnum og systkynum hinnar framliðnu, og hinum mörgu skyldmennum hennar sem allflest eru fjærverandi.

Friðriksgáfu 22. dag júlímán. 1858.

**Sveinn þórarinsson.**

# Auglýsingar.



☞ Af því jeg var á ferðalagi í ágústmánuði hefur engin örk þessa blaðs komið út í þeim mánuði, en það bætist upp seinna.

**Sv. Sk.**

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár | 26. September. | 22—23.

**Aldrei er góð vísa of opt kveðin.** (Aðsent). Þegar Norðri var á fyrsta árinu, hafði hann í októbermánuði dálitla ritgjörð með þeirri yfirskrift. „Ekki er ráð, nema í tíma sje tekið," og laut hún að því, að menn settu hyggilega á heyföng sín, og sýndi í stuttu máli ofan á afleiðingar af illum ásetningi, og var sú ritgjörð, að minni meiningu næsta þörf. En síðan man jeg ekki, að Norðri hafi minnst á þess konar mál, og þykir mjer það mein vegna þess mjer finnst það eitthvert hið mest áríðandi umtalsefni af hinu tímanlega, að bændur fari viturlega að ráði sínu á hverju hausti í penings ásetningi, ekki sízt hjer á Norðurlandi, þar sem veturnir verða stundum svo þungir, að fjenaður manns má í sumum sveitum sitja inni við hey í margar vikur.

Því virðist mjer, að þessi góða heilræða regla: „að setja forsjállega á heybyrgðir sínar," sje ekki of opt kveðin, þó menn áminntu hver annan á hverju hausti að setja vel á, og tækju þannig undir hrópandi raddir amtmannsins og hreppsnefndanna til þeirra, sem er ábótavant í því efni.

Og jafnvel þó jeg viti að lítill gaumur verði gefinn orðum mínum, hefur mjer þó komið til hugar að lýsa:

1. Óforsjálni þeirri, sem loðir við allt of marga í þessu efni, ef einhver kynni að leiðast til að forðast hana,
2. Þeim ófarsælu afleiðingum, sem illur ásetningur hefur á búskapinn, og
3. Seinast, (enn einu sinni) áminna menn að gæta allrar forsjálni í þessu efni; og þó ekki væri utan 1 af 10 sem þetta hefði verkun hjá, þætti mjer þessum línum vel varið.

1. Það er langt síðan að sú villa hefur náð rótum í hugsunarhætti allt ofmargra Íslendinga, að setja ofdjarft á heyföng sín. Því þegar maður sjer árbækur landsins, sjer hann þar optlega hvernig peningur manna hefur fallið af heyþroti, strax og brugðið hefur því blíðasta; jafnvel eptir góðan vetur, hafi vorskorpur komið, má sjá, að fallið hefur fje og hestar hrönnum saman. Af því má ráða, hvernig ásetningur þeirra manna muni verið hafa. Þessa óforsjálni í búskapnum hafa hyggnir menn á seinni árum leitazt við að uppræta; hafa því sumir eptir eigin sannfæring, og stundum eptir boði yfirvaldanna, leitazt við að leiða aðra til að forðast þessi búnaðarspjöll. Og nú hefur amtmaður vor, sem kunnugt er, gjört sjer alvarlegt far um, að koma mönnum til að hirða vel skepnur sínar, og setja forsjállega á heyföng sín, og þessu til framkvæmdar sett nefnd manna í hverjum hrepp, og boðið þeim að brýna þetta málefni fyrir bændum eptir hverrar sveitar ásigkomulagi. Í þessar nefndir eru kosnir beztu og forsjálustu menn í hverri sveit, sem trúað er fyrir að ganga á undan öðrum bændum með góðu eptirdæmi í fjárhirðingu og ásetningi, auk þeirra áminninga og ráðlegginga, sem þeir eiga að láta hljóma fyrir þeim. — Allt fyrir þetta sýnist eins og ofmargir daufheyrist enn við þessum hrópandi röddum, því á næstliðnu vori varð fjöldi manna heyþrota bæði fyrir kýr og fje, og var þó næstliðin vetur hinn jarðsælasti í flestum sveitum hjer nyrðra; og sjá allir hvaða ásetningur það er, eptir bærilegan vetur, að þola ekki þó vorhret komi. Það má á slíku sjá, hvort menn hafa fallizt á ráð hreppsnefndanna, að búast við vetri í harðara lagi, og hvort ekki hefði orðið farsælla að hlýða þeim; því jeg gjöri ráð fyrir, að fæstir hafi látið það hjá líða að áminna og ráðleggja, jafnvel þó jeg hafi heyrt, að þeir hreppsnefndarmenn væru til, sem vildu sem minnst um ásetning tala, eins og hitt, að sumstaðar hafi þeir sjálfir orðið heyþrota; og þá væri ekki furða þó bændum þeim, sem hætt er við að setja offrekt á, kynni að finnast þungt að hlýða því, sem hinir ekki sjálfir hlýða En það eru líkindi, að hreppsnefndirnar láti sig

ei þetta optar henda, annars missa þær álit sitt, og verða að setjast á bekk með hinum óforsjálu bændum.

það er nokkuð undarlegt, að þessi villa, að setja of frekt á, hendir opt þá menn, sem eru þó ráðdeildarmenn í öðru, og kemur það til af ofmiklum áhuga að eiga margt fje, og tekst það sumum furðanlega, sem búa á landgóðum jörðum; en hinum, sem búa á ljettings jörðum, er voðinn vís.

Hinum fátæku er það að sönnu nokkuð vorkennandi, þó þeim hætti til að setja of frekt á, því þeim finnst, að þeir megi ekki eiga færra en þeir tiltaka, ef þeir eigi að komast af, þeir vona, að þessi og þessi veturinn verði bærilegur, og treysta því að geta treynt lítið fóður. En samt er öll þeirra ástæða á sandi byggð, og ekki til annars, ef til vill, en að steypa þeim í vesæld og volæði

2. **Eru þær illu afleiðingar, sem of frekur ásetningur hefur á búskapinn.**

Ein af þeim illu afleiðingum af of frekum ásetning er sú: að þegar maður hefur oflítið fóður fyrir ær sínar, verður hann að minnka það þegar hann ætti að auka það, sem er á vorin, gagnstætt því sem á að vera. Atli vill láta auka ærfóður á hverjum mánuði úr því kemur góe, en hjer verður að breyta þvert á móti, því þó bóndi myndi ekki til þess að hausti, að efnin hljóta að ráða, sjer hann nú að þetta hlýtur þó svo að vera. Af þessu flýtur, að ærnar búast illa undir burð, og verða, þó þær tóri, magrar og manusberar, týna ullunni fyrir tímann; lambið, ef það annars lifir, verður lítið og vesælt, fullt af lús og óþrifum. Eptir fráfærurnar þolir ærin hvorki storm nje vætu, og má þá geta nærri hvernig mjólkurdropi sá, sem í henni kynni að vera, muni við haldast. Að hausti verður hún bæði mögur og ullar þunn, og þegar hún á nú ekki von á öðru enn litlu fóðri má nærri geta, hvernig skepnan verður ár eptir ár. Og sama verður upp á með lamba-eldið; þegar kindin fyrsta og annan veturinn fær ofnaumt fóður, verður aldrei úr henni skepna til nokkurra afnota; þannig kemst rýrð í allan fjenað þess, sem of frekt setur á, búskap hans til ómetanlegs skaða; og hvað er þá náttúrlegra en af ljelegum ávexti fjárins fram komi búsvelta, sem knýr bóndann að safna skuld á skuld ofan, svo framt hann hefur að framfæra töluverða fjölskyldu.

Sama verður niðurstaðan með nautgripa-eldið. Ætli maður kúm sínum oflítið fóður eður illt, tekur hann helberan skaðann í staðinn. það hefur einn gamall bóndi sagt mjer, að hann eitt sinn hafi lent í heyþroti fyrir 3 kýr, sem hann átti, svo hann varð að sleppa þeim út ofsnemma í vorkulda veður, hvar af þær urðu nytlausar, og sagðist hann hafa liðið vissan 10 rd. skaða á hverri kú, og var það ekki smáræðis búskapar tjón. Sami maður fullyrti líka, að bændur þeir, sem of frekt setta á, svo ær þeirra yrðu magrar, þannig að undir sumum tórði með veikum burðum, en undan sumum misstist, liðu meira en ríkisdals tjón á hverri á, og get jeg vel fallizt á það. En það er meinið, að menn hafa ekki tök á að bera saman arð af vel og illa fóðruðum pening. Jeg þykist vera sannfærður um, að 20 ær vel hirtar og vel fóðraðar, verði betri til allra afnota en 30 og máske fleiri illa hirtar, einkum í landljettum sveitum því í kjarngóðum sveitum vekar það minna á afnotin þó graunt verði, sje það ekki um of. það er enn einn ókostur við magurt og illa hirt fje, og sama um kýr, að maður má eins tíunda það sem hitt og svara af því. Hreppstjórarnir kenna bændum sjálfum vanhirðing þessa, sem satt er, þegar þeir ekki vilja fallast á ráð góðra manna, og gjalda þeir þá villu sinnar.

3. Jeg skora því fast á alla bændur og einkum þá, sem að undan förnu hefur hætt við að setja of frekt á, að fari nú hyggilega að ráði sínu á þessu hausti í penings ásetning. Látið ekki, bændur góðir! þá völtu von glepja yður (sem opt hefur brugðizt), að vetur kunni að verða bærilegur, fallizt heldur á ráð hreppsnefndanna, sem segja yður að setja svo á, sem von sje á vetri í harðara lagi, vílið ekki fyrir yður að skera nokkrum kindum fleira í haust, svo því sje betur borgið sem eptir er, og þjer þurfið ekki með nagandi samvizku fyrir óframsýni yðar, að sjá upp á skepnur yðar, horaðar og ullarlausar kveljast úti í vorkulda og hretum á næsta vori, og máske missa lífið. Gætið þess, að heyin verða kannske ljett og mikilgæf sem víða hafa hrakist í óþurrkum í sumar

Hugsið um, að þjer ekki ónýtið fyrir sjálfum yður ávöxt af hinni allra dýrmætustu vinnu yðar, sumarvinnunni, og munið nú strax eptir því, að efnin hljóta að ráða! Og þjer, hreppsnefndarmenn! sje það satt, að einhvern yðar hafi hent það að komast í heyþrot á næstliðnu vori, sjáið

til að yður hendi það ekki optar, svo að þjer getið staðið með sóma í þeirri stjett, sem þjer eruð í settir! Ef að þjer viljið, bændur góðir, fallast á ráð mín, þá getið þjer gjört yður ár úr óárinu, með því að hafa nóg handa skepnum yðar að vorinu hvernig sem viðrar. Það eru þau vopn sem þjer eigið að beita móti óblíðu náttúrunnar, svo hún leggi yður ekki með öllu yðar að velli; þjer getið þá, hvernig sem viðrar, umgengizt skepnur yðar með glaðri samvizku, vissir um siguriun, og sjeð þær með ánægju í góðu standi búast undir að sýna yður þann ávöxt, sem þjer eptir sveitarinnar ásigkomulagi getið eptir vænt af vel hirtum og vel fóðruðum skepnum; og um fram allt, munum allir eptir því, að það er stór synd að fara öðruvísi en vel með skynlausu skepnurnar, sem vjer höfum undir höndum, þessar bjargræðis skepnur vorar, sem guð hefur gefið oss til að fæða oss og klæða; því hann sem hefur skapað þær nærir, vill að þeim vegni vel eins og oss.

**Bóndi í Norðurlandi.**

---

(Aðsent). Jafnvel þó jeg ekki hefði ætlað mjer, að rita neitt opinberlega um fjárkláðann nokkra stund, eptir að jeg fór af þingi í fyrra, heldur að láta tímann og reynsluna segja mjer til í þessu vandasama máli, þá finn jeg mjer nú samt skylt að svara nokkrum orðum, bæði mín og annara Rangæinga vegna, upp á brjef Hreins bónda Guðlaugssonar á Sperðli, sem prentað er í 14. og 15. blaði Hirðis. — Með brjefi þessu vill Hreinn bera móti því, að hinn pestnæmi fjárkláði hafi flutzt með fje sínu frá Árness inn í Rangárvalla sýslu, og ber fyrir, að hann hafi verið kominn hjer áður, og segir kláðasýkin hafi fyrst til sín flutzt í sauð frá Bolholti, og svo hafi hún verið upp komin á fleiri bæjum, þegar hann kom hjer austur með fje sitt. Jeg hefi gjört mjer ómak fyrir, að grenslast nákvæmlega eptir þessu; og er þá fyrst með Bolholts-sauðinn, að Brynjólfur bóndi þar, sem verið hefur einhver mesti fjáreignar, og undir eins bezti fjárgæzlu maður, hefur þvertekið fyrir, að nokkur kláðavottur hafi sjest á nefndum sauð, þegar hann hafi verið rekinn frá sjer til Hreins, og ekki heldur í neinu sínu fje það haust, og ekki fyr en seint á sumri 1857, að kláðinn kom til hans frá nágrannafjenu í Svínhaga. Sama segir Runólfur í Bakkakoti, að enginn kláði hafi fundizt í kindum þeim, er hann það haust skar af Holtamanna afrjett. Lambið í Akurey, sem Hreinn nefnir, var skorið hraust og heilbrigt í haust, sem leið, eður ári seinna, og í Akurey hefur enn ekki orðið vart við kláðasýkina — um ána í Unhól hef jeg fyrir mjer frásögn læknis herra Sk. Thorarensens, sem segist hafa þreifað um hana undir eins og Hreinn, og hefði það verið í hálfdimmu, svo hvorugur þeirra hefði getað sjeð kláðann, og hefði fundizt nokkurt þref í herðakambi hennar og lærum, en þó miklu minna en Hreini segist frá. Þess hafa menn opt orðið varir, að þar sem fje gengur á sumrum í votlendum mýrarhögum, fær það, einkum ungviði, í rosasumrum vatnskláðaþref um fætur og læri; og að kláðaþref þetta hafi ekki næmt verið, sýnir það, að en er ekki kláðasýkin komin í Þykkvabæinn. Það er því enn sem fyr álit mitt, og jeg held með mjer allra Rangæinga, að Hreinn hafi flutt kláðasýkina í fje sínu hingað í sýsluna. Hann segist ekkert hafa vitað af banni yfirvaldsins, til að flytja hingað fjeð fyr en hann var nærri kominn heim. Þetta held jeg hann segi jafn ósatt sem sumt annað, þó honum kunni ekki að hafa verið birt það, á þann lögformlegasta hátt. Líka er það í mæli, að Hreinn hafi sjálfur flutt dilka sína austur yfir Þjórsá, og þá fyrst hafi ærnar lagt, og svo fjeð á eptir. Það er nokkuð undarlegt, að Hreinn gengur þegjandi fram hjá því, að þegar hann kom með fjeð, var það strax tilkynnt sýslumanni, og gjörði hann þegar þá fyrirskipun, að setja fjeð í vöktun, og skera það niður, og fól hlutaðeigandi hreppstjóra að sjá um framkvæmdina. En þar Hreinn var harðfengilega mótsnúinn því, að selja fram fjeð (Hreppstjórinn var mágur hans, og ekki mun þá hafa ejeð á því) varð skipun þessi ekki framkvæmd. — Þess getur Hreinn ekki, hvað lengi Bolholts sauðurinn var með fje sínu, áður hann skar hann, en það byggi jeg á sögnum trúverðugra manna, er búa nærri honum, og þar á meðal bróður hans, Magnúsar bónda Guðlaugssonar á Kálfsstöðum, að kláðasýkin hafi fyrst komið í ljós á Hreins eigin hrút, er hann kom með utan úr Árnessýslu og síðan smámsaman steypzt yfir fje hans hvað af öðru, og um sama leyti fór að bera á kláða á bæjum þeim, þar sem menn höfðu verið svo skeytingarlausir, að fá hrúta hjá Hreini, Hóli og Svínhaga. — Það er sennilegast, að Hreinn í upphafi, með að reka fje sitt úr sýktu hjeraði í annað ósýkt, hafi gjört það af fávizku og kappi, og hugsað ekki mundi til saka, því ekki hefur hann með ásetningi viljað gjöra sjálfum sjer tjón. Samt var þetta gífurlegt frekjuverk, og hefur margur sætt hegningu, sem að minna hefur raskað almennri heill fjelaga sinna, og því fremur sem Hreini það haust var hægt að selja fje sitt með fullu verði á Eyrarbakka, og kaupa fje aptur. En að hann nú, þegar hann síðar fór að sjá afleiðingar þessara gjörða sinna, ritar þetta framannefnda brjef — hvort sem „andinn“ hefur skotið honum sjálfum þessu fyrst í brjóst, eða honum verið þar til leiðbeint af öðrum stendur á sama, því nú verður hann að bera ábyrgðina — þá má segja þar um, eins og skáldið sagði um Júdas: „þessi þó var hans villa verri,“ o. s. frv.; utan hvað Hreinn sýnist ganga hjer fram til forherðingar, þar sem Júdas gekk til örvæntingar. — Þetta brjef Hreins taka útgefendur Hirðis fyrir hreinan sannleika, jafnt fyrir því, þó maðurinn sje sjálfur málspartur, og því óhæfilegt vitni í eigin sök, þar sem þeir þó áður höfðu vefengt löglega tekin vitni í sama málefni; og svo halda þeir mikla hrókaræðu, hvað Hreini hafi verið rangt gjört, fyrst af sýslumanni og svo fleirum sýslubúum. En hvað veldur því, að þeir ekki hafa gefið út brjefið frá Jóni í Svínhaga, sem þeir þó líka beiddust eptir? Kannske það sje þess vegna, að þar mun vera sagt frá, eptir beztu þekkingu, að kláðasýkin muni hafa flutzt þangað með kindum frá Hreini. — Ekki þarf að finna að því, að Hirðir beri ekki fram lækningakenningar

sínar með nægum alvörusvip; en það er bágast, hvað víða honum bregður til, að segja ósatt. Hann segir, að kláðasýkin hafi í fyrra verið komin upp undir Eyjafjöllum og í Skaptafellssýslu, en reynslan sýnir, að enn í dag verður þar ekki vart við hana. En hjer fyrir vestan Markarfljót má rekja feril hennar frá Hreini, bæði í Út-Landeyjum og eins að Svínhaga, og þaðan um alla Rangárvelli, Hvolhrepp og Fljótshlíð, hvar fje á sumrum hefur miklar samgöngur. — Þegar skorið var niður í Svínhaga, var gemlingunum hlíft, því það var borið fyrir, að þeir hefðu verið inni mestan hlut vetrar, og ekki komið nærri fullorðnu fje; en síðan hefi jeg fengið nokkurn veginn vissu fyrir, að um veturinn í hörkunum hefði nokkrum ám verið gefið inni með þeim um tíma; en þessu var þá leynt.

Hvað skyldi Hirðir ávinna með þeim sögum, að segja kláðasýkina fyrir löngu komna þar, sem enn ekki verður vart við hana, stinga því sem honum geðjast ekki undir stól, þó frá sje sagt eptir reynslu og beztu vitund, en halda því á lopt, sem honum þóknast, þó þar sje varla eitt orð satt í? Ætli ekki fari fyrir honum eins og þeim einstökum manni, er gjörir sig kunnan að því, að segja ósatt af kæruleysi eða ásetningi, að menn fara að hætta að trúa honum; og þó stundum kunni að slæðast eitthvað af sannindum í frásögn hans, þá voga menn ekki að trúa því heldur, fyr en ef menn síðan þreifa á, að þetta hafi verið satt. — Hirðir leitast við, að þoka sjer upp í efsta alsherjar dómsæti, og þó honum kunni ekki að takast það, þá kveður hann samt upp alsherjar dóm yfir öllum niðurskurðarmönnum, lifandi og dauðum, kallar þá djöful-óða, sjergæðingsfulla þverhöfða, og öðrum illum nöfnum, og því hljóti hegningin að hvíla á þeirra herðum; en alla lækningamenn tekur hann inn í ríki sitt og stjórnarinnar, og lofar þeim þar vegsemd og heiðri, ærukrossum og allri dýrð. En þar jeg held, hann hafi ekki náð hærra sessi, en dómsæti heimsins barna, þá vil jeg minna hann á hið forna heilræði, sem hann annaðhvort hefur gleymt eða forsmáð. „Dæmið ekki hart,“ o s frv. Hirðir skopast að fávizku og hjátrú alþýðu á átjándu öld, fyrir að hafa álitið fjárkláðann þá syndastraff, en þó flæðir hann sjálfur á sama skeri, þegar hann segir: „Eptir að rasað var með djöfulæði að niðurskurðinum, þá komu verðlaunin, þá opnaði jörðin iður sín, og spjó eldi og eyðileggingum.“ o. s. frv. Hirðir segir, að lagalausri og vitlausri skipun yfirvalda þurfi enginn maður að hlýða, og eitthvað þurfi meira en amtmanns úrskurð til að leggja nýja skatta á bændur, ef allt skuli að lögum fara; en skömmu síðar sezt hann á suðuramts ráðstefnu, víst fremri hlutinn — um skottið veit jeg síður, þó það sje sennilegast að halda, að það þá hafi fylgt bolnum —. Á þessari ráðstefnu fæddist hið merkilega umburðarbrjef, er hjer gekk um sýsluna á þessu vori; þess innihalds: „Að allir búendur Rangárvallasýslu skylduðust að sækja og kaupa svo mikil kláðameðöl, að allt sauðfje í sýslunni yrði tvisvar og sumt þrisvar baðað, og því aflokið fyrir Jónsmessu; það sem á ullu væri, skyldi klippast,“ — þó menn hvorki kynnu það, eða hefðu þar til hentug verkfæri — „setja fjeð í varðhald á afskekktu svæði, meðan á böðuninni stæði, og síðan hafa það í vöktun allt sumarið í heimahögum, hver á sinni lóð. Allir sem óhlýðnuðust, skyldu sæta sektum, fyrst hreppstjórar, sem áttu að hafa forgönguna, eptir ástæðum allt að 200 rd., og svo nefndarmenn og aðrir eptir ástæðum minna“. — En engin ráðstöfun er gjörð til að verja samgöngum milli sýslnanna Rangárvalla og Skaptafells, því ekki var svo djúpt hugsað, að einhver kind kynni að sleppa úr vöktun Rangælinga og komast svo í fje Skaptfellinga. — Þó skipun þessi gæti orðið framkvæmd í ytri sýslunum, þar sem þeir, er nokkuð sauðfje eiga, höfðu sárfátt, og voru orðnir vanir böðunarskolpinu, þá var allt öðru máli að gegna með Rangárvallasýslu, þar sem fjáreign manna var enn lítið fækkuð, heimalönd víða lítil, og í sumum hreppum þröngbýli mikið. Hefði hver búandi átt að reyna að vakta fje sitt á eigin lóð, svo ekki hefði komizt yfir á nágrannans, þá hefði hjá sumum því ekki orkað allt þeirra verkafólk, þó menn hefðu gefið frá sjer sláttinn; og svo hefði fjeð með þessari tróðun orðið rigborað, og miklu lakara en að vorinu, þar sem það gekk bærilega fram — En að telja kostnað allan við meðalakaup og flutning, erviði og umstang við böðin; það væri víst ekki ófróðlegt að sjá, ef einhver reyndi til, að gjöra áætlunarreikning þar yfir, og leggja til grundvallar kostnað yfir það, sem hjer hefur verið gjört; og svo að sýna, hvernig þetta hefur verið meðhöndlað í framkvæmdinni. — Hvað er að leggja á nýja skatta, og einn hinn gífurlegasta, sem lagður hefur verið á í einu á Rangárvallasýslu, síðan hún fyrst byggðist, og hvað er að gjöra vitlausar skipanir, ef ekki þetta? Og er það ekki furða, að skömmu eptir að Hirðir hafði reynt til að stálsjóða Vesturamtsbúa, að hlýða svo bezt amtmanni sínum, að allt kæmi frá honum í rjettum sniðum, þá skuli hann verða æðsti ráðanautur amtmanns síns, og vera að nafninu íslenzki hlutinn, og því að líkindum þekkja betur til, hvernig stóð á, en útlendir menn, að hann þá skuli leggja til með, að gjörðar sjeu slíkar ráðstafanir. Það er því svo að sjá, að Hirði sje ekki eins annt um, að öðrum sje hlýðni sýnd, eins og sjer; en það er bágast, að hann hefur ekki lag á að skipa. Hvar skyldi hann hafa numið þessa fræði? — Hirði mátti þó vera kunnugt, að Rangæingar gætu enn ekki haft fullt traust á lækningakenningum hans, því kunnugt var þeim hæði fyrir sjón og heyrn, hvernig þær enn misgáfust í vestursýslunum, eptir næstum 2 ára tilraunir, og svo var dálkurinn um sjúka fjeð í Hirðir sjálfum órækt vitni, því menn þóttust vissir um, að það mundi þó vera ósjúkt, sem hann segir frá.

Þar eð nú lækningarnar eptir næstum 2. ára tilraunir misheppnast mjög, þá bendir það til þess, að örðugt muni veita, að útrýma sýkinni fullkomlega; utan ef verða kynni á sárfáum kindum með löngu tíma bili; og verður þá fyrst að lækna margt með hnífnum. Jeg get því enn ekki sjeð, að sú aðferð verði happasælli fyrir almennings heill, en algjörður niðurskurður hins sýkta fjár. Tíminn og reynslan verða að skera úr því, og það er eptiröldin, sem fær verður að kveða upp sanngjarnan dóm í þessu efni.

Árkvörn 10. dag júlím. 1858.

P. Sigurðsson.

---

Það sem við hreppstjórar í Álptaneshrepp auglýstum í 10. ári Þjóðólfs 4.—5. blaði 20. bls,

„að 16 börnum hefði batnað barnaveikin (andarteppuhóstinn) af homöopatha meðölunum frá sjera Magnúsi á Grenjaðarstöðum“, hefur nú gefið dr. Hjaltalín tilefni til að rita greinina, sem lesa má seinna í sama árgangi Þjóðólfs 8 —9. blaði 35. bls. og dagsett er 7. desember 1857.

Í þessari grein sinni kallar herra landlækn-irinn okkur hreppstjórana í skopi „spámenn“ svo sem til að sýna, að við höfum ekki þekkt veikina, og til að gjöra okkur um leið að ósannindamönnum, en þetta getur hann ekki, þegar rjett og satt er frá sagt; og skal jeg nú með fæstu orðum reyna til að færa sönnur á það.

Þegar barnaveikin í ágústmánuði í sumar sem leið fór að stinga sjer niður hjer á Álptanesi, þurftum við ekki að vera í efa um, hvort veiki þessi væri „kvef“ — eins og dr. Hjaltalín nefnir hana í áminnstri grein sinni — ellegar hin hættulega barnaveiki, þar sem við, eins og fleiri hjer syðra, höfðum í höndum ritgjörð hans sjálfs um einkenni og meðferð á henni. Og hvernig fór nú, þegar til hans var leitað, og fyrstu börnin veiktust? Af þeim 6. sem hans ráð eða allopatha meðölin voru brúkuð við, dóu 3 börnin. Var þá hætt við allopatha meðölin og farið að brúka meðöl sjera Magnúsar, hverju síðan hefur verið framhaldið, og hafa þau gefizt svo vel, að af milli 30 og 40 barna, sem þau hafa verið reynd við, hafa ekki dáið nema 2 börn, og þó mjög líklegt að þessum börnum hefði mátt batna sem hinum, hefðu meðölin verið í tíma brúkuð og fyrirskipuðum varúðarreglum fylgt, en hvorugu þessu varð þar viðkomið. Þetta er nú orðið alkunnugt hjer syðra um nesin og víðar, og bæði jeg og aðrir sem sjeð hafa hvað börnin hafa tekið út í veikinni, geta ekki orðið samdóma landlækninum í að kalla hana „kvef“. Og svo mikið veit jeg, að honum sjálfum hlýtur ekki að vera ókunnugt um barn H. Linnets í Hafnarfirði, sem búið var að brúka allopatha meðölin við til ónýtis í 24 stundir, að því batnaði af homöopatha meðölunum; og var það þó mjög hætt komið, þegtil þeirra náðist. En herra Hjaltalín er hjer — eins og í fleiru sem hann ritar — í mótsögn við sannleikann og líka sjálfan sig. Hann kallar barnaveikina „kvef“, þegar hann heyrir og veit að börnunum hefur batnað af homöopatha meðölunum, en sje meðala leitað til hans, þá er þetta kvef allt í einu orðið að barnaveiki, og þá ber hann því ekki við, að menn þekki hana ekki eða fari með ósannindi. Eða í hverju skyni skyldi hann þá vera að láta út meðöl við því, sem hann álítur meinlaust kvef og batnað getur án þeirra, ef hann hefði ekki gagnstæða sannfæringu? Eða ef barnaveikin, eins og hann kallar hana í áminnstri grein sinni, er nú látin heita „kvef“, þá má spyrja: hvers vegna gengur honum svo illa að lækna það, og miklu miður en homöopöthunum, þar sem 13 hafa dáið hjá honum af 30 veikum börnum einungis í Reikjavíkursókn, (sjá „Vísindin, reynslan og homöopatharnir) og munu þó fleiri börn bæði þar og víðar, hvar hans ráðum hefur verið fylgt, hafa dáið síðan að nefnd skýrsla var gefin.

Það er nú engan veginn tilgangur minn með þessum vitnisburði að gjöra lítið úr dr. Hjaltalín sem lækni yfir höfuð, heldur einungis benda á, hvernig hann leyfir sjer að rangfæra og berja niður sannleikann í því sem snertir homöopathana; og jeg finn það skyldu mína að láta þá njóta sannmælis að því leyti sem jeg hefi sjálfur sjeð og reynt verkun meðala þeirra, og það því fremur, sem jeg er einn af þeim, sem næst guðs hjálp eiga að þakka þeim lækningu barna sinna.

Gesthúsum á Álptanesi 16. júlí 1858.

**Sigurður Arason.**

---

Það er alkunnugt hvílíkt ófrelsi og áþján liggur á bændastjettinni í Rússlandi, og hversu mannfrelsið er þar fótum troðið; en þó er þetta með ýmsu móti í þessu hinu víðlenda ríki. Í löndunum við Eystrasalt er mannþrælkun sú, að maðurinn sje bundinn við fæðingarstað sinn [1] fyrir löngu af numin. Í Pólínalandi er bóndinn frjáls, en á honum hvílir mikil skylduvinna, því þar eru mest megnis höfuðból, sem mörg leigulönd liggja undir, og eiga leiguliðar að vinna ærna skylduvinnu á heimabólunum, á sinn hátt viðlíka og dagslættir eru hjá oss. Þar vantar því ekki annað, til að auka frelsi bóndans, en að setja hæfilegt peningagjald fyrir skylduvinnuna, og að stutt sje að því, að jarðirnar skiptist jafnar til smáeigna. En í sjálfu Rússlandi eru tveir flokkar þjáðrar alþýðu, þeir sem bundnir eru við jörðina og akuryrkju, og þeir, sem með leyfi eigenda sinna starfa í verksmiðjum, eða stunda handiðn, eða eru við verzlun. Hinir fyr nefndu eru í algjörlegri þrælkun, og ganga mansali, þegar jörðin er seld, en hinir gjalda eigendum „obrok“, þ. e. nokkurs konar skattur, sem eigandi leggur á þá eptir eigin geðþótta, og einatt er miðaður við það, hve mikið maðurinn er fær um að gjalda; svo að sá, er aflar, eignast ekki því meira því meiri gagnsmaður sem hann er, heldur er tekið af hverjum eptir því sem efni hans leyfa. Þó eru nú þessir miklu betur farnir en bændurnir, því margir af hinum hafa góða atvinnuvegi, og ef að eigendur þeirra setja þeim hóflegt „obrok“, geta þeir opt orðið efnamenn og

---

[1]) *Stavnsbundne* (glebæ adscripti) kallast þeir menn, sem fylgja jörðinni, sem þeir eru fæddir á, eins og annað kúgildi. Eru þeir með öllu sínu hyski eign jarðareigandans, og ganga því í kaupum og sölum ásamt jörðunni. Þegar talað er um ríka menn í Rússlandi, er sá talinn auðugastur sem flesta bændur á; og stundum spila höfðingjar þar um marga bændur í einu með húsi og heimili.

sínar með nægum alvörusvip; en það er bágast, hvað víða honum bregður til, að segja ósatt. Hann segir, að kláðasýkin hafi í fyrra verið komin upp undir Eyjafjöllum og í Skaptafellssýslu, en reynslan sýnir, að enn í dag verður þar ekki vart við hana. En hjer fyrir vestan Markarfljót má rekja feril hennar frá Hreini, bæði í Út-Landeyjum og jafnvel að Svínhaga, og þaðan um alla Rangárvelli, Hvolhrepp og Fljótshlíð, hvar fje á sumrum hefur miklar samgöngur. — Þegar skorið var niður í Svínhaga, var gemlingunum hlíft, því það var borið fyrir, að þeir hefðu verið inni mestan hlut vetrar, og ekki komið nærri fullorðnu fje; en síðan hefi jeg fengið nokkurn veginn vissu fyrir, að um veturinn í hörkunum hefði nokkrum ám verið gefið inni með þeim um tíma; en þessu var þá leynt.

Hvað skyldi Hirðir ávinna með þeim sögum, að segja kláðasýkina fyrir löngu komna þar, sem enn ekki verður vart við hana, stinga því sem honum geðjast ekki undir stól, þó frá sje sagt eptir reynslu og beztu vitund, en halda því á lopt, sem honum þóknast, þó þar sje varla eitt orð satt í? Ætli ekki fari fyrir honum eins og þeim einstökum manni, er gjörir sig kunnan að því, að segja ósatt af kærnleysi eða ásetningi, að menn fara að hætta að trúa honum; og þó stundum kunni að slæðast eitthvað af sannindum í frásögn hans, þá voga menn ekki að trúa því heldur, fyr en ef menn síðan þreifa á, að þetta hafi verið satt. — Hirðir leitast við, að þoka sjer upp í efsta alsherjar dómssæti, og þó honum kunni ekki að takast það, þá kveður hann samt upp alsherjar dóm yfir öllum niðurskurðarmönnum, lifandi og dauðum, kallar þá djöful-óða, sjergæðingafulla þverhöfða, og öðrum illum nöfnum, og því hljóti hegningin að hvíla á þeirra herðum; en alla lækningamenn tekur hann inn í ríki sitt og stjórnarinnar, og lofar þeim þar vegsemd og heiðri, ærukrossum og allri dýrð. En þar jeg held, hann hafi ekki náð hærra sessi, en dómssæti heimsins barna, þá vil jeg minna hann á hið forna heilræði, sem hann annaðhvort hefur gleymt eða forsmáð. „Dæmið ekki hart," o s frv. Hirðir skopast að fávizku og hjátrú alþýðu á átjándu öld, fyrir að hafa álitið fjárkláðann þá syndastraff, en þó flæðir hann sjálfur á sama skeri, þegar hann segir: „Eptir að rasað var með djöfulæði að niðurskurðinum, þá komu verðlaunin, þá opnaði jörðin iður sín, og spjó eldi og eyðileggingum." o. s. frv. Hirðir segir, að lagalausri og vitlausri skipun yfirvalda þurfi enginn maður að hlýða, og eitthvað þurfi meira en amtmanns úrskurð til að leggja nýja skatta á bændur, ef allt skuli að lögum fara; en skömmu síðar setzt hann á suðuramts ráðstefnu, víst fremri hlutinn — um skottið veit jeg síður, þó það sje sennilegast að halda, að það þá hafi fylgt bolnum —. Á þessari ráðstefnu fæddist hið merkilega umburðarbrjef, er hjer gekk um sýsluna á þessu vori; þess innihalds: „Að allir búendur Rangárvallasýslu skylduðust að sækja og kaupa svo mikil kláðameðöl, að allt sauðfje í sýslunni yrði tvisvar og sumt þrisvar baðað, og því aflokið fyrir Jónsmessu; það sem á ullu væri, skyldi klippast," — þó menn hvorki kynnu það, eða hefðu þar til hentug verkfæri — „setja fjeð í varðhald á afskekktu svæði, meðan á böðuninni stæði, og síðan hafa það í vöktun allt sumarið í heimahögum, hver á sinni lóð. Allir sem óhlýðnuðust, skyldu sæta sektum, fyrst hreppstjórar, sem áttu að hafa forgönguna, eptir ástæðum allt að 200 rd., og svo nefndarmenn og aðrir eptir ástæðum minna". — En engin ráðstöfun er gjörð til að verja samgöngum milli sýslnanna Rangárvalla og Skaptafells, því ekki var svo djúpt hugsað, að einhver kind kynni að sleppa úr vöktun Rangæinga og komast svo í fje Skaptfellinga. — Þó skipun þessi gæti orðið framkvæmd í ytri sýslunum, þar sem þeir, er nokkuð sauðfje eiga, höfðu sárfátt, og voru orðnir vanir böðunarskolpinu, þá var allt öðru máli að gegna með Rangárvallasýslu, þar sem fjáreign manna var enn lítið fækkuð, heimalönd víða lítil, og í sumum hreppum þröngbýli mikið. Hefði hver búandi átt að reyna að vakta fje sitt á eigin lóð, svo ekki hefði komizt yfir á nágrannans, þá hefði hjá sumum því ekki orkað allt þeirra verkafólk, þó menn hefðu gefið frá sjer sláttinn; og svo hefði fjeð með þessari tröðun orðið rígborað, og miklu lakara en að vorinu, þar sem það gekk bærilega fram — En að telja kostnað allan við meðalakaup og flutning, erviði og umstang við böðin; það væri víst ekki ófróðlegt að sjá, ef einhver reyndi til, að gjöra áætlunarreikning þar yfir, og leggja til grundvallar kostnað yfir það, sem hjer hefur verið gjört; og svo að sýna, hvernig þetta hefur verið meðhöndlað í framkvæmdinni. — Hvað er að leggja á nýja skatta, og einn hinn gífurlegasta, sem lagður hefur verið á í einu á Rangárvallasýslu, síðan hún fyrst byggðist, og hvað er að gjöra vitlausar skipanir, ef ekki þetta? Og er það ekki furða, að skömmu eptir að Hirðir hafði reynt til að stálsjóða Vesturamtsbúa, að hlýða svo bezt amtmanni sínum, að allt kæmi frá honum í rjettum sniðum, þá skuli hann verða æðsti ráðanautur amtmanns síns, og vera að nafninu íslenzki hlutinn, og því að líkindum þekkja betur til, hvernig stóð á, en útlendir menn, að hann þá skuli leggja til með, að gjörðar sjeu slíkar ráðstafanir. Það er því svo að sjá, að Hirði sje ekki eins annt um, að öðrum sje hlýðni sýnd, eins og sjer; en það er bágast, að hann hefur ekki lag á að skipa. Hvar skyldi hann hafa numið þessa fræði? — Hirði mátti þó vera kunnugt, að Rangæingar gætu enn ekki haft fullt traust á lækningakenningum hans, því kunnugt var þeim hæði fyrir sjón og heyrn, hvernig þær enn misgáfust í vestursýslunum, eptir næstum 2 ára tilraunir, og svo var dálkurinn um sjúka fjeð í Hirðir sjálfum órækt vitni, því menn þóttust vissir um, að það mundi þó vera ósjúkt, sem hann segir frá.

Þar eð nú lækningarnar eptir næstum 2. ára tilraunir misheppnast mjög, þá bendir það til þess, að örðugt muni veita, að útrýma sýkinni fullkomlega; utan ef verða kynni á sárfáum kindum með löngu tíma bili; og verður þá fyrst að lækna margt með hnífnum. Jeg get því enn ekki sjeð, að sú aðferð verði happasæli fyrir almennings heill, en algjörður niðurskurður hins sýkta fjár. Tíminn og reynslan verða að skera úr því, og það er eptiröldin, sem fær verður að kveða upp sanngjarnan dóm í þessu efni.

Árkvörn 10. dag júlím. 1858.

P. Sigurðsson.

---

Það sem við hreppstjórar í Álptaneshrepp auglýstum í 10. ári Þjóðólfs 4.—5. blaði 20. bls,

„að 16 börnum hefði batnað barnaveikin (andarteppuhóstinn) af homöopatha meðölunum frá sjera Magnúsi á Grenjaðarstöðum“, hefur nú gefið dr. Hjaltalín tilefni til að rita greinina, sem lesa má seinna í sama árgangi þjóðólfs 8 —9. blaði 35. bls. og dagsett er 7. desember 1857.

Í þessari grein sinni kallar herra landlæknirinn okkur hreppstjórana í skopi „spámenn“ svo sem til að sýna, að við höfum ekki þekkt veikina, og til að gjöra okkur um leið að ósannindamönnum, en þetta getur hann ekki, þegar rjett og satt er frá sagt; og skal jeg nú með fæstu orðum reyna til að færa sönnur á það.

þegar barnaveikin í ágústmánuði í sumar sem leið fór að stinga sjer niður hjer á Álptanesi, þurftum við ekki að vera í efa um, hvort veiki þessi væri „kvef“ — eins og dr. Hjaltalín nefnir hana í áminnstri grein sinni — ellegar hin hættulega barnaveiki, þar sem við, eins og fleiri hjer syðra, höfðum í höndum ritgjörð hans sjálfs um einkenni og meðferð á henni. Og hvernig fór nú, þegar til hans var leitað, og fyrstu börnin veiktust? Af þeim 6 sem hans ráð eða allopatha meðölin voru brúkuð við, dóu 3 börnin. Var þá hætt við allopatha meðölin og farið að brúka meðöl sjera Magnúsar, hverju síðan hefur verið framhaldið, og hafa þau gefizt svo vel, að af milli 30 og 40 barna, sem þau hafa verið reynd við, hafa ekki dáið nema 2 börn, og þó mjög líklegt að þessum börnum hefði mátt batna sem hinum, hefðu meðölin verið í tíma brúkuð og fyrirskipuðum varúðarreglum fylgt, en hvorugu þessu varð þar viðkomið. þetta er nú orðið alkunnugt hjer syðra um nesin og víðar, og bæði jeg og aðrir sem sjeð hafa hvað börnin hafa tekið út í veikinni, geta ekki orðið samdóma landlækninum í að kalla hana „kvef“. Og svo mikið veit jeg, að honum sjálfum hlýtur ekki að vera ókunnugt um barn H. Linnets í Hafnarfirði, sem búið var að brúka allopatha meðölin við til ónýtis í 24 stundir, að því batnaði af homöopatha meðölunum; og var það þó mjög hætt komið, þegtil þeirra náðist. En herra Hjaltalín er hjer — eins og í fleiru sem hann ritar — í mótsögn við sannleikann og líka sjálfan sig. Hann kallar barnaveikina „kvef“, þegar hann heyrir og veit að börnunum hefur batnað af homöopatha meðölunum, en sje meðala leitað til hans, þá er þetta kvef allt í einu orðið að barnaveiki, og þá ber hann því ekki við, að menn þekki hana ekki eða fari með ósannindi. Eða í hverju skyni skyldi hann þá vera að láta út meðöl við því, sem hann álítur meinlaust kvef og batnað getur án þeirra, ef hann hefði ekki gagnstæða sannfæringu? Eða ef barnaveikin, eins og hann kallar hana í áminnstri grein sinni, er nú látin heita „kvef“, þá má spyrja: hvers vegna gengur honum svo illa að lækna það, og miklu miður en homöopöthunum, þar sem 13 hafa dáið hjá honum af 30 veikum börnum einungis í Reikjavíkursókn, (sjá „Vísindin, reynslan og homöopatharnir) og munu þó fleiri börn bæði þar og víðar, hvar hans ráðum hefur verið fylgt, hafa dáið síðan að nefnd skyrsla var gefin.

það er nú engan veginn tilgangur minn með þessum vitnisburði að gjöra lítið úr dr. Hjaltalín sem lækni yfir höfuð, heldur einungis benda á, hvernig hann leyfir sjer að rangfæra og berja niður sannleikann í því sem snertir homöopathana; og jeg finn það skyldu mína að láta þá njóta sannmælis að því leyti sem jeg hefi sjálfur sjeð og reynt verkun meðala þeirra, og það því fremur, sem jeg er einn af þeim, sem næst guðs hjálp eiga að þakka þeim lækningu barna sinna.

Gesthúsum á Álptanesi 16. júlí 1858.

**Sigurður Arason.**

---

það er alkunnugt hvílíkt ófrelsi og áþján liggur á bændastjettinni í Rússlandi, og hversu mannfrelsið er þar fótum troðið; en þó er þetta með ýmsu móti í þessu hinu víðlenda ríki. Í löndunum við Eystrasalt er mannþrælkun sú, að maðurinn sje bundinn við fæðingarstað sinn [1] fyrir löngu af numin. Í Pólínalandi er bóndinn frjáls, en á honum hvílir mikil skylduvinna, því þar eru mest megnis höfuðból, sem mörg leigulönd liggja undir, og eiga leiguliðar að vinna ærna skylduvinnu á heimabólunum, á sinn hátt viðlíka og dagslættir eru hjá oss. þar vantar því ekki annað, til að auka frelsi bóndans, en að setja hæfilegt peningagjald fyrir skylduvinnuna, og að stutt sje að því, að jarðirnar skiptist jafnar til smáeigna. En í sjálfu Rússlandi eru tveir flokkar þjáðrar alþýðu, þeir sem bundnir eru við jörðina og akuryrkju, og þeir, sem með leyfi eigenda sinna starfa í verksmiðjum, eða stunda handiðn, eða eru við verzlun. Hinir fyr nefndu eru í algjörlegri þrælkun, og ganga mansali, þegar jörðin er seld, en hinir gjalda eigendum „obrok“, þ. e. nokkurs konar skattur, sem eigandi leggur á þá eptir eigin geðþótta, og einatt er miðaður við það, hve mikið maðurinn er fær um að gjalda; svo að sá, er aflar, eignast ekki því meira því meiri gagnsmaður sem hann er, heldur er tekið af hverjum eptir því sem efni hans leyfa. þó eru nú þessir miklu betur farnir en bændurnir, því margir af hinum hafa góða atvinnuvegi, og ef að eigendur þeirra setja þeim hóflegt „obrok“, geta þeir opt orðið efnamenn og

[1] *Stavnsbundne* (glebæ adscripti) kallast þeir menn, sem fylgja jörðinni, sem þeir eru fæddir á, eins og annað kúgildi. Eru þeir með öllu sínu hyski eign jarðareigandans, og ganga því í kaupum og sölum ásamt jörðunni. þegar talað er um ríka menn í Rússlandi, er sá talinn auðugastur sem flesta bændur á; og stundum spila höfðingjar þar um marga bændur í einu með húsi og heimili.

stundum stórauðugir. Margir af húsbændum fjeflettu þá nú reyndar miskunnarlaust sem í álnir komast, en aðrir láta sjer lynda og þykir það virðing að hafa slíkan rjett yfir mönnum, og vilja ekki veita þeim frelsi, þó að þeir á hinn bóginn sjeu vægir húsbændur. Saga ein alþekkt í Rússlandi, sýnir þetta mjög ljóst.

Schaluchine hafði um nokkur ár verið þræll Scheremetiefs greifa. Schaluchine var flugríkur kaupmaður, svo að milliónum dala skiptu eigur hans, og bauð hann greifanum 200,000 rúblur (rúbla er hjerumbil 8 mörk) fyrir frelsi sitt, en fjekk það ekki, þó að hann þrábeiddist þess. Hann studdi þó beiðni sína með þeirri ástæðu, er virtist gild, að hann gæti ekki, meðan hann væri ófrjáls, þrátt fyrir alla auðlegð sína útvegað sonum sínum hæfileg kvonföng, því borgarar í Riga — þar sem hann var — vildi ekki gipta þeim dætur sínar, því börn þeirra yrði þá þrælborin og eign greifans. Þó að greifinn neitaði honum nú um frelsi, tók hann þó ekki meira „obrok“ eða skatt af honum en 26 rúblur, því greifinn áleit sjer eigi sóma annað en láta jafnan skatt ganga yfir alla þræla sína. Það varð því að lyktum hending ein, og hún kímileg, er Schaluchine átti að þakka frelsi sitt. Hann hafði gjört sjer tvær ferðir til Pjetursborgar í vetur til að reyna að fá frelsi sitt, og hafði ekkert áunnið. Þriðja skipti kom hann þangað í marzmánuði í vor, og af því hann fjekk sendingu af ostrum (eins konar skelfiskur, mesta sælgæti) daginn áður en hann fór að heiman, tók hann með sjer eina tunnu til að færa greifanum. Þegar hann kom til Pjetursborgar, gekk hann í garð greifans, og hittist svo á, að greifinn sat að morgunverði með vildarmönnum sínum, og voru þar frambornir alls konar dýrir rjettir, svo ekkert skorti — nema ostrur. Greifinn atyrti bryta sinn fyrir þetta, en hann bar það fyrir sig, að engar ostrur væru að fá í Pjetursborg. Í sama bili sá greifinn hinn auðuga þræl sinn Schaluchine, er stóð við dyr úti, og kallaði upp: „Þarna er Schaluchine kominn aptur að biðja um frelsi sitt. Þú varst heimskur, góðurinn minn! að bjóða mjer 200,000 rúblur fyrir frelsi þitt, því jeg er ekki fjeþurfi (hann á nefnilega 180,000 bændur); en láttu hafa núna nokkrar ostrur til morgunverðar, og þá skal jeg gefa þjer frelsi“. Schaluchine hneigði sig mjög auðmjúklega, þakkaði greifanum mildi sína, og kvað ostrurnar í anddyrinu. Ljet hann síðan velta tunnunni inn í borðsalinn, og varð af hlátur mikill; en greifinn stóð upp, og skrifaði á tunnubotninn frelsisbrjef milliónamannsins. Að því búnu mælti greifinn, og tók nú að titla hann. „Nú bið jeg yður herra Schaluchine að setjast niður og snæða morgunverð með oss“, því hinar ágætu ostrur höfðu nú gjört frjálsan mann úr aumum þræl.

Þó að sumir menn sjeu til, eins og Scheremetief greifi, sem láti sjer nægja með, að hafa eignar rjettinn yfir auðugum þrælum og leggja einungis lítið gjald á þá, þá eru þó líka fjölmargir ágjarnir og miskunnarlausir húsbændur, er draga sjer allt fje og allan afla þessara manna, sem eru lagðir undir sjálfræðisvald þeirra frá því þeir fæðast í þenna heim. Hvernig á þjóðlífið að taka framförum þar sem slík eru lög í landi?

---

## Sjór og land.

Það er gamalt orðtak hjer á landi „svipull er sjóarafl in,“ og vjer skulum engan veginn rengja það að málsháttur þessi sje sannur að nokkru leyti, þó að það á hinn bóginn einatt viðist, að hann gefi þeim er stunda hann eins arðmikla og stundum arðmeiri atvinnu en jarðarræktin. Það er í mörgum árum næsta lítill ávinningurinn af jarðarræktinni; fyrst þarf grasið að spretta, svo þarf nýtinguna, og þó þetta fáist hvorttveggja, þá getur þó það vantað, eins og nú gengur víða á landi voru, að skepnurnar, sem fóðrið er ætlað, og sem eiga að fæða allan þann fólksfjölda sem þarf til að vinna upp sveitajarðirnar, sjeu heilbrigðar og geti tekið fóðrinu, og endurgoldið það með vissum og góðum arði. Hin önnur jarðyrkjan, jarðepla og kálræktin, er nú, ef til vill, eins viss í flestum árum, ef hún væri jafnkostgæfilega stunduð, en það er hún ekki, og verður því arðurinn af henni og lífsbjörg sú, er þar af má hafa, næsta stopul. Einkum bregðst þó enn hin jarðyrkjan með plægingar og sáningu útlendra korn- og fóðurtegunda, enda má með sanni segja, að tilraunir þær eru mjög í bersku, svo að vel getur verið, að þess konar jarðyrkja verði arðsöm og notadrjúg með tímanum, þegar hún gjörist almenn og jafnmikil ástundun er lögð við hana eins og nú er gjört við heyaflann. Vjer játum það nú fúslega, að fólksfæðin hjá oss gjörir ekki lítið til að hamla því, að vjer getum hagnýtt oss sjó og land sem verða mætti, en með því fólki sem vjer

höfum ætlum vjer þó að miklu meira mætti gjöra, ef dugnaður, iðjusemi og starfsemi væru almennari meðal vor. Margan túngarðsspottann mætti hlaða, margan skurð grafa og margan þúfnareit sljetta, ef að hver vinnustundin væri notuð vor og haust, en fólksfæðin gjörir með öðru það að verkum, að heimilisaginn verður sljófari, því bóndinn verður að keppa eptir hjúinu, en hjúið ekki eptir vistinni, og getur því hjúið ráðið miklu um vinnu sína, því bóndinn verður að bjóða því kostaboð, og láta það þó nærri sjálfrátt um vinnuna, sökum hjúafæðarinnar. Þessi fólksfæð er nú reyndar miklu hættulegri fyrir sveitabóndann en sjóarbóndann, því jarðirnar eru fæstar svo, að sveitabóndinn geti látið hjúin hafa hlut í arðinum af búinu, fje í heyjum og annað þess konar, því ef hann á að geta svarað sköttum og skyldum og goldið hverjum sitt, og haft þar að auki nóg fyrir sig og sína, þá verður hann einatt að nota allan afurð jarðarinnar sem bezt. Öðru vísi er þessu háttað með sjóarbóndann. Hann þarf ekki að sá til að uppskera. Hann getur optast fengið nóga menn á skip, sem taka hlut og fæða sig sjálfir. En það er munur að láta menn taka hlut á sjó eða taka hlut á þurru landi. Þegar hann einu sinni er búinn að afla sjer skips og veiðarfæra, þá hefur hann góða leigu af þeim höfuðstól, og þarf ekkert að leggja í sölurnar, en hefur vissan ágóðann ef vel gengur. Það er því reyndar eðlilegt, að fólk sæki að sjónum, því ef vel veiðist, er eptirtekjan miklu meiri, og auðveldlegar tekin. Það mætti nú virðast af áður sögðu, að það flyti af sjálfu sjer, að sjóarútvegurinn væri vel sóttur, og að hver sjóarafli sem gefst væri notaður. Mönnum virðist ekki minna ætlandi, sem stunda sjóarútveginn, en að reyna til þess, þegar færi gefst, að nota hvern afla sem fæst á öllum tímum árs, þegar fært er á sjó og nokkur afli er fyrir, en þó er þetta ekki. Hákarlaveiðarnar, sem reyndar hafa hjer á seinni árum reynzt ábatamestar, eru þær einustu hjer við Eyjafjörð, sem eru vel stundaðar að kalla má. Vjer getum ekki annað álitið en að Sunnlendingar og Vestfirðingar, sjeu oss Norðlendingum langtum fremur í því að nota veiði þá sem sjórinn gefur. Það vita allir, sem til þekkja hjer við Eyjafjörð, að þó að hákarlaveiðin sje nú sem stendur ábatasömust, þá er það, ef til vill, einungis af því að önnur veiði er hjer ekki stunduð til nokkurrar hlítar. Það getur ekki hjá því farið, þegar ár eptir ár er mokfiski hjer með köflum víðast á Eyjafirði, og það hjer innst í fjarðarbotni, að meira mætti afla af fiski en gjört er. Þegar vjer sjáum að útlendir duggarar fiska og salta niður fisk svo mörg hundruð tunnum skiptir hjer úti fyrir og í fjarðarkjaptinum, þá liggur það í augum uppi, að vjer líka getum aflað þenna fisk, ef vjer útvegum oss veiðarfæri og önnur áhöld; og þegar það nú er orðið sannreynt, að hákarlinn aflast ekki til neinna muna nema á vorin, og framan af sumri, þá mætti gjöra skipin út á eptir til fiskveiða, og gæti þá saltfiskur orðið hjer eins góð verzlunarvara eins og á Suðurlandi. Auk þess er hjer norðanlands í flestum árum miklu þurrviðrasamara en á Vesturlandi, og gjörir það saltfiskverkunina hjer auðveldari og ómaksminni. Vjer getum eigi annað sjeð, en hákarlaskipin verði að vera mjög hentug til þessara veiða; enda getur vel verið, að það borgaði sig eins vel að halda sumum þilskipunum einlægt allt sumarið út til fiskiveiða eins og til hákarlaveiðanna.

Þá er enn einn sjóaraflinn, sem að miklum notum mætti verða, að minnsta kosti hjer á Eyjafirði, ef hann væri stundaður vel og rækilega, og það er síldaraflinn. Þeir, herra verzlunarmaður F. Möller og synir hans, sem eru hinir beztu sjómenn og duglegutsu hjer í bænum, hafa í mörg ár verið þeir einu, er hafa stundað þessa veiði að nokkru ráði, og hafa þeir á hverju ári sent tölnvert af saltaðri síld til Kaupmannahafnar og selt það sjer í góðan hag. Og vjer erum sannfærðir um það, ef að landsmenn legðu sig eptir síldarafla og síldarverkun, að kaupmenn vorir mundu taka það sem góða og gilda verzlunarvöru, og að minnsta kosti er það víst, ef að vjer kynnum að salta hana niður á rjettan hátt, að Norðmenn, sem hingað koma nú árlega, mundu kaupa hana fyrir það verð sem vjer værum vel í halfnir með, því þeir eru jafnvel farnir á næstliðnu sumri að koma hingað til síldarveiða, þó þeim tækist það lítt í þetta sinn. Það er auðsjáanlegt, hvort það ekki mundi borga ómakið að leggja sig eptir síldarveiðinni, þegar menn fá hjer stundum frá 50 til 300 tunnur síldar í einum drætti, og síldin bæði feit og góð, og má þá tilbúa úr smásíldinni ansjósur, en salta hina stærri niður. Hjer er tunnan af nýrri síld venjulega seld á 2 og 3 mörk, en fyrir salta síld er gefið erlendis frá 12 til 20 rd. fyrir tunnuna, og fyrir ansjósusíld vel til búna miklu meir. Reyndar hafa menn hjer mikil not síldarinnar, sem veiðist í lagnet, til beitu,

en ef veiðarfærin væru nóg, mætti afla langtum meira af hinni stóru og feitu hafsíld, og yrði það góð verzlunarvara; því oss er óhætt að fullyrða, að hafsíldin er hjer eins stór og feitari og smekkbetri, en nokkur síld, er vjer höfum fengið erlendis.

Af framanskrifuðu sjáum vjer því, að fiskiaflinn ok síldaraflinn er ekki nærri því stundaður til hlítar, og að hvortveggi þessi veiði gæti orðið mönnum hinn arðsamasti atvinnuvegur, og gefið ágæta og útgengilega verzlunarvöru af sjer, og eins og nú lætur í ári, þegar fjárfellirinn vofir yfir oss, væri öll þörf á því, að menn sæktu sem rækilegast sjóinn, að svo miklu leyti sem fólksfjöldinn leyfir það, svo að jarðyrkjunni og landbúnaðinum sje enginn verulegur hnekkir búinn.

---

# Frjettir.

**Innlendar.** Þeir hafa nú verið hjer í Þingeyjar- og Eyjafjarðarsýslum Árnesingar til fjárkaupa, og þó að vjer höfum eigi fengið neina greinilega fregn um kaup þeirra, ætlum vjer þó að Norðlendingar hafi sýnt allan vilja á því, að nota sjer ekki nauðsyn þeirra, heldur hafi þeir fengið allan þorra fjárins fyrir lægra verð, en það er metið í verðlagsskránum. Eptir beiðni þeirra mun amtmaður hafa leyft þeim Hrunamönnum, er hingað komu í Eyjafjörð, að kaupa einnig tvævetrar ær, þó að vjer sjer sjeum hræddir um, að leyfið hafi eigi komið þeim að svo góðum notum sem skyldi, því þeir fengu það eigi fyr en þeir voru hjerum bil búnir til burtferðar.

Af kosningarfundi til alþingis á Presthólum 18. þ. m. höfum vjer fengið munnlega fregn, að ritstjóri þessa blaðs hafi verið kosinn þar til alþingismanns fyrir Norðurþingeyjarsýslu með 18 atkvæðum. Stephán umboðsmaður Jónsson á Snartarstöðum og Stephán bóndi á Skinnalóni fengu hvor eitt atkvæði. Til varaþingmanns í kjördæminu var kosinn hreppstjóri Guðmundur Jónsson á Syðralóni á Langanesi. Af þessu má sjá, að kjörfundurinn hefur verið lítt sóttur. Aðrar kosníngar munu enn eigi vera framfarnar hjer nyrðra.

---

**Fjártaka.**

Ekki er enn 23. september farið að reka neitt fje í kaupstað, enda munu menn ekki hafa mikið fje aflögu, nema ef að menn skyldu þurfa að láta nokkuð fje í kaupstað til þess að geta greitt hinn ákveðna hluta af skaðabótunum til Húnavatnssýslu. Hjeðan úr sýslum er nú búið að selja nokkur þúsund fjár til Árnesinga, og líklegt er að menn hugsi mest um að byrgja sig vel í búi, því ekki er að vita hversu drjúgar matarbyrgðirnar verða hjer á Akureyri, þegar svo að segja allir kaupstaðir hjer norður um og vestur um eru bjargræðislausir.

Fyrir sláturfje er oss sagt að kaupmenn bjóði, nú hjer fyrir Lpd. af sauðakjöti 1 rd., fyrir annað kjöt 88 sk.; fyrir gærur eptir gæðum 80 sk. 60 sk., 52 sk.; fyrir gærur af dilkum 40 sk.; fyrir mör 17 sk. og fyrir tólg 19 sk.

---

Herra prófastur **J. G. Briem** frá Hruna, sem hjer var á ferð til fjárkaupa með sveitungum sínum; gaf prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins **tíu ríkisdali,** og vottast honum hjermeð innilegt þakklæti fyrir það.

Akureyri 22. september 1858.

Prentsmiðjunefndin.

---

# Auglýsingar.

Jeg undirskrifaður hefi í umboði að bjóða til sölu þiljuskip alfært til hákarlaveiða eins og lysthafendur geta sjeð af lista yfir allt sem því fylgir, er jeg hefi í vörzlum mínum. Skipið á að kosta 1500 rd. Þeir sem kynnu að vilja kaupa skip þetta, verða að finna mig og ræða um kaupið fyrir lok næstkomandi mánaðar.

Akureyri 21. september 1858.

Þ. Laxdal.

6. þ. m. týndist líklega á veginum frá garði Gr. Laxdals í fjörunni á Akureyri og upp að Miðhúsamýri af hesti hnakkur nýlega upp settur með gamalli dýnu, o. s. frv., og reiðbeizli með nýjum stuttum koparstöngum, járnkeðju og mjóum leðurtaumum. Ef einhver skyldi finna þessa muni, er hann beðinn að koma þeim til skila að Stóra Eyrarlandi.

19. september 1858.

**Þórarinn Jónsson.**

Nýupptekið fjármark:

Hvatrifað hægra, hamarskorið vinstra.

Guðmundur Finnbogason á Vatnsenda, Ljósvatnshr.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðar laust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár | 15. Október. | 24—25.

## Frjettir.

**Útlendar.** (Sbr. No. 15—16).

Vjer hættum þar útlendu frjettunum í sumar, er vjer töldum ráðgjafaskipti á Englandi; var þá lítið annað framkomið* er sögulegt mætti þykja. Vjer viljum nú telja hið helzta er síðan hefur við borið. Á Englandi stendur enn hin nýja ráðgjafastjórn torymanna, og hefur það einkum haldið henni við, að hún fylgdi eigi fram lagafrumvarpi Palmerstons um flóttamennina er ollu honum svo mikilla óvinsælda. En fyrir það sama hefur líka mjög grynnst vinátta Frakka og Englendinga sem enn mun sagt verða. Torymenn hafa líka ljett af tekjuskattinum, og eykur það líka vinsældir þeirra, en hafa þó ekki getað það nema með því, að hætta við að leysa inn og borga ríkisskuldabrjef nokkur er greiðast áttu. Ekki hefur gjörzt þar neitt sjerlegt á þingi þeirra, nema að Gyðingar hafa nú loksins fengið sæti í parlíamentinu. Um það hefur verið mikil stæla í mörg ár. Margir af hinum auðugu og merkustu kaupmönnum Lundúnaborgar og víðar á Englandi eru Gyðingar að þjóðerni og trú; og hafa jafnvel nokkrir þeirra verið herraðir, og það má nærri geta, að svo auðugir og mikilsverðir menn muni hafa átt hægt með að ná þingkosningu, enda hefur það opt verið; en þeir hafa samt verið gjörðir þingrækir sökum þess að þeir hafa eigi viljað sverja þingeiðinn, sem stílaður er einungis kristnum mönnum. Hefur frjálslyndum mönnum á Englandi lengi þótt þetta mjög ósanngjarnt, og farið því fram, að breytt væri eyðstafnum á þann hátt, að Gyðingar gætu svarið hann og náð með því þingsetu, og hefur þingdeild þjóðfulltrúanna fallizt á það og gjört um það lagafrumvarp, en lávarðarnir, sem optast eru fastheldnari við það sem verið hefur, hafa ætíð staðið á móti og hrundið frumvarpinu, einkum torymenn; en nú er þó frumvarpið orðið að lögum, þó að þeir sitji í völdum, og veittu þeir því enga sjerlega mótspyrnu, og hafa þeir einnig gjört þetta til vinsælda sjer, því einlægt munu þeir lausir í sæti.

Af viðskiptum Englendinga við aðrar þjóðir er það hið helzta, að þeir hafa nú brotið aptur undir sig með herskildi meginhluta Indlands. Þó eru enn leifar nokkrar af uppreistarmönnum í allstórum flokkum eptir, en Englendingar hafa lítið getað að hafzt með herfarir í sumar sökum ofurhita, sem hefur gjört liðið vanmegna og sjúkt. Má svo að orði kveða, að mannskaði sá, er þeir hafa þar fengið, komi miklu fremur af loptslagi og náttúrufari landsins, er þeir eru óvanir, en að menn falli fyrir sverðseggjum óvinanna. Þeir hafa nú, síðan að uppreistin varð að mestu leyti sigruð, heitið griðum öllum uppreistarmönnum sem ekki eru uppvísir að hafa myrt og níðst á Englendingum í byrjun uppreistarinnar.

Eptir að Frakkar og Englendingar voru búnir að vinna Kantónborg í Kínlandi, og taka höndum Yeh undirkonung, er flest illt hafði gjört þeim, sigldu þeir norður með landi norður að ánni Peiho. Skammt frá elfarmynninu á land upp stóðu 4 kastalar með miklum herbúnaði beggja megin árinnar til að verja þeim að sigla upp í ána, og yfir 30,000 kínverskra hermanna voru undir kastalaveggjum til að verja þeim landgöngu. 200 fallbyssur voru á kastalaveggjum og skutu Kínverjar sem tíðast. Norðurálfu mönnum var atlagan óhæg, því áin var grunn, svo að þeir fengu ekki lagt að hinum stærri skipum sínum, og eigi nema fáeinum kanónubátum. Á þeim voru 1500 manna, er ætlaðir voru til landgöngu til aðsóknar köstölunum. En þó að þeir stæðu þannig mjög ójafnt að vígi, var svo mikill munur skotfæranna, að Norðurálfumenn höfðu á skammri stundu skotið hlið á kastalaveggina, og greiddu þeir síðan uppgöngur af skipunum. Varð þá lítil við

taka, og flýðu Kínverjar þegar víðs vegar. Síðan sigldu þeir smáskipunum lengra upp eptir ánni. Upp í landinu í Kína eru víða stór grafin síki skipgeng, er höfð eru til vöruflutninga innanlands. Liggja þau allt frá Peiho norður að Peking, höfuðborg Kínlands; og er eitt þeirra hið stóra Keisarasíki. Er eptir þeim flutt korn til höfuðborgarinnar. Þegar Frakkar og Englendingar voru komnir upp í síkin, fór Kínverjum ekki að lítast á blikuna, og sendu ná loksins sendiboða með friðarmálum fyrir alvoru. Norðurálfubúar höfðu einlægt frá upphafi leitað samninga, en Kínverjar ætíð farið með brögð og undirhyggju. En nú var svo komið, að þeir urðu að taka þeim kostum sem hinir buðu. Friðurinn komst því á, og unnu nú Norðurálfuþjóðir það loksins á, er þær hafa lengi viljað, að þær mega koma þangað til verzlunar, setja fulltrúa í borgir við sjó, er annist um hag sjófarenda, og þar á ofan eiga Kínverjar að greiða Frökkum og Englendingum stríðskostnað.

Þegar hið seinasta stríð var milli Rússa og Tyrkja, og Frakkar og Englendingar veittu Tyrkjum, fengu þeir það áunnið, að Soldán gæfi öllum kristnum þegnum sínum — sem eru fleiri að tölu en Tyrkir sjálfir — jafnrjetti við Tyrki. Af þessu hefur leitt mikinn óróa og uppþot í Tyrkjalöndum, því að Tyrkjum þykir það smán að þessir menn, sem þeir nú í margar aldir hafa fótum troðið, skuli nú standa jafnfætis sjer, og hafa því sýnt kristnum mönnum yfirgang mikinn, og víg hafa orðið af hvorratveggja hendi. Mest brögð urðu nú samt að þessu í bæ einum í Arabíu, er Dschedda heitir. Þar gjörði bæjarskríll upphlaup, og drap fulltrúa Frakka og Englendinga og ekki allfáa aðra kristna menn, bæði konur og karla, svo að fáir einir komust undan út á herskip Englendinga eitt er þar lá. Það má nú geta nærri, að þetta mundi eigi látið svo búið standa; og var í ráði að Frakkar og Englendingar beiddust bóta í sameiningu, en Englar urðu fyrri til bragðs og ljetu herskip sitt skjóta á bæinn, og neyða með því yfirmenn Tyrkja til að láta drepa alla fyrirliða óaldarflokks þessa. Þótti Frökkum sjer misboðið í slíku, og Englendingar vilja vera mjög einráðir um viðskipti við Tyrki. Er það og má ímanna, að Englendingar hafi viljað flýta fyrir þessu, svo að það þyrfti sem minnst að koma til samninga milli soldáns og Frakka, því þeim er lítið um gefið, að Frakkar og tillögur þeirra hafi mikið að segja í Miklagarði.

Þó er það einkum eitt er vekur grun um hve föst vinátta Engla og Frakka sje nú sem stendur, sem nú skal sagt:

Í Norðmandíi liggur við sjó borgin Cherbourg við Englandssund. Þar tók Loðvík 14. að gjöra herskipahöfn, en einkum var þar miklu til kostað á dögum Napóleons mikla. Var höfnin þá gjörð svo mikil, að hún tók 50 stórskipa, en eigi þótti hún aðkvæðagóð nje trygg. Napóleon þriðji Frakkakeisari, hefur nú með fjarska kostnaði látið stækka höfn þessa, svo hún tekur nú 80 hinna stærstu skipa. Eru stórgarðar hlaðnir fyrir höfnina, sem gjöra hana með öllu óhulta. Þar eru stofnaðar verksmiðjur og forðabúr stórkostleg, er hafa að geyma allt er til sjóarútbúnaðar heyrir. Það var aðaltilgangur Napóleons fyrsta með að gjöra þessa stóru herskipahöfn, að hann gæti í snöggu bragði komið liði þaðan til Englands, er hann átti í sífelldum ófriði við. Það má því geta nærri, að Englum þyki það ekki neitt vinabragð af Loðvík Napóleon, að hann stækkar og lýkur við þetta hafnarsmíði, og dregur þar saman skipastól sinn, því nú á tímum er það miklu hættulegra fyrir England. Þá voru öll herskip seglbúin, og þurfti því gott leiði og lengri tíma til að komast yfir um til Englands heldur en nú á tímum, þegar næstum öll skip, sem til hernaðar eru höfð, eru gufuskip. Reyndar vildi nú Napóleon ekki, að Englendingar skyldu gruna sig um gæzku fyrir þetta, og var því svo tilstillt, að Viktoría Engladrottning skyldi finna hann um leið og höfnin væri vígð í Cherbourg til skrafs og ráðagjörðar. Kom drottning, og var þar mikið um dýrðir. Setti Napóleon á langa tölu um vináttu og samband Frakka og Englendinga, hve statt og stöðugt það væri, þrátt fyrir allt það sem vondir menn gjörðu til að spilla því; og viðlíka fórust Albert, drottningarmanni, orð, er hann svaraði tölu keisara. Viktoría drottning fór þaðan landveg til Prússlands í orðlof til dóttur sinnar, er giptist í fyrra konungsefni Prússa, og síðan aptur heimleiðis. En þó að nú svona gott væri ofan á milli sjálfra stjórnendanna, þá spara þó ekki ensku blöðin að brýna fyrir stjórninni og þjóðinni, hver nauðsyn sje að England sje vel við búið, ef vináttan kynni að hallast.

Á Spáni ræður nú O' Donnel aptur, og virðist hann nú fylgja frjálslegri stjórn; en það skipt-

ir litlu á Spáni, því hún mun svo vera skammvinn og hvikul eins og vant er.

Rússakeisari hefur mjög hægt um sig: en hið helzta er þaðan frjettist er, að hann lætur sjer annt um að losa þrældómsbönd þau, er hvíla á bændastjettinni, og auka frelsi þeirra.

---

## Rafsegulþráðurinn yfir Atlantshaf.

Sjötta dag ágústmánaðar næstliðinn flaug sú fregn frá vesturströnd Írlands um allan hinn austlæga hálfhnött jarðarinnar og austurströndinni af Newfoundland um allan hinn vestlæga heim, sem merkari er en hinar frægustu sigurvinningar í sögu mannkynsins, því hún skýrir frá og sýnir stórkostlegan sigur mannlegs anda yfir tálmunum náttúrunnar. Fregnin var sú, að þá hefði að lyktum tekizt að leggja rafsegulþráð eptir sjóarbotni yfir hið stóra Atlantshaf, er skilur Norður og Vesturálfu, og er að breidd yfir 2000 mílur enskar. Tilraun hafði verið gjörð með þetta seint í fyrra sumar, og mistókst þá, og önnur snemma í sumar, og var þá allt gjört, er vísindin og duglegir menn gátu upp hugsað til að fyrirtækið skyldi takast; en fjarskalegir stormar og ósjór ónýttu það allt, svo þráðurinn slitnaði aptur og aptur. Voru menn nú orðnir svo vonardaufir um að þetta gæti tekizt, að við sjálft lá að hætt væri við allt-saman, því þeim sem tekið höfðu hlutabrjef til þess að koma þessu fyrirtæki á fót, var farinn að ofbjóða kostnaðurinn; en forstjórarnir voru svo harðfengir og trúgóðir, að þeir komu því til leiðar, að reynt væri einu sinni enn, og þá tókst allt vel, þó að illa gæfi sökum byrleysis og stórsjóa. Árangurinn af þessu fyrirtæki er ekki heldur smálítill, því nú er ekki lengur verið að koma boðum yfir þetta veraldarhaf heldur en þegar menn kallast á yfir á, svo að nú er Vesturálfa ekki lengra frá Norðurálfu til að fá frjettir þaðan, en nágrannaborgir eru sín á milli.

Árið 1820 fann danskur náttúrufræðingur H. C. Örsted rafsegulmagnið, en litla hugmynd höfðu menn þá um hvílík not að því mundu verða; en Vesturheimsmaður einn Samuel Morse gjörði fyrstur hið rjetta sýnishorn af rafsegulþræði 1835. og hinn fyrsti segulþráður var lagður 1844 milli borganna Washington og Baltimore í Vesturheimi, og á hinum fáu árum sem síðan eru liðin, hefur þessi merkilega uppgötvun breiðzt út yfir allan heim meðal siðaðra þjóða. Rafsegulþræðirnir voru lagðir eins og þjett net yfir öll meginlönd veraldarinnar, og innan skamms fóru menn að hugsa um að leggja þræði þessa eptir sjóarbotni landa á milli, og var fyrst lagður þráður yfir Englandssund til Frakklands og síðan yfir dönsku sundin Miðjarðarhaf og víða annarstaðar.

Á seinni árum hafa menn gjört svo margar uppgötvanir í náttúruvísindunum, að enginn getur sjeð fyrir endann á, hvað mannkynið getur tekið miklum framförum. Það eru nú öll líkindi til, að menn geti lagt rafsegulþræðina yfir öll höf, og þegar það er búið, veit maður jafnsnemma hvað gjörist í öllum heimi, og gjörir það ekki lítið gagn í verzlun og viðskiptum þjóðanna. Það er ekki lengur hugurinn einn, sem á einu augabragði getur flogið land úr landi, úr einni heimsálfu í aðra; því orðið, sem er búningur hugarins, fer nú jafnfljótt yfir, og engin fjarlægð eða vegalengd stöðvar það. Þetta er hinn frægasti sigur vísindanna á vorum dögum, og afleiðingar hans dæmalausar fyrir framför og menntun heimsins. Fulltrúar þjóðanna á hinum almenna fundi í Parísarborg, hafa ákveðið að þjóðirnar skyldu gefa Samuel Morse, 140,000 rd. sem heiðurs gjöf fyrir þessa uppgötvun hans.

---

## Töluskýrslur Þjóðólfs.

Í 11. og 12. blaði Norðra þ. á.. 45. bls. gátum vjer þess, að lækningamönnunum syðra væri ómissandi, til þess að fá oss, trúarveiku Tómasa á Norðurlandi, á sitt mál, að gjöra nákvæmar töluskýrslur um árangur lækninganna syðra, o. s. frv. Engi hefur nú samt orðið til þess enn, og ekki sjálfur Þjóðólfur, sem þó einlægt hefur verið hafinn yfir allt flokkafylgi í kláðamálinu og litið með nokkurs konar „ólympiskri“ góðaværð á stappið og stímið meðal vor dauðlegra manna, sem erum að reyna að berjast fyrir sannfæringu vorri. En, þó að hann hafi nú ekki viljað láta oss Norðlendinga sjá ávöxtinn af sínu ágæta reikningsviti, með því að sýna oss í tölum árangurinn af lækningunum syðra í fjárkláðamálinu, þá hefur hann þó stigið fæti sínum niður á jörðina, eða rjettara sagt niður í kláðamálið, til þess af náð sinni að skýra fyrir oss með ofurlitlu yfirliti (!) — eins og hann kallar það — yfir niðurskurðinn og skaða,

bæturnar hjá oss, hvað vjer höfum gjört, og hvernig afleiðingarnar verði.

Vjer bjuggumst því við, fyrst þjóðólfur fór af stað á annað borð, að hann mundi gefa oss áreiðanlegan reikning eptir amtsfundartíðindunum og málavöxtum, en það fáum vjer ekki, því hann gleymir svo mörgu og miklu, til þess að fá það tvennt út í reikningunum, sem hann vill, og sem þó er hvað á móti öðru, nefnilega, að Húnvetningar hafi fengið langtum of litlar skaðabætur, og að þær sjeu þó og verði svo miklar, að það sje varla vinnandi vegur að standast þær. þó að vjer sjeum nú ekki og höfum aldrei verið mikill reikningsmaður, ætlum vjer þó að reyna að endurskoða þenna reikning fjelaga vors, og leggja þar á vorn dóm.

þjóðólfur segir þá fyrst, að eptir búnaðartöflunum 1858 hafi allur sauðfjenaður í Húnavatnssýslu verið metinn eptir seinustu verðlagsskrá . . . . . . . . . 260,914 rd. 23 sk.
og eptir sömu virðingu verði hið
skorna fje 18,657 kindur . 87,483 — 12 -
en. fje þetta hafi ekki verið bætt
nema með . . . . . . 67,544 — „ -
og tapi því Húnvetningar af
hinu sanna verði fjárins . 19,959 — 12 -

þetta verður nú ekki svo lítil summa, og verður meiri, þegar gætt er að, að það hefði þar að auki verið mikill skaði fyrir þá, að selja allt þetta fje fyrir verðlagsskráar verð í vor; en oss finnst þjóðólfur gleyma því, sem mest liggur á, að taka í reikninginn, og það er það, að Húnvetningar hafa ekki kastað þessum 18,657 fjár fyrir hunda og hrafna, heldur skorið það um miðjan vetur í bezta vetri í góðum holdum, þó mörlítið kunni að hafa verið; þeir hafa saltað það niður, selt það — margir 1 rd. lýsipundið — og borðað sumt, selt ullina í kaupstað og tólgina, og ganga á skinnunum, og þessu sleppir þjóðólfur úr reikningi sínum. Vjer erum sannfærðir um, að 18,657 fjár, flest fullorðið, hafi orðið til afnota meira en 19,939 rd. 12 sk., eða rúmt dalsvirði kindin, og það vonum vjer að öllum skiljist, enda var það oflítið að meta skaðabæturnar ekki meira en mismuninn milli þess, sem upp úr fjenu hafðist, þegar það var skorið, og verðlagsskráar verðs.

þar sem að þjóðólfur á undan yfirlitinu skýrir frá efni amtsfundartíðindanna hermir hann rjett frá, eins og þar stendur, að niðurskurðurinn hafi stöðvað framrás sýkinnar, en þó segir hann í yfirlitinu, að frumvarpið frá fundinum til bráðabyrgðarlaganna óneitanlega ráðgjöri, að drepa þurfi niður þessa tvo þriðjunga fjárins, sem eptir eru í Húnavatnssýslu, því annars hefði ekki verið til neins að biðja konung um að gefa lögin. Skaðabætur fyrir það fje gjörir hann nú — og á að vera samkvæmt ályktunum amtsfundarins — 165,250 rd., eða ef svo vildi vel til, að ekki þyrfti að skera, nema vestan Blöndu, þá 99,150 rd. og yrði það samanlagt við hinar lofuðu skaðabætur 166,694 rd., og þetta á einkum að vera byggt á 7. grein frumvarpsins til bráðabyrgðarlaganna, og í annari ritgjörð sinni í kláðamálinu í sama blaði, sem vjer, því miður! höfum ekki fengið nema höfuðið af, gjörir hann ráð fyrir, ef að skera þurfi norður að Hjeraðsvötnum í Skagafirði, að skaðabæturnar sem hlaupa upp á hinn hluta Norðurlands, verði 333,388 rd.

Tölur þessar eru nú álitlegar, og víst er um það, að það færi að sneiðast um á Norðurlandi ef þetta fje ætti fljótt að gjalda. En það vill til að það er hægt að kippa töluverðu úr þessum stóru tölum. Eptir amtsfundartíðindanna 7. gr., sem þjóðólfur vitnar til, skal aldrei endurgjalda það geldfje sem skorið er á haustdag. Og hvað er nú geldfje? Allt fje sem ekki mjólkar. Vjer verðum því að kippa burt hjá hinum mikilsvirta fjelaga vorum 18000 lömbum, sem ekki mjólka, 3,600 gimbrum sem líka eru geldar, af því að vjer Norðlendingar látum þær ekki lembast, ef vjer getum haldið hrútunum frá þeim, og af hinum 27,411 ám, sem þá verða eptir, er oss óhætt að sníða burt 2,411 gamalær, sem saumað er fyrir, lambskotur, geldmylkjur, o. s. frv., og eru þá eptir 25,000 ær sem endurgjalda þarf, ef kollfellt er í allri Húnavatnssýslu í haust. Og hvað á að greiða fyrir mylka á að haustlagi? 4 rd. 72 sk. segir þjóðólfur. það var mein að fjelagi vor skyldi villast frá verðlagsskránni 1858, fyrst að hann hjekk svo vel í henni framan af. þar er mylk ær á haust verðlögð 2 rd. 75½ sk., og yrðu þá ekki skaðabæturnar, þó strádrepið væri í allri Húnavatnssýslu í haust, eptir amtsfundar frumvarpinu nema 69,661 rd. 44 sk., og á að gizka tæpum fjórðungi meira, ef drepið væri að Hjeraðsvötnum, því vestursveitir Skagafjarðar eru svo miklu fjefærri en Húnavatnssýsla. þetta er nú eptir amtsfundartíðindunum rjettur skaðabótareikningur. En hjer er nú líka gjört ráð fyrir því sem verst er.

Þjóðólfur hefur nú síðustu frjettir, að allur vesturhluti Húnavatnssýslu sje útsteyptur hjer og hvar nema Torfalækjar og Svínavatnshreppar. Vjer höfum nú ekki enn fengið svo vondar fregnir, og vildum fegnir, að Þjóðólfur segði það ósatt. Hitt vitum vjer, að kláði hefur komið upp við Vatnsnesfjall, og eptir flugufregn á einum bæ í Miðfirði, en það kom oss ekki á óvart, því Húnvetningar sjálfir bjuggust við því, að kláðinn kæmi upp aptur vestan til í sýslunni í haust, þar sem hinum fyrirskipuðu niðurskurðarreglum var ekki fylgt, og bjuggust við, ef illa tækist til, að skera þyrfti austur að Víðidalsá. En jafnvel sjálfar síðustu frjettir Þjóðólfs benda engan veginn á, að skera þurfi í Svínavatns og Torfalækjar hrepp, og því síður fyrir austan Blöndu, og minnkar það skaðabætur þær, sem vjer höfum reiknað hjer að framan, um helming eða meira.

Oss finnst því, að fjelagi vor Þjóðólfur hafi gjört reikning sinn, ekki til að fræða oss, heldur til að villa fáfróða, er tækju hinar stóru tölur hans eins og heilagan sannleika. Hann hefði átt að gjöra þenna reikning sem rjettastan eptir amtsfundartíðindunum, og gjöra svo jafnrjettan og jafnglöggan reikning yfir fjárfækkunina á Suðurlandi vegna kláðans, þá hefði hann gjört landinu mikið gagn með reikningslist sinni. Vjer erum því miður svo ókunnugir syðra, og höfum ekki fengið neinar opinberar skýrslur um fjárfellinn þar. En það er óhætt að fullyrða, að fjárfækkunin þar sökum kláðans er langtum gífurlegri en í Húnavatnssýslu. Eptir Þjóðólfs eigin reikningi verða í Húnavatnssýslu í haust 40,672 fullorðins fjár og 18,000 lömb, samtals 58,672, eða einum 657 kindum færra en var áður en farið var að skera. Vjer spyrjum nú Þjóðólf, hvort þetta er svo mjög voðaleg fjárfækkun? Vjer spyrjum hann, hvort fleira fje muni nú vera í öllum hinum þremur marglæknuðu kláðasýslum syðra? Ef að nú skyldi ekki vera nema svo sem 36,000 fjár í þremur Suðurlands sýslunum, og hitt allt fallið og skorið án alls endurgjalds, eptir að búið er að eyða 30,000 rd. í meðöl og lækna, og öðru eins í kostnað og fyrirhöfn við lækningarnar, ef að víða er búið að gjöreyða til meðalakaupa mörgum hreppasjóðum, sem eru ætlaðir til styrktar fátækum í hverjum hrepp, þegar eitthvað ábjátar, o. s. frv.; hver getur þá neitað, að Sunnlendingar sjeu stórum mun ver farnir en Norðlendingar. Þeir hafa misst allan þorra fjár síns b ó t a l a u s t, eptir að þeir eru búnir að kosta upp á lækningarnar ærnu fje, en Húnvetningar hafa fengið f u l l a r bætur fyrir allt fje, er þeir hafa skorið.

Að endingu skorum vjer á hinn mikilsvirta útgefanda Þjóðólfs, að hann gjöri glöggan og óvilhallan reikning yfir skaða þann, sem hefur leitt af kláðanum syðra og yfir kostnaðinn við lækningarnar, því gjöri hann það, vinnur hann þjóð sinni hið þarfasta verk.

---

Í 32 og 33.—34. blaði Þjóðólfs má lesa svar frá landlækni Dr. J. Hjaltalín, og í hinu síðarst nefnda nr. einnig frá dýralæknunum á Íslandi upp á grein mína í 17. blaði Norðra þ. á. um uppruna kláðans. Jeg finn mjer skylt að þakka þessum herrum fyrir heiður þann, er þeir hafa veitt mjer með því að svara mjer, þar þeir með því að svara ónýta dóm þann, er einhver herra J. J., er í fyrra haust hefur ritað í dönsku blaði (Berlingske Tidende) um fjárkláðamálið, hefur kveðið upp, yfir okkur hjeraðslæknana á Íslandi, er hann segir meðal annars, að skýrslur okkar í kláðamálinu sjeu svo illa úr garði gjörðar, að þær sjeu ekki þess verðar, að að þeim sje fundið („under al Kritik") og að við sjeum óhæfir („incompetente") dómarar í þessu máli. Landlæknirinn þar á móti sje einn fær um að sjá hið rjetta í því. Á hinn bóginn get jeg ekki fagnað því, að þeir hafi breytt meiningum sínum um uppruna og eðli kláðans eptir að þeir hafa lesið ritgjörð mína, enda var ekki við því að búast, að þeir vildu sleppa hinni einustu ástæðu (að kláðinn sje innlendur) fyrir því að halda áfram lækningunum á fjárkláðanum.

Jeg ætla nú fyrst að fara nokkrum orðum um svar landlæknisins.

Landlæknirinn segist ætla að sýna löndum sínum, hversu vel mjer beri saman við hina nafnfrægustu dýralækna vorra tíma, og tilfærir hann, því til sönnunar, staði úr ritum 5 dýralækna, sem eru hver öðrum frægri. Sumir af þessum segja, að kláði geti sprottið upp af sjálfu sjer og án þess að nokkur kláðamaur finnist í honum, en sumir, að kláðamaurinn sje afleiðing kláðans og spretti upp í honum, og er þetta hvorttveggja gagnstætt því, er jeg hefi látið í ljósi í 17. blaði Norðra, og hefi jeg þegar á þeim stað mótmælt því.

Jeg hefi að vísu ekki sjeð önnur rit þessara dýralækna, er landlæknirinn telur upp, en dýralækningabók W i t h s, og hefur mjer ætíð skilist grein sú, er staður sá, er landlæknirinn færir til, er tekinn úr, þannig, að W i t h væri í nokkurs konar efa um að kláði gæti sprottið upp af sjálfu sjer. Hinn tilfærði staður landlæknisins hljóðar þannig: „að kláði geti upp komið á fje af sjálfu sjer **virðist** gömul reynsla, sem nýrri tíma skoðun eigi hefur getað kollvarpað". En nokkru neðar í sömu grein stendur, og er það mótsetningin til hins tilfærða staðar: „En á hinn bóginn er það margsannað af reynslunni, að sóttnæmi valdi kláða á

skepnunni, og er þetta hinn tíðasta orsök til kláðans“. Sóttnæminu segir With að kláðamaurinn valdi, og ber landlækninum þannig ekki saman við hann í þessu. Um þenna kláða, sem á að spretta upp svona sjálfkrafa, segir With enn fremur, að hann komi af illri aðhjúkrun, slæmu og skemmdu heyi, hungri, þegar fje gangi úti í langvinnum rigningum, og þegar það er á beit í mýrum og forarflóum, og sje það álit manna, að þegar kláði kviknar á fje á þennan hátt, þá komi hann á margar kindur í einu, og taki fyrst kindur, þær er veikastar eru fyrir. Hjer lýsir With auðsjáanlega hörundsveiki þeirri, er við köllum óþrifa kláða þar hann í öllu tilliti hagar sjer eins og hjer er getið að framan, og þar hann að hinu ytra getur verið mjög svo líkur hinum verulega kláða, eins og jeg hefi bent til í ritgjörð minni í 17. blaði Norðra. Enn þessi svonefndi óþrifakláði er ekki kláði (scabies), og lýsir það sjer á því, að hann er ekki næmur og enginn kláðamaur finnst í honum og vantar þannig 2 aðaleinkenni kláðans. það er að sjá sem dýralæknar kalli alla hörundskvilla á skepnum kláða, því ekki getur With um aðra hörundskvilla í bók sinni en kláða, og verður maður að álíta það ónákvæmni í sjúkdómsaðgreiningunni (Diagnostic). það er annars merkilegt að Dr. Hjaltalín, sem þó eiginlega er mannaen ekki dýralæknir, skuli einungis styðja meiningar sínar í þessu efni við álit dýralæknanna, en ekki þeirra rithöfunda, er honum standa miklu nær, þ. e. mannalæknanna, sem sannarlega eru fullt eins færir um að dæma í þessu atriði; enda held jeg líka, að landlæknirinn eigi bágt með að benda á marga rithöfunda meðal lækna er nú lifa, er álíti að kláðamaurinn spretti upp af sjálfu sjer, og að kláðamaurinn sje afleiðing hans og kvikni í honum við sjálfsmyndun, og gæti jeg nefnt ýmsa rithöfunda, er hafa gagnstæða meiningu.

Fyrst landlæknirinn álítur, að kláðamaurinn myndist við sjálfsmyndun, þá er það svo sem sjálfsagt, að hann álítur, að einnig önnur dýr kvikni af sjálfu sjer, en ekki leiðir hann nein rök að því, heldur leggur hann fyrir mig ýmsar spurningar t. a. m. um tímgun og uppruna ýmsra maura: ostamaura, mjölmaura, grasmaura, jarðmaura, sáramaura, og get jeg ekki svarað því öðru en að jeg engan veginn efist um, að þessir maurar sjeu afkvæmi annara maura af sömu tegund og að þeir tímgist á eðlilegan hátt. Jafnvel þó jeg geti ekki frætt landlæknirinn, hvernig og hvaðan maurar þessir koma í þessi sín heimkynni, og jafnvel þó enginn viti það enn þá, sem þó meir en getur verið, þá getur maður verið þess fullviss, að þeir tímar muni koma að menn geta sýnt eðlilegan uppruna þeirra, eins og þegar er búið að sýna um mörg önnur hin lægri dýr; og það er sannarlega engu torveldara fyrir ostamaurinn, t. a. m. að komast inn í ostinn heldur en fyrir bendilorms-eggið að komast úr maganum á sauðkindinni upp í heila og verða þar að sulli.

þar sem landlæknirinn ennfremur biður mig að nefna nokkurn nafnkunnan náttúrufræðing allt frá Aristoteles dögum fram á okkar daga, er neiti sjálfsmynduninni, þá er mjer óskiljanlegt, hvað landlækninum hefur gengið til þess að bera fyrir mig slíka spurningu, þar eð honum hlýtur að vera það kunnugt jafnvel þó hann sjálfur sje annarar meiningar að flestir náttúrufræðingar og lífsfræðingar nú á dögum álíti, að sjálfsmyndum eigi sjer ekki stað: og skal jeg nú nefna fáeina: Prófessor Eschrict [1] við háskólann í Kaupmannahöfn, prófessor Panum [2] við háskólann í Kiel, prófessor Valentin [3] við háskólann í Bern og prófessor Henle [4] í Göttingen, og mun landlæknirinn geta sjeð í ritum þessara nafnkunnu manna þau rök í móti sjálfsmynduninni, er hann vart mun geta hrakið. þar sem landlæknirinn loksins spyr mig, hvort nokkur af hinum nýari efnafræðingum sje til, sem neiti því, að allri rotnun og skemmd fylgi maurar og skorkvikinda myndun, þá skal jeg leyfa mjer að vísa honum til 16. brjefsins í Chemische Briefe von Justus Liebig, og mun herra landlæknirinn sjá af því, að þessi nafnfrægi efnafræðingur er á allt annari meiningu en hann.

Landlæknirinn segist ekki ætla að kæra sig um að taka upp þykkjuna fyrir gamla Aristoteles, er jeg sje að draga gis að, því það væri sannarlega að vanvirða nafn þessa mikla spekings, ef menn vildu forsvara lærdóm hans í móti slíku. Jeg vona, að enginn annar en landlæknirinn hafi skilið svo orð mín um Aristoteles, að jeg væri að draga gis að honum; því enginn getur ætlazt til, og ekki heldur jeg, að Aristoteles gæti byggt lærdóma sína á því, sem uppgötvast ist mörgum öldum eptir hans daga. þar sem landlæknirinn er að tala um að forsvara lærdóm hans, getur mjer ekki skilizt það öðru vísi en að landlæknirinn álíti, eins og Aristoteles gjörði, að állinn myndist úr leðju; og fer hann þá fram á meira en nokkur meðhaldsmaður sjálfsmyndunarinnar hefur farið fram á nú um margar aldir. Sje það álit landlæknisins að einnig fiskar myndist við sjálfsmyndun, þá verður hann að mínu áliti eins að halda, að fuglar, hvirfildýr og jafnvel menn kvikni af sjálfu sjer.

Landlæknirinn bendir til þess, að hann hafi ráðið mjer frá að láta meiningu mína í ljósi í fjárkláðamálinu, og kannast jeg við, að hann hefur gjört það í brjefi til mín í vor. Landlæknirinn hefði varla ráðið mjer til þessa, hefði hann ekki vitið, að jeg var á gagnstæðri meiningu og hann; en jeg get á hinn bóginn fullvissað landlæknirinn um, að jeg hefi ekki „farið út í þessa sálma“ til að trana mjer fram, og ekki heldur, eins og menn geta getið nærri, til þess að fara í blaðastríð við landlæknirinn, heldur virtist mjer fjárkláðamálið komið í það horf, eins og jeg hefi getið um í 17. blaði Norðra, að jeg áleit það skyldu við fósturjörð mína, að draga mig ekki lengur í hlje, heldur að vekja athygli manna á röngum og hættulegum skoðunum lækningamannanna fyri sunnan. Að

[1]) Sjá Eschrict Physiologie. [2]) Sjá Bibliothek for Læger Júlí 1857. [3]) Sjá Valentin Grundrids af det menneskelige Legems Physiologie. [4]) Sjá Handbuch der rationellen Pathologie. von Dr Henll

öðru leyti finn jeg mjer skylt að votta landlækninum þakklæti mitt fyrir ráðleggingu hans; og get jeg ekki endurgoldið hana betur en með því, að skora á landlækninn, að hann nú þegar — betra er seint en aldrei — hverfi frá þeirri stefnu, er hann hingað til hefur haldið við í fjárkláðamálinu, sjer og fósturjörð sinni til óbætanlegs tjóns.

Loksins spyr landlæknirinn, hvers vegna við, jeg og Jósep Skaptason, sem þykjumst vita, að sunnlenzki kláðinn komi af tómum kláðamaur, ekki höfum ráðið amtsbúum okkar meðöl þau, er allar menntaðar þjóðir álíti, að drepi kláðamaurinn, heldur höfum látið okkur vel líka, að fje og menn sjeu þvegnir úr þeim viðbjóðslega legi, sem litla eða enga verkun geti haft á kláðamaurinn nema til að auka hann og margfalda (kviknar kláðamaurinn þá líka af þessum legi?). Mjer skilst, að landlæknirinn sje að meina keituna og hið svonefnda keituplakat. Jeg get nú ekki svarað þessu nema fyrir sjálfan mig, og verð að láta bróður minn Jósep Skaptason svara fyrir sig. Jeg hefi einlægt álitið, þar til jeg sá þetta svar landlæknisins, að amtmennirnir hefðu samið keituplakatið, eptir ráðleggingu landlæknisins og dýralæknis Teits Finnbogasonar, því það kom á prent fyrir sunnan meðan amtmennirnir voru þar til skrafs og ráðagjörða í fjárkláðamálinu, og hef jeg því hingað til álitið, að keitan væri almennt meðal móti kláða meðal dýralæknanna. Jeg hefi þannig hvorki átt neinn þátt í því að ráðleggja það nje annað móti kláðanum, því jeg er ekki dýralæknir. Hvað því viðvíkur, að landlæknirinn nefnir keituna viðbjóðslegan lög, þá skal jeg gjarnan kannast við, að svo sje, en verð þó að minna hann á, að hún muni vart vera eins viðbjóðsleg og walziska súpan, sem, auk annara meðala, er mestmegnis búin til úr kúahlandi og stækri hjartarhornsolíu. Hvað það loksins snertir, að landlæknirinn segir, að keitan enga verkun hafi á kláðamaurinn, nema ef það væri til að auka hann og margfalda, þá veit jeg ekki til að nokkur skepna eða maður, sem þvegið hefur verið í þessum viðbjóðslega legi, hafi flutt kláða hingað til Norðurlandsins, því síður að kláðamaur hafi kviknað á þeim eptir böðunina, þar sem á hinn bóginn walzisku og tessiersku böðin, er hafa verið viðhöfð við sunnlenzka kláðann, hafa haft svo litla verkun á kláðann, að hann ýmist að eins hefur hvorfið um stund undan böðuninni, en komið þó fram aptur, ýmist hefur fje jafnvel hrunið niður dautt í brönnum meðan lækningarnar hafa verið viðhafðar, og það undir höndum sjálfra dýralæknanna.

Og hefi jeg nú svarað landlækninum.

Dýralæknarnir á Íslandi, sem sje herra Hansteen, Jensen, Teitur Finnbogason og líklega herra fjárkláðalæknir Jón Thorarensen, hafa einnig sent mjer kveðju, eins og jeg hefi getið um í upphafi, en það er ekki heldur nema kveðja, því aumingja mennirnir segjast ekki hafa tómstundir, sakir nauðsynja starfa köllunar þeirra, til að hrekja það, sem jeg hefi sagt. Það var bágt, að þeir skyldu eiga svona annríkt, því annars segjast þeir hafa ætlað að komast fyrir, hversu margir þeir væru (sjálfsagt með því að láta það ganga til atkvæðagreiðslu hjer á landi), er dregið gætu þær ályktanir úr hinum ýmislegu skoðunum, er jeg hefi borið fram. Þeir segja: að jeg hafi skapað ályktanir mínar svona í hendi, en ekki byggt þær á neinum rökum. Jeg verð að biðja þessa heiðruðu fjórmenninga að sanna þetta, og þangað til þeir hafa gjört það, verð jeg að álíta áburð þeirra ómerkan. Þegar þeir segjast öruggir skjóta því til hinna dönsku lækna, er jeg skírskota til, hvort þeir vilji játa upp á sig ályktunum mínum, þá verð jeg að benda þessum herrum til, að jeg með „læknum“ einungis hefi átt við lækna (þ. e. mannalækna) en ekki dýralækna, því jeg þekki ekki til skoðana þeirra. Eitt fellst jeg á í svari þeirra, og það er það, að jeg hafi haft þann tilgang með grein minni að tálma og spilla öllum lækningatilraunum við sauðfjenað (það er að segja: við kláða á sauðfjenaði). Þetta er dagsanna; reynslan er þegar búin að sýna á Suðurlandi, hversu árangurslausar og skaðlegar kláðalækningarnar hingað til hafa verið. Því sauðfje hefur þrátt fyrir þær fækkað svo mörgum þúsundum skiptir, og þó er það sem eptir lifir jafnkláðugt, eptir 2 ára lækninga tilraunir, og samt er óbærilegur kostnaður lagður á fjáreigendur til meðalakaupa, fyrirhafnar við lækningar og fóðurs, og þar við bætist það sem verst er, að kláðinn breiðist einlægt meira og meira út til hinna ósýktu hjeraða. Þessu vildi jeg tálma, þessu vildi jeg spilla fyrir; en hitt er aptur ekki rjett hermt, að þetta hafi verið einasta tilgangur minn með grein minni, því tilgangur minn var einnig að koma í veg fyrir, að rangar skoðanir næðu að útbreiðast meðal alþýðu.

Þegar dýralæknarnir á Íslandi fá tíma til, segjast þeir svo sem ætla að sýna fram á, hversu ástæðulaust álit mitt sje, og ætla þeir þá, að dæmi landlæknisins, að leggja fyrir mig nokkrar spurningar, sem þeir halda að mjer verði fullfengið að leysa úr. Jeg bíð öruggur átekta, og ætla ekki að bera kvíðboga fyrir því. Jeg vil nú annars ráðleggja hinum dönsku dýralæknum, er nú kvað vera sigldir, að gjöra ekki ytra mjög mikið úr aðgjörðum sínum hjer á landi því, þær hafa verið árangurslausar. Að þær hafa verið skaðlegar, er ekki þeim að kenna, því þeir hafa ekki boðið sig fram í fyrstu. Þetta verður að lenda á stjórninni, einkum sunnlenzku stjórninni, því hún hefur beðið um þá í upphafi. Teiti Finnbogasyni vil jeg ráðleggja að fara í smiðju sína, þar er hann miklu þarfari, en með því að vera að fást við fjárkláðalækningar. Og þjer Jón minn Thorarensen væri sannarlega miklu þarfara að skoða „os frontis“ en að fást við fjárkláðalækningar.

Og þykist jeg nú vera búinn að leggja öllum fjórmenningunum heilræði.

**Jón Finsen.**

---

## Suðurferð Höfðhverfinga.

Vjer höfum áður getið þess, hve óhæg verzlunin var landsmönnum hjer alstaðar norðanlands. og hversu fjelögin biðleikuðu lengi við, en urðu þó að lyktum. þegar kaupmenn slökuðu lítið eitt til, að ganga að þeim kjörum er buðust, bæði af því þau voru svo fá og fámenn, og óttuðust líka, að kornvaran mundi ganga upp, en alstaðar matvörulaust hjer norðanlands nema hjer á staðnum. það sem olli því, að kaupmenn slökuðu nokkuð til, var þó þessi biðlund fjelaganna, og þó fullt eins mikið að þeir vissu, að maður var sendur suður til að semja þar við kaupmenn, og reyna til að fá svo miklum mun betri kaup, að það borgaði sig að gjöra skip út til að flytja vörur suður. þetta gekk nú allt saman vel; kaupmenn syðra tóku vel móti sendimanni og sömdu við hann um að útvega vörur með póstskipi fyrir 6000 rd., og það átti hann að koma með vörur fyrir hjer að norðan. Lakast var, að svo var orðið áliðið tímans, að margir höfðu látið af hendi vörur sínar, svo örðugt varð að smala þeim saman, svo nóg væri, enda var margur maðurinn, sem skauzt úr leik, þegar til átti að taka, þótti þetta nýbreytni, og það mundi verða kostnaður og hætta mikil. Samt fengust vörurnar, skipið fór suður og verzlaði þar, mest við konsúl M. Smith, sem reyndist þeim ágætur skiptavinur.

það er nu ekki vanþörf á því, að skýra fyrir almenningi, hvort ekki sje tilvinnandi að hafa ómak nokkuð, kostnað og fyrirhöfn til þess að vera ekki einbundnir við kaupmenn, sem nota sjer dáðleysi og ramtaksleysi landsmanna til að gjöra þeim verzlunina sem óhagfelldasta, að sýna löndum vorum fram á, að það er sjálfsögð vissa, að því meiri dug, samheldi og áhuga sem vjer sýnum í því, að útvega oss annarstaðar betri kaup, þegar ekki blæs byrlega hjá kaupmönnum vorum, því betri boðin fara þeir að gjöra oss. það er þá fyrst að þeir fara verulega að bæta sig, þegar þeir sjá, að þeir fá ekki vörurna, með öðru móti en að þeir geti jafnhátt verð og gefið er annarstaðar.

Vjer höfum nú gott sýnishorn í höndum til að sanna, hvort þess konar framtakssemi borgar sig ekki. það er skýrsla um kostnað og ábata Höfðhverfinganna, er suður fóru á einu hákarlaskipi með vörur fyrir 6000 rd.

Ábatinn var:

*a.*, Á dönskum vörum:

| | rd. | sk. |
|---|---|---|
| Korni (það var 8 rd. eins og hjer) . . | „ | „ |
| Steinkolum . . . . . . . . . . . | 33 | 32. |
| Salti . . . . . . . . . . . . . | 73 | 32. |
| Brennivíni . . . . . . . . . . . | 25 | „ |
| Sikri . . . . . . . . . . . . . | 46 | 28. |
| Kaffi . . . . . . . . . . . . . | 32 | 4. |
| Tóbaki . . . . . . . . . . . . | 68 | 76. |
| Saum . . . . . . . . . . . . . | 16 | 84. |
| Færum 60tugum . . . . . . . . . | 66 | 64. |
| Tunnum (tómum) . . . . . . . . . | 45 | „ |
| flyt | 407 | 34. |

| | rd. | sk. |
|---|---|---|
| fluttir | 407 | 34. |

*b.*, Á íslenzkum vörum:

| | | |
|---|---|---|
| Lýsi . . . . . . . . . . . . . | 733 | 48. |
| Ull . . . . . . . . . . . . . . | 74 | 16. |
| Æðardún . . . . . . . . . . . | 20 | „ |
| Allur ábati | 1235 | 2 |

þessi ábati er nú mismunurinn á því verði, er Höfðhverfingar fengu syðra og sumarprísunum á sömu vörutegundum er hjer voru (sbr. Norðra þ. á. No. 18—19). Og þegar menn gæta að því, að vörurnar, sem skipt var á báðar síður voru ekki meiri en 6000 rda virði, þá sjer maður hve stórum mun betri sunnanprísarnir voru. Kaupmenn bættu nú seinna nokkuð vöruverð hjer, en það gagnaði svo fáum, því beztir voru þá búnir að verzla, enda var sú bót á vöruverði beinlínis afleiðing af mótstöðu landsmanna.

Kostnaður við suðurferðina var:

| | |
|---|---|
| Kaup 6 manna í 6 vikur og 2 daga . . . | 315 rd. |
| Skipleiga . . . . . . . . . . . | 124 — |
| Ábyrgðargjald fyrir skip og vörur . . | 60 — |
| Aukakostnaður hjer og syðra . . . . | 80 — |
| | 579 rd. |

þegar þetta er dregið frá ábatanum 1235 rd. 2 sk., verður eptir hreinn ábati 656 rd. 2 sk. Af þessu sjá menn, að ferðin hefur orðið mjög kostnaðarsöm, einkum sökum andviðris, og mundi venjulega miklu minni tími ganga til slíkrar ferðar. Skipleigan virðist oss einnig mjög dýr, þegar aðgætt er, að ferðin er farin eptir að hætt er að halda skipinu út til hákarlaveiða. Líka finnst oss óþarflega margir menn með skipinu, að minnsta kosti höfum vjer sjeð Norðmenn koma á stærra skipi með farm til Reykjavíkur, og voru þar á tveir menn og drengur, og ætlum vjer, að þrír menn mundu hafa getað fært skipið ekki lengri veg en til Reykjavíkur. En það sýnir því betur hversu mikill hagur er að fara þess konar ferðir, þegar hreinn ábati verður samt mörg hundruð dala.

---

# Auglýsingar.



---


Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár | 31. Október. | 26—27.

## Loksins.

það er oss sönn og mikil ánægja, að hinn mikilsvirti ritstjóri þjóðólfs hefur nú að lyktum látið verulega álit sitt í ljósi í fjárkláðamálinu í 37. blaði þjóðólfs, og það því meir, sem hann hefur nú skírt og skorinort komið fram með tillögur sínar, og vjer teljum þess vegna víst, að hann, svo góður blaðamaður, haldi nú fast fram stefnu þeirri, er hann nú hefur tekið, og að vjer þurfum því ekki lengur að berjast móti neinum vífilengjum úr þeirri átt. Ritstjóri þjóðólfs er nú loksins svo að kalla hvorfinn frá lækningunum; því hann segir, „að búið sje að reyna og reyna til hlítar, að lækningarnar einar, hversu sem þær gefist álitlega svona á einstöku kindum og fáu fje, ef margfalt fleira sje lagt í sölurnar fyrir það, þær hafi alls engar skorður reist fyrir eðlilegri útbreiðslu kláðans, hann hafi haft sína eyðileggjandi framrás á allar hliðar eins fyrir þeim." Vjer látum oss nú vel lynda þenna dauðadóm yfir lækningunum, og viljum því ekkert finna að því, þó að ritstjóri þjóðólfs vilji lofa þeim Sunnlendingum um miðbik kláðasvæðisins, sem eiga nú að eins mjög fátt fje eptir, og hafa þegar varið ógrynni fjár og fyrirhafnar til lækninganna, að reyna þær eitt árið enn, einkum þar reynslan eptir sögn hans virðist að sanna, að einstöku mönnum ætli að takast að frelsa nokkurn fjárstofn sjer til frambúðar.

þó að þjóðólfur sje nú fallinn frá lækningunum og meðhaldi þeirra, gefur hann nú ekki, eins og varla var við að búast, oss eða öðrum niðurskurðarmönnum dýrðina; því niðurstaðan verður hjá honum, að þar sem lækningamennirnir hafi haft lækningakák, þá hafi niðurskurðarmennirnir haft niðurskurðarkák, og þetta er nú að nokkru leyti satt. því þó að bæði amtmaður Havstein, allur þorri Norðlendinga og blað þetta hafi viljað, að niðurskurðurinn væri nógur, sem vjer og álítum að orðið hefði, ef að niðurskurðarreglunum, sem skipaðar voru vestan Blöndu í fyrra vetur, og sem í næstum því öllu verulegu voru samhljóða frumvarpi meiri hlutans á alþingi 1857 [1], hefði verið alstaðar jafnvel hlýtt í sýslunni, þá var þetta ekki gjört, eins og kunnugt er, nema í sveitunum milli Víðidalsár og Blöndu og í Hrútafirði. Og þó að kláðinn komi því aptur upp á þessu svæði, verður engan veginn af því ráðið, að tillögur meiri hlutans á alþingi eða fyrirskipanirnar nyrðra hafi verið nokkuð kák eða valdið nokkru káki, heldur hitt, að stjórnin með því að draga úrslit þessa máls, svo að ekkert lagaaðhald hefur enn fengizt, hefur dregið úr, eður ónýtt að meira eða minna leyti, hinar vel fyrirhuguðu tillögur alþingis og ráðstafanir yfirvalda hjer nyrðra.

En vjer erum, eins og nú er komið þessu máli, alveg samdóma hinum mikilsvirta fjelaga vorum, að öll þörf sje á, og það nú þegar í haust, að reyna ekki eingöngu niðurskurð þar sem sýkin fer nú aptur að brjótast fram, heldur eins og þjóðólfur stingur upp á niðurskurð alls fjár eða fyrirskurð á takmörkum hinna kláðasýktu og heilbrigðu hjeraða, og vjer fellum oss vel við uppástungu þjóðólfs um svæðið, þar sem fyrirskurðurinn ætti fram að fara, bæði fyrir suðaustan og norðan þar á móti álítum vjer hann taka ofstórt svæði fyrir á Vesturlandinu, því oss þykir auðsætt, að nóg muni verða að skera allt fje í Mýrasýslu, og, ef til vill, þyrfti þess ekki nema í austari helming hennar, enda kemur þar fram

[1]) Hinn eini munur var sá, um það hvað lifa mætti, að meiri hluti alþingis vildi ekki láta lifa á bæ meira en 100 ær, og það hvort sem þær væru veikar eða heilbrigðar, en eptir niðurskurðarreglunum hefur allur sýktur og grunaður sauðpeningur verið drepinn, eins og annað sýkt og grunað fje; en leyft var að láta ær og gimbrar lifa allar þar sem engi grunur var um kláðann, og heybyrgðir voru nógar.

ósamkvæmni í uppástungu þjóðólfs um fyrirskurðinn, því vegna þess, að hann tekur þar til svo stórt svæðið, ofbýður honum að stráfella þar allt, en vill láta á öllu því svæði halda nokkrum ærstofni.

Vjer höfum nú þegar í 20.—21. blaði Norðra þ. á., þar sem vjer skýrum frá kláðanum er kom upp í Vatnsnesfjalli í sumar, sýnt fram á, að allt fje eða flest vestan Víðidalsár mætti nú álíta grunað, og heimtað að þar yrði fylgt fram ströngustu niðurskurðarreglum, og vjer getum þess vegna því betur tekið í strenginn með hinum heiðraða fjelaga vorum hvað Norðurland snertir, sem vjer líka álítum, að gjörskera þurfi nú í haust á þessu svæði, ef að niðurskurðinum ætti að vera rjettilega framfylgt, og þá því heldur, ef að fyrirskurður á takmörkum ætti fram að fara, sem vjer engan veginn efumst um, að væri hið óhultasta meðal. Vjer teljum nú víst,— því að vjer álítum ekki, að það sje enn neitt komið frá stjórninni, er skerði vald það er amtmönnunum var gefið með brjefi stjórnarinnar í fyrra haust; og það var, að þeir skyldu gjöra það í kláðamálinu, er þeir álitu bezt henta —, að amtmaður Havstein láti nú ekki þenna litla niðurskurð í vestari parti Húnavatnssýslu aptra sjer frá að gjöra hina nauðsynlegu ráðstöfun sem útheimtist til að halda áfram þeirri stefnu, sem tekin var á amtsfundinum, og sem öll var samhuga og byggð á fyrri aðgjörðum sjálfs hans í þessu máli. það væri sannarlega hart fyrir allar hinar kláðalausu sýslur Norðanlands, sem hafa lagt svo mikið í sölurnar til þess að frelsast frá kláðanum með því að lofa miklum skaðabótum til Húnvetninga, ef að nú á haustdaginn væri lint að gengið að stemma stiga fyrir kláðanum, með því að gjörskera á ekki stærra svæði en er á milli Hrútafjarðar og Víðidalsár.

Að endingu verðum vjer að geta þess, að þjóðólfi yfirsjest, þegar hann gjörir ráð fyrir samgöngum, samrekstrum og fjárkaupum hreppa á milli í allri Húnavatnssýslu vestan Blöndu, því vjer vitum með vissu, og um það var rætt hjer á amtsfundinum, að jafnstrangt bann hefur verið lagt fyrir fjárrekstra og fjárkaup yfir Víðidalsá eins og yfir Blöndu, svo að engi hætta er, að fje breiði út kláðann á þenna hátt, ef að það er ekki þegar orðið.

---

## Læknaskipun á Íslandi.

þetta mikilsvarðandi málefni vort er nú reyndar svo stórt, að ekki hefur verið gengið fram hjá því í ræðum og ritum. Dr. Hjaltalín hefur skrifað um það langa, snjalla og að mörgu leyti mjög fróðlega ritgjörð í 4. ári nýrra Fjelagsrita, og alþingi hefur tekið þetta mál þrisvar til umræðu, nefnilega 1847, 1855 og 1857, auk margs annars eldra og yngra, sem um það hefur verið skráð og skeggrætt.

það kann nú að vísu virðast ofdirfska fyrir ritstjóra þessa blaðs, sem svo lítið þekkir til þessa máls, nema að því leyti sem hann hefur getað lesið sjer saman úr alþingistíðindum og annarstaðar, að fara að gjöra stórkostlegar bollaleggingar um svo mikið vandamál, enda mun hann nú varla hætta sjer út í það. En þó álítur hann ekki illa eytt nokkrum línum í blaði sínu til þess að sýna fram á: 1. hversu óskynsamleg læknaskipun vor er nú sem stendur, og 2. benda á ýmsa annmarka á uppástungum þeim, er þegar hafa verið gjörðar máli þessu til leiðrjettingar og viðreisnar.

það kann nú í fyrsta lagi virðast miklu auðveldara að sýna ókostina á hinni núverandi læknaskipun, sem að allra áliti er hin vesælasta sem nokkurs staðar finnst hjá menntuðum þjóðum nú á dögum, heldur en að finna gallana á þeim uppástungum henni til endurbótar, sem þegar eru gjörðar af mörgum og miklum mönnum og föðurlandsvinum, sem á alþingi hafa reynt til að knýja á hinar harðlæstu náðardyr stjórnarinnar í þessu efni; en þó ætlum vjer að margt megi um hvorttveggja segja; þó hið fyrra atriði sje í öllum höfuðgreinum sínum svo fráleitt, að svo sje segja öll breyting á því verði að vera til batnaðar.

þegar menn kynna sjer sögu lækningamálsins, og lög þau er stjórnin á elztu tímum hefur gefið um þetta mál, þá má reyndar játa, að framlög af hennar hendi til lækningaskipunarinnar eru næsta órífleg fyr og síðar. 10. maí 1650 biður hún Hinrik Bjelke um álit sitt um það, hvernig holdsveikum mönnum næst guðs hjálp verði bjargað, og 10. maí 1651 leggur hún til fjórar jarðir, eina í hverjum fjórðungi til spítala, hvar slíkir fátækir menn holdsveikir og vanfærir geti fengið hjúkrun og viðurværi; og á hirðstjóri með byskupum og beztu mönnum að gjöra þar skipun um. 12. maí 1652 er nú svarað uppástungum landsmanna, og þar sagt að selja skuli ýmisleg óþörf

klausturgögn, og muni svo konungur ráðstafa því fje, þegar hann viti hvað mikið það verði, og er það auðsjáanlegt, að konungur hefur því ætlað að gæta þess, að leggja ekki ofmikið í sölurnar. Líka er leyft að safna gjöfum utanlands og innan handa spítölunum, og hjónavígslugjöld þremenninga þar til lögð, þó skal sækja um þann gjaldeyri hvert skipti. þangað skal og gjaldast þriðjungur sáttamálsgjalda. Í öðru brjefi sama dag leggur konungur til spítalajarða Hörgsland á Síðu, Klausturhóla í Grímsnesi, Eyri í Eyrarsveit og Möðrufell í Eyjafirði; skulu lögmenn og byskupar setja forstjóra yfir spítalana, er gjöri reikninga og hafi nokkuð af tekjunum og fría ábúð á spítalajörðunum. þetta framlag stjórnarinnar til spítalanna hefur nú þegar reynst svo lítið og ónógt, að ekkert hefur orðið gjört með því, og þess vegna eru til orðnar alþingis samþykktir 30. júní 1652 og sama dag 1653, um að eins dags hlut skuli greiða af öllum skipum er sjó sækja einu sinni á ári og fleira þar að lútandi. þessar spítalasetningar handa holdsveikum, sem — eins og við var að búast, þegar svo litlu var til þeirra varið, og engir læknar settir á þá til að reyna að hjálpa hinum sjúku — gjörðu ekkert gagn, voru nú það eina, er stjórnin gjörði hjer, til hjálpar sjúkum mönnum, þangað til 1760, að Bjarni Pálsson var gjörður landlæknir, og sýnir bezt erindisbrjef hans, hversu ónærgætin og óskynsamleg stjórnin var, og hversu naum hún var í útlátunum; því þar er heimtað meira af honum einum en með sanngirni yrði krafizt af 20 læknum hjer á landi, og það þó hver þeirra hefði helmingi meiri laun en hann hafði. Vjer þurfum eigi að skýra frá sögu lækningaskipunarinnar frá þeim tíma, því um það má lesa gott og glöggt yfirlit eptir landlæknir Jón Hjaltalín í Nýjum Fjelagsritum 4. ári. 30—53. bls.

það er sjálfsagt rjett, er dr. Hjaltalín segir, að það muni hafa verið fyrir framkvæmd og föðurlandselsku Bjarna Pálssonar sjálfs, að hann var gjörður landlæknir og sendur hingað, og hitt er víst, að hann með dugnaði sínum í því að kenna svo mörgum, er síðar urðu góðir læknar, ávann það, að fjölgað var lækna-embættunum. En þó að nú stjórnin fjölgaði embættunum, og setti fjórðungslækna austan og vestan, jafnótt og Bjarni kenndi þeim, þá sýna þó launin það bezt, sem voru 66 rd., og sem smalað var saman úr öllum áttum, hvað mikið stjórnin vildi leggja í sölurnar til þess að koma þessu máli í gott lag. Fjórðungslækna-embættin skiptust nú reyndar víðast hvar í tvennt, svo að nú eru, t. a. m. 2 læknar í Vestfirðingafjórðungi, 3 í Sunnlendingafjórðungi að meðtöldum landlækni og lækni í Vestmannaeyjum, 2 í Norðlendingafjórðungi, en ekki nema einn í Austfirðingafjórðungi. þessir 7 læknar —: því Vestmannaeyjar eru ekki stórar að víðáttu — eiga því að gegna læknastörfum hjá alþýðu, sem býr í strjálbyggðum sveitum, í landi, fjöllóttu, torsóttu og vegalausu, 1860 ferhyrningsmílur að stærð; og það er ekki rjett að vilja kippa úr landsstærðinni með því að segja, að svo og svo mikið af landinu sjeu fjöll og fyrnindi, því engir þurfa fremur að fara yfir fjöll og fyrnindi en læknar, hvernig sem stendur á færð og árstíma. Afleiðingin af þessu er auðsjen. Tápmiklir menn og skylduræknir hafa á stuttum tíma drepið sig og heilsu sína með því að gegna embætti sínu, og viljum vjer þar til nefna austfirzku læknana Ólaf Brynjólfsson, er mjög vel er lýst í áðurnefndri ritgjörð í Fjelagsritunum, og getum vjer sagt hið sama eptir eigin þekkingu um hinn núverandi lækni eystra Gísla Hjálmarsson, því hann reið alla menn af sjer, þegar mikið lá við, er hann var sóttur á sumrum, og gekk alla menn af sjer á vetrum, hversu sem færð og veður var, þegar vjer þekktum hann fyrir nokkrum árum.

það væri nú ætlandi, þegar þessum mönnum eru lagðar þyngri skyldur á herðar en nokkrum öðrum embættismönnum, að laun þeirra mundu að minnsta kosti vera aukin að jöfnu hófi við laun annara embættismanna, en þó er nú ekki því að heilsa. það er stutt síðan, að landlæknirinn fjekk 900 dali, og hjeraðslæknarnir höfðu þangað til fyrir hjerumbil 5 árum 300 rd. að byrja með, og er óhætt að fullyrða, að það voru ekki meiri laun en 66 rd. voru þegar embættin voru fyrst stofnuð. Nú hafa hjeraðslæknarnir 500 rd. hinir yngri og 600 rd hinir eldri, eða hjerumbil hið sama og yngstu undirkennararnir við lærða skólann, og má óhætt fullyrða, að þeir nú á tímum kosta meiru til ferða og hestaeldis, en því nemur árið um kring. Hinir eldri læknar höfðu nú líka meðalasölu, sem var nokkur styrkur, en nú er það víðast aftekið, síðan lyfjabúðir voru stofnaðar.

það verður nú af áður sögðu að liggja hverjum og einum í augum uppi, að þörfin er brýn að læknum sje fjölgað, Oss er óhætt að segja, að ekki sje farið fram á ofmikið, þó að einn

læknir væri settur fyrir hverja sýslu á landinu, að minnsta kosti hjer í Norður- og Austurumdæminu, því allar sýslur hjer eru svo stórar að víðáttu, að þær eru fremur ofstórar en oflitlar fyrir læknir til þess að geta annað því að fara yfir þær, þegar heilbrigðisástand er bærilegt, auk heldur þegar sóttir ganga; og þó að sumar sýslurnar sjeu minni í hinum umdæmum landsins, þá munu þær þó flestar, annaðhvort sökum fólksfjölda eða örðugleika, vera svo torsóttar, að engum lækni sje meira svið ætlandi til yfirferðar. Sum læknisdæmin, sem nú eru, eru svo örðug og víðáttumikil, að fullar 6 langar dagleiðir á sumardag eru milli yztu takmarka þeirra, t. a. m. á Austurlandi, og viðlíka eða enn örðugra mun nyrðra læknisumdæmið í Vesturamtinu vera. Á Austfjörðum þar sem læknirinn situr í Fljótsdalshjeraði miðju, þar sem hentugast er, eru því þrjár góðar dagleiðir að takmörkum umdæmisins á báðar hliðar, og ófarandi á vetrardag, þar sem heiðarvegir eru í hverja sveit utan Fljótsdals hjeraðs, og þeir allir hinir verstu yfirferðar.

Það var því varla ætlandi — einkum síðan að það tók meira að tíðkast, að Íslendingar, sem læra vilja læknisfræði, sigla til Kaupmannahafnar háskóla — að nógir væru til, sem verja vildu fje sínu og fjörvi, til þess að búa sig undir þessa embættisstöðu; enda varð sú raunin bráðum á, eptir að landlæknar hættu að kenna efnilegum mönnum læknisfræðina, sem vel hafði heppnast, og sem þó enn betur hefði gefizt til frambúðar, hefði stjórnin hlynnt að þeirri kennslu eins og vera bar. Það eru heldur ekki fleiri en einir 7 Íslendingar, sem á þessari öld hafa tekið embættispróf í læknisfræði, og af þeim hafa 6 komizt í embætti, og einn lifað embættislaus, því hann hefur álitið betra að búa búi sínu embættislaus en að slíta sjer út fyrir engin laun. Og þegar Íslendingar gátu nú ekki lengur lesið læknisfræðina, vegna embættaleysis og launaleysis, spratt upp — eins og við var að búast — þessi óteljandi skari skottulækna, sem svo eru nefndir; og er það einkum hjer nyrðra og eystra, þar sem læknafæðin er mest, og bágast að ná til þeirra. Það eru eins og eðlilegt er, einkum prestarnir sem fást við þessar lækningar, því embættisstaða þeirra leiðir þá til að „bjarga" — eins og Bernharður prestur franski sagði — bæði andlega og líkamlega. Sumir af þessum skottulæknum eru allopathar, sumir homöopathar, og hvorttveggi aðferðin þykir misjafnt gefast. Þannig þekkjum vjer í Austfirðinga læknisumdæmi 1 prest sem er homöopathi, annan sem er allopathi, og þriðja sem er homöopathi og allopathi að læknisráði, og einn leikmann, sem er homöopathi af norðlenzkum skóla. Í eystra læknisumdæminu í Norðurlandi þekkjum vjer 6 presta, sem eru skottulæknar, 3 homöopathar og þrír allopathar, og þar að auki einn homöopathiskur póstur. Í Skagafirði þekkjum vjer 4 skottulækna af allopatha flokki, 1 prest og 3 leikmenn, og í Húnavatnssýslu einn allopatha.

Þessar skottulækningar eru orðnar svo almennar hjá oss, að engum dæmum gegnir; og þetta er komið svo á veg, að í Reykjavík sjálfri hefur landlæknirinn skottulækni Skapta Skaptason fyrir aðstoðarlækni, án þess að hafa útvegað honum lækningaleyfi. Vjer höfum nú reyndar heyrt, að Skapti lækni meira og betur en landlæknirinn sjálfur, og þetta getur vel verið, því Skapti er eflaust með hinum beztu skottulæknum, og landlæknirinn hefur, ef til vill, aukið töluvert þekkingu hans með lærdómi sínum.

Nú bætist við þetta, að konunglegar ráðstafanir hafa gjört einlægt ljettara fyrir þessa skottulækna að breiðast út og eflast, og stjórnin hefur viðurkennt, að nauðsyn væri á að þeir mættu lifa og þrífast með því að hlífa þeim; og það er líka öll þörf, meðan að læknaskipun er ekki bætt í landinu, en hvað mikill sómi þessa konar er fyrir stjórnina, það látum vjer ósagt; og það er að minnsta kosti vonandi, að hún hrindi þessu máli svo í lag, að ekki þurfi á þessum skottulæknum að halda framvegis.

(Framhald síðar).

---

(Aðsent).

Eins og þegar er kunnugt, bæði af blöðunum, og einkum af sjálfum Amtsfundartíðindunum, komu nokkrir hinir helztu og beztu menn úr Norður- og Austurumdæminu saman á Akureyri í júlímánuði næstliðið sumar, til þess með hreinskilnum vilja og sterkri áhyggju um velferð fósturjarðarinnar, að styrkja þær reglur og ákvarðanir sem þegar áður var búið að setja móti frekari útbreiðslu fjárkláðasýkinnar, sem hingað fluttist af Suðurlandi; og líka til að útvega og ákveða Húnvetningum þær skaðabætur, sem þurfa þóttu til endurgjalds þess fjár sem skorið var bæði til að uppræta kláðann, og sjálfsagt að stöðva framgang hans lengra austur og norður á bóginn en komið var; samdi þá og sendi fundurinn bænarskrá þar að lútandi til stjórnarinnar sem nú er orðinn hvervetna kunnug.

Á fundi þessum voru 5 Húnvetningar, sem engum mun koma til hugar að efa, að hafi með skynsemd, áhuga og föðurlandsást fylgt að málefninu; en það megið þjer þó ekki ætla, Norður- og Austuramtsbúar! að þetta hafi verið þeir einustu Húnvetningar! sem kláðamálið lá þungt á hjarta. Nei aðrir 4 eða 5, sem heima sátu, og biðja urðu því í heimahúsum, tóku sig til — rjett um sömu dagana og amtsfundurinn stóð, og meðan hann var að útvega þeim eins og öðrum, fullnaðar gjald fyrir fjenað þann sem, þessir menn af stærstu nauðum höfðu eyðilagt — og áttu, að sagt er, fund með sjer; og komust þá að þeirri niðurstöðu — því það eru lærðir menn — að flýja á náðir stiptamtmannsins og landlæknisins, og frambera sitt bænareyðslsi fyrir þeirra auglit. En án þess að leggja dóm á aðferð þeirra og viðleitni, eiga þeir ekki síður en aðrir skilið, að minningu verka þeirra og viðburða sje á lopt haldið, og væru þeir of mjög hafðir út undan í mannfjelaginu, ef bænarskrá þeirra ekki fengi að verða þjóðkunnug; hvers vegna vonandi er, að ritstjóri Norðra ljeti hana birtast í blaði sínu; en hún kvað vera svona hljóðandi:

„Þar oss er nú farin að ofbjóða sá vægðarlausi, þvingaði niðurskurður sauðfjárins, sem skipaður er í Húnavatnssýslu, og sem sýnilegt er, að ekki taki enda, fyr en vjer verðum gjörðir öldungis sauðlausir, eins og ekki allfáir búendur í vesturparti þessarar sýslu, eru nú þegar orðnir, þar eð fjárkláðinn er allt af að koma í ljós, og útbreiðist smátt og smátt. en við hann má alls enga lækningatilraun brúka, nema drepa allt fjeð vægðar- og tafarlaust. á hverjum þeim bæ og tíma sem vart verður við hann.

Það liggur ljóst fyrir, að af þessari niðurskurðarráðstöfun sauðfjárins hlýtur að fljóta hungursneyð og hungursdauði fólksins, og það getur ekki lengi undan dregist, já, vart árlangt í þeim hreppum sem mest hafa orðið fyrir fjárdrápinu, og nú strax nauðuglega geta risið undir þeim þurfamanna þunga, er þeim ber að annast; þar eð líka hinn mikli korn-kortur hjá verzlunarmönnum vorum bætist ofan á, svo að nokkur hin sauðlausu heimili, hafa alls enga eða þá sárlítla kornvöru getað fengið keypta fyrir ullina af hinu strádrepna fje, og eru þannig gjörsviptir hinni seinustu lífsbjargar von af því.

Í þessum lífsvandræðum, vorum sjáum vjer oss ekkert annað úrræði en að flýa á náðir stiptamtmannsins yfir Íslandi hans hávelborinheita herra Greifa af Trampe, og biðja hann lotningarfyllst og innilegast að líta á þetta vort vandamál með honum eiginlegri ljúfmennsku og vorkunnsemi, og svo að leggja oss sitt mikilsverða liðsinni við hina dönsku stjórn, að hún lofi oss að reyna lækningar við það sauðfje vort sem enn þá er lifandi; eins og við gengst í Suðuramtinu, og hún veiti oss nauðsynlegan styrk til þess með meðölum og upplýsingum um brúkun þeirra, með fleiru, undir yfirumsjón stiptamtmannsins og landlæknisins.

Með þessum hætti kynni oss þó í hið minnsta heppnast að verja sauðfjenað vorn bráðum dauða í verstu mynd, og kannske halda einhverju lifandi oss til lífsbjargar meðan vjer værum að koma upp nautpeningi, og að undirbúa oss með maturtaræktun og fleira, sem gæti afvent hungurs manndauða.

Að vjer dirfumst að fram bera þessa lífsnauðsyn vora fyrir herra stiptamtmanninn, kemur þar af, að vjer þykjumst komnir að fullvissu þar um, að hann lýtur á yfirstandandi og yfirvofandi lífsvandræði Íslendinga, með nákvæmri vorkunnsemi og sjerlegri nærgætni, og álítur lækningar á sauðfje ekki að eins leyfilegar heldur jafnvel nauðsynlegar; en vjer erum aldeilis vonlausir um, að norðuramtsstjórnin veiti oss nokkurt liðsinni í þessu máli, þar sem hún sýnir fullkomlega og augljóslega, hversu hún er því mótsnúin og tekur hart á öllum þeim skoðunum og tilraunum, sem miða til að lengja líf hins grunaða sauðfjár, þó ekki sje nema um tíma eður til næsta haust".

Í júlímánuði 1858.

Lotningarfyllst.

G. G. P. V. J. S. J. Th.

---

(Aðsent).

## Fjelagsritin nýju.

Er það ekki von, að við Íslendingar fögnum á vorin, þegar skipin koma, og við höfum von á að fá Skírni og Fjelagsritin, enda er það líka. Jeg hefi nú í mörg ár verið útsölumaður Fjelagsritanna og útbýtingamaður bókmenntafjelags bókanna, og kaupendurnir eru bráðlátir eins og von er; því það eru einu bækurnar, sem bera okkur frjettirnar frá útlöndum; en það versta er, að Fjelagsritin, sem eru svo góð og einstök í sinni röð, eru nú orðin haustfuglar, en ekki vorfuglar, því þau koma optast í mínar hendur í sláttarlok. Það á því vel við, að jeg láti Norðra fá að heyra álit mitt um rit þessi eptir veturnætur. Fyrsta ritgjörðin í þeim, eptir Jón Sigurðsson, um alþing og alþingismál, er eins og við mátti búast, næsta lærdómsríkt yfirlit yfir alþing og aðgjörðir þess síðan það var stofnað. Þar er skiljanlega og skipulega gjörð grein fyrir öllu því sem gjörzt hefur á alþingi síðan það hófst, hluttekningu þess í löggjafarmálum, og afskiptum þess af framkvæmdarvaldinu; og er það allt eins meistaralega af hendi leyst eins og við mátti búast af þeim höfundi, sem bæði hefur verið alþingisforseti, og þekkir manna bezt allt sem snertir Íslands sögu fyr og síðar — nema hvað hann, samkvæmt tillögum sínum á alþingi, er samur við sig um kláðamálið.

þessi ritgjörð er því hinn ágætasti undirbúningur fyrir unga og nýja alþingismenn. þeir geta þar sjeð, hvers þeir eiga að biðja, og hvernig þeir eiga að framflytja bænir sínar og kjósenda sinna. þingið fær þar margar góðar og rjettar bendingar, og einstakir þingmenn efni til íhugunar. þar eru skírt og greinilega tekin fram rjettindi lands vors, hver þau eru, og hversu þessi rjettindi hafa verið fótum troðin af Dana stjórn.

Jón Sigurðsson hefur, eins og þjóðkunnugt er, rætt og ritað svo vel um rjettindi lands vors, að enginn hefur áður staðið honum þar jafnfætis, og við megum, ef til vill, lengi bíða þeirra manna er betur gjöri.

það eitt líkar mjer ekki, að mjer virðist að Jón Sigurðsson sjái engan alþingisforseta nema sjálfan sig. því alþingið 1855 og forseti þess — sem þó var annálaður alþingismaður — hefur svo margar syndir á baki að bera, að enginn gæti risið undir því nema dauður maður, því það sýnist að Jón Sigurðsson vilji láta allra þinga syndir bitna á honum, og aldrei þykir honum þingið vel þinglegt nje þingmennskulegt nema 1857.

Jeg hefi opt verið að hugsa mjer í minni einföldu bóndamennsku, hvernig alþingis forsetinn á að vera, og hefur mjer fundizt, að hann ætti að vera einna líkastur Jóni Sigurðssyni; verja þingið, eins og hann gjörir, fyrir áleitni konungsfulltrúa og danskra stjórnarherra, halda fram bænarrjetti þingmanna og þingsins, og gjöra kjósendum eða alþýðu, sem auðveldasta aðgöngu til alþingis. En hitt þykir mjer ekki eins víst — kann ske af því að jeg er niðurskurðarmaður — að þingmenn eigi sjálfsagt að hanga hver aptan í öðrum í innlendum málum; því þess konar mál geta þó verið svo stórskorin, að engum þingmanni, sem hugsar nokkuð, og gæta vill skyldu sinnar geti dottið í hug að greiða atkvæði gegn því, er hann álítur rjett að vera.

þinginu er því jafnmikil nauðsyn á, ef á þyrfti að halda, að verja sig fyrir yfirgangi forseta eins og stjórnarinnar, ef hann vill gjöra sig að alræðismanni í innlendum málum og heimta af þingmönnum tilslökun fram yfir það sem þeir álíta rjett, til þess kann ske að styðja eitthvert það málefni, er hann sjálfur vill framfylgja. Ef að þeir menn yrðu forsetar sem vilda beita þingið slíkum brögðum, þá er áríðandi, að þingmenn verji sig jafnvel fyrir slíkum yfirgangi sem fyrir áleitni stjórnarinnar, því hann gæti vissulega orðið eins hættulegur, þegar fram í sækti.

2. Brjef frá Rómaborg, eptir Ólaf katólska.

þeir sem að þekkja herra Ólaf Gunnlaugsen eða kathólska frá skólatíma hans í Reykjavík og stúdentaárum hans í Kaupmannahöfn verða efalaust að játa, að hann var gáfaður maður og fjölfróður og hinn efnilegasti til bókmennta. þetta virðist enn lýsa sjer einkar vel í brjefum þessum frá Rómaborg, þau eru hin skemmtilegustu og vel skrifuð, og væri óskandi að höfundurinn gæfi okkur lýsingar á fleiri löndum, því öllu þesskonar taka menn með stærstu þökkum og því er miður, að svo fáir Íslendingar geta ferðast til annara landa, því ferðabækur þeirra manna sem hafa vit og eptirtekt til að sjá hið sjerstaklega í lífi hverrar þjóðar, er miklu yndislegra og fróðlegra að lesa en allar blaðafrjettir um orustur og samninga stjórnenda.

Auðsjeð er það, að Ólafi finnst mikið um páfatignina, og hina viðhafnamiklu nýju kirkju sína, og er honum það ekki láandi, fyrst hann á annað borð breytti trú sinni. það eitt þykir mjer vanta, að Ólafur segir okkur ekki frá um fyrirætlanir páfa hjer á Íslandi, hvort hann ætlar að taka okkur aptur undir náðarvængi sína, ef við viljum þíðast hann.

Auk þessara ritgjörða eru í Fjelagsritunum stutt ritgjörð eptir Guðbr. Vigfússon um Íslendingasögur, kvæði tvö snúin úr latínu eptir Gísla Brynjúlfssen, og nokkur frumkveðin eptir Steingrím Thorsteinsson, og enn kafli úr brjefi frá Reykjavík um skipatjónið í nóvember í fyrra, nett og ágætlega skrifaður.

það má því furðu gegna, að ekki skuli seljast meira af þessum ágætu ritum, sem svo eru fróðleg og skemmtileg, en svo að tekjurnar hrökkva tæplega fyrir prentunarkostnaðinum; og ætla jeg þessu mest valda, hve seint ritin koma til landsins.

---

## Kafli úr brjefi
### frá gamaldags bónda. 6. júní 1858 [1].

(Aðsent). Jeg þakka þjer kærlega tilskrifið af

[1] Brjef þetta er eins og sjá má svar frá gömlum bónda í Skagafirði til manns hjer á Akureyri. Oss þótti brjefið svo einkennilegt bæði að orðfæri og hugsun, að vjer fengum leyfi til að taka þenna kafla úr því, og kynni hann að geta orðið mörgum manni góð hugvekja um verzlun og viðskipti manna. Ritstjórinn.

31. desember f. á., meðtekið 8. febrúar, sem þá loksins slagaði inn á leguna í hönd mjer norðvestan af Skagatá. Sýnist eins og berendur þess hafi misst sjónar á leiðarstjörnunni; enda gengur svo tíðum með þessar signetsgnoðir, að þær verða sæhafa í vösum ómildra manna. Gaman hafði jeg af seðlinum sem og hverri annari okkar litlu viðkynningu (gæti jeg annars haft gaman af nokkru nú orðið). Mjög sýnist nú brugðið Íslendingum, að sjá þá berjast með innýflum og hausum skepnanna, og lítt hefði því trúað verið á 9. og 10. öld, að svo mundi verða. Einhver mælir jafnan skapamálum. Þær tíðirnar eru í nánd, að svoddan vopn verða ekki á lopti, heldur eiga menn bardaga við sinn eiginn maga, sem heimtar stríðsskattinn með allsherjarlögum, og æpir herópið það er menn kalla garnagaul. Yfirstandandi tíðar svipur er einhver hinn mikilúðlegasti, sem jeg hefi sjeð, frá hverju sjónarmiði sem jeg skoða hann; eru og færri dæmi, að jafnstór vanhöld hafi sýnt sig undan svo góðum vetri. En þetta er eðlilegt, því það góða er jafnan brúkað án athygli, og blíðlæti náttúrunnar án ótta. Vetur er alltíð vetur, í eðli sínu, og hefur sína rjettu verkun inn á náttúruna, þó ekki sjeu alltíð sömu frost og fannir. Sá ósýnilegi kraptur þessa forna heitis: þar skal verða vetur og sumar, verkar inn á þá sýnilegu jörð, og allt sem á henni nærist, hið sama í grundvallarlögunum, hvernig sem loptið lætur.

Jeg hræðist að hugsa til svo margra árgæðsku ára í sífellu til lands og sjóar, sem nýgengin eru hjá, og sjá um leið engan þekkjanlegan ávöxt þeirra, nema í munaðarlífi, prakt og dramibi; og mitt í skauti árgæðskunnar hafa menn smíðað sjer dýrtíð í landinu í öllum viðskiptum innbyrðis, og það svo óhóflega, að varla heyrast dæmi þess í afleiðingum nokkurra hallæra. Menn hafa sett sjer fyrir augnamið, og bent hver öðrum á hæsta verðið í kaupstaðnum, sem varað hefur stundum daginn, og viku þegar bezt ljet, og sagt: „þetta er sú regla og mælisnúra eptir hverri vjer framgöngum". En það var sitt hvað borgaraleg og bræðraleg innbyrðis viðskipti í einum fámennum og umflotnum hólma í Norðurhöfum eður tælandi stundarviðskipti við útlenda. Það er illa valið, að sú næringarmjólk, sem vjer enn sjúgum úr brjóstum móður vorrar, og guð hafði sjerdeilislega ætlað oss til fósturs, henni skulum vjer samstundis spýta í óþakklátt gin útlendra, opt fyrir svikna vöru, skemmd mjölföng og tælandi glis opt með afarverði. Þetta allt fellir lífið meir enn styður; en vort rjetta lífsviðurhald og meðöl flytja þeir úr greipum oss, en skilja oss eptir sult og seyru.

Mun ekki gjafaranum allra góðra hluta misþóknast, þegar oss þykir allt annað betra en það sem hann sjálfur leggur á borð fyrir oss? Þó er bágast af öllu, ef hann tekur í burtu blessun sína frá lífsbjörg vorri vegna vorrar misbrúkunar, því þá fer brauðið að verða ódrjúgt og lítt nærandi; því eins og hann er meistari í að gefa eins getum vjer og verið meistarar í því að spilla og eyða.

Kaupstaðir vorir hjer á Skagafirði hafa verið allslausir í vetur og vor, utan í Hofsósi fekkst lengstum narningur af sikurlausu kaffi, sem enginn með heilbrigðri sál þoldi af lykt nje smekk; brennivín fekkst þar í reikning fram undir miðjan vetur, engum kristnum manni drekkandi; kölluðu menn það almennt Jólahland. Þetta voru öll lífsbjargarmeðölin, er Danir skildu oss eptir undir veturinn, en sigldu hjeðan með hlaðnar skeiður af kjöti, fiski, tólg, smjöri og lýsi, sem allt hefði varið menn sulti á þessu kalda og langa vori. Nú eru hjer komin 4 skip á Skagafjarðar höfn, og eru menn nærfellt eins svangir fyrir því, margur hver. Fæstir hafa peninga að kaupa með, vörur í engu verði á þessum tíma, en ekkert er lánað þó líf við liggi. Tilgangur Dana í öllu þessu er að vísu auðsjen; en sífelldar þarfir vorar og óframsýni, sem og illa sameinaðir þeir litlu kraptar er vjer höfum, munu lengst standa og hafa staðið oss fyrir þrifum.

Þetta er þá orðið miklu lengra og allt annað en jeg í fyrstu ætlaði; og vík jeg nú sögunni heim til sjálfs mín, sem kunnugastur þar, og er hún með öllu óríflег. Er jeg nú, þegar minnst varir kominn í rúmið, því fylgikonur mínar þrjár: elli, synd og gigt, allar tröllauknar, ganga nú svo fast að mjer á hólmi, að jeg kem engum vörnum við, en sje hvergi þann, er haldi fyrir mig skildi, en kann ske margan, sem beri vopn á mig, þá meiðandi tungu, ef ekki önnur. Óskemmtilegast er að falla með engan orðstír, þá falla skal; og nær því að segja heldur illan, svo nokkuð aðkvæði, en alls engan.

---

# Frjettir.

**Innlendar.** Bágt var vorið hið næstliðna, og bág var heyskapartíðin, en þó tók út yfir, þegar hausta tók. Í enda sepembermánaðar tók veðri hjer um svæði að bregða; komu þá um mánaðamótin fjarskamiklar hríðar og fannfergjur, og urðu víða stórskaðar á sauðfjenaði manna, því hinar seinni göngur voru ekki afstaðnar þegar ótíðin byrjaði, og flest fje óvíst eins og vant er að vera um þann tíma árs. Víða fennti fje, einkum um Þingeyjarsýslu t. a. m. í Höfðahverfi og Bárðardal og við Mývatn, en þó urðu þessir fjárskaðar hvergi eins stórkostlegir og í Múlasýslum, enda voru veðrin hvergi eins grimm og þar eptir því sem sem vjer höfum til spurt. Þegar póstur fór af stað að austan varð hann samferða þeim er ráku úrtíningsfje frá Hjeraði upp úr Reyðarfirði, Gjörði þá snjóhríðina svo grimma og ófærð svo mikla, að rekstrarmenn máttu ganga þar frá 15 hestum og 500 fjár og komust með illan leik aptur til byggða. Hefur það fje að kindum allt tapast, og sumir hestarnir voru dauðir, þegar seinustu frjettir bárust, en nokkrum varð náð. Mikinn fjölda fjár hefur og fennt víða þar á uppsveitum. Í Fjörðum eystra var og hin mesta óáran; þau litlu hey er náðst höfðu, voru svo mygglnð og hrakin, að engu

þessi ritgjörð er því hinn ágætasti undirbúningur fyrir unga og nýja alþingismenn. þeir geta þar sjeð, hvers þeir eiga að biðja, og hvernig þeir eiga að framflytja bænir sínar og kjósenda sinna. þingið fær þar margar góðar og rjettar bendingar, og einstakir þingmenn efni til íhugunar. þar eru skírt og greinilega tekin fram rjettindi lands vors, hver þau eru, og hversu þessi rjettindi hafa verið fótum troðin af Dana stjórn.

Jón Sigurðsson hefur, eins og þjóðkunnugt er, rætt og ritað svo vel um rjettindi lands vors, að enginn hefur áður staðið honum þar jafnfætis, og við megum, ef til vill, lengi bíða þeirra manna er betur gjöri.

það eitt líkar mjer ekki, að mjer virðist að Jón Sigurðsson sjái engan alþingisforseta nema sjálfan sig. því alþingið 1855 og forseti þess — sem þó var annálaður alþingismaður — hefur svo margar syndir á baki að bera, að enginn gæti risið undir því nema dauður maður, því það sýnist að Jón Sigurðsson vilji láta allra þinga syndir bitna á honum, og aldrei þykir honum þingið vel þinglegt nje þingmennskulegt nema 1857.

Jeg hefi opt verið að hugsa mjer í minni einföldu bóndamennsku, hvernig alþingis forsetinn á að vera, og hefur mjer fundizt, að hann ætti að vera einna líkastur Jóni Sigurðssyni; verja þingið, eins og hann gjörir, fyrir áleitni konungsfulltrúa og danskra stjórnarherra, halda fram bænarrjetti þingmanna og þingsins, og gjöra kjósendum eða alþýðu, sem auðveldasta aðgöngu til alþingis. En hitt þykir mjer ekki eins víst — kann ske af því að jeg er niðurskurðarmaður — að þingmenn eigi sjálfsagt að hanga hver aptan í öðrum í innlendum málum; því þess konar mál geta þó verið svo stórskorin, að engum þingmanni, sem hugsar nokkuð, og gæta vill skyldu sinnar geti dottið í hug að greiða atkvæði gegn því, er hann álítur rjett að vera.

þinginu er því jafnmikil nauðsyn á, ef á þyrfti að halda, að verja sig fyrir yfirgangi forseta eins og stjórnarinnar, ef hann vill gjöra sig að alræðismanni í innlendum málum og heimta af þingmönnum tilslökun fram yfir það sem þeir álíta rjett, til þess kann ske að styðja eitthvert það málefni, er hann sjálfur vill framfylgja. Ef að þeir menn yrðu forsetar sem vildu beita þingið slíkum brögðum, þá er áríðandi, að þingmenn verji sig jafnvel fyrir slíkum yfirgangi sem fyrir áleitni stjórnarinnar, því hann gæti vissulega orðið eins hættulegur, þegar fram í sækti.

2. Brjef frá Rómaborg, eptir Ólaf katólska.

þeir sem að þekkja herra Ólaf Gunnlaugsen eða kathólska frá skólatíma hans í Reykjavík og stúdentaárum hans í Kaupmannahöfn verða efalaust að játa, að hann var gáfaður maður og fjölfróður og hinn efnilegasti til bókmennta. þetta virðist enn lýsa sjer einkar vel í brjefum þessum frá Rómaborg, þau eru hin skemmtilegustu og vel skrifuð, og væri óskandi að höfundurinn gæfi okkur lýsingar á fleiri löndum, því öllu þesskonar taka menn með stærstu þökkum og því er miður, að svo fáir Íslendingar geta ferðast til annara landa, því ferðabækur þeirra manna sem hafa vit og eptirtekt til að sjá hið sjerstaklega í lífi hverrar þjóðar, er miklu yndislegra og fróðlegra að lesa en allar blaðafrjettir um orustur og samninga stjórnenda.

Auðsjeð er það, að Ólafi finnst mikið um páfatignina, og hina viðhafnamiklu nýju kirkju sína, og er honum það ekki láandi, fyrst hann á annað borð breytti trú sinni. það eitt þykir mjer vanta, að Ólafur segir okkur ekki frá um fyrirætlanir páfa hjer á Íslandi, hvort hann ætlar að taka okkur aptur undir náðarvængi sína, ef við viljum þíðast hann.

Auk þessara ritgjörða eru í Fjelagsritunum stutt ritgjörð eptir Guðbr. Vigfússon um Íslendingasögur, kvæði tvö snúin úr latínu eptir Gísla Brynjúlfssen, og nokkur frumkveðin eptir Steingrím Thorsteinsson, og enn kafli úr brjefi frá Reykjavík um skipatjónið í nóvember í fyrra, nett og ágætlega skrifaður.

það má því furðu gegna, að ekki skuli seljast meira af þessum ágætu ritum, sem svo eru fróðleg og skemmtileg, en svo að tekjurnar hrökkva tæplega fyrir prentunarkostnaðinum; og ætla jeg þessu mest valda, hve seint ritin koma til landsins.

---

## Kafli úr brjefi

frá gamaldags bónda 6. júní 1858[1].

(Aðsent). Jeg þakka þjer kærlega tilskrifið af

[1]) Brjef þetta er eins og sjá má svar frá gömlum bónda í Skagafirði til manns hjer á Akureyri. Oss þótti brjefið svo einkennilegt bæði að orðfæri og hugsun, að vjer fengum leyfi til að taka þenna kafla úr því, og kynni hann að geta orðið mörgum manni góð hugvekja um verzlun og viðskipti manna. Ritstjórinn.

31. desember f. á. meðtekið 8. febrúar, sem þá loksins slagaði inn á leguna í hönd mjer norðvestan af Skagatá. Sýnist eins og berendur þess hafi misst sjónar á leiðarstjörnunni; enda gengur svo tíðum með þessar signetsgnoðir, að þær verða sæhafa í vösum ómildra manna. Gaman hafði jeg af seðlinum sem og hverri annari okkar litlu viðkynningu (gæti jeg annars haft gaman af nokkru nú orðið). Mjög sýnist nú brugðið Íslendingum, að sjá þá berjast með innýflum og hausum skepnanna, og lítt hefði því trúað verið á 9. og 10. öld, að svo mundi verða. Einhver mælir jafnan skapamálum. Þær tíðirnar eru í nánd, að svoddan vopn verða ekki á lopti, heldur eiga menn bardaga við sinn eiginn maga, sem heimtar stríðsskattinn með allsherjarlögum, og æpir heróp það er menn kalla garnagaul. Yfirstandandi tíðar svipur er einhver hinn mikilúðlegasti, sem jeg hefi sjeð, frá hverju sjónarmiði sem jeg skoða hann; eru og færri dæmi, að jafnstór vanhöld hafi sýnt sig undan svo góðum vetri. En þetta er eðlilegt, því það góða er jafnan brúkað án athygli, og blíðlæti náttúrunnar án ótta. Vetur er alltíð vetur, í eðli sínu, og hefur sína rjettu verkun inn á náttúruna, þó ekki sjeu alltíð sömu frost og fannir. Sá ósýnilegi kraptur þessa forna heitis: þar skal verða vetur og sumar, verkar inn á þá sýnilegu jörð, og allt sem á henni nærist, hið sama í grundvallarlögunum, hvernig sem loptið lætur.

Jeg hræðist að hugsa til svo margra árgæðsku ára í sífellu til lands og sjóar, sem nýgengin eru hjá, og sjá um leið engan þekkjanlegan ávöxt þeirra, nema í munaðarlífi, prakt og drambi; og mitt í skauti árgæðskunnar hafa menn smíðað sjer dýrtíð í landinu í öllum viðskiptum innbyrðis, og það svo óhóflega, að varla heyrast dæmi þess í afleiðingum nokkurra hallæra. Menn hafa sett sjer fyrir augnamið, og bent hver öðrum á hæsta verðið í kaupstaðnum, sem varað hefur stundum daginn, og viku þegar bezt ljet, og sagt: „þetta er sú regla og mælisnúra eptir hverri vjer framgöngum“. En það var sitt hvað borgaraleg og bræðraleg innbyrðis viðskipti í einum fámennum og umflotnum hólma í Norðurhöfum eður tælandi stundarviðskipti við útlenda. Það er illa valið, að sú næringarmjólk, sem vjer enn sjúgum úr brjóstum móður vorrar, og guð hafði sjerdeilislega ætlað oss til fósturs, henni skulum vjer samstundis spýta í óþakklátt gin útlendra, opt fyrir svikna vöru, skemmd mjölföng og tælandi glis opt með afarverði. Þetta allt fellir lífið meir enn styður; en vort rjetta lífsviðurhald og meðöl flytja þeir úr greipum oss, að skilja oss eptir sult og seyru.

Mun ekki gjafaranum allra góðra hluta misþóknast, þegar oss þykir allt annað betra en það sem hann sjálfur leggur á borð fyrir oss? Þó er bágast af öllu, ef hann tekur í burtu blessun sína frá lífsbjörg vorri vegna vorrar misbrúkunar, því þá fer brauðið að verða ódrjúgt og lítt nærandi; því eins og hann er meistari í að gefa eins getum vjer og verið meistarar í því að spilla og eyða.

Kaupstaðir vorir hjer á Skagafirði hafa verið allslausir í vetur og vor, utan í Hofsósi fekkst lengstum narningur af sikurlausu kaffi, sem enginn með heilbrigðri sál þoldi af lykt nje smekk; brennivín fekkst þar í reikning fram undir miðjan vetur, engum kristnum manni drekkandi; kölluðu menn það almennt Jólahland. Þetta voru öll lífsbjargarmeðölin, er Danir skildu oss eptir undir veturinn, en sigldu hjeðan með hlaðnar skeiður af kjöti, fiski, tólg, smjöri og lýsi, sem allt hefði varið menn sulti á þessu kalda og langa vori. Nú eru hjer komin 4 skip á Skagafjarðar höfn, og eru menn nærfellt eins svangir fyrir því, margur hver. Fæstir hafa peninga að kaupa með, vörur í engu verði á þessum tíma, en ekkert er lánað þó líf við liggi. Tilgangur Dana í öllu þessu er að vísu auðsjen; en sífelldar þarfir vorar og óframsýni, sem og illa sameinaðir þeir litlu kraptar er vjer höfum, munu lengst standa og hafa staðið oss fyrir þrifum.

Þetta er þá orðið miklu lengra og allt annað en jeg í fyrstu ætlaði; og vík jeg nú sögunni heim til sjálfs mín, sem kunnugástur þar, og er hún með öllu órífleg. Er jeg nú, þegar minnst varir kominn í rúmið, því fylgikonur mínar þrjár: elli, synd og gigt, allar tröllauknar, ganga nú svo fast að mjer á hólmi, að jeg kem engum vörnum við, en sje hvergi þann, er haldi fyrir mig skildi, en kann ske margan, sem beri vopn á mig, þá meiðandi tungu, ef ekki önnur. Óskemmtilegast er að falla með engan orðstír, þá falla skal; og nær því að segja heldur illan, svo nokkuð aðkvæði, en alls engan.

---

# Frjettir.

**Innlendar.** Bágt var vorið hið næstliðna, og bág var heyskapartíðin, en þó tók út yfir, þegar hausta tók. Í enda sepembermánaðar tók veðri hjer um svæði að bregða; komu þá um mánaðamótin fjarskamiklar hríðar og fannfergjur, og urðu víða stórskaðar á sauðfjenaði manna, því hinar seinni göngur voru ekki afstaðnar þegar ótíðin byrjaði, og flest fje óvíst eins og vant er að vera um þann tíma árs. Víða fennti fje, einkum um Þingeyjarsýslu t. a. m. í Höfðahverfi og Bárðardal og við Mývatn, en þó urðu þessir fjárskaðar hvergi eins stórkostlegir og í Múlasýslum, enda voru veðrin hvergi eins grimm og þar eptir því sem sem vjer höfum til spurt. Þegar póstur fór af stað að austan varð hann samferða þeim er ráku úrtíningsfje frá Hjeraði upp úr Reyðarfirði, Görði þá snjóhríðina svo grimma og ófærð svo mikla, að rekstrarmenn máttu ganga þar frá 15 hestum og 500 fjár og komust með illan leik aptur til byggða. Hefur það fje að líkindum allt tapast, og sumir hestarnir voru dauðir, þegar seinustu frjettir bárust, en nokkrum varð náð. Mikinn fjölda fjár hefur og fennt víða þar á uppsveitum. Í Fjörðum eystra var og hin mesta óáran; þau litlu hey er náðst höfðu, voru svo myggluð og hrakin, að engu

voru nýt, og víða var enn hey úti undir snjó. Sumstaðar brunnu töður, sem rífa varð inn hálfþurrar, til stórskemmda. Ótíðin í haust bannaði mönnum og allvíða að fækka fje sínu með því að láta það í kaupstað, því enginn gat komizt yfir jörðina sökum ófærðar og illviðra, og sumir Bárðdælingar, sem komnir voru með skurðarfje inn í Fnjóskadal og ætluðu hingað í sláturtíðinni, urðu að skera það niður þar í dalnum, því þeir komust hvorki fram nje aptur með það.

Eptir miðju þessa mánaðar tók veðráttan smátt og smátt að breytast til batnaðar, og núum mánaðamótin komu asahlákur og hvass og hlýr sunnanþeyr. Tók hjer upp mestallan snjó í byggð en fjarskalegur vöxtur hljóp í ár og læki, og urðu víða mikil skriðuföll, eins og mest verður á vordag. Hjer á Brekku í Kaupangsveit hljóp skriða á tún, og tók þar hús, sem fimmtán lömb voru í, og heyið allt með, og gjörði þar að auki stórskemmdir á túni og engjum.

Hvalrekar hafa orðið nokkrir eystra, en mest mun þó hafa kveðið að þeim, er rak austan á Tjörnesi. Hann er sagt að hafi verið 50 til 60 álna. Þenna hval rak á Ísólfsstaðaland.

Þó að nú tíðin hafi verið þannig hin örðugusta til að koma fje í kaupstað, fengu kaupmenn hjer þó töluvert af sláturfje, enda munu þeir, að minnsta kosti sumir, hafa gefið þó nokkuð betri kaup en þeir buðu í fyrstu, og ekki hafa verið svo mjög vandir að gæðum fjársins. Allt fje hefur reynzt mjög ljelegt á mör, og valda því eflaust hinar miklu rigningar, er sífellt hafa gengið í sumar, og hrakningarnir á fjenu í haust. Úr vestursýslunum Húnavatns og Skagafjarðar var töluvert af fje rekið suður, en eptir því sem vjer höfum frjett af þeim ferðum, ætlum vjer, að þeir hafi ekki þótzt ofsælir af kaupunum við Sunnlendinga og óvíst hvort, það hefur orðið þeim ábatameira, en að skera það heima óhrakið.

## Kosningarnar til alþingis.

Síðan að vjer gátum alþingiskosningarinnar í Norðurþingeyjarsýslu höfum vjer frjett um þær alþingiskosningar sem enn hafa framfarið hjer í Norður og Austurumdæminu. Í Húnavatnssýslu og Suðurmúlasýslu eru kosningar, ekki enn fram farnar, og verða þær því hjeðan af að líkindum ekki fyrri en í vor komandi. Í Norðurmúlasýslu er prófastur **Halldór Jónsson** á Hofi kosinn til alþingismanns og sjera **Sigurður Gunnarsson** á Desjarmýri til varaþingmanns. Í Suðurþingeyjarsýslu var hreppstjóri **Jón Sigurðsson** á Gautlöndum kosinn fyrir alþingismann, og **Einar Ásmundsson** gullsmiður á Nesi til varaþingmanns. Í Eyjafjarðarsýslu voru kjörnir **Stephán Jónsson** umboðsmaður á Steinstöðum fyrir alþingismann, og sjer **Jón Thorlacius** í Saurbæ fyrir varaþingmann, og í Skagafjarðarsýslu höfum vjer heyrt að kosinn hafi verið stipendiarius arnamagnæanus **Gísli Brynjúlfsen** í Kaupmannahöfn fyrir alþingismann, og hreppstjóri **Egill Gottskálksson** fyrir varaþingmann.

Vjer vitum ekki gjörla um það, hversu fjölmennt kjörþingið hefur verið í Skagafirði, en í öllum hinum kjördæmunum hafa þau verið mjög lítið sótt, og hefur því meðfram valdið, að um það leyti, er þingin voru haldin, var hin versta ótíð svo varla var, ferða fært. Í Eyjafjarðarsýslu var þannig ekki tíundi hluti kjósenda og lítið fleira að tiltölu í Þingeyjarsýslu.

## Auglýsingar.

Þar sem jeg mjög fátækur og heilsuþrotinn aumingi, þó á góðum aldri, fyrir íbúandi holdsveiki, hefi áformað í trausti drottins að leita mjer lækninga erlendis, og verða inntekinn á spítelskra hospital í Norvegi; studdur af einstakra manna góðvild, ráðstöfunum og gjöfum, hvað peningastyrk áhrærir, bið jeg auðmjúklega ritstjóra blaðsins Norðra, að lýsa grátfegnu þakklæti mínu yfir amtmannsins herra Havsteins ráðstöfunum, og svo til heila fjelagsskaparins í Vallnahrepp, þó mest mínum velmetnu og heiðursverðu húsbændum, fyrir brjóstumkenningu og gjafir sínar, og bið og vona að drottinn minnist orða sinna í heilagri ritningu, þá þeim mest á liggur: „Ölmusur afmá allar syndir.“

Yztabæ í Hrísey í septemberm. 1858.

Björn Jónsson.

Undirskrifaður hefur til sölu: Ný fjelags rit 18. ár“ kosta 64 sk. Verðlaunarit Suðuramtsins húss og bústjórnarfjelags. „Neyðin kennir naktri konu að spinna“ kostar 8 sk. og rit líks efnis, „Fátt er svo ilt að einugi dugi“ kostar 8sk.

Akureyri 13. október 1858.

J. J. Borgfirðingur.

Næstliðið vor hvarf mjer hryssa 3 vetur úr heimahögum, jarphöttótt, með flekki í báðum huppum og dökk í tagli óaffext og ómörkuð; ef einhver yrði var um tjeða hryssu, óska jeg að fá að vita það svo fljótt skeð gæti.

Merkigili 16. oktober 1858.

Kristján Kristjánsson.

### Fjármörk.

Stúfrifað hægra; sneitt framan fjöður aptan vinstra,
Vigfús Sigfússon Hvammi í Þingeyjarsýslu,
Tvírifað í stúf hægra, sneitt aptan vinstra.
Ilhugi Friðfinnsson á Ísbóll.
Tvírifað í stúf hægra, fjöður fr.
Markús Sigurðsson vinnumaður á Ísbóli.

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason**.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Augl. ýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár | 30. Nóvember. | 28.—29.

## Læknaskipun á Íslandi.

(Framhald). Læknaskipunin hjer á landi er nú þannig sem talið var í næsta blaði hjer á undan; og er það því ekki að undra, þó að menn hafi viljað fá breyting á þessu, því hjer er ekki um lítið að tefla þar sem er líf og heilsa manna. Það er óhætt að segja, að ekkert stendur og hefur staðið oss Íslendingum jafnmikið fyrir þrifum eins og fólksfæðin, og þó fæðast hjer árlega fleiri börn að tiltölu en víðast hvar annarstaðar, en það kemur að litlu haldi. Vankunnátta svo margra að fara vel með börnin og skorturinn á læknishjálp svo þráfaldlega kvistar niður þenna viðauka fólksfjölgunarinnar, svo að það má heita að undrum gegni hve fólkið fjölgar seint, einkum á þessari öld, þegar engar stórsóttir eða hallæri hafa hindrað mannfjölgunina, og þegar lengst af hefur látið svo vel í ári, að fólkið hefur haft eða getað haft meira og betra viðurværi en nokkurn tíma endrar nær á seinni öldum.

Endurbótin á læknaskipun vorri var nú eins og hjer að framan er sagt orðin svo brýn, að stjórnin sjálf var farin að sjá þörfina, og sendi hún því dr. Schleisner hingað til lands til að rannsaka málið, skýra frá ásigkomulagi þess og gjöra uppástungur til að ráða bót á því. Auk þess sem dr. Schleisner hefur ritað margt um þetta efni í bók sinni um Ísland, hefur hann í brjefi til heilbrigðisráðsins 15. júlí 1849 skýrt frá áliti sínu um málið, og lýst því, hvernig heilbrigðisástandið væri hjer í landi, og hversu ónóg læknaskipunin væri.

Til þess að koma þessu í betra horf, stingur hann upp á, að 12 læknar sjeu settir á Íslandi; en til þess að fá innlenda menn í þessi embætti telur hann nauðsynlegt að bæta kjör læknanna svo, að þeir standi nokkurn veginn jafnhliða sýslumönnum, og skuli því 4 þeirra hafa 1100 rd. hver, 4 900 rd. hver, og 4 þeir sem minnst hafa 700 rd. hver. Auk þess vill hann láta íslenzk lækna-efni fá ýms hægindi erlendis meðan þeir lesa þar til lærdómsprófs. Hann vill leyfa læknum, sem sjeu færir til þess, og hafi mjög stór og örðug læknisdæmi til yfirferðar að kenna aðstoðarlæknum og nota þá, en vill láta nákvæmar ákveða störf og rjettindi þessara aðstoðarlækna. Yfirsetukonur vill hann hafa 12, eina í hverju læknisdæmi, og skuli þær læra erlendis á kostnað hvers hjeraðs. Þessum yfirsetukonum vill hann svo leyfa, til þess að nógar yfirsetukonur fáist með tímanum, gegn þóknun, að taka stúlkur til kennslu, og skuli þessar stúlkur, þegar þær hafa verið 3—4 ár í kennslu taka próf hjá hlutaðeigandi hjeraðslækni áður en þær fá leyfi til að sitja yfir konum. — Enn fremur stingur hann upp á, að lyfjabúð sje sett á Austurlandi, kaupmönnum sje bannað að flytja meðöl til landsins og selja þau, og að lyfsölumönnum sje bannað að selja skottulæknum meðöl. Að endingu þykir honum áríðandi, að spítalar eða sjúkrahús sjeu sett í hverjum fjórðungi, lítil, einföld og ekki kostnaðarsöm, þó vill hann láta þau vera stærri í Sunnlendinga og Vestfirðingafjórðungi, og láta þau tvö vera að nokkru leyti handa holdsveikum mönnum.

Vjer höfum nú áður getið þess, að alþingi hefur þrem sinnum tekið þetta mál til meðferðar, og viljum vjer tilfæra þau uppástungu-atriði, er hið seinasta þing bar fram fyrir stjórnina í þessu máli, þar eð þau innibinda í sjer og auka þær uppástungur, er áður voru komnar fram frá þingsins hálfu.

Þingið 1857 ítrekar þá fyrst og biður:

1. Að flytt sje fyrir beiðni alþingis 1855 um *a*, að 7 ný læknisembætti verði stofnuð hjer á landi, og *b*, að í stað þeirra 200 rd. sem leyft er að verja árlega úr hvers amts jafnaðarsjóði til þess að landlæknirinn og hjeraðslæknar geti kennt aðstoðarlæknum verði 100 rdla styrk-

voru nýt, og víða var enn hey úti undir snjó. Sumstaðar brunnu töður, sem rífa varð inn hálfþurrar, til stórskemmda. Ótíðin í haust bannaði mönnum og allvíða að fækka fje sínu með því að láta það í kaupstað, því enginn gat komizt yfir jörðina sökum ófærðar og illviðra, og sumir Bárðdælingar, sem komnir voru með skurðarfje inn í Fnjóskadal og ætluðu hingað í sláturtíðinni, urðu að skera það niður þar í dalnum, því þeir komust hvorki fram nje aptur með það.

Eptir miðju þessa mánaðar tók veðráttan smátt og smátt að breytast til batnaðar, og núnm mánaðamótin komu asahlákur og hvass og hlýr sunnanþeyr. Tók hjer upp mestallan snjó í byggð en fjarskalegur vöxtur hljóp í ár og læki, og urðu víða mikil skriðuföll, eins og mest verður á vordag. Hjer á Brekku í Kaupangsveit hljóp skriða á tún, og tók þar hús, sem fimmtán lömb voru í, og heyið allt með, og gjörði þar að auki stórskemmdir á túni og engjum.

Hvalrekar hafa orðið nokkrir eystra, en mest mun þó hafa kveðið að þeim, er rak austan á Tjörnesi. Hann er sagt að hafi verið 50 til 60 álna. þenna hval rak á Ísólfsstaðaland.

þó að nú tíðin hafi verið þannig hin örðugusta til að koma fje í kaupstað, fengu kaupmenn hjer þó töluvert af sláturfje, enda munu þeir, að minnsta kosti sumir, hafa gefið þó nokkuð betri kaup en þeir buðu í fyrstu, og ekki hafa verið svo mjög vandir að gæðum fjársins. Allt fje hefur reynzt mjög ljelegt á mör, og valda því eflaust hinar miklu rigningar, er sífellt hafa gengið í sumar, og hrakningarnir á fjenu í haust. Úr vestursýslunum Húnavatns og Skagafjarðar var töluvert af fje rekið suður, en eptir því sem vjer höfum frjett af þeim ferðum, ætlum vjer, að þeir hafi ekki þótzt ofsælir af kaupunum við Sunnlendinga og óvíst hvort, það hefur orðið þeim ábatameira, en að skera það heima óhrakið.

---

## Kosningarnar til alþingis.

Síðan að vjer gátum alþingiskosningarinnar í Norðurþingeyjarsýslu höfum vjer frjett um þær alþingiskosningar sem enn hafa framfarið hjer í Norður og Austurumdæminu. Í Húnavatnssýslu og Suðurmúlasýslu eru kosningar, ekki enn fram farnar, og verða þær því hjeðan af að líkindum ekki fyrri en í vor komandi. Í Norðurmúlasýslu er prófastur **Halldór Jónsson** á Hofi kosinn til alþingismanns og sjera **Sigurður Gunnarsson** á Desjarmýri til varaþingmanns. Í Suðurþingeyjarsýslu var hreppstjóri **Jón Sigurðsson** á Gautlöndum kosinn fyrir alþingismann, og **Einar Ásmundsson** gullsmiður á Nesi til varaþingmanns. Í Eyjafjarðarsýslu voru kjörnir **Stephán Jónsson** umboðsmaður á Steinstöðum fyrir alþingismann, og sjer **Jón Thorlacius** í Saurbæ fyrir varaþingmann, og í Skagafjarðarsýslu höfum vjer heyrt að kosinn hafi verið stipendiarius arnamagnæanus **Gísli Brynjúlfsen** í Kaupmannahöfn fyrir alþingismann, og hreppstjóri **Egill Gottskálksson** fyrir varaþingmann.

Vjer vitum ekki gjörla um það, hversu fjölmennt kjörþing hefur verið í Skagafirði, en í öllum hinum kjördæmunum hafa þau verið mjög lítið sótt, og hefur því meðfram valdið, að um það leyti, er þingin voru haldin, var hin versta ótíð svo varla var ferða fært. Í Eyjafjarðarsýslu var þannig ekki tíundi hluti kjósenda og lítið fleira að tiltölu í þingeyjarsýslu.

---

# Auglýsingar.

þar sem jeg mjög fátækur og heilsuþrotinn aumingi, þó á góðum aldri, fyrir íbúandi holdsveiki, hefi áformað í trausti drottins að leita mjer lækninga erlendis, og verða inntekinn á spítalskra hospital í Norvegi; studdur af einstakra manna góðvild, ráðstöfunum og gjöfum, hvað peningastyrk áhrærir, bið jeg auðmjúklega ritstjóra blaðsins Norðra, að lýsa grátfegnu þakklæti mínu yfir amtmannsins herra Havsteins ráðstöfunum, og svo til heila fjelagsskaparins í Vallnahrepp, þó mest mínum velmetnu og heiðursverðu húsbændum, fyrir brjóstumkenningu og gjafir sínar, og bið og vona að drottinn minnist orða sinna í heilagri ritningu, þá þeim mest á liggur: „Ölmusur afplána allar syndir.“

Yztabæ í Hrísey í septemberm. 1858.

Björn Jónsson.

Undirskrifaður hefur til sölu: Ný fjelags rit 18. ár“ kosta 64 sk. Verðlaunarit Suðuramtsins húss og bústjórnarfjelags. „Neyðin kennir naktri konu að spinna“ kostar 8 sk. og rit líks efnis, „Fátt er svo fít að einugi dugi“ kostar 8 sk.

Akureyri 13. oktober 1858.

J. J. Borgfirðingur.

Næstliðið vor hvarf mjer hryssa 3 vetur úr heimahögum, jarphöttótt, með flekki í báðum huppum og dökk í tagli óaffext og ómörkuð; ef einhver yrði var um tjeða hryssu, óska jeg að fá að vita það svo fljótt skeð gæti.

Merkigili 16. oktober 1858.

Kristján Kristjánsson.

### Fjármörk.

Stúfrifað hægra; sneitt framan fjöður aptan vinstra,
Vigfús Sigfússon Hvammi í þingeyjarsýslu,
Tvírifað í stúf hægra, sneitt aptan vinstra.
Aðal Friðfinnsson á Íshóli.
Tvírifað í stúf hægra, fjöður fr.
Markús Sigurðsson vinnumaður á Íshóli.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáletursínu, en 8 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár | 30. Nóvember. | 28.—29.

## Læknaskipun á Íslandi.

(Framhald). Læknaskipunin hjer á landi er nú þannig sem talið var í næsta blaði hjer á undan; og er það því ekki að undra, þó að menn hafi viljað fá breyting á þessu, því hjer er ekki um lítið að tefla þar sem er líf og heilsa manna. Það er óhætt að segja, að ekkert stendur og hefur staðið oss Íslendingum jafnmikið fyrir þrifum eins og fólksfæðin, og þó fæðast hjer árlega fleiri börn að tiltölu en víðast hvar annarstaðar, en það kemur að litlu haldi. Vankunnátta svo margra að fara vel með börnin og skorturinn á læknishjálp svo þráfaldlega kvistar niður þenna viðauka fólksfjölgunarinnar, svo að það má heita að undrum gegni hve fólkið fjölgar seint, einkum á þessari öld, þegar engar stórsóttir eða hallæri hafa hindrað mannfjölgunina, og þegar lengst af hefur látið svo vel í ári, að fólkið hefur haft eða getað haft meira og betra viðurværi en nokkurn tíma endrar nær á seinni öldum.

Endurbótin á læknaskipun vorri var nú eins og hjer að framan er sagt orðin svo brýn, að stjórnin sjálf var farin að sjá þörfina, og sendi hún því dr. Schleisner hingað til lands til að rannsaka málið, skýra frá ásigkomulagi þess og gjöra uppástungur til að ráða bót á því. Auk þess sem dr. Schleisner hefur ritað margt um þetta efni í bók sinni um Ísland, hefur hann í brjefi til heilbrigðisráðsins 15. júlí 1849 skýrt frá áliti sínu um málið, og lýst því, hvernig heilbrigðisástandið væri hjer í landi, og hversu ónóg læknaskipunin væri.

Til þess að koma þessu í betra horf, stíngur hann upp á, að 12 læknar sjeu settir á Íslandi; en til þess að fá innlenda menn í þessi embætti telur hann nauðsynlegt að bæta kjör læknanna svo, að þeir standi nokkurn veginn jafnhliða sýslumönnum, og skuli því 4 þeirra hafa 1100 rd. hver, 4 900 rd. hver, og 4 þeir sem minnst hafa 700 rd. hver. Auk þess vill hann láta íslenzk lækna-efni fá ýms hægindi erlendis meðan þeir lesa þar til lærdómsprófs. Hann vill leyfa læknum, sem sjeu færir til þess, og hafi mjög stór og örðug læknisdæmi til yfirferðar að kenna aðstoðarlæknum og nota þá, en vill láta nákvæmar ákveða störf og rjettindi þessara aðstoðarlækna. Yfirsetukonur vill hann hafa 12, eina í hverju læknisdæmi, og skuli þær læra erlendis á kostnað hvers hjeraðs. Þessum yfirsetukonum vill hann svo leyfa, til þess að nógar yfirsetukonur fáist með tímanum, gegn þóknun, að taka stúlkur til kennslu, og skuli þessar stúlkur, þegar þær hafa verið 3—4 ár í kennslu taka próf hjá hlutaðeigandi hjeraðslækni áður en þær fá leyfi til að sitja yfir konum. — Enn fremur stíngur hann upp á, að lyfjabúð sje sett á Austurlandi, kaupmönnum sje bannað að flytja meðöl til landsins og selja þau, og að lyfsölumönnum sje bannað að selja skottulæknum meðöl. Að endingu þykir honum áríðandi, að spítalar eða sjúkrahús sjeu sett í hverjum fjórðungi, lítil, einföld og ekki kostnaðarsöm, þó vill hann láta þau vera stærri í Sunnlendinga og Vestfirðingafjórðungi, og láta þau tvö vera að nokkru leyti handa holdsveikum mönnum.

Vjer höfum nú áður getið þess, að alþingi hefur þrem sinnum tekið þetta mál til meðferðar, og viljum vjer tilfæra þau uppástungu-atriði, er hið seinasta þing bar fram fyrir stjórnina í þessu máli, þar eð þau innibinda í sjer og auka þær uppástungur, er áður voru komnar fram frá þingsins hálfu.

Þingið 1857 ítrekar þá fyrst og biður:

1. Að flýtt sje fyrir beiðni alþingis 1855 um *a*, að 7 ný læknisembætti verði stofnuð hjer á landi, og *b*, að í stað þeirra 200 rd. sem leyft er að verja árlega úr hvers amts jafnaðarsjóði til þess að landlæknirinn og hjeraðslæknar geti kennt aðstoðarlæknum verði 100 rdla styrk-

ur veittur hverjum íslenzkum stúdenti, sem stundar læknisfræði við háskólann og hann njóti þessa styrks í 4 ár, og þetta fje endurgjaldist ríkissjóðnum úr jafnaðarsjóðunum.

2. Að konungur láti leggja fyrir alþingi 1859 frumvarp um að stofna spítala og læknaskóla í Reykjavík.

3. Að stjórnin fari að skrifast á við yfirvöldin hjer á landi, um það hvernig bezt og haganlegast megi haga öllum tekjum spítalanna og heimtinga þeirra og frumvarp um það verði lagt fyrir sama þing.

4. Að spítalahlutir af Vestmannaeyjum gangi eins og aðrir í hinn almenna læknasjóð.

5. Að stúdentar, sem eru útskrifaðir af prestaskólanum skuli eiga kost á að fá ókeypis kennslu hjá landlækninum eða hjeraðslæknunum.

6. Að konungur skipi svo fyrir, að fyrir alþingi 1859 verði lagt frumvarp til tilskipunar um það, að svo margar konur fái kennslu í yfirsetukvennafræði, að ein geti orðið sett í hvern hrepp á landinu.

Þegar vjer berum nú saman þessar uppástungur dr. Schleisners og alþingis, sjáum vjer það fyrst, að uppástunga alþingis fer þeim mun lengra, að það stingur upp á, að læknar verði 15 hjer á landi, en hann ætlar að 12 sje nóg. Þegar gætt er hjer að landsstærð og landslagi, er víst enginn efi á því, að uppástunga alþingis er í þessu falli miklu rjettari, og læknar, ef til vill samt of fáir, en það verður nú ekki fyrst um sinn hugsandi til að fjölga læknum hjer svo nóg sje. Þar á móti ætlum vjer uppástungu hans um það, hvernig fengnir verði nógir og duglegir menn innlendir í lækna-embættin mjög góða og líklega til að ná tilgangi sínum, því þó að læknaefnum sje veittur smástyrkur utanlands, og jafnvel þó læknaskóli komist á í Reykjavík, eins og alþingi stakk upp á, þá sjáum vjer þó þrátt fyrir það lítil líkindi til, að svo margir Íslendingar verði til þess að leggja stund á nám þetta, að nógir fáist í embættin, þegar aðgætt er, að til þessa náms þarf að kosta að minnsta kosti 7 árum í Reykjavíkurskóla, auk undirbúnings undir hann, og 3—4 árum á læknaskólanum, ef hann kæmist á, og þó ekki annað í aðra hönd en von um embætti, sem eru hin ónæðissömustu og örðugustu, og launin þó svo lítil, að þau eru að eins á við meðalbrauð, og allir vita hvað ljeleg þau eru. Vjer getum því ekki sjeð neinn verulegan árangur af því að fjölga lækna-embættunum nema um leið sje hugsað fyrir því, að læknar fái hjerumbil þau laun, er dr. Schleisner stingur upp á, því annars teljum vjer víst, að embættafjölgunin verði ekki nema nafnið eitt.

Með konungsúrskurði 12. ágúst 1848 er leyft að verja árlega 200 rd. til þess að þægja landlækni og hjeraðslæknum fyrir að kenna aðstoðarlæknum. Þessi konungsúrskurður hefur nú engan árangur haft, nema ef telja skyldi, að Jósep læknir Skaptason mun hafa kennt Árna heitnum Eyfjörð og útvegað honum lækninga-leyfi undir umsjón sinni. Það er nú hvorttveggja að þessi styrkur til aðstoðarlæknakennslu var svo sárlítill, að enginn læknir, sem ekki hafði svo mikla elsku og áhuga á vísindagrein sinni, útbreiðslu og eflingu hennar, að hann vildi kenna af sjálfum sjer, gat gengizt fyrir þessari þóknun. Enda er vansjeð, að það hefði komið að miklum notum, því þegar engin trygging fjekkst fyrir hæfilegleikum og kunnáttu þessara aðstoðarlækna nema vitnisburður hlutaðeigandi kennara, þá var það varla gjörandi að trúa þeim fyrir nokkru embætti, þar sem þeir áttu að lækna á eigin hönd. Hvernig þessu hefði að voru áliti öðruvísi mátt betur haga, munum vjer seinna drepa á stuttlega. Í stað þessa stakk nú alþingið upp á að veita fyrst um sinn 100 rd. á ári hverjum þeim Íslending er stundaði læknisfræði utanlands, þangað til nefnilega að læknaskóli kæmist á í landinu sjálfu. En — eins og vjer áður höfum getið — þessi styrkur er einnig lítil hvöt og uppörfun til að stunda þessa vísindagrein, meðan embættin, hvort sem þau eru mörg eða fá, eru svo aum, að ekki er við þau lifandi. Þingið sá því fram á, að þessi bráðabyrgðarbeiðni þess mundi heldur ekki ná þeim tilgangi sínum að útvega nóg lækna-efni og fór því fram á það — og má álíta það aðaluppástungu þess — að stofnaður yrði spítali og læknaskóli í Reykjavík.

Um hið fyrra atriði, að stofna læknaskóla í Reykjavík erum vjer samdóma þinginu, að það væri mjög æskilegt, ef þessu væri til hagað á nokkuð annan hátt en þingið virðist ætlast til. Oss virðist nefnilega flestar umræður og uppástungur þingsins lúta að því, að til þess að stofna skóla þenna sje varið spítalasjóðunum, en oss virðist það öldungis gagnstætt uppruna, eðli og tilgangi þessara sjóða, og annað liggja miklu nær um brúkan þeirra í landsins þarfir. Þegar að stjórnin hefur einu sinni tekið að sjer eigur skólans hjer á landi

finnst oss það beinlínis skylda hennar að sjá Íslandi fyrir nægum kennslustyrk eða nægum skólum til að kenna embættismönnum þeim er landið þarf; og þessari skyldu sinni getur hún eflaust kostnaðarminnst og haganlegast gegnt með því að stofna viðlíka skóla hjer á landi handa lögfræðingum og læknum eins og hún hefur þegar stofnað handa guðfræðingum. En vjer álítum, að það eigi ekki að verja neinu af spítalasjóðum til þessa, og fáist skólinn eigi stofnaður og fjárframlag til hans greitt úr ríkissjóðnum, hljóti þjóðin annaðhvort að leggja á sig nýja skatta til að koma þessum stofnunum á, eða leita annara bragða til þess að útvega sjer innlend lækna-efni, jafnótt og stjórnin fjölgar embættunum, því það álítum vjer bæði að stjórnin eigi að gjöra, og að hún eigi að launa þeim eins og öðrum embættismönnum af ríkissjóði, því það er fjarstætt að voru áliti að verja spítalafjenu til þessa, enda finnst oss það næsta kátlegt að sumir embættismennirnir, sem hafa þó sama starfa og sömu skyldur, taki laun sín úr ríkissjóði en sumir úr landssjóði, er til alls annars var ætlaður.

Ef að læknaskólinn nú ekki fengist stofnaður á þann hátt, er vjer höfum greint og vjer álítum hinn eina rjetta, þá verður að leita sjer ráðs að fá aðra kennslu handa lækna-efnunum, og þá álítum vjer þá aðferðina bezta, sem reynslan sýndi svo holla og ávaxtarsama þegar í byrjun læknasetningarinnar hjer á landi, og hún er sú, að landlæknir og hjeraðslæknar kenndu efnilegum ungum stúdentum læknisfræði um nokkur ár; og skyldu þessi lækna-efni síðan sigla til þess að læra betur hið verklega á spítölum ytra um eitt eða tvö ár, og efumst vjer ekki um, að hægt væri að koma því til leiðar, að þeir að minnsta kosti fengju rjettindi þau er aðrir íslenzkir stúdentar nú hafa við háskólann, og þyrfti þá ekki vera þeirra þar svo stuttan tíma að verða þeim mjög kostnaðarsöm. Það er nú sjálfsagt, að nákvæmni mikla og kunnáttu þarf til þess af kennaranna hendi, að búa þessa menn svo undir, að þeir yrðu síðan gagnlegir embættismenn, og það væri varla ætlandi nema sumum af læknunum, og líka þyrfti nauðsynlega, að þessi lækna-efni væru prófuð af öðrum en þeim sem hefðu kennt þeim, enda væri hægt að koma því við, að landlæknir ásamt næstu læknum væru settir sem prófsnefnd er útskrifaði lækna og gæfi vitnisburði eptir því sem hverjum gengi. Þó að það sjeu nú engin líkindi til þess, að neinn verulegur árangur yrði að þeirri kennslu, sem hjer er stungið upp á fremur en orðið hefur af aðstoðarlækna kennslunni, ef að læknarnir fengju ekki álitlegt endurgjald fyrir fyrirhöfn sína við kennsluna, þá virðist oss þó hitt óefanlegt, að allir þeir læknar sem fyndu sig hæfa og lagaða til að kenna öðrum mennt sína, mundu gjöra allt hvað í þeirra valdi stæði, ef að þeir fengju það vel borgað. Og þó að þeir fengju álitlegt kennslukaup fyrir hvert læknisefni; er þeir kenndu, yrði sá kostnaður, hvaðan sem hann ætti að gjaldast þó langtum minni en þyrfti til að stofna læknaskóla og launa 2 til 3 kennurum, sem óhætt má ætla að með þyrfti, ef skólinn ætti að vera meira en nafnið eitt.

Nú munu menn spyrja, hvað vjer ætlum þá að gjöra við allt hið mikla spítalafje, sem vex og eykst stórum ár frá ári. Þingið hefur nú stungið upp á að setja spítala í Reykjavík, og skyldi þar til ganga það sem afgangs yrði af spítalafjenu og ekki þyrfti til skólastofnunarinnar. Hefði nú þingið farið fram á að stofnaður væri í Reykjavík spítali einungis handa holdsveikum mönnum, og læknir settur þar þeim til hjálpar og hjúkrunar í stað hinna ónýtu holdsveikra spítala sem áður voru, þá skyldum vjer hafa játað, að fjenu væri varið samkvæmt tilgangi þess; og vjer ætlum að holdsveikum mönnum yrði að því mest gagn, því þessum sjúkdómi er svo varið, að hann brýzt út smám saman og er langan tíma að magnast, en grípur ekki sjúklinginn snögglega; svo að þó skólinn væri einn og í Reykjavík gætu þó þessir sjúklingar hvaðan sem þeir væru af landi, leitað sjer þangað meina bótar, ef þeim væri nokkur hjálpar von. En þingið hefur ekki farið fram á þetta — enda er sjúkdómur þessi nú á tímum ekki svo skæður nje almennur, að ástæða sje til að kosta svo miklu til spítala eingöngu fyrir þess konar sjúklinga —, heldur hefur það farið fram á, að spítali eða sjúkra hús yrði sett í Reykjavík fyrir alls konar sjúklinga af öllu landi, sem yrði að vera sem fullkomnast til þess að gefa þeim er á læknaskólann gengju sem mesta og bezta þekkingu á sjúkdómunum og lækningu þeirra.

Vjer verðum nú að fallast á álit þeirra á alþingi, er þótti það viðurhluta mikið, að taka til þessarar einu almennu spítalastofnunar allt fje sem spítalarnir á öllu landinu eiga, og sem er eign allra landsmanna. og menn í kringum allt land gjalda til; því ekkert er augljósara en það

að mestur hluti landsins getur ekki haft nein not af þessum spítala, nema efa vera skyldi fyrir einstöku sjúklinga, sem hafa langvinna sjúkdóma, og eru þó ferðafærir svo að þeir geta komizt þangað, og er þá næsta tvísýnt hvort þess konar sjúklingar hafa meira gagn af spítalanum, en að halda sjer heima og nota læknisráð.

það er því enn í þessu atriði, að vjer mundum óska, að farið væri heldur eptir uppástungu dr. Schleisners, að sjúkrahús yrðu sett fjögur, sitt í hverjum landsfjórðungi, og þó ætlum vjer það varla nægilegt og ekki af veita, þó að eitt sjúkrahús væri sett á hvern af hinum 6 aðalverzlunarstöðum. Löggjöfin um verzlunina gjörir ráð fyrir, að læknir búi á hverjum af þessum 6 stöðum, og vjer þekkjum svo til kaupstaða hjer á landi, að vjer vitum, að sjúklingar, sem þurfa að leita til læknis og vera stundum langan tíma undir umsjón hans, eiga mjög bágt með að fá sjer komið fyrir hjá kaupstaðabúum, og þó þeir geti það, hafa færstir tök á að láta þeim í tje þá hjúkrun, sem þeir gætu haft á reglulegum spítala.

Hjer á landi, þar sem læknar eru og verða svo fáir, að þeir geta ekki skjótt farið yfir umdæmi sitt, er hin mesta nauðsyn á slíkum sjúkrahúsum bæði í langvinnum sjúkdómum og þar sem sáralækninga við þarf. Auk þess bætist þar við, að öll líkindi eru til, að fólk fjölgi óðum í aðalkaupstöðunum, og þeir eru líka bezt fallnir til spítalastaða sökum aðsóknarinnar, sem er þar mest vegna verzlunarinnar. Vjer ætlumst nú ekki til að spítalar þessir sjeu sjerlega stórir og kostnaðarsamir, og ætlum að mikið væri unnið, ef að á hverjum af þessum stöðum væru byggð nett og lagleg hús og þyrftu þau ekki að kosta á hverjum stað meira en 2000 rdli, og yrðu þá spítalasjóðirnir nógir til þessa. þessi sjúkrahús ættu læknarnir á staðnum að annast og ættu því þeir læknar að vera hinir duglegustu og hafa hæst laun, og efumst vjer ekki um, að meira gagn yrði að þessum sjúkrahúsum fyrir landsfólkið heldur enn af stórum spítala í Reykjavík, því til þessara smáspítala næði allur fjöldi sjúklinga.

Að endingu viljum vjer geta þess, að vjer álítum hið fimmta uppástungu atriði alþingis til ills eins og að engu hafandi, og oss virðist árangur þess ekki geta verið annar en að fjölga skottulæknum, sem fáfróðir menn leita til og hafa traust á, án þess að nein ástæða sje til að halda að þessi kennsla landlæknis eða hjeraðslækna um stuttan tíma geti verið að nokkru verulegu gagni. Vjer álítum því upástungu dr. Schleisners, að samin sje bók, samsvarandi þörfum vorra tíma, í heilbrigðisfræði, og sem kenni ráð til að hjálpa mönnum í voveiflegum tilfellum, stórum betri en uppástunga alþingis; enda vitum vjer ekki betur en að dr. og landlækni Hjaltalín hafi eitt sinn verið fallið á hendur að semja þess konar bók.

Um kennslu yfirsetukvenna erum vjer einnig á máli dr. Schleisners, að bezt væri að ein aðalyfirsetukona væri í hverju læknisumdæmi, og kenndu þær síðan öðrum, en læknar prófuðu þær síðan, er svo hefðu lært.

---

(Aðsent). Jafnvel þó flestir hefðu það skilyrði við skaðabóta loforðin til Húnvetninga, að þeir frelsuðust frá faraldrinu, þá áleit amtsfundurinn á Akureyri næstl. sumar sanngjarnt, að Húnvetningar fengju sem fyrst nokkuð af skaðabótunum, eptir þeirra eigin uppástungu, nefnil. upphæð endurgjaldsins fyrir ærnar, sem skornar voru næstl. vetur eður hjerumbil $\frac{2}{7}$ parta af allri skaðabóta upphæðinni, og lofuðu því fundarmenn, hver í sínu byggðarlagi, að leggja hið bezta til við fjáreigendur að greiða þetta tillag nú í vetur. — það þarf víst eigi að efa, að fundarmenn hafi ræklega uppfyllt þessi loforð sín, og því vonandi að víðast sje nú búið að greiða þenna part skaðabótanna, og veit jeg að hjer í sveit eru flestir búnir að því.

það er kunnugt af amtsfundartíðindunum, að þegar nefnd sú, er kosin var til að meta skaðabæturnar, var búin að fá þá dalatölu, sem Húnvetningar þurftu að fá, jafnaði hún þessari upphæð niður meðal allra sýslanna í Norður- og Austuramtinu; og til að geta vitað, hvað hverri sýslu fyrir sig bæri að greiða, var allt sauðfje metið til peningaverðs eptir nú gildandi verðlagsskrám, varð þá skaðabóta upphæðin 1 kind af 20 eður með öðrum orðum tuttugasta hvert kindarverð. Af þessari ástæðu hafa nokkrir, eptir sem jeg bezt veit, þá skoðun, að vegna þess, að aldrei hafi verið lofað öðru en vissum hluta af fjáreigninni í skaðabæturnar, þá geti menn eigi nú í þetta sinn afgreitt peninga eptir annari reglu en þeirri, er amtsfundurinn hafi haft, það er að skilja, að þær kindur sem menn nú hefðu afgreitt, hljóti eptir verðlagsskránni að reiknast til peninga; því vegna þess, að fje hafi reynzt svo illa í haust,

hafi eptir því verði, sem fyrir sláturfje var borgað á Akureyri töluvert vantað á að fje til jafnaðar hafi gjört að verðhæð eins mikið og verðlagsskráin til tekur; og geti menn því eigi við þessa afgreiðslu skaðabóta partsins gjört sjer þann skaða, heldur verði Húnvetningar sjálfir að líða hann, þar þeir nú vilji fá peninga í staðinn fyrir kindur. Til dæmis: að sá er átt hefði 70 sauði fullorðna í haust, átti að svara einum þeirra, og svo af hverri kinda tegund eptir þeirri niðurjöfnun; og nú er sauðurinn í verðlagsskránni 6 rd. 87 sk., en meðalsauður eptir verzlunar verðhæð hefur eigi gjört yfir 5 rd., þá yrði mismunurinn ekki alllítill og skaðabóta tillagið þeim mun minna í peningum.

þetta er að vísu í fljótu áliti máske viðfelldin skoðun, en fari menn að íhuga þetta betur, þá ætla jeg, að menn komizt að annari niðurstöðu. — Hjer er tvennu mjög ólíku blandað saman, og það er skaðabóta upphæðinni og verðlagsskránni. En mjer finnst hún ekkert eiga skylt við þetta mál, að öðru leyti en því, að hún var brúkuð sem mælikvarði til að jafna niður skaðabótunum meðal sýslnanna, og svo meðal hreppanna í hverri sýslu, því við skaðabótamatið mun eigi hafa verið haft neitt tillit til verðlagsskrárinnar, og þessi dalatala 67 544 rd. verða að afgreiðast án nokkurs afdráttar, hvort sem því er svarað með peningum eður kindum; væru nú kindur afgreiddar, þá yrðu þær að metast eptir þeirri verðhæð sem þær álítast að vera á þeirri tíð sem afgreiðslan fram fer, eins og menn borga hverja aðra skuld eptir þeim samningi, sem þá er gjörður á þeim hlut sem afgreiddur er upp í skuldina. Nú vilja Húnvetningar fá peninga, því þeir mega ekki og geta ekki enn fengið fje nema til dráps og þess þurfa þeir ekki, og er því ekkert um neitt kindaverð að tala, heldur verður að jafna þessari dalatölu niður á hvern fjáreiganda eptir hvers eins kindatölu. það væri því eins ósanngjarnt, ef Húnvetningar vildu seinna fá fje í skaðabóta tillagið, að þeir heimtuðu það eptir þá gildandi verðlagsskrá. Nei, eptir samkomulagi verður það að vera; þeir eiga að fá dalatöluna, og þegar það er afgreitt í peningum getur enginn ágreiningur orðið; en færu menn nú fram á það, er jeg hefi áður greint, sje jeg eigi annað en Húnvetningar ættu fulla heimtingu á fje seinna eptir þá gildandi verðlagsskrá.

það mun annars vart þurfa að efa, að hjer í norður og austursýslum þessa amts láti menn sjer vel farast til Húnvetninga, og bæti þeim skaðann að svo miklu leyti hægt er; en það er eigi láandi þótt menn sjeu kvíðafullir einkum þar enn er eigi búið að uppræta fjárkláðann í Húnavatnssýslu, og sumar frjettir eigi góðar einkum í því, að sumir menn þar helzt í vesturparti sýslunnar eru ei svo samtaká sem vera skyldi, og eptir þeirri hjer óvinsælu bænarskrá, sem í seinasta blaði Norðra er prentuð, geta menn sjeð, að þar eru til lækningamenn, en það er vonandi, að þessi bænarskrá hafi aldrei komizt fyrir hástól þeirrar náðugu Suðurlands stjórnar, heldur hafi hún kafnað í einhverjum keitu stampinum, þegar hún kom suður fyrir fjöllin, og þess er óskandi að Húnvetningar láti sjer þessara fjórmenninga víti að varnaði verða og láti þá ekki teyma sig út í fen og forræði, sjer og öðrum til óbætanlegs tjóns.

Eyfirðingur.

---

(Aðsent).

Eptir að herra Jón Sigurðsson í ritgjörð sinni um alþing og alþingismál í „Nýjum Fjelagsritum“ nú í ár, hefur farið nokkrum orðum um það, hversu hinir helztu embættismenn hjer á landi hafi misskilið brjef ráðherra Örsteds frá 14. júlí og 19. ágúst 1854, og sagt, að stiptamtmaður greifi Trampe, er fyrst byrjaði svo vel, er hann kom hingað til Íslands 1850, „að hann gjörði sjer það að reglu, að rita innanlands allt eður mest allt á íslenzku“, hafi nú, er hann fjekk áminnzt ráðherrabrjef, farið að gjöra brjef apturræk, er skrifuð voru á íslenzku, heldur hann sögunni áfram á þessa leið:

„og eptir höfðinu“ (sumsje: stiptamtmanninum) „dansa limirnir. Einn maður, sem var Slesvíkingur að uppruna, en hafði verið lengi á „Íslandi, og þóttist fyrir nokkrum árum skilja „fullt eins vel íslenzku og dönsku, rak nú apt„ur í bæjarfógeta brjef, sem honum var skrif„að á íslenzku, og veslings bæjarfógetinn, sem „var reyndar „settur“ ljet undan, og ritaði apt„ur á dönsku“.

það er nú auðsjeð, að þessi saga hjá herra Jóni Sigurðssyni er stíluð upp á mig, þar jeg var hjer settur bæjarfógeti veturinn 1851—52, því síðan hefur hjer eigi verið neinn „settur“ bæjarfógeti; en að hann eigi hefur viljað nafngreina mig, mun án efa hafa komið til af hlífðarsemi þess góða manns við mig og varkárni hans í að gjöra nokkrum manni hneysu að óþörfu, eður þegar hann getur komizt hjá því, án þess að spilla með því málstað sínum.

Herra Jóni Sigurðssyni er nú vel fyrirgefandi, þó hann eigi hafi munað, hve nær það var, sem jeg var hjer settur bæjarfógeti, og þó hann hafi látið það vera liðugum tveim árum seinna en það var; enda hefur hann og, ef til vill, álitið

slíka ónákvæmni í sögu sinni saklausa, þar engum væri með henni neinn órjettur gjör, en sjeð, að það yrði þar á móti að gjöra alla söguna hjá sjer, sem hann var að semja, langtum áheyrilegri, að tengja viðburð þenna um bæjarfógetann við ráðherra úrskurðinn. Hitt er þar á móti langtum lakara fyrir herra Jón Sigurðsson, að áminnst saga hans um mig, eður að nokkur Slesvíkingur að uppruna hafi rekið aptur í mig brjef, meðan jeg var hjer settur bæjarfógeti, og jeg látið undan honum og ritað aptur á dönsku, eru einber ósannindi, og virðist þó sem menn mættu vænta af svo merkum manni, sem herra Jón Sigurðsson er, að hann væri vandari að sögnum sínum en þetta, einkum þeim, er hann lætur prenta. — Fóturinn undir sögu hans mun án efa vera þessi: að eitt sinn um veturinn 1851—52, þegar jeg var hjer í bæjarfógeta stað, fjekk jeg brjef frá stiptamtmanni, er jeg átti að birta kaupmanni Dittleif Thomsen, er var ættaður úr Slesvík; þetta gjörði jeg, og birti honum orðrjett brjefið á íslenzku, eins og það var skrifað. Skömmu seinna kom kaupmaður Thomsen til mín með brjefið og vildi, að jeg birti sjer það á dönsku, en jeg þóttist eigi skyldur til þess, og gjörði það því ekki. Þegar hann eigi fjekk mig til þessa, klagaði hann það fyrir stiptamtmanni, er aptur skrifaði mjer og fjelst með öllu á gjörðir mínar í þessu, en óskaði samt, að jeg vildi snara brjefinu á dönsku fyrir Thomsen, hvað jeg þá og gjörði fyrir tilmæli stiptamtmannsins. Jeg vona nú, að allir sjái, að þetta hefur gengið til næstum gagnstætt því, sem herra Jóni Sigurðssyni hefur frásagzt.

Reykjavík 2. dag septemberm. 1858,

Jón Pjetursson.

---

(Aðsent). Eptir að jeg hafði í fimmta ári Norðra bls, 24. lýst því yfir, að jeg hefði kosið fóstra mínum, Sigurði, Jónsnafnið fyrir föðurnafn, er jeg valdi sem hið almennasta hjer á landi, og sem mjer var líka nákomið, því svo hjet líka Jón Oddsson móðurfaðir minn, furðaði mig stórlega, að Jón bóndi Þorvarðarson á Ósi einn allra Jóna skyldi rísa upp á apturfótunum til að banna fóstursyni mínum þetta nafn, því þó hann hafi færzt undan faðerni þessa pilts með eiði, gefur það honum í mínum augum ekkert einkaleyfi til Jónsnafnsins, og engan rjett til að banna nema sitt eina Jónsnafn, og það hefi jeg hvergi sagzt gefa honum fóstra mínum. Hann mátti þó vita, að þegar hann fyrir mönnum og sinni eigin samvizku hafði með eiði neitað þessu faðerni, náði ekkert nafn sem drengnum var gefið lengur til hans, svo að hans eigin sakleysis meðvitund átti að vera honum þar nóg hlíf og skjöldur. Mig rak því í rogastans, þegar jeg sá það á svari hans, að honum nægði ekki að gjöra fóstursson minn föðurlausan með því að sverja fyrir hann, heldur einnig að banna honum það nafn, sem hver sjötti maður á Íslandi nefnist, því það finnst mjer „ólöglega og ranglega gjört". Jeg ætla því að bíða enn eins og jeg hefi nú beðið næstum ár, og vita hvort enginn allra hinna Jónanna andæfir þessari nafnkenningu minni, því honum átti að vera það óskyldast. En fóstri minn getur svarað Jóni Þorvarðarsyni, sem þannig gjörist slettireka sjálfum sjer til ósæmdar með sömu orðum og Skarpheðinn svaraði Hafri: „Hirð eigi þat þú mylki þinn hverr ek em!"

Búlandsnesi í september 1858.

B. Gíslason.

---

## Brigitta
(lauslega snúin skáldsaga).

Það eru einatt ýmisleg atriði ýmislegt samband í lífi mannanna sem oss er óljóst, og vjer getum eigi skilið af hverju kemur. Þetta laðar sál vora hægt og blítt eins og allt sem leyndardómsfullt er. Oss virðist opt einhvers konar innri fegurð í andliti ófríðs manns, þó að vjer getum eigi leitt það af því að vjer þekkjum kosti hans, og opt finnst oss það andlit óviðkunnanlegt og svipllítið, er öllum öðrum þykir hið fríðasta. Þannig löðumst vjer ósjálfrátt að einhverjum vissum manni sem vjer alls ekki þekkjum, allt látbragð hans og háttsemi fellur oss vel í skap, vjer söknum hans, þegar hann skilur við oss, og minnumst hans með ást og eptirþreyingu jafnvel mörgum árum seinna, ef oss dettur hann í hug, en á hinn bóginn erum vjer opt tvenns hugar um annan mann, sem vjer erum saman við svo árum skiptir, og þekkjum grannt. Það er enginn efi á því, að þessu valda einhverjar siðferðislegar ástæður, sem hjartað finnur, en meðvitund vor getur eigi sýnt þessi áhrif eða gjört grein fyrir þeim. Sálarfræðin hefur skýrt ýmislegt, en margt er snertir þessa samhljóðun sálnanna, er þó enn þoku hulið.

Þetta dettur mjer í hug, er jeg hugsa um það sem við bar hjá vini mínum einum á herragarði hans. Þetta var á yngri árum mínum. Jeg hafði þá hina mestu ferðalöngun, er rak mig víða um lönd í þeirri von að margt mundi fyrir bera, og jeg mundi geta rannsakað guð veit hvað margt og mikið.

Þessi vinur minn hafði verið majór í liði Austurríkis keisara, og hafði jeg kynnzt honum á ferðalagi; bauð hann mjer þá opt heim til sín; ætlaði jeg þetta af lítilli alvöru gjört eins og opt er með þess konar heimboð þar sem menn hittast í ferðalögum að þau eru einatt gjörð í kurteysis skyni og fyrir siðasakir, og var mjer því liðið það úr minni, þegar jeg annað árið eptir skilnað okkarn fjekk mjög vingjarnlegt brjef frá honum. Bað hann mig þar enn af nýju að koma á fund sinn og vera hjá sjer sumarlangt eða svo lengi sem jeg vildi. Kvaðst hann nú vera fastráðinn í að staðnæmast á litlum bletti á jörðunni og stíga aldrei fæti sínum úr fósturlandi sínu, þar hefði hann nú fundið það mark og mið eptir að keppast, er hann sífellt hefði leitað eptir víða um heim árangurslaust.

þetta var um vor; og af því mjer var forvitni á að vita, hvað hann hefði fyrir stafni, en hafði ekkert fastráðið, hvert jeg skyldi ferðast, hugsaði jeg mjer að taka boði hans.

Herragarður majórsins lá austan til á Ungverjalandi, og á þriðja degi sat jeg í vagni og hjelt í austur. Hafði jeg aldrei fyr sjeð Ungverjaland og hugsaði gott til að sjá hinar stóru sljettur, heiðar og skóga, sem þar eru í landi. Þegar jeg hafði keyrt í átta daga, kom jeg inn á hið stóra flatlendi og varð jeg fyrst frá mjer numinn af stórkostleik náttúrunnar. Svo langt sem augað eygði var engin hæð og himin og jörð mættust jafnt á allar hliðar í hinum yzta sjóndeildarhring eins og á reginhafi, kyrrðin var þar eins mikil, en hinn lífgandi blær og angan jurtanna sýndi að maður var á landi en ekki sjó. En þegar hið sama varð fyrir augum dag eptir dag, tók sjónin að þreytast og mæðast af þessari aleyðu. Sólin skein og grösin glóðu, en jeg tók lítið eptir því; hugsanir um fyrri tíma gagntóku sál mína, og fyrst og fremst bar fyrir hugaraugu mín maður sá, er ferðinni var heitið til. Það var mjer mikill unaður að vekja upp fyrir mjer, hvernig hann var í sjón og raun og það var fátt annað af endurminningu liðins tíma, sem gat dregið huga minn frá honum að eins um stundar sakir.

Þegar jeg sá hann í fyrsta sinn var einvera og kyrrð náttúrunnar eins stórkostleg í kringum mig eins og þenna dag er jeg var á Ungverjalands sljettum. Jeg hitti hann á Neðra-Vallandi. Hann var uppáhald allra í heimboðum; og þó að hann væri hátt á fimmtugs aldri, renndu konur þó einatt til hans hýru auga. Hann var hinn fríðasti maður í sjón og skapnaður allur þar á borð við, og allt látbragð hans og limaburður hið fegursta. Mjer liggur við að segja, að hann væri svo veglegur í allri framgöngu, tilgerðarlaus og þó ástúðlegur, að hann ávann sjer jafnvel hylli mannanna; en einkum fór þó orð af því, að hann hefði mikið vald yfir hjörtum kvenna. Í ásta-orustum var honum margur sigur eignaður, svo varla var trúandi. En eitt var að honum, sögðu menn, sem gjörði hann mjög hættulegan í því efni. Aldrei hafði konu tekizt, þó að hún væri hin fegursta, að ná á honum handfesti lengur en hann vildi. Allt atferli hans var svo unaðlegt, að það ávann honum hjörtu allra, og sú er hann leit blíðast til varð sæl og frá sjer numin. En þegar svo var komið, kvaddi hann, fór burt og kom eigi aptur. En ekki fældi þetta konurnar frá honum, heldur lögðu þær því meiri hug til hans. Það var líka forvitnin sem dró menn að honum, því enginn vissi hvað hann var eða hverrar stjettar. Þó að konurnar segðu að þokkagyðjurnar ljeku um munn hans, þóttust þær þó sjá að einhver sorgarskýla lá yfir enni hans, er sýndi að eitthvað mikið og merkilegt hefði drifið á daga hans. En um hina fyrri æfi hans vissi enginn. Dylgjur voru um, að hann væri útlægur gjör af stjórn sinni, að honum hefði ekki samið við konu sína eða hann hefði orðið að bana bróður sínum og annað þess konar. En ekkert voru menn vissir um nema að hann stundaði margs konar vísindi af kappi.

Jeg hafði heyrt margt um hann, og þekkti hann því undir eins, er jeg hitti hann upp á Vesúvíus fjalli. Hann gekk að nýju eldgjánni — því fjallið var nýhætt að gjósa — og horfði á hina bláu hringa er mynduðust af reyknum, er hægt og hægt leið upp úr gjánni. Jeg gekk til hans yfir hið gulleita storknaða eldflóð og kastaði á hann kveðju minni. Hann svaraði mjer vingjarnlega, og orð jókst af orði. Náttúran, kringum okkur var óttaleg og dimm, einkum þegar hún var saman borin við hina alskæru himinhvelfingu yfir okkur, sem er svo yndisleg í Suðurlöndum. Við töluðum lengi saman og fórum svo hvor sína leið niður af fjallinu.

Eptir þetta bar fundum okkar opt saman og komum hvor til annars, og að lyktum vorum við saman dag hvern þangað til jeg fór heimleiðis. Mjer fannst hann saklaus í áhrifum þeim, er sagt var að útlit hans gjörði. Það kom margt fram í tali hans svo sjerstaklegt, eins og sál hans færi einförum, af því hún hefði engan fundið, er gæti laðað hana úr fylgsnum sínum. Þegar jeg fór að kynnast honum, varð jeg að játa að hann hafði eldheita skáldasál fremur öllum öðrum, er jeg hafði þekkt, og þess vegna var hún líka bernskuleg, ósjálfráð, einföld og út af fyrir sig. Hann vissi ekkert af þessu sjálfur, og talaði því ósjálfrátt hin fegurstu orð, er jeg hafði nokkurn tíma heyrt. Jeg hefi seinna á æfi minni kynnzt mörgum skáldum og íþróttamönnum, en aldrei hitt jafnviðkvæma fegurðartilfinningu, því varð hann líka reiður og óþolinn hvað sem hann sá illt og ófagurt. Það voru ef til vill þessir kostir, sem ollu því að hjörtu kvenna þutu móti honum eins og fleygir fuglar, af því að svo fáir menn á þeim aldri hafa slíka kosti til að bera; og það var, ef til vill, vegna hins sama, að við vorum þá svo samrýnir, því jeg var ungur og skildi varla þessa eiginlegleika hans. Það var ekki fyr en á seinni árum, þegar jeg fór að setja saman æfisögu hans, að jeg skildi þá rjett. Aldrei komst jeg eptir því, hvað hann hafði upp úr kvennhylli sinni, því hann nefndi það aldrei á nafn og jeg hafði aldrei seinna færi til að grafast eptir því. Eigi gat jeg heldur sjeð neina sorgarskýlu á enni hans, enda fjekk jeg ekkert að vita um fyrri hlut æfi hans, nema að hann hafði lengi verið í ferðalögum, og hafði þá í nokkur ár verið á Norður-Vallandi, og safnaði hann þar hrauntegundum og fornmenjum. Sjálfur sagði hann mjer, að hann ætti jarðir á Ungverjalandi og bauð mjer opt til sín þangað eins og jeg hefi áður getið.

Við vorum töluverðan tíma saman, og skildumst, þegar jeg varð að fara, með miklum söknuði, en eptir það sá jeg svo marga menn og lönd, að mjer datt það aldrei í hug, ekki einu sinni í draumi, að jeg nokkurn tíma mundi verða á ferð á Ungverja sljettum til að finna þenna mann. Jeg var nú einlægt að hugsa um hann; og hann stóð opt svo lifandi fyrir hugar augum mjer að mjer fannst jeg aptur vera á Vallandi.

þegar jeg hafði nú um langan tíma farið til og fráum landið, sofið um nætur hjá fjárhirðurum og drukkið um daga mjer til hressingar úr heiðarlindum, hjelt jeg einn daginn að jeg yrði að vera kominn nærri garði vinar míns, og hjelt nú beint áfram ferðinni, því jeg var orðinn þreyttur af ferðalaginu. Jeg hafði allan daginn farið yfir grýtta grund. Á vinstri hönd gnæfðu dimmblá fjöll við himin, og hjelt jeg það væru Karpathafjöll, en á hægri hönd lá autt land og sló yfir það rauðri slikju eins og loptið opt gjörir á stóru sljettlendi. Þegar jeg loksins kom upp úr dæld nokkurri, þar sem uppþornaður lækur hafði runnið um, leit jeg til hægri handar skóg af kastaníutrjám, og hvítt hús er sandhólar nokkrir höfðu hingað til falið sjónum mínum. Þegar jeg spurði það kvöld um Uwar — svo hjet garður majórsins — svöruðu allir; þrjár mílur, enn, þrjár mílur enn!" En af því jeg var af reynslu farinn að þekkja þessar Ungverjamílur var jeg búinn að ganga góða þingmannaleið, og vildi því hjartansfeginn, að hús þetta væri Uwar. Skammt þaðan hækkaði landið, og var þar girðing nokkur, og sá jeg húskarla að verki. Hugði jeg að spyrja fólk þetta til vegar og beygði af leið gegnum skóg einn lítinn. Opt vill það til á Ungverjalandi, að sjónin bregzt manni, og reyndi jeg það hjer; því þegar jeg kom í gegnum skóginn sá jeg að húsið lá ekki við hann heldur var löng sljetta á milli og sá jeg þá, að húsið var stórt og reisuglegt. Yfir sljettlendi þetta sá jeg mann þeysa til fólksins sem var að verki, og þustu húskarlar saman er hann kom til þeirra eins og það væri húsbóndinn, en ekki var þetta líkt vini mínum majórnum. Jeg gekk hægt til girðinganna, sem voru lengra í burtu en jeg hafði ætlað, og þegar jeg kom að þeim; glóði kvöldroðinn á hinum dimmu kvikanda hveiti-ekrum og yfir húskarla hópinn svartskeggjaðan og reiðmanninn í miðju þeirra. En riddarinn var þá ekki annað en kona hjerumbil fertug að aldri. Var hún í víðum Ungverjabrókum og sat karlvega á hesti. Þegar húskarlar gengu burt, og hún var næstum ein eptir, sneri jeg til hennar. Jeg studdi mig við göngustaf minn brá bönd fyrir auga og mælti til hennar á þjóðversku: „Sælar verið þjer kona góð!"

„Sælir verið þjer" svaraði hún á sama máli.

Gjörið svo vel og segið mjer hvort hús þetta heitir Uwar.

„Þetta hús heitir ekki Uwar. Ætlið þjer þangað?"

„Já! Jeg ætla að finna vin minn majórinn; hann hefur boðið mjer til sín."

„Fylgið mjer þá!" (Framh. síðar).

# Frjettir.

**Útlendar.** Þar sem vjer seinast skýrðum frá útlendum frjettum áttum vjer eptir að fara fáum orðum um ástandið í Danmörku, og viljum vjer nú bæta úr því, þó að lítið sje þaðan til frásagna. Sumarið var gott hjá Dönum og uppskeran í betra meðallagi. Í stjórnarefnum ber þar fátt til nýlundu. Stjórnarráð Dana er einlægt að skrifast á við þýzku ríkin um hertogadæmin, reyna að verja aðgjörðir dönsku stjórnarinnar, og að smáslaka til, og það svo mjög, að sumum er farið að þykja nóg um, enda má ætla á það, að Danir mega til að halda það er þeir þannig lofa, og er það vandhæfi mikið fyrir þá að lofa ekki ofmiklu. Líkindi eru til þess, að einhver misklíður milli ráðgjafanna út úr þessum erjum við Þýzkaland hafi verið þess ollandi, að æðsti ráðgjafinn Andræ sagði sig úr völdum í sumar; en þó hann færi frá, hefur enginn komið í stað hans, en hinir hafa til bráðabyrgða tekizt á hendur störf hans. Stjórnarráðið má því samt heita hið sama, enda hefur því ekki fremur síðan tekizt að koma sjer saman við Þjóðverja eður hertogadæmin; svo að þegar seinustu skip fóru í haust var svo að sjá, að Þjóðverjar mundu ætla að senda setulið inn í hertogadæmin, er skyldi sitja þar þangað til einhver úrslit yrði um málið. Og komi þetta fram, er bágt að ætla á hver endir þar á verður, eða hvort friður getur haldizt.

# Auglýsingar.




Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár | 14. Desember. | 30. 31.

(Úr brjefi).

Þá er að bæta dálitlum þætti við sögu Bernharðar prests frakkneska; verður hann næsta efnisílítill, því sögu hans miðar seint á fram á þessum missirum — og þó er hann nú ekki lengur einn um söguna.

Snemma vorið var kom út, jeg ætla á Fáskrúðsfirði, annar klerkur frakkneskur, ungur að aldri, og hjelt strax til Seyðisfjarðar á fund Bernharðar prests. Kvaðst þessi ungi prestur heita Boudoin og segir það nafn sama og Baldvin á íslenzku. Hann er rúmlega hálfþrítugur að aldri og ný orðinn „vicaius" eða einhver lægri ráðar klerkur meðal katólskra. Hafði hann þjónað fámennri sókn, sem jeg man ekki hvað heitir, vestarlega á Frakklandi. — Ekki lízt mönnum jafnvel á þenna unga klerk sem hinn eldra, og gruna hann sje ómerkari. En viðfelldinn er hann og mannúðlegur og talar ört látínu, segja menn, er ljett um mál og hinn kátasti. — Ekkert nefnir hann trúarbrögð, svo jeg viti, enda kann hann ekkert orð enn þá í íslenzku, en les mál okkar eins og Bernharður prestur kappsamlega. Mun hann vera fljótgáfaður og allvel að sjer eptir sið páfavilluklerka. — Eitthvað er Baldvin prestur við lækningar líkt og hinn, og kveðst hafa hlýtt á fyrilestra í ýmsum greinum læknisfræðinnar eins og hverju prestsefni sje heimilt á Frakklandi.

Jeg gat þess áður við þig, að Bernharður prestur hefði sótt til amtmanns um leyfi að byggja hjer; en talað er að amtmaður hafi svarað því, að hann þættist eki einhlítur að leyfa það, og hafði vísað því máli til stjórnar okkar. Var Bernharður prestur sjaldan heima í vor á Vestdalseyri, en jafnan á ferðum. Fór hann suður um fjörðu að finna landa sína — eitt sinn norður í Borgarfjörð að rannsaka frakkneskt fiskiskip, því skipverjar rændu þar varpi og börðu á mönnum. — Síðan fór hann á Eskifjörð eða Norðfjörð að finna þar yfirmann á frakknesku herskipi og fylgja þar máli okkar um bætur fyrir óspektir frakkneskra fiskimanna í Borgarfirði og Seyðisfirði — því þar stálu Frakkar einhverju úr skemmu og börðu bóndann á bænum og húskarl hans. Riðu þeir Bernharður og herskipsstjórinn til sýslumanns okkar.

Bernharði presti þykja þessar óspektir Frakka næsta illar, og virðist vilja fylgja okkur til að ná rjetti á þeim. En hins vegar er það ekki ólíklegt, ef hann hyggur hjer á bólfestu, að honum þyki vænt um, að við leitum til hans í vandræðum þeim, er við hljótum af ránskap og ójöfnuði landa hans. Því þar virðist þá eins og við værum upp á hann komnir; en honum mun um að gjöra að hylli menn sem mest að sjer. Og er það eigi allskostar forsjálegt að flýja til katólskra klerka, þegar við sætum ójöfnuði af Frökkum. Lög og yfirvöld okkar eiga að vera okkur nóg athvarf til að ná rjetti okkar, þó ekki sjeu þau megnug þess, að verja okkur órjettinum í fyrstu. Enda mundi líka drengilegra fyrir okkur sjálfa, þegar Frakkar taka að ræna okkur og berja, að verja hendur okkar og tíma að beita bareflunum á þá, en víðrast ekki upp eins og geitur þó þeir oti að okkur staur eða stjaka.

Um þær mundir er sjera Vernharður var á ferð með frakkneska herskipsstjóranum til sýslumanns okkar, er talað að hann hafi fengið herlækninn til að vitja læknis okkar Austfirðinga, er sjúkur var um þær mundir, og sýndi prestur í því eins og fleiru góðvild sína. Eptir þetta fór hann á Eyjafjörð eins og þú vissir, og vona jeg þjer hafi virzt hann líkur því er jeg hafði sagt þjer frá í brjefum mínum.

Skömmu eptir að prestur kom austur aptur fór hann heim til sín með frakknesku fiskiskipi. Hefur mjer verið sagt, að einn maður hafi spurt hann áður en hann fór: „Nu munuð þjer ætla

að fara að vita hvort þjer megið byggja hjer eða ekki?" „Já!" sagði prestur. „En ef þjer fáið það nú ekki" sagði hinn. „þá farið þjer alfarnir heim." „Heim?" sagði prestur, „nei, aldrei!" Lýsir svar þetta ætlun hans og hinu sem jeg gat mjer til í fyrra, að Jesúítar mundi sjá nóg ráð til að komast hjer niður, þó þeim væri bannað að byggja hjer hús. Talað er og að hann hafi fastlega lagt að einum bónda í Seyðisfirði að selja sjer jörð hjá kaupstaðnum á Eyrinni og mun það ekki hæfulaust.

Baldvin prestur hefur ávalt setið um kyrrt, nema hvað hann hefur farið út á duggur, einkum á helgum dögum, til að messa yfir duggulýðnum. Frakkneskir fiskimenn hafa venju framar sótt á Seyðisfjörð í sumar og legið þar inni tímum saman, stundum eða einu sinni 20 til 30 skipum í senn.

Baldvin prestur ætlar að sitja á Vestdalseyri í vetur og bíða þar fjelaga síns hins eldra eða fleiri — ef svo fer að þeir leita hingað bólfestu að vori.

það hefur maður sagt mjer, sem opt hefur talað við þessa katólsku klerka, að þegar minnzt sje á kraptaverk, þá finnist ekki betur en þeir sjeu viðlíka hjátrúarfullir og Gvöndur Hólabyskup forðum. Standa þeir á því fastlega að ótal kraptaverk gjörist enn daglega á Frakklandi fyrir áheit á helga menn og að helgum dómum þeirra, þá þeir sjeu bornir í „prosessium" um borgir og bæi. Telja þeir það allt sannleika og vjelalaust; segja æði og ólæknandi sjúkdómar hverfi af mönnum allt í einu, drepsóttir flýi og annað þvílíkt fyrir árnaðar orð dýrðlinga sinna.

Svo hætti jeg þetta sinn, og læt söguna bíða næstu vordaga.

Heima 1. nóvembermán. 1858.

**B. a.**

---

## Bezt er rjett hermt.

þess er getið í 19-18. blaði Norðra þ. á., að frakkneskir fiskimenn hafi rænt æðarvarp í Borgarfirði austur, og er dálítil saga um það í blaðinu. En þar er flest svo ranghermt, að jeg kann betur við að lagfæra hana. Mjer er það hægt, því jeg er kunnugur þessu máli.

Nóttina fyrir hinn 10. júlímánaðar seinast, fóru nokkrir fiskimenn á báti af frakkneskri duggu sem lá inn á Borgarfirði, upp í varphólma skammt þaðan og tóku að stela eggjum og dúni. Einhverjir vöktu á næsta bæ og gættu þessa. Hlupu þá þrír vinnumenn og drengur á skip og reru út í hólmann, en höfðu ekkert í höndunum sjer til varnar, nema þungan járnkarl. — þegar þeir komu í hólmann voru Frakkar þar 8 eða 9, sumir í bát sínum, en hinir að kritja sjer. Vinnumennirnir hlupu upp, en drengurinn gætti skips. Ætluðu þeir fyrst að biðja Frakka með góðu að hætta ruplinu, en þeir voru ölvaðir og næðu illir við; hlupu að bát sínum og tóku árar og krókstjaka til að verjast með ef í hart slægist og reka þessa glapgesti af höndum sjer. — Hafði einn af Frökkum lifandi æður í barminum, og kippti einn vinnumaðurinn henni þaðan og ljet fljúga. þá vildi hinn berja vinnumanninn, en hann brá móti járninu; þeir voru á hálum kletti og hrasaði vinnumaðurinn svo hann datt og hrökk járnið úr hendi hans í sjóinn, þá hljóp hinn á hann ofan og grúfði sig niður að honum; eins og til að bíta hann á barkann. — Meðan á þessu stóð, vildu hinir Frakkar berja þá tvo sem stóðu verjulausir; þreif þá annar krókstjaka úr hendi eins Frakka, braut við knje sjer til að fá lagsmanni sínum annan partinn en barði hinn frakkneska með sínum parti svo hann gékk undan. — Í þessu bili varð hann að fara að hjálpa lagsmanni sínum, sem fallinn var, dróg strákinn af honum svo hann komst á fætur. Börðu þá Frakkar á þeim öllum svo þeir hörfuðu undan, hlupu á skip sitt og rjeru í land. Voru tveir af þeim barðir til meiðsla en einn óskemmdur, sá sem helzt sýndi vörn. Játuðu hinir 2 á eptir, að hefði þeir verið eins einbeittir og hann, mundi þeir hafa rekið hina alla, því Frakkar þessir voru reyndar geitur og lítil illmenni.

Næstu nótt fóru duggumenn aptur í hólmann tvívegis og rændu öllum eggjum og dúni, sem þeir náðu; svo að ei sæi frá bænum. því hæð utan á hólmanum bar á milli þeirra og bæjarmanna. Eigendur varpsins voru ei nálægir, en komu heim daginn eptir að rænt var um nóttina seinni. Öllum sem komu út til duggumanna, voru þeir greiðugir og góðviknir. Enginn gat lesið nafn skipsins, því skipverjar höfðu neglt ljerept fyrið það og krítað yfir borgarnafnið, er skipið var frá. — þá tóku varpeigendur það ráð að senda eptir Bernharði presti frakkneska á Seyðisfirði til að rannsaka skipið og rjetta ránið ef kostur væri, en sveitarmenn vildu tefja fiskimenn

á meðan — þeim tókst það heilan dag, því veður lygnt. — Um kvöldið fóru menn út með fiskimönnum og ljetust vilja verzla við þá; gengu kaupin tregt saman — svo var tilstillt — og drógst tíminn fram í húm; þá var blásandi byr af landi og vildu duggumenn óvægir út. Um þessar mundir gat einn Borfirðingur samt lesið skipsnafnið undir ljereptinu allt að einum staf og þann staf gat hann sjeð að neðan þegar þeir fóru frá borði og borgarnafnið gegnum krítina. Hjet skipið J. EVPHEMI a St. Malo. Þegar duggumenn voru að leysa upp kom Bernharður prestur í sveitina, hljóp strax í skip og var róið með hann á eptir duggunni; en byrinn bar hana óðar í hafið, svo hún slapp. — Prestur hafði strax brugðið við syðra og þótt nauðsýn að fara; en vegurinn á milli er erviður og mjög illur, ekki skemmri en 4½ míla. – Þegar varpeigendur könnuðu varpið var það mest allt ruplað, en það var í vexti. — Fundu þeir yfir 300 hreiður sem þeir álitu nýtæmd. Síðan kærðu þeir málið fyrir sýslumanni og kröfðust 300 rd. í skaðabætur, því þeir töldu, víst að varpið næði sjer ekki lengi á eptir. Eitthvað reyndi sýslumaður að fá ránsbætur hjá yfirmanni á Frakkneska herskipinu, en hann kvaðst ei hafa fje svo mikið, og var ákveðið hann skyldi fara á Borgarfjörð og rannsaka málið betur. — Herskipið kom og hingað, en lítið mun hafa orðið um rannsókn, því yfirmaður gat ei talað við neinn, þó einn eða tveir menn skyldu hjer latínu og töluðu, því hann kunni ei sjálfur það mál, svo nokkur mynd væri á. Við þetta standa gjörðir; og ekki veit jeg til, að þeir sem barðir voru og meiddir hafi krafizt neinna meiðsla bóta. En verið getur að Bernharður prestur hafi krafið fyrir þá, því hann sá þá meðan þeir voru fatlaðir tveimur dögum eptir að Frakkar börðu á þeim.

Svona er þessi saga rjett sögð.

Borgarfirði austur 20. septemberm. 1858.

**S. G.**

---

## Faktorar og yfirfaktorar.

Einn af alþingismönnum kom fram með uppástungu á hinu síðasta alþingi um það, að allir kaupmenn, sem hefðu fasta verzlun hjer á landi yrðu skyldaðir til að hafa hjer aðsetur sitt, en þingið tók ekki uppástungu þessa til greina, sem ekki var heldur von, því þó að slíkt yrði mikill hagur fyrir land vort, ef það gæti komizt á, þá er það þó eins víst, að það væri óþolandi ófrelsi að binda menn við borð að vera hjer móti vilja sínum. Enda mun kaupmanninum mestur hagur að vera erlendis, því þá getur hann einlægt vitað hvernig verzlun líður, og getur því valið hentugasta tímann til að kaupa og selja vöru sína, því ef hann hefði hjer heimili sitt, yrði hann annaðhvort að eiga þetta allt undir öðrum, eða ferðast einlægt á milli. Það má nú geta nærri að það væri ógjörlegt fyrir kaupmann, sem hefði mikið um sig að eiga þannig allt undir öðrum, ef hann væri hjer sjálfur, því honum væri þá ómögulegt að hafa greinilegt yfirlit yfir gang verzlunarinnar, leigja skip sín til vöruflutninga að vetrinum, o. s. frv.

Hinir stærri íslenzku kaupmenn vorir hafa því lengi haft aðalsæti sitt í Danmörku, en hafa hjer verzlunarfulltrúa, faktora, og ferðast sjálfir hingað til landsins að sumrinu til og líta yfir verzlunina hjer, og hafa eptirlit með faktorum sínum. Þannig hafa þeir Andres Hemmert- og Guðmann um mörg ár komið hjer til Norðurlands, Clausen til Vesturlands og Knutzon til Suðurlands, meðan þeir voru yngri og ekki eins auðugir. Þetta mátti nú vel fara, því þegar þessir höfðingar komu hingað sjálfir, gátu þeir vel lagað sig eptir því sem þeir sáu að við þurfti og verzlun þeirra hagaði; enda voru þeir hjer Norðanlands all vinsælir og þóttu hreinir og beinir í viðskiptum. Þessi tilhögun var líka mjög haganleg fyrir faktora. Þeir höfðu þá húsbændur sína við hlið sjer meiri part sumarsins, og gátu fengið hjá þeim vissar fyrirskipanir, sem þeim var óhætt að fara eptir og sátu því miklu fastara í sessi en þeir hafa síðan gjört, þegar þeir hafa orðið að spila meira upp á sínar eigin spítur.

Nú á tímum er þetta orðið allt á annan veg. Stórkaupmenn vorir hjer Norðanlands eru nú hættir að heimsækja oss, en senda hingað fulltrúa sína, sem eiga að hafa hjer eptirlit og vera nokkurs konar aðalráðsmenn húsbændanna dönsku. Þeir eru tveir hjer á Norðurlandi, yfirfaktor Jakob Johnsen af hendi Örum og Wulffs. og Höepfner nokkur, sem vjer kunnum ekki að titla, af hendi F. Guðmanns, og er hann að líkindum nokkurs konar yfirfaktor líka. Í fyrra var það á orði að hann væri verzlunarfjelagi Guðmanns, en næstliðið sumar bar ekki neitt á öðru en hann væri einungis vinnumaður eða ráðsmaður hans. Jakob

Johnsen hefur lengi verið faktor á Húsavík fyrir Örum og Wulff; hann er hagsýnn maður vel fyrir sjálfan sig og verzlun sína og álnaður vel. Gekk hann fyrir nokkrum árum úr þjónustu þeirra og sigldi til Danmerkur, og var þá mjög í orði, að hann mundi sjálfur byrja verzlun. Var hann vel til slíks fallinn og mundi hafa getað orðið hjer hinn nýtasti kaupmaður. En þeir Örum og Wulff sáu það nú í hendi sinni, hversu hættulegur hann mundi geta orðið þeim, ef hann, svo vel kunnugur hjer nyrðra, færi að keppa við þá, og keyptu hann því aptur í sína þjónustu og gjörðu hann að yfirfaktor með góðum launum. Fer hann nú hjer milli verzlunarstaða á sumrum, en lítið þykir hann bæta verzlunina fyrir landsmenn.

Höepfner er nú yngri maður, danskur að ætt og uppruna, drembinn og óviðfelldinn; sagður er hann hygginn verzlunarmaður, en mun vera nokkuð viðsjáll í kaupum og halda ekki betur en vel þó hann lofi öllu fögru. Hann var hjer næstliðið sumar lausakaupmaður á Húsavík, auk annarar ráðsmennsku, er hann kann að hafa haft á Akureyri, og mun hann fyrstur hafa brugðið út af samningi kaupmanna um vöruverð, en duldi þess þó, og vildi ekki leyfa faktornum á Akureyri að bæta jafnt prísana þegar allir aðrir voru farnir hjer til þess annars staðar.

Vjer játum það nú reyndar, að mikil nauðsyn sje á því fyrir kaupmenn, sem hafa hjer mikið umleikis, að koma hingað sjálfir og líta yfir efni sín. En geti þeir það ekki, ættu þeir að voru áliti að velja sem bezt faktora sína, og gefa þeim svo sem frjálsastar hendur. Stórkaupmenn vorir ættu að sjá það, að þegar verzlunin er frjáls, og því meiri handagangur í öskjunni; það er að skilja, þegar fleiri eru sem sækjast eptir vörunni og þeir eru eigi lengur einir um hituna, þá verða faktorar þeirra að vera sem óbundnastir, svo að þeir geti hagað sjer eptir því sem á stendur. Vjer ætlum því, að yfirfaktorar þessir gjöri minna en ekkert gagn, og sjeu þeir ekki því betur til kjörnir, spilla þeir eflaust meir en þeir bæta.

---

## Brigitta

(lauslega snúin skáldsaga).

(Framhald). Um leið og hún sagði þetta reið hún af stað hægt svo að jeg gat fylgt henni gegnum hveitiekrurnar upp á leitið. Jeg gekk eptir hestinum og leit í kringum mig og óx furða mín við fótmál hvert. Því hærra sem við komum á leitið, því betur laukst upp dalurinn fyrir oss. Rjett fyrir framan okkur lá húsið og var í kringum það afarmikill skemmti-skógur. Langar plantaðar skóggötur lágu frá húsinu út á akrana, og akrarnir lágu hver við annan í fullum blóma, og virtust ágætlega hirtir. Jeg hefi aldrei sjeð hveitistráið svo hátt, kjarnamikið og bragðlegt og ekkert grasstrá sást milli hveitistanganna. Vínviðarhæðirnar, sem jeg fór fram hjá minntu mig á Rínarbjeröð, og þó hefi jeg ekki sjeð þar vínþrúgur eins stórar og þroskalegar og hjer voru. Flöturinn milli kastaníuskógarins og herragarðsins var þakinn grænu grasi, sljettur og mjúkur eins og silkiflos. Yfir flöt þessa lágu traðir og hinn hvíti nautpeningur gekk þar á beit og var hann þriflegur og rennilegur eins og hreindýrahjörð. Þetta varð nú enn fegurra þegar jeg bar það saman við grýttu og graslausu flesjurnar sem jeg hafði gengið um allan daginn. Þær lágu nú langt í burtu í vestri, og sýndust þær nú enn brennheitari og þurrari þar sem rauðum kvöldroðanum brá yfir þær, og því unaðlegri var hinn svali blær og ilmur jurtanna, þar sem jeg nú var kominn.

Mörg smá hús hvítmáluð lágu til og frá millum víngarðanna, og komum við nú að einu þeirra. Þar stóð ungur maður fyri dyrum úti, og þó að heitt væri júníkvöldið var hann í loðkápu. „Milosch.“ sagði konan, „þessi maður vill ná til Uwar í kvöld; taktu þá Brúnu og láttu hann fá annan þeirra og fylgdu honum að Gálgahjalla!“

„Já,“ sagði pilturinn og stóð upp.

„Farið þjer nú með piltinum, hann segir yður leið,“ sagði konan og sneri hestinum aptur.

Jeg hugsaði, að hún væri nokkurs konar ráðskona og ætlaði að gefa henni skildinga fyrir uppáhjálpina. En hún gjörði ekki nema hló, svo skein í tennurnar hvítar og fallegar. Hún reið síðan hægt í burt yfir vínviðarhæðirnar, og skömmu seinna sáum við hana setja hestinn á sprett yfir sljettuna.

Jeg stakk skildingunum aptur í vasa minn. Milosch var nú búinn að setja upp barðastóran hatt, og gekk nú áfram milli vínviðartrjánna þangað til við komum út fyrir þau. Þar stóðu úthýsi nokkur og leiddi hann þar út brúnu hestana; voru þeir smáir eins og hestakyn það er menn sjá ganga á Ungverjaheiðum. Milosch söðlaði annan hestinn handa mjer, en reið hinum sjálfur berbakt, og riðum við nú í kvöldrökkrinu í austurátt.

„Er enn langt til Uwar?“ spurði jeg hann.

„Það er enn hálf önnur míla,“ sagði Milosch.

Jeg varð nú að hafa það svo búið og reið á eptir honum hið bezta er jeg gat. Landið var nú grýtt og stórsteinótt eins og áður hafði verið og herragarðurinn og vínviðarhæðirnar lágu mitt í þessari eyðimörku eins og fagurgrænn dalur á öræfum uppi Grásteinarnir, sem jeg hafði sjeð þúsund sinnum áður um daginn, voru nú aptur allt í kringum mig og gjörðu þeir óvið-

kunnanlegt villuljós, því sjálfur jarðvegurinn var mjög dökkur.

„Hver átti garð þenna er jeg fór fram hjá,“ spurði jeg fylgdarmann minn.

„Marosheli,“ svaraði hann.

þetta orð nefndi hann fljótt, og var nokkuð á undan mjer, svo jeg vissi ekki hvort það var nafn eigandans eða hvort jeg hafði heyrt rjett, og hófadynurinn gjörði örðugt að tala, og heyra hvað talað var.

Loksins steig lítil mánarönd upp á himininn og sá jeg við hið daufa tunglskin hinn háa gálgastall sem hann átti að fylgja mjer til.

„Hjerna er nú gálginn,“ sagði Milosch, og þarna niður frá þar sem birtu slær yfir rennur lækur, þar sjáið þjer dökka hæð, Farið þjer þangað, það er eik, sem sakamenn voru áður hengdir á. En nú er það ekki lengur gjört síðan gálginn var reistur. Frá eikinni er lagður nýr vegur og standa nýplöntuð trje til beggja hliða. þegar þjer hafið gengið eptir þessum veg tímakorn verður fyrir yður skíðgarðshlið; en varast skuluð þjer að ganga inn, þó að ekki sje búið að loka, sökum varðhundanna, heldur skuluð þjer taka í klukkustrenginn og hringja. Farið þjer nú af baki og hneppið að yður frakkanum svo ekki slái að yður!“

Jeg steig nú af hestbaki, og bauð Milosch nokkura skildinga í fylgdarkaup, og var hann ekki seinn á sjer að þiggja þá, og stakk þeim í loðúlpu sína, tók tauminn og reið allt hvað aftók heimleiðis. Var auðsjeð að honum var lítið um að vera svo nærri gálganum Jeg leit þangað; það voru tveir stólpar reistir upp og þverslá á milli. Ofan á slánni lá eitthvað eins og það væri mannshöfuð, og þó það máske ekki hafi verið, var ónotalegt að sjá það í hinu föla tunglskini. Jeg gekk áfram og fannst mjer eins og suðaði í heiðargrasinu og að eitthvað hærðist undir gálganum. Innan skamms kom jeg að eikinni, lækurinn glóði og skein í tunglskininu og sneri sjer eins og höggormur kringum sefið og stargresið. Rjett þar hjá gnæfði kolsvört eikin í lopt upp. Jeg gekk kringum hana og sá þá rjett hinumegin beinan og bjartan veg er tunglið skein á. Vegurinn var vel barinn niður og skurðir grafnir til beggja hliða og raðir beggja megin af ungum populustrjám. Jeg varð nú glaður að koma á sljettan harðan veg, þar sem fótatakið heyrist eins og heima í mínu landi.

Jeg gekk hægt leið mína. Tunglið færðist hærra og hærra á lopt og stóð nú í heiði í hinu hlýja lopti um sumarnóttina, og breiddi fölva birtu yfir heiðarflákann. þegar jeg hafði gengið góða stund, grillti jeg í eitthvað sem trjágarður væri og skömmu seinna kom jeg að skíðgarðshliðinu, og mændu geysiháir eikartoppar yfir skíðgarðinn. Öðru megin við hliðið var klukkustrengur sem jeg tók í og gall þá í klukku inni fyrir. Að vörmu spori kom hinn stærsti og fallegasti hundur sem jeg hefi nokkurn tíma sjeð út að grindunum; hann gelti ekki en þefaði fyrir sjer, reis upp á apturlappirnar og brá framlöppunum um járnstengurnar í hliðinu og glápti á mig eins og þess konar hundar eru vanir. Skömmu eptir komu tveir hvolpar af sama kyni urrandi. Að lítilli stundu liðinni kom maður í loðúlpu og spurði mig hvað jeg vildi. Jeg sagði honum nafn mitt, og kannaðist hann þegar við, því hann hastaði á hundana og lauk upp hliðinu.

„Húsbóndinn hefur fengið brjef frá yður, og hefur lengi vænt yðar“, sagði maðurinn þegar við gengum áfram.“

„Jeg sagði honum að jeg ætlaði að skoða land yðart á leiðinni“, svaraði jeg.

„þjer hafið skoðað það lengi“, sagði hann.

„Ójá. Er majórinn enn á felli?“

„Hann er ekki heima; hann fór á fund nokkurn, en kemur heim á morgun. Hann er búinn að láta búa undir þrjú herbergi handa yður og skipaði oss að vísa yður til þeirra, ef að þjer kæmuð á meðan hann væri í burtu.“.

„Fylgdu mjer þá inn!“

„Já, það er sjálfsagt.“

þetta var nú allt er við töluðumst við á leiðinni sem var æði löng, og lá í gegnum stóran skóg fremur en trjágarð. Fjarskahá furutrje gnæfðu við himin og ákaflega digrir eikarstofnar rjettu út langar og bognar greinar sínar. Stóri hundurinn gekk hægt við hlið okkar en hvolparnir þefuðu af klæðum mínum og stukku og hoppuðu kringum oss. þegar við komum gegnum lundinn, komum við að skóglausri hæð. þar stóð slotið það var stórt hús, byggt í ferhyrning. Breiður steinstigi, eins og höggvinn í klöpp, lág upp á hæðina. þegar við vorum komnir upp á hann, komum við upp að slotsdyrunum. Fylgdarmaður minn sagði nokkur ord á ungversku við hundana, og hlupu þeir þá strax aptur niður í trjágarðinn; síðan lauk hann upp og fylgdi mjer inn.

Í anddyrinu loguðu enn lampar og breiddu birtu sína yfir stórar mannsmyndir höggnar í stein, í víðum stígvjelum og síðkápum. það hafa að líkindum verið myndir af fornkonungum Ungverja. þaðan komum við inn í göng nokkur og voru þar sefmottur breiddar á gólfið. Við gengum þaðan upp annan stiga og lauk fylgdarmaður minn upp vængjahurðum, og vorum við nú komnir í herbergi þau er mjer voru ætluð. Hann kveikti nú mörg vaxljós í hverju herbergi, bauð mjer góðar nætur og fór burt. Skömmu seinna kom annar maður og bar á borð vín og brauð og kalda steik, og bauð mjer svo líka góðar nætur. Jeg sá nú af þessu, og af því að allt var í lagi í herbergjunum, að jeg mundi nú verða einn til morguns, og læsti jeg því dyrunum.

Jeg tók nu til matar og litaðist um í herberginu. Herbergið sem jeg snæddi í var stórt, og húsbúnaði hagað öðruvísi en hjá oss. Í miðju herberginu stóð stórt borð og sat jeg við enda þess. Í kringum það stóðu bekkir úr eik og virtist sem þar væru fundir haldnir. Á veggjunum hjengu vopn frá ýmsum tímum, þar á meðal margir bogar og örfar. Líka var þar fatnaður ungverskur sem geymdur var frá fyrri tímum og

ýmisleg forn silkiklæði, sem átt höfðu Tyrkir og Tartarar.

þegar jeg hafði lokið máltíð gekk jeg inn í hin tvö herbergin, voru þau minni og þar betur um búið. þar voru borð, stólar, skápar, skrifføri og allt sem ferðamaður getur eptir æskt. Á borðinu í svefnherberginu lágu bækur allar á þýzku. Í báðum herbergjunum voru rúm; í staðinn fyrir ábreiðu var breitt yfir þau hin einkennilega þjóðlega yfirhöfn Ungverja sem heitir „bunda“ það er skinnfeldur, og snýr loðnan inn, en hvítt skinnið vel elt út, og er feldurinn að útan lagður allavega litum leðurræmum, sem saumaðar eru á í ýmislegum myndum.

þegar jeg dró hinn mjúka feld yfir þreytta limu mína, kom mjer í hug áður enn jeg sofnaði: Hvað mun jeg sjá fagurt eða ljótt í húsi þessu?

Jeg seig í væran blund og allt með mjer, er lífið hingað til hafði látið mjer í skaut falla, og allt sem jeg með sterkri hugarþrá æskti að það skyldi veita mjer.

---

Ekki veit jeg hvað lengi jeg svaf, en jeg svaf bæði vel og rótt, því jeg var þreyttur og svefnþurfi, þegar jeg gekk til rekkju. Um nóttina dreymdi mig að jeg var ýmist á Vesúvíusfjalli, eða í Pompeii. þar sýndist mjer jeg sjá majórinn í pálmarabúningi en stundum sá jeg hann á frakka, og var hann að tína sjer steina. Um morguninn heyrði jeg í gegnum svefninn hesta gneggja og hunda gelta, en jeg svaf svo fast að jeg vaknaði ekki fyr en albjartur dagur skein um herbergið. Neðan undir í trjágarðinum kvað við fuglasöngur, og þegar jeg kom á fætur og leit ut um gluggann, glóði öll heiðin í geislum morgunsólarinnar. Rjett þegar jeg var klæddur var kvatt hurðar, og þegar jeg lauk upp kom vinur minn majórinn inn. Jeg hafði opt verið að hugsa um, hvernig hann nú mundi verða í sjón að sjá; og þegar jeg nú sá hann, var hann eins og við var að búast svo sniðinn eptir sínu landi og sinni þjóð, að mjer fannst, að þannig hefði hann ætíð verið á að sjá. Á efri vörinni bar hann svart skegg eins og hann var vanur, og kom það vel saman við hin dökku snöru augu hans. Á höfði hafði hann barðabreiðan kringlóttan hatt, og frá beltinu lágu buxurnar hvítar og víðar niður í fellingum. Mjer fannst allt í einu að jeg myndi ekki hvernig kjóll færi honum, og svo fagur þótti mjer þjóðbúningur hans að jeg fyrirvarð mig fyrir slitna þýzka frakkann minn sem lá á stól rjett undir einum aflóga silkislæðum Tartaranna. Frakki majórsins var styttri en menn eru vanir að hafa á þýzkalandi en fór ágæta vel við hinn búninginn, Sjálfur var hann meira hniginn að aldri, og hár hans var farið að grána, og á andliti hans sáust ljóst hin stuttu smágjörfu stryk, sem á fríðu andliti, er lengi heldur fegurð sinni, sýnir þó að lyktum að ellin nálgast. En eins svipgóður og ástúðlegur var hann í mínum augum eins og fyr.

Hann heilsaði mjer vingjarnlega, hjartanlega og næstum því ástúðlega; og þegar við höfðum talazt við stundarkorn vorum við jafnkunnugir eins og áður; og oss fannst að við hefðum aldrei skilið síðan við vorum báðir á ferð á Vallandi. þegar jeg klæddist og gat jeg þess að farangur minn kæmi á eptir, spurði hann mig, hvort jeg vildi ekki þangað til, eða eins lengi og mjer sýndist, bera ungverskan búnað. Jeg fjellst á það, og fjekk þegar fötin, og lofaði hann að jeg skyldi fá til skiptanna næstu dagana. þegar við komum út til vinnumannanna, sem eins voru búnir, var það auðsjeð að þeim líkaði búningur vor allvel, og leiddu þeir fram hesta, og riðum við nú út okkur til skemmtunar í morgunblíðunni

Við riðum til og frá um landareign majórsins. Hann sýndi mjer allt, og þegar hann fann fólk að verki, skipaði hann fyrir verkum, og hældi þeim sem vel höfðu unnið. Trjágarðurinn sem við fyrst riðum gegnum var mjög fagur, vel girtur, lagðir vegir um hann og öllu haldið þrifalega. þegar við komum út á grasekrurnar, gekk dökkgrænt grasið í öldum í morgunblænum. Hvergi hefi jeg sjeð annan eins grasvöxt nema í Englandi; þar er grasið þjettara og mýkra, en þetta virtist mjer þó vöxtuglegra og meira magnað af sólarhita. Við riðum í kringum trjágarðinn upp á hæð sem lá út á heiðina. Á hæðinni var vínviður plantaður, og á milli sá maður eins og á Marosheli hin hvítu smáhús þeirra er gættu vínviðarins. þegar við komum út á heiðina sáum við nautahjörð hans. Var hún á dreif, mikill fjöldi svo ekki sá yfir. þegar við höfðum riðið þaðan tímakorn, komum við þar sem fjenaður hans var og hestastóð. þegar við riðum heimleiðis aptur eptir heiðinni, benti hann mjer á svarta rönd er langt í vestri lág eptir grárri heiðinni. „þarna,“ sagði hann, „liggur Marosheli þar sem þjer fenguð hestinn í gær.

Við riðum annan veg aptur heimleiðis, og á þeirri leið sýndi hann mjer aldingarða sína og jurtabaðstofur. Áður en við komum að þeim, riðum við fram hjá heiðarparti nokkrum, er sýndist mjög óálitlegur til ræktunar og var þar fjöldi fólks við vinnu. „Spurði jeg hvað þetta fólk starfaði, og sagði hann að það væru húsgangar og beiningamenn, er hann hefði fengið til að vinna fyrir sig með því að lofa þeim borgun fyrir dag hvern út í hönd. þeir voru að skera fram mýrarflóa, og leggja veg yfir hann.

þegar við komum heim um miðdegið borðuðum við ásamt öllu heimafólkinu undir nokkurs konar svölum við húsið. þar var þá kominn og sat að borði með oss unglingur svo afbragðfríður að jeg hafði varla sjeð hans líka. Hann kom með brjef úr nágrenninu og reið burt að loknum dagverði, og var majórinn honum svo blíður sem hann væri barn hans. Um kvöldið hjeldum við kyrru fyrir.

Jeg ásetti mjer þetta kvöld að spyrja majórinn næsta dag, hvað það mark og mið væri, sem hann hefði nú fundið, og getið um í brjefinu til

mín, er hjeldi honum alla æfi heima á fósturlandi sínu.

Daginn eptir vakti hann mig fyrir sólaruppkomu og spurði mig, hvort jeg vildi fara minna ferða um daginn eða vera með sjer. Jeg gæti gjört hvort sem jeg vildi. Ef að jeg vildi taka þátt í og sjá hvað framfæri á heimilinu, skyldi jeg fara á fætur þegar hringt væri morgunklukkunni, og snæða árbita með sjer og öðru heimilisfólki. En ef mjer einhvern dag litist annað, þá hefði hann skipað hjúum sínum, ef hann sjálfur væri ekki við staddur að söðla mjer hest og sjá mjer fyrir öllu er jeg beiddist. Jeg þakkaði honum fyrir vináttu hans og gestrisni, en kvaðst fyrst um sinn helzt vilja vera með honum.

Jeg stökk á fætur og klæddi mig og gekk til borðhalds. Vinnufólkið hafði þegar snætt, og fór hver til vinnu sinnar. Majórinn beið þangað til jeg hafði lokið máltíð; og nú var komið með hestana. Jeg spurði ekki hvort hann ætlaði en reið með honum ;kvaðst hann vilja vinna það er hann þyrfti um daginn og gæti jeg horft á, ef mjer leiddist það ekki.

Við komum á stóra engjasljettu, og hin fagra ungverska hryssa er majórinn reið, þaut og dansaði með hann um grænar grundirnar. Þar var verið að slá og sæta. Majórinn fór af baki og skoðaði heyið í bólstrunum, og sögðu húskarlar að aka mætti miklu af því heim seinni hlut dagsins. Majórinn sagði fyrir, að undir eins og búið væri að hirða yrði að grafa skurði og veita af vatninu þar sem það væri ofmikið og hvernig það skyldi gjöra.

Það var nú ekki langt frá engjunum og út á heiðina og riðum við þangað. Hestarnir, sem voru afbragð að flýti, báru okkur svo skjótt yfir, að slotið og trjágarðurinn lá eptir litla stund sem dimmur blettur í fjarska. Þar fundum við nautamenn hans. Kofar þeirra voru ekki annað en mjóar stengur reistar upp og þakið yfir. Þar var eldur á glæðum og kint greinum og rótum af einí, er vex á heiðinni, og öðrum lyngtegundum. Nautamenn voru að matreiðslu. Því þeir átu dagverð fyrir hádegi. Þeir voru svartir á brún og brá og þyrptust þeir í skitnum, hvítum brókum og skyrtunni kringum majórinn og svöruðu spurningum hans; en loðkápurnar lágu kringum kofana, því þeir höfðu fleygt þeim í hádegishitanum. Aðrir, sem voru langt í burtu, en höfðu sjeð til ferða hans, komu þeytandi á litlum og ljótum hestum, og riðu berbakt og við einteyming. Þeir flykkust nú líka kringum, majórinn og hann talaði við þá ekki einungis um störf þeirra heldur líka um hitt og þetta annað. Hann þekkti nöfn þeirra allra, og var svo vingjarnlegur við þá eins og hann væri jafningi þeirra, enda var auðsjeð að þessir hálfviltu menn elskuðu hann eins og föður.

Hjer var nautpeningur allt sumarið úti eins og í fjallbyggðum hjá oss í Þýzkalandi. Þetta var stórhyrnt nautakyn, sem þar á heima í landi, og gengur þar í heiðarhögum. Nautahirðarnir eru því einnig lengstum úti og hafa ekki önnur hýsi en kofa þá er áður er getið.

„Verið þið sæl börnin góð!“ sagði majórinn þegar við riðum af stað, jeg vitja yðar bráðum aptur, og þegar grannar mínir koma til mín næst ætla jeg að koma til miðdagsverðar hingað á heiðina og borða hjá yður.“

Þetta sagði hann á ungversku og þýddi mjer það á eptir, eptir beiðni minni.

Við stefndum nú aptur heim að slotinu, því það var farið að líða að dagverðartíma. Seinni part dagsins var jeg heima við; en jeg hafði nú sjeð nóg svo jeg þurfti ekki að spyrja um ætlun hans og lífsáform, eins og jeg hafði ætlað mjer daginn áður.

Næstu dagana sá jeg sauðfjáreign hans og hestastóðin öll. Allar þessar búskapargreinir, nautpenings-, hesta- og fjáraflinn voru út af fyrir, svo að sjerstaklega var reiknað hve miklu kostað var til hvers fyrir sig, og hversu mikið það gaf af sjer. Eins var um alla jarðarrækt. Þegar majórinn tók heiðapart fyrir til að skera fram og rækta til akurlendis, lánaði hann peninga til þess úr sjóðum hinna búskapargreinanna, en allt var það goldið aptur þegar hinn ræktaði partur tók að gefa arð af sjer. Þannig studdi allt hvað annað, enda var framför mikil á jörðum hans í öllum greinum búskaparins. Mig furðaði stórlega á því, hve mikla alúð hann, sem í fyrra skipti, þegar jeg þekkti hann, sýndist sokkinn niður í vísindin, lagði á þessi bændastörf.

Eitt sinn er við töluðum um þetta, sagði majórinn: „Það sem fyrst stendur til bóta í hverju landi er jarðvegurinn.' Land mitt hefur forna stjórnarskipun og sögu, en þó er hjer enn fjarska mikið ógjört. Þetta stóra og víðáttumikla land er sannur dýrgripur, en hann vantar allan búnaðinn. Stefna heimsins nú á tímum er að keppast eptir og efla það sem nytsamt er. Fegurð og frjófsemi þessa lands er mikil, en að hvorttveggju þarf vel að hlynna. Þjer hafið sjeð það a leiðinni til mín. Allar þessar svörtu heiðar eru bezti jarðvegur til akrarræktunar. Í grýttu hæðunum sem liggja fram með bláu fjöllunum í norðri, sefur hið ljúffenga vín, þar vantar einungis að planta vínviðinn, og þar eru málmar í jörðu. Tvær stórar elfur liggja gegnum land vort, en loptið er enn kyrrt yfir þeim, þar vantar skipagrúa, er ljetti vöruflutningana. Síðan jeg settist að hjá þjóð minni, klæðist þjóðbúningi og fylgi háttum hennar og hefi áunnið mjer ást og virðingu landa minna, finnst mjer að jeg hafi hlotið sælu þá, er jeg lengi leitaði áður að í útlöndum.“

„Fremst og fegurst,“ hugsaði jeg, „er ætlunarverk sveitabóndans, þegar hann kann vel að gegna því. Hin blíða, ástríðulausa sambúð hans við náttúruna er svo margbrotin og þó einföld að það líkist mest sögninni um ódáinsakur“.

Þó að majórinn væri jafnaðarlega glaður og kátur, gat jeg þó, eptir því sem jeg var lengur hjá honum, ekki annað en ætlað, að hann byggi yfir einhverjum fornum harmi, en hann minntist svo lítið á fyrri hlut æfi sinnar að ekki var hægt að ráða í það, enda spurði jeg hann aldrei um þess konar. Við mig var hann ætíð jafnglaður, hreinn og beinn og

ýmisleg forn silkiklæði, sem átt höfðu Tyrkir og Tartarar.

Þegar jeg hafði lokið máltíð gekk jeg inn í hin tvö herbergin, voru þau minni og þar betur um búið. Þar voru borð, stólar, skápar, skrifföri og allt sem ferðamaður getur eptir æskt. Á borðinu í svefnherberginu lágu bækur allar á þýzku. Í báðum herbergjunum voru rúm; í staðinn fyrir ábreiðu var breitt yfir þau hin einkennilega þjóðlega yfirhöfn Ungverja sem heitir „bunda“ það er skinnfeldur, og snýr loðnan inn, en hvítt skinnið vel elt út, og er feldurinn að útan lagður allavega litum leðurræmum, sem saumaðar eru á í ýmislegum myndum.

Þegar jeg dró hinn mjúka feld yfir þreytta limu mína, kom mjer í hug áður enn jeg sofnaði: Hvað mun jeg sjá fagurt eða ljótt í húsi þessu?

Jeg seig í væran blund og allt með mjer, er lífið hingað til hafði látið mjer í skaut falla, og allt sem jeg með sterkri hugarþrá æskti að það skyldi veita mjer.

---

Ekki veit jeg hvað lengi jeg svaf, en jeg svaf bæði vel og rótt, því jeg var þreyttur og svefnþurfi, þegar jeg gekk til rekkju. Um nóttina dreymdi mig að jeg var ýmist á Vesúvíusfjalli, eða í Pompeii. Þar sýndist mjer jeg sjá majórinn í pálmarabúningi en stundum sá jeg hann á frakka, og var hann að tína sjer steina. Um morguninn heyrði jeg í gegnum svefninn hesta gneggja og hunda gelta, en jeg svaf svo fast að jeg vaknaði ekki fyr en albjartur dagur skein um herbergið. Neðan undir í trjágarðinum kvað við fuglasöngur, og þegar jeg kom á fætur og leit út um gluggann, glóði öll heiðin í geislum morgunsólarinnar. Rjett þegar jeg var klæddur var kvatt hurðar, og þegar jeg lauk upp kom vinur minn majórinn inn. Jeg hafði opt verið að hugsa um, hvernig hann nú mundi verða í sjón að sjá; og þegar jeg nú sá hann, var hann eins og við var að búast svo sniðinn eptir sínu landi og sinni þjóð, að mjer fannst, að þannig hefði hann ætíð verið á að sjá. Á efri vörinni bar hann svart skegg eins og hann var vanur, og kom það vel saman við hin dökku snöru augu hans. Á höfði hafði hann barðabreiðan kringlóttan hatt, og frá beltinu lágu buxurnar hvítar og víðar niður í fellingum. Mjer fannst allt í einu það jeg myndi ekki hvernig kjóll færi honum, og svo fagur þótti mjer þjóðbúningur hans að jeg fyrirvarð mig fyrir slitna þýzka frakkann minn sem lá á stól rjett undir einum aflóga silkislæðum Tartaranna. Frakki majórsins var stýttri en menn eru vanir að hafa á Þýzkalandi en fór ágæta vel við hinn búninginn, Sjálfur var hann meira hniginn að aldri, og hár hans var farið að grána, og á andliti hans sáust ljóst hin stuttu smágjörfu stryk, sem á fríðu andliti, er lengi heldur fegurð sinni, sýnir þó að lyktum að ellin nálgast. En eins svipgóður og ástúðlegur var hann í mínum augum eins og fyr.

Hann heilsaði mjer vingjarnlega, hjartanlega og næstum því ástúðlega; og þegar við höfðum talazt við stundarkorn vorum við jafnkunnugir eins og áður; og oss fannst að við hefðum aldrei skilið síðan við vorum báðir á ferð á Vallandi. Þegar jeg klæddist og gat jeg þess að farangur minn kæmi á eptir, spurði hann mig, hvort jeg vildi ekki þangað til, eða eins lengi og mjer sýndist, bera ungverskan búnað. Jeg fjellst á það, og fjekk þegar fötin, og lofaði hann að jeg skyldi fá til skiptanna næstu dagana. Þegar við komum út til vinnumannanna, sem eins voru búnir, var það auðsjeð að þeim líkaði búningur vor allvel, og leiddu þeir fram hesta, og riðum við nú út okkur til skemmtunar í morgunblíðunni

Við riðum til og frá um landareign majórsins. Hann sýndi mjer allt, og þegar hann fann fólk að verki, skipaði hann fyrir verkum, og hældi þeim sem vel höfðu unnið. Trjágarðurinn sem við fyrst riðum gegnum var mjög fagur, vel girtur, lagðir vegir um hann og öllu haldið þrifalega. Þegar við komum út á grasekrurnar, gekk dökkgrænt grasið í öldum í morgunblænum. Hvergi hefi jeg sjeð annan eins grasvöxt nema í Englandi; þar er grasið þjettara og mýkra, en þetta virtist mjer þó vöxtuglegra og meira magnað af sólarhita. Við riðum í kringum trjágarðinn upp á hæð sem lá út á heiðina. Á hæðinni var vínviður plantaður, og á milli sá maður eins og á Marosheli hin hvítu smáhús þeirra er gættu vínviðarins. Þegar við komum út á heiðina sáum við nautahjörð hans. Var hún á dreif, mikill fjöldi svo ekki sá yfir. Þegar við höfðum riðið þaðan tímakorn, komum við þar sem fjenaður hans var og hestastóð. Þegar við riðum heimleiðis aptur eptir heiðinni, benti hann mjer á svarta rönd er langt í vestri lág eptir grárri heiðinni. „Þarna,“ sagði hann, „liggur Marosheli þar sem þjer fenguð hestinn í gær.

Við riðum annnan veg aptur heimleiðis, og á þeirri leið sýndi hann mjer aldingarða sína og jurtabaðstofur. Áður en við komum að þeim, riðum við fram hjá heiðarparti nokkrum, er sýndist mjög óálitlegur til ræktunar og var þar fjöldi fólks við vinnu. „Spurði jeg hvað þetta fólk starfaði, og sagði hann að það væru húsgangar og beiningamenn, er hann hefði fengið til að vinna fyrir sig með því að lofa þeim borgun fyrir dag hvern út í hönd. Þeir voru að skera fram mýrarflóa, og leggja veg yfir hann.

Þegar við komum heim um miðdegið borðuðum við ásamt öllu heimafólkinu undir nokkurs konar svölum við húsið. Þar var þá kominn og sat að borði með oss unglingur svo afbragðfríður að jeg hafði varla sjeð hans líka. Hann kom með brjef úr nágrenninu og reið burt að loknum dagverði, og var majórinn honum svo blíður sem hann væri barn hans. Um kvöldið hjeldum við kyrru fyrir.

Jeg ásetti mjer þetta kvöld að spyrja majórinn næsta dag, hvað það mark og mið væri, sem hann hefði nú fundið, og getið um í brjefinu til

mín, er hjeldi honum alla æfi heima á fósturlandi sínu.

Daginn eptir vakti hann mig fyrir sólarupprkomu og spurði mig, hvort jeg vildi fara minna ferða um daginn eða vera með sjer. Jeg gæti gjört hvort sem jeg vildi. Ef að jeg vildi taka þátt í og sjá hvað framfæri á heimilinu, skyldi jeg fara á fætur þegar hringt væri morgunklukkunni, og snæða árbita með sjer og öðru heimilisfólki. En ef mjer einhvern dag litist annað, þá hefði hann skipað hjúum sínum, ef hann sjálfur væri ekki við staddur að söðla mjer hest og sjá mjer fyrir öllu er jeg beiddist. Jeg þakkaði honum fyrir vináttu hans og gestrisni, en kvaðst fyrst um sinn helzt vilja vera með honum.

Jeg stökk á fætur og klæddi mig og gekk til borðhalds. Vinnufólkið hafði þegar snætt, og fór hver til vinnu sinnar. Majórinn beið þangað til jeg hafði lokið máltíð; og nú var komið með hestana. Jeg spurði ekki hvort hann ætlaði en reið með honum; kvaðst hann vilja vinna það er hann þyrfti um daginn og gæti jeg horft á, ef mjer leiddist það ekki.

Við komum á stóra engjasljettu, og hin fagra ungverska hryssa er majórinn reið, þaut og dansaði með hann um grænar grundirnar. Þar var verið að slá og sæta. Majórinn fór af baki og skoðaði heyið í bólstrunum, og sögðu húskarlar að aka mætti miklu af því heim seinni hlut dagsins. Majórinn sagði fyrir, að undir eins og búið væri að hirða yrði að grafa skurði og veita af vatninu þar sem það væri ofmikið og hvernig það skyldi gjöra.

Það var nú ekki langt frá engjunum og út á heiðina og riðum við þangað. Hestarnir, sem voru afbragð að flýti, báru okkur svo skjótt yfir, að slotið og trjágarðurinn lá eptir litla stund sem dimmur blettur í fjarska. Þar fundum við nautamenn hans. Kofar þeirra voru ekki annað en mjóar stengur reistar upp og þakið yfir. Þar var eldur á glæðum og kint greinum og rótum af eini, er vex á heiðinni, og öðrum lyngtegundum. Nautamenn voru að matreiðslu. Því þeir átu dagverð fyrir hádegi. Þeir voru svartir á brún og brá og þyrptust þeir í skitnum, hvítum brókum og skyrtunni kringum majórinn og svöruðu spurningum hans; en loðkápurnar lágu kringum kofana, því þeir höfðu fleygt þeim í hádegishitanum. Aðrir, sem voru langt í burtu, en höfðu sjeð til ferða hans, komu þeytandi á litlum og ljótum hestum, og riðu berbakt og við einteyming. Þeir flykkust nú líka kringum majórinn og hann talaði við þá ekki einungis um störf þeirra heldur líka um hitt og þetta annað. Hann þekkti nöfn þeirra allra, og var svo vingjarnlegur við þá eins og hann væri jafningi þeirra, enda var auðsjeð að þessir hálfviltu menn elskuðu hann eins og föður.

Hjer var nautpeningur allt sumarið úti eins og í fjallbyggðum hjá oss í Þýzkalandi. Þetta var stórhyrnt nautakyn, sem þar á heima í landi, og gengur þar í heiðarhögum. Nautahirðarnir eru því einnig lengstum úti og hafa ekki önnur hýsi en kofa þá er áður er getið.

„Verið þið sæl börnin góð!“ sagði majórinn þegar við riðum af stað, jeg vitja yðar bráðum aptur, og þegar grannar mínir koma til mín næst ætla jeg að koma til miðdagsverðar hingað á heiðina og borða hjá yður.“

Þetta sagði hann á ungversku og þýddi mjer það á eptir, eptir beiðni minni.

Við stefndum nú aptur heim að slotinu, því það var farið að líða að dagverðartíma. Seinni part dagsins var jeg heima við; en jeg hafði nú sjeð nóg svo jeg þurfti ekki að spyrja um ætlun hans og lífsáform, eins og jeg hafði ætlað mjer daginn áður.

Næstu dagana sá jeg sauðfjáreign hans og hestastóðin öll. Allar þessar búskapargreinir, nautpenings-, hesta- og fjáraflinn voru út af fyrir, svo að sjerstaklega var reiknað hve miklu kostað var til hvers fyrir sig, og hversu mikið það gaf af sjer. Eins var um alla jarðarrækt. Þegar majórinn tók heiðapart fyrir til að skera fram og rækta til akurlendis, lánaði hann peninga til þess úr sjóðum hinna búskapargreinanna, en allt var það goldið aptur þegar hinn ræktaði partur tók að gefa arð af sjer. Þannig studdi allt hvað annað, enda var framför mikil á jörðum hans í öllum greinum búskaparins. Mig furðaði stórlega á því, hve mikla alúð hann, sem í fyrra skipti, þegar jeg þekkti hann, sýndist sokkinn niður í vísindin, lagði á þessi bændastörf.

Eitt sinn er við töluðum um þetta, sagði majórinn: „það sem fyrst stendur til bóta í hverju landi er jarðvegurinn.' Land mitt hefur forna stjórnarskipun og sögu, en þó er hjer enn fjarska mikið ógjört. Þetta stóra og víðáttumikla land er sannur dýrgripur, en hann vantar allan búnaðinn. Stefna heimsins nú á tímum er að keppast eptir og efla það sem nytsamt er. Fegurð og frjófsemi þessa lands er mikil, en að hvorttveggju þarf vel að hlynna. Þjer hafið sjeð það a leiðinni til mín. Allar þessar svörtu heiðar eru bezti jarðvegur til akraræktunar. Í grýttu hæðunum sem liggja fram með bláu fjöllunum í norðri, sefur hið ljúffenga vín, þar vantar einungis að planta vínviðinn, og þar eru málmar í jörðu. Tvær stórar elfur liggja gegnum land vort, en loptið er enn kyrrt yfir þeim, þar vantar skipagrúa, er ljetti vöruflutningana. Síðan jeg settist að hjá þjóð minni, klæðist þjóðbúningi og fylgi háttum hennar og hefi áunnið mjer ást og virðingu landa minna, finnst mjer að jeg hafi hlotið sælu þá, er jeg lengi leitaði áður að í útlöndum.“

„Fremst og fegurst,“ hugsaði jeg, „er ætlunarverk sveitabóndans, þegar hann kann vel að gegna því. Hin blíða, ástríðulausa sambúð hans við náttúruna er svo margbrotin og þó einföld að það líkist mest sögninni um ódáinsakur“.

Þó að majórinn væri jafnaðarlega glaður og kátur, gat jeg þó, eptir því sem jeg var lengur hjá honum, ekki annað en ætlað, að hann byggi yfir einhverjum fornum harmi, en hann minntist svo lítið á fyrri hlut æfi sinnar að ekki var hægt að ráða í það, enda spurði jeg hann aldrei um þess konar. Við mig var hann ætíð jafnglaður, hreinn og beinn og

fölskvalaus. A skrifborðinu í herbergi hans stóð lítil mynd af ungri stúlku um tvítugt. En mynd þessi var ekki af fríðum kvennmanni heldur ófríðum. Hún var dökk yfirlitum og ennislögunin einstaklega ófríð, en kjarkmikill var allur svipur hennar. Augun voru snör og hörð og lýstu stórri og þrekmikilli lund. Einlægt varð jeg meir og meir sannfærður um, að þessi kona hefði haft einhver áhrif á fyrri hlut æfi hans. En ekki spurði jeg neitt um það, einkum sökum þess, að það sýndi nógsamlega vináttu hans og traust til mín, að jeg mátti koma til hans í þetta herbergi, því enginn annar ókunnugur kom þangað.

(Framhaldið síðar).

---



## DAÐI NÍELSSON fróði

---

Hjer sefur Daði í heilagri ró,
hlotinn er skaði að sá maður dó;
Sál hans á blaði með fjörvængjum fló,
fróðmála-raðir í gegn um snjó.

Kynrætur manna frá grundvelli gróf,
gjörði tímanna eitt sögulegt próf.
Veiði sagnanna úr hyldýpi hóf,
hreistur lyganna svo af skóf.

Úr rammsnúnum böndum hann ritfræði sleit
með rannsóknum vöndum í djúpsærri leit.
Stílvopn í höndum á stafskjöldu beit;
Stefs hvein í röndum við góms hneit.

Áns duggu fleytti á Óðhræris sjó,
öflugt við streitti í nauðbeit þá sló.
Margt hugann þreytti, þar mótblástur hló,
málsnilldar beitti í höfn þó.

Göngumanns larfa um lífsgötur bar,
lítt skeitti farfa þeim hjegómi var.
Æðri til starfa hans önd fram úr skar
ættfræðis þarfa og snilldar.

Fram hjelt ótrauður um forlaga slóð,
fannst hvergi gnauða um örbyrgð á lóð.
Fjárafla snauður bar fullþungan sjóð
fátækt til dauða þó út stóð.

Ráðvandur bæði og rjettorður var,
rýrleg heims gæði þó sjálfur upp skar.
Trú, þolinmæði og tryggt sinnisfar
í tötrugum klæðum hann innst bar.

Úti helfrosinn hann enti sitt fjör
í neyðarvosi og fátæks manns spjör.
Sál hærra kosin í friðlanda för
frelsaðist, losuð við þung kjör.

Síst mátti dvelja því dagsþrot að bar,
dimmviðri jelja um sálar sló far.
Knappt mun að velja um kostina þar
kallandi Helja sem skikkar.

Daði hinn fróði leið dauða slag hart.
Daði — hvers hróður er Snæhólma skart —
Daði, sá þjóðar mál dimmt gjörði bjart.
Daði sem ljóðaði, stef margt.

**Hjálmar Jónsson.**

---

# Auglýsingar.

Nýlega hafa fundizt peningar, nálægt Tungunesi, og hefur þeim verið lýst á kirkjufundi að Svínavatni, og enginn viljað leiða sig að þeim; þess vegna bið jeg yður herra ritstjóri! að auglýsa í blaði yðar „Norðra“ að hver sem getur sannað tjeða peninga sína eign, má vitja þeirra móti borgun fyrir þessa auglýsingu, til undirskrifaðs.

Tungunesi 18. dag Nóvemberm. 1858.

E. Pálmason.

Allir, sem enn eiga óborgað andvirði Norðra þessa árs, bið jeg að koma því til mín með fyrstu ferðum og fyrir nýár; því þá á jeg að standa full skil á öllum kostnaði til hans.

Akureyri 10. desember 1858.

Sv. Sk.

☞ Prentsmiðjunefndin hefur allopt orðið þess vör hjá alþýðu, að henni þætti letrið á bókum þeim, sem hjer eru prentaðar, of smátt og ekki nógu álitlegt, þegar prenta skyldi guðsorðabækur, eða aðrar sem vel þyrfti að vanda. Nefndin hefur nú gjört sitt til að bæta úr þessu, og hefur því fengið til prentsmiðjunnar stórt og fallegt nýtt letur, sem þessi auglýsing er sett með, og vonar því nefndin, að þeir, er eitthvað þvílíkt vilja láta prenta, leiti til hennar

Ný upptekið fjármark,
Tvístýft apt. biti fr. hægra miðhlutað í heilt vinstra
brennimark J Br
Jónathan Brandsson Klömbrum Helgastaðahrepp.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár — 24. Desember. — 32 33.

## Utdráttur

úr skýrslu um búnaðar ástand í Norður- og Austuramtinu í fardögum 1858, hvað gripi og fjenað snertir.

| Nöfn sýslnanna. | Kýr og kefldar kvígur. | Griðungar og geldneyti eldri en veturgömul. | Veturgamall nautpeningur. | Ær með lömbum. | Ær geldar. | Sauðir og hrútar eldri en veturgamlir. | Gemlingar. | Geitfje vetur. gamalt og eldra. | Hestar og hryssur 4 vetra og eldri. | Trippi veturgömul til 3 vetra. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Húnavatns . . . . . . | 1,458 | 242 | 452 | 22,460 | 5,027 | 2.932 | 10,389 | 3 | 3,106 | 1,247 |
| Skagafjarðar . . . . . | 1,573 | 117 | 249 | 16,504 | 3,025 | 6,326 | 9,053 | 1 | 2,327 | 1,116 |
| Eyjafjarðar . . . . . . | 1.604 | 102 | 231 | 17,545 | 1.391 | 5,711 | 8,736 | 29 | 1,845 | 646 |
| Þingeyjar . . . . . . . | 1,016 | 62 | 138 | 22,254 | 2,875 | 10,934 | 14,031 | 723 | 2,056 | 309 |
| Norðurmúla . . . . . . | 844 | 93 | 115 | 19 837 | 4,070 | 12,963 | 16,245 | 4 | 1,628 | 183 |
| Suðurmúla . . . . . . | 829 | 125 | 118 | 10,706 | 3,489 | 8,283 | 8,525 | „ | 1,082 | 139 |
| Samtals . . | 7,324 | 741 | 1,303 | 109,306 | 19,877 | 47,149 | 66,979 | 70 | 12,044 | 3,640 |

Skrifstofu Norður- og Austuramtsins 7. desember 1858.

**Havstein.**

**Athugagr.** Af þessari opinberu skýrslu, sem greinilega lýsir búnaðarástandinu í Norður- og Austurumdæminu hvað gripi og fjenað snertir í næstliðnum fardögum, geta nú allir óvilhallir menn sjeð, hver árangur orðið hefur af hinum svo nefnda vægðarlausa og takmarkalausa niðurskurði, er fjárböðlarnir norðanlands hafa haldið fram. Það verður þá bersýnilega ofan á, að Húnavatnssýsla, verður hin þriðja í röðinni af Norður- og Austuramtssýslunum að sauðfjárfjölda, því hún hefur í næstliðnum fardögum haft 40,808 fjár, þar sem Skagafjarðarsýsla hefur ekki nema 34,908, Eyjafjarðar 33,383 og Suðurmúla 31,003; svo að það eru ekki nema tvær sýslurnar Þingeyjarsýsla með 50,094 og Norðurmúlasýsla með 53,115, sem eru fjárfleiri. Við þetta bætist að Húnavatnssýsla er sú þriðja í röðinni með kýrtölu, og hefur langflest geldneyti og vetrunga af öllum sýslum í amtinu, og langmest af hestum og trippum. Þegar gætt er nú að því, að Húnvetningum er lofað í skaðabætur 67,000 rd., þá ætlum vjer óhætt að fullyrða að búskaparástand þeirra sje, eptir því sem fremst verður sjeð, eins gott og hverra hinna amtsbúanna, og að Sunnlendingar mættu þakka fyrir, ef nokkur af kláðasýslum þeirra væri eins vel á vegi stödd.

Ritstjórinn

Kristján óðalsbóndi Jónsson í Stóradal hefur í 35—36. blaði þjóðólfs, þ. á. skorað á mig ritstjóra Norðra, að færa fullar sönnur á það, er jeg hafði sagt um hann í marsmánaðar blaði Norðra þ. á., að hann hefði svikið fullkomið loforð sitt að skera sauði sína, og strokið með þá suður yfir fjöll, ella skuli jeg vera minni maður fyrir þessi orð mín.

Jeg verð nú reyndar að lýsa því yfir, að jeg álít mig enga skyldu hafa til að svara þessari áskorun; því ef að herra Kristján áleit sig ranglega fyrir sök hafðan, var honum frjálst að sækja mig að lögum, og fá orð mín dæmd ómerk, ef hann treysti sjer til þess; því vita mátti hann, að ósannaður framburður sjálfs hans eða auglýsing í þjóðólfi, sem engin rök voru færð fyrir, gat ekki borið hann undan sök, eða gjört mig að ósanninda manni.

En af því að mjer er það ekki nóg að segja hið sannasta um hvern hlut er jeg veit, heldur vil líka færa ástæður fyrir máli mínu, svo að allir sjái, að jeg vilji engum rangt gjöra, læt jeg hjer fylgja vottorð herra amtmanns Havsteins um málið; og vona jeg að hver og einn sjái af því, að jeg hafi ekki kveðið í áminnstu blaði Norðra of hart að gjörðum Kristjáns bónda í Stóradal. Sv. Sk.

„þegar Hólaness fundurinn var haldinn í fyrra vetur, lofaði Kristján bóndi Jónsson á Stóradal mjer undirskrifuðum amtmanni að farga undandráttarlaust sauðum sínum og gemlingum, og skyldi skurðinum vera lokið, ef hann mögulega gæti, fyrir sumarmál; en það, sem þá lifði eptir, skyldi geymast við hús og hey unz öllu væri lógað, og er mjer líka kunnugt, að Kristján, um sama leyti, lofaði einnig ýmsum öðrum að tregðast ekki framar við að skera geldfje sitt; en á undan Hólaness fundinum hafði, að tilhlutun minni, fyrir rjetti verið lýst yfir því banni, að Kristján mætti hvorki reka nje flytja nokkuð af geldfje sínu burt frá heimili sínu Stóradal á aðra staði utan eða innan sýslu, aðra í landsfjórðunga eða á fjöll upp.

þetta votta jeg hjermeð í embættis nafni.

Friðriksgáfu 26. október 1858.

**Havstein.**

**(L. S.)**

(Aðsent).

það var að morgni hins 31. dags októberm. 1858, sem var annar sunnudagur í vetri — þá miklu asa hlákuna gjörði hjer, sem fyrst vann þar á snjókýnngjuna, er hlóð niður í byrjun mánaðarins —, að bóndinn Jóhann Hallsson á Skriðulandi í Kolbeinsdal kom út ný staðinn af rekkju; sá hann þá fyrst, að stór skriða tók sig upp í fjallinu langt fyrir norðan bæinn og stefndi á nokkur hross hans; hörfuðu þá sum þeirra undan, en tvö stóðu kyrr, og klauf skriðan sig þar, svo þau sakaði ekki; hljóp hann þegar á stað og hlaut að vaða yfir forarflóa, þar grundirnar. sökum skriðuhlaupanna, voru orðnar ófærar, náði hann þessum tveimur hrossum, og að vörmu spori fylltist eyðan, þar sem þau staðið höfðu; reið hann þegar heimleiðis með hin tömdu, en þá fjell stór skriða norðan til á túnið. þegar heim kom, rak hann ærnar út úr fjárhúsunum suður á vallarhornið neðsta, sem varðist um daginn skriðunum. Í sama bili tók sig upp afarmikil skriða sunnan bæjarins, stefndi hún nálægt þremur hrossum sem þar voru; flytti hann sjer þangað og rak hrossin frá; en í sama vetfangi náði rennslið úr skriðunni hælunum á fararskjóta hans; sneri hann þá aptur til bæjarins; hljóp þá ram skriða, sem stefndi á sjálfan bæinn, voru þá börnin og fólkið klætt, og komið út úr bænum suður fyrir hlaðið; færði hann það allt í fjárhús suður og niður á vallargarðinn. þessi skriða tók helftina af ærhúsaheyinu, skyldi eptir tvö stór björg í tóptinni og hið þriðja í tóptardyrunum, og bratt heyinu sem eptir var, ásamt veggnum fram á húsin. Sama skriðan klauf sig um fjósið, sleit upp tvær hurðir og hálffyllti það með aur og leðju, svo með öllu var óaðgengilegt, að ná þaðan nautgripunum. Bóndinn hafði nú snúið inn í bæinn, að ná mjólk handa börnum sínum, því enginn hafði nokkurs neytt; en þegar hann var á leiðinni aptur til hússins, sem fólkið var flúið í, sá hann hvar einhver hin stærsta skriðan tók sig upp í fjallinu, og stefndi á það húsið og fleiri hús er stóðu á túninu; kallaði hann þá, að menn skyldu forða sjer lengra suður á grundina, er þó ekki hefði komið að haldi, ef skriðan hefði haldið áfram stefnu sinni; tók hún fyrst tvö hús, sem ofar stóðu með heyinu og 45 sauðkindum sem inni voru, og tvö hesthús með heyinu, sem við þau var, en hallaði sjer síðan til norðurs og náði sjálfum bænum; umturnaði hún í einu vetfangi baðstofu ný byggðri, smiðju sem stóð langt frá búri, eldhúsi og bæjargöngum,; snjeri þá Jóhann aptur heimleiðis, og sá þá, að fyrir neðan stóran kálgarð er stóð framm undan bænum, flutu nokkur sængurföt sem hann náði. Fólkið hafði nú leitað sjer skýlis sunnan og norðanvert við grundirnar í litlu grjótbyrgi, því bæði var stormur og rigning. Bóndinn fór nú þegar að ná hestum, sem hann var búinn að tína saman, og reyna Kolbeinsdalsá, sem nú var í svo ægilegum vexti, að engum mundi hafa til hugar komið yfir hana að fara, nema í ítrustu dauðans neyð sem hjer var þá á ferðum; gat hann náð reiðtýgjum úr úti-

skemmu, sem uppi stóð að hálfu leyti, og tók nú að flytja fólkið yfir ána (er var 11 að tölu með honum sjálfum, þar af 8 börn yngri og eldri), sem með guðs hjálp lukkaðist. þó ólíklegt væri fyrir manna sjónum. Geta má þess, að fyrir því að skriðurnar hlupu beggja megin bæjarins, var ekki hælis að leita þeim megin í dalnum; en á Fjalli sem er næsti bær hinu megin. (hvar manneskjur þær sem fyrst komust yfir ána höfðu leitað sjer hælis), tóku skriður að hlaupa fram, þegar áleið daginn, og um kvöldið hljóp ein þeirra, býsna breið ofan á túnið milli fjóss og bæjar, svo konan þar flúði um aptaninn með 5 yngstu börnin að Brekkukoti í Hjaltadal en bóndinn hafðist við heima með elzta sveininn; hjer voru því engin önnur úrræði fyrir Jóhann, en að leita Hjaltadalsins og komst hann með allar manneskjurnar lífs og heilar að Víðirnesi sama kvöldið, en þá var Víðirnessáin ófær, svo ekki varð komizt til Hóla. Daginn eptir fór Jóhann ásamt fleirum mönnum yfir til Skriðulands að leita nautgripanna; fjósið stóð að sönnu, en næstum því grafið í aurbleytu svo brjóta varð stafninn, til þess gripunum yrði náð; stóðu kýrnar 4 talsins í kvið í aurbleytunni náðust samt óskemmdar ásamt tvelmur vetrungs-kvígum og nauti, sem þá höfðu hvorki fengið fóður nje vatn í þrjú mál, en það hafði hlíft töðuheyinu, að það var fyrir ofan, svo skriðan hafði þar klofizt. þannig týndist með öllu matur sá, sem í búrinu var, ásamt öllum búsgögnum; úr eldhúsinu fundust að sönnu tveir pottar, en skinn, 2 kistur og með þeim það sem til var af grjónum, rúgi, kaffi, sykri o. fl. týndist gjörsamlega Með smiðjunni fórust reipi og reiskapur allur, orf, ljáir, hrífur, hestajárn, kláfar, krókar og ýmislegt annað, auk áður talinna húsa, svo skaði sá allur sem varð, bæði á dauðu og lifandi nemur ærið miklu, ef metinn yrði, þó þyngst fyrir fjölskyldumann að sviptast hagkvæmu jarðnæði og standa uppi húsvilltur, hver eptirköst, jafnvel húsbruni ekki hefur, nema í bráð.

þessi atburður er ritaður eptir frá sögn Jóhanns sjálfs og konu hans, samt margra sjónarvitna, sem bæði störfuðu að leitinni í skriðunum, samt hey- og nautgripa-flutningi til Hóla, hvar hjónin ásamt flestum börnunum og barnfóstrunni munu njóta skýlis í vetur.

Staddur á Hólum 29. dag nóvember 1858.

Th. Thómasson.

---

(Aðsent).

Jafnvel þó okkur undirskrifuðum dytti í hug, þá við lásum greinina í 6. árgangi Norðra, bls, 83, að rjettast væri að virða hana ekki svars, þykir okkur samt í mörgu tilliti nauðsýnlegt, að láta almenning vita hið sanna, um meðferð okkar á þar umræddu sauðum, og einkum ritstjóra Norðra, svo hann vari sig síðar á, að setja í blað sitt þann ómerkilega frjettaburð, eins og hann hefur gjört, er orðið getur til að draga þær nauðsýnlegu framkvæmdir úr mönnum í tilliti til kláðamálsins, og trafka með því yfirvaldaskipunum, eins og nefnd grein sýnist að miða til.

það er kunnugt. að Norður- og Austuramtið hefur með brjefi af 7. júní þ. á. mælt svo fyrir, að verðir væru settir hjer á vesturheiðunum næstliðið sumar, með því að passa í flokkum þá eptir lifandi sauði og gemlinga, til að hindra framrás sunnlenzka fjársins hjer norður eptir, og með öðru brjefi af sama dato boðið þeim varðmönnum, er skipaðir yrðu til að vakta og hreinsa heiðarlöndin, að drepa tafarlaust hverja þá kind, er innan takmarka Norður- og Austuramtsins fyrir þeim verða kynni úr kláðugu sýslunum á Suður- og Vesturlandi; og sama dag aðvarað hina amtmennina um þetta mál; og var þá af viðkomandi sýslumanni, varðmönnunum, ásamt öðrum vissum mönnum, gjört að skyldu, að fylgja trúlega þessum fyrirskipunum amtsins.

Nú var þessu yfirvalda boði vel og vandlega hlýtt, og fundust engar kindur að sunnan utan 2, fyrr en þann 5. ágúst að sást af yfirvarðmanninum á Holtavörðuheiði, Ögmundi Bjarnasyni, sauðahópur tölverðan veg fyrir norðan fjörðunga mótin; en af því hann ímyndaði sjer, að sauðir þessir væru frá næstu varðmönnum, rak hann þá ofan til þeirra, án þess þó að láta þá koma saman við fje þeirra. Varð þess þá vís, að sauðirnir voru ekki frá varðmönnum

Sá hann þá ekki annað ráð, en reka þá ofan að Óspaksstöðum, og þá sást, að sauðir þessir — sem voru 42 að tölu — voru allir saman með fjármarki hreppst. Björns í Hjarðarholti í Mýrasýslu, hver skeytingar lítið ljet þá ganga hvar vildu. þvert á móti yfirvalda boði. Var því mjer Th. Bjarnasyni — sem hreppstjóra í Staðarhrepp, og mjer D. Jónssyni sem yfir umsjónarmanni yfir verðinum, og yfir nákvæmri hreinsun á heiðunum norðan til — gefið þetta til kynna, til frekari ráðstöfunar; fannst okkur þá skylt, að hlýða boði viðkomandi yfirvalda með því að drepa sauðina; en þar eð okkur voru engar reglur gefnar fyrir því, hvernig slíkt fje skyldi meðhöndlast, aðrar en þær að drepa það tafarlaust, þá til þess, að ein hverjir fjármunir gæti orðið úr þeim, sáum við ekki annað ráð en selja þá við opinbert uppboð sem annað óskilafje; var því uppboðið tafarlaust auglýst um allan Staðarhrepp og nokkurn hluta Bæjarhrepps, og mættu margir við uppboðið, en vegna kringumstæða mátti ekki í uppboðsskilmálunum kaupendum leyfast að reka sauðina af uppboðsstaðnum, og líka þess vegna, að þeir voru svo afleitlega rýrir, ullar- og mörlausir, vildu því þeir menn sem lengra voru frá, varla gefa nokkurt verð fyrir þá; en þeir sem næstir voru, vildu að eins gefa hjerumbil 1 rd. 48 sk. fyrir hvern sauð að meðaltali, og er hægt að sanna, að þetta urðu engin happakaup. Að þessu búnu, var af ótta fyrir, að fleira sunnan fje kynni að streyma hjer norður — jafnvel þó nýlega væri búið að leita heiðarnar — vandlega leitað að nýju, og fundust þá 4 sauðir með sama marki og þeir fyrri, sem voru seldir fyrir líkt verð.

Að öllu þessu að gættu, vonum við að allir

sanngjarnir menn geti sjeð, hvort hjer á við samlíking sú, sem herra ritstjórinn leyfir sjer að setja í greinina, þar sem hann minnist á aðferð okkar um sauðasöluna. Nú viljum við spyrja nefndan herra að, hvað mikið það hæfilega verð, sem honum þykir, átti að vera, eða hvernig áttum við á uppboðsþingi að kúga menn til að gefa meira fyrir þá, en þeir voru verðir? Annars finnst okkur, að herra ritstjóranum sje hægra að hlaupa eptir ósönnu slaðri og setja það í blað sitt, mönnum til óvirðingar, heldur en okkur, sem búum hjer á fjórðungamótum, að varna útbreiðslu fjárkláðans, svo að hann og hans líkar ekki geti út á sett.

Svo að herra ritstjórinn geti látið söguna um hjer nefnda sauðasölu okkar koma rjett fyrir almennings augu, viljum við biðja hann, að taka hana það fyrsta í blað sitt Norðra.

Staddir á Fallandastöðum 8. dag desember 1858.

Th. Bjarnason. Ð. Jónsson.

---

# Frjettir

**Útlendar:** Eptir langa bið kom sunnanpósturinn loksins 16. þ. m. En þó að hann færði oss blöðin dönsku frá því í september og til 8. nóvember, er þó lítið á þeim að græða, enda höfum vjer ekki enn getað lesið þau nema lauslega. Í Danmörku hefur árferðið verið hið bezta, og uppskera á flestum korntegundum töluvert betri en í meðalári, svo korn var að lækka í verði og seldist þó mjög dræmt, því kaupendur vildu bíða byrjar, því þeir hafa vonazt eptir að það fjelli enn í verði. Friður er nú sem stendur um allan heim, nema á Austur-Indlandi, en þó búast Englendingar við, að þeir muni geta sefað þar uppreistina í vetur að fullu og öllu. Það hefur í stríði þessu sannast, hið fornkveðna að drjúgur er landherinn, því þó að Englendingar hafi unnið þar margan sigur við mikið ofurefli, þá sprettur þó upp lið gegn þeim jafnóðum. Óvild nokkur kom milli Frakka og Portúgalsmanna, og urðu Portúgalsmenn að láta undan og gjalda fje nokkuð, því Napóleon hjelt málinu fram meira með kappi en rjettindum, og vildi ekki taka milligöngu Englendinga, en hótaði hörðu, svo að Portúgalsmenn urðu að láta til sveigast.

Hið merkasta, sem við hefur borið í Danmörku er það, að Danastjórn hefur nú að lyktum látið til fulls og alls undan í þrasi því, er verið hefur milli hennar og þjóðþingisins í Frakkafurðu á Þýzkalandi út úr hertogadæmunum, og konungur vor hefur numið úr lögum alríkislögin að því leyti sem þau snerta þýzku hertogadæmin Holstein og Lauenborg, og aðrar þær seinni lagaákvarðanir, er Danir höfðu gjört, og sem misbjóða þóttu rjettindum hertogadæmanna og þjóðverska sambandsins. Ágreiningur þessi var eins og alkunnugt er svo undir kominn, að eptir að Danir höfðu fengið sefað uppreistina í hertogadæmunum, settu þeir stjórnarskipun hertogadæmanna eptir sínu eigin höfði, og gáfu svo út alríkislög, er allir hlutir ríkisins skyldu heyra undir. Var þetta gjört að fornspurðum ráðgjafaþingum hertogadæmanna og allsherjarþingi þjóðverja. En ekki hafa þjóðverjar nje hertogadæmamenn viðurkennt lög þessi, og nú mundi því ófriður hafinn að nýju, hefði ekki konungur og stjórn hans gripið til þessa bragðs, að ónýta lögin fyrir hertogadæmin. Er nú ráðgjafarþing hertogadæmanna boðað saman 3. jan. næstkomandi, og þarf varla að efa, að Holsetar fylgi þar fram máli sínu kappsamlega, og heimti fullt jafnrjetti við Dani, enda hafa þeir öruggan bakhjall þar sem þjóðverjaland er. Það er nú reyndar bágt að segja hvernig samningar muni fara milli hertogadæmanna og Danmerkur, en þó þykir það líkast að alríkislögin eigi nú ekki langan aldur ólifaðan eins og þau nú eru, og að annaðhvort hljóti stjórnin að breyta þeim töluvert, eða gefa konungi aptur einveldi, eða í þriðja lagi að veita þessum ríkishlutum fullan sambandsrjett, og er þó vansjeð, hvort hertogadæmin taka hinu síðasta boði, því þau vilja mjög, sökum tungu og þjóðernis, draga sig til þýzkalands.

Það kann mörgum að þykja gaman að heyra, hvernig gengur með segulþráðinn og stóra skipið enska Leviathan; og skulum vjer því geta þess með fáum orðum. Þráðurinn yfir Atlanshaf bilaði nokkuð skömmu eptir að hann var lagður, og ætla menn það hafi verið allskammt frá Englands ströndum, svo að hann verður varla brúkaður í vetur. En þó þarf varla að efa, að það takizt að bæta hann að sumri, svo að þetta fyrirtæki fái framgang. Ver hefur nú gengið með Leviathan, því svo illa gekk Englendingum að setja hann fram, að þeir voru að því lengi sumars, og kostaði það 80,000 pd. sterling; jók þetta svo mjög kostnaðinn, að fjelagið, sem hafði tekið sjer fyrir hendur að smíða skipið og búa það út, vildi ekki leggja meira í sölurnar, þegar búið var að koma því á flot, og hefur síðan verið að reyna að selja það, og hafa þeir

boðið Frakkakeisara það; og er á orði að hann muni taka boðinu.

**Innlendar.** Síðan að vjer gátum seinast um tíðarfar, hefur það enn mátt heita gott einlægt, þó að jarðskarpt hafi verið í sumum sveitum á jólaföstunni. Úrslit stjórnarinnar um kláðamálið, er bárust með seinasta gufuskipi verðum vjer að láta bíða næsta blaðs, sem kemur út eptir nokkra daga. En þar á móti viljum vjer nú þegar með fáum orðum lýsa ástandi þessa máls í Húnavatnssýslu.

Samkvæmt ályktunum amtsfundarins í sumar og áður gjörðum ráðstöfunum sínum, skipaði amtmaður Havstein niðurskurð á öllu fje milli Miðfjarðarár og Víðidalsár; og þegar þetta amtsbrjef kom vestur, ferðaðist kammerráð Arnesen og sýslunefndarmenn í Húnavatnssýslu vestur í sýsluna og áttu fund við bændur á Melstað, Kirkjuhvammi og Lækjamóti, og urðu þau málalok, að allir á hinu grunaða svæði milli Víðidals og Miðfjarðarár lofuðu að gjöreyða fjenaði sínum, nema Vatnsnesingum þótti ekki næg ástæða til að eyða fje sínu strax, vegna þess að allt fje úr fjallinu hafði litið ágæta vel út í haustrjettum, og öllu geldfje var búið að lóga þar nema fáeinum gimbrum; kváðust þeir vilja gangast undir að vakta fjeð, verja öllum samgöngum, og drepa það niður þar sem kláði kæmi í ljós, ef svo skyldi tiltakast, og gekk sýslunefndin að þessu, enda virtist engin þörf að halda þessu fastara fram, því Vatnsnesið er svo afskekkt, að engin teljandi hætta er að láta ærpening lifa þar, og ef kláðinn skyldi koma þar upp, eiga sveitarmenn mest í húfi, því ekki geta þeir vonazt eptir jafnríflum skaðabótum, þegar þeir hafa færzt undan að nota haustskurðinn. Úr Mýrarsýslu eru einnig hinar beztu frjettir um kláðann, og skrifar sá maður oss, sem bezt þekkir ástandið þar í sýslu, að nú sje búið að uppræta kláðann á Hvítársíðunni með niðurskurði, og að fyrirstaðan þar hafi verið svo trygg í sumar, að hvergi beri enn þá á því, að kláðinn hafi útbreiðst þar, og sjeu það ósannindi ein, er Hirðir og þjóðólfur segi um útbreiðslu hans þar. Af Suðurlandi berast fregnirnar misjafnar. Á amtsfundi er haldinn var syðra um kláðamálið 28. september voru alls 24 menn, flestir tilkvaddir af stiptamtmanni og sýslumönnum; og urðu þau málalok þar, að Rangvellingar sögðu sig úr lögum við hina Sunnlendinga með lækningar, og kváðust mundu skera, og sama var mjög á orði í efra hlut Borgarfjarðarsýslu; enda höfum vjer fengið skrifað frá áreiðanlegum manni, að kláðinn sje enn á sumum bæjum í Mosfellssveit, og sumstaðar hafi þar enn í haust verið drepnar kindur vegna kláðans. Einn bóndi í Borgarfirði sagði sama manni á suðurleið í haust, að hann hefði sett á í fyrra haust 70 fjár, en frá því og þangað til í haust hefði hann verið búinu að kosta upp á þessar 70 kindur **fimm hundruð ríkisdölum**, enda var hann farinn að trjenast upp á lækningum. Jón bóndi þórðarson á Stafholtsey, sem með frábærri umhyggju hefur varið ær sínar öllum samgöngum við annara fje, og þess vegna haldið þeim öllum, þar sem fjeð hefur drepist þrátt fyrir lækningarnar allt í kringum hann, skrifar einnig hingað, að lækningamenn sjeu einlægt að fækka þar í sýslu, enda hafi þeir orðið fyrir miklu tjóni næstl. vetur sökum meðalakaupa og vinnumissis, og af fjárfelli; og þó læknarnir hefðu fullvissað þá um, að sumarböðunin skyldi bæta úr því öllu, þá hefði sú orðið reyndin á, að fjeð hefði verið kláðugt jafnt eptir og áður. Aptur lætur hann vel yfir Mýrasýslu og aðgjörðum sýslumanns þar eins og líka má.

---

(Aðsent).

Í 26.-27. blaði Norðra þ. á bls. 104.-105. stendur grein nokkur aðsend; í grein þessari segir höfundurinn Norður- og Austuramtsbúum, er hann sjerflagi ávarpar, að þeir megi ekki ætla, að þeir 5 Húnvetningar, sem með skynsemd, áhuga og föðurlandsást hafi fylgt að fjárkláða málefninu á amtsfundinum á Akureyri í júlímánuði næstliðið sumar, hafi verið þeir einustu Húnvetningar, er kláðamálið lá þungt á hjarta, heldur hafi 4 eða 5, sem heima sátu, tekið sig til um sömu dagana og amtfundurinn stóð, og meðan hann hafi verið að útvega þeim sem öðrum fullnaðargjald fyrir fjenað þann, sem þeir af stærstu nauðum (?) hefðu eyðilagt — og átt fund með sjer, og komizt þá að þeirri niðurstöðu — því það sjeu lærðir menn — að flýja á náðir stiptamtmannsins og landlæknisins og frambera sitt bænareykelsi fyrir þeirra auglit. þar á eptir kemur höfundurinn með bænarskrá nokkra, er hann eignar þessum 4 eða 5 lærðu Húnvetningum og sem honum þykir verðugt að gjöra þjóðkunnuga; og loksins setur hann bókstafi undir bænarskrána, er hann virðist ætlast til að tákni fyrstu

bókstafina í nöfnum þessara 4 Húnvetninga, sem hafi átt að semja hana og undirskrifa; en eigi hefir höfundurinn verið svo hreinskilinn, að setja nöfnin með fullum stöfum, eða að auglýsa nafn sitt. Mun það ekki hafa verið af því, að sökin beit manninn, sú að hann vissi að hann fór hjer með ósannindi, og því viljað dyljast? því hver sem sannleika fylgir fast, feilar sjer ekki í ljósi.

Af því nú höfundurinn segir, að menn þeir, er hann eignar bænarskrána, sjeu Húnvetningar og lærðir menn, og bókstafir þeir er hann hefir sett undir hana — að undanskildum 2 hinum fyrstu — svara til hinna fyrstu bókstafa í nöfnum vorum, en engra annara lærðra manna í Húnavatnssýslu, þykjumst vjer hafa fullt tilefni til að álíta að áðurnefndri grein sje beint að okkur; og með því vjer viljum ekki þiggja þetta svonefnda bænareykelsi höfundarins, er hann í grein sinni hefir viljað rjetta að oss, finnum vjer oss knúða til að svara greininni og hrinda af oss þeim ósannindum, sem þar eru á oss borin, og lýsum því þá hjer með yfir, að það er með öllu ósatt, að vjer höfum átt nokkurn þátt í hinni umræddu bænarskrá. Vjer höfum hvorki samið hana nje undirskrifað eða leyft öðrum að rita nöfn vor undir hana eða nokkra þvílíka; eigi heldur átt neinn fund með oss eða öðrum í því skyni hvorki í júlímánuði næstliðna eða endrar nær; og það er án okkar vitundar, að nokkur slík bænarskrá hafi verið send til stiptamtmannsins eða stjórnarinnar. þess sýndist heldur ekki þörf, þó einhver hefði viljað brúka lækningar, að biðja stjórnina um leyfi til þess, því vjer vitum ekki betur en að það sje samkvæmt hennar áður auglýstum vilja að þær væru viðhafðar, og ráðum vjer þetta meðal annars af sjálfum Norðra þ. á. bls. 84, enda þótt stjórnin segist ekki vilja taka fram í fyrirskipanir, sem þegar sjeu gjörðar hjer nyrðra, þar eð amtsbúar sjeu á sama máli og yfirvöldin. En þar að auki höfum vjer aldrei haldið með lækningum, og var því eigi líklegt að vjer færum að biðja um þær; hitt er annað mál að vjer höfum ekki getað fellt oss við alla þá aðferð, er hjer hefir verið brúkuð við niðurskurðinn.

þar sem höfundurinn segir, að þessir 4 eða 5 Húnvetningar, sem hann talar um, hafi eyðilagt fjenað sinn af stærstu nauðum! þá er ljóst að þetta eru ósannindi um okkur; því einn okkar hefir ekki enn haft nokkra sauðkind undir höndum eða til umráða, annar okkar hefur átt ósjúkt fje allt til þessa dags og skar enga kind kláðans vegna fyrir amtsfundinn, en hinn þriðji skar allt sitt fje strax í fyrra vetur meðal hinna fyrstu eptir amtsboðinu, og það mjög fúslega; og sýnir þetta enn fremur hve tilgangslaust það hefði verið fyrir okkur að biðja um lækningar.

Af þessu sjáið bæði þjer, Norður- og Austuramtsbúar! og aðrir, hversu það eru einber ósannindi og lýgi, sem höfundurinn hefir sagt í nefndri grein sinni, hafi hann meint það til okkar, sem vjer verðum að álíta samkvæmt áður sögðu; en hafi það ekki verið tilætlun hans, skorum vjer á hann að auglýsa það opinberlega, vilji hann ekki heita ósannindamaður. Vjer skorum og á hann að auglýsa nafn sitt, því bæði sæmir það ekki svo digurmæltum höfðingja að standa á hurðarbaki, og líka ætti nafn hans ekki síður skilið að verða þjóðkunnugt, en bænareykelsið hans, sem hann má ske sjálfur er höfundurinn að, og hefir þótt svo dýrmætt, að hann hefur viljað láta það verða kunnugt, en eigi haft hug til að láta það birtast undir sínu nafni, því maðurinn virðist huglítill, og á það þó illa við um hann, lærðan mann, er vjer verðum að álíta hann sje eptir hans eigin ályktun, því það sjer hver maður, að hann hefir komizt að niðurstöðu, en hver er niðurstaðan sú? það má sjá af því áður sagða. En vilji nú höfundurinn sjálfur ei auglýsa nafn sitt, skorum vjer á ritstjóra Norðra að gjöra það ella verður öll ábyrgðin af grein höfundarins að lenda á honum sjálfum.

Framanskrifaðar línur óskum vjer að hinn heiðraði ritstjóri Norðra taki í blað sitt, og vonum vjer, að hann finni það skyldu sína og álíti að þær komi þar á rjettum stað[1].

Breiðabólstað og Víðidalstungu, 30. nóvember 1858

Jón Sigurðsson P. J. Vídalín J. F. Thórarensen.

---

## Brigitta

(lauslega snúin skáldsaga).

(Framhald) Nú var kominn uppskerutíminn og jeg skal aldrei gleyma hversu glaður og inndæll sá tími

---

[1]) þessa undanfærslu ofanskrifaðra heiðursmanna höfum vjer álitið skyldu vora að taka í blað vort, og álítum vjer hana fullgilda, og það gleður oss stórum, að þeir hafa þannig engan þátt átt í brjefi því sem stóð í Norðra til sunnlenzku stjórnarinnar, sem er og verður höfundi þess eða höfundum þess, hver eða hverjir sem þeir eru, til ævarandi smánar. Oss finnst og skylda vor að geta þess, að Erlendur hreppstjóri Pálmason sendi oss brjefið til inntöku í Norðra. Ritstjórinn.

var mjer. Majórinn átti um það leyti ýmsa fundi við nágranna sína, og heyrði jeg hann einu sinni halda tölu ágæta um almenn málefni Ungverja, og fjell hún flestum vel í geð, en þó voru ekki allir sammála á þessum fundi.

Smátt og smátt fjekk jeg að vita, að fjórir ríkir jarðeigendur, og þar á meðal majórinn, höfðu gengið í fjelag, að ganga undan öðrum með því af fremsta mætti að bæta jarðir sínar, og höfðu síðan fleiri breytt að dæmi þeirra. Einn af þessum fjelagsmönnum hjet Gomör og var jeg opt hjá honum og seinast fáeina daga í senn.

Þegar uppskerutíminn var liðinn, og minna var orðið að starfa, sagði majórinn einn dag við mig: „Af því að við höfum nú minna að gjöra, skulum við í næstu viku ríða yfir um til Brigittu Marosheli grannkonu minnar í kynnisför. Þar fáið þjer að kynnast við hina ágætustu konu í heimi". Tveim dögum seinna kom sonur Brigittu til Uwar, og kynntist jeg honum þá. Það var sami unglingurinn, sem hafði setið að dagverði hjá majórnum daginn eptir að jeg kom til hans, og sem mjer þótti svo afbragðs-fríður. Hann var þar allan daginn og fjell mjer hann æ betur og betur í skap; augun voru fögur og blíð, og þó að hann væri hinn efnilegasti, ljet hann þó lítið yfir sjer. Síðan að majórinn hafði talað svo vel um Brigittu og jeg hafði kynnzt, syni hennar var mjer mikil forvitni á að sjá hana sjálfa.

Lítið hafði jeg fengið að vita um fyrri æfi vinar míns, þegar jeg var hjá Gomör, er sagði mjer þó óspart það sem hann vissi um majórinn. Majórinn var ekki ættaður úr þeim hluta lands. Hann var stórættaður maður og ríkur, og hafði síðan á unga aldri verið í ferðalögum, og vissi Gomör ekki hvar hann hefði áunnið sjer majórsnafnbótina. Hann hafði aldrei á fyrri árum sínum komið til Uwar. Þangað hafði hann komið fyrir nokkrum árum, og gengið í fjelag með þeim er bæta vildu búskap í landinu. Voru þá ekki fleiri í fjelaginu en Gomör og Brigitta Marosheli. Það var þá ekki orðið neitt reglulegt fjelag, fjelagslög og fundir voru þá ekki enn sett, en þau höfðu komið sjer saman um að fara að byrja á jarðabótum, og í raun rjetti var það Brigitta sem byrjaði á þessu. Hún var framar álitin ófríð kona, og hafði því maður hennar, sem var ungur og ljettúðarsamur, og hún hafði átt á yngri árum sínum, látið hana eina og aldrei komið aptur. Um það leyti kom hún til Marosheli með barn sitt, tók að bæta þar jarðir sínar, stjórnaði öllu eins og duglegasti karlmaður, og gekk og reið í karlmannsbúningi. Hún hjelt fólki sínu til reglusemi og kostgæfni, leit yfir verk og skipaði fyrir frá morgni til kvölds. Þar, mátti sjá hvaða ávöxt vinna og kostgæfni bera, því hún hafði gjört kraptaverk á jörðum sínum sem voru þó grýttar og hrjóstrugar að landslagi. Gomör kvaðst hafa komizt í kunningskap við hana og tekið að yrkja jarðir sínar á sama hátt, og kvaðst hann hafa haft mikið gagn af því. Hann sagði, að majórinn hefði verið nokkur ár á Uwar og aldrei komið á fund Brigittu, en þá hefði hún einu sinni orðið mjög veik, og hefði hann þá riðið til hennar og læknað hana. Síðan kom hann opt til hennar og urðu þau hinir mestu vinir. Allir játuðu, að hún væri makleg hinnar beztu vináttu, en kynlegt þótti það, að majórinn hafði lagt svo sterkan hug á hana, sem var við aldur og ófríð kona, og þótti næstum ekki sjálfrátt. en öllum kom saman um það, að hann bæri mikla ást til hennar. Öllum þótti það auðsætt, að majórinn vildi gjarnan eiga Brigittu, ef hann fengi það, og að honum fjellist mikið um, að hann gat ekki fengið hennar. En af því enginn vissi neitt um mann hennar, gat ekkert skilríki fengist fyrir því, að hann væri dauður eða nein skilnaðarskrá. Þetta mælti nú mikið með Brigittu, og menn álösuðu manni hennar, er hefði skilið við hana svo ljettúðarlega, og verið þess þannig ollandi, að hún gat nú eigi fengið svo ágætan mann, er nú biðlaði til hennar.

Allt þetta sagði Gomör mjer, og hafði jeg nú allan hug á að sjá hana, og mig dreymdi hana á nóttinni, svo var áhugi minn sterkur.

---

Áður en jeg segi frá kynnisferð okkar til Marosheli, verð jeg að segja nokkuð frá fyrri æfisögu Brigittu; því annars geta menn ekki skilið það sem seinna kemur fram. Hvernig jeg varð svo gagnkunnugur viðburðum þeim er hjer skal skýrt frá, skal greint áður en jeg lýk sögunni.

Fátt hefur meiri áhrif á líf mannanna en fegurðin; hún töfrar oss alla, þó vjer getum eigi ætíð sjeð hvar í hún liggur. Hún er neisti úr alsköpnuði og liggur opt fólgin í auganu Fegurðina vantar opt í því andliti, sem er mjög reglulegt í lögun. Opt taka menn ekki eptir fegurðinni, af því hún dregur sig í hlje, eða hún hefur enn ekki borið fyrir augu þess, sem kann að meta hana rjett. En fegurðin er líka opt dýrkuð og í hávegum höfð þar sem hún er alls ekki. Hana á ekki að vanta, þegar hjartað bærist hlýtt og fjörugt, eða þar sem tvær sálir unnast; því vanti þá fegurðina, hættir hjartað að slá og hin andlega ástin deyr. En fegurðarblómið er ekki bundið við neinn vissan jarðveg; það vex eins á Horndröngum og Signárbökkum; og ef að frækorn fegurðarinnar er til, og hið innra vaxtarafl hennar, þá er eigi til neins þó reynt sje á ótal vegu að kefja það, það brýzt þó fram, þar sem, ef til vill, sízt var ætlað. Fegurðin bugar manninn svo hann fellur að fótum hennar, því ununarsöngur lífsins í hjarta mannsins sprettur af þessari lind. Sá er aumkunarverður, er ekki finnur hana eða þekkir, og sá eigi síður, er svo er gjörður, að einskis manns auga sjer neisti af henni hjá honum. Móðirin mundi jafnvel snúa auga sínu frá barninu, ef hún gæti ekki fundið hjá því neinn geisla af sól fegurðarinnar.

Svona gekk fyrir Brigittu, þegar hún var barn. Auga móðurinnar gladdist ekki af að sjá hana, þegar hún fæddist. Hún lá í fagurri og kostuglegri vöggu, svipdökk og ógeðsleg, eins og einhver óhreinn andi hefði andað á hana, Móðirin

sneri ósjálfrátt augnm sínum frá henni, og leit á tvær eldri dætur sínar engilbjartar, er ljeku á gólfi. þegar gestir komu, settu þeir ekki út á barnið en þeir hældu því heldur aldrei, en spurðu að hinum systrunum. Faðir hennar gekk opt í gegnum herbergið án þess að líta til hennar, og þegar móðirin vafði hinar dæturnar að brjósti sjer, sá hún ekki Brigittu litlu, er starði á hana með svörtu augunum smáu, eins og hún fyndi í hverju sjer væri ábótavant. þegar hún grjet var henni hjálpað, en ef hún þagði skipti enginn sjer af henni, og hún starði þá á vögguna eða hin marglitu gólftjöld. þegar hún varð stærri, sat hún út í horni, ljek að smásteinum og raulaði fyrir munni sjer einhver lög, er hún smíðaði sjer, því enginn hafði kennt henni. Stundum sat hún og ranghverfði, augunum sem voru hvöss og snör eins og drengir stundum gjöra, þegar þeir í huga sínum eru farnir að gjöra einhver frægðarverk. þegar systur hennar vildu leika sjer með henni, hratt hún þeim burtu, og þegar þá móðirin um seinan sýndi barninu elsku og meðaumkvun, tók það í faðm sinn og grjet yfir því, þá sá enginn að barnið gleddist, heldur grjet það og sleit sig úr faðmi móðurinnar. Af þessu leiddi að móðirin tók að elska hana meir, en var um leið reið henni, því hún vissi ekki, að hið litla hjarta, sem áður hafði leitað skjóls og varma móðurástarinnar, en ekki fundið hana, var nú snortið af þrjózku og kulda, og lifði út af fyrir sig. þannig varð Brigitta einlægt meir og meir einmana.

þegar að systurnar tóku að vaxa, og bera skart, þóttu föt Brigittu einlægt nógu góð, en klæðum systra hennar var einlægt breytt til þess að sýna sem bezt fegurð þeirra. þegar farið var að kenna þeim, sat hún nefst á bekk einblíndi á bókina með því sem hún átti fegurst, og það voru hin dökku augu hennar; en þegar hún var spurð, var það einatt að hún hrökk saman sem hún vaknaði af draumi og gat ekki áttað sig til að svara. En á kvöldin þegar aðrir voru við skemmtun, og enginn saknaði hennar, lá hun á gólfinu og blaðaði í bókum og landamyndum, sem systur hennar höfðu fleygt. þannig bjó hún sjer til hugmynda veröld margbrotna og sundurlausa. Áður en nokkrum datt í hug hafði hún lesið helming af bókum föður síns, og flestar þeirra voru, svo að hún skildi þær ekki nema að hálfu leyti. Opt fundust miðar þar sem hún hafði teiknað á alls konar myndir, er sýndu hugarflug hennar og hugmyndasmíði.

þegar þær systur uxu upp, var hún meðal þeirra eins og planta, sem gróðursett er í annarlegan jarðveg. Systur hennar voru fagrar og nettlegar, en hún var há og grönn og kraptaleg og næstum karlmanns í gildi að afli. þegar systur hennar vildu gamna sjer við hana, stjakaði hún hægt við þeim frá sjer, og voru þær eins og fis fyrir hendi hennar. Hún var mjög fús á að taka þátt í stritvinnu, þangað til svitinn lagaði af henni. Hljóðfæraslátt vildi hún ekki læra, en lærði að ríða djarft og drengilega, og opt lá hún í bezta búningi sínum út á víðavangi og talaði við sjálfa sig. Faðir hennar tók nú að deila á hana með þungum orðum fyrir hvað þrá og sjerlunduð hún væri, en þetta gjörði ekkert að verkum, og hún varð enn þögulari og fárænni í skapi. Eitt sinn þegar hún vildi ekki fara inn í salinn, þar sem gestir voru aðkomandi, gaf faðir hennar henni utan undir, og var hún þó orðin fullorðin; en hún gjörði ekki annað en horfði á hann tindrandi og tárlausum augum, en fór hvergi.

Hefði bara einhver haft rjettan skilning á fegurð þessarar einfara sálar? En það var enginn.

Faðir hennar bjó í höfuðborginni, og bjó mjög ríkuglega. Dætur hans hinar eldri voru nú frumvaxta, og fór mikið orð af fegurð þeirra, og margir komu til að sjá þær, og varð því æ fjölmennara í húsi hans og meiri gleði og skemmtun. Mörgum ungum manni varð heitt um hjartarætur af löngun þeirri að mega hljóta dýrgripi þá, er hús þetta geymdi, en þær hirtu ekki um það, eða voru of ungar til að skilja ásta eptirleitan hinna ungu manna. En því meiri hug lögðu þær á skemmtanir og höfðu allan hugann á nýmóðins fötum, að búa undir skemmtanir og leiki, og um þetta voru þær að hugsa og tala liðlangan daginn. þær leituðu ekki ráða til Brigittu, því hún hafði ekki mikið vit á þess konar. Stundum var hún við þessar skemmtanir. Var hún þá á víðum svörtum silkikjól, er hún sjálf hafði saumað sjer, en optast var hún í sínum herbergjum, og vissu engir hvað hún starfaði þar.

þannig liðu tvö ár.

(Framhaldið síðar).

---

**Fjármörk:**

Fjöður framan, fjöður aptan hægra, fjöður framan, fjöður aptan vinstra.

Guðjón Oddsson á Jódísarstöðum í Helgastaðahrepp.

Hvatt og gagnbitað hægra, sýlt vinstra.

Helgi Pálsson, vinnumaður í Laufási.

Stúfrifað hægra, hvatt vinstra, biti framan.

Árni Árnason, vinnumaður í Laufási.

Stýft hægra, sýlt vinstra.

Páll Pálsson á Kolgrímsstöðum í Saurbæjarhrepp.

---

**Hvaða trú hefur þú?**

Tveir óbótamenn frakkneskir voru eitt sinn dæmdir til dauða. þeim var sendur munkur að búa þá undir líflátið. Hann veik fyrst að öðrum og spurði hann: „Hvaða trú hefur þú? „Enga sagði sakamaðurinn. þá snjeri munkurinn sjer að hinum og spurði: „En — hvaða trú hefur þú?" „Hverja sem þjer viljið, herra minn!" sagði hann.

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd.; einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 5 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár — 27. Desember. — 34.

## Úrslit stjórnarinnar um kláðamálið.

Þegar löggæzluráðgjafinn í brjefi sínu í nóvember næstl. hefur skýrt frá því, hvers amtmaður Havstein, amtsfundurinn, og aðrir sýslubuar norðanlands sjerstaklega, hafi beiðzt viðvíkjandi afskiptum stjórnarinnar af kláðamálinu, segir hann, „að amtmaðurinn hafi af brjefi sínu af 25. apríl næstliðið vor fengið að vita, að stjórnin sje honum engan veginn samdóma um eðli kláðafaraldursins, og hvernig fara eigi að stemma stigu fyrir og útrýma því.“ Ráðgjafinn segir: „Stjórnin hefur í því brjefi tekið það skýlaust fram, að ef að ráðstafanir þær, sem þegar eru gjörðar í Húnavatnssýslu skyldu reynast ónógar til að stemma stigu fyrir útbreiðslu faraldursins til annara hjeraða utan þeirrar sýslu, álíti hún það óráðlegt að halda áfram öðrum eins niðurskurði og hafður hefur verið þar í sýslu, og því ljet stjórnin fastlega skora á amtsbúana að taka til nákvæmrar íhugunar, hvort ekki væri ástæða til að sleppa þessari stefnu, en reyna í þess stað lækningar; og til þess að þetta fengi framgang, bauðst stjórnin til að vera amtsbúum út um lækna og meðöl. Það er svo langt frá því, að ráðgjafanum hafi snúist hugur um nytsemi lækninganna af hinum áðurnefndu beiðslum og bænarskrám, er síðan hafa komið til stjórnarinnar, að stjórnin miklu fremur hefur fengið enn fastari sannfæringu um þetta mál af tveimur álitsskjölum um kláðamálið, er hún nýlega hefur fengið frá dýralækningaráðinu í Kaupmannahöfn; því dýralækningaráðið er mjög svo mótfallið hinum algjörða niðurskurði kláðans, vegna er hafður hefur verið í Norðurlandi, en ræður þar á móti til, að farið sje eptir þeim grundvallarreglum, sem fylgt hefur verið í Suðuramtinu, sem í öllu verulegu sjeu rjettar. Af þessu leiðir nu, að stjórnin finnur alls enga ástæðu til að fá samþykki konungs á amtsfundarfrumvarpinu, þar eð það fer í algjörlega gagnstæða stefnu við það, er stjórnin — sem hefur fyrir sjer alla menn, er vit hafa á lækningum, utanlands og innan — álítur rjett að vera; og engu fremur getur ráðgjafinn staðfest neina þvingaða niðurjöfnun á skaðabótunum fyrir fje það, sem búið var að skera í Húnavatnssýslu, því þetta er að álíta sem af frjálsum vilja framboðið, og kemur stjórninni ekki neitt við; ekki getur stjórnin heldur tekið neinn þátt í endurgjaldinu fyrir kúgildin á þjóðeignunum, þar eð skuldbindingin til að bæta hlutaðeigandi eigendum tiltölulegan part af skaða þeim, er þeir hafa beðið með því að skera niður fjenað sinn sjálfviljugir til að útrýma kláðafaraldrinu, verður einungis að hvíla á þeim á herðum, sem fyrir fram hafa lagt þar lof á, en það hefur ráðgjafinn ekki gjört; og hafi nokkur gjört það í hans nafni, liggur það í augum uppi, að þess konar loforð, sem gjört hefur verið umboðslaust, getur ekki, hvernig sem á stendur, bundið stjórnina.

Þegar nú um það er að ræða, hvað gjöra skuli, ef að kláðafaraldrið útbreiðist meira í Norður- og Austuramtinu, þá hefur nú stjórnin reyndar ekki vald til að banna fjáreigendum að halda áfram niðurskurði, þó að það væri ofur bágt (harla leiðinlegt?); en stjórnin getur ekki leyft, að embættismenn hennar gjörist oddvitar að og leitizt við að koma fram þess konar ráðstöfunum, sem stjórnin, og menn sem vit hafa á, utanlands og innan, verður að álíta rangar og eyðileggjandi fyrir landsins helztu tekjustofna; og jeg verð því að láta herra amtmanninn og sýslumenn og hreppstjóra, sem undir yður liggja, vita fullt og víst, að það er vilji ráðgjafastjórnarinnar, að þjer, þrátt fyrir yðar eigin sannfæringu um þetta mál, hættið að vinna að því, að niðurskurði sje fram haldið, en reynið þar á móti af fremsta megni að efla lækningar, eptir reglum þeim, er dýralækningaráðið hefur til sett. Í þessu skyni sendist yður hjer með ágrip af álitsskjali dýralækningaráðsins, og eigið þjer að sjá um, að það verði heyrum kunnugt, bæði með því að láta sýslumenn auglýsa það, og láta taka það í blaðið Norðra; eins og þjer verðið líka í tíma að sjá um, að fá tilhjálp við lækninga tilraunir þær, er amtsbúar skyldu vilja gjöra, frá Suðuramtinu, þar sem menn eru nú orðnir vanir meðferð sýkinnar.“

Þetta er nú svar danska ráðgjafans Simony upp á eindregnar bænir allra Norðlendinga, upp á bænarskrána frá amtsfundinum, þar sem kosnir menn úr öllu amtinu, báðu þess samhuga, að stjórnin vildi leyfa mönnum að halda áfram hinni sömu stefnu hjer Norðanlands, sem fylgt hefur verið hjer frá byrjun, og sem hefur borið þá ávöxtu, að fjárkláðinn hefur enn ekkert náð að útbreiðast yfir þær sveitir innan Húnavatnssýslu, er hann kom fyrst upp í, og því síður út fyrir

hana. Þetta er svar ráðgjafans upp á allraþegnsamlegasta bænarskrá amtsfundarins til konungs vors, og er hvergi að sjá, að málið hafi verið borið fyrir Hans Hátign, heldur hefur ráðgjafinn þótzt einhlítur til að neita þessari bæn fundarins og Norðlendinga.

Það er alkunnugt, hvað ráðgjafinn Simony áður hefur gjört í þessu máli, það er að skilja, að hann hefur ekkert gjört; heldur skipaði hann fyrst amtmönnum að búa til frumvarp og leggja fyrir alþingi, og gekk síðan fram hjá tillögum meiri hlutans á þinginu, og fól amtmönnum á hendur, að gjöra þær ráðstafanir, hver í sínu umdæmi, er þeir álitu beztar; og nú þegar kláðinn virðist næstum gjörsamlega sigraður hjer á Norðurlandi með niðurskurði, fyrir gott og kappsamlegt aðfylgi alþýðu og embættismanna, nú virðist honum hentugastur tíminn til að binda fyrir munn yfirvaldanna, og reyna með því til að vekja sundrung og flokkadrætti, svo allt sem þegar er gjört, verði eins og unnið fyrir gýg. Og á hverju byggir nú ráðgjafinn það, að taka fyrir munn öllum embættismönnum sínum, sem álíta lækningarnar árangurslausar og ónógar hjer á landi? Hann leggur sig nú reyndar ekki niður við að finna neitt að frumvarpi amtsfundarins, eður að sýna fram á, að árangurinn af norðlenzku niðurskurðarstefnunni sje enginn orðinn, og að kláðinn útbreiðist hjer þrátt fyrir niðurskurð og varnir — sem hann ætti líka bágt með að sanna —; og enginn maður skal geta sjeð það á brjefi hans, að hann hafi lesið rækilega frumvarpið og ástæður þess, því hann gengur þegjandi fram hjá öllu, sem reynslan hefur kennt mönnum í kláðamálinu; en segir einungis, að hann hafi í brjefinu í vor verið meðmæltur lækningum, og núna sje hann orðinn alveg sannfærður um ágæti þeirra af álitsskjali dýralækningaráðsins í Kaupmannahöfn, og þegar hann sje nú sjálfur sannfærður ráðgjafinn, verði þeir, embættismennirnir, sem undir hann eru gefnir, að gjöra svo vel og hafa enga aðra sannfæringu en hans. Vjer höfum nú ekki sem stendur þetta ágæta álitsskjal dýralækningaráðsins; en þó að vjer höfum ekki sjeð það nema fljótlega, er oss óhætt að fullyrða, að það lýsir sjer þar, eins og von er, að það hefur ekki ofljósa þekkingu á því, hvernig hjer er ástatt á landi, og að það virðist, að því hafi ekki verið sagt allt sem rjettast af lækningunum sunnlenzku, því annars gæti það varla sagt, að grundvallarregla sú, er fylgt hefur verið á Suðurlandi, hafi í öllu verulegu verið rjett, því það er þó kunnugra en frá þurfi að segja, að þó stiptamtmaðurinn, dr. Hjaltalín og fleiri aðrir, hafi viljað framfylgja lækningum, þá hafa þó fyrirskipanir greifans verið mjög á reiki, og opt hver ofan í aðra, eins og líka hitt er jafnkunnugt, að Sunnlendingar hafa ekki verið sammála í því efni, og að minnsta kosti jafnmargir og jafngóðir menn þar hafa haldið fram niðurskurði, eða norðlenzku grundvallarreglunni. Það má einnig sjá það á nefndu álitsskjali dýralækningaráðsins, að það hefur enga hugmynd um sóttnæmi útlenda kláðans, og neitar hinni of bersýnilegu reynslu, sem þegar er á orðin um útbreiðslu sýkinnar, því ráðið ætlar, eins og dr. Hjaltalín, að allur kláði sje hinn sami, og ræður því til að láta fje ganga á afrjettum og hafa enga verði, og miðar slíkt svo beinlínis til að setja allt landið í voða að það fellir sig sjálft. Það virðist því, þó ólíklegt sje, að bæði ráðgjafinn og dýralækningaráðið fylgi í blindni stiptamtmanni og hans ráðanautum, án þess að hugsa nokkuð um eða gæta nokkuð að því, hver árangur orðið hefur af lækningunum á annan bóginn, og af niðurskurði og vörnum á hinn bóginn, og það hefði þó þurft að koma til skoðunar; því þar sem 3 Suðurlands sýslurnar þar sem lækningamátanum hefur verið fylgt meir og minna í 3 ár, eru nú orðnar sauðlausar að kalla má, þá er þar á móti í Húnavatnssýslu, þar sem hinn grimmdarlegi niðurskurður hefur verið framkvæmdur, fjeð ekki fækkað um fjórða part, og þó segir stjórnin og dýralækningaráðið, að af honum leiði, að allt sauðfje eyðist í heilum ömtum.

Það má nú sjá af öllu framan töldu, hvað ráðgjafinn vill, og hvernig hann vill ónýta hina nauðsynlegu aðstoð embættismannanna, með því að banna þeim að fara eptir sannfæringu sinni. Og þegar gætt er að því, að sannfæring embættismanna hjer í Norður- og Austuramtinu, að stemma stigu fyrir útbreiðslu fjársýkinnar og útrýma henni með niðurskurði og vörnum, er ekki einungis sannfæring þeirra, heldur samhuga sannfæring allra amtsbúa, byggð á þeirri óræku reynslu, að þær ráðstafanir, sem gjörðar hafa verið í þessa stefnu, hafi stöðvað sýkina, og gjörsamlega tálmað útbreiðslu hennar yfir það svæði, er hún fyrst barst yfir meðan menn ekki voru orðnir nógu vissir um, að hún væri komn að sunnan; þegar gætt er að þessu, þá liggur í ráðherra brjefinu hin harðstjórnarlegasta skipun, sú skipun, að neyða embættismennina, — sem, ef þeir hlýðnast ekki, geta búist við embættismissi — til þess að ganga móti vilja alls almennings, og berjast fyrir því er þeim sjálfum og almenningi þykir rangt og skaðvænlegt fyrir land og lýð.

En þó er nú nokkur bót í máli, og hún er sú, að brjef hins sama ráðgjafa af 15. apríl í vor eð var hefur að nokkru leyti bundið hendur á honum sjálfum, svo að hann hefur ekki getað krafist meira, en að embættismennirnir hættu að fylgja fram niðurskurði, en tækju að efla lækningar, ef að svo færi sem þar var sagt, að kláðinn færi út fyrir Húnavatnssýslu, og allar hinar síðari skýrslur þaðan úr sýslu — eins og getið er í síðasta blaði Norðra — stefna að því, að engin hætta muni vera að svo muni fara. Það er enn fremur bót í máli, að þetta góða ráðherra brjef kom svo seint, að það gat ekki haft nein áhrif á samtaka og kappsamlegar tilraunir Húnvetninga að hreinsa byggðarlag sitt fyrir kláðanum á næstliðnu hausti. Vjer vonum þess vegna, að ráðherrabrjef þetta, er miðar til að spilla nauðsynlegum samtökum alþýðu og yfirvalda, hafi ekki önnur áhrif en þau, að kenna oss Íslendingum enn betur, hve mikil nauðsyn oss er á, að fá þá hluttekningu í stjórn vorri,

að velferð vor verði ekki framvegis ofurseld þess konar skipunum, og ef það kennir oss að vera áhugameiri í því efni, ber það sannarlega góðan ávöxt.

En hvernig á nú alþýða að fara að því á löglegan hátt að ónýta þetta ráðherrabrjef? það kennir ráðgjafinn oss sjálfur, er hann segir, að hann hafi ekki vald til að banna fjáreigendum að halda áfram niðurskurði þegar hann hefur ekki vald til þess, þá liggur það í augum uppi, að embættismennirnir hjer hafa það því síður, svo að alþýða getur ekki verið skyldug að gegna þeim, þegar þeir fara, eða ef að þeir fara móti sannfæringu sinni að mæla fram með lækningunum. það eru því samtök og samvinna alþýðunnar, sem getur útrýmt kláðanum hjer hjá oss, þegar embættismennirnir verða að þegja eða tala um hug sjer. þessu mega menn ekki gleyma.

Ef allt gengur hjer að sköpum í Húnavatnssýslu í vetur, og kláðinn verður þar upprættur þá virðist oss; að dýralæknar sem kæmu hingað að vori með skipsfarm af kláðameðölum, og hefðu hjerumbil 5 rd. um daginn til launa, mundu verða oss þungir á fóðrum og varla mun stjórnin útvega oss svo meðöl og lækna, að hún beri kostnaðinn sjálf, heldur mun bændum ætlað að bæta þessu á sig, og verður það ónota ábaggi. Enda sjáum vjer ekki betur, en að Norðlendingar geti andæft að borga þessum herrum, þegar þeir þurfa ekki og vilja ekki nota lækningar þeirra.

það eru enn tvö atriði í brjefi ráðherrans sem koma undarlega fyrir, og eru tekin fyrir sig fram. Hið fyrra er þegar hann kveðst eigi geta staðfest neina þvingaða niðurjöfnun á skaðabótunum fyrir fje það, sem skorið hafði verið niður í Húnavatnsýslu. þetta hafði hvorki amtmaður nje neinn það vjer vitum beðið ráðgjafann um, enda var það vitlaust og ástæðulaust, þar sem skaðabótunum var lofað af frjálsum vilja, og skaðabæturnar metnar og skipt niður á sýslurnar af mönnum, er alþýða hafði til þess kjörið á manntalsþingum. það er því hverju orði sannara, að ráðgjafanum kom þetta ekkert við; enda mun hans ekki hafa verið leitað í því efni. Hið annað atriðið er um hluttöku stjórnarinnar í að endurgjalda að tiltölu ærkúgildin á opinberum eignum, er amtsfundurinn hafði hreift, og amtmaður lofað að skrifa stjórninni um, en þetta kveðst amtmaður í brjefum sínum, er fylgja ráðgjafabrjefi þessu til sýslumanna ekki enn hafa gjört, svo ráðherrann afstingur þetta að oss virðist óþarflega fljótt. þetta lýsir annars, þó í litlu sje, hvað mikið þessi ráðgjafi vill leggja í sölurnar til þess að afstýra hinum almennu vandræðum. er leiða af kláðanum; því lítill hnekkir er það fyrir tekjur af landinu, þó að ríkissjóðurinn tæki tiltölulegan þátt í endurgjaldi kúgildanna á klaustra eignum. þetta atriði skiptir engu í sjálfu sjer, því endurgjaldið fyrir þau er lítið í samanburði við hitt allt, en það sýnir þó, hversu ráðgjafinn er smásmuglegur og kramaralegur, og gefur oss Norðlendingum þá bendingu, að svo muni í fleiru fara, og að vjer þurfum því að spila upp á vorar eigin spítur, eins og líka bezt mun verða.

þannig eru nú úrslit ráðherrans í kláðamálinu, Norðlendingar! En vjer eigum að vera orðnir því svo vanir, að stjórnin daufheyrist við bænum vorum, að oss komi það alls ekki á óvart. Vjer eigum eins í þessu og öðru, er sýnist miða til að gjöra oss yfirgang, malda í móinn hægt og sígandi; og vjer höfum því meiri rjett til að gjöra það í þessu máli sem vjer erum vissari um, að vjer höfum rjett mál að verja, og að það er búnaðarmál, er vjer kunnum miklu betur skyn á en stjórn í fjarlægu og ólíku landi. Vjer skorum því fastlega á alla málsmetandi menn í Norðurlandi, alla forgöngumenn sveita og alla alþingismenn, að þeir hver, fyrir sig, og hver í sinni stöðu, gjöri allt hvað í þeirra valdi stendur til þess að fylgja máli þessu svo fram, að óbrigðul reynsla, byggð á ásigkomulagi þessa lands, skeri úr því, en ekki hugarburðir einstakra manna og ókunnugs stjórnarherra. Málsmetandi forgöngumenn sveitanna geta það, í Húnavatnssýslu með því að hafa gott og tryggt eptirlit á, ef kláðinn móti von skyldi koma þar upp, að fá menn til þess viljuglega og fúslega að drepa fyrir hann, og í hinumsýslunum með því af fremsta megni að styðja að því, að skaðabæturnar gjaldist til Húnvetninga vel og tregðulaust; og alþingismennirnir geta það með því að útvega bænarskrár til næsta alþingis með nógum undirskriptum og vel úr garði gjörðar, er flytji mál vort Norðlendinga, og með því að fylgja þeim svo vel fram á þingi. því þó að ráðgjafinn Simony hafi nú gefið embættismönnum vorum múlband fyrir brjóstkross, þá er jöfn skylda vor og almennings að reyna til að losa múlbandið, eins og það er skylda vor að fyrirlíta brjóstkrossinn, þegar hann er ómaklegum gefinn.

---

## Alþingiskosningar;

þessir eru enn kosnir, auk þeirra sem áður er getið:

Í Reykjavík 29. september:

Alþingismaður **Halldór Kr. Friðriksson**, skólakennari. Varaþingmaður **Hermann E. Jónsson**, málaflutningsmaður.

Í Mýra og Hnappadals sýslum 30. september:

Alþingismaður **Jón** hreppstjóri **Sigurðsson** í Tandraseli. Varaþingmaður **Magnús** stúdent **Gíslason**.

Í Strandasýslu 27. september:

Alþingismaður **Ásgeir Einarson**, á Kollafjarðarnesi. Varaþingmaður **Torfi** hreppstjóri **Einarson**, bróðir hans.

Í Árness sýslu 2. nóvember;

Alþingismaður **Magnús** sáttamaður **Andresson**, Varaþingmaður **Jón** bóndi **Jónsson** á Kýlhrauni.

hana. þetta er svar ráðgjafans upp á allraþegnsamlegasta bænarskrá amtsfundarins til konungs vors, og er hvergi að sjá, að málið hafi verið borið fyrir Hans Hátign, heldur hefur ráðgjafinn þótzt einhlítur til að neita þessari bæn fundarins og Norðlendinga.

það er alkunnugt, hvað ráðgjafinn Simony áður hefur gjört í þessu máli, það er að skilja, að hann hefur ekkert gjört; heldur skipaði hann fyrst amtmönnum að búa til frumvarp og leggja fyrir alþingi, og gekk síðan fram hjá tillögum meiri hlutans á þinginu, og fól amtmönnum á hendur, að gjöra þær ráðstafanir, hver í sínu umdæmi, er þeir álitu beztar; og nú þegar kláðinn virðist næstum gjörsamlega sigraður hjer á Norðurlandi með niðurskurði, fyrir gott og kappsamlegt aðfylgi alþýðu og embættismanna, nú virðist honum hentugastur tíminn til að binda fyrir munn yfirvaldanna, og reyna með því til að vekja sundrung og flokkadrætti, svo allt sem þegar er gjört, verði eins og unnið fyrir gýg. Og á hverju byggir nú ráðgjafinn það, að taka fyrir munn öllum embættismönnum sínum, sem álíta lækningarnar árangurslausar og ónógar hjer á landi? Hann leggur sig nú reyndar ekki niður við að finna neitt að frumvarpi amtsfundarins, eður að sýna fram á, að árangurinn af norðlenzku niðurskurðarstefnunni sje enginn orðinn, og að kláðinn útbreiðist hjer þrátt fyrir niðurskurð og varnir — sem hann ætti líka bágt með að sanna —; og enginn maður skal geta sjeð það á brjefi hans, að hann hafi lesið rækilega frumvarpið og ástæður þess, því hann gengur þegjandi fram hjá öllu, sem reynslan hefur kennt mönnum í kláðamálinu; en segir einungis, að hann hafi í brjefinu í vor verið meðmæltur lækningum, og núna sje hann orðinn alveg sannfærður um ágæti þeirra af álitsskjali dýralækningaráðsins í Kaupmannahöfn, og þegar hann sje nú sjálfur sannfærður ráðgjafinn, verði þeir, embættismennirnir, sem undir hann eru gefnir, að gjöra svo vel og hafa enga aðra sannfæringu en hans. Vjer höfum nú ekki sem stendur þetta ágæta álitsskjal dýralækningaráðsins; en þó að vjer höfum ekki sjeð það nema fljótlega, er oss óhætt að fullyrða, að það lýsir sjer þar, eins og von er, að það hefur ekki ofljósa þekkingu á því, hvernig hjer er ástatt á landi, og að það virðist, að því hafi ekki verið sagt allt sem rjettast af lækningunum sunnlenzku, því annars gæti það varla sagt, að grundvallarregla sú, er fylgt hefur verið á Suðurlandi, hafi í öllu verulegu verið rjett, því það er þó kunnugra en frá þurfi að segja, að þó stiptamtmaðurinn, dr. Hjaltalín og fleiri aðrir, hafi viljað framfylgja lækningum, þá hafa þó fyrirskipanir greifans verið mjög á reiki, og opt hver ofan í aðra, eins og líka hitt er jafnkunnugt, að Sunnlendingar hafa ekki verið sammála í því efni, og að minnsta kosti jafnmargir og jafngóðir menn þar hafa haldið fram niðurskurði, eða norðlenzku grundvallarreglunni. það má einnig sjá það á nefndu álitsskjali dýralækningaráðsins, að það hefur enga hugmynd um sóttnæmi útlenda kláðans, og neitar hinni of bersýnilegu reynslu, sem þegar er á orðin um útbreiðslu sýkinnar, því ráðið ætlar, eins og dr. Hjaltalín, að allur kláði sje hinn sami, og ræður því til að láta fje ganga á afrjettum og hafa enga verði, og miðar slíkt svo beinlínis til að setja allt landið í voða að það fellir sig sjálft. það virðist því, þó ólíklegt sje, að bæði ráðgjafinn og dýralækningaráðið fylgi í blindni stiptamtmanni og hans ráðanautum, án þess að hugsa nokkuð um eða gæta nokkuð að því, hver árangur orðið hefur af lækningunum á annan bóginn, og af niðurskurði og vörnum á hinn bóginn, og það hefði þó þurft að koma til skoðunar; því þar sem 3 Suðurlands sýslurnar þar sem lækningamátanum hefur verið fylgt meir og minna í 3 ár, eru nú orðnar sauðlausar að kalla má, þá er þar á móti í Húnavatnssýslu, þar sem hinn grimmdarlegi niðurskurður hefur verið framkvæmdur, fjeð ekki fækkað um fjórða part, og þó segir stjórnin og dýralækningaráðið, að af honum leiði, að allt sauðfje eyðist í heilum ömtum.

það má nú sjá af öllu framan töldu, hvað ráðgjafinn vill, og hvernig hann vill ónýta hina nauðsynlegu aðstoð embættismannanna, með því að banna þeim að fara eptir sannfæringu sinni. Og þegar gætt er að því, að sannfæring embættismanna hjer í Norður- og Austuramtinu, að stemma stigu fyrir útbreiðslu fjársýkinnar og útrýma henni með niðurskurði og vörnum, er ekki einungis sannfæring þeirra, heldur samhuga sannfæring allra amtsbúa, byggð á þeirri óræku reynslu, að þær ráðstafanir, sem gjörðar hafa verið í þessa stefnu, hafi stöðvað sýkina, og gjörsamlega tálmað útbreiðslu hennar yfir það svæði, er hún fyrst barst yfir meðan menn ekki voru orðnir nógu vissir um, að hún væri komin að sunnan; þegar gætt er að þessu, þá liggur í ráðherra brjefinu hin harðstjórnarlegasta skipun, sú skipun, að neyða embættismennina, — sem, ef þeir hlýðnast ekki, geta búist við embættismissi — til þess að ganga móti vilja alls almennings, og berjast fyrir því er þeim sjálfum og almenningi þykir rangt og skaðvænlegt fyrir land og lýð.

En þó er nú nokkur bót í máli, og hún er sú, að brjef hins sama ráðgjafa af 15. apríl í vor eð var hefur að nokkru leyti bundið hendur á honum sjálfum, svo að hann hefur ekki getað krafizt meira, en að embættismennirnir hættu að fylgja fram niðurskurði, en tækju að efla lækningar, ef að svo færi sem þar var sagt, að kláðinn færi út fyrir Húnavatnssýslu, og allar hinar síðari skýrslur þaðan úr sýslu — eins og getið er í síðasta blaði Norðra — stefna að því, að engin hætta muni vera að svo muni fara. það er enn fremur bót í máli, að þetta góða ráðherra brjef kom svo seint, að það gat ekki haft nein áhrif á samtaka og kappsamlegar tilraunir Húnvetninga að hreinsa byggðarlag sitt fyrir kláðanum á næstliðnu hausti. Vjer vonum þess vegna, að ráðherrabrjef þetta, er miðar til að spilla nauðsynlegum samtökum alþýðu og yfirvalda, hafi ekki önnur áhrif en þau, að kenna oss Íslendingum enn betur, hve mikil nauðsyn oss er á, að fá þá hluttekningu í stjórn vorri,

að velferð vor verði ekki framvegis ofurseld þess konar skipunum, og ef það kennir oss að vera áhugameiri í því efni, ber það sannarlega góðan ávöxt.

En hvernig á nú alþýða að fara að því á löglegan hátt að ónýta þetta ráðherrabrjef? það kennir ráðgjafinn oss sjálfur, er hann segir, að hann hafi ekki vald til að banna fjáreigendum að halda áfram niðurskurði þegar hann hefur ekki vald til þess, þá liggur það í augum uppi, að embættismennirnir hjer hafa það því síður, svo að alþýða getur ekki verið skyldug að gegna þeim, þegar þeir fara, eða ef að þeir fara móti sannfæringu sinni að mæla fram með lækningunum. það eru því samtök og samvinna alþýðunnar, sem getur útrýmt kláðanum hjer hjá oss, þegar embættismennirnir verða að þegja eða tala um hug sjer. þessu mega menn ekki gleyma.

Ef allt gengur hjer að sköpum í Húnavatnssýslu í vetur, og kláðinn verður þar upprættur þá virðist oss; að dýralæknar sem kæmu hingað að vori með skipsfarm af kláðameðölum, og hefðu hjerumbil 5 rd. um daginn til launa, mundu verða oss þungir á fóðrum og varla mun stjórnin útvega oss svo meðöl og lækna, að hún beri kostnaðinn sjálf, heldur mun bændum ætlað að bæta þessu á sig, og verður það ónota ábaggi. Enda sjáum vjer ekki betur, en að Norðlendingar geti andæft að borga þessum herrum, þegar þeir þurfa ekki og vilja ekki nota lækningar þeirra.

það eru enn tvö atriði í brjefi ráðherrans sem koma undarlega fyrir, og eru tekin fyrir sig fram. Hið fyrra er þegar hann kveðst eigi geta staðfest neina þvingaða niðurjöfnun á skaðabótunum fyrir fje það, sem skorið hafði verið niður í Húnavatnsýslu. þetta hafði hvorki amtmaður nje neinn það vjer vitum beðið ráðgjafann um, enda var það vitlaust og ástæðulaust, þar sem skaðabótunum var lofað af frjálsum vilja, og skaðabæturnar metnar og skipt niður á sýslurnar af mönnum, er alþýða hafði til þess kjörið á manntalsþingum. það er því hverju orði sannara, að ráðgjafanum kom þetta ekkert við; enda mun hans ekki hafa verið leitað í því efni. Hið annað atriðið er um hluttöku stjórnarinnar í að endurgjalda að tiltölu ærkúgildin á opinberum eignum, er amtsfundurinn hafði hreift, og amtmaður lofað að skrifa stjórninni um, en þetta kveðst amtmaður í brjefum sínum, er fylgja ráðgjafabrjefi þessu til sýslumanna ekki enn hafa gjört, svo ráðherrann afstingur þetta að oss virðist óþarflega fljótt. þetta lýsir annars, þó í litlu sje, hvað mikið þessi ráðgjafi vill leggja í sölurnar til þess að afstýra hinum almennu vandræðum. er leiða af kláðanum; því lítill hnekkir er það fyrir tekjur af landinu, þó að ríkissjóðurinn tæki tiltölulegan þátt í endurgjaldi kúgildanna á klaustra eignum. þetta atriði skiptir engu í sjálfu sjer, því endurgjaldið fyrir þau er lítið í samanburði við hitt allt, en það sýnir þó, hversu ráðgjafinn er smásmuglegur og kramaralegur, og gefur oss Norðlendingum þá bendingu, að svo muni í fleiru fara, og að vjer þurfum því að spila upp á vorar eigin spítur, eins og líka bezt mun verða.

þannig eru nú úrslit ráðherrans í kláðamálinu, Norðlendingar! En vjer eigum að vera orðnir því svo vanir, að stjórnin daufheyrist við bænum vorum, að oss komi það alls ekki á óvart. Vjer eigum eins í þessu og öðru, er sýnist miða til að gjöra oss yfirgang, malda í móinn hægt og sígandi; og vjer höfum því meiri rjett til að gjöra það í þessu máli sem vjer erum vissari um, að vjer höfum rjett mál að verja, og að það er búnaðarmál, er vjer kunnum miklu betur skyn á en stjórn í fjarlægu og ólíku landi. Vjer skorum því fastlega á alla málsmetandi menn í Norðurlandi, alla forgöngumenn sveita og alla alþingismenn, að þeir hver, fyrir sig, og hver í sinni stöðu, gjöri allt hvað í þeirra valdi stendur til þess að fylgja máli þessu svo fram, að óbrigðul reynsla, byggð á ásigkomulagi þessa lands, skeri úr því, en ekki hugarburðir einstakra manna og ókunnugs stjórnarherra. Málsmetandi forgöngumenn sveitanna geta það, í Húnavatnssýslu með því að hafa gott og tryggt eptirlit á, ef kláðinn móti von skyldi koma þar upp, að fá menn til þess viljuglega og fúslega að drepa fyrir hann, og í hinumsýslunum með því af fremsta megni að styðja að því, að skaðabæturnar gjaldist til Húnvetninga vel og tregðulaust; og alþingismennirnir geta það með því að útvega bænarskrár til næsta alþingis með nógum undirskriptum og vel úr garði gjörðar, er flytji mál vort Norðlendinga, og með því að fylgja þeim svo vel fram á þingi. því þó að ráðgjafinn Simony hafi nú gefið embættismönnum vorum múlband fyrir brjóstkross, þá er jöfn skylda vor og almennings að reyna til að losa múlbandið, eins og það er skylda vor að fyrirlíta brjóstkrossinn, þegar hann er ómaklegum gefinn.

---

## Alþingiskosningar:

þessir eru enn kosnir, auk þeirra sem áður er getið:

Í Reykjavík 29. september:

Alþingismaður **Halldór Kr. Friðriksson**, skólakennari. Varaþingmaður **Hermann E. Jónsson**, málaflutningsmaður.

Í Mýra og Hnappadals sýslum 30. september:

Alþingismaður **Jón** hreppstjóri **Sigurðsson** í Tandraseli. Varaþingmaður **Magnús** stúdent **Gíslason**.

Í Strandasýslu 27. september:

Alþingismaður **Ásgeir Einarsson**, á Kollafjarðarnesi. Varaþingmaður **Torfi** hreppstjóri **Einarsson**, bróðir hans.

Í Árness sýslu 2. nóvember;

Alþingismaður **Magnús** sáttamaður **Andresson**, Varaþingmaður **Jón** bóndi **Jónsson** á Kýlhrauni.

Í Snæfellsness sýslu 2. nóvember:

Alþingismaður **Páll Melsteð,** exam. jur. Varaþingmaður **Sveinn** prestur **Níelsson,** á Staðarstað.

Í Vestur-Skaptafells sýslu 11. nóvember:

Alþingismaður **Jón Guðmundsson,** málaflutningsmaður. Varaþingmaður **Þorkell Eyjólfson,** prestur í Ásum.

Í Dalasýslu 16. nóvember:

Alþingismaður **Guðmundur** prestur **Einarsson** að Kvennabrekku. Varaþingm. **Indriði** hreppstjóri **Gíslason.**

Í Borgarfjarðarsýslu 18. nóvember:

Alþingismaður cand. philos. **Arnljótur Olafsson.** Varaþingmaður **Guðmundur** jarðyrkjumaður **Olafsson.**

Í Gullbringu og Kjósar sýslu:

Alþingismaður **Guðmundur** hreppstjóri **Brandsson.** Varaþingmaður **Helgi** prestur **Hálfdánarson** í Görðum.

---

## Skipreiki.

Fimmtudaginn þann 18. þ. m. reri skip til fiskjar frá Reykjum á Reykjaströnd; á því voru 5 menn, formaður hjet Gísli Andresson, bóndi á Reykjum, Jóhannes Ingimundarson frá sama bæ, Davíð Gíslason frá Sveinskoti á Reykjaströnd, gamall formaður, Jón Guðmundsson ungur maður frá Brún, og Björn Guðmundsson frá Kúfustöðum í Svartárdal. þessir menn voru komnir fram á sjó fyrir dag, hvesti þá bráðum veðrið á austanlandnorðan, svo þegar varð bráða-rok, sneru þeir þá aptur, og ætluðu að sigla sniðhallt undan inn fyrir svo kallaðan Reykjadisk, og í sína rjettu lending, en þar eð útsýni var óglöggt, urðu þeir of norðarlega og nærri Stólnum, ætluðu því að nauðbeita inn með; skipaði formaður að taka til ára, og róa inn fyrir Diskinn, var þá Jóhannes settur til að passa seglið, sem þó var álitinn lítill sjómaður, og þá annars hugar af hræðslu. Hjelt hann nú af öllum mætti í seglið, án þess að slaka til eptir þörfum. Hvolfði þá undir þeim skipinu og komust þrír strax á kjöl, formaður, Jón og Björn, tók þá Jón og Björn af kjölnum aptur, en Björn var syndur. greip hann því til sunds og komst nauðuglega til lands, vegna brims og stórsjóa. Frá skipinu og til lands er mælt að væri hjerumbil 100 faðmar. þegar nú Björn var kominn í land, sá hann að formaður var enn á kjölnum, fór hann þá af skinnklæðum sínum, sem mjög voru full af sjó, og ætlaði að leggja til sunds fram að skipinu, og reyna að bjarga formanni sínum, en í því bili kom kvika á skipið og sleit formanninn af kjölnum, og kom hann ei upp síðan. það er mælt, að við þetta manntjón hafi 12 börn orðið föðurlaus.

---

## Íslands-minni.

Sungið í samsæti Íslendinga í Kaupmannahöfn 7. nóvember 1858.

Fósturjarðar forna byggð
faldin hrími köldu,
þar sem áður tröll og tryggð
traust sjer hæli völdu!
þín vjer minnumst ár og æ
æsku bundnir draumi,
hvort sem er við sollinn sæ
eða söng í vína glaumi.

Sagan einkar sögð er forn
af syni Loðinkinna,
átti lítið eyjar korn,
óðal frænda sinna:
Örvar-Odd um aldageim
allir þekkja lýðir,
ellimóður hjelt hann heim,
hnje á Jaðri um síðir

Annar víða ýta rjeð
öldum flestum kenndur,
ráðum slunginn grams með geð
gnoð um Atals lendur:
Odýsseifi sagt er frá,
sem að þreyði lengi,
unz hann brönn um hafið blá
hóf að óðalsvengi.

Fer oss enn sem fornum þeim
fylkisniðjum svinnum;
nje um víðan grundar geim
gengur oss úr minnum,
þinna faldur fjalla hár,
fósturjörðin hvíta,
hvar sem svo um æfi ár
eigum lífi slíta.

Og þjer fyrir sunnan sæ
synir unna, móðir!
blessi drottinn ár og æ
aldnar feðra slóðir!
Fyllum, drengir, dýrri veig
drykkjubolla þjetta,
og drekkum af í einum teig
Íslands minni þetta!

**G. Brynjúlfsen.**

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

## 1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letri.

**6. ár** **31. Desember.** **35.—36.**

### UM GUÐBRENZKU.

#### I.

Nú er Guðbrandur okkar „kominn á bak Pegaso“ aptur og farinn að kenna mönnum, hvernig þeir eigi að gefa út sögur. Eptir mínu litla viti ætti hann fyrst að kenna sjer það sjálfum. Svo sem nokkurs konar formála setur hann upp mikla mærð um stafsetningar-útgáfur og stafsetningar-öld. það er eins og honum finnist menn eigi að prenta sögur án stafsetningar, sem að minni hyggju yrði sama og að prenta þær ekki, eða láta Guðbrand prenta þær — því víst er um það, að enginn annar kann að prenta án stafsetningar. Enda er honum margt til lista lagið. það er piltur, sem kann að finna vísur í sögum!! „Heyr undr mikil! heyr örlygi! heyr mál mikit! heyr manns bana, eins eðr fleiri“. þetta segir hann sje vísa. En „desinit in piscem mulier formosa superne“! og hann gáir ekki að því, að hún er föst á öðrum endanum vísan “sem hann fer með“, og hefur því prentað sem vísu það sem ekki er vísa fremur enn þetta í einni sögu: „frið ok frelsi ok fénu með“, eða „í gulli ok gripum ok góðum vopnum“ í sömu sögu o.s.frv. þessi „uppgötvan“ herra Guðbrands er þó ekki lítils verð; því nú hefur íslenzka skáldatalan aukizt um einn og þessi eini er Guðbrandur Vigfússon.

Guðbrandur segir jeg haldi, að „örlygi“ sje sama sem „haugalygi“; en þetta er „haugalygi“ úr Gbr., nema því að eins að „uhyre Lögn“ (á dönsku) sje sama og „haugalygi“ (á íslenzku). — Mjer hugsast hjer ekkert betra enn leiða merkinguna í „(ör)lygi“ af frummerkingunni í „ljúga“, sem er (eða, að minnsta kosti, virðist vera) að hylja, og jeg held „örlygi“ sje upphaflega það sem mesta[1] nauðsyn væri að hylja („mun þinn hróðr ekki at meiri, þó at ek mæla berara“ segir þorkell). Gbr. segir orðið sje algengt: á hvað mörgum stöðum hefur þá Gbr. fundið það, auk þessa og þeirra þriggja, sem Sveinbjörn Egilsson tilfærir í Lexicon Poëticum? eða eru hin íslenzku og norrænu fornrit svo fá og svo stutt, að orð megi heita algengt í þeim, ef það finnst á þremur eða fjórum stöðum? — Merkingin orusta á alls ekki við í Gísla sögu; „því heyr undr mikit! heyr orustu! heyr mál mikit heyr manns bana, eins „eðr fleiri!“ yrði hræðilega guðbrenzkulegt. Sjer væru hver ósköpin, að einn eða (jafnvel) fleiri fjellu í orustu! og þar að auki kæmi þessi „orusta“ of snemma (stæði of framarlega) í orðum þorkels.

[1]) sb. „örskemmd“.

En það mun vera bezt að sleppa ekki upphafinu. þar segir Gbr.: *Gísla sögur Súrssonar báðar hefir Konráð Gíslason látið prenta hvora fyrir sig, og ætlum vèr það sè rèt gjört*[2], *því þær skilr svo mikið að máli og efni, en þeim mun lakara er það, að útgefandinn hefir alls ekki þekkt skinnbókarbrot það af sögunni, sem finnst í safni Árna í Additam. Nr. 20 folio. þetta brot þyrfti eflaust að prenta.* þetta er líka svo ógreinilega hugsað! Af því prentuðu sögurnar skilur svo mikið að máli og efni, „þeim mun lakara er“ að skinnbókarbrotið hefur ekki verið notað, jafnvel þó það sje svo frá brugðið hinum sögunum, að *það þyrfti eflaust að prenta út af fyrir sig.* Hefði brotið nauðsynlega þurft við útgáfuna á annarihvorri sögunni, þá hefði Guðbrandi ekki þótt „þeim mun lakara“; þó útg. hefði ekki þekkt það!!

Rjett á eptir fer hann að reyna til að sýna, hvað mikið sje varið í þetta skinnbókarbrot og greinir tvennt til. Hann segir, að þar standi ekki „teina sá ek í túni“, heldur „teina sè ek í túni“, og þetta verði að vera rjett af því Gísli hafi kveðið vísuna „*í því*“ hann horfði á hauginn. En hver hefur frætt Guðbrand á þessu? Báðar sögurnar segja reyndar, að Gísli hafi horft á hauginn; en hvorug þeirra tekur fram, að hann hafi horft á hauginn meðan hann kvað vísuna.

það er annað dæmi, sem Gbr. nefnir, að í brotinu standi „Luku á þingi ... saldeilendr sólar“, þar sem báðar hinar sögurnar hafi saldeilandi“. það er eins og Gbr. gjöri sjer í hugarlund, að enginn viti nema hann einn, að luku sje fleirtala, og það þurfi nauðsynlega að finnast nýtt brot af sögunni til þess nokkrum geti dottið í hug fleirtalan „saldeilendr“: hitt stendur honum á sama, þó vísuorðið verði rangt, ef lesið er „saldeilendr“. Sama kyns vísuorð og þetta, með einum 5 samstöfum finnast engin efalaust nema þar sem samstafa hefur verið úr felld; en úr „saldeilendr“ hefur ekkert verið — og varð ekkert — fellt.

**Konráð Gíslason.**

[2]) það má þá nærri geta að það sè rètt gjört, úr því vèr, Guðbrandarnir, ætlum það sè rètt gjört.

Í Snæfellsness sýslu 2. nóvember:

Alþingismaður **Páll Melsteð,** exam. jur. Varaþingmaður **Sveinn** prestur **Níelsson,** á Staðarstað.

Í Vestur-Skaptafells sýslu 11. nóvember:

Alþingismaður **Jón Guðmundsson,** málaflutningsmaður. Varaþingmaður **Þorkell Eyjólfson,** prestur í Ásum.

Í Dalasýslu 16. nóvember:

Alþingismaður **Guðmundur** prestur **Einarsson** að Kvennabrekku. Varaþingm. **Indriði** hreppstjóri **Gíslason.**

Í Borgarfjarðarsýslu 18. nóvember:

Alþingismaður cand. philos. **Arnljótur Olafsson.** Varaþingmaður **Guðmundur** jarðyrkjumaður **Olafsson,**

Í Gullbringu og Kjósar sýslu:

Alþingismaður **Guðmundur** hreppstjóri **Brandsson.** Varaþingmaður **Helgi** prestur **Hálfdánarson** í Görðum.

---

## Skiptreiki.

Fimmtudaginn þann 18. þ. m. reri skip til fiskjar frá Reykjum á Reykjaströnd; á því voru 5 menn, formaður hjet Gísli Andresson, bóndi á Reykjum, Jóhannes Ingimundarson frá sama bæ, Davíð Gíslason frá Sveinskoti á Reykjaströnd, gamall formaður, Jón Guðmundsson ungur maður frá Brún, og Björn Guðmundsson frá Kúfustöðum í Svartárdal. Þessir menn voru komnir fram á sjó fyrir dag, hvesti þá bráðum veðrið á austanlandnorðan, svo þegar varð bráða-rok, sneru þeir þá aptur, og ætluðu að sigla sniðhallt undan inn fyrir svo kallaðan Reykjadisk, og í sína rjettu lending, en þar eð útsýni var óglöggt, urðu þeir of norðarlega og nærri Stólnum, ætluðu því að nauðbeita inn með; skipaði formaður að taka til ára, og róa inn fyrir Dískinn, var þá Jóhannes settur til að passa seglið, sem þó var álitinn lítill sjómaður, og þá annars hugar af hræðslu. Hjelt hann nú af öllum mætti í seglið, án þess að slaka til eptir þörfum. Hvolfði þá undir þeim skipinu og komust þrír strax á kjöl, formaður, Jón og Björn, tók þá Jón og Björn af kjölnum aptur, en Björn var syndur. greip hann því til sunds og komst nauðuglega til lands, vegna brims og stórsjóa. Frá skipinu og til lands er mælt að væri hjerumbil 100 faðmar. Þegar nú Björn var kominn í land, sá hann að formaður var enn á kjölnum, fór hann þá af skinnklæðum sínum, sem mjög voru full af sjó, og ætlaði að leggja til sunds fram að skipinu, og reyna að bjarga formanni sínum, en í því bili kom kvika á skipið og sleit formanninn af kjölnum, og kom hann ei upp síðan. Það er mælt, að við þetta manntjón hafi 12 börn orðið föðurlaus.

---

## Íslands-minni.

Sungið í samsæti Íslendinga í Kaupmannahöfn 7. nóvember 1858.

Fósturjarðar forna byggð
faldin hrími köldu,
þar sem áður tröll og tryggð
traust sjer hæli völdu!
Þín vjer minnumst ár og æ
æsku bundnir draumi,
hvort sem er við sollinn sæ
eða söng í vína glaumi.

Sagan einkar sögð er forn
af syni Loðinkinna,
átti lítið eyjar korn,
óðal frænda sinna:
Örvar-Odd um aldageim
allir þekkja lýðir,
ellimóður hjelt hann heim,
hnje á Jaðri um síðir

Annar víða ýta rjeð
öldum flestum kenndur,
ráðum slunginn grams með geð
gnoð um Atals lendur:
Odýsseifi sagt er frá,
sem að þreyði lengi,
unz hann hrönn um hafið blá
hóf að óðalsvengi.

Fer oss enn sem fornum þeim
fylkisniðjum svinnum;
nje um víðan grundar geim
gengur oss úr minnum,
þinna faldur fjalla hár,
fósturjörðin hvíta,
hvar sem svo um æfi ár
eigum lífi slíta.

Og þjer fyrir sunnan sæ
synir unna, móðir!
blessi drottinn ár og æ
aldnar feðra slóðir!
Fyllum, drengir, dýrri veig
drykkjubolla þjetta,
og drekkum af í einum teig
Íslands minni þetta!

**G. Brynjúlfsen.**

---

Eigandi og ábyrgðarmaður **Sveinn Skúlason.**

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

Sendur kaupendum kostnaðarlaust; verð árg. 18 arkir 1 rd., einstök nr. 8 sk., sölulaun 7. hvert.

# NORÐRI.

1858.

Auglýsingar eru teknar í blaðið fyrir 4 sk. fyrir hverja smáleturslínu, en 6 sk. fyrir línu með stærra letrinu.

6. ár | 31. Desember. | 35.—36.

## UM GUÐBRENZKU.

### I.

Nú er Guðbrandur okkar „kominn á bak Pegaso“ aptur og farinn að kenna mönnum, hvernig þeir eigi að gefa út sögur. Eptir mínu litla viti ætti hann fyrst að kenna sjer það sjálfum. Svo sem nokkurs konar formála setur hann upp mikla mærð um stafsetningar-útgáfur og stafsetningar-öld. Það er eins og honum finnist menn eigi að prenta sögur án stafsetningar, sem að minni hyggju yrði sama og að prenta þær ekki, eða láta Guðbrand prenta þær — því víst er um það, að enginn annar kann að prenta án stafsetningar. Enda er honum margt til lista lagið. Það er piltur, sem kann að finna vísur í sögum!! „Heyr undr mikil! heyr örlygi! heyr mál mikit! heyr manns bana, eins eðr fleiri“. Þetta segir hann sje vísa. En „desinit in piscem mulier formosa superne“! og hann gáir ekki að því, að hún er föst á öðrum endanum vísan “sem hann fer með“, og hefur því prentað sem vísu það sem ekki er vísa fremur enn þetta í einni sögu: „frið ok frelsi ok fénu með“, eða „í gulli ok gripum ok góðum vopnum“ í sömu sögu o.s.frv. Þessi „uppgötvan“ herra Guðbrands er þó ekki lítils verð; því nú hefur íslenzka skáldatalan aukizt um einn og þessi eini er Guðbrandur Vigfússon.

Guðbrandur segir jeg haldi, að „örlygi“ sje sama sem „haugalygi“; en þetta er „haugalygi“ úr Gbr., nema því að eins að „uhyre Lögn“ (á dönsku) sje sama og „haugalygi“ (á íslenzku).— Mjer hugsast hjer ekkert betra enn leiða merkinguna í „(ör)lygi“ af frummerkingunni í „ljúga“, sem er (eða, að minnsta kosti, virðist vera) að hylja, og jeg held „örlygi“ sje upphaflega það sem mesta[1] nauðsyn væri að hylja („mun þinn hróðr ekki at meiri, þó at ek mæla berara“ segir Þorkell). Gbr. segir orðið sje algengt: á hvað mörgum stöðum hefur þá Gbr. fundið það, auk þessa og þeirra þriggja, sem Sveinbjörn Egilsson tilfærir í Lexicon Poëticum? eða eru hin íslenzku og norrænu fornrit svo fá og svo stutt, að orð megi heita algengt í þeim, ef það finnst á þremur eða fjórum stöðum? — Merkingin orusta á alls ekki við í Gísla sögu; „því heyr undr mikit! heyr orustu! heyr mál mikit heyr manns bana, eins „eðr fleiri!“ yrði hræðilega guðbrenzkulegt. Sjer væru hver ósköpin, að einn eða (jafnvel) fleiri fjellu í orustu! og þar að auki kæmi þessi „orusta“ of snemma (staði of framarlega) í orðum Þorkels.

En það mun vera bezt að sleppa ekki upphafinu. Þar segir Gbr.: *Gísla sögur Súrssonar báðar hefir Konráð Gíslason látið prenta hvora fyrir sig, og ætlum vèr það sè rèt gjört*[2], *því þær skilr svo mikið að máli og efni, en þeim mun lakara er það, að útgefandinn hefir alls ekki þekkt skinnbókarbrot það af sögunni, sem finnst í safni Árna í Additam. Nr. 20 folio. Þetta brot þyrfti eflaust að prenta.* Þetta er líka svo ógreinilega hugsað! Af því prentuðu sögurnar skilur svo mikið að máli og efni, „þeim mun lakara er“ að skinnbókarbrotið hefur ekki verið notað, jafnvel þó það sje svo frá brugðið hinum sögunum, að *það þyrfti eflaust að prenta út af fyrir sig*. Hefði brotið nauðsynlega þurft við útgáfuna á annarihvorri sögunni, þá hefði Guðbrandi ekki þótt „þeim mun lakara“; þó útg. hefði ekki þekkt það!!

Rjett á eptir fer hann að reyna til að sýna, hvað mikið sje varið í þetta skinnbókarbrot, og greinir tvennt til. Hann segir, að þar standi ekki „teina sá ek í túni“, heldur „teina sè ek í túni“, og þetta verði að vera rjett af því Gísli hafi kveðið vísuna „*í því*“ hann horfði á hauginn. En hver hefur frætt Guðbrand á þessu? Báðar sögurnar segja reyndar, að Gísli hafi horft á hauginn; en hvorug þeirra tekur fram, að hann hafi horft á hauginn meðan hann kvað vísuna.

Það er annað dæmi, sem Gbr. nefnir, að í brotinu standi „Luku á þingi ... saldeilendr sólar“, þar sem báðar hinar sögurnar hafi saldeilandi“. Það er eins og Gbr. gjöri sjer í hugarlund, að enginn viti nema hann einn, að luku sje fleirtala, og það þurfi nauðsynlega að finnast nýtt brot af sögunni til þess nokkrum geti dottið í hug fleirtalan „saldeilendr“: hitt stendur honum á sama, þó vísuorðið verði rangt, ef lesið er „saldeilendr“. Sama kyns vísuorð og þetta, með einum 5 samstöfum finnast engin eflaust nema þar sem samstafa hefur verið úr felld; en úr „saldeilendr“ hefur ekkert verið — og varð ekkert — fellt.

**Konráð Gíslason.**

[1]) sb. „örskemmd“.

[2]) Það má þá nærri geta að það sè rètt gjört, úr því vèr, Guðbrandarnir, ætlum það sè rètt gjört.

## Hugleiðingar gamals manns.

1. Snemma eptir man jeg mjer
mínu lífs á vori blíða,
vonar fullur, fjærri kvíða,
andi minn þá undi sjer
við þá hugsun, hjer á jörð
hver einn mætti sælu njóta,
án þess minnsta mótgang hljóta;
virtist mjer svo veröld gjörð,

2. Mitt þó væri glaðvært geð
gjarnan vildi' eg eldri vera,
til að mega úr býtum bera
sem mjer öðrum syndist ljeð.
Sízt í hug mjer það kom þá,
þegar æskan liðin væri,
margt að höndum mótdrægt bæri;
Allt jeg betur seinna sá.

3. Tímans straumur streymdi hart,
stundir vorsins fljótt út runnu,
fyrri vonar fagra sunnu
byrgði skýið sorgar svart.
Heimsins glaumur gat ei þá
gjört mjer daga skemmtilega,
mótlætið á marga vega
gleði bægði flestri frá.

4. Ástfólgnustu vini við
varð jeg mörgum sinnum skilja,
þvert á móti mínum vilja,
hjartað gjörðist harmþrungið.
Og þó hýrleit hamingjan
hjá mjer syndist stundum búa,
margopt fyr en mátti' eg trúa
hún í burt sem hjólið rann.

5. Yfirleit jeg æfi slóð,
æskan fannst mjer hálfu fegri,
og í mörgu yndislegri
en sú tíð sem yfirstóð.
Æ fyrir mínum augum þá
unaðs blíðar skinu stundir
nær um skrýddar grösum grundir
ljek jeg eins og lömbin smá.

6. Þannig lífið flestum finnst,
fast sem von á heimi byggja,
á þeirra sæ'u sorg mun skyggja,
er þá varir allra minnst.
Margan sá jeg mann um heim
metorð, seim og virðing hljóta —
hvers að flesta fýsir njóta —
eitthvað vanta þó fannst þeim.

7. Ekkert sanna unan má
annað ljá, og huggun blíða,
en orðum drottins helgum hlýða
og vænta sælu honum hjá.
Bezt því mönnum öllum er
ánægðum við kjör sín búa,
æðstum guði treysta, trúa,
og taka því að höndum ber.

8. Aptur kaupa enginn má
eina liðna stund þó vildi,
um það hugsa æ hver skyldi,
tímann líður óðum á!
Gott og nytsamt verðum vær,
vinna eptir fremsta megni,
hver einn sinni sýslan gegni,
meðan drottinn líf oss ljær.

Ari Jónsson.

---

## Brigitta
(lauslega snúin skáldsaga).

(Framhald). Um þetta leyti kom til höfuðborgarinnar maður nokkur sem mikið orð fór þegar af. Hann hjet Stephán Murai. Faðir hans hafði alið hann upp á landsbyggðinni til þess að búa hann undir lífsstöðu sína. Þegar hann var frumvaxta, var hann fyrst nokkurn tíma á ferðalögum, og síðan vildi hann kynna sjer hinar göfugustu ættir í föðurlandi sínu, og þess vegna kom hann til höfuðborgarinnar. Þar fór þegar mikið orð af honum. Sumir hældu gáfum hans og viti, sumir kurteisi hans og látbragði, og enn aðrir kváðust aldrei hafa sjeð jafnfríðan mann. Það má nú geta nærri, að bakmælgin hafi ekki þagað um þann mann, er svo margir lofuðu, enda sögðu margir, að það væri eitthvað sjerstaklegt við hann. Hann væri öðruvísi en aðrir menn, og hægt væri að sjá að hann væri uppalinn í skógum. Sumir sögðu hann dramblátan, og mundi hann líka, ef á skyldi reyna, vera maður undirförull. En hvað sem sagt var með og mót honum, langaði þó margar ungar stúlkur til að sjá hann. Faðir Brigittu þekkti nú vel ættfólk Stepháns frá fyrri tímum. Hann spurði sig fyrir um efna-ástand hans og fjekk að vita, að jarðir föður hans voru miklar og ágætar. Þess vegna kom honum til hugar, að sá ráðahagur væri góður fyrir eina af dætrum sínum, ef maðurinn að öðru leyti þætti efnilegur. En af því hann vissi, að margir feður og mæður hugsuðu eins, flýtti hann sjer að draga hann að húsi sínu. Hann var búinn að vera þar nokkrum sinnum, en Brigitta hafði ekki sjeð hann, því hún kom ekki þau kvöldin niður í salinn.

Einu sinni fór hún í heimboð til föðurbróður síns, sem hafði búið til lítillar veizlu og boðið henni. Þangað var hún ætíð fúsust að fara, og nú sat hún þar þetta kvöld í svarta kjólnum sínum. Um kvöldið bar hún nokkurs konar höfuð-

dúk. sem hún sjálf hafði saumað, og þótti systrum hennar hann afskræmislegur, og ekki var þá títt að bera þess konar höfuðbúning í borginni, en hann átti vel við hin dökku klæði hennar.

þar voru margir menn saman komnir, og þegar hún eitt sinn um kvöldið leit yfir salinn, sá hún blíð dökk augu einblína á sig. Hún leit strax undan, en þegar hún leit upp aptur seinna urðu sömu augun fyrir henni. það var Stephán Murai, sem horfði á hana.

Átta dögum seinna var dansleikur hjá föður hennar og var Murai boðið, og kom hann þegar byrjað var að dansa. Hann horfði á um stund, og þegar næsti dans hóst, gekk hann til Brigittu og bauð henni að dansa við sig. Hún kvaðst aldrei hafa lært að dansa. Hann hneigði henni, og gekk aptur meðal þeirra er horfðu á. Brigitta settist niður og horfði á hinn glaða dansandi flokk, er fram hjá leið. Murai talaði við ýmsar ungar stúlkur, dansaði og var hinn kátasti um kvöldið og vingjarnlegasti. þegar dansinum var lokið, og Brigitta kom í svefnherbergi sitt, leit hún í spegilinn, og hugði að enni sínu, sem var veðurtekið, og fjellu hrafnsvartir hárlokkarnir um höfuð henni. Hún gekk til rekkju, lagði handlegginn undir höfuð sjer, og blíndi andvaka augunum upp í loptið.

þegar hún seinna hitti Murai í samkvæmi heilsaði hann henni með mestu lotningu; þegar hún fór af stað rjetti hann henni yfirhöfn sína, og þegar hún var farinn tók hann vagn sinn og ók heimleiðis.

Einu sinni var hún aptur hjá föðurbróður sínum og hafði gengið út á svalirnar til að kæla sjer; heyrði hún þá mann koma eptir sjer, og Murai stóð við hlið henni. Hann talaði um hitt og þetta, en rödd hans skalf. Hann lofaði hina fögru og blíðu nótt, er ein væri fær um að sefa og mýkja hræringar hjartans. Síðan þagnaði hann, og hún talaði ekki heldur þegar hún gekk aptur inn í salinn gekk hann einnig inn af svölunum, en stóð lengi einn og áhyggjufullur.

þegar Brigitta kom heim í herbergi sitt, tók hún hægt og hægt af sjer allan skartbúnað sinn, og gekk svo og leit í spegilinn og horfði lengi á sjálfa sig. Augu hennar fylltust tárum og hrundu í sífellu niður um kinar hennar. það voru fyrstu tár, er komu frá hjartanu. Gráturinn varð sífellt ákafari. það var eins og hún skoðaði allt sitt auma en þótt táralausa líf, og eins og hjarta hennar gæti enga hvíld fengið fyr en hún væri mett af harmi. Hún hafði fallið á knje, eins og hún opt gjörði, og sat á fótum sínum. Svo vildi til að á gólfinu lá mynd af bræðrum tveim, og gekk annar þeirra í dauðann fyrir hinn. þessa mynd greip hún og kyssti mörgum sinnum.

Loksins hættu tár hennar að streyma, og ljósið í herberginu var næstum út brunnið, en þó sat hún enn, eins og grátþrungið barn á gólfinu, með hendurnar í knjám sjer, grafkyrr og hugsandi. þá stundi hún þungan, þerraði tárin af augum sjer og gekk til sængur. „það getur ekki verið, það getur ekki verið!" voru þau einu orð, er bærðust á vörum hennar. Síðan sofnaði hún.

þegar að hún aptur hitti Murai, gekk það eins og fyrr. Hann virti hana öllum stúlkum framar, en var eins og hræddur eða feiminn. Hann talaði varla orð til hennar og hún sneiddi bersýnilega hjá honum.

Loksins dirfðist hann að nota sjer færi, er þau voru tvö ein, og tók að tala við hana. Hann sagði sjer virtist hún hefði einhverja óbeit á sjer, og ef svo væri bað hann hana reyna til að læra að þekkja sig. Hún kynni þá að finna hjá sjer eiginlegleika, er gætu áunnið sjer virðing hennar, þó að hann gæti ekki öðlazt það, er öll þrá hans og löngun æskti sjer.

„Jeg hefi engan óþokka til yðar. Murai," sagði hún, „það er langt frá að svo sje; en jeg vil líka biðja yður bónar, og hún er sú: Biðjið mín ekki, gjörið það ekki, þess munuð þjer mest iðrast!"

„því þá, Brigitta, því þá?"

„því," sagði hún, hægt og lágt", ef að jeg á að taka ástum manns, verður hann að elska mig takmarkalaust. Jeg veit að jeg er ófríð, og þess vegna verð jeg að heimta meiri ást en hin fegursta kona á jörðunni. Hve mikil sú ást ætti að vera veit jeg ekki, en mjer virðist hún þyrfti að vera eilíf og órjúfandi. Og af því þessa ást er ekki að fá, þá bið jeg yður að leita ekki þessa ráðs. þjer eruð sá eini er hafið leitað eptir hvort nokkur viðkvæm tilfinning bjyggi í brjósti mjer, og þess vegna verð jeg að segja yður hreinan sannleikann."

Hún hefði líklega sagt meira, en aðrir komu að þeim; varir hennar skulfu af geðshræringu.

það má nú geta nærri að þetta jók ástina í brjósti Murai; hann trúði á hana eins og hún væri ljóssins engill, varð utan við sig og leit ekki við hinum fegurstu konum, en hafði ekki augun af henni. Afl ástarinnar bugaði nú og hjarta hennar. Fólk tók að gruna það, er enginn hafði viljað trúa; hann sýndi ást sína í augsýn allra, og tók það af öll tvímæli,

Einhvern dag var fólk komið saman að heyra söng og hljóðfæraslátt Ómurinn barst inn í herbergi sem lá afsíðis. þar sat Brigitta ein saman. þá kom Murai inn. Hann talaði ekki, en dróg hana blíðlega að sjer. Hann laut niður að henni, og varir þeirra fundust. Hún hafði aldrei reynt sætleik þann er felst í kossinum, því móðir hennar og systur sýndu henni aldrei blíðlæti, og Murai sagði mörgum árum seinna, að hann aldrei hefði kennt slíkan unað eins og þegar hann fyrsta skipti mætti þessum ósnertu vörum.

Nú var hulu þeirri burtu svipt, er hingað til hafði skilið þau. Fáum dögum seinna var Brigitta heitin Murai, og foreldrar þeirra beggja höfðu lagt þar lof til; þau voru nú mjög opt saman og unnust heitt. Úr djúpi hjarta þessarar konu, er svo lengi hafði verið misskilin spratt upp lífslind, er tók dagvöxtum. Tilfinning sú, er dregið hafði Murai til hennar, var sönn og rjett, því Brigitta var hreinni og staðbetri hverri konu.

Hjarta hennar var ekki veiklað af ástahugsunum og ástadraumum, heldur kenndi hann hinn lífgandi ilm heilbrigðrar sálar. Hún var og hin inndælasta í sambúð og viðræðum. Af því hún hafði ætíð verið einmana, hafði hún smíðað sjer heiminn eptir sínu höfði, og Murai kom þannig inn í nýtt hugmyndaríki, er hún ein átti. Og jafnóðum og hann kynntist þannig eðlisfari hennar. fann hann líka hina sterku vaxandi ást hennar til sín. Hjarta hennar var ósnortið. Enginn nema þessi eini hafði metið það rjettilega, og þess vegna var það nú algjörlega eign hans. þannig gekk nú tíminn eptir þnu að voru heitbundin, í gleði og unaði.

Loksins kom nú brúðkaupsdagurinn. Veizlan var stór og ríkmannleg og allt skyldfólk þeirra og fjöldi höfðingja sátu að boðinu. þegar að seinustu gestirnir voru loksins burt gengnir, leiddi Murai konu sína aptur í gegnum hina uppljómuðu sali. þá sagði hann: „Hve vel og ágætlega hefur allt gengið, Brigitta! Jeg hefi skilið þig; þegar jeg sá þig í fyrsta skipti, fann jeg það að við áttum einhverju saman að skipta, en jeg vissi þá ekki hvort jeg mundi hata þig eður elska. það var mín gæfa Brigitta, að það varð ástin.“

Brigitta svaraði engu. Hún lagði hendur sínar í hans og leit yfir hið fagra og unaðlega herbergi.

Síðan skipuðu þau að bera allt burtu, er veizlunni heyrði, og hin fyrsta nótt breiddi friðarblæju sína yfir þau.

Hingað til höfðu þau einungis verið saman í nærveru annara, en nú voru þau ætíð heima. þau þóttust hafa allan unað sinn í sjálfum sjer. þó að heimili þeirra væri fagurt og vel fyrir komað, höfðu þau það að gamni að skreyta það á allan hátt er þeim gat í hug komið. þau studdu hvort annað í orði og verki, og höfðu allan hug hvort á annars störfum. þannig leið hið fyrsta hjónabandsár þeirra í friði og hamingju.

þá ól Brigitta sveinbarn, og þetta batt þau enn fastara til heimilis síns. Brigitta annaðist barn sitt. Murai gætti starfa sinna; því faðir hans hafði fengið honum í hendur nokkrar stórjarðir, og stýrði hann þeim, en bjó þó í borginni.

þegar barnið óx upp og þurfti síður umhyggju móðurinnar var Murai búinn að koma störfum sínum í reglu. Hann tók nú optar en fyr að fara með konu sína til mannfunda og sjónarspilahúsa, og hún tók eptir að hann var henni enn blíðari og umhyggjusamari þegar aðrir sáu heldur en heima.

„Nú veit hann hvað mig vantar“, hugsaði hún með sjálfri sjer, og barði niður harminn í brjósti sjer.

Næsta vor tók hann hana og barnið með sjer í ferðalög, og þegar þau komu heim um um haustið, stakk hann upp á því, að þau skyldu heldur flytja í sveit og búa þar. því miklu fagrara og yndislegra er þó í sveitinni“, sagði hann. þau fluttu nú út á eitt höfuðbólið.

þar tók hann að hafa mikil afskipti af landbúnaði, og annað slagið var hann á veiðum. þar leiddu örlög hann á fund annarar konu, er hann hafði eigi slíka fyr sjeð. Eitt sinn þegar hann var einn á ferð og leiddi hest sinn gegnum pílsviðarrunna nokkra sá hann í gegnum skógarlaufið tvö fögur augu, er störðu á hann með hræðslu. En þetta var ekki svipstund, því fyr enn hann hafði skoðazt um, hvarf hin ókunna, sem líka var ríðandi og hann heyrði einungis hófadyninn.

þetta var Gabríele, dóttir gamals greifa, er bjó þar nálægt. Faðir hennar ól hana upp í sveit, og lofaði henni að lifa og láta eins og hún vildi, því hann hugsaði, að þannig mundi hún fá vöxt og viðgang sem beztan og fegurstan. Fegurð hennar var orðlögð, en Murai hafði ekki heyrt hennar getið, af því hann var nýkominn í sveitina.

Fáum dögum síðar fundust þau á sama stað þau spurðu ekki hvort annað um nafn og stjett, en hún, sem var glaðvær, frígeðja og hispurslaus, hvatti hann optast til að ríða harða spretti eins og menn gjöra í veðhlaupi, og flaug svo af stað við hlið hans, undarlegt sambland af fegurð og framgirni. Hann hafði þetta í leik og ljet hana optast vinna. Einn dag var það að þau flugu þannig á spretti gegnum skóginn; þá fjekk hún allt í einu andþrengsli, svo að hún gat einungis látið hann vita að hann skyldi stöðva hestana með því að taka í taum hans. Hann þaut af baki, og tók hana úr söðli, og hún hvíslaði á meðan að honum, að hann hefði yfirstígið sig; en hann tók að gjöra að ístaði hennar, er bilað var, og þegar hann sá hana standa blóðrjóða og halla sjer upp að eik einni, greip hann hana og þrýsti henni að brjósti sjer; og áður en hann sá hvort hún reiddist eða gladdist, hljóp hann á hest sinn og þeytti burt. þetta var ljettúð, en hann kenndi einstaks unaðar; meðan hann reið heimleiðis stóð þessi mynd fyrir hugskotssjónum hans, hin mjúka kinn, logandi augu og hinar blíðu brjóststunur,

þaðan af leituðu þau ekki hvort annars, en þegar þau fundust eitt sinn af hendingu hjá einum granna þeirra þaut blóðið fram í kinnar þeim.

Murai fór nú að sjá um jörð sína eina, er lá langt burtu, og hafði mikið starf að breyta þar til því er honum þótti þurfa.

Brigittu grunaði hvað fram fór í hjarta manns hennar, og hún harmaði. Hún þagði, en sorg og bligðun barði brjóst hennar. Hún gekk um húsið eins og vofa. Að síðustu varð hún stilltari, en það var kyrrð örvæntingar og sjálfsafneitunar.

þegar Murai kom heim, gekk hún á fund hans og bað hann með blíðum orðum að þau skyldu skilja. Hann varð forviða við, bað hana og leiddi henni allt fyrir sjónir, er hann gat til fundið; en þegar hún sagði: Jeg hafði sagt þjer að þú mundir iðrast þess.“ þá stökk hann upp, greip hönd hennar og sagði með skjálfandi röddu: „Kona, jeg hata þig óumræðilega!“

Hún svaraði engu orði, en starði á hann þurrum logandi augum. þrem dögum seinna bjó hann ferð sína og reið burtu að kvöldi dags. þá lá Brigitta á gólfinu í svefnherbergi sínu og dundu

niður um hana beizk og brennandi tár. Hann reið yfir hina dimmu Lágheiði og hugsaði opt um með einu skoti að kljúfa höfuð sitt. Hann reið fram hjá slotinu þar sem Gabríele bjó. Hún stóð á svölunum, en hann leit ekki upp og reið leiðar sinnar.

Hálfu ári seinna sendi hann samþykki sitt til skilnaðarins, og leyfði henni að halda hjá sjer syni þeirra, hvort sem það kom nú til af því, að hann áleit drenginn betur kominn undir hennar höndum, eða af því að hann vildi ekki svipta hana öllu, er hún elskaði. Fjárskiptin hafði hann gjört svo að bæði höfðu yfrið nóg. Hann sendi þetta allt með órækum skjölum, og þetta var hið fyrsta og seinasta er menn vissu um Murai. Síðar frjettist ekkert af honum. Bústjóri hans sagði að hann fengi peninga sína fyrir milligöngu kaupmanna nokkurra í Antwerpen, og meira vissu menn ekki.

Um þetta leyti dóu með litlu millibili foreldrar Brigittu og systur hennar, og faðir Murai dó ári seinna, og þannig var Brigitta algjörlega einmana með barn sitt.

Langt frá höfuðborginni átti hún hús og jörð á eyði heiði, þar sem enginn þekkti hana. Það hjet Marosheli, og þaðan var ættarnafn hennar. Eptir skilnaðinn nefndist hún þessu ættarnafni og flutti á heiði þessa til þess að fela sig fyri glaumi og gleði veraldarinnar. Hún tók með sjer son sinn, hinn einasta unað, og allur áhugi hennar í lífinu var að annast og gæta að hverju fótmáli hans.

En eptir því sem honum óx aldur og vit, eptir því varð hún áhugameiri. Hún fór að taka eptir heiðinni kringum sig, og hún fór í huga sínum að yrkja þessar flesjur. Hún tók sjer karlmannsgjörfi, steig aptur á hestbak eins og í ungdæmi sínu, og tók að kynna sjer landseta sína. Þegar að drengurinn var farinn að geta haldið sjer á hestbaki, var hann einlægt með henni, og hið starfsama skapandi líf móður hans varð ættgengt hjá honum. Áhugi hennar og starfsemi fór einlægt dagvaxandi, Sandhólarnir urðu að grænum ekrum, uppsprettulindirnar voru teymdar til frjófgunar og vínviði skaut upp. Hin grýtta grund ljet undan hinu skapandi afli. Og þessi starfi hafði blessun í för með sjer. Aðrir tóku þetta eptir henni, fjelagið komst á fót, og víða á hinni auðu heiði sáu menn árangurinn af þrekmiklum og stöðugum störfum mannlegs anda.

Fimmtán árum eptir að Brigitta kom til Marosheli, kom majórinn til Uwar. Af þessari konu sagðist hann hafa lært dugnað og starfsemi, og til þessarar konu bar hann hinn djúpa seint kviknaða ástarhug, er vjer áður höfum getið.

---

Við riðum þá, eins og ráð var fyrir gjört, til Marosheli. Brigitta var einmitt sama konan sem hafði ljeð mjer hestana. Hún mundi eptir fyrsta fundi okkar, því hún brosti vinsamlega til mín. Jeg roðnaði þegar jeg hugsaði um, að jeg hafði boðið henni skildinga. Enginn var viðstaddur nema jeg og majórinn. Hann sagði henni að jeg væri vinur sinn, og að hann hefði hitt mig á ferðalagi sínu. Mjer þótti vænt um að heyra að hún þekkti flest, það er jeg og majórinn höfðum haft að umtalsefni, er við vorum saman fyrsta skipti, því það sýndi að það gladdi hann að minnast þeirra stunda, er við vorum saman, öðrum fremur.

Hún sagðist ekki ætla að sýna mjer húsið og jarðir sínar, því það gæti jeg sjeð, þegar við gengjum að skemmta okkur og við tækifæri, þegar jeg kæmi til Marosheli, og kvaðst hún vonast þess að jeg kæmi þangað opt.

Hún brá majórnum um, að hann hefði ekki komið þar svo lengi. Hann afsakaði sig með störfum sínum, og kvaðst heldur ekki hafa viljað koma þangað án mín, og hann hefði fyrst viljað sjá, hvernig jeg ætti við skap vinkonu sinnar

Við gengum inn í stóran sal, og hvíldumst um stundar sakir. Majórinn tók skrifspjald og spurði hana um ýmsa hluti og búnað; og svaraði hún því fljótt og greinilega, en hann skrifaði svörin hjá sjer. Hún spurði hann einnig að ýmsu um granna þeirra dagsstörfin, og þingið í landinu sem þá var fyrir hendi. Jeg tók eptir því með hve mikilli alvörugefni hún talaði um allt þetta, og hve mikils majórinn mat álit hennar. Þegar hún þóttist í vafa um eitthvað, sagði hún það fúslega, og bað hann að skýra það fyrir sjer.

Við gengum í trjágarð hennar til að skemmta okkur og hafði jeg þá tíma til að gæta vel að henni. Augu hennar voru enn dökkari og skærari en rádýranna, sem hlupu til og frá í trjágarðinum, og þau voru að líkindum venju skærari þenna dag, er hún gekk við hlið þess manns, er kunni að meta kostgæfni hennar og starfsemi. Tennur hennar voru mjallhvítar, og hinn hái og granni vöxtur hennar sýndi að hún hafði krapta í kögglum. Af því hún hafði búizt við majórnum, var hún í kvennbúnaði, og hafði tekið sjer hvíldardag til þess að geta verið hjá okkur allan daginn.

Margt bar á góma hjá okkur um komandi tíð þessa lands, hvernig bæta skyldi kjör og uppfræðingu almennings og rækta landið, og um ýmsa fræga þjóðvini. Þegar við komum aptur var kominn matmálstími. Þá kom Gústaf sonur Brigittu líka heim; hann sagði fyrir vinnu um daginn í stað móður sinnar. Hann sat við borðið kyrr og þegjandi og hlustaði á hina eldri, augu hans lýstu ást mikilli og áhuga á ókomnum tíma. Seinna um daginn sáum við ýmsar búskaparbætur, er majórinn hafði ekki áður sjeð og gengum um aldingarðana og vínviðarhæðirnar.

Að kvöldi komnu bjuggumst við til heimferðar. Þegar við tókum yfirhafnir okkar deildi Brigitta á majórinn fyrir það að hann hefði riðið yfirhafnarlaus heim til sín fyrir skömmu frá Gomör, því hann vissi þó, hversu háskasamleg kvöldkælan væri þar á heiðunum. Hann afsakaði sig og kvaðst skyldi varkárnari annað skipti. En jeg vissi, að hann það kvöld hafði neytt Gústa til að taka kápu sína. Í þetta skipti vorum við

vel út búnir með allt. Brigitta gætti sjálf að öllu, og fór ekki inn fyrr en við vorum komnir á hestbak hýtt og vel búnir. Hún bað majórinn um að reka erindi fyrir sig, og kvaddi okkur síðan blítt og vingjarnlega. (Framhaldið síðar).

## Mannalát og slysfarir.

Vjer höfum fengið brjef frá góðum vini vorum einum, er bregður oss um, að vjer teljum svo lítið af mannalátum og slysförum og valdi slíkt óánægju mikilli hjá alþýðu. Vjer viljum nú einu sinni algjörlega færast undan þessu, því þetta er sannarlega ekki oss að kenna heldur skeytingarleysi manna hjer norðanlands, er ekki hirða um það að láta oss vita með fáum línum lát ættingja sinna og náunga, og hin helztu atriði um líf þeirra og andlát. það getur verið, að oss hafi einhvern tíma gleymzt að geta um mannalát, er lauslega var um getið innan um annað efni í brjefum til vor, en þó er hitt tíðast að vjer frjettum mannalát og slysfarir einungis á skotspónum, og fer þá opt svo ýmsum sögum um það, að vjer þorum engri þeirra að trúa, þegar náungar hinna látnu finna það ekki skyldu sína að láta oss vita það rjett og greinilega. Oss hefur því opt þótt betra að geta slíks ekki, en að fara eptir lausa-fregnum, er vjer ekki vissum hvort sannar væru. það sem oss nýlega hefur verið skrifað um þess konar er þetta:

9. ágúst næstliðinn sálaðist Björg Björnsdóttir á Reykjum á Reykjabraut. Hún hafði legið 20 ár í kör og var 96 ára að aldri. Hún var merkiskona á sini tíð. Sonur hennar er Sigurður hreppstjóri Sigurðsson á Reykjum. Hún sá afkomendur sína í fjórða lið. Önnur kona Guðrún Jónsdóttir í Teigi í 96 ára að aldri andaðist hjer í Eyjafirði um jólaleytið.

27. september næstl. andaðist Halldór bóndi Auðunarson á Stóra-Búrfelli; hann var bróðir Blöndals sáluga sýslumanns, og sá eini eptirlifandi þeirra systkyna. Hann hafði 4 ár hins sjöunda tugar,

Seint í september drukknaði bóndi í Staðarsókn Jón Magnússon, fátækur fjölskyldumaður. Hann reið drukkinn um kvöld með öðrum manni í svo kallað Drumbafljót (sem áður í sumar varð manni að bana, og 2 mönnum fyrir nokkrum árum) í Hrútafjarðará. þetta fljót er rjett skammt fyrir ofan sjóarvað árinnar sem heitir Norðlingavað. Hinn maðurinn komst nauðuglega af með lífi.

9. nóvember næstl. drukknuðu í næsta kíl fyrir framan Staðareyjarvað á austurbökkum í Eyjafirði tveir ungir menn og efnilegir, annar nýkvæntur og annar fyrirvinna hjá móður sinni. Daníel og Jónas Sigurðssynir frá þormóðsstöðum í Sölfadal. þeir fóru um kvöld úr kaupstað með fleirum mönnum í niðamyrkri og ætluðu fram Austurbakkana, en skammt fyrir neðan vaðið á kílnum fór einn af áburðarhestum þeira út í kílinn á röngum stað, og ætlaði þá annar bróðirinn að komast fyrir hestinn eða ná honum upp úr, en sökk í kílnum í leirbleytu. Hinn bróðirinn sem kominn var yfir um og varð þessa var, vildi skunda bróður sínum til bjargar, en fór of óvarlega og lenti þar einnig. Hinir sem með þeim voru, og sem sumir voru kenndir gátu ekki sökum niðmyrkursins veitt þeim neina björg, enda höfðu þeir orðið svo fastir í leirbleytunni, að þeir gátu lítið eitt kallað sjer til hjálpar. þetta er því sorglegra sem báðir þessir menn voru ungir, reglusamir og efnilegir menn, og þetta svo hægt viðgjörðar, því allir kílar á Austurbökkum eru örmjóir og hægt að brúa þá, en vöðin á þeim ill og óljós. það er minnkun að hlutaðeigandi hreppstjóri skuli ekki hirða um að viðhalda brúnum á kílum þessum, þar sem þær eru og láta gjöra nýjar þar sem þær vanta.

Á Berufjarðarströnd austur fórst bátur með 2 bændum og nokkru seinna annar bátur í Hamarsfirði þar sunnar með 4 karlmönnum og einni konu. þessir bændur voru: Sigurður Markússon frá Melrakkanesi, Hávarður Guðmundsson á þvottá, og 2 bændur sunnan úr Lóni. Alls hafa farizt í sjó eysta næstliðið sumar og haust 23 menn, og er það mikill hnekkir; þar sem fólksfæðin er svo mikil.

Aðsent) 18. júlí næstliðinn, sálaðist þrúður Jónsdóttir á Hvítárvöllum í Borgarfirði, hálfníræð að aldri, hún var dóttir Jóns bónda Egilssonar fróða á Vatnshorni í Haukadal, og systir Rannveigar konu J. sál. Espólíns; hún var gáfuð kona og fróð um marga hluti, aldrei giptist hún; en nokkur ár bjó hún á eignarjörð sinni Litlaskarði í Mýrasýslu, þar til hún fór sem próventu kona, til G. sál. Sveinbjörnssonar á Hvítárvöllum, og var hjá honum þar til hann dó, og fór svo til A. Fjeldsteðs, er þangað fluttist eptir hann. Blind var hún 17 ár, en bar þann kross með stillingu, og hefur því hlotið hið helga fyrirheit þolinmæðinnar. J. B.

## Proclama.

Samkvæmt konunglegu leyfisbrjefi frá í dag, sem birt mun verða bæði á Reykjavíkur bæjarþingi og í hinum konunglega íslenzka landsyfirrjetti, kveð jeg hjermeð alla þá, sem skuldir þykjast eiga að heimta í dánarbúi föður míns kaupmanns Dethlef Thomsens hjer úr bænum, til þess innan árs og dags, *sub poena præclusi et perpetui silentii,* að lýsa skuldakröfum sínum og sanna þær fyrir mjer, sem einasta erfingja.

Reykjavík 10. nóvbr. 1858.

H. Th. A. Thomsen.

Ný upptekið fjármark í Hálshrepp í þingeyjarsýslu
Sneiðrifað fr. hægra og gagnbitað undir, geirstífl vinstra,
brennimark: HELGI.

Helgi Guðlaugsson á Steinkirkju

Eigandi og ábyrgðarmaður Sveinn Skúlason.

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.